komið og aðkomandi nokkrir skýrir og sannorðir menn sáu, og eitt sinn síðar sáust þau; en þá vötnin köstuðu sjer þaðan í burtu, hefur ei við þau orðið vart. Fljótshverfið, þá góðu sveit, sem þá var í eyði, var sorglegt að sjá. Refar höfðu þá aðsetur þar í eyðibæjum, því bæli þeirra, vistir og frágang sá bæði jeg og aðrir í Kálfafells skála og bæjardyrum. Ein tóan lagði hvelpum sínum í Núpstaða heyhlöðu og var þar drepin með yrlingum sínum af ferðamönnum hjeðan úr Meðallandi. 25. júli kom Hverfisfljót hið fyrsta fram með sömu stærð og fyr, austanvert við hraunið, og fjell framan í austari krikann ofanvert við það, sem eptir varð af Seljalandsaurum, og fellur þar í Brunná.

Þetta sumar var nærfellt sama ástand og fátækt meðal þeirra fáu bænda, sem hjer voru; áttu þá að vera uppgengnir allir þeir peníngar, sem hingað voru gefnir. Tilskikkar þá stíptamtmaður að drífa hingað alla aumingja þá, sem tórandi voru hjer í þrem sýslum fyrir vestan, sem engan áttu þar að, hvað og svo vægðarlaust var framkvæmt. Þessi flokkur varð hjer um bil 40 manns. Hjer voru þá engin önnur úrræði, en setja þá niður til dráps, því þeir fyrir voru gátu ei vegna matareklu tekið á móti þeim. 16. október, sem var sunnudagur, beiddum vjer guð opinberlega að veita oss nú og þessum vesalingum einhverja líkn. Tókum svo það ráð saman, að fara austur á Hverfisfjörur, ef ske kynni að guð leggði oss til sel eður annað til lífs; komum svo þangað fjórir þann 21. Var þar þá fyrir einn maður, bóndi frá Skaptafelli, er Eiríkur hjet, er á Núpstaðarfjöru (þó í aðgætsluleysi af fjörumörkum), hafði slegið með tveim drengjum á þeim degi 70 brimla eður stórseli og 120 kópa, sem var eitt það mesta drottins náðarverk, að hann ljet þessar skepnur gefast svo einum manni í hendur, og honum krapta til svoddan þrekvirkis. sem varla mun finnast dæmi til. Þurftum við ei annað fyrir að hafa, en að taka hjer upp á hestana þurran hlut á landi, sem varð nærfellt upp á 150 hesta fyrir utan sláttuhlutan, sem þó var ríflegur. Embættaði jeg þá á Kálfafelli í bezta blíðskaparveðri, er oss þennan tíma veittist, og þökkuðum allir glaðværir guði sína náð, er oss svo ríkulega forsorgun veitti á þeirri eyðimörk, sem ánægjanlega burttók alla hungursneyð og dauða, er annars við borð lá. Og þar eptir hefur hann sýnt oss hvert miskunarverkið eptir annað að lífga og

viðrjetta oss. Honum sje eilíft lof og æra fyrir blítt og strítt. Hjer hefði mikill hluti bænda og jarða í betra og fljótara stand verið komið en nú er, ef peningar þeir, sem þeim voru gefnir til gripa innkaupa, hefðu ei verið teknir aptur í landskuldir og aðrar skuldir. Var þó vikið frá skipan stiptamtmanns Levetzow, sem heimtaði landskuldir fullkomnar, sem hans skrif sýnir 19. ágúst 1786.

§ 29. Hversu margt gott og gagnlegt guðs forsjón ljet opinberast í þessari landplágu og að henni endaðri, er og verður langa tíð hjer eptir ófráskýranlegt. Á fátt eitt er í þessu skrifi vikið og tilbent, á nokkuð vil jeg hjer minnast og ítreka, sem framkomið hefur í þessu þinglagi um hvert jeg hef ásett sjerdeilislega að skrifa. Tek því fyrir fyrst að sýna það í þeim andlegu og geistlegu efnum. Svo pestagtugt og skaðvænt sem veðurloptið varð hjer allt í einu, svo ljet hann þó ei hastarlegan dauða eður drepsótt falla yfir nokkurn, sem vel var von á, eptir vel forþjentum og náttúrlegum hætti. Því hefði svo skeð, ætla jeg margir hefðu illa farið; því að heyra þá upp á orðbragð sumra manna, og sjá upp á þeirra ráðlag, sjerdeilis þeirra ríku, var hræðilegt, og þá þeir komu engu sínu áfram, varð allt að óráði, og allt gekk úr hendi þeirra. Þá tamdi þessi typtan þá svo, að þeir urðu því ánægðari, auðmjúkari og þolinmóðari, sem þeir urðu snauðari og vanmáttugri; eins og guð gaf í líkamlegum efnum, svo gaf hann og svo hverjum einum í þeim andlegu nógan iðrunar- og umvendunartíma, öllum þeim, er hann hafði ásett og fyrirhugað, að af þeirri pest burtkallast skyldu. Þeir voru, er úr þessu plázi dóu, 215 (sem eptirfylgjandi tafla sýnir), en þó svo á sig komnir, að ei var stór mannsöknuður að þeim, nema hjer um 12 til 20, sem rjettskynjandi menn hafa síðan grundað og samantalið, frátakast og ungbörn, er enginn kunni að segja að hverjum manni þau kynnu að verða. Guðleg dýrkan og opinber þjónustugjörð komst í langtum siðsamlegra og guðrækilegra stand, sem enn þá viðhelzt. Í þeim verzlegu hlutum aftókust þær blygðunarlausu svo kallaðar »smalareiðir« og drykkjusvall, þá hver og einn át og drakk, sem hann hafði lyst og efni til. Fráskiljast nokkrir skikkanlegir menn. Var hjer tiltekinn sunnudagurinn í 15. viku sumars, hver helst hann var í tölunni, og kölluðu hann smaladag. Var það mikið að kenna prestum þeim, sem gefnir voru

fyrir þeirra ádrykkjum, að sá óvandi viðhjelzt. Betur hann kæmist hjer aldrei framar á með sama hætti og var. Þá afkomst aptur sá nýákomni báts- eða flutningstollur yfir Skaptá, er hjer hafði aldrei fyr verið, ásamt það argafas, er þrálega varð á helgum dögum millum kirkjufólks út af flutningi yfir hana; en fyrir áarinnar forstíflan er bezta og hagkvæmasta færi komið að fara yfir hana á hestum, svo vel fyrir kirkjusöfnuðinn sem hverja aðra, er yfir hana fara. Allur sá órói og sundurlyndi, sem hjer gekk út af Seljalandsaurunum og ótal fleiru, aftókst og upphafðist æfinlega hjeðan í frá.

Þessi eld- og landplága ónýtti þá nýju jarðabók, sem hjer yfir átti að ganga og víðar útbreiðast, upp á hverja erviðað var í 14 ár, og eptir því, sem hjer varð opinbert af hennar fyrsta forslagi 1769 um forhækkun jarðalandskulda hjer á klausturgózinu, sem voru upptrektar til hæstu forngildu og nokkurstaðar yfir hana, sem leit út til þess að verða að æ varandi landplágu og útörmun á landsetunum, ef viðgengt hefði orðið. Fyrst reið hjer um landfógetinn herra Skúli Magnússon til þess erindis, og þá hans gjörð fannst óþolanleg almúganum, flúði hann sem einn maður með þau vandræði til þáverandi amtmanns hjer yfir herra Ólafs Stephánssonar, sem fjekk hans konglegrar Mayts náðarbrjef þar upp á, að lögmaður herra Björn Markússon skyldi hingað upp á almúgans kostnað reisa, að yfirskoða jarðirnar aptur og upp á þær setja landskuld þá, er hann eptir þeirra ásigkomulagi fyndi billega. Með honum kom og fóveti Skúli Magnússon aptur; en þá þeir gátu ei orðið samþykkir þar um, voru 2 aðgjörðarmenn hingað aptur sendir, nefnilega herra vicelögmaður Magnús Ólafsson og sýslumaður Sr. Jón Jónsson að yfirskoða hjer enn á ný, hvað þeir fyndi billegast; því hjer fundust þá ei vitrari menn nálægt í landinu til þess verks. Nú þó menn þenktu og vonuðu, að þeir hefðu gengið sem næst lögum og góðri reglu, þá barst þó til vor, að framandi herrar hefðu ei verið vel ánægðir með öll verk þeirra, og að þeir hefðu þar eptir mátt gjöra nýjar útleggingar og forsvar yfir gjörðir sínar, kom svo þar ofan á skikkun til sýslumanns, sem hjelt Þykkvabæjarklaustur, og klausturhaldara þess, sem hjelt Kirkjubæjarklaustur, að hvór skyldi það og það af landi, fjörum, eignum og ítökum annars dæma, þó meðfylgt hefði í ósundurslitinni hefð yfir 100 ár, eða hvað lengi. En einmitt í því,

að það verk átti að byrjast, gaus eldurinn yfir og hindraði það óróaefni. Enn framar rjett á þeim sama degi og forngilda fororðningin var staðfest og undirskrifuð þar í Kaupenhavn, að það skyldi hjer þaðan í frá gilda, byrjaðist hjer í landi jarðskjálftar þeir og eldgangur, sem henni og jarðabókinni (hvernig sem hún var um steypt og tilbúin) umbiltu til eilífrar tíðar, bæði á þeim 14 jörðum sem aftókust, og enn fleirum.

Hvílík umbreyting hjer varð í náttúrlegum hlutum til enn betra góðs, sjest enn minnst af, þó sjest guðs rjettvísi í því, að hann eyðilagði að mestu leyti það grasgefna og kjarnbezta land, afrjettinn, sem hjer fylgdi, sem það árlega uppstígandi dramblæti mannanna foragtaði, sem einkisverðan hlut, eða þarflausan fyrir sinn kvikfjenað, eins og áður fyrri hafði gjört verið. Sömuleiðis þar sem heyrðist innbyrðis hatur væri og þess háttar eldkveikja á millum nábúa og nágranna, þar varð skaðræði af eldinum, eitt það mesta til að drífa menn þaðan og hvern frá öðrum þó með allra stærstu vægð og líkn. Hjer gjörði og náttúrunnar herra öllum kunnugt, sem það nota vilja, að hjer er að fá mótak til eldiviðar, sem alla stórlega þrengir til að fá, er sjer kunna að nota hann, nefnilega þá eldurinn þrengdi sjer fram eptir Skaptárfarveg hjer fyrir ofan klaustrið, rótaði hann svo upp bakkanum sunnan megin í Hólmslandi, að þar kom í ljós ein sú bezta eldiviðarmótekja, sem enginn vissi þar nje hjer af áður. Allar mýs, sem hjer voru í þessu þinglagi, og eins því vestra, er optlega gjörðu stóran skaða í voru melkorni og öðru fleiru, drápust allar, að hjer verður ei síðan vart við þær. Hjer í austari sýslupartinum hefur um langa æfi ei mús sjezt nje fundizt, og hafa þær til að geta þar eins drepizt, þó menn hafi þar ei sögur um.

---

**Tafla yfir fólk það sem hér var í Kleifaþinglagi,**

þá eldurinn hér fram kom 8. júni 1783 og svo hvað margir af því dóu hér og annarstaðar af hans verkunum ásamt hungursneyð og dýrtíð árin 1784 og 1785, samantekið í eitt sem eptir fylgir.

---

(Hér þykir ekki eiga við að prenta skýrsluna í heilu lagi, þar er hvert mannsbarn talið með nafni, eg hefi því dregið hana saman í töluskrá þá sem hér fylgir. Hún sýnir nægilega, hve ógurlegar hörmungar þá hafa gengið yfir sveitir þessar. Á þrem árum 1783—1785 deyja 37% af öllu fólki í þessum sóknum[1]), meira en þriðji hver maður, og er það efasamt hvort mannfellirinn hefir verið mikið meiri í Svartadauða. Sumir bæir aleyðast nærri, sumstaðar lifir eitt eða tvö ungbörn, á stöku bæ hefir fólkið þó komist betur af. Niðursetningar og umrenningar stráfalla, af 19 niðursetningum og umferðafólki í Kirkjubæjarklausturssókn lifa aðeins tvær kerlingar. Nafnaskráin yfir fólkið í sóknum þessum hefir ef til vill dálitla þýðingu fyrir ættfræðinga, en varla fyrir aðra. Af sjaldgæfum nöfnum, sem þar koma fyrir, eru þessi helzt. Af karlmannsnöfnum Arnoddur, Auðólfur, Andrés Nereiðarson, Gunnsteinn, Hávarður, Hreiðarr, Ísleikur, Michael, Natanael, Ófeigur, Órækja, Salomon, Snjólfur, Skæringur, Valdi, Örnólfur. Af kvennmannsnöfnum: Aldís, Cecilía, Dómhildur, Emerentiana, Fides, Geirlaug, Guðleif, Gunnvör, Hallný, Hugborg, Kolfinna, Rachel, Snjófríður, Steinvör, Úlfhildur, Æsa. Sum af þessum nöfnum koma opt fyrir).

---

[1] Þegar hin skæða kólerusótt gekk í Kaupmannahöfu 1853 dóu aðeins $3^1/_2$ % af íbúunum.

---

| | Tala heima-fólks. | karlar. | dánir. | konur. | dánar. | Dánir samtals. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| *Kálfafellssókn í Fljótshverfi.* | | | | | | |
| Núpstaður | 9 | 4 | 1 | 5 | 3 | 4 |
| Rauðaberg | 11 | 7 | » | 4 | 1 | 1 |
| Kálfafell | 6 | 4 | 2 | 2 | » | 2 |
| Blómsturvellir | 5 | 3 | 2 | 2 | » | 2 |
| Kálfafellskot | 4 | 3 | » | 1 | 1 | 1 |
| Maríubakki | 12 | 6 | 4 | 6 | 3 | 7 |
| Hvoll | 6 | 3 | 2 | 3 | 1 | 3 |
| Núpar (tvíbýli) | 12 | 7 | 2 | 5 | 2 | 4 |
| Seljaland | 6 | 2 | » | 4 | 1 | 1 |
| Eystri Dalur (tvíbýli) | 17 | 9 | 4 | 8 | 3 | 7 |
| Ytri Dalur | 9 | 5 | 2 | 4 | 2 | 4 |
| *Kirkjubæjarklausturssókn.* Á Síðunni. | | | | | | |
| Þverá | 11 | 3 | 1 | 8 | 3 | 4 |
| Foss (þríbýli) | 26 | 10 | 3 | 16 | 1 | 4 |
| Austur Hörgslandskot (tvíbýli) | 11 | 6 | 1 | 5 | 2 | 3 |
| Hörgslands Hospítal | 18 | 7 | 2 | 11 | 5 | 7 |
| Mosakot | 9 | 4 | 2 | 5 | 1 | 3 |
| Múlakot | 7 | 3 | 3 | 4 | 2 | 5 |
| Hörgsdalur (fjórbýli) | 32 | 10 | 4 | 22 | 9 | 13 |
| Keldunúpur (þríbýli) | 17 | 6 | 1 | 11 | 4 | 5 |
| Breiðabólsstaður | 8 | 3 | » | 5 | 2 | 2 |
| Bakkakot | 5 | 2 | 2 | 3 | 2 | 4 |
| Prestsbakki | 14 | 6 | 3 | 8 | 3 | 6 |
| Morðtunga (þríbýli) | 18 | 8 | 1 | 10 | 1 | 2 |
| Geirlandssel (tvíbýli) | 10 | 4 | 3 | 6 | 2 | 5 |
| Breiðabólsstaðarsel | 5 | 3 | » | 2 | » | » |
| Geirland | 13 | 4 | 2 | 9 | 1 | 3 |
| Mörk (tvíbýli) | 14 | 5 | 4 | 9 | 1 | 5 |
| Kirkjubæjarklaustur | 16 | 7 | 4 | 9 | 5 | 9 |
| Hunkubakkar | 8 | 1 | » | 7 | 1 | 1 |
| Heiði (tvíbýli) | 12 | 5 | 1 | 7 | 3 | 4 |
| | 351 | 150 | 56 | 201 | 65 | 121 |

| | Tala heimafólks. | karlar. | dánir. | konur. | dánar. | Dánir samtals. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | 351 | 150 | 56 | 201 | 65 | 121 |
| Klausturssel (tvíbýli) | 9 | 6 | 6 | 3 | 2 | 8 |
| *Landbrotið.* | | | | | | |
| Dalbær | 5 | 2 | » | 3 | » | » |
| Hólmur (tvíbýli) | 9 | 4 | 2 | 5 | 1 | 3 |
| Nýibær | 7 | 1 | » | 6 | 4 | 4 |
| Hæðargarður | 6 | 4 | 2 | 2 | 1 | 3 |
| Ytri Tunga | 7 | 2 | 1 | 5 | 1 | 2 |
| Austari Tunga | 4 | 2 | 1 | 2 | 1 | 2 |
| Ásgarður | 5 | 4 | 2 | 1 | » | 2 |
| Kárstaðir | 8 | 6 | 3 | 2 | » | 3 |
| Refsstaðir | 3 | 1 | 1 | 2 | 1 | 2 |
| Hátún (þríbýli) | 13 | 4 | 4 | 9 | 6 | 10 |
| Efri Vík (tvíbýli) | 12 | 6 | 1 | 6 | 2 | 3 |
| Syðri Vík | 4 | 1 | » | 3 | » | » |
| Dalbær | 4 | 1 | » | 3 | 1 | 1 |
| Uppsalir | 10 | 5 | 2 | 5 | 4 | 6 |
| Fagurhlíð | 8 | 3 | 3 | 5 | 3 | 6 |
| Kot | 4 | 1 | 1 | 3 | 1 | 2 |
| Þykkvibær (fjórbýli) | 20 | 8 | 1 | 12 | 2 | 3 |
| Seglbúðir | 6 | 2 | » | 4 | 1 | 1 |
| Arnardrangur | 9 | 5 | 1 | 4 | 2 | 3 |
| Austara Hraun | 9 | 3 | 1 | 6 | 1 | 2 |
| Ytra Hraun | 5 | 1 | » | 4 | 1 | 1 |
| Niðursetningar, uppgjafa- og umferðafólk í Kirkjubæjarklausturs sókn | 19 | 7 | 7 | 12 | 10 | 17 |
| *Skálarsókn á Síðu.* | | | | | | |
| Holt (þríbýli) | 24 | 11 | 2 | 13 | 4 | 6 |
| Skál (tvíbýli) | 20 | 9 | 2 | 11 | 5 | 7 |
| Á | 11 | 4 | 2 | 7 | 1 | 3 |
| Skaptárdalur | 9 | 4 | 3 | 5 | 1 | 4 |
| | 601 | 257 | 104 | 344 | 121 | 225 |

**Lítill viðbætir til fróðleiks þeim, sem hann með rjettri skynsemi skoða vilja.**

Hver sá, sem undir hendi hefur rjettargángsskrif og skikkanir, annálabækur og þess háttar landsins rit og frásagnir, ber það svo saman við eldsuppkomur og landplágur, sem komið hafa hjer yfir Vestri-Skaptafellssýslu, kann auðveldlega að sjá, að sá alvísi, góði guð, hefur ætíð sýnt í þeirri typtan stærstu mildi að vægja í því straffi og halda við rjettvísinni, því allir hans vegir eru ei utan miskun og sannleiki, og svo kann víðar að vera, ef vel er leitað eður aðgætt. Á þessari öld gefast þau dæmi, að menn hafa sumir af fávizku, en sumir af ásettu ráði svo forblómað sín skrif um ýmsa landkosti hjeðan, að ókunnugum hefur mátt sýnast, að hjer væru ein þau mestu landgæði í landinu, og aldrei væri ofgoldið eptir þau, og það sýnist að miklu leyti vera grundvöllur til þeirra háu landskuldargjalda, sem hjer hafa verið uppásett, hverju sjerplægnir húsbændur hafa ei forsómað eptir að fylgja og útkreista fyrst leiguliðanum til útörmunar og sjálfum eigandanum aptur til kostnaðar að halda honum við í hans vesöld, þá jarðeldar hafa hjer yfirfallið, eins og nú eru ofljós dæmi til. Þá ei hefur orðið neitað, að hjer hafi sandur og aska úr eldgjám yfirfallið, hefir það verið útfært fyrir gjöðning og teðslu á jörðina, henni til góða, hvað aldrei hefur þó verið, nema kannske 2 eða 3 ár, eða lítið þar yfir, að upp úr ösku þeirri hafi hlaupið mikið puntgresi, fíflanjólar, elting og krossgresi, hafi ei askan legið ofþykkt á grasrótinni, að hún hafi ei feigt hana. Nú þá askan hefur að þeim 3 ára tíma liðnum komizt ofan í grasrótina og úr henni hefur frosið og rignt jökulsaftin, hefur jörðin orðið langtum harðhnjóskulegri en áður og sumstaðar aldrei tekið sig aptur nema með beztu rækt og uppápössun. Hjer finnst sumstaðar 5, sumstaðar 11 vikur-sandlög í jörðunni, og þar sem ei er meir en þriggja þumlunga þykkt í milli vikurlaganna, hvar grasræturnar gegnum þrengjast, hvernig kann þá það kjarnbezta gras þar upp af að spretta eða töðugott vera? og þá aldrei má leggja neitt niður slátthljáinn að fylgja rótinni, þá tún og vallendi eru slegin. Einn segir hjer verði ei sagt, hvað margar jarðir hafi komizt hjer í eyði, sem einn annar ókunnugur út lagði svo, að jafnvel þó askan og vor jöklavikur eyðilegði eina jörð um

nokkur ár, kæmi hún þó upp aptur síðar, hvar af orsakaðist ein slags órjettvísi við Höfðabrekkueignarmann og ótal fleiri, hvar helmingur allra landgæða er burtu, en gjaldið langt stígið yfir það, sem það var árið 1343 eptir máldaga biskups Jóns Sigurðssonar, þá jarðirnar voru í því blómlegasta standi. Því tek jeg mjer nú fyrir hendur með frjálsu að sýna sannleikann ɔ: hverjar jarðir hjer hafi í hverju þinglagi og kirkjusókn aldeilis (í Vestri Skaptafellssýslu) eyðilagzt, sumar að öllu leyti, en sumar að nokkru leyti, og komast aldrei aptur í sitt fyrra stand.

Í Dyrhólaþinglagi ɔ: Mýrdalnum:

Í Sólheimakirkjusókn.

1. Bæjarstaður, sem hefur verið mikið stór bær í Sólheimanesi, svo sem húsa- og tóptagirðingar þar sýna, þar fóru allar slægjur af í einu jökulhlaupi 1263.
2. Krókvöllur, 10 hdr. jörð til forna, sem var rjett fram af Austari Sólheimum. Í austur landnorður tók áin Klifandi aldeilis 1720; þar sást enn 1777 eptir lítill flötur af túninu.
3. Hefur verið fyrir norðan Pjetursey bær, þar af er eptir einn klappaður hellir, er tekur hjer um 300 fjár, sem sýnir þar hefir væn byggð verið.

Í Dyrhólasókn:

4. Einn bær af Hvoli, hvers tún og bær er aldeilis af fyrir yfirfallandi fjöru-foksand, húsin voru flutt lengra frá; ei mun langt til, þar til fleiri býli fá þar sömu forlög.
5. Þeir gömlu Dyrhólmar með öllum sínum túnum, engjum og slægjum, sem allir voru fyrir ofan Hildardrang; það nú kallast Dyrhólar var hjáleiga þar við fyrir austan, en nú er þar allt einn sandur og tjörn, hvar bærinn stóð.
6. Hvoll, stór jörð, er þar fyrir austan Loptsali, eyðilögð að öllu leyti af ósnum og vindblæstri, sem hin fyrri, þetta sýna Dyrhólamáldagar.

Í Reynissókn:

7. Sauðagarður, sem Dyrhólaós hreint aftók með öllum slægjum, sjest eptir lítið af heygarðinum.

Í Höfðabrekkusókn:

8. Höfðabrekka með húsum, túnum og engjum í jökulhlaup-

inu 1660; byggður síðar einn nýr bær með sama nafni uppi á brúninni.

9. Hjörleifshöfði, sem stóð vestan og neðan undir höfðanum, þar af tókust öll hús, tún, engjar og hagar, sem neðan undir höfðanum voru í kringum hann, item 6 kýr í fjósinu, þetta skeði í hlaupinu 1721. Síðar var lítill kotbær byggður uppi í höfðanum, sem ber sama nafn.

Í Leiðvallarþinglagi:

Í Þykkvabæjarklausturssókn:

Í Álptaveri og kringum það á svo kölluðum Mýrdalssandi var víst byggð, sem Landnáma sýnir. Seinni skrif og frásagnir nefna þar þessa bæi, sem aftókust 894 fyrir ofan Álptaverið nefnilega:

10. Dynskógar, fjörunafnið er eptir. 11. Hranastaðir. 12. Keldur eða Loðinsvíkur. 13. Laufskálir. 14. og Hofstaðir, úr hverjum bæ sagt er Herjólfsstaðir sjeu byggðir. Bygginga eptirleifar hafa einasta sjezt af þessum bæjum, og í einum stað stór eirketill fundizt af Þorsteini Magnússyni klausturhaldara. En fyrir vestan Álptaverið af tókust þessir bæir 1311 eða þar um bil: 15. Lambey, mikið stór bær. 16. Lágey. 17. Holt. 18. Rauðalækur, aðrir segja Dyralækir. Hér um gefur upplýsing einn Höfðabrekkukirkju máldagi og ein fjara, sem liggur undir Kerlingardal. 19. Hraungerði með öllum heimaslægjum og högum í hlaupinu 1625; bærinn var síðar fluttur heim undir klaustrið, hvar hann nú stendur.

20. Efri-Mýrar hafa aftekið fyrir öskufall og mannfæð einhverja eptir 1580, þá var sú jörð byggð, en byggist ei framar.

Í Búlandskirkjusókn eða norðast í Skaptártúngu:

21. 1112 eða þar um bil eyðilagðist heil byggð með 12 bæjum af of miklu öskufalli, svo aldrei kunnu aptur að byggjast, þá er hálfbevísanlegt, að hjer hafi eldur framkomið og hraunspýju eptir sig látið. Þar þessi byggð var, sjást enn til merkis húsatóptir og girðingar, sjerdeilis á kirkjustaðnum, sem þar skyldi verið hafa, og nafnið helzt við plássins, að það kallast Tólfahringur.

33. Þorleifsstaðir, ein hjáleiga frá Búlandi, af öskufalli 1755.

34. Litlanes, Búlandshjáleiga, af jarðeldinum 1783.

35. Hvammur, kóngsjörð, af sama jarðeldi 1783.

36. Salgerðr eða Sölkutóptir í Hvammslandi, gömul hjáleiga þaðan.
37. Í Ásasókn: Nes með öllu sínu tilheyrandi, nema lítið af högum, 1783.

Í Meðallandskirkjusókn:

38. Skarð, kirkjustaður, uppblásið með kirkju, húsum og öllum heimaslægjum, sem hefur verið aðkvæðajörð af heyskap. Fyrir fáum árum bljes þar upp annar fjósveggurinn, fundust þá í honum 18 kýrhælar.
39. Hólmakot, sem þar hefur og svo uppblásið.
40. Kvíholt hefur og uppblásið, sem þó var byggt 1697.
41. Langholt, fyrir fáum árum hús og tún yfirþöktust og uppbljesu með sandi. Bærinn fluttur á einn rima, hvar hann nú stendur.
42 (og 43) tveir bæir, sem kölluðust Klaufir, ef ei tveir til; því sumir segja þær hafi 5 verið, en með sönnu má ástanda, að þær hafi 3 verið, því þar sjást merki til. Ein eða einn bær af þeim er enn byggð. Þessir bæir eru foreyddir af sandfoki.
44. Slíjar með öllu sínu tilheyrandi. Bærinn var fluttur einasta í Strandarholtsland og hjelt nafninu alleinasta og fjörunni.
45. Strandarholt er nú og einnig hreint af fyrir sandfoki, sem hinn fyrri.
46. Selkrókur og einnig með uppblásinn.
47. Oddar, mikil bóndaeign, til forna rúm 40 hdr., var seinast virt á 5 hdr., er nú öll foreydd fyrst af vatni, sem þingbókin 1643 sýnir, og síðan meir og meir af sandfoki og byggist ei framar.
48. Botnar. 49. Hólmar. 50. Hólmasel. 51. Syðri Fljótar.
52. Efri Fljótar, allar mikið vænar jarðir, tókust nú af í þessum eldi 1783.
(NB. Ós, sem talinn er síðar 73.)

Í Kleifa- nú Kirkjubæjar-þinglagi,

Í Skálarkirkjusókn:

53. Sjálfur kirkjustaðurinn Skál, er til forna var 90 hdr. hafði smá saman af sjer gengið af sandblæstri og sands yfirfalli, en tók nú loksins af (1783).
54. Á tók nú aldeilis af (1783).
55. Holt með öllum húsum, túnum, engjum og högum. Um

Hæl vil jeg ekkert segja, því eigi hefi sjeð þar neitt skrif um.

56. og 57. Leiðólfsfell og Helgastaðir. Þessara bæja tóptir sjást hjer uppi í byggðarfjöllum. Landnáma getur og um þá, og segir í því plázi hafi verið ákomin byggð mikil; því kallast áin, sem þaðan rennur, Fjarðará. En af öskuföllum, sem komið hafa yfir það pláz og uppblæstri, byggist það hjerað eða fjörður aldrei framar.

Í Kirkjubæjarsókn:

58. Gamla Hraun í Landbroti aldeilis eyðilagt af vatns yfirgangi úr Skaptá og uppblæstri af vindi og sandi ásamt annara jarða engi og mótök um það eyðipláz, sem öðrum jörðum fylgði.

59. Laxárnes, af vatni og uppblæstri.

60. Ytri Kirkjubær, af Skaptár landbrotum.

61. Þverárdalur, af snjóflóðum og nú fyrir fullt og allt af eldhrauni. Í því víðlenda plázi fram að Hörgslandi, sem nú kallast Skjaldbreið, var byggð til forna, sem öll hefur eyðst af vatns- og sandyfirgangi eður hlaupum, en þar ágreinir, í hverjum helzt hlaupum það hefur vorðið, vil jeg ekkert víst segja um það. Er sagt þar hafi 8 bæir verið, hafi ei annað land verið hjá þeim, en slægjur einar, en hagbeitin hafi verið fyrir vestan Bjarnagarð, er liggur eptir allri Landbrotsbyggð, frá Ásgarðshálsi suður fyrir Þykkvabæ. Til sannindamerkis sjest nú hlaðin tröð á báðar síður eður ein bein gata, milli Landbrots byggðarinnar vestur fyrir greindan Bjarnagarð, og austur í Saurbæjarháls við Skaptá, um hverja Skjaldbreiðarbændur skyldu reka allan kvikfjenað sinn, að hann gjörði ei skaða þeim, er þar á báðar síður bjuggu; við þennan háls hefur bær verið, sem enn þá sjest merki til, sem Skaptá hefur aftekið,

62. er kallast hefur Saurbær, og sagt er hafi verið Kirkjustaður Skjaldbreiðarmanna.

Bæjanöfn þar hef jeg ei sjeð nema þessi:

63. Vatnsendi, eptir sögunni af Gunnari Keldugnúpsfífli:

64. Dálkur, eptir Wilkins máldaga, því þá jörð er hjer hvergi annarstaðar að finna. Þar er og getið um Erfstaði, Aurland og Aurdal, sem getur verið Refstaðir, Hörgsland og Hörgsdalur, af stafvillu, og því útfæri jeg þær ekki.

65. Efri Dalbær í Landbroti, af eldhrauni nú 1783.
66. Uppsalir í Landbroti, af sandi og uppblæstri 1784.

Í Kálfafellssókn:

67 og 68. Ytri Dalur og Austari Dalur, í þessari eldseyðilleggingu 1783.
69. Lundur, í fyrri jökulhlaupum, sem var kirkjustaður.
70. Djúpárbakki. Eptir báðar þessar jarðir sjást merki.
71. Skógar Hraun, bær þar fyrir austan, ef þessar tvær jarðir berast saman við máldagann, þá falla niður deilur um fjörurnar.
72. Foss, byggt býli þar uppi í heiðinni hjá fossi einum, er nú ekki sjást merki til.
73. Ós í Meðallandi, sem allareiðu er komin í eyði af sandfoki og blæstri.

Nú eru sýndar þær jarðir, sem aldeilis eru foreyddar og aldrei byggjast, og þó segjast kunni, að nokkrar af þeim hafi verið færðar, þá hefur það ætíð orðið öðrum að þrengslum. Eru þó enn fleiri ótaldar, sem færðar hafa verið, svo sem Hraun í Meðallandi, Nýibær í Landbroti, Hunkubakkar á Síðu, er jeg læt ei vera í hinna tölu, þar aðrar jarðir hafa ei liðið við þeirra húsafærslu nokkurn skaða, heldur þeim sjálfum til hagnaðar. Hversu enn fleiri jarðir hafi af sjer gengið stórkostlega og komist aldrei í sitt fyrra stand, vil jeg fáeinar til skoðunar framsetja: Kálfafell á Síðu hafði svo miklar slægjur, að þar fóðruðust 18 kýr, 6 geldneyti, hestar og lömb þar að auki, svo sem að stærð á fjósi og nautahúsi þar enn sýna. En nú kunna þar ómögulega að forsorgast í heyi nema 6 kýr og lítið meira. Þá Eiríkur Gíslason bjó á Flögu 1740 og þar eptir, voru þar 19 kýr í fjósi, því þá gaf jörð sú af sjer 12 faðma af töðu og 12 faðma af bezta stargresi. En nú forsorgast þar ei meira á heyi en 4 kúa þúngi. Áður fyrr voru 4 bændur á Svínadal, svo sú eina jörð galt eptir allar Flögujarðir 28 rd; en nú er þar lítilfjörlegt einbýli. Fyrir árið 1634 þá Klifandi hljóp úr jöklinum, hafði Fell í Mýrdal slægjur í suður og útsuður frá bænum uppá 200 hesta eða 12 faðma, sem þá tók af allt til eilífrar tíðar. Þar áður var 50 sauðabeit, var síðan 1762 metið af sýslumanni 12 sauða-beit og svo í fleiru. Og þó var sú jörð einn tíma metin til gjalds, sem að óspjölluð væri; svo brúkuðust þá lög og rjettvísi, áður en þessi síðasta landplága á datt. Hjer finnast margar

jarðir, sem ei halda nú eptir helming af því, sem fylgt hefur þeim til forna. Yfir höfuð að segja veit jeg enga jörð, sem ei hafi af vatni, eldi og vötnum tapað af sínum landsnytjum, er hafði áður fylgt, nema ef frá takast fáein lítilfjörleg býli.

Af framandi hef jeg heyrt sagt, að ei fyndust, hversu dýrar hjer væri jarðir, sjerdeilis kóngseignin, en um kirkju- og bóndaeign varð ekki mótmælt, því kirkjumáldaga bækurnar sýndu hana svo útþrykkilega, mátti það vera meira af yfirhylmingu en fávizku til að trekkja jarðargjöld upp, fram yfir venju annarstaðar í landinu eptir jarðanna dýrleika, nema hvar elti eptir af papiskri kúgun í einstökum stöðum. En hjer er þó til ein jarðabók, samantekin af tveimur sýslumönnum 1697, sem sýna hverrar einnar jarðar dýrleika, samanborinn við máldagabókina af 1343, og hversu klaústurhaldarar hafa sjálfir vitað lögleysuna á klaustrunum, sýna þeirra undirrjettiingar, sem þeir hafa eina tíð eptir aðra gefið frá sjer til háyfirvalda landsins ásamt þeirra byggingarbrjef, þegar þeir hafa ei sjálfir á klaustrunum búið, þá hefur jafnan landskuldin verið eptir hundraðatali, helmingi eða jafnvel tveim pörtum minni, en annarstaðar. Hvað vorir forfeður hafa haft fyrir sjer að setja dýrleika og gjald á jarðir, hef jeg ekki sjeð, nema hvað ráða má af jarðakúgildaskrifum þeim, sem undir hendi hef, og eignuð eru tveimur grundlærðum mönnum á vorri tíð, Bjarna Halldórssyni, sýslumanni, og biskupi Dr. Finni Jónssyni. Og sá, sem er rjettvís, ígrundar þann grundvöll hjer í Skaptafellssýslu, mun auðveldlega sjá, að rjettreiknað kýrfóður af nytgæfu heyi, fiskiafli við sjó í Mýrdalnum, skógar, trjáreki og sumtakstekja, og silungsveiðar hafa hjer í 2 þinglögum milli sanda verið þeim höfuðregla til landskuldargjaldsins, svo sem Wilkins og Gísla máldagar sýna, en ei útigangsskepna fjöldi (sem menn verða að tefla með upp á líf og dauða vegna heyskortarins), eins og sjá má af öllum fóvetaskrifum þar að lútandi, hvern grundvöll, sem hann hefur fyrir sjer í þeim setningi. Kæmi sú tíð að nokkur fyndizt sá, sem fengi að taka eða tæki sjer til eptirsjónar það hjer er skrifað um fornar reglur og lands ásigkomulag, og laðaði svo þar eptir landskuldir, þá kæmist allt í samstemmu við lögleigu annarstaðar í landinu; þá mundu ekki leiguliðar vera svo bersnauðir undir eldköstin, sem hjer eru væntanleg optast á 30 ára fresti, eins og þeir voru nú og hlutu þess vegna að verða sjálfum landsins föður að einni þungri byrði.

## 2. Einföld og sönn frásaga um jarðeldshlaupið í Skaftafellssýslu árið 1783.[1])

Eptir Jón prófast Steingrímsson og Sigurð Ólafsson klausturhaldara.

Þessa árs vortími var sérdeilis spakveðrasamur með so góðri blómgan á jörð og kvikfénaði að hér hafði ei því lík árgæska um vortíma komið í næst afliðin 12 ár. Sáu menn opt um sagðan tíma bláan reyk yfir jörðunni, kom mörgum í hug einsog síðar fram kom, að hann mundi af jarð- eður jöklaeldi vera. Þegar vel leið á vorið bárust oss fregnir af millireisendum frá Suðurnesjum, að ei einasta væri jarðeldur uppi í Helguskeri fyrir framan Reykjanes, heldur hefðu skipverjar, sem komu utanlands frá til Hafnarfjarðar, séð eldsloga hér í fjöllum eður jöklum fyrir ofan oss einhversstaðar.

Þann 1ta Junii kom fyrst upphaf vorra hörmunga, að þá fundust sterkir jarðskjálftar, ekki einasta hér á Síðu, Landbroti, Meðallandi og Álptaveri heldur og vestur í Mýrdal og austur í Öræfum sem ætíð jukust, þó mesti gengi á kvöld og morgna alla þá viku. 8. Júni var heiðríkt veður um morguninn, en um dagmálabil dró upp svartan mokk af norðri, sem færðist yfir Síðuna, svo þykkvan að dymmt varð í húsum, úr honum féll aska að sporrækt varð á jörðu, var þessi aska eins og optar þar eptir að sjá sem útbrunnin steinkol og þar með í bland grá og íglyttu hár, sem auðveldlega mátti mylja milli fingra. Þessum mokk létti þó mikið vel frá aptur um daginn af hafkalda, sem hélt honum tilbaka, er hélst við fram undir kvöld. 9da var sama veður með hafkalda, sást nú algjörlega sá svarti sandmokkur hér á fjallabaki. 10da kom ofan á þessa ösku stórdropótt vatnshrið úr mokknum, sem upp stè nú hærra og hærra dag eptir dag, þetta vatn var fullt af áður umgetnum öskusandi og hárum, ljósblátt á lit með lykt og smekk, sem samanblandan væri af saltpétri og brennisteini, gjörði bitran sviða í augum, svima í höfði og særindi á holdi nær þar á féll. Enn þá viðhéldust jarðskjálftarnir. Þann 11ta gjörði mikið austanfjúk, sem hér tók af aptur

[1] Prentað eptir frumriti í handritasafni Jóns Sigurðssonar nr. 422-4°.

samdægurs, en í útheiðum og við Skaptárgljúfur varð snjórinn í hné og þar yfir með harðri frostskel, er þar lá á jörð til fimtudags; allan þann dag og nótt gengu harðir jarðskjálftar, varð nú vart við að Skaptá var farin að minnka og varð sama dag hér þurr fyrir framan klaustrið, nema þær litlu ár, sem að hér úr bygðarfjöllunum í hana renna.

12ta Junii kom eldflóðið fyrst fram úr Skaptárgljúfri, með ógnarlegum brestum, dynkjum, skruðningum og undirgangi, en so mikið var eldflóðið, einsog þá Skaptá sjálf, sem er ein með þeim stærstu stórvötnum hér á landi, var í meira lagi áður, urðu stórir skellir og glumrur þá eldurinn kastaðist ofan í vatnsrennsli eður vatnskvikur, sem fyrir urðu. Hélt hann nú fyrst fram með flugrás eptir aðalfarveg árinnar, læsti sig so útí brunahraunin, sem fyrir honum voru, tók nú af mestan part í þessu eldkasti af túnum, engjum og högum, sem Þykkvabæjarklaustursjörð Á fylgðu. En að sú eldsógn, sem nú kom fram, skyldi ei í hasti og óforvarandi falla hér yfir menn og skepnur víðast hvar tilsetti guðs vísdómsfullt ráð eitt sýnilegt meðal, er í vegi stóð og bæði stillti og minnkaði eldsins framrás í það sinn, sem var einn svelgur, eður uppgönguauga af einu veiðivatni, sem að gamalla manna sögn skyldi hafa verið í krika þeim, er var fyrir ofan jörðina Á, en framan Svínadals skóg, í hvora sand hafði borið úr aur, einasta var eptir í einum stað botnleysu pyttur, hvar ofan í rann eldsflóðið að miklum parti í nokkra daga með snúningum og köstum í lopt upp, að mér sem öðrum, er á þetta horfðum, þótti ógn á að líta, menn sáu gjörla að eldflóðið tæmdist hér við.

Þann 13. var heiðríkt veður með vindi á útsunnan, voru þá stórir dýnkir og brestir í eldgjánni, en gufu mokkur so mikill og hár, að hann sást vestan af Selvogsheiði í Gullbringusýslu og öllum nærliggjandi plássum, sólin sýndist sem blóðrauður eldhnöttur og eins vel hennar skin, sem viðhélzt nærfellt í 3 vikur eptir, síðan hefur það ei verið so mikið nema í hennar upp og niðurgöngu, þá hún hefur sézt fyrir gufu og svælu. Þennan sama dag gengu nokkrir menn til njósnar norður á byggðar fjöllin, að vita fyrir víst hvar þessi eldur uppkom, sáu þeir þá 20 eldslóga úr sokölluðum Úlfarsdal, sem er fyrir norðan Síðumanna afrétt og voru 2 af þeim ófrásegjanlega stórir og enn aðra 7 sáu þeir í skerjunum

fyrir norðan dalinn. 14. Junii dreif hér á Síðuna miklum loðnu sandi yfir allt, en undir kvöldið féll yfir stórregn úr mokknum so pestagtugt og lyktarslæmt að brjóstveikum ætlaði að líða í brjóst og gátu ei andann dregið nema til hálfs. Um nóttina eptir voru þvílíkir eldskruðningar fram eptir Skaptárgljúfri og með Árfjalli, að allt landið titraði og skalf undir með iðuglegum eldglossum og stórskruggum so fáir menn nutu hvíldar eður svefns alla þá nótt; nú uppbrenndi eldurinn öll lönd og skóga millum Skálarstapa og Nesrofa, ásamt allt Brandaland, er Kirkjubæjarklaustri tilheyrði, komst eldsflóðið austur á móts við Holltsgarða og nam þar staðar um stund. Hér á minnst loðnu sandfall og brennisteinsregn verkaði þá óheilnæmi í veðurlopti og á jörðu, að grasið varð gult og bleikt og allra skepna fætur, sem um það gengu, gular og sárar, gulir flekkir og dropar sáust og í gegnum klippinga af skepnum þeim, er dóu. Þær felldu sig ei við að bíta jörðina, ráfuðu í burtu hingað og þangað, sumt fannst dautt af fénu hrönnum bæði á þurrlendi og í vötnum, en sumt hefur enn aldrei fundist. Framar það fé, sem fullfeitt var fyrir viku, fannst þá hordautt af grassins ólyfjan, er það í sig dró, kýr og naut dóu einnig, sem ei varð bjargað á heyi, hestar horuðust, en snöggdóu þó ekki. Allt kvikfé tapaði nyt og lömbum, þau sem náðust voru skorin til matar, allar kýr töpuðu nyt og holdum, sumar urðu strax steingeldar, mjólkin úr hinum varð römm og ódrekkandi nema flóuð væri. Egg sem fundust í hreiðrum landfugla, sem og burtflúðu, voru ei vel æt af brennisteinslit og smekk, allar uppsprettu ár og lækir ásamt tjarnir fengu ljósbláan lit og allir smásilungar, sem í þeim voru hér um pláss, fundust dauðir.

Þann 15., 16., 17. Junii voru enn þá viðvarandi skruggur úr gufumokkinum, þá hélzt og sama eldrás við áfram í hrauninu í suður og útsuður frá Skál, sem enn var standandi, smaug þá eldurinn ofan í þau áður eldbrunnu og holu hraun, sem þar af belgðust svo hátt upp, að þeim það ei sáu mætti virðast ótrúanlegt, fleygðust þeir gömlu klettar og stórbjörg upp í loptið til og frá með stórbrestum einsog fallstykkjum afhleypt væri, en dynkjum og skruðningi þá niður datt. Fór eg með fleirum mönnum að skoða þessi býsn og numdi staðar við hraunbelti gamalt fyrir framan Skálar grund, sem þá var að brenna, var þá so mikill vind- og eldhvinur í hrauninu

sem mörgum belgjum væri blásið í einn afl, færði sig eldurinn þá upp á það gamla hraungrjót, læsti sig í þess holur, sem bráðnaði þá aptur einsog kopar í deiglu og logaði so uppeptir, sem þá eldur læsir sig í kurlhrúgu, rann hvort út af öðru og ofan á leirinn, sem þar var utanvert við hraunið. Sótskorpan á gamla grjótinu efst varð seinast eptir og mátti draga hana ofan af sem sora frá bræddu tini eður öðrum málm. Eiginlegt og óholugt auragrjót tók þar ei smelting, ei heldur sandur eða mold, heldur stökk í sundur eða sviðnaði. So mikill eldgangur var þá eitt sinn um þessa daga, að logann lagði að norðan hér fram í Geirlandsárgljúfur, so þeir 3 bændur, er þar bjuggu nærlendis í heiðinni, flýðu með allt sitt fram í byggð, þar þeir meintu sjálfan eldinn það vera, er þó ekki var. So sem hér í sveitum var um þessa daga einn sá sterkasti lopthiti af nálægð þess logandi stóra báls, að jörðin naut hvorki náttúrlegs lopts- eður sólarvarma um daga, né eiginlegs náttfalls, þá skrælnaði hér og afmuldist einsog afrakað væri allt vall- og harðlendisgras, strax féllu af öll uppkomu sóleyjar- og fífla-lauf, síðan öll grös, sem nokkur blöð höfðu, so smágresi, ein seinast eltingin.

Þann 18. Junii kom eitt sérdeilis ógnarlegt eldhlaup úr gjánni, sem í sínu framkasti fyllti uppá barma Skaptárgljúfur og hljóp fram á aurana, sem voru þá allir fjalla á milli til að sjá sem í logandi björtu báli og tindran stæði; stóðu þá þokumokkar hvítir upp beggja megin af ánum, er nú voru uppstíflaðar fyrir austan og vestan af eldhraununum, að austan var allt eitt vatn fyrir endilöngum Hæl og náði á neðri brýr fjallsins, þá mestallur skógur þar fór í kaf; að vestan allt undirlendi og tún á kóngsjörðinni Hvammi, sem upphleypti þar jörðu víða. Allt þetta vatn var vellandi af hita og nær þessi gufa var orðin of þung í loptinu, kom úr henni steypiregn með sterkum skruggum og glumrum, sem mörgum brekkum jarðar hleypti í sundur og niður til grunna þar báðu megin við dalinn. En næði þessi gufa kaldara og fjarlægara lopti, varð hún að snjó í sínu niðurfalli. Var þá framrás eldsins úr gljúfrinu með svo miklu megni til að mynda, sem Hvítá er við Skálholtshamar í temmilegum vexti, en með so hraðri ferð sem stórvötn þá í leysingu eru. Eldflóðið var á lit sem logandi eyr í deiglu; í þessu rennsli flutu með öðrum smærri so stór löng og ávöl björg, sem sjá væri á bak stærstu

hvalfiskum á sundi. Sum voru stór sem hús væru á floti, er byltust á ýmsa kanta, tindraði hér úr eldi, er soddan björgum sló saman eður þau rákust á hraunið í kring, hitalyktin var sem brennd eru steinkol. Guð láti oss aldrei framar þvílíkar höfuðógnanir sjá né fyrir þeim verða.

Þann 19. Junii var spakt veður, þó harðir og tíðir jarðskjálftar með þoku yfir allt þá á daginn leið, klaufst þá og færðist eldflóðið, sumt austur með fjallinu, en sumt fór í Melkvísl beint suður; það eldkast, sem austur með fjallinu fór, uppbrenndi nú fyrst allt land í kringum Skálarstapa, fleygðist so uppundir fjallið með soddan eptirþenkjanlegri grimmd, að þó eldurinn væri kominn fram hjá einu plássi, tók hann apturkast og umvelti því eptir var, varð þá þetta framæðandi eldhraun so hátt, að það numdi við Múla hjá Skál, víst 60 faðma hæð, þrengdi sér so að þeim og brekkunum, að það fór neðanundir grastorfuna og ströngladi hana so upp einsog þá klæði er saman vafið. Urðu nú ei nema 20 faðmar frá þessum eldhraunsgarði heim að kirkjunni, að þaðan sást ei neitt nema uppí heiðan himin. 20. Junii hélt sami eldgangur áfram austur eptir og uppbrenndi allt sléttlendi fyrir framan Skál, allt að Króktorfu, sömuleiðis Skálar og Holtsgarða; það eldflóðið, sem fór í Melkvísl, hélt beint áfram. Þennan dag fóru menn að vitja um hvað eldurinn mundi til gjöra norðan á afréttinum; hafði hann þá sett brunahraun austur á miðjan afrétt, so hér aftókst eitt það gjæðabezta land, voru þá velso tapaðir tveir partar afréttarins, og þar með álptaveiði og eggver, fjallagrasatakja og hvannarót, er fjöldi fólks álifði hér um sveitir. Menn meina plássið, sem þá var eyðilagt á bak við byggðarfjöllin, muni vera 15 mílur um kring, en nú síðan hefur það mikið aukist.

Þann 21. Junii rigndi hér á Síðu miklum sandi, þar ofan á kom mikið kraparegn með snjó, so vel festi á fjöllum, so allur nautpeningur varð að látast inn í hús, einsog optast í þessum ókjörum; af þessari rigningu og lækjum, sem voru beggja megin við bæinn í Skál, fylltist öll kvosin upp af vatni, so kirkjan og bærinn allur fór í kaf, þetta vatn varð sjóðandi heitt morguninn eptir. Þennan sama laugardag, þá eldurinn fór fram yfir Melkvíslarfossa, hljóp hann með flugrás yfir Steinsmýrarfljót og læsti sig í stekkatúninu fyrir ofan Hólmasel, en um nóttina eptir brann bærinn og kirkjan með öllum sínum

orna- og instrumentis. Þá brunnu og Hólmar, Þykkvabæjarklausturs jörð, með túni og högum. 22. stóð kirkjan og bærinn ei alleinasta í björtu báli, heldur hljóp eldurinn þann og eptirkomandi dag austur allan Steinsmýrarfljótsfarveg og nam staðar fyrir ofan Efri Steinsmýri, þar fljótið rann eina 80 faðma frá túnhalanum, hljóp so suður um fletina og aftók og uppbrenndi Efri Fljóta, so yfir alla þá haga og yfir Feðgakvísl og brenndi Syðri Fljóta, báðar þessar jarðir einar með þeim beztu, er Kirkjubæjarklaustur átti, hélt so eldurinn í suður útsuður frá Efri Steinsmýri með bökkum fljótsfarvegsins og fram í mýrina fyrir austan Hnausa, er nú frá hraunbeltinu að Syðri Steinsmýrar túngarði rúmir stórt hundrað faðmar, liggur so með þessum hraunsbrúnum ferðamanna vegurinn útað klausturjörðinni Hnausum, sem eru nú yfir og umflotnar með vatni og bleytum og aldeilis óbyggjanlegur; fyrir landnorðan og ofan Hnausa er stórt vik uppí þetta nýja hraun, kemur þar fram úr vatn mikið, sem er Feðgakvísl og fljótið með, að því sem ráða má af vatnsmegni því, sem þar fellur enn þá dreift fram á mýrina og uppfyllir öll engja- og hagbeitar lönd, sem þar voru fyrir framan, allt að gljábökkum, og sést ei enn fyrir það skaðræði, er orsakast mun af því vatni, so vel upp á lönd sem vegi. Frá Hnausum liggur nú það nýja hraun til vesturs og útnorðurs allt að Landárfarveg, uppbrenndi eldurinn á þeim vegi stórmikil mela og hagbeitarlönd, item Þykkvabæjarklaustursjörð Botna, er var fyrir ofan og útnorðan Hólmasel fyrir vestan Steinsmýrarfljót. Þann 23., 24., 25., 26. Junii hélst við hin sama eldrás úr Skaptárgljúfri með jarðarhræringum í bland, þá gengu og miklar skruggur og eldingar allt umkring oss, sem engum manni varð þó meint af. Sú brennisteinsfýla og svæla, sem hér var um þá daga, færðist víða um land og hleypti bæði visnan og þeim gula lit á allt gras.

Þann 27. dreif hér heilmiklum sandi yfir allt á Síðunni, nóttina og daginn þar eptir kom sterkur vestanvindur, er sandinum fleygði nokkuð af grasinu aptur. 28. var sami vestanvindur, hélt þá frá oss á Síðunni nefndum sandmokk og austur á Fljótshverfið og fleygði þar yfir stórum vikri og sandi, er gjörðu þar jörðu á þessu sumri aldeilis óslæga, sem raun gefur vitni, þar sú heila Kálfafells kirkjusókn er nú aldeilis í eyði að fráteknum Núpstað, sem stendur austast,

kom þar þá algjörlega sama ólyfjan yfir jörðina og hjá oss, að fé fór að rása í burtu og drepast hópum saman á víða vangi.

Þann 29. Junii til 12. Julii þverraði eldflóðið ekkert hvorki nótt né dag, þótt gengi með köstum, stundum meir stundum minna. En eptir því sem hraunið var nú farið að kólna og storkna saman á jöðrunum eður yztu útskotum þess fram á Meðallandið so hlóðst það í háan búnka, að þar er nú til að sjá sem mjög háan háls, er lægst var áður ofanvert í Meðallandinu, og þar eldurinn náði eigi beinni framrás lengur sökum hæðarinnar, tók hann sér framrásir beggja megin til hliðanna, tvær rásir að vestan og tvær að austanverðu. Á vestur síðu hélt ein í Neshraun og sú uppbrenndi Botna að öllu leyti, önnur fór í Landárfarveginn og vestur með Neshól, og þar allt um kring, síðan að Ásahól og breiddi sig þar til suðurs og útsuðurs yfir alla haga og engjar, sem kirkjustaðnum og prestjörðunum Ásum fylgðu, fleygðist so í Kúðafljót vel so í þriðjung af því, rann síðan fram eptir því og nam staðar fyrir ofan Leiðvöll, hvar eldurinn er nú slokknaður að mestu. Efri brún á greindu eldflóði gekk so nærri kirkjunni í Ásum, að ei voru nema nokkrir faðmar að eldinum af hvers hræringum kirkjan er því nær um koll dottin, en presturinn er þar þjónaði hlaut staðinn yfirgefa og flýja vestur í Mýrdal. Á austursíðu við hraunhálsinn stefndi ein eldrásin á Landbrotið, um þann gamla Skaptárfarveg, sem þangað lá, uppbrenndi á þeirri leið mörg melapláss og nam staðar við Lútandaháls í Hraunsmelum. Hin önnur síðasta og stærsta hélt austur með Skálarfjalli og uppbrenndi nú í fyrsta kasti Skál að öllu leyti; hljóp so upp á Holltsdælur, og umbylti þeim alla vegu, fleygðist so að Holltsá, yfir hana og heim yfir bæinn Hollt, í hvern kima þar fyrir ofan, afbrenndi so og yfirþakti með hrauni allt það kjarnbezta land og þriggja bænda býli á stuttum tíma með þvílíkri ógnan og grimmdar svip, til að mynda í uppbroti, sundurslitri og tvístran jarðarinnar, sem þá ólmt dýr rífur eitthvað í sundur.

9. Julii dreif hér enn mikið sandfall, so enginn grasbítur hafði not af jörðu nema eptir því, sem sandinum varð rakað ofan af; stóð þetta yfir í 2 samfelld dægur; kom þá steypiregn, sem sandinn færði af grasinu ofan á jörðina. Þann 13. Julii, þá Hollt var uppbrunnið, færði eldflóðið sig með stórri upp-

belgingu austur í Dælurnar og í Fjarðará, uppteppti hana í gljúfrinu, fór so eptir hennar farveg, so fram fyrir hálsinn, féll þá sumt fram á Dalbæjarfitjar og yfirþakti þær með hrauni, en mesti hlutinn hljóp í gljúfrið og so ofan fyrir þann háa Stapafoss, og fyllti upp yfir barma það mikla og djúpa gljúfur, sem afgekk í 4 daga, og þá sú eldógn komst ei lengur fyrir, fór hún uppá túnið á klausturjörðinni Dalbæ og so heim að bænum, lagði hann allan í ösku og setti yfir djúpt hraun, gekk síðan so nærri túninu á Hunkubökkum og með grefti undan því, að sá nýi og velbyggði bær varð aldeilis óbyggilegur. Í þessu kasti varð og bærinn Hólmur, Skálarkirkjujörð, yfirflotinn með vatni að sunnan, en hrauni að norðanverðu; hélt so þessi eldselgur fram eptir Skaptárfarveginum. 17. Julii kom hér óláta regn, sem hélzt við alla nóttina eptir og fram á hinn daginn.

18. Julii gengu hér á allt umkring í nálægum sveitum slíkar ógnanir af skruggum, eldingum, braki og brestum að ei tók úr eina mínútu nær í heil 2 dægur, hafði aldrei frá því gjáin gaus eldi þvílíkt ágengið, að eg ei tali um mennina, hversu margir urðu hræddir og frá sér numdir, þar eð sýndist sem hamrar og jörð ætlaði að springa í sundur, þá urðu skynlausar skepnur so skelfdar, að þær hlupu saman í hnappa eptir sem loptslögin báru að eður yfir; þó hafði enn meira ágengið í kringum Skaptárgljúfur og þar um pláss, er sázt á jörðunni nær þangað var síðar komið, að hún hafði sprungið í sundur, kastast hingað og þangað og umbreyzt forundrunarlega. Þar fundust eldslettur hér og hvar, sem höfðu dottið úr lopti, höfðu so kulnað á jörðunni og orðið að steini, sem brennt höfðu jörðina í kringum sig, sumir sokkið í hana til hálfs, sumir voru að mynd sem stór hlöss eður kúadillur, sumt hafði niðurfallið sem snúnir samanvafðir strönglar, rekist so ofan í jörðina og molnað í sundur síðan. Virtust þvílíkir steinar sumir fjórðungur að þýngd, sumir þar langt yfir. Þá hértéð undur höfðu ágengið nóttina og fram á dag, dreif hér sandi og mold yfir alla jörð, so hún varð svört, úr austur landnorðurs átt, sem ólíkt var að lit og áþreifingu þeim fyrri sandföllum, sem var og úr einni annari eldgjá, sem síðar er prófað.

Þann 19. Julii var spakt veður, lagði þá sandmokkinn á

fjallabaki vestur eptir, voru þá strjál reiðarslög í lopti. En eptir því kirkjan og klaustrið lá flatt fyrir eldinum, sem þá geysaði með mestu ógnan í Skaptárfarveginum og allt kominn yfir Laxá í klaustursins landareign, lét klausturhaldarinn, sem ei þorði að gefa sig heiman að til nokkra ferða, halda nótt og dag vakt, so eldurinn yfirfélli ei klaustrið eður kirkjuna óforvarandis, því ef hann hefði áfram haldið sömu ferð, var ei annað fyrir manna sjónum en hann á næsta degi hefði uppsvelgt bæði klaustur og kirkju, því þess auðveldara var, þar enginn bakki eða fyrirstaða er frá aur og heim að þessu Kirkjubæjarklaustri. Þann 20. Julii sem var sunnudagur, voru stórir gufumokkar allt í kring að vestan með skruggum, eldingum, dynkjum og skruðningum, lagði gufumokkinn eptir árfarveginum fram yfir klaustur og kirkju. Þá sýndi guð sína miskun og sitt óútsegjanlegt almætti á náttúrunnar stjórnan og verkan, því að eptir embættisgjörð í kirkjunni, þá um var vitjað, hvað eldurinn hefði áfram gengið síðan um morguninn, þá hann var í óðflugi með mestu geysan og búinn að fylla upp árfarveginn á bakka, fannst það og sást, að honum hafði ei áfram gengið um eina þverhandar breidd, heldur stóð þar í afhallandi farveg árinnar so að segja í sama takmarki og um morguninn, sem hár samanhrúgaður vegghamar í einum loga, sem smám saman fór að kólna, og hefur síðan ei færst til þessa dags. Hver sem þetta guðs almættisverk veit, sér eður skoðar hér eptir má víst falla í forundran yfir slíkum drottins dásemdarverkum.

Þann 21. Julii var blítt veður og fagurt sólarskin, þó rauðleitt, sem vant var, en hafði þó ei annaðeins í marga daga komið, þá formerktu menn að fór að safnast vatn í Skaptárgljúfur og fram úr því, hvort það er Skaptá sjálf eður afréttarárnar, eru menn ei vissir um, enn síður hvar Skaptá, eður þessar ár nái sér framrás, eður hvorn skaða gjöra muni eptir so langa teppu. Þann 22. Julii til 2. Augusti, var öðru hverju milt veður, en stundum stórregnskvettir, á þeim tíma sáust alltaf eld og gufumokkar af afréttinum með strjálum skruggum og dynkjum. 3. August formerktu menn að farið var að hitna vatnið í Hverfisfljótinu, sem altið meir og meir jókst, þar til það um síðir uppþornaði.

Þann 9. Aug. gengu stórar skruggur og eldingar upp úr

gjánni fyrir norðan Hverfið, þá framgaus og eldur úr Hverfisfljótsgljúfrinu, sem fór með fljótri rás líkt sem vatn rennur fram eptir aurunum fram fyrir sokallaðan Orustuhól og so beint í suður sem svarar einni mílu vegar fram á sandinn og nam þar staðar, tók þetta eldhraun af allan mannaveg í Hverfið eður í austurlandið, nema komist verður fyrir framan enda á áður nefndu hrauni, ef það kemst ei í sjó, sem enn er óséð, þar eldurinn er enn í því lifandi og alltíð að smábætast á úr fjallinu eldgangurinn, bæði að austan og vestan, so menn eru hér á Síðunni so gott innitepptir. Frá þeim 9. Aug. og til þess dags í dag er, sem er sá 22., hafa gengið sífelldir sunnanstormar með regnum, ásamt öðru hverju viðvarandi skruggum, dynkjum og eldgangi, sem öðru hverju er að gjósa uppúr afréttargjánum og framhlaupa úr gljúfrunum á byggðina, so enn er óséð hvað eldur og þau til þessa dags innitepptu vötn gjöra að verkum á í hönd farandi hausti og vetri.

Frá Skaptárdal, hvar eldurinn fór fyrst fram í byggðina úr gljúfrinu og so umkring uppað Búlandi, sem stendur móts við Skaptárdal að vestanverðu, meinast eldhraunið ummáls eptir sem næst verður komist, undir 30 mílur, ef ekki betur, en á þessum vegi í sinni útbreiðingu í byggðinni hefur það uppbrennt og eyðilagt eptirskrifaðar jarðir, nefnilega:

Skaptárdal, Þykkvabæjarklaustursjörð, með túnum, högum, skógi, en hús meinast standandi, sú jörð er framvegis óbyggjandi.

Á, Þykkvabæjarklaustursjörð, með húsum, túnum, engjum og högum.

Dalbæ, Þykkvabæjarklaustursjörð, með húsum, túnum og meströllum högum.

Húnkubakka með túnum og engjum, en hús eru þar um óbrend, þó aldeilis óviðværilegt.

Hólma, Þykkvabæjarklaustursjörð, með húsum, túnum, engjum og högum, fyrir utan á Skarðsmýri.

Botna, Þykkvabæjarklaustursjörð, með húsum, túnum og högum.

Hólmasel, Þykkvabæjarklaustursjörð, með kirkju, húsum, túninu og öllum högum.

Hnausar, Þykkvabæjurklaustursjörð, sem stendur nú rétt við eldhraunið, er so umflotin af uppstífluðu vatni, að ei kann byggjast.

Nes í Skaptártúngu með húsum, túnum, engjum og högum.

Ytri Ásar, Þykkvabæjarklaustursjörð, þar eru hús uppihangandi, en uppbrend mestöll tún og engjar.

Eystri Ásar, prestssetur, þar eru hús og kirkja enn óbrennd, en mikið af túnum og allar engjar uppbrenndar.

Svínadalur, sem er ein af þeim sokölluðu Flögujörðum, þar hefur eldurinn uppbrennt engjar og liggur langs með túninu hraunið, en so uppstíflað þar vatn að hús eru í kafi og aldeilis óviðværileg.

Hvammur, Flögujörð, þar eru hús og tún í kafi af uppstífluðu vatni en þó óbrennd.

Búlandsnes, kirkjujörð. Þar eru hús fallin af jarðskjálfta og síðan uppbrennd hús og tún.

Skál á Síðu uppbrennd með kirkju, húsum, túnum, engjum, undir fjallinu.

Hólmur, Skálarkirkjujörð, þar eru hús öll umflotin af vatni, en hagar og nokkuð af engjum uppbrennt.

Hollt, Kirkjubæjarklaustursjörð, uppbrennd með húsum, túnum, engjum og mest öllum högum og skógi.

Fljótar Efri og Syðri, Kirkjubæjarklaustursjarðir, eru báðar uppbrenndar með húsum, túnum og öllum högum, samt miklu af engjunum fyrir utan þær, sem lágu fyrir austan Steinsmýrarfljót.

Syðri Steinsmýri, Kirkjubæjarklaustursjörð, þar liggur eldhraunið skammt frá túnunum, sem eru óbrunnin ásamt húsum og mestallar engjar, en hagar allir uppbrunnir.

Efri Steinsmýri, Kirkjubæjarklaustursjörð, þar er mikið af högum brunnið, en annað sosem hús, tún og engjar óbrenndar, liggur þó eldhraunið þétt við túnið.

Hér fyrir utan eru mörg melapláss og hagar annara Kirkjubæjarklausturs jarða skemmdir og afbrenndir, item alt Laxárnes í sjálfs klaustursins landi uppbrennt og eyðilagt, ásamt allur klaustrinu tilheyrandi skógur í Brandalandi.

Að þetta allt framanskrifað sé í allan máta sannferðugt, vitna undirskrifaðir.

*Að Kirkjubæjarklaustri*, d. 24. Aug. 1783.

*Jón Steingrímsson*, Past. et Præposit. L.

*S. Olavsson*, Klausturhaldari til Kirkjubæjarklausturs.

### 3. Póstur úr bréfi prófasts síra Jóns Steingrímssonar

dags. Prestbakka á Síðu 31. aug. 1783. Viðvíkjandi eldgangi og þar af rísandi tjóni og fordjörfun.[1])

Þann 1. Junii byrjaðist hér ný hörmung, sem voru herfilegir jarðskjálftar, er gengu alla þá viku, en á sjálfa hvítasunnu þann 8da ejusdem í heiðríku og bezta veðri féll yfir oss þykkur sandmokkur að dimmt varð í húsum en sporrækt á jörðu og 3 daga þar eptir með steypiregnum, annað veifið með svo mikilli fýlu, sem menn væri við vessasömustu brennisteinsnáma, en svo salt og beiskt, að þá droparnir féllu á hörund, var sem þar á væri dreift heitum saltpækli.

12ta ejusdem kom fram um allt gljúfur, sem heitir Skaptárgljúfur, svo mikið eldflóð og so á lit sem brædt eyr í deiglu, sem þá Blanda hjá ykkur er í temmelegum vexti þar hjá eður undan Bólstaðahlíð. Þetta eldflóð kom úr einu dýjaverzla dalverpi hér í Síðumanna afrétti rétt fyrir ofan og norðan mig (ɔ: Prestbakka) ei lengra frá til að mynda, en Vatnshlíð er frá Húsey í Hólmi fyrir norðan. Þetta eldflóð fór allteins að og sagt er frá þá Reykjahlíð tókst af við Mývatn, að eldurinn varð að brunahrauni eptir sem storknaði. Þetta eldflóð hefir hér aftekið svo mikið land, sem mest var skógi og víðir og grasi vaxið, að eg tvíla í kringum það verði riðið á 2 dögum. Hér tókst af sú kirkjusókn og kirkja sem hét Skál, eitt höfuðból og fólkríkir bæir, en í öðrum stað önnur kirkja og bær sem Hólmasel hét, og í þeirri sókn 3 stórbæir að öllu leiti. Í þriðja stað tók eldurinn af alla haga og út-

[1] Skrifað eptir tveim rotnum blöðum í hdrs. Jóns Sigurðssonar nr. 422-4°. Sama í hdrs. Bókmf. nr. 149-4°, styttra, endar með »totaliter eyðilögð«.

slægjur frá því prestakalli, sem Ásar heita, og af umrótinu varð kirkjan ei embættisfær. Einn bær lagðist og í hraun í þeirri kirkjusókn, og einn í minni (ɔ: Kirkjubæjar) en gjörði annan óbyggilegan. Eins stefndi þetta eldflóð að minni kirkju, því hún liggur við árfarveginn, sem eldurinn hljóp í, en fyrir stórt almætti guðs tepptist hann þar í farveginum, skamt fyrir ofan hana á einum sunnudegi, er eg og fólk var í henni, en þá fann eg og fleiri að neyð þrengði og knúði að biðja. Hér um tala eg ei frekara, þar mig snertir þetta í vissan máta, nema að gefa guði dýrðina.

Þessi býsn og ósköp héldust við með skruggum og eldingum í loptinu en jarðskjálftum og undirgang í jörðunni, frá 12. Júnii til 21. Julii, þessi umgangur allur var fyrir vestan sókn mína og áfastur við hana. Þá þessi eldgjá hætti, tók sig upp önnur eldgjá fyrir austan og ofan mig og eyðilagði með öskufalli heila kirkjusókn, sem kallast Kálfafell; er þar nú enginn maður né prestur eptir orðinn, hann var og þaðan í burt áður og hafði fengið Hvamm í Norðurárdal, heitir síra Jón Hjaltalín, hinir tveir prestarnir flýðu vestur í eldsumrótinu með það, sem náðu. Nú þessi áminnstu öskuföll og saltpéturs brennisteinsregn tóku hér af nálega allt gras af jörðunni og gjörðu hana svo óheilnæma og gula af brennisteini, að engin skepna fékk nokkur not af henni, höfuðfjöldi af fé dautt og burtstrokið, en kýr nokkrar dauðar, en þær af skrimdu hordauðar og nytlausar að mestu, hestar flathama; er bæði eg og aðrir búnir að reka burt allan vorn pening, ef ske kynni hann gæti nokkuð batnað undir hnífinn, því enginn er heyskapurinn hér á Síðunni. En þar við ætluðustum til, er nú orðið allt fullt af vatni, en flótti, sem hér á fólki fram og tilbaka, einn fer þangað sem annar flýr frá, er óskrifanlegt, svo varla getur hjá því farið, að hér verði mesta mannfall, þá á vetur er komið. Fólk mitt setti eg með kúm mínum í burt og er eg nú með konu og tveim manneskjum við húsin kýrlaus og mjólkurlaus um nokkurn tíma, og svo býst eg að vera fram so lengi eg get og sókn mín og kirkja er ei totaliter eyðilögð.

Orðrétt útskrifað af bréfi til prófasts síra Bjarna Jónssonar.

Testatur
*Jónas Benedictsson.*

Þetta sem hér eptir fylgir er síðan samanskrifað af Kirkjubæjar Clausturhaldara Sigurði Ólafssyni til stiptsprófasts Mag. H. E.

Af eldbrunanum 27 bæir alldeilis óbyggjandi, að auk margar jarðir í eyði. Skaptá, í hverri eldurinn brann, stöðvaðist við Systrastapa og var hún 60 faðmar á hæð, sem nú er hraun; brennur þar enn, svo ferðamanna alfaravegur er að mestu af. Hólmasókn er öldungis af, Þverá, Dalur og Efstaland að austanverðu og eldurinn lenti við Orustuhól, prestar burtflúnir, nema síra Jón prófastur Steingrímsson prestur til Kirkjubæjar, og Þykkvabæjarklausturprestur síra Jón á Mýrum. Tantum.

### 4. Póstur úr bréfi klausturhaldara Sigurðar Ólafssonar í Kirkjubæ, dags. 5. Decbr. 1783.[1])

Jarðeldar hafa í þessum tveimur hreppum innan Vestri Skaptafellssýslu verið að brenna í fjöllunum, sem eru norður af bygðinni, síðan þann næstliðna 12. Juni til nærverandi tíma, en hvorki með penna eður munni get eg frá skýrt þeim kvölum, hörmungum og dauða á gripum og mönnum, er sami hefur orsakað. 23 jarðir, mestallar klaustranna Kirkjubæjar og Þykkvabæjar, eru af jarðeldinum upp brendar og eyðilagðar, með húsum, túni, engjum, skógi og mestöllum högum, hvar í bland eru tvær kirkjur, í Skál og Hólmaseli; sú þriðja í Ásum er að mestu um koll dottin af jarðskjálfta. En sérdeilis guðs almættisverk var það, að eldurinn ei upp svelgði þenna bæ og kirkju nýbygða, sem lá fyrir honum opinn, eptir það hann komst hér í Skaptárfarveg, sem áður var orðin uppþornuð, þó eitt það stærsta vatnsfall, brúsandi sem sjór, með fyrir víst 60 faðma hæð og komst hér nærri inn undir túnið, stóð þar svo logandi sem annar múrveggur, án þess að færast framar nær bænum, hvar hann síðan niður kólnaði. Þeim ógnunum hér hafa á gengið síðan áminnstan 12. Junii af jarðskjálftum, skruggum, lopteldingum og dýnkjum, brennisteinsrigningum, sand- og öskufalli, er mér ómögulegt frá segja, sem viðhaldist hefur öðru hverju, eður annan hvern dag til í

[1] Hdrs, J. S. nr. 422-4⁰ Bók síra Hjálmars í Tröllatungu nr. 29. fol.

Oktober. Þó tók yfir þann 17. og 18. Julii, þá sú önnur eldgjá upp sprakk fyrir norðan Síðuna að austanverðu, því þá þenkti enginn annað en himin og jörð mundu þá og þá kollsteypast, sem varði í þrjú heil dægur. En síðan í Oktober hafa menn ei orðið varir við jarðskjálfta, dýnki né lopteldingar til riða, heldur er nú eldurinn að renna sem bræddur kopar öðru hverju fram úr fjallinu á báðar síður við Síðuna, sem allareiðu er búinn að aftaka alla manna vegi austur og vestur, en loginn í fjallinu allstaðar hér fyrir norðan er enn yfirmáta mikill, með sífeldri svælu og reyk, bæði uppúr eldgjánum og eldhrauninu, sem í byggðinni hér á báðar síður, og ei sjáanlegt að slokkni á næsta ári.

Heyskapur var hér í sumar í hreppnum mjög lítill eður snart enginn, líka og hér annarsstaðar í sýslunni, sem austurpartinum, og það lítið hjá okkur hér fékkst gagnfordjarfaðist af brennisteinsólyfjaninni. Allt fé, kýr og hestar í öllu þessu plássi eður hrepp að mestu dautt, fé og hestar hlupu strax í sumar burt út í veðrið, sumt drap sig í vötnum, sumt brann upp af eldinum hópum saman, sérdeilis fé og naut, en það síðan fundist hefir, hafa menn verið daglega að skera til matar, því ei er annað lífsmeðal hjá flestum; engin mjólk, sýra, smjör, eður nokkur feiti af skepnunum, hvorki hjá mér né öðrum. Einir 11 fjórðúngar smjörs hafa goldist af þeim tilbaka verandi klausturjörðum í ár, í staðinn fyrir 2 hdr. 115 fjórðunga að undanförnu, því þeir fáu, sem tolla við einstöku jarðir, gjalda ekkert. Af 14 kúm, eg átti í vor, lifa eptir 2, nú allt reisa; af 40 hestum fáeinir skinhoraðir, en enginn í vor, og þeir 3 reiðhestar, eg átti, eru og allir dauðir.

(Þetta máske úr öðru bréfi)[1]).

Fólk er nú bæði í Þingeyjarþingi og Vaðlasýslu farið að deyja af hor og hungri, fjöldi öldungis kýr- og kinda- samt hestlaust, og enginn meinast vikafært hross eiga muni í þessum sýslum á sumarmálum. Þegar fólk er búið að uppeta þá um víðan vang fallna horskrokka, má það falla. Fjöldi jarða leggjast í eyði og allar verkanir nærverandi óskapa eru enn nú óséðar. Úr Múlasýslu er nokkuð skárra upp á jarðir og snjó, sem í manna minni hefir ekki í þessari sýslu svo

[1] Svo i hdr.

mikill verið sem nú, og lagnaðarís út á sjó, þá hafísþök svo mikil, allt austur í Reyðarfjörð og vestur á Strandir, að menn geta ei frá skýrt. Er nú ekkert tíðara hér að heyra en sárgrætilegt hungurs vein, kvöl og kvörtun þess bjargþrota og hungurmorða almúga, töpun með allra handa ónáttúru skepnanna, en hrossgrindur liggja í hrúgum kringum bæina. Guð vægi oss, og afmái ekki í bræði sinni! Hérum 20 manns teljast bráðkvaddir hér norður, nokkrir hafa orðið úti í sjó, vötnum og á fjöllum etc. nokkrir rasandi; fleira óskaplegt hefir og við borið.

---

## Frásagnir um skólalíf á Íslandi um aldamót 18. og 19. aldar.

### 1. Skólahættir í Skálholti og í Reykjavíkurskóla hinum forna eptir Árna Helgason, stiptsprófast í Görðum.[1])

Um skólahætti í Skálholti hefi eg þetta frétt. Skólapiltar aftöluðu það, þegar þeir skildu á vorin, að þeir næsta haust skyldu mæla sér mót og hver bíða annars so sem mílu vegar frá Skálholti og síðan ríða i flokki heim á staðinn, en ekki einn og einn eða fáir í senn. Mest þótti í það varið, ef sama

---

[1] Lýsingu þessa hefir Árni biskup Helgason samið fyrir Jón Árnason bókavörð árið 1861, og er hún rituð í bréfsformi til Jóns. Hér er orðrétt farið eptir handriti herra Árna, en þó slept úr fáeinum setningum og stuttum málsgreinum, sem eru skólasögunni óviðkomandi. Lífinu í Skálholtsskóla lýsir höf. eptir frásögum föðurs síns sira Helga Einarssonar á Stað í Aðalvík, og eptir skýrslum annara nákunnugra manna. Sjálfur lærði Árni Helgason í Reykjavíkur skóla og var þar 4 vetur 1795—1799. (Æfiminning Árna biskups Helgasonar. Eptir einn af lærisveinum hans. Reykjavík 1877. 8°.)

Um Hólaskóla 1795—1802 er stutt skýrsla í Íslendingi III. 1862 bls. 61—62 eptir frásögnum síra Pjeturs Jónssonar á Kálfatjörn, þar er líka nokkuð sagt frá Reykjavíkurskóla hinum forna. Hólaskóla á árunum 1787—1792 er ennfremur stuttlega lýst í Árbók fornleifafélagsins 1884—85 bls. 145—146, og þá eru í Fjallkonunni IV, bls. 15 og í Þjóðólfi XIV, bls. 47—49 prentaðir kaflar úr æfisögu Jóns prófasts Steingrímssonar, er snerta skólalíf á Hólum á árunum 1744—1750. Um Skálholtsskóla hefir, mér vitanlega, nærri ekkert sézt á prenti fyrr. Um skólasögu almennt má vísa í ritgjörð Jóns Sigurðssonar um skóla í Íslandi í Nýjum Félagsritum II, 1842 bls. 67—167 og Janus Jónsson: Saga latínuskóla á Íslandi til 1846, í Tímariti Bókmentafélagsins XIV. 1893 bls. 1—97.

*Þ. Th.*

daginn kom annar flokkurinn að austan, en hinn að vestan, að norðan kom þá enginn, því annar skóli var á Hólum fyrir Norðurland. Þeir úr Gullbringu- og Kjósarsýslu, þá nokkrir voru, áttu að slá sér í hóp Vestfirðinga, sem frá 1760 til 1780 voru flestir, áttu að koma tiltekinn dag á Þingvelli og fylgjast að í hellir, sem er á leiðinni upp í Laugardalinn, hvar þeir svo höfðu náttstað. Þar átti allur flokkurinn að æpa mikið heróp, sem þeir kölluðu *signum*. Úr þessum hellir er stutt dagleið heim í Skálholt. Nú var þaðan riðið að ferjunni yfir Brúará, þar kom annað *signum* — og hið þriðja sinn hjá Skólavörðu, því þar var líka Skólavarða skamt norður af bænum. Þeir að austan gáfu fyrsta *signum* hjá Þjórsá við Nautavað, en það seinasta á svo kölluðum Skálholtshamri við Hvítá; mest þótti til þess koma, ef hver flokkurinn heyrði til annars, því þá gátu allir riðið í hlað undir eins. Þessi siður viðhélst fyrstu árin í Reykjavík. Fyrsta *signum* var gefið við Elliðaárnar, annað á Öskjuhlíð og hið þriðja hjá Skólavörðu, en þessi siður var aflagður 1795.

Þegar búið var að setja skólann, komu þær svo kölluðu *vices*, sem í því voru innifaldar, að hinir eldri skólasveinar, sem hétu *antiqui*, söfnuðu saman þeim nýju lærisveinum, er hétu *novi*, og vildu kenna þeim að heiðra aldurinn. Foreldrar, sem sendu syni sína í skóla, fundu því ráðlegt, að útvega sonum sínum einhvern forsvarsmann meðal hinna eldri, sem átti að sjá um, að þeim nýkomna yrði eigi misþyrmt, var gjarnan valinn einhver stór og sterkur meðal þeirra eldri og hét hann *tutor*. En þessir *tutores* reyndust misjafnt. Eg man til þess, að einn *tutor* hélt að sönnu svörum uppi fyrir sinn klient, en lét hann aptur tolla sér, ef hann gat, fyrir frammistöðuna, auk þess sem foreldrar drengsins fundu sér skylt að þóknast honum. Faðir minn vildi engan *tutor* útvega mér, enda hafði hann engin efni til að umbuna greiðann, sagði, »vertu óhræddur, ef þú hagar þér siðsamlega, þá þarft þú enga vernd.« En eg get ekki aptrað mér frá að skjóta hér inní sögu um einn *tutor*, sem mér þykir þess verð, að einhversstaðar geymist. Piltur af Austfjörðum, sem eg gæti nefnt, gisti opt á ferðum sínum í og úr skóla á bóndabæ einum. Sonur þessa bónda á að fara í skóla, ungur og sprækur vel. Bóndinn biður gest sinn fyrir drenginn og hann lofar því. Að þessi *tutor* hafi varið sinn klient veit eg ekki, en þykir

samt líklegt. Sá nýkomni var fjörkálfur, máske aldrei lagaður til bókmenta, kann aldrei það, sem hann á að kunna, *tutor* tekur eptir því; tekur drenginn fyrir og áminnir hann með mörgum fögrum orðum; það færir lítinn eða engan ávöxt; seinast tekur Austfirðingurinn dreng með sér um kvöld upp í heygarðinn í Skálholti, og hýðir hann þar og grætur sjálfur fögrum tárum. Þessu gat sá hýddi, sem hefur sagt mér söguna, aldrei gleymt. Þetta stöðvaði nokkuð hans gjálífi, svo hann komst allvel úr skóla og varð brúkanlegur prestur, og elskaði þann sem hýddi hann innilega.

*Vices* eru alkunnugar. Hétu 1⁰ bál. Allir settust réttum beinum á gólfið *antiqui*, og sneru saman fótum, nema tveir þeir sterkustu, þeir leiddu *novum* milli sín, sem bundið var fyrir augu, en gengu sjálfir fyrir utan þá sem sátu. Sá sem bundið var fyrir augun á, átti að ganga yfir fætur þeirra, sem sátu, en sá gangur var nokkuð ógreiður, sumir af þeim sem sátu nokkuð hrekkjóttir og spörkuðu fótum óhaganlega upp undir þann, sem leiddur var, aðrir gjörðu það ekki. Þetta hét að vaða bál.

2⁰ Pressa. *Novus* var settur í horn á skólanum, allir *antiqui* áttu að þrýsta að honum þangað til hann veinaði. Þetta er mér svo minnisstætt af því, að þegar þetta kom fyrir mig, svo lofaði eg þeim að pressa að mér einsog þeir vildu og þagði, því eg fann ekkert til. Þá segir einn, sem næstur mér var: »orgaðu strákur!«, annar: „hann er ekki lærður sá arna«, því sumir orguðu áður en þessi svo kallaða pressa byrjaði, og það voru þeir sem vissu skólareglurnar.

3⁰ Járning. Fæturnir voru teknir upp eins og á hesti, sem járnast á, og farið rétt eins að og þá hestur er járnaður; sumir brúkuðu, sem járna skyldu, annan hnefann til að halda við, hinn til að reka naglann; heyrt hefi eg að stundum hafi verið brúkaður steinn til að halda við með. Þegar búið var að járna, hljóp einn af *antiquis* á bak þeim nýjárnaða og lét hann hlaupa með sig nokkrum sinnum um skólagólfið og var þá margrætt um og misjafnt dæmt, hvort sá nýjárnaði foli mundi vera hestefni.

4⁰ Nú var skírn, í Skálholti í laugum hjá Laugarási, í Reykjavík í lauginni í Laugarnesi. Tveir af *antiquis* voru útvaldir að reka *novos* að lauginni, tveir stórir og sterkir skírðu, og það með ídýfingu, sinn hélt í hvern handlegg og

þrídýfðu höfði þess, er skíra átti, á kaf, aptur á bak og áfram. Nöfn voru gefin þýðingarlaus.

5° Nú var Snorri eptir, sem krýnir allt. Menn hengdu brekan fyrir skólagluggann, svo þar varð niðamyrkur. *Novis* var sleppt inn og allt í einu orguðu og grenjuðu allir *antiqui*, börðu þil og bekki sem bezt gátu; tveir af þeim gengu um skólann sinn með hverjum vegg og slógu eld, svo þeir þekktust í þessum yztu myrkrum, sem átti að berja, því Snorri var ekki einasta gerður til að hræða *novos*, heldur líka til að hefnast á einstöku *antiquis*, sem sökótt áttu í skóla. Þegar allt þetta var á enda, var tekinn nokkurskonar eiður af *novis*, ekki einasta að þegja yfir öllu þessu út í frá, heldur breyta eins við þá, sem í þeirra tíð kæmi í skóla og hefði verið breytt við þá.

Þegar búið var haustexamen og piltar höfðu fengið sæti, héldu piltar krýningarhátíð, sem var kölluð Herranótt í Skálholti; *supremus* var sjálfsagt krýndur. Til Reykjavíkur fluttist þaðan kóróna af eyri, veldissprota og ríkisepli. Þá voru valdir, eða útnefndir, eptir sæti sem fengið höfðu, embættismenn, biskup og sýslumenn (í Skálholti). Biskupinn átti að prédika og svo var undirkomin sú prédikun, sem almennt heitir Skraparotsprédikun, nógu fyndin og meinlaus; hana hefi eg ekki séð, en heyrt úr henni textann: Orator vill tala um Skraparotsbuxur: 1° úr hvaða efni þær séu, 2° og í hvaða ásigkomulagi, en hver applicationin varð veit eg ekki. Kennendurnir voru við og jafnvel biskupar og höfðu mikið gaman. Sýslumenn skólans fengu mörg mál á vetri hverjum að dæma í, helzt voru það landaþrætumál. Bekkir voru með veggnum í skólanum, sem piltar sátu á, en uppyfir voru hyllur umhverfis, sem piltar létu uppá kver sín og kompur. Nú vildi það til stundum að *consessor* hnitaði ekki nákvæmlega niður stað sinna kvera, heldur gekk á land nábúans. Nú kom stefna, aktor, defensor og dómur.

Þessi Herranótt var og haldin fyrst í Reykjavíkur skóla, en enginn prédikaði þar. Supremus í Reykjavík var krýndur og þeir sem næstir honum sátu voru gerðir ministrar: Indenrigsminister, Krigsminister, Udenlandsminister, biskup etc. Allir þessir ministrar áttu að gratulera þeim nývalda kóngi á íslenzku nema Udenlandsministeren, hann varð að gera það á dönsku. Frá þessu segi eg eptir því sem gekk til um árið 1798, því þá var eg Udenlandsminister. Sigurður gamli

Pétursson skapaði allt þetta og samdi handa okkur þá komediu Narfa, er leikin var undir eins, í hvörri eg mátti agera Dalsted og fékk hrós hjá amtmanni Vibe fyrir hvað vel mér hefði tekist, sagðist hafi hugsað að Dalsted þessi væri gamli Jacobæus í Keflavík; samt fann hann að því að eg hefði offljótt farið að tala, þegar Narfi assistent kom upp úr ullartunnunni. En Vibe var sá maður, að honum þótti gaman að öllu gamni, var mesti gleðimaður. En þessi svokallaða Herranótt held eg ekki hafi verið haldin síðan 1798, enda endaði hátíðin svo, að sá krýndi kóngur lagði niður völdin, þakkaði sínum Magnater sæmd þá, sem þeir hefðu gert sér með því að velja sig til kóngs, en sagðist nú ekki vilja vera meiri en þeir, heldur bara í samfélagi við þá, og eptir megni með þeim efla ríkisins heillir. Það hneixlaði að svona var að farið vissa menn, héldu hér stæði til revolution, eins og þá var á ferð í Paris.[1]

Nóta svokölluð var bæði í Skálholti og Reykjavík, líka fyrst á Bessastöðum. Þeir voru 9 tals, sem áttu að uppteikna syndir hinna piltanna: Notarius Scholæ, Platearum, Cubiculi, Templi, á Bessastöðum var bætt við Notarius Cœnaculi. Hver þessara hafði vicarium, en svo var einn að auki Notarius Inferiorum. Hér til voru helzt valdir stórir menn og sterkir, kanske líka meðfram siðsamir. Það var ætlast til að þessir níu með aðstoð famulorum, sem líka voru Exleges, væru þeir þá ekki notarii eða vicarii, gætu mætt ef

[1] Um Herranótt í Reykjavíkurskóla er farið þessum orðum í bréfi frá Geir biskupi Vídalín dags. 25. nóv. 1799 til Ólafs Stefánssonar stiptamtmanns: »Að eg ekki til þessa hefi svarað yðar Hávelborinheita eins ástúðlegu, sem ætíð mikilsmetandi tilskrifum, viðvíkjandi þeirri svo kölluðu *Herranótt* í Reykjavíkurskóla, kemur bæði af því að eg hefi ætlað mér að tala við yður um þá sök munnlega, en lítil ákoma á fæti hefir bannað mér í hér um viku að komast út af bænum, líka hitt að eg hefi ekki í höndum conceptið af því, sem framfór í skólanum 1797, hvort eg fyrir skemstu fékk lánað. Eg hefi lesið það ígegnum optar en einu sinni, „og segi það satt, að eg hefi þar ekkert orð fundið, sigtandi til að lasta monarchiska Regjering, eður til að uppvekja óleyfileg Friheds Principia." Aungvu síður hefi eg hreint neitað þeim af piltunum, sem nú fyrir skemstu báðu um mitt leyfi til nýs herranóttarhalds, að gefa mitt samþykki til þess, þar eg vildi að þeirra jafnvel saklausa gaman ekki gæti verið nokkrum til hneixlis." Yðar Hávelborinheita góða bréf þessu viðvíkjandi fylgir og hér með eptir yðar fyrirmælum til baka.«

til handalögmáls kom, sem var seinasti Instans, 20 hinum. Allar syndirnar fyrir hverja viku voru uppskrifaðar á latínu og lesnar upp á hátíðlegri samkomu í skólanum, hvern laugardag í Reykjavík. Þeir máttu afsaka sig sem gátu, en í Skálholti ekki nema á latínu. Sumir af þessum Sublegibus voru nú betur að sér en sumir af Exlegibus og einkum hefi eg heyrt getið um einn mesta gáfuvarg og uppvöðslusegg í Skálholtsskóla, sem forsvaraði sig kröptuglega og talaði latínu strax í skóla fullt eins vel og rector: byrjaði defensionem svona: »Mentitus est Snæbjörnus«, hann var Notarius Scholæ, og lét svo dæluna ganga og skammaði notarios út fyrir ónytjungsskap þeirra í latínu. Biskup Vídalín sagðist ekki hafa þekkt meiri gáfumann, þeir voru samtíða utanlands. Hann dó í Kaupmannahöfn og talaði þegar hann var að deyja, í vinglinu, svo klassiska latínu, að Sigurður gamli Pjetursson dáðist að, og hafði hann vel vit á því, hvað klassiskt var. Þessi maður hét Sveinn, var bróðir Rannveigar Guðlaugsdóttur, móður síra Jóns Matthíassonar. Þessi nóta í skólanum gekk reglulega til í Skálholti eins og allt annað, nokkurnveginn fyrst í Reykjavík, svo fór allt að smáaflagast. Þessi nóta kendi mér samt að þekkja misjafnan þeinkingarhátt minna skólabræðra. Sumir voru stjórnsamir, nokkrir með viti, aðrir ekki. Sumir þóttust mestu menn, ef þeir höfðu mikið syndaregistur að lesa upp fyrir rector, aðrir gáfu lítið um það. Árið sem eg var vicarius, passaði eg vel uppá mitt embætti, enda hafði eg tómlátan notarius; árið eptir varð eg notarius, enda lét eg minn vicarius gera allt, og gilti einu, þó eg hefði enga synd að melda, varð samt að brúka það, sem minn vicarius fék mér í hendurnar,

Þessi nóta náði ekki lengra í Skálholti en til Majus. Þann mánuð var engin nóta brúkuð, enda var sá mánuður kallaður strákamánuður. Hér við ætla eg að bæta sögu, sem fólk er var í Skálholti, meðan skólinn var þar, sagði mér, og hún hljóðar svona: Nokkrum vikum áður en piltar komu í skóla á haustin, heyrðist svo mikið skurk í skólanum, að sumir gátu ekki sofið. Þessa skyldi ekki geta, ef mín eyru hefðu ekki orðið fyrir sömu ofheyrn, fyrsta árið, sem eg var í Reykjavíkurskóla. Skólinn í Reykjavík var þá nokkuð vesæll. Rector G. Thorlacius var nýorðinn ekkjumaður, var af mikill Bacchi cultor; í stuttu máli kom aldrei inn í skólann

frá því um haustið og til jóla. Þá var síra Jacob, sem í neðra bekk fungeraði fyrir conrector Pál gamla, sem bjó á Esjubergi, gerður rector, en síra Brynjúlfur studiosus theol. brauðlaus, eptir 8 ára veru í Höfn kominn uden Examen, settur aptur í neðra bekk. En nærri má geta hvernig kensla gat gengið í neðra bekk, meðan efri bekkur gekk sjálfala. Þeir í efra bekk gerðu ekki annað en hindra þá, sem í neðra bekk vildu líta í kver. Meðal annars tóku þeir það fyrir að halda nærri á hverju kvöldi Snorra. En þess get eg einungis þessvegna, að eptir að dálítil regla kom á í skólanum, svo heyrði eg, og má segja allir mínir skólabræður, á hverri nóttu, mesta skrölt í skólanum; við sváfum í lopti upp yfir skólanum. Þér munið til þeirra öflugu skólaborða, sem lentu á Bessastöðum, og heyrðist okkur eins og verið væri að kippa þeim upp og láta svo skella niður; þeir sem voru hugaðir könnuðu öll rúmin hvort allir piltar væru þar, læddust svo niður í skólann, sáu ekkert og nú heyrðist ekkert, en undir eins og þeir voru komnir aptur upp í rúm sín heyrðist sama skröltið. Þetta er Sidestykke til sögunnar, sem eg heyrði um skröltið í Skálholtsskóla, Þetta er mér leyndardómur.

Allir skólapiltar fengu í Skálholti frían kost, þeir sem voru í ölmusu; hinir fyrir 20 rd. og fyrir kenslu 4rd. Stundum héldu biskupar piltum kost, stundum einhver þar til kjörinn. Um tíma var Sigurður landþingsskrifari skólahaldari þar, og með slíkum dugnaði, að hann fór þaðan auðugur og vel liðinn af skólapiltum, sem þó ekki var hægt að gera allt til hæfis. Eptir hann tók Finnur biskup við, mesti ráðdeildar og dugnaðar maður. Sami maður var bryti hjá báðum. Sami bryti var merkileg persóna þar, og hann sagði mér marga sögu um sína frammistöðu í því embætti, hvaraf eg man minnst; en það var merkilegast, að þessi bryti komst vel af, bæði við pilta og sína yfirmenn. Hans skylda var meðal annars að standa fyrir borðum hjá skólapiltum. Þegar þeim líkaði ekki maturinn svo fékk brytinn hnútur og grautarslettur. Hann lét sem hann sæi það ekki, tók samt eptir þeim, sem frekastir voru í þessu aðkasti og hellir yfir hausinn á þeim heillri grautarskál, í því þeir gengu út úr borðstofunni, sem frekastur hafði verið í þessum gassa. Þetta líkaði þeim, en það lá við þeir dræpu brytann, sem kom eptir hann, sem klagaði þá fyrir þeirra bernskubrögð, en hefndi sín aldrei.

sjálfur. Þeir skólapiltar gáfu nokkuð skrítileg nöfn þeim mat, sem þeim var borinn. Þessara nafna hefi eg heyrt getið: kýrspað, sem kom stundum á borð hjá þeim, kölluðu þeir Skammbeinsstaða Jarp, vatnsgraut: Þorgarð, mjólkurgraut: Ingjald. Meira man eg ekki af þessum nöfnum. Yfir höfuð voru þeir, sem stóðu piltum fyrir kosti, í slæmri stöðu. Rector fylgdi skólapiltum móti biskupum og skólahöldurum. Einu sinni voru þeir svo djarfir að gera út fjóra af sínum flokki suður til að klaga Finn biskup fyrir stiptamtmanni, tveir af þeim voru vestfirzkir. Þeir fengu, að einn þeirra sagði mér, góða áheyrn. Þegar einn þessara er dimitteraður vorið eptir, sendiförin gerðist í jólaferíunni, finnur pilturinn sér skylt að kveðja biskup. Þá segir biskup. »Þig Þ. skal eg aldrei vígja« Strákur svarar: »Jeg hefi þá þá æru að kveðja yður og geistlegheitin í einu lagi«, hver seinna siglir, attesterar og verður hér á landi sýslumaður, og hann var Ísfirðingur og kallaði sig Isfjord. Hans son var grosseri Kjartan Isfjord. Það þótti mesta nauðsyn, og var það líka, að skilja þessar matarveitingar frá skólahaldinu og láta hvern sjá sér fyrir kosti, sem í skóla gekk, Það gat ei skeð í Skálholti; í Reykjavík var það auðvelt, á Bessastöðum aðeins mögulegt, það hefur reynslan sýnt, en klúðurlega gekk það, svo mikið man eg, og svo þótti Moltke, sem setti þangað oeconom, sem stóð lengur en nokkur annar í þeirri slæmu stöðu. Skólinn á Bessastöðum byrjaði með oeconomí, þá sungu piltar fyrir máltíð í borðstofunni þenna sálm:

»Í hug til þinnar hjálpar stefnum,
hagtær þú vorum litlu efnum,
björg lífsins drýgi blessan þín,
bjóð frá oss víki hungurs pín.«

Þetta vakti óróa og einn af skólans kennurum sagði við skólapilta: »Hvað marka eg ykkur, ef þið mættuð ráða, svo vilduð þið helzt hafa hrísgrjónagraut daglega með kanel og sykri yfir og stórsteik á eptir.«

Gullsmiður Thomsen, ærlegur maður, ekki samt heilagur, þeir eru ekki margir, hann var svo góður við þá, sem ekki höfðu ölmusu í skóla, að í staðinn fyrir 30 speciur, sem þeir áttu að gefa með sér, tók hann ekki nema 26. Þetta þáðu

drengirnir, og að því finn eg ekkert, en hitt get eg ekki liðið, að nú kennir fjandinn sumum að síkja sér út gamlar þýzkar speciur fyrir danskar, fá milligjöf 16, 20, 24 sk. á hverri, reka þær gömlu í Thomsen, láta i vasa sinn skildingana, sem þeir fengu í milligjöf. Aðra sögu á rek við þessa, þó í vissu tilliti betri, veit eg líka. Ríkur maður á son í Bessastaðaskóla, sem ekki hafði ölmusu; í staðinn fyrir að gefa með honnm eptir skyldu, já lagaskyldu (og maðurinn var löglesinn) 30 speciur, fær hann honum 20, og dirfist að segja: meira áttu ekki að hafa, meira færðu ekki. Með öllu mínu spaklyndi eða gunguskap finnst mér eg hefði ekki getað á mér setið að halda þessu máli fyrir rétt, og látið dæma mér meðgjöf með drengnum fullar 30. spec. og málskostnað að auki. Þetta er mér nú raun að vita, en eg hefi líka fengið að smakka lífsins gleði og meðal annars þessa. Fátækur húsmaður deyr í Hafnarfirði, ekkjan kemur til mín, hún situr með 7 börn, það elzta 10 ára, og biður mig leggja til með sér við hreppstjórann, að bjarga sér eitthvað. Þér verður ekki bjargað með öðru en koma fyrir börnunum. Æ! eg vil ekki missa þau frá mér. So, hver sveit ætli standist við því að leggja þér eins mikið og þú þarft. Hún þegir. Hvað heldur þú þér dugi um árið? Hún segir 30 rd. árlega. Jeg: þú skalt fá þá, en farðu vel með börnin. Hreppstjórarnir gera ekki ógilt það sem eg lofa. Nú kemur það sem mér þykir elskuverðast hjá þessari konu. Krakkar hennar dafna vel, 5 til 6 ár fær hún árlega þessa 30 rd. Nú kemur það mikla upsaár í Hafnarfirði. Strákar hennar tveir gátu fengið hlut í veiðinni, enda kemur kerlingin til mín, þakkar mér fyrir það, sem gert var og segir: Nú þarf eg engan styrk meir. Þetta fannst mér svo hjartanlega ærlegt, eg held einhver hefði þagað og þegið 1 eða 2 árin 30 rd. í viðbót við sinn afla. Optar hefi eg orðið var við nokkuð líkt. En Herrann gæfi eg gæti gleymt sumum hrekkjum manna, sem eg hefi orðið var við, því það getur komið inn hjá mér mannhatri, sem er, einsog allt hatur, nóg plága, einsog kærleikurinn mesta unaðsemd.

Mig furðar hvað lítið menn komust af með i Reykjavíkurskóla, ölmusan var í seðlum 23 rd. og nokkrir skildingar, átti að vera 24 rd., hitt var dregið af til að láta læknirinn í Nesi fá þóknun fyrir hans function við skólann, ef piltar urðu veikir. Með sparnaði dugði þessi ölmusa, enda var það

merkilegt, hvað veslings húsfólkið þar í kotunum tók lítið kaup fyrir þjónustu og matartilbúning, fyrir persónu allan veturinn, 8 mánuði, 3 kúrant dali. Ekki vöndust fátækir piltar þar á sællífi, þar smakkaði eg ekki og margir fleiri hvorki kaffi né the. Engan mat smökkuðum við fyrr en kl. 12, þá vatnsgraut með smjöri í. Önnur máltíð kom, eptir sem dagur var langur eða stuttur, í rökkrinu, harður fiskur og kaka með, og svo ekki meira, og eg þóttist lifa í sælgæti. Þeir sem áttu ríka að lifðu betur, keyptu sér rosínur, kaffi etc., já sumir seldu bræðrum sínum rosínur, en þær voru dýrar, eg má segja 3 skildinga. Seinni ár mín í skóla fékk eg heilan hnefa af rosínum fyrir latínskan stýl, sem sumir fengu hjá mér yfir þeirra componenda. Sumir voru svo framsýnir að þeir keyptu kjöt af Akurnesingum, létu sjóða og héldu reglulega auction, bóglegg, herðarblað, rif af síðu etc. rétt undir vökulok; prísinn varð hár; þar gat eg aldrei keypt neitt. Þeir seldu líka sumir lectíu-kver, sem örðugt var að fá, já jafnvel skipuðu novis að kaupa, Það átti og að þvínga mig til þess, eg sagðist ekkert geta keypt; og þú skalt, var svarið. Mér var svo slegin til Nepos fyrir 8 mark kúrant, útslitin skræða. Þegar átti að fara að borga, því betalingsfrestur var gefinn, var eg eins fátækur og áður; sá sem átti þenna Nepos varð svo að hafa hann eða ekkert. Á Bessastöðum græddu sumir piltar í skóla, meðan hver bjó fyrir sig, aðrir urðu þar skuldugir, já sumir allt að 100 rd. Það var interessant að sjá þá mætast í Bessastaða stiga, annan ganga upp á lopt með fulla grautarskál, hinn koma niður stiga með tóma, einkum þegar sá, sem kom með tómu skálina, rak olbogann í hinn, sem hann mætti, bara til að láta dálítið spillast úr henni. Svo voru kokkarnir á Bessastöðum þá orðnir lærðir, eins og hirðmenn Jacobs I. á Englandi, að þeir töluðu annaðhvort orð á latínu. Hver skólapiltur fékk þeim kippu af spaðbitum með sínu merki við, sem kokkurinn varð að standa skil á.

Eg hætti seinast við spaðbitana á Bessastöðum, en eg hverf aftur til skólans í Skálholti, sem eg samt veit ekki annað um, en eg hefi frétt. Eg minnist þess þá, að bæði í Skálholti og eins í Reykjavík voru allir skólapiltar eins búnir, nefnilega í sortaðri mussu og buxum úr íslenzku vaðmáli. Buxurnar náðu aðeins niður fyrir hnéð. Þeir voru í mó-

rauðum sokkum venjulegast, nema á sunnudögum, þá í svartbláum, eða á seinni árum í ljósbláum, sem í Reykjavík var haldið fallegra, og með skotthúfur sýnt og heilagt með grænum eða svörtum silkiskúf og vírborða um legginn, sem ekki kostuðu mikið í samanburði við þá svo kölluðu hólka, er kvennfólk nú tíðkar. Þetta gerði skólapiltahópinn miklu fallegri á að líta, heldur en eptir að þeir fyrst á Bessastöðum urðu gulir, gráir, grænir, hvítir, rauðir, bláir, og þá urðu mussur að treyjum með ýmislegu sniði. Hannes son sinn lét Finnur biskup ganga í stólu (!) og í vaðmálsmussu. Þó mussa sé nú aflögð víðast, kanske sé þó til einhversstaðar á landinu, eins og stuttbuxur voru í Kaupmannahöfn skömmu eptir næstu aldamót, en ekki nema á öldruðum höfðingjum, sem ekki létu móðinn leiða sig. Merkilegt er það, sem eg hefi heyrt, að eptir að þær síðu buxur urðu móðins, svo hafi allir þeir, sem vildu hafa ádíense hjá kongi, orðið að kaupa sér stuttbuxur til að birtast í, samt silkisokka og skó með spennum. Sá sem fyrstur kom hingað í síðu buxunum utanlands frá var líka kallaður Herrann í hólkabuxunum. Að meiri menn brúki hólkabuxur, sem ekki ganga í drasl ið, það læt eg vera, en að hver vinnudrengur skuli vera hverdagslega svo búinn þykir mér mesti ójafnaður við okkar vinnukonur, þjónustur drengjanna, því þegar þessir trassar, og það eru flestir drengir, væta sig, svo verða þær ekki einasta að fá þeim þurra sokka, heldur líka þurrar buxur, já hólkabuxur bæði ytri og innri, því nú verða nærbuxur líka að vera hólkabuxur; heiminum fer fram! ætli það jakki ekki við að tarna.

Kennsluna í Skálholti af afspurn þykist eg vita þetta um, en ekki nema í kringum ár 1770, þá gekk faðir minn þar í skóla. Þar voru bara tveir kennarar, rector og conrector. Báðir kennarar, sem í hans tíð kenndu í Skálholti, voru ágætir; ekki veit eg með vissu hvort þeir voru eins skapaðir til að kenna, einsog þeir voru vel að sér. Hannes biskup vígði rectorinn, sem hét Bjarni Jónsson, og sagði í vígsluræðunni: »Eg tel mér það til æru að eg hefi setið við fætur Gamaliels.« Svona voru compliment Hannesar biskups. Einn viss maður, sem ekki var mikið fyrir að hrósa öllu, hann hrósaði bara svo eg heyrði Hannesi biskupi og þessum rector. Páll Jacobsson, sem var conrector um sama leyti og Bjarni, var að sönnu ósigldur, en líklega ágætur Latiner, því eg vissi til þess,

að þegar einn af hans lærisveinum, Þorvaldur Böðvarsson, var að búa undir skóla son sinn Böðvar, nú emeritprest á Melstað, hafði hann latínska grammatík, sem þessi Páll hafði samið, og honum þótti hún betri, en sú sem brúkuð var þá í skóla. Þegar þessir voru kennarar í Skálholti um þau ár, er hér eru tiltekin, svo eru líkindi til að vel hafi farið, því báðir stunduðu vel sitt embætti. En kennsla var þar rígbundin og allt miðaði til þess, að gera lærisveina vel að sér í latínu og biblíufróða. Þannig var piltum gert að skyldu að tala latínu og þá hafði opt heyrst: nigrissimus og bonissimus og transbrekanispicio. Kennslan var svoleiðis rígbundin, að í neðra bekk áttu piltar bara að læra svokallaðar artes: Donat, Grammatík, eg held Melanchthons, sem Jón biskup Árnason lagði út og lét prenta í Kaupmannahöfn, lesa Nepos og læra gríska grammatík, sem var ekkert nema hneigingar orðanna skrifaðar. Þeir sem voru tvö ár í neðra bekk lásu einn guðspjallamann í grísku, en urðu að leggja hann út á latínu, enda þó þeir ekki skildu latínu; svo lásu þeir tvær bækur Ovidii Tristium. Í historíu lærðu þeir latínskan bækling Holbergs historiam de quatuor monarchiis, og nú er sá sálmur á enda.

Í efra bekk var í latínu bara lesin 1., 2. og 6. bók Virgils Æneis og ekkert annað í latínu; historia de quatuor monarchiis repeteruð og nú kom bókin Völdickes Theses Theol. Theticæ, sem enginn gat skilið, en allt nýja Testamentið á grísku urðum við að blaðra um eitthvað og það á latínu. Þessi sama regla viðhélst í Reykjavík. Á 4 dögum vikunnar höfðu piltar latínskan stýl bæði í Skálholti og Reykjavík, einn dag explicandum, einn dagurinn var frí, og auk mánudagsins líka sunnudagurinn í Reykjavík, en í Skàlholti ekki. Þá átti dómkirkjupresturinn að yfirheyra pilta í vissum kafla af Ponta og Biblíukjarnanum gamla. Á hverjum laugardegi var og piltum í Skálholti lesið fyrir thema, sem þeir áttu að pangera yfir næstu viku, því Prosodía var þá kennd; þetta kom hvorugt fyrir í Reykjavíkur skóla.

Enn fremur var það regla í Skálholti, að á undan kvöldsöng áttu piltar til skiptis að lesa kafla af Luthers catechismus, annað kvöldið á íslenzku, hitt kvöldið á latínu. Þessum sið komu piltar af í Reykjavík og varð þó íllt út af eða stríð. Kvöldsöng í Skàlholti mátti hvergi halda nema í dómkirkjunni.

Undirgangur var úr skólanum, sem farinn var í byljum; hann var dimmur og draugalegur, og einu sinni var skólapilti hrint þar, svo hann beið þar af bana. Biskupar fóru þangað líka. Þegar Hannes biskup kom til stólsins vildi hann eitthvað laga í Skálholti. Svoleiðis gjörði hann Compendium af Karls Historie og vildi þetta Compendium væri lært, en það gekk tregt, menn héldu sér við gömlu lögin. Hann vildi piltar lærðu logik, sem var samin eptir Risbrechts, þó í Compendio, og sem raunar var ekki annað en nokkurskonar universel grammatik. Lítið varð úr öllu þessu. En eg hætti nú um Skálholtsskóla.

Í Reykjavíkurskóla var engu breytt viðvíkjandi því, sem átti að lesa í latínu og grísku. Þá var samt hætt að kenna Prosodia, hætt að láta prestinn hlýða yfir Ponta eða Biblíukjarnann, þó yfirheyrði biskup á vorin úr Ponta og spurði þá sem beinströnduðu í honum, hvort þeir væri confirmeraðir. Einstaka piltur kom í Reykjavíkurskóla, sem áður hafði lært í heimaskóla, sumir Guldbergs Naturlige Theologi, aðrir Bastholms Religionsbók samtíða við Balles barnalærdóm og þeir frelsuðust frá að læra Völdickes Theses, sem ekki var neinn hagnaður fyrir þá, sem seinna sigldu og stúderuðu guðfræði. Boðið var að piltar skyldu læra Geographia og Arithmetica, en hvorugt var þar kennt í minni tíð, engin danska, engin íslenzka, en okkur bara sagt, að við ættum að læra þetta, og það gekk þá upp og niður. Læt eg það allt vera, ef nokkur admonicula discendi hefði verið þar til. Compendium af Sommerfelds Geographie sást þar, en engin landkort; öllum sem komust í efra bekk var gefin stiptamtmanns Ólafs Arithmetík, en það var í sjálfra piltanna valdi, hvort þeir luku upp bókinni nokkurntíma eða aldrei. Það eina lexicon, sem var til í Reykjavíkur-skóla, var Nucleus Ísl., sem ekkert registur hefur, Calepin, Sorannus, Veissm. þýzk lexica. Þar sá eg þó Nucl. Dan. sem var með registri. Lexíu-kver urðu menn að kaupa, sömuleiðis authores, skræður útslitnar, og stundum man eg soddan ekla var á þeim, að 7 og 8 urðu að horfa á sama exemplar, þegar einn af oss bullaði einhverja íslenzka útleggingu yfir pensum, en aldrei lögðu kennendur út það sem lesa skyldi. Mig furðar að nokkur gat lært nokkuð, en hver gat þar lært nema þeir, sem höfðu lag á því að verða αὐτοδίδακτοι, sem eg held mikið af,

og held, þó þeirra lærdómur, sem svo læra, sé ekki formel, svo verði hann þess drjúgari í realiteten.

Í minni tíð í skóla 1795—1799 voru þar kennendur að nafninu G. Thorlacius, maður lærður en 1795 frá heiminum (v. ante). Með nýári 1796 kom síra Jacob, seinna prestur á Gaulverjabæ, hann var Prorector til 1800, mesti gæzkumaður, allvel að sér, einkum latínu, en ekki fjölhæfur. Þá kom í hans stað til að vera kennari í neðra bekk mesta góðmenni, en gáfulítill, en ekki hefi eg þekkt mann, sem með meiri samviskusemi hafi viljað gegna sinni köllun en hann. Hann féll uppá það, að leggja út með oss í neðra bekk fyrstu bók í Ovid Metamorph. Mér var að því mesta ánægja, mörgum af mínum skólabræðrum líkaði það ílla. Blessuð sé Brynjúlfs minning, hjá honum sá eg fyrst landkort. Og þessi maður var, má eg segja, flæmdur burt úr skóla; því hann var svo gamaldags, að hann vildi innleiða þá gömlu disciplin, vildi hýða þá, þó ekki nema í hendurnar, sem ekki kunnu; hann hýddi þá einn, og fleygði sópnum á skólagólfið að því búnu og gekk inn til sín. Nú komu efribekkingar og þótti þetta nýr siður, tóku sóflinn og söxuðu hann niður og dreifðu honum um skólagólfið, þar sem þeir vissu, að hann var vanur að ganga um, þegar hann las Thema Componendi. Hann kemur eins elskulegur og hann var vanur, tekur eptir þessu undir fótum sér og giskar á, hvað þetta sé, rýkur inn til sín, því hann var bráðlyndur, hringir, það var signum til famulus að koma, hans famulus var Eyjólfur Guðmundsson, bróðir síra Eggerts í Reykholti, og heimtar af honum sinn sófl. Þar stóð Eyjólfur í vanda. Kort: Brynjólfur segir: inn í þenna skóla kem eg ekki framar. Biskupinn sat í Skálholti, en Geir, sem þá var prestur í Reykjavík, hafði commission fyrir hann að gegna biskupsverkum við skólann. Hann kemur, heldur rannsókn, enginn meðgengur neitt, enginn vissi hvernig sópurinn var eyðilagður. En þegar þessi mikli gáfumaður hættir rannsóknum, segir hann: Einu sinni hefi eg verið secundus a supremo, en sá var einmitt maðurinn, sem hafði saxað sópinn, og einmitt sá, sem B. hafði sýnt mesta vinsemi og sem eg hefi heyrt hafi játað fyrir síra B. synd sína og fengið fyrirgefning, enda má nærri geta, að þegar þessi piltur var secundus a supremo, þegar þetta vildi til, svo var hann dimittendus.

Síra Brynjólfur varð dómkirkjuprestur í Reykjavík, þegar Geir varð biskup, aldrei gleymi eg því, hvað B. var guðlegur, þegar hann talaði um eitthvað guðlegt við mig og aðra sína lærisveina. Eptir B. kom í neðra bekk til að kenna mikill gáfumaður, þá var eg kominn í efra bekk. Sá maður tók sér ekki heiminn nærri. Hann stundaði meir en sín skólastörf að spila pólskpas í Reykjavík, sem þá var mikið títt eins og allstaðar hér þá. Hann vissi ekki að lugeo hefir í perfecto luxi. Þar eptir kom Jóhann Árnason, lingerður að sönnu í lærdómi, en elskulegur, guðhræddur maður, enda bjóst hann daglega við sinni burtför héðan af jörðu. Hann var sonur Árna biskups Þórarinssonar, merkilegs manns. Þessi Jóhann dó úr svefni hjá konu sinni Þóru, systur Arnórs í Vatnsfirði og móður Arnórs sýslumanns.

## 2. Frá Hólaskóla.

Eptir frásögn Dr. Hallgríms Scheving.[1])

Hinir sjö efstu piltar í efra bekk voru af kennurum kosnir notarii og vicarii. Þessir notarii voru: notarius scholæ, n. cubiculi, n. templi, n. platearum og n. oppidi; tveir þeirra höfðu vicarios. Rector og conrector kusu þessa umsjónarmenn á hverju hausti og völdu til þess þá af piltum, sem lengst voru komnir og bezt að sér, svo þeir hefðu yfirburði yfir aðra pilta einnig í því, og gætu því betur haldið virðingu sinni með völdum þeim, sem þeir höfðu yfir skólabræðrum sínum. Þessir notarii og vicarii voru vítalausir (*exleges*) og áttu að gefa gætur að siðferði annara pilta, sem vítandi voru (*subleges*) og sjá um, að þeir hefðist ekkert það að, sem fráhverft var velsæmi og góðri reglu, en ef út af því brá, áttu þeir bæði að vanda um það við þann, sem gjörði sig brotlegan og beran að slíku, og *nótera* hann fyrir það; það er, teikna hjá sér þær yfirsjónir, sem piltum urðu á í

[1] Jón Arnason bókavörður hefir sér til minnis skrifað hjá sér þessar lýsingar á skólalífi á Hólum eftir munnlegri frásögn Dr. Hallgríms Scheving, en eg hefi sett hinar sundurlausu greinar saman í heild, slept úr endurtekningum og lagað ritgjörðina nokkuð.

*Þ. Th.*

hvers yfirboðara foro (umdæmi); þessar uppteiknanir á yfirsjónum pilta hétu *nótur*. Þessum embættismönnum voru allir piltar skyldir að hlýða, annars olli óhlýðnin enn meiri sektum, því það jók mjög hegning pilta og spillti málstað þeirra, ef yfirboðari hafði aðvarað þá um eitthvað, en þeir þverskölluðust og fóru sínu fram sem áður.

Auk notarii-embættanna, sem þótti bæði virðing og hagnaður við, þar sem þeir voru vítalausir, voru til nokkrar kvaðir, sem gjörðar voru hverjum pilti að skyldu að gegna eptir röð, sína vikuna hver. Þessar skyldukvaðir átti sá, sem þeim gegndi að takast á hendur á laugardagskvöldin. Fyrsta og veglegasta kvöðin, með því hún snerti rector, var sú, að geyma skólavöndinn frá einu laugardagskvöldi til annars. Af þessari kvöð fékk sá embættisnafn sitt, sem geymdi vöndinn, og var hann kallaður *custos* (vörður, vandarvörður), af því hann átti að gæta vandarins, svo engir aðrir næði í hann, meðan hann var í hans geymslu, og koma með hann inn í skólann, þegar rector heimtaði fyrir *vices* á laugardagskvöldin. Vöndurinn (*virgæ*) var hafður til að strýkja þá pilta með *inter vices*, sem misbrotið höfðu næstliðna viku, og var það allur annar vöndur en skólasópurinn. Önnur kvöðin var í því fólgin, að hann átti að sópa skólann á hverju laugardagskvöldi.[1]) Báðar þessar kvaðir voru heldur óþokkasælar, og keyptu margir piltar þær af sér. Hin þriðja kvöðin var það,

---

[1] Aðbúnaður hefir verið mjög slæmur á skólunum og óþrifnaður mikill; það er auðséð á ferðabókum útlendinga á fyrri hluta 19. aldar, að þeir undrast stórlega, að nokkur andlegur lífsneisti skyldi geta tórað í svo miklum óþrifnaði og skrælingjaskap, sem þá var óneitanlega á Íslandi í hinu ytra. Náttúrufræðingurinn William Jackson Hooker kom að Bessastöðum 1809, hann var mjög réttorður maður og áreiðanlegur, hann lýsir skólanum á þenna hátt: »Byggingin sjálf er úr steini og þolanlega góð, enda hefir hún nýlega hlotið töluverða viðgerð, en óþverrinn innanhúss er þar svo mikill, að hann getur varla verið meiri í hinum verstu fátækrastofnunum (poor-houses) í voru landi. Stigi þakinn þykkri skán af saur, lá upp í svefnherbergi, sem var jafnvel í ennþá verra sóðaskaparástandi. Rúmstæðin voru eingöngu upphækkaðar umgjörðir eða þó heldur kassar úr tré, fylltir með hrúgum af marhálmi (zostera marina), sem safnað hefir verið á nálægri fjöru; auk þess voru í rúmunum tvö ákaflega gróf ullar-brekán og enginn annar aðbúnaður. Í hverju rúmi sváfu þrír skólapiltar, svo að

að custos átti á hverjum sunnudagsmorgni að fara inn í stað til skólaþjónustunna, með öll óhrein föt af piltum, heimta af þeim önnur hrein og færa piltum þau út aptur. Þá var hin fjórða kvöðin sú, að custos átti að blanda á kútinn; sýruna átti hann að fá af rectors-búi, og fara svo með kútinn út í læk og fylla hann þar af vatni. Ef lækurinn var frosinn, varð custos að vaka á læknum og ausa svo vatninu á kútinn. Það starf var kallað á Bessastöðum munera Bacchi og þeir, sem um blöndukönnuna áttu að sjá, Bacchi. Af því sem nú var sagt, má sjá, að piltar á Hólum hafa haft litla aðhlynningu af þjónustum sínum, þar sem þær gerðu ekki svo mikið sem að færa þeim fötin, því síður að þær sópuðu skólann, eða byggi um þá, því það urðu þeir sjálfir að gera og hver bjó um sig.

Nótur komu fyrst fram á laugardagskvöldin. Þegar tímar voru úti á laugardagana, og dimt var orðið, fóru allir notarii og vicarii þeirra með ljós upp í svefnlopt, sem voru

---

þar voru aðeins 8 rúm fyrir 24 lærisveina. Hið ógurlega loptleysi í þessu herbergi og hinn voðalegi og hneykslanlegi óþefur, sem varla var hægt að þola, knúði oss til að flýta okkur inn í bókasafnið, sem var lítið og óhreint herbergi; þar lágu í miklum ruglingi ýmsar bækur, flestar á latínu og grísku og margar af þeim um guðfræðisefni. Samt sem áður á skólinn færa kennara, þar sem eru þeir tveir Jónsonar. (Steingrímur Jónsson og Jón Jónsson.« (Steingrímur Jónsson síðar lektor). W. J. Hooker: Journal of a tour in Iceland in the summer 1809. London 1813. Vol. I, bls. 351-52. Árið 1834 kom John Barrow jun. að Bessastöðum og sýndi Þorgrímur skólaráðsmaður þeim félögum skólann, bekki og svefnlopt, og segir Barrow, að allt hafi innanhúss verið í aumasta ástandi og mjög óhreinlegt, svo það líti út fyrir að skólinn hafi ekki verið þveginn eða hreinsaður í mörg ár. Um svefnloptið segir hann. »Á svefnherberginu hefði mátt villast og halda að það væri villidýrabúr (menagerie), þar voru veggjastúkur úr tré beggja megin fyltar með heyi, hálmi og einhverju af óhreinum rúmfötum, fyrir hverri var rennihurð, sem algjörlega lokaði hverjum klefa. Eg varð forviða og bauð við, er eg heyrði, að tveir drengir sofa saman í þessum básum eða klefum og að þrír ungir menn til skamms tíma höfðu hvílt saman í sömu lokrekkju.« John Barrow: A visit to Iceland in 1834. London 1835, bls. 228—229. Við svona aðbúnað ólst sú kynslóð upp, sem með dugnaði sínum og þreki lagði grundvöllinn undir framfarir Íslands og viðreisn á 19. öld. *Þ. Th.*

yfir lestrarstofunum, er heitið hafa frá alda öðli »bekkir«, þegar um hefir verið rætt, og liðu þeir þá engum öðrum piltum að koma þangað upp á meðan. Þar skrifuðu þeir upp nöfn þeirra pilta, sem brotið höfðu um vikuna, hvers útaf fyrir sig, efst á aflangan pappírsmiða og neðan undir nafn hans skrifaði notarius scholæ, ef pilturinn hafði orðið brotlegur í hans foro, brotið, þar neðan undir á sama miðann skrifuðu hinir aðrir notarii þær yfirsjónir, sem þeir kærðu á hinn sama, ef þeir höfðu nokkrar, svo allar yfirsjónir hvers um sig á vikunni voru tilfærðar á sama miða undir nafni hans. Þegar notarii höfðu á þenna hátt notérað alla þá pilta, sem brotlegir höfðu orðið næstliðna viku, fóru þeir með allar nóturnar ofan, skipuðu hverjum pilti í sæti sitt, kölluðu á rector og afhentu honum nóturnar, til þess hann skyldi úrskurða og framkvæma hegningu fyrir hvert afbrot. Rector kom svo inn með nótubaggann, en áður hann byrjaði að lesa upp nóturnar, kallaði hann þessum orðum: »Custos, adfer virgas« (komdu með vöndinn hrísháldari). Þegar custos, hafði skilað vendinum, fór rector að lesa upp nóturnar, byrjaði hann á þeim sem efst sat, af þeim sem vittir voru (subleges), kallaði hann fram fyrir sig úr sætinu og þuldi fyrir honum nótuna. Þóttu þá einatt smáar yfirsjónir tiltíndar af notariis, enda sættu þær því minni hegningu. Til dæmis um það, hvernig hinar almennustu sakargiptir voru orðaðar í nótunum, má geta þessara fáu: incomptus et illotus ad preces (ógreiddur og óþveginn við bænir), turbavit ordinem (riðlaðist úr röðinni, þegar þeir gengu í kirkju), risum movit inter preces os ringendo seque in scamno jactando (kom öðrum til að hlæja við bænir, með því að skæla sig í framan og skekja sig á bekknum). En þótt nótur væri léttvægar eins og tvær hina fyrstnefndu, tók rector þær að vísu æfinlega til greina, svo að það liti ekki svo út, sem hann rýrði með því álit embættismanna þeirra, sem hann hafði sjálfur sett í sinn eigin stað til að hafa gætur á framferði pilta; en væga hegning lagði hann við vægum afglöpum. Þó var ekki svo léttvæg yfirsjón, að hann ekki hýddi á aðra hönd hlutaðeiganda, sem hafði misséð sig og byrjaði þá með þessum orðum »porrige manus« (réttu fram hendurnar), þó ekki væri hýtt nema á aðra og sló svo á hana meir til málamyndar en muna. Þriðja nótan, sem að ofan

er getið, var ein af þeim verri, og allt eins þær nótur, sem gefnar voru fyrir þrjózku og mótþróa við yfirmennina (notarios), enda urðu þeir afbrotamenn fyrir talsvert þýngri og alvarlegri ráðningu en hinir, því rector mat svo mótþróa við notarios, sem hann væri sýndur honum sjálfum. Fyrir öll afbrot, sem voru svo löguð, að þau lýsti illum manni og óhlutvöndum, óhóflegum gapaskap og flumusaæði, var þó ráðningin, sem rector lagði á, alvarlegust; því þá hlífðist hann ekki við að hýða afbrotsmenn á bert bak, með því pilturinn varð að leysa sjálfur niður um sig, taka upp bolföt sin og leggjast á grúfu á bekk þann, sem sumir nefndu »sóta«. Þótti það svívirðilegust hegning, sem gat framkomið við nokkurn pilt, þann er ekki var með öllu vísað á bug úr skóla fyrir óknytti. Allar þessar hegningar, sem piltar urðu fyrir af rector, voru kallaðar vices, og hét það að »útstanda vices,« að verða fyrir hirtingunni, hvort sem hún var í meira eða minna lagi, en descensus hét hýðing á beran hrygg, af því mest niðurlæging var í því fólgin.

Þó notarii væru dyggir í því að tína til hverskonar smámuni, hvað þá hin stærri afglöp, í nótum sínum, voru það allt að einu einstöku afbrot, sem þeir skirtust við að setja í nótur og gera rector kunnug, ef þeim þótti þau of svívirðileg til að bera þau upp, en þó ekki svo við vaxin, að þau gætu bakað þeim, sem brotið hafði, algjörðan útrekstur úr skóla. Þannig var það einn piltur, sem þar að auki var heldur illa þokkaður að öðru leyti, að hann gerði sér upp veiki og þóttist ekki geta farið á fætur til að gegna lestri, og lá svo eptir í rúminu einn morgun. Þegar leið fram á daginn, fór náttúran að segja til sín, svo að hann gat ekki komist undan að gegna henni. En út vildi hann ekki fara, af því leiðin úr skólanum, eða göngin, lágu fram hjá stofudyrum rectors og conrectors og kynni hann því að hafa mætt öðrum hvorum þeirra, eða þá öðrum á þeirri leið. Hann tók því það ráð, að hann lypti upp sænginni í rúmi sínu og sprændi þar í viðinn á rúmbotninum. En með því að skólaloptið var illa plægt, hélt það hvorki vindi né vatni, svo allt lak ofan í skólann á efra bekkjar borðið, skamt þar frá, sem rector var að leiðrétta stýla piltanna. En þeir gátu þó stillt svo til, að hann varð ekki áskynja um, af hverjum völdum lekinn var. Fyrir þenna grikk, sem notarii aldrei gerðu uppskátt um fyrir

rector, tóku þeir þenna lymska skólabróður sinn, með vitund allra pilta, og afhýddu hann, án þess nokkur vissi utan skóla. Þesskonar ráðning hét snorri og að »halda snorra« þeim, sem varð fyrir ráðningunni, en líklega hefir þetta nafn komið upp af því, að allir piltar áttu að leggja eitt vandarhögg hver á hrygg hins seka.

Af þessari aðferð má sjá, að notarii tóku sér, þegar svo bar undir, ærinn myndugleika og jafnvel meiri en rector hafði nokkurn tíma til ætlað, enda bólaði á því sama í fleiru, en ekki var það sjálftekið vald, að þeir sættu aldrei neinni hirtingu eða hegningu, heldur var sú undanþága sjálfsagður skylduskattur, sem fylgdi notarii-embættinu; en hitt var það, að þeir komu opt fram með það, að piltar skyldu búa um rúm þeirra, því hver piltur átti að búa um sitt rúm og því vildu notarii koma á hina. En það tókst þeim aldrei og báru subleges fyrir sig forna venju frá ómuna tíð og forn dæmi, sem sýndu, að slíkur yfirgangur hafði notariis aldrei haldist uppi.

Eins og notarii voru djarftækir til réttar síns stundum yfir piltum, og vildu jafnvel vera djarftækari en þeir máttu, eins voru þeir á hinn bóginn forgöngumenn þeirra til þess, sem gott mátti af leiða. Einu sinni var sá rector á Hólum, sem þótti góður sopinn, og drakk ekki aðeins á frídögum og á laugardögum eptir tíma, áður en hann fór að halda vices, heldur hvarflaði hann og að brúnkollu opt í miðri viku og skirtist ekki við að fara svínkaður inn í tíma sína. En þegar svo stóð á honum, gætti hann lítt sannsýni, og þó piltar kynnu reiprennandi lektíur sínar og gætu skilað þeim fullum fetum, óð hann bæði fram fyrir og aptur fyrir lektíurnar, og spurði þar úr bókinni, sem honum sýndist, þó hann hefði aldrei sett þann kafla fyrir, svo með þeim hætti stóð sá bezti sig ekki betur en sá lakasti. Þetta háttalag féll piltum hörmulega illa, og þó þeim verst, sem bezt voru að sér, en sáu sér þó til einskis að kæra þetta athæfi rectors fyrir biskupi, sem þá var bæði afskiptahægur og gunga og mikill vin rectors. Aptur á móti kveinkuðu piltar sér við að kæra rector, sem þeim var hugþekkur að öðru, fyrir Stefáni amtmanni, er bæði var skörungur í stjórn sinni og hafði ýmugust á rector, sem hér átti hlut að máli, því þeir óttuðust, að ef þetta háttalag væri kært fyrir amtmanni, mundi það kosta rector embættið.

Notarii báru sig þá fyrst saman um þetta og síðan báru þeir málið með öllum vandkvæðum þess undir aðra pilta og þóttust á hvorugan þann hátt, sem fyrr var ávikið, geta afstýrt þessum óvana rectors, svo hættulaust væri fyrir hann og þó með árangri fyrir þá. Þeir tóku þá til þess, sem brallað hafði verið áður í viðlögum, þegar piltar vildu koma geig að einhverjum, eða láta i ljósi óánægju sína, að þeir skyldu »berja bombalda« fyrir rector, og sjá, hvernig hann skipaðist við það. Notarii voru frumkvöðlar að þessu ráði, og að því hurfu allir piltar með þeim. Þeim kom saman um, að þeir skyldu berja bombaldann á mánudegi, og stilla svo til, að þegar rector hringdi með bjöllu á skólagaungunum til morgunbæna, skyldu þeir byrja bombaldann í stað bænanna. Þessi ráðagjörð fór fram, því undir eins og rector hringdi til bæna einn mánudagsmorgun, tóku fjórir hinir efldustu af piltum efra bekkjarborðið og hófu það upp með svo miklu afli, að það skall í skólaloptinu, og skeldist niður á gólf aptur. Þetta gekk hvað eptir annað langan tíma, en á meðan tóku aðrir piltar barefli og fjalir, skeldu þeim á borð, bekki og þil, þá tóku þeir og bekkina sjálfa og slógu þeim við þilin eða skeldu þeim niður í gólfin; var það einsog berserksgangur kæmi á alla pilta, sem nokkuð voru að manni, en þeir, sem minnstir voru fyrir sér, voru látnir sitja uppi í skólagluggunum, svo að hvorki sæist inn, né þeir yrðu fyrir skakkafalli af gauragangi hinna mannskapsmeiri. Meðan þessi glufrugangur fór fram, lék ekki einungis allt skólahúsið á reiðiskjálfi, heldur einnig rectorsstofan, sem sami veggur var undir öðru megin og skólahúsinu, og það svo, að bollapör, sem hann átti uppi á hyllu í stofunni, hrukku ofan, og fóru í þúsund mola. Má af því ráða að ófagur forgangur hefir verið í skólanum, er slíkur ókyrleiki varð í næsta húsi. Bombaldinn byrjaði um það leyti, sem aðrir staðarmenn voru að koma á fætur. En þegar þeir komu út, heyrðu þeir, að dvergmál kvað við í skemmuþiljum nokkrum, sem stóðu mörg í röð, andspænis á móti skólanum, austan til á hlaðinu. Heimamenn undruðust þenna ókyrrleika, og vissu ekki, hvernig á dvergmálinu stóð, fyrri en síðar. Þegar fyrsta lotan var búin, varð dálítið hlé á í skólanum. Því lagi sætti rector og hringdi þá á ný, var það merki til þess, að hann vildi að famulus sinn kæmi til tals við sig. Piltar höfðu og búist

við þessu og höfðu vandlega búið um skóladyrnar, svo að hvorki varð komist út né inn um þær, nema með fullum vilja þeirra, enda liðu þeir engum úr sínum flokki að hafa neinn umgang um skóladyrnar, á meðan þessi styrjöld stóð yfir. Þegar piltar þóttust hafa gjört nóg að verkum með þenna gauragang, stukku þeir allir út í læk, og þvoðu sér þar, enda sá þá ekki lit á neinum þeirra fyrir skít og ryki og svita. Þó aðgangur þessi væri mikill og harður, hafði ekki neitt gengið til muna úr lagi í skólanum, nema bekkur einn í neðri bekk, sem hét »asni«, hann brutu þeir sundur í bombaldanum. Afleiðingarnar af þessum gauragangi voru meiri og betri, en piltar höfðu ætlast til, því það var ekki einungis að rector lét af drykkjuskap sínum í miðri viku, svo að hann sást aldrei nokkru sinni koma eptir það kendur inn í tíma, heldur brá konu conrectors, sem lengi hafði þjáðst af geðveiki, svo við allan þenna ógang, að hún tók heilsu sína og fór á fætur og var hress lengi eptir.

Alla helgidaga og á hátíðum voru piltar undanþegnir skyldulestri og þar með sumardaginn og vetrardaginn fyrsta, og þar að auki var aldrei lesið á mánudögum. Var það ákveðið svo, til þess piltar hefðu þá sér til hressingar og endurnæringar. Enda svikust þeir eigi um það, því þeim dögum vörðu þeir allajafna til bændaglímu. Þessi skemtun, með fimleika þeim, sem glímurnar kenndu, hélt við heilsu og líkamsatgjörvi skólapilta um margar aldir. Glímurnar gengu í arf með skólunum, þegar þeir voru fluttir frá Skálholti og Hólum í Reykjavík og þaðan aptur að Bessastöðum. Á báðum þessum stöðum héldust glímurnar, og með miklu fylgi framan af á Bessastöðum, en undir það að skólinn var fluttur þaðan, var svo mikið farið að dofna yfir bændaglímunum, að þær voru ekki haldnar optar en þrisvar eða fjórum sinnum hæst á vetri.

Annar leikur, sem tíðkaðist mjög á Hólum og í Reykjavíkurskóla og framan af á Bessastöðum, var að vaða bál. Sá leikur var í því fólginn, að piltar settust niður í tveim röðum, hvor móti annari, hölluðu sér aptur á bak og studdu niður olbogunum, en ráku fæturnar upp, aðrir segja, að þeir hafi sezt niður í hring og sparkað svo allir upp fótunum. Nú var listin í því fólgin, að geta hlaupið eptir endilangri fótaröðinni á iljum hinna, sem á gólfinu lágu, hversu ókyrrir

sem þeir voru, eða spörkuðu í þann, sem hlaupa átti. Þetta var í Hólaskóla nokkurskonar kárína eða skyldukvöð, sem lögð var fyrir novos, en þó tóku antiqui þessa hremmingu af þeim, þegar þeir sáu, að novi mundu ekki endast til þessa; enda var þetta hættuspil og ekki fyrir aðra að komast vel frá þessum leik, en fimustu menn, eins og þeir voru Dr. H. Scheving og síra Ólafur Þorleifsson í Höfða, sem opt leystu novos í sinni tíð af þessu vandræði, og óðu bálið sjálfir fyrir þá.

Þriðji leikurinn var kallaður húfuleikur[1].) Svo stóð á, að allir piltar á Hólum einkendu sig frá öðrum mönnum með því, að þeir höfðu bláar skotthúfur fyrir höfuðfat. En leikurinn var í því fólginn, að piltar settust í hring á gólfið, en kreptu hnén, svo að húsaði undir og héldu þar höndunum. Tók svo einn þeirra húfuna sína og laumaði henni til þess, sem næstur sat öðru hvoru megin og síðan mann af manni. Var það þá listin, að einn þeirra átti að segja, hjá hverjum húfan væri á endanum.

## 3. Frá Bessastaðaskóla 1815.

Kafli úr bréfi frá Þorleifi Jónssyni prófasti í Hvammi.[2])

Árið 1815 elti eptir af gömlum skólabrag þessar vices: 1, að taka »novos« upp á eyrum, 2, að láta þá vaða svokallað bál, og 3, að taka á móti skírn.

Hinir hraustustu (antiqvi) voru valdir í þann leik, að taka upp á eyrunum, og þótti skemtun að sjá, hver bar sig bezt og lakast af þeim, er liðu.

Þarnæst að vaða bálið: Eins voru tveir hinir hraustustu kosnir til þess, að taka »novum« á milli sín með skýlu fyrir augum, þegar allur þorri pilta höfðu setst í hvirfing niður á gólfið, svo fætur horfðu saman í einn miðpúnkt, var þá »novus« leiddur yfir þenna hring miðjan, í því þeir er sátu létu fæturnar með bakföllum gánga óþyrmilega á hann, en leiðtogar skutu sér til beggja hliða út fyrir hringinn. Sumum

---

1 Sbr. Íslenzkar skemtanir. Kmhöfn 1888—92, bls. 132—133.

2 Bréfið er til Jóns Árnasonar bókavarðar, ódagsett, en líklega skrifað 1861 eða 1862.

fórst illa og hnigu niður, en sumum fórst svo stinnlega, að hringbúar urðu fyrir óskunda og meiðslum, og man eg til mín, að fætur launuðu þeim ljósahaldið, en hendur þeim sem leiddu; því þeir vildu halda þeim, er mótvörn sýndu, lengur á báli en hinum. Að lyktum var skírnin með þeim hætti: Novus var þrifinn á lopt og stúngið að höfði djúpt niður í vatns ílát, og nefndur um leið einhverju kátlegu nafni.

Við svokallaðan Snorra varð eg var minn fyrsta vetur í skóla, sem var einskonar hegníng fyrir innbyrðis afbrot, t. a. m. við þá sem báru sögur í eyru kennaranna úr skólanum, með þeim hætti, að sakadólgurinn var settur í bekkjarhorn, hvar piltar settust honum við báðar hliðar, hver út af öðrum, og þannig með allra aðbeina þrýstu svo fast að sakadólg, að hann æpti hástöfum; en meðan stóð á þessum hryðjuverkum var haldið uppi einkennilegum saung, og mikið viðlagt, ef sagt væri frá því. Þegar eg eptir minn 1ta vetur fór að ráða meiru, lagði eg fyrirlitníng á þessa barbarisku háttsemi, en þar á móti vildi halda á lopti fimleikum og aflraunum í þess stað. Glímur tíðkuðust mikið í minni tíð, þá voru margir piltar rosknir og þrekmiklir, og þegar missætti varð á milli þeirra, urðu glímuryskingar, sem hinum þótti mikil skemtan á að sjá, að sættum.

Líka var mikið tíðkuð skautaferð, pinnaleikur, og stökkva uppá borð og tunnur og yfir hesta, eins lángt áfram eptir máli, með því að hafa tvo stjaka niðurlagða, sem færðust sundur og saman eptir því, sem hver gat dregið jafnfætis eða með tilhlaupi.

Einatt var þeim minni máttar haldið í skefjum með handalögmáli, því þeim var hætt við ertni og aðsúg að þeim er máttu sér meira og voru siðavandir.

Ekki heyrði eg neitt talað um Herradag né Bombalda, og aldrei varð eg þess áskynja, að viðhöfð væri Pálmastika eða hýðíng af kennurum fyrir afglöp, heldur þúngar áminníngar; og hafi hýðíng átt sér stað, hefir hún verið brúkuð mjög heimuglega; svo eg á ekki þann heiður, að eg, sem Inspector Scholæ, hafi komið því af að hýða pilta; heldur væri það hitt, að eg hefði komið þar á betra siðferði og vakið meiri bókiðni, en áður var, einsog eg heyrði haft eptir Dr. Schevíng. Þau 4r ár sem eg var í skóla var stundum

heldur róstusamt, einsog vant er, þegar skólapiltar skiptast í sveitir; þá kom fyrir kirkjugarðshrun og stéttarmálið; en þá urðu samtök skólans eindregin, þegar var að skipta við utanskólamenn, þó hátt sætu í völdum og vildu hreinsa til.

Enn á eg eiginhandar vottorð Lectors sál. Johnsens um hegðun mína í skóla, auk míns testamonii, á íslendsku, er atvikaðist af ómildum fréttaburði skólabræðra minna hér vestra í einskonar hefndarskyni; því þó þeir ættu meira að sér en eg, var það svo í skóla, að mig bilaði hvorki fastlyndi né huga að vera trúr yfirboðnum við hvern sem var að skipta meðan eg dvaldi í skólanum.

---

# ANNÁLL MAGNÚSAR SÝSLUMANNS MAGNÚSSONAR.

Búið til prentunar hefur Finnur Jónsson.

---

Magnús Magnússon, höfundur þessa annáls, er fæddur[1] í Miðhlíð á Barðaströnd 1631; hann var sonur Magnúsar Jónssonar sýslumanns í Haga, er dó 1675 (sbr. ann. það ár[2]). Magnús sigldi 17 vetra 1648 til Kaupmannahafnar (sbr. ann. það ár), fór heim snöggva ferð 1650 (sbr. ann.), og aftur utan sama ár; kom svo heim alfarinn 1651 (sbr. ann.); þessi 3 ár var hann að sjálfs hans sögn í þjónustu Hans Nansens, hins alkunna borgmeistara. Af lærdóm hans á þessum árum fara litlar sögur. En hann hefur þó þá þegar verið búinn að gera sig kunnan að dugnaði og frama, því að ári síðar, 1652, var hann, ekki nema 21 árs gamall, gerður að sýslumanni í vestara parti Ísafjarðarsýslu, (sbr. ann. það ár). Bogi segir í Sýsl. m. æv. að »nálægt eða eftir 1680« hafi Magnús slept sýsluparti sínum, en í ann. getur hann ekki þess sjálfur og hefur það þá víst ekki orðið fyrr en eftir 1684. Bogi segir og, að Magnúsi hafi verið vikið frá sýslu 1663, en hann hafi fengið hana aftur ári síðar og telur Bogi Gísla Jónsson sýslumann það árið, en ekki getur Magnús sjálfur neitt um þetta. Bogi getur ýmsra dóma, er hann hafi látið gánga; og enginn vafi er á, að Magnús hefur átt allmikinn þátt í málum móti galdramönnum og dómum þeim, er þeir urðu fyrir. Magnús átti Ólöfu Guðmundsdóttur 1653 (sjá ann. það ár); hún dó

---

[1] Sbr. Sýslumannaævir II, 220—22.

[2] Það er því tilhæfulaust, sem um getur sst. s. 93 og haft er eftir „öðrum fræðibókum", að Magnús Jónsson hafi farið utan og dáið þar 1683, sbr. og sst. s. 94.

1684 (sbr. hina síðustu grein ann.); þau bjuggu á Eyri í Seyðisfirði.

Magnús sýslumaður var að mörgu leyti dugnaðarmaður og lagði stund á bókfræði, einkum sögufróðleik. Frá honum eru nokkur handrit komin til Árna Magnússonar[1]), og eru sumt skinnhandrit með sögum á. Í AM 200, 4° er rit eftir hann lögfræðislegs efnis samið 1675: »Analecta juridica Islandiæ (þessi titill getur ekki stafað frá Magnúsi, því að hann var ekki latínulærður maður) eður ýmislegs íslensks lagarjettar registrum osfrv.« — alt uppskrift með annari hendi en höfundarins 1702, og í 211, b, 4° er jarðabók eftir hann og Gísla Jónsson. Í AM 1058 er stutt brjef frá honum til Jóns prófasts Jónssonar í Holti, ritað 1662 (efnið ómerkilegt).

Aðalritverk Magnúsar er annáll sá, er hjer er prentaður og nær frá 1643 til 1684. Hann er í Raskssafni, 47. töluliður, og er eiginhandarrit Magnúsar. Þess vegna hefur hjer í útgáfunni ekki verið tekið neitt tillit til afskrifta, er til kunna að vera, svo sem þeirrar í Landsbókasafninu, er Þorv. Thóroddsen hefur notað við samníngu Landfræðissögu sinnar. Í þessu Rasks handriti, er nefnt var og hefur einhvern tíma verið eign Harboes biskups (á fremra saurblaði stendur: »Hr. Biskop Harboe tilhørende«), er annars annáll frá upphafi heims og tekinn úr Flateyjarbók alt fram undir 1400; þá tekur við annáll Björns Jónssonar á Skarðsá nær orðrjett samhljóða prentuðu bókinni; alt er þetta með sömu hendi, en ekki með hendi Magnúsar. Þessi uppskrift endar með árinu 1642 með reið Brynjólfs biskups til Vestfjarða (ann. Björns, útg. II, 264); svo stendur grein um dauða sjera Sveins, föður Brynjólfs; það stendur við árið 1644 hjá Birni (en hans annáll endar með árinu 1645), en dánarár Sveins er eins fyrir því rjett ársett. Hvort Magnús hefur sjálfur látið rita þessa bók þángað til hann sjálfur tók við, er mjög vafasamt; líklegra þykir mjer, að hann hafi eignast bókina og svo fengið sjálfur löngun til þess að bæta við hana; víst er það, að $2^1/_2$ blað af síðustu örkinni í eldra annálnum hefur lengi nokkuð staðið autt, því að blekið hefur að nokkru gagnlitað þessi blöð, en alls ekki hin sem þar á eftir koma.

---

[1] AM 239 og 343, fol., 267, 322, 418, 471, 489 í 4°.

Handrit Magnúsar nær yfir 62 blöð að eyðunum í síðasta partinum meðtöldum. Hönd hans er fremur greinileg, en nokkuð stirð og ekki fögur og letrið lítið bundið.

Hvenær eða hvernig Magnús hefur samið annál sinn er óvíst. Blekið er stundum dálítið mislitt, en ekki svo, að nokkuð verði af því ráðið. Hitt þykir mega telja víst, að fyrstu árin að minsta kosti eru samin í einu, enda koma þar fyrir stöku villur, er benda á, að annállinn sje ekki samtímis ritaður. Síðari parturinn mun ritaður eftir hvert liðið ár eða svo til, og eru þar eyðurnar við síðustu árin ljósastur votturinn; þar áttu útlendir viðburðir að ritast, er höf næði í þá, en það hefur aldrei orðið. Hvernig á því stendur, að Magnús hefur hætt við árið 1684 er ómögulegt að segja.

Bogi lýsir annál Magnúsar (Sýslum. æ. II, 222) svo: »Hann hefur . . . saman tekið furðu lángan annál frá sköpun heimsins til 1661 (hvorugt er rjett; en Bogi hefur haft uppskrift með sömu hendi af allri bókinni í RasksS. 47, og haldið, að alt væri eftir sama höf.; hvernig á því stendur, að Bogi telur annálinn enda við 1661 veit jeg ekki, nema uppskriftin hafi ekki náð lengra); þó eru þeir eigi margfróðir um Ísland og viðburði, er þar hafa skeð, en því meira um útlenska viðburði, ýmsar cronikur um keisara, konunga, páfa og furstaregistur osfrv.« Það er ljóst, að þessi lýsing á annál Magnúsar er mjög röng og stafar af misskilníngi Boga, er þó má að nokkru leyti afsaka (hann á auðvitað að nokkru að minsta kosti við fyrri hlutann, Flateyjarannál).

En hinu verður eigi neitað, að Magnús hefur töluvert af útlendum viðburðum í annál sínum alt að og með árinu 1677 að undanteknum árunum 1659, 1662, 1669; þar er ekkert útlent. Annars er hið útlenda efni mjög misjafnt að vöxtum og skipun. Það er innanum hið íslenska við árin 1643, 1644, 1667, en annars oftast út af fyrir sig og á undan því íslenska, en á eftir við árin 1664, 1665, 1674—1677, og er þá stundum sett »Island(s)« utan máls, þar sem það íslenska tekur við (1645, 1647, 1648, 1649, 1651, 1671—73). Hið útlenda efni er oftast minna en hið innlenda, stundum hjerumbil jafnmikið og stöku sinnum meira (sjá árin 1645—47), einkum við 2 af síðustu árunum 1674—76. Það er fljótsjeð, að við árin 1671—77 er allmikið útlent efni og meira en endrarnær, og við sum árin, sem sagt, meira en hið íslenska efni. En

svo stendur á því, að árið 1672 var farið að gefa út í Kaupmannahöfn mánaðarrit með frjettum frá Danmörku og öðrum löndum, er hjet Extraordinaires maanedlige Relationer, og úr þessum blöðum er alt eða hjerumbil alt hið útlenda efni tekið og þýtt svo að segja orðrjett; íslenskan á því ber þetta með sjer. Þó hef jeg ekki fundið alt í þessu riti. Þess skal getið, að ekki er víst, hvort Magnús hefur haft prentuðu blöðin fyrir sjer, að minsta kosti ekki alstaðar; nafna afbakanir koma fyrir, er valla hefðu getað átt sjer stað. Mjer hugkvæmist ekki önnur skýring en sú, að Magnús hafi fengið afskrift — að minsta kosti af sumum blöðunum — frá einhverjum kunningja sínum í Höfn og hafi nöfnin þá ekki verið öll allgreinilega skrifuð, svo að Magnús hafi mislesið þau, en hafði ekki næga þekkingu til að sjá hið rjetta. En hvernig sem þessu er varið er enginn vafi á því, að frjettablöð þessi eru heimildin um þessi ár, sem getið var. Valið á því, sem Magnús hefur tekið upp, sýnir hvað það var, sem honum þótti mest í varið, en það eru mest kýngisögur, sagnir um loftsjónir, galdra og þess konar; þar á mót tekur hann næsta lítið af söguefni eða virkilegum viðburðum til þess að gera. Ef til vill stafar þetta frá uppskriftum þeim, er hann kann að hafa fengið. Hvaðan hitt efnið er tekið, hef jeg ekki getað fundið, og má vel vera, að Magnús hafi þar farið eftir sögusögnum kaupmanna eða annara, sem til landsins komu. En þær hafa verið furðu rjettar og nákvæmar; jeg hef borið mest af þeim saman við sögurit og komist að raun um, að svo er. Að fara frekara út í þetta með skýríngargreinum neðanmáls þótti fullur óþarfi, með því að útlendu kaflarnir geta aldrei orðið neinar heimildir hvorki fyrir útlendinga nje Íslendinga. Hins vegar var engin ástæða til að kippa þeim út, því að þeir heyra ritinu til og sýna eins vegar, hvað maður út á Íslandi þó gat náð í á þeim dögum, og hins vegar tíðarandann sjálfan að öllu saman lögðu. Að munnlegar sögusagnir sjeu heimildir sýnist höf. gefa í skyn þegar hann segir (við árið 1651): »Sagðt út andlát« osfrv; beinlínis segir hann það (við árið 1680): »Komu dansker . . . . sögðu gott árferði« osfrv., (við 1683): »með dönskum spurðist« osfrv. Efalaust er fleira svo til komið, þótt ekki sje það sagt berum orðum, einkum í fyrra kaflanum ritsins.

Að öllu samanlögðu er hið íslenska efni miklu meira en hið útlenda, enda var einmitt við því að búast. Það er fremur lítið fyrstu árin, og bendir það á, að liðinn hefur verið ekki allstuttur tími til þess er höf. hóf verk sitt. Efnið er mjög misjafnt að vöxtunum. Um 1659 er næsta lítið (og ekkert útlent), en sum árin eru aftur allfjölskrúðug. Efnið er eins og í öðrum annálum mest um árfar og veðráttu, mannalát og slysfarir, prestavígslur og brauðaveitíngar osfrv. En þar að auk hefur Magnús líka tekið upp ýmislegt, er snerti stjórn landsins, talar um konúngsbrjef, alþíngisdóma og þess konar. Hjer ber aftur að hinu sama, að því er ekki gleymt, er snertir galdra og galdramál, galdrabrennur og refsíngar: það var ekki að búast við öðru af manni á þeim tímum og manni, sem var samtímismaður og svo að segja nágranni sjera Páls í Selárdal.

Því verður ekki neitað, að annáll Magnúsar er að þessu leyti mjög fróðlegur. En það er hann líka að mörgu öðru leyti. Hann veitir nýjar upplýsíngar um marga menn, sem áður hafa ekki komið í ljós, og um viðburði; að Magnús talar sjerstaklega um menn og viðburði í sinni sýslu og nærsýslunum, er ekki nema eðlilegt. Það er satt, að Espólín hefur auðsjáanlega haft uppskrift af annálnum, en hann hefur hvergi nærri notað hann til hlítar eða tekið hann upp í Árbækur sínar. Fyrir því er það og rjett, að hann sje prentaður sjer og í heild sinni, og væri óskandi, að það yrði gert smám saman við aðra eldri sjálfstæða annála, sem til eru frá því á 16.—17. öld.

Annállinn er gefinn hjer út orðrjett eftir frumritinu, en stafavillur leiðrjettar og getið neðan máls; samstöfur, er höf. hefur gleymt, eru settar í hornsviga. Rjettritun er breytt að mestu, með því að hún er sjálfri sjer ósamkvæm og alloft nokkuð klaufaleg, eins og oft vildi vera á þeim tímum. Breiddarmerki eru hjer sett alstaðar yfir raddstafi, nema þar sem höf. ritar tvöfaldan staf (aa = á); því er haldið, þá sjaldan það kemur fyrir; ð er ætíð sett fyrir d, í fyrir ij eða y, sem oft verður ekki greint; höf. þekkir engan mun á i og y; því er alstaðar ritað i og í hjer fyrir y og ý; v er sett fyrir u í hdr., þar sem svo er framborið. Rjett hefði og verið að prenta alstaðar j (ekki i); þó hefur i verið haldið. Eins er ætíð haldið e í endíngum og ll á undan d; þar á mót er ekki

haldið t á eftir pt (t. d. í efttir) og því um líku. Smáir stafir í stað stórra eru hjer ætíð hafðir eftir vanalegu riti. En þar sem höf. er sjálfum sjer samkvæmur að öllu eða mestu, þá er því haldið. Þarf ekki frekari grein að gera fyrir þessu. En öllum orðmyndum höfundarins er haldið óbreyttum og ólagfærðum undantekníngarlaust, og er þar ýmislegt markvert, er sýnir mál hans og þeirra tíma og því merkilegt. Þess gerist engin þörf að telja það upp hjer. Eins er haldið útlendum orðum og nöfnum alveg óbreyttum. Aftur á móti er ekki ætíð haldið línuskilum eða greinarskilum, enda er ekkert samræmi í slíku hjá höf. Milli greina er hjer sett —, er svarar til ∽-myndaðs teikns í frumritinu. Öll fyrsta línan við hvert ár er vanalega rituð nokkuð stærri stöfum en ella; þessu er ekki fylgt hjer í útgáfunni nema aðeins við fyrstu orðin »Anno . . .«.

---

**Anno 1643** heriaðe kóng Christian fiórðe til lands og siöar á Hamborg; sömdu borgarmenn við hann með 280000 ríkisdölum og lofuðu þeirra skillduglegre þiónustu og voru síðan til naaðar tekner, skip þeirra og gótz þeim aptur gefið.

Marstrand í Noreg[1]) brann. — Brúðkaup hertug Friðriks Christians 4 sonar í Breminn við Sophía Amalia herttuga Jurgens dótter af Lyneborg halldið til Luckstaðar 7 October.

Fiellu svensker inn í Jótland og Holstenn, eirnnin á aðra síðu ofuan í Skánei; þá stærstu æru sem svensker innlögðu var á nockrum fátækum bændum, sem þeir suma drápu enn suma iöguðu inn í hús, hvar þeir láu huor ofuan á öðrum og köfnuðu.

Greif Valldemar kóng Christians 4 sonur fór til Rússlands með miklu föruneite af herramönnum og öðru fólcke. — Svensker intóku Eilsborg[2]) og feingu þar melion gulls, sem Þorsteinsson[3]) burtfærðe á 40 vögnum.

Fransker slóu af spönskum 9000 mans. Tók sig Þorsteinsson fliótlega upp í december mánuðe ifuer elfina og inn í Holstinn, kom firir Christianpris og inntók þann stað —. Sama tíma innfiell Gustavus Hornn í Skán með stóra armeij. Þetta ár mistu svensker í Holstenn og Jútlande meir enn 4000 manns.

Geck mislínga sótt[4]) og dó margur maður af henne. Andaðist Hólmfríður Einarsdótter[5]) á Möðruvöllum í Hörgárdal — Fæddur Sigurður Jónsson[6]) í Vatnsfirðe 12 October —

---

[1]) M. er í Svíþjóð.

[2]) Á að vera Rensborg.

[3]) Þ. e. hinn nafnkunni herforíngi Svía Lennart Torstensson.

[4]) Þetta heimfærir Espólín til 1644.

[5]) var kona Benedikts Pálssonar (sjá síðar s. 111); Espólín segir lát hennar 1645.

[6]) Er sjera Sigurður í Holti í Önundarfirði, d. 1730.

Sender gesantar úr Danmörk til Ossennbriggiu að höndla um frið í því rómverska ríke.

M. Eirík Breiddal varð biskup í Þrándheim.[1]) Dó doctor Jóhann[2]) biskup í Ríbe, í hans stað kom aptur Meistar Eirík[3]) — Varð Corfits Ulfelld hofmeistare, Jurgenn Vind ríkisins admíral.

**Anno 1644** byriaðist alvarlega það svenska stríð og filgdu þeim Hollendsker; kom til af tols tekt í Eyrarsunde. — Miste danske kóngur 14 orlogs skip og á þeim 320 fallsticke. —

Drepinn Prosmund af svenskum; þar fiell og kóngsins bróður Ulrík — Kóngur miste í svenskra viðskíftum, með öðrum sínum skipum, það kostulega skip Sophíu, með 60 stickium, enn alls 400 koparsticke, eður þar um — Inntekinn slot í Skánei. Hollendsker og Hamborgarar stirtu svenska.

Hanebal Sested, Noregs ríkis stathalldare, giörer innfall í Svíaríke, inntók Moratsskansann, og nockur hundruð af óvinum.

Tók drotníng Christín við ríkisstiórn ífuer Svíaríke, 8. October — Sende danske kóngur nockra af sínu raaðe að höndla um ósamþicke mille ríkianna — 10 Januarii 1644 sendu svensker opin faíðu og stríðsbref inn í Danmörck. 17 Februarii kom Gustaus Horn með sinn stríðsher inn í Helsingborg, og 29 Martii í Landskrónu stað. Inntóku þeir svensku Laholms slot efter 3 vikna beleiríng, og lögðus síðan firer Malmei, hvar þeir urðu fráslegner — Lutenant Heinrik van Bohallt ræ̈nde og ruplaðe Vrangels regimente, og fángaðe 400 með 4 fallbissum við Tonder bí.

Andaðist sira Sveirnn Símonarson faðer M. Briniólfs í Hollte við Önundarfiörð. — Brúðkaup Jóns Halldórssonar[4]) og Ingebiargar Jónsdótter. Item Guðmundar Torfasonar og Valgerðar Halldórsdótter um sumarið í Skálhollte. Jón druckn-aðe síðar um veturinn epter iól — Brúðkaup Biörns Snæ-biörnssonar skólameistara[5]) og Þórunnar Jónsdótter í Hollte

[1]) Var biskup 1643—72.
[2]) J. Borchardson.
[3]) E. Monrad.
[4]) ráðsmanns í Skálholti.
[5]) í Skálholti 1636—47. Þórunn var bróðurdóttir Brynjólfs biskups.

i Önundarfirðe. 17 Agusti inntóku þeir dönsku skansinn við Árhús og færðu þaðan nockra oficera og 70 soldáta. Item 30 skútur og tvö nibigð skip —

Pietur Gallt vise admiral á Olldinnborg af því hann ecki efterfilgde hans orður og þeirre skickun, var riettaður á slotsplátsinu i Kaupinnhafnn þann 30[1]) Agusti. Málmeiar borgarar gefner skattfrier 10 ár. Hans kóngleg Maiistat liet giöra eina nía mint á Kaupinnhafnnarslote, sem daglega var mintað allt það smiðað silfur, sem allar stietter hier i Danmörck sem og eirnnin i Noreg ásamt hans Maitt fyrir utan annað giört silfur, sem daglega var uppá muntina borið, í peninga sundursleigið og mintað —

Kongl. Maitt Christian 4 66 ára gamall fór sjálfur persónulega til skips að stríða móte sinum og rikisins óvinum, og geingu honum margar kirkiusóckner i Sviarike til handa, sem lofuðu að gefua honum brannskatt — 16 Maii fegðtaðe hans Maitt með sitt eitt skip Trefolldighed i móte 24 óvinanna skipum og giörðe þeim mikinn skaða so þau urðu að flía —

Þeir dönsku i Luckstað ifuerfiellu svenska, inntóku staðinn og fönguðu 300 með 4 stickium og 30000 rdm — Herttug Friðrik sló 5 regiment svenska við Ferdenn og intók Langedal skans og fordiarfuaðe hans Maitt þann svenska flota og sló hann á flótta með 7 skipum i annað sinn.

**Anno 1645** giörðist friður með Danmörk og Sviaríke 13 agusti með franskra og hollendskra legáta raaðe og viðurvist ecke án stórra fiekosta. — Kom sá franske legát og friðarhöndlare í Kaupinnhafnn — Almenne[leg][2]) þackargiörð halldin i öllum kirckium í Danmörk og Noreg firer friðinn.

Firer friðinn Svíum til eignar feingið (sem meint er) Gottland, Esel[3]), Jamtaland i Noreg. Enn til panta i 30 ár, Varberg og Hallland og allur skaðe til siós og lands sobúinn. —

Mistu Svensker í Jútlande og Rensborg 9000 manns. Hanebal Sesteð intók Gumlosu skansa.

Í ríkisráðið inntekinn Knuð Ulffelld hofmeistarans bróður,

---

[1]) Rjettara: 31.
[2]) leg v. hdr.
[3]) þ. e. Øsel (Eysýsla).

Jurgenn Brade, og H. Fridrik Retz, Ífuar Vind — Þann 8. Februarii reistu þeir frönsku gesantar og fullmegdtuger friðinn að giöra millum Svíaríkis og Danmerkur. Þeim filgdu og sá spanske og hollendske að Bremssbrú[1]) hvört og þeir svensku Comersarii[2]) komu.

Ríkisins marz[3]) Andres Billde figðtaðe við nockur Companí svenskra rittara, sem ofurste Varberg færðe, og feck hann siálfan með nockrum lutennöntum og ofiserum fanginn hundruðum saman, enn nockrer dóu á flóttanum —

Christian Sinckel mikel stríðshetia í útfalle sem skeðe af Christianzstað skotinn í lærið hvar af hann dó. Þann 3. Julii kom sá hollendske flote 60 skip, silgde í gegnum sundið til Kongevík[4]). Kom aftur og lagðist firer Kaupinnhafnn og lá þar 11 vikur til 12 Agustii.

Þann 9 Junii kom sá svenske flote firer Borinnhólm[5]) og inntók landið, hvar firer kommedantenum Holgeir Rosinnkrans var stefndt, enn var þar firer frí dæmdur — Þann 25 Julii kom allur sá svenske flote firer Amager og laa þar til þess 20 agustii, þar til þeir feingu boð, að friður var giörður, þá silgdu þeir í burtu, og sá hollendske flote.

Kom heim af sáttar fu[n]dinum sá fransk[e] gesant við hvorium herlega var tekið. — 9 december bænadagar firer friðinn haldner í Danmörk og Noreg.

Eru aller garðar og hús i kaupstöðunum virt, og af hvorium 100 RD gefner í skatt 2 RDa.

Kom einginn hirðstióre til Íslands, utan Jens Söfrensson fóuete, settur ifuer landið.

Kom seint sigling til Íslands og ecki neitt skip í Ísafiarðar síslu — Brotnaðe skip danskra í Kumbara voge, hier við hafner.

Rifsskipið komst á Patriks fiörð og lá þar um veturinn, silgde um vorið og lestist þó um veturinn á eirinne firer neðan Botn í Patriksfirðe, en fiskur mestallur skemdist sem inn í skipið kominn var hvar af fátækt landsins fólck hafðe

---

[1]) þ. e. Brömsebro.

[2]) þ. e. Commissarii (fulltrúar).

[3]) þ. e. marsk (eig. = marskálkur) = aðalherforingi.

[4]) Á víst að vera Kongedyb við Amakur og Kaupmannahöfn.

[5]) þ. e. Borgundarhólm.

gagn að það sier til atvinnu sóckte þángað þann siówota fisk um veturinn, þetta skip silgde af um vorið um páskaleitið, skipherrann hiet Jacob Mörk, kaupmaður Hans Vöst.

**Anno 1646** herradagur halldenn í Noreg og aðlinum þar þá fríheit gef[in] eins og í Danmörk háls og hönd og allar 40 marks saker sinna þienara. Dó Just Hoy ríkisins Canceler og Knud Ulffelld ríkisins raaðherra. Kóngurinn filgde þeim báðum til síns legstaðar. —

Var ríkisins hofmeistare Corfez Ulffelld útsendur gesanta vísu til kóngsins af Franckaríke og í Holland —

Aflagðe Lienard Þorsteinsson sína bestilling enn Vrangel kom í hans stað — Þá rændu svensker Scheegennfelld og Eger — Dó Pietur Skellderup[1]) forðum biskup í Þrándheim, item M. Olaf Búason biskup til Opslo[2]) og Olaf Vind kong maitt. hofpredicant — Dó Helga[3]) Arngrímsdótter, fieck síra Páll[3]) Biörnsson Selárdals stað og giftist Helgu Halldórsdótter —

**Anno 1647** andaðist Danmerkur og Noregs prins Christian 5 til Corbitz, hálfre annare mílu frá Dresden á sinne reisu til þeirrar vörmu laugar lækninga vegna 44 ára gamall; hans lík var flutt til Kaupinnhafnnar, hann dó in Junio —

Rúsker legátar komu í Kaupinnhafnn.

Fiell niður stórt og ónáttúrlegðt hagl sumstaðar í Danmörck sem skaðaðe kornið og smáfræið.

Þann 19 Februarii brann tíhúsið í Kaupinnhafnn inn til þess lofts sem sticken á stóðu, enn feingu þó mikinn skaða — Elldurinn kom af verkhúsinu og tók til að brenna millum 3a og 4a efter miðdag, í hvorium 10 menn dóu enn marger feingu skaða —

Á þessu áre skeðe og annarstaðar í ríkinu stór skaðe af ellde og bruna sem og víðar í öðrum löndum sierdeilis í Rosskilld, hvar að brunnu 160 hús, til Kalmar brann og mestallur staðurinn.

Þetta ár deiðe og prinsinn af Vranienn — Heinrik Friðrik

---

[1]) Peder Skielderop varð biskup 1623.
[2]) Oluf Bosön var biskup 1639—46.
[3]) Móðir sjera Páls. Þetta heimfærir Espólín til 1645 sbr. og Prestatal og próf.

prinsinn af Polenn og Curfurstin af Mens. Fangaður Carolus Einlands kóngur með stirck Skotta sem hann selldu af raaðinu — Stríðs stilling í Einglande, dó greifinn í Hollande, hans son kom efter hann.

Í Bremenn kom skrugguelldur í púðurhúsið sem afsprack og mörg næstliggiande hús og margt fólck varð eiðelagðt — Til Stralsund brende skrugguelldur vor frú kirckiu af —

Gaf hans kóngl. Maitt. jarðagóts af Roskilldar dómkirckiu gótsum til uphelldis einum matematici stúdent utanlands að hallda — Itemm nockuð af sömu kirckiu gótse fátækum skólabörnum til uphelldis sama staðar —

Liet hans kóng. Maitt. aðskilianlegar forordníngar útganga, bæðe um stúdenta legumál og annað.

Rúsker gesantar með 60 mans komu í Kaupinnhafnn og geingu með kónginum og feingu áheirslu til Ístrup.[1]) Reistu burt þá prinsinn var grafinn.

Dó sá vitt hrósande astronomus Christian Longomontanus 85 ára[2]) — efter það hann í Kaupinnhafnar Universitet hafðe ver[ið] professor 40 ár, innsette höfuðstól uppá 300 RD eins fátæks skólapilts upphellde í Kaupinnhafn.

Andaðist Vigfús Gíslason á Selialande 14 Aprilis, sem var vetrardagur hinn síðaste og iarðaður föstudæginn langa.

Andaðist Arnfríður Benedigðtsdótter, síra Gvendur á Staðarstað[3]), síra Eiríkur Ketilsson[4]) og nockrer aðrer prestar um landið so og marger leikmenn — Riettaður Jón Þorsteinsson norðlendskur maður er fallið hafðe með stiúpdóttur sinne Biörgu að nafne, voru bæðe úr Húnavatns síslu, bæðe riettuð á alþinge efter kong. Maitt. briefue.

Uplesið kóngsbrief um iarðauppboðning í annan lið og firsta[5]) — Item annað um presta hórdóma og frillulífue[5]) — Vetur afbrags góður. Andaðist síra Torfue Biarnnarson á Stað í Grunnavík, síra Erasmus Snorrason, síra Gissur firer

---

[1]) þ. e. Ibstrup, eða Jægersborg.

[2]) Chr. Sörensen Longomontanus var fæddur 1564 (og þá 83 ára er hann dó), var lærisveinn T. Brahe.

[3]) þ. e. Guðmundur Einarsson, dó eftir Prestatali 1648 (1647 í neðanm. gr. eftir prestatali sr. Hálfdanar Einarssonar).

[4]) prestur í Vallanesi.

[5]) dagsett. 10. decbr. 1646.

austan[1]) — Brúðkaup Þorkels Guðmundssonar og Solveigar Magnúsdótter.

Brúðkaup Benedigðts Pálssonar og Sigríðar[2]) Magnúsdótter á Hólum — Hrólfs með minna móte á Seilu og Sigurðar Jónssonar í Rauðsdal — Kom út Skálhollts kirkiu viður. 1 Februarii, í þorraþræls veðre fiell kirckian á Breiðabólstað —

Anno 1648 24[3]) Februarii andaðist sá stórmegðtugaste herra kóng Christian 4 út firer Kaupinnhafnn í listegarðe sínum[4]) epter viku legu á 60 áre síns ríkis, efter hans kríningu 52, að alldre 70 ára 10 mánaða 16 daga —

Hans son Friðrik erkebiskup af Bremen kom í hans stað og var kríndur 23 November sama árs og hans drotning 24 November.

Johann Múmm fekk leifue til laxveiðar í Hvítá og kom með skip — Friðargiörð æfinnleg með Spenskum og Hollendskum. Dunkarckenn ifuerunnen af Frönskum.

Mikið stríð í Einglande — Dó kóngur af Polinn Vendelaus 4 — Rændu og intóku þeir svensku Moldorp de klein hiá Prag, hvar þeir feingu nær 200 furstalegar og greifualegar og aðrar háar persónur fangnar —

Inntóku svensker Tabor, þá voru af keisara fólcke slegner 3600, enn fangaðer 2500, enn nockrer fáer fiellu af svenskum, þá áligðtaðist first friður þeirra á mille — Tekið til að biggia Skálholtskirckiu — Sást vígabrandurinn. —

Stór harðinda vetur og feller víða um landið, kom hafís og giörðe ísalög — Deiðe sá hálærðe mann síra Arngrímur Jónsson á Melstað og marger aðrer um landið, Jón Gissurson under Núpe, Jón Sigurðsson í Einarsnese, Snorre Ásgeirsson, síra Gvendur Gvendsson í Fliótshlíð, síra Finnur Jónsson í Skálhollte, síra Halldór Biarnnarson í Selárdal, síra Sigurður Snorrason á Hrafnseire. Drepsótt kom út í Dírafirðe og gekk um alla Ísafiarðar síslu, í Dírafirði önduðust meir enn 40 manns þetta ár, síra Þórður[5]) á

---

1) þ. e. Gissur Gíslason á Þingmúla.
2) er kölluð var stórráða; sjá Espólín VI, 116.
3) Á að vera 28.
4) þ. e. á Rósinborgarhöll.
5) Þórður Tómasson í Garpsdal.

Tindum og Gróa Gvendardótter kona síra Ögmundar[1]), dóu 40 manns i Borgarfirðe — Þann 20 October brann af allur bær á Hvole[2]) austur og mest allt góts þar inne — Varð skiptape 4a dag påska millum Keflavíkur og Skálavíkur, tindust þar 3 menn, skip og góts til 40 ∽ átte Biarnne Jónsson under Heste það, því hann ætlaðe þá að flitia sig frá Eire i Seiðisfirðe og under Hest — Biarnndýr geingu á land á Hornnströndum — Grasleysusumar og óþerrar — Silgdu Magnús Magnússon og Teitur Torfuason til Kaupinnhafnnar í firsta sinn. Kaupöl Gísla Magnússonar og Þrúðar Þorleifsdótter á Hlíðarenda — Þórðar Heinrikssonar og Þollaugar Einarsdótter.

**Anno 1649** Birt kóng Friðriks 3 brief um trúnaðar eiða lærðra og leikra á Íslande —

Friður giörður mille keisarans og svenskra. Þeir eingelsku og skotsku aflífuðu sinn kóng Carolum Stuartt opinnberlega og hiugu hans höfuð af með exe, hann gaf sig velviliuglega að deia — Þeir svensku og keisarinn sem höfðu halldið stríð saman í 20 ár sættust, item fransker og spánsker so þar skillde vera æfuennlegur friður þeirra á mille. Þeim svensku var gefið mikið gialld til sátta og margar borger í Pomerenn og Mekelborgarlande.

Sá eingelske kóngsson strídde á Eingland með skosku, írsku og frönsku stríðsfölcke.

Voru arfhillingar eiðar unner á alþinge kóng Friðrik 3a, hvoria að tók Gabriel Ackalei secretariús til Julleráð[3]), í návern liensherrans Heinriks Bielka til Osterraad[4]), sóru af hvorre síslu síslumaður með tveimur lögriettumönnum og 2 bændum, lögmenn baaðer, biskupar báðer, með 12 prófföstum og prestum úr Skálhollts stikte, og 6 af Hóla af Vestmannaeium 1 lögriettumaður og 1 bónde. Efter unna eiða var veisla halldin í 12 álna lángre búð öllum þeim eiðana svarið höfðu,

---

[1]) Torfasonar á Brjánslæk.

[2]) Stórólfshvoli. — Utan máls við þessa grein stendur ritað með annari hendi: Johann Mumm feck kóngsleife að veiða laxa í Hvítáróse, var brabandskur úr Neðraþískalande.

[3]) þ. e. Julerad.

[4]) þ. e. Östråt (Austurátt) á Yrjum í Þrándheimi.

kóngsins og drotningarinnar skáler drucknar og prinsins og ríkisins ráðs og við hvoria trómetað og 3 fallstickium afskotið. Riddare Heinrik Bielcke sat firer borðsenda og secretarius hiá honum — Ei hafðe hier á lande kóngsveisla firr halldin verið, hvor er veitt var minne háttar mönnum og meire — þá voru á alþinge 120 tiölld — Kom danskt varnarskip með herramönnum enn 2 með eingelskum sem voru 60.

Brúðkaup á Hlíðarenda Gísla Magnússonar og Þrúðar Þorleifsdótter — Dó Einar Hákonarson, síra Oddur Oddsson, Örnólfur Gvendsson — Kona skorin á háls á Skeiðum hiá Skálhollte, maður hennar viðdreifður. — Kona firer Jökle líste stiúpföður sinn föður að sínum 2 börnum.

**Anno 1650** striðs tilbúningur af þeim eingelska kóngs sine upp á Eingland og Skotland af Írlande. Kom hans fólck á Eingland og slóst, fiellu 3000 i striðe þar, hiellt þriðiungur af Írlande með prinsinum. Tveir parlamentisherrar þeir ippurstu stiórnuðu ifuer Einglande og Skotlande Tómas Farefax[1]) og Olifer Crumul[2]) Írlande.

Hafðe eingelst varnarskip tekið under Skotlande eitt danskt skip, og flutt af því alla menn utan skiphera og stiremann, hafðe sá danske kóngur sendt og gefið þeim eingelska prins 1 skip til varnar móte sínum óvinum —

Voru firer Vestfiörðum eingelskar duggur 140. Kom til Ögurs af ensku varnnarskipe Tómas Kein — Aftekinn Páll Touson og hans stiúpdóttur er hann hafðe með fallið i barnneign í Ögre við Ísafiörð.

Marger skiptapar urðu, einn frá Vatnsfirðe. Þrj[ú] kóngsbrief uplesin, 1 um presta eckna naaðarár[3]), 2 um vogrek af timbre lagðt til kirckna[3]), 3a um greiðskap og filgd liensherrans og hans þienara, þá hann ferðast um landið kóngsins erinda[4]). Fieck sira Torfue Jónsson Bæarstað[5]) i Flóa og sira Þorleifur Jónsson Oddastað[6]) — Andaðist sira Snæbiörnn Stepánsson og Vigfús Oddsson[7]) —

[1]) Th. Fairfax 1612—71.
[2]) þ. e. Cromwell.
[3]) Dagsett 3. maí.
[4]) Dags. 10. maí.
[5]) þ. e. Gaulverjabæ.
[6]) 1651 segir Prestatal.
[7]) Vigf. í Gaulverjabæ og Snæbjörn í Odda.

Þorbergur Hrólfsson lagðe af hálfua Norðursíslu Sigurður Magnússon tók hana aftur.

Sást blóðlitur á sió firer vestan Dírafiörð.

Sáust 6 menn á ís ofuan undan Ísafiarðardiúpe langðt undan lande af eingelskum er þeim biörguðu, tveir af sier komner úr Flatei norður.

Nockur í Norðurlande sig meitt af ofreiðe.

Drucknaðe Hialte Pálsson í Teie og 3 menn með honum, item Þórólfur under Múla og 6 með honum.

Anda[ð]ist síra Ólafur Böðvarsson í Surbæ á Hvalfiarðarströnd, síra Sveinn Biarnarson kirckiuprestur á Kirckiubæarklaustre, Eiólfur Eiríksson á Múla í Fliótshlíð, kvinna Þorláks Pálssonar í Víðedalstungu, Daðe Biarnarson drucknaðe í Brúará.

Skipuð prestþiónusta af Alviðru kirckiu af M. Briniólfue — Reist Skálhollts kirckia, en Breiðabólsstaðar kirckia árinu firre — Kom upp galldramál í Skálholltsskóla sem snerte nockrar 13 persónur; gaf guð að betur luckaðist enn þar hafðe upphaf firer ágiætleg raað og viðleitne christelegs ifuervallds ecki síst þess virðuglega herra M. Briniólfs Sveinssonar — Giftist Sigurður Magnússon Sigríðe Oddsdótter á Borg —

Aftekinn maður og kona frá Jökle, hún var hans stiúpdótter og líste hann sinn barnsföður á alþinge. Aftekinn Gvendur Stepánsson[1]) er skar konu sína á háls í Biskupstungum, hans handlegger og fótlegger sundur[2]) brotner og höfuðið á stöng upsett. —

Maður skorinn á hásinarnnar á Lánganese stigamaður sagður og þiófur — Galldramál firer norðan.

Brúðkaup á Sæbóle vestur Þorleifs Magnússonar og Sigríðar Eggertsdótter — Var góður vetur þó stórviðrasamur —

Kom út Magnús Magnússon[3]) í Keflavík suður, silgde aptur í sama kaupstað sama sumar til Luckstaðar í Holstinn, reiste þaðan til Hamborgar og þaðan til lands til Libek, so þaðan ifuer Belt til Korsör, síðan til lands til Kaupinnhafnnar og kom þar hálfum mánuðe firer iól.

---

[1]) Narfason segir Espólín (VI, 135).

[2]) Skr. sunder.

[3]) Höfundurinn.

Anno 1651 Hanebal Sested mágur kóngs staðarhalldare[1]) í Noreg var í fáre vegna klögunar noskra uppá hann — Sú kona Dína[2]) sem kom up með mikið efne uppá hofmeistarann Corfits Ulffelld, sem var að hofmeistarinn hefðe viliað svíkia kónginn með eitre og sagðist hafua leigið í sæng hiá hofmeistaranum þá glasið sem forgiften var í var inn borin, og þá hefðe hofmeistarinn að spurt hvort það munde vera nógu sterkt enn frukinen Elenonora[3]) hefðe svarað að það være so tilbúið að hann visnaðe og upþornnaðe þar af og framar sagðe Dína að hofmeistarinn hefðe með sig haft. Dæmd á biþinge frá lífinu og riettuð áre síðar[4]) —

Þesse sök opinnberaðist um veturinn seint á föstu með því móte að eirn maður, í slipru[5]), kom inn um laungangenn um nóttina í kóngsens sal, þar kóngurinn og drotningin sváfu, sitt í hvoriu rúme, þesse sliprumaður lifte vörum kóngsins í sundur þar hann svaf og villde hella af glase í hans munn, enn í því skaut drotningin, enn sliprumaðurinn hlióp í launganginn.

Achsise[6]) af öllu öle lögð á í Danmörk, hofmeistare og erkebiskup stefna hvorer öðrum til herradags.

Sagðt út andlát Vilhelm Nassau[7]) prinsins af Hollande, er átte dótter kóngsins af Einglande er hálshöggvenn var — Mikið stríð sagðt af Polinn.

Andaðist Jón[8]) Magnússon ingre á Eire í Seiðisfirðe 11 ianúarii — Dó síra Ólafur Einarsson í Kirckiubæ í Tungusveit austur, alldraður og vellærður kennemann, siónlaus — Item andaðist Matthias Söfrensson umboðsmaður á Bessastöðum af steinsótt — Sáust menn í lofte með vöndum í Vestmannaeium — Á Eirarbacka kom af sió stór firerburður sem breittist í margar minder, enn var optast í elldlegu nockru kringlóttu eður hnette.

---

1) þ. e. Statholder.
2) þ. e. Dina Vínhovers.
3) þ. e. Eleónóra kona Úlfelds, dóttir Kristjáns 4.
4) Hún var rjettuð 1651, en 1650 í decbr. hafði hún brotið upp á þessu máli.
5) slipra er síður kjóll (vestis tenuis, promissa Bj. Hald.)
6) þ. e. accise (tollur).
7) þ. e. Vilhjálmur 2, af Óraníu, d. 6. nóvbr. 1650.
8) hjer er Dan ritað f. ofan línu með annari hendi.

Ásóckn andskotans á Biarna Pietursine á Staðarhóle og Þorkele Guðmundssine á Borg[1])

Riettaður maður og kona í Eiafirðe fiellu í blóðsköm, hún var hans stiúpdótter —

Veikur maður af æðe vestur í fiörðum varð visinn.

Fiell Staðar kirckia í Aðalvík af veðre og brotnaðe víða hús, og urðu þar heiskaðar.

Maður skillde nauðgað hafua x vetra gamallre stúlcku firer Iökle —

Skiptape Hóls manna, og lietust þar Helga Magnúsdótter frá Hóle stúlcka með henne og 5 menn enn eirnn komst af var tekinn á sió dæginn efter Iónsmessu.

Tvö hollendsk skip láu í Reiðarfirðe norður.

Birt kóngsbrief að alþingisskrifuaralaun afhendist til Bessastaða — Miste Eiríkur Oddsson sina konu — Tvær dætur Þorvallds á Auðbrecku sem varð bráðkvaddur á förnum veige, trúlofuast prestum tveimur, síra Erlende á Melstað og síra Stepáne Ólafssine á Vallanese —

Varð Runólfur Jónsson magistur.

Komu úr siglingu frá Kaupinnhafnn Halldór Jónsson elldre frá Reikhollte, Daðe Jónsson frá Melum, Jón Jónsson frá Skinnastöðum og Magnús Magnússon[2]) frá Haga er þient hafðe borgmeistara Hans Nanssine 3 ár.

**Anno 1652** spurðist úr Danmörk andlát erkebiskupsins Caspar Brockmans.[3])

Item útlegð og leineleg burtför hofmeistarans Corfix Ulffelld — Afsetning Hanebal Sested stathalldara í Noreg — Hálshöggven í Kaupinnhafnn sú kona Dína[4]) sem átt hafðe mál við hofmeistarann sem áður er getið, þá hún kom á aftökustaðinn sá hún einn af hofmeistarans þienurum og sagðe til hans: Seig þínum herra, mitt blóð skal klaga og

---

[1]) Borg: hjer b. v. sama hönd: í Víðedal. Utan máls á næstu síðu bætir sama hönd við nokkru, sem og stendur í meginmálinu, og er því ekki hjer sett, nema þessi klausa: »item í Haga á Barðaströnd Sigurðar Árnasonar frá Leirá og Elennar Magnússdóttur.«

[2]) Höfundurinn.

[3]) þ. e. Jesper Rasmussen Brochmand f. 1585.

[4]) þetta var árinu áður.

hrópa ifuer þínum húsbónda og magister Simon[1]) firer dómstóle drottins —

Nockru skömu þar efter hún var aftekin fór hofmeistarinn á náttartima á einu skipe með allt sitt utan hús og garð flestum óvitande án kóngsleifues úr Kaupinnhafnn.

Cómeta sien á himne i december mánuðe. Parllamentið i Einglande fær sigur á Skotta kónge þeim eingelska prins so hann flúðe í kvennfötum.

Stríð af hollendskum uppá Eingland báru hollendsker lægra hlut áttu að gefua enskum 3000 sterlling og þar með firer þeim iafnan strika friðlauser ef þeir í Eingland án leifis kiæmu, en þeir eingelsku i Hollande nær villdu —

Andaðist Þórður Heinriksson á Hólme, Sigríður kvinna sira Jóns[2]) i Hvamme um nóttina í sængine hiá honum, Gísle Biörnsson á Staðarfelle, Andrés Biarnarson á Melgraseire, Þorleifur Magnússon á Hliðarenda, Guðrún Magnúsdótter á Hólme, Hákon Gíslason i Bræðratungu snögglega, Þóra Jónsdótter i Dal, Þorbiörg Guðmundsdótter i Hollte, Herdís á Söndum, Christín Magnúsdótter i Kviindisdal, erfðu hana 11 bræðrasiner, tóku í hvornn ættlið sem feður þeirra stóðu til, varð 18 i föstu i hvorn hlut i 5 staðe og nær því í lausu.

Þá andaðist og Christín Guðbrandsdótter í Ögre 1. októbér 78 ára, iörðuð þann 3 enn þann 11 októbér andaðist Are Magnússon á mánudag, hafðe kóngs umboðsmaður verið 62 ár, var iarðaður miðkudæginn firstan í vetre, hann var fæddur 1571, hann háfðe áður hann aflagðe Strandasíslu 50 kóngsiarðer, Barðastrandarsíslu hafðe hann i 6 ár og lagðe hana af við Biörnn bróður sinn, þá hann fieck Ísafiarðar síslu efter Pál Jónsson, enn Barðastrandar síslu tók hann efter föður sinn 1592, giftist hann Christínu sálugu 1594 og voru til samans 58 ár nær, Þorleifur Cortsson og Magnús Magnússon[3]) tóku Ísafiarðar síslu með Ísafiarðar síslu iörðum efter hann[4])

---

[1]) þ. e. S. Hennings, prestur við þýsku kirkjuna í Höfn (sbr. Paus: Corf. Ulfelts Liv og Levned II, 8).

[2]) hjer(!) b. önnur hönd við á rönd: Loftsdotter. Jón er Jón Ólafsson í Hvammi í Norðurárdal.

[3]) Höfundurinn.

[4]) Hjer stendur utan máls með annari hendi: A° 1652 deiðe Hákon Gíslason lögmanns Hákonarsonar. Cómeta sást undir siöstirne í 7 daga og merkte 7 ára stríð og siúkdóm.

— Rangárvalla síslu efter Hákon Gíslason tók Hákon Ormsson landskrifare[1]).

Skógarstrandar umboð tók Eggert Biörnsson, Skaftafells síslu tók Einar Þorsteinsson epter Þorleif Magnússon, hann andaðist sama miðkudag sem Are sáluge var iarðaður. Þetta ár var hið firsta fóvetaár Tómasar Nickulássonar[2]).

Sióargangur á Eirarbacka firer iól, giörðe skaða dönskum og íslendskum húsum og gótse sierdeilis í Hraune firer austan —

Stiftuð 4 hospitöl í Íslande af kóng Friðrik 3a með öðru tillæge landsfólcksins og útlendskra — Kom danskt skip frá Grenlande til Bessastaða, með föt þeirra grenlendsku og annan varnning —

Giftist Þorleifur Cortsson Ingibiörgu Jónsdótter og Gísle Jónsson Guðníu Jónsdótter — Jón Árnason silfursmiður og Ingebiörg Christín Þorsteinsdótter dóu, og margòt annað almúga fólck —

**Anno 1653** tóku dansker 24 skip frá eingelskum hlaðin með kornn og selldu gótsið, það stiltist vel með enskum og dönskum — Dansker láu með skipastól í sundinu og svensker firer sínum dirum, og því ótrútt um þá hier í sió og enska — Dó Hans Reisenn ingre biskup og docktor Lárus[3]) kom í hans stað.

Stríð mille hollendskra og eingelskra hættusamlegòt og höfðu eingelsker sigur.

Lítill grasvöxtur — Kom seint sigling hier vestra.

Síra Hallgrímur Ólafsson[4]) varð úti í öræfum firer krossmessu, mille Eiafiarðar og Skagafiarðar, tók hann snióflóð, hans filgiara kól til örkumsla —

Andaðist Biarne Sigurðsson á Stockseire. Ásóckn diöfulleg á nockrum persónum í Triekillirsvik — Síra Gils Sigmundsson gamall prestur að Stað við Súgandafiörð andaðist, síra Jón Torfason tók þann stað aptur — Komu ecki utan

---

[1]) Heimfært af Espólín til næsta árs.

[2]) Espólín nefnir Tómás við 1653 sem umboðsmann höfuðsmanns (VI, 148).

[3]) þ. e. Lars Mortensen Skavbo (Scavenius), biskup til 1655.

[4]) prestur á Múnkaþverá.

2 kaupför firer norðan land, hvarf þriðia þeirra norðaustan á landinu —

Kom hart kóngsbrief að einginn skillde til framande þióða vitia eður leið inn á hafner seigia under lífs straf — Steitte Akureirar skip á grinningum, drucknuðu 5 menn og um haustið firer forgeck og annað Akureirar skip við Fremre lönd og komst einginn af.

Giptist Magnús Magnússon[1]) Olaufu Guðmundsdótter —

**Anno 1654** pestilencía mikel í Danmörk, dóu frá niársdeige 1654 og til niársdags 1655[2]) í Kaupinnhafnn alleina 8551, hier á móte fæddist aptur 708 skilgetin börn, enn laungetin 56.

Friðargiörð með enskum, hollendskum og dönskum með giallde við enska —

Olifer Cromul úthrópast firer lord protector — Höfuðlaus giörnningur að kalla raaðið parlament. — Stríð með Svíum og Bremskum —

Brender 3 galldramenn í Stranda síslu í Triekillirsvík — Kom höfuðsmaður epter alþing, höfðu ensker að honum skotið af varnarskipe þeirra í siónum — Giftist Guðmundur Jónsson Málfríðe Árnadótter — Brotnuðu 2 skip dönsk í Húsavík og fórst gótsið —

Andaðist Ísleifur Eiólfsson í Surbæ, Árnne Gíslason á Itra-Hólme Marteinn Halldórsson á Áltanese, Fúse Eiríksson í Áse og síra Gísle Jónsson er drucknaðe í Hvítá capellan í Arnnarbæle, var M. Briniólfur biskup í Skálhollte 1654 49 ára gamall, herr Torlákur Skúlason 57 ára, síra Jón Arason 48 ára —

**Anno 1655** spurðist andlát þess hálærða doctors Ólafs Vorm — Mikil pestelentía í Kaupinnhafnn so þar dóu 8550 mans[3]), þar dó og Mestare Runólfur[4]) — Svíadrotning Christín dró í önur lönd[5]) að siá sig um, og var í hennar stað aftur settur Carolus Gustaus[6]) hennar frænde —

---

[1]) Höfundurinn.
[2]) hjer er »dóu« endurtekið.
[3]) þetta er endurtekning þess sem fyr stendur.
[4]) Hann dó 1654.
[5]) Þetta gerðist 1654.
[6]) Gustaust hdr.

Fanst Vigfús Árnason Asistatis[1]) andaður á veige burt frá Skálhollte — Víða hvalrekar.

Diöfulleg ásóckn á síra Jóne Magnússine á Eire við Skutulsfiörð og giörðe sig í margra kvikinda líke.

Andaðist Þorkatla under Múla[2]).

Brann bærinn hálfur í fremra Gufudal.

Skip frönsk og hollendsk láu firer Ströndum.

Norðanveðráttusamt sumar — Brullaup Biörns Magnússonar og Helgu Guðmundsdótter á Þingeirum — Kom út leifue, Birne Pálssine leift að giöra hiónaband til Ragneiðar Magnúsdótter, hvor að voru sín á mille að skilldugleik öðrum og þriðia, sagðt firer 100 ríkisdale.

Andaðist síra Árne í Látrum 95 ára gamall.

Brotnaðe Skutulsfiarðar skip í hingað siglingu við Noreg, kom því seint, so og höfuðsmans[3]).

Dó maður vestra, meint af ofmiklu brennevíne, annar firer Jöckle, þriðie bráðkvaddur þar siðra.

Kom bólan með enskum í Dírafirðe. Andaðist Þorsteinn Magnússon á Þickvabæarklaustre, Árne Teitsson lögriettumaður, Hannes Eggertsson í Snógsdal[4]), Páll Hialtason.

Fiell uppá stór og mikil sótt epter alþing.

**Anno 1656** kríndur til prins í Danmörck og Noreg Christian 5 12[5]) vetra gamall nú orðinn kóngur.

Buðu Svensker aftur kóng Friðrik[6]) sín lönd sem þeir unnið höfðu af hans föður Christian 4 til frekari samhallds og vinskapar.

Spurðist að kóngurinn af Sína hefðe gefið sig til þeirrar pápisku relegion.

Svía drotning Christin gaf sig í klaustur til páfuans, þá var sungið, Te deum laudamus[7]) og kölluð Maria cecunda[8]) —

---

[1]) þ. e. attestatus.

[2]) það e. Þ. Finnsdóttir á Skálmarnesi.

[3]) Hjer stendur utanmáls með a. h.: Skip brotnaðe í Seilunne suður.

[4]) Hann dó árið eftir 1656.

[5]) Kristján 5. er fæddur 1646 og hyltur konúngur 1655, 9 vetra.

[6]) hjer bætir höf. »aftur« aftur við.

[7]) Te — laudamus: Te laud- er leiðrjett í hdr. og Deum b. v. f. ofan lín. með annari hendi. Kristín gekk af trú opinberlega 3. nóvbr. (24. okt.) 1655, í klaustur gekk hún aldrei.

[8]) þ. e. secunda »önnur«.

Strið mille rúskra og pólskra, stiltist þá svensker upá þá stálust — Útrimdist pólske kóngur[1]) að inteknu miklu af hans lande, viek síðan til keisarans og riettist síðan við, naaðe aftur sínu rike að útreknum svenskum harlla særðum eður drepnum — Kom up stríð mille spánskra og eingelskra —

1656[2]) 11 dag[3]) í iólum andaðist h(erra) Thorlákur Skúlason biskup á Hólum, item sira Halldór Marteinsson, sira Biarne Arnórsson i Dirafirðe, Biörnn Gislason í Bæ i Borgarfirðe, Margriet Oddsdótter i Öndverðarnese, Helga Stepánsdótter í Skál og Catrín í Hraune í Ölvese, under Eiafiöllum í tveimur kirckiusócknum Holts og Hóla önduðust meir enn stórt hundrað manneskiur, so og á Siðunne og i Mídalnum —

Brender tveir galldramenn tveir feðgar Jónar á Kirckiubóle i Skutulsfirðe sumardag hinn firsta, voru vallder i veikleika sira Jóns Magnússonar og hann samt veikur efter.

Galldramál i Borgarfirðe og under Jökle, eirnnin i Stranda sislu í Triekillirsvík, af þeim ókirleika er þar geisar — Geck bólan um Vestfiörður ecki mannskiæð — Vindasamt vor enn vetur góður —

**Anno 1657** biriaðist strið millum svenskra og danskra, hvar af Danmörck fieck stórt niðurlag og skaða, dróu þeir svensku af Polinn og inn i Danmörck. Spansker tóku tvenn tíetíu skip frá eingelskum í strætinu[4]) — Var harla góður vetur.

Miste prestsskap sira Jón Jónsson i Reikiadal[5]). Andaðist sira Jón Torfuason á Torfuastöðum[6]), síra Gisle Biarnarson i Grindavík, Magnús Jónsson á Sióarborg[7]), og Eggert Jónsson drucknaðe í Hieraðsvötnum[7]) — Brann bærinn i Reikiarfirðe á Ströndum og þar ine 9 menn á litille stundu enn 3 komust úr baðstofunne, voru miög skemder, úr Bolungarvík varð eirnn af þeim skipverium besetinn af illum anda — Dó marger menn í Grunnavík i bólunne og öðrum veikleika —

[1]) Jan Kazimierz, en það var 1655.
[2]) Hjer stendur utan máls m. a. h.: Pestilentia i Danmörk — samt.
[3]) þ. e. 4. janúar.
[4]) þ. e. Nörvasundi (Gibraltarstrædet).
[5]) í Árnesssýslu.
[6]) 1656 segir Prestatal.
[7]) 1656 segir Espólín.

Varð mikill iarðskiálfte sierdeilis í Fliótshlíð, 16 Martii, so víða hrundu vegger og eirnn bær niður í grunn.

Andaðist Margriet Erasmusdótter, vígður Rafn Ólafsson, Þórður Þorleifsson, Gísle Finnbogason og Snjólfur Einarsson, Jón Loftsson til Surbæar þinga, er áður hafðe sá ágiæte kennemaður Gunnlaugur Biarnarson frá dáið þennan vetur, item andaðist síra Briniólfur Biarnarson[1]) í Hiarðarhollte er verið hafðe þess hieraðs prófastur, síra Erlendur Einarsson fieck þann stað aftur, enn síra Ketill í Hvamme varð prófastur í hans stað — Málefne slæmt í Dírafirðe er kona kende Biarna Þorleifssine barnn, enn hann sór firer.

Málefne milli síra Árna Loftssonar og síra Þórðar Sveinssonar um staðartöku í Aðalvík. —

Var miög sóttnæmt það vor í Áltafirðe við Ísafiörð.

Bráðkvaddur maður siðra í Fliótshlíð.

Andaðist síra Jón Ormsson á Kvennabrecku og síra Jón í Reikhollte og Þorlákur Pálsson, brátt um síra Heinrík[2]) — Kaupöl h(erra) Gísla Þorlákssonar og Gróu Þorleifsdótter á Hlíðarenda[3]), item Sæmundar Eggertssonar[4]) og Þuríðar Árnnadótter.

Andaðist Guðmundur Jónsson í Hvamme á Barðaströnd lögriettumaður.

**Anno 1658** spurðist að kóng Friðrik hefðe látið Þrándheims stigðte og Báhúslen í Noreg og Skánei svenskum til handa, item 2 tunnur gulls og annað meir sem í firstu sátt kom — Þann 8 Agustí sem var sunnudagur friettu þeir dönsku í Kaupinnhafnn að þeir svensku væru aftur ínnfalner í Seland efter þá firre Roskilldar sátt — Þann 9 sendu þeir dönsku gesanta til svenskra að biðia um frið. En komu aftur með það svar að dansker mættu so giarnnan þióna einum kónge sem hiete Carolus so sem einum er hiete Friðrik — Sama dag var Kaupinnhafnn tilsögð stabals[5]) fríheit — 11

---

[1]) rj. Bjarna-

[2]) Jónsson á Stöð í Stöðvarfirði.

[3]) Sbr. 1658.

[4]) Á Sæbóli (Espólín VII, 77); sbr. við 1666.

[5]) þ. e. stapels, verslunarbæjar. Hjer er átt við einkarjettindi þau (privilegier), sem konúngur gaf Khöfn 10. ág. 1658, staðfest 24. júní 1661.

Agustí voru af Kaupinnhafnsborgurum afbrend öll hús og bigging firer utan Kaupinnhafnn utan Vartó og Kalmans hafur og Norðurport læst —

12 Agustí var Kaupinnhafnn búen til stríðs og skotið af því firsta skote og voru skotner niður 100 mans af svenskum á Vartó loftum sem vagðt skilldu hallda og blifu flester dauðer.

13 October komu 6000 mans frá Hollande Kaupinnhafnn til hiálpar og þá tóku svensker til að ríma frá staðnum —

Andaðist Sigþrúður Þorleifsdótter kvinna Gísla Magnússonar á Hlíðarenda, síra Höskulldur Einarsson[1]), Jón Biörnsson á Skriðuklaustre og Jón Gvendsson lærðe — Stór feller í Austfiörðum, dóu í einu plátse nær 1200 fiár og 30 færleikar.

Sierdeilis góður vetur firer sunnan og vestan.

Andaðist heitstúlcka Guðbrands Magnússonar[2]) Elín Eggertsdótter, dó Þórður Þorsteinsson. Vígðist síra Árnne Halldórsson[3]), Pietur Rafnsson[4]), síra Pietur Ámundason[5]), síra Magnús Jónsson til Kvennabrecku, síra Sniólfur Einarsson[6]).

Rak stóran skipflaka eður prámu í Ófeigsfirðe. Staður í Aðalvík ifuergefinn af síra Þórðe.

Spurðist lát Magnúsar Biarnarsonar[7]), er orðinn var síslumaður í Rangárþinge — Geck bólan víða og einkum á Vestfiörðum og Breiðafirðe.

Vetur snemmfeinginn, kom á um krossmessuleite.

Dó Halldóra Guðbrandsdótter, Jón Arnngrímsson, Guðmundur Hákonarson og síra Ólafur í Görðum á Áltanese, síra Þorkell Arnngrímsson varð þar prestur aftur.

Frelsaðist[8]) Þurríður Jónsdótter frá galldra grunseme síra Jóns Magnússonar með tiltar eiðe.

Auglístist Margret Þórðardótter, er í sömu málum höfð

---

[1]) 1657 segir Prestat. og Espólín.

[2]) Hjer stendur á rönd með ann. h.: A° 1658 Margret Jónsdótter í Bræðratungu deiðe.

[3]) í Hruna.

[4]) á Stöð.

[5]) á Mosfelli i Mosfellssveit.

[6]) í Reykjavík.

[7]) Espólín segir hann dauðan 1657.

[8]) Skr. fresl-

var — Kom út Teitur Torfason með sín príuelegia — Kom út kóngsbrief þar ine hundraðskaup er firerboðið.

Kosinn síra Gvendur Einarsson til Kvennabrecku. Fótbrotnaðe síra Stepán Ólafsson.

Brúðkaup h(erra) Gísla Thorlákssonar og Gr[ó]u Þorleifsdótter á Hólum, Snæbiarnar Torfasonar og Helgu Eggertsdótter á Sæbóle.

**Anno 1659** andaðist síra Jón Pálsson[1]) firer sunnan þangað vígður aftur Jón Diðriksson — Item síra Stepán Hallkelsson, þangað kom síra Sniólfur Einarsson. Komu hollendsker víða með vöru af álfu Jónas Trelons[2]), enn dönsk sigling ei vegna stríðs —

**Anno 1660** kríndur Carolus annar sonur þess hálshögna Einglands kóngs er leinge hafðe í útlegð verið til kóngs ifuer Einglande einu áre efter Crumuelz dauða, efter hvorium þeir eingelsku siálfuer sendu til Portugal í Spanienn. —

Kom Heinrik Jentson danskur með kóngsbrief[3]) uppá kaupskapar höndlun á Patriksfirðe, Bíldudal, Skutulsfirðe og Dírafirðe hvar hann 2 skip fragðtaðe, og brotnaðe hans stærra skip í framsiglingu við Jútlands skaga og komust ei af utan 2 menn, hvar af hann fieck mikinn skaða, var þá góð kauphöndlan hier á höfnum.

Andaðist síra Gísle Einarsson á Stað á Reikianese, enn síra Gunlaugur Snorrason hans dóttur mágur fieck þann stað aftur.

Mikil jöklahlaup í Mírdal, tók af 5 bæge, þar í staðurinn Höfðabrecka, það varaðe frá þeim 2 November og til 9, og spreingde so iörð fram í sió að geingt er þar áður var 20 faðma diúp — Fiell Torfue Erlendsson frá sínum lienum kann ske firer fáheirð orð, fieck aftur síslu og lien með allre[4]) afgift með kóngs briefue áre síðar og svaraðe öngum sektum sem á hann voru dæmdar —

---

[1]) í Vogsósum, 1658 segir Prestat. og Esp.

[2]) Sbr. »Bevilling for Jonas Trellund på hvalfangst« osfr. 18. júlí 1660.

[3]) Dagsett 21. mars.

[4]) Hjer stendur utan máls með ann. h.: A° 1660 trúlofan Þorsteins Þorlákssonar og Elennar Polláksdóttur.

Silgde Tómas umboðsmaður á Bessastöðum, enn Jóhann Pietursson Klein kom i hans stað aftur.

Andaðist síra Jón Þorsteinsson sócknarprestur að Hvole og Skúmstaða kirckiu, þangað vígður aftur sira Gísle Bárðarson — Önduðust 2 prestar firer norðan síra Geir Markússon[1]) og sira Gottskálck nockur[2]) efter haldna Jólanáttmessu.

Drucknuðu 3 menn i Marckarflióte.

Andaðist Gróa Þorleifsdótter kvinna h(erra) Gisla biskups, eirnnin Gisle Eggertsson frá Skarðe.

Brullaup síra Skúla og Guðbrands Þorlákssona við dætur Benedigðts Halldórssonar, eirnnin sira Helga Grímssonar Guðríðe Stepánsdótter og Þorleifs frá Melum dóttur Runólfs Sigurðssonar —

**Anno 1661** giörðist Danmörck og Noreg að erfðarikium með eiðum og arfhillingar eiðar unner í Kaupinnhafn — Eingelsker inntóku og afbrendu þann stað Assor[3]) í Barbarienu og öll skip Tirckia, sem þar firer láu. — Í hvorium stað flester íslendsker fángar voru firer nockrum árum.

Varð Eirikur Sigvalldason bráðkvaddur í lögriettu á alþinge, hann var lögriettumaður —

Geck fátæk stúlka frá Gelte í Súgandafirðe og til Keflavíkur og fanst siðan sama dag á förnum veige nefndra bæa á mille, nær dauð, voru hennar föt brunnin upp að mitte, hempa og pils, enn líkaminn óskaddaður — Deiðe Halldóra Jónsdótter móður Margrietar kvinnu M. Briniólfs, item Elin Sigurðardótter á Helgafelle og Guðrún Sæmundardótter á Borg í Borgarfirðe —

**Anno 1662** kom út höfuðsmaður Heinrik Bielke efter alþing og voru honum svarnner Kóng. Maitt. vegna arfhillingar eiðar af islendskum á Kópavoge — Hollendsker og Eingelsker nockrer striddust á firer Vestfiörðum.

Skiptapar 3 við Ísafiarðardiúp — Andaðist Helga Jónsdótter á Leirá móður Árnna lögmans, eirnnin Þorkell Guðmundsson á Þingeirum.

---

[1]) Prestur í Mývatnsþingum, slepti brauðinu 1661 en dó 1665 (Prestat.)
[2]) Jónsson á Fagranesi.
[3]) þ. e. Algier, sbr. Asser (í Tyrkjaránið, Sögurit IV, 2,154).

Varð Thorleifur Cortsson lögmaður, enn Magnús Biörnsson lagðe af og sagðe af sier —

Kaupöl og brullaup í Hollte í Önundarfirðe, Magnúsar Jónssonar og Ástríðar Jónsdótter, þrímenningsleifue þeirra af kónge útgefið.

Magnús Jónsson á Reikhólum fieck hálfa Strandasíslu og hálfar Stranda síslu iarðer.

Torfue Erlendsson fieck aftur sín lien.

Andaðist Magnús Biörnsson lögmaður á Múkaþverá.

Faðer og móður stríktu sitt barn til dauða í Eiafirðe.

Stiúpfaðer drap sitt stiúpbarnn í Skagafiarðar síslu — Ragneiður dóttur M. Briniólfs átte barnn við Daða Halldórssine, enn hann var þá prestur orðinn, er hún varð liettare, silgde so og fieck þó ei framgang því biskup mótstóð hann.

**Anno 1663** komu dansker með kóngsbrief[1]) nockur það danska Companí tekur landið í 20 ár til leigu firer 4000 Rd. með Vestmannaeium það kauphöndlan snertir. Sálaðist greifue Ranzá[2]) 8 nóvember.

Þann 13. nóvember skeðe executiio Corfetds Ulffelldz — Greifue Ranzá var greife til Roskilld.

Kom Curprinsinn af Saxenn og var hann með öllum bestu herlegheitum tragteraður, þess erindis að trúlofua sier kóngsins elstu dótter Friðrikca Sophia[3]) hvað og skeðe, kom þar og hans móður með honum, var þar framin alls konar listugheit meðan hann þar tafðe í 3 vikur — Efter það hann var afreistur komu þangað báðer drotningarinnar bræður —

Var birt í Kaupinnhafnn það nílega útgefna kóngsbrief um firerboðning gulls eður silfurs til Hamborgar þar frá að færa eður víðar annarstaðar.

Sálaðist Ragneiður Briniólfsdótter í Skálholte eirnnin Magnús Gissurson[4]) í Lokinnhömrum 70 ára siálfuan páskadaginn — Varð Sigurður Jónsson í Einarsnese lögmaður enn h(erra) Árnne Oddsson sagðe af sier sökum elle og veike — Thorleifur Cortsson lögmaður feck Þingeira klaustur — And-

---

[1]) Privílegíið er dags. 31. júlí 1662.

[2]) þ. e. Christian Rantzau.

[3]) Hjet Anna Sophia, gift Jóhanni Georg þriðja af Saxen.

[4]) Skr. Gisser-

aðist síra Jón Jónsson á Melum vellærður og forstandugur maður. Sira Sigurður Torfuason fieck þann stað aftur.

Firer norðan[1]) drap kona sitt barnn og var aflifuð.

Skiptape mille Flateiar og lands hiet Bárður formaðurinn.

Fieck Biörnn Magnússon Múkaþverár klaustur efter föður sinn — Silgde Guðbrandur Jónsson i Vatnsfirðe 30 Julii, kom í Kaupinnhafnn 5 seftember, voru þá í Kaupinnhafnn þesser islendsker studíosis[2]) Þormóður Torfuason, Þórður Þorláksson frá Hólum, Halldór Eiriksson, Cort Ámundason, Árne Jónsson, Jón Biarnnarson, Árne Þorsteinsson, Loftur Jósepsson, Páll Ketilsson og Jón Þorláksson var þienare höfuðsmans.

**Anno 1664** Tirckinn grasserаðe i Ungaría og Þiskalande og feck þar ifuerhönd þar til keisarinn feck stirck af nálægum christnum löndum og rak hann tilbaka og náðe aftur því hann hafðe inntekið.

Item grasseraðe Tirckinn i siónum á þessu áre.

Sáluðust Árne Jónsson og Árne Þorsteinsson studiosis í Kaupinnhafnn — Giftist Tómas Nickulásson aftur i Kaupinnhafnn — Riðu 2 herramenn út í mörkina og skaut hinn annar annan i hel.

Deiðe M. Johann Borckmann[3]) — Silgde Jón Vigfússon frá Hvole i Kaupinnhafnn.

Fieck Þormóður Torfuason bestilling i Noreg af kónge í Stavangur stigðte þar að vera cammarrerus[4]), reiste hann þangað og hiellt þó sinne firre bestilling af hvorre hann hafðe 300 Rd. —

Andaðist Benedigðt Pálsson og þau siskin Daðe Eggertsson og Ragneiður Eggertsdótter á Skarðe, feck Jón Eggertsson Möðruvalla klaustur og gaf í festegialld 500 Rd.

Halldið festaröl biskupsins h(erra) Gisla Þorlákssonar og Ingebiargar Benedigðtsdótter frá Reinestað.

Giftist Jón Þorláksson frá Tungu[5]) Hillde Arngríms-

[1]) í Sljettuhlíð (Esp. VII, 37).

[2]) Þannig.

[3]) Hjer er átt við Hans Enevoldsen Brochmand biskup í Árósum (f. 1621).

[4]) þ. e. camerarius (skattheimtumaður).

[5]) þ. e. Víðidalstúngu.

dótter, Þórður Hannesson frá Snóksdal Caritas Jónsdótter, síra Illauge frá Setberge Ástríðe Jónsdótter, síra Gísle Einarsson Christínu Vigfúsdótter.

Síra Gunnar Biörnsson lagðe af Höskulldsstaðe[1]) við síra Biarnna Arnngrímsson, rómaðist að hann firer þann stað útlagðt hafue við fóvetann 100 Rd. —

Höfðaskip tapaðist so það spurðist ei neitt til þess — Giörðe Tómas umboðsmaður illa reisu í Grindavík var hann illa hraktur af biskupsmönnum firer það hann heimte giaffiska af þeim og hans filgiarar.

Mikið stríð millum Hollendskra og Eingelskra.

Komu gesantar af Einglande til Kaupinnhafnnar og var einn greifue firer þeim, hans kona varð þar liettare og hiellt kóngurinn prinsinn og drotningin barnninu under skírnn og var skotið af 30 fallstickium —

**Anno 1665** andaðist h(erra) Árne Oddsson og fanst látinn við laug eina skamt frá Leirá, hafðe giört áður sína bæn enn hann geck til laugarinnar.

Item sálaðist síra Sigurður Jónsson sócknarprestur Ögurs og Eirar kirckna — Drucknaðe Tómas Nickulai með sínum 5 filgiurum fram undan Melum í Melasveit á litlu skere ætlaðe að[2]) sigla á Stapa og þaðan á Vestfiörður, var orðinn miög raaðande og harðdrægur hier á lande.

Sálaðist Torfue Erlendsson síslumaður í Árnessíslu og var sagðt að 9 prestar hefðu verið við hans greptrun — Urðu 3 skiptapar á Breiðafirðe, 1 i Dírafirðe, 1 i Tálnafirðe alls hier vestra 11 skiptapar.

Hvarf fullorðinn maður giptur miög druckinn í Reikholts Reikiadal og sást ei meir — Annar hvarf og so í Lunda Reikiadal fullorðinn og fanst ei.

Sálaðist Halldóra Jónsdótter móður sister Margretar í Skálhollte — Skeðe brúðkaup Odds skólameistara og Hilldar Þorsteinsdótter undan Hollte under Eiafiöllum.

Vígðist Snorre Jónsson til capeláns föður sínum til Eirar við Skutulsfiörð, síra Teitur Halldórsson til capelláns föður

---

[1]) Skr. Höllsk.

[2]) Leiðrj.; á hdr.

sínum í Gufudal, síra Biörn Þorleifsson til Ögurs og Eirar, síra Eiríkur[1]) frá Lunde til capeláns föður sínum, síra Páll Ketilsson föður sínum til capelláns til Hvams.

Silgde Jón Þorláksson frá Hólum annað sinn í Kaupinnhafnn upá Möðruvalla klaustur, Item silde Sigurður Jónsson frá Vatnsfirðe — Var stolið úr dönsku búðum á Dírafirðe 72 W[2]) og varð uppfíst, var stríktur faðerenn og 2 hans siner, enn móður og dótter með fiegiallde útleist á Lækiaróse er þennan stulld meðkendust — Kom einginn sigling til Íslands mönnum til gagns utan dansker saker þess stóra stríðs sem stóð mille Eingelskra og Hollendskra, höfðu Eingelsker útbúeð 130 cabitals[3]) skip til þessa stríðs mót Hollendskum.

Kom út þetta ár Halldór Eiríksson, Páll Ketilsson, Guðbrandur Jónsson[4]) ordineraður í Skálhollte 15 october.

Deiðe kvinna Sæmundar Magnússonar á Hóle Guðrún Þorvalldsdótter. — Sást cometa á Íslande, item mörg teikn utanlands — Sálaðist barnn Gísla Sigurðssonar og Þorbiargar Vigfúsdótter — Heingde sig piltur 14 vetra á Hamrendum í Borgarfirðe — Komu dansker síðla hingað til lands vegna stríðs, á Dírafiörð og Skutulsfiörð komu 2 skip um höfuðdagsleite og tapaðist annað tómt, þá það ætlaðe að sigla inn á Dírafiörð og hefur hvorcke til þess siest nie spurst síðan — Steitte danskt skip í Rifue og komst fólckið í land, enn skipherrann sinte í land og dó skömmu síðar — Deiðe Gísle Sigurðsson á Oddgeirshólum lá hálfuan mánuð[5]) — Item Páll Þorláksson í Víðedalstungu og Jórun Jónsdótter í Snócksdal[6]) — Sást leinge undarleg cometa á himnum sem undergeck í Februarii í miklum kullda og froste og í sama bile og sama deige fiell elldur af himne og þar efter og í því bile heirðust sem 3 stór skot — 17 Martii skrifuast frá Fenedyenn að sá perssiske með 150 þúsund mans hafue alla reiðu marga staðe af Tyrckeríenu unnið. —

**Anno 1666** mikið stríð á þessu áre millum Hollendskra

---

[1]) Eiríkur Eyjólfsson á Lundi í Lundareykjardal..
[2]) = vættum.
[3]) þ. e. capital, 'höfuð-, aðal-', »línuskip«.
[4]) í Vatnsfirði.
[5]) Hann dó 7. febr. 1666 (Esp.)
[6]) Hvorttveggja telur Esp. 1666.

og Eingelskra, töpuðu Eingelsker slæginu og mistu 33 orlogsskip enn Hollendsker 4 —

20 Martii frá Róm skrifuast þær frietter að ein borg Foligno[1]) í iarðskiálfta hrapað hafue. Og hiá Avesa[2]) 3 mílur frá Neapolis í Spanienn[3]) hafue iörðin niður sockið að leing[d] 350 álner og að breidd 100 álner og þar uppgefið stórmikinn ódaun, reik og elldsloga so iörðin hafue hræðelega skolfið — — Kom út Jón ingre Vigfússon og hafðe feingið liensherrans[4]) brief firer Borgarfiarðar sislu, er Sigurður lögmaður þá hafðe. — Item fieck Jón elldre Vigfússon brief firer Árnessislu og varð síslumaður þar.

Þetta sumar var ár i betra læge til grasvaxtar, en miög óþerrasamt, mikið fiske ár um vorið og ei vindasamt enn að hallande sumre miög vindasamt — Jón Þorláksson fieck liensherrans brief uppá Möðruvalla klaustur er Jón Eggerts(son) þá hafðe og nóg firer gefið, enn hann kom ei út helldur, var tekinn i hafinu af skotskum og það skip hann á var — Teitur Torfason varð Skálhollts ráðsmaður epter Gisla heitinn Sigurðsson — Sira Einar[5]) á Stað í Hrútafirðe átte barnn i lausaleik — Vígðist síra Guðmundur Biarnnarson til Árness, enn síra Þorvarður fór til sira Magnúsar Einarssonar örvasa.

Deiðe Snæbiörnn Torfuason i Bæ i Króksfirðe í reisu af alþinge, grafinn á Reikhólum. Deiðe Sæmundur Eggertsson lögriettumaður á Sæbóle — Flute Magnús Jónsson sig frá Hollte i Önundarfirðe til Ögurs. Fiell sira Magnús Jónsson á Kvennabrecku i hórdóm og miste staðinn og embættið.

Á þessu áre kom upp hafreiður i Giörfudal i Ísafirðe, enn sumareð firer fiell þar á skriða sem tók mikinn part af túninu — Kom ofsóckn á sira Þórð Sveinsson i Skálhollte so hann varð siónlaus, heirnnarlaus og mállaus og vitlaus á einu augabragðe, lá so það efter var vetrarins og fram á sumar i Skálholte með mikillre vögðtun, þá sócte hans bróður Ólafur hann og flute vestur til Bæa á Snæfiallaströnd á kviktriám, hvar hann síðan sofnaðe, en skömmu firer hans

---

[1]) í Perugia í Ítalíu.

[2]) á líklega að vera Aversa fyrir norðan Neapel.

[3]) rángt f. Ítalíu.

[4]) Henr. Bjelkes.

[5]) Arnfinnsson.

andlát færðist að honum málið so hann talaðe i látínu, ebresku grísku og öðrum tungumálum þó í óvite.

Spurðist úr Einglande andlát Halldórs Briniólfssonar.

**Anno 1667** andaðist M. Eirík til Vorfru kirckiu, Þórður Þorláksson frá Hólum varð magister. Tekið Vatneirarskip og annað Skutulsfiarðar í hingaðsiglingu af skotskum og írskum.

Var Þórarinn Halldórsson brendur firstur í Almannagiá á alþinge —

Deiðe Guðríður Jónsdótter á Staðarhóle skömmu firer alþingistíma.

Hafðe á þessu áre verið mikið stríð mille Hollendskra og Eingelskra og var leitað opt um sætter þeirra á mille af frönskum og dönskum, höfðu Hollendsker giört Eingelskum mikinn skaða, brent up firer þeim 20 stríðsskip firer staðnum Túnis og tóku þaðan 4 þaug stæstu og intóku kastalann með öðrum miklu meire skaða sem þeir höfðu þeim giört — Villdu Eingelsker hafa í sáttarbætur 24 tunnur gulls, enn Hollendsker villdu þar ei undergangast.

Vígðist Oddur skólameistare til capeláns í Hollt under Eiafiöllum — Ólafur Jónsson frá Reikhollte varð skólameistare aftur — Kort Ámundason lókátur — Vígðist Loftur Jósepsson til kirckiuprests í Skálhollte — Vetur efter iólin í mesta máta[1]), item mikið og gott grasár og þar með góður heiþurckur hier vestra, enn harður vetur firer sunnan so víða uppflotnnaðe fólck og fór hópum saman um sumarið suður.

Komu þau saman síslumaðurinn Jón Vigfússon og Helga Þorláksdótter í Súðavík, eirnnin giftist Sæmundur Magnússon á Hóle í annað sinn Solveigu Jónsdótter í Arnnarbæle.

Varð stúlckubarn síra Árna Loftssonar í Alviðru i Dírafirðe under heigarðe og deiðe, voru þar fleire börnn, sem lífs undan komust.

Deiðe síra Þórður Sveinsson í Bæum epter langvaranlega ofsóckn diöfulsins, hartt nær í tvö ár.

Tóku Hollendsker eitt eingelskt krixskip hier skamt frá lande og sleftu mönnum öllum á land hvorier hier voru um veturinn — Item rændu Enskir í Austfiörðum síra Þorvarð Árnnason[2]) til 60$^{\infty}$ sumer seigia það hafue skotsker verið —

[1]) Vantar hjer t. d. »mildur«?
[2]) Á Klyppstað.

Kom til landsins fóuetinn Jóhan Pieturson Klein og silgde aptur seint um haustið, voru hingað til lands með honum send 3 stríðsskip og comedantinn Otte Bielcke með 5000 soldáta, hvor hier um veturinn á Bessastöðum var og liet smíða þar skanssa um vorið efter til landsins verndar og lagðe allt landið andleiger og veralldleiger þar til mikið gialld út þó til lítils gagns kiæme — Eitt af þessum 3 varnarskipum komst hingað, enn tvö snerru aftur sökum leka við Hettland. Orðsakaðist þessara skipa og fólcks útsending þar af að sagðt var í Kaupinnhafnn, að Ísland være af Eingelskum intekið.

Framundan Jökulsá á Sólheimasande firer austan um Máríumessu seirnne steitte eitt stórt hollendskt Ostindifars skip og komst fólckið mestan part í land, enn kropnaðe þar af fiöllde er það var í land komið sökum þess það var í silcke fötum hielldust epter 50 en höfðu verið $2^1/_2{}^{\infty}$ með firsta.

Komu þessir sier í skip með dönskum um haustið, enn þeir ei far feingu skiftust manna á mille til veturvistar.

Það var orðlagðt að fragðt þessa skips þá það af Ostindienn silgde hefðe verið verðlögð firer 43 tunnur gulls. Mikið[1]) af þessu dírmæta gótze rak smásaman up og var fært til Bessastaða, comedantinum til handa, hvort hann liet um veturinn selia firer ærnna peninga — Sama haust steitte og annað ostindianskst skip við Færeiar og naaðist gótzið og var þar vel forvarað —

Dæginn firer Máríumessu seirnne firer Eiafiöllum steitte og sú galióta sem efter kónglegre skickan átte í kring um landið að sigla, var þar á capteirnn Heinrik Jensson sem á Skutulsfiarðareire hafðe áður kaupmaður verið —

Rak heilt útlendskt skip fullt með fialvið að tölu 3000, biórtunnu og kettunu var brotin af kaettann og ifuerbigingin, hart nær Látrabiarge, líst á alþinge enn virt í hieraðe —

Á þessu áre rak hier á Vestfiörðum 15 stórfiska er skutlaðer voru — Kom út Jón Þorláksson og dæmdist honum og skickaðist Möðruvallaklaustur enn Jón Eggertsson var afsettur hvar af varð mikill óróe og kostnaður firer báðum —

---

[1]) Utan máls stendur hjer með ann. h.: þar var klukkukopar firer barlest.

Í Norðurlande geck undarlegðt galldramál, tveir voru þar tilnefnder Jón Illugason og Jón Guðmundsson hvor að deiðe snögglega firer tiltekt þess vonda anda og gieck síðan aptur að sagðt var, hvar af varð mikill reimleike — Kom up 3 sinnum elldur í staðnum Kaupinnhafnn so staðnum hafðe miög hætt verið.

Kom saman curprinsinn af Saxenn og kóngsins elsta dótter af Danmörck —

Item keisarinn við kóngsins dótter af Spanienn og kóngurinn af Fránckaríke við aðra kóngsins dótter af Spanienn[1]), item vor arfaprins við dótter landgreifans af Hessen Carlotta.

Fieck Kvennabrecku efter síra Magnús Jónsson síra Þorleifur Jónsson son síra Jóns á Melum.

Reið M. Briniólfur Glámu vestur í Hollt í Önundarfirðe og arfleidde þar sinn dótturson Þórð Daðason 6 vetra[2]) með samþicke bræðra sinna, hafðe hann og feingið samþicke bræðra Margretar að hún mátte hann og eirnnin arfleiða —

Kom út Biarnne Biarnnarson under Heste úr Einglande í Austfiörðum og reið so hingað vestur.

Var giörð sátt og friður um síðer mille Eingelskra og Hollendskra —

**Anno 1668** var góður friður allra christina landa á mille, kom almenneleg sigling til Íslands. Árferðe stirt, grasvöxtur lítill, heiaskemder ifuer máta í víðustum stöðum sökum mikillra votviðra og óþerra —

Kom út til landsins fóuetinn Jóhann Pieturson Klein og bróður commedantsins Christian Bielcke og silgdu aptur báðer ásamt commedantenum Otte Bielcke, hvor eð með sier burt hieðan hafðe mikið gialld og margar gersemar af því Indianiska götze og útlögðu skanssa giallde —

Kom út Sigurður Jónsson frá Vatnsfirðe og Jón Hallgrímsson að norðan — Kom út kóng. maitt brief sem Gísle Vigfússon útvegaðe uppá kaup Gísla heitins Sigurðssonar

---

[1]) Hjer mun vera átt við Leopold fyrsta, Þýskalandskeisara, er átti dóttur Filips 4., Margrjetu (d. 1673), og Lúðvík 14., Frakkakonúng, en hann giftist dóttur Filips, Maríu Teresíu, 1660.

[2]) Hjer stendur utan máls með ann. h.: hvör eð og reið með honum austur (þ. e. austan?)

við Þorbiörgu konu sína á sinne sóttarsæng skömmu firer hans andlát á sínu höfuðbóle Oddgeirshólum, að hún þeim bíhallda skillde, birt í lögriettu — Síra Páll Ketilsson fieck fóuetans brief firer Hvamme í Hvamssveit, síra Ólafur Þorleifsson firer Söndum, síra Snorre firer Eire í Skutulsfirðe.

Kom út M. Þórður Þorláksson og silgde aftur sama haust — Þesse brullaup halldin Jóns Vigfússonar ingra og Guðríðar Þórðardótter í Hitardal, Teits Torfuasonar og Helgu Jónsdótter í Vatnsfirðe, Torfua Jónssonar og Ragneiðar Jónsdótter, síslumansins Magnúsar Jónssonar og Guðrúnar Þorgilsdótter frá Völlum, síra Páls Ketilssonar og Guðrúnar Biörnsdótter.

Sagðe Gísle Jónsson af sier Ísafiarðar síslu hálfua, hvoria Páll Torfuason tók, stefnumál millum hans og síra Árna Loftssonar og óníttist.

Silgdu þesser íslendsker, Vigfús Hákonarson frá Bræðratungu, Sigurður Sigurðsson frá Stafhollte, Snæbiörn Biörnsson frá Staðar stað, Halldór ingre frá Reikhollte, Teitur Pieturson biskupssveinn frá Skálhollte, Þorsteinn Geirsson frá Hólum, Biörnn Nikulásson frá Kirckiubæar klaustre og Jón Eggertsson eiginngiftur uppá sitt mál og um Möðruvalla klaustur, Biarnne Jónsson frá Völlum — Varð Árnne Magnússon í Bolungarvík lögriettumaður.

Síra Biörnn Þorleifsson[1]) og hans kvinna níkomin í hiónaband saman mættu diöfullegre ásóckn, enn þó firer drottins naað síðar afliettist.

Ókirleike i Triekillirsvík og Hrútafirðe.

Deiðe Magnús Guðmundsson skindelega um sumarið á alþinge öldruckinn — Þesser önduðust á þessu áre, síra Torfue Snæbiörnsson á Kirckiubóle, Steinþór Gíslason, Sigurður Magnússon á Skútustöðum, síslumaður, Jón Vigfússon fieck þá síslu aftur. Item druck[n]aðe Teitur Torfason fiórðadags kvölld ióla —[2]) Item deiðe Erkebiskupinn Hans Suan[3]) fliótlega er hann hiellt gestaboð í Kaupinnhafnn, gieck aftur hvar um undarlega ræmdist.

Kom til Íslands fóuetinn Jóhann Pieturson Klein með

---

[1]) í Ögri.

[2]) Hjer stendur utan máls: A° 1669.

[3]) þ. e. Hans Svane; hann dó 26. júlí 1668.

konu og börnn, beiker Kock og barskera[1]) er hier skilldu dvelia[2]) með sínum kvinnum sem gifter voru.

Kom út Gísle Vigfússon magistur orðinn.

Ítem kom út Jón Eggertsson með vel útriett erinde, hafðe aptur feingið mestan part þess giallds sem hann útlagðt hafðe í festu firer Möðruvalla klaustur af erfingium Tómásar Nickulaí — Silgdu þesser íslendsker, Biörnn Gíslason frá Hlíðarenda, Einar Einarson úr Kiós, Jón elldre Sigurðsson frá Einarsnese, opinnber að barneign með þiónustu stúlcku þar sama staðar að sagðt var — Á þessu áre deiðu þessar persónur, Ólauf kvinna Hallgríms Halldórssonar, Steinun frá Ökrum, Cort Ámundason, síra Erlendur í Hiarðarhollte, sem leinge hafðe spilltur[3]) verið, síra Eingilbrigðt á Þingvöllum, síra Þórður Þorleifsson fieck þann stað aftur, Ólauf Guðmundsdótter kvinna síra Þorláks[4]) — Geck sótt hier í lande um haustið og fram epter vetre margslags, item fleckasótt í bland og dó margðt almúgafólck um allt landið — Item drucknuðu í ám firer norðan tveir prestar[5]), item sálaðist Guðmundur Torfuason á Kelldum.

Á þessu áre efter iólin og fram á sumar mætte sú fróma guðhrædda h. kvinna, Helga Halldórsdótter í Selárdal ærið mikillri árás og ofsóckn af illum anda, hvar um ei nógsamlega sem það skeðe skrifuað verður, þiáðist hún so hier af, að sitt heimile flía varð — En firer guðs naað opinnberaðist þesse ódæða uppá dreing nockurn Jón Leifsson að nafne, sem sig meðkende með ristingum og blóðvökunum þat giört hafua, og sinn skólameistare í þessare vondu kunst være Erlendu[r] Eiólfsson hvorier baaðer siðan brender voru —

Úr Triekillirsvík spurðist stór ókirleike hvar firer tve[i]mur var til eiðs dæmt —

Andaðist Ragnhilldur Torfuadótter á Kirckiubóle í Langadal af barnsför, hvort hún að faðerne kende síra Snorra

---

[1]) Svo, f. -skeri eða -skerar?

[2]) Hjer stendur og »Anno 1669« utan máls.

[3]) þ. e. líkþrár.

[4]) Þorláks Bjarnarsonar á Helgafelli.

[5]) Hjer mun átt við Jón Einarsson á Múnkaþverá og Þórarin Jónsson á Garði í Kelduhverfi.

Jónssine og andaðist bæðe hún og barnnið skömmu síðar með þungar lísingar, stefnde Páll Torfuason Snorra firer þessa legorðs sök, kom til alþingis og samdist so að Snorre skillde láta úti við þá bræður 10$^{c}$ í iörðu og 20$^{c}$ í lausafie, hvað þeir feðgar útelietu — — Giftist Rögnvalldur Sigmundsson Ragnhillde Torfuadótter, Biarnne Gunnlaugsson Margretu Torfuadótter, síra Hannes Benedigðtsson Þóru Halldórsdótter frá Gufudal.

Gaf síra Halldór Teitsson Gufudals stað við son sinn síra Teit Halldórsson — Brann 4 kúa fóður á Bruná[1]) í Surbæ.

Vetur stirður efter iólin og geingu harðinde að flest öllu fólcke sem ei var betur viðbúið að heibiörgum, varð víða hier vestra mikill feller af fie og hestum úr öllum sveit[um] þar að spurðist og var þesse vetur kallaður hestabane. Kom góður bate föstudægenn langa, grasár í meðallæge, enn sumarið nitkaðist lítt sökum votviðra, vetur til ióla í besta máta með miklum hlákum —

Síra Halldór Eiríksson á Kolfreiustað opinnberaðist að barnneign níkominn saman við konu sína og miste staðinn. —

Skólameistare á Hólum[2]) átte barnn í frillulífue reið til Bessastaða og fieck sín fríheit aftur, hans barnsmóður fór til barnnfóstru til fóuetans á Bessastöðum og silgde síðar með þeim í Kaupinnhafnn, kom út aftur og giftist.

**Anno 1670** deiðe á þessu áre sá hálofleige herra kóng Friðrik 3 Danmerkur og Noregs kóngur þann 9. Februarii um miðdeige, hans líkame var úthafður til begrafellds í Roskilld þann 4. Maii. — Kom aftur í hans stað hans elste sonur Christian 5e, tekinn til kóngs, hvorium eiðar voru hier á lande svarnner á Bessastöðum á þessu áre efter alþing því herramaður sá eiðana taka átte Jens Rotstein[3]) til Leirbeck komst ei á alþing sökum birleisu, þessa eiða tók fóuetinn Jóhann Klein.

Deiðe Margret Halldórsdótter kvinna M. Briniólfs í Skál-

---

[1]) þ. e. Brunná (Efri eða Neðri).

[2]) Jón Bjarnason »stálmunnur« var skólameistari á Hólum 1667—73 (Hist. eccl. Isl. III, 549).

[3]) eða Rodsteen.

hollte í iúní mánuðe, síra Einar[1]) á Stað í Steingrímsfirðe 7 Martii, Guðmundur Ásmundsson á Eire siálfan skírdag, Guðmundur Þorleifsson í Arnardal, síra Guðmundur[2]) á Þæfusteine, síra Sigurður Torfason á Melum efter alþing, Jón Sigurðsson í Káranese barskere, Loftur Hallsson lögriettumaður skindelega í reið frá alþinge, um haustið síra Þórður Jónsson í Hítardal, Sigríður kvinna síra Halls á Hrafnseire, Þórdís Jónsdótter á Leirá, Bárður Gíslason lögriettumaður, síra Ketill Jörundsson í Hvamme og Gísle Jónsson lærðe[3]) snögglega —

Komu út frá Kaupinnhafnn M. Þórður Þorláksson með kóngsbrief firer Skálhollts biskupsdæme efter M. Briniólf, Vigfús Hákonarson frá Bræðratungu, Sigurður Sigurðsson frá Stafhollte, hvor eð strax aftur silgde, Teitur Pietursson vígðist strax til kirkiuprests í Skálhollt efter Loft Jósepsson, Halldór Jónsson ingre frá Reikhollte, Hallur Sigfússon, Guðmundur Sveinsson og Biarnne Jónsson.

Tve[i]r menn Sigmundur Valgarðsson og Eiólfur úr Triekillirsvík kendur galldur og eiður ósær svarinn strikter á alþinge og síðan á Bessastöðum.

Skaut Hermann Kock í Diúpavoge eirnn íslendskan hraustan dugandismann í hel, naaðist af síslumannenum Þorsteine Þorleifssine. Náðaðist af kóngl. Maitt. uppá lífið, enn gallt erfin[g]ium 20 ᔐ, var síðan Kock hier á Skutulsfiarðar Eire — Brúðkaup M. Gísla Vigfússonar og Guðríðar Gunnarsdótter á Hofue, síra Þorláks[4]) á Stockseire 60 ára og Helgu Benedigðtsdótter[5]).

Reið fóuetinn með sínum sveinum norður í land til Þingeira og Hóla og víðar —

Vígðist síra Einar Torfuason til Staðar í Steingrímsfirðe, fieck fóuetans brief ofan á allt mótmæle sócknarmanna firer utan kostning —

Item vígðist Helge Jónsson til Mela í Melasveit epter síra Sigurð Torfuason og fieck brief af fóuetanum firer þeim

---

[1]) Sigurðsson.
[2]) Jónsson prestur í Nesþíngum (Snæf.)
[3]) í Melrakkadal.
[4]) Bjarnasonar, er áður var nefndur; Helga var frá Háeyri.
[5]) Hjer á eftir er skr. »ä«, að því sem sýnist, með öðru bleki.

stað keift firer 100 Rd. að sögn — Item fieck sira Teitur[1]) brief firer Gufudal firer 16 Rd. — Kom bólan inn í landið vestur first í Arnarfiarðardölum og var ei mannskiæð.

Giörðist forlíkun með H(erra) Gísla biskupe Thorlákssine og Jóne Eggertssine á Bessastöðum án peningaútláta og skeðe firer meðalgöngu og tilhlutan commissarii fóuetans, M. Briniólfs, lögmanna beggia og 24 bestu manna andlegra og veralldlegra — Slefte Biörn Pálsson Eiafiarðar síslu, enn Biörnn Magnússon tók hana aftur firer ærnna peninga og góðan skeinck.

Varð Sigurður Biörnsson landskrifuare.

Guðbrandur Arngrímsson síslumaður í hálfre Húnavatns síslu, enn Gvendur Steinþórsson afsettur.

**Anno 1671** stóð kríning og salverun vors allranaaðugasta arfuaherra kóng Christians 5a í Friðriksborg mánudæginn firer hvítasunnu hvar að við voru marger cúrfursta[r] og greifualeiger gesantar og furstalegar persónur af ímsum stöðum og löndum, giörðe hans Maitt. 3 af ríkisins ráðe til greifa, sem var hans Maitt. h(erra) bróður Christian Gillenelo[2]) stathalldare í Noreg, kallaður að sögn greifue van Ísland, og greifue van Alefeld stathollder.

Stiftaðe hans Maitt. það vestindiska companí, sem stiórnast skillde af 6 forvöllturum og skillde einginn þeirra hafua þar minne höfuðstól en 2000 slietta dale og hvor parcipant[3]) 100 slietta dale hið allra minsta með öðrum náðuglegum fríheitum — Kom það ostindiiska skip með mikið góts af Ostindíenn, og voru þangað send 2 önnur skip af kóng Christian 5a.

Kom curprinsinn af Heidelberg í Kaupinnhafnn að egðta eina af kóngsins sistrum[4]) — er þá eftter sú 4a og ingsta[5]) sem trúlofuast á kónginum af Svíaríke.

Kóngsins stríðsfólck af Danmörck og hertugans á Lyneborg skutu að mestu með 900 skotum þann megðtuga stað Brúnsvìk til grunna og villdu umkringia Hamborg hvað firer

---

[1]) Haldórsson.

[2]) þ. e. Gyldenløwe.

[3]) þ. e. participant (hlut-hafi).

[4]) þ. e. Vilhelmine Ernestine, gift Karli kjörfursta af Pfalz.

[5]) Ulrikke Eleonore, gift Karli 11.

bænastað curfurstanna afslóst, hvar firer þeir tóku Danmerkur kóng til skutsherra[1]) og síndu tilbærelega virðing — Sende hans kóng. Maitt. Otta Axel[2]) til Grænlands með fólck og skip og í sinne þangað siglingu fann hollendst skip Pietur Norðmann liggiande á Álltafirðe að hvorium hann skaut og um Ísafiarðar diúp elte heilan dag. Næsta dag efter upstigningardag giörðe þoku og komst Pietur so undan og kom hingað aftur um haustið. Enn til Otta eður hans skips hefur alldre síðan spurst —

Mikill stríðs tilbúningur millum Franskra og Hollendskra og í sióinn af Hollendskra álfu 60 orlogs skip komin og önnur 60 í Hollande tilbúin er 2 satar ifuerstiórnuðu — Spurðist að stórt tirckneskt skip hefðe komið að Skotlande sem til Vestmanna eia á Íslande fara hefðe átt, enn firer guðlega hiálp varð það standande þar á einu blindskere þar til eingelst stríðsskip að því kom, hvort það sier ei við þá treiste og sócktu annað heim hvor bæðe eingelsku skip þetta mikla Tirckia skip ifuerunnu og eiðelögðu —

Svenskra flote tilbúinn efter 3a bænadaga halld meinast að vilia forsvara þá Hamborgara móte þeim Lyneborgisku og Dönsku — — Var undarlega burtstolin með fáheirðum hætte sú eingelska córóna spíra og eple af nockrum strákum —

Jakob Benedigðtsson sem verið hafðe umboðsmaður á Bessastöðum tók Stapa umboð epter Matthías Guðmundsson og egðtaðe hans efterlátna konu[3]).

Tvö hión bráðkvödd í Árnes kirckiusóckn Jón Arnórsson og hans kona, varð úte um veturinn piltur 14 vetra og maður á Austurströndum og þar drucknuðu 2 menn á báte í logne, meinast fliðra hafue under þeim hvolft.

Brendur Sigurður Jónsson úr Ísafiarðar síslu á alþinge 6. Julí firer galldra er hann hafðe giört Þuríðe Guðmundsdótter konu Guðmundar Magnússonar — Sama ár stríktur Jón Úlfsson firer galldra — Sór síslumaður Jón Vigfússon ingre firer galldra og töpun Straumfiarðar skips á Smiðiuhóls þinge á Mírum — Brotnaðe franst hvalaskip í hafís

---

[1]) þ. e. skyts-herra ɔ: verndarmanns.
[2]) þ. e. Otto Axelsen.
[3]) Marín Eiríksdóttur.

á landsbrún og hleiftu upp til skipbrots í Spákonufellds höfða og komust menn af.

Bróður skipherrann[s] á Akureire skaut af sier höndina er hann villde hleipa af fallsticke til æru við sira Gunnlaug í Surbæ — Brennesteins verk aftur aflagt.

Silgde M. Þórður í þriðia sinn, Biörn Benedigðtsson frá Reinestað, Biarnne Gíslason, Jón Hallgrímsson, Sigurður Ásgeirsson frá Tungu, Gissur Biarnnarson firer austan — Magnús Sigurðsson frá Skútustöðum, Hákon Þorkelsson að forframa sig. Sömuleiðis sira Loftur Jósepsson sem á firerfarande áre hafðe galldra giörnninge borinn verið, af Jóne Sigurðssine[1]) lögmanns og honum til tiltar eiðs dæmt, hvornn hann ei sór því sumer prestar geingu frá honum —

Andaðist Christofor Rör er haft [hafðe] Stapa síslu og umboð í Kaupinnhafnn þann sama dag sem Matthías Guðmundsson dó hier á lande, skillde aftur hafua feingið umboðið og sisluna undan Matthias, hann silgde um sumarið Anno 1670 —

Andaðist Guðrún Gisladótter kvinna Magnúsar sáluga lögmans á Eirarlande, síra Biarnne[2]) á Þönglabacka, Nikulás Einarsson lögriettumaður, Matthías Guðmundsson er leinge hafðe Stapa umboð og síslu efter hann er sagðt að uppá umboðið vantað hafue 60 kúgillde með fleirum öðrum skulldum er ímser hiá honum áttu —

Kom út Þormóður Torfuason Erlendssonar að taka erfð efter bróður sinn síra Sigurð heitinn Torfuason, sellde máge sínum Markúse Svignaskarð og fleire iarðer, enn síra Þorkele Arngrímssine 50♂ i iörðum norðanlands firer 500 Rd.

Silgde fóvetinn Jóhann Klein með kvinnu og barne og allt hans fólck, sagt efter kónglegre befalningu að einginn danskur epterliggiare skillde hier í lande vera under 1000 Rd. straf.

Var h(erra) Gísle á Hólum í 13 vikur veikur af Photogra[3]).

Silgde Hermann Kock sem þann íslendska mann í Diúpavoge skaut, forlikte sig við erfingiann með 80 Rd. sem fóuetinn Gísle Magnússon og Þorsteinn Þorleitsson um í

---

[1]) »yngra« b. v. fyrir of. l. með annari hendi.

[2]) Jónsson.

[3]) þ. e. podagra (fótveiki).

borgun geck — Í Múlasíslu átte maður barnn með sinne eiginn dótter og epter að brotið opinnberaðist tortínde hann siálfum sier.

Stríkter 2 strákar firer þiófnað úr dönsku húsum í Hofsós fieck annar 60 vandarhögg enn annar varð böðull.

Hlióp giftur maður Þorgeir með giftre konu Þuríðe úr Ölvese í Árnes síslu með 3 sínum börnnum. Eirnnin Gvendur Æsuson eiginngiftur með eckiu nouckre með hennar 3 börnum, urðu síðan tekin og í Rangárvalla[1]) síslu aptur flutt —

Geck bólusótt um Vestfiörður og andaðist fátt fólck, andaðist Biörnn Sveinsson og fleira almúgafólck hier vestra — Sumar í besta máta með staðviðrum og heiþerrum, níttist vel. Vetur miög vindasamur og úrkomu enn þó iarðer nógar, hættusamur til sióar og ferðafólck —

Ferðaðist síra Guðbrandur frá Vatnsfirðe til Bræðratungu til egðtamálaleitunar til Elínar Hákonardótter — Kaupöl Odds Jónssonar og Guðlaugar Guðmundsdótter frá Kelldum.

Skiftust þeir mágar Þorsteinn Þorleifsson og Jón Þorláksson við um Möðruvalla og Skriðu klaustur.

Pietur Norðmann kom um haustið efter er Otte Axel hafðe ellt hann um vorið og sóckte bát sinn er af honum slitnaðe um vorið og rekið hafðe á Fæte[2]).

**Anno 1672** giörðist friðar sáttmále millum Danmerkur kóngs og Hamborgara so hann varð þeirra skutsherra, eirnin voru honum eiðar svarnner í Holstinn. Fæddist vorum kónge hans firste sonur[3]).

Var tekin ein skotsk cápa[4]) under Noreg með 10 sticke. Keisarinn sender til Tirckia keisara að biðia hann ecki að heria á þá pólsku staðe — Tirknesker gesantar með 300 mans og vænan hest með söðle sender til keisarans — Keisarinn sender furstann af Lobitz í Franckaríke að höndla um frið.

Þeir frönsku og eingelsku í Januarii mánuðe hielldu sióstríð við hollendska í hvoriu slæge þeir að mestu eiðelögðu

---

[1]) Skr. Rand-
[2]) Í Súðavíkurhreppi.
[3]) Fæddur 11. okt. 1671 (Friðrik 4.)
[4]) þ. e. kaper, víkíngaskip.

þann franska skipaflota og drápu aðmiralenn, eirnnin mistu þeir eingelsku mikið af sínum skipastól og sinn aðmiral og sitt stæsta skip með 900 mans, sem þeir hollendsku uppbrendu.

Silgde einn capteirnn úr Hollande til Ostindienn og var nockra stund burt, enn hans kona tók sier annan til egðta á meðan, og þá það var skeð kom þesse capteirnn heim til síns heimilis og fann sína konu, hvorium hún velfagnaðe og bað hann hreinum klæðum að klæðast og þá hann villde klæðast skirtunne brá hún hnífue á hals honum so hann dó, kallaðe so á sinn seinna mann og bað hann láta þann dauða í poka og kasta í sió ofuan firer briggiuna hvað hann og giörðe, enn þá þesse dauðe í pokanum var kominn á hans bak saumaðe hún leinelega pokann fastan í hans klæðe so þá hann ætlaðe þeim dauða niður af sier í sióinn kasta varð hann með að filgia og drucknaðe þar með þeim dauða so þeir fundust báðer dauðer þá útfiell, um þesse morð var gaumgiæfelega ransakað og komst up, so þesse hóra og morðinge varð stelgd og fieck so sín makleg laun —

Svensker gesantar koma til curfurstans af Brandinnborg að giöra frið — Sá beste biargstaður Collerpolld er af ellde upbrunninn og eiðelagður.

Í öllu Þískalande stofnast under stóru hungre sökum þess mikla regns er þar verið hafðe so að í mörgum stöðum kostaðe eirnn skeppe rúgs 5 mörk 4 sk.

Til Strasborg andaðist sá hálærðe maður Jóhannes Heinrykus Bockerus — Til Rakelsborgar í neðra Austurríke fangaðar 13 galldrakonur og til Luttenborg 67 kallmans og kvennmans persónur so þar nær finst einginn frí — Kóng. Maitt. firirbíður að í Danmerkur ríke innfærist neinar þískar bækur, sem efuaseme í trúarbrögðunum giöre.

Þann 25. og 26. november ósiðvanalegðt veður með regne, so mörg skip upslit[n]uðu og brotnuðu.

Sú danska drottning verður liettare[1]).

Eitt skoskt stríðsskip brotnaðe við Jutland og komst fólckið af, hvar og lá eitt hollendst kaupskip og var skipherrann og margðt af fólckinu í land komið, hvað þeir skotsku

[1]) Hjer er átt við það sem sagt er við upphaf þessa árs viðburða.

formerktu og fóru til þessa skips inntóku það og silgdu í burt heim í Skotland.

Þann 4. october millum 2 og 3 um morguninn til Trybes sást himenenn opnast tvisar og þar út koma stríðsher með sverðum og stöngum á hestum og vögnum —

Item sagt í Holstenn við Fogelbitel þá kluckan var nær 3 um morguninn á himninum frá austre til vesturs sást skotið vera eirnnre stórre glóande pilu tvisar sinnum og hvornn tíma síðast sást pílan umvenda sier í ormsmind, enn á staðnum sem þeim var fráskotið sást upkoma glóande bál og blackugur reikur.

Keisarinn villde þvinga þá i Ungaria frá þeim lúterska lærdóme til pápisku, hvar firer 300000 vopnfærra manna taka sig upp móte keisarans fólcke ræna klausturin og höndla hræðelega við múkana, so þeir hlaupa siálfuer burt úr klaustrunum. Item gefua sig þar heil greifuadæme frá keisaranum og under Tirckian hvar þeir meiga hallda sinne lútersku trú —

Í neðra Austurríke lætur keisarinn útskrifua hvornn tíunda mann móte þessum ungerska stríðsmanna hóp og hvor sem kann að ná einum af þessum lofuar keisarinn 100 Rd. so og er þar samastaðar að heira mikla galldragiornninga.

Á áliðnu sumre epter Maríumessu seirnne á Brandagile i Hrútafirðe í Staðar kirckiusóckn brann bærinn og brunnu inne 3 manneskiur í baðstofunne og 1 í elldhúsinu, þessara 4 persóna bein voru látin í likkistu og iörðuð.

Item brann annar bær á Ásum firer norðann Þingeira. Sonur Gríms smiðs í Viðvík varð bráðkvaddur í sæng sinne, og annar í Svefneium vestra.

Rak guðlax á Vatnsnese 5 álna langan.

Í Dírafirðe í Ísafiarðarsíslu lagðist up rostungur.

Þennan vetur á föstu kom mikill hafís og filte up allt Ísafiarðar diúp og alla þverfiörður so og eirnnin Hvamsfiörð, úr þessum ís kom viðarreke nockur í Breiðafirðe og Rauðasande, Staðarsveit og víðar um Vestfiörður, enn einginn til Stranda, þá hlupu og up á land úr pollinum á Skutulsfiarðar eire 24 hnísur.

Um haustið stóð brullaup síra Guðbrands og Elínar Hákonardótter, Odds Jónssonar og Guðlaugar Guðmundsdótter, Ásgríms Biörnssonar og Bringerðar Guðmundsdótter í Bræðra-

tungu, Páls Torfuasonar og Gróu Markúsdótter í Áse, Sigurðar Jónssonar og Helgu Pálsdótter í Selárdal —

Þetta ár var góður vetur og sumar með miklum aflabrögðum og níttust vel sem feingust til hvítasunnu við Ísafiarðardiúp, enn firer vestan og sunnan skemdust miög fiskeföng, so víða var við siósíðuna útkastað.

Hvítasunnu siálfua kom mikið veður með hríðum og geck út alla hátíðina so víða hlupu skriður á margar iarðer til stór[r]a spialla.

Meirehlíð í Bolungarvík tók af hálft túnið, Geirastöðum í sömu sveit tók þriðiung af túne, Hvamme á Barðaströnd tók af allt túnið so sá skaðe virtist meir en 10^∞ — Arnórsstöðum tók mikið af eingium — Á Hlíð kirckiuiörð frá Læk[1]) fleitte í burt veggium og húsum so fólck naumlega undan komst, so og skemdust margar iarðer víða og fiskeföng af þessum votviðrum, síðan komu mikler þurckar og hielldust allt nær til haustnátta, varð þar af grasbrestur helst hier vestra með stórum vestan vindum mille Krossmessu og Maríumessu mistu marger hei, so og hrörnuðu víða hús, komu dansker seint hier vestra, kom eckert skip í Höfða norður.

Þessar nafnkendar persónur önduðust á þessu áre, síra Gunnar Biörnsson á Hofue norður[2]), síra Biarnne[3]), síra Álfur á Kalldaðarnese, síra Jón[4]) í Villingaholte, síra Teitur[5]) kirckiuprestur í Skálhollte drecknaðe í Brúará, fanst aptur innan 6 vikna, Þórdís Guðmundsdótter á Stað í Hrútafirðe hafðe 94 ár, kvinna síra Gunnlaugs í Surbæ, kvinna síra Hallkels[6]) Guðní Jónsdótter dótter Jóns Steinþórssonar, Briniólfur Steingrímsson, sonur síra Biörns á Staðarstað lagðist heill niður í sína sæng um kvölldið, enn fanst dauður um morguninn, Einar Skúlason firer norðan og aðrer tveir lögriettumenn firer norðan land. Fátækur[7]) maður Rafn Ólafsson hvarf á förnnum veige, meinast dottið hafue ofuan í Búðardals á —

---

[1]) þ. e. Brjánslæk.

[2]) þ. e. á Höfðaströnd.

[3]) Efalaust sjera Bjarni Bjarnason á Brjánslæk; híngaðtil hafa menn ekki vitað dauðaár hans.

[4]) Erlendsson.

[5]) Pjetursson.

[6]) Stefánssonar á Hvalsnesi.

[7]) Utan máls með ann. h. aths. um druknun Teits Pjeturssonar.

Í Svefneium á Breiðafirðe lagðist vinnumaður á Skarðe ósiúkur niður um kvölldið, enn fanst dauður um morguninn — Varð skiptape í Hölldskulldsei, komust af 3 menn enn 2 dóu.

Siálfuan ióladægenn á Klifstað í Lomundarfirðe í Austfiörðum fiell snióflóð á baðstofuna, hvar under varð presturinn síra Þorvarður Arnason so hann dó[1]. Enn hitt anað fólckið naaðist lerkað undan, en þó með lífue — Varð skiptape á Eiafirðe teinahringur frá Múkaþverá sender af Birne Magnússine til Grímseiar efter fiske og þar á 10 menn gifter og 1 ógiftur, komust til Grímseiar og fermdu skipið á sunnudag og fóru af stað, enn er þeir komu á Eiafiörð komu þeir í hafíssporð og tíndust aller — Eitt hollendskt fiskeskip ætlaðe þeim að hiálpa og gátu ei — Um sumarið á Hólum í Hialltadal reið raaðsmaður og Guðbrandur Thorláksson til Hofs firer framan Hóla og er þeir riðu heimleiðis aftur sindist þeim allur Hólastaður í einum loga þar til þeir komu að eirnre kelldu er brúuð var hart nær staðnum so þeir litu af, sáu þá að staðurinn stóð sem vera átte.

Andaðist Árne Jónsson í Hrafnsei undarlega, rerre til fiskeveiðar um morguninn heill og hraustur, enn þá hann kom til miða á meðal annars fiskefeings dró hann stóra fliðru í tvær reisur og miste, í þriðia sinn rende hann sínu fære og kom á sama fliðra, hvoria hann dró under borð og datt so dauður aptur á bak, síðan rendu hans hásetar og kom á en sama fliðra, hvoria þeir gátu þá unnið — Stóð ifuer slæmt mál mille Jóns Eggertssonar og Biörns Pálssonar — Biörns Magnússonar og Magnúsar Jónssonar á Völlum, urðu til sátta dreigin firer meðalgöngu góðra manna —

Anno 1673 15. ianuarí andaðist kóng. Maitt. unge son Christian Vilhelm — Komu hollendsker og rúsker gesantar í Kaupinnhafnn — Herradagur halldinn í Danmörck — M. Eirík Eiríksson[2]) sócknarprestur til Vor frú kirckiu vígður til biskups ifuer Þrándheimsstigðt í Noreg — Eitt stríðsskip filger kaup-

---

[1]) Talinn dáinn 1673 í Prestat.; Espólín telur það og 1673 en segir »aðfángadag jóla« (1672?).

[2]) E. Pontoppidan (1616—78).

förum hingað til lands en 4 under Noreg að taka kápur og ránsskip — 60 skip hollendsk sigla í gegnum sundið — Inntóku þeir frönsku eina borg í Hollande, drápu kallmenn og börnn enn svívirtu kvennfólck og burtfluttu — Tók sá unge svenske kóngur við stiórnnuninne 18 vetra[1]) með mikillre pragðt.

Voru um þennan tíma aðskilianlegra landa og fursta gesantar bæðe frá páfanum, keisaranum þeirre gömlu svensku drotningu Christinu og öðrum herrum hiá þeim unga kónge til forheirslu. Kom það brandinnborgiska sendeboð til Danmerkur. Svenske kóngur og hans móður senda 2 kamarherra til vors kóngs, meinast til kombæna[2]). Sender aftur 2 kamarherrar af Danmörck í Svíaríke — Tvö skip með sallt komu frá Spanienn — það skip Færei sem verið hafðe 2 ár í Vestindienn kom heim með ríka hlaðning —

Í Christiania í Noreg brann próvíanthúsið með mikillre fittalia[3]) — Gott ár upá korn í Jótlande, so þvílíkt hafðe ei verið upí 50 ár. Kom keisarans gesant í Kaupinnhafnn og Svíaríke. Kom eitt skip með ríka hlaðning í Kaupinnhafnn.

Eirnn fríslendskur maður Jacob Hansson 23 ára ifuertakannlega hár so að siðvanlega háer menn hier með hatt máttu ganga under hans hönd og komu ecki við, kom hier inn firer peninga sig að láta siá.

Tvær eður þriár mílur frá Nurennberg hefur verið ein há persóna sem plagaðe sína landseta hvar á meðal var ein bóndakona sem átte honum skulld að giallda og hafðe ei utan 1 kú til betalnings hvoria hann frá henne tók, enn hún sat æpande efter og þá herramaðurinn var heiman reistur geck þesse fátæka kona til hans frú og bað hana sier aftur gefua sína kú, hvað hún af meðaumkan giörðe. Enn þá herramaðurinn heim kom og það visse sende hann aptur bæðe efter konunne og kúnne, tók kúna og liet inláta í sitt fiós, enn liet beria konuna — En þá kírin in í fiósið kom dóu öll önnur hans naut og peningur á stuttum tíma hvar af herramaðurinn varð reiður og talaðe illa um guð og sagðe hann skillde nú senda hunda að ieta up kietið, hvað og skeðe

---

[1]) þ. e. Karl 11.; hann varð myndugur 17 vetra, f. 1655.

[2]) Þannig.

[3]) þ. e. matvælum.

að þar kom mikill hópur hunda og hann siálfur þar hann stóð varð að hunde utan höfuðið, hvað í mans mind var, og át þetta kiet með öðrum hundum, og er þetta spurðist var þesse hundur fluttur í vagne með 6 hestum firer til Munken hvar hann nú er — Álíka hefur til fallið um einn herramann á þeim moskouitisku grensum sem hiet Albertus Pericoscus[1]) í Martio mánuðe 1632, hvor og so að hunde varð sökum sinnar harðdrægne.

Níársdag giörðe drífufiúk so hlóð niður drífufillum og stórsnióum, hvar af víða runnu snióflóð.

Á Hóle í Bolungarvík tók snióflóð 4 hesta í einu, í Hnífsdal tók hiáleiguna Búð með öllu sem í var utan mönnum, item alla hialla með fiske utan eirnn.

Í Arnnardal tók snióflóð 5 hesta í einu.

Sunnudæginn firer þrettánda lögðu 3 menn uppá Kollabúðaheiðe og villtust, grófu sig í skafl hvað þeim ei gagnaðist því veðrið reif skaflinn og sleit þá í sundur, lá eirnn út 1 nótt og komst til bigða, annar 7 dægur og kól, þriðie 9 dægur og kól, komust þó aller af.

Guðrún Skaftadótter á Hamre á Hiarðarnese átte tvíbura með giftum manne og höndlaðe heimuglega með sína barnsfæðing hvar firer henne varð dreckt.

Andaðist M. Gísle Vigfússon, Ingebiörg Benedigðtsdótter kvinna h(erra) Gísla biskups, síra Vigfús[2]) Eigilsson kirckiuprestur á Hólum, Einar Skúlason lögriettumaður og nockrer ónafnkender prestar norðanlands, firer austan síra Vigfús Árnnason á Hofue. Tvær stúlckur og böðullinn á Skriðuklaustre urðu af óhreinum anda ofsócktar —

Geck sótt mikil firer Jökle — Í þrettándadagveðre tók í Húsavíkur kaupstað 18 faðma langa brennesteins búð — Góuþrælinn sem var sá 10. martí varð úte 13 vetra gömul stúlcka úr ferð Biarnna Biarnnarsonar á Garðstöðum[3]) sem rak efter á kú — Item sama dag kól Gvend ingra Magnússon og Jón Þorláksson á Triekillirsvíkurheiðe hvar af Gvendur dó en Jón kól til skemda á fótum, láu úte 4 dægur —

18. martí varð úte Halla Grímsdótter kona Halldórs á

---

[1]) Pericofcius í frumritinu.

[2]) Á að vera Sigfús.

[3]) í Ögurhreppi.

Nauteire og Guðriður hennar dóttur á veige millum Brecku og Rauðamire á Langadalsströnd — Borinn galldra áburðe Guðmundur Þórðarson af Lienharðe og Sveine hans sine hvar firer Gvendur sór síðar.

Maríumessu á langaföstu riðu 2 menn og kona til kirckiu i Haukadal og duttu öll ofuan í Haukadals vatn og drucknuðu þar í — Firer norðan Langanes komu á tveimur bátum spánsker og fransker skipbrots hvala menn 30 að tölu, sem höfðu liðið skipbrot i hafís við Grenland, silgdu sumer i Seilu, sumer firer Jökle og sumer annarstaðar í höfnum —

Kom út Jón Sigurðs lögmanns son með konu sinne Bent, barnne og þiónustustúlcku á Bátsenda suður.

Riettaður maður Biarnne að nafne sem fallið hafðe með stiúpdóttur sinne, enn hún var áre síðar riettuð í Húnavatns sislu efter lögmannsdóm.

Pále Oddssine úr Húnavatnssíslu dæmt til eiðs á alþinge firer galldra áburð síra Þorvarðs[1]) á Breiðabólstað, varð um síðer brendur[2]) — Sende hans kóngl. Maitt. hingað til lands til varnnar fóuetanum og kaupförum eitt sitt striðsskip sem og skillde leita Tirckia því sagnir geingu að 16 skip være þaðan hingað til lands útbúin og væru á leið komin.

Varð skiptape fram undan Arnnardal Tumás Magnússon með 6 mönnum dóu aller og fanst einginn aftur — Firer austan fædde kona tvibura samfasta á bökunum — Ítem önnur kona í Biskupstungum undarlega fæðing hvoria ei sá utan presturinn og ifuersetu konan.

Item þar firer austan við Eiasand deilde maður við konu sina um kvölldið, so hún villde ei hiá honum hátta, enn um morguninn fanst han[n] dauður og hafðe heingðt sig.

Under Eiafiöllum reið pilltur heste nockurs mans í óleifue og þá maðurinn það visse fór hann heiman með lurck og villde beria pilltenn en hann hlióp af bake og undan og komst af fram, enn maðurinn efter þar til hann datt dauður niður og var siðan iarðaður, geck síðan aftur og ofsóckte pilltinn, so hann var að mestu dauður þá til spurðist —

Í Hænuvík vestur varð skiptape í lendingu og voru á

---

[1]) Ólafssonar.

[2]) Sbr. 1674.

4 bræður, faðerenn horfðe á og gat ecki hiálpað átte efter 2[1]) sine og 1[1]) dótter —

Sigurður Rúnkason reið druckinn um kvölldtíma óvana veg framm í Haukadals vatn og drucknaðe —

**Anno 1674** á Íslande hefur firerfarande vetur verið so harður firer norðan Langanes og austan í Vopnafirðe, Reiðarfirðe og víðast í þeim fiörðum so vel sem uppá landinu, að allt fie og peningur af nautum, kúm, sauðfie og hestum dó af fóðurleise og harðindum so margðt fólck upflotnaðe frá iörðum í Múla og Þingeirar[2]) þingum og síslum hvar margar iarðer í eiðe lögðust og margt fólck þar af hungre og biargleise dó, iafnvel urðu úte á vegunum til þeirra sveita sem þeir ætluðu sier biargar að leita — Kom á þessu áre og því efter komande margðt fólck sem úr harllærinu hafðe komist í hópatale á Suðurnes, firer Jökul og á Vestfiörður og víðar að siósiðunne og í aðra landsins fiórðunga sier biargar að leita — Á þessu áre var og víðar um landið miög harður vetur so peningar víða fiellu — Austan úr Múlaþinge og norðan úr Þingeirar þinge skrifuað að sögn, að fallið hafue meir enn 1000 manneskiur —

Úr Þingeirar þinge skrifuast þann 13. december, að 500 mans hafue þar í síslu í harðriette dáið saman reiknað af 2 prestum firer norðan Vöðluheiðe frá Maríumessu á föstu og til Mikaels messu, og að sótt sie þar so mikil að lík hafue til eirnrar kirckiu komið til sumra 30, sumra 40 sumra 60 og til sumra 90 síðan Bartólusmessu af almúgafólcke —

Þetta sumar brender á alþinge 2 galldramenn Böðvar Þorsteinsson frá Jökle og Páll Oddsson af Vatnsnese í Húnavatns síslu, hvor eð rigðtaður var af margra persóna veikleika og dauða, enn villde þó eckert meðkenna —

Stefnde Jón Eggertsson Birne Pállssine til alþingis og var því mále aftur heim vikið.

Sigríðe Þórðardótter er barn ól við Biarnna Sveinssine stiúpfóður sínum, er hann meðkende under sinn dauða sig nauðgað hafua, dreckt í Húnavatns síslu. Fúsa Jónssine sine síra Jóns Ormssonar á Kvennabrecku svarinn ósær tildæmdur

---

[1]) 2 og 1 er leiðrj. í hdr. í 4 og 2.
[2]) Svo rángt fyrir eyiar hdr.

eiður af 12 mönnum um viðskifte og áburð síra Jóns Halldórssonar á bana tilræðe við hann á Langárfosse, silgde sama sumar í Kaupinnhafnn og kom út aftur áre síðar og gallt öngvan pening —

Galldrakver er fanst í Reikiarfirðe og einginn fanst eigande að framborið í lögriettu, eirnnin eikarspialld með beinsticke Biarna Ólafssonar í Hvestu —

Kom fóuetinn Jóhann Pieturson Klein til alþingis.

Á firerfarande áre *1673* dóu í Kaupinnhafnn 1119 manneskiur, enn aftur börnn fædd 1351, þar í 73 laungetin.

Á þessu áre *1674* brunnu 4 hús og nockrar manneskiur í Kaupinnhafnn og nockrar lestust, enn 3 börnum sem sátu í loganum varð hiálpað — Kóngsbrief útgeingið að ei[n]genn meige láta rd. upbræða eður úr þeim smíða láta.

Var stór og harður frostavetur í Danmörck gallt einn faðmur af stuttum við 7 slietta dale og fieckst þó ei og mille Skán og Selands var ísinn so þickur að á vögnum og hestum mátte þar ifuer fara, item frusu allvíða mörg skip inne í ísnum þar þau voru og komust hvorge, eitt hollendst skip fraus so að það geck í sundur so fólckið þar af burtgeck og sögðu þeir ísinn hefðe verið þar 15 álna þickur —

Brunu ifuerriáfrið af 4 húsum í Kaupinnhafnn og 3 múrmeistarasveinar duttu ofuan af einu húse og dóu — Sama dag sprack upp púðurmullan á landinu —

Á þessu áre giörðu skruggur, elldingar, stórregn og vindar mörgum löndum, hieruðum og eium, húsum, landsbigðum, kirckium og skipum stóran skaða, í Danmörck og annarstaðar eru mörg pláts og skip til grunna geingin og iafnvel eikurnar í skógunum og kornnið á ökrunum niður sleigið.

Til ackademiens í Kaupinnhafnn eru kominn frá skólunum í Danmörck og Noreg 164 stúdentar sem þetta ár depóneruðu.

16 maí í þeim stað Veilis til Cölnnenn af einu bissuskote brunu 130 hús og allt salltverkið sem þess staðar innbigendur höfðu sier til næringar.

26. maí afbrann eitt heillt stræte í forstaðnum til Krakau, item í Constantypol Tirckerienu 150 hús — Hertuge Ebennhardus af Vorttennborg deir — Í Jútlande í Vyborgar stigðte þann 16[1])

---

[1]) 15. í frumr.

agusti fæddist eitt dautt pilltbarnn með 2 hornnum í enninu, sem beigðust ifuer hvirfilinn með kiet ifuer og standande lickiu til baka á höfðinu —

Í Kaupinnhafnn kom eirnn maður sem hafðe með sier til sínis eirnn orm með 2 vængium og 3 hornnum grimlegur að siá sem Basilides[1]), sem hann sagðe vera kominn af Afrycá — Á þessu áre voru 900000 hermanna í allre Erópa til stríðs á ferð.

Brann einn garður af í Rosskilld — Fanst kona dauð firer utan Kaupinnhafnn, morðinginn náðist og varð riettaður.

Á þessu áre 1674 hafua í Kaupinnhafnn dáið 1165 manneskiur, enn aptur fæðst 1347 börnn þar í 60 laungetín — Í Noreg í Christiansstað geck vatnið so hátt up í staðinn sem aldrei í mannaminne firr skeð hafðe — Eirninn í Kóngahellu geck vatnið so hátt að fólkið fór uppá húsin og frelsuðu[2]) sig á húsþökunum —

Svensker gesantar sender til keisarans að höndla um frið mille hans og franskra — Svensker með stríðsmagðt infalla í Curbrandinnborgarland og intaka þar nockra staðe —

Furstinn af Lokouitz tekinn og settur í varðhalld og 17 tunnur fullar peninga frá honum teknar.

Þeir lúttersku upphlaupsmenn í Ungaria[3]) brenna þar og ræna, drepa 3 herramenn og fanga 4 papíska presta að pína og meðal annar[a] písla flá þeir einn kvikan.

Mikið stríð og blóðbað víðast í Þískalande í millum keisar[a]ns með þeim þísku furstum og kóngsins af Frankaríke, hvar þeir frönsku fá ifuerhönd inntaka marga herlega staðe og furstadæme, eiða og brenna í mörgum stöðum, drepa og kallmennina fólck og börnn, svívirða og burt með sier flitia konur o[g] meiar til saurlifnaðar með mörgu öðru tírannie sem ei verður so skrifað sem það til geck — Eirnnin hafua þeir frönsku stríð við þá hollendsku og intaka þar marga staðe og höndla með sama móte við fólckið —

Við Ulzenn í Lineborgar lande hafua menn sieð smávaxið langskeggiað fólck ei stærre enn 8 vetra gömul börnn, hvorier að voru sólbrender og kunnu ei að tala, enn skilldu

[1]) þ. e. basiliskus, hjátrúarormur.
[2]) Skr. fresl-
[3]) Skr. Vang-

þó hvað aðrer töluðu, bentu bændunum að þeir villdu fá nockuð að eta, enn einginn visse hvar frá þeir voru komner utan hvað menn meintu. Því þvílíkt hafðe í Einglande tilborið anno 1640 að þvílíkt fólck hefðe þar fundist og náðst piltur og stúlcka voru þar skírð og stúlckan giftist og lifðe leinge, sagðist vera komin frá S. Marteins lande sem være eitt langðt um liósara land.

Keisarinn giörer samband við marga fursta móte frönskum — Í millum kóngsins af Svíaríke, curfurstans af Brandinnborg, curfurstann[s] af Beyerenn og hertugans af Neuberg giörist sátt og samband — Í Cölnn stað hafua menn sieð elldsloga í loftinu með brennand[i] blossum og heirt í loftinu bulldur og hlióð so sem af stríðs vopnum.

Tirckenn stríðer grimlega upá þá pólsku og hefur að mestu intekið þeirra land og höndlar illa við fólckið hvar firer þeir pólsku senda sína gesanta til allra christina landa að biðia um stirck, þeir rúsku stirckia þá vel, enn tarttar Cam er með Tirckium.

Prins Vilhelm af Furstennberg fangast af keisaranum — Tirckeskt sendeboð kemur til keisarans.

Til Vismar giörðe elldsbrune borgurum skaða til 15000 Rd.

Í Muskaia í Rússlande hafua brunnið öll keisarans brief og skrifter meir enn til 100000 Rd. verðs mikið klæðe og margar bissur.

Í Dressden í Saxenn hefur skruggu elldur uppbrent 40 hús og í kringum Hamborg 10. mai 2 herragarða og kirckiuturninn til Boxahude, eirnnin til Persborg kirckian og mörg hús og mikill fienaður —

Stríð í Ungaría millum keisarans og þeirra upprösku[1]) þar hvoria Tirckenn stircker —

Keisarinn lætur taka prins Vilhelms sister til fanga hiá hvore að finst einn kistill fullur með brief hvar á meðal voru þau er ei urðu lesen utan við glóande kol — Var keisarans drotning liettare og fædde unga mei — Í Ungaría voru afbrend 157 hús af þeim partisku.

Til Leifsig hefur einn stúdent stungið eina prófessorsdóttur í hel af því hann fieck ecke sinn lauslætis vilia með henne að fremia — Til Einbedenn hefur diöfullinn tekið eirn

[1]) þ. e. oprørske, uppreistarmanna.

drickiurútara sem sagðe að hann skillde fá peninga til láns þó hann ætte að taka þá af diöflinum siálfum hvor eð færðe hann upp í loftið og kastaðe honum niður bláum og blóðugum so það var stór eimd að siá hann, epter það hann hafðe lánað honum 4 gillinn efter hans bón.

Til Bilefelld hefur siest cómeta — Eitt þess svenska kóngs skip sundursprungið sem skeðe af óaðgætne eins bátsmans sem var að drecka tóbak og liet eitt sticke lunta óvart detta niður firer sier og fiell í eina púðurtunnu —

Í Stockhólm á Femerstang[1]) hefur einn líflendskur herramaður[2]) í hel stungið þann vítthrósanda svenska poeta Lucidor — Svenskt stríðsfólck fellur inn í Brandinborgarland — Brendu þeir frönsku eina kirckiu og 32 hús sem þar hiá voru með fólcke og öllu er þar í var hafðe kvennfólckið með sín börnn í nefnda kirckiu og hús flúið, efter brennuna fundust þar 126 brender líkamar hvar á meðal voru kvinnurnar með börnnin í fangenu til dauða brend — þetta skeðe í Burgumdyen í Spanienn[3]) —

Til París í Franckarike hefur ein kvennpersóna orðið liettare og átt barnn, sem sagðe sig alldre hafua verið í nockurs kallmans umgeingne til þeirra efna, helldur í eirnnrar kvinnu umgeingne hvoria ráðið liet grípa og ransaka, hvor síðan reindist með kallmans og kvennmans sköpun so að hún þvílíkt verk af náttúrunne kunne að útrietta, var þar firer áligðtað þvílíkar tvítólaðar persónur skilldu bera kallmans klæðe og brúka þann lim sem þeir hafua kallmans nafn af og láta hinn annan vera óbrúkaðan, efter því það sínist ónáttúrlegðt að ein persóna skule nióta tvöfalldrar físne og holldsins listeseme — Sá franske kóngur inntekur mest alla Burgundyenn frá þeim spönsku —

Til Bryssel hefur ein stúlcka fædd í Gent firer 2 árum útgefið sig[4]) firer kallmans persónu, gefið sig til stríðsmans hiá spönskum með því móte að hún efter 2 ára þiónustu mætte frí vera, og þá hún þesse tvö ár þiónað hafðe villde capteirnninn sökum hennar dugannlegleika og hreiste hana ei

---

[1]) þ. e. vínsölukjallarinn Fimmelstången.
[2]) Hann hjet Storm og var herforíngi.
[3]) Óeiginlega til orða tekið.
[4]) hjer er aftur skr.: firer 2 árum.

lausa úr þienustinne gefua og liet setia hana í varðhalld, hvar hún klagaðe sig siúka vera af vatnssótt og að 3 viknum þar efter liðnum fædde hún 2 fallega pillta —

Dyonysie gröf í Missyna fundin og opnuð hvar í fanst aðskiliannleiger peningar af metal og gulle, clenodiar og annað að verðaurum 2 milióner gulls.

Sá spanske silfurflote kemur heim með 14 milióner silfurs og 2 milióner gulls — Sá spanske kóngur 14 vetra krindur.

Kóngurinn af Portúgal á öngvan son því er áligðtað að hans dóttur skule taka ríkið og hvor hana egðtar skule vera stiórnnare — Eingelsker og hollendsker giöra sátt sín í millum og gefua hollendsker þeim eingelsku til sátta 8 tunur gulls með öðrum 4 skilmálum — Enn kóngurinn af Franckaríke bíður þeim Eingelsku 5 milión gulls 20 stríðsskip og Duncarkenn að þeir skilldu hallda með þeim í 8 mánuðe, enn þeir eingelsku giöra frið við þá hollendsku — Þeir eingelsku vilia sætta þá spönsku og hollendsku — Hollendsker bióða svenskum 4 tunnur gulls til að sitia kirrum og færa ei stríð.

Í því stríðe sem fransker og eingelsker hafua haft við hollendska hafua þeir tekið frá þeim frönsku og eingelsku 2834 skip stór og smá og þar i mót hafa þeir hollendsku mist 187 skip —

Frá Guyna og Carassann[1]) eru 3 skip með gull og silfur hlaðin heim komin — Eru í Hollande ní trúarbrögð uppkomen sem kallast Nillennarii[2]), sem kenna að Christur skule snart koma og sem einn iarðneskur einvalldsherra stiórnna 1000 ár — Til Ossina í Italienn er önnur trúarbrögð upkomin, sem menn vita enn ecki af.

Eirnn eingelskur hefur í Hag í Hollande upáfundið að giöra iárnn fallsticke, sem þolldu þrefallda hlaðningu, hvar af 2 þolldu fullt próf enn eitt sprack í 3a skote.

Sá pólske stríðsher í Urkana[3]) líður stóra hungursneið so 16 soldátar sem fóru þar frá og ötluðu heim í Pólinn, og

---

[1]) Ef til vill á þetta að vera Curaçao á norðurströnd Suðurameríku.

[2]) Á að veru millennarii = þeir, sem trúa á 1000 ára stjórn eða ríki. Á 17. öld voru ýmsir menn í ýmsum löndum sem kendu komu 1000-áraríkisins, þar á meðal Serarius prestur (að sögn dáinn fyrir 1670) í Hollandi.

[3]) þ. e. Ukraine.

á veiginum upátu hvorier aðra so nær sem tveir sem heim komust um síðer — Meðal Tirckianna þar er og mikið harllære og so mikill kullde að af þeim friósa nef og tær — þess pólska ríkis ifuerfelltherra Johanes Sobieskí verður útvalinn til kóngs um nóttina mille þess 10. og 11. maí.

Í Gricklande er mikið harlære sökum þess mikla matar og korns sem færist til Tirckians herbúða í Pólinn — Til Cremerdam[1]) ei langðt frá Veyenn[2]) sprungu upp úr iörðunne 2 tunnur blóðs.

Til Vinsen við Lohe siá menn hvort kvölld þá kluckan er 6 eina cómetu með löngum elldlegum geislum sem innan í voru svarter — Í Hamborg hefur einn maður stungið sína eiginn kvinnu í hel og einn bróður sinn eiginn kiötlegan bróður í bel og hafa baaðer undan komist — Þeir frönsku í Nested í Platz hrundu niður ióðsiúkre kvinnu og hennar fóstre til dauða —

Í Berginn í Noreg tók austnorðan veður eitt hús með fólcke og öllu því í því var burt af grundvellinum so þar sást ei hvort þar hafðe hús staðið eður ei og sette það niður á torgið þó það á veigenum nockuð brotnaðe, kvinnan varð ósködduð með lífue, enn maðurinn fanst dauður á fiórða deige epter. Skip og skútur losnuðu og braut hvort annað í sundur — Til Lubenn í Sleisinn eru 100 hús firer utan mullur og hlöður af votu heie uppbrunnin — Töpuðust mörg skip og skútur með fólcke og öllu því á þeim var á einu meðal annara 20 manns 14 konur 4 börnn — Í þeim landskap Consenza í þeim landskap og kóngsrike Neapolis hefur komið so mikið regn, að landið 30 mílur vítt er ifuerflotið 2000 manneskiur og einslíka margar kír og uxar og 6000 sauðer burtdauðer — Til Andona[3]) í Austindienn hefur verið so mikið vatns og iarðskiálfte, að 2400 manns firerfórust, annað fiall rifnaðe þar og kom þar út so mikil aska að ifuerdreif allt það land so þickt að hún naaðe mönnum til hniánna.

**Anno 1675** kom út kóng. Maitt. Christians fimta brief uplesið í lögriettu að hans Maitt. selur liensherranum Cleresiens

[1]) Cremmerdam í danska frumritinu.
[2]) í dönskunni »Vejen« þ. e. veginum.
[3]) Amdona í frumr.

á Ísland vegna 12 iarðer frá Skriðuklaustre í Austfiörðum að dírleika 200∽ hundraða, 40 álner með 32 kúgilldum, landskillder þar af reiknast 10∽ 20 álner firer 1741 Rd, hvoriar iarðer skulu æfuennlega vera under Skálhollts biskupa umdæme fátækum prestum til uppheIldis, datum briefsins 1674 3. aprilis — Item var útgefið annað kóng Maitt. brief 1675 30. aprilis að hans Maitt. selur liensherranum H. Heinrik Bielck 1400 hundraða af iarðagótse hier á lande med $195^{1}/_{2}$ kúgillde, landskillder þar af reiknast 70∽ 1 eirer af klaustranna iörðum og öðrum liens iörðum.

Var birt strangðt kóngsbrief um höndlun við ófríhöndlara under búslóðar töpun og að einginn skillde án passa út af landinu sigla, dateráð 5 mai 1674.

Brendur í hieraðe Magnús Biarnnarson er borinn var veikleika Helgu Halldórsdótter í Selárdal — Item Lasse Diðriksson 70 að alldre er kent var veikleike Biörns Pálssonar, síra Halldórs Pálssonar, Eigils Helgasonar, villde eckert firer sinn dauða meðkenna.

Andaðist Vilhiálmur Arnfinsson síslumaður í Strandasíslu enn Magnús Jónsson á Reikhólum fieck þann síslupart aftur —

Stefnde síra Einar Torfuason Eggert Biörnssine til alþingis og varð sú stefna á alþinge ónít, síðan stefnde hvor öðrum.

Andaðist Magnús sáluge Jónsson í Miðhlíð á Barðaströnd[1]) er leinge hafðe haft Barðastrandar síslu með Eggert Biörnssine. Biörnn Gíslason fieck aptur þann síslu part.

Item andaðist Jón Þorsteinsson, Magnús Bárðarson, Einar Gíslason, Oddur Jónsson góðer bændur á Langadalsströnd —

Item andaðist sá lofleige herra M. Briniólfur Sveinsson biskup í Skálhollte, hafðe áður arfleiðt síra Torfa í Gulveriabæ til sinna eigna.

Visíteraðe M. Þórður Thorláksson sína firstu visitatíu á Vestfiörður, voru þá með dóme skilin Magnús Jónsson í Vigur og Ástríður Jónsdótter.

Á Skarðe á Skarðsströnd halldin brullaup Biörns Gíslasona[r], Þorsteins Þórðarsonar og Guðrúnar og Arnfríðar Egertsdætra. Guðmundur Þórðarson sór tilltar eið firer galldra áburð Lienaðs.[2])

---

[1]) faðir höf.

[2]) Sbr. það sem getur um árið 1672.

Komu 2 hollendskip á Breiðafiörð Sauðeiar og Flatei.

Var ein kvennpersóna firer utan staðinn Kaupinnhafnn firer þiófnað riettuð — Í Jútlande var eirn maður stelgdur firer Ribe, hann hafðe drepið 2 kvennpersónur sem hann átte að aka til Ribe, hiá hvorium hann sá nockra peninga hvar firer hann þær mirte — Í Kollding var ein kvennmans persóna hálshöggven, sem hafðe drepið sitt barnn sem hún hafðe átt við þeim manne sem hún með forelldra ráðum var trúlofuð við, þá hún skillde hálshögvast geck þesse hennar barnsfaðer inn í mannhringinn og villde binda firer hennar augu sem honum hafðe leift verið, og þá hann það giöra villde fiell hann í öngvit og var so nær dauður borinn burt úr mannhringnum og dó síðan fáum dögum þar epter, hennar forelldrar liggia af sorg og efuast menn um þeirra líf — Um nóttina millum þess 25. og 26. martí varð drotningin liettare að prins Christian stóra.

Biskup Jóhan[1]) Vandal ifuer Selands stigðte andaðist á sínu alldurs 51[2]) áre biskupsdæmis 7., hafðe vígðt 7 biskupa, 14[2]) prófasta, 120 presta —

Greifuennfelld giörist til þess rómverska ríkis greifua af keisaranum — Giörðer til doctora 28 af þeim hálærðu — — Andaðist Friðrik Turuson[3]) er leinge hafðe verið staðarins hoppmann miög gamall maður og Vitus Bering poete —

Jurgen Bielcke giörður til stathalldara.

Item Jurgen Foe borgmeistare til staðarins stríðsofursta í Friðriks Turusonar stað.

Þann 7. juní um kvölldið er kóngl. Maitt. sister Ulrica Elenonora trúlofuð kónginum af Svíaríke.

13. juni varð dottor Hans Bagge[r] erkebiskup. Kóngurinn af Svíaríke sender sína gesanta í Kaupinnhafnn með skeinkingar til sinnar brúður kongsins[4]) sistur Ulrica Elenonora sem var hans kóng. Maitt. controfei[5]), eirnn hringur uppá 18000 rd., eitt perlla hálsklæðe[6]) og demantis hárnálar, eirna hringar

---

[1]) Eða Hans.
[2]) 52 og 13 í frumr.
[3]) þ. e. Thuressön (frumr.).
[4]) tvískr. í hdr.
[5]) þ. e. mynd.
[6]) Í heimr. halskiæde.

skatterað allt til samans firer hálfa aðra tunnu gulls — Við Víborg í einum sandbacka fundu nockrer smápilltar marga silfurpeninga að stærð sem ríkis ort[1]).

Reiste kóngl. Maitt. með sitt herlið 7000 manns til Segeborg og visse einginn hvort þeir villdu.

Eirnninn reiste þá út stríðsskipa flotinn.

Þann 29. julí um miðnætte brunnu í Bergenn í Noreg í 5 tíma tíð 160 inn til 200 húsa til ösku og hefðe vindurinn ecke snúið sier hefðe sá staður allur brunnið.

Á þessu áre voru í kornninu mikler ormar og pöddur sem fordiörfuðu kornnið — Þann 7. seftember lagðist sá danske kóngur með sinn her og curfurstinn af Brandinnborg með sinn her firer Vismar, enn Rostock var inntekin 18. seftember. Almennelegðt stríð millum danskra og svenskra biriast.

Sá danske stríðsher sem þeim danska kónge heiman filgde voru 16000 mans til hests og 14000 til fóts og þar til 3000 mans af Olldinborg með 50 sticke, item í siónum 38 stríðsskip.

Brann sá landsbír Steinlaus í Selande að mestu upp þann 13. octóber af voðaellde —

Þann 6. octóber unnu þeir dönsku Dumgarttinn[2]) og komust inn í Pomarinn og feingu þar in síðan nockra staðe.

Vismar höfuðstaðurinn í Vendinn sem þeir dönsku og Brandinnborgarar höfðu umsetið og beleirað frá þeim 1. ianuari 1675 inn til þess 13. december var sama dag frá svenskum unnin og inteken og feingu þeir dönsku þar mikið herfang — Votviðre og dagger giöra stóran skaða kringum Elfina og í Bremenn og helst á þeim nía stað Karlsstað — Keisarinn gefur þeim svenska gesanta skeinkingar til 18000 rd. og hann kemur því til leiðar að prins Vilhialm skal laus látast og afhendast páfanum þar til friðurinn giörist — Til Stralsund er einn soldát sem[3]) af vondum vana bað opt diöfulinn að fara í sig orðinn af diöflinum besetinn — Svensker inntaka marga staðe í Brandennborg — Kóngurinn af Svía-

[1]) Hjer er b. v. með annari hendi: líkaster spanskre mynt. Þeir minstu sem 6 sk.

[2]) þ. e. Damgarten.

[3]) Hjer stendur utan máls »NB« með hendi höf.

rike Carll Carllsson krindur — Mikið stríð og blóðsúthelling millum keisarans fólks og franskra.

Í Hamborg forgeingu 6 skip af storme á Elfinne.

Í sama storme skeðe það til Libek 28. ianuarii um nóttina að diöfullinn tók einn voghals með sier upp í loftið á S. Maríu kirckiugarðe og flutte hann um kring með sier í loftinu tvo tima og kastaðe honum niður aftur firer því gesta húse sem hann þiónaðe inne, illa krömdum, enn þó batnaðe honum aftur — Þesse maður sagðe til þeirra sem með honum voru þá hann geck á kirckiugarðinn, að hann skillde ganga þó diöfullenn siálfur stæðe skinbarlega firer sier —

Til Magðeborg 15. februarii hefur ein kona sellt ei[n]um bakara einn salltpoka hvar í sá litle fiande spiritus familianus[1]) var — Þá nú seckurinn stóð í húsenu tók hann til að vaxa þar til að dreingurinn í húsinu sette sig þar ofuan á og villde þrísta honum niður, í því sama sló litle fiandinn pilltinum niður á gólfið og einn stein úr ofninum og öll glös og könnur á hillunum í húsinu sundur.

Til Franckfurt verður sú svenska vakt vör við ófreskiur, so þeir siá marga manna hópa undan og efter sier fara, suma höfuðlausa, enn suma með höfðum, so og heirðu þeir 30 fallstickia skot þar eingin sticke til voru —

Í einum landsbí hálfre mílu frá Krónsberg í Pomerenn hefur rignt blóðe niður af himne á iörðina.

Á Maríumessu á föstu 25. martii í þeim landsbi Manstel[2]) mílu frá Kionsberg[3]) geck ein stúlcka út að sækia vatn, enn á veiginum varð hún ifuerstöckt með blóðe so hún varð að þvo það af sier — Annan dæginn skeðe hana slíkt hið sama og þá sá hún í loftinu mót austre 2 svarta menn á hestum, sem striddu saman og hiá sier 2 hvíta anda, sá sem stóð við hennar hægre síðu hafðe córónu á höfðe, enn sá sem stóð við vinstre talaðe til hennar og bað hana ei að óttast og ei þurcka blóðið af sier helldur sína það fólckinu og seigia því að þar skillde koma blóðugt stríð, þar sem þeir giörðu ecki bót og betrun í tíma og til merkis þar um skillde árið verða ávaxtarsamt. Enn hún skillde ecki lifua haustið út, þar

---

[1]) Rángt f. »familiaris«; þ. e. húss- eða ættar-andi (púki).

[2]) Mantel í frumrit.

[3]) Á að vera Königsberg.

með sette hann eirn krans af rósum sem ligðtaðe vel á hennar höfuð og hvarf so, stúlckan geck heim með kransinn, og þá fólckið var í kringum hana að skoða varð kransinn að blóðe og um kvölldið millum 9 og 10 þá hún fór að hátta voru skruggur og elldingar í camarsinu og varð sængin og húsið ifuerstöckt með blóðe.

Sá spanske gesant lætur giöra sinnar dóttur brúðarsæng úr kláru silfre uppá 10000 rd.

23. mai dó cúrfurstinn af Mens — 18 iuni sló cúrfurstinn af Brandinnborg það svenska stríðsfólck í hel, enn fángaðe 4000 almennelegs fólcks og 5 háa offisera, 1000 vagna, 80000 rd., 600 stríðshesta, 10 koparsticke, 14 fána og stanartter[1]) — Eirnn prestur er kominn í Borckdorf í móte so mörgum músahóp sem það være stríðsfólck og hafðe eina stóra gráa undan sier sem höfuðsmann og 1 í miðið sem fendrík[2]) og halanum eina stóra sem hiellt þeim öllum saman, en þá presturinn sló þá seinustu í hel með sínum spanskrör, snerru hinar allar á móte honum so hann með neið komst undan þeim á sí[n]um heste, því mísnar elltu hann ifuer 3 akra. Í dómkirckiunne í Slesvík ifuer altarinu sáust tvö svört sverð og stóðu oddarnner hvor mót öðrum —

Í Rostock er mikil sótt og mart fólck deir, pest geingur og mikil í Tyrckeríenu og merð deir, hvar firer Tyrckinn flitur sig burt frá Andryonopel[3]) 6 mílur.

Pomurland er orðið í eiðe af stríðe og fólckið burtrímt — Í því collegio Montan eru af voðaellde inne brunner 8 stúdentar og 60000 bækur brunnið til ösku.

Þeir andlegu í Frankaríke skeinktu kónginum 450000 gillene uppá það þeir mættu blífua við sín fríheit.

Fransker innfeingu alla Sicillien frá þeim spönsku, meinast meir með gulle enn magðt, hvar firer comedantenn sem upgaf castalann efter stathalldarans skickun skal riettast —

Í storminum firer Scalera[4]) mistu þeir spönsku 40000 mans og þeirra besta póst S. Clacidii[5]), sinn höfuðsmann sem

---

[1]) þ. e. Standarter, merki.
[2]) þ. e. fændrik, merkisberi.
[3]) þ. e. Adrianopel.
[4]) Á að vera Scaleta.
[5]) Á að vera S. Placido.

þeir liðu þetta niðurlag under, hafa þeir aumkunarlega af lífue tekið, efter það að þeir höfðu gefið honum af hans eiginnbarnne að eta, hvort þeir höfðu soðið og firer hann matreitt.

Til Milfort[1]) í Einglande hefur í tvo tíma verið 5 sinnum flæður og fiara, hvað alldre firr so menn vite skeð hefur.

Uppsprack kirckian í Calumbas með mikið fólck af púðre so það dó allt.

Hollendsker upáfundu að giöra 9 skip af blike eður þunnu iárne, vegur hvort 660 pund, enn kunna að bera 4 mans til að færa á stríðsbúnað —

Við það vatn Racorric[2]) hafua fingur, tær og naser frosið af Noradem sultams fólcke, sem hafua allan veturinn verið[3]) — Tyrckiarner hafa í Pólinn intekið og afbrent eitt slot og 1 stað og í hel sleigið 12000 manneskiur — Hertugenn af Fenedyenn 90 ára gamall dó.

Þann 6. nóuember brunnu 1500 hús í Constantionpolinn og 600 afbrotnað, hvar firer sá tyrkneske keisare helldur nú hof í Hadrynopolinn[4]) —

Til Meca skal eirnn sióreifare[5]) hafua rænt Makomets gröf —

Tartarar hafua inntekið allt það cynaiska ríke og tíranlega stiórnnuðu þar ifuer amande allt það kónglega og stórherra í Cyna varð þó eirn efter að nafne Sinka sem hafðe verið ofurste í þess síðasta cyniska kóngs tíð og þar efter giörður til stathalldara ifuer nockur lönd af þeim tartyrkisku. Gefur sig út firer og seigist vera eirnn efter orðinn af þeirre cynaisku kónga ætt, hvar firer 12 landsparta[r] snúast til hans so hann hefur alla reiðu feingið 1000000 hermanna og lagst firer þann stóra cyniska höfuðstað Nacking[6]) með 200000 mans, sá staður er stæstur í allre verölldinne, hefur 13 port og hringmúr alt um kring og er 40 mílur þískar allt um

---

[1]) Í frumr. »Milsort«.
[2]) Í frumr. Racata.
[3]) »som hafue Vinteren igiennem holt Marken« stendur í frumritinu.
[4]) þ. e. Adrianopel.
[5]) »Serif« í frumr.
[6]) þ. e. Nanking.

kring, borgarar og bændur þar inne eru meir enn 1000000 mans, og hafua þar firer utan sterkt varðhalld ine af 40000 tartörum — Um þessa og annara staða háttalag, stærð og bigging er að lesa í Jens Nieuhofz[1]) skrifue um Cyna —

**Anno 1676** heingdur Árne Jónsson í Borgarfiarðarsislu um veturinn efter úrskurðe H(erra) Sigurðar lögmans — Item dæmdist Þorláke Þorsteinssine úr Stranda síslu hæðsta húðláts straf, sem næst geinge lífue firer þiófnað, enn stæle hann oftar sie riettekinn til heingingar — Hallgrímur Halldórsson sór siöttareið firer galldra áburð Markúsar Ólafssonar.

Fieck Jón Vigfússon ingre kóng. Maitt. brief C 5 til að vera vísebiskup ifuer Hóla stigðte, enn fullkomlegur biskup efter H(erra) Gísla Þorlákssonar afgang —

Lögleitt á alþinge að þiófnaðar útlegð Þorláks Árnasonar er utan fiórðungs verið hefur 11 ár hafue nú fullkomlega enda tekið so hann meige frí vera í hvorium fiórðunge hann vill.

Þennan vetur lá Adrían Jensson Munck á Hóle í Bolungarvík í þungum veikleika so að hans annar fótur í öklalið af fór, hvornn sinn veikleika hann í tilskrife til Jakobs Benedigðtssonar Stapa halldara bar uppá Örnólf Jónsson þá búanda[2]) á Óse í Bolungarvík, hvar firer hann síðar tiltareið sór.

Guðrún Halldórs[dótter] eckia Þorleifs heitins Einarsonar fædde barnn á Stað í Steingrímsfirðe og villde ei barnsföður lísa í hálft annað ár.

Galldramál first borið upp á Ara Pálsson búanda á Neðrabæ í Barðastrandar síslu af Sigurðe Biarnnarsine á Hrafnabiörgum í Arnnarfirðe.

Stríðsamt á mille svenskra, danskra, brandinnborgiskra, lyneborgiskra, hvorier 3 saman hielldu móte svenskum — Item keisarans, spánskra og hollendskra og margra þískra fursta móte frönskum —

Pólskra og Rússa móte Tyrkium — 28. seftember stóð sú svenska chríning og þá giörðe það svenska rikisráð kónginum sinn eið —

---

[1]) Hjer er átt við rit, er kom út bæði á latínu, þýsku og hollensku, eftir Johan Neuhof, og er m. a. landfræðislegs efnis.

[2]) Skr. buandanda.

Til Hermlin[1]) skal einn glóande dreke með stórum hlióðum vera niðurfallinn — Þann 13. desember um nóttina hefur verið stór stormur og elldingar til Lyttich og er um sama tíma af mörgum hundruðum manneskium sieður eirnn glóande uxe á himnenum, sem siðan burt leið með einu þicku skie — Til Sultzmands og Rupach[2]) hafa menn sieð eitt halmknippe brennande í loftinu sem i fullum loga er niðurfallið á iörðina — Ifuer Calmar[3]) hafa menn sieð eina stóra glóande kúlu af hvorre margar smákúlur eru niður falnar og hafua útbreitt sig ifuer staðinn so að það liet sig ásiá sem að þær fære ifuer fólcksins höfuð —

Í Svitzerlande til Badenn hafua menn sieð eina glóande slöngu eður orm i loftinu, sem gaf eitt hart slag frá sier nær það hvarf, so sem menn skite af sticke, eður mörgum bissum.

Til Zoruch[4]) sáu menn glóande kúlu, sem first varð að eirnnre sperru[5]), þar efter varð hún að einum hringorme og hvarf með stórum brestum so sem skruggu hlióðe.

Keisara kvinnan Claudia Felicitas andast og curfurstans af Beyerenn — Í Cöln hefur einn bónde náð 1 af þeim nísienu fuglum, hvorier undarleiger og fásiener voru og skeinkt hann curfurstanum, hann er so stór sem ein önd — Til Hanouer voru 7 reifarar fangaðer sem höfðu rænt einn ríðande kramara og fært hann af öllum sínum fötum og látið hann lifand[i] innan í hestinn, sem þeir drápu og i staðinn tekið út inníflin og saumað hestkviðinn so aftur, hvar maðurinn var firer innan, enn einn iagare fann þennan hestskrock og hiálpaðe manninum nær dauðum þar út — 12 mai til Erlandenn i Ungarienn hefur verið mikill iarðskiálfte, hvar af einn stór kringlóttur múr er niður fallinn og landið eina mílu vegar allt í kringum staðinn er diúft niður sockið, hvar firer Tyrckiarner er þar til forsvars láu urðu miög hrædder — 12. desember i Brabant hafua verið ósiðvanalegar skruggur so 2 kirckiur og nockur hús hafua þar afbrunnið.

---

[1]) Hameln í frumr.
[2]) Ruffach í frumr.
[3]) Colmar í frumr.
[4]) þ. e. Zürich.
[5]) Et spær (þ. e. spjót?) í frumr.

Eirn mikils háttar maður situr fanginn til Brissel firer það morð sem hann giörðe á 2 sínum sistrum.

Til Mastrit í Frankaríke skrifuast að ein soldáts kona hafue fætt barnn með 2 höfðum, 4 höndum, 4 fótum, enn þá barnið var upskorið fanst þar ei utan 1 hiarta, þvílíkt efterdæme finst hiá fleirum skrifurum — Til Bourdeaux sáust 3 sóler í einum hring á himnum í mans mind[1]) ifuer staðnum á þeim sama deige sem staðarins befesting var niðurrifin og blóðdroparnner skulu vera niðurfalner — Marquis kvinnan er fönguð og höfð firer þeirre sök að hún hafue tekið lífueð af sínum föður, manne og þremur bræðrum og sinne sistur með eitre og látið 2 sínar lakeiur[2]) mirða, er færð til París og á þar að brennast — Ein fátæk og gömul skómakara kona giörðe eina kostulega priedikun 1 sunnudag út af þeim stæstu stickium og tegundum í guðdómlegum efnum efter postulanna vísu og færðe þar að vitnisburðe af h(eilagre) ritningu í náveru meir enn 2000 persón og margra hálærðra, sem meðkendu sig ei kunna að giöra betre priedikun, þetta skeðe í Ítalia —

Kóngurinn og drotningin í Pólin þann 2. februarii á einum sunnudeige með mikillre pragðt krínd.

Í Nía Einglande í Vestindyenn hefur eitt stríð uppbiriast millum eingelskra og Indyana, í hvoriu 4000 Indyanar voru í hel slegner og nær hundrað eingelskra — Á þeirre ei Barbados hefur verið eirnn hræðel[e]gur iarðskiálfte[3]) í hvorium 250 manneskiur í þeim niðurfölnu húsum eru dauðer.

2. ianuarii hafua þeir eingelsku kaupmenn firer kónginum af Einglande klagað þann skaða, sem þeir frönsku sióreifarar hafua þeim giört, hvar firer Maitt. skipar að aristera þær frönsku cápur sem þar finnast og virða þar af 200000 pund sterllings og bæta þeim sem mist hafua sinn skaða og skulu 6 eður 8 kóngsins skip útbúast móte þeim frönsku reifurum.

**Anno 1677** um veturinn firer Maríumessu á föstu andaðist h(erra) Sigurður Jónsson[4]) lögmann sunnan og austan á

---

[1]) Þetta er misskilið af höf.

[2]) þ. e. þjónustukonur.

[3]) Orcan í frumr.

[4]) dó 4. mars.

Íslande, í hans stað aftur á alþinge sama sumar kosinn h(erra) Sigurður Biörnsson landsskrifuare — En Árne Geirsson er prestur verið hafðe varð aftur landsskrifuare.

Um haustið efter hiellt lögmaður Sigurður Biörnsson sitt brúðkaup til Guðriðar Sigurðar Jónssonar lögmans dótter að Einarsnese, Ólafur Hallgrimsson til Guðríðar síra Sigurðar Oddssonar dótter, Jón Árnnason til Þórunnar Hallgrímsdótter, Ólafur[1]) skólameistare til Hólmfriðar Sigurðardótter.

Oddur Jónsson Hóla raaðsmaður fieck Reinestaðar klaustur efter h(erra) Sigurð.

Sigurður Biörnsson lögmaður Miðfiarðariarðer efter Hallgrim Halldórsson.

Kom landsfóuetinn og þaug dönsku kaupför efter afstaðið alþing — Jón Þorleifsson fieck höfuðsmans brief firer Þingeirar klaustre; nær hans faðer villde það við hann afleggia firer 250 rd.

Brender á alþinge Biarnne Biarnnarson frá Breiðadal í Önundarfirðe úr Ísafiarðarsíslu, item Þorbiörnn Sveinsson úr Greniadal í Borgarfiarðarsíslu firer vestan Hvitá, baaðer firer galldra og giörnninga mönnum og fie —

Besse Eiríksson um veturinn firer þiófnað heingdur norðanlands, epter úrskurðe Þorleifs lögmans.

Þorlákur Þorsteinsson heingdur í Strandasíslu[2]) 17. agusti, dæmdur á Kirckiubóls þinge í Steingrímsfirðe —

Steitte franskt hvalaskip í Skellebiarnnarvík[3]) á Ströndum, silgdu sumer skipbrots menn á 2 bátum suður firer land og silgdu á Bessastöðum, Hólme og Hafnarfirðe, voru aflagðer í Geluckstað — Síslumaður Magnús Jónsson í Stranda síslu tók að sier skipbrotin uppá kóng. Maitt. vegna að færa til reikningsskapar.

Þennan vetur frá haustnáttum til þess um vorið epter var Magnús Magnússon á Eire í Seiðisfirðe miög veiku[r] í undarlegum veikleika.

Sama ár um sumarið ræntu fransker hvalamenn á nockrum bæum firer norðan í Siglufirðe.

Eirnninn rænde annað skip á nockrum bæum í Eiafirðe,

---

[1]) Jónsson, skólameistari í Skálholti 1667—87.

[2]) Hjer b. hdr. v. heingdur.

[3]) þ. e. Skjaldabjarnar-

einkannlega í Hrísei hiá Þorvarðe þar búanda ríkum manne, við hvornn hann hans mág og dótter þeir illa að sögn höndlað hefðu —

Um nóttina millum þess 26 og 27 aprilis hefur trúanlegðt fólck í Danmörck tekið til vara að loftið var so biart, að menn kunnu að siá að lesa allra handa skrif, hvar efter menn sáu á himnenum so sem fiall, sem fullt var með stiörnnur með 4 mióum turnum, sem geck up í norðre, enn hvarf þá það kom í suður — Stríð í mille danskra og svenskra, keisarans og franskra sem víðar eins og firra árið — Um nóttina millum þess 11. og 12. maí sáu menn tvo stríðsskara, eður hermanna hópa annan af austre enn annan af vestre, hvornn mót öðrum uppkoma og í stríðsorðu saman stríða og villde hvor annan ifuervinna og varð sá úr austre kom ifuerunnenn og flúðe og hvarf, litlum tíma þar efter kom hann fram aftur og geck þá sá sem stóð í vestre betur fram í móte hinum og varð meir og meir sterkare, hvar firer sá í austrinu var hvarf og þar kom ein ótelianleg merð af fólcke í hópatale hlaupande til þess stríðsskara sem var mót vestrinu og þá þetta var allt horfið tilsínde sig uppá nítt í vestre ein persóna á heste með útriettum örmum og einu sverðe í hendinne, enn strax þar efter varð bæðe hestur og maður að krónu og hvarf í mót austre, hvar af loftið varð alldeilis rautt —

Um nóttina millum þess 22 og 23 maí var aftur meir enn af 200 persónum 2 stríðsskarar einn af norðre og annar af suðre siener á himnenum og var þar ein stór stiarnna firer hvorium her, sá skare sem stóð í norðre dreif first þann skara sem stóð í suðre nockuð til baka, enn síðast fieck þesse ifuerhönd og iagaðe hinn sliett burt — Þann 26 maí slóust þeir dönsku og svensku og töpuðu þeir svensku slæginu og mistu mikið herfang með 125 soldátum og mörgum háum ofíseurum fönguðum —

Þann 1 iuní hielldu þeir dönsku og svensku sióslag saman, hvort slag þeir dönsku unnu og naaðu 7 stórum stríðsskipum, 282 fallstickium, 1122 bátsmönnum, 332 soldátum frá þeim svensku að auke þess sem á skipunum fallið hafðe — Af eirnnre útskrift sem fanst hiá einum svenskum fanga vitnaðist að þeir svensku hefðu látið í því síðasta felldslæge sem þeir hielldu við danska þann 4 december anno 1676,

er þeir lietu grafua 8877 menn, hvar á meðal hafua verið 560 ifuer og under offiserar.

Í Frankfurt 22 maí hafua menn með stórre forundran sieð einn hring 20 feta í kring um sólina hvors litur að var sem náttúrslegs regnboga, þó nockuð rauðare og svartagðtugre og var same hringur í kláru sólskine standande inn til kluckan var hálfgeingin tólf þá hefur klárt skí birt hann og hvarf sama tíma og þá kluckan var 12 skein sólin náttúrlega klárt —

**Anno 1678** var á alþinge riettaðar tvær manneskiur Eivindur Jónsson og Margret Símonsdótter firer hórdóma og útelegu, hann högguenn henne dregðt. —

Item um vorið brendur Stepán Grímsson í Húnavatns síslu — Sama vor brend tvö norðlendsk mæðgin í Barðastrandar síslu Þurríður og hennar son Jón Þórðarson, valldande veikleika í Selárdal — Item voru á alþinge strikter 2 menn úr Húnavatns síslu, Magnús Benedigðtsson og Clement Úlfsson firer galldra áburðe og eiðfall —

Item á sama alþinge dæmt Þórðe Guðmundssine skólageingnum hæðsta húðláts refsing firer galldrablaða skrif efter bón annars og sú refsing leggist á hann heim í hieraðe í Árness síslu — Jón Nikulásson grallare kallaður af Akranese striktur firer drickiuskapar orð og tiltal við kóngl. Maitt. í tiallde Páls Torvasonar á alþinge — Birt á alþinge kóng C 5 brief Pále Jónssine útgefið uppá Melstað í Miðfirðe.

Líste Guðrún Halldórsdótter efter langa þögn Sigurð Guðmundsson föður að sínu barnne Teite, hvar firer hann síðan laga eið sór á Hróberge[1]).

**Anno 1679** afsagðe h(erra) lögmaðurinn Þorleifur Cortzson sökum veikleika forfalla af sier lögmansdæmið og var aftur í hans stað af andlegum og veralldlegum á alþinge kosinn og kiörinn virðuglegur og velforstandugur síslumaður ifuer Stranda síslu Magnús Jónsson á Reikhólum — Var birt á alþinge kóng. Maitt. C. 5 brief á 1400 hundraða iarðagótse á Íslande h(erra) Heinrik Bielcke til handa daterað Kaupinnhafnn anno 1675 30 aprilis. —

---

[1]) Hjer eru ²/₃ af síðu auðir.

Stóð ifuer stórmæle Gróu Halldórsdótter úr Snæfells síslu er líst hafðe Ólaf Einarsson sinn barnsföður, enn hafðe áður fallið í frillulífue með hans bróður, var greindur Ólafur burthlaupinn, enn hennar mál aftur í hierað heimskickað til frekare ransaks um hennar vitsmune, hvor kona þegar heim kom fieck sótt og andaðist —

Biarnne Þorgeirsson í Áltafirðe borinn galldra áburðe af Þórunne Árnadótter kvinnu síra Biörns Þorleifssonar[1]) um sinn veikleika, hvar firer honum varð eiður dæmdur og svarinn af nefndarvættunum ósær, síðan af lögmanne áligðtaðar tvær húðláts refsingar.

Giftist Biarnne Biarnnarson under Heste Guðníu Hákonardótter frá Görðum í Staðarsveit —

Steitte Skutulsfiarðar kaupskip með gótzið þá það lagðe út af Þingeirar höfn silgde út efter Dírafirðe og ætlaðe á Skutulsfiarðar Eire firer Alviðru lande í Dírafirðe, nockuð af gótzinu naaðist þó fordiarfuað være, sem flutt var inn á Þingeire, enn kaupmaðurinn Jens Munck og nockuð af fólckinu silgdu á Billdudalseire, en Þingeirar kaupmaður með sínu fólcke laa hier um veturinn efter — Þennan vetur með firerfarande sumre var erugöfugur höfðingsmann Biörnn Gíslason að Bæ á Rauðasande síslumaður ifuer hálfre Barðastrandar síslu miög veikur úr hvorium veikleika guð hann burtkallaðe —

Höfð Guðrún Halldórsdótter til alþingis efter það hún líst hafðe að síra Einar Torfuason hefðe hórdóms verknað með sier framið og hann föður þessa barns, hvar til hann hvorcke iá nie nei sagðt hafðe.

Stefnde lögmaður Magnús Jónsson mágie sínum síra Einare[2]) firer ótierlegðt orðbragð við lögmanninn afheirande — Silgde síra Einar Torfason þó ervitt geinge í forboðe lögmans án passa með Straumfiarðar skipe enn Stickishólms skip villde hann ei framflitia —

Silgde Jón Eggertsson í annað sinn með norðan skipum uppá sitt mál við Biörnn Pálsson er hann leinge við hann átt hafðe, á sama skipe silgde og Guðmundur Sveinsson

---

[1]) á Álptamýri.

[2]) Einar Torfason átti Ragnheiði, systur Magnúsar.

locátur á Hólum er var í nockre misklíð við h(erra) biskupinn h(erra) Gísla Thorláksson um hvornn hann síðar utanlands framborið hafðe nockra ófrægðar pósta, hvorier síðar með erlegra manna vitnisburðum til baka geingu — Í þessare siglingu fieck Jón Eggertsson aftur Möðruvalla klaustur undan Þorsteine Þorleifssine — Andaðist Biörnn Pálsson er leinge hafðe átt mál við Jón Eggertsson og leinge veikur verið hafðe, hans heiðurs kvinna Ragneiður Magnúsdótter eitt mesta kvennval á Íslande verið hefur andaðist nockru fir á þessu áre[1]) —

**Anno 1680** kom út kóng. Maittz. C. 5. brief[2]) innehalldande um stríðshiálp af þessu lande og first uppá sett að eigandinn af hvorium hundraðs leigumála eður þar hann tekur hundrað í landskilld skillde giallda 2 W. fiska og af hvoriu eignar kúgillde sem hann á og tekur leigu efter 2 fiórðunga fiska, enn leiguliðinn af hvorre hundraðs landskilld sem hann á bír 1 W fiska og af hvoriu kúgillde 1 f. — Af kóngs og kirckna iörðum skilldu liena og kirckiuhalldarar giallda 1 W af hvorre hundraðsleigu og 1 f. af hvoriu kúgillde utan af Bessastaða og Stapans umboðum enn þó skilldu leiguliðarner leiguliða skattinn betala, um hvoria stríðshiálp landsins innbiggendur suplíceruðu og beiddu naaðar og vægðar þar á sökum landsins fátæktar og var það ár eckert golldið.

Þetta sumar riettaður á alþinge Sæmundur Þorláksson, er firer dóme meðkende sig föður að barnne Hergerðar Brandsdótter, er hann hefðe í útehús niður grafið en hefðe ei vitað hvort það hefðe verið dautt fætt eður ei, hvar firer honum tiltar eiður dæmdur var og fieck ei eiðamenn, en konan var riettuð heima í Rangárvalla síslu — Bar Vilborg Ísleifsdótter galldra áburð uppá Gísla Árnnason um sinn veikleika, dæmdist honum sökum líkindaleisis tiltar eiður með fangavottum í Hrafnseirar þingsóckn hvorn hann ei fullkomlega framkvæmt gat og var þar firer síðar stríktur. —

Höskullde Sigeirssine úr Aðalvík dæmt húðláts straf sem næst gange lífue firer galldra blaða meðferð. —

Páll Torfuason dæmdur frá sinne búslóð og miste hálfua

---

[1]) Hjer eru $^2/_3$ úr síðu auðir.
[2]) Dags. 31. maí 1679.

Ísafiarðar síslu firer meðkendan kaupskap við eingelskan skipherra á 2 snærum í sinne nauðsin og efter h(erra) landsfóuetans skickun var allt hans gótz upskrifuað og það registur með norðanskipum fram sent.

Komu dansker í allar hafner firer vestan firer fardaga sögðu gott árferðe úr Danmörck, og nockra friðarstilling mille danskra og svenskra um stundarsaker á orðna.

Tóku þeir dönsku Skutulsfiarðar skip þá þeir inn á diúpið silgdu firer Bolungarvík hollendskt ófríhöndlara skip, hiet skipherran Claus, hvort þeir með sier inn á höfnina fluttu og skip og góts á Tunguþinge til prís dæmt og síðan til Bessastaða fært —

Húsavíkur skip tók og annað ófríhöndlara skip, enn hollendst hvalaskip tók það af þeim aftur —

Komu 3 dönsk stríðsskip á Skutulsfiörð sem áttu að taka ófríhöndlara við landið —

Kom út síra Einar Torfuason á Stað í Steingrímsfirðe með velútriett sitt erinde, hafðe feingið sinn prestskap aftur, enn ei staðinn, enn hiellt þó staðinn 3 ár þar efter.

Kom út Jón Eggertsson og hafðe feingið Mööruvalla klaustur undan Þorsteine Þorleifssine so hann flutte sig þaðan og til Víðevalla.

Átte Jón Eggertsson það sumar á alþinge mörgum málum að svara, bæðe fóuetanum Jóhann Klein, Ólaf Kló kóngsins fálckafangara, Birnne Magnússine, Þorsteine Þorleifssine, um Mióadalsmál og galldrastafua skrif, hvar firer lögmaður Magnús Jónsson varð norður í land að ríða lög og riett ifuer þessum málum að seigia — Stefnde Þorsteirnn Þorleifsson þá Jóne Eggertssine firer róg, eirnnin Biörnn Magnússon honum firer höfuðhögg og annað sem þeirra á mille fór, varð lítið að þessum málum giört utan nockrar sekter voru á Jón Eggertsson dæmdar. Stefnde Jón Eggertsson síðast Magnúse lögmanne fram firer kóng og silgde so sama sumar með norðan skipum.

Sagðe Benedigðt Halldórsson af sier Hegraness síslu, enn Þorsteirnn Þorleifsson tók hana aftur.[1])

---

[1]) Hjer er eyða fyrir nokkrum línum.

Anno 1681 kom út kóng. Maitt. Christians 5 brief[1]), að kóngleg naað uppgefur helming af uppáboðinne stríðshiálp enn annar helmingur skule gialldast og gulldu þá flestaller uppásett gialld þó víða nockuð restans irðe. — Fór úr norðara Ísafiarðar síslu með kaupmannenum Jens Munck 191 W 2 f 4½ ſ í þetta stríðshiálpargialld, enn restans hlióp sig 36 W 1 f 4½ ſ, hlióp sig þá öll þessa sisluparts stríðshiálp uppá 227 W 4 f 4 ſ —

Var heingdur á alþinge Þorkell Sigurðsson, er oft hafðe hier um Vestfiörður stelande og liúgande flackað sem og annarstaðar, ættaður úr Eiafirðe og 5 ár böðull Hrólfs Sigurðssonar verið, fangaður í Skaftafells síslu og með dóme til alþingis fluttur.

Höggvenn á alþinge Þorgeir Ingialldsson er firer 2 árum 1679 úr Árnes síslu eiginngiftur með annars mans eiginnkonu Þurríðe Jónsdótter burthlióp, fangaður í Stapa síslu — Hvoria síslu lögmaður Magnús þá hafðe.

Brendur Are Pálsson, hvors mál leinge ifuerstaðið hafðe og til margra alþinga komið.

Komu fram galldrablöð úr Austfiörðum —

Upptók lögmaður Magnús Jónsson efter fóuetans befalningu firer Jacob Benedigðtssine öll hans skip og allan hans fisk upp í liensherrans skullder, sem honum innestóðu að sögn 13 eða 14 hundruð vætter, hvar upí hann og úteliet Fagurei og allt annað sitt fastagótz og borðsilfur og slefte so umboðinu — Hvort efter hann tók Andres Andresson er verið hafðe síslumaður ifuer hálfre Barðastrandar síslu eitt ár með lítinn prís, var danskur efterliggiare á Vatneire — —

Andaðist erugöfugur, guðhræddur og velvitur höfðingsmann Eggert sáluge Biörnsson um vorið á Skarðe á Skarðsströnd, hvor eð loflega í margföldum digðum lifuað hafðe, eirnnin andaðist þá Þorsteinn Jónsson á Narfeire um fardaga og margt annað fólck firer norðan, sunnan, austan og vestan, því þetta ár geck mikil sótt og mannskiæð — Eirnnin andaðist um ióla tíma í enda þessa árs Jón Vigfússon elldre síslumaður í Árnes síslu, Páll Jónsson á Skarðe og 2 menn aðrer sömu viku þar. Item Þóra sáluga Ásmundsdótter 84 ára á Narfeire.

---

[1]) Dags. 17. apríl.

Sama ár fæddist á Hrafnabiörgum siálfua Laurentiusmessu nafn þess guðhrædda og loflega höfðingia Eggert sáluga Biörnssonar hiá hans dótter Arnfríðe Eggertsdótter[1]), guð gefue því til lucku —

Aflagðe Magnús Jónsson lögmaður Stapa sislu enn tók aftur hálfua Barðastrandar sislu og Skógastrandar umboð epter Eggert sáluga Biörnsson, en landsfóuetinn Jóhann Klein hafðe siálfur Stapa sislu, Árnes sislu, hálfua Barðastrandar sislu og hálfua Ísafiarðar sislu og sette sina umboðsmenn þar ifuer.[2])

**Anno 1682** á alþinge dæmdur Ólafi Einarssine tiltar eiður, er Gróa heitin hafðe líst sinn barnsföður, enn falle eiðurinn fare útlægur af landinu —

Heingdur Jón Pieturson á alþinge firer þiófnað á Stað i Steingrímsfirðe, ættaður úr Ísafiarðar síslu.

Drepinn Adryan Jensson Munck i Martio mánuðe, efterliggiare í Skutulsfiarðar eirar húsum um kvölldtima af Jóne Þorsteinssine vinnumanne i Arnnardal fremra, hvor þangað með fiórða mann á skipe fór, hvar þeir og stálu nockrum fiemunum.

Var þesse Jón Þorsteinsson höggvenn á alþinge, enn Magnús og Jón Biarnnarson strikter, enn Gisle sökum ungdóms komst frá.

Dó Heinrik Einarson í Bolungarvik á skipe i fiskeróðre snögglega, hvar um ei vel rómaðist firer Halldóre Jónssine, en var siðan af návistar mönnum með eiðe undanborinn —

Andaðist stúlckubarnn Biarnna Stullasonar i Tungu i Bolungarvik, er firerfarande vetur og sumar hafðe miög kvalið og kramið verið af illum anda, meinast af galldra verkum, aðsveigðt af völldum Helgu Höskulldsdóttur, hvorre tiltareiður þar firer á Hólsþinge dæmdur var, hvor eð fiell þar sumar eiðakonur villdu ei með henne sanna, var siðan strikt á Nauteirar þinge.

Vetur miög góður, enn vor kallt og þurt, hvar firer varð litið grasár, enn nittust miög vel, kom vetur miög snemma

---

[1]) Hún átti Þorstein Þórðarson; Eggert sonur hans, sem hjer er átt við, og þeir feðgar báðir dóu 1700 (Esp. Árb. VIII, 67).

[2]) Hjer á eftir mestöll síðan auð.

og haustið með stórviðrum af döggum og vindum, hvar firer miklar skriður runnu og margar iarðer fordiörfuðust, so tók af sumum túnið, sumstaðar eingiar, túnið allt í fremra Gufudal tók skriða af, item ætlaðe að taka af Gufudal neðra og so víðar skemdust iarðer — Fiskerí var þetta ár allsstaðar um Vestfiörður miög gott, so kaupför feingu allsstaðar í höfnum fragðt og skilldu efter mikinn fisk í sínum búðum —

Komu kaupför firer alþing og með þeim fóuetinn Jóhann Klein með 2 kóngsbrief, annað[1]) að 4 forstanduger menn skilldu af landinu sigla um taxtann við kaupmennina í Kaupinnhafnn að höndla — Annað um stríðshiálpar restanz, að þetta sumar gialldist og af kaupmönnum útflitiest.

Skickað af fóuetanum að aller benefisiu staðer klaustur og bændagarðar, sem ei hafua firer landskilld uppsetter verið skilldu um allt landið af 6 mönnum virðast til landskilldar hæðar, so þeir inn í iarðabókina innskrifuast kinne, hvoria fóuetinn liet á þessa árs alþinge að níu samannskrifua — Kom út með Höfðaskipe Ólafur Asmundsson, hafðe feingið kóngsbrief firer Kirckiubæarstað[2]) í Austfiörðum —

Birtt kóngsbrief Ragneiðar Jónsdótter á Hólum, útgefið 1678 uppá nockrar Hólastaðar iarðer í Húnavatns og Hegranes síslum efter biskupsins og hans móður afgang sier til uppheldis —

3a[3]) að 3 bænadagar halldist á Íslande og Færeium.

4a kóngsbrief[4]) útgefið Hannese Thorleifssine uppá Antiquitet regii bestilling.

Kom út Jón Eggertsson er 2 ár hafðe í bile utanlands verið með velútriett erinde og kóngs stefnur sem útstefndu lögmönnum baaðum, Magnúse og Sigurðe, h(erra) Þorleifue Cortssine, Birne Magnússine, Daða Jónssine, Jóne Illugasine og fleirum öðrum að mæta Jóne Eggertssine í Kaupinnhafnn firer þeim hæsta riette, hvoriar stefnur hann sierhvorium strax um sumareð auglíste.

Skorinn Magnús Benedigðtsson stiúpsonur Jóns Eggertssonar, á Akureire, af dönskum höfuðbátsmanne úr munnvikinu

---

[1]) dags. 25. apríl.
[2]) varð prestur þar 1690.
[3]) dags. 18. marts.
[4]) dags. 7. júní 1681.

og up under eirað, hvar af kom mikið slark, so dansker urðu illa barðer af íslendskum —

Kom út Ísleifur Þorleifsson studiosus — Fieck síra Magnús Einarson kóngsbrief firer Stað[1]) í Steingrímsfirðe, enn síra Einar Torfason flutte sig þaðan og fieck Stað á Reikianese efter síra Gunnlaug [Snorra]son[2]), sem þetta vor andaðist fliótlega.

Fieck Páll Torfuason kóng. Maitt. uppreisningar brief, að hann skillde behallda öllu sínu gótze föstu og lausu, sagðt að hann skillde giallda til Bessastaða kirckiu 100 rd, 150 rd firer briefsins útvegun og 60 rd fóuetanum firer hans ómak — Brotnaðe Húsavíkurskip þá það ætlaðe út af höfninne að leggia, hvar á var Biörnn Magnússon sem ætlaðe efter kóngsstefnu að sigla, hvar firer hann aftur settist og miste í skipbrotinu kistil með 500 dölum í, sem síðar aftur fanst —

Með Höfðaskipe silgdu Hannes Þorleifsson frá Þingeirum vegna lögmansins Þorleifs, Daðe Jónsson síslumaður efter kóngsstefnu — Bastian Nielsson kaupmaður í Rifue með 1600 rd af sínum skulldum er hann sama ár tók hier í lande, efter sína kaupstefnu, hvort skip að brotnaðe í norðvestanveðre under Langanese að menn meintu því þar rak up nockuð af gótzinu enn tíndust menn aller —

Á því áre kom up óeining millum þeirra feðga Biörns Magnússonar og Guðbrands Biörnssonar.

Fieck lögmaður Magnús Jónsson kóngsbrief uppá sitt lögmansdæme, enn Sigurður lögmaður villde ei sitt innleisa, átte að kosta 30 rd — Item fieck lögmaður Magnús annað kóngsbrief uppá Reikhóla, að hann skillde þá ei til arfuaskifta móts við siskin hafa meir en firer 60 ℳ efter sem kaupahlutinn dír er.

Fæddist á Tiörnese norður eitt barnn, sem hafðe 6 fingur á hvorre hende og 6 tær á hvoríum fæte þar með með kallmans og kvennmans sköpum, lifðe hálfuan mánuð — Á alþinge um sumarið miste Guðbrandur Arnngrímsson hálfua Húnavatns síslu firer þá orðsök hann hafðe ei uppásetta stríðs-

---

[1]) Eftir Prestat. prestur þar 1681.

[2]) Skr. »Gunnlaugsson«.

hiálp innkrafueð — Andaðist Biarne Þorleifsson á Söndum lögsagnare í vestara parte Ísafiarðar síslu, enn Sæmunde Magnússine var sá síslupartur aptur af fóuetans vegna til reikningsskapar skickaður.

Riettaðar 2 persónur í Norðlendinga fiórðunge kallmaður og kona, firer förgun og óchristelega höndlun og hilming síns barns — Drap köttur hálfs annars árs gamalt barnn firer austan af vanvöcktun fóstrunnar sem það einsamalt efterskillde —

Silgde Helge Ólafsson diákne á Möðruvöllum frá konu, börnnum og búe með norðanskipum efter tilskrifue síns bróðurs Guðmundar Ólafssonar er orðinn var drotningarinnar í Svíaríke historíuskrifuare til að útleggia íslendskar sögur og önnur duckamente, átte að hafua í kaup árlega 300 rd. 2 frígarða og frikost —

Sást halastiarnna í hálfuan mánuð og þá dreimde Sigurð Sigurðsson á Láganúpe[1]) að hann sá 3 sóler, enn sú í miðið var[2]) var öllum fegre og varð að mans ásiónu og sagðe við Sigurð, hvað helldur fólckið að stiarnnan hafue að þíða sem hier sást nílega, Sigurður svaraðe þar vita menn ei af. Andlitið svaraðe, eg vil seigia þier það, hún merker það að hier eiga að koma ræningiar og hafðu það til merkis að þeir sem firster koma til landsins sem þeir sögðu forðum þegar Vestmanneiar voru teknar, frið, frið, enn þar kom að þar varð lítill friður, enn mundu þig um það, halltu þetta firer öngva draumóra sem eg seige þier, því það er satt, og vaknaðe Sigurður.

Item 3 vikum seirnna dreimde Sigurð gamlan mann gráhærðan og sagðe við Sigurð, satt er það sem sólin sagðe þier um stiörnnuna og ræningiana[3]) —

**Anno 1683** með því nía áre harnaðe veðráttufar með hreggviðrum og stórfrostum með fiúkum á mille, hvar firer útegangs peningar fordiörfuðust og í flestum stöðum dóu, því í flestum stöðum var heilaust á páskum, enn vorið harnnaðe meir og meir so flester við Ísafiarðardiúp mistu sína friða peninga sem og víðar annarstaðar og sökum harðinda og

---

[1]) Í Rauðasandshreppi.
[2]) Tvítekið í hdr.
[3]) Hjer á eftir mest öll síðan auð.

veðráttu komust skip ei til sióar fir enn á krossmessu, enn fiskur nógur first framan af enn í minna læge þá upá leið. Sumar miög gott og þerresamt so heiskapur níttist miög vel, um vorið komu upúr hafís 4 löngureiðar, 1 í Skáladal, önnur á Straumnese, 3a á Steig, 4a á Höfðaströnd — Haustið og vetrarfar til áttadags gott með miklu fiskerie.

A þessu áre önduðust þesser prestar, síra Jón Hannesson í Snóksdal, síra Helge á Melum, síra Biarnne Erlendsson í Kálfhollte, síra Jón Runólfsson[1]) 98 ára gamall, síra Markús Geirsson í Laufáse, síra Magnús Einarsson á Undenfelle, síra Jósep Loftsson á Ólafsvöllum, síra Gissur[2]) Sveinsson á Áltamíre 18. october, Magnús Magnússon sem verið hafðe lögmans sveirnn á Reikhólum —

Til þeirra afdauðu plátsa vígðust þesser prestar, Biarnne Jónsson locatur til Melstaðar, Biarnne Hallgrímsson til Kálfuafells, Þorsteinn Geirsson skólameistare til Laufáss og giftist um haustið Helgu Jónsdótter frá Vatnsfirðe, síra Jón Halldórsson til Ólafsvalla, síra Biörnn Þorleifsson til Áltamírar —

Síra Þorsteinn Þórarinsson fieck kóngsbrief aftur uppá sinn prestskap og kall aftur.

Riettaðar 2 persónur, kallmaður og kona í Rangárvalla síslu er með hilming höfðu fargað sínu barnne.

Átte blind og mállaus kona firer Jökle barnn og gat ei líst barnsföður að, enn efter þingið geck eirnn maður fram og siálfkrafa meðgeck þetta barns feðerne[3]), hvar firer hann fieck stórt lof.

Á Hamrendum í Breiðafiarðar dölum fann fátækur umferðarmaður dautt barnn under pallinum í baðstofunne, dróttaðist að vinnukonu Jóns þar búanda að hún munde þess barns móður vera og þar leinelega meðhöndlað hafua, hvor kona síðan hvarf og visse einginn hvað aforðið hafðe, enn um vorið fanst hún dauð í Haukadals á.

Var Árnna Jónssine á Höfðaströnd og Hannese Illugasine dæmt til tiltareiðs firer galldra áburðe, hvar frá þeir komust — Item var Sveine Árnnasine dæmdur tilftareiður firer áburð síra Sigurðar Jónssonar um veikleika sinna barnna, hvor

---

[1]) Á Munkaþverá; Prestat. segir hann 102 ára.

[2]) Skr. Gisser.

[3]) Þannig.

honum fiellst og var um haustið brendur í Arnngerðar eirar skóge á Langadalsströnd —

Helga Höskulldardótter var á þessu sama Nauteirar þinge strikt, eirnnin Gísle Árnnason á Míraþinge firer eiðfall firer galldra.

Sama ár voru og strikter Magnús Einarson og Jón Biarnnarson, er verið höfðu með þá Adrían var drepinn.

Komu dansker í allar hafner skömmu efter fardaga, var kaupmaður á Skutulsfiarðar eire Marteinn Mórusson efter Jens Munck sem um veturinn dáið hafðe í ianuarii mánuðe, feingu frögðtuð hier á höfn 2 skip að mestu og skilldu þó efter mikin fisk í búðum sínum, silg[d]u af í águstí mánuðe seint — Voru virtar danskra búðer um allt land, allt gótz og fiskur up registrerað.

Kom út fóuetinn Jóhann Pieturson Klein og skillde ei leingur fóuete vera, tók þó liensherrans erfingiar landsins vissa og óvissa afgift þetta sumar, hann hafðe og kónglega skickan með 24 að· dæma millum Jón[s] Eggertssonar og þeirra er hann hafðe sumarið firer firer kóng framstefndt og liet Jóhann honum til alþingis stefna, enn Jón kom ei enn skrifuaðe sína afbötun, hvor ónít dæmdist og Jón sekur firer stefnufall, eirnninn dæmdist konu og börnnum Daða heitins Mióedalur er Jón hafðe leinge móte dæmdum dóm lögmanna halldið. Silgde síðan sama sumar Jón Eggertsson með hollendskum fiskurum i Grímsei norður og með honum stiúpsonur hans Magnús Benedigðtsson, Guðbrandur Biörnsson diákne frá Möðruvöllum og smiður Jóns Eggertssonar, aller passalauser —

Kom út Christofor Heydemann með fóueta dæme ifuer allt Ísland skickaður af siálfum kónginum, hann veitte öll þau lien er efter Jóhann Klein óveitt voru —

Stapa umboð og síslu tók Þórður Steinþórsson, enn Andres Andresson slepte og silgde —

Árnes síslu fieck Hans Vilhelmsson, Lárus Gotterup Þingeira klaustur, lögmaður Magnús Jónsson Barðastrandar síslu firer sinn umboðsmann, Jón Jónsson á Ærlæk hálfua Þingeia síslu — Sæmundur Magnússon umboðsmaður danskra ifuer hálfre Ísafiarðar síslu —

Reiste fóuetinn Heydemann um Norðlendinga fiórðung og kom þaðan með miklar skeinkingar af hestum og öðrum dírgripum — Silgdu 3 íslendsker af landinu með fullmagðter um

taxtann utanlands að höndla efter kóng. Maitt. briefue, Marteinn Rögvalldsson firer Austfirðinga fiórðung, Jón Eiólfsson firer Sunnlendinga fiórðung, Magnús Jónsson sislumaður í Dala síslu firer Vestfirðinga fiórðung, hans sonur Árnne silgde með honum uppá studium, Þorsteinn Benedigðtsson átte að sigla firer Norðlendinga fiórðung, enn veiktist og komst ei —

Þetta ár önduðust þesser, sira Guðmundur Einarson i Búðardal og Skarðsþingum, sira Eigill Helgason fieck þau þing aftur, enn sira Ísleifur Þorleifsson Garðdals[1]) þing með Reikhólakirckiu —

Andaðist Ísleifur á Höfðabrecku firer austan, Narfue Eiólfsson hospitals ráðsmaður datt af bake og fanst dauður, eirnnin fótbrotnaðe Salamón forstandare Eirar hospitals, eirnnin handleggsbrotnaðe síra Torfue i Gulveriabæ að sögn.

Visiteraðe M. Þórður Þorláksson um Vestfiörður og hiellt prestastefnu í Garðsdal, forlíktist þar millum lögmans Reikhóla sócknarmanna og sira Einars, eirnnin lögmansins og hans föðurs Jóns Magnússonar —

Um sumarið anno *1683* reið síra Jón Eiólfsson capelllan sira Jóns i Hvamme i Norðrárdal út fir iökul og maður með honum[2]) og voru á reisunne um nóttina, hvoria alla þeir sáu i loftinu skipaflota, riðande her og hertekið fólck teimt á efter og þar var kvennaskare með íslendskum skautafölldum —

Þesse brúðkaup og giftumál þetta ár, Þorsteirnn Geirsson og Helga Jónsdótter frá Vatnsfirðe, Jón Þorsteinsson og dótter sira Ara á Mælefelle, sira Þorvalldur Biörnsson og Ragneiður Markúsdótter frá Áse, Hans Vilhiálmsson danskur sislumaður i Árnes sislu og Guðríður Markúsdótter á Stockseire — Síra Biarnna Hallgrímssonar[3]) og dóttur Magnúsar heitins á Leirubacka[4])

Skeðe manndráp i Landeium suður i Rangárvalla sislu — Item annað i Borgarfiarðar síslu firer sunnan Hvítá, er

---

[1]) þ. e. Garpsdals.

[2]) Hjer er aftur skr. »út firer Jökul«.

[3]) M. a. prests í Odda.

[4]) Hún hjet Ingiríður.

Jón Hreggviðsson drap Sigurð böðul, hvor inn til Bessastaða fluttur var og slap þaðan úr iárnnum frá fóuetanum Heydmann og náðist ei aftur.

Miste Gvendur Jónsson Borgarfiarðar síslu, enn Heydmann veitte hana aftur Jóne Sigurðssine í Einarsnese — Í Hrútafirðe í Stranda síslu fiell Biörnn Höskulldsson með þeirre konu, er hans skilgetinn bróður hafðe áður með fallið, voru bæðe flut til alþingis, var konunne þar drekt, enn Biörnn slap úr iárnnum á alþinge með því móte að þesse kona komst að liklunum og gat lokið upp hans handar iárnnum, enn hann siálfur síðan fótariárnnunum, stal heste og reið síðan á Vestfiörður og silgde með eingelsku varnnarskipe —

Lögmaður Magnús liet fanga Biarnna Árnnason á Tindum í Króksfirðe firer óheirelegðt skrif er hann skrifuaðe uppá heilaga þrenningu og kastaðe inn í Garðdals kirckiu, var hafður til alþingis og högner af honum 3 fingur á hægre höndinne og dæmd 12 vandarhögg á hvoriu áre meðan lifðe —

Item var á alþinge heingdur sá þiófur Vilckinn Árnnason[1]), slapp úr iárnnum á alþinge og naaðist aftur.

Fieck Guðbrandur Arnngrímsson aftur hálfua Húnavatns síslu um veturinn, enn miste aftur um sumarið[2]) með lítið góðum orðstír, og fieck Lárus Gotturup hana aftur með Þorsteine Benedigðtssine.

Kom út úr Svíaríke Helge Ólafsson er verið hafðe diákne á Möðruvalla klaustre firer norðan, ætlaðe að sækia konu sína og börn og flitia fram í Svíaríke, enn fieck ecke far firer sitt hiske með kaupmönnum og sillde þar firer siálfur aftur.

Sáu siómenn í Eirardal í Áltafirð[e] á loftinu í norðvestur so sem norðurliós i firstu, enn varð síðan með so miklum roðma sem blóð være og síðan döckrautt sem lifrað blóð være og þá hálfljóst var sló þessum roðma ofuan á sióinn, þar gagnvart norður undan, so þeim síndist siórinn sem döckt blóð til að siá með stórum blóðlifrum, hvað að þeim síndist vera allt þar til þeir í land komu —

Firer iól sáu siómenn nockra mornna í mistre biart skí,

[1]) Sbr. aftur við næsta ár, bls. 182.
[2]) Hjer er aftur skr. »aftur« (rángt f. eftir?)

eirnnin sáust so sem 2 tungl eður sólarsveinar annar undan enn annar efter tunglinu ganga.

Á Nese á Barðaströnd sást stiarnna með vende eða sverðe út af sier — Finn Sigurðsson nafnkendan lögriettumann dreimde marga síðklædda menn og höfðu bækur í höndum sumar opnar, enn sumar hvolfdu niður, sá á biarginu sat mælte að þessum mönnum burtgeingnum,

vil eg sálin vake
í væmu ei gleime sier,
dauðann ber á bake,
belldið holldið er,
í einu andartake
æfuen og lífið fer.

Með dönskum spurðist hættulegðt stríðstilstand millum danskra og svenskra, og hollendsker hielldu með svenskum en nockrer þísker furstar með dönskum, og kóngurinn með sitt stríðsfólck være kominn í Holstinn — Þeir sögðu og andlát og afgang liensherrans h(erra) Heinriks Bielcke.

Eirnnin stríðstilstand millum keisarans og Tyrckia og þeir være innfalnner í Þískaland og keisarinn hefðe tilskrifuað öllum christ[n]um kóngum um stirck[1]) — —

**Anno 1684** var veðrátta og vetrarfar gott með nægianlegum iörðum utan á Góu kom mikið snióa íkast og leiste upp aftur á Einmánuðe. Fiskerí mikið í kringum allt Ísland og feingust mikler hluter so í mannaminnum ei meire verið hafua — Hafísar mikler láu firer öllum Vestfiörðum og Norðlendingafiórðunge so að ei út ifuer sást af hæstu fiöllum, hvar á komu tvö biarnndir á Norðurströndum. Á Tiörnese norður og þar næstu sveitum flotnaðe upp fólck af biargleise, orðsakaðist af því að það miste sína peninga á firerfarande vetre, A⁰ 1683, hvor þar um plátz og víðar í Norðurlandinu so harður var af snióalögum að sauðiörð var ei uppkomin í fardögum og hafísar láu þar firer til miðsumars, so ei varð róið utan með mestu hættu að þeir

[1]) Hjer er $^1/_3$ síðu auður.

urðu að draga skipin upp á isinn, enn það fiskaðist maðkaðe so það varð ei mönnum ætt, skáru þar firer sinn friðan pening niður um haustið sier til biargar —

Reið fóuetinn Christofor Heidemann með 6 mann vestur under Jökul til Staðarstaðar, Ingialldshóls og Hitardals, hvort lögmaður Magnús reið til fundar við hann, ætlaðe fóuetinn að riða vestur til Selárdals, enn hindraðist sökum snióa, sem komu á Góunne og snerre aftur til Bessastaða.

Brann allur bærinn utan baðstofuan á Löngumire i Skagafirðe á sunnudeige þá allt fólck var komið til kirckiu utan 2 stúlckur, sem hiálpaðe því þær gátu af sængurfötum og öðru, visse einginn hvornnin þesse elldur tilkom.

Datt maður í Miðfirðe á svelle og andaðist 2 dögum siðar — Kom maður úr Vestmannaeium i land i Landeium austur með varnning og fieck 3 hesta og ætlaðe austur á sveiter og uppbiriaðe sína reisu frá bæ nockrum, skömmu síðar fanst þesse maður, hestarner og hundurinn sem með honum rann dauður bæa á mille enn varnningurinn allur burthorfinn.

Var til fanga tekinn vestur í Tálnafirðe sá þiófur Vilkinn Árnnason og fluttur til Reikhóla.

Urðu 2 menn bráðdauðer i Triekillirsvik.

Slap sá fangi Jón Hreggviðsson sem böðulinn drap úr fangelse frá fóuetanum á Bessastöðum og náðist ei aftur — Komu út þeir 3 íslendsku menn sem firra árið útsilgdu taxtann að giöra með nian prentaðan taxta er hertur var um 1 ſ á hvoriu f kaupe með fleiru öðru kaupskapnum viðvíkiande aleigumál og uppá Bremerhólm þeir við aðra enn hafnanna reiðara keiftu, urðu flester sömu reiðarar og kaupmenn er áður verið höfðu — Um útsiglingar kostnað þessara 3 manna var á alþinge af andlegum og veralldlegum áligðtað að af hvöriu iarðarhundraðe skillde gialldast hálfur fiskur, sem nálægðt eigendunum være, enn mörk fiska af því fiarlægðt eður i öðrum fiórðungum læge. Eirnnin af hvoriu tíundarvirðu hundraðe í. lausa fie 1 ſ um allt land og biriest á 5 ∽, hvor lausamaður sliettan dal, enn þeir 10 ∽ eiga 1 rd, þeir veslun hafua $1^1/_2$ rd og þetta gialld skilist til herra landsfóuetans Heydemans í

sumar 1685 af sierhvorium síslumanne firer það gialld sem hann landsins vegna til þessarar útsiglingar i borgun umgeck, enn þeir þetta ei giallda vilia riettsóckter um rentu og 4 marka dómrof —

Kom út kóng. Maitt. misciue[1]) til fóuetans og beggia biskupanna að allar lasnar kirckiur skilldu upbiggiast og allra kirckna reikningsskapar til biskupa afhendast, eirnnin allar brotnar og rifnar kluckur skilldu fram í Kaupinnhafnn framflitiast af kaupmönnum.

Á þessu alþinge heingdur Vilkenn Árnnason, höggvenn maður úr Rangárvalla síslu, drekt konu úr Strandasíslu, enn maðurinn[2]) efter dauðadóm slapp úr iárnnum og silgde á Vestfiörðum, högner 3 fingur i miðhnúum af hægre hende á Biarnna Árnnasine.

Á þessu alþinge stefnde landsfóuetinn Christofor Heydemann Birnne Magnússine firer Múkaþverár niðurníðslu, annað að hann hefðe ei giört lög og riett mille danskra og islendskra, þriðia um ólöglega eiðs afleggingu —

Efter alþing reið Heydmann og lögmaður með fleirum öðrum lögvitrum mönnum norður i land um þetta mál og önnur fleire að þinga, dæmdist Biörnn frá Möðruvalla klaustre og Eiafiarðar síslu með 400 rd sem ofuan á klaustrið lagðt var firer þess niðurniðslu, eirnnin 13 merkur kónge í sakeirer og þar að auke villde fóuetinn af Birnne hafua firer sinn kostnað og tæring 90 eða 100 rd. Enn Biörnn apelleraðe sinu mále firer kónglega Maitt. og hæsta riett, tók passa af Heydmann og silgde sama sumar á Akureire með 4 pósta uppá Heydmann og með honum 2 aðrer íslendsker — Heydmann sette Jón Illugason á Urðum til lögsagnara ifuer sisluna hvar under hann ei tók, enn klaustrið var óveitt —

Eirnnin dæmdist Solveig Magnúsdótter og hennar sonur Guðmundur Þorkelsson hvort firer sig sek 13 mörkum firer það þaug klöguðu Biörnn um lagaleise, og þar auk villde Heydmann hafa af hvoriu þeirra firer sinn kostnað 100 rd, sem og eirnnin af Sigriðe Magnúsdótter konu Jóns

[1]) þ. e. missive (brjef).
[2]) Björn Höskuldsson.

Eggertssonar, Þorsteine Þorleifssine og Þorleifue Cortssine lögmanne sina 100 rd. af hvoriu þeirra firer sinn kostnað og tæring og ómak, að hann liet í þeirre reisu virða Möðruvalla og Þingeira klaustra niðurníðslu, var lagðt ofuan á Möðruvalla klaustur 300 rd, Þingeira klaustur 80 hundruð, enn hvort Heydmann fær allt þetta gialld gefur tíðin að vita. Reiste so um haustið aftur heim til Bessastaða —

Andaðist barnn Heydmans á Bessastöðum í vöggu fliótlega um nótt og í því bile slocknuðu öll liós og elldur allsstaðar á Bessastöðum, varð tekinn um síðer í einum bissulás, af þessum viðbrigðum urðu þau Heydmann og hans kvinna so skelfd, að þau riðu vestur til Valna til lögmannsins Magnúsar, meinast að þau vilie þar vetrarleingis sitia og síðan með firstu skipum sigla efter sem heirist, enn Lárus Gotterup skule i hans stað á meðan fóuete vera á Bessastöðum, hvor og feingið hafðe hálfua Húnavatns sislu með Þingeira klaustre, hvort hann hafðe bigðt efterkomande ár Þorsteine Benedigðtssine. Gotterup kom út þetta sumar með móður sína, sistur og bróður með fleira dönsku fólcke og sat á Þingeirum þennan vetur — Fæddist undarleg barnsfæðing í Melasveit suður á hvoriu sást ei til andlitsmindar utan sem holldsmindar, enn þar munnurinn vera átte, hieck vörin út á axler, þar með vissu menn ógiörlla hvort það skíra skillde kallmans eður kvennmanns nafne, varð þó kvennmans nafne skírt og lifðe þá til spurðist — Varð úte sendemaður lögmansins Sigurðar Biörnssonar á Holtavörðuheiðe firer iól, átte að sækia smiör í Miðfiörð, fanst aftur smiörbaggarnner og hesturinn, enn maðurinn ei — Eirnnin urðu úte í sama fiúke sama dag tvær vinnustúlckur, önnur í Breiðafiarðardölum, enn önnur í Króksfirðe í Mírartungu — Fieck Sigurður lögmaður Kiósarsíslu er Daðe heitinn Jónsson haft hafðe, eirnnin Magnús lögmaður Dala síslu, er Magnús heitinn Jónsson[1]) haft hafðe hvor eð andaðist efter það hann útkom firer alþing, var miög veikur hingað fluttur.

Eirnnin kom út Andres Andresson danske og hafðe

[1]) faðir Árna.

feingið kóngsbrief uppá Stapa umboð og síslu, enn lagðe af hálft við Þórð Steinþórsson.

Kom eingin hollendsk sigling þetta ár utan firer Jökle og Hafnarfirðe seint á móte því dansker þaðan silgdu, hvar firer talast að nockrer íslendsker hafue af kauphöndlan við þá skaða feingið og efter kóng. Maitt. taxt skaða feingið og til sekta fallið. Meðal hvorra sagður var Magnús Hrómundsson síslumaður í Hnappadals síslu er hann þar firer mist hefur, og hans góts er registrerað — Hvar frá hann með dóme síðar komst og hiellt sínu.

Flutte lögmaður Magnús Jónsson sig frá Reikhólum til Valldna[1]) firer Jökul —

Eirnnin reiste biskup Jón Vig[f]ússon til Hóla um haustið og sat þar um veturinn, villde strax stólinn að sier taka efter afgang h(erra) Gísla Þorlákssonar, er um sumarið efter alþing varð ei so fliótt inntekinn því 8 norðlendsker prestar mótstóðu hann og supliceruðu firer kóng móte honum, enn útvölldu 3 aðra að vera í biskupskiörum, þó meinast að biskup Jón ætle sig með konum og börnum þangað í vor að flitia.

Á þessu áre kallaðe guð til sinnar dírðar af þessum heime þessar efterskrifaðar persónur, h(erra) Gísla Thorlákssson á Hólum siálfan áttunda þar á heimile, Jón Árnnason á Holltastöðum, Magnús Jónsson Dalasíslumann, Ólaufu Guðmundsdótter á Eire, mitt elskulega egðtahiarta efter 18 vikna þungan veikleika, Þorvarð Magnússon er drucknaðe í Hvítá, Jón Jónsson á Ærlæk síslumann í Þingeiar þinge og fleire aðrar frómar ónafnkendar persónur.

Item komu saman þessar nafnkendar persónur í egðtaskap, síra Halldór Pálsson og Ingebiörg Magnúsdótter á Eire, Jón Magnússon og Ingebiörg Pálsdótter í Selárdal, Eggert Sæmundsson og Þorkatla Jónsdótter úr Flatei, Sæmundur Hrólfsson og Ingebiörg Jónsdótter.

---

[1]) þ. e. Vallna (Valla), ɔ: Brimilsvellir.

*Á auðu blaði fremst í bókinni stendur þessi klausa:*

Anno 1681 in ianuario að Hafrafelle í Reikhoola repp stack kona sig (Elín að nafne um 6 taugs alldur) í fremra handlegginn með lesprión í gegn millum leggianna, dó og dofnaðe höndin framfrá, upp frá blies upp og bólgnaðe, lítið blæddi, sló verknum öllum upp og fram firir brióstið, lifði þriá daga, dó so, lá með háum ofurhlióðum

Vernde oss vor guð við slisum etc.

---

*Aths.* Merkið f svarar til f-myndaðs teikns með 2 þverstrikum í hdr. og táknar það »fisk«; f = fjórðung«. — ∽ er hjer haft fyrir hið vanalega hundraðs-merki.

Handrit af Prestaæfum hr. Sighvats Grímssonar hef jeg notað við útgáfu þessa.

# SKÝRSLUR UM KÖTLUGOS.

Í landnámstíð hefir líklega mestallur Mýrdalssandur verið bygður, þar hefir verið fjöldi bæja, sem nú eru horfnir, stórar bygðir hafa snemma eyðst einsog t. d. Dynskógahverfi norður og vestur af Álftaveri og Lágeyjarhverfi fyrir vestan Álftaver. Eg hefi áður (í Andvara 1894 bls. 69—71) talið hin helztu nöfn eyðibæja á þessu svæði. Um það leyti sem landnámsmenn fyrst komu i Skaftafellssýslu hafði Katla haft langan hvíldartima og hefir hvorki hlaupið né gosið, svo stórir flákar á sandinum hafa verið uppgrónir, en jökulkvislar með sandrákum hafa verið þar innan um graslendin líkt og nú er á Mýrum i Austur-Skaftafellssýslu. En svo tóku eldgos og jökulhlaup smátt og smátt að eyða bygðirnar, unz alt var orðið hraun og sandur.

Hvenær Katla hefir fyrst gosið, eftir að land var bygt, vita menn eigi, þó er enginn efi á því að Kötlujökull hefir oftar en einu sinni hlaupið á hinum fyrstu þrem öldum, en það hefir eigi verið fært i letur. Fyrsta hlaup, sem menn þekkja með vissu, varð á 12. öld. Haustið 1179 kom Þorlákur biskup hinn helgi að Höfðabrekku til fundar við Jón Loftsson, og var ágreiningur milli þeirra um kirkjumál, »enn var önnur grein millim þeirra, ok stóð sú af Höfðárhlaupi, því hún hafði tekit marga bæi, þá er þangat lágu undir, og tvá þá, er kirkjur voru á. Varð af því minni tiund ok færri hús til brottsöngs«. Þetta Höfðárhlaup hefir þá líklega fyrir skömmu verið afstaðið og hefir gjört mjög mikinn skaða, því af öllu má ráða að þar hafi verið stór graslendi, og er sagt á sama stað að Höfðabrekkuland »þótti eitthvert bezt vera, áðr en Höfðá spilti«.[1]) Höfðabrekkubær stendur nú einsog kunnugt

---

[1]) Biskupasögur I, bls. 282—283.

er uppi á fjallinu, en var áður fyrir neðan það, Kötluhlaup 1660 tók af hinn gamla bæ, og var hann síðan fluttur uppá hálsinn.

Í Landnámu er alkunn þjóðsaga um viðureign þeirra Loðmundar á Sólheimum og Þrasa í Skógum, er þeir veittu Jökulsá hver á annan »í þeim vatnagangi varð Sólheimasandur«.[1]) Þetta hafa margir skilið sem óljósa sögn um eitt hið fyrsta Kötluhlaup, og hefir hlaupið þá komið niður af Mýrdalsjökli, eins og tvö hlaup á 13. öld, og fallið niður farveg Jökulsár, en vera má að einhverjar aðrar eldstöðvar undir jöklinum hafi valdið þeim hlaupum. Þá getur Landnáma enn fremur um jarðelda í Álftaveri og á Mýrdalssandi.[2]) Molda-Gnúpur nam land milli Kúðafljóts og Eyjarár og Álftaver alt; þar var þá vatn mikið og álftaveiðar, seldi hann mörgum af landnámi sínu og gjörðist þar fjölbygt áður jarðeldur rann þar ofan, en þá flýðu þeir vestur til Höfðabrekku og gjörðu þar tjaldbúðir er heitir á Tjaldavelli. Þess er og getið, að Hrafn hafnarlykill hafi numið land milli Hólmsár og Eyjarár og bjó í Dynskógum; hann vissi fyrir eldsuppkomu og færði bú sitt í Lágey. Aður hafa menn haldið að hér væri átt við Kötluhlaup, en það er auðséð að svo er eigi. Hér er beinlínis sagt að »jarðeldur« hafi runnið ofan í Álftaver, glóandi hraun, en um jökulhlaup er ekki talað. Hraunið er enn til og sýnir sig, og eg hefi annarsstaðar, að eg held, fært full rök fyrir að jarðeldur þessi hafi komið úr Eldgjá á Skaftártunguafrétti og runnið ofan í Alftaver, Meðalland og Landbrot; hraun þetta var afarmikið og breytti mjög landi og vötnum þar eystra.[3])

Jón Steingrímsson prófastur hefir safnað frásögnum um Kötlugos og gert við þær ýmsar athugasemdir, hann hefir einnig ritað inngang eða formála fyrir ritsafni þessu, og þar hefir hann reynt að skýra fyrir sér hinar fornu frásögur Landnámu um hlaup úr Mýrdalsjökli. Jón Steingrímsson ætlar að jarðeldur sá, er þeir Molda-Gnúpur og Hrafn hafnarlykill flýðu fyrir, hafi verið Kötluhlaup og heimfærir það til ársins

---

[1]) Landnáma. Rvík 1891, bls. 179—180.

[2]) s. st. bls. 193—194.

[3]) Þ. Th.: Lýsing Íslands 2. bindi, 8. kap. Geografisk Tidskrift XII, bls. 218—220. Andvari 1894, bls. 90—91.

894, og hafa margir tekið það eftir honum. Nú má það heita fullsannað að tilgáta þessi getur eigi staðist, og ártalið hlýtur líka að vera rangt, enn sennilega hefir gos þetta orðið fyrir miðja 10. öld. Hlaup Loðmundar og Þrasa telur hann líka Kötluhlaup og má vel vera að sú skoðun sé rétt, hann ætlar það hlaup hafi orðið 934, en engin vissa er samt fyrir því ártali, þó líklegt sé að þau tíðindi hafi gerst á fyrri hluta 10. aldar. Hið þriðja Kötluhlaup segir Jón Steingrímsson að hafi orðið árið 1000, segist hann hafa séð þess getið í annál er síra Þorleifur Árnason á Kálfafelli hafði ritað, en annáll sá komst þaðan í eign Einars Högnasonar lögréttumanns »í hvers höndum bæði jeg og aðrir sáum það skrif«, segir síra Jón. Um þetta gos er hvorki hægt að segja af né frá, þess er ekki getið í neinum öðrum heimildum.

Í fornum annálum eru nefndar eldsuppkomur í Sólheimajökli 1245 og 1262 og við seinna gosið er getið um »myrkur svo mikið að fal sólu«. Þessi gos eru oftast talin með Kötlugosum, þó hlaupin líklega hafi gengið niður Sólheimasand, en vel má vera að gosstaðurinn hafi verið annarsstaðar í Mýrdalsjökli fyrir vestan Kötlu. Næsta hlaup úr þessum jökli mun Sturluhlaup hafa verið 1311, um það gos eru frásögur mjög á reyki, einsog um mörg önnur gos á 14. öld. Annálaritarar hafa flestir verið alveg ókunnugir í þeim héruðum þar sem gosin urðu, og frásagnirnar eru því stundum eintómur hrærigrautur. Það sem menn vita um þetta hlaup eru mest munnmæli og hefir Jón Steingrímsson prófastur safnað þeim.[1]) 1416 var Kötlugos, sem kallað er Höfðahlaup, líklega af því það hefir stefnt á Hjörleifshöfða, »brendi það gos mikinn dal í jökulinn og varð þar af öskufall mikið svo lá við skaða« segir Lögmannsannáll. Árið 1580, hinn 11. ágúst hljóp Mýrdalsjökull með eldgangi suður hjá Þykkvabæjarklaustri »svo bæir eyddust en ei sakaði fólk« segir Björn á Skarðsá. Um þetta gos er einnig til stuttur fréttakafli ritaður á þýzku í Konungsbókhlöðu í Höfn[2]), fremur ómerkilegur.

---

[1]) Frásagnir um Sturluhlaup eru prentaðar í Þjóðsögum og munnmælum, sem dr. Jón Þorkelsson gaf út. Rvík 1899. bls. 125—127. Ennfremur í Eldriti Markúsar Loptssonar. Rvík 1880. bls. 9—12.

[2]) Folgen Neuwe Zeitunge Deren sich eine Jn dem negest vorlauffenem achtigsten Die anderen Jn dem itzigen 81 Jahre Jn Isslandt zugetragen haben. Gamle Kgl. Samling nr. 2432—4°.

Þar með hætta þau Kötlugos, sem litlar og ónógar skýrslur eru um, en fram úr því eru til ítarlegar lýsingar á hverju gosi, eftir menn sem búið hafa í nágrenninu, þær eru flestar merkilegar og hafa aldrei verið prentaðar fyr.[1]) Elzta ritið er »Relatio Þorsteins Magnússonar um jöklabrunann fyrir austan 1625«. En oss þykir þó við eiga að prenta hér fyrst inngang Jóns Steingrímssonar um Kötlugjá og hin fyrstu gos hennar, og svo síðar viðauka hans, sem hann hefir samið um hin einstöku gos, á eftir þeim frumritum, sem þeir eiga við.[2]) Þarnæst kemur þá skýrsla Þorsteins Magnússonar og er hún prentuð eftir handriti í safni Árna Magnússonar nr. 422—4⁰, með hliðsjón af samtíða handriti (frá miðri 17. öld), sem eg á, og eru þau bæði orðrétt eftirrit eftir frumriti, sem er kallað »Kver það sem Þorsteinn Magnússon sendi sira Ólafi Jónssyni á Söndum 1626.«[3])

*Þ. Th.*

---

[1]) Í Eldriti Markúsar Loptssonar eru prentuð örstutt ágrip af skýrslunum líklega tekin eftir riti Jóns Steingrímssonar, sem víða er til í afskriftum, allavega styttum og breyttum.

[2]) Inngangur þessi er prentaður eftir handriti sem eg á, en eg hefi borið nokkur önnur handrit saman við það, en hefi þó eigi hirt um þýðingarlausan orðamun sem ekki raskaði meiningu. Af handritum má nefna Lbs. 210—4⁰; J. S. 158 fol. (með hönd Jóns Árnasonar bókavarðar). J. S. 414—4⁰ (Útgarðaloki), 415, 416, 420, 421—4⁰; J. S. 319 (Bæjarstaðakver), 320, 321—8⁰ o. s. frv.

[3]) Af riti þessu eru víða til ágrip og einu þeirra var snúið á dönsku af Nicol. Helduader og prentað í Khmöfn 1627—4⁰. Sbr. Eldfjallasögu mína 1882.

gagns verið nokkurstaðar á sveitum og ekki heldur verða fyr en að grænum grösum, svo sem um fardagabil eður fráfærur, utan þar sem mýrlendið má fyrri til gagns verða; nautpeningi hefur öllum síðan gefið verið, svo aldrei hefur síðan til stórs gagns útlátinn verið. Kaplapeningar af öllum þessum sveitum var, strax menn því viðkomu, i Mýrdal og undir Eyjafjöll í burt rekinn, svo hér á sveitum engir eftir eru, utan þeir, sem menn neyddust til daglega sér til nauðsynja með að fara, þó óviðast utan einn hjá sérhverjum búanda, hverjir hey og hús nótt og dag hafa verða.

Af sauðfé nærri aldauða, svo ei eftirstendur utan á stöku bæum fáeinir sauðir (sem áður segir), utan hér i Verinu í því afmetna landsplássi, sem guð frá öskufallinu því mesta verndaði og varðveitti (sem áður er sagt), þar lifir enn nú mitt fé mesti partur (þó margt og mikið hafi aflógast) og þeirra manna, er hér um kring búa, hefði þar nóg björg og hagi fyrir það verið þennan vetur og þó miklu fleira verið hefði, ef sá mikli kapla og nauta grúi, er þangað hljóp og þusti úr öllum sveitum með það fyrsta, sem fyrri er um talað, hefði þar ekki alt upp urið og sviðið líka sem eldur hefði yfir gengið, hvað mönnum þar úti stærstan skaða gjörði.

En sökum þess að guð hefur veturinn svo góðan og æskilegan gefið til þessa sem nokkur hefur á mátt kjósa og komi nú ekki stórhörkur héðan af, þá meina eg það lifa muni og framstreita vel flest. Berfátækt fólk er hér orðið um allar sveitir, hungur og harðindi á vel flestu, því ekki hefur enn af sjónum gefist, guð má fyrir sjá og bezt um ráða, hvernin það tilgengur.

Sand hefur mjög svo síðan veturinn kom allvíða fyrir regnum og þrástormum þverrað, fokið og afrignt, sérdeilis hér sunnarlega um Verið og staðarins haga, undir Fjalli og i Landbroti, þar sem sandurinn kom ekki i mesta máta, svo þar verða menn við hús eftirkomandi á flestum jörðum, þó landskyldir megi þverra eða litlar verða. En í Tungu hefur litið minkað sand eður ekki, þar liggja 18 jarðir með ij þar næsta fyrir austan Skaftá undan Fjalli, þær leggjast (næsta ár, sem ljóst er, eður lengur) allar i eyði, svo eg hygg að enginn maður hafi nokkra þeirra til gagns eða nytsemda. Skógar eru þar allir sandi kafnir, svo ei verða nýttir. Þar liggja 9 kongsjarðir, er sira Snæbjörn hefur, 7 klausturjarðir

eg meðferðis hefi, ein jörð bóndaeign og eitt beneficium, þar presturinn á situr, og eru margar af þeim, er áður voru enar beztu kongsjarðir.

Hér í Veri liggja til klaustursins 8 jarðir með þeirri, sem presturinn á býr og hans forléningsjörð er, þær byggjast ei annars en svo, að þar sem tveir áður bjuggu liggur nú naumlega einn við hús með lítilli landskuld, mest vegna þess, að sumar og vetrarhagar eru allir sandi byrgðir. Í Meðallandi norðast verða og iij jarðir nær í eyði eður með lítillegri bygging. Klaustrið sjálft meina eg fái aftur nærhæfis haga og fénaðarbeit, en hvort tún og engjar upp aftur næsta ár tilgagns spretta eður eigi, kann enginn víst fyrir sjá né vita, fyr en að Jónsmessu eður slætti kemur, en það er sýnilegt að allar hálfar engjar eður meir eru næsta ár og lengur af með öllu.

Af þessu klaustri er afgjald nær ij$^{c}$ ríkisdalir, eg veit fyrir víst að öll þess hálf renta og inntekt er með öllu af og forhlaupin, ef ekki er betur. Eg veit eigi hver bygging eður búskapur á þessum sveitum er eður heita á héðan af armóðs og fátæktar vegna, því hér kann enginn sjálfum sér bjarga þess heldur öðrum hjálpa, líði guð að nokkrir eftir haldist og hari við jarðirnar í vor, þá má héðan alla fátæka eður vel flesta, sem eftir lifa, úr sveitinni í aðra fjórðunga dæma, því þeir, sem við jarðirnar inni liggja, hafa lítil ráð til sig og sín börn og fjölskyldu að næra, en slétt engin efni þann mikla fólksfjölda að fæða, er nú allareiðu á sveitinni er, þess heldur ef fleiri uppflosna, sem sýnilegt fyrir hendi ljóst er að verða muni. Guð hjálpi oss öllum með sinni náð og gefi oss vora stundlegu björg og atvinnu (eftir sínum náðuga vilja), svo lengi sem hann lætur oss hara og lífið sparar í þessum sorgfulla eymdadal, hans heilaga nafn sé blessað fyrir utan enda frá nú og til eilífrar tíðar. Amen.

---

Sökum þess, góði vin síra Ólafur Jónsson, að þér mig í yðar síðasta bréfi (mér tilskrifið) beðið hafið yður að ávísa hvernin viðbar og til féll um þessi ógnar undur, jökulhlaup og tilfelli, þá sendi eg yður nú þessa frásögu svo samanskrifaða og tilsetta sem hún við bar dag eftir dag, og síðan inn til þessa skéð er, sem nú er komið. Hafa þessi hlaup

nú í manna minnum iij verið (áður fleiri, þau menn eigi til muna) og hefur þetta af þeim þriðja vegna öskufallsins mesta skaða gjört. Það fyrsta af þeim síðustu iij meina eg að verið hafi Anno 1581 eður þar um, og þá var Eggert tekinn á Vestfjörðum ef fríbáturum (sem þér skrifið). Það annað því næst var 1612 og það var það fyrsta ár, er eg meðtók þetta klaustur, og það skeði 12. Octobris.[1]) Þetta sem nú í haust var, er það þriðja, hvert með sinni ógn, eldi og öskufalli að öll hin yfirgengið hefur, en þó er almæli, item og auðséð, að þau fyrri, sem menn ei til muna, hafi stóran skaða gjört, marga jörð á milli Mýrdals og hér burt tekið og eyðilagt; menn segja og að fólkið hafi ogsvo sumstaðar með burt tekið, sem og eigi er ótrúanlegt að verið hafi. Eg hefi nú tvö af þeim með hættu og lífsfári reynt og afstaðið, þess þriðja girnir mig ei bíða, en þó veit eg og treysti guð svo máttugan að hann getur mig svo úr því leyst og frelsað (þó til félli) svo vel sem frá þessum tveimur afstöðnum; gjöri guð sinn náðar vilja svo um það sem alt annað. Amen.

Hafi þér nú mitt fullkomið svefna á milli hvíldarlaust dagsverk, fyrir hvert (væri ei svo rangt og illa skrifað sem er) eg vildi laun heimta, væri eg nálægri yður en er, sérdeilis í þessari pappírseklu, verð fyrir pappírinn, utan yður í þanka virðast megi, að eg fyrirfram (sjálfskamtað með skemt og tíðfordríf) það úttekið hafi, þá skal þar ekki framar heimtan fyrir höfð vera, heldur kvittum kvitt etc. Virðið gamanyrðin vel og til meinleysis, sem eg ei efa. Skrifað að Þykkvabæ í Álftaveri á Síðu þann 4. Martii A⁰ 1626.

Thorsteirn Magnúss. með e. hendi.

[1]) Gos úr Eyjafjallajökli.

## III. SKRIF SÍRA JÓNS SALÓMONSSONAR UM HLAUPIÐ ÚR MÝRDALSJÖKLI, ANNO 1660.[1])

Anno 1660, þann þriðja nóvember um kvöldið móti dagsetri, sást fyrst eldsuppkoma til norðurs, tilsýndar frá Höfðabrekku, er sú jörð við Mýrdal í Skaftafellssýslu, með langvaranlegum landskjálfta, hartnær sem menn meintu heila stund, þó stundum yrði nokkur kyrð á, áður en eldurinn uppgaus. Þar eftir um kvöldið sama dags, þá úti var vanalegur vökutími, og menn vildu hvílast, kom fram að Höfðabrekku jöklagangur með ofurmáta miklum vatnsþunga, hver sitt útfall hafði í Kerlingardalsá, sem flóar fyrir austan Fagradal, hvert jökulhlaup hljóp 49 faðma lengra og hærra upp á það takmark, er nefnist Múli, fyrir austan bæinn á Höfðabrekku, heldur en hin önnur tvö, sem hér næst fyrirfarandi hafa hlaupið, og elztu menn í þessari sveit til vissu frá að segja, hver sífeldur vatnastraumur með stórjöklagangi að iðuglega framflaut, þó með misþungum straum, til mánudagsmorgunsins, sem var sá 5. nóv., féll þá nokkur aska á sunnudaginn, sem var sá 4. nóv., en tók þó ei aldeilis af alla haga. Framruddi svo sá mikli vatnanna stórstraumur flestum stórjökum af aurunum fram í sjó og uppfylti aftur með jökulleiri. Síðan varð nokkuð hlé á á þeim degi vestanvert á aurunum, sem hélt þó sinni fyrri upprás og framgangi austur í kringum Hafursey og þar fram í sjó, svo vitt og langt er tilsást með ákefðar straumrensli. Þetta fyrirskrifað jökulhlaup gjörði ei stórmeira tjón né skaða jörðinni Höfðabrekku en hin önnur fyrirfarandi höfðu áður gjört, heim við sjálfan bæinn, hvar

[1]) Hdrs. Bókmf. nr. 37—8°. Sbr. Hdrs. J, S. nr. 158 fol., 414 og 416—4°.

fyrir menn meintu framvegis óhætt verða mundi, fyrir guðlega tilsjón, mönnum og húsum.

Á þriðjudaginn, sem var sá 6. nóv., framflóaði sami jökulstraumur allan þann dag í samfeldu vatnsflóði, ált fram að þeim fyrskrifaða Múla, fyrir austan bæinn á Höfðabrekku, en norðan það takmark, er kallast Kaplagarðar og svo langt austur sem til mátti sjá af háfjöllum, svo á öllum þeim breiðu aurum var ei einn hóll uppi. En hjá Höfðabrekku var þá ekkert jöklavatn allan þann dag, svo menn meintu það mundi frá hefja,[1]) einkum þeir eldri mennirnir, er nálægir höfðu verið þeim fyrri hlaupunum. Á miðvikudaginn, sem var sá 7. nóv., var kafadögg, sást því ei vel til, en heyrðum þó allan þann dag svo þungan vatnsnið fremur en áður, þá ásýndin var meiri, og á þeim degi hljóp einn lítill straumáll heim fyrir austan og framan bæinn á Höfðabrekku, hvers lítill partur skvettist á kirkjugarðinn, svo þar sást aðeins jökulslitur, nær það afleið, en sá sami straumáll hafði þó svo skaðsamlega verkun utan frá bænum, að hann að vísu yfirgekk fjórðunginn alls túnvallar, flóaði svo þangað sem fiskiskip stóðu, hver að áttu þeir bræður Magnússynir, Hallgrímur, Vigfús og Ísleifur, þeim úr stað fleytandi 77 faðma, náðust svo aftur, fyrir þreifanlegt kraftaverk drottins, óbrotin að mestu tilsýndar; mistu þó frá þeim allar árar, annað stýrið (út í sjó), náðust nokkrar aftur, sumar í sundur brotnar. Aðfaranótt þessa dags var nokkurt hlé á heim við bæinn, svo menn lögðu sig til hvílu móti degi, því þá hvorki sá né heyrðist til nokkurs vatns. En í birtingunni, þann 8. nóv., vaknaði fólkið við vatnsniðinn, hver svo var mikill og strangur, að hann hljóp beggja megin kirkjunnar, brjótandi í fyrsta áhlaupi kirkjunnar standþil, hvert vatn einnig hljóp inn í bæinn, svo undirstokkar huldust með jökulleiri, en vatnið tók í mitt lær, var þá það lausasta tilgripið, er hjálpa mátti, hvað þó ei var fyrir utan háska, meðan flóðið yfirstóð; síðan nær stórstraumurinn þverraði, féll heim aftur til bæjarins svo sem nokkurskonar iðukast vestan úr túnbrekkunni, hvert frákast frá fjallinu ruddi slíkum saur og sandi heim á bæinn, að alt varð jafnslétt, þó hæst fram á aurunum fyrir framan og austan bæinn, af jöklanna iðulegu ásafni, þá leir kæfði kirkj-

[1]) frá hverfa J. Stgr.

una að mestu, en stóð að óskertum viðum, að fráteknu standþilinu framan undir, þó langvarandi straumur hefði í kringum hana flóað, því hún hafði enn frí verið fyrir stórjöklum. Sefaðist svo nokkuð um, nær áleið daginn, svo menn gengu þá svo sem úr öllum skugga, það ei mundi framar granda. Næstkomandi nótt féll svo svart myrkur og öskufall, að ei varð grein á gjörð nokkurri birtu, hvað að yfirstóð lítinn tíma.

Hér eftir, 9. nóvember, var gott veður, vatnalaust að mestu tilsýndar, vildi því fólkið hverfa aftur til bæjarins frá hverjum það hafði áður flúið, og tjaldað yfir sér hærra í fjallabrekkunum og nær það var í þessum umsvifum, heyrðist ómátanlegt vatnsflóð og dynjandi, svo alt þótti í þess aðrensli skjálfa og titra, hvert að miklu strangari og meiri framför hafði, en hin fyrirfarandi nokkurn tíma haft höfðu, og það með þeirri skaðlegri framkvæmd og verkun, að það burtsópaði svo varla varð eftir lítið af kirkjunni, sem áður var leirkafin, öllum bænum þvert ígegnum, svo þar sá ei stein yfir öðrum eftir standa, svo sem þar hefði aldrei hús nokkurntíma staðið, veggir eða bygging, að fráteknu baðstofuhúsi, hvert að átti Vigfús Magnússon og tveir partar baðstofunnar Ísleifs. En þessi eftirskrifuð hús misti Ísleifur: 3 skemmur, alt með góðum greniviðum uppgjörðar, stofu alþiljaða með borði og bekkjum, anddyrnar með 2 loftum, skála undir sama formi með rúmstokkum og viðum. En Vigfús þessi misti hússkálann í sama máta, stofu vel sterka, eina skemmu, stafngólf af annari; hver vatnsstraumur svo hátt upp gekk, að hann og einnig til heygarðsins og fjóssins náði, en þó fyrir utan stóran skaða, misti Ísleifur í sínum húsum mikinn part sinna búshluta, æta og óæta, olli því mest, að menn duldust við, að ei mundi að bænum ganga til skaða. Í móti öllum vana og líkindum framrann svo sá straumur allan þann dag, þó sefun nokkur yrði á jökulhlaupinu. Stóð svo í kyrð þann 10. og 11. nóvembris hér nálægt, þó hið sama sé að heyra úr jöklinum um stórdynkina, hljóðlætin í loftinu með þrásömum jarðskjálftum.

Þann 12. nóv. kom enn fram fyrir austan Höfðabrekku, nær því í mesta lagi sem áður hafði framflóað, jöklahlaup með vatninu, gjörði þó ei meiri skaðaverkun en hin, því það hélt sér nokkurnveginn í farvegnum. Jörð hér nálægt

jöklinum spillingu undirorpin og lögð, sökum öskuduftsins, meina menn það þó meira í Tungunni, hvaðan ei hefir kunnað að fréttast sökum torfæru á aurunum og líklegt má sýnast af fyrirskrifuðu. Enn eitt skal þó allra furðanlegast þykja, sjórinn hefur svo mikillega undan látið, að varla er trúanlegt, utan ásýndarmönnum, þessu jöklanna áhlaupi, svo mikið sem það hér i nánd hefir tilnáð, að þar sem fiskiskip sátu á sjó 20 faðma djúp, er nú orðinn þur fjörusandur. Þetta stóra jöklahlaup hefir og stóran skaða gjört í sömu sveit þeirri jörðu Höfða að nafni, svo varla eður ei mun byggjast. Þetta sama hlaup gekk hátt og lágt yfir sveitina Álftaver þann 3. nóv., grandaði engum mönnum fyrir dásemd drottins, en peningamissir varð nokkur, og þessar fjórar jarðir, sem heita: Hraunbær, Skálabær, Sauðhúsnes og Hraungerði nær því eyddar að túnum og engjum, einnig sjálfur staðurinn Þykkvabæjarklaustur mjög spjallaður.

Þetta hefi eg samanskrifað, svo hið sanna vita mættu þeir það girnast, og þeir þakki guði fyrir liðunarsama þolinmæði drottins framkomna við mennina hér í nálægð, biðji einnig drottinn að ei oss straffi í sinni reiði, heldur náð sýni eftir miskun sinni, hvers aðstoð góðfús lesari sé bífalaður í Jesú nafni.

Kerlingardal 12. nóvember[1]). anno 1660.

Jón Salómonsson.

*Viðbætir Jóns prófasts Steingrímssonar við rit síra Jóns Salómonssonar um hlaupið 1660.*[2])

Framar er þetta í frásögn að færa, að bygðin á áminstum kirkjustað Höfðabrekku, fram undan fjallinu, lagðist öldungis af, þar alt tún, engjar og hagar, sem þar var, tók af svo hörmulega, að þar verður aldrei framar grasland eða bygð til veraldarinnar enda. Hinar 4 jarðirnar eyðilögðust fáein ár og komust svo aftur í stand. Höfðabrekka tapaði og sínu útræði, sem var við svokallaðan Skiphellir, eru nú þaðan mörg þúsund tals(!) til sjós og ekkert útræði, alt það pláss er yfirkafið með vikur, sandi, leir, bleytulónum og aurpyttum, svo þó þar hafi vaxið við lægðir nokkur melstrá, hafa

[1]) Sum hdr. 17. nóv.

[2]) Hdrs. J. S. nr. 158 fol.

jökulhlaupin tekið þær grastegundir jafnótt af aftur og þar svo stórt og gott land afnumið með öllum sínum herlegheitum, að kýr og kvikfénaður gat þar ei svo mikill forsorgast á heyskap og högum sem áður, hlaut hann að fækkast og svo minni á setjast. En svo sem hin síðari hlaupin juku ennþá meir á þeirrar jarðar landnám, þá læt eg bíða að segja hér frá, hvernig um fækkun kirkjukúgildanna hefur tilgengið, sem finnast skal síðar á sínum stað. Nýr bær var bygður rétt uppá brekkunni, þar sá gamli bær hafði niður undir staðið og ný kirkja fyrir framan bæjarröðina, voru þar áður harðlendis hagar. Ekkert fylgir þar nú af orna- eða instrumentis kirkjunni, sem hin fyrri kirkja átti, fyrir utan klukkurnar, sem presturinn, síra Jón Salómonsson, þreif og bar burt, þá kirkjuna aftók. Hafði hann ætlað meiru að ná, en að vörmu spori mátti hann og nálæg sóknarbörn hans horfa þar á með stórum trega, að jökulhlaupið fór undir kirkiunnar grundvöll og spenti hana svo útá sjó, hvar hún hafði síðast af öllum húsunum, er burt sópuðust, sundurgliðnað, eftir því sem trúverðugir afkomendur eignarmannanna, er þar uppá horfðu, mér fortalið hafa. Þá tókst og af mikinn part útræðið við Víkurklett. Milli Áskvíkur og Krukkshellis (hvar inni dunar eitt vatnsfall, sem framar sézt ei), heita Skorbeinsflúðir, alt undir þau björg hafði sjór gengið fyrir áminst hlaup, með þvílíku aðdýpi, að þar sátu skip til fiskidráttar, hvar nú er almenningsgata, sem margir trúverðugir menn hafa sagt mér, af hverjum tveir enn lifa, á áttræðis aldri, sem töluðu við þann mann, sem hét Jón að auknefni karl, er sagðist þar hafa dregið stórflyðrur austanvert við skerið, er nú stendur upp úr sandinum fyrir framan flúðirnar, en nú er þaðan mörg hundruð faðmar til sjós einbera sandur, sem meir og meir er að aukast. Víða annarstaðar hefur og sandfall þessa hlaups skaða gjört, það sýnir lögþingisbókin 1661, hver póstur hennar hér færist orðrétt inn, sem eftir fylgir: »Anno 1661, þann 3. júlí, komu þeir bræður Hákon og Magnús Þorsteinssynir í lögréttu á Öxarárþingi og báðu erlegan og velaktaðan landsfógeta Johann Pedersen Kleyn um vægð á klausturpeningi að heimabúinu að Þykkvabæjar klaustri, vegna þess eldgangs og öskufalls, sem féllu á lönd og eign klaustursins anno 1660 og 1661, því þar var full nauðsyn til vegna grasleysis, hvar uppá lögmaður Árni og

nærverandi lögréttumenn svöruðu, að nauðsyn mundi til draga. Því leyfði erlegur og velaktaður Jóhann Pétursson Kleyn, að $^1/_3$ af heimabúinu af kúnum mætti leysast með geldum nautum og rekast til Bessastaða og vera þar komin innan þriggja vikna frá þessum tíma, svo það mætti á sínum tíma færast kongl. Majest. til reikningsskapar.« Hér af sézt, að eldgangurinn úr Kötlugjá hefur viðvarað lengur, en næst fyrirfarandi skrif prestsins, síra Jóns Salómonssonar, sýnir, nefnilega fram á hið annað árið. Hér af kom það, að á hinu 3. ári þarfrá ɔ: 1662 framkemur umkvörtun vegna sama eldgangs og öskufalls, hvar fyrir lögmanna- og lögréttumanna dómur og ályktan fellur þannig, sem alþingisbókin sama árs Num. 10 með sér ber: »Um ábyrgð leiguliða á hálfum kóngs kúgildum, er var með Þykkvabæjar klausturs jörðum, sem fórst af sandfalli og jökulhlaupi, virðist lögmönnum og nærverandi lögréttmönnum, að þessi grein og tilfelli ætti heima í Kaupab. 16. cap. þar frá skilur, að leiguliði skuli ekki ábyrgjast fyrir lýstr reið, hvert mönnum þykir jafngilt við skriður, jökulhlaup eða eldgang, sem svo fordjarfar bæði heimili manna og peninga, svo maður sé þar frá.«

---

## IV. SKÝRSLUR UM KÖTLUHLAUPIÐ 1721.

1. *Skýrsla Þórðar Þorleifssonar og Erlendar Gunnarssonar klausturhaldara.*[1])

Anno 1721, þann 11. maí-mánaðar, kl. 9 f. m., kom svo mikill jarðskjálfti, að á sumum bæjum í Mýrdal voru menn ei óhræddir í húsum vera, við hvern jarðskjálfta einnig vart varð á Síðu undir Eyjafjöllum og í Fljótshlíð,[2]) hverir næstu viku þar eftir jafnlega voru, en viðhéldust að öðruhverju til miðsumars. Á sama degi kl. 1 e. m. heyrðust miklir dynkir með stórbrestum, hverjum að fylgdi ógnarlegur eldgangur með mökk og svælu, sem uppkom í jöklinum norður af Höfðabrekku, úr Kötlugjá, hver jökull liggur austur til Skaftártungu og að Markarfljóti, fyrir ofan Mýrdals- og Eyjafjallahrepp. Kl. 2 kom krapavatnshlaup hastarlega framrennandi með nokkrum jökum að stærð viðlíkt smáeyjum í sæ. Þetta vatn huldi alla aura og sand frá Höfðabrekkufjöllum að Hjörleifshöfða og til Hafurseyjar, en hvað langt það vatnshlaup austur eftir sandinum náði, sást ei vegna svælu, sem af því vatni lagði. En í suðaustur af jöklinum, fyrir austan Hafursey, hljóp svo nær um þennan tíma vatn með jökum fram á sandinn og austur í Skaftártunguvötn, hvert skaða gjörði graslendi í Loðinsvíkum og annarstaðar, samt Þykkvabæjarklaustri og þeim jörðum, sem slægju- og hagbeitarland áttu við Kúðafljót og Landbrotsá, um hvað þingakt tekinn var 1721.

---

[1]) Hdrs. Bókmf. Kmhöfn. nr. 37—8°. Margar afskriftir í hdrs. J. S. og víðar.

[2]) Í eldriti Markúsar Loptssonar (bls. 25) segir að jarðskjálftar þessir hafi fundist austur í Lón og vestur í Rangárvelli.

Kl. 3 kom hlaupið sjálft með viðlíkt hraðri ferð sem kaupskip með hægum byr og fór svo langt út í sjóinn, að af hæstu fjöllum sást eigi út fyrir þenna ís, þar til af honum að framan losnaði, sem vestur með landinu færðist, alt að Reykjaness-röst á Suðurnesjum, og sást á ferð um nokkra daga, en svo langt var hann í hafið, að sumtíðis sáu menn hvergi til sjávar. Sá jökull, sem eftir var fastur, meinast í sjónum botn hafa staðið, að vísu 3 vikur sjávar frá því sem áður var land, og er sú meining um kunnugra dánumanna, að hér muni 100 faðma djúp, þar hann kyr stóð, líkt háu eldbruna hraunkletta fjalli, sem náði þaðan og norður fyrir Hafursey, í þann stóra fasta jökul, hvaðan þessar ógnir úrkoma, gekk og hlaupið jafnhátt Höfðabrekkufjalli og tók af alt grasland upp undir hamra, að fráteknu litlu plássi í Núpum austan, sömuleiðis alt haglendi um Nyrðrisund og Glámshvamma, mikinn part af Selfjalli og allan Seldal. Það sama jökulhlaup hljóp út með Skiphellisnefi og alt út fyrir Skorbeinsflúðir, fyrir austan Víkurklett. En sjávarflóðið, sem frá jöklinum rann, þegar hann í sjóinn kom, fór að Víkurbæ og spilti þar bæði túnum og engjum, tók einnig skipin, teinæring og áttæring, undir Víkurkletti og braut þau til stórra skemda, en þeir menn, sem skipunum bjarga ætluðu, komust í mikla lífshættu; þessi sjávarólga eður fylling, gekk yfir fjörur hér í Mýrdal og undir Eyjafjöllum, niður braut hjalla í Vestmannaeyjum, svo flestir menn þar mistu það lýsi, sem áttu; það gekk einnig uppá land í Þorlákshöfn og Grindavík. Þann 12. maí, svonær kl. 7 um morguninn, kom stórt vatnshlaup með íshrafli, sem yfir gekk allan þennan fyrnefnda háa jökul, svo langt í haf sem tilsást; það gjörði stóra farvegi í jökulinn, hverjir af umreisendum hafa síðan fyrir veg lagðir verið með stórri hættu og skaðavon, ei alleinasta vegna ótraustleika jökulsins af gjám og sprungum, heldur vatns og bleytu, hvert sumtíðir er líkt sjávarboðum. Meirgreint vatnshlaup gekk inn úr Sundum og færði jökulinn svo nær undir Kerlingardalsbæ, af hverju Kerlingardalsá uppstíflaðist, svo hún enga framrás hafði 20 dægur, hvaraf bænum varð ei óhætt, þar til það framrás náði undir jöklinum. Þetta hlaup færði einninn inn fyrir bæinn Fagradal þá miklu klettaurð, sem var fyrir framan Skiphellir. Sömuleiðis hefir jökulhlaupið burttekið einn drang, sem stóð nærri Hjörleifshöfða, að vísu tvítugan að hæð og

annað eins ummáls. Þann grasvaxna háls, sem lá milli Seldals og Léreftshöfuðs, hefir jökulhlaupið allan burttekið, víst stórt hundrað faðmar í jörð, niður að stóru hellubjargi, sem var aldeilis sprungulaust, og svo slétt sem heflað tré, í því eru þó nokkrir steinkatlar; það er að vídd, sem til þess sést, ei minna en 4 kýrfóðurs vellir. Úr bæjardyrunum á Höfðabrekku sást upp fyrir kirkjuna þetta margnefnt vatnshlaup, en fyrir neðan kirkjuna og bæinn voru þó háir hamrar og svo grasbrekkur, niður til sléttlendis. Það tók af bæinn Hjörleifshöfða með mestallri eigu ábúandans, sem þar var inni, sömuleiðis fjósið og allan nautpening (tals 6), þar var þá ei heima utan ein kona með hálfárs gömlu barni og unglingspilti, sem flúðu í hellisskúta sínu lífi að bjarga.[1]) Konunnar ektamaður var við kirkju á Höfðabrekku, þegar jökulhlaupið fyrst kom og sá upp á allar þessar ógnir.

Að lögfastir, ærlegir menn hafi svo frá sagt, sem fyr skrifað stendur, vitnum við undirskrifaðir, að Höfðabrekku, þann 28. júní, annó 1722.

| | |
|---|---|
| Þórður Þorleifsson.<br>Kirkjubæjar<br>klausturhaldari. | Erlendur Gunnarsson.<br>Þykkvabæjar<br>klausturhaldari. |

Þýðing þessarar ritgjörðar á dönsku, þó með dálitlum breytingum var prentuð í Kaupmannahöfn 1726, tvö blöð í 4°: »Fuldkommen Relation om det forskrekkelige Vandfald og Exundation af det Bierg Kotlugiaa, Østen paa Island, som skeede 1721. Efter tvende troeværdige Closterholderes Beretning paa Lands-Tinget 1725, forfærdiget. Kjøbenhavn. Trykt udi Hans Kongelige Majestets privilegerede Bogtrykkerie 1726.«

---

[1]) Um eyðing Hjörleifshöfða eru ítarlegri sagnir í eldriti Markúsar Loptssonar bls. 27—29, en annars er skýrsla þessi þar töluvert afbökuð.

*2. Frásögn um það annálsverða, stóra og nær því makalausa Kötlugjárhlaup, sem út brauzt í Maí 1721.*[1])

Árið 1721, þann 11ta Maii, að liðinni messu, sást í Skálholti uppkoma stór svartur mökkur úr Kötlugjá í Mýrdalsjökli, sami mökkur sást strax um morguninn austur í Skaftafellssýslu, á Geirlandi á Síðu, hann sást alt austur í Öræfi, hverjum um sama dags kvöld fylgdu eldingar með hræðilegum dynkjum og framhlaupi jökulsins, sem þá strax framhljóp fyrsta sinn með ógnarlegum vatnsgangi.

Þann 12ta bjart veður, með litlu öskufalli og eins um næstu nótt. Þann 13da, nær miðjum morgni en dagmálum, sló yfir þvilíku myrkri, að fólk í Skálholtssveitum mundi eigi annað þvilíkt, og morgunsöngur i Skálholti var haldinn við ljós. Þó gengu aldrei meiri stórbrestir heldur en meðan þetta svarta myrkur yfirstóð, sem varaði alt til hádegis, og ef maður rétti höndina út um dyr eða glugga, þurfti hann litla stund að halda henni áður hún fyltist af ösku; sama dags kvöld var sandur í Biskupstungum á sléttlendi sauðum upp yfir lágklaufir, en fyrir austan Hvítá hestum upp yfir hófskegg (þetta eftir sögn síra Jóns Þorlákssonar, sóknarprests að Sandfelli og Hofi i Öræfum[2]), sem þá var skólapiltur i Skálholti). Sama dag var svo mikið myrkur i Fljótshlið, að Sgr. Brynjúlfur Þórðarson Thorlacius og hans sóknarprestur sira Benedikt Jacobsson urðu að haldast i hendur, og taka sér stefnu úr karldyrum á Hlíðarenda útí kirkjuna og þaðan inn aftur i staðinn.

Þann dag var þingað á Saurbæ á Hvalfjarðarströnd og urðu menn að kveikja ljós um hádegisbil til að skrifa við þar i kirkjunni, þetta hafa sagt mér sóknarprestur þar, sira Torfi Hannesson og hans kona Mad^me Elin Jónsdóttir.

Nefndan 13da Maii var eg á sjó frá Útskálum i Garði suður, þá var þar svo myrkt um hádegi, að menn efuðust um að finna rétta leið til lands af grynnstu fiskimiðum, alda var þá nokkur, sýndist hún svo bólgin og há, sem hæstu fjöll

---

[1]) Handritasafn Bókmentafélagsins í Kmhöfn. nr. 47—8°. bls. 126—137.

[2]) Síra Jón Þorláksson vígðist til Sandfells 1723 og fluttist þaðan 1732 að Hólmum í Reyðarfirði.

vegna myrkurs um miðjan dag. Ef menn héldu ei saman munninum, þá varð hann því nær hálffullur með sand og ösku; þegar við komum í land um miðaftan, var sporrækt á jörðu af sandinum; blautur fiskur, sem upp hafði verið breiddur um morguninn, var svo salti dreifður af öskunni og náði aldrei sínum rétta lit aftur, og naumast sá harði sem í hlöðunum stóð og öskufallið hafði tilnáð.

Undir túngarðinum á Nesi á Seltjarnarnesi fanst eftir öskufallið útbrunninn steinn á vöxt við hálfgildis viðurhaldsstein, hann var færður Amtm. Fuhrmann sem fáséður.

Vorið sama, síðar, réri eg oft vestur á svið, sást nær daglega brent grjót eða vikursteinar, er flaut á sjónum hrönnum saman, eftir því straumur og vindur hröktu það. —

Runólfur Jónsson, búandi í Höfðabrekku í Mýrdal, óskjalsamur og frómur maður, sagði, að hlaup þetta hefði komið í þrennu lagi, og þegar þau 2 fyrstu voru undan gengin, en svo sem stíflað fyrir það þriðja, hafi vatnsgangurinn orðið svo mikill, að þegar hann stóð við bæjardyr sínar, hafi séð vatnsgusurnar á sandinum bera svo við, sem þær væru svo háar sem kirkjumænirinn eða jafnvel yfir hann ganga. Nú vita kunnugir hversu hátt bærinn stendur, þó er fjallið fyrir framan túngilið miklu hærra og í móti þeirri fjallsöxl steytti hlaupið og tók þaðan með sér 5 stórbjörg, á stærð við svo kölluð Grettistök, sem það setti vestur fyrir fjallið og inní mynnið á Kerlingardalsá, sem lágu þar ofan á jökuldyngjunni. Rétt niður undan nefndu fjalli var, áður en hlaupið kom, stór hellir, kallaður Skipahellir (því menn byrgðu þar inni skip sín), hann tilluktist í hlaupinu, svo það lá upp yfir hann langt upp í fjall, og þar inni misti nefndur bóndi viðu, er hann ætlaði kirkjunni til endurbótar. Hlaupið tók af Hjörleifshöfða (Þykkvabæjarklaustursjörð), þar stóðu fyrir hlaupinu stórir, grundfastir drangar, bæði við norðurhornið á höfðanum, og einn langtum hærri, sem stóð svo nær sem undir miðjum höfðanum, vestan til úr þessum fremsta dranga hafði komið afturkast, þegar hlaupið rakst á hann, og þetta afturkast tók bæinn, en einn af nyrstu dröngunum segjast menn ei séð hafa síðan og meina því, að hlaupið hafi hann sundur brotið. Enginn maður á bænum dó í hlaupinu, því fólkið gat flúið upp á höfðann, áður en hlaupið kom, og fékk sér þar borgið, unz því kom hjálp frá Álftaveri, eftir að það hafði

gefið teikn frá sér, að það væri lífs, og varð því svo með erfiðismunum lifandi burt komið, en misti þó aleigu sína kvika og dauða; sá þar bjó hét Ólafur Ólafsson.

Hlaupið klaufst um Hafursey, fór nokkuð austur á við, þó engan veginn svo mikið sem hið vestara, því það eystra var mest vatn og nokkrir jakar og sandur, sem ei gjörði stóran skaða, nema nokkuð á Þykkvabæjarklaustursengjum, þó hefur vatnsgangur ærið mikill verið, því stórir vatnsfarvegir sáust víða á sandinum milli Hafurseyjar og Loðinsvíkna, líka sáust stórar sandrákir á framhlaupna jöklinum, sem austurhlaupið eftir skildi.

Nokkrir menn á ferð úr Mýrdal voru á sandinum austarlega, þegar hlaupið kom að ofan, svo það hafði því nær náð þeim, en þeir flýttu sér sem þeir kunnu undan því. Þegar þeir komu að Hólmsá sem rennur næst Skaftártungu, var komin stífla í hana af jökum, svo hún hafði verið að mestu þur fyrir neðan, en strax sem þeir voru yfir hana komnir, kom mikill vatnsþungi að ofan, sem burt spýtti þeirri stíflu og gjörði ána ófæra, en guð hélt þreifanlegri verndarhendi yfir þeim þann dag.

Það hefur Runólfur á Höfðabrekku sagt og margir fleiri úr Mýrdal, að tanginn af jökulhlaupinu hafi í fyrstunni staðið grunn á dýpstu fiskileitum (70—80 faðma), en síðan hefur brim spýtt honum nokkuð, en þó hvergi nærri svo, að hann sje orðinn landfastur til að jafna þar sem fjaran var til forna, því á milli tangans á honum og Reynisfjalls er orðin vík, hann hljóp langt vestur með hömrunum þar og vatns og sjóargangur, sem undir honum fór, tók burt nokkra sauði, sem voru í Víkurtúni, og skipum sínum, er þar lágu á sandinum, fengu menn með naumindum bjargað.

Fyrir mynnið á Kerlingardalsá hljóp þetta hlaup og uppstíflaði hana, svo ósinn á henni komst upp undir Kerlingardalsártún og upp eftir túngilinu fyrir aftan bæinn, þangað til áin gróf sig undir um síðir og náði framrás undir hlaupinu, annars hefði verið hætt við, að sá bær hefði eyðilagst. Runólfur áðurnefndur hefur sagt, að þetta jökulhlaup hafi þrengt sér inn í hverja bjargskoru, þar sem til náði, alt eins og heitu tini hefði verið steypt. Uppá Kaplagarða (svo heitir þar sem vegurinn var til forna neðan af sandinum heim að Höfðabrekku), hafði hlaupið stigið 25 snið(?) hátt áður en það

sjatnaði aftur, þar klifruðust menn uppá um sumarið eftir, og hafa klifrað síðan til þessa, því hinir vegirnir fyrir Núpa og fyrir framan Glámshvamma tókust öldungis af, ferðast menn þetta oft með stærsta lífsfári og ferðast margir heldur fyrir norðan Eyjafjallajökul, einkum á sumardag, heldur en voga lífi sínu og farangri yfir ófæru þessa, er versnar æ meir og meir, því alment er haldið að þessi framhlaup á jökuldyngjuna, muni seint eða jafnvel aldrei í núlifandi manna tíð af sandinum eyðast.

Runólfur oftnefndur í Höfðabrekku hefur sagt, að sama sumar sem jökullinn hljóp fram, hafi bæði hann og fleiri menn orðið varir við 3 stór vatnsföll koma fram undan jökulhlaupinu við sjóinn auk þeirra 4ra sem ofan á hlaupinu renna; þetta held eg satt vera, því eg fór austur yfir að liðnu alþingi sama sumar með þingmönnum úr Skaftafellssýslu, þá riðum við yfir eitt af þessum vötnum (það vestasta), sem var skelfilegt yfirferðar, helzt í þann máta, að fyrir utan vatnsdýptina, sem þó náði í hnakkskinn, heyrðum við skurka í jöklinum undir hestafótunum, og sáum fyrir neðan okkur til hægri handar vatnið dragast niður svo sem í einum svelg eða gyro, hvar af auðráðið er, að þar var holt undir, og jökullinn ei grunnfastur, en hvort vötnin, sem þar runnu ofan á, hafa hlaupið niður einhversstaðar framar og komið svo upp aftur fyr en fram undan hlaupinu við sjóinn, eða það hafa verið önnur vötn, sem hafa runnið undir jökulhlaupinu, ofan frá fasta jöklinum og fram í sjó, þar um vil eg eigi margt dæma, annars ef sönn er sú sögn, sem sama sumar var höfð eftir Dönskum á Eyrarbakka, að þegar þeir sigldu utan með landinu og voru rétt fram undan hlaupsins tanga, hafi þeir orðið varir við nýkomna röst þar í sjónum — þá styrkir það sögn Runólfs og annara. Ekki hafa þeir Dönsku sagt mér þetta, en bæði síra Högni Bjarnason á Ásum í Skaftártungu og aðrir fleiri hafa haft það eftir þeim.

Mikil auðn varð í jökulinn, svo menn sjá nú skírlega í svarta hamra eða fjall, þar sem gamlir menn segja, að jökli hafi verið þakið í yfir 100 ár og áður hafði verið reka eða fjörumark, svo að lá við þrætu milli fjörueigendanna, síðan það af tókst. Eldurinn sást uppi öðru hverju alt fram undir haust í stóra jöklinum, eg sá hann tveim sinnum á sama áliðnu sumri austur í Öræfum, á meðan eg var þar, en þaðan

fór eg ei fyr en þann 10da Október, þá komu ei fleiri hlaup en þau, sem áður er áminst, en hræddir hafa menn verið fyrir fleirum, helst vegna þess, að fjallgöngumenn hafa sjeð 2 uppstífluð stór vötn milli Hafurseyjar og Glámshvamma, og hafa menn því jafnan vænt eftir þeirra útbroti, nema þau hafi eyðst við sífeldan vatnsþunga, sem ofan á jökulhlaupinu rennur, og kannske líka við undirrenslið, sem áður er getið.

Það barst úr Vestmannaeyjum, að þegar þetta hlaup kom í sjóinn, hafi þar orðið svo mikill sjólandgangur, að einn hjallur eða búð við sjóinn hafi útskolast, og með sama 14 lýsistunnur, sem þar inni stóðu, og umboðsmanninum tilheyrðu. Líka var sagt frá Þorlákshöfn, að menn hefðu verið þar nýkomnir af sjó sama dag, og viðbúnir að ganga frá skipum sínum, en verið að skifta fiskiaflanum, á meðan þeir voru að því, hafi þar komið svo mikið sog, að fiskiaflinn hafi burt sogast, því þeir urðu að bjarga skipum sínum; hvorutveggja þetta má virðast skrumblandað, og næsta ótrúlegt, þó er það alsagt fyrir satt, og vildi eg því líka láta það hér með fylgja, svo eg týni til alt, sem eg hefi heyrt og veit nokkur rök viðvikjandi þessum undrum.

Fram undan Selvogi komust jakarnir úr þessu hlaupi. Að síðustu vil eg minnast á, að sama sumar og þetta jökulhlaup frambrauzt, rak 7 stórhvali í Múlasýslu, og fiskimenn þar höfðu sagt sig séð hafa fleiri dauða hvalfiska í sjónum, hvar af sumir draga þær líkur að hlaupið muni hafa nefnda hvalfiska drepið; hér um læt eg hvern einn í sinni meiningu sjálfráðan, en mín einföld er þessi, að mér sýnist ólíklegt, að þó þetta áðurnefnda hlaup hafi kunnað að drepa nokkra hvalfiska, að þeir skyldu endilega framar hafa rekið eða flotið dauðir í sjónum í Múlasýslu austast í landinu, heldur enn nærlendis á báðar síður hlaupsins, svo sem í Skaftafells-, Rangárvalla- og Árnessýslum, hvar þó ei varð vart við þá, það ár. Má því líklegra sýnast, að annaðhvort hafi hafís nefnda hvali drepið, eða að hvalfangarar hafi mist þeirra.

Fleira markverðugt, sem eg hefi heyrt eða séð um hlaups þessa verkun, minnist eg ekki, og verður því á þessari einfaldlegu frásögn hér að verða endi. Það var undarlegt og ósiðvanlegt um þetta hlaup, að það brauzt ekki út úr fremstu brún jökulsins, sem önnur jökulhlaup gjöra, og gamlir

menn segja þetta fyrra hafi gjört, sem kom úr þessum jökli og þá aftók Höfðabrekku, heldur spýttist þetta úr miðjum jöklinum.

*3. Viðbætir Sigurðar Stefánssonar sýslumanns um hlaupin 1660 og 1721.*[1])

1660, þá jökullinn hljóp, voru tveir menn í Hafursey, hverjir að sögðu, að jökulvatn hefði gengið fram úr skarði því, sem er á eynni, ɔ: milli Skálarfjallsins og megineyjarinnar af þeirri ógna stíflu, sem vorðið hafði fyrir austan hana.

1721 þá voru köntuð tré í Skiphellir fyrir neðan Höfðabrekkuháls, sem áttu að fara til Höfðabrekkukirkju, þeim sópaði hlaupið burtu. Nokkur af þeim ráku upp aftur í Seilutjörn, nærri Bessastöðum, kóngsgarði á Álftanesi. Það sá eg að stórjakar höfðu af þessu hlaupi farið inn í Ölvesár útfall og rekið alt að Hamarenda, fyrir sunnan Hraun í Ölvesi. Um hlauptímann stóð vindur af suðri og stundum lítið af landsuðri, dreif því ösku og eldmökkinn bak við Eyjafjallajökul og norðan Fljótshlíð og Þríhyrning um Heklufjöll og þessvegna mest í óbygðir milli sunnan og norðanlands. Lítið öskufall dreif eitt sinn þversum og út á Selvogsheiði; aska hafði og nokkur komið norðarlega í Borgarfirði og norðanlands hafði einnig mikið myrkur yfir komið, því það sagði mér Benedikt Þorsteinsson lögmaður (er sat á Rauðaskriðu í Þingeyjarsýslu) á alþingi, að hann hefði um hádegi dags sökum öskufallsins hlotið að láta tendra ljós inni í húsum. Þegar þetta ógnarhlaup skeði, héldu Þykkvabæjarklaustur sýslumaður Bjarni Nicolásson og Jón Ísleifsson. Þessi 2 jökulhlaup, nefnilega 1660 og 1721, fordjörfuðu svo og eyðilögðu ei alleinasta öll tún og engjar þeirrar kostagóðu Höfðabrekku, einsog áður er sagt, með öðru fleira, sem þar greinir, heldur burtnumdu þau í grunn víst 2 pörtum og því mun meir hagbeitarlandsins að norðan, austan og framanverðu, sem sjá og ráða má þaraf, að enn viðvarandi fjörumarkareikningur að framan segir, að Höfðabrekka eigi gjörvalt land fyrir ofan þau, úr fullu suðri norður til Moldheiðar vestan, sem liggur

---

[1]) Hdrs. J. S. 158 fol.

til útnorðurs af Hafursey, framan undan falljöklinum, og útgjörir fyrir víst 2 hluta sléttlendis milli Hjörleifshöfða og svokallaðra Kaplagarða, hvar af það kom, að eigi gat forsorgast á þeirri jörð, hvorki á högum né heybjörg, langt frá svo margar skepnur sem áður. Svo sem hlaupið 1660 féll yfir á öndverðum vetri og burttók æta og óæta hluti, er bræðurnir Ísleifur og Vigfús Magnússynir áttu í húsum sínum, og þau mestan part með, urðu þeir með prestinum, síra Jóni Salómonssyni og öllu sínu fólki þaðan að flýja, viku þeir til bróður síns Hallgríms, sem þann tíð bjó einn á öllum Kerlingardal (svo fer mannskap og eignum aftur, að nú hokra þar við 4 bændur). Tók hann vel við þeim og öllum varnaði þeirra; voru þeir þann vetur og svo lengi, þar til hús gátu aftur uppbygt handa sér uppá brúninni, þar bærinn nú stendur. Svo góður og mikill var heyskapur, sem jörðinni Höfðabrekku fylgdi fyrir þetta hlaup, að annar bræðranna hafði 13, hinn 14 kýr á fóðri, naut, lömb og hesta að auki. En það verkuðu þessi tvö hlaup, ásamt það sem eftir þau kom 1755, að í meðalári til nota forsorgast ei á þessari jörð meir en 9 kýr og lömb að því skapi.

Gísla Jónssonar biskups máldagi segir 1575, að Höfðabrekkukirkja eigi 8 kýr, 40 ásauðar og 2 hdr. í köplum, fastagóss 100 hdr., garðurinn alls 1 hdr. hundraða, 4 hdr., hefur þvílíkur dýrleiki og innstæðufjöldi minkað og aftekist auðráðanlega annaðhvort í hlaupinu 1580 eða 1625, því að eftir hlaupið 1660 finst skrifað af Einari Þorsteinssyni, sem hér var sýslumaður, hafi jörðina niðursett til 80 hdr., en Mag. Brynjólfur biskup Sveinsson samþykkir á almennu prestamóti á Þíngvöllum, 1. júlí 1663, að jörðin skuli þá vera að dýrleika 40 hdr. og kirkjukúgildi 11. Við hverja gjörð og samþykt bleif, þar til hlaupið 1721, 11. maí yfirdundi, sem var svo ógnarlega mikið, að jökullinn, sem fram flaut, sást upp yfir kirkjuna frá bænum og að sjá til Hjörleifshöfða varð mann að fara uppá Hákolla, eitt fjall í landnorður frá Höfðabrekku, fyrir víst 2 hundruð faðma hátt, en beinn vegur ei minni til höfðans, en með hraðri ferð verður riðinn heila stund dags, ef ei meir. Það heyskapar og hagapláss, sem fyrra hlaupið 1660 eftirskildi framan og neðan undir ásamt selstöðunni með öllu því kostgóða landi og skógi, sem var norðan undir svo kölluðu Selfjalli, rótaði þetta hlaup burt í botn og

grunn, sem aldrei framar endurbætist. Þetta hlaup eyðilagði svo land og eigur Höfðabrekkubóndans og eigandans, Runólfs sál. Jónssonar, sem var sérlega góðfrægur og atorkusamur maður á sinni tíð, faðir Msr. Jóns, sem þar býr nú, að hann vildi gefa sig aldeilis og fyrir ekkert frá þessari óðalsjörð sinni, með því skilyrði, að sá sem jörðina aftur tæki, héldi því, er hann og hinir fyrri eigendur hefðu uppá kirkjuna og garðinn kostað, við góða hefð og makt, og gjaldi prestinum hálfar leigur eftir kirkjukúgildin. Að hverju tilboði enginn vildi ganga, hvorki hér á þingum í héraði né á alþingi. Síst vildi Niels Fuhrmann, sem þá var amtmaður það eftir láta, þó varð það af, að Mag. Jón Árnason, ætíð réttsýnn og nærgætinn herra, sem sá, hversu óbætanlegan skaða eignarmenn Höfðabrekku höfðu af greindum jökulhlaupum liðið og hversu þeir höfðu heiðarlega uppá sinn eigin kostnað kirkjuna að nýju bygt og til hennar keypt skrúða og sérhvað hún með þurfti og ekkert getað þar fyrir uppborið, lét hann velnefndum Runólfi eftir, að vera kvittan fyrir allan þann kostnað við hálf kirkjunnar kúgildi, að ei skyldi framar jörðinni fylgja nema $5^1/_2$ kirkjukúgildi, en presturinn skyldi þó árlega uppbera 11 fjórðunga smjörs, hvað undirgengist var fyrir alda og óborna eigendur jarðarinnar, er síðan hefir viðhaldist til þessa tíma, á hverjum nýr ágreiningur er farinn að uppkoma með oftnefnd kirkjukúgildi. Nú þar jörðin tók litilli forbetrun en uppblés og eyddist að því, sem eftir varð, gaf amtmaður Joachim Hinrechsson Lafrenz út orður, at setja bóndaeignina niður, 1743, sem sýslumaður Bjarni Niculásson gjörði, að í staðinn fyrir 40 hdr. skyldi hún, jörðin Höfðabrekka, metast, seljast og kaupast fyrir 25 hdr.; kirkjuhlutinn skyldi og eftir tiltölu kortast. Að hálsinn, sem nú er slægjuland frá Höfðabrekku og þeirrar jarðar eign, en hefur þó til forna fylgt Kerlingardal, og er innan þeirrar jarðar landamerkja, til forna hafi verið vegna jökulhlaupa lagður til Höfðabrekku, verður ei svo eg viti satt gjört, né heldur að 9 faðma engi hafi af þeim eyðilagst á aurnum undan jörðunni Kerlingardal með fleira þess háttar, eru tóm munnmæli, sem hér hjá mér leiði. Þau 2 stóru björg, sem standa á sandinum fyrir framan Skorrbeinsflúðir, bar þangað þetta hlaup 1721, voru þau þar eftir nokkur ár laust fyrir ofan flæðarmál sjávarins, en nú eru þau langt ofar en á miðjum sandi. Það aftók bæ þann

og bygð, sem er vestan undir Hjörleifshöfða, sem áður er sagt; var það pláss í eyði og óbygt hér um í 30 ár[1]), þá einn karl, er hét Þorvarður Steinsson, reisti þar litla bygð aftur uppá höfðanum að sunnan og framanverðu, sem ennþá helzt við. Eru svo hér uppteiknaðar þær sérlegustu skemdir og umbreytingar, sem þessi tvö jökulhlaup verkuðu og eftir sig létu, sem þeirra ævarandi minningarteikn sýna.

---

Í handritasafni Jóns Sigurðssonar nr. 422—4⁰ er stutt skýrsla á dönsku um Kötluhlaupið 1721, eftir Bjarna prófast Þorleifsson á Kálfafelli í Fljótshverfi. Frumritið hefi eg ekki séð; þessi skýrsla í hdr. J. S. er dönsk þýðing með hendi Jóns Marteinssonar með hans vanalega vonda og bjagaða máli, en litið er á henni að græða og segir þar ekkert frekar eða nánar frá atburðum en í hinum skýrslunum.

Um gos þetta segir Svarfaðardals annáll (Lbs. nr. 158—4⁰ bls. 318—19): »1721, 11. maí, 4. sunnudag eftir páska, en 3. í sumri, að fögru veðri og hægu um hádegisskeið, heyrðust dunur miklar í suðri þvílíkar sem skothríð væri, og gengu síðan án afláts alt til næsta frjádags (16. maí), sást þá eldur gjósa á loft upp, nær í hádegisstað, en þó ekki lengi, fylgdi honum myrkur mikið suður yfir og suðaustur, er jókst því meir sem á leið daginn, og var svo mikið um miðaftan og þaðan af til náttmála að trautt mátti frá sér sjá, fylgdi myrkri þessu sandfall svo mikið um Norðurlandið, alt vestur til Svarfaðardals, svo sporrækt varð á túnum, en hvorki náði lengra myrkrið né sandfallið svo segja mætti; rigndi aftur af því nokkra daga síðar, en þó ekki nærri líkt við það er greindan dag varð«. Jón Espólín tekur þessa frásögn nærri orðrétta úr Svarfaðardalsannál inn í Árbækur sinar (IX. bls. 58—59) en bætir við: »þó er sagt að sporrækt yrði í Skagafirði; eymdi af því nokkra daga«. Í annáli einum úr Eyjafirði (Thotts Samling nr. 509—8⁰) er sagt um gosið 1721: »Varð að kveikja ljós á björtum degi í húsum. Þetta skeði að nærri hálfvöxnu grasi, gjörðist hér í Eyjafirði sporrækt af

[1]) Annað hdr. segir: bygðist 1750, í eyði 29 ár.

sandinum og sumstaðar var hann í skóvarp. Item um þetta leyti sprakk jökull úr eldfjallinu fram í sjó, svo ei varð róið viku sjávar frá landi, þessi jöklastykki setti 30 faðma uppá Vestmannaeyjar, þar af orsakaðist sjávargangur svo mikill að hann tók af verbúðir þar sama staðar. Þetta jökulfall tók af bæinn Hjörleifshöfða og nokkrar selstöður í Álftaveri«. Um hið sama gos er getið í »Johan Anderson: Nachrichten von Island«. Hamburg 1746, bls. 10—12 og í »N. Horrebow: Tilforladelige Efterretninger om Island«. Kbhavn. 1752, bls. 35—37.

---

## V. SKÝRSLUR UM KÖTLUGOSIÐ 1755.

### 1. *Relatio Jóns Sigurðssonar sýslumanns um Kötlugosið 1755.*[1])

Anno 1755 spjó Kötlugjá í Mýrdalsjökli, byrjuðust þau upptök föstudaginn þann 17. Octobris, lítt fyrir hádegi, með miklum jarðskjálftum, líkt sem húsum vaggað væri allan þann dag út og eftirkomandi nótt, svo margir menn voguðu eigi inni í húsum að vera fyrir hræringum jarðarinnar og kvíða fyrir, að húsin mundu detta. Kvöld þess sama dags þá rökkvaði sáust eldingar titt ganga, sem fyrir brygði skrugguljósum, er gekk með jarðskjálftum alla þá nótt. Laugardaginn þann 18. sama mánaðar var smádögg með mikilli þoku og þykku lofti svo hvorki sást til jökla né loftsins, gekk samt, sem hinn fyrra dag og nótt, iðuglegar jarðhræringar og eldingar með stórdynum, skruðningum og jarðskjálftum, þó ei svo hörðum sem fyrra daginn. Aðfaranótt

[1]) Hér er farið eftir eiginhandarriti Jóns Steingrímssonar prófasts dags. Hellum í Reynishverfi 5. janúarii 1756. Handrit þetta á eg ásamt eftirriti og fékk þau hjá Jóni Árnasyni bókaverði. Þorvarður Bárðarson, prestur á Felli í Sléttuhlíð († 1767) hefir átt eftirrit þetta, sem er alveg samhljóða frumritinu, en þó eldra en það eintak frumritsins, er hér liggur fyrir, því aftan á eiginhandarrit Jóns Steingrímssonar er stutt grein með sömu hendi um Kötlugosið 1766. Síra Jón hefir líklega, einsog þá var oft tízka, sent kunningjum sínum fyrir norðan afrit af skýrslunni í fréttaskyni. Jón Steingrímsson var þá nýlega kominn í Mýrdalinn, er hann afritaði þessa skýrslu Jóns Sigurðssonar og jók hana nokkuð, og hefi eg hér lagt hana til grundvallar, af því það er elzta skýrslan, sem eg þekki. Síðar hefir Jón Steingrímsson skotið þessari ritgjörð inn í aðalrit sitt um Kötluhlaup, og í hinum mörgu handritum, sem til eru af því riti, er víða orða-

sunnudagsins minkaði döggin, svo heiðríkt varð, sáust þá stórar eldingar um allan mökkinn[1]). Sunnudaginn þann 19., um uppistöðu tíma, sást ennþá hræðilegri mökkur[2]) ganga upp úr gjánni með mjög hastarlegri ferð af reyk, eldi og þoku og þykku sandmistri og mest iðuglegum eldgangi, hver mökkur upp kom úr gjánni í 2 stöðum nærri fullu norðri frá mínum bæ, nefnilega Holti í Mýrdal, sem liggur nær því 2 mílur danskar frá Kötlugjá, lagði svo mökkurinn til suðausturs alt nær uppá mitt loft og alt í dagmálastað, en þá með jafnlegum dynkjum, eldgangi og mistri; var þann dag glaða sólskin, hvað samt ei hindraði eldinn að sjá umhverfis og innanum mökkinn. Gengu svo þessi býsn alt til kvölds og því meir sem áleið daginn með hörðum jarðskjálftum, en um sólarlag sást allur mökkurinn með hlaupandi eldingum og leiftran alt umhverfis og því meir, sem meir dimdi, viðhélzt sú elding og hræring alla þá nótt þar til uppþykknaði og ákom með steypiregni undir daginn. Mánudaginn, þann 20., komu hræðilegar eldingar og leiftranir allra helzt 2 sinnum, hvar með fylgdu svo harðir brestir, sem mörgum fallstykkjum væri í einu afhleypt með langvarandi skruðningum, brestum og miklum jarðskjálftum, sem þar eftir rénaði, að ei sáust svo títt eldingar um miðjan daginn, ei heldur fundust miklar hræringar. En þá lítið lifði dags, minkaði regnið og gjörði mjög hvasst á vestan, þó sást ei neitt til lofts né jökla fyrir þykkviðri og þoku, gengu samt þessar miklu hræringar og dynkir næstu nótt eftir. Þriðjudaginn, þann 21., um morg-

munur, breytingar, innskot og önnur setningaskipun, sem hér er ómögulegt að eltast við, enda óþarfi, því hér hefir mest að þýða, að fá réttar sögulegar frásagnir um atburðina, en það virðist litlu skifta á svo nýjum handritum, sem oft eru skrifuð af ýmsum viðvaningum, að tilfæra breytingar orða og setninga, sem eigi hafa áhrif á efnið. Neðanmáls og innan klofa hefi eg eftir handritum í safni Jóns Sigurðssonar nr. 158 fol. („A“) og 422—4° (B) sett nokkrar innskotsgreinar, sem gefa frekari fræðslu um ýmislegt. Skýrslur Jóns Sigurðssonar eru til í mörgum handritum og sumstaðar eru þær styttar og breyttar. Í Kalls Samling nr. 270 fol. er dönsk þýðing skýrslu þessarar „Joen Sivertsen, Relation om Kötle-giau 1755“.

[1]) „sást þá reykjar og sandöskumökkur standa upp úr jöklinum, og stórar eldflugur innan um hann, sem út úr honum á alla vegu tindruðu.“ A.

[2]) „með ýmsum litum“. A.

uninn, sást enn þá sá stóri elds- og sandmökkur með hlaupandi eldingum um hann víðast og jarðhræringum hörðum í bland, þó lengra á millum þeirra en vant var; þetta gekk til kvölds, en hvessti mjög undir athafnatíma, með krapaskúrum. Aðfaranóttina varð heiðríkt loft, viðhéldust ennþá stórbrestir og dynkir úr gjánni, með miklum eldgangi um mökkinn, þá nótt sneri vindurinn sér meir til norðurs en vant var. Miðvikudaginn, þann 22., um morguninn, var öskufall komið um allan Mýrdal, svo sporrækt var orðið á sleginni[1]) jörðu, þá varð varla meira en hálfbjart í húsum framan af deginum, en þá voru smákippir og skruðningar í bland, sást þá sjaldan til mökksins fyrir sandmistri, en þá nokkuð frá himnaði fyrir óstöðugleik vindsins, sást til þessa stóra mökks viðlíkt og vant var, þetta öskufall óx lítið þenna dag til hádegis, því oftast blés vindurinn til suðausturs; eftir miðdag hvessti á útnorðan svo mökkinum sló einsog fyr til suðausturs í Mýrdal mikinn part, sást þá glöggara til mökksins, eins sem þá mest var hina dagana, og um þann tíma allan voru mestu skruðningar af framgang vatns og jökuls. Að liðnum miðmunda féll öskufallið aftur yfir Mýrdalssveit, dimdi þá svo að kveikja varð í húsum, það gekk til kvölds og fram á nótt með strjálum jarðskjálftum og[2]) skruðningum. Þessa nótt, undir daginn, hvessti á landnorðan[3]), sem gekk allan þann dag fram yfir miðnætti, sást þá ekki neitt til mökksins fyrir dimmviðrisfjúki; um kvöldið, eftir gjafatíma, gengu hræðilegar jarðhræringar með stórbrestum, skruðningum og eldgangi, hver býsn og undur gengu 2 parta næturinnar, þá áleið þessa nótt, lygndi og minkaði fjúkið, sneri vindurinn sér þá til vesturs, nær sömu áttar, sem áður staðið hafði. Föstudaginn þann fyrsta í vetri, sem var 24., sást ennþá ógnarlegur mökkur með eldgangi um hann allan, líkt sem þá áður mest hafði verið, voru og ennþá eldingar í bland með skruðningum, vægari en um nóttína, snjórinn varð stórum svartur og grár af sandinum, þetta gekk til hádegis um daginn. Eftir

---

[1]) „sléttri". A.

[2]) „en þó hörðum". A.

[3]) „austan landnorðan með fjúki, hverju öskufallið var þó ei meðfylgjandi, því það lagði þá vestur eftir Mýrdalsjökli og tvístraðist yfir Eyjafjöll, Landeyjar og Fljótshlíð." A.

miðdag hvessti á norðvestan, féll þá svo mikill sandur með öskuryki, sem í fannir samankeyrði í lágum, þar logn á var, þetta gekk til sólarlags, með hálfljósri birtu í húsum. Næstu nótt eftir linaði bæði öskufallinu, mökknum og eldganginum svo lítið jarðskjálfta fanst þá nótt. Laugardaginn, þann 25. Oct., var mökkurinn minni en vant var, lagði þá öskufallið ýmist í suður eður landsuður, fundust þá ei jarðskjálftarnir nema heyrðust skruðningar þann dag, alt til kvölds, um nóttina eftir fundust fáir jarðskjálftar, þó harðir í bland. Sunnudaginn, þann 26., var mökkurinn minni en vant var, með sömu veðurstöðu sem næsta dag fyrir, lagði þá öskufallið ýmist suður eða landsuður, sem fyrra daginn, heyrðust og ekki skruðningar né fundust skjálftar[1]). Mánudaginn, þann 27. Octbr., var mesta stórviðri[2]) af fjúki og sandfjúki hér í Mýrdalssveit, sem gekk allan þann dag til kvölds, sást þá ekki neitt til jökla, heyrðist og ekki neitt til gjárinnar fyrir ofviðri, en eldingar sáust[3]) í bland fljúga um loftið. Þriðjudaginn, þann 28., var þýðviðri og dögg, sem gengið hafði um nóttina, heyrðist þá lítið til hlaupsins, eigi heldur hræringar miklar, en fannir af snjó og sandi voru víða komnar um jörðina, helzt þar afdrep var. Þann 29., 30., 31., 1. og 2. Novembr. sást ei nema endur og sinnum til jökla fyrir slúðviðri og þykku lofti[4]), en þann þriðja var heiðskírt veður, sást þá til mökksins lítillega, sem úr kolagröf blossaði eldur og reykur. Hefir svo þessi bruni yfirstaðið frá þeim 17. Octobris fyrir miðdag og til þess 7. Novembris sem er 46 dægur.

*Appendix ad authoris relationem.*

Þó hefur öðru hverju alt að árinu 1756 sést eldglæringar úr þessari vofeiflegu gjá, einnig grá reykjarsvæla, er upp hefur hnyklast í 5 stöðum, færri stundum, ásamt 3 vatnhlaup, sem fram úr henni hafa kastast, með fýluhraða og jakaburði, er í sjó hefur fallið. En til eftirtektar fyrir þá,

[1]) fyr en um nóttina. A.
[2]) á norðan og landnorðan. A.
[3]) en eldglossar sáust. A.
[4]) var þá mökkurinn enn yfir gjánni. A.

sem kunnugt er um Mýrdalssand og veg milli Mýrdals og austursveita, þá hafði áðurnefnt hlaup þá framrás, að það hljóp þann fyrsta dag, 17. Oct. og nóttina eftir, milli Hafurseyjar og Höfðabrekkuafréttar, svo það dreifðist um allan sandinn, þá fram til Hafursey kom, fór það fram fyrir og suður að Hjörleifshöfða, beggja megin alt í sjó fram, svo langt að mönnum virtist jökullinn standa botn víst á 40 föðmum, gjörði svo langt nes fram í sjó af sandi og jökli, en sumt af því vestur með Kaplagörðum framan Skiphellir í sjó fram og alt að Víkurkletti og um mestallan þann gamla jökul, hvorum hlaupið umsneri, tepti svo Kerlingardals sandkjaft fyrir framan, stíflaði upp vatnið, að gekk með jökuljökunum uppá túnið í Fagradal, svo varla sást þeim bæ óhætt; svo varð mikið lónið, að belgdi upp undir Kerlingardalstún, hljóp þetta hlaup með hraðferð út á Víkursand, og nær jafnhátt Sævarhólsnesi; þetta umtalað hlaup, nær fyrst framkom, klaufst um Hafursey, fylti upp alt það sund, sem var milli jökulsins og eyjarinnar, vestur að Kambshálsum, hljóp annar partur þessa fyrir austan Hafursey, um allan þann sand, alt að Loðinsvíkum, og vatnið með jökulshraflinu víðast yfir þær, hvert höfuðhlaup stefndi til bæarins Bólhrauna, en þá suður eftir sandinum kom, veik það við vestur á sandinn og hljóp vestanmegin Eyjarinnar, alt í sjó fram, um hvern tíma tveir menn voru á sandinum milli Hafurseyjar og Loðinsvíkna, nær þeir sáu til hlaupsins ofan af jöklinum riðu þeir sem mest gátu undan hlaupinu og flýðu uppá einn háan sandhól, fyrir sunnan Loðinsvíkur, og á þeirri höstugu ferð skáru þeir á silana á áburðarhestunum, er þeir ráku, og á gjarðirnar, þá reiðingurinn undir kvið fór, þar tíminn leyfði ei að rétta hann við, lenti svo farangurinn í hlaupinu. Eftirkomandi nótt voru nefndir menn á fyrtéðum sandhól og sáu ei hvor annan fyrir myrkri og öskufalli, nema þá eldur glampaði úr mökknum; um daginn eftir, þá lítið sást til, sáu þeir jökulinn alt umhverfis sandhólinn með vatnsgangi, svo þeim virtist til að mynda, sem væri þeir á litlum bát á sjávarhafi millum þess mesta hafíss; varðveitti guð svo þessa menn, að þeir komust þennan laugardag, nær rénaði vatnið, í Loðinsvíkur, óskemdir með heila hesta sína. Um sama tíma láu þrír menn við almenningsveginn á hálsinum í Loðinsvíkum, sem ásamt hinum komust, þó með lífsháska, yfir mörg sund skömmu eftir í

Skaftártungu vestur af Hvífungsskógi(!). [Þess verður enn getið, að í Hrífuneshólma teptist maður nokkur úr Skaftártungu, þann 17., þegar hlaupið kom, og var þar nær viku á hól þeim, sem er rétt í vestur að sjá frá Hrífunessbæ. Sá fólk hann á reiki upp og niður með ánni, með hrópi og kalli. Þegar fyrsta vatnshlaupið fór að þverra, þótti mönnum þá ófært að ná eða bjarga honum, alt þangað til nokkuð betur þverraði og bóndinn í Hrífunesi, Þorsteinn Niculásson, áræddi að hleypa yfir ána, var þá einlægt sund vestur á hólminn, en í kvið og miðjar síður á sjálfum flata hólminum. Komst hann þó til mannsins, sem orðinn var hálfringlaður og kvað ána ekki færa, en Þorsteinn dreif hann, hvað sem hann sagði, á bak fyrir aftan sig, nauðugan, hleypti svo aftur á sund með hann upp yfir. En rétt í því þeir lentu, fyltist alt að nýju og það svo mjög, að alt gilið varð svo fult, að nær því rann yfir um fyrir vestan bæinn og vætlaði í kringum fyrnefndan hól; var þá farið að flytja burt úr bænum í Hrífunesi, það sem fémætast var][1]. Fjórir menn voru um þann tíma að taka við í Hafursey, hvar þeir teptust í 7 dægur, en varð til bjargar, að 2 menn voru á ferð, sem vildu til Vestmannaeyja, sem komust upp í Eyjuna um það sama leyti og hlaupið hljóp og björguðu þeim með mat, hverjir allir saman heyrðu á þessi undur; nefnd Ey skalf sem á þræði léki, öskufallið og eldingarnar í kringum þá, hvar af þeir þó ei fengu skaða, og að liðnum téðum dægrum komust þeir allir vestur yfir með mestu hættu, slógu hestunum flötum og drógu þar verst var á jöklinum yfir, en hjuggu spor fyrir þá sumstaðar, komust svo til Höfðabrekku hálfringlaðir af ótta og ógnan þeirri, er þeir sáu og heyrðu. [Komust þessir allir í einn hellir, sem er vestan og útsunnanvert í Eynni, heyrðu og sáu á öll þessi undur.... Einn þeirra klappaði ártal og öll þeirra nöfn í einn bjargvegg í hellinum til minningarteikns þeirra þarveru][2].

Hið þriðja kastið af þessu jökulhlaupi og vatni hljóp austur af öllum Lágajökli, í austur, fyrir sunnan Sandfell, sem stendur áfast á jöklinum að vestan og norðan, og austur á Kötlusand, og þar fyrir ofan austur í Hólsá, fyrir framan

[1]) Innskot úr hdrs. J. S. 158 fol. og Lbs. 210—4°.

[2]) J. S. 158 fol.

Hafurnes, og þaðan austur í Tungufljót á Geitlandi, belgdi svo upp Tungufljótið alt að Flöguvaði, svo jökulhrönnin komst uppá Flöguengi, en framrás vatnsins og jakanna hljóp í annan stað fram úr Kúðafljóti; sópaðist burt úr Hrífuneshólma, sem liggur milli Hólmsár og Baugadeildar, hálft annað hundrað lamba, sem Tungumenn og ýmsir áttu þar í hólmanum. Hefur svo guðs almáttugs vernd staðið sem múrveggur fyrir þeirri sveit Álftaveri, sem helzt lá fyrir þessu hræðilega hlaupi, hvar fólk var orðið svo hrætt, uggandi og tvílrátt, að sumt hafði flúið bæina á hæztu hóla og nánustu hæðir. Hefur svo þetta hlaup yfirgeysað vel 5 danskar mílur á breidd og hálft svo mikið á lengd til sjós fram, meðal hvers pláss að var áðurnefnd sveit, Álftaver, með 10 bæjum, sem hljóp þá sveit alla um kring, en yfirféll engan bæ. Hlaup þetta hefur svo geysað og undirlagt með sandi og öskufalli tvö þinglög Leiðvallar og Kleifa, með 2 klaustrum, Þykkvabæ og Kirkjubæ, og þeirra undirliggjandi jarðir.[1]) Hvað framar àhrærir þann elds og vatnsgang, ásamt drífandi sandmökk, sem með ýmsum litum, svartbláum, gráum, bleikum, hvítum, lifrauðum oftast sást og upphnyklaðist, svo hátt sem hin hæztu veðurloftsins ský tóku, hélzt hann mestallan áður sagðan tíma til austur-landsuðurs, sem fyr var sagt, þá dreif hann yfir þessar sveitir, sem eru innan áðurnefndra þinglaga, Skaftártungu, Álftaver, Síðusveit með Landbroti og Meðallandi, með svörtu myrkri og iðuglegu sanddrifi og samanbræddum jökli, sem blautri mykju eður blotasnjó, sem fraus og varð sem kopar um jörðina, tók svo af allan grashaga um nefndar sveitir, svo þykt, að sandurinn varð á hólum og hæðum meir en eitt kvarter og á sléttlendi hálf alin, en í lautum urðu sandfannir sem eftir fjúk og nær slétt upp á garða sumstaðar við bæi. Með sandfallinu fylgdi brunavikurgrjót sem hnefasteinar, sem niður féll og breiddist sem tað, breitt á túnum, sumt smærra, sumt stærra, sumt glóandi þá niður kom, sem þó ei brendi neina þurra materíu, hvorki tré, hey né þurt torf, en félli sá vikur í vatn eður aðrar votar teg-

---

[1]) A bætir við „með Skaftártungujörðum, hvari og innilykjast 5 prestaköll, nefnil. Kálfafells, Kirkjubæjar kl., Ása, Hólmasels og Þykkvabæjarklausturs með Hörgslands hospítalsjörðu og Kristfjárjörðunni Keldugnúp".

undir, þá viðhélzt hann lengur lifandi og jafnvel brendi. Yfir Tungu-skóga dreif svo mikið, að það stekkjahrís, sem er það stærsta stoðahrís, er Norðlenzkir brúka, var vant að taka, stóð ei upp úr sandinum nema efsta limið á hríslunum, hvort að alt stiknaði og molnaði í smáösku, þar við var komið, og viðlíkt um nálæga skóga; ásamt féll eldur úr mökknum, hvar fyrir urðu tvær manneskjur, hreppstjórinn Jón Þorvarðsson i Svínadal i Skaftártungu og kvenmaður, sem bæði stóðu fyrir framan húsdyratréð á téðum bæ og kom yfir þau hastarlegt eldslag svo mannsins líkami brann; er gáta manna, að eldurinn hafi ofan í hann farið, þar næst honum brann skyrtan og brjóstadúkur, en öll yfirhafnarfötin heil, var svo í sama bragði örendur; kvenpersónan brann ásamt á annari hliðinni og höfðinu, hver bruni útbraut sig um líkamann, hún tórði til jóla með miklum harmkvælum og deyði síðan.

Margir hestar hafa og á þessum sveitum dáið sakir hungurs af öskufallinu, sem og af eldslætti, meinast þar af, að þeir drápust inni í húsum, fullir og feitir sumstaðar, sem og úti, og ei sízt fjarlægir gjánni. Er svo meining manna, að fáar jarðir í nefndum sveitum muni virkilega bygðar verða næstkomandi ár, eður jafnvel lengur, allra helzt í Skaftártungu, Álftaveri og Síðusveit. Flestir innbyggjendur hafa skorið sauðfé sitt mesta part, fyrir utan það, þeir ætla sér bjarga með þeirra heysafla, sumir rekið fé sitt nokkuð i afréttir. Á því sumri, áður jökullinn hljóp, var hinn mesti heysafli um þessar sveitir. Mýrdalssveit virðist mönnum nærri jafngóð, fyrir utan hvað hagbeitarlandið er mjög skemt og miklu verra á yfirstandandi vetri. Þann 7. Nóvembr. áður sagðan, komust 18 menn yfir Mýrdalssand með mesta erfiði, sem lögðu fyrst sinn veg vestur af skóginum í Skaftártungu, en komust ei yfir jökulinn, sem á sandinum var, fyr en suður undir fjöru, nærfelt sjónum, þar jökullinn var lægri; meinast og aldrei vegur verði upp héðan fyrir framan Skiphellir og Sævarfallsnes, enn síður norðan Hafursey, fyrir hæð jökulsins, sem þar er. Er svo þessi relation alleinasta yfirskrifuð vesturpart Skaftafellssýslu, það sérlegasta af því sem skeði eftir því sem eg sjálfur séð hefi, sem og einnig eftir því, sem mér er fortalið af trúverðugum mönnum, sem yfir hér greindar sveitir og vegi reist hafa, bæði meðan hlaupið og mökkurinn yfir gekk, sem og síðan hann rénaði; fortelst og með

sannferðugum rökum öskufallið og mökkurinn geysað hafi yfir síðasta þinglag Múlasýslu,[1]) ásamt yfir allan austurpart Skaftafellssýslu alt að Djúpavogi, þó langtum minna um það síðasta Múlasýslu þinglag en um fyr greind þinglög.

Holti í Mýrdal, þann 19. December 1755.

Jón Sigurðsson.

Þetta skrif valdsmannsins Jóns S. S. hef eg í nokkrum stöðum aukið eftir því sem sjálfur sá og sannspurt hefi af sannorðum mönnum hér í sveit, svo eg má segja, að framan og ofanskrifað er hið sannferðugasta um Kötlugjárhlaup og þar að lútandi hluti og undirskrifað af mér.

Að Hellum í Reynishverfi, þann 5. Januarii 1756.

Jón Steingrímsson.

*Appendix.*[2])

Þessi næstkomandi vetur, eftir þetta jökulhlaup, var sá harðasti á Íslandi, með sífeldum frostum og iðulegum snjógangi, svo elstu menn mundu ei til þvílíkan vetur komið hafa víðast um landið, svo menn margir dóu í ýmsum sýslum úr hallæri. Í vesturparti Skaftafellssýslu mistu og flestir bændur mestan part af sínum kvikfénaði, hrossum og fé, allra helzt í þessum brunasveitum, sumir mistu alt það þeir áttu, flosnuðu svo upp með allan sinn hóp og flúðu svo margir sem gátu sett sig niður í því eina bygðarlagi, sem óskemt var í vesturparti sýslunnar, en hinir aðrir flúðu með hjú sín, konu og börn í Rangárvallasýslu og Árnesssýslur. Að afstöðnum vetrinum var vorið það harðasta með sífeldum frostum og kulda, svo alt til fardaga var oftast á nætur svo mikið frost,

---

[1]) B. bætir við: „alt í Mjóafjörð, þó langtum minna en um fyrtéð þinglög. Þetta skeði á vors allra náðugasta Kóngs Friderichs fimta 32u aldursári, sem umfram alla Danmerkur og Noregskonga hefur með stærstu umhyggju og konunglegri mildi viljað með ráðum og dáðum viðhalda og uppbyggja það fátæka land Ísland, þar hans konungleg háheit hafa landinu til uppbyggingar og nýja handverks gefið á næstum fyrirfarandi árum 61000 rdli með margföldum öðrum góðgjörðum landsins innbúendum til góða, sem eg óska fátækir landsins innbyggjendur megi einhvern tíma not af hafa."

[2]) Þessi nýi viðbætir er prentaður eftir hdr. J. S. 422—4°.

að hestheldar urðu smálænur hverja nótt, hver kuldategund sást alt til Jónsmessu með sífeldum þurkum svo fyrirspenti grasvöxtinn, varð svo þriðjungur og helftar brestur á venjulegu slægjulandi hér í Skaftafellssýslu, gekk þessi þurkur alt til sláttar eður miðsumars, hvað þá umbreyttist og gjörði sífelt regn svo bliknuðu og skemdust hey, svo enn þá útlítur til þyngri harðinda. Þetta sama sumar befalaði amtmaður þáverandi konstitueruðum sýslumanni, Sr. Lýði Guðmundssyni, að besigta allar þær kóngs og klausturjarðir, sem fyrir austan Mýrdalssand voru, og niðursetja þær til billegri landskuldar og kúgildafjölda, hvað hann að snjóunum afþeyuðum gerði með tilnefndum bísigtelsismönnum, skrifuðust þá margar í eyði og burtsettust kúgildin eftir því sem sú forrétting með sér bar, en bændur flúðu jarðirnar, sem áður sagt hefi. Líkaleiðis kom stórkostlegur hafís þetta sama sumar að austan og sunnan við Ísland, sem lengi viðlá, helzt á Austfjörðum, hann tepti og landfólk nokkurt um kauptíðina í Vestmannaeyjum vel hálfan mánuð, svo ei á land komst, skaðaði þó ei kaupskipið fyrir stóra varúð og aðgætni þeirra dönsku, sem gerðu hnoðaburð(!) um jakana og reru þá þarmeð frá skipinu.

Hér fylgir og með það lítið eg séð og heyrt hefi af gömlu fólki á mínum ungdómsárum um þau fyrri jökulhlaup,[1]) sem skeð hafa í fyrri tíð, jafnvel þó fátt af þeim finnist í annála skrifað. Það hefur ei langt verið liðið frá Íslands byggingu, þá eldur upp kom í Mýrdalsjökli, eður í grend við hann, heldur hefur það skeð í landnámstíð, það má sjá af Landnámu Íslendinga, pag. 145: »Rafn Hafnarlykill nam land milli Hólmsár og Eyjarár ok bjó í Dynskógum, hann vissi fyrir eldsuppkomu og færði þá bú sitt í Lágey« NB. Dynskógar höfðu verið í útnorður af Herjólfsstöðum í Álftaveri, þar nú jökullinn í kring geysaði, þar hafði á dögum þeirra sýslumanna Einars og Hákonar Þorsteinssonar uppúr sandinum blásið eirketill, tók að gamalla manna sögu 2 á 3 tunnur. Lágey vestan eður suðaustan Eyjará andspænis við Bólhraun, nær Eyjará en Hjörleifshöfða, eru á Mýrdalssandi tvær hæðir eður stórir sandhryggir, á þeim vestara segist eftir

[1]) Hér er ýmsu ruglað saman í því sem á eftir fer, en frásögnin sýnir sveitasagnir þær sem þá hafa gengið um sýsluna.

gömlu tali, að sá bær Lágey hafi staðið, en á hinum austari sandhryggnum hafi sá bær staðið, sem Lambajökull hét, Lágey hafi eftir það kristni kom í landið verið kirkjustaður, hver fyrir jökuls og vatnshlaupi hafi aftekið, því dóttir prestsins á Lágeyjarstað hafi fundist í Dyralækjum með kambinn í hárinu þar hún var að kemba sitt hár, þá hlaupið kom í húsin. NB. Dyralækir meina eg nefnist í Bólhraunum, og er ei ólíkt að marga fleiri bæi hafi af tekið á Mýrdalssandi og Álftaveri, því Gnúpur, sem nam Álftaver alt, milli Kúðafljóts og Eyjarár, seldi hann þeim mönnum er síðar komu út, og varð þar fjölbygt, áður jarðeldur rann ofan, hét þá Lágeyjarhverfi, þar nú heitir Mýrdalssandur, sem jökullinn yfirhlaupið hefur, þá flúðu allir vestur til Höfðabrekku og gjörðu þar tjaldbúðir, er þá hétu á Tjaldavelli, þeir fengu ei þar að vera, því Vemundur smiður leyfði þeim það ekki, þá fóru þeir í Hrossagarða (nú kallast Kaplagarðar), og gjörðu þar skála, sátu þar um veturinn, gjörðist þar síðan ófriður með þeim, vide Landnámu pag. ibd. En hvort þetta hlaup verið hefur það, er þeir gömlu kölluðu Sturluhlaup, er eg ekki í fullri vissu um, hvað að tók nafn af því, að bóndi einn, að nafni Sturla, kom út um daginn, en kona hans lá á sæng inni, og hafði nýalið barn, sá hann nær út kom til hlaupsins ofan af jöklinum og stefndi á bæ hans, hann hljóp samstundis inn, greip reifastrangann úr faðmi konu sinnar í sænginni, hljóp svo út, en skipaði þeim eftir voru að befala sig guði, en nær hann út kom, tók hlaupið bæinn, en hann komst með barnið uppá einn stóran jökuljaka, hver er flaut með hann og barnið í sjó fram, hraktist svo austur með landi og landfestist jakinn með hann og barnið á Meðallandsfjöru svo bæði komust lífs af. En fyrir átroðning, kostnað og hagbeit, sem þetta burtflúna fólk gjörði um veturinn á Tjaldavöllum, er fjaran, sem þeim jörðum fylgdi, komin undir Kerlingardal að gamalla manna sögu eftir þeirra forfeðrum, hvað og líklegt er, þar hún liggur til sjós, móts við áðurgreind bæjarstæði, Lágeyjar og Lambajökuls. En hvað oft jökulhlaup hafa komið yfir Mýrdalssand, finst ekki í rit sett, inn til Anno 1625, þann 1sta September, þegar sýslumaður sál., Þorsteinn Magnússon, hélt Þykkvabæjarklaustur, þá kom og vatnshlaup með eldingum, myrkri og öskufalli, vatnið hafi orðið svo djúpt með ísi og jökum, að skipi hafi mátt fleyta kringum Þykkvabæjar-

klaustur, þau myrkur oftast varað frá 1. September til 14. ejusdem, þá hafi allur skógur af öskufallinu falist og hulist í Skaftártungu; þann 12ta September, þá vindurinn venti sér, bar öskuna þangað; askan hafi verið á sléttri jörð í mitt læri; þetta öskufall og sandfjúk hafi flogið yfir til Norvegs í ýmsa staði; um þær ógnanir hefur sál. Þorsteinn Magnússon samanskrifað eina relation, sem þrykt hefur verið í Kaupinhöfn Ao. 1627, það ár Tyrkinn rænti Ísland. Hvað lengi skaðinn eður(!) íbúum landsins takmarka, sem askan og hlaupið yfirgekk, hefur verið, þar til í betra stand og samt lag komst, finn eg ekki skrifað né hefi heyrt frá sagt.

Enn frá næstnefndu hlaupi liðu 29 ár inntil 1655(!) að eldur upp kom í Mýrdalsjökli, skeði það hlaup nóttina eftir allra heilagra messu um haustið, sem aftók bæinn Höfðabrekku, hver eð þá stóð norðan undir fjallinu, á sléttu andspænis við það nú stendur hann uppi á því. Alt sléttlendi(!) fór burt alt að brekkunum, sem þá voru frá hömrunum til sléttlendis; bærinn og kirkjan fóru í flóðin, en þáverandi þar prestur, séra Jón sál. Salómonsson (síðar prófastur), tók ofan klukkurnar nær hann sá til hlaupsins og flutti þær upp í brekkuna, áður kirkjuna aftók, hverjar klukkur fylgja nú Höfðabrekkukirkju. Um nefndan hlauptíma voru 2 menn í Hafursey, hverjir fortalið höfðu, að vatnið gengið hefði fram úr skarðinu á Eynni. Þegar þetta hlaup skeði, héldu Þykkvabæjarklaustur þeir bræður Einar og Hákon sýslumenn (Einar minn afi). Þar frá liðu 65 ár, þar til kom það ógnarlega hlaup in Majo hérum 13da—14da 1721, þá tók af bæinn Hjörleifshöfða, sem þá stóð vestanundir Höfðanum, þá tók og graslendisbrekkur allar af neðan undir Höfðabrekkufjalli, sem hið fyrra hlaup hafði eftirskilið af þeim undrum jökuls og vatns, er þá fram rann í sjóinn; varð þá sjávargangur á land upp, sem undan hlaupinu gekk; þá gekk sjórinn yfir fjörur bæði austan Reynisfjalls og vestan, samt vestan Dyrhólaey og í Eyjar. Líka kom til sjávarólga í Vestmannaeyjar, og hvað meira að undra í Þorlákshöfn, þá voru kirkjuviðir allir tilhöggnir í Skiphellir, sem vera áttu í Höfðabrekkukirkju, þá tók hlaupið alt burt, komust sumir viðirnir í Seilu við Bessastaði á Álftanesi. Jökuljakarnir komust og inn í Ölvesá; jökull þessi komst lengst í Reykjanesröst. Lítilfjörleg aska féll í Selvog og við Hraun í Ölvesi, en það vildi nærverandi jörðum til

lukku, að vindurinn stóð á suðaustan svo öskufallsmökkurinn, hvar í leiftrandi eldurinn um hádegi dagsins sást, hélt öllu til útnorðurs i óbygðir landsins, milli Sunnan- og Norðanlands, kom þó nokkurt öskufallið í bygðina fyrir norðan og i Borgarfjörð norðarlega; hafði og myrkt orðið um daga sumstaðar i Norðurlandi, svo kveikja þurfti i húsum um miðjan dag. Engir menn sköðuðust i næstumskrifuðum tveimur hlaupum svo viðvart yrði. Þegar þetta siðar umskrifaða hlaup hljóp, hélt Þykkvabæjarklaustur sýslumenn Bjarni Nicolásson og Jón Ísleifsson. Svo liðu 33 ár, til þess 1755, að þann 17. Octóber hljóp Mýrdalsjökull, sem i öndverðu er um skrifað.

Hefi eg svo um téð hlaup samanskrifað, það vissasta og sannasta eg formerkt hefi, bæði að sjón og skrifum og trúverðugra gamlra manna frásögn, alt sem þeir haft hafa eftir sínum forfeðrum og fornaldar gömlum mönnum.

Actum 1756, d. 10. September.

in fidem

Jón Sigurðsson.

*2. Sannferðug undirrétting um Kötlugjár jökulhlaup og þess verkanir, eftir Jón Guðmundsson, prest í Sólheimaþingum.*[1])

Anno 1755, þann 16. Octóber, skeði um allan Mýrdal svo mikill jarðskjálfti, litt fyrir hádegi, að steinar hrundu úr veggjum og hús gengu til, svo nokkur urðu síðan litt brúkanleg; þessi bifan hélt við þann dag og nóttina eftir, þó ei svo stríð sem í fyrsta kippnum, svo margur þorði ei inni i húsum að vera. Nokkrir hittu rétt upp á orsök til þessa. En þegar kvölda og dimma tók, þá báru eldingarnar, sem í þykku veðri sáust svo ótt og títt, ljósan vott, að þetta mundi vera af eldsuppkomu í Kötlugjá, þetta var föstudaginn seinastan í sumri; á þessum sama degi voru margir menn reisandi út og austur um Mýrdalssand, eigi fundu þeir jarðskjálftann, en allir sáu þeir til hlaupsins, sumum náði vatnið sem undan hljóp, svo þeir sluppu að eins. Sérdeilis segir af 3, sem ætluðu vestur fyrir, og áttu heima undir Eyjafjöllum, þegar þeir voru vel komnir suður á sandinn, heyrðu þeir dunurnar i

[1]) Hdrs. J. S. nr. 422—4°. Ritgjörðin er dagsett 19. febrúar 1756.

jöklinum og sáu hvar hlaupið kom með svo hræðilegum hasti og ofurmegni, að því verður ei við neitt jafnað; þeir báru tré á hestum og sneru aftur sem fljótast og innan stundar geysaði eins fyrir austan þá og urðu svo í kvíum, fram undan sér sáu þeir sandhóla, þangað flýttu þeir sér og skáru klifin ofan af hestunum og komust svo upp á hólana, en hefði einum hesti verið fleira, mundi hlaupið hafa tekið hann, í því þeir sluppu. Hlaupið umkringdi sandhólana og þar voru þeir um nóttina, en eftir litla dvöl dimdi svo að enginn sá annan, og nema fyrir samtalið, vissi enginn til annars, hræddastir um það, að ei gæti fetað undan vatninu, og sáu ei annað en dauðann fyrir. Myrkrinu fylgdu eldingar, dunur og glóandi eldflugur og þær voru þeirra ljós og sáu þar fyrir hvað vatninu leið, að það óx ei svo óðum og eldsmegnið linaði, til þess um birtinguna, þá sáu þeir, að jökull og vatn var umhverfis hólinn; nú þá vatninu fjaraði fram, komust þeir milli jaka austur í Loðinsvíkur með hestana, en þar var jökull og vatn enn meir, og urðu þar svo í nokkrar nætur, en þar nokkuð birti upp eitt sinn, komust með mestu lífshættu yfir mörg sund austur í Skaftártungur.

Í Hafursey (sem er eitt hátt fjall á Mýrdalssandi) voru og (16. Octóber, fimtudag) 4 menn í viðarskógi, þá eldurinn kom upp, einnig komust upp í Eyjuna 2 menn með færur sínar sem ætluðu til Vestmannaeyja og það varð hinum matarlausu til bjargar (17. föstud.), þeir teptust þar allir 7 daga, þeir allir sáu og heyrðu þessi undur, skjálftann, öskufallið og eldingarnar, að liðnum 7 dögum komust þeir vestur yfir með því móti, að þeir slóu hestunum flötum og drógu þá, sem og hjuggu spor í ísinn. Þann 18da, sem var laugardagur, sást ei vel til nema iðuglegar eldingar, sum hvít(?), sem varð bæði stór og smá, iðuglegir jarðskjálftar, þó ei mjög sterkir. Um kvöldið sást reykjarmökkurinn. 19da sást mökkurinn enn vel, hann kom upp í 2 stöðum svo hastarlega, að allir hræddust, stundum uppkomu snjóhvítar reykjargusur, stundum svartar sem bik, hryllilegar ásýndum. Mökksins hæð var ógnarlega mikil og til að sjá, hann hrapaði ofan í gjána aftur; hann byrgði alt loft, ásýndum sem biksvart þykkur með hvítum eða grænum reykjarreinum; þetta var uppi þá öskufallið var mest, mökknum fylgdu iðulegar dunur, sem voru stutt en þó tíð og óð reiðarslög, um hvert augnablik sáust ljós og glæðingar,

sem gjörðu hann allan að eldi og hann var svo stundum glansandi, að menn fengu ilt í augun ef til lengdar á horfðu, já, svo bjart, að þá sáust í glaða sólskini mót birtu sólarinnar og þeirra birta yfirgnæfði sólarinnar skin á jörðu og þess heldur sem dimdi meir, sem continueraði þann dag og næst fylgjandi nótt. Þann 20. ejusdem 2 brestir hræðilegir meir en þó 1000 fallstykkjum hefði afhleypt verið, hverjum fylgdi 2 ljós furðanlega björt, iðuglegar hræringar daginn og nóttina eftir, en ei sást til mökksins. 21. þriðjudag, sömu undur, sást mökkurinn og vindurinn sneri sér til norðurs framar venju. 22. komið öskufall, aðeins sporrækt á snöggri jörð. Svarta myrkur sló frá öskufallinu, en að aftur eftir miðdegi svolitla stund, varð ei verkljóst í húsum. Strjálir jarðskjálftar, sást sjaldan til mökksins, eldingar og þrumur hinar sömu. 23. mikið fjúk með stórviðri fram á vöku, þá lygndi, í því heyrðust hinar hræðilegustu dunur og úr máta mikil, mörg ljós og svo mikið öskufall, sem hin mesta hrannadögg, nú um miðnætti linaði því. 24. sást mökkurinn allur eins með eldingum og dimmum, eftir hádegi kom af norðri aftur öskufallið, svo mikið að í fannir féll; ei meir en hálfbjart í húsum; nóttina eftir linaði því, einnig jarðskjálftum og eldingum. 25. Allur mökkurinn hinn sami. 26. Alt hið sama, 2 snarpir jarðskjálftar nóttina eftir, stundum öskufall, mjög fáar eldingar, alt til 3ja Nóvember sífelt dimmviðri, þann dag sást mökkurinn, seinast 15da Januarii, og þar um bil hljóp seinast.

Um hlaupið sjálft.

Fyrstu nóttina yfir vestari part Mýrdalssands milli Hafurseyjar og Höfðabrekku fram í sjó á 40tugu djúpi og stóð þar botn. Bærinn Fagridalur stendur halt uppá fjallsháls, hann töldu menn af, svo gekk vatnið hátt upp í fjöllin. Annar partur jökulhlaupsins hljóp fyrir austan Hafursey og um Loðinsvíkur, þriðji í austur, ofan af öllum lága jöklinum, fyrir sunnan Sandfell, sem stendur á jöklinum, og austur Kötlusand og þar fyrir ofan austur í Hólmsá, fyrir framan Hrífunes í Tungufljót að Hestalandi, belgdi upp Tunguvatnið með jökul og vatn og hrönnin komst uppá Flöguengjar. Þessi kvísl hlaupsins sópaði burt úr Hrífuneshólma $1^1/_2$ hundraði lamba. Sveitin Álftaver var stödd í mesta fári, því hún lá flöt við hlaupinu og engin fyrirstaða, fólk flúði þar bæi og

fór með tjöld uppá hæðir og hóla. Allan veg tók af yfir Mýrdalssand og meir en 20 menn teptust á Austursveitum, sem voru vestanyfir, frá 17. October til 7. Nóvember, þá vendu á jökulinn 18 og komust yfir hann niður að sjó, meint er, að vegur leggist aldrei meir framan Skiphellir eða norðan Hafursey, steinn stóð upp á einum jaka hjá Höfðabrekku, sem sambauð hverri stærstu kirkju í Mýrdal, þó hún stæði upp á endann.

Um öskufallið.

Það komst lengst vestur að Leirá og austur í Djúpavog og hefur mestan skaða gjört í tveim þinglögum, Kleifa- og Leiðvallar, þar eru í klaustrin bæði Kirkju- og Þykkvabæir, 5 prestaköll, Kálfafell, Prestbakki, Ásar, Hólmasel og Þykkvabæjarklausturs prestsdæmi. Yfir öll þessi pláss dreif öskufallið lengi, með blautum og glóandi jökulslettum, en þá hörðnuðu urðu að sindri, vikur og ösku, sem kæfðu gras og skóga öldungis, svo slétt varð yfir hæðir og hóla, svo allur peningur sem ei var á gjöf, drapst öldungis. Fáar jarðir munu byggjast næsta ár í Skaftártungu, Álftaveri og vestarlega á Síðu. Nú er 19. Februarii og sést ei lófavídd af jörðu, vegna sands, samfrosta af blotum. Þann 13. Februarii sáust 3 eldstólpar síðast upp úr gjánni; bóndinn Jón Þorvarðsson, og kvenmaður nokkur stóðu úti fyrir húsdyrum nokkrum í öskumekkinum, þar kom yfir þau hastarlegt eldslag, svo maðurinn datt niður og var strax dauður, en þá aðgætti, var líkaminn víða brunninn og meinast eldurinn hafi hlaupið ofan í hann og fyrir brjóst honum, skyrtan og brjóstadúkurinn brunnu, en ei yfirfötin. Stúlkan brann á annari hliðinni og höfðinu og braut sig svo bruninn út um líkamann, hún deyði með miklum harmkvælum þann 29. Nóvember.

Hvað hér af orsakast hefur.

1° Ótti og andvökur, sem hræðsla af eldflugum og jarðskjálftum, 2° hryllileg brennisteinsfýla og ólykt fyrir vitum, úti og inni, 3° hræðilegar dunur og skrugguhljóð fyrir eyrum, 4° brennisteins og öskusmekkur í munninum, svo menn og fénaður fengu bólgu og þrota í tannholdið, í hvert askan fór og gróf sig þar út með vessa, 5° jörð og skógar byrgt og fordjarfað af bruna og sandi, 6° þar fyrir stór missir og dauði allslags fénaðar, 7° fordjörfun á fötum og skæða-

skinni og 8⁰ á vatninu, sem varð eins og for, svo menn og skepnur höfðu þar af engin not. 9⁰ Vegirnir sumir af fyrir jökli, en bleyta og foræði í vötnum, 10⁰ forgift í augum af öskurykinu, 11⁰ margar jarðir verða í eyði, 12⁰ margir búendur jarðnæðislausir, en stór þyngsli af umferðafólki, 13⁰ þessi forgift hefur og aukið mönnum brjósterfiði svo að eg (segir auctor) get naumlega náð öndinni.[1])

---

[1]) Þýðing af skýrslu Jóns Guðmundssonar í ágripi er prentuð í Höfn 1757: Relation fra Island om hvad der har tildraget sig i Aaret 1755 med et Isbjerg, kaldet Køtlugjaa eller Mýrdalsjøkull, Kbhavn. 1757—4⁰ (4 blöð). Sbr. ennfremur: Jo. Gudmundi Alpium Islandiæ Myrdalinarum Vesuvius quæ ab incolis vocatur Kötlugjá (dönsk þýðing eftir Jón Marteinsson). Thotts Saml. nr. 957 fol.

Um gos þetta er ennfremur til: Relation fra Island Anno 1756, skreven af Pastor Gísli Bjarnarson til Melar til Hr. Jón Therkelsen. Kalls Samling Nr. 270. fol. og „En kort Beretning om Katlegjaaens Ildspruden i Aarene 1755 og 1756. Til det kongelige Videnskabernes Societet i Kjøbenhavn“ í Lbs. Íslenzka þýðingu af þessari stuttu frásögu eftir Jón Árnason á eg. Skýrsla þessi inniheldur ekkert nýtt. Um gosið og jarðskjálftana það ár var prentuð lýsing þeirra Eggerts og Bjarna i ritum vísindafélagsins í Kmhöfn: Beskrivelse over det i Island den 11. Sept. 1755 paakomne Jordskiælv og den derpaa den 17. Octobr. samme Aar fulgte Ilds-Udbrydelse af den forbrændte Bierg-Kløfte Katlegiaa ude Iis Bierget Myrdals Jøkel, efter de sammesteds observerende Studenteres indsendte Beretninger (Skrifter som udi det Kjøbenhavnske Selskab af Lærdoms og Videnskabers Elskere ere fremlagte og oplæste. 7. Deel Kbh. 1758. bls. 185—196). Sbr. Ferðabók Egg. Ól. II. bls. 756—775. Árb. Esp. X. bls. 46.

## VI. KÖTLUHLAUP, ÁRIÐ 1823,

*tekið í augsýn andspænis gjánni frá Mýrum í Álftaveri.*

af

*J. Austmann* presti.[1])

Árið 1823, þann 26. Júní, var lengst af stinningsvindur frá norðri, ónotalegur nístingskuldi, enda þótt sól sjáandi meður skýjadeild, er endur og eins byrgði fyrir hana; stundu fyrir náttmál drógst upp í landnorðri dökkur dampaflóki, sem á svipstundu jafnaði sig um alt himinhvolfið og með það sama gerði svo myrkt fjúkjel, að naumast var ratljóst, stóð það hérumbil 1 kl. stund (ɔ: til náttmála) þar til því rauf upp aftur. Kom nú upp í útnorðri (héðan frá Mýrum til að sjá) norðan og austan megin við hæstan Mýrdalsjökul, geysimikill eld- eður reykjar-mökkur, sem steig furðulega hátt í loft upp og sýndist sem að stafaði niður úr honum, á að gizka sands- eða öskusalli. Meðan á þessu stóð, sá eg útúr falljöklinum, fyrir norðan Hafurseyjarfjöll á Mýrdalssandi neðarlega útfossa vatnsflóð, sem jafnaði sig um jökulinn og sýndist færast upp eftir honum, er eg gjörði mér í lund orsaka mundi vatnsfyllingar í jöklinum innanverðum, sem meir og meir væru að vaxa og útbreiðast. Tóku nú strax að sjást talsverðar leiftranir; stinningsvindur viðhélzt frá norðri, kuldinn sami og með honum töluverður frjósandi. Kl. 2 eftir miðja nótt kom nú vatnsflóðið hingað niður í sókn mína, Álftaver, hérumbil $^{2}/_{3}$ parta þingmannaleiðar frá jöklinum, sem útaf lækjarbökkum og farvegum rann og flóði víða um

---

[1]) Prentað eftir eiginhandarriti síra Jóns Jónssonar Austmanns í hdrs. J. S. nr. 422, 4°. Ritgjörðin, sem upprunalega hefir verið send Steingrími biskupi Jónssyni, er rituð með blendingi af jótaskrift og snarhönd og fremur ill aflestrar.

mýrar og engjar, sauðskepnum mörgum varð með lífshættu bjargað af vinnufólki mínu á hæstu staði sem hér voru til að fá. Þessu vatnsflóði fylgdi hvervetna þétt hrönn af smáum jökulíshroða.

27. Júní, hérumbil kl. 6 (miðjan morgun), fór vatninu fremur að þverra og til að sjá tók það nú meir og meir að hlaupa af falljöklinum; sá eg nú missmíði á hájöklinum, nefnilega lægð í honum efst, andspænis eldmökknum. Þenna sama dag viðhélzt vindurinn, en fremur nú frá landnorðri, sólskin dauft, en veðurmóða byrgði sjónar á jöklinum, þegar áleið daginn. Síðast um kvöldið þykknaði upp, gjörði logn og svækju, sem viðhélzt þá nótt. Laugardaginn, 28. s. m., var nokkurnveginn spakt þann dag; heyrðist nú samt snemma geysiniður í vestrinu, hverjum að fylgdi vatnshlaup með megnum jökulhroða (hrönn), sem á dagmálum var engu minna orðið, en hið fyrsta áðurnefnda vatnshlaup, en tók til að fjara eftir það; leiftranir sáust og einstaka dunur heyrðust; sólskin var dauft en hægur vindblær frá haf-landsuðri, til einskis vatns sást nú niður af falljöklinum, hefur því þetta flóð haft undirgöng eður gljúfur til að geysa fram úr. Missmíði á hájöklinum tóku fremur að aukast til að sjá frá útsuðri til landnorðurs og reykjar-mökkurinn sýndist fremur hafa etið(!) sig norðaustur á við. Einni stundu eftir nón hófst nú á ný frá jöklinum til að heyra þungur vatnaniður, glæringar og dynkir, sá eg nú hversu að falljökullinn niður við sandinn brotnaði og umveltist, rótaði með sér heilum jökuldyngjum fram á sandinn í því megna vatnsflóði, sem þessu var samfara og hingað kom beljandi (meir en þau áðurnefndu) rétt um náttmálabilið og færði nú með sér voðalega jökulfönn, sem þess í millum um hríð tepti ár og farvegi; fór nú fólk frá 3 bæjum (þeim sem sunnast lágu) að flýja á hæstu hóla og höfðu þar aðsetur tvær nætur, og eg með fólki mínu bjóst til flóttaferðar austur á svo nefndan Höfða, sem hæstur liggur í mínu landi, lét því færa þangað tjald og matvæli og fólk binda sér knippi af íverufötum, þó drógst flóttaferðin frá bænum, þareð vatnið að kalla stóð við í stað um nóttina, en mjög lítið rénaði, lagði eg mig því lauslega til hvíldar og tilsetti trúa og gætna vakt. Þessa nótt var þykt loft, hægur gustur frá norðri, en hreint regn oftastnær.

Sunnudaginn, þann 29. s. m., $1^1/_2$ stundu fyrir hádegi,

kom enn ný vatnsfylling þeim mun ógurlegri hinum þremur áðurtöldu, sem vatnsmegnið var meira undir, en jökulhrönn tekið fyrir alvöru að uppstífla, og sem hve helzt skaut mér skelk í bringu, að vatnið fyrir þá skuld kynni að kasta sér til hliðar. Um hádegi fór þessu vatnskasti lítilsháttar að fjara, enda var nú bær minn, þó með nokkurri jarðarrim alt um kring, orðinn algjörlega inniluktur. En þar eð ytri hluti sóknar minnar (Álftaver) var enn frí við vatnið, að undanteknu í því fyrstnefnda vatnskasti, þar hlaupið fleygði sér til suðurs og landsuðurs, hvert Mýrdalssandi líka veitir, einkum fyrir austan fjallið Hafursey, hvar vatnið bersýnilega hafði sitt aðalútfall — svo hafði eg við hæsta holt fyrir norðan mig (Ómenskuholt kallað) veiðislúffu mína á floti, bundna við langt færi, í von um að fá mér og mínum á henni bjargað upp yfir flóann, ef ei yrði lengur vært á höfðanum. Skömmu eftir nón kom ennnú ný vatnsfylling, engu minni en sú næsta á undan henni, en bráðum fjaraði hún aftur, svo að eg með konu minni skömmu eftir miðaftan gengum nú til að skoða jarðveg þann, af hverjum vatnið var fjarað, hnykti mér nú við, þá eg sá, að mestallar engjar mínar voru sokknar niður í þykkva jökulleiru og að slétt var orðið yfir stóra tjörn, þriggja álna djúpa, fyrir framan bæinn minn. Já! stórt stöðuvatn fyrir norðan mig frá 8 til 10 álna djúpt (sem eg á bát hafði kannað) var uppfylt orðið að sömu leiru. (NB. um frekari skaða þessa hlaups, einkum á minni mensaljörðu (Mýrum), mun eg síðar, ef auðnast, betur tilgreina). Þenna dag var himinn þykkfenginn, endur og eins sól sjáandi, regn og kornjeljahríðir skiftust á víxl með nokkrum þrumum, vindblær frá vestri og landnorðri; fjúkúðungur byrgði þann dag sýn á jöklinum, mökkurinn skautaði hátt.

Nóttina til þess 30. Júní hélt vatnið áfram að þverra; veður var þá spakt, kulur frá landnorðri, glæringar og dynkir viðvöruðu frá jöklinum til að heyra. Þann 30. Júní fór vatnið sífelt minkandi, til þess um miðmundabil kom lítt merkjanleg vatnsfylling, sem strax rann af aftur, þann dag var veður heiðskýrt og rokkaði til með vindgust úr ýmsum áttum; einkum síðla þessa dags dunaði mjög, og megnar eldglæringar sáust frá jöklinum, reykjarmökkurinn, með að sjá miklu öskufalli, skautaði hátt í himin. Þenna sama dag gjörði eg ferð mína á efsta bæ í sókn minni, hvaðan eg gjörla fékk séð

(eftir því sem betur lá við), 1° að op gjáarinnar, úr hverri mökkurinn rauk, var austanhalt við efstu brún jökulsins í slakkanum norðan undir hans hæsta hnúki, 2° að gjáarinnar lega var frá útsuðri til landnorðurs, 3° að gjáarinnar austari barmur var talsvert lækkaður orðinn og svo úr jökulhvilftinni dregið, að stór hnúkur var myndaður orðinn á norðursíðu, skamt frá opinu, 4° að einkaframrás frá gjánni var til að sjá vestarlega niður úr falljöklinum í stórum gljúfrum, ei langt fyrir austan svonefnd Huldufjöll (er standa í jökli) inn af Höfðabrekkuafrétti og þar niður á sandinn og austanvert við fjallið Hafursey (millum hennar og falljökulsins er lítið sund). Höndfarandi nótt færði ekkert nýtt með sér, stinningsvindgustur frá norðri, vatnsflóð ekkert hér, en glæringar og til að heyra elddynkir gengu enn þéttara.

Þriðjudaginn, þann 1. Júlí, heyrðust frá jöklinum frábærlega þéttir og þungir (að minni meiningu) elddynkir fram að nóni. Mökkurinn geysimikill og svartur ásýndar, er litaði jökulinn sama farfa; þann dag gekk vindurinn frá norðri til vesturs og setti hér nú einmitt yfir bygðarlagið sortann, er upp af jöklinum lagði, sem einkum féll hér niður frá kl. 2 e. m. og þann dag út. Náði eg nú á pappír sýnishorni af þessari materíu, sem mér virtist vikursandur brunninn, glær á lit, enda rigndi því svo sárt í augu manns, að þeim naumast varð upplokið (tegund af saltpétri var eina hríð þenna dag sandinum samfara). Dynkjunum linti, þegar á daginn leið að mestu. Þenna dag áræddi merkis- og dugnaðarmaður, hreppstjóri héðan, Þorkell Jónsson, að njósna um Mýrdalssand, en sneri óðara við aftur, nýlagður af stað, þá hann varð var við drjúgt vatnskast þar og jakaferð. Næstu nótt var veður spakt, dynkir heyrðust nokkrir og glæringar sáust.

Miðvikudaginn, þann 2. Júlí, keptist landátt mót útsynningi, kýttu svo þessar gagnstæðu áttir mökknum á milli sín til landsuðurs hér yfir Álftaver, féll þó ei svo mikill sandur hér sem von var á. Fyrra part dags, fram að nóni, gengu frábærustu reiðarþrumur, var mjög lítið á millum þeirra, en svo langar sumar, að yfirstóðu framt að mínútu; þegar á daginn leið, linti þeim; tveir hjá mér teptir ferðamenn fóru þenna dag að njósna um Mýrdalssand, en hurfu óðara til baka, þá þeir sáu æðandi vatnskast fram af sandinum. Nú lét eg tvo eiðsvarna menn yfirlíta skaða þann, sem framan-

nefnd vatnshlaup gjört höfðu slægjum og högum minnar mensaljarðar Mýrum, hver skoðunargjörð þannig féll: að engjarnar sökum jökulforar og sands væru jörðinni fyrir nærverandi tíma gjörsamlega mistar, eins og líka $^1/_4$ partur af hennar högum. Næsta nótt var einkar blíð; glæringar sáust og dynkir heyrðust. Þann 3ja Júlí var vindkaldi frá útsuðri, lagði því mökkinn inn með jöklinum, talsverðir dynkir heyrðust glæringum samfara. Vatnsflóð mikið geysaði þá fram af Mýrdalssandi með þungum vatnsnið og einslags reyk uppúr því, af hverju lítilsháttar varð hér vart $^1/_2$ stundu eftir miðaftan. Þenna dag lögðu á Mýrdalssand fyrnefndir ferðamenn, komust svo langt, að þeir sáu til vatnshlaups fyrir austan Hafursey og hörfuðu því í skyndi til baka aftur. Næsta nótt var nú einmuna blíð, glæringum leiftraði og dynkir kváðu við.

4ða Júlí var himinn kafþykkur með rigningu og austan kalsa; dynkir heyrðust, einkum fyrri part dagsins; kl. 7 e. m. kom drjúgt vatnskast frá jöklinum; næstu nótt var rigning sama og austanátt. 5ta Júlí var enn austanrumba, oftast regn og þoka, sást því ekkert til jökulsins nema hvað einstaka eldingum leiftraði. Þegar á daginn leið, heyrðist þungur vatnsniður og fylgdi á fætur honum talsvert vatnshlaup á sandinum, sem lítilsháttar spýtti úr sér hingað kl. 2 e. m. d., en fjaraði síðan bráðum aftur. Þá nótt var vindkulur frá landnorðri og leiftranir nokkrar sáust. 6. Júlí gekk stinningsvindkulur upp í norður, sýndist nú sem rót (uppkoma) mökksins væri ekki aldeilis eins þykk og með fyrstu, ekki heldur lagði hann eins hátt lóðrétt upp í himinhvolfið sem áður fyrri til að sjá; kl. 5. e. m. d. heyrðist ákafur vatnsniður í vestrinu; kl. 7 kom hér aðeins lítilsháttar vatnsfylling, en fjarska mikil var hún til að sjá á sandinum fyrir austan Hafursey. Næsta nótt bar ekkert nýtt með sér, þá var veður spakt og hérnefnd lítilsháttar vatnsfylling rann af aftur.

7. Júlí var fagurt sólskin, vindsvali frá ýmsum áttum, lagði nú mökkinn býsna hátt, því að á miðaftni numdi hans efsti toppur (þá hann stóð lóðrétt upp) við sólina, hvít var nú gufan tilsýndar, líkust vatnsreyk, stafaði þó niður úr henni sand eður öskufalli, niður á jökulinn; síðla þessa dags heyrðist vatnsniður í vestrinu, hverjum að fylgdi vatnshlaup fram af Mýrdalssandi, við hvað hér ogsvo líka varð vart, því að

þá eg stundu eftir miðaftan kom af fjöru með fylgdarmanni, hreptum við mikinn hrakning í Landbrotsá; næstu nótt, á hverri var spakveður, viðhélzt og þó fremur jókst nýnefnd vatnsfylling, fram til þess stundu fyrir dagmál, nefnilega þann 8. Júlí, þá henni með semingi tók að þverra. Aftur þann sama dag á miðaftni kom fjarska mikið vatnshlaup fram af Mýrdalssandi um og fyrir austan Hafursey, sem strax að kalla gjörði hér talsverða fyllingu, svo að þrír menn staddir á heimili mínu frá næstu bæjum (sunnan yfir Landbrotsá) teptust hér til þess kl. 7 f. m. d. næsta dag eftir. Þann dag var vindblær frá hafi og útsuðri, um kvöldið þess sama dags var mikill eldslitur á sólinni frá náttmálum og til hennar niðurgöngu; á höndfarandi nótt var veðrið spakt með hægum hafkalda.

Þann 9. Júlí var losvindi(!) frá útsuðri og vestri og móða yfir jöklinum, þó sást mökkurinn skauta volduglega. Öndverðlega dags heyrðist vanalega þungur vatnsniður í vestrinu, beið þess ei lengi fyr en brúsandi vatnsflóð æddi fram af Mýrdalssandi, og sem hingað kom fyrst um miðmunda og viðhélzt, án þess að fjara, þann dag út og nóttina, til dagmála daginn eftir. Þenna dag fór eg lítið eitt út frá bænum mínum með öðrum manni og þar eð mér tók nú að lengja straxnefnd vatnsfylling, náðum við með lífshættu langa leið djúpt yfir þenna fossandi jökulgorms-flóa til að ná bænum. Einn mann sendi eg á fjöru sama dag og teptist hann fyrir sunnan Landbrotsá til miðmunda daginn eftir. Auk smærri og stærri steina innanum jökulgormsleiruna fann eg einn stein einhversstaðar langt að borinn, sem eg vildi meina ekki vantaði stórt á eitt skippund til vigtar, líka fann eg í sama sinn gott stykki af brenslumó, hvern eg, sem áður óþektan hér, þurkaði til reynslu, sem mér sæmilega gafst. Roðmi á sólunni, var hinn sami sem næsta dag áður. Næsta nótt var einkar fögur, talsverðir dynkir heyrðust og leiftranir glömpuðu; seinast nefnt vatnsflóð stóð við í stað. Þann 10. Júlí var óglögt sýni til jökulsins, frá hverjum að vanda kváðu hátt þungir dynkir, glæringar glömpuðu og mökkurinn hinn sami. Mikið vatnskast geysaði fram af Mýrdalssandi, við hvert hér aðeins lítilsháttar varð vart um miðaftan, sem fjaraði bráðum aftur. Til að sjá var nú sandurinn orðinn mikið hækkaður við sífelt jökulgormsrensli fyrir austan Hafursey, af hverjum að hallaði til austurs og landsuðurs, og sökum hvers

halla því meiri voði sýndist mér og sókn minni búinn, ef stórkostleg (hlaup) aðbera kynni. Þann dag var veður spakt með hægri hafrænu; næsta nótt var einmuna blið, samt heyrðust nokkrir dynkir og eldglossar glömpuðu frá jöklinum.

Þann 11. Júlí var himininn þykkfengur og þokubrek með austanvindi hægum, varð ei séð til jökulsins né heyrðist neitt frá honum; ekkert vatnsflóð kom hér þann dag í ljós. Næsta nótt var spök og fögur, á henni kom lítilsháttar vatnshlaup eftir miðja nótt, hverju að fjaraði aftur. Þann 12. Júlí var hvass vestanvindur, sem færði sig upp í landnorður þegar á daginn leið. Litilsháttar vatnsfylling kom að liðnum miðmunda, sem strax rann af aftur; mökkurinn sami utan hvað honum einu sinni, rétt við niðurgöngu sólar, sló svo niður (þá eg glögt á hann horfði) þá tæplega $^1/_2$ minútu — að mjög litið til hans sást. Einstaka dynkir dunuðu þann dag, og mikið sandfall fékk þá jökullinn niður úr reykjarstrokunni. Næsta nótt var einkarfögur; vart varð inni í húsi við nokkrar eldingar (NB. altaf lét eg vakt halda); vatnsflóð ekkert þá.

Sunnudaginn 13. Júlí var með sjávarsiðu stinningskaldi af hafi og útsuðri, en landátt til fjalla. Árla dags heyrðist drjúgur vatnsniður í vestrinu, hverjum á fætur fylgdi, aðlíðandi hádegi, býsna vatnshlaup, sem ekki fjaraði fram til sólarlags; mökkurinn sami; eftir náttmál mikill roði á sólu; þá varð eg að ná fyrsta sinni málnytu úr kúpeningi mínum á bát. Frá hádegi þessa dags teptist hjá mér karlmaður frá næsta bæ, til þess stundu fyrir dagmál daginn eftir. Næstu nótt var enn spakt veður, en sló yfir þoku undir sólaruppkomu. Þann 14. Júlí fór fyrst að fjara seinast nefndu vatnshlaupi. Þann sama dag var ákaflega hvass austanvindur til þess eftir middag, féll hér þá niður nokkur vikursandur, sem í loftinu hafði borist hér framhjá daginn áður; þenna dag heyrðust einstöku dynkir frá jöklinum. Flóð fór þá siðla dags fram af Mýrdalssandi; næsta nótt var einmuna blið, þó með vanalegum glæringum.

Þann 15. Júlí var vindsvali frá hafi, sást þá ei vel til jökulsins, en dynkir nokkrir heyrðust, bersýnilega hélt jökulleirinn áfram að hækka fram á sandinn austan undir Hafursey, austur af hverri vatnshlaupunum gat því ei annað en hallað í þá átt sem vissi að Álftaveri. Þenna dag, stundu fyrir mið-

aftan, kom hér vanaleg vatnsfylling, hverri um sólsetur tók að fjara aftur. Næsta nótt var blíð og spök og ekkert markvert á henni. Þann 16. Júlí heyrðist snemma dags geysi vatnsniður í vestrinu, hverjum á eftir fylgdi vatnsfylling, sem frá því stundu fyrir dagmál og það daginn út var heldur að glæðast; vindurinn var þá hvass frá vestri og útnorðri; mökkurinn sami með býsna sandfalli litaði jökulinn biksvartan; annað slagið sýndist þó mökkurinn lítið eitt mjórri niður við gjána. Á næstu nótt, sem var einkar blíð, fór seinastnefndu vatnsflóði heldur að þverra. Þann 17. Júlí var losvindi frá útsuðri, feiki-vatnsflóð á sandinum, sem hingað kom á nóni og viðhélzt daginn út; náði eg nú með fylgi að mér búsmala mínum. Næstu nótt var stinningshafkaldi; seinastnefnt vatnsflóð stóð enn við sama og það næsta dag út, nefnilega þann 18. Júlí, þá rokkaði vindurinn til úr ýmsum áttum, þokaðist loks upp og gjörði talsverða skúr; undir sólsetur fjaraði aðeins lítilsháttar tjeðri vatnsfyllingu. Á næstu nótt var kulur af landnorðri. Þann 19. Júlí var sami stinningsvindur, einkum frá landnorðri og eftir hádegi fór fyrst að fjara á sandinum seinastnefndu vatnshlaupi og þar af fljótandi skömmu seinna hér. Á þessum degi lagði eg einkum merki til, hversu að þau áðurnefndu Huldufjöll (inn af Höfðabrekkuafrétti, skautuðu hátt upp yfir fjalljökulinn, en hann sjálfur mikið lækkaður orðinn (líklega af tæmingu vatnsins innan úr jöklinum). Á næstu nóttu var vanaleg veðurblíða, bar ekkert nýrra til. Þann 20. Júlí var hægur vindkulur frá landnorðri, þann dag fjaraði mikið vatninu á Mýrdalssandi, mökkurinn þá mjög svo breytilegur, ýmist furðulega mikill ummáls niður við uppkomu hans, en þá eftir fáein augnablik örmjór. Nú gat eg loks flutt messu á kirkju minni eftir 3 messuföll, sem Landbrotsáar fylling hafði orsakað, í hverri eg nú fótgangandi hryllilega hraktist með lífshættu. Seinast á degi þeim fór fremur að spýtast fram á sandinn, en hét ekki að næði hingað svo að nokkru sætti. Á fylgjandi nóttu fagurt veður og logn. Þann 21. Júlí var stinningsvindur frá haflandsuðri, þokaðist þá heldur upp svo að þegar á daginn leið, mistist sýn á jöklinum; smágubba var enn nú jökullinn fram á Mýrdalssand. Næsta nótt var sérlega fögur, vindsvali frá landnorðri.

Þann 22. Júlí var losvindi frá hafi, ekki sást þá til jökulsins þann dag; talsvert vatn æddi þá fram af sandinum, af

hverju hingað kom að sönnu aftur(!) fylling eftir miðaftan; á næstu nótt var veður gott, vindkulur frá landnorðri. Miðvikudaginn, þann 23. Júli, var vindur hvass frá vestri, svo að veðurmóða fól sýn á jöklinum, til þess einni stundu fyrir náttmál; lá þá mökkurinn algjörlega niðri, frá hans uppkomu að reikna 4 vikur. Drjúgt vatnskast fór samt enn nú þenna dag fram af Mýrdalssandi, sem hingað kom skömmu fyrir sólarlag, en rann bráðum af aftur. Undireins og nú að eldur þessi drapst í gjánni, breyttíst líka loftslagið, með sama þykknaði upp og gjörði á fylgjandi degi, ɔ: 24. Júlí, drjúgan regnskvett; alt fyrir það hélt jökullinn þó áfram aftur dagsdaglega að spýta frá sér vatni niður á sandinn, fram úr oftnefndu gljúfrí fyrir austan fjallið Hafursey, hverjar vatnsfyllingar ávalt náðu hingað í suðurhluta Álftavers, þareð öllu veitti til landsuðurs niður frá fjalljöklinum, eftir áðursögðu, en bærinn minn (Mýrar) liggur rétt andspænis þessu og því aðeins rétt náttúrlega mjög svo víðsýnt upp þangað, í staðinn fyrir það, að þeir tveir aðrir, sem ogsvo líka héldu dagbók yfir jökulgos þetta, nefnilega herra chirurgus S. Paulsen og merkismaður Mr. Eiríkur Sigurðsson á Höfðabrekku, gátu ómögulega séð frá híbýlum sínum hið minsta til gjárinnar, vegna þess mörg fjöll og einkum hájökullinn, norðan undir hverjum hún liggur, skygði algjörlega á þá í þeim pósti.

Þann 1. Augusti lagði eg fyrst merki til, að vatn með minsta slag rann frá jöklinum, þó viðhéldust vatnsspýjur þaðan við og við, fram af Mýrdalssandi, úr oftnefndu gljúfri fyrir austan Hafursey og það enn nú seinast í gær (nefnil. 8. Augusti) og með þessu niðurlagi hætti eg þá að færa dagbókina yfir framanskrífað Kötlugos.

*Fáar athugasemdir bættar við það framanskrifaða.*

Með ásettu ráði hefi eg fjölorðastur orðið um öll atvik, sem mér komu fyrir sjónir við nákvæmasta athuga, sem svo greinilega sá alt hvað framfór, meðan á nefndu gosi stóð, einsog líka með vindstöðu og hvað helzt annað þá, fullviss um, víst í því falli, orðsháttarins fyllingu »superflua non nocent.« Um þann frekari skaða, sem þetta Kötluhlaup var Álftaveri ollandi, fæ eg ei til hlítar útskýringu gefið, vegna þess skemdir þær voru ei reglulega metnar, utan hvað mína mensaljörð Mýrar snertir, hvers áður er getið, að öðru leyti

leið ogsvo líka Þykkvabæjarklaustur ásamt með hjáleigu við það kendri og næstu bæjum Sauðhúsnesi, Hraungerði og Hraunbæ, mikinn skaða, einkum á engjum sínum, einsog líka melaplássi, hvers kollar svonefndir að undirstöðu sinni til eru sandur, en þéttvaxnír að ofan af mel og blőðku; heilmörgum af þessum skolaði vatnshlaupið í burtu. Bærinn Bólhraun aftókst algjörlega; Jórvík og Skálmarbær liðu ogsvo hérvið skaða á útengjum; Landbrotsá svonefnd, sem rann millum mín og kirkju minnar á Þykkvabæjarklaustri, og í hverri áður var eintómt bergvatn, safnaðir bæjarlækir til samans, en eftir þetta gos valt hún fram beint frá jöklinum með hvítum jökulgormi, hún er sú kvísl, sem að bana varð þeim þrem, sýslumanni Øefjord, síra Páli og Benedikt bónda. Yfir þetta eftir gosið óttalega vatn hlaut eg og mestur hluti sóknar minnar, fyrst á hestum með stórum umbrotum í botnlausri jökulforarbleytu, með heilmörgum stikum af tré, sem settar voru til leiðarvísirs andspænis hver annari, en þó oftar vaðandi alt í holhendur að hætta lífinu, unz eg þreyttur af slíkri vosbúð, befordraðist til Ofanleitis á Vestmannaeyjum árið 1827 og hingað kominn viðbætti eg þessum fáu anmerkingum. Það sem okkar ódauðlegi föðurlandsvinur og fræðari dr. juris M. Stephensen lætur ritað í Kl.pósti, 1. September 1823 bls. 144 um, að Kötlugos þetta »hafi vart staðið 3ja vikna tíma,« er prentfeil. Dagbók mín sýnir þess uppkomu þann 26. Júní og endalok þann 23. Júlí, incl. það teljast mér 4 vikur réttar. Nærri má geta, hvílík eyðilegging Álftaveri var vís, hefði þau mörgu vatnshlaup úr Kötlu gosið öll í einu.

Jafnvel þótt í straxnefndu riti Kl-pósti og á þeirri hér að framan tilgreindu bls.og fylgjandi þar tveimur, sé greinilega getið minnar ferðar til Kötlu á árinu 1823 vil eg samt með eigin hendi viðtengja hana dagbók minni yfir Kötlugosið. Hún er þá þannig hljóðandi.

### *Ferð til Kötlugjáar.*

Þriðjudaginn, þann 12. Augusti 1823 í eindreginni en þó hægri norðanátt, fýsti mig mjög svo til að njósna um ásigkomulag þeirrar nafnkendu Kötlugjáar, því heldur til fróðleiks, sem vícelögmanni Eggert Ólafssyni við hans ferð upp til hennar, 28. Augusti 1756, ekki tókst, sökum óveðurs þar uppi, að

sjá hana glögt eða fá henni greinilega lýst, lagði eg því á nefndum degi á stað ásamt hreppstjóra Þorkeli Jónssyni og tveimur öðrum, Bjarna Magnússyni og Sigurði Jónssyni, einni stundu yfir dagmál, frá Skálmarbæ, efsta bæ í Veri, og komum við undir jökulinn upp og vestur af svonefndu Sandfelli á Mýrdalssandi rétt um miðmunda, hvar við bundum hesta vora og lögðum strax uppeftir löngu gljúfri, sem í straxnefndum stað liggur þar inn í jökulinn, og án þess staðar að nema og án sérlegra hindrana komustum við upp sem nálægast var gjáarinnar norðari barmi, rétt um miðaftan, en þar ómögulegt var fyrir þéttustu jökulsprungum, feikidjúpum, að komast fram að gjánni (gjáarbarminum), leituðum við upp á hæzta fjalltindinn norðan til við gjána og komustum upp þangað einni stundu eftir miðaftan. Þar eru annars 4 klettatindar í röð frá A. til V. af blökku hellugrjóti og fann eg þar í hrafntinnutegund (obsidian); sá næsti þeim vestasta var hæstur; þar numum við staðar og hlóðum vörðu stóra á honum og einum hnúk til. Þaðan var víðsýnt ofan yfir gjána, þannig ásigkomna. Hennar upptök eru í slakkanum norðvestan undir og niður með Mýrdalsjökuls hæsta tindi, hvaðan er mjög svo hátt og þvergnýpt ofan í hana sunnanverða. Stærst sprunga hennar gengur í fyrstu frá SV. til NA. en síðan verður stefna hennar aðallega úr gagnstæðri átt, frá SA. til NV. og eins gljúfur frá gjánni, sem stefna krókótt gegnum falljökulinn til Hafurseyjarfjalls, (sem stendur á Mýrdalssandi laust frá falljöklinum). Um lengd hennar verður ekkert víst sagt utan með mælingarfræði. Sá mikli jökulgeimur, sem er á millum þeirra tveggja hæstu jökulhnúka, hefir við framrás vatnsins mjög niðursigið og við það sprungið í sundur í ótal sprungur og losnað við fjallshnúkana. Nokkrar af sprungum þeim, sem við hlutum að klöngrast og stökkva yfir, héldum við vera hér um 100 faðma að dýpt, svolengi sem við gátum séð niður eftir þeim (en víða sáum við ekki botninn), en að ofanverðu hér um faðm að vídd, og nálægt gjánni urðu þær sprungur mjög þéttar og ófærar yfir um, svo að ei varð að henni nær komist. Þessi geysiþykt hins sprungna jökuls hafði myndað Kötlugjá og lagst ofan yfir hennar op. Í sínum kyngis-uppköstum hafði hún hér og hvar til að sjá slett brennisteinsklessum, að hverjum við fengum ekki komist. Þær miklu missmíðir þar uppi, jökuldrangar (í pyramídiskri

lögun) og margföld umbrot, verða ekki útþýdd, né komið orðum að, einasta líð eg mér þess að geta, að þegar slétt er orðið, eður einkum farinn að bunga upp jökullinn millum áðurnefndra tveggja hæstu jökulhnúkanna, mega þeir sem þá lifa óttast fyrir nýju Kötlugjáargosi, og ef það þá skyldi taka skemstan veg gegnum jökulinn (tekur þá stefnu) nefnilega niður með Sandfelli (framúr okkar upphaflega nefnda göngugljúfri), mundi þá Álftaveri og miklum hluta Meðallands mikil hætta búin. Nálægt gjánni var sandfallið minst, en jafnfallið, þá frá henni dró á jöklinum, hérum $^1/_4$ alin á þykt. Frost hafði allan þann dag verið þar norðan á móti, en hiti baðað að völlum í bygðinni. Þegar við nú frá okkar áðurnefnda vörðuhnúki, höfðum litist eftir og fræðst um það mögulega, sem þar var yfir að líta (fullkomlega frískir loftslagsins vegna og með endurhrestum hug af víntári) lögðum við þaðan, einni stundu fyrir náttmál (kl. 8 e. m. d.) og með hörðustu ferð komum við stundu eftir náttmál (kl. $10^1/_2$ e. m. d.) niður af jöklinum til hesta vorra, en einni klukkustund eftir miðnótt að Skálmarbæ í Veri. Fýsi nokkurn til að njósna frekara um Kötlugjá, er eg (Jón Austmann pr.) falur til að fylgja þeim þangað í eindregnu, heiðskýru veðri, þó með því móti að hinir sömu séu hvorki lífhræddir né framhaldamiklir.

Jón Austmann.

Ekki alleinasta í saklausum heldur velmeintum tilgangi hefi eg afskrifað framanstandandi Afhandling um Kötlugosið seinasta út af dagbók minni yfir það (hver að glatast kann auðveldlega að mér örendum) og hafi eg hérmeð þá æru, að tilsenda þetta okkar geistlega góða landsföður, hans háeðla og háæruverðugheitum, herra biskupi St. Johnsen, með auðmjúkustu ósk, það hæstsami vildi láta sér þóknast, annaðhvort sjálfur að behalda nefndri Afhandlingu ellegar ráðstafa henni á réttan stað í bókmentafélagsins herfórur.

Ofanleiti, þann 1sta Februarii 1845.

J. Austmann.

Háeðla og háæruverðugum biskupi yfir Íslandi hra St. Johnsen, Command. af Dbr. og Dbr.m. á

Laugarnesi.

## VII. LÝSING Á KÖTLUGJÁRGOSINU 1823.

eftir

*Svein Pálsson.*[1])

---

Formáli.

Svo hefur nokkrum sýnst, sem prófasturinn síra Jón Steingrímsson, í sínu fróðlega ritsafni um Kötlugjá og hennar hlaup hafi miður réttilega — ef ekki tileinkað henni eldhlaup þau öll, sem menn til vita komið hafi úr jökli þeim, er að vestanverðu heitir Eyjafjalla,- í miðjunni Sólheima,- og að austanverðu Mýrdalsjökull, þá þó — talið hlaupin úr nefndum jökli í samfellu, sem hefðu þau öll komið úr einu og sama eldvarpi, nefnil. hinu austasta, er nú kallast Katla eða Kötlugjá. En bæði mun frekari skoðun og kunnugleikur um þennan jökul, líka eftirfylgjandi ritlingur sýna, að sá lærði og fróði maður var sannleiknum nálægari, en áður umgetnir óreyndu og hálf- eður alls ókunnugu umdæmendur ætla. Nú á tímum skal hvergi á þessum jökli finnast merki nema til tveggja eldvarpa (crateres); er hið minna ummáls á vesturenda hans, eða svokölluðum Hájökli (Cap Hecla), nálægt Guðna- (eða sem sumir halda réttar Goða- eða Guða-) steini, og hið stærra á hans austurenda, norður af prestssetrinu Heiði, eða hin svo kallaða Kötlugjá.[2]) Af áðurnefndum Hájökli er auðsjáanlegt, að gil eða dalur gengur undir jökulinum austan frá Kötlu til suðvesturs, niður fyrir sunnan fjallið Hvítmögu á Sólheimalandi, úr hverju gili eflaust komið hafa vatns og eldhlaup þau öll, sem í annálum nefnd eru úr Sólheimajökli, og gegnum

---

[1]) Eftir eiginhandarriti Sveins læknis Pálssonar í Lbs. 210—4°.

[2]) Jón pr. Austmann er sá einasti, sam hingaðtil hefur aðgætt þetta eldvarp. Sjá Klausturpóst ársins 1823.

þetta gil eða dal sýnir alþekt svört aurrönd eftir eða ofan á jöklinum, þegar mest er þeyjað á sumrum, að Jökulsá hefur sitt rensli alt austan úr Kötlu, hvaðan þá er auðvitað komið hafi nýlega nefnd hlaup og eldgos niður undan, en ekki úr Sólheimajökli. En hvað nú viðvíkur hinu vestara eldvarpi, á Hájöklinum, svo langt burtu frá Kötlu, þá er aðgætandi: Yrði sú tilgáta hinna yngri spekinga sönnuð, að kjarni eða miðpunktur hnattanna sé eldur æ brennandi, er á vissum tímum borar sig út úr yfirborði þeirra, nú hér nú þar, og máske sé af hinum alhaga ætlaður til að sprengja loks hvern hnött til fulls að síðustu, þá væri hægt að ímynda sér og ekkert líklegra en að 2 svo nálæg eldvörp sem þessi — og hver þorir að neita fleiri fjarlægari? — hafi fyrst eina sömu aðalpípu innan frá, hver aldrei geti saman lukst, þar hið insta, og eldkjarnanum næsta af hnettinum sé líklega orðið að þessháttar materíu, sem hvorki fái bræðst né brunnið, heldur einungis sprungið, ef hvergi næði útrás; en því lengra frá eldstónni inst, eða því nær sem dregur yfirborði hnattarins, því heldur teppist pípan, seinast í hverju eldgosi.[1]) Komist þá ekki næsta gos út í sama stað og áður, leitar það á hvar lausara er fyrir, sem nálægast enu fyrra og margoft víða undir eins.[2]) Það er því alllíklegt, að einn og hinn sami sé gangurinn að innan eða neðanverðu til þessara 2 eldvarpa hvaraf aftur getur leitt 2 náskyldar ímyndanir, nefnil. að eldvarpið í Hájöklinum sé miklu eldra en hið eystra, og svo að kalla upprunalegt undir þessum jökli, og að bæði eldgosin, það úr Hájöklinum 1821 og þetta úr Kötlu 1823, hafi verið eitt og hið sama að upprunanum,[3]) en vestra eldvarpið farið

---

[1]) Þetta er auðsjáanlegt á Heklu, hvar ganga má niður í botn á síðasta eldvarpi, þegar úr því er leystur snjór í Ágústmánuði.

[2]) Ár 1597 brunnu 18 eldar í og um kring Heklu undir eins. Það er ekki ólíklegt, að því oftar brenni í sama stað, og sloknar á milli, þess heldur teppist svo að lokunum, að aldrei brenni þar framar, hvar um tilgangur ritlings þessa bannar ítarlegri getgátur.

[3]) Svo sýnist í fljótu áliti, sem eldar þeir, er voru að brenna á Reykjanesi og nálægum plássum frá 1210 lengstum til 1240, hingað og þangað, eins og hinir í og um kring Kröflu frá 1724 til 1730, og sá gífurlegi á Síðumannaafrétti 1783, úr ótal eldvörpum, hafi — hvað menn alment kalla jarðeld — haft efni og upptök sín mjög utarlega og nálægt yfirborði hnattar vors. Þó verður hin meiningin ei síður senni-

svo að þrengjast að innan og langt upp eftir, að hitinn neðan frá, sem ekki gat fengið svo loft að nægði þar um, en þó nokkurt, leitaði um siðir út úr því eystra, viðara og siður tepta. Og sjónarlegt var það, að minna varð af hvorutveggja þessara eldgosa, en líklegt mátti þykja eftir hinum fyrri, — hvað hver þenkjandi ætti og mætti taka sér til verðugrar og almættinu þakklátlegu skyldugrar íhugunar. — Máske og héðan mætti og leiða rök til þess, er margir báru sér í munn; að eins og vestra eldvarpið varð fyrra til að gjósa, svo bæði fylgdi því gosi meiri ólyfjan, líka virtist sem sú þaðan uppspúða materia væri minna útverkuð eða brunnin, en hin seinni úr Kötlu, sem eldurinn svo miklu lengur hafði upp á verkað.[1])

Eftirfylgjandi Kötlueldsfrásaga, er annars samanlesin úr 3 dagbókum, er sín af hverjum haldnar voru yfir þetta gos: sú fyrsta í Vík í Mýrdal af Districtslæknir Sveini Pálssyni, er þetta nú ritar, önnur af gáfuðum bónda og listamanni, Eiriki Sighvatssyni á Höfðabrekku, hin 3. af Jóni presti Austmann, á Mýrum í Alftaveri, hver síðasta er að því leyti merkilegust, sem velnefndur prestur sá daglega andspænis og alt um kring sig þær geigvænlegu verkanir jökulhlaupsins, hvar það hafði sitt fríasta rensli, eins og oftast áður fram yfir austanverðan Mýrdalssand, og Álftaverið. Sé áfram haldið tölu hlaupanna úr þessum jökli, eins og Jón prófastur Steingrímsson hefur gjört, þá verður Hájökulgosið, sem byrjaði þann 20. desember 1821, hið fjórtánda,[2]) en þetta fimtánda.

---

leg, að hér hafi einungis verið ein aðalpípa frá þeirri instu eldstó; þau ógrynni af hraunum, sem upp eru ollin úr þessum, einsog öðrum nýgjörðum eldvörpum, án þess jörðin sigi um kring eða sökkvi niður, virðast óræk merki til, að eldurinn er innarlega eða langt neðan frá í fyrstu. —

[1]) Þó að úr Hájöklinum væri að gufa og rjúka lengi eftir að sloknað var og ekki eymdi úr Kötlu, til vissu langt fram á árið 1826, getur verið létt að skilja, þó bæði þessi eldvörp væru frá sömu aðalpípu; máske hún hér sé upp í gegn orðin svo gleruð að innan, en þótt aldrei svo mjó og þröng, að ekki geti tepst til fulls, að ei gufi öðru hverju.

[2]) Þess er að vona, að einhver af svo mörgum merkum mönnum og aðgætnum, er daglega gafst tækifæri á að sjá nefnt Hájökulgos og verkanir þess, bæði utar- og innarlega frá, úr Fljótshlíð, Hvolhrepp

Ofan á nær því frostalausan og snjóalítinn vetur, alt fram um sumarmál 1823, fylgdi í kaldara lagi vor, að framanverðu óstöðugt, snjóasamt með hörðum frostaköflum og landnorðanstormum, þá líkara lagi gróðri hér eystra nálægt fjöllum, þangað til um trínitatishelgi, seint í maímánuði, að veðrið snerist upp í stöðuga norðlæga þyrringa með náttfrostum og sífeldum brælum — eða þræsingsvindum á austan eða vestan, hvort heldur loftið var þykkfengið eða heiðríkt, svo nú tók nálega fyrir gróður, er menn mest kendu um hafísum, til hverra fréttist úr Múlasýslu, kringum Langanes til Hornafjarðar, jafnvel síðast í aprílmánuði. Vertíðar fiskirí var hér í Mýrdal í betra lagi en alt fiskikyn óvenjulega magurt og lifrarlítið, hvað þá helzt var eignað þeim í fyrravetur geysandi eldi í Eyjafjallajökli, jafnvel þó menn ekki til vissu hann síðan næstl. jól (1822) gosið hefði öðru en hvítum vatnsgufureyk. Eftir því tóku fleiri en færri á ofanverðu sumri 1822, að allur austari hluti Mýrdalsjökuls um kring og niður frá Kötlugjár afstöðu var sem lækkaði, svo ýmsir hnjúkar þar í nánd virtust komnir fram, er ei sáust áður. Þó var auðsýnileg þessu samfara einhver þurða i jökulvötnum á Mýrdalssandi alt þetta vor, fram undir hlaupið, svo að í Múlakvísl og Eyjará, sem koma undan vestanverðum Kötlufalljökli, hvar oftast hefur hlaupið, sást ekki jökulvatnslitur og lítið eitt í Leirá.

Þann 26. júní sama ár um morguninn einsog nokkra daga á undan, eindræg norðanátt, þó hér vestra ekki sérlega hvast, en jökullinn í fult norður frá Vík svo óvenjulega bunkaður hvítum skýjum, hverju á bak við annað og ofan á öðru eins og ofsaveður eða mesti kafaldsbylur væri í vændum, úr hverju þó ekkert varð hér, heldur fór sem sjatnandi fram um miðjan dag, gjörði hægviðri og útrænu vestra, en þó áttin væri einlæg norðan. Eftir dagbók Austmanns prests var þar allan þennan dag talsverður vindur af norðri með ónotaleg-

---

af Rangárvöllum og úr Eyjafjallahreppi austanverðum, hafi skrásett, og á sinni tíð meðdeili það þeir sáu og aðgættu. — Tilburðir þessir eru þó þess verðir að í áreiðanlegar frásögur séu færðir, eftirkomendum til verðugrar uppvakningar um hans mikilleik, sem minna hefur fyrir að stýra þeim ógurlegu höfuðskepnum og halda þeim innan réttra takmarka, en ritarinn að letra það hann sá og heyrði.

asta nístingskulda en þótt lengst af sól sjáandi með skýjafari. Litlu fyrir og um miðaftansbil var farið mjög svo að kólna veðrið, fundust þá hér í Vík og á Höfðabrekku (hér um rúma mílu vegar beint móti suðri og lítið til suðausturs frá Kötlugjáreldvarpi), fyrstu jarðskjálftahræringar, stuttir kippir en snöggir, ei harðari en svo, að hrikti í húsum, og þar á eftir hægari, en viðvarandi hræringar, sem þó bráðum hörðnuðu, þangað til um náttmálaleyti, að hræringarnar fundust hætta og alt verða kyrt hér um fjórðung klukkustundar. Um hræringar þessar getur Austmann prestur ekkert; en stundu fyrir náttmál segir hann upp hafi dregið í landnorðri (eftir afstöðunni nálægt eða upp af hinni stóru og víðlendu Klofajökulskeðju sbr. skýringargrein hér á eftir við 2. júlí) dökkleitan dampaflóka, er samstundis jafnaði sig um alt sjóndeildarhvolfið, þaðan að sjá, með svo myrku fjúkjeli, að naumast varð ratljóst, og stóð yfir í nær heila klukkustund, en á því bar ekki fyrir vestan Mýrdalssand. Líklegast þykir þó að í því éli hafi eldvarpið fyllilega fengið andrúm og opnast, og þar í ber dagbókum frá Vík og Mýrum saman, að afhallandi náttmálum sást fyrst eldmökkur koma upp með ógnarlegri ferð, — frá Vík — að sjá vestur undan Höttu,[1]) hvern bráðum lagði til suðurs, rétt fram yfir Víkina, með eldflugum og reiðarþrumum í sífellu; en undir eins lægði vindinn og snerist í austur-landnorður svo að mökkinn, er í þessu fyrsta gosi spenti geysilega hátt í loftið upp, lagði bráðum vestur þangað til hann komst í fasta veðurstöðu frá austurlandnorðri til vestursuðvesturs, svo að lítið eitt að eins af sandi féll niður alt út á Steigarháls, og ekkert fyrir austan Vík, nema til norðurheiðanna, en miklu rigndi strax þessa fyrstu nótt yfir vestustu Mýrdalsbæi, Sólheima, Fell og Pétursey með viðvarandi eld- og reiðarslögum, sem fylgdu og líkt sem drógu sig saman, með og eftir mökknum. Rigningin var að finna líkust haglhryðjum, og var í hverju haglhorni hér um

---

[1]) Hatta er hátt fjall beint í norður frá Vík; úr vesturjaðri hennar að sjá af hlaðinu við suðurbæinn skagar lítið klettsnef einstakt, neðanvert við hamrana efstu, undan þessu nefi að neðan lagði mökkinn fyrst og oftast upp, þegar sýni var að marka; þó sýndist þegar áleið gosið, sem hann hvirfi undir Höttu, eða til landnorðurs, samkvæmt dagbók Austmanns prests.

bil tveir þriðjungar af ís, og einn af kolsvörtum eldfjallasandi; höfðu þessi korn súrsaltan, íbarkandi smekk. Vegna áðursagðrar veðurstöðu var það að sjaldan sást hvorki fyr né síðar til sjálfs eldbálsins frá Vík, jafnvel þótt það sæist margoft bæði fyrir austan og vestur um sveitir, því mökkinn lagði alloftast fram af og vestur með jöklinum, gengu því litlu eftir mökkurinn sást fyrst, 2 smalapiltar frá Vík norður á Höttutind, til að vita hvað þeir sæju til Sandsins hvar hlaup þessi hafa vanalegast fram yfir gengið, en gátu ei haldist þar við fyrir eldslögum og óþolandi kulda, sáu samt þaðan til jökulskriðsins fram hjá Hafursey, einstöku fjalli efst á Sandinum, rétt við Kötlu-falljökulinn. Sýndist þeim það velta fram hægt og hægt, en á undan því fara líkast jóreykjarstrokum upp úr þeim langvarandi þurra sandi. Nálægt miðri nóttu eða stundu eftir þeir komu heim aftur, byrjaði vatnshlaup nokkurt með smáíshroða, og jökulleirsbleytu austur með Víkurfjalli, fylti þar upp öll sjávarlón, nær því upp að túni, suður undir malarkamb og vestur í Víkurá hvar það féll í sjó út, rétt austan undir Reynisfjalli. Fylgdi þessu jökulhlaupi eins og fyrstu sandrigningunni nístandi kuldi, og það svo að lækir uppi til fjalldala urðu harðstaðir og upphlaupnir. Um þetta fyrsta vatnshlaup ritar Austmann prestur sem fylgir: »Að liðnum náttmálum grisjaði svo til í lofti, að í útnorðri héðan frá Mýrum að sjá, norðaustan við hæsta Mýrdalsjökulinn kom upp geysilega mikill elds- og reykjarmökkur furðu hátt í loft, sýndist sem hvervetna stafaði niður úr honum á að geta öskufall. Ekki beið lengi þangað til eg sá út úr falljöklinum fyrir norðan Hafursey neðarlega fossa vatnsflóð mikið sem jafnaði sig um jökulinn, og virtist sem færði sig upp eftir honum, er eg gjörði mér í lund orsakast mundi af vaxandi vatnsfyllingu undir og innan í honum að ofan. Tóku nú strax að sjást talsverðar leiftranir. Stinningsvindur viðhélzt frá norðri, kuldinn sami og með honum töluverður frjósandi. Tæpri eykt eftir miðja nótt kom vatnsflóðið hingað fram frá jöklinum, fylti strax upp, rann út úr ár- og lækjarfarvegum öllum yfir engjar og haga. Mörgum sauðkindum var með hættu bjargað af fólki mínu, og rekið á hæstu staði undan þessu flóði, hverju allavega fylgdi þykk hrönn af smáum jökulísi.« »Að liðuglega liðnum náttmálum,« ritar Eiríkur bóndi, »kom jökulhlaupið fram úr Múlakvíslarfarveg fyrir utan Hafursey með

jakaferð og æðigangi alt í sjó fram og á litlum tíma braut í sundur háa sandöldu vestanvert suður frá Kaplagörðum, og spýtti þar töluverðu vatnsfalli vestur með Höfðabrekkufjöllum fyrir neðan bæinn, alt út í Kerlingardalsá, fylti hana upp og stíflaði að sunnan og spenti alt út í Víkurá,« sem áður er sagt. Annað vatns og jökulhlaup fór fram fyrir austan Hafursey, er fylti strax upp alla farvegi á sandinum á litlum tíma austur undir Álftaver, alt fram í sjó; var þess þá ei langt að bíða, að engin sandalda né eyri sást upp úr taka, milli Hjörleifshöfða og Bólhrauna, nema lítill sandgígur fyrir austan Höfðann og 2 sandhólar, eftirstöðvar af áður svonefndri Lágey og Lambeyjarjökli, samt hæstu hraunhólar í Dyralækjum, og nokkuð af Herjólfstaðabót. Þriðji hluti hlaupsins fór fram yfir Álftaver, í Landbrotsá, fylti hana svo upp, að nær því flaut kringum Þykkvabæjarklausturs stað; 15 faðma hér um bil frá kálgarðinum á Mýrum; undir fjós og heygarð í Sauðhúsnesi, samt kæfði slægjur og hagmýrar í vatni og jökuleðju; en hross þau, sem voru á mýrunum fyrir austan ána, stóðu þar sem komin voru í miðjar síður og taglmark, meðan á þessu stóð. Þegar mökkurinn — ritar þessi sami maður — sást fyrst koma upp, var vinnustúlka mín nýfarin eftir kúpeningi á sandinum inn frá Núpum, sendi eg þá son minn Ólaf í flýti á eftir henni til að bjarga henni og kúnum undan hlaupinu; lét hann hana fylgja þeim upp Núpaveg, en reið sjálfur fram fyrir austan Háfell og sá þá fyrst vatnsgusurnar fram af jöklinum fyrir norðan Hafursey, hélt samt áfram suður að sjó til að hjálpa sauðfé af sandinum ef hitta kynni, síðan í mesta hasti út eftir sandinum, hvar hann vissi fjárstöður og svo upp hálsinn rétt í því, að hlaupið braut sig vestur með hjá Skiphellir út í Kerlingardalsá. Merkilegt var að maður, sem út yfir sandinn fór rétt fyrir sólarlag, gætti ekki hlaupsins, sem þó kom rétt á hæla honum.

Þann 27 — skrifar dagbókarritarinn í Vík, — þegar eg kom heim til mín utan yfir Ós, skömmu eftir sólaruppkomu var jökulhlaupsvatnið út í Víkurá farið töluvert að þverra, sást þá ekkert til jökulsins, hvorki út né austur fyrir mekki, og þoku með viðvarandi dunum og reiðarslögum, ásamt smájarðskjálftum endur og sinnum, helzt síðari hluta dags; þeim nú auðséða tildráttarkrafti þessara háu jökla, sem ávalir eru alt um kring, mátti það þakka, að þótt áttin stöðugt væri

norðlæg, sló bæði vindi og mökk vestur með jöklinum hér að framan, svo lítið eða ekki bar á sandrigningu á þessum næstu bæjum við eldvarpið að sunnan. En um kvöldið og nóttina eftir varð sandfallið sterkast af því, það nokkurn tíma varð á fyrnefndum vestustu bæjum hér í sveit, alt út undir Skógá; því þar plagar norðanáttin vegna lægðar og ávala Mýrdalsjökulsins að slá beint suður eða fram úr Skógaheiði. — Þennan sama dag — skrifar Austmann prestur — að frá um miðsmorgunsleyti hafi vatnið þar verið að þverra, og Eiríkur segir, að um kvöldið muni fært hafa verið austur á Höfða, en meinar, að þeim mun meira vatns- og jökulhlaup hafi gengið fram yfir miðsandinn milli Höfðans og Bólhrauna og jafnvel fram yfir eða um kring síðarnefndan bæ. Snemma dagsins kveðst prestur hafa séð til eldvarpsins töluverða lægð í falljökulinn, og vatnsrensli mikið fram yfir hann að ofan; en að hallandi degi byrgði veðurmóða og mökkur, svo að ekkert sást, hvað þar uppi fram fór, og um kvöldið gerði svækju í Verinu og lítið eitt í Vík, en afrétt og fjöll norður af Höfðabrekku alhvít af snjó.

Þann 28. var hér í Vík einsog daginn fyrir, logn og þurt veður, en þykt loft með skýjadeild, nema hvað alt himinhvolfið var líkt sem þunnblikað af eldmóðunni, svo ekkert sást til eldvarpsins, en dunur og reiðarslög heyrðust þeim mun ógurlegri allan þennan dag. Um kvöldið og nóttina eftir gjörði hér nokkrar regn-áleiðingar, hvar við sú lengi áður dauð-þyrsta jörð endurlifnaði stórum, hvar sandi hafði ekki rignt um of. En um nóttina og kvöldið fyrir hafði svo sandfent á Sólheimum, að af voru allir hagar, og húsagluggar svo tilbyrgðir um morguninn, sem í mestu vetrarkaföldum; sandhaglafannirnar svo harðar að varla markaði á þeim mannaspor. Þennan dag reið eg austur að Höfðabrekku, austasta og hæstliggjandi bæ í Mýrdalnum, til að forvitnast um nývirki þessa hlaups á Mýrdalssandi. Gengum við nokkrir saman upp á Háfell, rétt fyrir austan bæinn, hvaðan vel má sjá yfir allan sandinn. Virtist okkur þaðan sem hlaupið hefði komið vestan til undan og fram af þeim mikla Kötlufalljökli jafnvel nokkuð spýzt fram úr svokölluðu Remundargili á Höfðabrekkuafrétti, með ógrynni af smáum isstykkjum, ekki stórum jökulbrotum, en því meira af sandi og aur, gengið strax fyrsta kvöldið fram í Múlakvísl, og fylt þar að mestu

milli aldna[1]) fyrir vestan Hafursey og Hjörleifshöfða suður í sjó; um leið og hlaupið gekk fram og suður frá Kaplagörðum, hefur það að vestanverðu fundið fyrir sér afætur nokkrar, máske holur eftir þiðnaða jaka frá fyrri hlaupum, og þar rifið sig niður og gjört farveg nokkurn vestur í svonefnda Skiphellis-kvísl, eins og fyr er ádrepið, rétt sunnan við alfaraveginn, hvar það hefur aftekið fallegar og ekki ótalsverðar nýgræðu-fitjar frá Höfðabrekku. Auk þessa sást alt hvað deilt varð á sandinum fyrir austan Hafursey og Höfðann, var grátt af íshroða, að frátekinni mjórri ræmu undan Hafursey, suður og austanvert við Höfðann alt að sjó. Bólhraunahagar alt austur að svokölluðum Lágnahálsi, Dýralækjarbót, talsvert melpláss, og sú melríka, fyrir fám árum umþrætta og þingaða Herjúlfsstaðabót, að mestu leyti, var alt til að sjá komið undir vatn og jökulhrannir. Falljökullinn sjálfur efst á sandinum, sýndist að sönnu ná eins langt fram og áður, en vera stórum lægri fyrir vestan og norðan Hafursey, og upp í hann hér og hvar framsprungin gljúfur mikil að kunnugum virtist austan og vestan undir áður svokallaðri Moldheiði, er fyrir löngu skal undir jökul komin; úr gljúfrum þessum skaut upp endur og sinnum hvítum gufuskýjum, sem hurfu jafnótt og þau upp komu. Seint um daginn aðgætti fólk heiman frá Vík eitthvað fljóta á sjónum, sem þar gengur nálægt heim undir tún, og alla þessa tíð var sem menn kalla sandadauður eða brimlaus, vestur með skamt frá landi, líkast til að sjá trjáflota, eða uppi morandi hvalflikkjum; — en þegar menn — sem jafnvel voru komnir til ferðar, til að fá skip úti í Reynishverfi, til að grenslast um þetta, — komu hærra upp í Reynisfjall að austan, og sáu að ofan yfir þennan flota var það líkara stórum heyskánum eða flekkjum, sem vatnaði upp í gegnum hér og hvar, var þá tilgetið að hlaupið máske væri búið að sópa burt bæjum og heygörðum úr Álftaveri,

[1]) Öldur kalla Skaftfellingar sér í lagi sand- og aurhryggi þá sem verða á milli og innanum farvegana, þar sem jökulstykkjahrannir ná botni og stöðvast í framrenslinu, í og eftir þau stórkostlegu jökulhlaup; þessar öldur kalla þeir og alment „jökla,“ þar þær að innan eru, menn vita ei hvað lengi — einlægur jökulís, grafinn í aur og sand, og sumstaðar grasi vaxið þegar frá líður, í fyrstu margra faðma háar, en lækka eftir sem þiðnar að innan.

en síðar vitnaðist að þetta voru flækjur af svokölluðu sumtagi og buska, eða rótum undan mel (elymus arenarius) úr stærstu melakollum, sem hlaupið hafði með heilu og höldnu sópað burt með sér úr Herjúlfsstaðabót eða öðrum melplássum á Mýrdalssandi.[1]) Um morguninn sama dags kom geysilegt vatnshlaup í annað sinn fram yfir Álftaver með megnum jökulhroða, er á dagmálum var engu minna orðið en hið fyrsta, en tók þá heldur að réna. Leiftranir og einstaka dunur heyrðust og sáust. Sólskin var dauft og hægur vindblær frá haflandsuðri. Ekki sást til vatns niður af falljöklinum, því það hefur þá verið búið að rífa sig niður í gljúfur fram undan honum; en missmíði þau sáust uppi við eldvarpið, — hvaðan mökkinn nú heldur lagði til fjalla — að það virtist fremur hafa etið sig út til norðausturs. Stundu eftir nón hófst á ný frá jöklinum að heyra þungur vatnsniður, samt glæringar og dynkir úr hófi; sást þá frá Mýrum, hvernig falljökullinn niður við sandinn brotnaði upp og veltist um, rótuðust þá heilar jökuldyngjur fram á sandinn með megnu vatnsflóði, sem hingað — segir Austmann prestur, — kom í þriðja sinn beljandi fram, rétt um náttmálabil, meira en þau fyrri með voðalegri jökulhrönn, er þess á meðal stíflaði um hríð ár og farvegi alla. Fór nú fólk frá 4 bæjum, er sunnast lágu, að flýja á hæstu hóla og dvaldist þar næstu 2 nætur. Á meðal þessara bjóst eg þá — segir presturinn — til flóttaferðar austur á svokallaðan Mýrnahöfða, hæsta pláss í jarðarinnar landi, og þangað að færa tjald, matvæli og íverufӧt, dróst þó för fólks að heiman, þar vatnið að kalla stóð við sama um nóttina, svo eg lagði mig lauslega til hvíldar, en lét halda vörð á meðan. Nótt þessa var hægur gustur á norðan og hreint regn lengst af; en á Höfðabrekku krapaskúrir á austan fram undir miðjan morgun næsta dag, og um kvöldið var ei orðið meira vatn í Múlakvísl en vanalega í meðal-

---

[1]) Á Hjörleifshöfðafjöru fanst á eftir hlaupið svo mikið rekið af sjó af smáum skógarviði, að sjá nýjum með rótum og laufi, að klyfja mátti marga hesta, sýnilega rifið upp af vatni eða skriðuhlaupi, en hvaðan er vant að segja, þó sumir meini úr norðaustanverðum Hafurseyjarhvömmum.

lagi eða minna og á sandinum skift í fleiri stórkvíslir fram í sjó.[1])

Þann 29. var hér í Mýrdalnum þykt loft og gustur á landsunnan, samt smáregnskúrir fram um miðjan dag, en meira um kvöldið. Var þá líka öndverðan dag einsog hlé á dunum og eldslögum, og hlýindaveður hér ytra, þó kaldara og landnyrðara væri austar og kornéljahryðjur í Verinu. Einni stundu fyrir hádegi varð hér vart við hægan jarðskjálfta og sterkari lítið fyrir nón; en þar á eftir jukust brestir, dunur í jöklinum, sem snerist upp í varandi nið eða suðu, líkasta því að jökullinn væri að innan vel hálffullur af vatni, sem af ofsalegasta hita væri að vella og lemjast til og frá innan í ógnastóru holi, eður og því — þó í smærra sé, — sem heyrist niðri í jörðinni um kring Geysir í Biskupstungum, rétt áður hann gýs hið harðasta. Þessi suða viðhélzt án nokkurs millibils til náttmála, og sáust þá hvorki né heyrðust talsverð reiðarslög í lofti fyr en farin var sól, héldust þau síðan við alla nótt með einstöku jarðskjálftum. En þó bar ekki á töluverðri óeirð né ótjálgu í hagapeningi hér í Vík, að frátekinni sýkingu eða bráðasótt á einstöku sauðkind, er menn þó heldur álitu sandsótt af því, sem rigndi hér fyrsta kvöldið. En nú fréttist að rignt hefði svo sandi undir Eyjafjöllum alt út að Rimhúsaál, að sumir væru flúnir þaðan með skepnur sínar til útsveitanna, eins og hinir af yztu Mýrdalsbæjunum, hingað austur til vor, en þótt vér þættumst búa í stráhúsi sjálfir, enda var nú sand- og öskufallið orðið svo mikið í Sólheimasókn, að af grasi stóð ei uppúr annað en hæstu sóleyjartoppar, og á Sólheimum var sandurinn sagður $1/2$ alin þykkur á húsmænirum, og slétt fent yfir lága garða. Hér um mitt milli hádegis og dagmála kom ný vatnsfylling fram í Verið í 4. sinni, þeim mun ógurlegri hinum fyrri, sem þær voru minna fjaraðar, jökulhrannirnar altaf að aukast, og víða

---

[1]) Þar aldrei upp frá þessu varð vart við vatnshlaup í Múlakvísl, né fyrir vestan Hafursey, þá er líkast til að þennan dag hafi sig fram þrengt það síðan kunnuga drápsvatn, fyrir austan Hafursey, Kötlukvísl, (þannig fyrst allra nafngefin af landsyfirréttarassessori B. Thorarensen í hans snotra kvæði eftir sýslumann Þórarinn Oefjörð, sem í henni beið sitt endadægur), hver ekkert er annað en sú fyrverandi Múlakvísl, hvar um vísast meira síðar.

farnar að stífla farvegina, svo óttast mátti að vatnið brytist þá og þá út til hliða, og steypti sér yfir það, sem enn stóð uppúr. Að liðnu hádegi tók samt lítið að fjara, enda var þá algjörlega flotið um kring túnið á Mýrum að undanteknum rima nokkrum austur á Mýrnahöfða, hvar prestur Austmann einsog fyr er ávikið hafði hugað sér athvarf, og í því skyni að komast þangað þó úr Blönduvatni flæddi austur í Kúðafljót milli Höfða og bæjar, eður þá að öðrum kosti upp að norðurbæjum í Verínu, hvar ennþá var fritt vegna vatns (síðan fyrsta hlaupið), bundið veiðibát sinn með löngu togi við hæl á hæsta holti fyrir norðan sig á floti, til að fá bjargað sér og sínum yfir flóann, litist ekki lengur vært í Höfðanum. Skömmu eftir nón kom þar enn á ný vatnsfylling í fimta sinn, eins mikið og áður um daginn, henni fjaraði samt bráðum aftur og það svo að prestur Austmann líðandi miðjum aftni gekk út til að skoða þá jörð, sem af var fjarað; sá hann þá að mestallar engjar hans voru komnar undir $^1/_2$ álnar þykka jökulleðju, og að slétt var orðið yfir tjörn ei alllitla, 3 álna djúpa skamt fyrir framan bæinn, og yfir mikinn hluta af hinu fyrnefnda Blönduvatni,[1]) hvar hann áður á veiðibát sínum mælt hafði 8—9 álna dýpi.

Þann 30. var hér í Vík hægur blær á norðan fram um miðjan dag, en úr því næstum logn; heiðríkt loft um morguninn að austan, en vesturlofthvolfið fult af sandmistri og eldmóðu; dreif hér þá fyrst talsverðum sandi, en þótt stundum sýndist slá lítið á mökkinn frá landnorðri, því á vörmu spori lagði eins á hann frá vestri, og um hádegisbil lagði hann beint upp og fram yfir Víkina með sama hæga sand- eða öskufalli, sterkum en skjótum reiðarslögum, sem ætíð heyrðust fylgja sömu stefnu, sem mökkurinn. Annan minni mökk sýndist leggja frá eldgjánni til vesturs, rétt niður við jökulinn litla stund en hvarf bráðum. Litlu eftir hádegi óx sandrigningin, jafnt og reiðarslögin, en smámsaman bægði mökknum austur á við móti suðaustri, og rigndi þá einkum fram yfir austurbæi Mýrdalsins sandi, en í Verinu svo nær engu. Þenna dag sást hér fyrst talsverð óeirð í fé og kúm, sem

[1]) Í þessu Blönduvatni var talsverð silungaveiði. Til að geta hefur það í fyrstu fengið nafn sitt af jökuleðju, sem eitthvert hlaup hefur áður fyr í það borið, og gjört það ljósleitt um tíma á eftir.

fóru með jarmi og druni raglandi til og frá, og tóku varla niður. Eftir nón heyrðist hér eitt hið allra stærsta reiðarslag í landnorðri, og eftir það tók að rigna stórum sand- og íshöglum, sem litlu eftir að niður komu urðu að svartri eðju; þessu fylgdi kuldi og ódaunn mikill; heyrðust þaðan af mestu skruðningar og niður í landnorðri og austri bak við bygðarfjöllin, líkast því, að nýtt hlaup væri á ferð fram yfir sandinn, hvers þó ekki finst getið. Seinast um kvöldið var logn og heiðríkt að vestan, sá þá glögt allan vesturjaðarinn á þeim ógnarlega mökkstólpa, er nú sýndist ná upp í hvirfil lofts og beygjast þar lítið eitt til suðausturs, með strjálum en framúr hörðum eldslögum, sem viðhélzt alla nótt til miðsmorguns daginn eftir. Þennan dag allan, einsog næturnar fyrir og eftir, þverraði vatnshlaupið bæði fram í Kiælarana og Múlakvísl, en mun þó hafa viðhaldist á miðsandinum fram fyrir austan Hjörleifshöfða. Ferðaðist Austmann prestur þá upp að efstu bæum í Verinu, sem bezt horfðu við eldvarpinu, varð hann þess þá fyrst vís, bæði að gosið kom úr jökulhvilft þeirri, hvar Katla er sögð vera, einsog fyrri eldrit greina milli hnúka tveggja, suðaustan til á Mýrdalsjökli, þar hann er hæstur, hvar eldvarpið virtist opið frá útsuðri til landsuðurs, einsog hann áður tilgat.[1]) Líka sá hann að gjárinnar austari barmur eða slakkinn sjálfur, sem horfir móti Verinu, var talsvert lækkaður og stór klett- eða hraunhnjúkur kominn upp úr jökulísnum norðan við hvilftina, sem eldvarpið var í.[2]) Hann sá og héðan glögglega jökulgljúfrið, fram úr falljöklinum fyrir austan Hafursey, skamt frá svokölluðum Huldufjöllum, sem nú eru af jökli umgirt norður af Höfðabrekku austurafrétti.

Þann 1. júlí var þykt loft með kolsvörtum vind- og mökkskýjum, kalt og hvast á vestan-útsunnan, þurt að framan en um kvöldið þokuyrja. Mökki hélt til landsuðurs fram yfir Verið, svo að þar með úthallandi degi rigndi sandi tals-

---

[1]) Samanber 28. að framan og Kötlu uppáferðarrit prests innfært í Kl. póstsins 1823, nr. 9.

[2]) Þetta mun vera sá sami hnjúkur og presturinn síðar kom á. En hér að auk sást sumarið eftir hlaupið, ekki einungis svartur hnjúkur kominn upp úr barminum framan við eldvarpið, hvar jökulslakkinn er lægstur, heldur þar að auki í svarta, tilsýndar þverhnýpta hamra, norðan í vestari jökulhnjúk eða barmi eldvarpsins, eða uppi í sjálfu eldvarpinu af Loðinsvíknahálsi, þar sem hann er hæstur.

verðum, er mjög sveið er kom í augu fólks, en hríðgrátt var alt að sjá til fjalla frá Höfðabrekku og Vík af sandhaglarigningu nóttina og daginn áður. Strjálari, en þeim mun harðari, skruggur og suða í jöklinum heyrðust hér ytra, en langtum meira í Verinu. Mökkstrokan varð ekki deild hér vegna bræludrifsskýja í loftinu, hvar við fram yfir miðjan dag bættist óhollasta fokmóða frá Út-Mýrdalnum, hvar svo miklu hafði áður rignt, en minkað þó við regnyrjuna um kvöldið. Jarðskjálfti fanst hér að líðandi dagmálum og aftur litlu af miðjum aftni töluverður og einstöku dunur um nóttina. Þennan dag fór hreppstjórinn í Verinu, Þorkell Jónsson, að forvitnast um, hvort ekki yrði komist út yfir sandinn, en mátti bráðum hörfa á hæl vegna vatna og bleytu ógrynnandi. Um þessar mundir flýðu Út-Mýrdælir með sauðfé sitt hingað austur á bæi og sleptu því að mestu sjálfala, en kúnum komu þeir fyrir með nokkru af fólki sínu bæði út undir Eyjafjöllum og hér og hvar um Mýrdalinn miðjan, þó yfirgáfu fáir sem engir býli sín.

Þann 2. sama átt með drjúgum vindi, þurri drifþoku og skýja-deild, svo til mökksins sást ekki nema endur og sinnum milli skýjanna, og að honum hélt einsog í gær og jafnvel hafði færst nokkuð á austur-landnorður uppkoma hans að sjá frá Vík. Úr Verinu sýndist sem landsynningur kíttist með útsynningi og skiftu mökknum með sér, þó mest legði fram yfir Verið, þó með minna sandfalli en í gær. Frá því mitt milli miðsmorguns og dagmála gengu og heyrðust hér í Mýrdalnum sterkar en ekki svo tíðar þrumur, alt fram yfir miðjan dag; út því vægnaði þeim til sólarlags hér, en voru tíðari í Verinu, og vöruðu framt að mínútu hver, og héldust fram um nón. Um kvöldið sló hér vestur yfir megnri kuldaþoku, sem margir hugðu mestan part reykjargufu vestan úr Eyjafjallajökli. Um nóttina gekk mikill eldgangur og úr Verinu heyrðust einstöku dunur. Þennan dag sást frá Höfðabrekku öll Hafursey hvítgrá að ofan af snjó og sandrigningu; vatn svo mikið fram fyrir austan hana suður í sjó, austur undir Álftaver, að hvergi sást eyri nema deplar einir af Lág- og Lambeyjarjöklum um og eftir sólarlag, með slíkum hávöðum að ofan sem mestu brimsjóum við land, svo niðurinn heyrðist út að Höfðabrekku álíkt og meira lagi sjávarhljóð. Sneri þetta og aftur 2 ferðamönnum að austan, er

tepst höfðu í Verinu, en fóru nú að reyna, hvort ei kæmust áleiðis útyfir sandinn. Líka var þennan dag haldin skoðunargjörð af 2 eiðsvörnum mönnum, yfir skaðann á mensaljörðinni Mýrum og álitið að fjórðungur hennar með gjörvöllum engjum mundi tapaður.[1])

Þann 3. var heiðveður og logn fram undir miðjan dag og blika nokkur í hafi; strókaði þá mökkinn rétt upp geysilega hátt, en hvorki var hann eins svartur sem áður, ekki heldur skruggur né undirgangur til riða framan af, en hérumbil mitt milli dagmála og hádegis fanst hér töluverð hræring, hvar eftir fóru að heyrast megnir skruðningar í gjánni, en engin reiðarslög né eldingar í loftinu. Skruðningar þessir voru langtum öðruvísi, en þeir sem áður er getið um undir 29. júní, því með þeim virtist sem væri nokkurskonar tómahljóð, svo djúpt niður í jörðu, að eins var sem það gengi rétt undir fótum manns, stundum var sem hefði gang frá austri til vesturs og umvent, niðri í grundvelli jökulsins, og líktist þá næsta — þó að mikilleiknum til sé ólíku saman að jafna, — garnagauli í skepnum. Og tekið var eftir því í heiðskíru veðri síðan, að þegar gengu skruðningar til vesturs, gaus dökkleitari reykur úr Eyjafjallajökli, og ef þeir þóttu ganga til austurs varð svælan úr Kötlu megnari, og mökkurinn hærri. Hiti var venju meiri af sólu um miðdegis-

---

[1]) Þegar eldur þessi fyrst kom upp þann 26. júní, voru 2 ferðamenn úr Reynissókn, bændurnir Bjarni Þórðarson og Runólfur Sæmundsson, ásamt nokkrum Eyjafellingum staddir á Mýrum, tóku þeir það ráðs að leita upp í Skaftártungu og þaðan Mælifellssand, lögðu frá Mýrum með 20 hesta lausa laugardaginn 28. um miðjan dag, en frá Snæbýli í Tungunni á mánudaginn með sólu vestur á Mælifellssand, fengu rifahjarn á honum, og hverja sprænu lagða, fóru fram Emstrur og Þórsmörk og náðu sólsetri að Stóru-Mörk, en heim til sín í nótt er var. Sögðu þeir svo frá að fyrsta hlaupið hefði gengið meðfram austur í Skálmina, en ekki hin síðari, og aldrei austur í Tunguvötnin, Hólmsá og Leirá. Um daginn litlu áður en gosið varð, sögðu þeir að ský mikið hefði dregið upp austan frá Síðufjöllum með hvössum landnyrðingi, gekk það skjótt yfir með reiðarslögum og haglrigningu mikilli, en jafnskjótt sem það náði Mýrdals- eða Kötlugjárjöklinum, gaus upp fyrsta eldsmökksstroka þar. Ekki sýndist líklegt, að eldingu hafi þar niður slegið gegnum ísinn, og þar með kveikt í eða gefið þeim undir gos komna Vulkan andrúm. Þegar þessir ferðamenn vissu seinast til, voru kaupstaðarferðamenn komnir út yfir Kúðafljót, en sneru til baka þegar hlaupið kom, lögðu svo flestir af Síðu austur á Djúpavog og höndluðu þar um sumarið.

bilið og hægur útrænublær á útsunnan, en kúfaður jökullinn mjög í norðrinu af þokuskýjum bak við mökkinn. Meðan heitast var dags rauk og gufaði upp úr öllum leirum, hvar fyrsta jökulhlaupið hafði yfir farið, og lagði ódaun lítt þolandi. Undir kvöld setti hér yfir þoku með smáýrum í logni; 2 eða 3 hræringar fundust hér og seinni hluta dags, en minkandi fóru skruðningarnir.[1]) Frá Höfðabrekku sást um daginn, að vatnið á sandinum, er var svo stórkostlegt kvöldið áður, var nú mjög svo þverrað að vestan, en þótt það samt væri ógurlegt suður hjá Bólhraunum, (er þá virtust að mestu leyti af), ekki heldur sást stórt meira til vatns í Álftaveri, en vant var (hvar um prestur Austmann ekki heldur getur til riða þessa daga), en í högum og melaplássum fyrir ofan og vestan Verið sáu menn, að alt var fullt af tjörnum og lónum.

Þ. 4. var allan dag þoku-dimmveður á austan-landnorðan með rigningu, en snerist í stífan landsynning. Sást hvorki til mökks né heyrðust dunur til riða vegna vind- og sjávarhljóðs, þar alt bar til útnorðurs; þó voru, þegar áleið, einstaka skruðningar að heyra frá jöklinum, líka varð hér ytra vart við hræringar. Jörð og grös hreinsuðust hér og vel af hreinu regni, en málnyta var að vonum orðin mjög nytlítil, þó ekki nærri því, sem áhorfðist í fyrstu. Úr Verinu heyrðust dynkir mest fyrra part dags, og getið er þaðan um vatnskast í 7. sinni frá jöklinum,[2]) um kvöldið eftir miðaftan,

[1]) Nóttina eftir þennan dag var maður á ferð utan úr Hvolhreppi, heim á leið, sendur þangað frá Vík með sýsluskýrslur, sem vant er um þetta leyti að gefa Rentukammeri, landfógeta og amtmanni. Hann kvað þar ytra verið hafa þokulaust um nóttina, en til og úr Kötlu mesti eldgangur og logi, sem oft sýndist slá upp í hvirfil lofts, meðan dimmast var næturinnar. Þann veg var oft að eldar og blossi sást betur úr útsveitum, en hér nálægast eldfjallinu. Framar sagði þessi sendimaður þyrringu hina mestu, og grasleysi úr útsveitum, og enga enn í ferðir farna. Hafísa fyrir norðan land og eldsuppkomu norður af Heklu, sem þó ekki hefur annað verið en þessi í Kötlu, er af Landi og Hreppum svarar afstöðunni.

[2]) Í dagbók Austmanns prests er drepið á lítilfjörlega vatnsfyllingu, þ. 3. júlí, svo þessi verður hin 7. einsog hann segir, en aðgætandi er, að nú og héðan af lentu hlaupin mestmegnis á sandinum fyrir utan og austan Bólhraun, en minna í Landbrotsá, eftir því sem gljúfrið fram undan jöklinum og farvegurinn þar fram úr, samt sú fyrsta í hlaupinu aurfylta Háöldukvísl, tóku að ræsa sig fram meir og meir.

þó frá Höfðabrekku téðist minna vatn á sandinum en fyrirfarandi daga.

Þ. 5. var alt hið sama sem í gær fram yfir miðmunda, stytti hér þá upp regn og gekk heldur í austur. Einstöku hræringar fundust hér samt í Vík, en hvergi sást til eldvarpsins fyrir þykkviðri, þangað til upp stytti regn um kvöldið að settri sól. Á Mýrum varð aðeins vart við einstöku glæringar, einsog um nóttina eftir talsverðar leiftranir. Mökkurinn virtist um kvöldið lítið eitt vægari en fyr, og sandrigningar minni, þó jökullinn væri allur einsog strax eftir hið fyrsta gos kolsvartur, helzt umkring að neðan, því oft bar við, að heldur sæjust hvítir snjódeplar ofar og nær eldvarpinu, hvar lengur átti í að þiðna sandhaglarigningin, sem þar sjaldan hefur uppstytt, hvort sem úrkoma var annarstaðar eða ekki. Þennan dag, um miðmundabil, varð á Mýrum vart við lítilfjörlega vatnsfyllingu í 8. sinni, sem strax fjaraði, þó af dagbók Eiríks bónda megi sjá, að þessi hafi orðið hin grófasta á miðsandinum, alt frá sólarlagi fram til dagmála daginn eftir. Þetta kvöld gekk vindur í landnorður með bitrum kulda.

Þ. 6. Heiðríkt allan daginn og stinningskul á landnorðan, en gekk til vesturs eftir hádegi með skjótum drifskýjum. Mökkur var mjög þykkur en ekki fjarskalega hár, rigndi nokkrum bleytusandi úr drifskýjunum og merktust smáhræringar í Vík endur og sinnum, en ekkert heyrðist til eldvarpsins. Í Verinu merktist eftir miðaftan í 9. sinni lítilsháttar vatnsfylling, sem varð og töluverð í Múlakvísl, en fjöruð um sólarlag.

Þ. 7. um morguninn heiðrikt og logn fram um miðjan dag, gekk þá heldur til útrænu og sólfars,[1]) og sló yfir léttri þoku úr haflandsuðri, úr hverri hér duftaði niður öskuryki, eða dömpum austan af fjörunum. Mökk lagði þá upp meðalmáta háan,[2]) en sýndist ekki eins svartur sem fyr; þó fundust hér í Vík talsverðir jarðskjálftar fyrst undir dagmál, aftur frekari mitt milli dagmála og hádegis og mitt milli nóns og miðaftans. Heldur fór mökkurinn minkandi með úthall-

---

[1]) Sólfar og sólfaravindur kallast hér eystra þegar vindblær er austlægur eða landnyrtur á morgna en gengur með sólu og verður að útrænu síðari hluta dags.

[2]) Austmann prestur miðaði hann um miðaftansbil frá Mýrum jafnháan sólu, hvað ekki var svo sérlega hátt.

andi degi, svo hann varð lítill um kvöldið með strjálum brestum, og um nóttina með minsta móti. Þá voru fráfærur í Vík og lömbin rekin austur heiði, niður hjá Bólstað og þaðan austur í Höfðabrekkuafrétt, hvað bezt vottar, hvað lítið varð af sandfallinu þar. Vart varð þennan dag við 10. vatnskastið, þó lítið eitt í Verinu, og ei óðar en svo, að árædd var fjöruferð frá Mýrum, þó hafði vatnskast þetta sett sig fram úr Múlakvíslarfarveg, töluvert að vexti, einsog það austan frá fór vaxandi um nóttina, nær því fram til dagmála daginn eftir.[1])

Þ. 8. var hér sama þokubrek í lofti og sólfarsvindur, sem fyrri daginn, logn um morguninn og kvöldið, og hægur útrænublær um miðjan daginn, sást ekki til eldvarpsins héðan, fundust ei heldur né heyrðust hræringar né dunur, en frá Höfðabrekku sást mökkur líkur því í gær, og varð vart við einstöku skruðninga. Seint um kvöldið og um nóttina gengu hér brestir geysimiklir, þá kom og eftir miðaftan talsvert vatnshlaup í 11. sinni, fram á miðsandinn og Verið, svo að 3 menn, utan yfir Landbrotsá, teptust á Mýrum fram yfir miðjan morgun daginn eftir. Þetta hlaup rakst líka fram úr Múlakvíslarfarveg með töluverðri jökulhrönn. Þetta kvöld getur Austmann prestur fyrst um eldroða á sólu, en eg ætla hann muni oft hafa áður sést.

Þ. 9. var átt hér ytra vestlæg, en nær því logn allan dag með nokkru þokubroki um morguninn, en alheiddi til um dagmál. Mökkur þykkur en ei mjög hár, og heyrðust öðru hverju stórskruðningar, einkum seinni hluta dags.[2]) Þá var

---

[1]) Af manni héðan úr Mýrdal, kölluðum Sæ-Jón, sem í gær kom heim til sín austan úr Veri, fréttist, að hann þ. 3. þ. m. var í ferð Tungumanna og fáeinna af Síðu vestur yfir Mælifellssand, eða Gásasand. var þar mesta ófærð af snjóbleytu, þó nokkur hagi í áfangastöðum. Álftaveringar lögðu af stað til kaupferða sömu leið þ. 6. að áliðnum degi.

[2]) Þennan dag komu heim 2 menn héðan úr sveit, sem voru fyrir austan sand, þegar hlaupið kom, Guðni Guðbrandsson og Runúlfur Runúlfsson, komust þeir næstliðinn fimtudag út fyrir Loðinsvíkur en mættu þar vatnsfalli, er þeir jöfnuðu við Ölfusá við Hamraenda, og lá við þeir yrðu þar allir fyrir hlaupi, er í það kom. Lögðu þeir aftur á sunnudaginn með Veringjum upp í og norður úr Loðnugiljum vestur Gásasand í mestu snjóófærð, og komu niður að Fossi á Rang-

miklu hvassari vindur á útsunnan austur í Veri, heyrðist þangað strax á öndverðum degi drjúgur vatnsniður frá jöklinum, er bráðlega varð að brúsandi vatnshlaupi í 12. sinni fram af sandinum, sem fyrst kom suður í Verið um miðmunda, og tepti menn frá presti suður á fjörum, og fyrir utan Landbrotsá þar til um miðmunda daginn eftir, er fyrst var nokkuð fjarað. Við þetta vatnskast varð og vart í Múlakvíslarfarveg um sólarlagsleyti frá Höfðabrekku. Prestur Austmann gekk þennan dag með öðrum skamt upp í leirurnar eftir hlaupin, fyrir ofan bæ sinn, til að skoða þær, urðu þeir naumt fyrir en fengu öslað eftir mjóu eyði, ekki án hættu, heim undir bæinn, en lá við að sökkva eða verða fastir í jökulbleytunni. Auk nokkurra minni fundu þeir einn stein svo stóran, að vega þótti 18 pund, líka fundu þeir stóran hnaus, er síðar reyndist allgóður brennimór.[1])

Þ. 10. hér í Vík allan dag þykt, og þokufult þó úrkomulaust molluveður, heyrðust lengst af strjálir stórskruðningar, einsog þ. 3., er rénuðu við kvöldið. Nú sást aftur nokkuð til mökksins, sem ei var all-lítill með töluverðu öskufalli niður undir bygðarlönd. Ekki var tekið eftir vatnskasti þennan dag frá Höfðabrekku, en frá Mýrum varð vart við það í 13. sinni, er þó rann bráðum af. Þá tók Austmann prestur líka eftir því, hvað stórum Mýrdalssandur var hækkaður til að sjá úr Verinu, hvað því óttalegra mátti virðast fyrir þá sveit að nú sýndist öllu snarhalla austur þangað, kæmi stórkostlegt vatns- og jökulhlaup á ný.[2])

---

árvöllum. Sögðu þeir fyrst og gjörst frá eyðilegging hlaups þessa í Verinu, eins og áður er á drepið, og þaðan sagt undir 26. júní.

[1]) Þesskháttar mókekkir er alltítt að oft komi í vatnshlaupum undan Skeiðarár- og Breiðamerkur jöklum, helzt austast.

[2]) Það er víst, að allur þessi sandur frá Hafursey nær því austur undir framanverðan Loðinsvíknaháls, og frá Hjörleifshöfða austur úr öllu, einsog allur Múlakvíslar gamli farvegur, er stórum hækkaður og fyltur upp, svo víða nemur mörgum föðmum lóðrétt, þó tekur yfir fram af austanverðri Hafursey og fyrir vestan Háöldukvísl, sem þó snart hefur náð sínum gamla farveg. Þannig sýnist líklegt að víðar lækki, þegar tímar líða, bæði af blástrum og vatnsleysingum. Í þessu hlaupi hafa ei heldur orðið neinar háöldur á sandinum, af því svo lítið sem ekkert af jöklinum hefur í stórstykkjum fram sprungið, móti því í fyrri hlaupum, hjá hverjum þetta má sem gaman reikna.

Þ. 11. var hér austan-þoku-dumpungur og nær því logn, seint um daginn andvari á vestan, og altaf þurt. Heyrðist hvorki neitt né sást frá eldvarpinu, og alt var rólegt loftið þó auðfinnanlega fult af elds- og öskuryki. Nóttina eftir, aðlíðandi lágnætti, varð í Verinu vart við lítilfjörlegt vatnskast í 14. sinni, en þvarr bráðum.

Þ. 12. sami logn-þoku-dumpungur með norðan-andvara um morguninn, og smásvækju, en hvesti á útnorðan um miðjan dag; bar hér þá til bygða öskuryk nokkurt frá heiðunum og jafnvel sand frá eldvarpinu. Um kvöldið heiddi svo til, að nokkuð sást til mökks, bar hann þá til suður-suðvesturs, með töluverðum dunum og eldglæringum. Eftir því tók Austmann prestur þennan dag um sólsetur, að mekkinum sló snögglega niður, svo lítið til hans sást í tæpt hálfa mínútu, og gaus svo upp aftur sem áður. Mikið sandfall varð þá umkring eldvarpið, og vart varð við 15. vatnsfylling um miðmundabil, sem strax rann af aftur.[1])

Þ. 13. Lygn og heiðskír norðanátt, að fráteknum eldmökksskýjum, hér og hvar og nógu eldryki í loftinu, einsog í gær; mökkur mikill, og bar suður, svo að talsverðri ösku dreif hér í Víkinni svartglittinni, einsog vant var; en við sandhögl varð nú aldrei vart, þegar loft annars var þunt.[2]) Móti kvöldi var reykstrokan vana hvítleitari, og bar mjög í loft upp, aðeins lítið til landsuðurs, og engar dunur, jarðskjálfti fanst hér þó litlu fyrir nón. Um nóttina var sterkt náttfall, annars sjaldgæft um þessar mundir, nema aðfaranóttina hins 10. Vatnshlaupið sextánda kom í Verinu um hádegi, var ekkert farið að fjara um sólarlag, svo um kvöldmjaltir varð að sækja kýr á báti frá Mýrum; fór það fyrst að þverra um sólaruppkomuna daginn eftir. Skylt er annars hér að geta þess, að velnefndur prestur Austmann var kyr heima fram yfir lestir, hvað sem upp á kynni að koma fyrir sókn hans, en ei væri við heimili nema kvenfólk, unglingar eða gamalmenni.

---

[1]) Í þessari viku byrjuðu flestir Mýrdælingar kaupstaðarferð sína, fáeinir í fyrri viku, en fleiri ekki fyr en undir þessa helgi, vegna grasleysisfrétta að utan.

[2]) Sandhaglsrigningin mun hafa farið minkandi eftir því sem eldvarpið fékk víðara andrúm gegnum jökulísinn og vatnið þar þverraði.

Þ. 14. var þykt loft með drifskýjum, hvast á austan um morguninn, með nógu öskuryki af fjörunum, en lygndi um miðjan dag; regn til fjalla, en ekki við sjóinn fyr en lítið eitt nóttina eftir. Til jökulsins fékst ekki að sjá, fyr en um kvöldið, var mökkur þá í lægra lagi og bar til útnorðurs, samt var oft að heyra dunur þangað um kvöldið og nóttina, og vatnshlaup fór um sama leyti fram af sandi, sem ekki bar á í Verinu.

Þ. 15. þykt loft og sama átt, en nær því logn og hiti, nema lítill útrænuandvari þegar áleið; þyknaði heldur með kvöldinu og gjörði regnáleiðingu, sem þó varð lítið af, en með þessari skúr, sem hafði viktríls smekk, rigndi nokkrum sandi. Dunur og suða heyrðust nú nær alla tíð frá eldvarpinu. Í seytjánda sinni kom um miðaftan vatnshlaup yfir Verið, sem þó fór að fjara um sólarlag; auðsýnilegt var og þaðan, hve sandurinn altaf fór hækkandi austan undir Hafursey.

Þ. 16. var hér heiðríkt og hvast á landnorðan, en þó hitaveður frá um miðjan dag fram undir kvöld, gjörði þá svo mikið ösku- eða dampamistur hér upp af jörðinni, að varla sást Reynisfjall að heiman frá Vík, þó engu fyndist niður rigna. Þegar lygndi um kvöldið og loft kólnaði, seig þetta mistur niður, og sem botnfeldist, þar til það hvarf að öllu, hvar upp á fylgdi náttfall töluvert. Mökkur var þá héðan að sjá hægur og alt þegjandi. Vatnshlaup kom mikið fram á sandinn og nokkurt í Verið í 18. sinni um miðaftansleytið, hverju fjara fór um sólsetur.[1]) Þar var stinningsvindur á útnorðan allan daginn.

Þann 17. var þykt og heitt hægveður, á landsunnan og rétt úr hafi, en um kvöldið stinn og köld útnyrðings þokubræla; mökkur ekki mikill, og alt með kyrð; þó varð vart við vatnskast nokkurt fram úr Múlakvíslarfarveg og líka í Verinu í 19. sinni, um nónbil, sem lítið að sönnu fjaraði móti venju daginn eftir, en ekki til riða fyr en þ. 19. eftir hádegi.

[1]) Það er altítt við jökulvötn, að um hásumarið fara þau að vaxa fyrir, um og eftir miðjan dag, eftir sem hiti er til, er því ekki ólíklegt, að mörg eða velflest af þeim síðari vatnshlaupum, er komu í Verið seinni hluta dags og þornuðu bráðum aftur, við kvöldið, hafi þannig verið undir sig komin, en ekki komið af eldinum.

Þ. 18. sama útnorðanátt, en minni þokubræla, og lognhiti, aðeins um miðjan daginn. Um nónbil heyrðist héðan ein mjög þung reiðarþruma frá norðri, og upp á hana kastaði niður drjúgri regnskúr með nokkrum sandi. Héðan af sást hvorki né heyrðist frá. Vík til þessa eldvarps né neinna þess verkana, mest vegna þykkveðurs, sem viðhélzt alt til þess 26., þá ekki var svo mikið sem hitagufa að sjá þar upp yfir. Sjá við 23. júlí.

Þ. 19. fóru fyrst að berast hingað fréttir úr útsveitunum með heimkomandi kaupferðamönnum, seint í næstliðinni viku. Segja þeir slíka þyrringa vestra, að varla mætti sig væta á sokkaleistum í Flóa, og hvervetna sárauman grasvöxt, lengst af næturfrost,[1]) og svo kalt, að trautt höfðu menn getað haldið sér vörmum. Að norðan bezta árferði og hafísar á burtu. Þennan dag áræddu fyrst 3 menn úr Höfðabrekkusókn að komast fótgangandi austur á Hjörleifshöfða, til að vitja um hvernig þar liði, fengu rakið sig innan um óbotnandi jökulbleytu, og náðu klaklaust heim aftur um kvöldið. Í Höfðanum hafði aldrei sandi rignt, alt heilt á hófi og málnyta í bezta blóma, einsog hvergi frá heyrist, að nokkurri manneskju hafi af þessu hlaupi orðið lífstjón né lima, meðan það stóð,[2]) og varla skepna farist, að fráteknu því, er síðan vantaði á haustheimtir, og ekki veit hvað af verður. Samt misti þessi kongsjörð töluvert melslægjupláss upp með Háöldukvísl, sem

---

[1]) Af dagbók Austmanns prests er að ráða, að meðan þessi eldgangur yfirstóð, en þótt kalt og krassafult væri um daga, var altaf spakasta og inndælasta veður eystra þar á nóttum alt fram í ágúst.

[2]) Af því fleirum er heldur hætt við að ýkja en vana flesta óvenjulega tilburði, svo var nú og flutt austan yfir sand að 2 menn, sinn í hvoru sinni, hefðu nær því dauðrotast af reiðarslagi, hvað þó síðan ekki varð sannað. En að slíkt maklega hefði getað skeð, einsog náttúrufróðir vel þekkja, reyndi eg á sjálfum mér um kvöldið þann 28. júní, er eg kom aftur frá Höfðabrekku, þegar eg átti skamt eftir heim að bænum í Syðri-Vík, reið megn þruma, einsog oftast þann dag, var leiftur hennar dökkrautt, og fyrir mínum augum lagað sem aflangt skeyti, svo sem álnarlangt, er mér sýndist sem fara vildi rétt í fang mér. Hestinum brá og nokkuð við, en eg þóttist finna til fyrir brjóstinu, sem af megnu rafkraftarslagi, er og gjörði mér líka verkun, nefnilega sterkari svita, og þá tilfinning á eftir um stund, sem eg ekki get útmálað. En alkunnugt er, að með þesskáttar slögum má hæglega drepa skepnur, á sama hátt sem reiðarslög gjöra.

alt sand- og aurkóf, hvar þó þetta slægjulitla býli áður fékk milli 40—60 hesta af mel og blöðku. Fyrir vestan Höfðann er og í eyði lagt talsvert hagmelaland, er að nokkru leyti heyrði Þykkvabæjarklaustri til, kallað Elínarsstaðir. Þennan dag var stinningskuldi á austan og landnorðan en lygndi með kvöldinu.

Þ. 20. var enn sama átt og heldur kalt, en logn um kvöldið. Til mökksins sást þá öndverðan dag frá Mýrum, var hann þá breytilegri en vant var, ýmist furðulega mikill ummáls neðan til, en þá aftur fáein augnablik örmjór. Þennan dag áræddi Austmann prestur yfir Landbrotsá út að Klaustri, og flutti þar embættisgjörð eftir 3 sunnudaga messufall, mun hann eins og oftar síðan — jafnvel í 3 sumur þegar jökulvextir fóru í Kiælarana, — hafa vaðið hana fótgangandi vegna óbotnandi bleytna, og borið spariföt sín á baki sér, eins og annað fólk, er yfir hana sækir þangað kirkju sína.

Þ. 21. júlí var sama átt og þykkviður sem daginn fyrir, um morguninn og kvöldið, en um miðjan dag útrænublær úr hafi með regnyrju. Þennan dag reið eg og administrator Þykkvabæjarklausturs, Sveinn Alexandersson frá Sólheimum, í annað sinn forvitnisferð austur á Háfell við Höfðabrekku, einkanlega til þess að bera okkur saman við bæjarmenn þar, hvort nú mundi ei fært austur yfir sandinn, og væri svo, þá að halda áfram ferðinni, til að yfirlíta skaðann á nefnds Klausturs jörðum í Álftaveri á tilbærilegan hátt. Öllum kom saman um, að vatnsvegna mundi ófært yfir miðsandinn, en bleytur þar að auki hvervetna óbotnandi og lítt færar, dimmveður svo mikið til jökulsins að ekkert sæist, hvað þar aðhefðist; regn væri á og vísari von á vatnshlaupi, þótt eldurinn kynni sloknaður vera, samt of framorðið dags til að byrja þessa ferð, og var henni svo slept í það sinn.

Þ. 23. var nærfelt sama veður, grisjaði samt svo til um morguninn, að frá Höfðabrekku — ekki Mýrum — sást til jökulsins, og aðeins gufukorn yfir eldvarpinu, en um kvöldið og nóttina eftir alls engin, hvorki þaðan, ekki heldur frá Vík né Mýrum, svo öllum sýndist líkast, að þennan dag hafi eldur þessi að fullu útdáið, þar hvorki næsta morgun né oftar, rétt á eftir þegar til sást, varð hið minsta við hann vart,[1]) enda

[1]) Þann 13. ágúst var eg á ferðareisu austur yfir Ólafsskarð, sunnan

breyttist nú bráðum veðurátta til náttúrlegra regns í nokkra daga, sem aldrei framar fanst sandi blandið, né öskuryki, nema þegar að hvast hafði verið, og vindur fært það af jörðu í loft upp á undan. Þó talar prestsins dagbók um sífeldar vatnsspýtingar suður í Verið, alt fram í ágústmánuð.[1]) Þann 1.

úr Reykjavík í blíðviðri og góðu jöklasýni um miðjan dag; sá eg þá glögt og deildi mökkstrokur bæði úr Eyjafjallajökli og Kötlu miklu digrari en styttri. Báðir voru mekkir þessir hvítir einsog vatnsgufa.

[1]) Það var ekki einungis þetta sumar út og menn vita ekki hvað langt á næsta vetur fram, að þessar vatnsspýtingar voru að koma, heldur sumarið eftir, strax sem vermisteinn fór að sýna sig undir jöklum, eða í (hvað tíðast er eftir fardaga, um Jónsmessu fram undir Mikaelsmessu), og hver veit hvað mörgum sinnum. Þann 23. júlí 1824 í fögru og góðu sumarveðri, var eg snemma dags á ferðareisu, heimleiðis austan úr Skaftártungu, efsta veg utan yfir Kötlukvísl, með alvönum en hugveikluðum vatnamanni, — fyr meir hafði hann um vetrardag komist lífs af í vatnsfalli, þegar samferðamaður hans fórst, en hann gat ei bjargað. — Vatnsfallið sjálft vel svo breitt sem Ölfusá í Óseyri, en fyrir löngu farin að vaxa, einsog önnur jökulvötn (sjá nótu við 16. júlí), lá nú kyrt og rann í fram með hægð, að líkindum hesti varla í kvið, en þegar við áttum spölkorn eftir út að því, risu á augabragði við vesturlandið öldur svo háar, einsog allrastærstu brimsjóir við land, svo huldi vel upp í miðja Hafursey (skamt fyrir vestan kvíslina) með hávöðum og fossagangi úr hófi, svo ófært sýndist með öllu vestur yfir. Varaði þetta rúman fjórðung stundar, þangað til alt smálagði sig aftur, og varð eins kyrlátt sem áður, þá við í flýti áræddum út yfir, og fylgdarmaðurinn strax til baka austur yfir, en í því hann náði eystra landi reis aftur viðlíka ólag sem hitt, er þó til lukku ekki náði honum til riða. Datt mér nú í hug að gefa dag þennan, það eftir var úr, til að litast þar umkring, skoða jökulgljúfrið fyrir ofan, hvaðan kvísl þessi fram brýzt, og ef mögulegt komast eftir, hvar af og hvernig oftnefnd vatnsköst orsökuðust. Að sjálfu jökulgljúfrinu varð ei komist fyrir jökulhruni og óbotnandi gryfjum á milli, enda var þar ekkert markvert annað að sjá, en það, að vatnið sem þar brauzt fram milli jakanna, breytti sér ekkert né óx, jafnvel minkaði, þegar áðurnefnt öldukast kom upp, hvað aldrei var nær framjaðri jökulsins að ofan en á að gizka 30, mest 60 faðmar, oft miklu fjær, en vatnsmegnið þar fyrir framan stórum meira en áður, þangað til öldukastið lagði sig. Sá eg síðan glögglega, að hvar þetta ætlaði að reisa sig, bungaði fyrst vatnsbotninn upp meira eða minna eftir sem öldukastið síðan varð. Upp úr nefndri bungu vall þá bráðum drjúg vatnsspýting, með smájakagangi, og nú komst sá lausi aurbotn fyrir framan og ofan allur á ferð og flug í einu augabragði, og sást þá, að téðar öldur mestpart voru aureðja, sem vatnið, er upp spýttist, rótaði upp til og frá, þangað til alt gat slétt sig aft-

dag í strax nefndum mánuði áræddi og komst fyrstur manna vestur yfir Mýrdalssand alþektur maður Ólafur Sverrisson; lagði hann úr Skaftártungu nálægt hinum gamla vegi fyrir framan Hafursey út yfir Kötlukvísl, úr hverri allar vatnsspýtingar, sem áður eru taldar, fóru í Kiælarana og vestur, fram yfir Álftaver og Bólhraun; hlóð hann vörður hvar sýndist bezt haga, komst að Höfðabrekku um kvöldið, og sneri austur yfir aftur daginn eftir, sem segir í dagbók Eiríks bónda. Framar getur hún um, að þann 9. ágúst hafi 4 menn austan úr Veri lagt út yfir sandinn, beint frá Herjúlfsstað eða svokölluðu Benedictsseli, þolanlegan veg. Síðasta dag júlímánaðar var svo fjallabjart, sem orðið gat, gafst þá bezta sýni yfir allan jökulinn, hvar þó var tilsýndar neðan frá rótum einsog kolsvartasta, nýtt brunahraun alt vestur á Sólheimajökul, að fráteknu allra efst kringum eldvarpið, hvar auðséð var, að snjór hafði drifið, síðan eldurinn dó, líklegast sunnudaginn næstan eftir, er allan daginn var hlýindaregn í bygð niðri. Um þessar mundir skifti aftur um veðurátt, til sömu en hvassari norðlægu þyrringa, sem áður voru, og þá sjaldan að úrkomu gjörði var það snjór til fjalla, alt til hins 18. ágúst. Varð ekki á haganlegra kosið úr því sem ráða var hér í Mýrdal og Álftaveri, hvar mestum sandi hafði rignt, því nú reif hann svo öfluglega af og dreif í sjó út, að strax var sjónarlegt, víðast mundi jörð jafngóð verða. Og svo var megnt sandkafaldið um kring Sólheima þann 3. ágúst, að ekki sást til um hádaginn að lesa sunnudagshúslesturinn. Eftir þann 18.

---

ur. Kæmi þetta víðar en í einum stað í einu, varð þeim mun meira öldukastið á eftir. Nú gjörði eg mér í lund, að brúnin eða jaðarinn á falljöklinum, er enda veit fram á sandinn, sé vegna sinna afarþyngsla siginn marga faðma niður, og fram á við niður í sandinn, sem enginn veit hvað marga faðma þykt liggur undir og framan við falljökulinn. Sjálfsagt er að það vatn sem kemur langt að ofan, undan aðaljöklinum, grefur sig niður undir ísinn, hvar það getur, og gjörir sér farveg fram undir ísbrúninni, sem hér liggur hulinn niður í aurnum, langt yfir það sjáanlegt er að ofan. Það vatn, sem ekki kemst í farveginn vellur upp í gegn um sprungur í jöklinum, fram í gljúfrið og hefur þar sitt jafna rensli. Á hverri stundu geta téðir farvegir tepst af hinum lausgerða aur, grefur vatnið sig þá hvar bezt getur, til að fá brotist undan þeirri sandhuldu ísbrún, og þá kemur öldufallið; er ei ólíklegt, að þetta vilji svo verða meðan vatnsfall þetta nær ei að grafa sig niður í harða grjótmöl, eins og Múlakvísl var áður.

dró áttin sig meir til hafs og rigninga, og þess á milli austanstorma, hvað alt lagðist á jafntök í að sundurþvæla og burtu feykja sandinum, en láta það fínasta rigna niður í jörðina, til að snúast henni upp í beztu frjóvgun eftirleiðis.

Þannig lauk nú eldgosi þessu á 28 dögum, og verður ekki annað með sanni sagt, en að það hafi gjört langminst af sér allra þeirra, er menn nú vita og þekkja til, líklega þess vegna, að vatnsmegnið í sjálfu eldvarpinu hefur aldrei orðið svo mikið, að brotið gæti töluvert af falljöklinum, né borið með sér fram yfir sandinn, einsog í hinum fyrri hlaupum. En í þess stað sýnist, sem fá hlaup hafi eftir skilið eins mikinn jökulaur á Mýrdalssandi, sem þetta, hækkað hann allan og fylt alla farvegi og lágar, svo hann nú er að kalla sléttur, og virðist góðum mun fljótari yfirferðar en áður, einkum á Tunguveginum. Sama má og segja um afleiðingar þessarar eldsuppkomu; þær eru — nú á 4. ári þar frá að reikna, — svo litlar sem engar, enginn manndauði[1]) né sér-

[1]) Þó ekki flyti það eiginlega af sjálfri eldsuppkomunni, voru það þó nokkurskonar og í þá tíð sára hörmulegar afleiðingar þessa annars væga Kötluhlaups, að sunnudaginn þann 14. september s. ár, drukknuðu, eða réttar aur- og sandkæfðust 3 merkismenn í áður umgetnu, nýorðnu vatnsfalli fyrir austan Hafursey, er nú heitir Kötlukvísl; þetta voru: candidatus juris Þórarinn Oefjörð, sonur fyrrum brennisteinsforvaltara og Múkaþverárklaustursháldara Magnúsar Þórarinssonar og Ingibjargar Hálfdánardóttur rektors á Hólum, hálærðs manns, — síðan 1. ágúst settur sýslumaður í Skaftafellssýslum, áður fáein ár í Rangárþingi, og var þetta hans fyrsta embættisreisa hér, en þótt bú hans ennþá stæði á Skammbeinsstöðum í Uppholtum; annar var Páll prestur Ólafsson, prestur að Eyvindarhólum, Pálssonar klausturhaldara, og dóttursonur Jóns prófasts Steingrímssonar, nýfluttur frá Skaftártungu prestakalli til Uppholtaþinga, en slóst í ferð með hinum fyr nefnda, til að annast um nauðsynjar sínar þar eystra; og hinn 3. Benidikt Þórðarson, fátækur bóndi, nýgiftur í annað sinn, merkisskáld og gáfumaður, fenginn til að fylgja þeim úr Tungunni, út yfir sandvötnin, ásamt 2 öðrum, sem með naumindum afkomust. Lögðu þeir öndverðan sunnudag frá Hrífunesi í mesta dimmveðurs regni, þoku og megnum austanvindi á Mýrdalssand, svo þegar út að oftnefndu vatnsfalli kom, sást ekki vestur yfir það fyrir regn og vatnsdrifi, Benedikt á undan og hinir á eftir, en í sama bili hófst það áður (í nótu við 23. júlí) umtalaða öldufall, gekk yfir og kollvarpaði prestinum með öllu, samt hafði nærri því tekið annan hinna fylgdarmannanna, hefði ei

legir sjúkdómar þeir á mönnum, er þaðan leiðir, ekkert hallæri né ólyfjan á sjó né landi, að fráteknu því, að vertíðar-

hans duglegi og vatnsvani hestur snúið sér í ölduna, reistist þó upp á afturfætur og hörfaði svo til baka. Í sömu svifum brauzt Oefjörð í gegnum öldufallið, og náði eftir mörg kafhlaup, að sagt var, þangað sem Benedikt stóð upp við hest sinn — ungt og óvant tryppi. — Sáu hinir, sem ekki áræddu út í þessa foráttu, það síðast til, að Benedikt líklega gagntekinn af kulda, kviðslitinn maður — hneig sem örendur niður með hesti sínum og hvarf í vatnið. En Oefjörð líkast áður viðskila orðinn hest sinn, annars mesti framtaksmaður, er til þurfti að taka, kom öslandi til baka austur yfir, en kaffærðist bráðum og hvarf með sama til lokins(!) í þessum ofboðslegu boðaföllum. Hestar þeirra komust lífs af, en urðu — að menn sögðu — ekki samir lengi á eftir. Líkin fundust öll næsta dag nærfelt á þurru, þar vatnskastið þá var rénað, skamt eitt sunnar en þeir fórust, og var Páll prestur, að forlagi hans áður úr Tungunni fór, og Benedikt, fluttir austur í Tungu, og jarðaðir að Ásum, en lík Oefjörðs að Höfðabrekku, hvar hann var kistulagður, og síðan með honum verðugri líkför, fyrir hverju gengust tengdaúngar hans, kirurgus Sveinn Pálsson og kona hans Þórunn Bjarnadóttir — fluttur eftir ósk hans enn þá lifandi út að Stórólfshvoli og jarðlagður þar hjá ungbarni sínu og móður nafni, þ. 2. október. Oefjörð var að áliti allra, er til hans þektu, bezta yfirmannsefni og röggsamasta, Skaftafellssýslu því meiri söknuður. Páll prestur hugljúfi hvers manns, dugnaðarmaður í embætti og búi. Benedikt vandaðasti maður að siðferði til orðs og verka, þakkaði góðgjörðir flestum betur; er fjöldi ljóðmæla frá honum, liðugt alt, snoturt og hnittið, þó siðsamt, margt ágætt. Er skaði, að hvorki hann sjálfur, fyr en lítið eitt á seinustu árum sínum, né aðrir hafa haldið því til haga. Velflestum varð afgangur þessara merku manna minnisstæður og mörgum harmsefni. Það sagði prestur einn, enn lifandi skólabróðir Páls prests, að hann hefði svo í skóla verið — er ekki hafa allir að hrósa — að enginn einn af skólabræðum hans hefði haft minsta horn í síðu honum, og reyndist hann svo æ upp þaðan. Benedikt bjó lengi í eyðibýli, er kallast Herjúlfsstaðasel, upp frá Álftaveri, fyrir austan svo kallaða Skálm, með fyrri konu sinni sárveikri, og barðist þar við með mörgum börnum; því hvervetna varð honum vel til. Er býli þetta rétt andspænis Kötlugjá, greip hann þar kvíði og áhyggja svo stór, að Katla mundi bráðum hlaupa og granda varnaði sínum, en ómögulegt þaðan að komast, ef bráðan að bæri, vegna vatna á allar síður, að hann með engu móti eirði þar lengur, fékk sér húsmensku upp í Skaftártungu, og var þetta hans 2. eða 3. ár þar. Og samt réði Kötluvatn honum skapadægur!

þorskur hefur næstu árin verið hér næsta smávaxinn og lifrarlítill, og hin svo nefnda sýking á sauðkindum á haustin og framan af vetri hefur verið meiri síðan Fjallaeldinn á stöku bæjum, eins undir Eyjafjöllum, sem hér í Mýrdal[1]). Hvað sjálfum eyðileggingunum viðvíkur, þá er vitnið ljósast, að ekkert býli lagðist í auðn, þótt bæði Álftveringar og Sólheimamenn yrðu fyrsta sumarið að vera sér úti um slægjur og fóður fyrir kúpening í nálægum sveitum, og lóga bæði þeim og fé meira en annars um haustið, einungis af því að gos þetta tilféll, þegar hæst stóð gróðurtímans. Sólheimingar, einkum þeir ytri, gátu lítið sem ekkert til slægna notað það sumar af túni né engjum; þó gjörðu hauststormarnir, sem áður er á drepið við 30. júli, að burtu feyktu strax ógrynni þaðan af sandi, ásamt regn, frostleysur og blíðviðri frá vetur nóttum alt fram á jólaföstu, er heldur mátti kalla — og var — gróðrar en vetrar veður, það að verkum, að bæði hestar og fé komust þar vel af veturinn næsta á eftir, og nú á 3. sumri frá hlaupi þessu eru þar heybyrgðir nærfelt sem þegar vel, ef ekki bezt var.[2]) Á 4 stöðum eða jörðum í Álftaveri nefnil. Mýrum, Þykkvabæ, Sauðhúsum og Hraungerði varð lítið sem ekkert notað af útslægjum hlaupsumarið, þar fyrstu vatnsköstin flóuðu yfir alt láglendi milli Mýrna og hinna bæjanna, sem áður er sagt, og kæfðu þar alla grasrót með sandi og jökulleðju. Annar armur vatnsflóðanna gekk skamt fyrir norðan Mýrnatún, mjög svo yfir alt láglendið þar, austur alt í Blönduvatn, og þaðan suður í Kúðafljót; hér varð þó

---

[1]) Einungis í Vík hjá 2 búendum drápust úr þessari sýkingu við 80 fullorðinna sauðkinda. Við aðra sjúkdóma eða á öðrum skepnum hefur hér ei mjög orðið vart, að fráteknum gaddi og brunatönnum samt beinhnútum hér og hvar á einstöku kind.

[2]) Sumarið eftir í gróandanum voru mörg og mikið víð sandflög að sönnu eftir um alt Sólheimatún, hvar öll grasrót var kæfð og útdauð, en fallegt var að sjá þar og athuga, hversu grastegundir þær, mest elting og puntur, sem helzt höfðu tekið sér bólfestu alt um kring sjálf sandflögin, ekki einungis keptust við að ná þar sem mestum þroska, heldur þvert á móti náttúru sinni — að vaxa upprétt — lögðu sig flatar út á sandflögin alt um kring, og festu sig jafnvel með knérótatægjum niður í sandinn, til að uppreiða þar mjúka sæng og afdrep handa grasfræjum, er þangað fyki. Auðséð er hver þessu stjórnar!

sandkæfingin miklu minni, og mun þar, eftir fá ár, verða bezta engi, því nóg er graslendið þar um kring til uppgróðursins, ef vatnavextir yrðu hóflegir. Hitt plássið, fyrir austan Mýrar, vill seint gróa upp, þar Landbrotsá hefur þar sitt aðalrensli, en getur ekki, straumleysis vegna, grafið sig niður, og meðan Múlakvísl forna nær ekki sínum gamla farveg fyrir vestan Hafursey, ellegar fram í gömlu Eyjará eða Blautukvísl, hvar nú aðeins sítlast litlar bergvatnslænur, heldur rennur fram Kötlukvíslarfarveg suður í Kælarana[1]), eins lengi má búast við sífeldum jökulvatnavöxtum og aurbleyturensli í Landbrotsá hvert sumar, hvað kefja vill nýgræðingarnar óðara en þær vaxa. Töluverður mun og lengi mega álítast skaði sá, er öll þessi sókn leið á melaplássum og högum fyrir utan og sunnan Landbrotsá og Kælarana, öll Dyralækjarbót með talsverðu meltaki, það mesta og bezta af Herjúlfstaðabót, melplássin fyrir ofan og austan Bólhraun og við Háöldukvísl og víðar; alt þetta mun eiga mjög lengi í að ná sér til fulls. En um Bólhraun tekur yfir alt. Þegar að fyrst kom hlaupið, var bóndinn þar, Árni Árnason, ekki heima, og ei aðrir en konan hálfuppgefin og 2 unglingar; það varð bænum til hlífðar, að afarstórt jökulstykki nam staðar rétt fyrir norðan húsin, svo að vatnshlaupin skiftu sér þar um, og fossuðu fram fyrir austan og vestan bæinn. En þar bær þessi stendur á

[1]) Í einhverju af Kötlugjár fyrsta eldhlaupinu, líkast því er aftók landnámsjörðina Dynskóga, og máske fleiri áður en landið bygð. ist, hefur hraun runnið ofan austur með framanverðri Skaftártungu alt að Kúðafljóti, fram undir Holt og Herjúlfsstaði í Veri, suður um Þykkvabæjarklaustur alt í sjó, og náð á breiddina vestur undir Dyralæki, suður um Bólhraun, og kallast hraunfláki þessi allur — fyrir löngu af síðari hlaupum mjög sandi kafinn — enn á dögum Kötlusandur. Þegar hraun þetta rann ofan, hefur þar eins og víðar stíflast upp vatnsfall eitt eða fleiri, hvar af nokkuð á eftir hefur etið sig upp og fram um Loðinsvíkur svo kallaðar, er síðan gjöra kvísl þá, er Skálm heitir; en nokkuð sprottið upp vestar á sandinum með smá uppgöngum, en allar renna saman í 3 eða 4 smálæki, er kölluðust Kælarar, því líklega hafa þeirrar aldar menn ímyndað sér, að þess vatns uppsprettur hafi sefað eða kælt eldhraunið. Hafa þeir enn sitt fyrra eðli, eru bergvatn eins og Skálmin, þegar úti er sumar eða jökulleysingin í Kötlukvísl.

gömlu brunahrauni, er að mestu var orðið sandfylt, (en graslendi nokkurt uppvaxið kring um bæinn), var ekki lengi áður vatnsgangur heyrðist undir húsunum; opnuðust þar þá bráðum gjár og gjótur, er burtu þvældist jarðvegurinn, sem mestan part var gamall sandur og jökulaur, svo ekkert var sýnna, en að bærinn sykki gjörsamlega og hryndi í sjálfan sig, þegar minst varði. Allir hagar og melapláss, er jörðu þessari fylgdu, þvældust burt eða sandkófust, svo jörð þessi er sú eina og einasta, sem eftir þetta eldgos sýnist óbyggileg og eyðilögð að fullu og öllu, en þótt nefndur atorku og útsjónarsami bóndi þangað til nú á 4 ár vegna jarðnæðisleysis — heldur en afskiftaleysis viðkomenda — haldist þar við með 1 kú, 1 eða 2 hross og nokkrar sauðkindur, sem þó óðara fækka, og sem hann hefur heyjað fyrir inn í Meðallandi, og aflað melblöðku nálægt sér, hvar eftirstöðvar hennar fundust. Nú treystist hann ei lengur þar við að haldast, ollir því einna mest drepandi sandfok og móðuryk, af hverri átt sem minsti gustur er, þegar hvorki er snjór eða ís yfir jörð, eða hún af regni gegnumvot, og leiðir þar af megnustu ólyfjun fyrir menn og skepnur, fordjörfun allra matvæla og kæfing allrar nýgræðu, þó væri, hvað líkast er viðhaldist, meðan Mýrdalssandur er til.

Að lyktum er tilhlýðilegt að drepa á mildi konungs vors, sem í gegnum rentukammerið, fyrir umstilli viðkomanda aðministrators og amtmanns, eftirgaf landsetum sínum í Álftaveri 3 næstu ár eftir þetta eldgos töluvert af jarðargjaldi þeirra, til samans fyrir öll árin 440 álnir, þannig skift:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Bólhraunum ..... | 30 álnir | í 3 ár | gjörir | 90 | álnir. |
| Þykkvabæ ...... | 40 dto. | í dto. | — | 120 | — |
| Sauðhússnesi .... | 30 dto. | í dto. | — | 90 | — |
| Hraungerði ..... | 20 dto. | í dto. | — | 60 | — |
| Hraunbæ ...... | 20 dto. | í dto. | — | 60 | — |
| Herjúlfsstöðum ... | | í 1 ár | — | 20 | — |
| | | til samans | | 440 | álnir. |

Ekki er almenningi kunnugt, að Skaftafellssýslingar í þessu skyni þegið hafi gefins hjálp af nokkrum öðrum, jafnvel þó þeir áður í viðlíka tilfelli gæfi Eyjafjallamönnum,

svo augljóst yrði, meir en 1800 fiska virði í smjöri, fiski, fé og öðrum matvælum, auk hins mikla er téð sveit naut frá Gullbringu og Árnessýslum í mannfæði og allra handa útlátum, hvað þó einungis til verðugrar æru þeim, er hrærðust af meðbræðra nauð, er ádrepið hér, en alls ekki af eftirtölum.

---

# UM SKATTBÆNDATAL 1311
og
# MANNTAL Á ÍSLANDI FRAM AÐ ÞEIM TÍMA.

Eftir Björn Magnússon Ólsen.

## I. SKATTBÆNDATALIÐ 1311.

Í Íslensku Fornbrjefasafni II. bindi 373.—375. bls. og IV. bindi 9.—10. bls. er prentuð skrá, er sínir tölu skattbænda og skatt þann, er konungi var goldinn af Íslandi árið 1311.

Hið elsta handrit af þessari skrá, og hið eina, sem nokkurt mark er á takandi, er afskrift sjera Gottskálks í Glaumbæ í bók þeirri, sem hann nefnir »Dægradvöl« eða »Sópdingju« og er rituð á árunum 1543—1593. Eftir þeirri bók er skráin prentuð í IV. bindi Fornbrjefasafnsins. Bókin er nú í British Museum í Lundúnum (Add. Brit. Mus. 11242 = FM. 206, 4°). Enn áður hafði hún verið eign Finns Magnússonar, og hafði hann skrifað skrána eftir henni inn í eintak sitt af Árbókum Espólíns á spássíuna við árið 1311 (Árbækur I. 31. bls.). Jón Sigurðsson komst síðar ifir þetta eftirrit Finns af skránni og tók afskrift af því, og eftir þeirri afskrift er skráin prentuð í Fornbrjefasafni II. b. 374. bls., og er sá texti þar merktur A. Enn til er annar texti af skránni, sem líka er prentaður í II. bindi Fornbrjefasafnsins (á 374.—375. bls.) og þar merktur B. Sá texti finst í nr. 193, 8° í Árnasafni, pappírshandriti, skrifuðu um 1620, og í afskrift af þessu handriti í Ny kgl. saml. nr. 1840, 4°, sem auðvitað er með öllu ónít, þar sem frumrit hennar er til. B-textinn er í rauninni ekki annað enn útdráttur úr skránni

og hann mjög úr lagi færður. T. d. árfærir sá texti skrána til ársins »1539, á 12. ári ríkis Hákonar Magnússonar«, sem er helber vitleisa, og auk þess hefur sá, sem ritaði þennan útdrátt, ekki gætt þess, að öll hundruð í hinni gömlu skrá eru tólfræð, enn hann telur þau tíræð (með serkneskum tölum). Þegar Jón Sigurðsson skrifaði um skrána árið 1850 í 10. árgangi Nírra fjelagsrita á 27.—29. bls., þekti hann ekki önnur handrit af henni enn þessi tvö, sem síðast vóru nefnd (B-textann), og sló því þá fram, að hún mundi vera frá dögum Hákonar hins sjötta með því nafni, Magnússonar, helst frá árinu 1366, enn Dægradvöl Gottskálks sínir, að það getur ekki verið rjett; hún árfærir skrána til »1311 á 12. ári ríkis vórs herra Hákonar, Noregs konungs, Magnússonar«, þ. e. Hákonar fimta (hálegs), og kemur það alveg heim, því að Hákon háleggur kom til ríkis árið 1299. Annars er þessi B-texti með öllu marklaus, nema að svo miklu leiti sem hann staðfestir textann í Dægradvöl, enn þar sem hann greinir á, er hann að engu hafandi.

Af þessu leiðir, að Dægradvöl er í rauninni ein til frásagnar um, hvað í þessari skrá hafi staðið frá upphafi. Og skráin er mjög merkileg, eigi að eins af því, að það er fróðlegt að vita, hversu mikinn skatt konungur fjekk af landi voru um þessar mundir, heldur og af því, að vjer því miður nú sem stendur höfum ekki nein önnur betri drög enn skrána til að ákveða mannfjölda hjer á landi í birjun 14. aldar. Auk þess sínir skráin ljóslega hvernig síslum var skift milli síslumanna konungs um þetta leiti.

Hvað segir þá skráin, rjett lesin og rjett skilin, um tölu skattbænda, upphæð skattsins og sísluskiftinguna árið 1311? Þessari spurningu ríður á að svara sem rjettast, því að annars verða þær áliktanir rangar, sem af skránni má draga. Textinn í Dægradvöl er ekki gallalaus, sem ekki er heldur við að búast, þar sem handritið er firir víst 250 árum ingra enn frumritið. Enn það er mikil bót í máli, að handritið leiðrjettir sig að nokkru leiti sjálft, því að skráin greinir bæði skattbændatöluna og upphæð skattsins í hverjum fjórðungi, og verða þær tölur að koma heim, ef rjett er lesið, því að vjer vitum, að hver skattbóndi átti að gjalda 10 álnir í skatt, og á því skatturinn, talinn í álnum, að gera tífalda upphæð við skattbændatöluna.

Enn jafnframt má hafa leiðbeining af því, að skráin greinir skattbændatöluna í hverri síslu firir sig, eins og sísluskipunin þá var. Að vísu kemur þessi sísluskifting ekki alveg heim við fjórðungaskipunina að því leiti, að Borgarfjarðarsísla eða hjeraðið »milli Botnsár og Langár« — svo er það kallað í skránni — nær ifir sneið af Vestfirðingafjórðungi (milli Langár og Hvítár) og aðra sneið af Sunnlendingafjórðungi (milli Botnsár og Hvítár). Þessi afbrigði sísluskiftingarinnar frá fjórðungaskipuninni verður að taka til greina, enn að öðru leiti á skattbændatalið í síslunum, sem í hverjum fjórðungi eru, að koma heim við skattbændatal fjórðungsins als, og samtala allra skattbænda á landinu á að vera hin sama, hvort sem talið er eftir síslum eða eftir fjórðungum. Þetta getur og orðið til leiðbeiningar.

Í útgáfu skrárinnar eftir Dægradvöl í IV. bindi Fornbrjefasafnsins eru tvær prentvillur. Mig grunaði, að svo væri, og fjekk vin minn, meistara Eirík Magnússon í Cambridge, til að bera frumritið saman við útgáfuna. Á jeg það að þakka góðvild hans, að jeg hef fengið fulla vissu um, að frumritið hefur á báðum stöðum einmitt það, sem jeg hafði til getið. Meðfram af þessari ástæðu, meðfram til hægðarauka firir lesandann, læt jeg hjer prenta texta skrárinnar orðrjett, eins og hann er í Dægradvöl:

vm mantal a islandi skattbændr

Anno domine ⅿ. ccc. xj a xij are rikis vorz herra hakonar noregz konungz magnussonar. var svo micit mantal a islande.

j nordlendinga fiordungi .ɪx c. manna oc .lxx.

þar af lavkz konvngenum j skatt nivtiger hvndrvd oc .vc. oc tietiger alna

j avstfirdinga fiordungi .cccc. lxxx. oc. iiij. menn.

skattr .xlc. oc .vijc.

j svndlendinga fiordungi .viijc. xxx. oc .viij. menn.

skattr .lxxxc. oc .ijc. oc .xx. alner.

j[1]) vestfirdinga fiordungi .dxxxx. oc .xx. menn

skattr .lxxxx.[2]) c. half$_c$ ā at[3]) .c. oc .xx. alner

[1]) Hefur fallið úr í Fornbrs.

[2]) Þannig í Dægradvöl; „lxxx." Fornbrs.

[3]) Svo í Dægradvöl; Fornbrs. les: „halft annat", og er það vafalaust rjett.

a sama are j millum hrvtafiardar ar oc siglu fiardar .d. manna. oc .xx. manna.
mille siglufiardar oc helkvnduheidar .cccc. oc .lx. manna.
Mille helkvnduheidar oc lonsheidar .cc. oc .xl.
mille lonzheidar oc jokulzar .ccxx. oc .iiij. menn.
millum jokvlsar oc þiorsar .cc. xx. oc .viij. menn.
millum þiorsar og bozar .d. oc .lx.
millum bozar oc langar halft þridia .c. manna.
millum langar oc þorskafiardar ar .d. xl. menn.
millum þorskafiardarar oc hrvtafiardarar .cc. oc nivtiger.

Þess ber að geta, að Dægradvöl skrifar allar töluupphæðir með rómverskum tölum, og að hundrað (c) táknar í skránni tólfrætt hundrað (= 120).
Vjer hverfum þá að efni skrárinnar.

---

Í Norðlendingafjórðungi telur skráin:
»IX c manna (ɔ: skattbænda) oc lxx.«
Hafa þá skattbændur þar verið (9 . 120 + 70) = 1150.
Skattur í sama fjórðungi er talinn:
»nivtiger hvndrvd oc .vc. oc tietiger alna« (= 95 hundruð og 100 álnir).
Sjeu hundruðin gerð að álnum, verður þá skatturinn .................................. 11500 álnir, sem er tíföld upphæð við skattbændatöluna.
Hljóta því báðar þessar tölur að vera rjettar.

Norðlendingafjórðungi skiftir skráin í tvær síslur:
1. Milli Hrútafjarðarár og Siglufjarðar (ɔ: Húnavatnssísla og Skagafjarðarsísla og ofurlítil sneið nirðst og vestast af Eijafjarðarsíslu. Þar telur hún skattbændur »d. manna oc .xx. manna« =........... 620
2. Milli Siglufjarðar og Helkunduheiðar (ɔ: nær öll Eijafjarðarsísla og Þingeijarsísla öll). Þar teljast skattbændur »cccc. oc .lx. manna« =............ 540

Samtals í öllum fjórðunginum.... 1160

eða 10 fleiri skattbændur, enn áður var talið og rjett hlítur að vera.

Verður því að lækka skattbændatöluna um 10 í annari hvorri síslunni, eða um 5 í hvorri þeirra um sig. Nú á dögum er meira fólksmegn í norðurpartinum enn vesturpartinum, þó að kaupstaðir sjeu frá taldir, enn eftir skránni er það öfugt, að því er skattmegnið snertir. Þikir mjer því líklegra, að lækka eigi töluna í vesturpartinum og að þar eigi að lesa »d. manna oc x manna«. Samt er þetta als eigi víst, og vel getur verið, að talan ».xx.« sje misskrifuð firir .xv. í vesturpartinum, og ».lx.« firir .lv. í norðurpartinum; er það og í rauninni síst fjarri rjettum sanni, að skifta mismuninum jafnt niður á báðar síslur.

---

Í Austfirðingafjórðungi telur skráin skattbændur: »cccc. lxxx oc iiij menn« = (4.120 + 84) =..... 564.
Skattur úr sama fjórðungi er talinn:
»xlc. oc vijc« (= 47 hundruð). Verður skatturinn þá .................................. 5640 álnir,
sem er tíföld upphæð við skattbændatöluna. Hljóta því báðar þessar tölur að vera rjettar.

Austfirðingafjórðungi skiftir skráin í tvær síslur:

1. Milli Helkunduheiðar og Lónsheiðar (ɔ: Múlasíslur báðar). Þar teljast skattbændur »cc. oc .xl.« =... 280
2. Milli Lónsheiðar og Jökulsár (á Sólheimasandi) ɔ: Skaftafelssíslur báðar. Þar skattbændur »ccxx. oc iiij menn« =.................................. 264

Samtals í öllum fjórðunginum.... 544

Hjer vantar 20 menn á þá skattbændatölu, sem áður var greind á tvennan hátt, og rjett hlítur að vera. Af því að fólksmegin hefur á síðari tímum altaf verið miklu meira í Múlasíslum enn í Skaftafelssíslum, virðist líklegra, að hjer eigi að hækka skattbændatöluna í Múlasíslunum og skrifa þar cc. oc lx í stað »cc. oc xl.« Er það lítil breiting, enda kemur það oft firir, að handrit villast á xl og lx. Verða þá 300 skattbændur í Múlasíslunni enn 264 sem áður í Skaftafelssíslunni, samtals 564, sem kemur heim.

---

Í Sunnlendingafjórðungi telur skráin skattbændur:
»viijc. xxx. oc viij menn» = (8.120 + 38) =..... 998.
Skattur úr sama fjórðungi er talinn:
«lxxxc. oc .ijc. oc .xx. alner« (= 82 hundruð
og 20 álnir) =.......................... 9860 álnir.

Hjer vantar skattsupphæðina rjett tólfrætt hundrað álna upp á að vera tíföld við skattbændatöluna; verður því annaðhvort að hækka skattinn um eitt hundrað eða fækka skattbændunum um 12 til að fá samræmi. Hið firra er minni breiting á textanum og því líklegra. Ekki þarf annað enn rita iijc firir »ijc« í skattsupphæðinni[1]; þá kemur alt heim. Verður þá skatturinn 83 hundruð og tuttugu álnir = 9980 álnir.

Að því er snertir hinar einstöku síslur í Sunnlendinga fjórðungi, látum vjer Borgarfjörð, sem skiftist milli hans og Vestfirðingafjórðungs, liggja milli hluta first um sinn. Að Borgarfirði frá skildum skiftist Sunnlendingafjórðungur í 2 síslur:

1. Milli Jökulsár (á Sólheimasandi) og Þjórsár, ɔ: Rangárvallasísla, og líklega þar með Vestmannaeijasísla. Þar teljast skattbændur: »cc. xx. oc viij menn« = 268
2. Milli Þjórsár og Botnsár, ɔ: Árnessísla og Gullbringu- og Kjósarsísla. Þar skattbændur »d. oc .lx.« =... 660

Samtals milli Jökulsár og Botnsár.... 928

Skattbændatalið í öllum fjórðungnum var 998. Þegar skattbændurnir milli Jökulsár og Botnsár eru dregnir frá þeirri tölu, verða eftir 70, og ætti það eftir þessu að vera tala þeirra skattbænda er bjuggu í þeirri sneið af Borgarfirði, sem liggur í Sunnlendingafjórðungi, eða í takmarkinu milli Botnsár og Hvítár. Þetta virðist vera óhæfilega lág tala, og er hjer því eitthvað bogið. Enn best er að láta bíða að ráða fram úr því first um sinn.

---

[1]) Í B-textanum hefur á þessum stað upphaflega verið skrifað „Lxxxvijc", enn svo hefur ritarinn dregið út *v*-ið; í frumriti því, sem hann skrifaði eftir, getur verið, að *v*-ið hafi *ekki* verið dregið út. heldur *leiðrjett* í *i*, og hefði þá í þessu frumriti staðið „Lxxxiijc", og stirkir þetta getu mína. Í fornum handritum eru ofritaðir stafir sjaldan numdir burtu með því að draga ofan í þá, heldur með því að setja púnkt undir þá.

Í Vestfirðingafjórðungi telur skráin skattbændur: »dxxxx oc .xx. menn«.

Hjer hlítur firri talan (»dxxxx«) að vera misrituð. Ef lesið er úr tölunum, eins og þær liggja firir, kemur út: 5 hundruð (auðvitað tólfræð) og 40 og 20 menn. Enn eftir almennri ritvenju, sem annars er filgt í þessu skjali, hefði hjer átt að draga tugatölurnar (40 og 20) saman í eina rómverska tölu (lx); ef ritarinn ætlaði sjer að segja, að 6 tigir skattbænda væri um fram 5 tólfræð hundruð í Vestfirðingafjórðungi, hefði hann átt að rita: d. oc .lx. Auk þess er talan alt of lág, hvort sem hún er borin saman við skattsupphæðina í fjórðunginum öllum eða við skattbændatalið í einstökum síslum fjórðungsins, og mun það verða ljóst síðar. Í sjálfu sjer er líklegast, eftir ritvenju rómverskra talna, að firri talan hafi átt að tákna hundruðin út af firir sig, enn síðari talan tuginn, og að hjer eigi að lesa dcccc. firir »dxxxx.« Og skulum vjer nú sjá, hvernig þetta kemur heim við það sem á eftir fer.

Skattur úr Vestfirðingafjórðungi er talinn:

»lxxxx. c. halft annat .c. oc xx alner«,

(= 91½ hundrað og 20 álnir) =............ 11000 álnir.

Þessi skattur samsvarar 1100 skattbændum í öllum fjórðunginum. Sje þeirri tölu breitt í tólfræð hundruð, og það sem út kemur ritað í rómverskum tölum, kemur út:

dcccc. og .xx.

eða nákvæmlega sama upphæð, sem áður var til getið, þar sem um skattbændatöluna var að ræða.

Þessar upphæðir hljóta því að vera rjettar.

Vjer hverfum þá að einstökum síslum Vestfirðingafjórðungs, og látum vjer first um sinn Borgarfjörð liggja milli hluta sem áður. Að Borgarfjarðar sneiðinni undan skildri skiftir skráin Vestfirðinga fjórðungi í 2 síslur:

1. Milli Langár (í Mírasíslu) og Þorskafjarðar, ɔ: Mírasísla vestan Langár, Hnappadalssísla og Snæfellsnessísla, Dalasísla og Barðastrandarsísla sunnan Þorskafjarðarár (þar með að líkindum Flateijarhreppur). Þar teljast skattbændur »d. xl. manna« = ........ 640
2. Milli Þorskafjarðarár og Hrútafjarðarár, ɔ: Barða-

Flyt.... 640

Flutt.... 640

strandarsisla vestan Þorskafjarðar, Ísafjarðarsisla og Strandasisla. Þar teljast skattbændur »cc. oc. nivtiger« = .................................. 330

Samtals milli Langár og Hrútafjarðarár.... 970

Skattbændatalið, sem áður var fundið í öllum fjórðungnum var 1100. Vantar þá 130 mans á, að skattbændatalan í takmarkinu milli Langár og Hrútafjarðarár nái þessari tölu, og ætti þá eftir því 130 skattbændur að hafa verið í þeirri sneið Borgarfjarðar, sem í fjórðungnum liggur, eða í takmarkinu milli Hvítár og Langár. Virðist sú tala vera mjög sennileg.

---

Loks hverfum vjer þá að Borgarfirði. Þar telur skráin, milli Botnsár og Langár:

»halft þridia .c. manna« = ........... 300 skattbændur.

Áður var fundið, að skattbændatalan milli Langár og Hvítár mundi hafa verið... 130 —

Sje sú tala dregin frá samtölu bænda í öllu hjeraðinu verða eftir................ 170 skattbændur

og ættu þá eftir því 170 bændur að hafa verið í skatti sunnan Hvítár, milli hennar og Botnsár, eða í því hjeraði, sem nú nefnist Borgarfjarðarsisla. Virðist þessi tala mjög nærri sanni. Hlutfallið milli skattbændanna í norðurpartinum (milli Hvítár og Langár) og suðurpartinum (milli Botnsár og Hvítár) verður sem 130 : 170, og kemur það allvel heim við fólksmegnið í þessum sveitum nú á dögum, þegar Akranesskauptún er frá talið[1]). Alt virðist því mæla með, að hjer sjeu fundnar hinar rjettu tölur firir þessi takmörk.

Áður fengum vjer út, að skattbændur í Borgarfirði sunn-

---

[1]) Eftir manntalinu 1901 bjuggu 1143 menn milli Hvítár og Langár, enn 1773 milli Botnsár og Hvítár, að Akranesskauptúni frá skildu. Til samanburðar má og geta þess, að eftir jarðatali Johnsens 390.—391. bls. var dírleiki jarða milli Hvítár og Langár 2406½ hundrað, enn milli Botnsár og Hvítár 3963 hundruð, hvorttveggja að fornu mati.

an Hvítár hefðu átt að vera að eins 70, með því að draga skattbændur í suðursíslum fjórðungsins (frá Jökulsá til Þjórsár og frá Þjórsá til Botnsár) frá samtölu allra bænda í Sunnlendingafjórðungi.

Hvortveggja þessi niðurstaða er dregin beint út úr skránni, og er hjer því mótsögn í henni, sem hlítur að stafa af einhverri villu[1]). Enn hvar felst villan?

Vjer höfum sínt fram á, að það sje mjög sennilegt, að skattbændur í Borgarfirði sunnan Hvítár hafi verið 170, enn hitt mjög ólíklegt, og í rauninni alveg óhugsandi, að þeir hafi ekki verið fleiri enn 70. Munar þetta rjettu hundraði tíræðu (100).

Þessi ranga tala (70) kom út, þegar vjer drógum samtölu skattbænda Sunnlendingafjórðungs *sunnan Botnsár* frá samtölu skattbænda í *öllum* fjórðungnum.

Hjer hlítur villan að felast.

Annaðhvort er samtala skattbænda í öllum fjórðungnum 100 bændum of *lág*.

Eða samtala skattbændanna sunnan Botnsár (austur að Jökulsá) er 100 bændum of *há*.

Nú er það áður sínt, að samtala skattbændanna í *öllum* fjórðungnum hlítur að vera rjett, þar sem hún með einni mjög lítilfjörlegri breitingu kemur heim við upphæð skattsins í sama fjórðungi.

Af þessu leiðir, að samtala skattbændanna í suðursíslun-

---

1) Villan kemur og ljóslega fram, þegar vjer steipum báðum fjórðungunum saman, og teljum saman annars vegar samtölur skattbænda í hvorum heilum fjórðungi firir sig, og hins vegar skattbændatölurnar í hverri síslu firir sig að Borgarfirði með töldum. Þá koma fram þessar tölur:

| | |
|---|---|
| I. Í Sunnlendingafjórðungi öllum....... | 998 |
| - Vestfirðingafjórðungi öllum........ | 1100 |
| Samtals.... | 2098 |
| II. Í Sunnlendingafj. 1. síslu............ | 268 |
| - — 2. — ............ | 660 |
| - Borgarfirði (að Langá)............ | 300 |
| - Vestfirðingafj. 1. síslu ............ | 640 |
| - — 2. — ............ | 330 |
| Samtals.... | 2198 |
| Munurinn verður.... | 100 |

um hlitur að vera of há, og getur það ekki stafað af öðru enn því, að skattbændurnir eru taldir of margir í annari hvorri sislunni eða báðum, og hlitur að muna um 100.

Í síslunni milli Jökulsár og Þjórsár vóru skattbændur taldir ........................................ 268

Enn í síslunni milli Þjórsár og Botnsár ........... 660

Firri töluna, í Rangárvallasíslu, virðist með engu móti mega minka. Hún sínist vera helst til lág í samanburði við skattbændatöluna í hinni síslunni, einkum þegar tekið er tillit til þess, að Rangárvallasísla hlitur þá að hafa verið tiltölulega talsvert blómlegri enn nú, þar sem hún hefur síðan orðið firir svo miklu tjóni af völdum náttúrunnar, eldgosum, sandfoki osfrv., miklu fremur enn nágrannahjeröð hennar vestan Þjórsár.

Aftur á móti virðist hitt nær sanni að lækka skattbændatöluna í vestursíslu fjórðungsins (Árness-, Gullbringu- og Kjósarsíslu) um 100 menn. Þar verða þá 560 skattbændur. Þrátt firir lækkunina verður Rangárvallasísla þó tæplega hálfdrættingur við vestursisluna, og lætur það mjög nærri eftir fólksmegni nú á tímum, þegar kaupstaðir eru frá taldir[1]).

Enn hvernig verður þessari breitingu komið heim við texta skrárinnar. Hún segir, að í vestursíslunni, milli Þjórsár og Botnsár, hafi skattbændatalan verið: »d. oc .lx.«

Þetta kemur alveg heim við hina fundnu tölu, 560, sem vjer teljum vera rjetta, ef vjer megum setja svo, að ritarinn hafi hjer á þessum stað átt við tíræð hundruð, þar sem

[1]) Árið 1901 voru 4973 mans í Rangárvallasíslu og Vestmannaeijasíslu samtals (í Rangárv.síslu einni 4366), enn rúmlega 10000 í takmarkinu milli Þjórsár og Botnsár að kaupstöðum frátöldum. Jeg get ekki greint nákvæmlega hina síðari tölu, af því að manntalið í Eirarbakkakaupstað 1901, eins og það er greint í ritg. Indriða Einarssonar um mannfjölda í kaupstöðum í Landshagsskírslum firir 1907 á 126. bls., kemur ekki heim við manntalið í Eirarbakkasókn eftir bók Hagfræðisstofnunarinnar í Kaupmannahöfn, er nefnist: Manntalið á Íslandi 1901, Khöfn 1904, á 4. bls. Enn talan or nærri sanni. Enn má taka fram til samanburðar, að eftir Jarðatali Johnsens 389.—391. bls. var dírleiki jarða í Rangárvalla og Vestmannaeija síslum samtals 6298 hundruð, enn í Árness-, Gullbringu- og Kjósar- síslum og í Reikjavíkurlögsagnarumdæmi samtals 13689 hundruð.

hann ritar »d«. Enn megum vjer það? Að vísu virðist það mjög varhugavert, því að alstaðar annars staðar telur skráin í tólfræðum hundruðum.

Enn hins vegar ber skráin sjálf það með sjer, að hún er eftir efni sínu ekki annað enn útdráttur úr nákvæmum sundurliðuðum skírslum um skatt konungs af Íslandi, þar sem hver sísla og hver þingsókn hefur verið greind firir sig, og hver einstakur bóndi tilfærður með nafni og heimili, sá er skatti átti að svara. Innheimtu skattsins var svo firir komið um þessar mundir, að það var mjög áríðandi firir konung að vita firir víst, hve margir skattgjaldendur vóru í hverju hjeraði um alt land. Síslurnar vóru ekki seldar á leigu gegn föstu eftirgjaldi, eins og síðar fór að tíðkast (sjá t. d. Ísl. ann. við árið 1354 um Ívar Vigfússon Hólm). Firir að krefja inn skattinn áttu síslumenn eftir Jónsb. Þegnsk. 1. k. að taka undir sig þingfararkaupið, sem nam 10 álnum eins og skatturinn og var innheimt með honum, eftir sömu reglum og hann og hjá sömu gjaldendum. Þessi regla um innheimtuna virðist hafa staðið óhögguð þangað til á dögum Hákonar hálegs, er kom til ríkis 1299. Hann reindi á hinum firstu stjórnarárum sínum að þröngva kosti Íslendinga með ímsu móti, t. d. með níjum álögum og með því að skipa norræna síslumenn og lögmenn (sbr. rit mitt Um upphaf konungsvalds, Rvík 1908, 58.—65. bls.). Meðal annars virðist hann þá hafa viljað klípa af síslumönnum hálft þingfararkaupið, sem þeim bar að lögum firir innheimtu skattsins, því að svo stendur í Konungsannál við árið 1307: »Útkoma Ívars Hólms Jónssonar með konungs bréfum. Í þeim stóð svo, at sýslumenn skyldu hafa hálfan vísaeyri, þat eru 10 álnir af hverjum bónda, en áðr vóru 5 álnar«. Vísaeyrir táknar hjer bersinilega skattinn og þingfararkaupið samlagt. Með þessu konungsbrjefi lísir konungur þá ifir því, að eftirleiðis skuli fara eftir ákvæðum Jónsbókar um innheimtuna, þannig að síslumenn skuli fá alt þingfararkaupið, 10 álnir, í stað þess að þeir undanfarin ár hafi ekki fengið meira enn helming af því, eða 5 álnir, og virðist mega ganga að því vísu, að þessi undanfarandi lækkun á tekjum síslumanna, sem konungur nú fellir úr gildi, hafi verið gerð eftir skipun hans sjálfs og sje einn liðurinn í ifirgangi hans við Íslendinga. Einmitt um þessar mundir (1306—1307) heikist hann á öðrum kröfum

sínum til landsmanna og lætur undan[1]). Mart verður ljósara í sögu þeirra tíma, ef vjer höfum það firir satt, að nefnd tilraun til að klípa af tekjum síslumanna stafi frá Hákoni konungi sjálfum, enn ekki firirrennara hans. Þá skilst t. d. betur enn áður hvernig stendur á ágreiningi hans við hina íslensku höfðingja og á skipun norrænna valdsmanna, enn fremur hvað til þess ber, að ímsir af handgengnum mönnum konungs hjer á landi virðast hafa stutt alþíðu manna í baráttunni við konung (sbr. Upphaf konungsvalds 73. bls.). Jeg mun og síðar í þessari ritgjörð benda á atriði, sem stiður þessa skoðun mína. Enn hvernig sem því nú er varið, þá sínir annálsgreinin, að innheimta skattsins eftir 1307, og þá eflaust árið 1311, fór eftir reglum Jónsbókar, og að síslumenn áttu að standa konungi skil á öllum þeim sköttum, sem þeir innheimtu, 10 álnum frá hverjum gjaldanda. Hjer var freisting firir síslumenn að segja skattgjaldendur færri, enn þeir vóru í raun og veru, er þeir gerðu reikningsskil. Hins vegar var það mjög áríðandi firir konung að afla sjer sem nákvæmastra skírslna um skattgjaldið af öllu landinu til að geta haft eftirlit með síslumönnunum, að öll kurl kæmi til grafar. Vjer vitum og, að konungur sendi við og við menn til landsins til að líta eftir skattinum, og hafa þeir eflaust samið nákvæmar skrár ifir alla skattgjaldendur í hverri síslu og hverri þinghá[2]). Jeg tel víst, að skattbændatalið frá 1311 sje útdráttur úr slíkum skrám, sem safnað var eftir skipun konungs og í hans þágu. Sjest það best á því, að skattbændatal þetta greinir að eins skattinn, sem konungur átti að hafa, enn ekki þingfararkaupið, sem gekk til síslumanna. Frumskrárnar, sem skattbændatalið er ágrip af, hafa auðvitað verið í töfluformi og líklega skrifaðar með serkneskum tölum til hægðarauka við samlagninguna. Að serkneskar tölur vóru hafðar í útreikningum um þessar mundir, má sjá á ritgjörðinni »Algorismus« í Hauksbók (útg. 417.—424. bls.).

---

[1]) Sbr. rit mitt Um upphaf konungsvalds 64.—65. bls.

[2]) Árið 1277 „fóru" erindrekar konungs, Eindriði böggull og Nikulás Oddsson, „þingum um alt land ok öktuðu vísaeyri konungs með meiri freku en fyrr var vandi til" (Árna biskups saga Bisk. I 706. bls.), og í broti af Skálholtsannál stendur við árið 1331: „Herra Haukr ok herra Ketill reiknuðu vísaeyri um alt land" (Ísl. ann., útg. Storms, 219. bls.).

Jeg tel því sennilegt, að sá maður, er first gerði útdrátt þann, sem til vor er kominn í skrá þessari, hafi haft firir sjer töflur, ritaðar serkneskum tölum. Jafnóðum og hann gerði útdráttinn breitti hann tíræðum hundruðum í tólfræð og serknesku tölunum í rómverskar. Var þá ekki neitt óeðlilegt í því, þó að honum fataðist á þessum eina stað og skrifaði í ógáti »d. oc .lx«, þar sem í töflunum stóð »560«, í stað þess að hann hefði átt að rita »cccc. ok .Lxxx.«, ef hann vildi vera sjálfum sjer samkvæmur.

---

Vjer höfum þá leiðrjett skrána eftir föngum og munum nú sína ifirlit ifir skattbændatalið og skattinn á öllu landinu, bæði eftir fjórðungum og eftir síslum.

Til samanburðar setjum vjer tölu þeirra bænda, sem þingfararkaupi áttu að gegna í hverjum fjórðungi á dögum Gizurar biskups Ísleifssonar, um eða nokkru firir 1096. Þetta bændatal hefur geimst hjá Ara fróða í Íslendingabók og í Hungrvöku og Kristnisögu[1]), og var tekið að tilhlutun Gizurar biskups, líklega til undirbúnings tíundarlöggjöfinni.

I. Í hverjum fjórðungi:

| Fjórðungur: | Skatt-bændur 1311 | Skattur 1311 hundr. áln. | Þingfarar-kaupsbændur c. 1095 |
|---|---|---|---|
| Norðlendingafjórðungur | 1150 | 95—100 | 1440 |
| Austfirðingafjórðungur | 564 | 47— | 840 |
| Sunnlendingafjórðungur | 998 | 83—20 | 1200 |
| Vestfirðingafjórðungur | 1100 | 91—80 | 1080 |
| Á öllu landinu........ | 3812 | 317—80 | 4560 |

[1]) Islendingabók 10. k. Hungrvaka 6. k. (Bisk. I 69. bls.). Kristnis. 13. k. (Bisk. I 28. bls.). Sbr. Sturl. Oxf. I 205. bls.

II. Eftir sislum.

| Sísla | Skattbændur 1311 | Skattur[1]) 1311 hundr. áln. |
|---|---|---|
| Norðlendingafjórðungur 1. sísla, milli Hrútafjarðarár og Siglufjarðar...... | 615 | 51—30 |
| Norðlendingafjórðungur 2. sísla, milli Siglufjarðar og Helkunduheiðar.... | 535 | 44—70 |
| Austfirðingafjórðungur 1. sísla, milli Helkunduheiðar og Lónsheiðar... | 300 | 25— |
| Austfirðingafjórðungur 2. sísla, milli Lónsheiðar og Jökulsár........... | 264 | 22— |
| Sunnlendingafjórðungur 1. sísla, milli Jökulsár og Þjórsár............... | 268 | 22—40 |
| Sunnlendingafjórðungur 2. sísla, milli Þjórsár og Botnsár............... | 560 | 46—80 |
| Borgarfjörður: A. sneiðin í Sunnlfj., milli Botnsár og Hvítár....... 170 | | |
| Borgarfjörður: B. sneiðin í Vestfj. milli Hvítár og Langár... 130 | | |
| | 300 | 25— |
| Vestfirðingafjórðungur 1. sísla, milli Langár og Þorskafjarðarár........ | 640 | 53—40 |
| Vestfirðingafjórðungur 2. sísla, milli Þorskafjarðarár og Hrútafjarðarár ... | 330 | 27—60 |
| Á öllu landinu....................... | 3812 | 317—80 |

Á síðari töflunni sjest sísluskifting sú, sem var hjer á landi í birjun 14. aldar. Síslurnar vóru stærri þá enn nú, ekki nema tvær í hverjum fjórðungi, ef Borgarfjörður er frá skilinn, enn hann náði ifir sneiðar af tveim fjórðungum. Fróðlegt er að bera sísluskifting þessa saman við Jónsbók Þegnsk. 2. kap. Þar virðist vera gert ráð firir því, að síslumenn sjeu að öllum jafnaði einn í hverjum fjórðungi, enn þó geti hvorttveggja komið firir, bæði að einn síslumaður sje settur ifir meira enn einn fjórðung, og að fleiri enn einn sje í fjórðungi. Sísluskiftingin er með öðrum orðum enn þá

[1]) Upphæðirnar í þessum dálki standa ekki beinlínis í skránni heldur eru reiknaðar út eftir tölu skattbænda í hverri síslu.

nokkuð óákveðin, og kemur það vel heim við sögu landsins first eftir að það komst undir konung. Enn þegar hjer er komið, 1311, hafa síslurnar fengið ákveðin takmörk, sem skráin sínir, og er óþarfi að fara lengra út í það mál, því að það liggur opið og öndvert firir hverjum þeim, sem nokkuð kann í landafræði Íslands.

---

## II. MANNFJÖLDI 1311.

Eins og kunnugt er, hjelst skatturinn gamli alt fram á vora daga. Hann var ekki afnuminn fir enn með lögum 14. des. 1877 um skatt á ábúð og afnotum jarða og á lausafje; hafði hann þá staðið nokkurn veginn óbreittur í rúmar sex aldir.

Af því að grundvöllur þessa gjalds hefur alt af verið hinn sami, liggur nærri að álikta, að skattgjaldendatalan á ímsum tímum standi í sama hlutfalli við tölu allra bænda á sömu tímum, og sömuleiðis við fólkstöluna. Að því er snertir árið 1311, þekkjum vjer að eins tölu skattgjaldenda, enn hvorki tölu allra bænda landsins nje fólkstöluna. Enn þessar óþektu stærðir ætti að mega finna með samanburði við síðari árin, þar sem vjer þekkjum allar þessar stærðir, svo framarlega sem vjer megum treista því, að hlutfallið milli þeirra sje nokkurn veginn hið sama á ímsum tímum.

Þetta hefur og verið reint. Magnús Stephensen talar um slíkar tilraunir í Island i det 18. århundrede á 266.—268. bls. Á 19. öldinni reindu þeir Jón Sigurðsson og Arnljótur Ólafsson að finna með þessu móti fólkstalið á 14. öldinni og jafnvel líka á dögum Gizurar biskups út úr þingfararkaupsbændatali hans (um 1095)[1]. Enn grundvöllurinn undir útreikningi þeirra var ekki svo rjettur sem skildi. First og fremst þektu þeir ekki nema mjög ófullkomin handrit af skattatalinu 1311 (B-textann) með afbökuðum tölum, auk þess

[1]) Jón Sigurðsson í N. Fjelagsr. X 28.—29. bls. Arnljótur Ólafsson í Skírslum um landshagi á Íslandi I 322. bls.

sem þeir árfærðu þetta skattatal ranglega til 1366[1]). Og í annan stað höfðu þeir ekki nema eitt skattbændatal frá síðari tímum til samanburðar. Það er frá árinn 1753 og er prentað í Lærdómslistafjelagsritunum VI. bindi, aftan við ritgjörð Ólafs Stephánssonar um not af nautpeningi, við 96. bls. Þetta skattbændatal virðist vera áreiðanlegt í alla staði, og tekur Ólafur Stephánsson beint fram, að það sje útdráttur úr skírslum síslumanna, enn það er ófullkomið að því leiti, að það greinir ekki skattbændatöluna í tveim síslum, Strandasíslu og Vestmannaeijasíslu. Annars greinir það nákvæmlega skattgjaldendur í hverri síslu og í hverjum landsfjórðungi. Eru eftir því á öllu landinu að undanskildum nefndum tveim síslum 2158 skattgjaldendur[2]).

Arnljótur Ólafsson sá vel, og tekur það líka beinlínis fram, að bæði var eitt ár ónógt til samanburðar og að árið 1753 var sjerstaklega óheppilegt í þessu efni, af því að það var þriðja ár í harðindakafla, sem birjaði 1751[3]). Mátti því ganga að því vísu, að skattbændatalan þetta ár væri firir neðan meðaltal í samanburði við fólksfjölda. Enn aðrar skírslur vóru þá ekki til prentaðar um þetta efni, að því undanskildu, að nefnd sú, sem skipuð var 1845 til að íhuga skattalöggjöf landsins, hafði reiknað út meðaltal af skattinum firir »5 (6?) ára bilið« 1833 til 1838 eftir skírslum síslumanna

---

[1]) Jón Sigurðsson virðist hafa sjeð, að ekki gat verið nema um eitt skattbændatal að ræða, sem hann árfærir til 1366, og skoðar það því sem markleisu, þar sem eldri höfundar tala um skattatal frá 1311 (t. d. Magnús Stephensen á áðurgreindum stað og Skúli Magnússon í Lærdómslistafjelagsritunum IV 178. bls.). Arnljótur Ólafsson tekur skattbændatöluna 1366 eftir Jóni Sigurðssini, og gera þeir hana 3926, sem er 114 bændum hærra enn hin rjetta skattbændatala 1311, eftir því sem áður er fundið. Enn jafnframt tekur Arnljótur upp í reikning sinn skattbændatölu 1311 eftir hinum eldri höfundum, Skúla Magnússini og Magnúsi Stephensen. Höfðu þeir talið 3330 bændur það ár, Skúli með þeirri athugasemd, að hundruðin væri eflaust að skilja sem tólfræð. Út úr því fær Arnljótur, að skattbændur hafi verið 3990 árið 1311.

[2]) Skúli Magnússon telur sama ár 2128 skattgjaldendur „eftir síslumannanna registrum", í Lærdómslistafjelr. IV 178. bls, enn það er bersínilega ritvilla eða prentvilla.

[3]) Sbr. Magnús Stephensen, Island i det 18. årh. 267. bls. Árbækur Espólíns við árin 1751—1753.

og komst að þeirri niðurstöðu, að skatturinn — þ. e. a. s., eftir málsvenju þeirra tíma, skattur og þingfararkaup samlagt — hefði numið 60,054 álnum firir alt landið að meðaltali á þessu árabili[1]), og samsvarar það 3002$^{7}/_{10}$ skattgjaldendum, því að skattur og þingfararkaup nemur samlagt 20 álnum á mann.

Síðan Arnljótur Ólafsson ritaði um þetta mál, hafa ekki neinar skírslur um skattinn komið firir almennings sjónir, svo jeg viti, að því undanteknu, að skattamálanefndin, sem skipuð var 1875, tók meðaltal af upphæð skattsins firir árin 1873—1875, og var það á öllu landinu 47546 álnir og svarar því, að þá hafi verið 2377$^{3}/_{10}$ skattgjaldendur. Er sú tala afskaplega lág og langar götur firir neðan meðaltal. Sjest það best á því, að hún er meira enn fimtungi lægri enn meðaltalið 1833—1838, og var þó mannfjöldinn allur meira enn fjórðungi hærri 1873—1875 enn hann var 1833—1838. Stafar þessi afturför bersínilega af fjárkláðanum og hörðum árum. Þetta sínir ljóslega, hve viðkvæmur skatturinn er firir harðærum, og að ekki dugir að taka slík ár til samanburðar, þegar á að finna fólkstöluna til forna, heldur halda sjer við miðlungsárin, og má skírsla skattanefndarinnar hin eldri, firir árin 1833—1838, heita góð í því efni, því að þá vóru meðalár, enn ifir skírsluna firir 1873—1875 verður að slá svörtu striki.

Til að bæta nokkuð úr skortinum á áreiðanlegum skírslum um skattinn nú á síðari tímum, bæði á öllu landinu og í einstökum hjeröðum, tók jeg mig til og fór að rannsaka manntalsbækur síslnanna, sem geimdar eru hjer í Landsskjalasafninu. Vakti það tvent firir mjer, að fá fastari grundvöll undir fæturna við útreikning á fólkstalinu til forna, og annað það að geta borið skattgjaldið í einstökum hjeröðum saman við sama gjald í hinum fornu síslum skattatalsins frá 1311. Þótti mjer fróðlegt að sjá, hvort þessi samanburður á einstökum landshlutum fir og nú mundi staðfesta getgátur mínar hjer að framan um leiðrjetting á skattbændatalinu 1311 í einstökum atriðum.

Þegar jeg fór að skoða manntalsbækurnar, sá jeg fljótt, að ekki dugði að taka til samanburðar árin eftir 1857, því

[1]) N. Fjelr. VII 11. bls. og X.

að þá hrakar skattinum niður úr öllu valdi sakir fjárkláðans. Mikið mein er það, að svo margar manntalsbækur hafa glatast eða eru enn ókomnar til Landsskjalasafnsins. Frá 18. öldinni er ekki til nema hrafl, og verður ekkert heillegt skattatal úr því fundið. Frá 19. öldinni er safnið miklu fullkomnara, enn þó vantar íms ár i manntalsbækur flestra sislna, svo að ervitt mun veita að fá fullkomið skattatal firir nokkurt eitt ár á undan 1858, er nái ifir allar síslur landsins. Verður því að spá í eiðurnar firir þær síslur, sem í vantar, með því að taka til samanburðar næsta ár, sem til er, á undan eða á eftir. Eftir ímsar tilraunir valdi jeg úr árin 1840 og 1850, og dró út úr bókunum skattgjaldendatal firir þau ár í öllum síslum landsins, þar sem manntalsbækur vóru til, enn spáði i eiðurnar, þar sem bækur vantaði, sem áður er sagt. Útdráttur þessi er prentaður hjer á eftir, og er þess getið í svigum á eftir síslunafninu, firir hvaða ár útdrátturinn er gerður, ef manntalsbók er ekki til firir árin 1840 eða 1850. Á útdrættinum sjest tala skattgjaldenda eigi að eins i hverjum fjórðungi og síslu, heldur og i hverri þingsókn eða hreppi, því að jeg bjóst við, að ímsum mundi þikja það fróðlegt. Taflan sínir og, hve margir af skattgjaldendum eru búlausir.

Þess ber að geta, að jeg hef bæði árin talið Þingeijarsíslu og Norðurmúlasíslu með sínum gömlu takmörkum, við Sköruvíkurbjarg. Árið 1841, þegar Þingeijarsíslu var skift í tvent, var norðurhlutinn af Skeggjastaðahreppi í NMs., eða Langanes að austan frá Gunnólfsvíkurfjalli til Sköruvíkurbjargs, lagður til NÞs. og kallaður Austurhreppur, og röskuðust við það hin fornu fjórðungamót.

Til samanburðar hef jeg raðað inn i þessa töflu samtölu skattgjaldenda í hverri síslu, hverjum fjórðungi og á öllu landinu eftir skattatali Ólafs Stephánssonar frá 1753 og sömuleiðis eftir skattatalinu frá 1311 og þingfararkaupsbændatalinu frá c. 1095, að svo miklu leiti, sem hjeraðaskiftingin leifði það. Eiðurnar i skattatalinu frá 1753 hef jeg reint að filla á þann hátt, að jeg hef í Strandasíslu tekið meðaltal af gjaldendatalinu þar um tíu elstu árin, sem til eru skírslur um, ɔ: frá 1807 til 1816 að báðum árum meðtöldum. Eru þar þá 32 skattgjaldendur upp og niður, og getur það varla munað mjög miklu, því að fólkstal á landinu er um þær mundir mjög líkt og 1753. Í Vestmannaeijasíslu geri jeg skattgjald-

endur 10 talsins og er það meðaltal af 20 firstu árunum þar, sem til eru í manntalsbókum (1831—1850). Með þessum leiðrjettingum verður skattgjaldendatalan á öllu landinu árið 1753 rjett 2200. Þessar tvær tölur, sem jeg hef giskað á, í dálkinum 1753, hef jeg merkt með stjörnu [*]. Enn fremur er athugavert, að Norðurmúlasísla nær 1753 að eins suður að Lagarfljóti, og þó ekki ifir Fljótsdalshrepp, enn alt hitt telst til Suðurmúlasíslu. Múlaþing skiftist þá eiginlega í þrjá hluta: norðurpart, miðpart og suðurpart (til norðurpartsins teljast Fella, Fossvalla [1—2], Vopnafjarðar og Skeggjastaða þingsóknir).

| Fjórðungur | Síslur, þingsóknir (hreppar) | c.1095 Þingfararkaupsbændur | 1311 Skattgjaldendur | 1753 Skattgjaldendur | c 1840 Skattgjaldendur | c 1840 þaraf búlausir | c. 1850 Skattgjaldendur | c. 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Norðlendinga-fjórðungur | Húnavatnssísla (1841 og 1850): | | | | | | | |
| | Vindhælishreppur | | | | 21 | 0 | 34 | 1 |
| | Engihlíðarhreppur | | | | 23 | 0 | 25 | 3 |
| | Bólstaðarhlíðarhreppur | | | | 44 | 1 | 39 | 1 |
| | Svínavatnshreppur | | | | 30 | 0 | 32 | 4 |
| | Torfalækjarhreppur | | | | 20 | 0 | 23 | 2 |
| | Sveinsstaðahreppur | | | | 21 | 1 | 21 | 1 |
| | Áshreppur | | | | 22 | 0 | 23 | 1 |
| | Þorkelshólshreppur | | | | 29 | 0 | 33 | 1 |
| | Þverárhreppur | | | | 15 | 0 | 27 | 2 |
| | Kirkjuhvammshreppur | | | | 26 | 0 | 29 | 2 |
| | Torfastaðahreppur | | | | 38 | 0 | 39 | 2 |
| | Staðarhreppur | | | | 12 | 0 | 12 | 1 |
| | Samtals í Húnavatnssíslu | | | 160 | 301 | 2 | 337 | 21 |
| | Skagafjarðarsísla (1841 og 1850): | | | | | | | |
| | Holtshreppur | | | | 19 | 0 | 25 | 0 |
| | Fellshreppur | | | | 3 | 0 | 7 | 2 |
| | Hofshreppur | | | | 9 | 1 | 19 | 1 |
| | Hólahreppur | | | | 20 | 0 | 18 | 0 |
| | Viðvíkurhreppur | | | | 13 | 1 | 14 | 1 |
| | Akrahreppur | | | | 29 | 0 | 30 | 0 |
| | Flutt | | | | 93 | 2 | 113 | 4 |

| Fjórðungur | Síslur, þingsóknir (hreppar) | c.1095 | 1311 | 1753 | c. 1840 | | c. 1850 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | Þingfarar-kaupsbændur | Skattgjald-endur | Skattgjald-endur | Skattgjald-endur | þaraf búlausir | Skattgjald-endur | þaraf búlausir |
| *Norðlendinga-fjórðungur* | Flutt | | | 160 | 93 | 2 | 113 | 4 |
| | Lítingsstaðahreppur .... | | | | 31 | 1 | 38 | 2 |
| | Seiluhreppur .......... | | | | 18 | 0 | 22 | 0 |
| | Staðarhreppur ......... | | | | 17 | 0 | 16 | 1 |
| | Sauðárhreppur ........ | | | | 14 | 0 | 12 | 0 |
| | Skefilsstaðahreppur .... | | | | 6 | 1 | 11 | 0 |
| | Rípurhreppur ......... | | | | 8 | 0 | 6 | 0 |
| | Samtals í Skagafjarðarsíslu | | | 134* | 187 | 4 | 218 | 7 |
| | Eijafjarðarsísla (1841 og 1850): | | | | | | | |
| | Öngulstaðahreppur ..... | | | | 27 | 0 | 35 | 0 |
| | Saurbæjarhreppur...... | | | | 40 | 6 | 44 | 1 |
| | Hrafnagilshreppur ...... | | | | 24 | 1 | 22 | 0 |
| | Glæsibæjarhreppur ..... | | | | 25 | 1 | 25 | 0 |
| | Skriðuhreppur ......... | | | | 37 | 1 | 39 | 0 |
| | Arnarnesshreppur ..... | | | | 21 | 1 | 27 | 0 |
| | Vallnahreppur ......... | | | | 20 | 0 | 36 | 1 |
| | Þóroddsstaðahreppur ... | | | | 13 | 1 | 7 | 0 |
| | Hvanneirarhreppur ..... | | | | 11 | 0 | 11 | 2 |
| | Samtals í Eijafjarðarsíslu | | | 147 | 218 | 11 | 246 | 4 |
| | Þingeijarsísla: | | | | | | | |
| | Skútustaða þingsókn | | | | 16 | 1 | 19 | 0 |
| | Húsavíkur — | | | | 22 | 2 | 24 | 2 |
| | Helgastaða — | | | | 35 | 0 | 42 | 1 |
| | Ljósavatns — | | | | 43 | 1 | 42 | 2 |
| | Háls — | | | | 33 | 0 | 40 | 0 |
| | Gritubakka — | | | | 14 | 0 | 14 | 0 |
| | Svalbarðstrandar — | | | | 14 | 0 | 18 | 0 |
| | Kelduness — | | | | 21 | 1 | 24 | 0 |
| | Skinnastaða — | | | | 18 | 0 | 21 | 0 |
| | Presthóla — | | | | 14 | 0 | 13 | 0 |
| | Svalbarðs (Þistilfjarðar) þingsókn........... | | | | 16 | 1 | 28 | 1 |
| | Sauðaness þingsókn.... | | | | 8 | 0 | 16 | 0 |
| | Samtals í Þingeijarsíslu | | | 100 | 254 | 6 | 301 | 6 |
| | Samtals í Norðlendingafj.: | 1440 | 1150 | 541 | 960 | 23 | 1102 | 38 |

| Fjórðungur | Síslur, þingsóknir (hreppar) | c.1095 Þingfararkaupsbændur | 1311 Skattgjaldendur | 1753 Skattgjaldendur | c. 1840 Skattgjaldendur | c. 1840 þaraf búlausir | c. 1850 Skattgjaldendur | c. 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Austfirðinga-fjórðungur | **Norðurmúlasísla:** | | | | | | | |
| | Hjaltastaða þingsókn | | | | 32 | 0 | 42 | 0 |
| | Desjarmírar — | | | | 20 | 0 | 24 | 0 |
| | Dvergasteins — | | | | 15 | 0 | 17 | 0 |
| | Fljótsdals — | | | — | 27 | 0 | 24 | 1 |
| | Fella — | | | | 25 | 0 | 28 | 0 |
| | Fossvalla — 1. | | | | 28 | 0 | 39 | 0 |
| | — — 2. | | | | 41 | 0 | 50 | 2 |
| | Vopnafjarðar — | | | | 34 | 0 | 76 | 2 |
| | Skeggjastaða — | | | | 11 | 0 | 30 | 1 |
| | Samtals í Norðurmúlasíslu | | | 56 | 233 | 0 | 330 | 6 |
| | **Suðurmúlasísla (1843 og 1850):** | | | | | | | |
| | Hólma þingsókn ....... | | | | 25 | 0 | 29 | 0 |
| | Eidala — ....... | | | | 35 | 0 | 37 | 0 |
| | Berufjarðar þingsókn, 1. Geithellnahreppur .... | | | | 30 | 0 | 23 | 0 |
| | Berufjarðar þingsókn, 2. Berunesshreppur ..... | | | | 16 | 1 | 16 | 0 |
| | Kolfreijustaðar þingsókn | | | | 27 | 0 | 27 | 0 |
| | Skorrastaðar — | | | | 20 | 0 | 24 | 0 |
| | Þingmúla — | | | | 14 | 0 | 18 | 0 |
| | Egilsstaða þingsókn, 1. Eiðahreppur ......... | | | | 23 | 1 | 30 | 3 |
| | Egilsstaða þingsókn, 2. Vallnahreppur ...... | | | | 34 | 1 | 33 | 2 |
| | Samtals í Suðurmúlasíslu | | | 204 | 224 | 3 | 237 | 5 |
| | **Skaftafelssísla:** | | | | | | | |
| | Bæjarhreppur ......... | | | | 11 | 0 | 14 | 0 |
| | Bjarnaneshreppur ...... | | | | 18 | 0 | 25 | 0 |
| | Borgarhafnarhreppur ... | | | | 14 | 0 | 7 | 0 |
| | Hofshreppur .......... | | | | 18 | 0 | 19 | 0 |
| | Dirhólahreppur ........ | | | | 52 | 2 | 73 | 2 |
| | Leiðvallarhreppur ...... | | | | 59 | 5 | 82 | 6 |
| | Klifahreppur ......... | | | | 40 | 3 | 78 | 14 |
| | Samtals í Skaftafelssíslu | | 264 | 215 | 212 | 10 | 298 | 22 |
| | Samtals í Austfirðingafj.: | 840 | 564 | 475 | 669 | 13 | 865 | 33 |

| Fjórðungur | Síslur, þingsóknir (hreppar) | c.1095 Þingfararkaupsbændur | 1311 Skattgjaldendur | 1753 Skattgjaldendur | c. 1840 Skattgjaldendur | c. 1840 þaraf búlausir | c. 1850 Skattgjaldendur | c. 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Sunnlendingafjórðungur | Rangárvallasísla (1843 og 1850): | | | | | | | |
| | Þjóðólfshaga þingsókn.. | | | | 79 | 0 | 86 | 3 |
| | Skarðs — .. | | | | 34 | 0 | 37 | 0 |
| | Reiðarvatns — .. | | | | 46 | 0 | 44 | 0 |
| | Stórólfshvols — .. | | | | 20 | 0 | 23 | 0 |
| | Kirkjulækjar — .. | | | | 28 | 0 | 27 | 0 |
| | Fíflholts — .. | | | | 43 | 0 | 38 | 0 |
| | Kross — .. | | | | 37 | 0 | 40 | 0 |
| | Steinahellis — .. | | | | 41 | 0 | 44 | 0 |
| | Samtals í Rangárvallasíslu | | 268 (Rangárvallasísla and Vestmannaeijasísla together) | 239 | 328 | 0 | 339 | 3 |
| | Vestmannaeijasísla | | | *10 | 5 | 0 | 4 | 0 |
| | Árnessísla (1840 og 1851): | | | | | | | |
| | Hróarsholts þingsókn ... | | | | 109 | 0 | 82 | 1 |
| | Bakkarholts — ... | | | | 26 | 0 | 36 | 0 |
| | Stóruborgar — ... | | | | 69 | 0 | 83 | 0 |
| | Vatnsleisu — ... | | | | 52 | 0 | 68 | 5 |
| | Grafar — ... | | | | 47 | 0 | 37 | 0 |
| | Sandlækjar — ... | | | | 34 | 0 | 48 | 0 |
| | Samtals í Árnessíslu... | | | 211 | 337 | 0 | 354 | 6 |
| | Gullbringusísla: | | | | | | | |
| | Grindavíkur hreppur ... | | | | 5 | 0 | 5 | 0 |
| | Hafnar- og Rosmhvalanesshreppur......... | | | | 18 | 0 | 26 | 0 |
| | Strandahreppur........ | | | | 10 | 0 | 10 | 0 |
| | Álftanesshreppur ...... | | | | 16 | 0 | 16 | 0 |
| | Seltjarnarnesshreppur .. | | | | 6 | 0 | 9 | 0 |
| | Samtals í Gullbringusíslu | | | 23 | 55 | 0 | 66 | 0 |
| | Kjósarsísla (1833 og 1853): | | | | | | | |
| | Reinivalla þingsókn .... | | | | 16 | 0 | 22 | 0 |
| | Esjubergs — .... | | | | 17 | 0 | 20 | 0 |
| | Lágafels — .... | | | | 14 | 0 | 16 | 0 |
| | Samtals í Kjósarsíslu... | | | 46 | 47 | 0 | 58 | 0 |

| Fjórðungur | Síslur, þingsóknir (hreppar) | c.1095 Þingfararkaupsbændur | 1311 Skattgjaldendur | 1753 Skattgjaldendur | c. 1840 Skattgjaldendur | c. 1840 þaraf búlausir | c 1850 Skattgjaldendur | c 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Sunnlendingafjórðungur | Borgarfjarðarsísla: | | | | | | | |
| | Búrfels þingsókn... | | | | 8 | 0 | 9 | 0 |
| | Sturlureikja — ... | | | | 24 | 2 | 22 | 0 |
| | Heggstaða — ... | | | | 15 | 0 | 16 | 0 |
| | Lundar — ... | | | | 13 | 1 | 14 | 0 |
| | Leirár — ... | | | | 16 | 2 | 13 | 0 |
| | Heiness — ... | | | | 15 | 2 | 13 | 1 |
| | Grundar — ... | | | | 17 | 2 | 19 | 1 |
| | Hvítaness — ... | | | | 5 | 2 | 5 | 0 |
| | Saurbæjar — ... | | | | 10 | 1 | 8 | 0 |
| | Samtals í Borgarfj.síslu | | 170 | 121 | 123 | 12 | 119 | 2 |
| | Samtals í Sunnl.fjórðungi | 1200 | 998 | 650 | 895 | 12 | 940 | 11 |
| Vestfirðinga-fjórðungur | Mírasisla: | | | | | | | |
| | Þverárhlíðar þingsókn, 1. Hvítársíðuhreppur | | | | 8 | 0 | 15 | 0 |
| | Þverárhlíðar þingsókn, 2. Þverárhliðarhreppur | | | | 13 | 0 | 17 | 3 |
| | Þverárhlíðar þingsókn, 3. Norðurárdalshreppur | | | | 8 | 0 | 16 | 1 |
| | Borgar þingsókn, 1. Stafholtstungnahreppur... | | | | 19 | 2 | 38 | 7 |
| | Borgar þingsókn, 2. Borgarhreppur.......... | | | | 22 | 1 | 27 | 0 |
| | Samtals milli Hvítár og Langár ............ | | 130 | | 70 | 3 | 113 | 11 |
| | Álftaness þingsókn, 1. Álftanesshreppur..... | | | | 23 | 0 | 27 | 0 |
| | Álftaness þingsókn, 2. Hraunhreppur....... | | | | 15 | 1 | 31 | 0 |
| | Samtals í Mírasíslu .... | | | 123 | 108 | 4 | 171 | 11 |
| | Hnappadalssísla: | | | | | | | |
| | Eija þingsókn, 1. Kolbeinsstaðahreppur.... | | | | 13 | 1 | 21 | 0 |
| | Flutt.... | | | | 13 | 1 | 21 | 0 |

| Fjórðungur | Síslur, þingsóknir (hreppar) | c.1095 Þingfararkaupsbændur | 1311 Skattgjaldendur | 1753 Skattgjaldendur | c. 1840 Skattgjaldendur | c. 1840 þaraf búlausir | c. 1850 Skattgjaldendur | c. 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Vestfirðinga-fjórðungur | Flutt.... | | | | 13 | 1 | 21 | 0 |
| | Eija þingsókn, 2. Eijahreppur ............ | | | | 5 | 0 | 6 | 0 |
| | Eija þingsókn, 3. Miklaholtshreppur ........ | | | | 7 | 0 | 13 | 0 |
| | Samtals í Hnappadalssíslu | | | 33 | 25 | 1 | 40 | 0 |
| | **Snæfellsnessísla:** | | | | | | | |
| | Brekkubæjar þingsókn.. | | | | 8 | 1 | 12 | 0 |
| | Ingjaldshóls — .. | | | | 4 | 0 | 2 | 0 |
| | Brimilsvalla — .. | | | | 7 | 0 | 2 | 0 |
| | Eirarsveit............ | | | | 11 | 1 | 4 | 0 |
| | Helgafelssveit.......... | | | | 8 | 1 | 8 | 0 |
| | Dranga þingsókn....... | | | | 12 | 0 | 10 | 1 |
| | Garða — ....... | | | | 7 | 0 | 7 | 0 |
| | Samtals í Snæfellsnessíslu | | | 90 | 57 | 3 | 45 | 1 |
| | **Dalasísla** (1838 og 1850): | | | | | | | |
| | Hvamms þingsókn (sveit) | | | | 4 | 0 | 8 | 1 |
| | Laxárdalshreppur ...... | | | | 5 | 0 | 13 | 0 |
| | Hörðudalshreppur...... | | | | 11 | 1 | 12 | 1 |
| | Miðdalahreppur........ | | | | 14 | 3 | 17 | 0 |
| | Haukadalshreppur...... | | | | 5 | 0 | 9 | 0 |
| | Saurbæjarhreppur...... | | | | 4 | 0 | 8 | 0 |
| | Ballarár þingsókn (Skarðsstr. hr.)............ | | | | 10 | 0 | 8 | 0 |
| | Staðarfells þings. (Fellsstr. hr.)............ | | | | 2 | 0 | 6 | 0 |
| | Samtals í Dalasíslu .... | | | 69 | 55 | 4 | 81 | 2 |
| | **Barðastrandasísla** (1841 og 1850): | | | | | | | |
| | Svefneija þingsókn (Flateijarhr.) ........... | | | | 9 | 0 | 12 | 0 |
| | Berufjarðar þings. (Geiradals- og Reikhólahr.).. | | | | 9 | 0 | 11 | 0 |
| | Samtals sunnan Þorskafj. | | | | 18 | 0 | 23 | 0 |

| Fjórðungur | Síslur, þingsóknir (hreppar) | c.1095 Þingfararkaupsbændur | 1311 Skattgjaldendur | 1753 Skattgjaldendur | c. 1840 Skattgjaldendur | c. 1840 þaraf búlausir | c. 1850 Skattgjaldendur | c. 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Vestfirðinga-fjórðungur | Flutt.... | | | | 18 | 0 | 23 | 0 |
| | Skálaness þingsókn.. | | | | 6 | 0 | 9 | 0 |
| | Vattarness — .. | | | | 4 | 0 | 8 | 0 |
| | Haga — .. | | | | 6 | 0 | 8 | 0 |
| | Tungu — .. | | | | 7 | 0 | 19 | 0 |
| | Kvígindisfells — .. | | | | 4 | 0 | 8 | 0 |
| | Fífustaða — .. | | | | 5 | 0 | 10 | 0 |
| | Samtals í Barðastr.síslu | | | 91 | 50 | 0 | 85 | 0 |
| | Ísafjarðarsísla (1842 og 1850): | | | | | | | |
| | Þingeirar þingsókn.. | | | | 6 | 0 | 6 | 0 |
| | Míra — .. | | | | 11 | 2 | 15 | 0 |
| | Mosvalla — .. | | | | 4 | 1 | 7 | 0 |
| | Suðureirar — .. | | | | 5 | 0 | 3 | 0 |
| | Nauteirar — .. | | | | 8 | 1 | 10 | 0 |
| | Reikjafjarðar — .. | | | | 2 | 1 | 10 | 0 |
| | Grunnavíkur — .. | | | | 0 | 0 | 1 | 0 |
| | Sljettu — .. | | | | 2 | 0 | 0 | 0 |
| | Snæfjalla — .. | | | | 0 | 0 | 3 | 0 |
| | Auðkúlu — .. | | | | 7 | 1 | 5 | 0 |
| | Hóls — .. | | | | 1 | 0 | 8 | 0 |
| | Eirar — .. | | | | 4 | 0 | 9 | 0 |
| | Súðavíkur — .. | | | | 3 | 0 | 7 | 0 |
| | Ögur — .. | | | | 2 | 0 | 1 | 0 |
| | Samtals í Ísafjarðarsíslu | | | 96 | 55 | 6 | 85 | 0 |
| | Strandasísla: | | | | | | | |
| | Kaldrananess þings. (hr.) | | | | 5 | 0 | 3 | 0 |
| | Hrófbergs — | | | | 3 | 0 | 3 | 0 |
| | Árness — | | | | 8 | 0 | 1 | 0 |
| | Kirkjubóls — | | | | 4 | 0 | 6 | 0 |
| | Broddaness — | | | | 6 | 0 | 8 | 0 |
| | Bæjar — | | | | 15 | 0 | 19 | 1 |
| | Samtals í Strandasíslu.. | | | *32 | 41 | 0 | 40 | 1 |
| | Samtals í Vestfirðingafj. | 1080 | 1100 | 534 | 391 | 18 | 547 | 15 |
| | **Samtals á öllu landinu** | 4560 | 3812 | 2200 | 2915 | 66 | 3454 | 97 |

Til samanburðar við skattatalið hjer að framan, eftir hinum fornu síslum, frá 1311, set jeg hjer eftirfarandi ifirlit ifir tölu skattgjaldenda árin 1840 og 1850, raðað eftir takmörkum hinna fornu síslna. Til skíringar tek jeg upp aftur skattgjaldendatalið 1311. Fjórðungana tákna jeg með upphafsstöfum þeirra, og síslurnar fornu með sama tölumarki og áður (t. d. N 1. = Norðlendingafjórðungur 1. sísla osfrv.). Bff táknar Borgarfjörð hinn forna (frá Botnsá til Langár) og skiftist í 2 hluta, er jeg tákna með Bff 1 (sunnan Hvítár) og Bff 2 (vestan Hvítár). Síslunöfn vorra tíma skammstafa jeg (Ms. I = Mírasísla sunnan Langár, Ms. II = Míras. vestan Langár; Bstrs. I = Barðastrandars. sunnan Þorskafj., Bstrs. II = sama vestan Þorskafj.; Efs. I = Eijafjarðars. vestan Siglufjarðar, Efs. II = Eijafjarðarsísla norðan Siglufjarðar). Að því er Efs. I snertir skal það tekið fram, að þar vóru 1841 5 skattbændur (enginn búlaus), og 1850 5 skattgjaldendur, þaraf 1 búlaus. Annars er taflan að eins útdráttur úr undanfarandi töflu.

| Síslur 1311 | Síslur 1840 og 1850 | 1311 Skattgjaldendur | c. 1840 Skattgjaldendur | c. 1840 þaraf búlausir | c. 1850 Skattgjaldendur | c. 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|
| N 1. | Hvs., Skagafs., Efs. I..... | 615 | 493 | 6 | 560 | 29 |
| N 2. | Efs. II, Þings........... | 535 | 467 | 17 | 542 | 9 |
| A 1. | N Ms., S Ms.............. | 300 | 457 | 3 | 567 | 11 |
| A 2. | Skaftafs................ | 264 | 212 | 10 | 298 | 22 |
| S 1. | Rangárvs., Vestmes....... | 268 | 333 | 0 | 343 | 3 |
| S 2. | Árness., Gullbrs., Kjósars. | 560 | 439 | 0 | 478 | 6 |
| Bff. 1 | Borgarfs................ | 170 | 123 | 12 | 119 | 2 |
| Bff. 2 | Ms. I................... | 130 | 70 | 3 | 113 | 11 |
| V 1. | Ms.II, Hnds., Snfns, Ds., Bstrs. I.............. | 640 | 193 | 9 | 247 | 3 |
| V 2. | Bstrs. II, Ífs., Strs........ | 330 | 128 | 6 | 187 | 1 |
| | Samtals á öllu landinu.... | 3812 | 2915 | 66 | 3454 | 97 |

Til þess að hafa fastan grundvöll undir fótum riður first á að svara þeirri spurningu: Hvernig kemur hin siðasta tafla heim við getgátur þær, er gerðar eru hjer að framan til leiðrjettingar einstökum atriðum í skattatalinu frá 1311?

Helsta leiðrjettingin miðaði að því að lagfæra þá 100 manna skekkju, sem komist hafði inn í skattatalið og lísti sjer í því, að skattgjaldendatalan í Sunnlendinga og Vestfirðingafjórðungi samlögðum eftir fjórðungatalinu reindist 100 mönnum lægri enn í hinum einstöku sislum þessara fjórðunga samlögðum, eftir síslutalinu. Jeg sindi fram á, að villan hlaut að liggja í síslutali Sunnlendingafjórðungs, og að skattgjaldendur í annarihvorri hinna fornu síslna þess fjórðungs (S 1 eða S 2) hlitu að vera settir 100 mönnum of hátt, því að annars irði skattgjaldendatalan í Borgarfirði sunnan Hvítár (Bff. I) of lág í samanburði við sömu tölu í Borgarfirði norðan Hvítár (Bff. 2 = Ms. I). Enn fremur sindi jeg fram á, að skattgjaldendatalan í S 2 (Árness., Gullbrs. og Kjósars.) virtist vera ótrúlega há í samanburði við skattgjaldendatöluna í S 1 (Rangárvs. og Vestmes.) og komst þannig að þeirri niðurstöðu, að talan ætti að lækka um 100 menn í S 2. Með þessu móti varð skattgjaldendatalan árið 1311 (sjá töfluna):

| | |
|---|---|
| í S 1 (óbreitt) .......... | 268 |
| í S 2 (lækkuð) .......... | 560 |
| í Bff. 1 (= Borgarfs.) ..... | 170 |
| í Bff. 2 (= Ms. I) ........ | 130 |

Hvernig verður nú jöfnuðurinn milli sömu landshluta árin 1840 og 1850? Það má lesa út úr töflunni, þannig:

| | 1840 | 1850 |
|---|---|---|
| í S 1 ....... | 333 | 343 |
| í S 2 ....... | 439 | 478 |
| í Bff. 1 ....... | 123 | 119 |
| í Bff. 2 ....... | 70 | 113 |

Ef vjer nú berum first saman S 1 og S 2, þá sjáum vjer, að skattgjaldendatalan í S 1 er á árunum 1840 og 1850 tiltölulega miklu hærri í samanburði við skattgjaldendatöluna í S 2, enn hún var 1311, þrátt firir það, að talan í S 2 hefur

verið lækkuð um 100 firir árið 1311. Það ár (1311) eru skattgjaldendur í S 1 tæpur helmingur móts við skattgjaldendur í S 2, enn árin 1840 og 1850 rúmlega þrír fjórðu partar. Þetta bendir til, að það hafi verið rjett gert að lækka töluna í S 2 firir árið 1311.

Sama verður ofan á, þegar vjer berum saman Bff. 1 og Bff. 2. Bæði árin, 1840 og 1850, eru skattgjaldendur í Bff. 2 færri enn í Bff. 1, og vísar það til, að talan hafi alt af verið nokkru lægri í Bff. 2, sem kemur heim við leiðrjetting mína. Enn það er töluverður munur á árunum, því að 1840 eru skattgjaldendur í Bff. 2 að eins rúmur helmingur móts við skattgjaldendur í Bff. 1, enn 1850 slaga þeir hátt upp í hina síðarnefndu. Kemur það af því, að skattmönnum hefur fjölgað stórkostlega í suðurhluta Mírasíslu á þessu árabili, enn heldur fækkað í Borgarfjarðarsíslu. Til að finna hinn rjetta jöfnuð milli þessara sveita er því nauðsinlegt að taka fleiri ár til samanburðar og hef jeg til þess valið árabilið 1840—1850. Set jeg hjer töflu er sínir skattatal sveitanna á þeim árum. Til fróðleiks tek jeg með vesturhluta Mírasíslu, þó að hann komi ekki beint þessu máli við.

Ef vjer lítum á þessa töflu, sjáum vjer fljótt, að skattgjaldendum í Bff. 2 fækkar lítið eitt annað árið (1841), enn fjölgar síðan jafnt og stöðugt til 1850. Í Bff. 1 flöktir talan lítið eitt upp og niður, þó svo, að heldur fjölgar til 1844, enn fækkar síðan til loka tímabilsins, og er talan þá heldur lægri enn í upphafi. Meðaltal skattgjaldenda verður firir þetta árabil:

í Bff. 2 ............ 89
í Bff. 1 ............ 127.

Tölur þessar standa í mjög líkum hlutföllum hvor við aðra og tölurnar 130 og 170, sem tákna skattbændatöluna í sömu sveitum 1311. Að eins eru skattgjaldendur í Bff. 2 tiltölulega ívið færri á árunum 1840—1850 í samanburði við skattgjaldendur í Bff. 1, enn þeir vóru 1311. Ef þeir hefðu árin 1840—50 verið 97 í stað 89, enn Bff. 1 staðið í stað, þá hefðu hlutföllin mátt heita hnífjöfn. Getur þetta varla komið betur heim, eftir eðli sínu, og staðfestist þá einnig frá þessari hálfu sú getgáta mín, að 100 manna villan í skattatalinu frá 1311 stafi af því, að skattgjaldendur í S 1 (Rangárvs., Gullbrs.

| Síslur, þingsóknir (hreppar) | 1840 Skattgjald-endur | 1840 þaraf búlausir | 1841 Skattgjald-endur | 1841 þaraf búlausir | 1842 Skattgjald-endur | 1842 þaraf búlausir | 1843 Skattgjald-endur | 1843 þaraf búlausir | 1844 Skattgjald-endur | 1844 þaraf búlausir | 1845 Skattgjald-endur | 1845 þaraf búlausir | 1846 Skattgjald-endur | 1846 þaraf búlausir | 1847 Skattgjald-endur | 1847 þaraf búlausir | 1848 Skattgjald-endur | 1848 þaraf búlausir | 1849 Skattgjald-endur | 1849 þaraf búlausir | 1850 Skattgjald-endur | 1850 þaraf búlausir |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Mírasísla: | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Hvítársíðu hr. | 8 | 0 | 10 | 0 | 10 | 0 | 12 | 0 | 12 | 0 | 12 | 0 | 12 | 1 | 14 | 0 | 17 | 0 | 15 | 0 | 15 | 0 |
| Þverárhlíðar — | 13 | 0 | 11 | 1 | 14 | 0 | 13 | 0 | 15 | 0 | 15 | 1 | 14 | 1 | 14 | 1 | 17 | 2 | 16 | 3 | 17 | 3 |
| Norðurárdals — | 8 | 0 | 10 | 0 | 14 | 0 | 15 | 0 | 13 | 1 | 13 | 2 | 14 | 2 | 15 | 3 | 14 | 0 | 17 | 3 | 16 | 1 |
| Stafholtstungna — | 19 | 2 | 16 | 2 | 18 | 1 | 18 | 1 | 20 | 0 | 21 | 0 | 25 | 0 | 30 | 1 | 28 | 3 | 34 | 5 | 38 | 7 |
| Borgar — | 22 | 1 | 16 | 0 | 20 | 1 | 21 | 0 | 25 | 1 | 28 | 0 | 26 | 0 | 26 | 0 | 27 | 0 | 28 | 0 | 27 | 0 |
| **Samtals í Bff. 2 = Ms. I** .......... | 70 | 3 | 63 | 3 | 76 | 2 | 79 | 1 | 85 | 2 | 89 | 3 | 91 | 4 | 99 | 5 | 103 | 5 | 110 | 11 | 113 | 11 |
| Alftaness-og Hraun-hreppur ....... | 38 | 1 | 42 | 0 | 48 | 2 | 53 | 3 | 60 | 0 | 54 | 2 | 58 | 2 | 58 | 3 | 60 | 2 | 57 | 1 | 58 | 0 |
| Samtals í Mírasíslu | 108 | 4 | 105 | 3 | 124 | 4 | 132 | 4 | 145 | 2 | 143 | 5 | 149 | 6 | 157 | 8 | 163 | 7 | 167 | 12 | 171 | 11 |
| Bff. 1 = Borgarfjarðarsísla: | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Búrfels þingsókn | 8 | 0 | 12 | 1 | 11 | 1 | 12 | 1 | 13 | 1 | 11 | 1 | 11 | 2 | 8 | 0 | 9 | 0 | 10 | 0 | 9 | 0 |
| Sturlureikja — | 24 | 2 | 26 | 1 | 23 | 1 | 25 | 2 | 27 | 2 | 28 | 3 | 23 | 1 | 25 | 0 | 24 | 0 | 21 | 0 | 22 | 0 |
| Heggstaða — | 15 | 0 | 13 | 0 | 14 | 0 | 17 | 0 | 17 | 0 | 15 | 0 | 19 | 0 | 17 | 0 | 18 | 0 | 16 | 0 | 16 | 0 |
| Lundar — | 13 | 1 | 14 | 2 | 15 | 1 | 14 | 0 | 14 | 2 | 16 | 0 | 14 | 0 | 14 | 0 | 13 | 0 | 15 | 0 | 14 | 0 |
| Leirár — | 16 | 2 | 17 | 2 | 16 | 1 | 15 | 1 | 15 | 2 | 11 | 2 | 10 | 1 | 8 | 0 | 12 | 0 | 14 | 1 | 13 | 0 |
| Heiness — | 15 | 2 | 14 | 2 | 12 | 0 | 11 | 0 | 10 | 0 | 12 | 1 | 11 | 0 | 11 | 1 | 11 | 1 | 9 | 1 | 13 | 1 |
| Grundar — | 17 | 2 | 18 | 0 | 16 | 0 | 18 | 1 | 20 | 1 | 18 | 0 | 18 | 0 | 17 | 0 | 18 | 0 | 17 | 0 | 19 | 1 |
| Hvítaness — | 5 | 2 | 6 | 2 | 6 | 2 | 7 | 1 | 8 | 0 | 7 | 0 | 8 | 0 | 6 | 0 | 8 | 0 | 4 | 0 | 5 | 0 |
| Saurbæjar — | 10 | 1 | 8 | 0 | 14 | 0 | 16 | 0 | 15 | 1 | 18 | 1 | 16 | 0 | 11 | 0 | 14 | 1 | 11 | 1 | 8 | 0 |
| **Samtals í Bff. 1** ... | 123 | 12 | 128 | 10 | 127 | 6 | 135 | 6 | 139 | 9 | 136 | 8 | 130 | 4 | 117 | 1 | 127 | 2 | 117 | 3 | 119 | 2 |

og Kjósars.) sjeu taldir 100 mönnum fleiri, enn þeir eiga að vera.

Önnur leiðrjetting mín við skattatalið 1311 miðaði að því að laga skekkju þá, er lísti sjer í tölum Austfirðingafjórðungs, því að þar stóð skattgjaldendatalan í hinum einstöku síslum ekki heima við samtölu þeirra í fjórðungnum öllum, og munaði um 20, sem þurfti að bæta við í annarihvorri síslunni. Jeg valdi þar að hækka heldur skattgjaldendatöluna í 1. síslu (ɔ: í Múlasíslunum), því að annars hefðu skattgjaldendur í 2. síslu (Skaftafelssíslu) orðið jafnmargir, eða þó lítið eitt fleiri enn í 1. síslu. Þessa leiðrjetting mína staðfestir samanburður við skattatölin 1840 og 1850. Eftir þeim er Skaftafellssísla tæpast hálfdrættingur við Múlasíslurnar, enn eftir skattatalinu 1311 er mjög nærri um þær, þó að hækkað sje í Múlasíslunum (í Múlasíslum 300, í Skaftafs. 264). Er auðsjeð, að Múlasíslunum hefur farið mikið fram móts við 1311, enn Skaftafelssísla nokkurn veginn staðið í stað. Annars er hjer líka skattatalið 1753 til samanburðar. Eftir því eru 260 skattgjaldendur í Múlasíslum, enn 215 í Skaftafelssíslu og er það hlutfall mjög líkt því, sem var 1311. Enn þar er það athugavert, að harðindin 1751—1752 lögðust mjög þungt á norðaustur kjálka landsins[1]), og er þeim eflaust um að kenna, að ekki eru fleiri enn 56 skattgjaldendur í »norðurparti« Múlasíslu 1753.[2])

Þriðja leiðrjetting mín miðaði að því að koma á samræmi milli síslnatalsins og fjórðungatalsins í Norðlendingafjórðungi. Enn þar munaði að eins um 10, sem síslnatalið var of hátt, og tekur því varla að minnast á þetta. Jeg lagaði skekkjuna með því að lækka um 5 í hvorri síslu. Annars er það merkilegt, að skattmegnið er árin 1840 og 1850 meira í vestursíslu fjórðungsins (N 1 = Húnavs. og Skagafs.) enn í norðursíslunni (N 2 = Efs. og Þings.), þó að norðursíslan væri þá heldur fólksfleiri[3]), og kemur þetta heim við skatt-

[1]) Sjá Árbækur Espólíns X 26. og 30. bls.

[2]) Eins og áður er sagt, nær „norðurparturinn“ árið 1753 ekki lengra enn að Lagarfljóti, og þó ekki ifir Fljótsdalshrepp. Á sama svæði eru árið 1840 139 skattgjaldendur, og 223 árið 1850.

[3]) Eftir Statistiske Oplysninger om Island, udg. af Statens statistiske Bureau, Kh. 1907 var fólkstalan árið 1840 í N 1 7747, enn 8256 í N 2. Árið 1850 var fólkstalan í N 1 8150, enn í N 2 8418 (sjá Skírslur um landshagi á Íslandi I 430. bls.).

megnið árið 1311, og er þó þar munurinn milli síslnanna meiri. Sjest á þessu það, sem annars leiðir af sjálfu sjer, að skattmegnið fer ekki eingöngu eftir fólksfjölda, heldur líka eftir efnahag sveitanna.

Samanburðurinn við skattatölin 1840 og 1850 hefur þannig leitt það í ljós, að lagfæringar mínar við skattatalið 1311 muni vera rjettar.

---

Ef vjer nú berum saman þingfararkaupsbændatalið c. 1095 og skattbændatölin 1311, 1840 og 1850, enn sleppum skattbændatalinu 1753, af því að það er ekki meðalár, — þá er tvent, sem mest ber á: afturförin í Vestfirðingafjórðungi síðan 1311 og uppgangur Austfirðingafjórðungs. Ef vjer táknum fjórðungana með upphafsstöfum þeirra og röðum þeim eftir skattmegni hvert árið um sig, kemur þetta út:

c. 1095: N. S. V. A.
1311: N. V. S. A.
1840: N. S. A. V.
1850: N. S. A. V.[1])

[1]) Eftir álitsskjali skattanefndarinnar, er skipuð var 1845, skiftist skattur og skattgjaldendur þannig niður á landið að meðaltali á árunum 1833—1838:

| | Skattur álnir | Skattgjaldendur |
|---|---|---|
| NA.-amt | 30290 | 1514,5 |
| S.-amt | 23348 | 1167,4 |
| V.-amt | 6416 | 320,8 |
| Samtals | 60054 | 3002,7 |

Hjer er skift eftir ömtum, og fellur sú skifting ekki saman við fjórðungaskiftinguna, að því leiti sem Austfirðingafjórðungi er skift milli Norðuramts og Suðuramts þannig, að Múlaþing alt telst með NA.-amti, enn Skaftafelssíslurnar með S-amti. Enn vjer getum farið nærri um hlutfallið milli fjórðunganna með því að skifta Múlaþingi út úr NA-amtinu eftir því hlutfalli, sem var milli skattgjaldenda í Múlaþingi og Norðlendingafjórðungi 1840 (457 : 960), og sömuleiðis Skaftafelssíslunum út úr S-amtinu eftir samskonar hlutfalli 1840 milli þeirra og Sunnlendingafjórðungs (212 : 895). Telst mjer þá, að verði:

Vjer sjáum á þessu, að Vestfirðingafjórðungur er þriðji í röðinni c. 1095; síðan fer honum svo fram til 1311 í tiltölu við hina fjórðungana, að hann verður annar í röðinni það ár, kemst upp firir Sunnlendingafjórðung og gengur næst Norðlendingafjórðungi. Enn frá 1311 til 1840—50 hrakar honum svo, að hann verður langlægstur allra fjórðunganna. Hins vegar hnignar Austfirðingafjórðungi frá 1095—1311 (úr 840 þingfararkaupsbændum ofan í 564 skattgjaldendur), enn síðan 1311 hefur hann gengið svo upp, að hann hefur 669 skattgjaldendur árið 1840, eða rúmum 100 mönnum fleiri enn 1311, og árið 1850 eru skattgjaldendur þar orðnir fleiri enn þingfararkaupsbændur vóru um 1095, og er hann hinn eini af fjórðungunum, sem það má segja um; slagar hann þá hátt upp í Sunnlendingafjórðung.

Annað er eigi síður einkennilegt. Afturförin í Vestfirðingafjórðungi síðan 1311 kemur langmest niður á hjeröðunum milli Langár og Þorskafjarðar (V 1), og uppgangur Austfirðingafjórðungs stafar næstum eingöngu frá hinu forna Múlaþingi (A 1). Þetta sjest ljóslega, þegar vjer lítum á töfluna hjer að framan, er sínir skattmegnið innan hinna fornu síslutakmarka árin 1311, 1840 og 1850.

Alt er þetta auðvitað sprottið af eðlilegum rökum. Mart bendir til, að suðurhluti Vestfirðingafjórðungs frá Hvítá norður að Þorskafirði hafi staðið með mjög miklum blóma á þjóðveldistímanum og ekki síst á 13. öldinni, að því er snertir efnahag og mannfjölda. Að þessi blómgun Vestfirðingafjórðungs hafi staðið langt fram eftir öldum, virðist mega ráða af elsta fólkstalinu, sem til er, frá 1703. Þá er mannfjöldinn í Vestfirðingafjórðungi (15774) hjer um bil jafn og í Sunnlendingafjórðungi hinum forna (15781). Hins vegar vitum vjer, að sumum sveitum á þessu svæði hefur mjög hrakað á síðari tímum. Árið 1769 eru 14443 mans í Sunnlendingafjórðungi

---

| | | |
|---|---|---|
| í Norðlendingafjórðungi....... | 1026 | skattgjaldendur |
| í Sunnlendingafjórðungi ...... | 944 | — |
| í Múlasíslum ............. 488 | | |
| í Skaftafelssíslum ........ 223 | | |
| Samtals í Austfirðingafjórðungi | 711 | — |

Röðin eftir skattmegni verður þá á árunum 1833—1838 hin sama og 1840 og 1850, eins og við var að búast (N. S. A. V.)

hinum forna, enn ekki nema 12662 í Vestfirðingafjórðungi.[1]) Um Austfirðingafjórðung er alt óljósara, því að vjer höfum miklu færri sagnir þaðan enn úr Vestfirðingafjórðungi frá þjóðveldistímanum, einkum úr því að kemur fram á 11. öld. Enn þingfararkaupsbændatalið frá c. 1095 og skattbændaskráin frá 1311, borin saman við skattatölin 1840 og 1850, eru næg sönnun firir því, að efnahagur manna í þeim fjórðungi, og sjerstaklega í Múlaþingi, hefur verið tiltölulega miklu lakari á þjóðveldistimanum, enn hann var um miðja 19. öld. Fólkstöl þau, sem til eru, virðast þó benda til, að framfarirnar í Múlaþingi stafi einna mest, eða ef til vill eingöngu, frá 19. öldinni. Eftir þeim var mannfjöldinn í Múlasíslum:

| | | |
|---|---|---|
| 1703: 4101 | 1810: 3982 | 1840: 5749 |
| 1769: 3470 | 1820: 4132 | 1850: 6189[2]) |
| 1801: 3623 | 1830: 4688. | |

Hefur þá fjölgað í þessu hjeraði um 2566 mans á árunum 1801 til 1850, eða um 70,8 af hundraði hverju, og er það nærri þrefalt meiri fjölgun, enn á sjer stað samtímis á öllu landinu. Árið 1801 var fólkstala landsins í heild sinni 47240 mans, enn 1850: 59157, og nemur sú fjölgun 25,2 af hverju hundraði.[3])

Vjer getum þannig leitt góð og gild rök að því, hvað til þess kemur, að Vestfirðingafjórðungur og Austfirðingafjórðungur hafa skift um sæti, ef svo má að orði kveða, árin 1840 og 1850 móts við árin 1095 og 1311. Að öðru leiti stendur jöfnuðurinn milli fjórðunganna óbreittur frá 1090 fram á vora

---

[1]) Sjá Landshagsskírslur firir 1908, 79. bls.

[2]) Tölur þessar eru teknar úr riti Bjarna Thorsteinssonar: Om Islands Folkemængde og økon. Tilstand, Kh. 1834 (firri töflunni), Skírslum um landsh. á Ísl. I 430. bls., Landshagsskírslum firir 1903, 79. bls., og Statistiske Oplysninger om Island, udg. af Statens statistiske Bureau, Kh. 1907, 3. bls.

[3]) Manntalsbækur firir báðar Múlasíslurnar eru ekki til first framan af 19. öldinni, nema hrafl firir árin 1803—1813. Árið 1805 eru skattgjaldendur í báðum síslunum 370 samtals, enn árið 1813 eru þeir 287. Stafar sú fækkun víst af fjárfelli, sem var þar 1807 og af harðindunum, sem vóru næstu ár á undan 1813 (sbr. Árbækur Espólíns XII 8. og 55. bls.). Á árunum 1813—1850 vantar lítið á, að skattgjaldendatalan tvöfaldist.

daga. Norðlendingafjórðungur heldur altaf firsta sæti, og hefur hann þó víst altaf verið fámennari enn Sunnlendingafjórðungur; að minsta kosti vitum vjer, að svo var 1840 og 1850, og er það sínt hjer að framan; enn að svo hafi og verið til forna, sjest á mjög merkilegri athugasemd, sem Hungrvaka ein hnítir við frásögn sína frá manntali Gizurar biskups; hún segir svo: Váru þá 7 hundruð í Austfirðingafjórðungi, en 10 hundruð í Sunnlendingafjórðungi, 9 hundruð í Vestfirðingafjórðungi, en í Norðlendingafjórðungi 12, **ok var sá auðgastr at jöfnu manntali.**[1]) Að þessi jöfnuður milli fólkstals og skattmegins hefur haldið sjer um svo margar aldir, virðist benda til þess, að tiltala fólksmegins og skattmegins *í meðalárum* hafi ekki breitst verulega allan þennan tíma, þegar litið er á landið í heild sinni, og að leifilegt sje að leiða áliktanir um fólksfjölda árin 1095 og 1311 af gjaldendatölu þessara ára með samanburði við hlutfall sömu stærða á 19. öldinni, og munum vjer nú athuga það efni nánara.

---

Tökum first árið 1311. Þá var grundvöllurinn undir skattgjaldinu að mestu leiti hinn sami og á 19. öldinni, og er því samanburður eigi að eins leifilegur, heldur og rjettmætur og sjálfsagður.

Grundvöllurinn felst í Jónsbók Þegnsk. 1. k. Þar segir svo: Hverr sá bóndi er skyldr at gjalda skatt ok þingfararkaup, er skuldahjón hans hvert á kú eða kúgildi, skip eða nót, ok skal hann eiga um fram eyk,[2]) uxa eða hross, ok alla þá bús búhluti, er þat bú má eigi þarfnaz. En skuldahjú hans eru þeir

[1]) Bisk. I 69. bls. Árið 1753 eru skattgjaldendur fleiri í Sunnlendingafjórðungi enn í Norðlendingafjórðungi, enn það stafar bersínilega af harðindunum 1751—1752, sem lögðust þingst á Norðlendingafjórðung og að nokkru á Austfirðingafjórðung (sjá hjer að framan).

[2]) Hjer virðist ljóst, að eykr er alment heiti, sem nær ifir bæði uxa og hross. Jeg tek þetta fram, af því að sumir hafa misskilið það.

menn allir, er hann á fram at færa, ok þeir verkmenn, sem þar þurfu at skyldu fyrir at vinna .... Svá skal ok hverr sá gjalda einhleypr, karlmaðr ok kona, sem hann er búlauss, ef hann á 10 hundruð skuldlaus ok ómagalaus.[1])

Síðasta málsgreinin, um skatt einhleipra manna, er óljós og gat gefið tilefni til ágreinings milli gjaldanda og krefjanda. Skilningur orðanna fer eftir því, hvort firsta orðið svá bendir til þess sem á undan er farið, reglanna um skatt búandi manna, eða málsgreinin er skoðuð sem sjálfstæð setning út af firir sig án nokkurs sambands við það, sem á undan gengur. Búlaus maður, hversu efnaður sem hann var, gat haldið því fram, að hann ætti eftir orðanna hljóðan engan skatt að greiða, ef hann átti þó ekki væri nema einn ómaga. Gagnvart þessu gat skattheimtumaður skirskotað til orðsins svá og staðhæft, að maðurinn ætti að greiða skatt, ef hann ætti eitt kúgildi firir hvern ómaga og 10 hundruð að auki firir sjálfan sig. Hins vegar gat gjaldandi, sem átti rjett 10 hundruð, vitnað í orðið svá og sagt, að hann væri ekki skattskildur, nema hann ætti fram ifir »eyk, uxa eða hross«, eftir sömu reglu og búandi menn.

Að ágreiningur hafi verið um þetta efni, sjest á Rjettarbót Hákonar konungs hálegs 14. júní 1314, 3. grein, sem tekur af öll tvímæli. Þar segir svo: Þeir búlausir menn skulu skatt greiða, sem hann á 10 hundruð fyrir sjálfan sik ok hundrað fyrir hvern ómaga sinn ok eitt hundrað yfir fram.

Þessi lagagrein virðist í rauninni ekki vera annað enn lögskiring á Jónsbókarstaðnum eða staðfesting á venju, sem skapast hafði um innheimtu skattsins hjá búlausum. Má því ætla, að sömu reglu hafi verið filgt 1311, að því er þetta snertir, þó að rjettarbótin sje frá 1314. Með þessari lögskíringu hafa ákvæði Jónsbókar um skattinn staðið óhögguð, alt þangað til hann var úr lögum numinn árið 1877. Og þó svo væri, að einhver litilfjörleg breiting hefði komist á skattgjald búlausra við rjettarbótina frá því sem var 1311, þá getur það ekki munað neinu verulegu, því að búlausir skattgjaldendur hafa altaf verið fáir. Það sínir skráin frá 1311. Hún nefnir

[1]) Jónsbók, útg. ÓH., 31.—32. bls.

skattgjaldendurna skattbændur, og getur þó enginn efast um, að meðal »skattbænda« skrárinnar eru líka taldir búlausir menn, sem skatti svara, því að skráin tiltekur, hve mikinn skatt konungur fái úr hverjum fjórðungi, og kemur sú upphæð heim við »skattbænda«töluna, enn svo gæti ekki verið, ef skattbændur táknuðu búandi menn eina, nema því að eins að enginn búlaus maður hefði verið í skatti 1311, enn það sjá allir að nær engri átt. Því er ljóst, að skattbóndi í skránni táknar skattgjaldanda alment, hvort sem hann er búandi eða búlaus, og bendir þetta til, að búlausir skattgjaldendur hafi verið mjög fáir í samanburði við hina. Jeg tel því beinlínis rangt að draga búlausa menn frá í skattatölum 19. aldarinnar, þegar þau eru borin saman við skattatalið 1311.

Enn þó að lögin um skattgjaldið hafi haldist óbreitt, eða því sem næst, frá 1311 til vorra tíma, þá hefur þeim ekki altaf verið beitt á sama hátt í framkvæmdinni.

Vjer vitum óljóst, hvernig skattgjaldslögunum var framfilgt 1311, enn ætla má, að síslumenn hafi gengið ríkt eftir því, að menn hliðruðu sjer ekki hjá skildunni að greiða skatt og þingfararkaup. Bæði höfðu þeir aðhald frá konungi, því að hann gat á hverri stundu sett erindreka sína til höfuðs þeim til að sjá um, að þeir drægi ekki neitt undan, sem áður er sagt, og má telja víst, að skráin frá 1311 sje árangur af starfi slíkra eftirlitsmanna. Og í annan stað höfðu síslumennirnir sjálfir eigi lítinn hag af því, að skattarnir og þingfararkaupin væru sem flest, því að þingfararkaupin runnu lengst af til þeirra sjálfra í innheimtulaun, óskert að öðru leiti enn því, að þeir áttu að gjalda af þeim þingfararkostnað nefndarmanna, og má ætla, að þetta hafi verið ein hin helsta tekjugrein þeirra.[1]) Til þess að geta sjeð, hve mikinn hreinan ágóða síslumenn höfðu af innheimtunni, verðum vjer að vita: a) upphæð þingfararkaupanna óskerta, b) upphæð þingfararkostnaðarins, og auk þess verðum vjer c) að taka til greina

[1]) Jónsb. Þegnsk. 1. k. Þingfb. 2. k. Um aðrar tekjur síslumanna vitum vjer ekki nákvæmlega, enn víst má telja, að þeir hafi fengið ákveðinn hluta af öðrum konungstekjum, er þeir innheimtu, svo sem sakeiri, líklega þriðjung, því að svo var í Noregi (NgL. III 150. sbr. 97. bls. og II 286 bls. nmgr. 29).

tilraun Hákonar hálegs til að draga undir sig helming þingfararkaupanna.

a) Með því að skattur og þingfararkaup vóru jafnhá gjöld, 10 álnir hvort um sig á hvern gjaldanda, nemur altaf óskert upphæð þingfararkaupanna jafnmiklu og konungsskattarnir nema samtals. Þetta var árið 1311: 38120 álnir (317 hundruð og 80 álnir) á öllu landinu.

b) Upphæð þingfararkostnaðarins fór eftir tölu nefndarmanna og farareiri hvers eins, sem var misjafn, eftir því hvort nefndarmaðurinn átti heima fjær eða nær þingstaðnum. Eftir Járnsíðu (1271) vóru nefndarmenn samtals 140, og þá hefur þingfararkostnaðurinn verið hæstur, enn Járnsíða greinir ekki farareiri nefndarmanna. Með Jónsbók (1281) lækkaði tala nefndarmanna ofan í 84 (sjö tilftir) og hún greinir nákvæmlega farareiri úr hverju þingi. Þessi nefndarmannatala stóð, þangað til Hákon háleggur lækkaði hana um rjettan helming, úr 84 ofan í 42 með rjettarbót, dags. 24. júní 1305, sem er prentuð í Dipl. Isl. II 342.—345. bls.[1]), enn á farareirinum gerir rjettarbótin enga breiting.

Mjer þikir líklegt, að ímsum muni þikja fróðlegt að sjá ifirlit ifir alþingiskostnaðinn um þessar mundir, og set jeg því

---

[1]) Í Fornbrjefasafnsútgáfunni og í handritum er þessari rjettarbót um gildi Kristindómsrjettar hins forna og tölu nefndarmanna ruglað saman við rjettarbótina 23. júní 1305, sem er prentuð ómenguð aftan við Jónsbókarútg. Ólafs Halldórssonar á 289.—292. bls. Enn dagsetningarmunurinn (í sumum handritum Jónsvöku aftan = 23. júní, í öðrum Jónsvöku dag = 24. júní) segir til, að hjer muni vera um tvær rjettarbætur að ræða, útgefnar með eins dags millibili. — Í handritunum stendur, að nefndarmenn úr Húnavatnsþingi skuli vera „vj.", enn það er eflaust ritvilla firir nj = iij = 3, og hef jeg leift mjer að leiðrjetta það. Ef „vj." er látið standa, verður tala nefndarmanna 45 og stendur á stöku. Enn tilætlun konungs er bersínilega að fækka þeim um rjettan helming, úr 84 ofan í 42. Fjöldi nefndarmanna úr hverju þingi fer bæði hjer og í Jónsbók eftir fjarlægð þingsins frá Þingvelli, þannig að þeir eru tiltölulega færri úr hinum fjarlægari hjeröðum, og er það auðvitað gert til að vega upp á móti því, að þingfararkostnaður hvers einstaks nefndarmans er hærri úr hinum fjarlægari sveitum. Það nær því engri átt, að Húnavatnsþing sendi jafnmarga nefndarmenn og Árnesþing. Eftir Jónsbók sendir Húnavatnsþing helmingi færri menn enn Árnesþing og jafnmarga og t. d. Múlaþing, og mælir það með leiðrjettingunni.

hjer töflu ifir hann bæði eftir Jónsbók og rjettarbótinni 24. júní 1305. Þess ber að geta, að farareirir nefndarmanna er sumstaðar mishár eftir Jónsbók innan sama þings, eftir því hvort nefndarmaðurinn bír nær eða fjær Þingvelli, t. d. úr Múlaþingi 18 aurar úr sveitunum firir norðan Öxarheiði, enn 2 merkur (= 16 aurar) úr sveitunum firir sunnan. Þar hef jeg tekið meðaltal. Til samanburðar set jeg tölu nefndarmanna úr hverju þingi þann tíma, sem Járnsíða var í gildi (1271—1281).

Ifirlit
ifir tölu nefndarmanna og þingfararkostnað firir og eftir 1300.

| Þing | Tala nefndarmanna | | | Þingfararkostnaður hvers eins | Þingfararkostnaður úr hverju þingi | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | 1271 —1281 | 1281 —1305 | Eftir 1305 | álnir | 1281 —1305 álnir | Eftir 1305 álnir |
| Múlaþing | 6 | 6 | 3 | 102 | 612 | 306 |
| Skaftafelsþing | 6 | 6 | 3 | 66 | 396 | 198 |
| Rangárþing | 15 | 8 | 4 | 36 | 288 | 144 |
| Árnesþing | 20 | 12 | 6 | 24 | 288 | 144 |
| Kjalarnesþing | 15 | 9 | 4 | 24 | 216 | 96 |
| Þverárþing | 15 | 8 | 4 | 27 | 216 | 108 |
| Þórsnesþing | 12 | 6 | 3 | 54 | 324 | 162 |
| Þorskafjarðarþing | 8 | 5 | 3 | 84 | 420 | 252 |
| Húnavatnsþing | 10 | 6 | 3 | 42 | 252 | 126 |
| Hegranesþing | 15 | 8 | 3 | 48 | 384 | 144 |
| Vöðlaþing | 12 | 6 | 3 | 60 | 360 | 180 |
| Þingeijarþing | 6 | 4 | 3 | 72 | 288 | 216 |
| Samtals | 140 | 84 | 42 | | 4044 | 2076 |

Á töflu þessari sjest, að þingfararkostnaðurinn lækkaði rjett að kalla um helming árið 1305 við fækkun nefndarmanna. Hann er upp frá því að eins 2076 álnir firir 42 þingmenn.

c) Miklar líkur eru til, að það hafi einmitt verið árið 1303, að Hákon konungur ljet það boð ganga til síslumanna, að þeir ættu að skila í konungs sjóð hálfum þingfararkaupstekjunum, sem þeir höfðu áður haft allar. Einmitt um þetta leiti herðir konungur á tökunum við Íslendinga, er þeir höfðu loksins árið áður (1302) svarið honum trúnaðareiða. Þá (1303) sendir hann hingað Krók-Álf o. fl. gæðinga sína og

stefnir utan handgengnum mönnum.[1]) Sislumenn munu hafa kallað lög brotin á sjer með þessari skipun konungs, því að Jónsb. Þegnsk. 1. k. heimilar síslumönnum þingfararkaupin öll »með slíkri afgreiðslu sem lögbók váttar« og er þar bersínilega átt við, að þeir eigi að greiða af þeim farareiri nefndarmanna samkvæmt Þingfb. 2. k., enn ekki meira. Þeim mun og hafa þótt það hart að verða eftir sem áður að greiða farareiri nefndarmanna samkvæmt lögbók af þingfararkaupstekjunum, þar sem ekki nema helmingurinn rann inn til þeirra. Nú vitum vjer af annálum, að á næsta ári (1304) riðu Norðlendingar og Vestfirðingar ekki til alþingis, heldur tóku upp fjórðungaþing í staðinn, tvö í hvorum fjórðungi[2]), og voru Sunnlendingar og Austfirðingar einir um hituna það ár á alþingi.[3]) Þessi viðburður stendur án efa í nánu sambandi við konungsboðið um þingfararkaupstekjurnar. Tveir fjórðungar svara með því að koma ekki til alþingis. Auðvitað hafa síslumenn róið undir bændur að sitja heima og leitt svo konungi firir sjónir, að ervitt væri að fá bændur til þingfarar, síst svo marga, sem lögbók heimtaði. Þá tekur konungur það ráð að fækka nefndarmönnum um helming og gefur út rjettarbótina 24. júni 1305. Hún er bein afleiðing af því, að helmingur landsmanna kom ekki til alþingis 1304; það sjest á orðum hennar sjálfrar, þar sem konungur segist »vilja, at alþingi sé uppi«. Með rjettarbótinni hefur konungur viljað gera hægra firir að fá þingið löglega skipað, enda mun honum hafa verið vel vært, þó að nefndarmönnum fækkaði og vonað, að þeir mundu þá ef til vill verða viðráðanlegri og auðsveipari. Enn aðalástæðan mun þó hafa verið, að hann vildi draga úr þingfararkostnaðinum og ljetta þar með á síslumönnum til að laða þá að sjer og draga úr filgi þeirra við almúgann. Enn þetta virðist ekki hafa tekist. Að vísu var það ljettir firir síslumenn að losna við hálfan þingfararkostnaðinn, enn þeir vóru samt ekki ánægðir. Meðan þeir urðu að skila konungi hálfum þingfararkaupstekjunum, þóttust þeir verða hart úti. Óstjórnin í landinu heldur áfram. Krók-Álfr er sama ár hrakinn á Hegranesþingi (1305), og næsta ár

[1]) Sbr. rit mitt Um upphaf konungsvalds, Rvík 1908, 62. bls.
[2]) Þetta stirkir það, sem áður er sínt, að í birjun 14. aldar hafi síslur verið 2 í hverjum fjórðungi auk Borgarfjarðar (Þverárþings).
[3]) Ísl. ann. 1304.

rita bændur á alþingi mótmælabrjef til konungs. Þá heikist konungur á kröfum sínum öllum, og slakar meðal annars til við síslumennina árið 1307, svo að þeir fá nú aftur allar þingfararkaupstekjurnar.[1]) Eru þeir nú miklu betur staddir enn firir 1303, því að þeir hafa jafnmiklar tekjur og áður, enn greiða hálfu minna af þeim í farareiri handa nefndarmönnum. Öll rás viðburðanna mælir þannig með því, sem áður var talið líklegt, að það hafi verið Hákon háleggur sjálfur, sem um tíma reindi að draga undan síslumönnum helming þingfararkaupsins, og að það hafi valdið miklu um samband alþíðu og höfðingjanna gegn ifirgangi konungs.

Af þessu er ljóst, að hreinar tekjur síslumanna af þingfararkaupunum vóru misháar á ímsum tímum eftir því, hvort þeir greiddu af þeim nokkuð eða ekki neitt til konungs, og eftir upphæð þingfararkostnaðarins. Auk þess vóru þingfararkaupin sjálf auðvitað fleiri eða færri, eftir því hvort vel eða illa ljet í ári. Vjer vitum, að þau námu als 38120 álnum árið 1311, enn firir hin árin frá 1281 þekkjum vjer ekki upphæð þeirra, annars gætum vjer reiknað nákvæmlega út firir hvert ár, hve mikinn hag síslumenn höfðu af innheimtunni. Enn ef vjer gerum, að þingfararkaupstekjurnar hafi staðið í stað öll þessi ár — og mjög miklu getur það varla munað — þá getum vjer farið nokkuð nærri um, hve mikið af þeim rann í sjóð síslumanna. Eftirfarandi tafla sínir árlega »afgreiðslu« (= afgjöld) síslumanna bæði af þingfararkaupstekjunum öllum og af hverjum 100 álnum, svo og hreinar tekjur síslumanna af þeim firir tímabilið frá 1281—1311, þegar allar hinar árlegu þingfararkaupstekjur eru gerðar 38120 álnir að jafnaði, eins og þær vóru 1311.

| Árabil | Árleg afgreiðsla (afgjöld) | | | | Hreinar árstekjur síslumanna |
|---|---|---|---|---|---|
| | til konungs álnir | Þingfararkostnaður álnir | Samtals álnir | % af tekjunum | álnir |
| 1281—1303 | 0 | 4044 | 4044 | 10,6 | 34076 |
| 1303—1305 | 19060 | 4044 | 23104 | 60,6 | 15016 |
| 1305—1307 | 19060 | 2076 | 21136 | 55,4 | 16984 |
| 1307—1311 | 0 | 2076 | 2076 | 5,4 | 36044 |

[1]) Sbr. hjer að framan á 305. bls.

A töflunni sjest, að síslumenn urðu mjög hart úti á árunum 1303—1307, er þeir urðu að greiða af talsvert meira enn helming. Aftur er afgreiðslan varla teljandi, að eins 5,4 %, á árunum 1307—1311. Má því telja víst, að síslumenn hafi gengið ríkt eftir bæði sköttum og þingfararkaupum um 1311, er þeir höfðu sjálfir svo mikinn hag af innheimtunni, og ekki ólíklegt, að þeir hafi stundum beitt ójöfnuði, því að stórbokkar vóru þá eigi síður meðal síslumanna enn á 19. öldinni.

Miklu meira vitum vjer um, hvernig gengið var eftir sköttum og þingfararkaupum á 19. öld. Síslumenn höfðu þá enn meiri hvöt til að sprengja upp þessi gjöld enn 1300, því að þeir hjeldu síslurnar gegn föstu eftirgjaldi, og var skatturinn og þingfararkaupið, sem þá nefndust einu nafni skattur, hin helsta tekjugrein þeirra. Þegar jeg fór ifir manntalsbækurnar, sá jeg þess og allvíða vott, að síslumenn höfðu farið feti framar, enn lög leifðu í því að setja menn í skatt, og sjerstaklega að sumir þeirra höfðu leift sjer að taka skatt af mönnum, sem áttu fasteign, ef fasteignarhundruð þeirra og lausafjárhundruð samlögð námu hærri tölu enn fólkstalið. Þetta er hinn svo nefndi samlagningarskattur. Virðist hann first hafa komist á í Gullbringusíslu um aldamótin 1800, og árið 1823 er hann þar orðinn að fastri venju, sem var staðfest af rentukammerinu með brjefi þess 30. sept. 1823. Samt sem áður hafa flestir hinir merkustu lögfræðingar íslenskir, að síslumönnum undanskildum, verið á því, að þessi samlagningarskattur væri ólög. Magnús (gamli) Stephensen andæfði honum í riti sínu »Ræður Hjálmars á Bjargi« (67. bls.) og fjekk snuprur firir hjá dönsku stjórninni, að hann væri að æsa alþíðuna móti embættismönnunum.[1]) Þó virðist ljóst, að hann hafði rjett að mæla. Jónsbók minnist als ekki á fasteign sem grundvöll firir skatti og þingfararkaupi; skilirði firir þessum gjöldum er eftir stað þeim, sem áður var tilfærður, að eiga firir hvert skuldahjón »kú eða kúgildi, skip eða nót og um fram eik, uxa eða hross og bús búhluti« — alt þetta bendir til lausafjár, enn ekki til fasteignar, og orðið kúgildi, sem gæti verið tvírætt, er varla nokkurn tíma haft um

[1]) Lovsamling for Island VIII 472.—475. bls.

fasteign, heldur vanalega um fríðan pening.[1]) Þegar rentukammerið hafði lagt blessun sína ifir samlagningarskattinn í Gullbringusíslu, fóru fleiri síslumenn að leifa sjer að beita honum, enn úr því varð óánægja og kærur, og leiddi til þess, að rentukammerið gaf út nítt brjef 28. apríl 1832; sjest á því, að þá var orðið »algengt að taka tillit til fasteignar« við innheimtu skattsins, og að síslumenn báru firir sig, að þetta hefði tíðkast, meðan þeir vissu til. Rentukammerinu þikir varhugavert að bregða fornri venju, enn brínir þó firir síslumönnum, að þeir megi ekki taka samlagningarskatt, nema þar sem það hafi tíðkast að undanförnu.[2]) Þá koma kvartanir til alþingis út af samlagningarskatti um miðja 19. öld, enn þó ekki nema úr Gullbringusíslu og Árnessíslu.[3]) Árið 1861 lætur stjórnin konungsfulltrúa lísa ifir skoðun sinni á málinu, segir, að »frá lagaþíðingarinnar hlið sje ifirgnæfandi ástæða til að miða skattskilduna einungis við lausafje«, enn vill þó fara eftir venjunni í hverri síslu og ítrekar brjef rentukammersins frá 28. apr. 1832.[4]) Auðvitað hækkar tala skattgjaldenda á landinu 1840—1850 nokkuð við þennan samlagningarskatt, frá því sem hún ætti að vera að rjettu lagi, enn þó líklega ekki íkja mikið, af því að allmargir jarðeigendur vóru í skatti hvort sem var sakir lausafjártiundarinnar einnar. Það má telja víst, að samlagningarskattur tíðkaðist ekki árið 1311, enn hins vegar er sennilegt, að framtal bænda hafi þá verið nær sanni enn 1840—1850, því að það er víst, að bændur drógu mjög mikið sumir, jafnvel meira enn helming, undan tíund af fje sínu á 19. öldinni, einkum á Suðurlandi, enn árið 1311 höfðu þeir meira aðhald, því að þá vann hver bóndi eið að tíund sinni.[5]) Vegur þetta að öllum líkindum nokkurn veginn upp á móti samlagningarskattinum.

Verið getur, að efnahagur manna hafi verið ifirleitt heldur

---

[1]) Sbr. Jónsb. ÓH. Kaupab. 6., 15. og 16. k. Landslb. 56. k.

[2]) Lovsamling for Island X 79.—83. bls.

[3]) Alþingistíðindi 1855, 585.—588. bls. 1859, 298.—312. bls.

[4]) Alþingistíð. 1861, 298.—312. bls.

[5]) Grág. Kb. II 206.—207. bls. Kristinn r. Árna biskups NgL. V 33. bls. Að vísu varðaði ekki við lög, þó að maður drægi undan fjórðung af fje sínu og getur verið, að margir hafi talið sjer það heimilt. Enn ifir höfuð að tala virðist þó líklegt, að framtalið hafi verið rjettara og minna undan dregið enn á 19. öldinni.

betri um 1311 og því tiltölulega fleiri í skatti enn á 19. öldinni. Enn hins vegar var frændaframfærið þá miklu víðtækara enn á 19. öldinni, þar sem menn vóru skildir að framfæra þurfandi ættingja sína, fjórmenninga og nánari[1]), enn á 19. öldinni náði framfærsluskildan að eins til ættmanna í beinan legg upp og ofan.[2]) Þeir menn, sem nokkuð höfðu aflögum, hljóta því að öllum jafnaði að hafa haft talsvert fleiri ómaga um 1311 enn samskonar menn á 19. öld, og lentu því síður í skatti. Þetta dregur skattgjaldendatöluna 1311 niður á við í samanburði við 19. öldina, og læt jeg það vega upp á móti því, sem efnahagur manna 1311 kann að hafa verið betri enn á 19. öldinni.

A 19. öld spretta upp kauptún víðs vegar um landið, sem ekki vóru til um 1311. Í þessum kauptúnum eru fáir eða engir, sem eiga svo mikið lausafje, að þeim beri að greiða skatt og miðar þetta til að lækka hlutfallið milli skattgjaldenda og fólkstals á 19. öldinni í samanburði við 1311. Enn á firra helmingi aldarinnar, meðan kauptúnin vóru í barndómi, munar þetta ekki miklu[3]), og hef jeg einmitt meðfram af þessari ástæðu valið til samanburðar árin firir 1850. Hins vegar fellur það og í metaskálina 1311, að þá var mjög fólksmart á höfðingjaheimilum og sjerstaklega við biskupsstólana og klaustrin.

Þegar á alt er litið, virðist líklegt, að þau öfl, sem togast á um að hækka eða lækka hlutfallið milli skattgjalds og fólkstölu árið 1311 og á firri hluta 19. aldar, vegi þannig salt hvert á móti öðru, að hlutfallið á báðum þessum tímum

---

[1]) Jónsbók Framfb. 1. k. (ÓH. 100.—102. bls.).

[2]) Fátækrareglugjörðin 8. jan. 1834. 4. gr. Sbr. ritg. Þorkels Bjarnasonar um fátækramálefni í Andvara XXII 82.—83. bls. Þessari reglu, að binda frændaframfærið við beinan legg, hafði verið beitt í framkvæmdinni, áður enn fátækrareglugjörðin kom út, í ömtunum firir norðan og vestan frá 1810, og í suðuramtinu frá 1821. Á 18. öld var og ekki gengið ríkt eftir Jónsbókarreglunni. Það sjest á orðum þeirra Magnúsar Ketilssonar í Lærdómslistafjelr. IV 129. og 131. bls. og Hans Jakobs Líndals s. st. XII 114. bls. Hinn síðarnefndi segir beinlínis: „þá tiðkast það nú eigi, að þurfamaður sje settur á einn af frændum, heldur leggja náungar saman til að forsorga hann“.

[3]) Firir miðja öldina var eiginlega ekki um annað kauptún að ræða enn Reikjavík; þar vóru 1840 890 mans, og árið 1850 1149 mans.

verði nokkurn veginn jafnt, og þar sem vjer nú þekkjum báða liði þessa hlutfals á 19. öldinni, bæði skattgjaldendatölu og fólksfjölda, og annan liðinn, skattgjaldendatöluna, 1311, ættum vjer eftir því að geta reiknað út fólksfjöldann 1311, án þess að miklu munaði.[1]) Enn þetta er þó bundið því skilirði, að bæði hafi árið 1311 verið meðalár, og að vjer tökum meðalár til samanburðar á 19. öldinni, því að annars getur munað mjög miklu. Vjer höfum áður sínt dæmi þess, hve skattgjaldendatalan er viðkvæm firir harðæri og góðæri.

Var árið 1311 meðalár? Um það getum vjer ekki sagt með fullri vissu, því að sagnir eru fáar og óljósar frá þeim tímum. Enn víst er það, að næstu 10 ár á undan geta annálar ekki um almenn hallæri. Árið 1300 kom upp eldur í Heklu »með svo miklu afli, að fjallið rifnaði, svo að sjá mun mega meðan Ísland er bygt«. Vindur var af landsuðri og bar mökkinn norður ifir landið milli Vatnsskarðs og Öxarfjarðarheiðar og huldi alla jörðina sandi.[2]) Þetta var 11. júlí um sumarið[3]), mánudaginn í 13. viku sumars, um það leiti sem túnasláttur birjar, og hnekti sandfallið mjög heiskap firir norðan, því að »menn máttu treglega slá firir öskufalli og sandfalli«.[4]) Gerði af þessu hallæri firir norðan land.[5]) Veturinn eftir er getið um, að mikill manndauði hafi verið »í Fljótum og í Skagafirði«[6]) firir og eftir jólin og látist eigi færra enn 5 hundruð manna. Líklegt er, að þessi manndauði

---

[1]) Arnljótur Ólafsson o. fl. hafa haft þá aðferð að reikna first út, hve mörg heimili hafi verið als 1311 eftir hlutfallinu milli skattgjaldendatölu og tölu allra heimila 1753, og fundið síðan út fólkstöluna með því að gera, að jafnmargir hafi verið í heimili að meðaltali 1311 eins og 1753. Þetta finst mjer vera að seilast um hurð til loku. Hitt er miklu einfaldara, nákvæmara og í alla staði rjettara, að fara eingöngu eftir hlutfallinu milli skattgjaldendatölu og fólksfjölda.

[2]) Laurentius s. Bisk. I 809. Ísl. ann. 1300.

[3]) Höyers annáll, sem oft er fillri enn hinir annálarnir; „fyrir miðsumar" Flat.-ann.

[4]) Höyers annáll.

[5]) Svo („fyrir norðan land") Höyers annáll. Konungsannáll sleppir þessum orðum, enn setur þó „hallærið" í samband við öskufallið.

[6]) Svo Flat.-ann. og Lögmansannáll. Höyers annáll, Konungsannáll og Skálholtsannáll hafa: „fyrir norðan land".

hafi stafað af sótt, enn ekki af hallærinu sumarið áður, þar sem svo skamt var um liðið, og auðsjáanlega hefur hallærið 1300 að eins komið niður á Norðlendingum; hafa þeir orðið að fækka skepnum um haustið, af því að heiskapur hefur orðið lítill sakir öskufalsins. Árið 1306 lá hafís firir Norðurlandi nær alt sumarið[1]), enn ekki er þess getið, að af því hafi leitt hallæri. Um fleiri harðindakafla er ekki getið á árunum 1300—1311. Aftur á móti gekk sótt mikil á árunum 1308—1310 með manndauða; hefur það líklega verið bólusótt, því að svo er hún kölluð 1310, og birjað first firir norðan og síðan breiðst út um Vesturland og Suðurland. Enn sóttir og manndauði af þeirra völdum hafa lítil áhrif á hlutfallið milli skattgjaldendatölu og fólksfjölda, því að þær leggjast engu fremur, nema síður sje, á hina efnaðri menn, sem skatt gjalda, enn á hina fátækari, og þó að skattgjaldendur deii, þá taka erfingjar við fjármunum þeirra. Firir aldamótin 1300 er getið um »fellivetur eimuna« 1291, enn ekki önnur hallæri á síðasta áratugi aldarinnar firr enn 1300. Árið 1311 virðist því hafa mátt heita meðalár og ef til vill í betra lagi, ef nokkuð er að marka annála, enn að svo sje, virðist mega ráða af því, að þeir geta um harðindakafla, sem birjaði 1312 og stóð það ár og hið næsta.

Þá er að finna hlutfallið milli tölu skattgjaldenda og fólkstölu í meðalári á 19. öldinni. Til þess miðar eftirfarandi tafla, er sínir þetta hlutfall firir þau ár, sem kunnugt er um. Jeg hef tekið með árið 1753, þó að það heiri til 18. aldarinnar.

| Ár | Skattgjaldendur, tala | Fólkstal | Hlutfall milli skattmegins og fólkstals |
|---|---|---|---|
| 1753............... | 2200 | 48430 | 1 : 22,0 |
| 1833—1838, meðaltal | 3002,7 | 56756 | 1 : 18,9 |
| 1840............... | 2915 | 57094 | 1 : 19,6 |
| 1850............... | 3454 | 59157 | 1 : 17,1 |
| 1873—1875, meðaltal | 2377,3 | 71156 | 1 : 29,9 |

[1]) Skálh. annáll. Gottskálks annáll segir, að ísinn hafi legið „um alt Ísland“, og er það auðvitað orðum aukið.

Taflan sínir, að árin 1833—1838 muni vera meðalár, að því er skattmegnið snertir, og sömuleiðis 1840, sem þó er lítið eitt lakara. Jafnar það sig upp, að hlutfallið milli skattmegins og fólksmegins á þessum árum verði sem næst 1 : 19, eða að þá hafi komið 1 skattgjaldandi á hverja 19 menn á öllu landinu.

Hin árin fara ímist firir ofan meðaltal eða neðan, 1850 talsvert firir ofan — þá er hjer um bil 17. hver maður skattgjaldandi — enn 1753 mikið firir neðan og 1873—1875 niður úr öllu valdi. Rjettast virðist að taka ekkert tillit til þessara ára, heldur fara að eins eftir meðalárunum, þegar vjer reiknum út fólkstöluna firir 1311.

Vjer higgjum því að það fari ekki fjarri sanni, að 19. hver maður hafi verið skattgjaldandi árið 1311. Fæst þá fólkstalan með því að margfalda tölu skattgjaldenda það ár, sem var 3812, með 19.

Eftir þessu verður fólkstalan 1311 hjer um bil:

**72428.**

---

## III. MANNFJÖLDI UM 1095.

Vjer hverfum þá að þingfararkaupsbændatalinu frá c. 1095.

Verður nokkuð áliktað um fólksfjölda það ár af samanburði milli þess og skattatalanna frá 19. öldinni?

First ber þess að geta að grundvöllurinn undir skattinum og þingfararkaupinu er hinn sami.

Í Gamla sáttmála, sem Norðlendingar og Sunnlendingar gerðu við Hákon konung hinn gamla og Magnús, son hans árið 1262, játuðu þeir konungunum »æfinlegan skatt, 8 álnir hver sá maður, sem þingfararkaupi á að gegna«. Að þessari kvöð gengu síðan aðrir landsmenn.

Þetta eru hin elstu lög um skattinn og sína þau, að hann var frá upphafi bundinn við þingfararkaupið og háður sömu skilirðum og það var á þjóðveldistímanum.

Enn hver vóru þessi skilirði? Það sjest á hinum fornu lögbókum vorum, Konungsbók og Staðarhólsbók. Af þeim er Konungsbók eldri, þó að aldursmunurinn sje ekki mikill, og af því að nokkru munar milli bókanna, set jeg hjer first það, sem Kb. segir um þingfararkaupið, og tek með nokkuð af málinu á undan og eftir, því að undir því er að nokkru leiti kominn rjettur skilningur þessa lagastaðar. Í Grág. Kb. 89. k., útg. V. F. 157.—164. bls. er skírt frá, hvernig kveðja skuli búakviðar (þ. e. skora á bændur að bera kvið í einhverju máli ásamt fleiri mönnum) og hverjir sjeu »rjettir í kvöð«. Þar segir svo (á 159. bls.):

Þat er mælt, at þá skal búa kveðja, er fé eigu svá

at þeir eigu at gjalda þingfararkaup. En þeir eigu at gjalda þingfararkaup, er skuldahjón hvert hefir höfuðkú skuldalausa eða kúgildi eða net eða skip ok búshúhluti alla, þá er þat bú má eigi þermlask.[1]) Skuldahjú hans eru þeir menn allir, er hann á fram at færa ok þeir verkmenn, er þar þurfu fyrir at vinna. Einvirki er réttr í kvöð, ef hann á svá fé, at skuldahjóna hvert hljóti tvau kúgildi.

Hjer er búakvöðin bersínilega aðalefnið, enn í sambandi við það er um leið notað tækifærið til að drepa á skilirðin firir þingfararkaupsgjaldinu. Að þessu leiti er Staðarhólsbók alveg samhljóða Kb. Hún birjar svo: Þá skal búa kveðja, er fé eigu svá, at þingfararkaupi eigi at gegna. Síðan greinir hún skilirðin firir þingfararkaupsgjaldinu. Og loks kemur greinin um einvirkja alveg samhljóða, eins og hún er í Kb.[2]) Af henni hafa menn viljað ráða, að einvirkjar hafi ekki goldið þingfararkaup, nema þeir ættu tvö kúgildi firir hvert skilduhjón. Enn það segir greinin ekki, heldur að eins, að ekki megi kveðja þá búakviðar, nema þeir eigi svona mikið, og greinin á undan segir undantekningarlaust, að þeir bændur, sem eiga eina kú eða kúgildi firir hvert skuldahjón, eigi að gjalda þingfararkaup. Greinin um einvirkjana virðist eftir sambandinu vera undanþága einvirkjum í vil frá hinni almennu reglu, sem á undan er gengin, að þeir bændur, sem gjalda þingfararkaup, sjeu rjettir í kvöð, og er hugsunin þessi: Þó eru einvirkjar, sem gjalda þingfararkaup, því að eins rjettir í kvöð, að þeir eigi tvö kúgildi firir hvert skuldahjón. Þessi undanþága er mjög eðlileg, því að þeir, sem kvaddir vóru búakviðar, urðu að fara til þings og vera allmarga daga burtu frá búi sínu, enn það gat einvirki ekki, nema hann væri svo fjáður, að hann gæti fengið mann í sinn stað á meðan til að standa firir búinu. Aftur á móti er þessi ívilnun við einvirkjana ástæðulítil, ef hún á við þingfararkaupsgjaldið, því að einvirkjar vóru ekki fremur enn aðrir bændur skildir að fara til þings, ef þeir guldu þingfararkaupið, heldur gátu setið heima og stundað bú sitt.

---

[1]) Sbr. Arnarbælisbók í Grág. Kh. 1883, 173. bls., sem er samhljóða þessari síðustu setningu að efninu til.

[2]) Grág. Sthb. 320. bls.

Að ívilnunin snerti að eins kvöðina enn ekki þingfararkaupsgjaldið, virðist og ljóst af öðrum stað, er skírir frá, hvernig á að riðja kvið. Þar stendur svo: Ef sá maðr er kvaddr, er hann á minna fé en gegni þingfararkaupi, **eða einvirki**, ok er hánum rétt at rýðja þann upp.[1]) Hjer er auðvitað, samkvæmt hinum staðnum, átt við einvirkja, sem á minna fé enn svo, að hann sje rjettur í kvöð, ɔ: minna enn 2 hundruð firir hvert skuldahjón. Ef nú þessir menn hefði líka verið undanþegnir því að gjalda þingfararkaup, þá var fullkominn óþarfi hjer á þessum stað að bæta við orðunum »eða einvirki«, heldur hefði nægt að segja: Ef sá maðr er kvaddr, er á minna fé en gegni þingfararkaupi, ok er hánum rétt o. s. frv. Loks ber þess að geta, að einvirkjum er engin vægð sínd, að því er skattinn og þingfararkaupið snertir í reglum Jónsbókar í Þegnsk. 1. k., og þar sem grundvöllurinn undir þessum gjöldum annars er svo að segja hinn sami og undir hinu forna þingfararkaupi á þjóðveldistímunum, þá bendir þetta til, að einvirkjar hafi frá upphafi goldið þingfararkaup eftir sömu reglum og aðrir bændur.[2])

Skilirðin firir þingfararkaupsgjaldinu eru ekki alveg hin sömu í Staðarhólsbók eins og í Kb. Þau eru þannig orðuð: En þeir eigu at gjalda þingfararkaup ok eru þess skyldir, er skuldahjón hans á hvert kú eða kúgildi, skip eða net, ok skal hann eiga um fram eyk, oxa eða hross, ok alla þá bús búhluti, er þat bú má eigi

---

[1]) Grág. Kb. I 62. bls.

[2]) Jeg hef verið svo langorður um þetta atriði, af því að flestir hafa hingað til verið á annari skoðun, þar á meðal aðrir eins skörungar og Vilhjálmur Finsen og Konr. Maurer (sbr. registur V. F.'s við Grágás Kh. 1883 undir orðinu þingfararkaup 701. bls. Konr. Maurer, Island 151.—152. bls.). Annars játar Maurer, að það verði ekki fengið út úr orðum Grágásar, að 2 kúgilda eign firir hvert skuldahjón hafi verið skilirði firir því, að einvirki ætti að gjalda þingfararkaup, heldur ræður hann þetta af samanburði við norsk lög, því að þau veita einvirkjum ívilnun fram ifir aðra bændur, að því er þingfararskildu og leiðangursskildu snertir. Enn first og fremst er altaf hæpið að beita slíkum samlíkingarröksemdum, og auk þess er í þessu efni alt öðruvísi ástatt hjer á landi enn í Noregi, því að hjer gátu bændur keipt sig undan þingfararskildunni með því að greiða þingfararkaupið.

þarfnask. En skuldahjú hans eru þeir menn allir, er hann á fram at færa, ok þeir verkmenn, sem þar þurfu at skyldu fyrir at vinna.[1])

Ef vjer berum þennan texta saman við Kb.-textann, sem prentaður var áður, sjáum vjer, að efnismunurinn er sá, að Sthb. sleppir orðinu skuldalausa á eftir kú, enn hins vegar standa orðin ok skal hann eiga um fram eyk, oxa eða hross að eins í Sthb., enn ekki í Kb.

Með öðrum orðum: eftir Konungsbók greiðist þingfararkaup að eins af skuldlausri lausafjáreign, eftir Sthb. af öllu lausafje, hvort sem það er skuldlaust eða ekki. Hins vegar bætir Sthb. einum eik (uxa eða hrossi) við fjáreign þá, sem heimtuð er í Kb. sem skilirði firir þingfararkaupsskildunni.

Þessi verulegi efnismunur stafar eflaust af því, að önnur bókin, og þá líklega hin eldri, Kb., hefur varðveitt þessa lagagrein í hennar eldri mind, enn hin hefur tekið tillit til breitinga, sem síðar hafa á orðið. Á þeirri skoðun var Arnljótur Ólafsson, og skal nú leiða rök að því, að hún sje rjett.

Hið elsta skattgjald, sem sögur fara af hjer á landi, er hoftollurinn; þá er næst þingfararkaupsgjaldið, og getur vel verið, að það hafi frá upphafi átt eitthvað skilt við hoftollinn, því að hof eða blót og þing standa í mjög nánu sambandi hvort við annað.[2]) Þá bætist við tíundargjaldið árið 1096 og er þar líka náið samband á milli þess og þingfararkaupsins, því að frá upphafi áttu ekki aðrir að gjalda tíund enn þingfararkaupsbændur. Í hinum fornu

---

[1]) Sbr. AM. 125 A í Grág. Kh. 1883, 431.—432. bls., sem kemur heim við þetta að efninu til.

[2]) Þetta samband milli hoftols og þingfararkaups mætti hugsa sjer á þá leið, að goðarnir hafi, meðan heiðni stóð, haft hoftollinn eigi að eins til viðhalds hofunum og til blóta og blótveislna, heldur og, nokkurn part af honum, til þess að gjalda þingmönnum sínum farareiri til alþingis, enn síðan, þegar kristni kom og hof og blót lögðust niður, hafi gjaldið verið lækkað og úr því eingöngu haft til þingfararkostnaðar og fengið því nafnið þingfararkaup. Þetta verður auðvitað aldrei annað enn getgáta, enn víst er það, að hvergi er talað um þingfararkaup í heiðni. Líka skoðun hefur Hannes biskup Finsson sett fram í athugasemd við Kristni sögu útg. 1773 á 138.—139. bls. neðanmáls. Á öðru máli er Konr. Maurer, Island 151. bls.

tíundarlögum segir svo: Búendr allir skulu tíund gera, þeir er þingfararkaupi eigu at gegna, af fé sínu skuldlausu,[1]) og er enginn vafi á að þessi grein er til vor komin óbreitt úr tíundarlögunum frá 1096.[2]) Þannig var tíundinni hnítt aftan í þingfararkaupið alveg eins og skattinum síðar, og var það mjög eðlilegt, þegar bætt var við níju skattgjaldi, að það væri tengt við það skattgjald, sem áður var til.

Á þeim stað, sem til var færður úr tíundarlögunum, sjest, að tíundin var að eins goldin af skuldlausu fje. Og þar sem nú svo náið band var milli tíundarinnar og þingfararkaupsins, er það í sjálfu sjer líklegt, að þingfararkaupið hafi að eins verið greitt af skuldlausri lausafjáreign. Þetta stendur og í Kb., og má því telja víst, að hún hafi varðveitt lagagreinina í upphaflegri mind, enn Sthb. í breittri. Það sjest og á samanburði við Jónsbók Þegnsk. 1. k., að þetta er rjett. Þar eru greind skilirðin firir þingfararkaups og skattgjalds skildunni alveg á sama hátt og í Sthb. og með svo að segja sömu orðum. Þar er slept orðinu skuldalausa, sem stendur í Kb., og sínir það, að það orð er ekki fallið úr af ógáti í Sthb.[3]) Þar er og sett sem skilirði, að bóndinn skuli eiga eik (uxa eða hross) um fram eða í viðbót við eitt kú-

---

[1]) Grág. Kb. II 206. bls. Sthb. 47. bls. Skálholtsbók (Kh. 1883) 44. bls.

[2]) Vilhjálmur Finsen virðist jafnvel halda því fram, að hún hafi staðið óbreitt allan þjóðveldistímann, enn svo er ekki. Rjett á eftir henni kemur í lögbókunum svolátandi grein: Þó at hann eigi minna fé (ɔ: enn svo, að hann eigi að gjalda þingfararkaup), ef hann á 10 aura skuldlausa, ok skal hann þá tíund af gera. Þetta er bersínilega nímæli, talsvert ingra enn frá 1096, enn þó ef til vill svo fornt, að það hafi staðið í Kristinna laga þætti þeirra Þorláks og Ketils. Sama er að segja um greinina í upphafi tíundarlaganna, er tiltekur, hversu mikla tíund skuli greiða af minni fjárhæðum, frá 10 sex álna aurum upp í 100 sex álna aura.

[3]) Það sannar ekkert gegn þessu, þó að búlausir eigi ekki eftir Jónsbók að gjalda skatt og þingfararkaup af öðru fje enn skuldlausu. Með þessu ákvæði Jónsbókar um búlausa er nír flokkur manna dreginn inn undir gjaldskilduna, sem ekkert hafði goldið áður, og var þá eðlilegt, að honum væri veittar ívilnanir fram ifir hina, sem áður vóru gjaldskildir.

gildi firir hvert skuldahjón, alveg eins og í Sthb. Vjer getum nú ekki efast um, að Jónsbók hefur hjer tekið upp óbreitt þau lög, sem giltu um þingfararkaupsskilduna um það leiti, sem landið gekk á hönd konungi, eða um 1262, enda sínir samhljóðun hennar og Staðarhólsbókar, að svo var. Af þessu leiðir, að lagagreinin, eins og hún er orðuð í Kb., hlítur að vera frá eldri tímum, að svo miklu leiti sem henni ber ekki saman við Sthb.

Ekki vitum vjer nú firir víst, hvað til bar, að þessar breitingar vóru gerðar á hinum fornu þingfararkaupslögum. Síðari breitingin, um eikinn um fram, er mjög óveruleg, og getur verið, að hún sje frá upphafi að eins lögskíring, svo til komin, að efnalitlir bændur, sem vóru rjett á takmörkunum að gjalda þingfararkaup, hafi álitið sjer leifilegt að telja einn eik, sem hafður var til flutninga eða firir plógi[1]) og ekki annars arðberandi, með þeim »bús búhlutum«, sem búið mátti eigi þarfnast, og svo hafi þetta verið tekið í lög, þegar það var orðið að venju. Firri breitingin, er nam burt heimildina til að telja skuldir frá lausafjáreigninni, er aftur á móti mjög veruleg, enn í rauninni er hún ekki óeðlileg. Í sjálfu sjer er það óhentugt, þegar um skattgjald er að ræða, að leift sje að draga skuldir frá gjaldstofninum, því að það getur gefið tilefni til undanbragða. Það var í hag goðunum, sem gjaldið áttu að taka, að þetta leifi væri afnumið, að því er þingfararkaupið snerti, enn í óhag gjaldendum. Samt mundu goðarnir líklega ekki hafa filgt því fast fram að fá breiting á þessu, ef gjaldendurnir hefðu ekki sjálfir komið þar hálfa leið til móts við þá. Þingfararkaupið virðist hafa verið mjög lágt gjald og ekki tilfinnanlegt firir gjaldendur. Upphæð þess var komin undir samkomulagi milli hvers goða og þingmanna hans, og verið getur, að það hafi verið mishátt í ímsum hjeruðum og hærra í þeim sem fjær lágu Þingvelli.[2]) Á einum stað er það talið hálfur eirir (= 3 álnir

---

[1]) Sbr. Grág. Kb. II 193. bls.: Arðroxi gamall á vár, þat er metfé.

[2]) Jeg skal í þessu sambandi taka það fram, að orðið þingfararkaup er tvírætt í fornu máli. Það þíðir bæði 'kaup það, sem hver einstakur þingmaður tók firir að fara til þings með goðanum', 'þingfarareiri', og 'gjald það, sem þingfararkaupsbændurnir guldu goðanum, ef þeir fóru ekki til þings, í þeirri veru,

vaðmála), enn þar er að vísu um vorþing að ræða.[1]) Að minsta kosti er líklegt, að það hafi hvergi farið fram úr 8 álnum, eða verið hærra enn skatturinn, sem Hákon gamli fór fram á og fjekk hjá Íslendingum 1262—1264.[2]) Í Jónsbók Þegnsk. 1. k. er þingfararkaupið talið jafnt skattinum, 10 álnir hvort gjald um sig. Hins vegar stóðu þingfararkaupsbændur skör hærra enn aðrir bændur og nutu ímsra þegnrjettinda, sem aðrir höfðu ekki. Þeir einir vóru rjettir þingheijendur, þeir einir vóru kvaddir búakviðar, og þeir vóru svo að segja einráðir í sveitamálum.[3]) Af þessu leiddi, að sá var ekki skoðaður sem maður með mönnum, sem ekki galt þingfararkaup. Má því ætla, að flestir þeir, sem nokkuð höfðu umleikis, hafi viljað láta telja sig með þingfararkaupsbændum, einkum þar sem gjaldið var svo lágt, og að margir þeirra hafi í þessu skini ekki notað sjer heimild þá, sem lögin veittu, til að draga skuldir frá lausafjáreigninni. Var því eðlilegt, að lagabreiting, sem fór í þá átt að nema burtu

---

að hann af því greiddi þeim, sem fóru, þingfarareirinn'. Þeir þingfararkaupsbændur, sem til þings fóru, vóru nefndir þingheijendur, og er sagt um þá, að þeir skulu „taka þingfararkaup (ɔ: farareiri) enn eigi gjalda (ɔ: þingfararkaupsgjaldið)". Það leiðir af sjálfu sjer, að farareiririnn var mishár, eftir því hvort þingheijandinn átti heima nær eða fjær Þingvelli, enda má ráða það af Jónsbók Þingfararb. 2. k. Líklegt er, að gjaldið hafi líka verið nokkru hærra úr hinum fjarlægari hjeruðum enn úr nágrannahjeruðunum, enn þó hefur það líkast til ekki munað mjög miklu og síst því, sem svaraði farareirismuninum. Sennilegt þikir mjer, að farareiririnn hafi alstaðar verið nokkru hærri enn þingfararkaupsgjaldið. Fjöldi þeirra, sem heima sátu, jafnaði það upp, og úr hinum fjarlægari sveitum hafa líklega færri farið til þings að tiltölu, enn úr nærsveitunum. Það nær engri átt, að gjaldið hafi alstaðar verið jafnhátt farareirinum. Eftir Jónsbók fengu menn úr Múlaþingi norðan Öxarheiðar 18 aura í farareiri, og líklega hafa þeir ekki fengið minna á þjóðveldistímanum. Enn svo hátt hefur þingfararkaupsgjaldið aldrei verið í þeim sveitum.

[1]) Grág. Kb. I 106.—107. bls.

[2]) Í riti mínu Um upphaf konungsvalds, Rvík 1908, 33.—34. bls. — sbr. Enn um upphaf konungsvalds 35. bls. — hef jeg leitt rök að því, að skatturinn hafi numið 8 álnum frá c. 1263 til 1281.

[3]) Sjá um þetta Konr. Maurer, Island, 149.—152. bls. Vilh. Finsen í orðaskránni við Grág. 1883 undir orðinu þingfararkaup og í Árb. f. n. oldk. og hist. 1873, 138.—139. bls. neðanmáls.

þessa heimild, mætti ekki mikilli mótspirnu hjá gjaldendum. Hvenær þessi breiting komst á, er efasamt, enn hitt er víst, að þegar Gizur biskup ljet telja þingfararkaupsbændur, var gjaldið að eins greitt af skuldlausu fje.

Frá hvaða tíma er þetta bændatal Gizurar? Elsta og áreiðanlegasta heimildarritið, sem frá því segir, er Íslendingabók Ara, og eru hin öll að mestu leiti ekki annað enn bergmál af frásögu hans. Ari segir í 10. k. bókar sinnar frá tíundarlögunum 1096, þá frá því, að Gizur gaf biskupsstólnum föðurleifð sína, Skálholt, og önnur auðæfi, og svo frá stofnun biskupsstólsins í Norðlendingafjórðungi. Þá birjar hann að segja frá bændatalinu með þessum orðum: En hann hafði **áðr** látit telja búendr á landi hér o. s. frv. Hjer er »áðr« tvírætt. Flestir hafa haldið, að það benti til næsta liðar á undan í frásögninni, um stofnun biskupsstólsins á Hólum, og að bændatalið hafi farið fram rjett á undan þessum viðburði, sem varð 1106. Á þessari skoðun var meðal annara Konr. Maurer, og hjelt hann, að Gizur hefði látið telja þingfararkaupsbændurna til þess að ganga úr skugga um, hvort biskupstekjurnar úr Norðlendingafjórðungi mundi geta borið sjerstakan biskupsstól. Þetta virðist mjer mjög ólíklegt. Til þess að komast að raun um þetta þurfti Gizur ekki að láta telja nema í Norðlendingafjórðungi einum; hvað kemur þá til, að hann lætur telja í hinum fjórðungunum? Hins vegar má telja víst, að Gizur hafi um 1105, þegar tíundarlögin höfðu staðið 8—9 ár, vitað nokkurn veginn glögt tölu þingfararkaupsbænda um alt land og í hverjum fjórðungi firir sig, þegar hann hafði í svo mörg ár látið innheimta biskupstíundir um alt land, og það hjá þingfararkaupsbændunum einum, því að aðrir vóru þá ekki tíundarskildir. Undir eins og tíundarlögin komu í gildi, hlaut það brátt að sína sig, hve margir þingfararkaupsbændurnir vóru. Því hlítur bændatalið annaðhvort að vera frá árinu 1096, þegar tíundin var í lög leidd, eða þó öllu heldur eldra og þá gert til undirbúnings tíundarlögunum. Þar sem það stóð til, að tíundin irði ekki lögð á aðra enn þingfararkaupsbændur, þá gefur að skilja, að það var áríðandi firir biskup og aðra, sem vildu koma á tíundinni, að fá vitneskju um tölu þeirra, og helst fjáreign hvers eins líka, til að geta gert áætlun um, hve mikið fje tíundin mundi gefa af sjer. Bændatalið virðist því helst

vera frá næstu árunum á undan 1096, eða hjer um bil frá árunum 1092—1095. Nær verður ekki komist, því að vjer vitum ekki, hve lengi var verið að bræða tíundarlögin, áður enn þau náðu fram að ganga á alþingi.

---

Í Skírslum um landshagi á Íslandi I 322. bls. hefur Arnljótur Ólafsson gert áætlun um manntal á Íslandi um 1100 eftir þingfararkaupsbændatali Gizurar biskups. Hann hefur til þess þá aðferð, sem áður er sagt, tekur árið 1753 til samanburðar, finnur first tölu allra bænda um 1100 eftir sama hlutfalli og var milli skattbænda og allra bænda 1753, giskar síðan á, að jafnmargir hafi verið í heimili 1100, eins og vóru 1753, og margfaldar tölu allra bænda með þeirri tölu ($7^1/_5$). Með þessu móti verður niðurstaðan hjá honum, að manntalið um 1100 hafi verið 104753. Sjálfur er hann sjer þess meðvitandi, að þessi útreikningur muni vera »hæpinn í marga staði«, og tekur meðal annars fram, að árið 1753 sje óheppilegt til samanburðar, þar sem harðæri var á undan gengið.

Konr. Maurer andmælir þessum útreikningi Arnljóts Ólafssonar í bók sinni Island, á 440.—448. bls. Hann heldur því fram, að efnahagur bænda á Íslandi hafi verið ifirleitt betri og jafnari um 1100 enn á síðari tímum, og að allur þorri bænda þá hafi verið svo fjáðir, að þeir hafi átt að gjalda þingfararkaup. Ekki færir þó Maurer neinar fullnægjandi sannanir firir þessari skoðun sinni. Sumt af því, sem hann tínir til, virðist ekki koma þessu máli við, t. d. það sem hann segir um forlagseiri ómaga.[1]) Samt leiðir hann sennileg

---

[1]) Misskilningur er það, þar sem hann ræður það af Jónsbók Framfb. 1. k., að forlagseirir ómaga hafi verið vextirnir af $3^1/_2$ hundraði álna firir karlmann, enn af $2^1/_2$ hundraði firir kvennmann um árið. Það væri lág meðgjöf, enda stendur það ekki á þessum stað, heldur er „tveggja missira björg" þar talin hvorki meira nje minna enn $3^1/_2$ hundrað firir karlmanninn, og $2^1/_2$ hundrað firir kvennmanninn. Þetta kemur og allvel heim við Búalög (Atli, Kh. 1834, 213.—216. bls.).

rök að því, að hinir fátækustu þingfararkaupsbændur muni hafa átt 6 hundruð álna í lausafje, varla minna. Og af því að þetta er í sjálfu sjer lítil lausafjáreign firir bónda, dregur hann þá áliktun, að allur þorri bænda hafi goldið þingfararkaup. Enn hann virðist gleima því, að þingfararkaupsgjaldið var ekki eingöngu komið undir lausafjáreigninni, heldur líka, og engu síður, undir skilduhjúatölunni. Bóndi, sem átti t. d. 15 kúgildi lausafjár, galt ekki þingfararkaup, ef hann hafði 16 skuldahjú. Lágmarkið 6 hundruð firir þingfararkaupsbændurna sannar því ekkert um tölu annara bænda. Í sjálfu sjer er þetta lágmark mjög eðlilegt. Bóndi gat varla náð þingfararkaupi, ef hann átti minna, því að skilduhjónatalan hefur víst sjaldan verið minna enn sex (bóndinn, kona hans, húskarl, griðkona og tveir ómagar). Og alveg eins var þetta á 19. öldinni. Þá eru mjög fáir í skatti, nema þeir tíundi 6 hundruð eða meira. Árið 1842 vóru t. d. 299 bændur í skatti í Húnavatnssíslu. Þar af tíunduðu einir 6 lægra enn 5 hundruð, 11 milli 5 og 6 hundruð og 29 milli 6 og 7 hundruð. Í Dalasíslu vóru árið 1850 79 skattbændur, þar af tíundaði einungis 1 lægra enn 6 hundruð og 4 milli 6 og 7 hundruð.[1]) Þetta virðist helst benda til, að þingfararkaupið á þjóðveldistímanum hafi komið mjög líkt niður á gjaldendurna eins og skatturinn á 19. öldinni, og að samanburður sje bæði leifilegur og rjettmætur. Líklega hafa þá eins og á 19. öldinni verið til einstakir þingfararkaupsbændur, sem áttu minna lausafje enn 6 hundruð. Að minsta kosti hefur Maurer ekki sannað, að 6 hundraða lausafjáreign hafi verið skilirði firir þingfararkaups gjaldskildu.

Jeg fæ því eigi betur sjeð, enn að Maurer hafi mistekist að sanna, að allur þorri bænda hafi verið þingfararkaupsbændur. Að allmargir bændur hafi verið til, sem ekki guldu þingfararkaup, virðist mega ráða t. d. af þessum stað, í Grág. Kb. II 173. bls. (= Sthb. 251. bls.): Allir bændr skulu bera hreppsfundar boð, þeir er í hrepp eru saman, þó at þeir sé sumir óauðgari, en þeir eigi þingfararkaupi at gegna.

Niðurstaðan hjá Maurer verður sú, að fólkstalið um 1100

[1]) Jeg hef hjer ekki tekið tillit til þeirra, sem vóru í samlagningarskatti.

muni hafa verið alt að því helmingi lægra enn Arnljótur Ólafsson hafði talið, eða um 50000. Því til sönnunar vísar hann í Kristni sögu 14. k., Bisk. I 30. bls. (sbr. Viðbæti Skarðárb. við Landnámu 1843, 329. bls.). Þar stendur svo:

Þat sumar (ɔ: 1118) fóru 35 skipa út hingat, ok braut mörg við land, en sum leysti sundr í hafi undir mönnum, en átta ein kómust brott, með þeim er áðr vóru hér, ok kómust þau engi fyrir Mikjálsmessu ór hafi. Af þeim mannfjölda varð hér hallæri mikit.

Þetta virðist Maurer benda til, að landið hafi verið fáment, því að annars hefði ekki munað mikið um fáeinar skipshafnir. Enn á frásögninni sjest, að »hallærið« muni ekki eingöngu hafa stafað af skipshöfnunum, þó að sagan segi svo, heldur líka af því, að aðflutningar brugðust að miklu leiti sakir skiptapanna, þó að mennirnir kæmust af. Enn um þennan atburð er líka annað vitni, sem Maurer vísar til, og það er Hungrvaka, mjög skilríkt heimildarrit og áreiðanlegt. Hún segir svo:

Þat sumar kom til Íslands 35 skipa, en 8 kómu til Noregs um haustit eptir Mikjálsmessu. Við þat óx svá mikill mannfjöldi á Íslandi, at þat var **mikill óáransauki í mörgum héruðum.**

Hjer fillir hvor sagan aðra. Enn um afleiðingarnar af hrakningum skipanna er Hungrvöku betur trúandi enn Kristnisögu. Vjer höfum áreiðanlegar sagnir um, að á skipum þeim, sem milli landa fóru, vóru oft 50—100 mans.[1]) Ef vjer gerum, að 3 skip að minsta kosti hafi verið hjer firir (Kristni saga), verða það 30 skipshafnir, sem bætast við um veturinn, eða varla minna enn 1500 mans, og hafi nú þessi mannfjöldi ekki komið jafnt niður á landið, verður skiljanlegt, að af því stafaði »óáransauki í mörgum hjeruðum«, einkum þar sem aðflutningar höfðu að nokkru leiti brugðist. Þessi staður sannar því sama sem ekki neitt um mannfjöldann hjer á landi 1118.

Jeg er því í engum efa um, að Maurer hefur farið of langt í staðhæfingum sínum. Enn hins vegar virðast ímsar líkur mæla með því, að efnahagur bænda hjer á landi hafi

[1]) Sturl. Oxf II 156. og 248. bls.

verið ifirleitt nokkuð betri um 1100 enn á 19. öldinni. Hitt virðist aftur á móti mjög vafasamt, hvort fjármagninu hefur þá verið jafnara skift milli manna enn nú á dögum. Mart mælir með hinu, að auður hafi þá fremur safnast í fárra manna hendur.

Í Årbøger f. nord. oldk. og hist. 1873 á 138.—139. bls. neðanmáls hefur Vilhjálmur Finsen gert tilraun til að reikna út manntalið um 1100 eftir bændatali Gizurar biskups. Hann heldur því fram eins og Maurer, að þingfararkaupsbændur hafi verið miklu fleiri i tiltölu við aðra bændur og við fólkstöluna enn skattbændur á siðari timum, enn ræður það af öðrum ástæðum. Hann leggur einkum áherslu á það, að framtalið hafi verið rjettara og minna undandregið enn á 18. og 19. öldinni, bæði af því að þingfararkaupsgjaldið var lágt og þó einkum af þvi að það var skilirði firir fullum þegnrjettindum og hóf þá, sem það guldu, upp á hærri tröppu í mannfjelagsstiganum. Þetta er alveg rjett athugað, og verður að taka tillit til þess. Samt fer V. F. ekki eins langt eins og Maurer. Hann giskar á, að þeir bændur, sem ekki gegndu þingfararkaupi um 1100, hafi þó verið nær helmingur móts við þingfararkaupsbændurna, eða að hjer um bil þriðji hver bóndi hafi ekki goldið þingfararkaup. Með þessu móti fær hann út, að allir bændur hafi verið 6000—7000. Hins vegar heldur hann, að þá hafi verið ifirleitt fleiri menn í heimili enn á siðari öldum, giskar á 10 mans, og verður niðurstaðan, að fólksfjöldinn í landinu hafi þá verið 60000—70000.

Auðvitað eru þetta ekki annað enn ágiskanir. Hvergi sinir það sig betur enn hjer, hve óheppilegt það er að hafa tölu allra bænda og meðaltal manna á hverju heimili sem milliliði i reikningnum milli skattbændatölunnar og fólkstalsins, því að með þessu eru teknar inn í reikninginn tvær óþektar og mjög vafasamar stærðir. Jeg er sannfærður um, að V. F. hefur sett meðaltal fólkstölu á hverju heimili alt of hátt. Árið 1703 vóru 6,7 mans í heimili að meðaltali, árið 1753 7,2, 1850 6,8, fór svo heldur hækkandi til 1875, þá var talan 7,5, siðan lækkandi til loka aldarinnar og var 1901 6,2, og stafar það frá kaupstaðaheimilunum.[1]) Að öllum líkindum

[1]) Sjá Indr. Einarsson í Landhagsskírslum 1903 á 108. bls. Þar er prentvilla eða reikningsvilla við 1850, 6,7 firir 6,8.

hefur fólkstalið hjá almennum íslenskum bændum eftir öllum landsháttum varla nokkurntíma farið mikið fram úr 7 mans í heimili að meðaltali. Enn V. F. hækkar meðaltalið af því, að fólkstalið hjá höfðingjunum og á biskupsstólunum hefur eflaust verið langt firir ofan meðaltal. Enn honum hefur varla verið fullljóst hvað hann var að gera. Setjum, að tala allra bænda hafi verið meðaltalið af þeim tölum, sem V. F. reiknar með, þ. e. 6500. Þá verður fólkstalan:

| | |
|---|---|
| ef vjer reiknum 10 mans í heimili..... | 65000 |
| - — — 7 — - — ..... | 45500 |
| Mismunur... | 19500. |

Þetta þíðir, að til þess að hækka heimilisfólkstöluna úr 7 upp í 10 þarf með þessari heimilatölu 19500 mans, eða með öðrum orðum, ef vjer gerum, að meðaltalið á almennum bóndaheimilum hafi verið 7, þá þurfa þau fáu heimili, sem höfðu fleira fólk, að hafa haft samtals 19500 mans fram ifir meðaltalið 7, til þess að meðaltal fólkstölunnar á öllum heimilum hækki upp í 10. Eftir því ætti hjer um bil þriðjungur allra landsmanna þá að hafa verið saman kominn á fáeinum höfðingjaheimilum og á biskupsstólunum, og er það hin mesta fjarstæða. Hins vegar virðast líkur til, að þeir bændur, sem ekki guldu þingfararkaup, hafi verið fleiri, enn V. F. telur, og tala allra bænda því of lág hjá honum.

---

Jeg mun þá reina að skíra þetta mál sem best frá mínu sjónarmiði með því að bera saman þau öfl, sem ráða hlutfallinu milli þingfararkaupsbænda eða skattbænda tölu og fólkstölu um 1095 og á 19. öldinni. Mun jeg þá first taka það, sem helst má hönd á festa, skilirðin firir þingfararkaupsgjaldinu um 1095 og firir skattgjaldinu um og firir 1850.

Árið 1095 var maður þingfararkaupsbóndi, ef hann átti jafnmörg kúgildi og hann hafði skilduhjú, enn á 19. öldinni þurftu kúgildin eða lausafjárhundruðin að vera einu fleiri enn skilduhjúin, til þess að maðurinn lenti í skatti. Firir þetta hafa þingfararkaupsbændur verið tiltölulega fleiri um 1095

enn skattbændur á 19. öldinni. Enn upp á móti þessu vegur það, að á 19. öldinni vóru búlausir menn skattskildir, enn guldu ekki þingfararkaup um 1095.

Enginn efi er á, að framtal lausafjár hefur verið miklu rjettara um 1095 enn á 19. öldinni (sbr. hjer að framan), og munar þetta víst mjög miklu í þá átt að hækka þingfararkaupsbændatöluna þá í samanburði við skattbændatöluna á 19. öld. Enn það er fleira enn eitt, sem vegur á móti þessu, og skal jeg nú greina það:

1. Skuldir vóru taldar frá lausafjáreigninni um 1095, enn ekki á 19. öldinni.

2. Frændaframfærisskildan var enn þá ríkari eftir hinum fornu lögum þjóðveldisins enn eftir Jónsbók. Á þjóðveldistímunum vóru menn skildir að framfæra þurfandi ættingja sína fimmmenninga (þriðja bræðra) og nánari, þegar svo bar undir, og eftir þessu virðist hafa verið mjög ríkt gengið.[1]) Á 19. öldinni náði framfærsluskildan ekki lengra enn til ættmanna í beinan legg upp og niður (sjá hjer að framan á 338. bls.). Af þessu leiðir, að menn, sem nokkuð áttu, hljóta að hafa haft talsvert fleiri ómaga og þá líka fleiri skilduhjú um 1095 enn samskonar menn á 19. öldinni; firir þessa sök verða þingfararkaupsbændur tiltölulega færri um 1095 enn á firri helmingi 19. aldar.

3. Samlagningarskatturinn, sem tíðkaðist á 19. öldinni, hækkar tiltölulega skattbændatöluna þá í samanburði við þingfararkaupsbændatöluna um 1095.

Jeg higg, að þessi 3 atriði muni nokkurn veginn vega salt á móti því, sem framtalið var betra 1095 enn á 19. öld.

Líklega hefur efnahagur landsmanna verið ifirleitt nokkuð betri um 1095 enn *að jafnaði* á 19. öld, og hlutfallið milli tölu þingfararkaupsbænda og fólkstals því nokkru hærra enn tilsvarandi hlutfall á 19. öldinni *í meðalárum*. Enn ef vjer tökum til samanburðar mestu veltiárin á 19. öldinni, higg jeg, að munurinn verði lítill eða enginn.

---

[1]) Grág. Sthb. 113. bls.: Þá er frændsemi, ef þriðja bræðra eða skyldara. Að ríkt hafi verið eftirgengið, sjest á Grág. Kb. II 7. bls. og þar á eftir, sbr. II 178.—179. bls. Sthb. 111. bls. og þar á eftir, sbr. 256. bls. Sjá og orðaskrá V. F.s við Grág. Kh. 1883 undir framfœrsla, frændsemi, hreppr, ómagi, sóknarmaðr.

Alt bendir til, að vel hafi látið í ári um það leiti, sem Gizur biskup ljet telja þingfararkaupsbændur. Árið 1056 er getið um hallæri mikið í Viðbæti Skarðsárbókar við Landnámu, útg. 1843, 323.—324. Þá var manndauði af sulti og alt jetið, sem tönn festi á, og svo snjóasamt um vorið, að menn gengu flestir til alþingis. Þetta er eflaust sama hallærið, sem Snorri Sturluson skírir frá í Heimskringlu, útg. Finns Jónssonar, Haralds s. harðr. 36. k. (III 129. bls.),[1] að verið hafi á dögum Haralds harðráða. Haraldr reindist Íslendingum þá hinn mesti bjargvættur, og segir Snorri, að »þaðan af nærðist land þetta til árferðar og batnaðar«. Í annálum er þetta hallæri kallað »óöld« eða »óöld í kristni« til að greina hana frá annari óöld sem varð í heiðni 80 árum áður (976). Árið 1078 er í annálum nefnt »snævetr inn mikli«, enn annars er ekki getið um nein harðæri eftir 1056 til loka 11. aldarinnar. Virðist því mega ganga að því vísu, að árin 1092—1095 hafi verið meðalár eða í betra lagi. Á það bendir líka það, að tíundin var í lög tekin, því að varla mundu menn hafa gengið svo greiðlega undir hana, ef mjög illa hefði látið í ári.

Á 19. öldinni tek jeg til samanburðar árið 1850, sem eflaust er eitthvert hið allra besta ár aldarinnar. Þá var hlutfallið milli tölu skattgjaldenda og fólkstölu 1 : 17,1 (sjá töfluna hjer að framan). Jeg sleppi brotinu og tel, að 17. hver maður hafi verið þingfararkaupsbóndi það ár, sem bændatal Gizurar var tekið. Als vóru þingfararkaupsbændurnir 4560. Verður þá fólkstalan um 1095:

77520.

[1]) Sbr. Fms. VI 266. bls. Flat. I 343. bls. Fagrsk. 188. k. (útg. FJ. 263. bls.).

## IV. MANNFJÖLDI UM 965.

Er nokkur leið að finna mannfjöldann á Íslandi á 10. öldinni?

Elsta og skilríkasta vitnið í því máli er Ari prestur hinn fróði. Hann var fæddur árið 1067[1]) og hafði sögur af gömlum mönnum, sem langt mundu fram. Í Íslendingabók sinni hinni ingri, sem er samin á árunum 1134—1138[1]), farast honum þannig orð í 3. k.:

Svá hafa ok spakir menn sagt, at á sex tigum vetra yrði Island albygt, svá at eigi væri meirr siðan.[2])

Þau 60 ár, sem hjer ræðir um, eru 30 hin síðustu ár 8. aldar og 30 firstu árin af 9. öldinni.

---

[1]) Tímarit h. ísl. bókmfjel. X 215.—221. bls.

[2]) Sama efnis er Landnáma Stb. 399. k. Hb. 356. k., útg. 1843, 321. bls. Þar stendur: Svá segja fróðir menn, at landið yrði albygt á 60 vetra, svá at eigi hefir síðan orðit fjölbygðra. Með því að víst má telja, að Ari sje frumhöfundur Landnámu, og grein þessi kemur svo að segja orðrjett saman við Íslbk., er líklegt, að hún sje líka frá Ara runnin. Bogi Melsteð heldur því fram (Isls. I 257. bls.), að í Íslbk. sje átt við víðáttu landsbigðarinnar, enn ekki fólksfjöldann. Það kemur nú nokkuð í sama stað niður. Enn auk þess vil jeg benda honum á, að við „meirr" hjá Ara verður að undirskilja — ekki albygt, því að það væri fjarstæða, heldur — bygt, og að meirr bygt er eða getur verið rjett miðstig af fjölbygt, og koma þá orð Íslendingabókar alveg heim við Landnámu. Það virðist og sjálfsagt að skíra orð sama höfundar eins á báðum stöðunum.

Orð Ara virðast því ekki verða skilin öðru vísi enn svo, að fólkinu í landinu hafi ekki fjölgað að mun frá 930 fram á hans daga.

Auðvitað má ekki taka þetta of bókstaflega. Manntöl vóru ekki tekin um þær mundir, og hinir »spöku menn«, sem Ari hafði sögur sínar frá, hlutu því að tala um þetta mál nokkuð af handa hófi. Þá er og það, að mönnum hættir oft til að gera helst til mikið úr umliðna tímanum. Hjer má því að líkindum slá nokkuð af. Enn með engu móti má gera þennan vitnisburð Ara fróða að markleisu.

Hjer að framan hef jeg leitt rök að því, að mannfjöldinn um 1095 muni hafa verið rúmlega 77000. Svo mikill hefur hann varla verið um 930, við lok landnámsaldarinnar. Enn ef nokkuð er að marka orð Ara, hefur hann þó varla getað verið mikið firir neðan 60000.

Verður komist nær enn þetta?

Það hefur verið reint.

Hinn norski sagnaritari P. A. Munch reindi að finna mannfjöldann um 930 með því að telja saman landnámsmennina eftir Landnámu og giska á, hve margir mundu hafa komið með hverjum þeirra. Hann telur, að landnámsmennirnir hafi verið 400 og giskar á, að hver þeirra hafi komið við 15. mann. Fær hann þannig út, að mannfjöldinn hafi verið 6000, eða þó nokkru hærri, af því, að fólkinu hljóti að hafa fjölgað, meðan á landnámunum stóð.[1])

Bogi Th. Melsteð hefur í Íslendinga sögu sinni farið svo að segja sömu leið og Munch, enn er þó, að því er virðist, óháður honum um þetta mál. Að minsta kosti getur hann ekki um, að Munch hafi þrætt þessa götu áður. Hann gerir, að hjer um bil þrír fjórðungar landnámsmanna hafi átt sjálfir þau skip, sem þeir komu út á. Það verða 300 skip. Á hverju skipi telur hann að meðaltali 30 innflitjendur. Það verða um 9000 mans. Þá giskar hann á, að þeir hafi verið jafnmargir, eða fleiri, sem fluttu til landsins þar firir utan, og eigi eru nefndir. Verður þá niðurstaðan, að fólksfjöldinn hafi verið um 20000.[2])

Þessar tilraunir svífa að minni higgju alveg í lausu lofti

[1]) Munch, D. n. f. hist. I, 1, 556 bls.

[2]) Bogi Th. Melsteð, Íslendinga saga I 239.—244. bls.

og koma í bága við vitnisburð Ara fróða, sem áður var greindur. Jafnvel Bogi Th. Melsteð, sem setur fólkstöluna þrefalt hærri enn Munch, gerir hana þó eflaust alt of lága. Innflitjendur þeir, sem engar sögur fara af, hafa eflaust verið margfalt fleiri enn B. Th. M. gerir þá. Ef það er rjett, sem B. Th. M. heldur, að landnámsmennirnir hafi átt 300 skip haffærandi, þá má geta nærri, að þeir hafi ekki látið þennan flota liggja arðlausan heima firir, heldur sent þau á sumrin til annara landa, Noregs og Vesturlanda, til að sækja nauðsinjar sínar, og má þá geta nærri, að þau muni oft hafa komið aftur með allmarga innflitjendur, meðan útflutningsstraumurinn var sem mestur frá þessum löndum, og að landnámsmaðurinn, sem skipið átti, hafi tekið slíkum mönnum fegins hendi og lofað þeim að setjast að í landnámi sínu, meðan rúm var, því að það var honum í hag að landið irði rutt til bigðar. Eðlilegt var, að nöfn þessara innflitjenda gleimdust, þegar fram liðu stundir, og hljóta allar ágiskanir um tölu þeirra að verða út í bláinn. Þetta skarð í landnáma sögu vorri verður því aldrei filt, og er það ekki láandi höfundum Landnámabókar. Miklu fremur megum vjer furða oss á, að þeir hafa kunnað að segja oss frá svo mörgum landnámsmönnum, og vera þeim þakklátir firir.

Þessi vegur liggur því ekki að markinu.

Enn eru þá til aðrar leiðir?

Snorri segir frá því í Heimskringlu, að Eyvindr skáldaspillir hafi ort drápu um alla Íslendinga, »en þeir launuðu svá, at hverr bóndi gaf hánum skattpenning; sá stóð 3 penninga silfrs vegna, ok hvítr í skor. En er silfrit kom fram á alþingi, þá réðu menn þat af at fá smiða til at skíra silfrit; síðan var görr af feldardálkr; en þar af var greitt smíðarkaupit; þá stóð dálkrinn 50 marka. Hann sendu þeir Eyvindi. En Eyvindr lét höggva í sundr dálkinn ok keypti sér bú með.«[1])

Þetta virðist hafa gerst skömmu firir árið 970. Þá var hallæri mikið í Noregi, og olli það því, að Eyvindr seldi feldardálkinn. Snorri tilfærir vísu eftir Eyvind, sem sínir, að sagan er sönn í aðalatriðunum. Að sönnu sjest ekki á vís-

[1]) Hkr. F. J. Har. gráf. 16. k. (I 253. bls.).

unni, hve dálkurinn var þungur, eða hve mikið hver bóndi gaf, enn vel má vera, að Snorri hafi þekt fleiri vísur Eyvindar um gjöfina, er hafi skírt frá þeim atriðum. Í sjálfu sjer er sagan ekki ósennileg.

Munch hefur reint að nota þetta til að finna tölu íslenskra bænda um þessar mundir. Hann telur 60 penninga í eiri, og verða þá í mörkinni (= 8 aurar) 480 penningar. Þar sem nú dálkurinn vó 50 merkur, fær hann út, að hann hafi verið 24000 penninga virði. Hver bóndi gaf 3 penninga. Telst Munch því, að bændatalan hafi verið 8000, eða nokkru hærri, ef tekið er tillit til smíðalauna.[1]

Í fótspor Munchs hefur Jón Sigurðsson fetað í æfisögu Eyvindar aftan við Snorra Eddu Árna Magnússonar nefndarinnar, og er þó reikningur hans nokkuð öðruvísi. Hann segir, að 50 merkur jafngildi 16000 penninga, gerir með öðrum orðum 40 penninga í eiri (50 . 8 . 40 = 16000). Við það bætir hann smíðalaununum, er hann telur 8000 penninga, eða helming af þingd feldardálksins. Fær hann þannig út, að samskotin hafi als numið 24000 penninga, og bændur þá verið 8000 að tölu, og kemst þannig loks að sömu niðurstöðu og Munch.[2]

Reikningur Jóns Sigurðssonar er að því leiti nákvæmari enn Munchs, að hann giskar á smíðalaunin og tekur þau til greina við útreikninginn með ákveðinni tölu. Áætlun hans um þetta er mjög sennileg. Ekki segir hann, hvaðan hann hafi það, að smíðalaun hafi til forna numið helmingi af silfurþingd smíðisgripsins, enn líklegt er, að hann stiðjist þar við Búalög. Þar stendur svo í kapítulanum um verkakaup: Að smíða eiri silfrs með víravirki, gilt og grafið, 20 álnir — og fái sá gullið til, er silfrið á, bætir við pappírshandrit, skrifað eftir skinnbók.[3] Í sömu Búalögum stendur síðar, að eirir silfurs jafngildi eftir Jónsbók 6 aurum eða 36 álnum vaðmála,[4] og af því að hjer er eflaust um æfagamalt lag á smíðalaunum að ræða, virðist sjálfsagt, að það sje miðað við það dírleikshlutfall milli silfrs og vaðmála,

---

[1]) Munch, D. n. f. hist. I 2, 8. bls. nmgr.

[2]) Sn. E. III 455. bls. neðanmáls.

[3]) Samhljóða þessari grein (með viðbótinni) að efninu til eru hin fornu Búalög í Stokkhólms-skinnbókinni C 6,4°, skrifaðri c. 1480—1500.

[4]) Jónsb. Kaupab. 5. k.

sem Jónsbók tiltekur (1 : 6). Hlutfallið milli smíðalaunanna og verðmætis silfursins ósmíðaðs verður þá sem 20 : 36, eða sem 5 : 9.[1]) Enn nú er það athugavert, að eftir Búalögum er gilling fólgin í smíðalaununum, enn um feldardálkinn er þess ekki getið, að hann hafi verið giltur. Firir þessu verður að gera, og hef jeg um það borið mig saman við einn af okkar bestu og greindustu gullsmiðum, herra Ólaf Sveinsson. Hann segir, að það muni láta nærri, ef smíðalaun á 1 eiri (c. 2 lóð) sje 20 álnir firir gilt smíði, sem eigandi leggur alt efni til í, að draga frá 2 álnir firir gillingunni, ef hún fellur burtu. Eftir því verður hlutfallið milli smíðalauna og verðmætis silfursins ósmiðaðs, þegar ekki er gilt, sem 18 : 36 eða sem 1 : 2, og kemur þetta alveg heim við ágiskun Jóns Sigurðssonar.[2])

Enn að öðru leiti er ímislegt að athuga við reikning þeirra Munchs.

First það, að þeim ber ekki saman um, hve margir penníngar hafi verið í eiri og munum vjer sína rök firir því, að báðum hafi þar skjátlast.

Annað það, að hvorugur þeirra tekur neitt tillit til þess, hve mikið silfrið hlítur að hafa rírnað, er það var skírt.

Í þriðja lagi það, að vafasamt er, hvort allir bændur tóku þátt i samskotunum eða að eins hinir auðgari bændur, þ. e. þingfararkaupsbændur eða þeirra igildi.

Munum vjer nú athuga þessi þrjú atriði, hvert firir sig.

1. Ekki er mjer kunnugt um, hverja heimild Jón Sigurðsson hefur haft firir því að telja 40 penninga í eiri. Arnljótur Ólafsson var á sömu skoðun, enn ástæður þær, sem hann færir firir henni, eru ekki fullnægjandi.[3]) Hann visar til þess,

---

[1]) Búalög aftan við Atla, Kh. 1834, 208. og 212. bls.

[2]) Sbr. NgL. III 14. bls. (10. gr. rjettarb. Eiríks konungs Magnússonar frá 1282): Gullsmiðir skulu taka fyrir hverja slétt smíðaða mörk, er þeir gera, hálfa mörk vegna, og Macody-Lund, Norges økonomiske System 110.—112. bls. Hann sínir, að $^1/_2$ mörk vegin er = 1 mörk forngild = $^1/_8$ af skírri mörk silfurs. Hjer eru því smíðalaunin $^1/_8$ markar af skíru silfri á hverja skíra mörk *sljett* smíði, og verður þá $^1/_2$ ekki ofreiknað á *grafið smíði og upphleipt*, sem hjer er eflaust um að ræða (munurinn $^1/_6$).

[3]) Tímar. h. ísl. Bmfjel. XXV 7.—9. bls.

að Grágás telji á einum stað, þar sem hún talar um lögsilfur hið forna, (Kb. II 192. bls. = Grág. Kh. 1883, 462. bls.), 60 penninga í eiri vegnum, enn á öðrum stöðum (Kb. I 192. og 204. bls., sbr. Sthb. 190. bls.) 10 penninga í eiri, og heldur því fram, að á hinum síðar nefndu stöðum tákni »eyrir« ekki eirisþunga af lögsilfri, heldur eiri vaðmála eða 6 álna eiri, því að, ef átt væri við eiri veginn af lögsilfri, irði afleiðingin, að verð penninga hefði hækkað sexfalt, þar sem 10 penningar væri nú orðnir jafnháir að verði og 60 áður, enn ef átt sje við eiri vaðmála, þá hafi verð penninga þó ekki hækkað nema um þriðjung, því að í einum eiri lögsilfrs hafi verið fjórir aurar vaðmála, og sje þá 40 penningar í eiri lögsilfrs. Í sambandi við þetta stingur hann upp á að skrifa xl firir »lx« (þ. e. 40 firir 60) á þeim stað, þar sem Grág. telur lx aura í eiri vegnum, og komi þá alt heim, svo að verð penninga hafi hvorki hækkað nje lækkað. Enn þessi skilningur, að eyrir á nefndum stöðum tákni eiri vaðmála, verður ekki með neinu móti leiddur út úr orðum Grágásar. Á firri staðnum, þar sem Konungsbók telur 10 penninga í eiri, (Kb. I 192) stendur svo: Penning skal hann (leysingi) gefa goða þeim, er hann leiðir í lög; þat skal inn tíundi hlutr eyris vera. Þetta gjald irði hlægilega lítið og ekki bjóðandi goðanum (ekki nema 6/10 úr vaðmálsalin), ef hjer væri átt við 6 álna eiri. Á síðari staðnum (Kb. I 204) segir svo (í niðurlagi Baugatals):

Þat er silfr sakgilt í baugum ok svá í þökum ok þveitum, er eigi sé verra en var lögsilfr it forna, þat er 10 penningar gera eyri ok meiri sé silfrs litr á en messingar ok þoli skor ok sé jafnt utan sem innan.

Í sjálfu sjer virðist langlíklegast, að hjer sje um þingd penninga, enn ekki beint um verðmæti þeirra að ræða, og að eyrir sje hjer vogareining enn ekki verðeining, tákni, með öðrum orðum, eirisþunga af lögsilfri, enn ekki 6 álna eiri. Ef eyrir táknaði í þessu sambandi nokkuð annað enn eiri lögsilfrs, þá hefði þurft að taka það beinlínis fram. Þessi orð standa í niðurlagi Baugatals. Er því líklegt, að penningr þíði hjer sama og það sem á tveim öðrum stöðum í Baugatali er nefnt »penningr veginn«.[1]) Enn þar sínir

[1]) Grág. Kb. I 195. bls. neðst, og bls. 201[19] (sbr. Sthb. 32. bls.).

veginn, að penningr táknar ákveðinn þunga í silfri og er vogareining alveg eins og eyrir, enn 10 sinnum minni. Enn hvernig stendur á því, að þessir staðir, sem nú vóru tilgreindir, telja 10 penninga í eiri, enn hinn (Kb. II 192. bls.) 60? Það kemur ekki af því, að penningar hafi hækkað eða lækkað í verði, heldur af því að þeir vóru misþungir á ímsum tímum, eftir því hvort fleiri eða færri penningar vóru mótaðir úr einum eiri. Þetta sannar saga penningasláttunnar á Norðurlöndum, og mun jeg taka fram úr henni helstu atriði, er hjer að lúta, og fer þar einkum eftir Schive, Norges mønter i middelalderen med indledning af Holmboe, Kria 1865, enn hef þó haft hliðsjón af fleiri ritum, einkum ritgjörð eftir þá Schive og Bredo Morgenstjerne í Kristiania Vidensk.-selsk. forhandlinger 1876 nr. 1.[1])

Hin forna norsk-íslenska mörk var nokkru ljettari enn íslensk mörk nú á dögum. Sch.-M. telja hana 215,8 frönsk grömm,[2]) og því filgi jeg hjer. Að vísu telur Fr. Macody Lund hana 216,527 grömm, eða tæpu 1 grammi þingri, í riti sínu Norges økonomiske system, Kria 1909, á 14. bls., og getur verið, að það sje rjettara, enn jeg fer þó eftir því, sem þeir Sch.-M. telja, enda er munurinn svo lítill, að hann gerir hvorki til nje frá í þessu sambandi.

Hinir elstu penningar, sem slegnir vóru á Norðurlöndum, eru mjög misþungir.[3]) Frá dögum Eiríks jarls Hákonarsonar eru til 2 penningar, sem menn þekkja þingd á; vegur annar 1,397 gr.,[4]) sem svarar $154^1/_2$ í mörk og 19,3 í eiri. Hinn vegur aftur á móti 2,026 gr.[4]) og ganga af slíkum $106^1/_2$ á mörk, eða $13^5/_{16}$ á eiri. Frá dögum Ólafs skautkonungs hins sænska hafa fundist margir penningar, mótaðir í Svíþjóð á firsta

---

[1]) Jeg kalla hjer á eftir bók Schive's „NM.“ enn ritgjörðina „Sch.-M.“

[2]) Sch.-M. 2. bls.

[3]) Sama er að segja um hina elstu peninga, sem mótaðir vóru á Englandi. Þeir vega frá 14 „Troy“-vogar grains (ɔ: 0,90664 frönsk grömm) upp í 26 grains (ɔ: 1,68376 fr. gr.); svarar þetta því, að af hinum ljettustu geri 238 penningar mörk, eða tæplega 30 sjeu í eiri, enn af hinum þingstu komi 128 á mörkina, og eru þá 16 í eiri. Sjá NM. XVI. bls. neðanmáls. Penningar Eiríks blóðaxar, sem vóru slegnir á Englandi, vega að meðaltali 1,311 fr. gr. og eru þá 164,6 í mörk, eða 20,6 í eiri (NM. 2. bls.).

[4]) N. M. 7., sbr. 30., bls.

áratugi 11. aldarinnar. Þeir eru mjög misþungir, vega frá 1,480 fr. gr. upp í 3,254 fr. gr.[1]) Ganga þá af þessum penningum mest 145,8 á mörk eða 18,2 á eiri, enn minst 66,3 á mörk eða 8,3 á eiri. Að meðaltali vega penningar Ólafs sænska 2,135 fr. gr.,[1]) sem svarar því, að 101,1 geri mörk, enn 12,8 eiri. Frá ríkisstjórn Hákonar jarls Eiríkssonar (árinu 1015) hafa fundist 2 penningar, sem vega 2,151 fr. gr.;[2]) verða þá af þeim 100,3 í mörk, enn sem næst 12½ í eiri. Frá dögum Ólafs helga hafa fundist nokkrir penningar; flestir þeirra vega líkt og hinir ljettustu penningar Ólafs sænska, enn einn líkt og hinir þingstu, 3,045 fr. grömm;[3]) gerir það 70,87 á mörkina, enn tæpa 9 á eiri.

Eftir daga Ólafs helga verða penningarnir ljettari og penningasláttan kemst á fastan fót, að því er þingd penninganna snertir, þannig að hjer um bil 240 penningar eru mótaðir úr mörkinni, og verða þá 30 í eiri.[4]) Frá þessum tíma stafar það, að norskar lögbækur telja 30 penninga í eiri.[5]) Þetta stóð um miðja 11. öldína, alt fram að c. 1069. Enn frá þeim tíma var þingd penninganna enn minkuð, og það um rjettan helming, svo að 60 penningar gerðu eiri, og stóð það út 11. öldina og meginið af 12. öld.[6])

Á þessu ifirliti er ljóst, að sá siður að telja 10 penninga vegna í eiri hlitur að hafa komið upp hjá Íslendingum á firsta fjórðungi 11. aldar. Þá vóru penningar mjög misjafnir að þingd, og sínir það, að þeir hafa ekki verið taldir, heldur vegnir í viðskiftum manna á milli. Um þetta leiti leiða Íslendingar það í lög hjá sjer, að enginn penningur sje fullvægur, nema hann vegi minst 1/10 eiris, eða sje ígildi hinna betri (þingri), enn ekki hinna bestu (þingstu) af penningum Ólafs hins sænska. Eldri getur þessi siður varla verið, því að menn fóru first að slá penninga á Norðurlöndum laust firir árið 1000, og er firir þann tíma varla að ræða um aðra

---

1) N. M. 9., sbr. 30., bls.

2) N. M. 12, bls. (sbr. 30 bls.).

3) N. M. 14.—17., sbr. 30., bls., og töflu I nr. 16.

4) N. M. XVI. bls. Sch.-M. 3.—4. bls.

5) Orðasafn Hertzbergs við NgL. V undir *penningr*.

6) Sch.-M. 4.—5. bls., 2.—4. nmgr. L. B. Stenersen, Myntfundet fra Græslid i Thydalen, Kria 1881, 71. bls. Hertzberg, Orðasafn við NgL. V undir *penningr*.

penninga enn enska, sem gengið hafi á Íslandi, en enskir penningar vóru ifirleitt talsvert ljettari enn $^1/_{10}$ eiris. Hins vegar getur siðurinn með engu móti verið ingri enn c. 1030, því að úr því fóru menn að slá 30 penninga úr eiri.

Enn fremur liggur það í augum uppi, að sá siður að telja 60 penninga í eiri hlítur að hafa komið upp á síðustu árum 11. aldarinnar eða á 12. öld, þegar hver penningur vó $^1/_{60}$ eiris, og að staður sá í Grágás, er svo telur, hlítur að vera bergmál frá þeim tíma. Orðin eru þessi:

Í þann tíð, er kristni kom út hingat til Íslands, gekk hér silfr í allar stórskuldir, bleikt silfr, ok skyldi halda skor, ok vera meiri hluti silfrs, ok svá slegit, at 60 penninga gerði eyri veginn, ok var þá allt eitt talit ok vegit. Þat var jafnmikit fé kallat hundrað silfrs sem 4 hundruð ok 20 álna vaðmála, ok verðr þá at hálfri mörk vaðmála eyrir.

Hjer er það rangminni ritarans, að 60 penningar hafi verið slegnir úr eiri um 1000 og að þá hafi verið alt eitt, talið og vegið. Hvortveggja er hin mesta fjarstæða, sje það sagt um þann tíma. Enn sje það sagt um tímann firir og eftir 1100, kemur hvortveggja alveg heim; þá eru taldir 60 penningar í eiri og þá er sama, hvort penningarnir eru taldir eða vegnir. Ritarinn hefur hjer bersínilega af misskilningi eða rangminni ruglað saman tveimur tímabilum og heimfært það, sem átti við síðara tímabilið til hins firra. Þetta raskar þó als ekki sannleiksgildi greinar þessarar að öðru leiti. Annars kemur hún vel heim við það, sem vjer vitum um »lögsilfur hið forna« um þessar mundir, og munum vjer víkja betur að því síðar. Líklegast þikir mjer, að orðunum ok svá slegit . . . . talit ok vegit sje aukið inn í þessa grein á 13. öldinni og eigi því að falla úr.

Jeg kemst þá að þeirri niðurstöðu, að orðið penningr tákni á flestum stöðum, þar sem það kemur firir í Grágás, ákveðinn þunga silfrs, $^1/_{10}$ eiris. Í Baugatali, sem virðist vera einhver allra elsti kaflinn í Grágás og eflaust til vor komið nær því óbreitt úr Úlfljótslögum, kemur orðið penningr ekki firir oftar enn þrisvar, og eru staðirnir greindir hjer áður. Annars reiknar Baugatal altaf með öðrum vogareiningum (mörk, eyrir, örtugr [$= ^1/_3$ eiris]). Þetta virðist benda til, að orðið hafi ekki verið haft í hinu elsta, upphaflega

Baugatali, heldur sje inn komið síðar, og stiður það þá skoðun mína, að Íslendingar hafi ekki farið að skifta eirinum í 10 penninga fir enn um 1000. Af þessu leiðir einnig, að sú lagagrein, er segir, að leisingi skuli gefa goða þeim, er leiðir hann í lög, penning, sem sje $^1/_{10}$ eiris, hlítur að vera ingri enn 1000.

Eitt er það, sem fremur öðru hefur komið Arnljóti Ólafssini til að halda því fram, að 40 penningar væru í eiri, og verður að athuga það. Hann hefur sannað, svo að ekki verður á móti haft, að niðgjöldin mátti að lögum greiða í lögaurum eða 6 álna aurum, þannig að hinn mesti baugur, höfuðbaugurinn eða þrímerkingurinn, var goldinn með 3 mörkum lögaura, tvítugaurinn með 20 sex álna aurum, tvímerkingurinn með 2 mörkum lögaura, o. s. frv.[1]) Af því áliktar hann, að eins hafi verið um penninginn; þar sem hann sje $^1/_{10}$ úr eiri, þá megi gjalda hann með $^1/_{10}$ úr lögeiri eða sex álna eiri. Þetta virðist vera alveg rökrjett. Og svo heldur hann áfram: Nú var dírleikshlutfallið milli lögsilfrs og lögaura sem 1 : 4, þ. e. 1 eirir lögsilfurs jafngilti 4 sex álna aurum, eða, sem er sama, $^1/_{10}$ lögeiris jafngildir $^1/_{40}$ eiris lögsilfurs; 1 penningur er goldinn með $^1/_{10}$ lögeiris; því er 1 penningur $= ^1/_{40}$ eiris lögsilfurs, eða 40 penningar í hverjum eiri lögsilfurs. Þessari síðustu röksemdaleiðslu get jeg með engu móti verið samdóma, og skal jeg nú gera grein firir, hvað því veldur.

Dírleikshlutfallið milli hins sakgilda lögsilfurs og vaðmála eða lögaura er í Baugatali, og hefur verið frá alda öðli í niðgjöldum, ekki 1 : 4, heldur 1 : 1, þ. e. a. s. það stendur á jöfnu (al pari).

Þetta er sagt berum orðum í niðurlagi Baugatals. Þar segir first, að »lögsilfur hið forna« sje »sakgilt í baugum ok svá í þökum ok þveitum«, og svo er bætt við: Enda er rétt at gjalda þat (ɔ: það sem maður á að gjalda í baugum, þökum og þveitum) i lögaurum öllum.[2])

---

[1]) Sjá um þetta ritgjörð Arnljóts í Tímar, XXV 14.—16. bls. Við röksemdir þær, sem þar eru taldar, má bæta því, að fjörbaugurinn, sem var baugur eigi síður enn niðgjaldabaugarnir, var goldinn með mörk lögaura (Grág. Kb. I 88., sbr. 118. bls.).

[2]) Grág. Kb. I 204. bls.

Þessi viðbót þíðir blátt áfram, að lögeirir skuli í niðgjöldum jafngilda eiri »lögsilfurs hins forna«, og að svo var, það hefur Arnljótur Ólafsson sannað af öðrum stöðum úr Grágás.

Menn hafa átt bágt með að skilja þennan einfalda sannleik, og þó er hann, að því er mjer virðist, deginum ljósari.

Flestir hafa verið á þeirri skoðun, að niðgjöldin hafi verið goldin eingöngu í silfri eða þá í jafngildi þess í lögaurum eftir silfurverði á hverjum tíma, sem var.

Þeir hafa það til síns máls, að niðgjöldin eru í Baugatali altaf miðuð við silfrið. Það sínir nafnið Baugatal; það sínir upphafið: Fjórir eru lögbaugar; það sína nöfn hinna einstöku bauga: þrímerkingr, tvítugauri, tvímerkingr, tólfeyringr, sem öll eru leidd af vogareiningum, og hlítur því frá upphafi að vera átt við silfuraura, enn ekki við 6 álna aura, því að 6 álna aurar vóru ekki vegnir. Sama sjest á nöfnunum höfuðbaugr, mesti baugr, minsti baugr, baugbætandi, baugþiggjandi, baugþak, þveiti; enn fremur á því, að niðgjöldin eru eftir bauga altaf talin í vogareiningum (eyrir, örtugr, penningr veginn).

Hins vegar hafa þessir hinir sömu menn lokað augunum firir niðurlagsgrein Baugatals eða misskilið hana. Þeir hafa ekki skilið, að lögeirir gæti jafngilt silfureiri öðruvísi enn eftir dírleikshlutfallinu milli þeirra. Enn það er þó einmitt þetta, að lögeirir sje jafndír eiri silfurs í niðgjöldum, sem felst í niðurlagsgreininni og A. Ó. hefur sannað með samanburði við aðra staði í Grágás.

Sama er að segja um fleiri gjöld enn niðgjöldin. Fjörbaugurinn var mörk; það er auðvitað mörk silfurs, eins og nafnið sínir; enn þá mörk mátti gjalda með mörk lögaura.[1]) Rjetturinn var 6 merkur. Helmingur þess gjalds er á einum stað í Grágás (Sthb. 350. bls., sbr. Kb. I 170. bls. Sthb. 336. bls.) kallaður tvítylftar baugr og á öðrum stað (Sthb. 369. bls.) er rjetturinn talinn jafn »tveimur baugum hinum mestu« eða 2 þrímerkingum. Nöfnin sína, að miðað er við *silfuraura*. En þó mátti gjalda rjettinn með 6 mörkum *lögaura*. Að því er snertir þessi gjöld, var þá dírleikshlutfallið sama og í Baugatali, eða 1 : 1.

---

[1]) Grág. Kb. I 88., sbr. 118., bls.

Hins vegar vitum vjer, að um árið 1000 og alt til c. 1080 var dirleikshlutfall brends eða skirs silfurs og vaðmála 1 : 8, þ. e. a. s. að 8 lögaurar eða 48 álnir vaðmála fengust firir 1 eiri af skiru silfri.[1]) Og áður tilfærð grein úr Konungsbók, sem vjer munum síðar minnast betur á, segir, að um árið 1000 hafi verið á gangi bleikt silfur, svo mikið blandað, að dírleikshlutfall þess og vaðmála var 1 : 4, þ. e. firir 1 eiri af því fengust 4 lögaurar eða 24 álnir vaðmáls. Það er þetta bleika silfur, sem á öðrum stöðum í Grágás er nefnt »lögsilfur hið forna«. Um árið 1000 er þá skirt silfur áttfalt dírara, og bleikt silfur eða »lögsilfur hið forna« ferfalt dirara, enn silfrið er i niðgjöldum eftir Baugatali og eftir ákvæðunum um fjörbaug og rjett á öðrum stöðum í Grágás. Hvernig stendur á þessu?

Það er fleira enn Baugatal og ákvæðin um fjörbaug og rjett, sem sínir, að þeir vóru tímarnir á Íslandi, er silfureirir og eirir vaðmála vóru jafndírir. Hvenær er það komið upp að kalla 6 álnir vaðmáls eyri eða lögeyri og 48 álnir vaðmála mörk? Þó ekki kringum árið 1000, þegar 1 eirir af skíru silfri jafngilti 8 lögaurum (= 48 álnum vaðmála, og 1 mörk skirs silfurs 8 mörkum = 384 álnum vaðmála, og 1 eirir af lögsilfri bleiku 4 lögaurum = 24 álnum vaðmála, og mörk lögsilfurs 4 mörkum = 192 álnum vaðmála. Ekki heldur á 12. öldinni, þegar dirleikshlutfall skirs silfurs og vaðmála var $1 : 7^1/_2$, eða síðar, þegar það var 1 : 6.[2]) Allir eru sammála um, að nöfn þessi eyrir og mörk sjeu komin úr silfurreikningnum inn i vaðmálareikninginn. Enn enginn hefur, svo jeg viti, gert sjer nje öðrum grein firir hvernig á því stendur. *Vogareiningar* vaðmála geta nöfnin ekki táknað, því að allir vita, að 6 álnir vaðmála *vega* meira enn eiri og 48 álnir meira enn mörk. Þau hljóta því að tákna *verð-*

---

[1]) Grág. Kb. I s. 241. bls., II 141. bls. Sthb. 88., 91. og 214. bls. Arnljótur Ólafsson í Tímariti Bmfjel. XXV 9. bls. Valtýr Guðmundsson í Germanistische abhandlungen zum 70. geburtstag K. Maurers 539. bls. og í Festskrift til L. F. A. Wimmer 62. bls. Dr. V. G. heldur því fram, að þetta dírleikshlutfall hafi staðið á 9. öld og alla 10. öldina, enn leiðir ekki að því hina minstu sönnun.

[2]) Sbr. Arnljótur Ólafsson í Tímar. Bmfjel. XXV 9.—11. bls. Valtýr Guðmundsson í German. abhdl. 539. bls.

*mætiseiningar* og væru með öllu óskiljanleg, ef ekki hefði verið til það tímabil í sögu landsins, er eirir silfurs jafngilti *að verðmæti* 6 álnum vaðmála, og mörk silfurs 48 álnum. »*Hundrað silfurs*«, sem jafngildir 20 aurum eða 60 örtugum[1]) silfurs hefur og ekki getað dregið nafn sitt af þessum vogareiningum (eyri eða örtug). Ekki gat þetta heiti heldur orðið til, þegar 20 aurar skírs silfurs jafngiltu 8 hundruðum (960) álna vaðmála eða 20 aurar »lögsilfurs« 4 hundruðum (480) álna vaðmála. Nei, þetta verðnafn hlítur að stafa frá þeim tíma, þegar 6 álnir vaðmála fengust firir 1 eiri silfurs og hundrað (120) álnir firir 20 aura silfurs.

Enn hvaða tímabil er þetta í sögu Íslands? Eflaust elsta tímabilið, landnámsöldin. Mart bendir til, að þá hafi verið mikið af silfri í umferð meðal landsmanna, enn hörgull á búfje.

Um það leiti, sem Ísland biggist, stendur víkingaöldin sem hæst. Öllum ber saman um, að þá hljóti ógrinni silfurs að hafa safnast saman á Norðurlöndum, sem víkingarnir hertóku í öðrum löndum og fluttu heim með sjer úr ránsferðum sínum.[2]) Silfur hlítur því að hafa verið þar í lágu verði um þessar mundir. Um marga af landnámsmönnunum er það og sagt, að þeir hafi komið hingað beinlínis eða óbeinlínis úr víkingu.[3])

---

[1]) Jeg get ekki verið samdóma dr. Valtý Guðmundssini um það, að „hundrað silfrs" sje sama sem *hundrað* (ɔ: 120) *aurar silfrs*, nje heldur um það, að hundrað, þegar það stendur óviðkent í fornritum og ekki er greint, hvort átt sje við álnir eða aura, tákni *hundrað* (120) *aura*. Enn hjer er ekki rúm til að fara út í það mál. Sbr. ritgg. drs. V. G., „Manngjöld-hundrað" í Germanistische Abhandlungen zum 70. geburtstag K. von Maurers, og „Sølvkursen ved år 1000" í Festskrift til L. F. A. Wimmer.

[2]) Dasent, The Story of Burnt-Nial II 407.—408. bls. Alexander Bugge, Vesterlandenes indflydelse på Nordboerne 264.—265. bls. (sbr. 300. bls.). P. Hauberg, Møntforhold og udmøntninger i Danmark indtil 1146 (D. V. S. Skrifter VI. R. Hist.-filos. V, 1) 12. —17. bls.

[3]) T. d. um Hjörleif Hróðmarsson, Geirmund heljarskinn, An rauðfeld, Ævar Ketilsson, Þránd mjöksiglanda, Grím, sem nam Grímsnes o. fl. Um Hjörleif er beint sagt, að hann hafi haft herfang sitt á skipi því, er flutti hann út (Landn. Stb. 7. k. Hb. 7. k., útg. 1843, 33. bls.).

Enn auk þessarar almennu ástæðu, sem leiðir af vikingaferðunum, er mart sjerstaklegt, sem sínir, að landnámsmennirnir hljóta að hafa haft með sjer hingað tiltölulega mjög mikið af silfri enn lítið af kvikfje. Þetta leiðir beint af eðli landnámsferðanna. Áður enn landnámsmennirnir lögðu af stað heiman að, urðu þeir að verja eigum sínum í þann gjaldeiri, sem þeir helst gátu flutt með sjer, alveg eins og Vesturfararnir nú, enn það var auðvitað silfur og gull. Kvikfje gátu þeir ekki flutt með sjer nema af mjög skornum skamti, oft að líkindum ekki nema tvent af hverri tegund til undaneldis. Að þetta sje rjett, má sína með ímsum dæmum úr Landnámu og öðrum sögum. Um Ingólf segir Landnáma, að hann »varði fé þeirra (fóstbræðra) til Íslandsferðar«, er þeir ætluðu út hingað alfarnir.[1]) Vébjörn Sygnatrausti »seldi eignir sínar ok réðsk til Íslands«.[2]) Þorbjörn súrr og sinir hans »selja lönd sin«, áður enn þeir fara.[3]) Að menn hafi vanalega flutt út fátt af hverri tegund kvikfjár, virðist mega ráða af sögninni um kviguna Brynju, sem Hvamm-Þórir hafði út enn hvarf honum og fanst síðar í Brynjudal með 40 nauta og vóru öll frá henni komin.[4]) Sama sínir sögnin um svín Helga magra, göltinn Sölva og giltuna.[5]) Egils saga segir beint, að Skalla-Grímr og menn hans »höfðu fátt kvikfjár í fyrstu«.[6]) Ekki hafði Uni hinn danski mart kvikfjár í firstu, því að hann varð að hverfa burt úr Austfjörðum, af því að þeir, sem þar bjuggu firir, vildu ekki selja honum kvikfje.[7]) Það ber og vott um kvikfjárskort, sem Landn. segir, að á landnámsöldinni hafi komið út skip hlaðið kvikfje i Kolbeinsárósi.[8]) Hins vegar sínir sagan um Ketilbjörn hinn gamla, að mjög mikið hefur verið af silfri í landinu. Hann bauð sonum sínum, segir Landnáma, að slá þvertrje úr silfri í hofið, sem þeir ljetu gera.[9])

[1]) Landn. Stb. 6. k. Hb. 6. k., útg. 1843, 32. bls.
[2]) Landn. Stb. 146. k. Hb. 117. k., útg. 1843, 148. bls.
[3]) Gísla s. útg. F. J. 3. k. 8. bls.
[4]) Ldn. Stb. 18. k. Hb. 18. k., útg. 1843, 46. bls.
[5]) Ldn. Stb. 218. k. Hb. 184. k., útg. 1843, 206. bls.
[6]) Egilss. útg. F. J. 29. k. 92.—93. bls.
[7]) Landn. Stb. 284. k. Hb. 245. k., útg. 1843, 246. bls.
[8]) Landn. Stb. 202. k. Hb. 169. k., útg. 1843, 194. bls.
[9]) Landn. Stb. 385. k. Hb. 338. k., útg. 1843, 313. bls.

Ef sagan er sönn, og hún er í sjálfu sjer als eigi ósennileg,[1]) bendir þetta einnig til, að silfurverð hafi verið tiltölulega mjög lágt; annars mundi karlinn varla hafa stungið uppá þessu. Það er og algilt hagfræðilegt lögmál, að sú nauðsinjavara, sem mikið er til af, lækkar í verði, enn hin hækkar, sem skortur er á, og segir það sig sjálft, að bæði hefur annarsvegar silfrið og hinsvegar kvikfjeð og kvikfjárafurðir, þar á meðal vaðmál, hlítt þessu lögmáli á landnámsöldinni. Það eru því engar öfgar, að 6 álnir vaðmála hafi þá jafngilt eiri silfurs, 48 álnir mörk silfurs og tólfrætt hundrað álna 20 aurum silfurs. Þá koma upp heitin eyrir (lögeyrir) vaðmála, mörk vaðmála og hundrað silfurs. Þá stendur silfurverð og vaðmálsverð á jöfnu, og frá þessum tíma hljóta hjer að lútandi ákvæði í hinum fornu lögum vorum að vera, þó að þau væri ekki bókfærð fir enn á 12. öldinni. Enn hin firstu alsherjarlög landsins, Úlfljótslög, eru einmitt samin og samþikt í lok landnámsaldarinnar. Hjer er því ekki um að villast. Ákvæðin um niðgjöldin, rjettinn og fjörbauginn hljóta að hafa staðið í Úlfljótslögum frá upphafi.

Meira að segja, getur varla nokkur efi á því leikið, að Baugatal í heild sinni sje, að nokkrum smágreinum undanskildum, til vor komið nokkurn veginn óbreitt alla leið ofan úr Úlfljótslögum. Það sínir hið rammforna mál, sem er á þessum lagaþætti, og umfram alt efni hans. Lögin um niðgjöldin eru mörgum hundruðum ára eldri enn Íslands bigging meðal germanskra þjóða. Tacitus segir, að niðgjöld hafi verið tíðkuð hjá Germönum á 1. öld eftir Krist (Germania 21. k.). Það er og í sjálfu sjer meira enn líklegt, að þetta efni væri eitt hið firsta, sem forfeður vorir vildu fá skipað hjá sjer með föstum lögum. Ættin var eftir þeirra lífsskoðun undirstaða mannfjelagsins og hvergi kemur hin ríka ætternistilfinn-

---

[1]) Líklegt þikir mjer þó, að orð Landn. „slá þvertré *úr* silfri“ sje íkt firir: slá þvertrjeð silfri (að utan). Ef vjer gerum firir þessu, þá er frásögnin mjög sennileg. Ketilbjörn sá það firir af speki sinni, að silfrið mundi hækka í verði þegar fram liði stundir og vildi geima það óeitt handa ætt sinni með því að leggja á það hofhelgi. Það var þá eins og sparisjóður firir ættina, sem hún gat tekið til í viðlögum í framtíðinni, líkt og Forngrikkir tóku til þess fjár, sem lagt var til hofa, ef þeir komust í kröggur.

ing þeirra ljósar fram enn í Baugatali, *lögunum um sambúð ættanna í landinu.* Baugatal reirir ættböndin út á við frá hverjum einstakling alt til fimmmenninga, svo að hver ættbálkur stendur saman sem einn veggur gagnvart öllum öðrum, enn þó með ákveðnum rjettindum og skildum hver í annars garð. Baugatal ákveður, að trigðir skuli altaf koma á móti sakbótum eða niðgjöldum.[1]) Það triggir mannhelgina með því að setja hana undir vernd ætthelginnar. Stjórnarvöld landsins, lögrjettan, lögsögumaðurinn og goðarnir höfðu lítið framkvæmdarvald i hinu íslenska þjóðfjelagi, enn það var til engu að síður — það var hjá ættinni. Var því engin furða þó að bálkur um niðgjöldin væri tekinn inn í hin firstu alsherjarlög landsins.

Vjer höfum áður sint, að þær greinir í Baugatali, sem tala um mótaða peninga, geti ekki verið eldri enn frá birjun 11. aldar og hafi því ekki staðið í hinu upphaflega Baugatali, því að annars ber allur þessi lagaþáttur þess vitni, að hann er til orðinn á þeim tíma, þegar alt silfur var vegið, enn ekki talið, og fátt var um annað silfur í umferð enn bauga eða baugabrot[2]) eða annað ómótað silfur, enn svo sem ekkert til af mótuðum peningum.

Nú hefur unglingspiltur norður í Bárðardal leitt í ljós fund, sem staðfestir þessa lísing Baugatals á gangsilfrinu í öllum verulegum atriðum. Í gömlum uppblásnum bæjarrústum ofarlega í dalnum, ekki langt frá Ódáðahrauni, hjá felli sem heitir Sandmúli, fann hann gamalt gangsilfur, að öllum líkindum frá landnámsöldinni, og er það nú komið til Forngripasafnsins. Þessi »Sandmúlafundur« er nokkurs konar lifandi skiring á hinu forna Baugatali. Þar eru baugar, sumir þeirra undnir eins og í skrúfu,[3]) silfurteinar, brot af gömlum silfurgripum, ofurlitlir og mjóir smábútar, sem líklega eru

---

[1]) Grág. Kb. I 203. bls.

[2]) Í Bandamannasögu 36. bls., útg. Cederschiölds bls. 15[17] eru baugabrot talin jafnhliða „harkagripum", og enn segjum vjer „að gjalda í skjaldaskriflum og baugabrotum".

[3]) Sbr. Háttatal Snorra 45. er.: Lætr undin brot brotna | bragningr fyrir sér hringa, og vísuna, sem er eignuð Agli Skallagrímssini þrjevetrum — þar eru slíkir hringar kallaðir „ljósundin linns lönd" (Egils s. 31. k., útg. Finns Jónssonar, Khöfn, 101. bls.).

það, sem Baugatal kallar þveiti (afhöggvin smástikki úr silfri), enn aftur á móti er þar enginn peningur mótaður.[1])

Eitt er það þó, sem fundinum og Baugatali, eins og það er nú, ber á milli. Af silfrinu, sem fanst, hafa 3 bútar verið rannsakaðir af Ásgeiri efnafræðing Torfasini og reindust mjög vel skírir, frá 842 upp í 910 $^0/_{00}$, og hitt silfrið, sem ekki er rannsakað, virðist vera álíka skírt.

Þessi skírleiki silfursins kemur ekki heim við lísinguna á hinu sakgilda lögsilfri í niðurlagsgrein Baugatals, sem áður var tilfærð (Grág. Kb. I 204. bls.). Eftir henni var hið sakgilda silfur talsvert blandað (sbr. »meiri litr silfrs en messingar«). Ef vjer megum treista því, að þessi eini fundur, Sandmúlafundurinn, gefi rjetta mind af því gangsilfri, sem tíðkaðist á landnámsöldinni, þá hlítur lísing niðurlagsgreinarinnar á lögsilfrinu að vera komin þar inn í Baugatal á síðari tímum, þegar hið bleika silfur var orðið algengt, og hefur ekki getað staðið í Úlfljótslögum. Til hins sama bendir það, að lísingin segir, að »10 penningar af lögsilfrinu skuli gera eiri«, og höfum vjer áður sínt, að sú málsgrein getur varla verið eldri enn c. 1000, Ef vjer fellum þessa lísing lögsilfursins burt úr niðurlagsgrein Baugatals, verða einmitt eftir þau orð, sem snerta dírleikshlutfall silfurs og vaðmála og eflaust hafa staðið í Úlfljótslögum. Með því að niðurlagsgreinin skiftir miklu í því máli, sem hjer er um að ræða, prenta jeg hana upp aftur orðrjett, enn set í klofa það, sem ekki hefur getað staðið í Úlfljótslögum:

Þat er silfr sakgilt í baugum ok svá í þökum ok þveitum, er eigi sé verra en [var?][2]) lögsilfr [et forna?],[2]) [þat er tíu penningar gera eyri ok meiri sé silfrs litr á en messingar ok þoli skor ok sé jafnt utan sem innan]. Enda er rétt at gjalda þat í lögaurum öllum.

Þannig orðuð — með úrfellingunum — ríður greinin

---

[1]) Líkir fundir hafa fundist annarsstaðar á Norðurlöndum. Sjá N. M. III. bls. og Al. Bugge, Vesterlandenes indflydelse, 264. bls Samskonar silfur á Rígsþula við í 38. er.: Hringum hreytti, hjó sundr baug.

[2]) Spurnarmerkið við það, sem í klofunum er, táknar, að vafasamt sje, hvort þetta eigi úr að falla. Skírt silfur gat vel haft nafnið „lögsilfur hið forna“ á landnámsöldinni.

ekki í bága við Sandmúlafundinn og stafar eflaust frá uppsögu Úlfljóts. Táknar þá lögsilfr hið *skíra* gangsilfur landnámsaldarinnar, sem eftir greininni jafngildir vaðmálum þannig, að eirir silfurs og lögeirir (eða 6 álnir vaðmála) eru jafndírir, svo að gjaldanda er í sjálfs vald sett, í hvorum þessara aura hann geldur.

Þegar landnámin vóru á enda og kvikfjenu fjölgaði í landinu, gat ekki hjá því farið, að silfrið hækkaði í verði og allar kvikfjárafurðir, þar á meðal vaðmál, lækkaði.

Meðan innflitjendastraumurinn hjelt áfram, meðan það silfur, sem innflitjendur höfðu með sjer, og þörf þeirra á kvikfje og kvikfjárafurðum vó upp á móti því silfri, sem fór út úr landinu firir nauðsinjar, og móti fjölgun kvikfjárins í landinu firir innlenda framleiðslu og aðflutning frá útlöndum, á meðan stóð dírleikshlutfall landnámsaldarinnar milli silfurverðs og vaðmálsverðs (1 : 1) óraskað, enn ekki heldur lengur. Þegar tók firir þá silfurlind, sem filgdi innflutningunum, þá hlaut að því að reka, að meira flittist út enn inn af silfrinu, og að silfurforðinn í landinu minkaði. Jafnframt má sína líkur til, að silfrið hafi seint á landnámsöldinni staðið í um það bil helmingi hærra verði í Noregi enn hjer á landi. Við þetta hlaut silfrið enn frekar að sópast burt úr landinu, sjerstaklega skíra silfrið, sem var útgengilegast erlendis, enn eftir varð í landinu lakasta silfrið, og jafnframt tóku menn að drígja það með því að blanda það, þegar hörgull fór að verða á því. Þannig varð algengt hið bleika silfur, sem »gekk í allar stórskuldir« um það leiti sem kristni var lögtekin, árið 1000.[1]) Menn neiddust til að taka það bæði í niðgjöld og önnur gjöld, ef menn vildu ekki sæta verri kostum, sem síðar mun sínt, og því fær þetta bleika silfur nafnið »lögsilfur hið forna«, þegar fram líða stundir, og það nafn á því er orðið algengt snemma á 12. öldinni, þegar Baugatal og önnur lög eru skrásett. Hinsvegar hlaut framleiðsla kvikfjárafurða að vaxa stórum, þegar landið var orðið albigt og menn höfðu komið undir sig stórum búum. Hvorttveggja þetta, sem nú var greint, hinn þverrandi silfurforði og vöxtur kvikfjárafurðanna, hlaut að hafa þær afleiðingar, að silfurverðið hækkaði móts við lögaurana, enda sjáum vjer, að um árið 1000 er

---

[1]) Grág. Kb. II 192. bls.

dírleikshlutfallið milli skírs silfurs og vaðmála orðið 1 : 8, og milli hins bleika »lögsilfurs« og vaðmála 1 : 4, sem síðar mun sínt.

Enn hvernig stóð þá á því, að niðgjöldin, fjörbaugurinn og rjetturinn löguðu sig ekki eftir þessari verðbreitingu?

Það getur ekki komið af neinu öðru enn því, að það vóru forn lög í landi, að í þessum gjöldum skildi dírleikshlutfallið vera 1 : 1, og þeim lögum hafði aldrei verið breitt. Gjaldendur töldu sjer því heimilt að fara eftir þessu dírleikshlutfalli, og það því fremur, sem verðlækkun lögauranna móts við silfrið hefur að öllum líkindum first í stað ekki verið mjög stórstíg, heldur gengið jafnt og þjett smáum fetum niður á við. Auðvitað guldu menn þá sem nú í þeim lögmætum gjaldeiri, sem gjaldanda var hagfeldastur, og hefur þannig einmitt sjálft verðfall lögauranna skapað þá venju að gjalda nefnd gjöld í lögaurum.[1])

Í sambandi við þetta verður skiljanlegt, hvernig á því stóð, að menn fóru að gera sig ánægða með hið bleika »lögsilfur« og taka það í niðgjöld, fjörbaug og rjett, í stað hins skíra silfurs, sem eitt virðist hafa verið »sakgilt« eða gjaldgengt í þessi gjöld eftir Úlfljótslögum. Ef menn vildu ekki taka hið bleika silfur, þá gat gjaldandi goldið í lögaurum, enn hver eirir af bleiku silfri var þó um árið 1000 fjórum sinnum verðmætari enn lögeirir. Því máttu viðtakendur þakka firir, ef goldið var í bleiku silfri, og því var eðlilegt, að það irði löghelgað sem sakgilt silfur, og fengi, þegar fram liðu stundir nafnið »lögsilfur hið forna«.

Jeg hverf þá loksins aftur að aðalefninu, röksemdaleiðslu Arnljóts Ólafssonar firir því, að 40 penningar hafi verið í eiri lögsilfurs. Það er rjett hjá honum, að 1 penningur, sem er eftir Baugatali $^1/_{10}$ eiris, jafngildir í *niðgjöldum* $^1/_{10}$ lögeiris. Það er bein afleiðing af því, að dírleikshlutfall silfurs og vaðmála var í niðgjöldum 1 : 1. Það er og rjett, að um 1000 jafngilti $^1/_{10}$ lögeiris í *viðskiftum manna* $^1/_{40}$ eiris af hinu

---

[1]) Þetta er ekki eins dæmi. Holmboe segir í N. M. VIII. bls.: Mörg dæmi eru til, að menn hafa verið *mjög fastheldnir við gamalt lag, þegar um bætur er að ræða, og ekki tekið tillit til þeirra verðbreitinga, sem urðu með breittum tímum*, og færir hann dæmi þessu máli til sönnunar.

bleika »lögsilfri«. Enn þegar hann dregur af þessu tvennu þá áliktun, að 1 penningur hafi verið = $^1/_{40}$ eiris »lögsilfurs«, þá gætir hann þess ekki, að dírleikshlutfallið 1 : 1 *stóð óbreitt í niðgjöldum allan þjóðveldistímann*, og því verður áliktunin röng. Tíundi partur lögeiris jafngildir í niðgjöldum 1 penning af þeirri einföldu ástæðu, að einn penningur var $^1/_{10}$ *eiris silfurs* og *dírleikshlutfallið stóð á jöfnu.*

Jeg þikist þá hafa sannað, að það er heimildarlaust að telja 40 penninga í eiri, og að vjer verðum að trúa Grágás til þess, að Íslendingar hafi, að minsta kosti um og eftir árið 1000, talið 10 penninga vegna í eiri »lögsilfurs«.

Snorri segir, að »skattpenningur« sá, sem hver bóndi gaf Eyvindi hafi staðið »3 penninga vegna ok hvítr í skor«. Þessi orð eru bergmál af áðurgreindum stöðum í Baugatali, og er því ljóst, að Snorri á við samskonar penning og Baugatal, $^1/_{10}$ eiris. Ef það er rjett, sem jeg hef áður leitt rök að, að orðið penningr hafi ekki farið að tíðkast sem nafn á vogareiningu fir enn um 1000, þá er *orðfærið* hjá Snorra hjer mengað síðari tíma hugmindum, enn *efnið* getur verið jafnrjett firir því. Þrír penningar vegnir eru mjög nálægt því að vera einn örtugr, eða $^1/_3$ eiris, og getur verið, að rjettara hefði verið af Snorra að setja þá vogareining í staðinn. Í reikningnum hjer á eftir mun jeg þó fara beint eftir því, sem Snorri segir.

Annars er líklegt, að gjafir bænda hafi ekki komið inn í mótuðum penningum, og því síður, að frá hverjum hafi komið einn »skattpenningur« svo þungur, sem Snorri segir. Þetta orð táknar hjer ekki annað enn tiltekna upphæð í silfri með ákveðnum þunga. Líklega hefur mest safnast í baugum og öðru ómótuðu silfri.

2. Hve mikið rírnaði silfrið, sem bændur gáfu Eyvindi?

Það hefur eflaust verið goldið í bleiku silfri. Orð Snorra eru, sem áður er sagt, bergmál af Baugatali, og þar er átt við »lögsilfur«. Hann segir, að penningarnir skildu vera »hvítir í skor«. Í Baugatali stendur um »lögsilfrið«, að það skuli »þola skor«, og er það auðvitað eitt og hið sama. Baugatal skírir þetta nánar með því að bæta við, að á silfrinu skuli vera meiri silfurs litur enn messingar og að það skuli vera jafnt utan sem innan.

Til að vita, hve mikið silfrið rírnaði við skíringuna, þurfum vjer að vita dírleikshlutfallið milli skírs eða brends silfurs og lögsilfurs.

Vjer höfum áður drepið á þá grein Konungsbókar, er lísir hinu bleika silfri, sem var gjaldgengt um það leiti, sem kristni var lögtekin (Kb. II 192. bls. 245. kap.), og tilfært greinina orðrjett. Þar var sínt, að þau orð í greininni, sem skíra frá, hve margir penningar hefði verið slegnir úr eiri og að alt hafi verið eitt, talið og vegið, væri menguð af hugmindum síðari tíma og hlíti að vera innskotsgrein eða rangminni, enn að hitt gæti verið fornt og trúanlegt firir því. Að svo sje, stirkist af því, að lísing greinarinnar á hinu bleika silfri kemur að efninu til alveg heim við lísing Baugatals, eins og það er til vor komið í Konungsbók, á »lögsilfrinu forna«, sem áður var getið. Silfrið skildi vera bleikt (sbr. meiri litr silfrs en messingar i Baugatali), það skildi »halda skor« (= þola skor Baugatal) og vera »meiri hluti silfrs« (sbr. í Baugatali »meiri litr silfrs en messingar« og »jafnt utan sem innan«). Það er því enginn efi á, að þessi grein lísir samskonar silfri og Baugatal Konungsbókar, »lögsilfrinu forna«, og lísir því rjett.

Um þetta silfur segir svo niðurlag greinarinnar, að hundrað silfurs af því hafi jafngilt »4 hundruðum og tveim tugum[1])

---

[1]) Þessar 20 álnir umfram 4 hundruð rjett samsvara uppbót þeirri, sem altaf var gefin, þegar vaðmál vóru mæld. Þegar stikulögin vóru lögleidd (um 1200), var ákveðið, að „leggja skildi þumalfingur firir hverja stiku“ (Grág. Sthb. 288. bls. Grág. Kh. 1883, 427. bls.), þ. e. gefa þumlungs uppbót á stikunni, og hjelst sá siður fram undir siðbót að minsta kosti (Morðbrjefabæklingur Guðbrands biskups 22. og 23. bls.). Áður mun uppbótin hafa verið einn þumlungur firir hverja *alin*. Það sjest á því, að ekki varðaði þó að maður hefði rangan álnarkvarða, nema það munaði alin á hverjum 20 álnum (Grág. Kb. II 169. bls., sbr. 249. bls. í Belgsdalsbók, Sthb. 262. bls.). Með því að 24 þumlungar virðast hafa verið í alin þá sem nú, kemur það alveg heim, að uppbótin á 4 hundruðum (480) álna verður 20 álnir, ef hún er 1 þumlungur firir hverja $\left(\frac{480}{24} = 20\right)$. Dr. Valtýr Guðmundsson hefur að minni higgju misskilið þennan stað frá rótum í ritg. sinni um silfurverð í Festskrift til L. F. A. Wimmer á 56.—59. bls., enn fær þó út rjett dírleikshlutfall milli silfurs og vaðmála (1:4), og stendur það hjer á mestu.

álna vaðmála og verði þá að hálfri mörk vaðmála eirir«. Með öðrum orðum, dírleikshlutfall lögsilfurs og vaðmála um árið 1000 er 1 : 4.

Um sama leiti var dírleikshlutfall skírs eða brends silfurs og vaðmála 1 : 8, sem áður var sínt.

Af þessu leiðir, að dírleikshlutfall brends silfurs og »lögsilfurs« var 1 : 2 um árið 1000. Skírt silfur var helmingi dírara enn »lögsilfur«.

Dr. Valtýr Guðmundsson hefur í ritgjörð sinni um silfurverð í Festskrift til L. F. A. Wimmer viljað rengja vitnisburð Konungsbókar um það, að dírleikshlutfall bleiks silfurs og vaðmála hafi verið 1 : 4 um 1000, og gera alla greinina, þar sem þetta stendur, að markleisu. Enn allar mótbárur hans beinast í rauninni að þeirri staðhæfingu greinarinnar, að 60 penningar hafi verið slegnir úr eiri silfurs. Hann segir, að um 1000 hafi ekki komið 60 penningar á eiri (það er rjett), heldur 30 penningar (það er rangt hjá honum, sjá hjer að framan). Enn fremur, að ekki hafi þá verið alt eitt vegið og talið, því að þá hafi penningar eingöngu verið vegnir, enn ekki taldir, sem er rjett. Þá segir hann, að penningar hafi ekki verið slegnir úr bleiku silfri um þessar mundir, og það er rjett, að þeir penningar, sem *hingað til hafa fundist* frá firsta þriðjungi 11. aldar eru úr nokkurn veginn skíru silfri, fjórtánlæðu, alt að fimtánlæðu;[1]) enn þeir eru tiltölulega fáir, og er því hæpið að fullirða, að ekki hafi líka verið slegið úr bleiku silfri. Þess ber og að geta, að frá 11. öldinni eru til penningar úr hjer um bil áttlæðu silfri, sem menn hafa eignað Haraldi harðráða, einkum af því, að sögur vorar eigna Haraldi, og eflaust með rjettu, að hann hafi slegið vonda penninga, sem kallaðir vóru Haraldsslátta. Enn letrið á flestum þessum penningum er ólæsilegt, og er því ekki alveg loku skotið firir það, að sumir þeirra geti verið eldri. Enn sleppum þessu og gerum, að það sje rjett, að ekki hafi verið slegið úr bleiku

[1]) Fjórtánlætt (d. fjortenlødigt) kalla jeg það silfur, sem er svo blandað, að í hverri 16 lóða mörk af því eru 14 lóð af alskíru silfri. Alskírt silfur er 16-lætt; áttlætt silfur blandað til helminga o. s. frv. Á þeim tímum, sem hjer er um að ræða virðast menn hafa talið það silfur alskírt eða brent, sem var 14—15-lætt (sbr. N. M. XI. bls., 4. neðanmálsgrein).

silfri framan af 11. öldinni. Þessi mótbára drs. Valtýs hittir þó að eins áðurnefnda staðhæfing um penningasláttuna, sem vjer höfum sínt að mundi vera innskotsgrein eða sprottin af misminni, enn snertir als ekki annað efni greinarinnar, hvorki lísinguna á lögsilfrinu að öðru leiti, nje heldur niðurlagsatriðið um dírleikshlutfall »lögsilfurs« og vaðmála. Vjer höfum sínt, að lísingin á »lögsilfrinu« muni vera rjett, af því að hún kemur í öllu verulegu heim við Baugatal. Á móti dírleikshlutfallinu 1 : 4 hefur dr. V. G. ekki annað fram að færa enn það, að menn hafi um 1000 ekki slegið penninga úr öðru silfri enn skíru, en dírleikshlutfall þess hafi verið 1 : 8, og að 30 penningar, enn ekki 60 hafi verið slegnir úr eiri. Hvorttveggja þetta snertir að eins sláttuna, enn ekki efnið að öðru leiti. Það er eins og dr. V. G. gleimi, að nokkurt annað silfur hafi verið til enn mótaðir penningar. Baugatal og Sandmúlafundurinn sínir þó og sannar, að gangsilfrið forna var einkum og sjer í lagi fólgið í baugum og baugabrotum og öðru ómótuðu silfri, og allar líkur mæla með því að slíkt silfur hafi gengið mestmegnis á Íslandi alla 10. öldina og fram á 11. öld, þangað til farið var að móta penninga að nokkru ráði í Noregi og annars staðar á Norðurlöndum. Slíkt silfur gat verið svo blandað, sem vera vildi, alveg án tillits til þess, hvort blandað silfur var haft til sláttu eða ekki. Á landnámsöldinni virðist það hafa verið tiltölulega skírt (sbr. Sandmúlafundinn). Enn síðar, þegar silfrið í landinu þverraði og hækkaði í verði, hafa menn farið að blanda það, og hefur það þá að líkindum verið nokkuð misjafnt, sumt betra, sumt verra. Enn lísingin í Baugatali, »meiri silfurs litur á enn messingar«, bendir til, að það hafi að jafnaði verið mjög blandað, og líklega ekki meira enn átllætt. Enn hafi svo verið, þá var eðlilegt, að það væri svo sem helmingi ódírara enn brent silfur.

Það vill nú og svo vel til, að Konungsbók er ekki ein um söguna, að því er snertir dírleikshlutfall lögsilfurs og vaðmála um 1000. Hjer má leiða sem vitni Ísleif biskup, sem var fæddur 1006, og enn fremur Gizur biskup og Teit, sini hans, Markús lögsögumann Skeggjason og fleiri merka menn, er uppi vóru í lok 11. aldar. Í sáttmálanum milli Ólafs helga og Íslendinga »Um rjett Noregs konungs á Ís-

landi og Íslendinga í Noregi«, sem er vottaður með eiði af öllum þessum mönnum,[1]) stendur svo:

Karlmenn frjálsir, þeir er fullan rétt eigu, skulu gjalda landaura 6 feldi ok 6 álnir vaðmála eða hálfa mörk silfurs.[2])

Hjer er Íslendingum í sjálfs vald sett, hvort þeir vilja gjalda í lögaurum eða silfri:

Ef þeir kjósa hið firra, gjalda þeir

| | | |
|---|---|---|
| 1. | 6 feldi. Þar er auðvitað átt við almenna vararfeldi, eins og þeir gengu í versluninni, og er hver þeirra eftir Grág. Kb. II 192. bls. jafngildi 2 lögaura. Verða þá 6 feldir sama sem.................... | 12 lögaurar. |
| 2. | 6 álnir vaðmála =.................. | 1 lögeirir. |
| | Samtals..... | 13 lögaurar. |

Ef þeir taka síðara kostinn gjalda þeir:

$^1/_2$ mörk silfurs = 4 silfuraura.

Hjer jafngilda 4 aurar silfurs 13 sex álna aurum og verður þá dírleikshlutfallið milli silfurs og vaðmála 4 : 13 eða 1 : $3^1/_4$.

Auðvitað er hjer átt við »lögsilfrið forna«, sem gekk á Íslandi, því að landaurana skildi gjalda, jafnskjótt sem menn komu í akkeris sát eða landfestar í Noregi, og sínir þessi staður, að það silfur hefur ekki haft gott orð á sjer í Noregi um 1022, því að til þess árs heimfærir Jón Sigurðsson sáttmálann.[3]) Silfrið er hjer metið tæpum fjórðungi *lægra* móts við lögaura enn eftir Konungsbók, og er af þessu ljóst, að Konungsbók fer með engar öfgar, þar sem hún segir, að dírleikshlutfallið hafi verið 1 : 4. Það hlutfall þikir mjer sennilegt, því að verið getur, að Ólafur konungur hafi metið vaðmálið og vararfeldina svona dírt móts við silfrið, af því að hann hafi heldur viljað taka þá vöru enn vont silfur í

---

[1]) Sbr. rit mitt „Runerne i den oldislandske litteratur" 128.—140. bls.

[2]) Grág. Kb. II 195. bls. Kh. 1883, 464. bls. Sbr. Dipl. Isl. I 65. —66. og 69. bls.

[3]) Dipl. Isl. I 53. bls.

gjaldið, því að hún var mjög útgengileg í Noregi og kom konungi vel til að klæða menn sína.

Niðurstaðan verður þá sú, sem áður var sagt, að skírt silfur hafi verið helmingi dírara enn lögsilfur um árið 1000. Þessi dírleiksmunur getur ekki stafað af öðru enn því, að lögsilfrið, sem þá gekk, hefur að jafnaði verið blandað hjer um bil til helminga, eða verið hjer um bil áttlætt. Orð Konungsbókar, að lögsilfrið skildi vera »meiri hlutur silfurs« má ekki taka of bókstaflega. Þess ber og að gæta, að 14—15-lætt silfur var um þessar mundir talið skírt silfur,[1]) og móts við það er áttlætt silfur meira en hálfskírt.

Enn er þá víst, að blöndunarhlutfallið hafi verið hið sama milli 960 og 970, um það leiti sem Íslendingar skutu saman í feldardálkinn handa Eyvindi?

Um það getum vjer nú ekki sagt neitt með fullri vissu. Alt er undir því komið, hve fljótt hið bleika, blandaða gangsilfur ruddi sjer til rúms, enn það stendur aftur í sambandi við verðhækkun silfursins móts við lögaura og þverrandi silfurforða í landinu. Vjer vitum það eitt, að á landnámsöldinni var silfrið tiltölulega vel skírt, enn um 1000 c. 8-lætt. Ef vjer tökum meðaltal af skírleik þeirra búta, sem rannsakaðir hafa verið af Sandmúlafundinum, verður það 883 $^0/_{00}$, sem svarar því, að silfrið sje vel 14-lætt. Nú getur vel verið, að hnignun gangsilfursins úr c. 14-læðu ofan í 8-lætt hafi gengið svo fljótt, að hún hafi ekki tekið meira enn þann mansaldur, sem leið frá lokum landnámsaldarinnar (930) til þess tíma, sem hjer er um að ræða (c. 965). Eftir þessu *lágmarki silfurhnignunarinnar* verður að reikna, og fæst þannig *hámark mannfjöldans*. Enn þar sem þessi síðast nefndi tími liggur hjer um bil mitt á milli c. 930, þegar silfrið virðist hafa verið um 14-lætt, og ársins 1000, þegar það var c. 8-lætt, þá virðist varlegra að gera líka ráð firir því, að hnignunin hafi um 965 ekki verið komin lengra enn svo sem miðja vega milli 14-læðs og 8-læðs, eða að gangsilfrið þá hafi verið um 11-lætt, og lætur þá mjög nærri, að silfrið hafi um þær mundir (965) verið blandað til þriðjunga (þ. e. $^2/_3$ silfur, $^1/_3$ messing).

3. Tóku allir bændur þátt í samskotunum?

Að vísu segir Snorri: »hver bóndi gaf honum skattpenn-

---

[1]) Sjá neðanmálsgr. á 378. bls. hjer að framan.

ing«, og ættu eftir því allir bændur að hafa gefið, jafnt fátækir sem ríkir, ef málsvenjan til forna hefur verið hin sama og nú. Enn eftir hugsunarhætti fornmanna virðist varla líklegt, að gengið hafi verið firir hvers mans hnje. Vilhjálmur Finsen og Konrad Maurer hafa og sint, að sá bóndi var varla talinn maður með mönnum, sem ekki galt þingfarkaup.[1]) Til samanburðar má geta þess, að Ari fróði segir svo frá þingfararkaupsbænda tali Gizurar biskups: »En hann hafði áðr látit telja **búendr** á landi hér«. Þá segir hann, hve margir vóru í hverjum fjórðungi. Og loks, þegar það er búið, bætir hann við: »En ótaldir vóru þeir, er eigi áttu þingfararkaupi at gegna of allt land«.[2]) Það er eins og hann alt í einu ranki við sjer, að orðin á undan kinni að verða misskilin. Landnáma minnist og á tveim stöðum á þetta manntal, og kallar á báðum stöðum þá, sem taldir vóru »bændur«, getur þess ekki, að neinir væri ótaldir.[3]) Jeg er því sannfærður um, að ekki hafa aðrir verið látnir taka þátt í samskotunum enn þingfararkaupsbændur, ef slíkir hafa þá verið til, eða bændur, sem stóðu þeim jafnfætis að efnum og þegnlegum rjettindum og skildum (þingheijendur í víðtækari merkingu). Líklega munu jafnvel einhverjir af þessum hafa skorast undan að leggja nokkuð fram, eins og gerist, þegar um samskot er að ræða, og er það trigging firir því, að þær tvær áætlanir um mannfjöldann, sem gerðar eru hjer á eftir, sjeu, hver frá sinu sjónarmiði, ekki of *háar*. Gildi þessara áætlana er auðvitað fremur öllu öðru undir því komið, hvort grundvöllurinn, sem þær standa á, frásögn Snorra, er áreiðanlegur.

## I. áætlun.

(Skírleikur silfursins: $^2/_3$ silfur, $^1/_3$ messing).

1. Feldardálkurinn vó smíðaður 50 merkur í skíru silfri.
2. Móts við það eru smíðalaunin 25 merkur skírt silfur.
3. Áður enn smíðalaunin vóru dregin frá vó hið skírða silfur 75 merkur.

---

[1]) Sbr. hjer að framan á 348. bls.

[2]) Íslendingabók 10. k. Sbr. Kristni saga 13. k. Sturl. Oxf. I 205. bls.

[3]) Landn. Stb. 170. og 262. k. Útg. 1843, 167. og 236. bls. Melabók hefur þó á síðari staðnum: „þá er talit var **bændaval**."

4. Áður enn silfrið var skírt, hefur það eftir skírleikshlutfallinu vegið $112^1/_2$ mörk.

5. Nú gaf hver gefandi 3 penninga eða $^3/_{10}$ eiris $= ^3/_{80}$ úr mörk.

6. Tala gefendanna verður þá:

$$112^1/_2 : ^3/_{80} = 3000.$$

7. Ef vjer nú gerum, að tala gefendanna (þingheijenda) hafi staðið í sama hlutfalli við fólksfjöldann, eins og vjer gerðum, að tala þingfararkaupsbænda hefði staðið við fólksfjöldann um 1095, eða að 17. hver maður hafi verið þingheijandi, þá verður fólkstalið um 965: 17 . 3000 =

**51000**.

II. áætlun.

(Skírleikur silfursins: $^1/_2$ silfur, $^1/_2$ messing).

1.—3. töluliður sem í I. áætlun.

4. Áður enn silfrið var skírt, hefur það eftir skírleikshlutfallinu vegið 150 merkur.

5. töluliður sem í I. áætlun.

6. Tala gefendanna verður þá:

$$150 : ^3/_{80} = 4000.$$

7. Ef vjer gerum sem áður, að 17. hver maður hafi verið þingheijandi, þá verður fólkstalið um 965: 17 . 4000 =

**68000**.

Þetta er hámark fólkstölunnar.

---

Að lokum skulum vjer bera þessar áætlanir saman við fólkstölur þær sem áður eru fundnar:

firir árið 1095...... 77520
— 1311...... 72428.

Ef vjer förum eftir I. áætlun (fólkstal 51000) þá hefur fjölgað um 26520 á árunum 965 til 1095, eða um rúman helming fólkstölunnar 965. Að vísu skiftist þessi fólksfjölgun niður á langan tíma, c. 130 ár, og nemur ekki meiru enn rúmlega 3 mönnum á ári af hverri þúsund manna, eða ná-

kvæmar, 32 af hverjum 10 þúsundum, ef gert er ráð firir, að fólkinu hafi altaf fjölgað jafnt, og er svo smástíg fjölgun minni enn svo, að nokkur samtíða maður taki eftir henni, nema fólkið sje beinlínis talið á hverju ári. Enn fjölgunin hefur auðvitað ekki altaf gengið áfram jöfnum fetum. Hún hefur tekið stóra afturkippi í hallærum, t. d. í hinu mikla hallæri 976, sem var kallað »óöld í heiðni«, og eins í hallærinu 1056, sem var nefnt »óöld í kristni«. Enn þess á milli hefur fjölgað þeim mun meira. Og þó að samtíða menn líklega hafi als ekki tekið eftir hinni *árlegu* fjölgun, þá »safnast þó, þegar saman kemur«, og ólíklegt þikir mjer, að það hefði farið alveg á bak við Ara fróða, ef fólkinu hefði fjölgað um rúm 50 % frá 965 fram á hans daga, enn hans vitnisburður í þessu máli, sem áður er getið, þikir mjer merkastur, því að bæði var hann sjálfur manna spakastur, og fróðastur um bigð landsins að fornu og níju, og hafði marga spaka og skilríka heimildarmenn, sem langt mundu fram. Mjer virðist því fólkstalan 51000 um 965 ekki koma sem best heim við þann vitnisburð Ara, að fólkinu hafi ekki fjölgað að mun frá 930 fram á hans daga. Talan virðist vera helst til lág.

Aftur er II. áætlun ef til vill heldur há. Líklegast þikir mjer, að fólkstalið hafi um 965 verið einhvers staðar kringum:

**60000.**

Ef vjer hins vegar berum saman hinar fundnu fólkstölur firir árin 1095 og 1311, þá sjáum vjer, að fólkinu hefur á þessum tíma *fækkað* um rúm 5000. Þetta er ofur eðlilegt, þegar vjer tökum tillit til hinna miklu stirjalda, sem gengið höfðu ifir landið á 13. öldinni, og sjerstaklega til þess, að næstu árin á undan 1311 vóru sóttar ár og manndauða.

## SKÝRSLUR UM MÝVATNSELDA.

### 1724—1729.

Á árunum 1724 til 1729 voru stöðug eldgos við Mývatn. Þau byrjuðu aðfaranóttina hins 17. maí 1724 með jarðskjálftum og öskumekki miklum, sem kom upp vestan undir Kröflu. Þá myndaðist eldgígur sá, sem nú er kallaður Víti. Síðan var við og við að gjósa á ýmsum stöðum fyrir norðan og austan Mývatn, en mest þó úr hinni miklu gígaröð, sem myndaðist vestan við Leirhnúk. Um gos þessi eru til skýrslur eftir síra *Jón Sæmundsson* í Reykjahlíð[1]) og svo nokkur þingsvitni og bréf frá *Benedikt* lögmanni *Þorsteinssyni* (1688—1733) o. fl. Aðalheimildarritin eru skýrslur síra Jóns Sæmundssonar. Fyrstu skýrsluna ritaði hann fyrir tilmæli Fuhrmann's amtmanns, var hún þýdd á dönsku og prentuð í Kaupmannahöfn: »Om det udi Island brændende Fjeld Krafla«. Kbhavn 1730 4 ° (2 blöð). Eftir sömu heimild mun Benedikt lögmaður hafa gefið út ritling sinn: Bengt Thorstensen Laugmand i Island: Efterretning om den Jordbrand som Aar 1724 og følgende Aar har grasseret i Bjerget Krofla(!) og deromkring. Kbh. 1726 4 °. Við fyrstu skýrsluna bætti síra Jón þrem við-

---

[1]) Síra Jón Sæmundsson var prestur til Mývatnsþinga 1716—1733; hann var sonur Sæm. bónda Þorsteinssonar og Unnu Guðmundsdóttur að Þverá í Fljótum, talinn fæddur 1682. Sbr. Á. M. 1055 4 ° bls. 222—23. Um Benedikt lögmann og sýslumann Þorsteinsson sjá Safn II, bls. 149—150. Sýslumanna æfir I, bls. 117—122; hann bjó á Rauðuskriðu í Reykjadal.

aukum (Appendices I—III) og hafa þeir ekki fyr verið prentaðir. Af þeim eru handrit í hdrs. J. S. 422 4° og í Gammel kgl. Samling á Konungsbókhlöðu 2860 4° (K) og eru skýrslurnar hér prentaðar eftir þeim handritum. Benedikt Þorsteinsson sýslumaður hélt 11. september 1730 héraðsþing á Haganesi við Mývatn til þess sem valdsmaður að leita frétta hjá héraðsmönnum um skaða þann sem orðið hafði af jarðeldunum; þingið hefir verið haldið fyrir tilmæli H. Schovgaards kaupmanns á Húsavík sem bréf hans sýnir. Þingskýrslan er geymd í Ríkisskjalasafni (Miscellanea Island vedkommende 1680—1770). Þar er líka bréf Benedikts lögmanns til Commerceraad Schovgaard, dags. Rödeskride 13. sept. 1730, um hið sama efni, en í því er ekkert nýtt og því slept hér. Í sama safni er stutt grein um Jökulsárhlaup frá sama tíma og hefi eg hér látið hana fylgjast með hinu.[1])

Það er alment álitið, að gosin við Mývatn hafi hætt um haustið 1729, en í sýslulýsingu Þingeyjarsýslu í Ríkisskjalasafninu eftir Jón Benediktsson (dags. 18. júní 1747), er þess getið, að eldur hafi enn verið uppi í Leirhnúksgígum 1746. Þar segir svo (á dönsku): »Og nú að nýju 10. júlí 1746 kom upp í fyrnefndum Leirhnúk ógurlegur jarðeldur með miklum landskjálftum, braki og brestum, hann uppkastaði og útspjó glóandi eldsteinum, sandi og ösku alt í kring og gerði með því mikinn skaða á grasi í nánd og á silungsveiði í Mývatni, sem að miklu leyti er horfin, og vatnið uppþornað um $^1/_2$ alin. En nú hefur eldurinn sefast aftur, nema reykur og gufa, sem rísa upp frá eldholunum«. Reykjahlíðarkirkja stóð til 1729 mitt í hraunflóðinu, en var að sögn Jóns Benediktssonar þá um haustið rifin niður »for Bekymring af Jordilden«, en bygð aftur á sama stað 1736.

Í bréfum nokkrum til *Árna Magnússonar* er stuttlega getið um Mývatnselda.[2]) Í bréfi frá *Finni Jónssyni*, síðar biskupi, dags. Hítardal 3. okt. 1729, stendur: »Ógn er að heyra þær sögur, sem fara af eldganginum við Mývötn, 4 bæir skulu

[1]) Um eldstöðvar og eldgos við Mývatn sjá Lýsing Íslands II, bls. 178—185. Oversigt over de isl. Vulkaners Historie. Kbhavn 1882. Landskjálftar á Íslandi. Kmhöfn 1905. Andvari IX, bls. 24—30; XI, bls. 38—49.

[2]) Hdrs. Á. M. Access. nr. 1. fol.

þar eyddir vera, meðal þeirra er prestssetrið Reykjahlíð; í vötnunum sjálfum, þar sem til forna sagt er að verið hafi 14 og 15 faðma djúp,[1]) skal nú ei vera dýpra en manni undir hönd og jafnvel sumstaðar tekið til að ydda á hraunklettum uppúr vatninu, svo sagt er að ljósast sé, að sú sveit muni aldeilis eyðileggjast«. Jón Magnússon segir í bréfi dags. Sólheimum 13. okt. 1729 að Reykjahlíð sé eyðilögð, en munum öllum og viði hafi þó orðið bjargað úr bænum, síra Jón Sæmundsson flýði að Skútustöðum. Þá eyddust og Gröf, Grímsstaðir og Fagranes. Í bréfi frá Magnúsi Einarssyni á Stóra-Vatnshorni dags. 5. sept. 1729 er dálítið sagt frá gosunum og eyðilegging Reykjahlíðar og svo bætt við: »Einhvern tíma um þetta leyti hvarf sonur hans (síra Jóns Sæmundssonar) úr sæng um nótt, er eigi aftur fundinn; þar til horfinn annar maður nokkrar kýr rekandi, hverigt síðan sést; vel mögulegt fallið niður um þá brunnu jörð, því eldurinn skal hér og hvar óvísvegar uppgjósa. Ein brennandi vatnsæð eða á skal vera uppsprottin í Reykjahlíðarfjalli,[2]) sem rennur ofan til Mývatna og þau af því sama tilefni vörm eður volg orðin og úr þeim allur silungur«. Seinna í bréfinu: »Nú sem stendur fréttist, maðurinn skal vera lífs aftur kominn, sem kýrnar rak, segist dottið hafa niður um heila jörð og undir fótum fundið harðar grundir og eitthvað í myrkri lengi áfram fálmað, hitti fyrir um síðir marga stalla hverja hann uppgekk og útkomst með það sama hvar hann niður datt, og hvað lengi hann dvaldi í því jarðarfylgsni, áður hann uppkomst, er ekki greint, og ekki er það satt, að nautin hafi með honum niður hrapað«.[3]) Í bréfi dags. Rauðuskriðu 7. okt. 1729 segir Benedikt Þorsteinsson að gosið sé altaf að versna: »Það er meining manna, að gangi þessi eldur yfir Grímsstaðatún, þá sé öllu Mývatni, Laxárdal og Reykjadal hætt og muni ei stillast fyr en í sjó lendir. Guð vægi oss fyrir forþéntu straffi og afvendi frá oss slíkri yfirhangandi plágu«. »Viðlíkan yfirgang,

---

[1]) Ýkjur.

[2]) Hér er átt við hraunkvíslina, sem rann úr Leirhnúksgígum framhjá Reykjahlíðarfjalli niður í Mývatn milli Reykjahlíðar og Grímsstaða.

[3]) Gott sýnishorn af öfgasögum þeim, sem gengið hafa um eldgosið í öðrum sveitum.

þó með öðrum hætti, hefur Jökulsá í Axarfirði haft á þessu ári, þar sem hún með stórum yfirgangi og stórhlaupum hefur fordjarfað alt engi, sumstaðar tún og mikið af graslendi í þrem sveitum, so það horfir rétt til eyðileggingar skuli harðindi upp á falla, so það lítur mjög aumlega út fyrir oss í þessu héraði, nema guð geri þar bót á«.

Fyrir aftan skýrslur síra Jóns og Benedikts lögmanns kemur ritlingur Sveins Pálssonar um Kröflu og Mývatnselda (Hdrs. J. S. nr. 158 Fol.). Þó ritgjörð þessi sé eigi að öllu frumrit, þá er hún þó svo fróðleg og vel samin, að hún fullkomlega á skilið að koma á prent.

Þ. Th.

---

## 1. EIN NÝ RELATION UM BRENNESTEINSFJÖLLIN VIÐ MYVATN Í ÍSLANDI OG NORÐURSÝSLU.[1])

Eftir Jón Sæmundsson.
prest til Mývatnsþinga.

---

Brennesteins fialleð Krafla við Mývatn, sem Anno 1724 17. Mai útkastaði af sér sandi, ösku og glóande steinum, hefur síðan verið að brenna innan til allt til þessa dags og jafnvel þó effectus brunans[2]) hafi ei síðan verið grjótkast né eldingar[3]) þá uppgengur þaðan samt iðuglega reykur og brennisteinsdampi í loptið, sem það fordiarfar og gjörir loptið óhollt.[4]) 2° Leirhnúkur, sem fyrst tók til að brenna 1725 þann 11. Januarii, hefur síðan óaflátanlega brunnið og sundursoðnað og það með þeim undrum, að á stuttum tíma er allt fjallið nærfellt[5]) brunnið og smelt í bleytu og brennistein, fyrir utan ótal hveri og brennisteins pytti, sem þar eru áfallnir; eru þrír nefnilega ógnarlegastir, sem forferðilega rjúka og brenna, án afláts. Anno 1727 21. Augusti spjó einn þeirra sandi og logandi grjóti hvar með og fylgði þær verkanir að

---

[1]) Í hdr. nr. 2860 — 4° í Gamle kgl. Samling (K) er fyrirsögnin þessi: „Descriptio eður riettara Appendix 1a yfer Myvatns Sveitar Jard-Bruna, sem skiede A° 1727 21. August og A° 1728 18. Aprilis og 20 ejusdem“.

[2]) þess bruna K.

[3]) eldgangur K.

[4]) næsta óhollt.

[5]) hartnær alt fjallið.

jarðeldur gaus út af[1]) pyttinum og uppbrendi landið umhverfis, þó mest til norðurs og suðurs, og með sinni skielfilegu verkun umrótaði svo eldurinn, að brunnið grjót, hraun og klettar svo sem ullu og suðu upp úr jörðinni, þetta hraun er að lengd vissulega ein míla eður meir, ófært yfirferðar; nyrðri endi á þessu hrauni stefnir á Þeista Reyki, sem hér um 3 mílur liggja frá Kröflu til norðvesturs og er eitt brennisteinsfjall, sem nú er og tekið til að brenna, og lítur út sem þetta pláss muni gjörvalt falla í eld og bruna. Anno 1728 18. aprilis um morguninn kl. hier um 2, iðuglegum jarðskjálftum[2]) undangengnum um nóttina, spjó og brann hinn annar brennisteinspytturinn í Leirhnúki með viðlíka móti sem sá fyrri, utan hvað effectus þessir eru[3]) hinum ógurlegri, hier fylgði og[4]) jarðeldur með, sem þeim fyrri, sem engvu[5]) minna brendi. Um þetta bil so sem einum tíma síðar brann sá þriðji pyttur[6]) í Leirhnúk, rétt með sama móti og hinn annar og i þeim eldgangi[7]) af tók það mikla hraun, sem þá brann upp allan veg norðaustur frá Reykjahlíð, so þar verður nú ei yfir komist. Þegar nú á þessum morgni þvílíkar ógnir ágengu, var allt norðausturloptið í logandi báli, lagði þetta bál yfir Reykjahlíð og fram á Mývatn, en fyrir guðs miskunsemi og volduga hjálp, sló ekki eldinum ofan á bæinn, annars hefði það gylt(!) bæði menn og hús og allar skiepnur þar í plássi.

3⁰ Á sama ári og degi, sem hér er fyrir ofan[8]) sagt, um morguninn kl. 6 brann og spjó Hrossadalur í fyrsta sinn. Hrossadalur er eitt dallendi, liggur ekki langt frá Bjarnaflagi til norðurs, var gras og viðarland og aldrei hafði þar áður fornumist hiti eða velgja í jörðunni. Þessi bruni skeði með þvílíku ofboði og ógn, að mann skyldi ekki annað þenkja en hvinur bálsins af jarðeldinum vildi allt uppsvelgja,[9]) hér með fylgði ein dauðans hræðsla og ótti, so menn urðu ráðlausir,

---

1) frá.
2) skiálftum.
3) voru.
4) og með.
5) sem þeim fyrra engu.
6) þriðji stóri pyttur.
7) bruna og eldgangi.
8) nærst fyrir ofan.
9) slúka.

menn vildu að sönnu flýja, en menn vissu ei hvort flýja skyldi, því þegar þetta náttúrunnar ofboð skieði, heyrðist oss eldgangurinn allstaðar að í kringum oss. Í þessu bili brann upp hraun í öllum Hrossadal, eldurinn foreyddi þar allri jörð; þessi bruni var einn sá grimmasti og ógnarlegasti af öllum þeim, sem hér hefur skieð, nærst því þá Krafla brann um árið, þó er þessi jarðeldur brennandi bál óumflýanlegra og hættumeira[1]) hinum öllum ógnum, sem undan hafa gengið. Guð vægi oss og varðveiti í Jesú nafni.

4⁰ Í sama bili brann og með sama móti Bjarnaflag uppá nýtt allt að vestanverðu frá fjallinu og heim að Reykjahlíðarstekk, hartnær lítinn spöl[2]) austur frá bænum; allt er þetta pláss nú hraun[3]) og klungur og í þessum hraunum er nú[4]) að brenna bersýnislegur eldur og brennisteinn[5]) og ásjáanlegt er, að þessi bruni so nálægur, muni heim á bæinn og kirkjuna hlaupa og öllum hér nálægum plássum hér foreiða, utan guð af sinni föðurlegri náð afvendi þeirri eyðilegging. Hiti yfirmáta mikill er kominn hér í jörðina nærri bænum Reykjahlíð allt ofan í vatn; einn sífeldur reykur og svæla útgengur af jarðarinnar hólum og gryfjum hvað með því daglega er í aukningu að fara, óttast menn fyrir að ei muni langt að bíða einhvorrar verkunar ekki minna en áður hefur hér undan gengið.

5⁰ Á sama ári 1728 d. 20. Aprilis um kvöld tíma, brann eitt pláss af jarðeldi sem heitir Reykjahlíðar selstaða, þar brann og sprakk upp mikið hraun; þetta pláss er dallendi í hverju að voru grashagar og liggur so sem rúma bæarleið frá Kröflu til suðvesturs.

6⁰ Hithóll liggur lítinn spöl til suðurs[6]) frá Leirhnúk er eins nefnt[7]) í Descriptione þessara fjalla, þryktri í Kjöpinhafn 1726 þar stendur num. 4: Gitzol til norðvesturs á að lesa[8])

---

[1]) hættusamara og óumflýanlegra.
[2]) hartnær, sem er lítinn spöl.
[3]) í hraun.
[4]) er enn nú.
[5]) Hér endar 4. kafli í hdr. K.
[6]) suðvesturs.
[7]) misnefnt (réttara).
[8]) skal lesa.

Hitholl til suðvesturs; þetta litla fjall brennur nú ekki so mikið sem áður. Í þeirri fyrri relatione er um þessi brennisteinsfjöll framar ritað nefnilega þeirra situs og brunans operationes.

7° I þessarí descriptione og hinni prentaðri i Kiöbenhafn 1726 er að gætandi þar sem sagt er i þeirri fyrri að brennisteinsfjöllin séu enn nú að brenna, á að skiljast fyrir innvortis bruna i jörðinni, hvar með brennisteinsfjöllin soðna og seiðast í sundur og verða að eldhvitri[1]) bleikku og brennisteini með óaflátanlegum reyk og vondum dampa, því so lengi sem eldurinn eður sá eldlegi hiti er í jörðinni sézt hvorki hans bál né glóandi materia, alt um það hefur sá eldlegi hiti sínar verkanír að seiða og brenna þar til að loftið uppdregur inn i sig, þá verður bálið sýnilegt, en i þessari síðari á að meinast ekki alleinasta innvortis, heldur og útvortis sýnilegt bál og bruni, sem er jarðeldurinn, hvor nú síðan i fyrra sumar 1727 d. 21. Augusti og alt til þessa tíma er ætíð meir og framar að aukast og má guð vita hvar það muni lenda hvort heldur sá eldur uppkemur i bæum,[2]) á nótt eða degi eður þar fyrir utan, so þeir, sem hér eru i nánd, eru í stórri dauðans hættu, því þessi eldur sprettur so snögglega upp, so sem þá vindbilur ádettur, og umveltir so jörðinni, að björg og klettar, sem langt eru niður, uppkastast, so eru hér austur[3]) frá Reykjahlið almenningsvegir öldungis af vegna umgetins brunahrauns og ótal gjáa, land og grashagar brunnir og foreyddir, so peningur hefur ekki björg, engjar og slægjuland víða uppþornað, so ekki sprettur gras, en sumstaðar er vatnsgangur yfir máta mikill, so gras næst ekki og orsaka þetta jarðskjálftarnir, sem jörðina sumstaðar so uppþemba að vatnið fellur gjörvalt þaðan, en í annað pláss ofmikið. Sá hluti Mývatns, sem liggur nær brennisteinsfjöllunum, er nú allareiðu orðinn so grunnur að ekki er skipgengt víða og horfir það til stórra nauða eitt með öðru uppá bjargræði fólksins, sem sinn heyskap brúkar í eyjum þeim, sem liggja í Mývatni. Að þetta sé so skeð og á sig komið vitnar

---

[1]) eldheitri.

[2]) bæunum.

[3]) hér um pláss austur.

undirskrifaður að Reykjahlíð við Mývatn Anno 1728 d. 23. Junii

Jón Sæmundsson.[1])

Sequitur Appendix II$^{da}$
Um eldsbrunann við Mývatn A$^{0}$ 1728 18. Decembr.
og Anno 1729 30. Junij etc.

Anno 1728 d. 18. Decembr. uppkom hræðilegt eldsbál og jarðeldsbruni við Mývatn, austur frá Reykjahlíð, með hræðilegum undrum og fádæmum, so eldurinn brendi þá ekki alleinasta upp aftur það mikla hraun, sem brann árið fyrir og þar i milli, heldur og einnig heila jörð, grjót og sanda og uppspjó glóandi hrauni, margra faðma háu i loftið, til dæmis likt sem ein soðning i eldheitum potti uppkastast og so sem flýr undan þeim mikla hita, sem að neðan kemur, so hún lyptir sér upp frá botninum og hleypur i loftið; álika gengur hér til og hefur gengið í þessum jarðarbruna og so litur þetta út fyrir augum manna. Er so daglega þetta brennandi hraun að sjóða upp úr jörðunni og sig að útbreiða bæði á lengð, vidd og hæð. Sumstaðar hefur eldurinn stærri aðgjörðir með miklu og hræðilegu eldsbáli og uppkastar alt um kring sig í sífelldum iðugleika glóandi björgum og steinum, sem so eru blautir orðnir, að þeir renna glóandi eins og smeltur kopar. Af þvilíku uppkasti þess eldlega grjóts, verða stórar borgir og miklar hæðir (nefnilega þar sem eldurinn tekur sig fyrst upp) holar innan, en kringlóttar bæði utan og innan. Innan i þessum uppsprettupyttum eldsins er ein ógnarlegasta mikil og grimm inflammatio ignis, með sterkum stormi, so eldsbálið útsendist langt þaðan í himininn og með sama báli uppkastast óaflátanlega glóandi, blautt grjót (sem áður er sagt), og þá það kemur á jörð niður rennur sem vatn og brennur so síðan hvað af öðru, allt hvað fyrir verður. En þegar það kólnar, verður það svart brunnið grjót, og fær þá sinn rétta lit; en með þvi útaf eldpyttunum sjálfum er æfinlegt rensli af glóandi grjóti og rennur óaflátanlega áfram, þrengir það að þvi undan runna og kólnaða, molar það i sundur margvíslega og ýtir því frá sér, bæði á hæð og vidd; þetta gengur

[1]) Hér hættir hdr. J. S. nr. 422 — 4° en hdr. 2860 — 4° í Gamle kgl. Samling heldur áfram.

iðuglega hvar af það skeður, að það brunna grjót verður um síðir so hátt upp af jörðinni. Í þessu umgetna hlaupi eldsins nálgaðist bruninn so mjög Reykjahlíð, að hann átti ekki heim til bæarins meir en so sem fjórða part úr mílu; þann 19. og 20. sama mánaðar stöðvaðist eldurinn, sem næstur var bænum kominn, og veik sínu rensli á annan veg, so eg með mínu heimilisfólki settumst að aftur þar vær vorum allareiðu til búin burt af bænum flýja. Þessi jarðarbruni, sem þá skeði og næst þar fyrir skeð hafði, er á lengð frá norðri til suðurs ei meira en 4 mílur danskar, en á breidd aðskiljanlegt, sumstaðar hérum 2 mílur, $1^1/_2$—$1$—$^1/_2$ etc. Það mikla bál, sem uppgengur af eldpyttunum í loftið, gjörir þann eldlega blossa og fulgura í skýunum, sem langt í burtu sýna sig yfir fjarlægum bygðum og héruðum.

So continueraði þessi eldsbruni frá nefndu dato (en þó miklu bærilegar en í fyrstu áhorfðist), allt til þess 30. Januarii Anno 1729 um morguninn, þá spjó fjallið Leirhnúkur (sem nú er allt brunnið og komið í hraun) út af þeim stóra eldpytti þar í fjallinu, sem áður er nefndur, yfirmáta miklum og ógnarlegum eldi (eldlegu glóandi grjóti), sem rann og brann uppá nýtt því ákaflegar sem hann náði framgöngu yfir þá terminos og takmörk guð hafði honum áður sett um nokkurn tíma, allt þar til hann fleygði sér so sem hart rennandi vatnsfall inn í bygðina þann 6. dag Julii sama árs, þá flúði eg, Jón Sæmundsson prestur, frá bújörð minni Reykjahlíð og kirkjunni, sem þyngra er frá að segja, með mína háöldruðu foreldra, konu, börn og þjónustufólk, mátti so nauðugur viljugur eptir skilja eldinum kirkjuna, bæinn, heyin og annan búskap, sem ekki burt náðist; hafði eg þá engan bústað né heimili heldur en einn húsviltur maður, alt þar til eg hjá einum bónda hér við Mývatn fékk húsnæði. Dag frá degi útvikkaði sig eldurinn, so þrír bæir nærri Reykjahlíð foreyddust, en fólkið fyrir guðs náð komst í burtu, varð samt eptir að skilja bæði hús og hey.

Þann 7. Augusti hljóp eldurinn heim á bæinn Reykjahlíð, þá þorði enginn maður þar nærri að koma og hefði ekki heldur að þorað vegna þeirra hræðilegu undra, sem þar á gengu, því eldsins ógnarlegi dunur var so mikill, so sem hann vildi gjörvalt í sig svelgja, en jörðin titraði og skalf, so sem hún væri laus og vildi umbyltast, síðan brann í þessu bili

jörðin Reykjahlíð: hús og tún, og jarðeldurinn hljóp alt að kirkjugarðinum. Stóð þessi bruni þá á sér um nokkra daga, alt til þess 27. Augusti, þá brann og hljóp eitt glóandi hraun í kringum kirkjuna, stóð hún þá enn ósködduð innan í þessum eldhring alt til þess 15. september næstkomandi, þá kólnaði það glóandi grjót að ofanverðu, og varð sem ein grjótskán yfir eldinum, þá komust menn yfir hringinn og tóku burt alla kirkjunnar viðu og hennar materialia. Þegar það brennandi og rennandi grjót kom í Mývatn sjálft, þá megnaði ekki vatnið að slökkva eldinn, heldur mátti endilega so sem flýja fyrir honum og hans grimdarlega ágangi, so hann uppþurkaði allan botn og grundvöll vatnsins og hleypti þar yfir aftur brennandi grjóti og hrauni, sem marga faðma strekkir sig hátt í loptið og hefir með þessu móti miklum hluta af Mývatni foreytt að norðaustanverðu. Á síðustu dögum septembris mánaðar sloknaði jarðeldurinn við Mývatn, so hann brendi þá ekki meir út frá sér; samt uppgengur af þeirri brunnu jörð (sem nú er allteinar stórar grjóthæðir, hraun og klungur) mikill reykur og hitadampi, so endilega er þar enn nú eldligur hiti niður í undir, so mann veit ekki nema þá eða þá springi eldurinn upp aptur. Guð veit það! Er þá og líka öll þessi sveit og bæir við Mývatn í veði fyrir mannanna augum. Guð vægi oss náðarsamlega í Jesú nafni og varðveiti frá tímanlegri og eylífri fordjörfun. Þessi tvö jarðbrunans áhlaup þau síðustu alt til dato, hef eg, Jón Sæmundsson prestur, uppteiknað, samantekið og ásamt nokkrum mínum sóknarmönnum hér undir skrifuðum vitna þetta so til gengið. Skútustöðum við Mývatn d. 27. Septembr. Anno 1729.

Jón Sæmundsson. Ingjaldur Jónsson.
Einar Jónsson. Ólafur Leifsson.
Halldór Ingjaldsson. Ásmundur Haldórsson.
Guðmundur Guðmundsson. Þorlákur Einarsson.
Halldór Halldórsson.

Appendix III[ia]
um
Situationen þeirra brendu fjalla og brunaplássa
við Mývatn.

1⁰

Það brennisteinsfjall Krabla, sem A⁰ 1724 d. 17da Maji útkastaði af sér með einum ógnarlegum hætti, sandi, ösku og glóandi steinum, liggur frá Reykjahlíð við Mývatn hér um $1^1/_2$ mílu til nordost. Frá Reykjahlíðar námum 1 mílu til nordnordost, frá Húsavík ungefehr 6 mílur til sudost. Frá Kelduhverfi og Axarfirði við Jökulsá circ. 4 mílur til sudvest. Frá Norðmel við Jökulsá 2 mílur til vesturs. Þetta fjall er umhverfis circ. 1 míla. Í þessu fjalli er ein ógnarlega stór gjá, sem opnaðist og eftirvarð Anno 1724, þegar það útkastaði af sér grjótinu, sandinum og öskunni, hvor gjá er sem einn ærið djúpur dalur, so menn vita ekki né sjá hennar dýpt, einkum fyrir reyk og iðuglegri brennisteinsfýlu, sem þar upp af gengur.

2⁰

Leirhnúkur, sem tók fyrst til að brenna 1725, þann 11. Januarii, liggur frá Kröflu $^1/_2$ mílu til nordvest, er lágt fjall en í sínu circumference hér um 3 parta úr mílu, hann brann með þeim undrum á stuttum tíma, að þar sem fjallið var áður heil og hrein jörð, so er það nú allt í einum brennandi brennisteini með reyk og svælu, so engin manneskja kann þar yfir að komast. Ótal margar brunnar brennisteinsgjár eru þar komnar í jörðina og koma daglega, so að kvikfénaður og hestar, sem þar kringum ganga, sökkva lifandi í jörðina niður, undir eins og hún á augnabliki opnar sig undir þeim, so þeir, sem þar nærri búa, lifa í stórum elendigheitum. Hér fyrir utan hefur þetta fjall opnað sig í tveim stöðum með forferdilegum gjám, hvaðan að alloft uppgengur so mikill reykur í loftið, að alt fjallið og önnur kringumliggjandi hyljast, þar hefur og (fyrrum) meðfylgt so mikill stormur og ógnarligur grenjandi, so sem fjallið vildi svelgja í sig alt hvað nærri því væri, so það mátti vera einn hugaður maður, sem þar

þorði nærri að koma. Þetta fjall brann mest af öllum brennisteinsfjöllunum og meir en höfuðfjallið Krafla.

3⁰

Hithóll liggur til sudvest frá Leirhnúk, ungefehr eitt stadium, er og þar um bil umhverfis; hann færði alltíð sinn bruna vestur að Reykjahlíðar fjalli, hvar af menn slutta fyrir víst, að eldurinn hafi fundið sér þá meatus í jörðinni, sem liggja muni að Mývatni og Reykjahlíð.

4⁰

Bjarnaflag er áfast að vestanverðu við það brennisteinsfjall Reykjahlíðarnáma, liggur frá Reykjahlíð ungefehr ½ mílu, og síðan Anno 1725 hefur það brunnið forferdilega; þar til og einnig hefur jörðin opnað sig þar síðan og gressilega sundursprungið, allt til Bláfjalls mót suðri og Leirhnúks, Hithóls og Reykjahlíðarfjalls gegnt norðri, hver jarðsprunga er vissulega á lengð 2 mílur.

Fyrir utan þetta er og jörðin sundursprungin í allmörgum stöðum, so sumstaðar eru vegir öldungis af, en sumstaðar stórháski og lífsfár yfir að komast. Það skeður og tíðum, að kvikfénaður fellur í þessar gjár og sézt aldrei aptur. Hér fyrir utan er eitt annað hættusamligra, að þá sandur eða snjór fýkur yfir og mennirnir skyldu ganga þar, þá kostar það þeirra líf, falli þeir þar í. Exempel hér uppá hefur skeð í Reykjahlíð hjá prestinum síra Jóni Sæmundssyni á einni stúlku, sem féll í jörðina, þó hún samt aptur lifandi næðist. Þessar gjár úr Bjarnaflagi strekkja sig allt að Reykjahlíð, er jörðin þar sumstaðar opnuð, en sumstaðar er hún dagliga að opnast, so guð má vita, hvar það vill lenda. Hvað víðara er að segja um þessi 4 brennisteinsfjöll, það er allt áður refererat í þeirri relation, sem prentuð var í Kaupenhavn 1726.

5.

Reykjahlíðar Námar er eitt fjall, liggur frá Reykjahlíð vel so eina ½ mílu mót austri og er eitt hið mesta brennisteinsfjall, og þó það hafi í langa tíð að innanverðu brunnið, þá hefur það samt ekki sýnt þvílíkan effectum sem hin fjöllin. NB. Þar liggur nú almennings vegur yfir.

6.

Fremri Námar. Það fjall liggur frá Reykjahlíð 5 mílur mót sudost, um það er að segja sama og Reykjahlíðarnáma.

7.

Þesta Reykir er og eitt brennisteinsfjall, liggur til norðurs frá Mývatni og nordvest frá Kröflu 3 mílur, er í sömu condition og Reykjahlíðar Námar.

Þessar framanskrifaðar Notitier og Appendices eru conformes við sína originala samanskrifaða af prestinum sál. síra Jóni Sæmundssyni.

Testerar að Reykjahlíð d. 19. Octobr. A° 1742.

Jón Jónsson.

---

## 2. RÉTTARSKÝRSLA UM MÝVATNSELDA.

---

Kongl. Majst. laugmann norðan og vestan á Íslandi og sýslumaður í Norðursýslu, jeg Benedix Thorsteinsson, gjöri hérmeð vitanlegt, að mánudaginn þann 11. Septembris Año 1730 hélt eg eitt héraðsþing á Haganesi við Mývatn; voru af mér nefndir eftirskrifaðir dánumenn til þingvitnis að sitja með mér réttinn og að vitna um alt hvað fyrir sama rétti framfæri, nefnilega Björn Arngrímsson, Sigurður Grímólfsson lögréttumenn, Árni Þorleifsson, Hannes Steinsson, Arnþór Illugason, Sigmundur Jónsson hreppstjórar, Jón Magnússon og Kolbeinn Guðmundsson; og framfór þetta fyrir réttinum sama staðar, sem hér eptir fylgir.

Præsenteraði sig hér kaupmaðurinn á Húsavík Seigr Henrich Schovgaard og framlagði eitt bréf með sinni hendi og signeti fyrir réttinn dat. 9.da Augusti þessa árs sem upplesið og uppáskrifað var fyrir réttinum og orðrétt innfært. Lit. A.

Edle Hr. Laugmand

Benedix Thorstenson.

Det er mig ved Ankomsten her paa Stæden kiært at fornemme Hr. Laugmands continuerlig Velergaaende, siden jeg sidst forgangen Aar hafde den Ære at tale med Dem, som og jeg nu meget længes efter for at faae Efterretning hvorledes Tilstanden her i Vinter har været i midlertiid, som det dennem vel er bekiendt hvad liden Negotie jeg forgangen Aar her paa

Hafnen hafde, formedelst den opkomne Svovel Ild tilföiede udi Myvatns Sveit som er mig det beste og fleste gandske bleve ruinerede,[1]) at de aldeles ingen Handel med mig gjorde, men jeg derimod dem til nödtörftig Ophold med adskillige Varer maatte forsyne, min Hr. Fader som Hovedmand for denne Havn til stor Skade saavel over at lidet eller intet til Retour hjemkom, som og at de hidbragte Kjöbmandsvarer paa Credit var udleveret, hvor udover han blev foraarsaget hans Kongl. Majtts vores allernaadigste Konge slig Skade til forventende Erstatning allerunderdanigst at forestille, hvorpaa han efter de höie Herrer Deputerede for Financerne og udi Cammer Collegio deres höie respective Skrivelse af 5. Januarii er bleven meddelt höist bemeldte Hans Kongl. Majts allernaadigst Resolution af Indhold. At forinden fulkommen Efterretning herom indkommer kan ikke noget vist om Forpagtningen resolveris. I Henseende baade saa til mer höistbemeldte Hans Majts allernaadigste Befalings allerunderdanigste Efterlevelse, som og at min Hr. Fader for omrörte(!) tagen store Afgang og Skade udi hans Negotie her paa Havnen har havt og her efter kan have, ved hans Majts store Naade kunde vide nogen Repressalier er jeg foraarsaget af Edle Hr. Laugmand tienstlig at begiære, at De for en anordnet Ret vilde lade saavel Præsten som andre vedkommende, der bemeldte Svovelild var underkast(!) og hvorved deres Jorder samt Kvæg og andre Ejendele ere blevne tildels bedærvede og ganske ruinerede og min Hr. Fader som Forpagtere tog derved en temmelig Skade næst afvigte Aar her i Landet og mere med den Fordel som skulde vindes derved og nu herefter tager tillige den forfærdelige . . . . .[2]) som ligger i min District, som jeg har forsynet baade Præster og en stor Del Bönder, som er ruinerede. Hvor om alt jeg et lovformligt Tingsvidne er behövende og ellers herved tjenstlig er begjerende Hr. Laugmand til desto mere Fuldkommenhed paa Thingsvidnerne meddeler sin Attest og Paaskrivelse om hvis dem selv herom er bevidst alt sammen til for höistbemelte Hans Kongl. Majts allernaadigste Villjes Fuldbyrdelse ved

[1]) Svo. Rithætti á þessu bréfi er nokkuð breytt.

[2]) Ólæsilegt

min Hjemkomst vil Gud til Kjöbenhavn at producere. Iöfrigt forbliver jeg med ald Estime

Edle Hr. Laugmands
tjenstvilligste Tjener

Henrich Schougaard.

Huusevigs Kramboed
d. 9. Augustii 1730.

Oplæst og protocoleret for Retten
paa Haganess Herreds Ting d. 11. September. 1730.

Auglýsir lögmaðurinn og einnig að hann hafi meðtekið háeðla herra stiftbefalingsmannsins bréf af dató 13. Aprilis 1730, hvar inní hans Excellence vill hjá lögmanninum endilega vita og vænti svars hvorsu ásigkomið sé um þann uppkomna brennisteinseld og hver skaði af honum orsakast hafi, með víðara, sem hans Excellencis bréf um mælir. Þessu næst auglýsti og lögmaðurinn, að veleðla hr. Commerce Raad Peder Keysen, sem er principal til Húsavíkur hafnar hafi sér hér um til skrifað, hvort hans bréf er daterað 17. Júní nærst fyrirfarandi, sem hér var í réttinn framlagt af lögmanninum og þar af upplesið svo mikið sem þetta efni áhrærir, og er sama innihalds, sem áður umgetið kaupmannsins innlegg. Lögmaðurinn kvaðst og hafa stóra nauðsyn til alvarlega að inquirera um þetta hræðilega og fáheyrða tilfelli, so að hann kunni það allra undirdanugast hans Kongl. Majst að referera, samt hans Excellence háeðla hr. stiftbefalingsmanninum eftir áður umgetnu hans bréfi, hvar fyrir hann hefur til þessa þings kallað sóknarprestinn hér við Mývatn sira Jón Sæmundsson ásamt alla þessa hrepps búendur til að vitna og greinilega undirrétting á gjöra um þenna hræðilega eldsbruna hans Effecter, nær hann byrjaðist, hvern skaða hann þessari sveit gjört hafi og hvort hann sé niðurdempaður eður eigi, og að þeir hvor í sinn stað gjöri hér þá skýrustu grein og undirrétting á, sem þeir vilja fyrir guði og hans Kongl. Majt forsvara og viðstanda eftir því sem sérhvor þeirra kann frekast að tilminnast. Mætti nú hér fyrir réttinum presturinn sira Jón Sæmundsson og með honum flestallir Mývatnshreppsinnbúendur og játa sig þessa lögmannsins aðvörun fengið hafa og eptir henni séu þeir hingað komnir að gjöra alla þá

upplýsing sem þeir kunni í áðursögðu efni. Framlagði nú presturinn sira Jón Sæmundsson eitt bréf undir sínu nafni ásamt hans átta sóknarmanna, sem upplesið og uppáskrifað var og innfærist Lit. B. orðrétt hljóðandi sem eftir fylgir.

[Þá kemur orðrétt skýrsla Jóns prests Sæmundssonar, Appendix secunda, með undirskrifuðum sömu 9 nöfnum].

Framar auglýsir presturinn, hr. Jón Sæmundsson og hans sóknarmenn, hér opinberlega fyrir réttinum, að auk þess sem áður er skrifað og innfært um eyðilegging Reykjahlíðar af áðurnefndum eldsbruna, hafi sá sami jarðeldur eyðilagt og uppbrent Gröf, heimaland frá Reykjahlíð, tún og land, og þar sem húsin bæjarins stóðu sé hraun uppkomið ekki minna en tíu faðmar á hæð og allt land þar um kring fordjarfað; þar næst hafi sami jarðeldur hlaupið að Fagranesi, sem var næsta jörð Gröf, eyðilagt bæinn og uppbrent með húsum, heyi og túni, einnig land og engi til grunna fordjarfað, so að þar sem bærinn stóð sjást nú engin líkindi til að þar hafi nokkurn tíma hús verið, og varla af kunnugustu mönnum; en í þann stað uppkomið hraun og brunnið grjót með sama móti og um Gröf segir. Eptir það hafi sami jarðeldur hlaupið í Grímstaða land, sem er næsti bær við Fagranes, það fordjarfað og eyðilagt að austanverðu, bæði engi og úthaga, so ábúendurnir með konum og börnum flúðu í burt þaðan til að forða lífinu og rifu niður skömmu þar eptir hús jarðarinnar, so hún það ár eyðilagðist, en eptir það jarðeldurinn stöðvaðist í Mývatni, varðveittist tún og það eftir var af engjum og landi þeirrar jarðar, so hún er nú sem stendur bygð, þó langt fjærri með sama leigumála og fyrrum. Einnig framber presturinn og hans sóknarmenn sameiginlega að enn nú sé eldlegur hiti með iðuglegum reyk og svælu hér í þessu plássi sem áður; slíkt guðs straff hefir yfir gengið fyrir norðaustan og austan Reykjahlíð, og sennilegt er, nema guð afvendi þýngra straffi, að þessi jarðeldur útbreiði sig suður fyrir Mývatn og eyðileggi og fordjarfi þann part þessarar sveitar, sem hann hefir gjört við Reykjahlíð og þar kringumliggjandi jarðir eftir því sem áður er umgetið. Hér að auki auglýsti presturinn ásamt hans sóknarmönnum, að fyrir þessi skelfilegu tilfelli, hvar af þeir hafa misst sína björg og næring bæði af landinu og veiðiskapnum í Mývatni, sem þangað til var þeirra bezta uppheldi, séu þeir vorðnir so

útarmaðir, að hvorki geti þeir goldið Kongl. Majst hans venjuleg réttugheit, eður keypt hjá kaupmanninum á Húsavík sína nauðsyn, sem þeir mega ekki án vera til lífsins uppheldis, ei heldur svarað sínum hússbændum landskuldum og leigum eptir þeirra ábúðarjarðir, þann tíma, sem þeir hefðu kunnað í þessari sveit að búa, þar nú sé hvergi annarsstaðar jarðir til leigu að fá, en vilji þó gjarnan flytja sig héðan burt úr þessum hreppi, sökum yfirgangandi skaða og ólukku, þar ekki sjáist annað fyrir hendi en töpun og eyðilegging þessarar sveitar. Lofar presturinn og allir þessa hrepps búendur með honum að staðfesta þenna sinn framburð með eiði og er so þetta so á sig komið innstillt fyrir hans Kongl. Majst háa Clemence hvað hér við í slíkum vandræðum gjöra skuli. Öllum þessum þingsact til staðfestu eru undirskrifuð vor átta tilnefndra þingvitnismanna nöfn og hjáþrykkt signet. Anno, Die et Loco ut Supra.

Björn Arngrímsson. Árni Þorleifsson.
Sigurður Grímólfsson. Hannes Steinsson.
Hafþór Illugason. Sigmundur Jónsson.
Kolbeinn Guðmundsson. Jón Magnússon,

Dette Tingsvidne har jeg som Dommer udi Norder Syssel taget og alle vedkommende Personer nöie examineret som alle har været overensstemmende og det udi alting skal befindes rigtig, hvilket jeg med Haand og Signet testerer.

B. Thorstensson.

---

Jeg Bendix Thorsteinsson,[1]) Kongl. Majst sýslumann í Norðursýslu gjöri hérmeð vitanlegt, að anno 1729 þann 9da Maj, hélt eg manntalsþing að Keldunesi í Kelduhverfi og framfór sama staðar í átta undirskrifaðra þingvitnismanna áheyrn og viðurvist:

---

[1]) Rigsarkivet. Miscellanea Island vedkommende 1680—1770. Þar líka 2 danskar þýðingar.

Num. 6.

Eptirspurði lögmaðurinn alla saman komna þingsóknarmenn, hvorsu ástatt hefði verið um Jökulsár hlaup og yfirgang á næstliðna vetri og óskaði, að þeir gjæfu sér þar um sanna undirrétting. Og var það þeirra sameiginleg sögn og undirrétting, að hún á undanförnum vetri, hafi með skelfilegu hlaupi, sem ellztu menn tilminnast að slikt ei skeð hafi, hafi burttekið nær allt engi þessarar sveitar, land og haga stórkostlega fordjarfað og gjört nú nýja farvegu vestur um Kelduhverfissand, so sýnilegast sé hann að engum notum verði hér eptir, sem var til forna þessarar sveitar bezti styrkur til heyskapar og útbeitar; sýnilegt er, að fyrir slíkan Jökulsár umgang falli þessi sveit í kopun og eyðilegging, nema þar betri lagfæring til komi, sem nú er ei sýnileg. Sérdeilislega umkvarta ábúendur á Keldunesi og Krossdal, að túnin séu af leir og sandi fordjörfuð af meira en helmingi, þar af verði engin gras von á þessu sumri, úthýsi jarðanna komin í leir og fen, þau sem ekki affjellu í árhlaupinu í vetur; en þau eptir standa full með vatn upp í miðja veggi nú sem stendur, vilja því gjarnan sökum slíkra nauðsynja losast við sínar ábúðarjarðir, nú strax á þessu vori, ef fá kynnu hægri leigumála. Sama er að segja um jörðina Vikingavatn, að Jökulsá hefur mest allt hennar engi rúinerað, og eptir sem nú er sýnilegt, er sú jörð í stærstu spjöll komin, eiganda og ábúanda til stórskaða.

Rétt eptir Norðursýslu héraðs protocol testerar með hönd og signeti

B. Thorsteinsson.

Í bréfi til Commerceraad Schovgaards dags. Rauðuskriðu 13. sept. 1730, sem líka er geymt í Ríkisskjalasafni, getur Benedikt lögmaður þess, að Jökulsá hafi aftur hlaupið í ágústmánuði 1729 og hafi nú eyðilagt það sem eftir var af engjum og nokkuð af túnum. »Þar sem áður var gras og engjar, er nú alt komið í aur, sand og smákvíslar, og er fyrirsjáanlegt, að þar sprettur aldrei gras framar«. Jökulsá tók líka hið litla af heyjum, sem bændur voru búnir að ná saman, svo til vandræða horfðist um fjárhöldin næsta vetur.

---

## 3. KRAFLA,

*eldfjall nálægt Mývatni.*

Samtýnt úr ritlingi Halldórs Jakobssonar á danska tungu 1757, Islandsreisu þeirra Eggerts og Bjarna og fátt eitt eptir eigin sjón 1794.

Eftir Svein Pálsson.

---

Mývatnsbyggð er sveitarkorn kringum stórt stöðuvatn, er Mývatn heitir, í Norðlendingafjórðungi, fram til fjalla upp af austurhluta Þingeyjarsýslu, áþekk að lögun og landslagi Þingvallasveit á Suðurlandi. Sýnist þar frá alda öðli hafa verið hið ógurlegasta samsafn jarðeldsefna, brennisteinsnámur og leirpæluhverir, jörðin þar á móti einber eldvörp, stór og smá, með ýmsu lagi, svo ei má tölu á koma, líka brunahraun ný og gömul. Lítur svo út sem pláss það allt, og langan veg til fjalla suður, sé af eldum ýmislega umrótað, hafi, fyrr en land þetta var fyrst numið eða þekkt, sokkið þar niður, sem nú er vatnið, og horfið þá undir eins vatnsfall nokkurt, er þangað rann frá fjöllum sunnan, en fyllt upp dældina á eptir og tekið sér farveg út til Skjálfandafjarðar, þar nú heitir Þverá og að neðanverðu Laxá; er hún með stærri bergvatnsám. En í Mývatn að ofan er ei um getið að renni nein talsverð vatnsföll. Suður af til land- og útsuðurs frá Mývatni eru geysimikil öræfi með ótal eldvörpum, það mönnum er kunnugt, allt brunnið. Er þar langt í landsuður kallað Fremrinámar, Trölladyngjur og Herðibreið, sem eldum hafa gosið, líka hið nafntogaða Ódáðahraun, allt suður um norðvesturenda Klofajökuls og kallast þar Hágönguhraun, suðvestur undir Síðujökli. Virðist þetta eldstrik liggja þvert

gegnum landið mitt, suður í Skeiðarár- og Öræfajökul að austan, en Kötlu, Eyjafjallajökul og Heklu að vestan, hafa stíflað upp og tilbúið Fiskivötn og Þórs eða Þórisvatn í óbyggðum (er tilsamans eru líklega þau í Ármannssögu[1]) kölluðu Tröllavötn) og skjóta þannig æðum til austurs og vesturs, þegar suður um landið kemur. Skamt í landnorður frá Mývatni er það nafnkennda eldvarp Krafla; er sagt hún í gamla daga hafi verið talin meðal fjalla, en nú síðan seinasta eldgos líkist hún meir dyngju af rauðum, hvítum og gulum brennisteinsleiri og vikrum; en mannhætta hin mesta nema fyrir kunnuga menn þangað að komast, vegna þess landið um kring hana er tómar brennisteinsgjár, leirpælur, holur og hraun. Einkum er getið tveggja sjóðandi leirpytta suðaustan við hana, sem kallaðir eru Víti, ekki finnst þess getið með vissu,[2]) að hún hafi brunnið nema einu sinni, síðan land vort byggðist, og varaði sá bruni í 7 ár og hófst sem fylgir:

Ár 1724 aðfaranóttina hins 17. mai mánaðar fóru menn að finna sterkar jarðskjálfta hræringar, héldust þær allt til dagmála daginn eptir; gaus þá fyrst upp sand og öskumokki harla miklum úr Kröflufelli, er í logni féll niður allt um kring hana ásamt glóandi steinhríð. Jukust þá hræringarnar með óskapa reiðarslögum, svo engu var líkara, en forganga mundu himin og jörð. Féllu þar þá víða niður hús í grunn, stukku í sundur í þeim bitar og langbönd, svo ekkert var sýnna en bráðadauði mönnum og skepnum. Innan um þennan

---

[1]) Þó að Ármannssaga sé digtur einn, má hana þó meta meðal hinna snotrustu að hreinum stýl og dýrmæta vegna margra örnefna, sem fram í henni koma og enn heita svo. Er hún að vísu svipuð í ritthætti því, sem liggur eptir Ara prest fróða.

[2]) Ár 1475 stendur í Troils Resa till Island bls. 236, að eldur hafi verið uppi fyrir norðan land. Hvar hann sérdeilis hafi verið, hefur ekki í annálum fyrir mig komið, né heldur um aðrar eldsuppkomur frá 1436 í Heklu allt til 1510, þó stendur í heitbréfi því, er af lærðum og leikum var gjört á Grund í Eyjafirði, þriðjudaginn 1. í einmánuði 1477, um einmánaðarsamkomu eða heitdaginn (11. Martii Esp. Árb. 2. D. bls. 57 og 108) „um þau undur og ógnir, sem þá yfirgengu af eldgangi, sandfalli og ösku, myrkrum og ógnarlegum dunum“ s. Finsen um hallæri og mannf. Esp. Árb. 6. D. 89. cap. Mun þetta verið hafa nálægt Kröflu eða Mývatni og máske fyrst byrjað 1475 og einsog optar varað í nokkur ár?

mokk og mistur gusaði eldi loganda hvert augnablik til og frá. Flúði fólk strax af næstu bæjum heim að Reykjahlíð, hvar þá var prestssetur[1]), og urðu þá ekki úrræðin önnur en halda sig inni meðan þessi fyrsta ógn afgekk, búast við dauða sínum og fela sig guði. Nú rigndi í Mývatnssveitinni einkum sunnan og austanverðri, hvar byggðin helzt var, sandi, vikur og brennisteinsösku svo mikilli, að huldi alla jörð, víðast $1^1/_2$ alin djúpt. Peningur allur flúði langt í burt þangað sem hagar voru; þó er þess ei getið að mannskaði hafi orðið né gripatjón, ei heldur finnast sögur, um hvað lengi þetta fyrsta gos varaði, er líkast það hafi lengi verið, þó með misjafnri ákefð, líka að vindur hafi borið það svo frá á stundum, að fólk hafi að mestu gegnt fengið andvirkjum sínum, því hvergi er um getið, það flúið hafi, né bæir lagst í auðn. Þó má nærri geta hvað á hafi gengið, því getið er þess, að af jarðskjálftunum og líkt sem upphafningu jarðvegarins eða botnsins í vatninu hafi það allt að austan þornað upp, eða botni þess uppskotið nær því í $1^1/_2$ missiri á eptir.

Á bak nýári veturinn næsta eptir kom að nýju ógna jarðskjálfti, laust því næst eldi í svokallaðan Leirhnúk[2]) með sand og öskufalli sem áður. Brast það fell allt í sundur og varð að gjám og gjótum, sem ullu og spúðu brennisteins leirleðju lengi á eftir, rauk hér og brann engu minna en úr Kröflu sjálfri, sem ennþá logaði. Þriðji eldurinn brann í svokölluðum Hitahól skammt þar frá. Fylgdu þessu sífelldar hræringar og svæla, hver úr Hitahól einkum var óholl og varla bærileg. Þ. 19. apríl s. á. er sagt, að fjórða eldvarpið kæmi upp í svonefndu Bjarnaflagi í grend við hin og brunnu eldar þessir hver í kapp við annan og til skiftis það ár og hér næsta á eptir með varandi dunum og jarðskjálftum. Einkum er þ. 8. september 1725 getið um fjarskalegan jarðskjálfta við Mývatn, í hverjum Laxá, sem úr því rennur, hafi uppþornað, en komið þó til aftur. Má þess hér með sönnu til geta, að allir þessir jarðeldar hafi aðalrót sína haft frá

---

[1]) Nú um stundir eru bæir í 2 kirkjusóknum kringum Mývatn; nú á tímum stendur Reykjahlíð hér um $1^1/_2$ mílu suðvestur frá Kröflu.

[2]) Leirhnúkur var allt þangað til grasi vaxið fellkorn, rúm stekkjarleið í útnorður frá Kröflu; enn nú er það allt ein brennisteins leirpæla eða rústir með blindhrauni og ófæru-leðju forum.

Kröflu. En skaði er, að undir lok munu liðin tvö smárit hér um; annað af ónefndum höfundi (máske þá verandi presti í Reykjahlíð) á svenska tungu, prentað í Stockhólmi ár 1724, en hitt af Benedikt sýslumanni Þorsteinssyni, og prentað í Kaupmannahöfn 1726 á dönsku. Ekki er um getið að flúið hafi fólk frá Mývatni, en auðvitað er um megun þeirra, þegar bæði brást heybjörg ur Mývatnshólmum, líka silungsveiðin í vatninu, sem er einhver helzti þeirra lífsbjargarstofn. Ekki er getið um að eldar þessir hafi runnið yfir land í glóandi elfum eða hraun útflotið úr eldvörpum þessum fyrr en 1727, þó þau lengst af loguðu. Þetta ár þann 21. ágúst er sagt, að brennandi hraun hafi farið út að vella úr brennisteinspytti einum nálægt Leirhnúk. Æstist þá og á ný eldurinn í Kröflu og rann nú hraunið mest norður á við, allt að Þestareykjum, nálægt 3 mílur vegar, bræddi allt hvað fyrir varð, jörð og grjót, með dunum og svælu, sem nærri má geta. Hversu lengi þetta gekk um sinn, finnst ekki getið, en árið eptir um morguninn þess 18. apríl, þá er sterkir jarðskjálftar gengið höfðu alla nóttina, brutust út 2 aðrir hraunpyttir nálægt þeim fyrri með enn meiri ofsa; huldist þá allt um kring af logandi hrauni og tók af alfaraveginn, sem áður lá í landnorður til byggða frá Mývatni, var þaðan að sjá, sem allt landnorður hvolf loptsins væri í einum loga, og sló honum þá suður yfir alla Mývatnssveit, en guð gaf þó, að hvorki grandaði húsum, mönnum né skepnum.

Norður frá Mývatnssveit, skammt eitt frá áður nefndu Bjarnaflags eldvarpi, hét Hrossadalur, grasi og skógi vaxinn, hvar aldrei hafði áður vart orðið við jarðeldsveru; kom þar nú upp geysibál og gekk þá slík ógn að sýndist, sem af dunum mundi allt ofan ríða og eldurinn ætlaði að gleypa allt í sig. Misstu sveitarmenn þá allan móð, tóku sumir það ráðs að flýja, en vissu ekki hvert flýja var, þar allt um kring virtist sama áganga. Brann þá Hrossadalur allur af og Bjarnaflag á ný. Gekk það hraun nær því heim undir stekkinn í Reykjahlíð, er snertukorn var austur frá bænum. Tveim dögum síðar tók af Reykjahlíðarsel, var þar áður fagur grasdalur, hér um eina mílu suðvestur frá Kröflu, og er þar nú eintómt brunahraun, gjár og ófærur alla vega. Sumstaðar, helzt austanvert, þverraði nú Mývatn á ný, en gekk á land

annarsstaðar yfir haga og hólma og ekki sá annað fyrir en plássið mundi sökkva eða á annan hátt umhverfast. Sama ár, 18. desember, tók á ný geysilega að brenna í hraununum fyrir norðan og austan Reykjahlíð frá árinu áður. Var í fyrstu líkast því, að eldurinn færi undir jörð og hraun, og ólgaði öllu upp, einsog þegar undir suðu er komið í þykkasta grautar katli, þar til hér og þar rak upp ógna gusur hátt í lopt af bræddu, glóanda hrauni. Sumstaðar gaus upp grjótkasti og stöðugum loga, þar til allt flaut af stað, sem brætt og blossandi koparflóð; kæmi það þá í vatn, brann vatnið að sjá sem olía, en silungur allur dó. Hafði flóð þetta hæga og sígandi rás, en bræddi allt hvað fyrir varð á augabragði. Á daginn logaði allt hraunið með bláleitum brennisteinsloga, hvar til sázt fyrir kolsvörtum mokki, en á nóttum var sem allt plássið stæði í ljósum loga niður við jörðina, en upp í loptið og á skýin sló rauðum glampa, og þess á milli afarháum eldgusum, er hvorttveggja mátti sjá víða úr héruðum langt í burtu. Hvar sem dró í dæld nokkra og hraunrennslið stöðvaðist, skændi það að ofan einsog heita mjólk, varð skán sú eða börkur að vörmu spori svartur og víða 1 og 2 feta þykkur; þegar full var orðin dældin, eða rennsli kom á ný, sprakk skorpan þá í ótal stykki, og var þá líkt að sjá, einsog þegar stór vatn ryður sig með stórísjaka gangi í leysingum. Stundum rennur eða fjarar undan, svo þá myndast ýmislegar holur og hellrar, hverra hliðveggir og rjáfur verða líkt sem glasseruð, með droptöppum og margskyns fögru bíldhöggvara verksmíði. Þegar þá allt stanzar og eldflóðið hefur meira og minna undan fjarað, storknar það að síðustu og verður þá sem snotrasta steingólf. Á mörgum stöðum uppkomu nú smærri eldvörp eða borgir í hrauninu sjálfu, sem á eptir verða sem uppmjó, stærri og smærri fjárbyrgi, kringlótt í lögun, hol innan og glasseruð með allra handa myndum og sléttu steingólfi að neðan og dyrum á sumum einhversstaðar út úr sjer, hvar hraunflóðið hafði útrás lengi vel. Meðan brann blossaði upp úr þeim stöðugur logi, úr hverjum glóandi klessur spýttust hátt í lopt upp, duttu niður hálfstorknaðar allt um kring, varð þetta um síðir svo hátt sem smá fjöll. Skrolldu þessar brunnu hrúgur ofan á, runnu fram með aðalhraunflóðinu, stundum bráðnaðar niður í það aptur og á ýmsan hátt um-

veltust, sprungu ásamt áðurnefndum berki sundur í ótal stykki stór og smá o. s. frv. Þann 19. og 20. desember stöðvaðist eldbálsrennslið skammt frá Reykjahlíðar bæ um hríð, er prestur með fólki sínu var ferðbúinn að flýja, sem þó dróst, þar eldflóðið bægði annan veg frá bænum, og er til nefnt að 4 mílur lands á lengd og $1^1/_2$ á breidd komnar verið undir hraun; voru þau síðan að loga hér og hvar, stundum minna en stundum, þangað til þ. 30. janúar 1729. Hófst þá hið síðasta eldkast úr opi nokkru, nálægt því er Leirhnúkur var. Gos þetta var eitt hið stærsta, er komið hafði, hljóp í gömlu hraunin með ákafasta eldgangi og leit svo út, að ríða mundi endahnút á eyðilegging sveitarinnar. Þ. 6. júlí flýði presturinn með öllu hyski sínu frá Reykjahlíð til annars bæjar mílu vegar frá; gat hann engu bjargað af eigum sínum, tók hraunið síðan 3 bæi hina næstu, en fólk komst aðeins af, þó engu sínu bjargað gæti. Þ. 7. ágúst tók eldhraunið bæinn í Reykjahlíð með túni, engjum, húsum og heyi og rann síðan þann 27. s. m. allt í kringum kirkjugarðinn, varð hraunið þar svo hátt, að langt bar yfir kirkjuna, hér um 4 til 5 álna, og er hér um 2 feta breitt gangrúm milli hrauns og garðs. Stóð samt kirkjan með sínum vígða reiti mitt í hinu geysilega eldflóði, og lýsir þar enn í dag dásamri vernd hins almáttuga. Þetta sama eldkast brauzt fram í Mývatn sjálft, er þá sýndist loga sem lýsi. Fylltist norðurhluti þess upp með hraun, og víða standa upp úr því háar hraunnybbur. Þann 15. september fór fyrst fyrir alvöru að kólna hraunið og storkna að ofan nálægt kirkjunni, svo menn voguðu þá fyrst að vitja um hana, því síðan fólkið flúði þann 6. júlí þorði enginn þar nærri að koma fyrir ógn þeirri, er á gekk. Varð nú aðeins komist á brú nokkurri, hvar hraunið var tekið að storkna, að kirkjunni og fanst þá, að hún var að öllu heil. Var samt til vonar og vara úr henni flutt allt hvað lauslegt var; höfðu aðeins einstöku hraunklessur slettst logandi inn fyrir kirkjugarðinn, sem enn stóðu þar jarðfastar sumarið 1794. Loksins rénaði þá þessi langsami og geysilegi jarðeldur og hætti að loga síðast í september þetta ár, en þótt mokkur og svæla við héldust lengi á eptir, og fram á 1730.

Um þessar mundir voru að sönnu stórharðinda ár, hvað ekki var að undra eptir svo tíðar eldsuppkomur, sem fyrst

var eptír Odds annál Eiríkssonar 1716 í Grímsvötnum[1]) og næsta ár eptír er talað um brunnið hafi í austurjöklum, en ekkí nefnt hvar helzt, og síðan þessar við Mývatn, þar ofan á frá 1724 til 1730; þó er mest tekið til vorsins 1728, hvar um Svarfaðardalsannáll (Eyjólfs prests á Völlum) tekur svo til orða: »að gamlir menn, er lengst mundu fram, hafi svo virt, að vorið 1728 mundi næst hafa gengið harða vori gamla, er var um allt land 1674«. Til þessara hinna síðari harðinda lítur án efa skáldið Þorlákur Þórarinsson í Þagnarmálum,[2]) þó hefur þessi ár enginn stórvægilegur mannfellir af eldsuppkomunum flotið.[3])

---

[1]) Grímsvötn munu eí víða finnast annarsstaðar nefnd en hér, og fáir munu nú á dögum sagt geta með sanni, hvar vötn þessi liggja.

[2]) Sjá Ljóðmæli prentuð á *Hólum* 1780.

[3]) Finsen um mannfækkun af hallærum bls. 109.

# BÆJANÖFN Á ÍSLANDI.

Eftir Finn Jónsson.

---

I.

Orðið »örnefni« er í daglegri ræðu haft um staðanöfn og bæjanöfn, ef bæjirnir eru í eyði, en ekki er orðið haft um byggða bæji eða ból, svo að jeg viti, og þó mætti það eins vel vera haft um þá, þar eð það merkir ekki annað en »frumnöfn«, eiginleg nöfn, og er jafnvel haft í fornu máli um mannanöfn. Í þessari ritgjörð verða tekin til greina ekki einúngis bæja nöfn, þeirra er byggðir eru, heldur og hinna, er ekki eru byggðir og hafa ekki verið byggðir ef til vill mörg hundruð ára, það er að segja örnefni, er fyrr eða síðar hafa verið bæjanöfn og vjer höfum getað náð í.

Önnur örnefni og staðanöfn eru í raun og veru jafnmikils virði, en það er hverjum einum manni ókleift að fást við þau; þau eru svo mörg í hverri sveit að þúsundum kann að nema, og oft jafnvel ekki nema fáir í hverri sveit sem þekkja þau til hlítar. Væri best, ef einn maður eða tveir í hverri sveit tækju sig til og söfnuðu þess konar nöfnum og sendu þau t. d. Landsbókasafninu í Reykjavík. Þó ætti helst að vera einn maður eða fleiri, sem hefðu nokkurs konar yfirstjórn þessarar söfnunar og sæju um, að til hennar gerðust hæfir menn og að sömu meginreglum væri fylgt alstaðar og sama skipulagi.

Þess konar nöfn hafa mjög mikla þýðingu, einkum vísindalega.

Á norðurlöndum hefur stundun þeirra farið mjög í vöxt

á hinum síðari árum. Alskonar nöfn hafa verið rannsökuð, og til stórra ritsafna stofnað. Eitt af hinum mestu og merkilegustu er »Bæjanöfn i Noregi« eftir Ólaf prófessor Rygh heitinn. Af þessu mikla ritverki eru út komin 12 bindi eða $^2/_3$ af því; nöfnin eða bæjirnir eru þar taldir í röð amt úr amti, byggð úr byggð, og engu slept; nöfnin eru skýrð eftir föngum. Meðan fundur háskólamanna í Kristjaniu stóð yfir í júní 1896 skýrði O. Rygh á litlum einkafundi, þar sem höfundur þessarar ritgjörðar var og staddur, frá verki sinu og varð tilrætt um alt málið; talaðist þá svo til meðal þeirra, er þar voru við, að leitast skyldi við að efla rannsókn staðanafna um öll norðurlönd, og hefur þegar verið unnið allmikið, bæði i Svíþjóð og Danmörk.

Hvað Ísland snerti, mintist jeg hvorstveggja, þess að til eru allgóðar og víðtækar jarðabækur, bæði i handriti og prentaðar, og hins, að allur þorri íslenskra bæjanafna er óbrenglaður og þau sjálf auðskilin. En þetta veit alt öðru vísi við að því er til norrænna (norskra), sænskra og danskra staðanafna kemur. Af þeim eru fæst svo, að þau sje auðskilin í fyrsta áliti, en flest svo að þau verða ekki rjett skilin og skýrð, nema þau sje til í eldri ritum, helst frá 12. og 13. öld eða svo gömlum sem hægt er að fá yfir höfuð. Það er því skiljanlegt að þessi nafnarannsókn er miklu nauðsynlegri — og líka erfiðari — í öllum öðrum norrænum löndum en á Íslandi, þar sem endíngarnar eru að mestu enn hinar sömu og málið haldist best. Þó eru það ekki fá nöfn er hafa breyst og afbakast, og það svo að þau verða ekki rjettskilin, nema þau sje til i hinni eldri mynd sinni í eldri ritum og skjölum; t. d. er Mýlastaðir afbakað úr Mýlaugsstaðir, Dúnkur stytt og afbakað úr Dúngaðarstaðir, osfrv.; margs konar stytting hefur átt sjer stað, t. d. Draghāls f. Dragahāls, Krossholt f. Krossaholt osfrv.; hver gæti vitað, hvað »Einholt« þýddi, ef það væri ekki ritað »Einiholt« í gömlum skjölum?, og svo er um ótal fleira. Nú þótt öll íslensk nöfn sjeu ýngri en staðanöfn í öðrum norrænum löndum (nema Færeyjum, munurinn ekki teljandi), er það þó víst, að þau eru allmerkilegur þáttur í sögu norrænna nafna, og vitaskuld svo, að honum má ekki sleppa. Mjer hefur því komið til hugar að taka íslensk bæjanöfn að sinni til svo fullkominnar athugunar sem hægt er — úr því að enginn annar hefur vakist upp til þess.

Fyrir mig — og auðvitað hvern annan — eru þau auðveldust viðureignar af því að heimildarritin eru yfirhöfuð allgóð. Tel jeg þar fyrst og fremst jarðabækurnar; jeg hef borið jarðabók þá, sem Jón assessor Johnsen samdi með mikilli nákvæmni og samviskusemi (og gaf út 1847), nákvæmlega saman við jarðabók þeirra Árna og Páls, í 11 bindum í Ríkisskjalasafninu; en þar vantar báðar Skaftafellssýslurnar, Múlasýslurnar og Barðastrandarsýslu; en sú er bót í máli, að uppkast af jarðabókinni um Barðastrandarsýslu er til í Árnasafni sjálfu (469 fol.) og nær hún yfir alla hreppana. Jarðabók þessi er eitthvert lángmerkasta rit um Ísland frá þeim tímum og ótæmandi heimildarrit í mörgum vísindagreinum, og er stórmikill skaði, að hún skuli ekki vera prentuð enn í heild sinni. Það er Íslendíngum, sem þykjast vera svo miklir menn í hverri grein, ekki vansalaust, að láta svo merkilegt rit liggja óprentað marga áratugina enn. Alþíngi ætti að veita árlegan styrk til að gefa það út uns fullprentað er.

I þessu máli er þetta rit merkilegast í fyrsta lagi fyrir það, að það er svo fullkomið í talníngu og það ekki einúngis byggðra bóla heldur og eyðikota og jafnvel tómra »örnefna«, er gátu bent á forna byggð. Það er auðsjeð að þeir fjelagar, og sjálfsagt á Árni sjálfur þar mestan þátt í og bestan, hafa gert sjer far um að grafa upp alt þess konar. Það er aðdáunarvert hvað það hefur tekist vel. Hitt er og ekki síður merkilegt hvað Árni að minsta kosti hefur látið sjer ant um að fá nöfnin sem rjettust; hann hefur oft sjálfur ritað við nöfnin í bókinni (sem er hreinrituð af öðrum) bæði hina rjettu mynd og þáverandi framburð. Þess vegna er jarðabók þessi einmitt svo merkileg fyrir oss í þessu máli. Þá eru auðvitað fornritin, Landnáma og sögurnar, ekki síður merkileg, og hafa þau verið notuð sem vera bar. Milliliður milli þeirra og jarðabókar Árna eru skjölin frá (13.) 14.—17. öld; þau hafa verið notuð að því leyti sem þau eru prentuð í Fornbrjefasafninu og þar talin í registrum. Það eru ekki ýkjamörg nöfn, sem þessi skjöl bæta við hin, sem finnast í sögunum og jarðabókinni, en þar finnast ekki ósjaldan hinar rjettu nafnamyndir, og því eru skjölin einkum svo merkileg — auk alls annars, sem í þeim felst. Það sem jeg get skýrt hjer, er helst nöfnin sjálf málfræðislega — eftir eðlilegri flokkun þeirra, og þar með gefið yfirlit yfir þau í heild sinni; þótt

eitthvert nafn kunni að vanta,[1]) sem vel getur komið fyrir, þá gerir það minna til, því má þá bæta við í flokkinn sem það heyrir til og skjóta því inn eftir skyldleika sínum við hin. Hitt get jeg ekki farið út í að greina nöfnin eftir aldri þeirra eða rannsaka hvað gamall hver bær er; það er önnur rannsókn út af fyrir sig, og væri æskilegt, að hún væri gerð að svo miklu leyti sem hægt er. Það er auðvitað, að bæjir eða kot, sem ekki eru í Árna jarðabók en t. d. í Johnsens, eru sjálfsagt eða að öllum líkindum ýngri en ævi Árna. Þess skal getið, að t. d. í Landnámu finst ekki eitt einasta »kot« — sem sjálfstætt bæjarnafn. Þau eru víst öll ýngri »kotin« á Íslandi en fornöldin, og votta best afturför þá, sem gerst hefur á miðöldum landsins. Mætti og um það efni gera sjerstaka rannsókn. Og svo er um fleira í þessu máli.

Ekki má það kallast óþarft að skoða bæjanöfnin málfræðislega og skýra hina rjettu mynd þeirra og stöfun. Því miður eru menn oft með skýríngartilraunir, sem hvorki hafa nægilega þekkíngu nje heimildarrit, og það sem verra er, menn koma stundum með kátlegar skoðanir á því hvað »eiginlega« sje rjett mynd. Eins og vafi geti leikið á því, að sú myndin sje ein rjett, sem nafnið hefur haft frá því að það og bærinn varð til. Til dæmis halda sumir, að myndir sem Eiðar, Hrísar osfrv. sje »afbökun« (af *Eið*, *Hrís*), en því fer fjarri; þetta, að hvorugkynsorð breytist í karlkyns- eða kvennkynsorð í fleirtölu, þegar það verður eiginnafn, er málvenja og regla, hreint og beint lögmál í túngunni, sem rekja má svo lángt aftur í tímann sem sögur eru til. Það væri óðs manns æði að vilja fara að breyta þessu og öðru eins. Eins er með fleiri orðmyndir; t. d. þegar bær heitir *Hlaðnir* og er ekki kallaður öðruvísi af ábúendum og fólki í sömu sveit, þá heitir bærinn auðvitað Hlaðnir, en hvorki *Hlaðir* nje enn síður *Hlöður*. Orðmyndin er til orðin svo: eignarfallið var *Hlaðna* og kom oft fyrir; frá eignarfallinu hvarf *n* yfir í hin föllin og festist þar. Slíkt er algengt. Líka var oft *n* skotið inn í eignarfalli fleirtölu (eftir »veiku« beygíngunni) og það mjög snemma (t. d. í *fylki*, *fylkna*; nú getum vjer ekki sagt annað nje skrifað en *sólna*; vjer segjum aldrei *sóla*); þetta var mjög oft gert í flt. af *völlur*, *vallna*;

[1]) Þar er helst um nýbýli frá síðari og síðustu tímum að ræða.

þessi mynd hafði aftur þau áhrif á hinar myndirnar, að sagt var í nefnifalli *Vallnir*, og kemur það oft fyrir alstaðar um land. Þó sýnist þessi mynd ekki hafa verið al- og eingild og er ef til vill víða horfin nú; jeg kann ekki um það að segja. Þó kæmi mjer ekki á óvart, ef hún í vissum sveitum væri hin eina orðmynd, er höfð væri, og þá væri sjálfsagt að halda henni; það er ekki rengra en að segja t. d. *blæstri* (með innskotnu *r*).

Reglan ætti að vera sú að fylgja sem mest framburði þeim sem hafður er í sömu sveit og halda þeim myndum í riti, sem eru hafðar í tali, þótt »afbakaðar« sjeu eða t. d. styttar; skrifa t. d. *Dúnkur* f. *Dungaðarstaðir* og þesskonar. Hinsvegar má vel fyrir því t. d. skrifa *r* eftir uppruna í eignarfalli, þar sem það heyrist ekki (í samsetníngum), svo sem í *Barkastaðir*, og skrifa *Barkar-* eins og áður tíðkaðist og rjett var. Eins teldi jeg og rjettast, að ritað væri *Mýlaugsstaðir*, eins og bærinn hjet, en ekki *Mýlastaðir*, eins og nú er framborið; en takmörkin eru hjer ærið hæpin. Hjer á eftir munu menn geta sjeð mörg dæmi lík þessu.

## II.

Þess var getið, að íslensk bæjanöfn væru allúng í samanburði við elstu bæjanöfn í öðrum norrænum löndum. Hin elstu eru vitanlega frá lokum 9. og upphafi 10. aldar, og er vafalaust, að þau svara til þeirra nafna, er þá voru alltíðust í Noregi og svo að segja með mestu lífi, þegar þau nöfn eru frá skilin, er gátu ekki átt sjer stað á Íslandi vegna þess að landslag var öðruvísi, enda verður þá og helst að bera staðanöfn frá vesturströnd Noregs saman við hin íslensku, því að þaðan voru mestir fólksflutningar til landsins. Í Noregi eru þau nöfn talin einna elst allra, er enda á *-vin*, og *-heimr* (eða eru þessi orð ósamsett). Telja fróðir menn, að þessi nafnagift sje eldri en Íslands bygging, og hafi þá ekki verið til lengur; þetta mun eiga sjer fullkominn stað að því er *vin*-nöfnin snertir, því að þau eru ekki til á Íslandi, en *-heimr* er til í ekki svo fáum nöfnum, eins og síðar mun sjá mega, og hefur því verið lifandi nafngiftarliður á landnámsöld. Ennfremur ætla menn að *-staðir* og *-land* hafi ekki

verið allmikið haft í nafngiftum fyrr en skömmu fyrir víkíngaöld, en þá er víst að þessir liðir voru almennir, ekki síst hinn fyrri. Aftur á móti er *-ruð* talið úngt, valla eldra en frá því um 1000 eða þar á eftir. Þetta getur verið orsökin til þess að á Íslandi er ekki til eitt einasta *ruð*-nafn; en hitt er ekki síður sennilegt, að orsökin sje sú að eiginlega voru öngvir skógar til að ryðja, líkt og í Noregi, eða að landið var nóg til að byggja, þótt ekki væru skógar ruddir til þess.

Í Landnámu er, eins og lög gera ráð fyrir, fjöldi bæjarnafna, en auðvitað ekki nema lítill hluti allra þeirra, er til voru þegar á landnámsöld. Þess vegna er hæpið að leiða ályktanir af þeim um skör fram. Þó er það valla efamál, að Landnámunöfnin gefa oss nokkurnveginn glöggva og rjetta mynd af bæjanöfnum yfir höfuð að tala. Og þá er það einkennilegt, að *staðir*-nöfnin eru lángflest og lángt bil til þeirra er þá eru næst; þau eru um 125 að tölu; þar næst koma *fell*- og *holt*-nöfnin, rúm 30, svo *á*-, *nes*-, *höll (hvál-)* nöfnin milli 20 og 30 hver, öll önnur þaðan af færri. Nú eru *staðir*-nöfnin um 600, ef eintalin eru, en nú kemur sama nafnið oft víða fyrir, svo að óhætt má tvöfalda þessa tölu, eða alt að því, og er það lángtum hærri tala en tala nokkurra annara nafna (að kotunum frátöldum).

Hin íslensku bæjanöfn flokkast aðallega í 2 meginbálka: I þau nöfn, er eiga við og leidd eru af byggíngu og bólfestu, II náttúrunöfn, eða nöfn sem dregin eru af nöfnum á einhverju í náttúru landsins eða samheiti við þau, og eru þau fjarska margvísleg; má skifta þeim í flokka eftir skyldleik og mun þess verða gætt hjer. Auk þess eru þó nokkur nöfn, sem eru fyrir utan þessa 2 bálka, þar á meðal og nokkur, er torskilin eru.

## III.

## Nöfn er eiga við og leidd eru af byggíngu og bólfestu.

Áður en þau nöfn, er eiginlega koma hjer til greina, eru talin og rannsökuð, skulu 2 nöfn eða nafnliðir teknir

fyrir, sem eru nokkuð út af fyrir sig, það eru orðin *land* og *heimur.*[1])

**land.**

*Eint.* Land (austara — vestara) XIX.
*Flt.* Lönd III. VI (2). XXI.

*Eint.*
eftir legu
og nafnið dregið þaraf:

Áland (syðra — ytra e. fremra) XIX.
Bjargaland XIX.
Dalland XX.
England VI. VII (afbakað í Ein-; eng = engi).
Eyrarland XV. (litla — stóra) XVII.
Giljaland XI.
Grundarland XVI.
Hallland (svo AM af hallur = hallandi) XVIII.
Hamarland XII.
Helluland XVI.
Hjallaland XV. XVI.
Hólaland XX.
Hólsland IX. XIV.
Hrísaland (»nú Hrisakot«, AM) XVIII.
Kambsland VII.
Kelduland XV. XVI (2).
Laugaland XII. XIII. XVI. XVII (2) (syðra — ytra).
Malland XVI.
Ós(s)land XVI.
Selland XV (e. Seljabrekkur AM). XVIII.
Seljaland II. IV. XI. XII. XIII (3).
Skriðuland XVI. XVII. XVIII.
Sævarland (Sjávar-) XVI. XIX.
Tjarnarland XX.
Vallnaland (-sel) XV.

Efstaland XVII.
Framland XVII.
Heimaland V.
Instaland XVI.
Miðland e. Miðskriðuland XVII.
Neðstaland XVII.

Brúarland XVI (2). XVIII (? e. Brúar).

eftir eiginlegleika og stærð:

Bláland XV.
Ljósaland XX.
Varmaland XVI (Land AM; sbr. Vermsla- DI II).
Litlaland V.

[1]) Tölurnar aftan við nöfnin merkja sýslur landsins, I Austur-Skaftafellss., II Vestur-Skaftaf., III Vestm.eyjar, IV Rángárv., V Árness, VI Gullbr. og Kjósar, VII Borgarfj., VIII Reykjavík, IX Mýra og Hnappad., X Snæfellsness, XI Dala, XII Barðastr., XIII Ísafj., XIV Stranda, XV Húnav., XVI Skagafj., XVII Eyjafj., XVIII Suður-Þingeyjar, XIX Norður-Þingeyjar, XX Norður-Múla, XXI Suður-Múla.

Smáland XVI.
Brattland (e. Þverárdalr e. í Þverárdal) II.

Búland II.

eftir manni:

Grímsland XIX.
Meyjarland XVI.

eftir dýri:

Geitland VII.

eftir ýmsu:

Hörgsland II.
Kirkjuland IV.
Klukkuland XIII.
Krossaland I.
Geirland II.
Kjalarland XV.

Kambioraland IX (AM; örnefni í Miklaholtshreppi; = Kambbjóraland?).

*Flt.*

eftir legu:

Hraunlönd X.
Neslönd (syðri — ytri) XVIII.

eftir manni:

Gautlönd (og Litlu G.) XVIII.

Hjer við má bæta:

Nýlendi XVI. XVII.
Nýlenda VI. VII. XV.

Flest af þessum heitum koma fyrir í Skagafj. (um 16), og í næstu sýslum (Eyjafj. og Suður-Þing. hjer um bil jafnmörg til samans, og í Húnav. um 7), svo færri og stök í hinum sýslunum, af þeim eru þau flest í Vestur-Skaft., Isafj. og Norður-Þing, um 5 í hverri.

Hvað gefið hefur tilefni til þessara nafna, er ekki alveg víst. Í Noregi er fjöldi af þeim, einmitt á vesturströndinni. Þó hyggur Rygh, að ísl. nöfnin sjeu allúng og standi ekki í beinu sambandi við hin norrænu. Þetta er þó vafasamt og því fremur, sem fyrri liðurinn í ísl. nöfnunum (nafn á landslagshlutum og þesskonar) svarar alveg til hinna norrænu; ein 3 finnast í Landn. (Bú-, Geir-, Geit.-). Mjer er því nær að halda, að þessi nöfn standi í nánu sambandi við frændur sína í Noregi; skyldi ekki nafnið stundum standa í sambandi við, að þar sem bærinn stendur sje flatt víðlendi í kríng? Mig vantar gögn til þess að dæma um þetta. Auðvitað þarf nafnið ekki að merkja annað en það land (eða lönd), sem heyra einhverju (eða einhverjum) til, og það mun það merkja sumstaðar (einkum í fleirtölunöfnunum).

**heimr.**

Þetta nafn þykir, eins og drepið var á, allmerkilegt í Noregi og talið með elstu nafnliðum þar. Þó er auðsjeð, að það er ekki rjett að telja það úrelt til nafngiftar á 9. öld. Það hittist á Hjaltlandi (sjá J. Jakobsen, Aarbøger 1901 s. 104 og frv.), en ekki í Færeyjum; á Íslandi er það tíðara en menn hafa ætlað, sem sjá má af eftirfarandi lista:

*Eint.*

eftir legu:

Meðalheimr XV. XVI. XVIII.

eftir eðli:

Vindheimr (e. Mófellsstaðakot) VII (J. hefur -ar). XV (Grett.).
Bliðheimr VI.

eftir Baldri:

Baldrsheimr XVII. XVIII.

eftir öðru:

Gandheimr VII.

*Flt.*

eftir eðli:

Sólheimar II (e. Loðmundarhvammur; = eystri — ytri). V. XI. XIII (2; annar líka kallaður: Skerbrekkur e. Þorgerðarbær). XV. XVI (4). XVII (e. Hólastekkr).
Vindheimar V (-r AM). XII (2), XVI. XVII (neðri; efri — neðstu).

Manheimar XI.

Við alt þetta má bæta nafninu *Undirheimar* X (DI III), sem þó ekki er bæjarnafn. Öll þessi nöfn sýnast vera gömul og sum eru það svo sanna má. Merkíngin í orðinu *heimur* er ljós; alstaðar er víst víðlendi og útsjón mikil, svo er það t. d. frá bænum Baldursheimi, mikil og fögur útsjón og fjallahríngurinn alt umhverfis. Nafnið er efalaust fornt og frá heiðni; nafnið Breiðablik hefur vakað fyrir þeim, sem gaf nafnið. *Sólheimar* eru sólsælir allan daginn, þar sem jeg þekki til. Hvernig á nafninu *Gandheimur* stendur, veit jeg ekki; *gandur* þýddi töfrastafinn, sem völur og seiðkonur notuðu við atferli sitt. *Manheimar* er rángt að rita *Mann-* (J); fyrri liðurinn er eftir áreiðanlegri upplýsíngu borinn fram *mān*; nafnið er víst heiti eftir Manheimum (í Heimskrínglu t. d.). Merkilegt er það, að 4 af þessum heim-nafna bæjum heita líka öðrum nöfnum, sem heldur eru rýrandi, og ber það líklega vott um þá afturför, sem síðar verður vart. Alls og alls eru þessi nöfn einhver hin merkilegustu.

IV.

Vjer hverfum nú að þeim flokki, er til heyra þau nöfn, er sjerstaklega eiga við bólfestu og byggð.

Þar er auðvitað fyrst orðið **bær**. Þessi orðmynd hefur orðið innlend á Íslandi og hin eina tíðkanlega, þó að *býr* kunni að koma fyrir í fornum handritum á stöku stað. Á Íslandi er hvergi neinn *Býr* eða *-býr*. Kemur þetta vel heim við það, að einmitt *bø* er sjerstaklega títt vestanfjalls í Noregi. Orðið merkir eiginlega ekki annað en byggð, ekki eitt einstakt hús eða »bæ«, og er því oft haft um svæði eða víðlendi, þar sem menn hafa sest að. En auðvitað var oft þar ekki um annað að tala en eins manns hús eða húsagarð, og var því ekkert eðlilegra en að merkíng orðsins þrengdist og það haft um einn »bæ« — og sú varð merkíngin á Íslandi algengust. Víðtækari merkíngin er enn í hjeraðsnafninu »Saurbær« í Dölum.

Nöfn eru þessi:

*Eint.*

Bær I. III (austasti — syðsti). VI. VII. XI. XII (2). XIII. XIV (3). XVI. XVIII (= Úlfsbær).

*Flt.*

Bæir XIII.

eftir legu:

Ábær (e. Árbær AM, Ábær DI II). XVI (sbr. »á millum á« DI II).

Árbær IV (3). V (= Á í L.) VI. XIII (= Heimari búðir AM).

Brekkubær X. IX (e. Brekka AM).

Dalbær II (eystri — ytri e. vestari) V (2).

Dalabær XVII (= Dals- í Reykd.).

Kotdalabær XIV.

Heiðarbær V (Heiða- L) IX. XIV. XV.

Hólabær XV.

Hraunbær II.

Laugarbær XIII.

Lindarbær IV.

Melbær VI.

Nesjabær (e. Nesin) XIII.

Ósabær II (DI II).

Rauðholtsbær V

Rimabær (= Rimakvíar) X.

Skurðbær II.

Saurbær II. IV. V (2). VI (og Litli S.). VII. XI (= Torfnes L). XII. XV (3). XVI (3). XVII (3). XX;

sbr. Búðabær (= Búðir; AM) X.

Hábær (AM: Hái-) IV.

Austrbær V.
Efstibær VII.
Miðbær III (2; annar »nyrsti«). V. IX. XVII. XXI (efri — neðri).
Neðribær XII. XVIII.
Neðstibær XV.
Norðrbær III (2). VI.
Norðr-Nýibær IV.
Suðrbær IX.
Syðsti (e. Syðri) bær XVII.
Vestrbær IX.
Uppibær XVIII.
Útibær XVIII.
Yztibær (e. Ytri-) XVII.

eftir útliti og eiginlegleikum:
Fagribær XVIII.
Glæsibær XVI (2). XVII.
Hvítibær XV.
Hlaðbær III (2; mið — austasti — vestasti 2).
Hraukbær XVII.
Rofabær I.
Þykkvibær II (2; efri — syðri). IV.
Miklibær XVI (2).
Stærribær V.
Litlibær VI (2). VIII. IX. XI. XVI.
Minnibær V.

eftir aldri:
Fornibær VII. XIII (2).
Gamlibær II.
Nýibær II (2). III, IV (3). V (3). VI (4; litli — stóri). VII (2). XIII. XVI. XVII. XIX (2). XX. — Norðr-Nýibær IV.

eftir mönnum:
Arabær V. XIII (e. Ytrihús).
Ásmundarbær III.
Bentsbær X (-hús AM).
Geirmundarbær VII.
Gíslabær X.
Grímsbær VIII.
Hallsbær X.
Illugabær XVIII (tómthús).
Kollabær (stóri — litli) IV.
Ormsbær X. XIV.
Steinmóðarbær IV.
Sumarliðabær IV (= Brekkur L).
Tobbabær (e. Tjarnarkot e. Efra Víti) VII.
Torfabær V.
Úlfsbær (= Bær AM) XVIII.

Helgubær (= Helgusandar) IV.
Þorgerðarbær (e. Skerbrekkur e. Sólheimar) XIII;
Smalabær III.

Gaulverjabær V.
Ossabær (Vorsa- AM) IV.
Vorsabær (Ossa- alm. AM) V (3).

eftir ýmsu:
Skólabær VIII.
Kirkjubær II. III. IV (vestari — eystri). XV. XVIII (e. Rófugerði AM). XX.
Krossbær I.

Draumbær III.

Glaumbær VI. X (2). XV. XVI. XVII (2). XVIII.
Skálmarbær II (eldra nafn þessa bæjar var ef til vill Skáldabær, sbr. DI II).

*Ábær* er eflaust upphaflegra en *Ár-*, sbr. skýrínguna í DI. Hvað *Hraukbær* merkir, er mjer óljóst. Hvað *Ossa-*, *Vorsabær* snertir, hefur AM, eins og getið var, myndina *Vorsa-* (J *Ossa-*), um bæinn í Rangárvallasýslu (Njáluhandrit hafa flest og mest *Ossa-*), en um bæina í Árnessýslu segir hann, að þeir kallist »almennilega« *Ossa-* (J hefur aðallega *Vorsa-*, og í L. er skrifað *Vorsa-*). Nafnið er = Vorsar, íbúar Vors í Noregi (sbr. nú »Vossevangen«).

**garðr.**

Þetta nafn bendir sjerstaklega á um- og afgirt svæði til byggíngar eða ræktunar, og getur þar að auk auðvitað merkt girðínguna sjálfa (sbr. nöfnin »eftir tilgángi«). Það er ekki ástæða til að greina nöfnin frekar í sundur eftir þessu. Þau eru:

*Eint.*

Garðr V. XIII (meiri — minni; Stóri — Litli AM). XVI (3). XVII. XVIII (3). XIX (2). sbr. Annar garðr I.

*Flt.*

Garðar II. III. IV. VI (2; ann. = Stórgerði). VII. IX (syztu — yztu, ytri AM). X (2; syðri — ytri). XIII (3).

eftir legu:

Ásgarðr II. V (2; Nyrðri Á.). VII. XI. XV (2).
Ásgarðar XVII.
Hamragarðar IV.
Hleinargarðr XXI.
Hæðargarðr II.
Borgargarðr XXI.
Leirárgarðar (Litlu — Stóru, AM) VII.
Núpagarðr II.
Háfigarðr III. X.
Austrgarðr XII (-ar AM). XIX.
Miðgarðar IX. XVII.
Norðrgarðr II. III. IV. V.
Útgarðr IV.

eftir tilgángi:

Engigarðr II.
Engjagarðr V.
Túngarðr XI.
Vatnagarðr IV. VI (2).
Merkigarðr XVI.

Bygggarðr VI.

eftir efni:

Grjótgarðr XVII.
Torfgarðr XVI.

eftir stærð:

Mikligarðr XI. XVI. XVII. XIX.

eftir mönnum:

Oddagarðr V.

Sveinagarðar XVII.

Kóngsgarðr XV.

Geirhildar (e. Geirreiðar- AM) garðar XVII.

eftir ýmsu:

Beingarðr XVI.

Félagsgarðr VIII.

Hleiðar (Hleiðrar- L, alm. Hleinar- AM) garðr XVII.

Horngarðr (e. Hof-) XVIII.

Húsagarðr IV.

Hvalgarðr XV.

Hofgarðar X.

Sviðugarðar (Sviðí-, sumir segja að fornu Svæðis- AM) V.

Ef *Hleinar(garðr)* í Suður-Múl. er ekki afbakað úr *Hleið(r)-ar-*, eins og sýnist hafa átt sjer stað með *Hleiðar(garð)* í Eyjafirði (sbr. aths. Árna), ber að leiða það af *hlein* (flatt berg eða bergsnös). Nöfnin *Odda-* og *Sveina-(garðar)* álít jeg samsett með mannanöfnunum *Oddi* og *Sveini*; þó má skilja þau á annan veg. Þriðja nafnið er líklegast rjett *Geirhildar-* og *Geirreiðar*-afbökun úr því (nema *Geirríðar-* sje það upphaflega),

*Hleið(r)argarður* í Eyjafirði er tæplega annað en heiti eftir hinum alfræga *Hleiðrargarði (Hleiðr)*, konúngssetrinu á Sjálandi; *hleiðr* merkir upphaflega tjald (e. tjaldbúð), en sú merkíng var ókunn á Íslandi, og því er skiljanlegt að orðið afbakaðist í *Hleinar-*. Hvort rjettara sje *Horn-* e. *Hof-* (nafnið er hjá AM einum), get jeg ekki skorið úr; fyrri myndin er þó sennilegri. Fyrir *Sviðu-* hefur AM *Sviði-*, en bætir við, að »sumir segi að fornu kallað *Svæðis-*«. Hvort upphaflegra sje læt jeg ósagt; nafnið finst ekki í DI.

Þessi *garð(a)*-nöfn finnast dreift í öllum sýslum nema Austur-Skaft., Strand. og Norður-Múl. Í Skag. og Eyjaf., Ráng., Vestur-Skaft. og Árness. er flest af þeim, þar næst í Húnav., Norður-Þíng. osfrv.

**ból.**

Orðið merkir ekki annað en bú eða bústað; og er fremur fátítt, eins og í Noregi (sbr. *bæli*). Ósamsett kemur orðið fyrir sem nafn:

Ból V. XV.

eftir legu og eðli:

Laugaból XIII (3). XVIII (v.l. -sel = Laugarhóll).
Sæból XIII (3).
Sléttaból II.

Efraból XIII. XIV.
Efstaból XIII.
Yztaból XVIII (DI II).

eftir brúkun:

Geitaból XV.
Hjarðarból X.
Kvíaból II.

Kirkjuból II (DI II). VI. VII. IX (2). XII (3). XIII (9, + Litla K.). XIV (2). XXI (4).
Selakirkjuból XIII.

eftir stærð:

Aðalból XV. XX. XXI (Þ. Sið.).
Breiðaból XIII. XVIII.
Stóraból I.
Mjóvaból XI.
Litlaból V.

eftir mönnum:

Hörðuból XI. Hörðabólstaðr, Lax.

Það er lítið að athuga við þessi nöfn, og þau eru öll vel skiljanleg, nema Hörðuból; þetta er eflaust afbakað úr Hörðaból og s. s. Hörðabólstaðr í Laxdælu. Þar segir, að Unnr hafi gefið Herði Hörðadal og hann hafi búið á Hörðabólstað, en *Hörða* getur ekki verið leitt af *Hörðr*, heldur er eflaust af *Hörðar*, og nafnið er þá samskonar sem *Gaulverjabær*, *Ossabær* og bærinn þá (og dalurinn) kendur við menn frá Hörðalandi, sem fylgdu Unni út, þótt þeirra sje ekki getið.

Sjerstaklega er það merkilegt, hvað *-ból* kemur oft fyrir í Ísaf. (alt að 20 sinnum, eða nærri helmingur allra nafnanna), þar næst er Suður-Múl. með 5; í nágrennissýslum Ísaf., Barð. og Strand., eru þau þarnæst flest, og svo í Húnav. (3 í hverri), svo dreift. Ennfremur sjest, að samsetníngin *Kirkjuból* er svo tíð, einmitt í Barð. og Ísaf., hvernig sem á því stendur.

**bæli, býli, býla.**

Öll þessi orð eru leidd af *ból* og öll sjaldhöfð (tíðhafðara er *bøle* í Noregi). Þau eru:

Bæli XIII.

eftir legu:

Marbæli XVI (2). XVII (= Hanatún).
Miðbæli IV. V. VII (AM; -býli v.l.)

Yztabæli IV.

Snæbýli II.
Svarbæli (svo AM, J) XV.
Svaðbæli IV (Svart- e. Svarf-AM).

| eftir manni: | eftir erni: |
|---|---|
| Bergþórsbæli VII. | Arnarbæli IV (Bisk. I). V (2). |
| Pétrsbýli IV. | IX. XI. XVIII. |

*Snæbýli* er víst dregið af snjókomu (fannfergi). *Svaðbæli*, sem nafnið nú kvað hljóða, er afbökun úr *Svart-* eða *Svartsbæli*; svo er nafnið skrifað (á báða vega) í brjefi (DI VII), og fyrri liðurinn er þá mannsnafnið Svartur; enda hefur og AM rjettari myndina (en aðra ránga með). Hvað Svarbæli snertir, er ekki ólíklegt, að eins standi á með það; þó mætti skýra það á fleiri vega (sem *Svarðbæli*, eins og nafnið er skrifað 1861, en þetta er þó ósennilegra). Hvort *Arnarbæli* er alstaðar að skýra sem dregið af *erni* eða af mannsnafninu *Örn* er alveg óvíst, líklega helst af hinu fyrra.

Víst má segja að margar þessar jarðir sjeu litlar (og sumar taldar hjáleigur).

*býla* kemur aðeins einu sinni fyrir: Býla (litla — stóra) VII, hjáleiga.

Flest af þessum nöfnum eru í Ráng., Árness. og Borg. (alls 10 af 19), 2 í Skag.

**bú**

kemur undrasjaldan fyrir og ekki hef jeg fundið nema:

Nautabú XVI (2), Geitabú XVII (?; DI II) og Guttabú XVI (Gutti af Guttormur), alt í Skagafirði, nema Geitabú, sem þó er ekki víst um.

**búð.**

Af sama stofni sem undanfarin orð og merkir vist eða dvöl á einhverjum stað og svo hýsi, er verið er í, helst þá haft um stundardvalar-stað, svo sem um »verbúðir«, »þíngbúðir« og því um líkt, svo og um »kaupmannabúðir«, en þær voru upphaflega líka aðeins um nokkurn tíma (t. d. sumartímann), þángað til þær (síðar) urðu stöðug kaupmannahús með íbúð og sölu varnings alt árið. Við sjó, í fiskiverum er fjöldi slíkra búða og munu þær taldar við enda þessa ritlíngs allar í einu lagi; það registur getur haft sína þýðingu. Hjer skulu taldar aðrar »búðir«, þar á meðal þær, er kallaðar eru

hjáleigur í jarðabókunum, þótt þær sjeu eiginlega ekki annað en verbúðir að upplagi.

*Eint.*

Búð IV. XIII.

*Flt.*

Búðir X (2; [1]) »kallast äf summum Búðabær«, AM; XIII (ytri). XIX. XXI.

eftir legu:

Ásbúðir XV.
Bakkabúð VI. VII. X (5; [1]) innri; litla; [2]) nyrðri — vestri). XV.
Balabúð X.
Brekkubúð VI (-flöt J; bæði nöfn í 1861; v. AM).
Garðsbúð X.
Hjallabúð X.
Hólbúð X.
Hólsbúð X.
Hraunabúð XVI.
Höfðabúð VII. XVI.
Klettabúð X.
Melabúð X.
Móabúð X.
Tangabúð VI.
Tjarnarbúð XV.
Traðabúð X.
Vatnabúðir X.

Heimari búðir (= Árbær) XIII.
Gerðisbúð VII.
Suðurbúð X.

eftir bæjum:

Bakkakotsbúð VII.
Býlubúð X.
Bæjarbúð V.
Fjósakotsbúð VII.
Heynesbúð VII.
Kallsárbúð XVII.
Krossabúð X
Skarðsbúð XV.
Ögrsbúð X.

eftir eiginleikum og aldri:

Lágabúð X.
Seglbúðir II (eldra- Sel- DI II).
Þrengslabúð (e. -skemma) X.

Nýjabúð X (3).

eftir mönnum:

Arabúð X.
Árnabúð X (2).
Ásgrímsbúð X.
Bárðarbúð X.
Bergþórsbúð X.
Bjarnabúð X.
Björnsbúð X.
Brandsbúð X.
Einarsbúð X.
Eiríksbúð X.
Hallsbúð X.
Hinriksbúð VII.
Kollabúðir XII.
Másbúðir (e. Nesjar).
Oddsbúð X (2).
Pétrsbúð X.
Skeggjabúð X.
Steinsbúð X.

Torfabúð X.
Valdabúð X.
Þórðarbúð X.
Þorgeirsbúð X.

Skáldabúðir V.
Skallabúð XV.

Skallabúðir X.
Sútarabúðir XIII.

Hlöðkubúð XVII.

Snoppubúð X.

Við þessi nöfn er annars lítið að athuga; þau skýra sig allflest sjálf. *Seglbúðir* í Vestur-Skaft. eru svo nefndar í jarðabókunum, en það nafn er eflaust afbakað úr *Sel-*, í brjefi 1343 (DI II), af *sel*, og ætti þá að standa á eftir *Kallsárbúð* (sbr. bæjarnafnið Sel í sama brjefi). Hvort *Skálda-* og *Skalla-* sjeu eiginnöfn, eða viðurnefni, verður auðvitað ekki sagt. *Sútarabúðir* (»örnefni« AM, »hjáleiga« 1861; ekki nefndar í J) er einkennilegt nafn og sýnir tilveru skinnaverkunar á fyrri öldum, löngu fyrir daga Árna. *Hlöðku-* gæti verið gælunafn af Hlaðgerður. *Snoppu-* gæti verið viðurnefni kvennmanns; en það getur líka ve·ið tekið eftir landslagi.

**staðir.**

Þetta fleirtöluorð er, eins og minst var á, lángtíðast frá landnámstíð í bæjanöfnum; merkíngin er ljós (rótin í orðinu s. s. í að *standa*; blettur þar sem eitthvað stendur, er að staðaldri?). Um íslensku staðanöfnin gildir alveg hið sama sem Rygh segir um hin norrænu: »aldrei ósamsett, heldur aðeins höfð sem viðliður . . . Orsökin til þess að fleirtalan er ætíð höfð, er enn þá ófundin«. Geta mætti þess til, að fleirtalan ætti við sundurlausa byggíngu, þ. e. greiníngu hinna einstöku húsa, er þó öll heyrðu saman og voru eins manns eign; gat þá verið nokkuð lángt bil á milli. Telur Rygh að þetta nafn sje ekki miklu eldra en víkíngaöldin, en ómögulegt er að segja, hvað gamalt það er. Líklegt þykir mjer að það sje töluvert eldra en frá því um 800 t. d., á Hjaltlandi er nafnið títt. Í Danmörku er *sted* (eldra *stath* eða líklega *stathæ[r]*, sbr. *Hringstaðir*, nú Ringsted osfrv.) altítt um alt land, í Svíþjóð sömuleiðis. Fyrri liðurinn er nær því ætíð mannsnafn; og svo er það og með íslensku nöfnin, er nú skulu talin:

eftir kallmönnum:
Agnúa- XVII.
Álfs- V. XIII.
Ána- IX. XV. XVI. XVII. XX. XXI.
Andróa- VII (mun vera s. s. Andra- J).
Annmarka- XIII.
Ara- sjá Hara-.
Arnar- V. X (efri — neðri). XVII. XVIII (2). XIX.
Árna- XVI (Arnar AM, og Minni A.). XX.
Árgeirs- (e. Asgeirs-) XVIII.
Arngeirs- IV.
Árgils- (Arngeirs- AM) IV.
Arnhalls- XX. XXI (Arnhills-, -halls-).
Arnórs- XII (-þórs AM). XX.
Ásbjarnar- IX. XVIII.
Ásbrands- XX. XIII (Háv. s.).
Ásgauts- V. VI.
Ásgeirs- XVIII. XXI (sbr. Argeirs-).
Ásgils- XVIII.
Ásgríms- XVI. XX.
Ask- IV (Askers-; DI II). VI.
Askmanns- XII (Gull.).
Ásláks VI (ytri — innri, stóru — minni AM) VI. XVII (2).
Ásmundar- IV. VI. XIX (2).
Ásólfs- V.
Atla- XIII. XVI. XVII.
Auðkúlu- (e. Auðkúla, Kúla) XV.
Auðólfs- XV (Óðuls- AM). XVIII.
Auðs- (1698 kallað Aur-) VII.
Auðunar- X. XV.
Auga- VII.
Avalds- XV (DI III).
Bálka- X. XV (2).
Barða- X. XV.
Bárðar- XVIII. XX.
Barka- XI. XIX (e. Bakka-).
Barkar- IV. XV (2; Barka- J 2).
Báru- (e. Barugs- e. Baruchs- AM) VII.
Bassa- XIV.
Bauga- XIV.
Baugs- V (og Fornu B. AM).
Beigalda- (= Beigaldi, Egils. v. l.).
Beigólfs- (e. Beiólfs-) XVIII.
Beinis- XVIII.
Beiti- VII.
Bekans- VII.
Belgs- VII (Bels- e. Viggbel-). XI.
Bergháls- V (tvennir).
Bergs- V (Belgs- AM) XV (4). XVIII.
Bessa- VI. XIII. XV. XVI (2), XVIII. XX.
Birnings- XVIII.
Bjarka- VIII (DI III).
Bjarnar- (Bjarna- J) VII (DI III). XI (DI IV). XV.
Bjarna- V (3). VI. IX. XI. XIII. XVI (3). XVIII (2).
Björnólfs- XV.
Blesa- V. IX.
Blika- VI.
Bola- VII. XVIII.
Bolla- V. VI. XV. XVIII (2).
Bónda- XX.
Bótólfs- V.
Brands- XII. XV.
Breiðs- XVI.

Brenni- VII (og Fornu B.). IX (2; [1]) = Þórunnarholt). XIII. XVI. XXI.
Brettings- X. XVIII (2).
Brjáms- V (2). XV (Arni skrifar reyndar Pr-).
Brotthelga- XIX.
Brúðguma- XI.
Brúna- V. XVI (2).
Brúsa- V. XV.
Brytja- XVII (DI IV = Bryti).
Bú- VI. XVI.
Búa- III. XX.
Butruhalda- (Butra- IV).
Bægis- XIX.
Böðmóðs- (Bjamu- e. Bemóðs- AM) V.
Böggu- (Böggvers-) XVII.
Daða- XV. XVI. XIX.
Daða- (Dað- af sumum kall. Datt-) XVIII.
Daða- (e. Dúða; Dúða- AM) IV.
Dalgeirs- XV.
Dálks- (efri — neðri) XVIII.
Darra- VI.
Dofa- V (DI III).
Drafla- XVII (e. Drellara- AM). XVIII.
Dratthala- XX.
Drumbodds- V.
Dunkaðar- XI (= Dunkr; Bhit).
Dvergs- XVII.
Dýra- IX. XIV (Dijra- AM). XVI.
Dýrfinna- (-finnu- J) XVI.
Egils- V (2). XV. XX (2). XXI.
Eiðs- XV.
Einars- XVII. XVIII (2). XIX. XX. XXI.
Eiríks- V. IX (2). X (2). XIII (2). XV. XX. XXI.
Eldgríms- IX.
Eldjárns- XV. XIX.
Erps- II. XI.
Eyjólfs- XV. XVIII. XXI.
Eysteins- XI.
Eyvindar- VI. XV. XVII. XIX. XX.
Fallanda- XV.
Faxa- X. XIII.
Felix- (Fjelhøgs- AM) XVII.
Finna- XVII (2). XVIII (2).
Finnboga- XIV.
Finns- XV. XVIII. XXI.
Flanga- II.
Flanka- (Flanga- AM) VI.
Flatnefs- XV.
Flóka- IV. XII.
Forna- XVIII.
Friðleifs- XIX.
Fróða- IX.
Frosta- IV. XVI.
Gadds- IV.
Gagurs- XX.
Galma- (e. Callmanns-; e. Galmagerði) XVII.
Galtar- V.
Galta- XX (fremri — ytri).
Garðs- XIII.
Gauks- IV. VI. XVI.
Gauta- XI. XIII. XVI.
Gauts- XVIII.
Geira- I. XII. XIII. XV. XVIII. XX.
Geirbjarnar- XVIII.
Geirmundar- XI. XIV. XVI (munda- AM).
Geirólfs- XXI.
Geirs- I.
Gests- VI. VII. IX. XIV. XXI.
Gilla- XI. XII.

Gils- X. XIV.
Gísla- V (= Bót) XIII. XXI.
Glamma- VII.
Glettings- XVIII (2; [2]) = Dattstaðagerði AM).
Glits- IX.
Glúms- XIII (e. Glaum- Safn I). XVII (ytri — fremri). XX.
Glæsis- IV.
Gneista- (Neista- AM) V.
Gnúps- XXI (DI IV).
Gnýs- XV. XX.
Godda- XI.
Grákolls- IV (2).
Grana- IX (Egils). XVIII.
Grenjaðar- (staðr v.l.) XVIII.
Gríma- V. VII.
Grímars- IX (Egils).
Grímkels- XII (DI V).
Grímólfs- IX (Egils).
Gríms- II. IV. VII. VIII. IX. X. XVI (2). XVIII. XIX (2).
Guðbrands-XV (2 Heið; Forns.).
Guðlaugs- XV.
Guðleifs- (e. Sigríðarstaðakot) XVI.
Guðmundar- XVI (Gvendar-). XVII. XVIII (Gvöndar-) XX.
Gullbárðar- XIV.
Gullbera- VII. XV.
Gunnars- XI. XII (Gull.). XVII. XIX. XX.
Gunnlaugs- IX. XXI.
Gunnsteins- XV. XIX.
Hafgríms- XV.
Hafrbjarnar- VI.
Hafrs- (Hafs-) IV. IX (2). XV. XVI (e. Næfr-). XVII. XVIII. XIX (2). XI (Haf- AM).
Hafsteins- XVI.
Haka- XV.
Hákonar- XX.
Háleggs- (»nú« Á- e. Álogs- AM) XVI.
Haldórs- XIV (3). XVI. XVII. XVIII (4).
Halla- XVII.
Hallbjarnar- XVIII (2). XXI.
Hallfreðar- XVII. XX.
Hallgeirs- XIX (-gils- J). XX.
Hallgils- XVII. XVIII (e. Hallgeirs- AM).
Hallkels- VII. IX.
Hallorms- XXI.
Halls- XI. XIII.
Hallvarðs- (e. Sudda-) VII.
Hámundar- XVII (-munda- AM; Litlu-). XX (= sá er nefndur er í Nj.?).
Hana- XVII (eldra: Hanatún).
Hánefs- XVII. XX.
Hara- XI (2; eldri mynd nafnsins á öðrum var Ara-, Sturl.). XV (2).
Haralds- XIV.
Háreks- IX. XX.
Hárlaugs- (Här- AM) IV.
Har- V (DI I).
Hauks- XX (2). XV? (L; v.l. -grafir),
Hausa- VI.
Hávarðs- VII. XIII. XV (2). XVII. XIX.
Heggs- VII. IX. XV.
Hegra- XVI.
Helga- II. V. IX. XVI. XVII (2). XVIII (2).
Heraðar- IV.
Herjólfs- II (Herþjófs- DI II). VI. XVI.

Ketils- II. IV. VI. XI (2). XVI. XVIII. XX (2). XXI.
Kimba- XVI.
Kjarans- (AM) V (afbak. Kervats-). VII. XIII (Kjeran- AM).
Kjarlaks- XI. XIV.
Kjartans- XVI.
Kjarvals- (valds- AM) XVI.
Kjóa- V. XIV.
Kláfa- VII. (Litlu K. e. K-kot AM).
Klaufa- (AM) XII (v.l. Kleifa-).
Klepp- (Kleppu- AM) XIV.
Kleppjárns- XX.
Klypp- XX (staður er ýngra, sbr. DI III).
Knapps- (alm. Hn- AM) XVI.
Knúts- XI (Gull.) (e. Hn- AM) XVIII.
Knyttels- (e. Knippels-) XIII.
Kolbeins- VI. VII (= Mófellsstaðakot) IX.
Kolbjarnar- XIV.
Kolgríms- XVI. XVII (Kolgríma- AM).
Kolls- XXI.
Kollsveins- (e. steins-) XVI.
Kols- IX. XI (»í Náhlíð«).
Konáls- (e. Konungs-) XII.
Kóngs- XVII.
Kóps- XIV.
Kóreks- XX.
Korna- XIII.
Korpulfs- VI.
Kotungs- XVIII.
Kráku- XI. XVI. XVII.
Krauna- XVIII (AM Krauma- J).
Krinkils- XII.
Króks- XV. XVII.
Krýna- XVII (Krynaster eðr Kraunaster AM).
Kröggólfs- V.
Kúgalda- XI (Sturl).
Kukks- XIV (2; AM).
Kussungs- XVIII.
Kviks- VII.
Láfa- VII.
Láfranz XV.
Lamba- IV (L). V (2). VI (2). IX. XI.
Lambleiks- I.
Langs- V.
Lása- VI (aðeins J s. 91).
Leiðólfs- II. V. XI.
Leifs- XIV. XV. XVII. XIX. XX.
Leysingja- XI. XV.
Ljósbleiks- IX.
Ljótólfs- XI.
Ljóts- XVI. XVIII. XX.
Lodda- (e. -kot) XVIII.
Loka- XVIII.
Lóm- V (DI III; í Lómstaðalækur).
Lónbjarnar- XIII.
Lopts- V (eystri — vestri; Fornu L. AM). XVIII.
Lýtings- IV. XVI. XX.
Læknis- (ings AM) XIX.
Má(r)s- V. VII. XV (2). XVII (syðri — ytri; 2).
Meiða- VI.
Mjölbrigða- XVI.
Mikils- XV.
Mola- XVI.
Mora- V (= Múlakot). VI.
Mosa- V.
Mýlaugs- (Mýla-) XVIII.
Nagla- VI.

Snærings- XV (2).
Snæris- XV.
Sóma- XXI.
Sóta- XV.
Spágils- XI.
Spámanns- IV.
Spóa- V.
Stólpa- VII.
Stara- XVII.
Starra- XVI.
Stefáns- XXI.
Steina- V. XV.
Steindórs- (»menn skrifa alment Steinþórs-« AM) VII.
Steinfinns- IV (L).
Steinólfs- XIII.
Steinrøðar- V? (L) og XX (L).
Steins- III. XV. XVI (ytri — syðri AM). XVII. XVIII.
Strábeijngs- XVI.
Stragla- (e. Strangla-) VI.
Strjúgs- (Strúgs- L, = Strjúgr) XV.
Sturlu- IX.
Svaða- XVI.
Sveins- X. XV. XVI. XVII (2). XXI.
Svertings- IV. XV. XVII.
Sviðnings- XIII.
Sæmundar- XVI.
Sörla- XVIII. XX.
Tandra- XXI.
Tanna- V.
Tanns- XV.
Tindriða- (»alm. Tindra-« AM) XVIII.
Tinds- VI.
Titlings- XII. XIII.
Tjalda(r)- IV (L).
Tjörfa- IV.
Tójans- (»aðrir kalla« Tóna-) V.
Tóka- XIII. XXI.
Torfa- IV (3; [1]) eystri — vestri). XV (3 v.l. Torfu- alstaðar; [1]) efri — neðri). XIX. XX (2).
Trandils- XIV.
Trymbils- XIII.
Tuma- IV.
Tyrfings- VII. XVI.
Ubba- XI.
Úlfs- IV (efri — syðri). VII. XVI. XX. XXI.
Una- XVI.
Unnólfs- VI (DI III).
Uxa- XVIII (DI II).
Vafra- XXI (DI III).
Vakrs- IV. XV. XX.
Vála- XI (Korm),
Valbrands- XIII (Hávs).
Valda- V. VI.
Valdasteins- XIV.
Valþjófs- XI. XIX. XX.
Vara- XVIII.
Végeirs- XVIII.
Vémundar- XVII.
Vetrliða- XVIII.
Viðar- (svo J) XX.
Vífils- VI. XX.
Víkars- IX.
Víkings- XVIII. XXI.
Vilmundar- VII.
Vomúla- IV.
Þjófs- (v.l. Þjórs- AM) XIX.
Þóralla- (= Skógarkot að ætlan manna AM) V.
Þórarins- V (2). XX.
Þorbeinis- X (Eyrb).
Þorbergs- XI.
Þorbjarnar- VI. XV. XIX.

Þorbrands- XIII (Hávs). XV. XVI. XX.
Þórðar- XVIII.
Þorfinns- IX. XIII. XV.
Þorgauts- IX. XVI.
Þorgeirs- I. IV (DI III).
Þorgils- XII (L).
Þorgríms- V. XV. XXI.
Þórhalla- XV.
Þórhalls- XVII (Hávs).
Þóris- V (Þóru- J, AM 2). XII. XVI.
Þorláks- VI.
Þorleifs- II (Safn IV). IV. XI. XVII. XVIII.
Þorleiks- (»margir kalla -leifs« AM) XVI.
Þorljóts- XVI.
Þormóðs- XVII.
Þórodds- V (2; [2]) Þóru- e. Þórodds- AM); VI (Þóru- J, AM). XV. XVII (2). XVIII (2).
Þórólfs- X (nú Hlíð). XI. XIII (DI III). XIX.
Þorra- X.
Þorsteins- IX. XI (fremri — ytri). XIV. XVI. XVII. XVIII.
Þorvalds- IX. XVIII. XX (2). XXI (2).
Þorvarðs- IV (DI III). IX (L v.l. Þorvalds-; Heið).
Þrándar- VI. X. XX. XXI.
Þrasa- IV (L). XVI.
Þrastar- XVI.
Þurs- IX (»Þjóð-, sumir nefna Þurs-«) AM.
Ögmundar- XVI.
Ölvalds- (»kallað alment Ölva-«) IX.
Ölvis- V (L).
Öndólfs- (e. Aundor- AM) XVIII.
Önguls- XVII.
Önundar- IV.
Örlygs- (-lögs-) X. XIV. XVI. XV (en AM: Ormlaugarst. heitir jörðin).
Örnólfs- IX (L).

eftir kvennmönnum:

Algerðar- XVI (DI III).
Arndísar- XVIII (DI III). XXI.
Arnheiðar- XX.
Arnkötlu- IV.
Arnþrúðar- XXI (Austf).
Ásgerðar- XVII.
Áslaugar- XX.
Ásunnar- XXI (DI V).
Auðbjargar- XIX.
Beru- IV.
Birnu- V. XIII (3; Birne- AM alstaðar, [1]) sem eða-mynd). XVIII.
Bjargar- XV (-a J).
Dísar- V (v.l. Dísa- e. Dysjar-). XXI.
Dýrfinnu- sjá Dýrfinna-.
Dönu- (v.l. Dunu-) XI.
Fannlaugar- (Fann- J) XVI.
Gestreiðar- XX.
Gróu- XII. XV.
Guðnýjar- X.
Guðrúnar- XV. XVII (Guðrúnastir AM).
Gunnfríðar- XV.
Gunnlaugar- XX (Austf).
Gunnvarar- XIII.
Hallbjargar- XV.
Halldóru- (sjá Haldórs-) XVIII.
Hallfríðar- XVII.

Helgu- XVI (2). XXI (Helgi-DI· VII).
Hróbjargar- IX.
Hróðnýjar- XI.
Hvítar- XI (= Hvítidalr; í J er »Hvítastaðir« nefnd hjáleiga).
Höllu- XII.
Iðunnar- VII.
Ingiríðar- XVIII (DI II).
Ingunnar- VI. VII (2).
Ingvarar- (»alment Ingvarir« AM) XVII.
Ingveldar- (v.l. -a) XVI (2). XVIII. XIX. XX.
Ísleifar- IX.
Járngerðar- VI.
Jódísar- XVII. XVIII.
Jórunnar- XVII. XVIII.
Kerlingar- XIII.
Kinnar- (-a) XII.
Kjǫlvarar- VII.
Kolfreyju XXI (DI III; -staðr er ýngra).
Kýrunar- XI.
Köngu- XIV. XVII (»kallast af sumum Göngu« AM), sbr. Göngu- víst f. Köngu- IX.
Kötlu- XV.
Ljótar- (-a) II (e. Fljóta- J). IV. XI. XIII. XV (DI VII).
Ljótunar- XIV.
Ljúfu- XIV.
Lukku- XIII.
Melkorku- IX.
[Mýríðar- sjá Meiða-].
Oddkötlu- XIII (DI IX).
Ormlaugar- XV (AM sbr. *Ørlygs-*).
Óska- XIV.
Ragnheiðar- V.
Rannveigar- XXI.
Signýjar- VII.
Sigríðar- XV. XVI. XVIII (og litlu S.).
[Steinnýjar- sjá Steina-].
Stryllu- XVI.
Svölu- XV.
Sæunnar- XV.
Tóku- XVI.
Torfu- XV (sbr. Torfa-).
Ussulu- XIV.
Vigdísar- IX (-a). XIII. XV.
Vilborgar- III.
Þorbjargar- XVI.
Þórdísar- X. XV.
Þorgerðar- XX.
Þorkötlu- VI (2). XIV.
Þóru- VI. VII. XI. XIII (2). XIV (2; v.l. Þórodds-).
Þuríðar- IV. XX. XXI.
Æsu- VI. XV. XVII.

Önnur og óvís:

Banga- XIX.
Blóm- (e. Blómstrvellir) XVIII.
Botna- (»Botta-, nú almennilega Botna-« AM) XV.
Brak- XIII.
Brunna- VI.
Bryggju- X.
Bugðu- XI.
Býlu- III (DI II. VII).
Bæjar- XXI.
Fífu- XII (2; [1]) v.l. Fífils- J).
Flesju- (Flisju- AM) IX.
Flugu- XXI.
Grænu- XIII.
Hálsa- VI J s. 460.
Heljar- V.

Hof- II (Safn IV). VI. VII. IX (3). X. XII (2). XIV. XVI. XVIII.
Horn- XI.
Hreggs- (Rek-) XII.
Hrauna- XII.
Hul- VI.
Húsa- XXI (Austf).
Kaðla- V.
Kamb- XVIII.
Kjól- (DI VII) XX.
Kropp- XIII (2).
Krossa- XVII.
Kúfu- (Kúa-) XV.
Kýrnytar- IV.
Kýrauga- (Ker-) IV.
Lifrkers- XIII (DI II. III).
Miðháls- (Misjálfs-) XVII.
Mófells- VII.
Múla- (Mölu-, Maulu-) VII.
Orrostu- II.
Óverku- XVI.
Rúg- XVII.
Sexhols- XVII.
Síla- (Síli- AM) XVII.
Sjöunda- (»einn bærinn Borgargerði« AM) XVI.
Skelja- V.
Skjalþings- XX.
Snæðings- XV (DI IV).
Sveðju- (»alm. Sveie-« AM) XV.
Titlinga- XV.
Tré- (e. Triegrips- AM) XVII.
Trut- VII.
Torfhvala- IX (L).
Útibleiks- (bliks-) XV.
Útnyrðings- XXI.
Veiga- (e. Veiði- AM) XVIII.
Viggbelgs- VII sjá Belgs-.
Vígholts- X. XI (Víghólms- AM).

*Andróastaðir* — svo AM — er torskýrt; *Andra-* er skiljanlegra, en víst ekki það rjetta. Afbökun úr *Arnþórs-* e. *Arnórs-* (hjá AM er bærinn talinn rjett á eftir Handursholt e. Andorsholt, sbr. J, þar sem *Andrastaðir* eru taldir hjáleiga frá næsta hæ á undan). Nafn sem *Andhrói* finst ekki annars; *Andróa-* gæti staðið fyrir *Andróar-*, en kvennmannsnafn sem *Andró* þekkist heldur ekki. Er orðið afbakað úr *Arnþóru-*? eða — öllu heldur — úr *Arnþrúðar-*? — Að *Arnar-* sje mannsnafnið er efalaust; sjálfsagt er og *Arnar-* rjettara en *Árna-* (XVI), *r* felt úr í framburði sem oftar. *Argeirs-* er auðvitað s. s. *Arngeirs-*, en hvort það sje upphaflegra en hitt nafnið: *Ásgeirs-*, veit jeg ekki. — *Árgils-* (J, 1861) er rángt, AM *Arngeirs-* rjett (nafnið finst í brjefi 1470, DI V). — *Arnhalls-* (e. *Arnalls-*) XXI er hið eina rjetta; nafnið stendur í L. — *Askstaðir* er víst rjetta myndin, stendur DI VI 330 og sem v.l. II 681 við *Akstaðir* — *s* gat verið slept í framburði hjer —; *Asker-* DI II 85 er vafalaust afbökun. Mannsnafnið *Askur* er gamalt. Eftirtektavert er það, að *Askstaðir* lágu í Lánganesi,

en það var einmitt í landnámi Ásgerðar, móður Njáls, og hún var *Asks* dóttir (eftir L). — *Auðólfs-* XV: valla er AM *Óðuls-* annað en framburður (»latmæli«); valla *Óðólfs-*. — *Auðs-* VII er hið rjetta, stendur í L, af mannsnafninu *Auðr*. — *Barka-* er eflaust fyrir *Barkar-* (mannsnafnið Barki er ekki til); *Barkar-* er og skrifað DI III 164. 452 í báðum nöfnum í XV; annarstaðar skrifað *Barka-*, ýngri myndin; *Bakka-* (v.l. XIX) er eflaust rángt. — *Báru-* er vafalaust rángt, og eða-myndir AM beina í rjetta átt; *Barugs-* er efalaust s. s. *Báreks-*; nafnið *Bárekr* er gamalt (og Bárekssstaðir voru til í Noregi); nafnið kemur ekki fyrir í DI. — *Beigaldastaðir* kemur aðeins fyrir sem v.l. í Egilss., annars hefur nafnið verið stytt í *Beigaldi*. — *Beigólfs-* e. *Beiólfs-* (AM): *Beigolfr* gæti vel verið mannsnafn, en sýnist ekki að koma fyrir. Hugsanlegt væri, að rjetta nafnið væri *Býjólfs-*. — *Beiti-*, eflaust nafnið *Beitir*. — *Belgs-*: *belgr* er eflaust viðurnefni (XI: *Óláfr belgr*), og þá líka *viggbelgr* (*vigg* = skip). — *Bergháls-* (AM; í Þjórsárdal) er líklegast = *Bergálfs-*; *Bergálfr* sýnist annars ekki að vera til, en er ekkert ólíklegt mannsnafn. *Bergháls-* er reyndar líka skrifað DI II. — *Bergs-* V kallar Árni *Belgs-*, og svo er bærinn nefndur DI V, og mun það rjettara. — *Bjarka-*: af *Bjarki* (ránglega stendur víst *Bjarkar-* DI II). — *Bjarna-* og *Bjarnar-* er ekki hægt að greiða fullkomlega í sundur, því *Bjarna-* getur vel staðið fyrir *Bjarnar-*; *Bjarna-* í IX er þó víst, stendur í L (eftir Bjarna Sturlusyni). *Bjarnar-* er bærinn í Bárðardal nefndur DI IV, sömuleiðis sá XI (sst., en ekki VI). — *Brjám-*, af mannsnafninu *Brjámr* (sem ef til vill er afbakað úr *Brjánn*, eldra: *Brían*, sem er írskt); sama er eflaust *Prjámstaðir* hjá Árna, og er þar kallað »fjárhús« og stendur við Geirastaði í Sveinsstaðahreppi. — *Brotthelga-*: minnir á Broddhelga-nafnið, og er víst það. — *Bú-* (í VI) er skrifað *Búts-* í Bisk. I, mannsnafnið *Bútr* er til; líklegast er *Bú-* í XVI á sama hátt tilkomið. — *Butralda-* er hið rjetta (stendur í DI). — *Böðmóðs-*: Árni nefnir bæinn *Biamus-* eða *Bemóðs-*; *Bjámus-* er skrifað í Bisk. II; ef til vill er *Böðmóðs-* rjetta myndin, í framburði hvarf *ð* á undan *m* (eða samlagaðist því), og gat vel orðið úr því *Bemóðs-*; *Biam-* er erfiðara að skýra. Hugsandi væri að upphaflega myndin væri *Bjarnmóðr*, er þekkist í Noregi. — *Böggu-* er afbakað úr *Böggvis-*; það var viðurnefni Klaufa. — *Daða-* (1): er eflaust manns-

nafnið *Daði*, en *Daða-* (2) á ekkert skylt við það; Árni kallar bæinn *Daðstaði*, en bætir við að sumir nefni hann *Dattstaði*. *Daða-* gat ekki styst í *Dað-* og gerir það ekki annars. Í brjefum (DI III. IV) er bærinn nefndur *Dattstaðir*, og er það efalaust rjetta myndin, af *Dattr*, sem hefur verið viðurnefni manns og á skylt við rótina í *detta*. *Daða-* (3): í J stendur »Daðastaðir (Dúða)«, AM hefur aðeins *Dúðastaðir*; ekkert vafamál er að þetta er upphaflega myndin, og hefur nafnið svo verið stytt í »Dúða«, en »Daðast.« er síðari tilbúníngur og ætti að hverfa; *dúði* hefur verið viðurnefni og á líklega skylt við *dúði* »vestes plumatæ« (Bj. H.) og *dúða sig*, sem er alþekt. — *Dunkaðar-*: af *Dunkaðr*, sem var írskt nafn (Donnchadh). Þetta langa nafn, sem stendur í Bjarnar sögu hitdk., hefur verið stytt í *Dúnkur*, sem bærinn er nú alment nefndur. — *Dýrfinna-* AM og DI III. V af mannsnafninu *Dýrfinni*; en í Sturl. I 537 stendur *Dýrfinnu-*, og það hefur J, svo að það er eftir því upphaflega myndin. — *Felix-*: svo stendur í J og 1861, en í J stendur, að »prestur og hreppstjóri« nefni jörðina »Fjeeggstaði«, og þessi mynd stendur sem aðalmynd í 1861; hún er þó alveg röng og ýngri tilbúníngur, sem ekkert mark er á takandi; en þar með er ekki sagt, að *Felix-* sje rjett; reyndar er þetta nafn svo gamalt á Íslandi, að það gæti verið í staðanöfnum; en ekki er ólíklegt að eitthvert annað nafn felist í því. Árni skrifar: »Fjelhøgstaðir, nú alment Felixstaðir«, og í brjefi (DI IV) er nafnið skrifað *feloks-*; geta mætti til — eftir rithætti í AM —. að þessi liður væri nafn sem *Félaugr* — sem annars er reyndar óþekt, en ekkert sýnist geta verið því til fyrirstöðu, að það hafi verið til. — *Flanga-* II stendur í L og er ritað þar svo; *flangi* er líklegast viðurnefni (skylt *flengja*? eða s. s. *flange* í nýno. »et slags kufte eller kjole«, Aasen). Eflaust er *Flanka-* VI sama orðið, enda hefur AM *Flanga-* þar; *g* hefur herst í þessu orði í *k*. — *Galma-*: eflaust sama nafnið og í *Galmaströnd* (bærinn hefur legið þar, talinn í AM á eftir Fagraskógi); upphaflega myndin er þó *Galman-*, og stendur hún í hdr. L; s. s. Kalman, írskt *Colman*?; Árni hefur eða-myndirnar *Callmanns-* og *Galmagerði*. — *Galtar-* V: svo AM, J, og DI I. II (*Galta-* í 1861 er því rángt eða vanalegt latmæli); þar á móti heitir bærinn í XX í DI *Galta-*, líklega þá af *Galti* en ekki *Göltr*. — *Glits-* er alveg rángt fyrir *Glýstaðir*, sem stendur í Bisks. I; af *Glý*

eða *Glýr*, sem eflaust hefur verið viðurnefni (*glý* hvk. = gaman); eftir að *ý* varð *í*, grendist *í* í *i* og varð þá sagt *Glisstaðir*, og var svo (rángt) skýrt sem *Glits-staðir*. — *Grenjaðar-staðir* er hið eina rjetta, en ekki *-staðr*; þar sem þetta kemur fyrir (og það híttist í brjefum sem líka hafa *-staðir*), er það að skilja sem stytt úr *Grenjaðarstaða-staður* (*staður* = kirkjustaður, sbr. síðar). — *Gríma-* er eflaust »latmæli« fyrir *Grímars-*; kemur ekki fyrir í brjefum. — *Hafrs-* og *Hafs-* er sama (*r* slept í framburði); um *Hafrstaði* í Kolbeinsstaðahreppi segir Árni, að »nokkrir meina að hafi heítið Hafþórs-«. Þetta er þó sjálfsagt rángt, því að *Hafrs-* stendur í elstu brjefum. — *Háleggs-*, sem í sjálfu sjer er vel skiljanlegt, segir AM að »kallist nú almennilega *Alegs-* eður *Alogs-*«, líklega með *á*; bendír þetta þá til annars uppruna; *Álaugr* eða *Allaugr* sem mannsnafn?, sbr. kvennmannsnafnið *Allaug* (Lind). — *Haldórs-*: um einn af »H-stöðunum« í XVIII, þann í Bárðardal, er þess að geta, að þar er *Haldóru-* eldra og eflaust rjettara og stendur í brjefum og máldögum (líka skrifað *Haldóri-*, af því að *u* var svo óglögt í framburði, uns það hvarf). — *Hallgeirs-* í XX: þar hefur J *Hallgils-*, og veit jeg eigi hvort rjettara er; aftur á móti er víst, að bærinn í XIX hjet *Hallgeirs-*, en ekki *Hallgils-*, sem J hefur (sbr. brjef í DI II osfrv.). Víst er og, að *Hallgils-* er rjettara en *Hallgeirs-* á bænum í XVIII (sbr. DI VI). — *Hara-*: svo mun nú að kveðið, en *Harra-*, sem í brjefum stendur oftast, mun eldra og rjettara. Annars er *Hara-* í Fellstr.hr. afbakað úr *Ara-* — sbr. Sturl. og DI III. — *Hárlaugs-*: nafnið þekkist annars ekki (ritháttturinn í AM *Här-* sýnir nafnsins rjettu mynd). — *Harstaðir* í DI I stendur ef til vill fyrir *Harðs-*, af mannsnafni *Harðr*. — Um *Hávarðs-* í XIII segir AM, að það sje sett í samband við Hávarð ísfirðíng, en það er eflaust tilbúníngur. — *Helga-* II er tekið úr Safni IV. — *Heraðar-* (í Oddamáldaga): ef til vill af *Herröðr* (Lind). — *Hingla-*: svo AM (ekki *Hinglu-* J); *Hingli* er víst viðurnefni. — *Hnekk-*: *Hnekkr* sömuleiðis. — *Hnappstaði* e. *Hnappekkjustaði* hefur AM sem eyðiból á eftir Heggstöðum í Kolbeinsstaðahreppi; stendur nafnið í sambandi við Þorgils *knappa*, er nam Knappadal? — *Hrafns-* og *Hrapps-*: þessi orð eru borin hjer um bil eins fram og er því ekki ætíð fullvíst, hvort sje upphaflegra á hverjum stað. Þau eru greind hjer eftir rithætti AM. *Hrafns-* í Bárðardal kemur fyrir

í DI II, sama er um *Hrafns-* í Skagafirði og Húnav. *Hrappstaðir* í Vopnafirði (XX) er skrifað *Hrafst.* og er tvírætt (DI V). — *Hreims-*: í XX er *Hreins-*, af mannsnafninu *Hreinn*, hið eina rjetta; ef til vill er það og hið upphaflega í IX (í registrinu við DI VI stendur *Hreins-*, en í brjefinu er *Hreims-*). — *Hróars-* *(Hróalls-)* er víst hvorttveggja rángt fyrir *Hróa-*, sem stendur í brjefum (DI III. V), þótt ekki sje ómögulegt að það sje latmæli. — *Húns-*: *Húna-* J er eflaust rángt, nafnið stendur í brjefum, AM hefur *Hún-*. — *Hvíts-*: *Hnits-* í DI VI er efalaust ránglesið (í afskriftinni) fyrir *Hvíts-*. — *Ísleifs-*: finst afbakað í *Ísleifar* DI I. — *Kárs-*: finst og í J í IX (nr. 132) með eða-nafninu *Narfa-*; aðeins þetta er í AM, en hitt ekki, og hef jeg því ekki talið það með. — *Kjarans-*: nafnið er írskt (Ciarán), og hefur því verið hætt við afbökun (í *Kjeran-*, *Kervats-*). — *Kjarlaks-*: rjettara er *Kjallaks-*, nafnið er írskt (Cellach). — *Kjarvals-*: líka írskt (Cerbhall), *-valds* er íslenskun. — *Klaufa-* er hið eina rjetta (sjá DI IV). — *Klepp-*: vafasamt; svo J; AM hefur *Kleppu-*, og 1861: *Kleppi-* (Klepp-); *Klepp-* er því ekki hið upphaflega. Þar eð nú *Kleppu-* stendur í brjefi (DI IV), mun það rjetta myndin og þá annaðhvort viðurnefni eða kvennmannsnafn (*kleppa*, kvk. til *kleppr*, sem var viðurnefni manns = þykkildis-hnútur). — *Knyttils-*: upphaflega myndin er *Knettils-*, sbr. *Hnettils-* DI IX 502 (myndað af Knöttur). — *Kolgrím-*: AM hefur *Kolgríma-*; er *Kolgrímu-* hið upphaflega (sbr. *Dýrfinnu-*)? — *Kollsveins-* er rjetta myndin (stendur í L). — *Konáls-* mun rjetta myndin (írskt nafn: Conall), og *Konungs-* til orðið úr því. — *Kóngs-*: eldra er *Konungs-* (DI II). — *Korpulfs-*: í framburði hefur þetta orðið að *Kortólfs-*, en nafnið kemur fyrir í Kjaln. óafbakað. — *Kráku-* XI: svo AM (*Kraga-* J er eflaust rángt). Í staðinn fyrir *Kráku-* XVII hefur DI V *Kraka-*, en það skjal er ekki vel áreiðanlegt í nafnamyndum; *Kráka* er viðurnefni. — *Krauma-* er hin eina rjetta mynd (sjá t. d. DI II). — *Krinkils-*: óvíst nafn; *-kils* = *kels*? — *Krýna-*: sýnist vera rjetta myndin (*Krónu-* 1861 er heimildarlaust); og í brjefi (DI V) stendur *Krina-*, en sú uppskrift er ekki vel áreiðanleg að því er snertir *i* og *y*); *Krýni* er víst viðurnefni (af *Krúna*?). — *Kukk-*: svo er ritað á báðum stöðum í AM (J hefur á öðrum staðnum *Kúk-*, á hinum *Kúkshús* eftir AM, en það er rángt), og kemur því af *kukkur*, sem ef til vill er s. s. *kúkur*, sbr. nýno. *kukka*

(= *kúka*), og er því eflaust viðurnefni. — *Kussungs-*: mun vera s. s. *Kúsveins-* hjá AM, og er það nær því rjetta og eldra, sem er *Kursveins-* (DI II. V), hvernig sem það er að skýra (*Kur-* e. *Kúr-*?). — *Lambleiks-*: er undarlegt nafn og er eflaust afbakað úr *Lambablika-* sem stendur í DI III, sbr. *Blikastaðir*; *bliki* og (aukið) *lambabliki* hefur verið viðurnefni. *Lambablik-* stendur í DI IV. VI. — *Læknis-* er líklega rjett (sbr. *Legnes-* DI V). — *Meiða-*: þekkist ekki sem mannsnafn (en gæti hugsast, sbr. *Vil-meiðr*); AM segir, að »gamlir menn kalli Meiriða-« og hefur sjálfur myndina *Meiðar-* (= DI II), í J er *Meiríðar-* tilfært sem v.l. Eftir þessu er valla efamál að *Meiða-* er afbökun eða samdráttur úr *Meiríðar-* og að þetta er kvennm.nafn, en þó valla í sinni rjettu mynd, sem að líkindum var *Mýríðr*; kemur það fyrir í Skáldhelgarímum sem nafn á kvennveru. — *Mjölbrigða-*: AM hefur *Mielbreiðar-* (1861: *Melbreið* alveg heimildarlaust); myndin er víst rjett; nafnið er írskt: *Melbrigði* (= *Maelbrigdhe*), sem vel gat orðið: *Mjöl-*. — *Rauðs-* XV er nú framborið *Russ-*[1]); þetta er skrifað í J ránglega *Rút-*; AM segir og, að »sumir skrifi Rauðs-«. *Rifkels-* (nú víst alment framborið *Rikkils-*), eldra er: *Hripkels-* (Ljósv.), og hefur þá hjer *h* snemma horfið úr framburði. — *Saurs-*: líklega rjettara en *Surts-* (v.l. J) í XX. — *Sel-*: af mannsn. *selr* (viðurnefni); *Selstaðir* í VI er ef til vill ekki alveg áreiðanlegt, þar eð hjer finst v.l. *-staðna*, þ. e. af *selstaða*; í X er nafnið leitt út af *Selstaðagróf* í DI III. — *Sigmundar-* VII hjetu fyrst (eftir L) *Stafngríms-* (og það stendur í Þhreð); í Egilss. segir að bærinn heiti »nú at Haugum«. — *Skeggja-*: fyrir þetta nafn í Torfustaðahreppi hefur AM *Skegghalds-* e. *Skeggvalds-*, og bendir það á annan uppruna, og styðst það við ritháttinn *Skeggalldz-* DI III, en *skegghaldr* e. *-valdr* er ekki sennilegt; það er valla vafamál að maðurinn hefur heitið eða verið kallaður *skeggkall*; eignarfall af þessu *skeggkalls* hlaut einmitt að verða *skeggalls*. — *Skotta-*: eldra var *Skopta-* (DI I, sbr. *skott* f. *skopt*). — *Skyldebrands-* (*skallabrands-* J er rángt) sýnist vera afbakað hvað fyrri hlutann: *skylde-* snertir og í DI IX (627) er nafnið ritað *Skellu-*. — *Slítanda-*: svo AM og DI II (af mannsn. Slítandi); þetta hefur aflagast í *Slítvinda-*, sem J og 1861 hafa. — *Sléttubjarnar-*: líklegast er

[1]) Eftir skýrslu Sig. stúd. Guðmundssonar.

*sleitu-* þó rjettara, sbr. B. M. Ólsen í Aarbøger 1910 s. 44; og líklega er *Sleitustaðir* ekki annað en stytt nafn úr þessu nafni. — *Snæfoks-*: svo er nafnið skrifað í J (með v.l. *Snæfugls-*) og 1861; AM hefur *Snæfugls-*, *Snjáfugls-*, *Snæfoks-* (og segir að síðasta myndin standi »í gömlum skjölum«). *Snæfugls-* og *Snjófugls-* finst í DI III. IV, en mest er að marka *Snæfogl-* i skinnbrjefi gömlu (DI VII, sbr. *snævogs-* í öðru sst.). Vafalaust er *Snæfogls-* elsta og rjettasta myndin; hefur það verið viðurnefni, og mjög gamalt, sem myndin *fogl* (yngra: *fugl*) ber vott um; *-foks* er eðlilegur framburður á *fogls*, *l* hvarf og svo hertist *g*. Geta má þess, að til er *Snæfoglsey*; *snæfogl* hefur verið nafn á einhverjum fugli (sbr. snjótitlingur, sem líklega er sama, því að í nýno. er *snjofugl* einmitt nafn á »Emberiza nivalis«). — *Snærings-* er einróma nafn á bæjum í Svínavatnshreppi (sbr. DI V) og Þverárhreppi (AM einn), en *Snæris-* (J *Snæru-*, þó með v.l. *Snærings-*, sem víst er tilgáta) á bænum í Áshreppi (DI II. III). — *Steina-* XV: »alment kallaðir *Stenja*«, AM; þessi framburður bendir á annan uppruna, og tel jeg vafalaust að hann sje latmæli fyrir *Steinnýjar-*; og það nafn kemur fyrir í 2 brjefum (DI V) og í öðru ritað *stennyjar-* (sbr. og DI VI). — *Stråbeijngs-* er víst = *Stråbeygings-* (J), og er þá viðurnefni (eig. = vindur). — *Stragla-* er svo ritað DI II og er því víst rjett (en ekki v.l. *Strangla-*) hvað sem orðið svo þýðir; efalaust var það viðurnefni. — *Strjúgs-* e. eldra *Strúgs-* (viðurnefni; *strúgr* = hroki); þetta var svo stytt í »Strjúgur« (»Þórður á Strjúgi«). — *Sviðnings-* hefur AM á eftir nr. 256 (í Grunnavíkurhr.); eldra var *Sviðins-* (viðurnefni) og kemur fyrir í Fóstbr. — *Tindriða-*: er óvant nafn og eflaust rángt; AM segir, að alment sje sagt *Tindra-*, og það er nær því rjetta, sem var *Tundra-* (DI II. III), af (viðurnefni) *Tundri* (myndað af *tundur*). — *Tjaldar-* er skrifað í Hauksb. (mbr.), af mannsn.: *Tjaldarr-* (*Tjalda-* í Stb. er vanalegt latmæli); *Tjaldar-* stendur og í DI II, en vanalegast er skrifað *Tjalda-*. — *Tójans-* kann jeg ekki að skýra, en valla er það rengra en *Tóna-*. — *Torfa-*: í skjölum er blandað saman *Torfa-* og *Torfu-*; hið síðara er hið eina rjetta nafn á bænum í Miðfirði (af »Skáldtorfa«), og kemur þó *Torfa-* þar fyrir (DI IV), en annars mun *Torfa-* vera hið rjetta, svo er skrifað: DI II. IV. V (báðir bæir í V), DI IV (einn bærinn í IV), DI II. III (bærinn í Vatnsdal), XV, þó ritað

*Torfu-* í III. V), DI II—V (bæjirnir í XX). — *Trymbils-*: viðurnefni (af *trumba*)? — *Valþjófs-*: er nafnið kemur fyrir í eintölu, er þar eins að dæma um sem um »Grenjaðarstaður«; eiginlega nafnið er flt. (t. d. í Njálu). — *Viðar-*: er eflaust rjetta myndin, en ekki *Viða-* (1861) af mannsn. *Víðarr* (ekki *Við-*), sbr. ritháttinn *Vijda-* DI VII. — *Vomúla-*: þetta orð, sem er viðurnefni (*vámúli* = skaðakjaftur eða því líkt), hefur afbakast í framburði og finst eftir því ritað *Voðmúla-*, *Votmúla-*, og jafnvel *Ámúla-*. *Vá* (DI II) varð eðlilega *vo-*, og svo afbakaðist *vo-* í *voð-*, *vot-*. — *Þjófs-* er líklega rjettara. — *Þórhalla-* (AM): rjettara er *Þórhalls-* DI. — *Þóris-*, *Þórodds-*, *Þóru-*: þessum nöfnum hefur verið blandað saman í framburði, og er stundum vant úr að greiða með fullri vissu. Víst má telja *Þóris-* rjett í V (DI I), XII (eftir Gull-Þóri) og XVI (nafnið finst hjer einúngis í Þórisstaðalækr DI III, ef til vill í Ölvusi DI VII). — *Þórodds-* má með vissu telja í V (Grímsnesi og víst líka í Ölvusi), VI (Rosmhv. DI II, þrátt fyrir *Þori-*, *Þorers-* DI III. IV. VI. VII), XV (DI II. III, en *Þoris-* DI V), XVII (Þóroddsstaðahr., DI III. V, en *Þóris-* DI V; í Öngulstaðahr., DI IV. VII, en *Þores-* DI V. VII), XVIII (*Þórodds-* í Kinn; DI II; *-staðr* er hjer að dæma sem í Grenjaðarstaðr, Valþjófsstaðr; á Svalbarðsströnd DI III. V. VI, en *Þores-* DI V. VII). Þá eru eftir *Þóru-*, sem helst munu vera þessir: í VI (í Vatsleysustr.hr.), VII (í Strandarhr.), í XI (*Þóru-* DI IV. V. VI, en *Þore-* DI III), XIII (2), XIV (*Þóru-* í Bitru DI VI). En ekkert er líklega, en að eitthvað af þessum »Þóru-stöðum« sje afbakað úr *Þóris-* eða *Þórodds*-stöðum. — *Þorleiks-* er víst rjettara en *-leifs-*, sbr. DI III og Sturl. I 540). — *Þórodds-* sjá *Þóris-*. — *Þorvalds-* IX er ugglaust s. s. *Þorvarðs-* IX. — *Öndólfs-*: AM hefur eða-myndina *Aundor-*; *Öndótts-* finst í DI III; í Reykdælu-handritum er það skrifað á ýmsa vega, en það er ekki að marka; ekki er þó ólíklegt, að *Öndótts-* sje einmitt rjetta myndin.

Nöfn eftir kvennmönnum: *Algerðar-* er = *Álfgerðar-*. — *Ásunna-* er annars óþekt, en lítur út sem af kvennm.nafni *Ásunn*. — *Birnu-*: *Birni-* (sem og kemur fyrir einu sinni í DI IV) er aðeins latmæli. — *Bjargar-*: svo AM, *Bjarga-*, sem og stendur í DI III, er valla annað en latmæli (*r* felt úr sem oftar), alveg eins og í því næsta: *Dísa-* f. *Dísar-*. — *Dönuhafa* bæði AM og J og það er rjett. — *Fannlaugar-*: J hefur

*Fanna-*, en getur þess, að aðrir kalli bæinn *Fannlaga-*, 1861: *Fannlaugar- (Fann-)* (vantar AM); *Fannlaug-* gæti vel verið kvennm.heiti. — *Gestreiðar-* veit jeg ekki hvort er kvennm.-nafn, en lítur helst svo út (eða f. *Gestrøðar-*?). »Gestreiðarháls« finst í DI VII. — *Hró-*: skrifað *Hróð-* DI VII. — *Ingvara-* (stytt *Ingvarir*): finst og DI II. III, stendur vafalaust f. *Ingvarar-* af kvennm.nafni *Ingvör*. — *Köngu-*: er eflaust rjett, kvennm.nafnið *Kanga* þekkist frá Hákonars. (Kanga hin unga), *Göngu-* er afbökun (sbr. DI V); í IX kemur fyrir *Göngu-* (AM), eflaust líka fyrir *Köngu-*. — *Kýrunnar-*: í DI IV stendur *Kýrina-*, sem gæti verið írskt nafn. — *Ljóta-* = *Ljótar-*; *Fljóta-* er vafalaust sprottið af misskilníngi, kemur hvergi fyrir. — *Lukku-* finst aðeins í J (í Mýrahrepp); ef til vill er *Lúku* rjettara; *Lúka* finst sem v.l. til *Lúta* í Gíslas. Súrs., og óvíst hvort rjettara er; hún bjó í Lambadal í sama hreppi, og mætti vera, að nafnið einmitt stafaði frá henni (eða ættíngju hennar). — *Óska-*: eflaust f. *Óskar-*. — *Stryllu-*: eflaust viðurnefni (manns eða konu?). — *Sæunnar-*: líklega s. s. *Seuína-* í DI II, en hvernig þetta nafn er tilkomið er óvíst (*Sævini* mannsnafn?, og nafnið afbakað vegna þess hvað það var fátítt?). — *Ussulu-*: er útlenda nafnið Ursula. — *Þóru-*: sbr. *Þóris-*. — *Æsu-*: í brjefum er stundum ritað *Æsi-*.

Önnur og óvís nöfn: *Banga-* líklega f. *Bangar-*, af *Böng*, kvennm.viðurnefni. — *Botna-*: gæti verið mannsn. *Botni* (eða viðurnefni), en AM gefur í skyn annað (og eldra) nafn *Botta-*, þetta *B.* gæti verið s. s. *Bótólfs-*; og *Botta-* stendur í DI II, en hefur snemma afbakast í *Botna-*, sem menn skildu betur. — *Brúðguma-*: var víst viðurnefni. — *Fífu-*: viðurnefni (manns eða konu?); *Fífils-* er víst sprottið af mislestri. — *Flesju-*: *Flisju-*, þ. e. *Flysju-*, er víst rjettara (sbr. *Flysjuhverfi*), og *flysja* er líklegast viðurnefni (= flysjungur?). — *Hregg-*: svo AM og J (*Rek-* er afbökun), er sami bærinn og *Hrakstaðir* (Bisk. II og DI IV. VI), og má vera að það sje eldra; *hrak* (= úrþvætti) viðurnefni. — *Kamb-*, *Kjól-* og *Kropp-* gæti alt verið viðurnefni. — *Kúfu-*: er alveg rángt (nú framborið *Kúu-*); nafnið er *Kúga-*, af mannsnafni *Kúgi* (upphaflega viðurnefni), sjá DI IX (489); *Kvía-* í DI V er aðeins rángur ritháttur. — *Kýrauga-*: vafalaust viðurnefni (*Kýr-* er hið rjetta, sbr. DI II). — *Snæðings-*: sömuleiðis. — *Sveðju-*:

gæti vel verið viðurnefni, en ritháttur AM bendir á annað, og í DI VI er það ritað *sueigi-* (utanáskrift, en í brjefinu reyndar *suejdiu-* og *sueiu-*); líklegast af *Sveigir* (viðurnefni). — *Tré-*: myndin í AM er nær því rjetta, sem var *Trégrefs-* (DI III) af *trégref-* (verkfæri), upphaflega viðurnefni.

Það er nú ekki lítið, sem þessi nöfn geta kent oss um annað en þau sjálf. Fyrri liðurinn er, eins og skráin sýnir, mestmegnis manna- og kvennanöfn. Þau eru sum alþekt og algeng og skulu hjer ekki talin. En þar eru líka ekki allfá nöfn, er sjaldgæf eru og mörg, sem hvergi koma fyrir annarstaðar — og svo eru hin mörgu viðurnefni; auðvitað er oft erfitt að greina nöfn og viðurnefni, og vjer teljum mart það nöfn, sem upphaflega hafa verið viðurnefni en eru seinna orðin nöfn og allútbreidd. Það getur og verið álitamál, hvað kallað er sjaldgæft.

Sjaldgæf nöfn og nöfn, sem annars ekki koma fyrir, mætti telja þessi: Álfur, Áni, Andrói(?), Argeirr(?), Árgils, Arnaldur, Ásgils, Askur, Askmaður, Ásólfur, Auðólfur, Auður, Ávaldur, Bálki, Barki(?), Bárekur, Bassi, Baugi, Baugur, Beinir, Beigólfur, Beitir, Bergálfur, Birníngur, Bjarki, Björnólfur, Bolli, Breiður, Brennir, Brettíngur, Brjámur, Brúni, Brúsi, Bryti (eða viðurn.?), Bútur, Butraldi, Böðmóður, Dalgeir, Dálkur, Darri, Dvergur (e. viðurn.?), Dýri, Eiður, Eldgrímur, Erpur, Faxi, Flóki, Friðleifur, Fróði, Frosti, Göltur, (Galti), Garður, Glæsir, Grímarr, Hafurbjörn, Haki, Hallgils, Hánefur, Hari, Hárlaugur, Hausi, Heggur, Heraður(?), Herþjófur, Herkir, Holti, Hraði, Hreinn, Hríngur, Hripkell, Hugljótur, Húnn, Hvati, Hyrníngur, Hæríngur, Ígull, Ími, Ísólfur, Ísrøður, Jarl, Járnlaugur, Jólgeir, Jökull, Kali, Kani, Kár, Kati, Keri, Kleppur, Kleppjárn, Kneppill, Kórekur, Korpúlfur, Krauni, Kúgi, Mikill, Mýlaugur. Nagli, Nefur (eða viðurn.?), Ormarr, Prjámur, Randverr, Rauður, Refsteinn, Sámur, Sírekur, Skári, Skarfur, Skati, Skefill, Skerðíngur, Skerpíngur, Skotti, Skúfur, Skúmur, Slitandi, Snörtur, Snæríngur, Snærir, Stari, Starri, Steinrøður, Svaði, Tandri, Tanni, Tannur, Tjaldar, Tóki, Trandill, Ubbi, Uni, Unnólfur, Uxi, Vakur, Váli, Valdasteinn, Vjegeir, Viðar, Vífill, Víkar, Víkíngur, Þorljótur, Þrasi, Þröstur, Ölvaldur, Öndóttur, Öngull, Ørlygur.

Gælunöfn eru: Láfi, Lási, Valdi.

Viðurnefni eru (um sum vita menn glöggt, koma fyrir í L og sögum): agnúi, annmarki, auðkúla, auga, beigaldi, belgur, blesi, bliki, boli, bóndi, botti, brúðgumi, bægir, böggvir, dattur, dofi, dratthali, fallandi, felok-(?), fífa, flangi, flatnefur, flysja, gaddur, gagur, glammi, glettíngur, glý, gneisti, gnýr, goddi, grákollur, grenjuðr, gullberi, háleggur(?), hani, harður, hegri, heykollur, hingli(?), hnekkur, hrak, hvítur, höggvandi, jarðlángur, kambur, kampi, kappi, kimbi, kjói, kjóll, klafi, klaufi, knappur, konúngur, kópur, korni, kotúngur, kráka, krínkill(?), krókur, krappur, krýni(?), kúgaldi, kukkr (kúkr?), kvikur, kýrauga, lambableikur, lángur, ljósbleikur, loddi, loki, lómur, læknir, moli, mori, mosi, ófriður, orri, páfi, rauðkollur, rauðnefur, selur, silfri, skáld, skalli, skálpi, skammbeinn, skammur, skegg, skeifa, skinni, skjögri, skræpa, skrafla, sleggja, sleita, snæðingur, snæfogl, snældubeinn, sómi, spámaður, spói, stólpi, strábeygíngur, strúgur, sveigir, sviðníngur, titlíngur, trjegrefur, trymbill, vafri, vari, vomúli, þjófur, þorri, þurs (alls um 100).

Keltnesk nöfn eru: Bekan, Dunkaður, Galman, Gilli, Kaðall, Kjaran, Kjarlakur, Kjartan, Kjarvalur, Konáll, Mjölbrigða.

Ýngri og útlend nöfn: Jón, Láfranz, Stefán. Sýna þau, að staða-nafnamyndunin er ekki bundin við landnámsöld, og er óhætt að segja, að hún hefur verið lifandi alla tíð.

Kvennanöfn. Sjaldgæfari eru: Algerður, Arnkatla, Arnfríður, Ásunn, Bera, Birna, Dana, Fannlaug, Gestreiður, Gunnfríður, Gunnlaug, Gunnvör, Hallbjörg, Hróbjörg, Hróðný, Iðunn, Ingvör, Ísleif, Járngerður, Kjölvör, Kýrunn(?), Kanga, Ljót, Ljótunn, Ljúfa, Lúka(?), Mýríður, Ormlaug, Oddkatla, Ósk, Svala, Tóka, Torfa, Þorkatla, Æsa.

Viðurnefni: böng, dís, hvít, kerlíng, kinn, strylla.

Keltneskt er: Melkorka. — Yngra: Úrsúla.

Eins og sjá má af því, sem skrifað hefur verið, hefur fyrri liður orðsins oft breyst og aflagast í framburði, svo að oft væri nú ómögulegt að geta sjer til hins rjetta, ef ekki væri eldri ritháttur til. Þar á móti breytist *staðir* aldrei (jeg skil *staður* öðruvísi, þar sem það stendur fyrir *staðir*), nema í 3 nöfnum í AM; þar eru tilfærðar myndirnar: *Draflastir, Guðrúnastir, Krýnastir* — alt í XVII, og eru það samdregnar myndir, sem víst hafa ekki getað haldist, en samdrátturinn

er einkennilegur; í Noregi styttist *staðir* mjög, og það svo að oft verður ekki eftir af nafninu annað en 2 fyrstu stafirnir.

Nú eru nokkur nöfn eftir, sem ekki verða talin dregin af mannanöfnum. Þau eru þessi:

Bæjar-, Býlu-, Húsa-;

Bryggju-, Brunna-, Hrauna-, Krossa-.

Hof-, — alt eftir því sem er við eða í nánd við bæjinn; hjer til heyrir líklega og: Horn-, og Bugðu- (þetta gæti og verið viðurnefni), Mófells-, Hálsa-.

Eftir gróðri: Blóm- og Rúg- (nema *rúg-* væri viðurnefni).

Eftir dýri: Flugu-. sem þó gæti verið viðurnefni, Titlinga-, Skelja-, — eftir lit: Grænu-, — eftir viðburði: Orrostu- (e. viðurnefni?), — eftir vindi: Útnyrðings- (e. viðurnefni?), — eftir grasvexti(?): Kýrnytar-. — Enn er eitt samsett með töluorði: Sjöunda-; að svo sje, sýnist athugasemd Árna að sanna: »einn bærinn«.

Önnur torskilin nöfn eru, og finnast þau fæst í DI.:

*Brak-*: f. *Brag-* af *bragur*?; Olavíus hefur *Brakk-* (gæti líka hugsast af *bragð* — viðurnefni?).

*Heljar-*: sýnist ekki vera annað en eignarfall af *hel-*. óvirðíngarnafn? eða viðurnefni? Bærinn er talinn á eftir nr. 126 (Snóksnes).

*Hul-*: f. *Hölds-*?

*Kaðla-*: s. s. *Kaðal-*, eða afbakað úr því?

*Lifrkers-*: (e. Lyfr-); hvað er það?

*Miðháls-*: svo 1861, en AM og J hafa aðeins *Misjálfs-* (en í athugas. hefur J eftir hreppstjóra *Miðháls-*). Líklega felst hjer í mannsn. á *-álfur*, en hver fyrri hlutinn sje er óvíst.

*Múla-*: gæti verið hið alkunna orð *múli*, en bæði AM og J hafa *Mölu-*, *maulu-*, er bendir á annan uppruna, hver sem hann svo er; framborið *maulu-*.

*Óverku-*: af *óverka* eða f. *óverka-*, af *óverki* (= ilt verk?) og þá viðurnefni?

*Sexhóls-*: mun vera f. *Söxólfs-*, mannsnafn.

*Síla-*: svo J (1861); *Síli-* AM; sjálfsagt er nafnið s. s. *Sírils-*, í DI VI. VII (sbr. líka *Syris-*, *Siris-*); af *sýrill*, viðurnefni, mynduðu af *súr*?

*Skjalþings-*: skrifað *Skialldtings-* DI VII; líklega afbakað úr einhverju viðurnefni.

*Torfhvala-*: aðeins í Hauksbók (eða *-hvála-*); óskýranlegt.

*Trut-*: *Trút-* skrifar J. Gæti verið = *Trúts-* af *trúður*. Þá viðurnefni.

*Útibliks-*: svo AM, *-bleiks-* J; *útiblik* (e. *útibleikur*) gæti verið viðurnefni; *útiblik* eig. það sem blikar úti, í burtu? (t. d. ís úti á firði e. í hafi?).

*Veiga-*: svo er og ritað DI VII; f. *Veigar-* af mannsn. *Veigarr*?, sem þó ekki finst. Valla f. *Veigu-* af *Veiga*, gælunafninu. *Veiði-* eða-nafn hjá AM er tæplega annað en afbökun.

*Vígholts-*: AM hefur *Víghólms-* á öðrum staðnum, en hvorttveggja er eflaust afbökun úr *Vígólfs-*, sem stendur í DI VII. *Vislatz-* í DI III er talið afbökun af sama nafni. Annars kemur *Vígólfr* ekki fyrir nema sem skröknafn í Sólarljóðum.

**staður.**

Í eintölu merkir þetta orð alt annað en í fleirtölu, sem áður er áminst. Það merkir þá kirkju eða kirkjustað (bæ sem kirkja er á), prestsetur; þessi merking er gömul, sbr. orð sem »staðamál«, »staðafé«, »staðarprestr«, »staða-Árni« osfrv. Upphaflega er orðið ef til vill stytt úr »kirkjustaðr«, þótt þetta orð sýnist ekki koma fyrir. Nöfn eru þessi:

Staðr VI. XII (eldra Breiðabólstaðr og enn eldra Gröf, Gullþ.). XIII (3). XIV. XV.

eftir legu eða bæjum:

Hólastaðr (= Hrepphólar DI II).
Kálfafellsstaðr II.
Melstaðr XV.
Núpstaðr II.
Reynistaðr XVI.
Staðastaðr (Staðar-, Staðr á Ölduhrygg e. Staðarstaðr á Ölduhrygg, e. Staðr á Snæfellsnesi) X.

eftir stærð og öðru:

Bólstaðr II. IV (L). X. XIV.
Breiðabólstaðr I. II. IV. V. VI. VII (þar Forn*i*- e. litl*u*-AM). X. XI (2). XV (2).
Kirkjubólstaðr VII (L).
Hörðabólstaðr XI (Lax; = Hörðuból).

eftir aldri:

Fornistaðr XII.

Allir »Staðir« eru prestsetur, og jafnaðarlegast er bætt við til auðkenníngar sveitin, sem þeir eru í; Staðr í Grindavík, S. á Reykjanesi osfrv., og kemur þar einmitt glögglega fram upphaflega merkíngin. Hjer við mætti og taka »Staðastað«, sem upphaflega heitir »S. á Ölduhrygg« eða á Snæfellsnesi, eða Staðarstaður á Ölduhrygg, (og svo varð *Staða*-úr því, *r* felt úr); en allmerkileg er samsetníngin; þar er eiginlega fyrri liðurinn orðinn eiginnafn, en síðari hlutinn = prestsetur. Þetta nafn kemur og fyrir haft um aðra »Staði«. *Kálfafellsstaður* er = Staður að Kálfafelli, *Melstaður* = Staður á Mel, *Núpstaður* = Staður að (undir) Núpi ɔ: Lómagnúpi, *Reynistaður* = Staður í Reynisnesi (sem oft kemur fyrir). — *Bólstaður* merkir aðeins stað, sem ból er á, þar sem búið er. — *Fornistaður* er örnefni (Fornastaðir í J s. 176 er rángt).

Eins og áður er getið, finst stundum *staður* f. *staðir*, en það er ekki annað en stytting úr -staðastaður sem Grenjaðar-[staða-]staður, Hallormsstaður, Valþjófs- o. fl. Í 4 nöfnum stendur nú vanalega eintala; Klyppstaður, Skorra-, Þórodds- (í Kinn, sbr. Staður í Kinn, sem kemur fyrir) og Kolfreyju- er alt ýngra í stað eldri mynda *-staðir*, eftir reglunni. Þess skal að síðustu getið, að *Lepparstaðr* (= Leppár-?) hjet í Þjórsárdal (DI II).

**stöð.**

Orðið merkir dvalarstað um lengri eða skemri tíma, einkum þar sem skipauppsátur er, en er fátítt. Nöfnin eru aðeins þessi:

| | |
|---|---|
| Stöð XI. XXI. | Hvannstöð XX. |
| Gagnstöð XX. | Skarðstöð XI. |

**stæði og staða**

eru líkrar merkíngar og koma ekki fyrir nema í örfáum nöfnum:

Bæjarstæði XX.
Bæjarstöður XVI (2).

**salur.**

Þetta orð finst í nöfnum aðeins i fleirtölu *salir*, og er eldgamalt orð, merkir eiginlega eitt einstakt og víst vanalega allstórt hús eða bygging u; er sjerstaklega oft haft um höfðíngjahús i Eddukvæðum, en líka um bóndabæji á Íslandi; svo notaði Kormákur það; i flt. merkir salir öll bæjarhúsin, allan bæjinn. Í Noregi kemur einmitt Uppsalir oftast fyrir eins og á Íslandi. Nöfnin eru:

Loptsalir (e. Lopt J) II.
Trum(b)salir XV.
Uppsalir I. II. IV. V. VI. VII (2). IX. XII (2). XIII. XV (líka Umsvalir AM). XVI (»af sumum kall. Umsvalir« AM). XVII (3; [1]) v.l. Uppsvalir). XVIII. XXI.

*Loptsalir*: J hefur v.l. *Lopt* (flt. hvk.), finst ekki ella; fyrri liður líklega mannsnafnið. — *Trum(b)-* kann jeg ekki að skýra. — *Upp-*: nafnið merkir víst alstaðar, að bærinn liggi hátt eða ofar en aðrir. — Afbökunin i *Umsvalir* er nokkuð gömul og kemur líklega af, hvað -salir er fátítt alls og alls, nema i þessu nafni.

**höll.**

Mjög fátítt og ekki nema i: Höll IX og Valhöll XVI. Fyrir hið síðara hefur J *Vallhóll*.

**hlaða.**

Svo að segja eingöngu haft í flt., og þá myndin *hlaðir* eða *hlaðnir*, *n* komið inn frá eignarfalli (*hlaðna*). Nöfnin eru:

*Eint.* Hraukhlaða (Hraun- 1861) V.
*Flt.* Hlaðir (Hlaðnir AM) XVII.
Bessahlaðir XVII.
Stokkahlaðir (-hlaðnir AM) XVII.

*Hrauk-* er vafalaust hið eina rjetta. — *Hlaðir* er aldrei kallað nú annað en Hlaðnir. — *Stokkahlað(n)ir*: eldri myndin var *-hlaða*, í eint., svo er nafnið i bestu handritum Glúmu, en flt.-myndin er þó allgömul. Nafnið *-hlaða* bendir til, að allir þessir bæjir hafi ekki upphaflega verið sjálfstæðir bæjir.

**þorp.**

Aðeins einu sinni í flt.: Þorpar XIV, sbr. »fyrir Þorpum« AM; þágufall kemur oft fyrir í DI, en aldrei nefnifall, en Þorpar mun það hafa verið.

**hús.**

Orðið merkir, sem alkunnugt er, eitt einstakt herbergi af mörgum eða part af heilum bæ, svo að hús í flt. getur verið s. s. »bær«; svo merkir það og einstakt hús (úr timbri) í kaupstað eða við sjó (íbúð þurrabúðarmanna og fiskimanna og þesskonar). Eins og skráin, sem hjer fer eftir, sýnir, stendur hús í flt. ætíð um bæji eða íbúðir, sem jafna má við bæji, en hús í eintölu merkir eitt einstakt íbúðarhús og þá er fyrri liðurinn ætíð mannsnafn. Í sjóplássum er sjerstaklega mikið af þesskonar »húsum«, og verða þau talin sjer að síðustu ásamt »búðunum« þar. Nöfn eru þessi:

Hús XII. XIII (innri — ytri).
Húsar IV.

eftir legu:
Akrhús VI (2).
Áshús XV.
Bakkhús XIII.
Bjarghús XV.
Borghús (e. Bakkakot) VI.
Borgarhús XVIII.
Brekkuhús III.
Dalhús XXI.
Dalshús XII. XIII (heimari — ytri, og Miðhús AM). XX (Dal- J).
Eiðhús IX.
Eiðishús XIV.
Eyrarhús XII.
Gilshús XVI.
Gjáhús V. VI (nyrðri — syðri; Litlu G.).
Götuhús VI. VIII.
Hagahús (-kot) XIII.
Hálshús XIII (svo AM, J; Hóls- 1861).
Heiðarhús VI. XVII. XVIII.
Hlíðarhús VIII. XIII (2). XIV. XX.
Hólmhús VI.
Hólshús V. VI (2). XI. XII (2). XVII. XIX. XX.
Hvammhús XII. XIII (2; [1]) neðri). XIV.
Hvammshús XVI. XX (DI II).
Hverahús XII.
Höfðahús XXI.
Látrahús XIII.
Laugarhús XX (Austf.).
Lónshús VI. XIX.
Melavaðshús (e. Pjetursthús e. Brynjólfshús, M. innri e. Heiðnahús e. Hauðnahús) XIII.
Melshús VI. VII. VIII.

eftir eiginleikum m. m.:
Bulkhús V.
Busthús VI (2?).
Bæjarhús XII.
Dugguhús VI.
Garðhús V (2; [1]) Garðs-). VI (7).
Garðshús V. XIX.
Grænahús VII (J).
Hlaðhús VI.
Hornhús XVIII.
Kothús VI. IX (sbr. Suðurhús).
Krosshús IV. VI. XVIII.
Langhús XVI (2). XX.
Mosahús VI.
Rauðhús XVII.
Staðarhús XIII.
Steinhús (e. Múlakot e. Múli) XIII.
Þykkhús VI.

eftir mönnum:
Árnahús VI. X.
Ásahús (3 önn. n. sbr. Sauðhús) VII.
Bjarnahús IX.
Björnshús XVI.
Brinkahús V. VI.
Brandshús V. XV. XVII.
Brynjólfshús (sbr. Melavaðshús) XVI.
Eiðshús XII.
Einarshús V. VI.
Eyjólfshús VI.
Eyvindarhús VI.
Finnshús IV (= Ásahús).
Fróðhús IX. Sbr. Friðhús.
Fullbergshús XIX.
Gesthús VI (2).
Gíslahús V.
Gissurshús XI. XVIII.
Grímshús V. XVIII. XIX.
Gunnarshús XII. XVII.
Gvöndarhús III.
Haldórshús VI.
Hálfdanarhús VI. XII.
Hallshús X.
Hallvarðshús XI.
Haukshús VI (AM; Haugs- v.l.).
Helgahus VI. XIII.
Hjalthús XVIII.
Hólmsteinshús VI.
Hrafnshús VI. XV.
Ívarshús VI. VII.
Jakobshús VI (2).
Jónshús VI (2).
Jóns Marteinssonarhús VI.
Kallshús X.
Kastíanshús VI.
Leifshús XIII. XVIII.
Loptshús XIV.
Nikuláshús IV.
Ólafshús III. IV. XVI.
Ormshús VI.
Pálshús VI.
Pétrshús IX. X (e. Fjarðarhorn). XII (2 önn. n.).
Runkahús XII.
Sigmundarhús XXI.
Sigurðarhús V (2; [1]) e. Rass). VI.
Símonarhús V.
Skúlahús VI.
Smidthús VI.
Starkaðarhús V (Starkarðs- AM).
Starkarhús V.
Steinmóðarhús VI.
Stígshús (e. Jódísar-) VI.

Sveinshús XIII. XVI. XVII. XVIII.
Þiðrikshús (-kot) IX.
Þorkelshús (e. Rauf) V.

Bóndhús (e. Höskuldstaðir) XVII.
Beykishús XVIII.
Kóngshús VI.
Presthús (Prests-) II. III. VI (2). VII.
Smiðshús VI.

Grímuhús VI.
Guðnýjarhús VI.
Hallberuhús XXI.
Helguhús V.
Ísleifarhús IX (DI II).
Jódísarhús (e. Stígs-) VI.
Lauguhús IX.
Margrétarhús VI.
Völkuhús XII.

Önnur nöfn:

Eyðihús (Bisk I).
Friðhús VII.
Gníparhús XVIII (DI II).
Gullhús XIII
Heiðna- e. Hauðna- (= Melavaðs-) XIII.
Húnahús VI.
Kasthús VI.
Kúluhús XIII.
Mölshús VI.
Snjóthús V.

Þess skal getið, að jeg er ekki viss um að greint sje fullkomlega rjett milli 2 fyrstu undirflokkanna, enda stendur það ekki á miklu. Um stöku nöfn er að athuga: *Húsar* mun vera karlk.orð. — *Bakk-* = *Bakka-*. — *Götuhús* er framborið — að minsta kosti í Reykjavík — sem *Göthús*. — *Hólm-* = *Hólma-*. — *Mó-* = *Móa-*(?). eða = hús sem mór er geymdur í(?). — *Reykhús* heitir eiginlega *Reykjahús* — af 'reykir' eins og oftast í flt. —; og til skamms tíma var borið fram *Reykjús*. — *Skrið-* = *Skriðu-*. — *Smiðjuhús* = hús sem er smiðja? — *Baul-*: af *baula* = kýr? — *Geit-* = *Geita* . — *Bulk-* = *Búlka-*, hús úr plönkum. — *Hlað-* af *hlað* eða *hlaði*? — *Björns-* sýnir allúngan aldur. — *Brinki* = Brynjólfur. — *Fróð-* = *Fróða-*. — *Fullbergs-*: útlent (danskt) nafn? — *Hjalt-* = *Hjalta-*. — *Kastíans-*: útlent (danskt) nafn? — *Runka-*: = Runólfs-. — *Smidt-*: útlent (danskt) nafn. — *Starkar-* = *Starkaðar-*. — *Völku-*: *Valka* = *Valgerður*. — *Friðhús*: þannig AM, en J hefur *Fróðhús* eftir »1804«. — *Gnípar-*: af kvennm.-nafni (viðurnefni?) *Gníp*? — *Heiðna-* gæti verið af *heiði* (með innskotnu *n* í eign. flt.), en v.l. *hauðna-* bendir helst til annars uppruna, hver sem hann kann að vera. — *Húna-*: af *húnn* eða *Húni* (mannsn.)? — *Kast-*: af köstur (= hlaði)? —

*Möls-*: af mölur = melfluga? (viðurnefni?). — *Snjót-*: hvað merkir það? er það afbakað úr *Snjólfs-*?

**kot.**

Jeg vík frá meginreglu þeirri, er annars er fylgt hjer í þessari ritgjörð, og læt mjer nægja með að gefa yfirlit yfir »kotin« eftir þeim heimildum sem jeg hef notað. Jeg er í engum vafa um, að þau eru nú miklu fleiri en jeg hef svo að segja handsamað. Lángflest af þeim eru kölluð eftir þeim bæjum, sem þau heyra til (svo sem *Akrakot*, *Árkvarnarkot*, *Arnarstaðakot*, *Ártúnakot* osfrv., osfrv.) eða staðnum, sem þau standa (eða stóðu) á eða við (*Klettakot*, *Mýrakot* osfrv.), eða eftir afstöðu (ekki svo mörg, svo sem *Austurkot*, *Vesturkot*, *Norðurkot*, *Suðurkot*, *Syðstakot*, *Efra-*, *Efstakot*, *Neðra-*, *Neðstakot*, *Miðkot*, *Ytra-*, *Ystakot*, *Fremrikot*, *Útkot*, *Uppkot*, *Hákot* (*Háa-*). Tóm »*Kot*« (auðkenníngarlaust) eru og nokkur til. Forliðurinn er oftast bæjarnafn (sem annars er nefnt í þessari ritgjörð) eða staðarnafn á víðum vángi (*heiði*, *fell*, *á* og því um líkt). Eftir aldri er *Fornakot*, *Nýjakot*, eftir stærð *Litlakot*.

Þar næst eru þau kölluð eftir mönnum og konum, og eru þau nöfn flest alkunnug; einstöku sjaldgæf nöfn hittast (*Bolli*, ef það er mannsnafn í *Bollakot*, *Brandi*(?), *Finni*, *Hreinn*, *Húni*(?), *Ísólfur*, *Skalli* (viðurnefni?), *Skammbeinn*). Merkilegt er — og sýnir það einmitt hinn únga uppruna sumra kotanna — hvað oft kemur fyrir gælunafn (smalanöfn? eða vinnumannanöfn?), svo sem *Ásakot*, *Bangsakot*(?), *Beggakot*, *Eyvakot*, *Fúsakot*. *Geirakot*, *Gvendarkot*, *Mundakot*, *Rúnkakot*, *Simbakot*, *Tobbakot*, *Tumakot*, *Valdakot*; eitt heitir *Jóns Snorrasonar kot*. Allmörg (ýngri) nöfn, sem sjaldan eru höfð annars, finnast hjer (*Páll*, *Pjetur*, *Símon*, *Stefán*, *Þiðrik*). Svo er *Bartakot* (*barti* = *bartskeri?*). Eftir kvennmönnum eru nefnd *Bjargarkot*, *Gróukot*, *Hallóttukot*, *Helgukot*, *Oddnýjarkot*, *Solveigarkot*, *Vilborgarkot*, *Þórukot*; með gælunöfnum: *Dísukot*, *Guddukot*, *Imbukot*, *Leifukot*, *Lölukot*; einstætt er *Ambáttarkot* (eitt af þeim elstu?).

Svo eru enn nokkur sem ekki verða heimfærð til neins af þeim flokkum sem taldir voru, og skulu þau talin blátt áfram:

Ausukot.
Hjálparkot.
Hofakot.
Hrakkot.
Kálfakot.
Krunakot (eða Br-?),
Loddakot.
Lúsakot.
Lýsikot.
Miðmundakot.
Neistakot.
Pínukot.
Refakot.
Refshalakot.
Rifshalakot (eða Reiksara-).
Róðukot.
Sporakot.
Svínakot.
Taglakot.
Tannakot.
Tröllakot.
Urriðakot.

Stundum hefur sama kotið fleiri nöfn en eitt: *Ásakot* eða »*Stöðlakot*«, *Bakkakot* e. *Priámstaðir*, *Bakkakot* e. *Bakki*, *Bakkakot* e. *Bakkagerði*, *Bakkakot* áður *Litlibakki*, *Bakkakot litla* eða *Bakkakotskot* (kot eftir koti!, svo er og *Hólakotskot* XVI), *Bartakot* e. *Móakot*, *Bárukot* e. *Þverspyrna*, *Bjarnakot* e. *Háamýri*, *Brekkukot* e. *Háakot*, *Eyjarkot* e. *Skutta*, *Eskiholtskot* e. *Rauðabjarnarstaðir*, *Fitjakot* e. *Tungukot*, *Finnakot* e. *Saurgrund*, *Fúsakot* e. *Bitra*, *Gerðakot* e. *Lambhúskot*, *Gerðakot* e. *Gerðar*, *Guddukot* e. *Þorvaldarkot* e. *Hjarðarholt* e. *Laufás* e. *Böðulsgerði* (5 nöfn!), *Grenivíkurkot* e. *Grenivíkurbakki*, *Grundarkot* »að fornu« *Grund*, *Grýtukot* e. *Grýta*, *Gvendarkot* e. *Lángaás* e. *Lángagerði*, *Guddukot* e. *Fagrakinn*, *Hagakot* e. *Hagahús*, *Haugabrekkukot* e. *Rómur*, *Hellukot* e. *Krákur*, *Hjarðarfelskot* e. *Steinabrekka* e. *Suðurhús* e. *Kothús*, *Hlíðarkot* e. *Hlíðarendi* e. *Hvassárhlíð*, *Hofskot* e. *Hofsel*, *Hólakot* e. »*í hólum*« (VII), *Hólakot* e. *Fagrahlíð*, *Hólkot* »fornt og rjett nafn« *Dæluhóll* (XVI), *Hólkot* e. *Þyrnishóll* (XVIII), *Hrakkot* e. *Hrakhvammur*, *Hópsárkot* e. *Eyjarkot*, *Hrísakot* e. (eldra) *Hrísaland* (XVIII), *Hrossakot* e. *Taglakot*, *Hægindakot* e. *Hægindi*, *Keldukot* e. *Kjaranstaðakot* (VII), *Klafastaðakot* e. *Litlu Klafastaðir*, *Köngustaðakot* »í fyrstu« *Nýibær*, *Leifukot* e. *Ytri Vallnakot*, *Loddakot* e. *Loddstaðir*, *Miðkot* e. *Litla Hlíð* (XV), *Móakot* e. *í Grjóti* (= *Bartakot*), *Syðstu Mókot* e. *Rass*, *Mófelstaðakot* (eystra) e. *Vindheimar*, *Múlakot* e. *Múlasel*, *Múlakot* e. *Morastaðir*, *Múlakot* e. *Múli* e. *Steinhús*, *Niðurkot* e. *Sundakot* (VI), *Norðurkot* e. *Sjávarhólar* (VI), *Ormskot* e. *Bakkakot* e. *Jónssel*, *Reykjadalskot* e. *Reykjarkot* e. *Suðurkot*, *Reykjakot* e. *Reykir* (XV), *Rögnvaldskot* »síðar kallað« *Glóra*,

*Sauðaneskot* e. *Litla Sauðanes, Sigríðarstaðakot* e. *Guðleifsstaðir, Snorrakot* e. *Blómsturvellir* (VI), *Stefánskot* e. *Vesturhús, Skriðukot* e. *Skúlakot, Steinakot* e. *Syðra Múlakot, Suðurkot* e. *Vallnakot* (VII), *Suðurkot* e. *Suðurhús* (VI), *Sveinskot* e. *Pálskot* (XVI), *Svínadalskot* e. *Svínadalssel, Tannakot* e. *Grjóthóll, Tjarnakot* e. *Tjarnagerði* (XVI), *Tjarnarkot* e. *Tobbabær* e. *Efra Víti* (VII), *Traðarkot* e. *Móar, Tungukot* e. *Vaglagerði* (XVI), *Urðarkot* e. *Glóra, Vaðkot* e. *Vað, Vallnakot* e. *Búðarhöfði, Vatskot* e. *Völlur* (V), *Veggjakot* e. *Smiðjuhólsveggir, Þiðrikskot* e. *Þiðrikshús, Þorvaldarkot* e. *Hjarðarholt, Þverárkot* »áður kölluð« *Þverá, Syðrakot* — *Ytrakot*, eldra *Skáldstaðir*.

Það er mart einkennilegt og lærdómsríkt í þessum nöfnum. Það er oft sem maður sjái, hvernig kot eru til orðin úr »seljum«, »gerðum«, og er það þá upphefð að komast upp í kota-flokkinn; hins vegar sjest og, hvernig bæjir (jafnvel bæjir sem hafa heitið *-staðir*) fá kotaheiti, og er það auðsæ afturför eða niðurlæging. Mjer er nær að halda, að hjer sje efni í heilmikla kotasögu, en hún verður ekki sögð í þessu máli, og væri vel, ef einhver, sem tóm hefði og gaman af þess konar rannsókn — enda er hún og nytsöm til fróðleiks um sögu landsins —, vildi taka sig til og rannsaka alt þetta efni til hlítar. Það mundi launa sig. Jeg vil og benda á aðra rannsókn og hún er sú að komast fyrir, í hverjum sýslum eða hjeruðum kotin eru flest eða elst. Jeg gæti gefið yfirlit yfir nöfnin sem jeg hef safnað, en mjer er grunur á, að kotin sjeu enn fleiri, og yngri en heimildir mínar, og þyrfti það alt að takast fyrir í einni heild.

**stofa**

kemur aðeins fyrir í hinu únga nafni: Loðviksstofa VI, og er sömu merkíngar og *hús* í eintölu, skeytt aftan við mannsnafn.

**skáli.**

Orðið merkir ekki annað en eitt hús sjerstakt, eða eitt herbergi á bæ með ákveðnum tilgángi. Oft er skáli haft um hús, sem byggð eru og ætlast til að standi skamman tíma eða til bráðabirgða. Það eru ekki ýkjamörg nöfn, er hjer

koma til greina, og mörg sýna þau, að skáli merkir annaðhvort íveruhús til bráðabirgða eða um stundarsakir (t. d. *Þíng-*, *Leik-*) eða til að geyma eitthvað í (t. d. *Hey-*, *Þáng-*).

Nöfnin eru þessi:

*Flt.* Skálar XIX.

eftir legu:

Austasti- (= Ásólfsskáli) IV.
Miðskáli IV.
Yztiskáli IV.
Háiskáli XVII.
Hellisskáli XVII.
Höfðaskáli XIX (DI II).
Krókssskáli XVII.
Miðskálar VII (DI II).
Útskálar (-ir AM) VI.
Þingskálar IV.

eftir tilgángi:

Heyskálar XX.
Leikskálar (-ir AM) XI. XX (Austf).
Svínaskáli XXI.
Þangskáli XVI.
Þönglaskáli XVI.

eftir mönnum:

Ásólfsskáli (þrír) IV.
Gufuskálar VI (-ir DI II). VII (L). X (-ir AM).
Hrólfsskáli VI.
Ísólfskáli VI.
Karlskáli XXI.
Selningsskáli XIII.
Sveinaskáli V (DI VII).
Þjóðrekskáli (L) = Skáli XXI.

Rúnuskáli XX (DI III).
Torfu(e. Tófu-)skáli XX(DI IV).

Hörðuskáli (v.l. Hefðar- AM) IV.

Laufskálir II (Safn IV).

*Austasti-*, *Yzti-* og *Miðskáli* er og alt = Ásólfsskáli (sbr. L). — *Þöngla-*: *Þumla-* í DI V er vafalaust afbökun (eins og fleira í þeirri skrá). — *Selníngs-*: líklegast viðurnefni. — *Rúnu-*: gælunafn (af Guðrún eða Sigrún). — *Torfu-*, *Tófu-*: hvort rjettara er, veit jeg ekki. — *Hörðu-*: fyrir *Hörða-* eins og stendur í DI II (harðaskalle DI III); það er sama nafnið og í Hörðaból, íbúar Hörðalands; nafnið er sjálfsagt gamalt (*Hefðar-* er afbökun).

Ella er ekki annars að geta en þess, að *skálar* (í flt.) hefur verið oft breytt í *skálir* (kvk.), eins og sjest á skránni, og er það í fullu samræmi við ýmislegt annað; en ekki hef jeg vissu um, hvort svo muni nú sagt í þeim sveitum, er bæjirnir liggja.

**kofi**

er mjög fátítt og kemur aðeins fyrir í þessum nöfnum, sem þurfa ekki frekari skýríngar:

| | |
|---|---|
| Snorrakofar XVIII. | Völkukofar XVI. |
| Gunnukofi IX. | Einkofi V. |
| Signýjarkofar XVI. | |

**skemma**

kemur aðeins fyrir í:

Skemma VI (2; [1]) = Snússa). X.
Solveigarskemma VI.

**veggur.**

Merkilegt er að þetta orð hefur verið notað í bæjanöfnum og það í eintölu. Hvort nafnið kemur af fjallshlíð, get jeg ekki um sagt (sbr. Rygh). Nöfn:

*Eint.* Áveggr XIX.
Tóveggr XIX.
Undirveggr XIX.
*Flt.* Veggir báðir XIX (DI III).
Síðumúlaveggir (sbr. Veggir L) IX (sbr. DI VII).
Smiðjuhólsveggir (Veggir J; = Veggjakot AM) IX.
Stafholtsveggir IX (= Veggir DI VII).

*Veggir báðir* er = *Áveggur* og *Tóveggur* e. *Undirveggur* (sbr. DI V). — *Síðumúlaveggir* eru líklega s. s. *Veggir* í L.

Eftirtektavert er það, að þessi nöfn koma aðeins fyrir í 2 byggðarlögum. Þeir 3 síðustu hafa víst upphaflega aðeins heitið *Veggir*, en verið svo kendir hver við sinn bæ.

**gafl, gefla.**

Fátítt og sýnist ekki að koma fyrir í Noregi. Nöfn:

| | |
|---|---|
| Gafl V. XV (2). | Flóagafl V. |
| Húsgafl XII. | Skotingefla XV. |

**dyr.**

Kemur aðeins fyrir í *Steindyr* XVII. XVIII.

**stafn**

kemur aðeins fyrir sjálft og ósamsett og merkir víst, eins og í Noregi, endann á hæðum eða fellum.

Stafn XV. XVI (2). XVII. XVIII. XIX.

**tótt** (eldra: **topt**).

Orðið merkir eiginlega grundvöllinn undir húsum eða bæjum, bæjarstæðið; þar af hefur leiðst hin síðari merkíng orðsins á Íslandi, þeir 4 veggir, er lykja um grundvöllinn, einkum veggir húss, er annars hefur verið rifið. Nöfn eru þessi og eru flest úr AM:

*Flt.*

Tóttir V. X. XV.

eftir bæjum:

Bjarnarstaðatóttir XII.
Múlatóttir XVIII.
Selhólstóttir XVI.
sbr. Húsatóttir V. VI.

eftir brúkun:

Geitatóttir XV.
Geldingatóttir XVII. XVIII (e. -hús). XIX.
Hestatóttir XIX.

eftir útliti:

Grænatótt XVI. XVII.
Grænutóttir XV.

Renslu (K-?) tótt VI.

*Eint.*

eftir mönnum:

Bergstótt XVI.
Brinkatótt IV.
Böðvarstótt X.
Haldórstótt V.
Helgatótt V. XV.
Káratótt XVI.
Oddleifstótt V.
Pálstótt V.
Steinstótt (svo AM, en Stein-J) IV.
Tobbatóttir IV.
Þorlákstótt XV.
Þorsteinstótt XVI.

Imbutótt V.
Sölkutótt V.
Þórutótt (-ir AM) IV.

*Flt.*

Bollatóttir XI (Lax).
Byrgistóttir XV.
Böðvarstóttir V (L).
Eilífstóttir XV.
Fúsatóttir (e. -kot) IV.
Gunnarstóttir XVI.

Guttatóttir IV.
Hávarstóttir VII (Fóstb).
Haldórstóttir IX.
Hrafntóttir (Hrafns- L) IV. V.
Káratóttir XVI.
Krummatóttir IV.
Magnúsartóttir XVII.
Snorratóttir IX (Fóstb).
Sveinstóttir XIII (2).
Varðatóttir XVI.
Vífilstóttir XI.

Auðartóttir XI (L).

Fjörleifartóttir XVIII (Reykdæla).
Gunnutóttir XV.
Maríutóttir XVIII (DI III).
Möngutóttir II (DI II; -tættr). VI. XIV.
Settutóttir XVI.
Siggutóttir XVI.
Sölkutóttir (e. Salgerður) II (Safn IV).
Þórutóttir (AM = Þórutótt) IV. X (L).
Þórunnartóttir XI (L).

Öll þessi nöfn eru auðskilin, nema *Renslutótt* (f. *Rensli*-?). — *Byrgis*- er auðvitað tvírætt (af Byrgir eða byrgi). — *Krumma*-: viðurnefni. — Fleirtölumyndin *-tættur*, sem nú sýnist svo almenn, kemur aldrei fyrir (því að -tættur í DI II er frá síðustu tímum svo að segja). Flest þessara nafna koma fyrir í Árness-, Rángárv. (um 20) og í Skagaf. og Húnav. (hjerumbil jafnmörg), en engin koma fyrir í Austur-Skaft., Vestm., Borg. og Múlasýslum.

**rúst.**

Þetta orð (= tótt í yngri merkíngunni) kemur aðeins fyrir í Grænarúst VII.

**tröð.**

Orðið merkir annaðhvort girt, (af fjenaði) troðið svæði eða götu með veggjum báðumegin, einkum heim að bæjum (og þá mest í flt.). Nöfn:

*Eint.* Tröð IV (e. Jónshjáleiga). VI. IX. X (3; [1]) innri — ytri e. minni — stærri AM). XIII (3).
*Flt.* Traðir IX. X. XI. XII (2). XIII (2). XIV.

Akrtraðir X.
Lækjartröð (e. Litli Lækr) XIII.
Sjóartröð X.

Álfatraðir XI.
Fagratröð XIII.

Gálutröð X.
Hegurðartröð XII.
Skjalda (-r AM) tröð X.
Stekkjartröð X.

*Hegurðar-*: af *hagur* eins og *fegurð* af *fagur*. — Af þessum nöfnum eru lángflest í Snæf. og Ísaf. (16 alls), 3 í Barð., og svo stöku í öðrum sýslum.

**geil.**

Sömu merkíngar og tröð = vegur; aðeins í: Geilar II (DI II) (nú Giljar). IV (DI III).

**gerði**

merkir girðíng og umgirt svæði; í bæjanöfnum þýðir það ætíð þetta frá upphafi. Upphaflega var aðeins girðíng með þeim og þeim tilgángi; hann mun hafa verið aðallega tvennur; annaðhvort var girðíngin utan um reit eða svæði sem sáð var í, kornyrkjureit, akur, eða utan um grasi gróinn völl, er hafður var fyrir alidýr, einkum kálfa, geitur osfrv. Svo hafa byggst smáhús eða kofar upphaflega líklega handa þeim, sem áttu að gæta akursins eða alidýranna, og svo urðu bæjir eða smájarðir (hjáleigur) upp úr öllu saman. Auðvitað eru miklu fleiri 'gerði' til, en þau sem urðu að þesskonar bæjum, og er skráin, sem hjer fer á eftir, að því leyti ekki fullkomin skrá yfir öll gerði, en nöfnin eru þó svo mörg, að þau veita oss ljósa og sanna mynd af 'gerðunum', og hún yrði valla ljósari, þótt þau væru öll saman komin. Annars má vísa til ritgjörðar B. M. Ólsens í Búnaðarritinu um 1910. Í skránni, sem hjer fer á eftir, er ekki vel hægt með vissu að greina milli tveggja fyrstu undirflokkanna, fremur en vant er. Hún er þessi:

*Eint.* Gerði I. VII. XI (2). XII (v.l. Girði J). XVIII (= Miðkrókar). XIX.
*Flt.* Gerðar IV (Gerður AM). V (2; [1]) AM, J sem v.l.; Gerði 1861). VI.

eftir legu og eftir bæjum:
Akragerði minna XVI.
Álfgeirsvallagerði XVI.
Árgerði XVII (3). XVIII.
Bakkagerði XVII (-kot AM). XIX (2). XX. XXI.

Barðsgerði XVI.
Barðsnesgerði XXI.
Beinárgerði XXI.
Bessastaðagerði XX.
Bitrugerði XVII.
Bjarnarstaðagerði XVI. XIX.
Borgargerði XVI (4; [1]) Gerði AM). XVIII (2). XIX. XXI.
Bólstaðagerði (Bóla) XVI.
Brakaðargerði = Brakandi XVII.
Brattagerði I. XX.
Breiðargerði XVI.
Brekkugerði XX.
Brimnesgerði XXI.
Brúnagerði XVIII.
Bæjargerði XVIII.
Dalsgerðir (-ar AM, -i J; syðri — ytri) XVII.
Dattstaðagerði (e. Glettíngsstaðir) XVIII.
Endagerði VI.
Eyvindarstaðagerði XV.
Fossgerði XX. XXI (2).
Fosshagagerði XIX.
Frostastaðagerði (e. Krókur) XVI.
Gíslastaðagerði XXI.
Glaumbæjargerði XVIII.
Grafargerði XVI.
Grjótárgerði XVIII (2; [1]) Grjót-J).
Grófargerði XVI (Gróar-). XVII. XXI.
Grundargerði VII. XVI (2).
Háfagerði XVII (3). XV. XVI. ([1] kesknir menn: Framanísmeygja; 2). XVIII.
Hafralækjargerði XVIII.
Hagagerði XVIII. XIX.
Hálsgerði XVII.
Haldórstaðagerði XVII.
Hamarsgerði XVI (2). XVIII.
Hamragerði XVII. XXI.
Heiðargerði XIX.
Hlíðargerði V. XIX.
Hofgerði XVII.
Hólagerði XVIII (3). XXI.
Hólsgerði XVII. XVIII.
Holtagerði (e. Vestari Holt) XVIII.
Holugerði V.
Hraunagerði XIX.
Hraungerði II. V. XVII. XVIII. XIX.
Hrísgerði XVIII.
Hrísagerði XVII.
Hrúthagagerði XVIII.
Hvammsgerði XVI. XX.
Höfðagerði XVI. XVIII.
Kálfsnesgerði XX.
Kiðsárgerði XVIII.
Kirkjugerði XVI.
Kjarnagerði XIX.
Kleifargerði XVI. XIX.
Klaufárgerði XVIII.
Kollastaðagerði XXI.
Kórekstaðagerði XX.
Krossbæjargerði I.
Kotárgerði XVII.
Neðra Kryddhólsgerði XVI.
Landsgerði XIX.
Laugagerði (e. -ás e. Gvöndarkot) IX.
Lónsgerði XVIII (2).
Melgerði XVII.
Melagerði X. XV. XVI.
Miðgerði XVII. XVIII. XIX.
Miðhólsgerði XVI.
Miðhúsgerði XVI.

Mýrargerði XVIII.
Mosgerði XVI.
Mógerði XIX.
Nesgerði XVII. XVIII (áðr Bakki á bökkum).
Oddagerði XIX (Efra O.).
Ósgerði V (2).
Reykjagerði (-sel) XVI.
Saltvíkrgerði XVIII.
Sandbrúargerði XVIII.
Sandgerði VI. VII (e. Neðra Viti). XVII.
Sandhólagerði XVIII.
Sjóargerði XVIII.
Skarðagerði XVIII.
Skógargerði XVI. XVIII. XX.
Sólheimagerði XVI.
Sómastaðagerði XXI.
Steinagerði XVII (2).
Steinárgerði XV (Staura- AM).
Stekkjargerði IV.
Svínavallagerði (e. -kot) XVI.
Sælíngsdalstúngugerði XI.
Teigagerði XXI (Teigar- J).
Teigsgerði XVII.
Tjarnargerði (2 önn. n.) XV.
Tjarnagerði (e.-kot) XVI. XVII.
Torfárgerði XVIII.
Tröllagilsgerði (= Tröllakot) XVIII.
Túngugerði XVIII.
Vaglagerði XVI (öðru nafni Tungukot). XVIII.
Vallnagerði XIX.
Vatsdalsgerði XX.
Vatsendagerði XVII.
Víðivallagerði XVI. XX.
Víkrgerði XXI.
Ytra- } gerði XVIII.
Syðra- }
Yztagerði XVII.
Þrastarstaðagerði XVI.
Þúfugerði XIX.
Þverárgerði XVII.
Æsustaðagerði (Gerðar J) XVII.

eftir stærð, eiginlegleikum og aldri:

Breiðagerði VI.
Fífilgerði XVII (Fífils- DI II).
Flatagerði XVI.
Flatgerði (e. Sand-) XVII.
Gamlagerði XVII.
Grænagerði XVI.
Langagerði IV.
Litlagerði III. IV. XVII. XVIII (2).
Rauðagerði XVII.
Sléttagerði IX.
Stóragerði III (Gerði, »Stórgerði« AM). IV. VI (Garðar v.l. J). XVII.
Víðirgerði XVII. XIX.

eftir tilgángi:

Akrgerði VI (2).
Álptagerði XVI. XVIII.
Bygggerði XVI.
Galtagerði XIX.
Geitagerði XVI (2). XVII. XVIII (-fell). XIX. XX.
Geitargerði XVI.
Geldingagerði XVII.
Hestgerði (e. Hreggs-; Heggs- DI II, Hegsgarðr DI IV (prentvilla?) I.
Kálfagerði XVI. XVII.
Kolgerði (Kols- DI II. V) XVIII.
Kollugerði XV. XVI. XVII.
Korngerði (Kot-) IV.

Kríugerði XVII.
Lambagerði XVI.
Moðgerði V (2).
Ráðagerði IV. VI (4).
Sauðagerði V. VIII. XVII.
Skipagerði IV.
Stauragerði (AM f. Steinár-) XV.
Stakkagerði III.
Töðugerði XVII.

. eftir mönnum:
Aragerði XVII.
Árnagerði IV (Litla og Stóra). VI. XXI.
Arnargerði XVIII.
Arnkelsgerði XXI.
Attagerði VI.
Beinisgerði XVII.
Bessagerði XVI.
Bjarnagerði XVIII.
Brandsgerði XIX.
Bölverksgerði (e. Ölvers-) XVII.
Finnsgerði (yngra Hólar, ɔ: Höfða-) XV.
Grímsgerði XVIII.
Gunnlaugsgerði XVI.
Heggsgerði sjá Hestgerði.
Hrafnsgerði XX.
Högnagerði XVI.
Höskuldargerði IV.
Jónsgerði XVII.
Jökulgerði XV.
Káragerði IV. XVI. XVII.
Kolsgerði sjá Kolgerði.
Loptsgerði XVI.
Mánagerði XV (e. Mánatoptir v.l. í Bisk I).
Óláfsgerði XVIII. XIX.
Pálsgerði XVI. XVIII.
Skeggjagerði XV.
Skíðagerði XVIII.
Snæbjarnargerði (alm. Gerði AM) XVIII.
Snorragerði (Snoru- AM) XVI.
Stullagerði XVI.
Sveinbjarnargerði XVIII.
Torfagerði XVII.
Þórðargerði XVII.
Þórisgerði (e. -hóll) VII.
Þorgrímsgerði VII (DI IV).
Þorkelsgerði V.
Ölversgerði sjá Bölverksgerði.

Böðulsgerði (4 önn. n.) XVI.
Junkaragerði VI.
Smiðsgerði XVI.
Þrælsgerði XV.
Íragerði (eystra — vestra) V.

Gróugerði XI. XVII.
Gunnhildargerði XX.
Máríugerði XVII. XVIII. XIX.
Óskargerði XVII. XVIII.
Sophíugerði XI. XVII.
Þorlaugargerði III.
Þorljótargerði XIX.

Nunnugerði XVII.

Ýmisleg nöfn:
Ausugerði XVI.
Bandagerði XVII.
Bárusgerði (AM, J v.l. I.) VI. (v.l. Báru- e. Bárusker).
Blænksgerði (e. Blakks-) XVII.
Blöndugerði XX.
Brennigerði XVI.
Bringlugerði XVII.
Dagverðargerði (Dögunar- J) XX.

Flautagerði XXI.
Harðmagagerði XVII.
Hlaupandagerði XX.
Hnífilgerði XV.
Hriflugerði (»nú alm. Hrifla« AM) XVIII.
Krákugerði XVI.
Kringlugerði XVI (e. Fornistekkr). XVII (2).
Kringugerði XIX.
Krossgerði XXI.
Lásgerði (Láfs- AM, J) XVIII.
Náðagerði XVII.
Patrans (e. Parons-) gerði XVI.
Rófugerði XVIII (e. Kirkjubær). XVI (2; [1]) e. Þverárgerði).
Samkomugerði XVII.
Skálpagerði (e. Skála- AM) XVII.
Skiptigerði XVII.
Skollagerði (=Veisusel) XVIII.
Skrafsagerði IV.
Stigagerði XVII.
Spónsgerði (e. Skúms- AM) XVII.
Vælugerði (Væli- AM) V.
Þrætugerði XV. XVI.

Önundargirði XIII.

Nöfnin skýra sig yfir höfuð sjálf og þarf lítils við. Helst eru nokkur nöfn »eftir tilgángi«, er þurfa athugasemdar. *Galta-gerði* gæti líka komið af mannsnafninu *Galti*. — *Hestgerði* er líklega rángt og *Heggsgerði* rjett og er þá af mannsnafni leitt. — *Kolgerði: Kolsgerði* er líklega rjettara, og þá af mannsnafni dregið. — *Korn-* er eflaust rjettara en *Kot-*, sem í rauninni þarf ekki að vera annað en framburður á *Korn-*. — *Ráða-*: mjög sennileg er skoðun B. M. Ólsens, að *ráða-* sje af *ráði* = göltur. — *Atta-*, er valla annað en mannsnafn (gælunafn eða viðurnefni). — *Jökul-* ætti heldur að vera *Jökuls-*, en sbr. *Kol-* (f. *Kols-*). — *Snorra-*: líklega er *Snoru-* ekki annað en latmæli. — *Íra-* getur bæði komið af *Írar* og mannsn. *Íri* (sem þá er = írlendíngur). — Hvað »Ýmisleg nöfn« snertir er oft vant að skýra þau: *Bárusgerði* er eflaust næst því rjetta (af *Bárekr*?). — *Blænks-* er afbakað úr *Blakksgerði*, sjá Svarfd., og er það upphaflega myndin (líklega af *Blakkr*, mannsn.). — *Lás-*: líklega er *Láfs-* rjettara, = *Láfa*, af *Óláfr*. — *Patrans-* e. *Parons-* kann jeg ekkert um að segja (f. *patróns*?). — *Skálpa-*, *Skála-* er vafalaust rángt fyrir *Stálpa-*, sem kemur fyrir í DI II. — *Vælu-* kemur fyrir í Landn. og er þar nefnt *Vælu-* í öðru, *Væli (Veli-)* í hinu hdr. — Sum af þeim nöfnum, sem eru hjer forliður, eru vafalaust viðurnefni.

Það er eptirtektavert, hvernig nöfn þessi skipast eftir hjeruðum. Lángflest eru þau í Eyjaf., Skagaf. og Suður-Þíng.

(milli 60 og 70 í hverri sýslu), þar eftir kemur Norður-Þíng. með alt upp að 30, Múlasýslurnar báðar með alt upp að 20 hvor, um 45 í Gullbr. og Kjós. og Húnav., um 12 í Rangárv. og Árness., þaðan af færri í hinum, og ekkert í Ísaf. og Strandars. (sbr. þó Önundargirði). Þetta hlýtur að standa í nánu sambandi bæði við landslag og atvinnuveg, en sú rannsókn heyrir öðru máli til.

**tún.**

Orðið merkir upphaflega 'girðíngu' og svo þar af leiðandi 'afgirt svæði'; á Íslandi hefur það orðið að eiginlegu nafni á hinum umgirta töðuvelli, er hverjum bæ til heyrir (en það sem til þess svarar í Noregi, er þar nú kallað *bö*; þar á móti er *tun* þar haft um það sem vjer köllum 'bæjarstæði'). Nöfn eru þessi:

Tún III. V.

eftir legu:

Ártún IV (e. Hátún). VI (2). XVI.
Borgartún IV.
Daltún VII.
Gjátún XV.
Grófartún IV. VI.
Hátún II (plur.). IV (e. Ár-; Hátún DI II; 2). V. VI. XV (2). XVI. XVII. XVIII (2). XXI.
Hellnatún IV.
Hjallatún VI. X.
Hlíðartún XI.
Hrauntún V (2). VI. VII (Hrein- e. Hraun- AM).
Hraunstún XIV.
Króktún IV (2).
Múlatún XIV.
Núpstún V.
Ríftún (»nokkrir kalla Víg-« AM) V.
Stapatún X. XIV.
Steintún XX.
Strandatún XIV.
Sætún XIII.
Túngutún VII. XIV.
Norðrtún XIII.
Samtún (-týni AM) XVII (mið — efsta — syðsta).
Undirtún X. XII.

eftir því sem á er:

Hlöðutún IX.
Hústún (e. Undirborg) XIII.
Húsatún XIII (2).
Lambhústún IX.
Sauðhústún IV.
Stekkjartún IV (og Innara S.).
Skálatún XIII.
Vallnatún (v.l. Vellir) IV.

eftir tilgángi:

Geldnautatún IV.
Hrútatún VII.

eftir mönnum:

Eysteinstún (e. Geira-) VI.
Hallstún IV.
Hanatún (yngra -staðir; = Marbæli) XVII.
Sigvatstún (e. Nauðverja) VI.
Steinstún XIV.
Krákutún XIV (2).
Kötlutún IX.
Skáldkonutún XIII.

eftir ýmsu:

Fragatún XIV (J).
Húnatún (e. Hún-) XIII.
Hvasstún IV (sbr. DI II).
Sigtún XVII.

Hvort *Rif-* eða *Víg-* er rjettara, get jeg ekki skorið úr; hvorugt finst í DI. — *Fragatún*, sem aðeins finst í J, er næsta tortryggilegt nafn og er víst afbakað. — *Sigtún* er efalaust heitið eftir Sigtúnum í Svíþjóð; það er fleirtöluorð, eins og »Sigtúnaland« sýnir (DI III) og ekki síður »Sigtúnir« (DI V), það er hin forna og eiginlega mynd.

Í Rángárv. eru flest þessara nafna (um 14), þar næst í Strandas., um 9, og nær jafnmörg í Gullbr.-Kjós. og Ísafj., í Árness. 6, þaðan af færri í hinum; en í Vestur-Skaft. og Norður-Þíng. ekkert.

**völlur.**

Merkíng orðsins er nú sama sem í tún; þó er orðið oft haft sjerstaklega um sljettan (sljettaðan) part af túninu. Nöfnin eru þessi:

*Eint.*

Völlr IV.
Völlr (e. Vatskot) V.

eftir legu og bæjum:

Árvöllr VI.
Austrvöllr VI.
Bakkavöllr IV.
Brekkuvöllr XII.
Efrivöllr V.
Eyjavöllr XI.
Fossvöllr (L; -vellir) XX.
Gilsárvöllr XX.
Grændalsvöllr V.
Hryggvöllr IV (J).
Kotvöllr IV.
Krókvöllr II (Safn IV). IV. VI (Króks- 1861; ekki í AM).
Selvöllr X.
Syðrivöllr V.

eftir eiginleikum og tilgángi:

Gullvöllr V.
Gyltuvöllr XIII.
Harðivöllr IV. VII (e. Skallamói). X.
Harðvöllr V.
Kvíavöllr IV.
Lángivöllr XIII.
Leiðvöllr II.
Magrivöllr IV.
Murnavöllr IV (Litli M.).
Sauðhúsvöllr IV.
Toptarvöllr XII.
Toptavöllr XX.
Þrjótsvöllr IX.

eftir mönnum:

Geiravöllr X.
Ólafsvöllr VI.
Ormsvöllr IV.
Stórólfsvöllr IV (L).

*Fleirt.*

Vellir IV. V. VI. IX. XV (syðri — ytri). XVI (e. Vallnir). XVII (2). XIX.
Á Völlum XIV (AM).
Fornu Vellir XVI.

eftir legu:

Bakkavellir XVII.
Baulárvellir X.
Brimils (e. Brimnes- AM) vellir X.
Brúnavellir (efri — syðri) V.
Glámuvellir XIII.
Hnappavellir (í Njálu: Knappavöllr, v.l. -vellir) I.
Hverfisvellir XIX.
Hvítárvellir VII.
Kálfárvellir X.
Kleifárvellir IX.
Miðvellir X. XVI.
Nesjavellir V.
Rangárvellir XVII.
Reykjavellir V (2). XVI.
Selsvellir XVI.
Selvellir X.
Þambárvellir XIV.

eftir eiginleikum og gróðri:

Blómstrvellir II. XVII. XVIII (e. Blómstaðir). VII (2; [1]) e. Snorrakot).
Brattavellir XVII.
Fíflavellir V.
Hvannavellir XXI.
Litluvellir XVIII.
Minnivellir IV.
Mosvellir X. XIII.
Möðruvellir VI. XVII (3).
Reynivellir I. VI.
Sóleyjarvellir XX.
Steinavellir XVI.
Stóruvellir (= Vellir L) IV. XVIII.
Víðivellir XIV. XVI. XVIII. XX (fremri — ytri).
Þúfnavellir XVI. XVII (-vallir AM).

eftir notkun:

Bolavellir X.
Geitavallir XVII.
Hjarðarvellir (= Ásahús) VII.
Hrossavellir XIX.
Kiðuvellir I (J).
Kvíavellir VI.
Lambavellir XIII.

Svínavellir XVI.
Þaravellir VII.
Þingvellir V. X.

eftir mönnum:

Álfgeirsvellir (»sumir Ásgeirs-« AM) XVI.
Hrafnsvellir (e. Hafs-) XV.
Hrolleifsvellir (e. Hrólfs-) XVI.
Ketilvellir V.
Kjallaksvellir XI.
Krakavellir XVI.
Meiðavellir (e. -vallir AM) XIX.
Ólafsvellir V (2; [1] minni).

Valbjarnarvellir IX.
Þiðriksvellir XIV.
Vigdísarvellir VI.

Ýmisleg nöfn:

Augnavellir XIII (J).
Bragðavellir XXI.
Gullhlaðsvellir (?) VI.
Hesjuvellir (e. Esju-) XVII (Hesju- DI III).
Súluvellir XV.
Særisvellir, = Svæði XVIII (Særisvöllur DI III. V).
Þiljuvellir XXI.

Jeg hef skift þessum nöfnum eftir eintölu- og fleirtölumyndunum. Það getur valla verið vafamál neinum, sem lítur á báða flokkana, að hjer er merkíngarmunur, og að í fyrra (eintölu-)flokkinum eru nöfnin dregin af parti úr heildinni (túninu); nöfnin í fleirtölu-floknum eru aftur dregin af hinum upphaflegu, samfeldu sljettum, er bæirnir voru reistir á, því að *vellir* var einmitt í fornmálinu haft um mikla sljettu, er svo að segja var samfeld. Undantekníng frá þessu er nafnið *Fossvöllur,* svo Landn., en þetta kemur ef til vill af því, að hjer er einmitt um fremur litla sljettu (eða völl) að ræða; síðar hefur nafninu verið breytt í fleirtöluorð. Eignarfall flt. hefur, eins og svo mörg önnur orð, fengið *n* (frá veiku beygíngunni) og varð *vallna*; eftir þessu var svo oft gerð ný mynd í nff. *vall(n)ir* (sjá listann). Um eintölunöfnin er annars ekkert að athuga. —

*Brimnes-* e. *Brimils-*: hið síðara er hið upphaflega, og kemur fyrir í Landn. — *Hnappavellir* heitir eftir 2 »hnöppum« á Hnappafellsjökli. — *Kiðu-*, »latmæli« fyrir *Kiða-*. — *Hrafns-*: AM og J hafa *Hafs-*, en J tilfærir *Hrafs-* sem v.l., eftir hreppstjóra og sýslumanni; og er það annaðhvort *Hrafns-* eða *Hrapps-*. — Hvort *Hrolleifs-* eða *Hrólfs-* er rjettara, get jeg ekki úr skorið; nafnið finst ekki í DI. — *Ketilvellir* má vera að heyri ekki hjer til (búast hefði mátt við *Ketils-*). — *Særisvellir* er líklegast rangt; nafnið er aðeins hjá AM.

Eins og við var að búast, eru flest þessara nafna í sveitum,

þar sem sljettlendi er, flest eru í Rangárv. (um 12 eintöluorð og 2 flt.orð), í Árness. (6 eint., 10 flt.), í Eyjafj. (um 12 flt.), í Skagafj. (um 11 flt.), í Snæfellsn. (um 8 flt.), og þá enn færri í hinum.

**akur, ekra**

koma ekki oft fyrir í bæjanöfnum.

| | |
|---|---|
| *Eint.* | Hvannaakrar XIII. |
| Akr VII (J). X. XI. XV. XVIII. XIX. | Vætuakrar (-ir AM, »að fornu -ar«) X. |
| *Flt.* | Ekra XXI. |
| Akrar IX. XVI ([1]minni—stóru; [2]) Akrir AM og DI VI). | Langekra IV. |
| | Gullekra VI. |

Þau eru öll ljós. *Akrar* hafði tilhneigíngu til að verða *Akrir.*

**fjós.**

Allfá nöfn, er hjer koma til greina, og auðvitað öll svo til komin, að bær eða kot hefur verið byggt upp úr fjósi eða gömlu fjósstæði. Nöfnin eru:

| | |
|---|---|
| Fjós II. IV (DI II). XI. XII (2). XV (e. -ar). Fjósir (DI III) en Fjós DI VI. | Andrésfjós (e. -völlr J) V. |
| Gömlu Fjós V. | Grímsfjós V. |
| | Jónsfjós XIX. |
| | Magnúsfjós V. |

Sjerstaklega er hjer myndin *Fjósir* eða *Fjósar* merkileg.

**bás**

finst aðeins í 2 nöfnum í sömu sýslu og er ef til vill dregið af einhverju í landslaginu; þau eru:

Bás XVII.
Básar XVII.

**stekkr**

er samskonar nafn og *Fjós* og uppruninn víst hinn sami, bær eða kot byggt upp úr stekk eða við gamlan stekk. Nöfnin eru tiltölulega ekki svo fá:

*Eint.* Stekkr V. VI. IX. XII. XIII. XV (-inn).
*Flt.* Stekkar V (3; [3]) -ir AM).

eftir legu:

Brekkustekkr XIII.
Grafarstekkr IX.
Hólstekkr XVII.
Hólastekkr XVII. XVIII.
Hryggstekkr XXI.
Leitistekkr XVI.
Fremristekkr XIX.

eftir bæjum:

Breiðuvíkrstekkr (Stekkr J) XXI.
Dunkrbakkastekkr X.
Gilsárstekkr XXI.
Krossstekkr XXI.
Skriðustekkr XXI.
Staðarstekkr IX.
Svínaskálastekkr XXI.
Þjórastaðastekkr XIX.

eftir aldri:

Fornistekkr I. XVI (e. Kringlugerði). XIX.

eftir efni:

Grjótstekkr XVI.
Sprekastekkr XIX.
sbr. Hlaðstekkr XIII.

eftir tilgángi:

Geitastekkr XI.

eftir mönnum:

Arastekkr XVI.
Grímsstekkr XIX.
Þorkelsstekkr XVIII.
sbr. Tveggjastekkr XIX.

Í Norður-Þing. og Suður-Múlas. er flest af þessum nöfnum (6 í hvorri), þar næst í Skagafj., Árness. (4), Mýras. og Ísafj. (3).

**grind.**

Orðið merkir rimagirðíng fyrir sauðfjenað eða þvílíkt. Nafnið kemur aðeins fyrir í flt. í: Grindr (-ir AM) XVI.

**stöðull**

merkir kúagrindur eða girðíng eða stað, sem þær eru mjólkaðar í; nafnið er líkt tilkomið og *Fjós.* Nöfnin eru aðeins:

*Eint.* Stöðull I.
*Flt.* Stöðlar V. XIII.

**kví**

merkir sauðfjenaðargirðíng og eru nöfnin:

Kvíar IX. XIII.
Steinkví XII.
Rimakvíar (= Rimabær) X.

Hallvarðskvíar X.

**rjett**

merkir hestagirðíngu. Nöfn fá:

Rétt (e. Kárakinn) XVI.
Bjargarrétt XXI.

**sel**

merkir sumardvalarstað, helst á heiðum eða við fjöll uppi, þar sem ær og kýr eru hafðar á beit og með málnytuna farið, eins og lög gera ráð fyrir; húsakynnin voru ætíð lítil og órífleg, ekki nema 2 herbergi eða svo, enda ekki mart manna að jafnaði. Alment var »haft í seli« á Íslandi lángt fram eftir öldum, uns það hætti, bæði vegna ódugnaðar og eins hins, að þörfin á að hafa í seli var aldrei eins mikil á Íslandi eins og t. d. í Noregi, nema þá rjett á stöku stöðum. En nöfnin eru mjög þýðíngarmikil, einmitt fyrir búskap Íslendinga á fyrri öldum. Sel urðu að bæjum (kotum) líkt og *fjós* osfrv. Nöfnin eru:

*Eint.* Sel II. IV (3). V (4; [1]) efra — syðra, [2]) syðra). VIII. IX. X (L). XIV.
*Flt.* Seljar IX. X (og Litlu S).

eftir legu og bæjum:

Aurasel IV.
Efrasel IV. V.
Ferjusel V.
Fjallgarðssel XIX.
Hornsel XIX.
Tóarsel XXI.
Urðarsel XII.
Fremrasel XX.
Miðsel XI.
Neðrasel IV.

Norðrsel XI (Lax).
Vestrsel IV (DI II).
Ytrasel } XIX.
Yztasel
Öldusel (e. -hryggr) XVI.

Akrsel XIX.
Ánastaðasel XV.
Árbæjarsel XVI.
Arnarbælissel IX.
Ásgerðarstaðasel XVII.
Ássel XIX.
Austrgarðasel XIX.
Bakkasel XIII. XIV. XVIII.
Borgarsel XVI.
Bótarsel XVIII.
Breiðabólstaðarsel II (Safn IV).
Brekkusel XIX. XX.
Brettingstaðasel XVIII (2).
Buðlungavíkrsel XIII (J).
Búlandssel II.
Bæjarsel V.
Dagverðarnessel XI.
Dálkstaðasel XVIII.
Dalssel IV.
Dönustaðasel XI.
Ekkjufellssel XX.
Eskifjarðarsel XXI.
Eyjadalsársel (eldra: Hlíðarendi) XVIII (syðra — ytra).
Eyjasel XX.
Fellssel XVIII.
Finnstaðasel XXI.
Fjallalækjarsel XIX.
Fjallssel XX.
Fjarðarsel XX.
Flögusel XVII.
Fornastaðasel XVIII.
Fornhagasel XVII.
Fossel XVI. XVIII.
Gilssel XVII.
Gilshagasel XVI (J).
Glaumbæjarsel XVIII.
Grafarbakkasel V.
Grenjaðarstaðasel XVIII.
Grjótteigssel XX (Austf).
Gunnsteinstaðasel XV.
Hagasel X.
Hálsasel XI.
Halllandssel XVIII.
Hamarssel XXI.
Heiðarsel II. XVI (J). XVIII (e. Arndísarstaða-) XX.
Helgársel (e. Helga-) XVII.
Hellisfjarðarsel XXI.
Herjólfsstaðasel II (Safn IV, 290).
Hermundarfellssel XIX.
Hjallasel XVIII.
Hlíðarsel XIV. XX.
Hofstaðasel XVI.
Hólmasel II. V.
Hólssel XIX (2).
Holtasel II.
Holtsel XVII.
Hraungarðasel XIX (eldra: Vellir).
Hrappstaðasel XVIII.
Hvanneyrarsel (e. Selkot) XVI.
Hvammsel XIX (2).
Höskuldsstaðasel XV. XVIII. XXI.
Kambssel XXI.
Kaupangssel XVII.
Kirkjubólssel XXI.
Klambrasel XVIII.
Klaustrsel XX.
Kollavíkrsel XIX.
Krossavíkrsel XIX.

Kúðársel = Kúðá XIX.
Landamótsel XVIII.
Laugasel XIX. XVIII (e. Laugaból).
Leirhafnarsel XIX.
Leirulækjarsel IX.
Leitissel XII.
Mánársel XVIII.
Miðfjarðarnessel XX.
Miklaholtsel IX.
Móbergsel XV.
Múlasel IX (e. Stafholts-). IX (e. Múlakot). XVIII.
Mýrarsel XVIII.
Narfastaðasel XVIII.
Nessel XVI.
Óspakstaðasel XV.
Rauðhólasel XIX.
Rifssel XIX.
Sandasel (efra — neðra) II.
Sandhaugasel XVIII.
Sandvíkrsel XXI.
Sauðahlíðarsel XX.
Sigurðarstaðasel (e. Strandasel) XIX.
Seljalandssel IV.
Skarðsel IV.
Skógasel XVIII (J; Skógar- AM).
Skógarsel IX.
Skriðusel XVIII.
Sleðbrjótssel XX.
Stafholtssel (e. Múla-) IX.
Stapasel IX.
Stíflusel XIX.
Stigasel XVI.
Stokkseyrarsel (eystra—vestra) V.
Strandsel (J, í flt. AM; -jar) XIII.
Svalbarðssel XIX.
Svínadalssel VI (e. -kot). XIX.
Teigasel XX.
Tinnársel XVI.
Traustholtssel V.
Tungusel V. XVIII. XIX.
Vatsfjarðarsel XIII (e. Seljaland, Sel).
Veisusel XVIII.
Víðivallasel XVIII. XX.
Vindborðssel I.
Þormóðstaðasel XVII.
Þykkvabæjarsel II.
Ærlækjarsel XIX.

eftir mönnum:

Bjarnasel XI.
Byrgissel XIX.
Egilssel XX.
Jónssel IV. XIV.
Klængsel (Klang- AM) V.
Mársel XX (Más- J).
Pétrssel IV. VII (e. Fljótsbakki). XVI. XVIII.
Teitssel V.
Volasel I.
Þórðarsel XVI.

Hildarsel V.
Óskarsel XIII.
Siggusel IX.
Þórunnarsel VI. XIX.

eftir aldri:

Fornasel IV. IX. XIV. XIX.
Gamlasel IV.

eftir ýmislegu:

Baugasel XVII.
Hníflasel XX.

Hrútavíðarsel XVIII.
Kikasel XI (DI III. IV).
Knútusel XXI (Austf).
Kumbsel IX.
Rjúpnasel IX.
Skaufasel XIV.
Tandra (Tandara- AM) sel IX.
Urriðasel XIV (J).

Hvort »til selja« í Landn. ber að skoða sem eiginnafn, er ekki víst, en jeg hef þó talið það með; í jarðabókunum finst það ekki. — *Byrgis-* er ef til vill ekki mannsnafn. — *Bauga-* gæti vel verið mannsnafn, *Skaufa-* sömuleiðis, *Tandra-* ef til vill líka; hvort *Tandara-* er rjettara, verður að láta ósagt.

Eftir sýslum skiftast nöfn þessi hjer um bil svo: í Þíngeyjarsýslunum eru þau flest, milli 60 og 70 til samans (og jafnt í báðum), þar næst í Norður-Múl. alt að 20, í Mýras. og Árness. hjer um bil jafnmörg (rúm 30 alls), í Ráng. og Skagaf. jafnmörg (og um 26 alls), í Eyjaf. og Suður-Múlas. jafnmörg (og um 18 alls), í Vestur-Skaft. og Strandas. jafnmörg (og 14 alls), og þaðan af færri í hinum. Alls eru nöfnin næstum 200.

Við allan þennan bálk bæti jeg enn 2, **naust** og **partur**, og eru nöfnin þessi:

Naust IV. VI. X. XVI. XVII. XVIII.
Fornu Naust X.
Ánanaust VIII.
Snekkjunaust XVI.

Partr IV. XVIII (Haldórstaða- J).
Bakkaholtspartr V.
Gegnishólapartr V.
Langholtspartr V.
Sandvíkrpartr XXI.
Selpartr V.
Sýrupartur VII (efri — neðri).
Teigapartur (e. Miðteigr) VII.
Traustholtspartr V.
Vestrpartr V.
Bræðrapartr VII.
Oddspartr IV.
Þórarinspartr (e. Sandgerði e. Neðra Víti) VII.
Gunnupartr IV.
Önnupartr IV.

*Snekkjunaust* er ef til vill s. s. Naust XVI. Merkíngin í *partur* er glögg (hluti af jörð eða jarðartorfu), eins og nöfnin líka benda á.

## V.

Annar höfuðbálkur bæjanafna er, eins og áður var sagt, dreginn af landslagi og því sem finst í náttúrunni, og má skifta honum aftur í smærri bálka og á ýmsan hátt, og fer það nokkuð eftir geðþótta, hvernig flokkað er eða hverjum heitum er skipað saman; vjer vonum, að sú flokkun, sem hjer verður höfð, þyki nokkuð nærri lagi, þótt sumt megi hafa eitthvað öðruvísi. Fyrst eru nöfn á sljettlendi, hvort sem er harðlendi eða votlendi (mýri), og sem áframhald þar af nöfn með túngum og töngum og þvílíku, og svo reka lestina nöfn, er merkja sand (-fleti) og það sem þar á skylt við. Hin síðustu þeirra nafna benda á vötn og sjó — og eru þá talin heiti, sem dregin eru þar af, og svo aftur horfið að þurlendinu og þá tekin heiti, sem dregin eru af dældum jarðarinnar, smáum og stórum; svo koma heiti frá því gagnstæða, hæðum og fellum osfrv.; þá koma nöfn sem dregin eru af skógargróðri og öðru sem þar á skylt við. Þá eru ýms nöfn, er vel mætti nefna flokkleysingja og eru þó skyld hvert öðru að miklu leyti. Og allra síðast eru þau nöfn er leidd eru af hverum og laugum (jarðhita).

### 1.

**slétta**

kemur aðeins fyrir örsjaldan og ósamsett: Slétta V. XIII. XVI (og Minni S.). XXI.

**flöt, flötur.**

Samrar merkíngar og sljetta, en þó víst ætíð haft um minni »sljettur«. Jeg greini ekki milli þessara tveggja orða, bæði vegna skyldleika og hins, að ruglíngur sýnist vera um þau. Nöfnin eru:

| | |
|---|---|
| Brekkuflöt VI. | Fletir XIX. |
| Stekkjarflatir (-fletir AM) XVI. | Skeiðflötr II. |
| Stekkjarflatir (e. -fletir 1861) XVII. | Sturluflötr XX. |
| | Skógafletir XVIII. |

Nöfnin eru öll greinileg.

**grund**

merkir sljetta, grasgróna og harða jörð, helst meðfram ám og vötnum; finst ekki í Noregi. Nöfn eru:

*Eint.* Grund IV (efri e. Stekkjar-, syðri e. Borgar-, syðsta). VI. VII (2, [1]) e. Nýja G. e. Byskups- e. Vatnsenda- AM). XII. XV (3). XVI (syðsta: »öðru n. Róðu-« AM, yzta e. Bola- AM). XVII (4). XVIII. XIX. XXI.
*Flt.* Grundir XII (e. Láganúpsgrund J) XIV.

eftir legu og bæjum:
Efstagrund IV.
Miðgrund IV. XVI (e. Kirkju- e. Hauks- AM).
Gullberastaðagrund VII.
Klafastaðagrund VII.
Láganúpsgrund sjá Grundir.
Mosagrund XVI (2).
Nýjagrund (e. Bakka-) XVI.
Selgrundir XVI.
Svangrund XV.

Við nöfnin er ekkert að athuga, nema að *Svansgrund* er eflaust rjettara en *Svan-*; svo í DI III. V (mannsn. *Svanr*).

**bali**

líkrar merkíngar; haft um litlar en ofurlítið kúptar harðar sljettur, helst í túni; í Noregi sýnist merkíngin að vera dálítið önnur (sbr. Rygh). Örfá nöfn:

Bali IV. V. VI (2).
Harðbali IX.

**skeið**

merkir sljettu, er vel er löguð til að hleypa hesti eða renna í köpp; *hlemmi-* herðir á merkíngunni og táknar, að »skeiðið« sje sjerlega sljett og gott. Nöfn:

Skeið IV (»in singul.« AM). XVI. XVII.
Syðra — Ytra Skeið XIX.
Hlemmiskeið V.
Skeiði (»alm. kallað Kolbeins-« AM) XII.

**teigur**

merkir sljettan part úr túni eða annarstaðar, og þá víst oft takmarkaðan af náttúrunni, og mun teigurinn líka ætíð vera meiri á lengd en breidd. Nöfn:

*Eint.* Teigr IV. XI. XVI. XVII. XX.
*Flt.* Teigar XVI.

Beinateigr V.
Efstiteigr (e. »Fyrir ofan Teigana« AM) VII.
Eyrarteigr II.
Fossárteigr XVI.
Gilsárteigr XXI.
Kleppsteigr XVII.
Háteigr (Háa- AM) VII.
Hofteigr (Hofs- L) XX.
Miðteigr (e. »Teigaskarð e. Teigapartr« AM) VII.
Skálateigr (efri — neðri) XXI.
Urðarteigr XXI.

Um teiginn, er *Hofs- (Hof-)* teigur heitir eftir, gefur Landn. fulla skýríng (»teigr ónuminn« milli tveggja landnáma eftir samkomulagi gerður að hofseign, enda eru þar taldar hofrústir sýnilegar). Flest nöfnin eru eftir legu.

**fit**

merkir sljetta ræmu, og víst oftast votlenda, fram með ám eða lækjum eða vötnum. Nöfn (öll skiljanleg):

*Eint.* Fit IV.
*Flt.* Fitjar VI (2). VII. XIV. XV (fremri — neðri). XVI.

Bakkafit X.
Holtsfit XII (Fit 1861).
Launfit V.
Stórafit, Vestarifit, Eiríksfit IV.

**engi**

kemur aðeins fyrir í: Miðengi V. VI.

**hagi**

merkir upphaflega umgirt land til beitar (hestahafnar osfrv.), og svo alment beitarland. Nöfnin eru:

Hagi IV. V. VI. IX. X. XII. XV. XVII (syðri — ytri). XVIII. XX.

eftir legu:
Axlarhagi XVI.
Gilhagi XVI.

Hlíðarhagi XVII.
Klifshagi XIX.
Sandfellshagi XIX.
Selhagi XV.
Skorhagi VI.
Tunghagi XXI.

eftir notkun:

Hjarðarhagi XX.
Hrosshagi V.
Kálfhagi V.
Lambhagi IV. V (2). VI (2). VII (2; [1]) litli — stóri).

Sauðhagi XXI.
Svínhagi IV.

eftir bæ:

Ketilhúshagi IV.

eftir mönnum:

Guttormshagi IV.
Þjóðólfshagi IV.

Fornhagi XVII.
Dunhagi (litli — stóri) XVII.

Á undan *h* var hljóðstöfum oft hætt við að hverfa í framburði, t. d. í *Túnghagi* f. *Túngu-*, *Sauð-* f. *Sauða-* o. fl. Takandi er eftir því, hve oft *Lambhagi* kemur fyrir. Annars er ekkert um þessi nöfn að athuga. Þau hittast flest í sljettlendum hjeruðum, Ráng., Árness. (rúm 10 í báðum), Gullbr., Kjós. og Eyjaf. (um 8 í báðum), og þaðan af færri í hinum. Í Snæf., Ísafj., Strand., Skaftafellssýslunum ekkert.

**þúfa, þýfi.**

*Þúfa* vita allir hvað er; í bæjanöfnum mun það merkja nokkuð líkt og hól eða hæð. Í Norvegi er orðið haft um hæðir og fell (fjallatinda), líklega helst eins og þústmynduð. Mig brestur þekkíngu um hina einstöku staði. Nöfnin eru:

*Eint.* Þúfa IV (2). V. VI. IX (litla — stóra). XI (AM, J, DI III, en Valþúfa 1861). XIII. XVIII.

*Flt.* Þúfur XIII. XVI.

Mörþúfur V.
Valþúfa sjá Þúfa XI.
Skinnþúfa XI. XVI.

Þýfi XIX. XX.
Músaþýfi XV.

*Þýfi* merkir efalaust sama sem þúfnafjöldi í túni í vanalegri merkíngu.

**torfa**

kemur aðeins fyrir í flt.: Torfur V. XVII.

**hnaus**

kemur sjaldan fyrir.

*Eint.* Hnaus V.
*Flt.* Hnausar II (2; [1]) Litlu — Stóru). XV.

Orðið merkir, eins og menn vita, ferstrent stykki, er stúngið er upp með spaða; en ómögulegt er víst að segja með vissu, hvernig þessi nöfn eru eiginlega tilkomin. Eldri myndin var *Knauss.*

**mýri** (eldra: **mýrr**)

merkir votlent (oft grasrótarfúið) land, grasi vaxið; »vætan« er mjög mismunandi. Í Noregi eru mörg heiti dregin af þessu orði, samrar merkingar. Nöfnin eru þessi:

*Eint.* Mýri XVIII.
*Flt.* Mýrar II. V. X. XIII. XV (2; [1]) efri — neðri). XVI. XXI.

eftir legu:

Ámýrar X.
Engimýri XVII.
Fagrhólsmýri I.
Fitjarmýri IV (AM Fitja- J).
Kambsmýrar XVIII.
Kotamýri XVIII (svo AM, J; -mýrar 1861).
Rifsmýri (e. Refs-) XX.
Seljamýri XX.
Smiðjumýrar XII (J).
Steinsmýri II (efri — neðri).

eftir eiginleikum og gróðri:

Blámýrar XIII (Blámýrr í eint. Hávs.).
Breiðamýri V (L). XVIII. XX.
Langamýri V. XV (syðri — ytri). XVI.
Rauðamýri XIII.
Torfmýri XVI.
Votamýri V.
Starmýri XX.
Víðimýri XVI.

eftir mönnum:

Gauksmýri XV.
Skammfótarmýri XIII.

Vífilsmýrar XIII (= AM; -mýri J).

Þernumýri XV.

eftir ýmislegu:

Álptamýri XIII.

Spóamýri IX.
Tyrðilmýri XIII.
Flugumýri IX. XVI.
Laxamýri XVIII.
Desjarmýri XX.
Dysjarmýri XX (Desjar- J).

Hvort *Rifs-* (svo J einúngis) eða *Refs-* er rjettara, get jeg ekki úr skorið; í DI finst nafnið ekki. — Af hverju *Þernu-* er dregið er óvíst (viðurnefni?, eða fuglsheitið?). — *Tyrðilmýri* (e. Mýri J) kemur eflaust af *tyrðill* (= jötunuxi; af *torð*, mykja, skítur), og þá haft sem viðurnefni (?); en annars er haldið að þessi bær sje sá sami sem nefndur er *Dyrðilmýrr* í Fóstbr., og er þá *dýrðill* víst viðurnefni (sbr. Þorkell *dýrðill*). — *Flugu-*: nafnið dregið af merarheiti (sjá Landn.). — *Laxa-*. hjet áður aðeins *Mýrr*, og er bærinn svo nefndur í Reykdælu. — *Dysjar-* (*Desjar-*) finst ekki í DI; jeg veit ekki hvort rjettara er. *Des* merkir heystakk.

**saurr**

eða *saurar* í flt. — svo er nafnið ætíð — er dregið af mýrlendi eða parti af mýri og kemur fyrir í: Saurar IX. X (2). XI. XIII (2). XV (2).

**for, veisa, vilpa**

er alt sömu merkíngar, og líkrar sem saur(ar). Nöfnin eru örfá:

For IV.
Veisa XVII. XVIII.
Vilpa XVIII.

**eyri** (eldra: **eyrr**)

þýðir sand- og smásteinaflöt, er gengur út í sjó eða vatn eða á, eða er úti í á, umflotinn af árálum eða kvíslum (sama merking í Noregi). Nöfn eru hjer allmörg, sem við mátti búast:

Eyri VI. VII (2). X (2 L = Öndverðeyri og Narfeyri). XII. XIII (6). XIV. XVIII (2). XXI (2).

eftir legu:

Bíldudalseyri = Litlaeyri.
Borgareyrar IV.
Drageyri VII (litla — stóra).
Háeyri V (stóra — litla).
Hrafnfjarðareyri XIII.
Koteyri VII (J).
Lónseyri XIII.
Óseyri VI.
Óspakseyri XIV.
Skerseyri VI.
Skutulsfjarðareyrar XIII.
Vestdalseyri XX.
Norðreyri XIII.
Suðreyri XII. XIII.

eftir eiginleikum og gróðri:

Stóra Eyri X.
Flateyri XIII.
Grjóteyri VI. VII.
Langeyri VI.
Litlaeyri XII (e. Bíldudalseyri J).
Akreyri XVII.
Hvanneyri VII. XVII.
Melgraseyri XIII.
Sandeyri XIII.
Vatneyri XII.

eftir notkun (eða atburðum?):

Búðeyri XII.
Hesteyri XIII.
Hrúteyri XXI.
Kjappeyri XXI.
Lambeyri XII. XXI.
Nauteyri XIII.
Þingeyri (-eyrar L) XIII.
Þingeyrar XV.

eftir mönnum:

Eysteinseyri XII.
Geirseyri (Gess- AM) XII.
Hallbjarnareyri (»kölluð Öndverðar-« AM) X = Eyri.
Hjallkárseyri XIII.
Hrafnseyri XIII.
Ketilseyri XIII.
Kolbeinseyri XIII.
Marðareyri XIII.
Narfeyri = Geirrøðareyri X = Eyri.
Sveinseyri XIII (2).

Arngerðareyri XIII.

Berserkseyri X.

eftir ýmislegu:

Báruhaugseyri (»Bárugs- [= Bisk. II] e. Bárhauks-« AM) VI.
Borðeyri XIV.
Dagverðareyri XVII.
Heseyri (Hest-) XXI.
Hlaðseyri XII.
Hvaleyri VI.
Kjörseyri (Kets- AM) XIV.
Krosseyri (»af sumum kallað Eyri« AM) XII.
Kúhallareyrar VII.
Ráeyri (e. -eyrarkot) XVII.
Stokkseyri V.
Vestanseyri XIII.

Eldri myndin var *eyrr*, sem lög gera ráð fyrir. — Í Landn. eru nefndir tveir bæjir *Eyrr*, og annar nefndur »Öndverð(Öndurð-)eyrr«, til greiníngar frá hinum (í Álftafirði), er síðar var nefndur »Narfeyri« eða Geirrøðareyri; Öndurðeyri eða (síðar) Öndverðareyri hafði og annað nafn (ýngra) »Hallbjarnareyri«. — *Drageyri* (f. Draga-eyri), af Draganum í Skorradal (sbr. nafnið »Eyri undir Draga« DI III). — *Búð-* er f. *búða-*. — *Kjappeyri* af *kjappi* = hafur. — *Báruhaugs-*: þessi orðmynd lítur út fyrir að vera búin til til að fá hugsun í framburðarmyndina: *Bárugs-*, og má vera að hún sje rjett (*báruhaugr* = haugur, hrúga við sjó eða, öllu heldur, sem myndast hefur við reköld); þó má það vel vera engu síður, að orðliðurinn sje mannsn. *Bárekr*; *Báreks-* gat í framburði vel orðið *Bárugs-*. — *Borðeyri*: um uppruna þessa nafns greinir Vatsd., (af borði reknu í land). — *Dagverðar-*: *Dögurðar-* DI IV. V. — *Hesteyri*: af því að J ritar *Hes-* og ekki *Hest-*, mætti ætla, að *Hes-* væri rjettara (og það er v.l. í 1861), enda mun svo vera; af *hes* (í tjóðri eða bandi). — *Kjörs-* er nú almenna myndin í riti; AM hefur *Kets-*, sem valla er annað en ritháttur f. *Kess-*, og það f. *Kers-*; af hvorugk. *ker* er orðið líklegast komið, því að *kjör* (kosníng) gefur litla hugsun. — *Stokks-*: af setstokkum, reknum í land (sbr. Landn.). — *Vestans-* er eflaust framburðarmynd, en hver upphaflega myndin sje, er óljóst.

**túnga.**

Eins og við var að búast eru ekki allfáir bæjir, er hafa fengið nafn sitt af »túngum«, þ. e. landrimum eða geirum milli tveggja áa, er renna saman, endar þá geirinn á odda (sbr. bæjarnafnið Oddi). Rygh hefur ekki þetta orð í sinni skrá. Nöfnin eru:

Túnga II (eystri—ytri e. vestri). IV (5; [1]) T. litla, [3]) eystri—vestri). V (2). VII. IX (syðsta—mið—yzta). X (3; efri; syðri—ytri; neðri = Túngukot). XI (2; [1]) stóra = Galtardalstúnga, — litla). XII (2). XIII (5). XV (2; [1]) litla T. = Litlu Túngur AM). XVI (3; [1]) Minni T.). XVIII (3; [1]) syðri—ytri). XXI.

eftir legu og bæjum:

Álptártúnga IX.
Arngeirstaðatúnga IV.
Brautartúnga VI.

Búðarártúnga V.
Fagradalstúnga XI.
Fljótstúnga (Fjósa- J) IX.
Fosslækjartúngur(?) V.
Galtardalstúnga XI (Bisk. I, DI V. VI) = Túnga.
Grjótártúnga V.
Grjóteyrartúnga (Túnga J) VII.
Grænumýrartúnga XIV.
Hafrafellstúnga XIX.
Kárdalstúnga (Kálf- AM) XV.
Kverkártúnga XX.
Leirvogstúnga VI.
Mýrartúnga XII.
Norðtúnga (e. Norðr- AM) IX.
Núpdalstúnga XV.
Sandártúnga V.
Sanddalstúnga IX.
Seljatúnga (-túngur AM) V.
Sólheimatúnga IX.
Staðartúnga XVII.
Straumfjarðartúnga IX.
Sælíngsdalstúnga XI.
Víðidalstúnga XV.
Vogatúnga VII.

eftir notkun:

Hrútatúnga XV.
Yxnatúnga XV.

eftir eiginleikum og því sem á er:

Fjósatúnga XVIII.
Flatatúnga XVI.
Litlatúnga VII. IX. XIX (sbr. Túnga).
Moldartúnga IV.
Stóratúnga XIX.
Svellatúnga (»nú alm. Skolla-« AM) XVII.

eftir mönnum:

Aratúnga XIV.
Arnartúnga X.
Áslákstúngur V (2).
Bessatúnga XI.
Böðmóðstúnga II (L).
Eyvindartúnga V.
Finnstúnga e. Sölvatúnga XV.
Grímstúnga (e. -túngur J, »af sumum« AM) XV.
Grísatúnga IX.
Hálfdanartúngur XVI.
Kalmanstúnga (»alm. kölluð Galm.-«) IX.
Kolbeinstúnga XVII.
Marteinstúnga IV.
Mástúngur (»minni — stóru, Mos-« AM) V.
Óþveginstúnga XVIII (Reykd.).
Snartartúnga XIV.
Sveinatúnga IX.
Þjóðólfstúnga (= Túnga J) XIII.
Þórorms- (= Þórodds-, »sumir kalla Vatsdals-« AM) XV.
Bræðratúnga V (= Túnga L). XVII.

eftir ýmislegu:

Dagverðartúnga (»Diguls- e. Digurs-« AM) XVII.
Deildartúnga VII.
Haukatúnga IX.
Knarartúnga (syðri — ytri; »Hnar-« AM) X.
Miðnestúnga (v.l. Munaðar- J, Munis- e. Munaðar- AM, Munaðs-« 1861). XII.
Mörtúnga II.
Skrapatúnga XV.
Tröllatúnga XIV.

*Fljóts-*: *Fjósa-* hjá J er vafalaust augnabliksritvilla, en allóheppileg. — *Kárdals-* er rjettara en *Kálfs-*, sbr. DI III (*Kalf-* IV), — *Skolla-*: svo DI V—VII. — *Grísa-* f. *Grísar-*. — *Marteins-*: nafnið ber það með sjer, að það er valla mjög gamalt; eldra nafnið var aðeins *Túnga*; síðar hefur bærinn fengið annað (merkilegt) nafn: *Sóttartúnga*, en *Marteini* var kirkjan þar helguð, og þar af nafnið (sbr. »Marteinskirkja í Sóttartúngu« DI III. IV). — *Dagverðar-*: *Diguls-* eða *Digurs-* er valla annað en afbökun. — *Miðnes-*: vafalaust er þetta rjetta myndin, sbr. Miðjanes í sömu sveit; úr *miðnes* varð *mines*, *munis* í framburði, og svo var þetta ránglega skýrt sem *munaðs (-ar)*.

Annars er um þessar »-túngur« margar það að segja, að þær hafa frá upphafi aðeins heitið svo (*Túnga*), en svo hefur síðar forlið verið skotið framan við til greiníngar og skýríngar, — eins og líka sjá má af því, sem tilfært er, og svo sem registrin við DI sýna ljóslega; en hjer er engin þörf á að fara frekar út í hvert einstakt nafn að því er þetta snertir. Nöfnin eru flest í Mýras., Húnavs. og Árness. (um 10 og vel það í hverri), í Ráng. (um 8), og svo færri og dreift í hinum.

**tángi**

merkir landrima út í vatn, og oft ysta (mjósta) partinn af nesi. Nöfn:

Tángi IX (2). X. XI.
Grjóteyrartángi VII (J).
Hjallatángi X.
Skálatángi (e. Staðar- AM) VII.
Stekkjartángi X.
Flóðatángi (Flóa- AM) IX.

Um þau er ekkert að athuga; *Flóa-* lítur út fyrir að vera rjettara en *Flóða-*; ekki í DI.

**oddi**

líkrar merkíngar og tángi; t. d. haft um mjósta partinn af túngu (sbr. þar). Nöfn:

*Eint.* Oddi I. IV. XX.
*Flt.* Oddar II.

**eið(i)**

mjór rimi milli tveggja vatna (eða með vatni báðum megin). Nöfn:

*Eint.* Eið(i) VI (2). X (2; Litla E.). XIII. XIX.
*Flt.* Eiðar XVII. XXI.

*Eiðar* skrifa menn nú alloft með *y*, en það er rángt með öllu.

**grandi**

líkrar merkingar og *eið*, en sjerstaklega víst haft um malar- og sandrima milli eyjar og meginlands. Sjaldhaft.

Grandi XII. XIII.

**rimi**

mjó landspilda, líkt og *eið*, eða hryggur. Nöfn:

Rimi IV (2; [1]) R. háfi). V. XII (2; [1]) »alm. kallað« Þinggerðarhringr AM). XXI.

**rani**

hryggur eða því um líkt, sem teygir sig fram úr einhverju öðru (líkt og rani eða snoppa á dýri). Nöfn:

Rani XIII (2).
Kaldrani XII. XV.

---

**sandur**

þarf engrar frekari skýríngar. Nöfn:

*Eint.* Sandr VI. VII (S. litli). XVIII.

*Flt.* Sandar II. XIII. XV.

Fornusandar IV.
Hjallasandr VI.
Miðsandr VII.
Hjáleigusandar IV.
Bjarteyjarsandr VII.
Helgusandar (Helgubær AM) IV.

**jörfi**

líkrar merkíngar og sandur eða melur (»sljett melholt« AM).

Jörfi VI. IX. XI. XV (2; [1]) Stóri — Litli; [2]) hefur tvö önnur nöfn: Fagrabrekka, »af sumum kallað J., nú alm. Tjarnargerði« AM).

**melur**

sand- og smásteinasljetta. Nöfn:

*Eint.* Melr IV (2). VIII. IX. X (2; [1]) »alm. kallað Melkot« AM). XVI.

*Flt.* Melar VI. VII. IX (L). XI. XIV (2). XVII. XVIII. XX.

Rauðimelr (syðri — ytri) IX.

**mór, mói**

merkir þýft, hart, oft lýngi vaxið land, en óhæfilegt til heyskapar. Eftir Rygh er merkíng orðsins nokkuð önnur í Noregi (= melur). Nöfn:

| *Eint.* | *Flt.* |
|---|---|
| Mór XVI (L). | Móar VI. VII (e. Traðarkot). |
| Grámói VI. | Kotmóar VII (J). IX (eldra: Minni Laxárbakki; aðeins í J). |
| Miðmór XVI. | Staðarmóar IX. |
| Syðstimór XVI. | |
| Yztimór XVI. | |
| Skallamói VII. | |

**flaga, flag.**

Hið síðara merkir uppblásið svæði, þar sem ekki er eftir nema möl og leir eða sandar. *Flaga* merkir torfu, sem skorin hefur verið upp; vegna skyldleika orðanna eru þau sett hjer saman (sbr. og *moldarflaga*). Nöfnin eru fá:

Flaga I. II. V. XV. XVII. XIX. XXI (2).
Flag V.

---

**nes**

haft bæði um »nes«, er gánga úr meginlandi út í sjó og vötn, og um líkar landmyndanir, þar sem bugður eru í ám og fljótum. Nöfn eru hjer mörg, sem vænta mátti:

*Eint.* Nes V (2). VI. XIII. XVI. XVII. XVIII (3). XIX. XX. XXI.

*Flt.* Nesin (e. Nesjabær) XIII. Nesjar V. VI (v.l. Másbúðir J, Gömlu Nesjar AM).

eftir legu:

Árnes V. X. XIV. XVIII.
Barðsnes XXI.
Búlandsnes XXI.
Engjanes XIV.
Fossnes V (2).
Grunnasundsnes X.
Hafnanes I.
Haganes XVI (efra — neðra). XVIII.
Hitarnes IX.
Hjallanes IV.
Hofsnes I.
Hólanes XV.
Kaldrananes II. XIV (2; [1]) Kaldaðar- AM).
Kollafjarðarnes XIV.
Króksfjarðarnes XII.
Lángeyjarnes XI.
Laxárnes (Laxa- AM) VI.
Melanes XII.
Miðfjarðarnes XX.
Óseyrarnes (e. Ferjunes) V.
Skagnes II.
Svínárnes (e. Svína- AM) XVIII.
Túngunes XV.
Vallanes XXI.
Brimnes XVI. XVII (2). XVIII. XIX. XX. XXI.
Efranes IX. XVI.
Framnes IV. V. XVI.
Meðalnes XX.
Merkines VI.
Miðjanes XII.
Neðranes IX. XVI.
Norðr-Nesjar VI.
Utanverðunes XVI.
Öndverðarnes V (Öndvertnes L). X.

eftir stærð og eiginleikum:

Breiðanes XII.
Digranes VI. VII (»sumir kalla Dagverðar-« AM).
Lánganes IX.
Litlanes II (Safn IV). XII (Nes, á Litlanesi e. Músarnesi AM). XIV.
Mjó(f)anes V. XXI.

Fagranes XVI. XVII. XVIII (2). XIX.
Grænanes XIV. XXI.
Hvítanes VI. VII. XIII (v.l. Hvitar- AM).
Rauðanes IX.
Þurranes XI.

eftir gróðri:

Akranes VII. IX.
Berjanes IV (2).
Heynes VII.

Hrísnes II (e. Hrífu- J). XII.
Skógarnes IX (syðra — ytra).
Víðines VI (Víðir- AM). XVI.
Víðirnes XVII.
Sölvanes XVI.

eftir dýrum og fuglum:

Álptanes IX.
Arnanes I. XIX.
Berunes XXI (2).
Birnunes (Bjarnar- e. Birnu- AM). XVII.
Dilknes I.
Galtarnes XV.
Geldinganes VI.
Hafranes XXI.
Hjarðarnes VI.
Hundsnes XIX.
Hvalnes XVI (Hvals- J). XXI.
Hvalsnes I. VI.
Kálfanes VII (2). XIV.
Lambanes XVI.
Laxnes VI.
Melrakkanes XXI.
Mýnes XXI.
Sauðanes XIV. XV. XVII. XIX.
Selnes XVI.
Skarfsnes (Skarfa- L) VII.
Skarfanes IV.
Súlunes (eystra — vestra) VII.
Svínanes XII.
Sýrnes XVII. XVIII.
Vargsnes (Vass- AM). XVIII.
Þernunes XXI.

eftir því sem á er:

Búðarnes X. XVII.
Garðanes XIII.
Hlöðunes VI.
Húsanes X.
Kvíarnes XIII.
Réttarnes (Rétta- AM) IV.
Sauðhúsnes II.
Seljanes XII. XIV.
Sellátranes XII.
Skálanes II. IX. XX (2; [1]) austr — vestr).
Skipanes VII.
Smiðjunes (e. Hrappstaðir) IV.
Stekkjanes (svo J, AM; Stakka- 1861) XIII.
Tjaldanes XI. XIII (og Litla T.).

Þinganes I.
Þingnes VII.

Grjótnes XIX.
Hlaðsnes XIII.
Hrúðrnes VI.
Keldunes XIX.
Kílsnes XIX.
Krossanes XV. XVI. XVII (syðra — ytra). XXI.
Krossnes IX. X. XIV.
Laugarnes VI.
Mykjunes IV.
Reykjanes V. XIV.
Saltnes XVII.
Sandnes XIV.
Steinanes XVII.
Steinnes XV.
Steinsnes XXI.
Torfnes XI (L).
Torfunes XVIII.
Vatsnes V. VI. XIII (L).

eftir mönnum:

Álfsnes (e. Áls- AM) VI.
Arnarnes VI. XIII (sbr. Landn.). XVII.
Asknes XXI.

Asbjarnarnes XV.
Ásmundarnes XIV.
Bauganes XVII.
Bjarnanes I. XIII. XIV (Bjarnar- J).
Brjámsnes XVIII.
Broddanes XIV.
Böðvarsnes XVIII.
Einarsnes IX. XV.
Grímsnes XVIII.
Gufunes VI.
Gvöndarnes XXI.
Hallsteinsnes XII.
Hærukollsnes XXI.
Höskuldsnes (»alm. Nes« AM) XIX.
Jónsnes X.
Káranes VI.
Kristnes XVII (2).
Oddageirsnes VI.
Tannanes XIII.

Gróunes XII.
Þuríðarnes XVIII.

eftir ýmislegu:

Dagverðarnes IV (Döguröar- AM). VII (= Digra- AM). XI.
Draugsnes XIV.
Ferjunes V.
Frakkanes XI.
Gambranes IV.
Glettinganes XX.
Hliðsnes VI.
Hnúðnes XVI (DI II).
Kaldaðarnes V. XIV (sjá Kaldrana-).
Kambsnes XI. XIII.
Katanes IV (L). VII.
Kjalarnes (e. Nes) VI.
Knararnes VI (minna — stóra, litla AM, stærra J). IX.
Kolviðarnes IX.
Kórunes IX.
Munaðarnes IX. XIV.
Næfranes XIII.
Siglunes XII. XVII.
Skildinganes VI (og Litla S. AM).
Snóksnes V.
Snotrunes XX.
Stafnes VI.
Stangarnes (e. Stöng) V.
Vaðnes V.
Vattarnes XII. XXI.
Villinganes XVI.

Flt.-myndin *Nesjar* er í samræmi við svo mörg önnur þess kyns og finst líka i Noregi. — *Hítarnes*: rjetta myndin *Hitárnes*, en hin fyrri er nú svo tíð, að best er að halda henni. — *Kaldrana-*: mynd AM er efalaust rjett: Kaldaðar-, sbr. DI II. III, þar er nafnið ritað *Kalld-* og *Kall-*. Þetta nafn er haldið dregið af ferju (stað, sem kallað var frá á ferju hinumegin — fjarðar eða fljóts —, sbr. Ferjunes). — *Laxa-* og *Svína-* hjá AM eru eflaust dæmi þess, hvernig miðsamstöfur veikjast (breytast við áherslu-veiklun). — *Digra-*: svo DI IV. VII, og er það ef til vill rjettara. — *Hris-* II: *Hrífu-* er hið rjetta, sbr. DI II. — *Sölva-*: eða mannsn. Sölvi?

— *Arna-*: af Örn eða Árni? — *Beru-* og *Birnu-* gæti vel verið kvennanöfn. — *Skarfs-*: ekki alveg víst, hvar verið hefur. — *Súlu-*: má og skýra öðruvís; sama er að segja um *þernu-*. — *Kóru-*: líklega fyrir *Kóra-* (mannsn.).

**skagi**

hjer um bil sama sem nes. Fátítt í nöfnum.

Fjallaskagi XIII.
Heimaskagi VII.

**bakki**

er haft um hina ystu rönd lands við sjó, vötn, ár, gil, grafir osfrv., sem bratt eða brekka er niður fyrir (þar á móti er orðið ekki haft á Íslandi í sömu merkíng og *bakke* á dönsku og meðfram í Noregi). Nöfn:

*Eint.* Bakki I. IV (2). V. VI (4). VII. XII (4). XIII (5; [1]) fremri — neðri, [2]) meiri — minni, [3]) e. Bakkakot). XIV. XV (3; [1]) B. litli, [2]) Litli B). XVI (5; [1]) »B. á bökkum, síðar Miðhúsgerði« AM). XVII (4; [1]) syðri — ytri). XVIII (2). XX (2). XXI.
*Flt.* Bakkar(nir) IV. X (svo AM, J).

eftir legu og tilheyrslu:

Álptárbakki IX.
Árbakki IV. XV. XVIII.
Ár(Ás-)húsabakki XIX (J).
Blöndubakki XV.
Búðarárbakki V.
Djúpárbakki II (DI II). XVII.
Dúnkar- (Dúnkr- AM) bakki XI.
Eyrarbakki V.
Fáskrúðarbakki IX.
Fljótsbakki I (svo 1861 e. Butra, en þetta hefur J eingöngu). VII (e. Pétrssel). XVIII. XXI.
Gilsbakki IV. IX. XI (2). XV. XVI. XVII. XIX (2).
Gjábakki III. V.
Grafarbakki IV. V.
Grýtubakki XVIII.
Hellisfjörubakkar XX.
Hraunhafnarbakki X.
Kaldárbakki IX.
Keldubakki II (DI II).
Laxárbakki IX (og L. minni AM; = Kotmóar J).
Lækjarbakki II. IV. VIII. XVI. XVII.

Ósabakki II (DI II). V.
Selárbakki XVII.
Staðarbakki X. XI. XV. XVIII.
Stórárbakki XIX.
Tannstaðabakki XV.
Túngubakki XV.
Vatsdalsbakkar XII (J).

Miðbakki XVII.
Syðsti-, Mið-, Efsti-Bakki IV.

eftir stærð og eiginleikum:

Háibakki XIII.
Leirubakki IV.
Litlibakki XX.
Stóribakki XX.

Fagribakki X.
Svartibakki XVI.

eftir gróðri og því sem á er:

Sóleyjarbakki V.
Þönglabakki XVIII.
Húsabakki XVI. XVIII. XIX.
Ísabakki (svo DI II) = Hvítárholt.

Laugarbakki (-ar) V.
Réttarbakki VII.
Rotabakkar IV.
Stekkjarbakki V.

Svinabakkar XX.

Ferjubakki IX. XX.

eftir mönnum:

Eiriksbakki V.
Guðnabakki IX.
Hjaltabakki XV.
Sölvabakki XV.

Kóngsbakki X.
Prest(s)bakki II. XI. XIV.

Máríubakki II.

eftir ýmislegu:

Fáskrúðsbakki XX (Austf.).
Fýsibakki XV.
Húnkrbakkar (Húnku- J) II.
Keiksbakki X.
Kirkjubakki VII.
Skiðbakki (Skir- AM) IV.
Steðjubakki II (DI II).

*Dúnkarbakki*: sbr. *Dúnkur* (f. Dungaðarstaðir), en hjer sýnist uppruninn að vera annar; hjet áin Dunká? (*Dúnkárgat* vel orðið *Dúnkar-* og það aftur *Dúnkur-*). — *Húnkur-*: er vist að skýra á sama hátt, af *Húnkar-* eða *Húnkár-*; hvað *húnk-* er, veit jeg reyndar ekki. — *Keiks-* (nú frb. *Keis-*) er ef til vill viðurnefni. — *Skíð-*: hvor myndin sje rjettari, get jeg ekki skorið úr; nafnið er ekki i DI. — Um sum af þessum nöfnum er það að segja, að þau eru upphaflega aðeins *Bakki*, en á siðari timum hefur verið skeytt orði framan við til greiningar, t. d. *Kóngs-* osfrv.

**strönd**

líkrar merkíngar og bakki, en ekki haft nema um »strönd« við sjó og vötn (t. d. við Mývatn). Nöfn:

Strönd IV (3; [1]) Efri — syðri AM, sbr. Strandir báðar L). V. XXI.
Litla-Strönd (Litlu-AM) XVIII.
Geiteyjarströnd (e. Geitreiðar-AM) XVIII.
Hjalmarströnd XX.
Hofströnd XX.
Höfðaströnd XIII.
Kálfaströnd XVIII.
Kotströnd V.
Langanesströnd XX.
Sveinströnd XVIII.
Hrakströnd XVIII (DI IV).

*Geiteyjar-* er hið eina rjetta; *Geitreiðar-* er ljóst dæmi afbökunar.

**jaðarr**

merkir rönd yst á einhverju. Fátítt nafn:

Jaðar IV. V (»partur úr Túngufelli« AM). VII. XV. XVI (2; [1]) »öðru nafni Víti« AM).

2.

Í þessum flokki skulu talin nöfn, er dregin eru af ám og vötnum, vætu, og því öllu sem þar á skylt við eða stendur í sambandi þar við (t. d. *brú* og *ferja*; *ey*, *hólmi* osfrv.).

**á.**

Almennasta orðið um rennandi vatn, sem ekki er altof breitt eða vatnsmikið *(fljót)* eða altof lítið (mjór farvegur, lítið vatn; *lækur*). Nöfn eru þessi og eru þau auðvitað minstur hluti þeirra áa, sem til eru á landinu, og eru þau því lítils virði, er um sjálf áanöfnin er að ræða í heild sinni:

Á II. IV (2 = Árbær; [1]) »at Á« L). XI. XVI. XVII (syðri — ytri).

eftir legu (hvar sje eða um hvað renni):

Broddadalsá XIV.
Eyjadalsá (Eyjar- L) XVIII.
Garðsá XVII.
Giljá XV (2; [1]) Litla — Stóra).
Gilsá XVII. (og Litla G.) XXI.
Gljúfrá IX. XIII. XVI.
Gnípá (Níp- AM) XVIII.
Grjótá IV.
Heydalsá XIV.
Hofsá XVII.
Hólá XVII.
Jökulsá II. XVIII. XX.
Kálfborgará XVIII.
Kotá XVII.
Kúludalsá VII.
Leikskálaá (Lauf- AM) XVIII (syðri — ytri).
Mógilsá VI.
Nípá sjá Gnípá.
Mælifellsá XVI (syðri — ytri).
Sandá XVII.
Sauðadalsá XV.
Skálá (Skála- AM) XVI (og Minni S.).
Skálará XIII.
Skarðsá XVI.
Steiná XV.
Vallá VI (eystri — vestari AM).
Vatsá XVII (L).
Víðidalsá XIV.

eftir fuglum, dýrum, fiski:

Álptá IX.
Kárnsá (Kornsá) XV.
Galtará (eldra: Galtargjá AM) XII.
Geldingsá XVIII.
Geldingaá VII.
Grísará XVII.
Hafrsá XXI.
Sauðá XVI.
Veðrará XIII (innri — ytri).
Hvalsá XIV (2; [1]) litla — stóra).
Selá XVI. XVII.
Urriðaá IX. XV.

Veiðá XIII.

eftir eiginleikum:

Ámá XVII.
Árbugsá XVIII.
Daufá XVI.
Fossá VI. XII.
Kaldá XIII.
Leirá VII.
Myrká XVII.
Rangá XX.
Rauðá XVIII.
Svelgsá X.
Varmá VI.
Þurá (eystri — ytri) V.

eftir stefnu:

Vestrá (Vestrárskarð alment kallað AM) XV.
Þverá II. IV (efri — neðri). IX. XII. XV (6; [1]) efri — neðri: ytri AM; [2]) litla, sl. AM; [3]) syðri). XVI (4; [1]) stóra, stærri AM). XVII (8). XVIII (2; og Litla Þ. 2). XIX.

eftir mönnum:

Ásgeirsá (stóra — litla) XV.

Egilsá XVI.
Eyvindará XVIII (2). XXI.
Fróðá X (F. forna).
Gunnólfsá (e. Ytri Á) XVII.
Helgaá XVII (DI II).
Höskuldsár X (L).
Kálfsá XVII.
Karlsá XVII.
Kjallaksá XIV (Eyrb.).
Kolbeinsá (Kolbíts- AM) XIV.
Kollsá XIII. XIV.
Máná XVI. XVII. XVIII.
Reistará (syðri — ytri) XVII.
Strjúgsá XVII (»með rjettu Þrúgsá« AM).
Úlfá XVII.
Bræðraá XVI.

eftir ýmislegu:

Ballará XI.
Barká XVII.
Belgsá XVIII.
Bíldsá XVII (L).
Bægisá (syðri — ytri) XVII.

Dagverðará X.
Deildará XII.
Glerá (efri — neðri; aðeins ein hjá AM) XVII.
Hreppsendsá (Hreppisá AM, Hreppsá J) XVII.
Hrófá XIV.
Keppsá XVII.
Kornsá (Kotsá) XV sjá Kárnsá.
Kúðá XIX (Kúðársel AM).
Rauðará VIII.
Reyðará I. XVIII (»að fornu Reyðarrá« AM).
Sjöundá XII.
Spáná XVI (»sumir að fornu Spániá« AM).
Þvottá XXI.
Øxará XVIII.
Öngulsá XXI (Aust.) = Höfði.

Brúará XIV.
Brunná (efri — neðri) XI.
Hvanná XX.
Kverná X.

*Á* (IV) er eldra nafnið; úr því hefur síðar verið gert *Árbœr*, líklega fyrst annar þeirra. Í DI II osfrv. eru báðir bæjir nefndir *Á*; 1475 finst *Árbœr*. — *Eyjar-* er eldra og rjettara. — *Nípá*: AM hefur *N-*, J *Gn-*, 1861 hvorttveggja; núverandi framburður er eflaust *N-*. — *Hólá*: fyrir Hólaá; s. s. Hólárkot í Svarfaðardal. — *Leikskálaá* er hið eina rjetta, samandregið í *Leikskálá*, svo í DI IV (tvennar Leikskálár; rángt skilið í registrinu) og V; *Lauf-* er til orðið úr latmæli. Sbr. *Skálá* f. *Skálaá* (AM). — *Kárnsá*: þetta nafn, sem er hið upphaflega, er nú afbakað í *Kornsá* (líka skrifað *Kotsá*); svo er nafnið rjett í Vatsdælu og í Landn.; það kemur af fuglsnafninu *kárn*, sem kemur fyrir í nafnaþulum (Eddu), sbr. og *jaðrakárn*, er mun samsett af því (en ekki vera rjett ritað *jaðrakan*). — *Galtará*: enginn vafi er á því, að *Galtargjá* er rjetta nafnið eins og AM segir; það finst í DI I, IV og VI,

og er hjer þá um afbökun að ræða. — Hvort *Grísará* og *Hafrsá* sje af dýranöfnunum dregin eða af mannanöfnum, verður nú eigi sagt. — *Veiðá*: f. *Veiðiá*. — *Ámá*: af lýsingarorðinu *ámur* = dökkur (sbr. *Myrká*). — *Fróðá*: f. *Fróðaá*. — *Kolbeinsá*: *Kolbíts-* AM er eflaust framburðarmynd, enda skrifar AM utan við »Kolbeins-«, sem finst í DI II osfrv.; (*Kolbreiðs-* DI III er afbökun). — *Kollsá*: er líka skrifað *Kollá*, en valla getur vafasamt verið, að fyrri liðurinn sje mn. Kollur. — *Máná*: f. *Mánaá* (mn. Máni). — *Reistará*: af mn. Reistur, sem eiginlega merkir »þveng«, og hefur verið viðurnefni. — *Strjúgsá*: ef nafnið væri rjett, er *Strjúgur* eig. mn. (strjúgur = hroki, upphaflega viðurnefni), en *Þr(j)úgs-* er vafalaust rjettara, eins og AM segir; það kemur fyrir í DI V, sbr. og *Þrjúgstúnga* í sömu sveit (Saurbæjarhreppi); *Þrjúgr* er líka upphaflega viðurnefni og svo mn. (= harðgeðjaður maður?). — *Ballará*: af böllur = knöttur (viðurnefni?). Í fleirum af þessum nöfnum felst efalaust viðurnefni eða mn. — *Bægisá* (ætíð nú framborið Bæsá): = hin hættulega, illa á?. — *Dagverðará*: í Landn. Döguðar-. — *Hreppsendsá* e. *Hreppsá* hefur 1861, en AM *Hreppisá*, og þessi mynd finst í DI III (*Reppissá*). Það gæti hugsast, að »Hreppir« væri mn. Það var til (sbr. nafnatal Linds), þótt ekki verði þess ella vart á Íslandi. Hins vegar er ekki vel hægt að sjá, hvernig þetta nafn gat afbakast í *Hreppsends-*, ef þetta nafn er á annað borð annað en tilbúníngur, til þess að fá einhverja þýðingarnefnu í það. — *Keppsá*: nú alment frb. *Kifsá* e. *Kífsá*; í brjefum er skrifað *Kieps-* og *Kiefs-*; fyrri liður er vafalaust *keppur* (viðurn.?). — *Kúðá*: f. *Kúðaá* (sbr. Kúðafljót). — *Rauðará*: svo er nú ætíð framborið; eldri myndin var *Reyðará* (af *reyður* = silungur); svo er ritað DI III; sbr. næsta nafn. — *Sjöundá*: af töluo. »sjöundi«; skrifað *Sjöndá* í DI III. — *Spáná*: líklega af *spánn* = spónn; myndin »Spániá« er valla rjett. — *Þvottá*: hjet í fyrstu aðeins Á, en eftir að Þángbrandur hafði skírt Síðu-Hall og hans fólk í ánni, var nafnið lengt. — *Øxará*: af því að maður að sögn misti öxi í ána og fann ekki aftur. — *Öngulsá*: á er rennur í Lagarfljót og heitir nú »Höfðaá« eftir Höfða = bærinn »at Öngulsá«.

**lœkur.**

Hvað orðið merkir, vita allir (orðið svarar bæði til *å* og *bæk* á dönsku). Nöfn:

Lækr IV. V (2). VI. VII. XIII (2: [1]) »Ástríðarlækr, nú alm. kallað L.« AM). XVI.
Litli Lækr (e. Lækjartröð) XIII.

eftir legu:

Brekkulækr (Bredda- AM) XV.
Engilækr XX.
Kirkjulækr IV.
Kvoslækr (Kóks- AM) IV.
Leirulækr IX.
Sandlækr V.
Vogalækr IX.
Þverlækr IV.

eftir eiginleikum og veiði:

Djúpilækr XX.
Fúlilækr VIII.
Grjótlækr V.
Leirlækr XIX.
Rauðalækr I (L). IV (efri — syðri; Rauði- AM). XVII (efri e. stóri — neðri e. litli).
Varmalækr VII.
Víðilækr IX (svo AM: vijdi-; Veiði- J). XXI.
Fiskilækr VII. XVII (L).
Selalækr IV.
Sílalækr XVIII.

eftir dýrum:

Geldingalækr IV.
Hafralækr XVIII.
Kálfalækr (litli — stóri) IX.
Lambalækr IV.
Ærlækr XIX.
Øxnalækr (»kallað af sumum Uxa-« AM) V.

eftir mönnum:

Brjánslækr (Brjáms-) XII.
Galtalækr IV. V.
Gotalækr X (L).
Grímslækr (efri — ytri, syðri AM) V.
Hrærekslækr XX.
Kollslækr (L) VII (e. Kols-, Kots-, Holts- AM).
Krakalækr XX (Austf.).
Skúfslækr V.
Torfalækr XV.
Valdalækr XV.
Víkingslækr IV (L, AM).

Skáldalækr XVII.

Arnbjargarlækr IX.
Ástríðarlækr sjá Lækr XIII.

eftir ýmislegu:

Arkarlækr VII.
Brókarlækr XVI.
Einirlækir XVI.
Heylækr IV.
Rónulækr (e. Rjóma-) XVII.
Sleggjulækr IX.
Stokkalækr IV.
Sýrlækr (efri — neðri) V.

*Brekkulækr*: *Bredda-* í AM er ef til vill rjettara, en jeg hef ekki fundið það í öðrum ritum; *Breddi* mn.? — *Kvoslækr*: hvort rjettara sje *Kvos-* e. *Kóks-*, veit jeg ekki; hvorugt finn jeg í DI; *kvos* vita allir hvað er (lægð í landi); ef eldri myndin af því er *kvós* (f. *kvás*, sbr. *várr* — *vórr* — *vor*) gæti *Kóks-* vel verið afbökun af *kvós* (sem líka gat orðið *kós*). Annars gæti *kókur* verið = hani (viðurn.?). — *Víðilækr*: eftir *víði*? (eða er *víði-* hjer af *víður*?); svo nefnir AM og »Veiðilæk« IX (J) og er það rjettara, kemur og fyrir í DI VI. — *Brjáns-*: þetta er eldri og rjettari myndin, (keltneska mn. *Brjánn*, eldra *Bríann*); en oft finst, líka í brjefum, ritað *Brjáms-*. — *Galta-* er tvírætt (mn. e. fyrir *Galtar-*?). — — *Kollslækr* í Hálsahreppi, svo líka í DI I. IV; allar eðamyndirnar í AM eru afbakanir. — *Skálda-* (sbr. DI VI): af *skáldi*?, viðurn. — *Arkar-*: kallað *Jarkar-* í DI VI. VII. — *Brókar-*: þetta er hin eina rjetta mynd (svo DI II. III osfrv.), en ekki Borgar-). — *Einirlækir*: svo AM (og er því rángt »Einilækur« í J, bls. 265), hvernig sem á nafninu stendur. — *Rónu-* e. *Rjóma-* (J hefur *Rjóma-* e. Staðarhólskot, bls. 285); óvíst hvort rjettara sje, finst ekki í DI.

**fljót**

merkir breitt og vatnsmikið vatnsfall. Nöfn eru fá:

Fljótar (efri — syðri) II.
Litlafljót (Minna- AM) V.
Stórafljót V.

*Fljótar* í flt. er karlkynsorð, sbr. »báða Fljótana« (Safn IV 15).

**straumur, -streymi.**

Aðeins í þessum nöfnum:

Straumr VI. VII (e. Straumsnes AM). X. XX.
Gilstreymi VII.

*Straumr* e. *Straumsnes*: Straumnes er bærinn nefndur í DI VI. VII.

**hylur.**

Merkir dýpi í á, helst undir fossi (þar sem fossinn hefur gert djúpa holu niður í jarðveginn). Aðeins 2 nöfn:

Berghylr V. XVI.
Skiphylr IX.

**foss**

þarf engrar skýríngar. Nöfnin:

| | |
|---|---|
| *Eint.* Foss II (2; [1]) neðri — efri). IV (2; [1]) = Rauðnefsstaðir L). V (2). X (3). XII. XV (3). XVI (2). XIX. XX. | Selfoss (»nú alm. kallað Foss« AM) V. |
| | Laxfoss IX (»kallast alment Foss« AM). |
| | Urriðafoss V. |
| *Flt.* Fossar VII (nyrðri—syðri —syðstu). XIII. XV. | Brúarfoss IX (Foss DI I). |
| Miðfossar VII. | Bjarnarfoss X. |
| Langárfoss IX (= Foss L). | Kollufoss XV. |
| | Skjaldvararfoss XII. |

Eins og sum nöfnin bera með sjer hefur upphaflega nafnið oft verið aðeins *Foss*, en til skilmerkíngar hefur svo verið skeytt framan við nafnið (sbr. »Lángárfoss« osfrv.). *Kollu-*: *Kolla* í 1861 er alveg rángt; nafnið dregið af kollóttri á?

**ós**

merkir ár- eða fljóts-mynni. Að fornu þýddi orðið líka uppsprettuna, en þeirrar merkíngar verður eigi vart í bæjanöfnum. Þau eru:

| | |
|---|---|
| *Eint.* Óss II. VII (2). X. XIII (2). XIV. XV (3; [1]) L; [2]) litli —stóri). XVII. XX. XXI. | Álptárós IX. |
| | Blönduós XV. |
| | Kolbeinsárós XVI. |
| *Flt.* Ósar XV. | Lagarfljótsós XX. |

| | |
|---|---|
| Lækjarós XIII. | Grafarós XVI. |
| Hornafjarðarós I. | Hofsós XVI. |
| Vogsósar (Vágshús AM) V. | Papós I. |

Við þessi nöfn er ekkert að athuga nema að *Vogsósar* heyrir eiginlega als ekki hjer til; í sjálfu sjer er nafnið ekki eðlilegt. Upprunalega myndin var *Vogs-* (e. *Vágs-*)*hús* (svo AM) eða ef til vill *Vágshúsar*, (sbr. *Húsar*); eftir *s* hvarf *h* og *ú* lyftist í *ó*; sbr. »landit at Vágshúsum« DI III. — *Hofsós* er efalaust stytt úr *Hofsárós* og *Papós* ef til vill úr »Papafjarðarós«.

**bugur**

merkir krók eða lykkju (bugðu) á straumi (á, læk). Nöfn eru þessi og ekkert við þau að athuga.

| | |
|---|---|
| *Eint.* Bugr (innri — ytri e. syðri) X. | *Flt.* Bugar V. |
| Lækjarbugr IX. X. | sel: »í Þórsárbugum« (AM) XV. |

**bót.**

Orðið merkir »bug« (*bót* = bugt, á þýsku: bucht; sama orð og í olboga-bót, hnjes-bót), eða litla vík. Flest nöfnin sýnast vera dregin af árbug; þau eru:

| | |
|---|---|
| Bót V. XVIII (DI II). XX. | Heiðarbót (»alm. Bót« AM) XVIII. |
| Árbót XVIII = Bót. | Selnesbót XXI. |

*Selnesbót* er við sjó.

**mót**

merkir samkomu (áa, lækja osfrv.). Nöfn:

| | |
|---|---|
| Ármót V (litla — stóra, eystra — litla; minna Ámót AM). | Landamót XVIII. |
| Lækjamót XV. | Veðramót XVI. |

*Ámót* er rjettara og upphaflegra en *Ár-*, *Á-* = *áa* (eignarfall flt.). — *Landamót* merkir staðinn (takmörkin) þar sem tvö lönd (jarðeignir) mætast. — *Veðramót* þar sem vindar mætast úr einhverjum áttum. Mjer er ókunnugt um, hvernig vindum er farið þar sem bærinn er.

**brú**

merkir bæði brú á ám (vötnum) og hlaðinn farveg yfir keldur og mýrar. Nokkur nöfn eru eftir þessu:

*Eint.* Brú V (3; [1]) = Teitsel AM; [2]) efri — syðri, neðri AM). XX.
*Flt.* Brúar XVIII.

Hrísbrú VI.
Jarðbrú XVII.
Kirkjubrú VI.

*Brúar*: er rjetta myndin, sbr. »Brúa land« og »Brúa« jörð í DI III—VI; þó kemur fyrir »Brúar land«, en það er afbökun; í registrunum við DI er ekki farið alls kostar rjett með þetta nafn.

**ferja.**

Eftir þessu orði eru nokkur nöfn:

Kotferja V.
Sandhólaferja IV.
Kirkjuferja V.

**vað**

merkir grynning í á, fljóti, þar sem reitt er yfir. Nöfn eru og öll ljós.

Vað XVIII. XIX (e. Vaðkot) XXI.
Bergvað IV.
Helluvað IV. XVIII.

Hólmavað XVIII.
Breiðavað XV. XXI.
Steinsvað (litla — stóra) XX.

**vaðall**

merkir grynníng helst inst í fjörðum og þar sem eru miklir ósar og hægt er að vaða eða ríða. Nöfn:

*Eint.* Vaðall (efri e. hærri — neðri e. lægri) XII.
*Flt.* Vaðlar XIII. XXI.

**leira.**

Aðeins einu sinni: Leira XIII.

**vatn**

merkir stöðuvatn uppi á landi, stærra eða minna, en meira en tjörn. Nöfn:

*Eint.* Vatn XI. XVI (2; [1])syðsta — yzta).
*Flt.* Vötn V (»kallast alment Vetnir« AM).

eftir legu:

Laugarvatn V.
Miðvatn XVI,
Ölfossvatn (Aulvess- AM) V.

eftir lit:

Grænavatn XVIII.
Ljósavatn XVIII.

eftir fiski:

Urriðavatn XX.
Reyðarvatn IV (mið-, vestasta; eystasta(!) »þar sem nú er Kóngshóll« AM).

eftir mönnum:

Apavatn (efra — neðra e. syðra) V.
Arnarvatn XVIII.
Helgavatn IX. XV.
Sveinavatn V.
Ulfljótsvatn V.

Víkíngavatn XIX.

eftir dýrum:

Kópsvatn (»aðrir kalla það Köks-« AM) V.
Lambavatn XII.
Svínavatn XV.

eftir stærð:

Langavatn XVIII.

eftir ýmislegu:

Elliðavatn (e. Vatn AM) VI.
Hreðavatn IX.
Reynisvatn VI.
Villingavatn V.

Breytíngin á Vötn í »Vetnir« er alleinkennileg, en skiljanleg eftir mörgu öðru; eflaust er «Vetnir« karlkynsorð. — *Ölfossvatn* (Ölfus-, Ölves-) er eiginlega hið upphaflega nafn á Þíngvallavatni (bærinn stendur sunnan við vatnið). Nafnið er torskýrt. Hin síðasta skýríng (að *Ölfos* sje til orðið, afbakað, úr »Álfsós«) er efalaust með öllu röng. Jeg vil setja hjer yfirlit yfir það, hvernig fyrri liðurinn er ritaður í fornbókum og skjölum. *Olfoss* (ǫ́, -vatn), Ari; í Landn. handritum: *Olfus-, Olvus-* (á; Hb); *Aulbus-, Olfus, Aulvis-* (á; Stb); *Olfus-* (vatn; Hb, Stb), *Aulvus-* (vatn Stb); *Aulfos* ritar Flat. (Isl. ann.) *Ǫ́lbusvatn*, sst. (I 442), *Aulfus*, Sturlunga [3] (I 502. 558), Isl. ann. (s. 213. 228), *Oluos*, Egilss. (282. 283), DI VI 589, VII 569, *aulvôs*, DI VII 568, *olfaus-*, Flat. (Isl. ann. s. 399), *olfus-* DI IV 55; I 319, *j avlfvsse* DI III 597; Isl. ann. 154; *olfes-* DI IV 97, III 395 (um 1660), IV 92, VII 583. 622. 623, *j Aulfuesi*, DI IV 97, *Aulvers-* (vatn), DI IV 94, VII 47; *Ölfusingar* er ritað svo í Njálu 607. 746: *Ǫ́lfvs-, avlfus-, aulvus-, aulvaus-, avlves-, aulvis-*, og með hljóðvarpi: *Aulbys-, avlfys-*. Þetta eru helstu rithættirnir og eru þeir að mörgu fróðlegir. Elsta myndin er *Olfoss-*, þ. e. *Öl-foss*, um það getur enginn vafi verið; að *f* er upphaflegt (og ekki *v*) sýnir rithátturinn með *b*; hins vegar gat eða jafnvel hlaut *f* að verða *v*; svo hefur *o* í *foss* vegna áhersluveiklunar á þessum (síðara) orðlið veikst í *u* og þetta *u* aftur í *e*, sem er yngst; að svo er sýnir líka hljóðvarpið í »Ölfysingar«. Að *o* í *ol-* er hljóðvarp af *a* sýna margir rithættir (ô, au) og hinn núverandi framburður. *Öl-foss* er orðsins upphaflega mynd og síðari liðurinn er eflaust orðið *foss*, og nafnið líklega dregið af fossi eða fossum í ánni og er nóg af þeim (í »Sogi«, er nú heitir svo, en áður hefur víst heitið »Ölfossá«), en »öl« hygg jeg sje s. s. *al-*, stofninn í allur; hljóðvarpinu veldur *o* í *foss*; það er líkt og í orðum sem *Söxolfr, Föstolfr, Örnolfr*; svo hefur og Noreen skýrt fyrri liðinn (í sinni málfræði 3. útg. § 76, en skýrir síðari liðinn ekki rjett að minni ætlan, *foss* = *fúss*). *Ölfossvatn* er eig. stytt úr »Ölfoss[ár]vatn«. Svo færðist nafnið yfir á hjeraðið og varð úr því *Ölfoss* — *Ölfos* (með einu *s*). og svo *Ölfus*, og varð hvorugkyns, af því að upphaf orðsins var fallið í gleymsku. Þessi skýríng á þessu orði er eins hæg eða hægari en hin skýríngin úr Álfsós.

*Apavatn*: mn. *Api* finst einkum í Danmörku, en fátítt í

Noregi eða alls ekki til (E. Lind telur það ekki í sinni bók, og heldur ekki kemur það fyrir í því sem út er komið af verki Ryghs). — *Arnarvatn*: eða af fuglsheitinu? — *Kópsvatn*: heyrir ef til vill ekki hjer undir; *Kóks-*, sem AM hefur sem v. l., finst og í DI II. IV (skrifað *Kogs-*) og mætti ætla að það væri upphaflegra, og þá af *kókr* = hani(?; viðurnefni?); hvort upphaflegt *p* (*kópur*) hafi orðið að *k*, eins og t. d. í *vokn* og *Voknafjörður* (sem finst svo ritað), veit jeg ekki, en jeg hygg eigi að svo muni vera. — *Elliðavatn*: af *Elliði*, skipi er svo hjet; eftir því var áin kölluð »Elliðaá« (sbr. *Elliðaáróss* í Landn.; vatnið, er áin fellur úr, var svo kallað »Elliðavatn« (f. Elliðaárvatn; alveg einsog Ölfossvatn, sem áður er sagt). — *Hreða-*: er kallað *Hreðu-* í Gunnlaugs s. og Hallfreðar s.; *Hreða-* er skrifað DI III (um 1600). *Hreða* getur verið viðurn. — *Villingavatn*: þetta *villinga-* kemur fyrir í öðrum nöfnum (*V-adalr, V-aholt*), merkir ef til vill s. s. frávillíngur, lamb sem verður viðskila við móðurána (sbr. Jón Ólafsson í orðabók sinni: »agnus qui a matre aberrat« og nefnir orðið »undanvillingur«, svo og »meinvillíngur«, er hann segir að merki »mjög tryldan hest, sem bæði bíti og slái«.

**tjörn**

merkir vatn lítið, miklu minna en »vatn«. Nöfn eru þessi:

| | |
|---|---|
| *Eint.* Tjörn V. XV (2; [1]) til forna Kollr AM). XVII. XVIII. | Skógtjörn VI. Lómatjörn XVIII. Kálfatjörn VI. |
| *Flt.* Tjarnir IV. XVI. XVII (2; [1]) syðri — ytrri). XVIII (litlu — stóru). | Bárðartjörn XVIII. Kalmanstjörn (= Galmatjörn AM) VI. |
| Mótjörn XIX. | |

*Tjarnir*: í flt. stundum karlkyns, sbr. »Tjarna ytri — syðri«, DI V. *Lóma-*: af fuglsheitinu (lómur). — *Kalmans-* af hinu keltneska heiti »Kalman«, sem gat breyst í *Galma-*, svo í DI IV (sbr. DI VII 903 aths.); þetta er Kalmanstjörn-Galmatjörn í Hafnahreppi; en »Kálfatjörn« í Vatnsleysu-

strandarhreppi hefur ekki heitið svo, þótt svo standi í Vilkinsmáldaga.

**lón**

heitir »tjörn« við strönd framm, sem sjórinn gengur upp í og afrensli er úr. Nöfn:

Lón X (litla). XVI. XVII. XIX (2; [1]) syðra e. Guðmundarlón, ytra — e. Kirkjulón).
Heðara Lón X.
Blikalón (e. Bleika-) XIX.
Mýrarlón XVII.
Rangárlón XX.
Sellón X.
Skinnalón XIX.
Skipalón (nú alment kallað Lón, AM = L) XVII.
Staðarlón XIX.

Einarslón X.
Ormalón XIX.

*Heðara* (þ. e. »það sem fjær er«) *lón*: er miðað við Litla Lón. — *Blika-*: af *bliki* = æðarbliki (?; eða viðurn. ?). — *Rangár-*: nú *Ranga-*. — *Orma-*: stytt úr *Ormars-*, DI II. III osfrv.

**pollur**

líkrar merkíngar og hin fyrri, haft um insta part af firði (eins og t. d. Pollurinn við Akureyri). Aðeins eitt nafn:

Brákarpollr VII.

eftir Brák, ambátt Egils, sbr. Egilssögu.

**hóp**

er líkrar merkíngar og lón, en er meira um sig, mætti og segja að sje insti partur fjarðar, sem er einsog greindur frá aðalfirðinum (líkt og pollur). Í Noregi var sagt »hópr«. Um Miðhóp sjá Kålund II 14. Nöfn eru aðeins þessi:

Hóp VI.
Miðhóp XV.

**kelda.**

Þetta orð merkir upphaflega »uppsprettu«, »lind«, og er sú merkíng orðsins í nafninu *Keldur* (IV) að minsta kosti og hefur bærinn dregið nafn af hinum unaðslegu lækjum og uppsprettum sem þar eru; sbr. og ölkelda. Síðar hefur orðið fengið lakari þýðínguna, sem nú er einhöfð: löng veita (renna) — grasrótarlaus og fúin — í mýri. Nöfnin eru:

*Eint.* Kelda XIII = Jökulkelda. (= Keldur DI VI).
*Flt.* Keldur II (e. Loðinsvíkr, Safn IV). IV. VI. XVI.
Beinakelda XV.
Gullkelda XV.
Jökulkelda sjá Kelda.
Márskelda (Más- AM) XI.
Reyniskelda XI.
Öfugskelda VI.
Ölkelda X.
Öxnakelda X (efri — neðri).

*Más-* er upphaflegra en *Márs-*, mn. — *Öfugs-* af »Öfugur«, viðurnefni, líklegast.

**brunnur.**

Aðeins einu sinni í flt: Brunnar I.

**iða**

hríngstraumur í á, aðeins einu sinni: Iða V.

**depill**

er sett hjer, þótt ekki sje ljóst, hver merkíng orðsins sje. Í fornu máli var til *dapi*, = pollur (t. d. í götu); þar af var myndað smækkunarnafnið *depill*. Kemur aðeins fyrir í flt.: Deplar XVI.

**fjörður.**

Um þessi nöfn þarf eigi lángt mál. Þau eru alkunn og þurfa eigi skýríngar. Einkennilegt er það, að aðeins nafnið *Fjörður* hittist (5 sinnum), þótt fjarðarnafnið sjálft sje lengra

(F. = Seyðisfjörður, = Mjóifjörður, = Papafjörður, = Kerlingarfjörður).

Fjörðr I (2). XII. XX. XXI.
Berufjörðr XII. XXI.
Eskifjörðr XXI.
Furufjörðr XIII.
Grundarfjörðr X.
Hafnarfjörðr VI.
Hellisfjörðr XXI.
Hestfjörðr XIII.
Hraunsfjörðr X.
Ingólfsfjörðr XIV.
Ísafjörðr XIII.
Karlafjörðr (L).
Kollafjörðr VI (og Litli K.).
Kvígindisfjörðr (Kvigendis-) XII.
Miðfjörðr XX.
Norðrfjörðr XIV.
Ófeigsfjörðr XIV.
Reykjarfjörðr XII (Reykja- AM). XIII (2; [1]) Reykja- AM) XV.
Seyðisfjörðr XX.
Siglufjörðr XVII.
Straumfjörðr IX.
Trostansfjörðr (Trostrans- AM) XII.
Vatsfjörðr XIII.
Viðfjörðr XXI.
Vopnafjörðr XX.
Þaralátrsfjörðr XIII.

*Karla-*: finst aðeins í Landn. og er svo ritað í báðum handritum. En þetta fjarðarnafn er ekki í fjarðartölum eða annarstaðar.

**vík.**

Um þetta nafn er heldur ekki neitt frekara að segja. Nöfnin skýra sig sjálf.

*Eint.* Vík I. II (2; [1]) efri — syðri). XII. XVI (2). XVII. XVIII. XX (V. syðri). XXI.
*Flt.* Víkr XV.

eftir legu:

Ávík XIV (litla — stóra; minni —meiri [stærri AM] J).
Barðsvík XIII.
Brúnavík XX.
Byrgisvík XIV.
Hagavík V.
Hvammsvík VI.
Kelduvík XVI.
Látravík X (innri — ytri; Vík e. Látrvík AM).
Sandvík V (litla — stóra; Eyði-). XIII. XVII. XXI.
Skoruvík XIX.
Miðvík XIII (efri — neðri). XVIII.

Yztavík XVIII.

eftir stærð:

Breiðavík VII (litla — stóra). XII. XVIII. XX.

eftir rekavið:

Asparvík XIV.
Bolungarvík (Buðlunga- AM) XIII.
Grenivík XVII. XVIII.
Keflavík VI. X. XII. XIII. XVI. XVIII.
Rekavík XIII (bak Höfn og bak Látr).
Sigluvík IV?. XVIII.
Viðvík X. XVI. XX.

eftir fuglum, dýrum og fleiru:

Álptavík XX.
Svansvík XIII.
Þernuvík (Þerni- AM) XIII.

Galtarvík VII (innri — ytri).
Geitavík XX.
Hænuvík XII.
Kálfavík XIII.
Selvík XIX.

Skeljavík XIV.

eftir því sem á landi er við víkina:

Búðarvík XIII.
Garðsvík XVIII.
Hlöðuvík XIII.
Húsavík XIV. XVIII. XX.
Krossavík XII. XIX. XX. XXI (L).

Krossvík VII.
Kumblavík XIX.
Naustavík XVIII.
Naustvíkr (= AM; e. Naustavík) XIV.
Reykjavík VIII.
Reykjarvík XIV.
Skálavík XIII (innri — ytri).
Skálholtsvík XIV.
Skoravík XI.
Smiðjuvík XIII.
Stakkavík V.
Súðavík XIII.
Torfvík XIX.

eftir útliti:

Fagravík XIX (L).

eftir mönnum og goði:

Ásbjarnarvík (L).
Atlavík XXI (Aust.).
Gautavík XXI.
Geirsvík XIX.
Guðlaugsvík (e. Bænhúsvík) XIV.
Kalmannsvík VII.
Kjaransvík XIII.
Kolbeinsvík XIV.
Kollavík XIX.
Kollsvík XII.
Mánavík XV.
Ólafsvík X.
Skjaldabjarnarvík XIV.
Sveinungsvík XIX.
Herdísarvík V.

Njarðvík VI. XX.

eftir bæ:

Ketilstaðavík IV.

eftir ýmislegu:
Draugavík XIV.
Dritvík X.
Eyvík (v.l. Hey- »að fornu segja menn Ey-« AM) V.
Flekkuvík VI.
Fúlavík VI.
Hindisvík (Vík e. Hindis- J, Hindings- 1861) XV.
Hjálmarvík XIX.
Hælarvík XIII.
Jórvík II. V. XX. XXI.
Kjólsvík XX.
Krýsuvík VI.
Saltvík VI. XV. XVIII (og Litla S.).
Skjaldarvík XVII (syðri — ytri: »e. Skjalda« AM).

*Byrgis-*: eða af mn. Byrgir? — *Bolúngar-*: *bolúngur* er trjestofn (trjestofnsbútur); *bolungar-* er afbökun úr *bolunga-*, eignarfall flt., og kemur það fyrir DI II og III (s. 228); við hliðina á *bolung-* var til líka myndin *bulung-*, og úr því varð myndin *buðlung-*. — *Kefla-*: af *kefli*, sivalur stafur, smátrje. — *Siglu-* (VI): óvíst um upprunann; *Siglu-* (XVIII) af reknu siglutrje. — *Svans-*: gæti og verið mn. — *Þernu-*: *þerni-* er latmæli. — *Reykja-* (VIII) nefnir Ari *Reykjar-*. Á eftir Kleifum (í XIV, Kaldrananeshrepp) nefnir AM »Reykjarvík« sem »örnefni«. — *Kalmans-*: skrifað *Galmas-* DI IV, *Galmanns-* DI VI. — *Eyvík*: nefnd aðeins *Vík* í Kristnisögu; víkin er í Hestvatni; *Ey-* er hið upphaflega nafn eftir lángri ey í víkinni. — *Fúla-*: v.l. *Fugla-* er alveg rángt; sbr. og DI II. IV. — *Hindisvík* e. *Vík* AM, J; (*Hindings-* i 1861 er víst tómur tilbúníngur); *Hindis-* er afbakað úr *Hamdis-* sem finst í DI II. III og V (hjer skrifað *Hanndis*); ef þetta er rjett, og það sýnist það vera, þá er *Hamdir* mn., en er mjög fátítt. Bágt er þó að skilja, hvernig *Handis* varð *Hindis*. — *Hjálmar-*: gæti komið af *hjálm* (stýrissveif), en í DI II er skrifað *Hjálmars-*, og er þá mn. (en *Hjálmar-* í DI IV). — *Hælar-*: svo AM og J (sem og hefur v.l. *Heljar-*, en það er tómur tilbúníngur); 1861 hefur *Hæla-*, en það mun rángt; DI V hefur *Hælar-*; hjer er því kvennkynsorð *hæl*, hvað sem það þýðir. — *Jórvík* er líklega heitið eftir hinni alkunnu J. á Englandi (York). — *Krýsu-*: svo er alment sagt, en miðhljóðið ógreinilegt og oft skrifað *i*; þetta nafn hefur ekki verið skýrt; eftir því er takandi, að í brjefum er stundum skrifað *Kryssu-*; jeg hygg að þetta bendi á upprunann; *Kryssu-* af *Kryssa*, sem getur verið leitt af *kross* og samrar merkingar; í fornöld var ekki aðeins sagt *kross* heldur og *krúz* eða *krúss* (þágufall

*krúsi*); af þessu getur *krýsa* verið myndað (eins og *kryssa* af *kross*) og verið samrar merkingar. Jeg hygg að þetta sje rjett skýríng; í víkinni var kirkja að fornu. — *Kjóls-*: *kjóll* = skip.

**vogur** (eldra: **vágr**)
merkir fjörð í minna lagi og oft í breiðara lagi (einsog hálfhríngmyndaðan eða svo). Nöfn:

| | |
|---|---|
| *Eint.* Vogr IX. XI. | Kotvogr VI. |
| *Flt.* Vogar VI (minni—stóru). XIII. XIX. | Miðvogr VII. |
| | Insti vogr VII. |
| Djúpivogr XXI. | |
| Svalvogar (Sel- »aðrir Sval-« AM) XIII. | Kópavogr VI. |
| Elvogar (Jel- AM) XVI. | Kumbaravogr V. |
| Kirkjuvogr VI (og Gamli K. AM). | Kjörvogr (Kies- AM, Kjörs- J) XIV. |
| Kópaskersvogr XIX. | |

*Svalvogar* eru nú nefndir svo og hafa stundum verið það að minsta kosti í tíð Árna, en *Sel-* er eflaust hin rjetta mynd, og stendur í brjefum, DI III. IV. — *El-* (*Jel-*): er víst heitið eftir Élivogum í goðafræðinni norrænu. — *Kumbara-*: sumir ætla — ef til vill með rjettu —, að »Kumbarar« sje enskir kaupmenn (frá Kumbralandi), og eftir þeim sje vogurinn heitinn. — *Kjör-*: svo er vogurinn nú nefndur, en *Kjör-* er hjer framburðarmynd (eða afbökun) f. *Ker-*; eldri myndin var *Kers-* í DI III. IV. VI, skrifað *Kies-* í AM (*Kjörs-* J); orðið er *ker* í merkíngunni »ker til að veiða í« (sbr. »ok eigi gera ker í« ɔ: í á, Grágás), eða »laut« í landi.

**sund, syndi**
mjótt vatn milli eyja eða eyja(r) og meginlands, getur og merkt landspildu (sbr. mýrarsund. Svo í Selsund). Nöfn:

Sund XVIII.
Mjósund V (v.l. Mjósendi AM = J).
Selsund IV (og Litla S.).
Lambhússund VII.
Mjósyndi (óvíst hvar, = Mjósund?; L).

Um Mjósund segir AM að það sje »nú almennilega kallað Mjósendi« og það hefur J sem v.l.; það finst og í DI II; það er f. *Mjósyndi* (af *sund*); orðið kemur víðar fyrir, þó ekki sem bæjarnafn.

**ögur**

er lítil vík. Aðeins: Ögr X. XII.

**höfn**

kemur ósjaldan fyrir og merkir ævinlega skipalægi. Nöfn eru þessi:

*Eint.* Höfn VII. XIII (2; [1]) Innri H.). XVI. XVII. XX (2). Sbr. Knararhöfn.
*Flt.* Hafnir XV.
Borgarhöfn I.
Fjallahöfn XIX.
Hraunhöfn XIX.
Kirkjuhöfn VI.
Strandhöfn (Strandar- J) XX.
Raufarhöfn XIX.
Leiðarhöfn XX.
Leirhöfn XIX.
Sandhöfn VI.
Litlahöfn VI (J).
Knararhöfn XI (Höfn AM).
Bjarnarhöfn X.
Einarshöfn V (og E. forna AM).
Þorlákshöfn V.
Þórshöfn XIX.

Flest nöfnin eru dregin af einhverju á landi, nokkur af eiginleik, 3 af mannsnafni, 1 af goðs nafni. Við þau er ekkert að athuga, nema að *Strandar-* í J er rángt, *Strand* finst í DI III, IV.

Hjer við vil jeg skeyta nokkrum nöfnum, er reyndar ekki eru nöfn á »vatni«, en hlutum sem eru því nátengdir.

ey.

Þau nöfn, er hjer koma til greina, og þau eru mörg, eru auðvitað ekki beinlínis bæjanöfn, heldur eiginleg eyjanöfn; oftast mun vera einn bær á eyju — nema hinum meiri, því heitir enginn bær t. d. Grímsey —, og því hjet bærinn »í... ey (eyju)«. Bæjirnir geta og verið á landi, heitnir eftir eyjum úti fyrir (svo sem í XIV. XV). Nöfn eru:

*Eint.* Ey II. IV. XV (syðri — ytri).
*Flt.* Eyjar VI. XIV. XXI.

eftir eiginleikum:
Effersey VI (Erfers- AM).
Sandeyjar XII.
Engey VI.
Engeyjar X.
Fagrey X.
Flatey I. XII. XVIII.
Langey XI (efri — neðri e. fremri). XI.
Lágey II (L).
Miklaey XVI.

eftir fuglum og dýrum:
Arney XI.
Lundey VI.
Þerney VI.
Æðey XIII.
Bjarneyjar XII.
Galtareyjar X.
Purkey XI.
Geitareyjar X.
Kiðey X. XI.
Geldingaey IX.
Lambey II (Safn IV). IV.
Hrútey X.
Hrúteyjar XI.
Øxney X.
Melrakkaey X.
Hvalseyjar IX.

eftir legu:
Áreyjar XXI.
Austrey V.
Efriey II (DI II).
Miðey IV.
Útey V.

eftir gróðri:
Akrey IV. VI.
Akreyjar X. XI.
Rúfeyjar XI.

eftir bæjum og legu:
Borgarey XIII. XV.
Gunnholtsey IV.
Haffjarðarey IX.
Hafnareyjar X. XI.
Litlu Tungueyjar XI.
Mánáreyjar XVIII.
Snóksdalseyjar X.
Staðarhólseyjar XI.
Stafholtsey VII.

eftir því sem á er:
Húsey XVI. XX.
Kotey II (háfa — lága).
Valshamarseyjar X.

eftir mönnum:

Andríðsey VI.
Bíldsey X.
Grímsey XIV.
Gvendareyjar X.
Hallgeirsey IV.
Hergilsey XII.
Hildisey IV (litla — stóra).
Hjörtsey IX.
Hrappsey XI.
Höskuldsey X.
Óláfsey X.
Pjetrsey II.
Rauðseyjar XI.
Þormóðsey X.
Ölmóðsey V.
Papey XXI.

eftir ýmislegu:

Brokey X.
Desey IX.
Elliðaey X.
Eskey I.
Málmey XVI.
Skáleyjar XII.
Skáney VII. XIV.
Skoreyjar X.
Skutulsey IX.
Stafey X.
Stagley XII.
Svefneyjar XII.
Viðey VI.

*Effers-*: upphaflega myndin er *Ørfiris-* (ey sem fjarar út í, sem ganga má út í um fjöru yfir granda, er þá verður þurr; sbr. ritháttt AM); nafnið er víðar til. — *Lundey* af *lundi*. — *Þerney* af þerna = skegla. — *Rúfeyjar*: *Rúfur* er álitið sje s.s. *rúgur*, korn, en það er þó nokkuð vafasamt, hvort svo sje. — *Bíldsey*: Bíldur var víst eiginlega viðurnefni (sbr. Linds nafnatal). — *Pjetrs-*: hjet áður »Eyin há«. — *Papey* f. *Papa-ey*. — *Brokey*: *brok* er líklega náskylt *brúk*, er merkir þara og marhálm rekinn á land, eða það getur verið s.s. *brok* á norsku 'græsbevokset jord i skrederne under en klippe' (Aasen). — *Desey*: af *des* = heystakkur. — *Elliðaey*: af *elliði* = skip, af löguninni? — *Eskey*: f. *Eskiey*(?), eins og sú í Laxá(rdal); af *eski* = eskitrje?; sbr. Eskigrasey? — *Stafey*: af reknum stöfum, stólpum (sbr. Laxdælu). — *Skáley(jar)*: af því að »skálar« Einars rak þar í land (Jómsv. s.). — *Viðey*: af viði reknum þar á land?

**hólmur, hólmi**

er lítil ey. Nöfn eru ekki æðimörg (sumir á meginlandi eftir hólma (hólmum) úti fyrir).

*Eint.* Hólmr I. II. IV. VI (2; [1]) litli — stóri). IX (AM, L). VII (Ásólfs- e. Innri-AM).
*Flt.* Hólmar II. IV. XXI.
Miðeyjarhólmi (1861) IV.
Dímonarhólmi IV.
Hafnarhólmr (-i J) XIV.
Traustholtshólmi V.
Kvíhólmi IV.
Stokkhólmi XVI.
Stykkishólmi X.
Kárhólmar II.

*Hafnarhólmur*: heitir nú líka svo (ekki *hólmi*). Annars er *hólmi* víðast hvar myndin og var það einmitt hún, sem við mátti búast sem síðara nafnlið. Einkennilegt er *Stykkishólmur*, svo nefndur eftir »stykkinu«, svo litlu skeri milli meginlands og Súgandiseyjar; og hefur sjálft stykkið víst verið nefnt »hólmur« upphaflega, því ekki hefur norðurendinn á Þórsnesinu verið kallaður svo. — *Kárhólmar*: svo J og DI III (*-hólmur* 1861, rángt); fyrri liðurinn er mn. Kári.

**sker**

merkir klett eða lítinn hólma (graslausan). Nöfn:

Sker XII (í Patreksf.). Sbr. Þernusker.
Miðsker I.
Tvísker I.
Býjasker (Biar- AM; Bæjar-L) VI.
Hvalsker XII.
Selsker XII.
Þernusker (»alm. kallað Sker« AM) XVIII.

*Býjasker* er bærinn nefndur nú, en elsta myndin og rjettasta er *býjar-* eða *bœjar-* (svo Landn.); orðið er flt.-orð; hið einasta nafn, er myndin *býr* finst á Íslandi.

**rif**

er lángur grjót- eða malargrandi við eða út í sjó. Nöfn fá:

Rif XIX.
Háfarif X.
Malarrif X.

Nafnið hefði rjettast verið að setja við hliðina á orðinu »grandi«.

---

3.

Í þessum flokki eru þau nöfn, er tákna dældir og lautir í jörðinni og það sem myndar þær (barmarnir, síðurnar). Þar er fyrst orðið hið almennasta:

**dalur**

er engrar frekari skýríngar þarf. Eins og við er að búast, eru hjer mörg nöfn. Að upphafi nam einn maður dal og reisti þar bæ sinn og kallaði »í . . . dal«; færðist svo nafnið yfir á bæjinn sjálfan. Nöfn eru þessi:

*Eint.* Dalr II. IX.
*Flt.* Dalir III. XX. XXI (3).
Dalsdalr XIII.

eftir legu og því sem heyrir dalnum til:

Árdalr VII.
Engidalr IV. XIII. XVI. XVII. XVIII.
Eydalir sjá Heydalir.
Eyrardalr XIII.
Fannardalr XXI.
Fljótsdalr IV.
Forsæludalr XV.
Fossárdalr X. XXI.
Gjálfrárdalr XIII.
Grafardalr VII (2).
Grenjadalr IX.
Hafnardalr XIII.
Helludalr V. X.
Heraðsdalr XVI.
Hítardalr IX.
Hraundalr IX (2; [1]) ytri). XII.
Hvammsdalr XI.
Hvarfsdalr XI.
Höfðadalr XII.
Kálfárdalr XV (Kálfa- AM). XVI.
Keldudalr II. XVI.
Laxárdalr V. X. XIV. XIX (e. Dalr AM).
Lækjardalr XV (efri, eldra Keldu-, — neðri) XIX.
Mýrdalr IX (»alment kallaður Mý-« AM).
Myrkárdalr XVII.
Nesdalr XII.
Selárdalr XI. XII. XIII.
Skammárdalr (svo J; Skammi- 1861) II.
Skaptárdalr II.
Skardalr XVII.
Stapadalr XIII.

Sunddalr XIV.
Svartárdalr (fremri — ytri, neðri) XVI.
Vatnadalr (fremri—neðri) XIII.
Vatsdalr IV. V (= Roðgúll AM). XII.
Þverárdalr II (e. Brattland). XV.

Austdalr XX.
Efstidalr V. XIII.
Meðaldalr XIII.
Middalr V. VI (2. v.l. Mý-, Mi-). XIII (v.l. Mý-).
Neðridalr II. IV. V.
Vestdalr XX.
Þverdalr XI. XIII.

eftir stærð:

Breiðadalr XIII (fremri — neðri).
Djúpadalr IV. XII. XVI (»Djúpár- alm. Djúpi-« AM). XVII. (L).
Lágidalr XIII.
Langidalr (litli — stóri) X.
Litlidalr XV (2). XVI (2; [1]) »öðru nafni Sesselju-« AM). XVII.
Mjó(v)idalr XV (syðri — ytri) XVIII.
Stóridalr II. IV; XV. XVII.

eftir útliti:

Fagridalr II. V. XI (innri — ytri). XX. XXI.
Hvítadalr XI (neðri — fremri AM; »gamla nafn: Hvítarstaðir«).
Grænidalr XV.
Unaðsdalr XIII.

eftir dýrum og fuglum:

Galtardalr XI (litli — stóri; fremri — neðri AM).
Svínadalr II. XI. XIX.
Geitdalr XXI.
Hjarðardalr XIII (2; [1]) fremri — neðri e. stóri; [2]) innri — ytri e. stærri).
Kálfadalr XII.
Kvígyndisdalr XII. XVIII (-endis).
Sauðadalr XV (DI III).
Lambadalr XIII (innri — ytri).
Melrakkadalr XV.
Mýdalr VI (í Kjós).
Hrafnadalr XIV.
Haukadalr IV. V. XIII.
Valadalr XVI.

eftir gróðri:

Heydalir XXI.
Heydalr XIII. XIV.
Hrísdalr IX. XII (og Auði Hr. AM).
Hvanndalir XVII (e. Fann- AM).
Mosdalr XIII.
Möðrudalr XX.
Reynisdalr II.
Stardalr VI.
Víðirdalr XX.

eftir húsum og öðru í dalnum:

Búðardalr XI.
Húsadalr IV.
Kotsdalr IX.
Kvíadalr VI.
Laugardalr XII (litli — stóri).
Reykjadalr V (-ar- AM).
Seldalr XXI.

Unnarholt V.
Þórunnarholt (e. Brennistaðir) IX (AM, sbr. L).
Kerlingarholt X.

eftir ýmislegu:

Belgsholt VII.
Birtingaholt V.
Laxholt IX.
Bjálmholt IV.
Blönduholt VI.
Háfholt V.
Hjálmholt V.
Hömluholt IX.
Hörgsholt V. IX.
Kjarnholt (flt. AM) V.
Næfrholt IV.
Rauðbarðaholt (Holt AM, J) XI.
Reykholt V. VII.
Skálmholt V.
Skíðsholt IX.
Skipholt V. VII.
Slindrholt I.
Stafholt IX.
Stafnholt XVIII.
Stúfholt IV.
Súluholt V.
Sviðholt VI.
Söðulsholt IX.
Villingaholt V.
Vonarholt XIV.

*Holtar*: þessi flt.-mynd er ævagömul og kemur fyrir í Noregi á elstu tímum. — *Austvaðs*: Ekki aðeins AM ritar *Ostvaðs-*, heldur er svo stöðugt ritað í DI II—IV. VI (*vats, vatz* DI II. III); það er því víst elsta myndin (*ostvatns-*); *ost-* hefur breyst í *aust-* af því að það hefur þótt skiljanlegra. Bærinn liggur rjett fyrir norðan lítið vatn. — *Bakkár-*: í framburði orðið *Bakkar-*. — *Brautar-*: *höll* mun rángt. — *Ein-*: í öllum nöfnunum er *Eini-* forliðurinn; af »einir«, eins og ritháttur í DI sýnir; en það var eðlilegt, að *i* hyrfi á undan *h*. — *Kaldar-*: eldri myndin var vafalaust »Kaldaðar« svo í DI II, ɔ: Kallaðar- (ferjustaður við Þjórsá), svo DI IV. — *Tungu-*: hvort rjettara muni er mjer óljóst. — *Vall-*: f. *Valla-* (Sturlunga). — *Fífl-*: f. *Fífla-*, svo DI II. — *Kross-*: f. *Krossa-* (IX), sbr. Kristnis. (»Krossaholt . . ok reisti þar krossa«). — *Stekk-*: AM hefur »Stokk- e. Stakk- e. Stekk-«, J »Stokk- e. Stekk-« (1861: Stekk-); Stakk- hefur DI III. V, og er það þá líklega rjettasta myndin. — *Bratt-*: f. *Bratta-* DI II. — *Eskju-*: *Öskju-*: af *askja*, en líklega er eldri myndin *eski*, sem er sömu merkíngar (öskjumyndað holt); *Eskju-* (IV) er ritað DI III, *Esk-* (IX) DI VI; í DI bendir rithátturinn alstaðar á frummyndina *Eski-* og mun það því elsta og rjetta myndin. — *Þur-*: er líklega hið rjetta; finst ekki í DI. — *Bol-*: f.

*Bola-*? — *Hross-*: f. *Hrossa-*. Hross- (IX), svo og í Heiðarv. (Hróks- er rángt) og DI III. — *Kálf-*: f. *Kálfa-*, sjá DI II. — *Arnar-*: e. eftir fuglinum. — *Arnþórs-*: J hefur báðar eða-myndirnar, AM hefur: »Handursholt sumir skrifa Andorsholt« (þar á eftir koma í AM »Andróastaðir«). 1861 hefur aðeins Arnþórs-. Ekkert af nöfnunum hef jeg fundið í DI. Ekki er ólíklegt að »Handurs« kunni að benda á »Hamdi(r)s«, sbr. »Hamdisvík«. — *Brag-*: f. *Braga-*. — *Bratts-*: af mn. Brattur (upphaflega viðurn.); sbr. Vatsd. — *Brús-*: f. *Brúsa-*, mn. (eða = hafur). — *Flagbjarnar-*: »Flagelta« er líklega hæðnisnafn (uppnefni). — *Fróð-*: f. *Fróða* (mn.). — *Kamp-*: af »kampi« viðurn. (sjá Landn.). — *Pálm-*: f. *Pálma-*. — *Skor-*: af mn. »Skorri« (sbr. Landn.). — *Steins-*: mætti og skýra öðruvísi. — *Sölf-*: f. *Sölfa*. — *Traust-*: f. *Trausta-*. — *Vetleifs-*: skr. *Vett-* DI IV, (en *Vet-* DI VI); af mn. »Véttleifr« (vétt = dráp). — *Ölvaðs-*: er skr. *Olvas(s)-* DI VII og *Olvars-* (sst. s. 678); ef til vill er hið síðara rjettast; mn. »Ölvarr« sýnist annars ekki koma fyrir, en væri vel hugsanlegt. »Ölvaðs« er afbökun. J segir, að sýslumaður og prestur kalli »Ölversholt« (IV). Ekkert »vatn« finst við hvorugan bæinn. — *Bryðju-*: upphaflega viðurn.? — *Eyhildar-*: hlýtur að vera hið rjetta; rithátturinn *Eg-*, *Eig-* í DI II. III. V bendir til hins sama. — *Stangar-*: eftir (Þórdísi) stöng (sbr. Egilss.). — *Bjálm-*: hvað þetta orð sje, veit jeg ekki; f. *bjálma* e. *bjálmu-*? — *Blöndu-*: af »blanda«, viðurn.? — *Háf-*: af háfur?, ritað og svo í DI V; valla af »hár«. — *Hjálm-*: f. Hjálma (sbr. Bisk. I). — *Kjarn-*: er vafalaust afbakað úr *Keldn-* f. *Keldna-*, sbr. DI II, en einkum DI IX (bls. 392); *Kjarn-* finst ekki í DI. — *Rauðbarða-*: svo v.l. í 1861; nafnið er ritað »Raðbarða« í DI III, »Raðbarðar« DI IV, og er það óefað nær hinu rjetta, mn. Ráðbarður. — *Reyk-*: eldra var *Reykja-*. — *Skip-*: af löguninni? — *Slindr-*: sbr.(?) no. Slind (Slindr), þverbiti í húsi. — *Staf-*: f. *Stafa-*.

skógur.

Á Íslandi er skógur kallaður ekki aðeins virkilegur birkiskógur, heldur líka lágvaxin kjörr og runnar, og svo mun hafa verið síðan land byggðist. Víðast er allur »skógur« nú

gersamlega eyddur og ekkert eftir nema nafnið, og er það vottur um fyrri daga dýrð og síðari tíma meðferð á landinu. Nöfn eru:

*Eint.* Skógr XI (stóri). XII.
*Flt.* Skógar IV (= Skógar eystri — ytri AM, J). VII. IX (2; [1]) litlu — stóru; [2]) syðri e. mið — ytri). XI. XII. XIII. XVII. XVIII (2). XIX. XX. XXI.

eftir legu:

Árskógr (stærri — litli; »Staðar-Á. af sumum« AM) XVII.
Forsárskógar (Nj.) IV(?).
Glerárskógar XI.
Hlýskógar XVIII (e. Hlé- AM, J).
Hlíðskógar (AM) XVIII.
Kelduskógar XXI.
Ljárskógar XI (Ljá- J).
Lækjarskógar XI.
Miðskógr XI.
Móskógar XVI.

eftir eiginleikum:

Fagriskógr V. IX (L). XVII (e. Fagri Árs.).
Litliskógr IV.
Stóriskógr (Tröllaskógr L) IV.
Þykkvaskógr XI (L).
Dynskógar II (L; DI II).

eftir ýmislegu:

Kirkjuskógr XI.
Svínaskógr XI.
Magnússkógar (»áðr Silfra-« AM) XI.

*Hlý-*: AM hefur »Hle- e. Hlijd«, J hefur »Hlé- (Hlið-, rángt f. Hlíð-), en hvorttveggja er afbökun úr því upphaflega, *Hlý-*, svo í Bisk. I og DI VI. — *Ljár-*: af árnafninu Ljá (svo og í Gretlu), en *Ljá-* getur verið rjett. — *Magnús-*: í J eru »Silfraskógar« kallaðir eyðihjáleiga. »Magnús-« er auðvitað úngur forliður. Hvorugt finst í DI.

**mörk**

sömu merkingar og »skógur«. Nöfn:

Mörk II (efri — neðri). IV (2; [1]) syðsta). V. XV (stóra — litla).
Breiðamörk I.
Miðmörk IV.
Stóramörk IV.

**lundur**

merkir lítinn skóg, skógarpetti. Nöfn:

*Eint.* Lundr II (DI II). VII. IX. XVI. XVIII.
*Flt.* Lundar IX.

**hrís**

er s. s. kjarr. Finst eingöngu í flt. sem bæjarnafn og er þá, sem við var að búast:

Hrísar VII. X (2). XV. XVII (2; [1]) »af sumum Hrísir« AM). XVIII.

Kaldbakshrísar (»Í K-um« AM) V.

Bærinn í VII er nefndur »Hrís« í DI III, sömuleiðis H. í Helgafellssveit (sst.; v.l. H-ar); H. í Eyjafirði sömuleiðis DI IV (báðir bæjir). Þolfall »Hrísa« (karlkyns) finst í DI VI. — *Kaldbaks-*: finst ekki í DI.

**björk.**

Nafn aðeins: Björk V (2). XVII (2).

**lyng.**

Aðeins einu sinni og í flt:

Lyngar II (eystri — ytri e. vestari).

Orðið er karlkyns.

**reynir.**

Aðeins sjálft nafnið:

Reynir II. VII (eystri e. efri — vestri e. neðri). XVI (J; Reyn 1861).

*Reyn* í 1861 er alveg rángt.

**víðir.**

Nafn aðeins:

Víðar X. XVIII (vijdar AM).

Ritháttur AM sýnir til hlítar, hvað nafnið er, flt. af víðir (ekki »viðar«) sbr. og »víjdar« í DI VII; hjer er orðið kvennkyns.

---

6.

Í þessum flokki koma nöfn, er dregin eru af hverum og laugum (jarðeldi). Þau eru aðeins tvö.

**laug**

merkir hver en þó með minni hita og ekki með eins miklum umbrotum vatnsins af suðunni; »laug« ekki heitari en svo að megi laugast í. Nöfn eru:

*Eint.* Laug V.
*Flt.* Laugar V (3; [1]) e. Laugahvammr AM). XI. XIII. XVIII (litlu — stóru).
Kotlaugar V.

**reykur**

kemur aðeins fyrir í flt. og merkir alla gufustrókana eða hinn breiða gufustrók, sem leggur upp af hverum; aðeins sem forliður kemur orðið fyrir í eintölu. Nöfn eru þessi:

Reykir V (4; [1]) efri — syðri; litlu — stóru). VII (2; [2]) Suðr-). XV (3; [1]) e. Stóru R. AM.; [2]) e. Reykjakot; [3]) syðri — ytri). XVI (4; [1]) Stóru — Minni). XVII. XVIII (2). XXI.
Brúarreykir IX.
Lambanesreykir (Reykir AM) XVI.
Norðrreykir VI.
Efri Reykir V (sbr. syðri R. V).
Kleppjárnsreykir VII.
Kópareykir VII (Reykir L).

Sturlureykir (e. Gullsmiðs-) VII. Þeistareykir (Þeista- e. Þesta- AM) XVIII.

Við þau er ekkert að athuga annað en að sumir forliðirnir eru allúngir og auðvitað settir til að greina Reykina hverja frá öðrum. — *Kópa-*: finnast í DI V. VI. VII, *Gullsmiðs-* (einu sinni) í DI VII, *Sturlu-* sst. og *Kleppholts-* (svo) sst.; þessi nöfn sýnast ekki að vera eldri en frá 16. öld. — *Þeista-*: er líklega fuglsnafnið.

---

Eins og getið var hyggur O. Rygh, að sjálf nöfnin — þessi náttúrunöfn (og þar til heyra og nokkur í næsta flokki) — hafi orðið bæjanöfn (*reykja-hólar*, = »hólar þar sem reykir eru«) hafi orðið bæjarnafnið »Reykjahólar« blátt áfram. Þetta efast jeg þó um, og öllu fremur má ætla að bæjarnafnið hafi verið upphaflega náttúrunafnið með forsetníngu á undan (og þágufalli af orðinu). Svo er jafnaðarlegast sagt í Landnámu og jeg set hjer skýrslu um, hvernig þessi bæjanöfn koma þar fyrir.

Forsetníngin *á* er höfð um bæ sem stendur á einhverju svæði (innan takmarka þess, sbr. og *í*), svo sem »á . . . eyri«, »á . . nesi«, »á . . . mýri«, »á . . völlum«, (sbr. at), »á . . . hjalla«, »á móí«, stundum og »á . . brekku« (þá er bærinn í sjálfri brekkunni, ekki undir henni); [svo kemur og fyrir »á . . á«, »á . . . hamri«, »á . . hóli, hólum«, »á Kleifum«, »á Ferstiklu«, »á Beigalda« (stytt úr »Beigaldastöðum«, »á Hólmslátri«, »á Vífilstóttum« (en líka »at Vífilstóttum«) og svo á »á Veggjum«, »á Jörva«, »á Grindli«, »á Kálfskinni«, og svo sem ætíð »á . . stöðum (stað)«; í sumum af þessum síðastnefndu nöfnum er efalaust nafnið í nefnifalli orðið bæjarnafn (en upphaflega var t. d. sagt »at eða í . . hólum« (sbr. Landn. 310, þar sem þessar forsetníngar finnast sem v.l.; sbr. og »á e. í Búlandi« bls. 268)].

*at* er ákaflega tíðhaft; »at . . . felli« (mjög oft), »at . . . brekku«, »at . . . fjöllum«, »at . . . höfða«, »at . . . bergi«, »at . . . borg«, »at haugum«, »at . . . hváli«, »at . . . hólum« (sbr. *á*), »at . . hálsum«, »at hólmi«, »at dröngum«, »at skarði« (líka *í*), »at . . enda«, »at gnúpum« (sbr. *undir*), »at vatni«, »at vági«, »at lóni«, »at . . bekk«, »at . . á« (en líka »á . . á«), »at . . læk«, »at . . gili« (og einu sinni »við . . gil«), »at reykjum«, »at melum«,

»at steinum«, »at fossi«, »át ..mel«, »at ökrum«, »at tröðum«, »at ..gröfum«, »at lundi«, »at ..látrum« (sbr. *á*), »at vatnlausu«; einu sinni finst »at ..velli«, en það er ekki eðlilegt, enda kemur þegar á eftir »á ..velli« (bls. 241). Svo kemur fyrir »at hofi« og »at auðnum«. [Merkilegra er, að *at* skuli finnast með orðum, er tákna byggingu svo sem »at ..toptum« (v.l. *á*), »at ..skála (skálum)«, »at ..húsum«, »at ..hlöðum«; og svo kemur stöku sinnum fyrir »at ..stöðum« (Ldn. 52, hjer v.l. *á*, 72. 229. 230)].

*í* er auðvitað haft, likt og *á*, þegar bærinn stendur innan einhverra takmarka, einkum þar sem um lægð eða þess konar er að ræða. Þess vegna ætið »i ..dal«, »í botni«, »í hvammi«; svo og »i ..vik«, »í ..firði«, »í höfn«; líka »i ..hlið«, og er þá bærinn hugsaður í sjálfri hlíðinni (ekki undir), eins er um »í ..felli«, »í ási«, »i höfða«, »i öxl« sbr. »í ..hólum« (inn á milli þeirra); svo er og haft *í*, þótt um flatt land sje að ræða, »í ..holti (holtum)«, »í ..skógum (skógi)«, »í mörk«, »í haga«, »i ..engi«, »í ..túngu«, »i fljótum«. Ennfremur er sagt: »í garði (görðum)«, [»í ..gerði«, »í bæ«], »i ..nesi«, »í ..ey«, »i odda«; »i háfi«; svo og »i gröf«, »í hrauni«, »í brenningi«, »i hripi«, »i ..skarði«, »i alviðru«, »í Kaldbak« og jafnvel, sem er óeðlilegra, »i múla« (bls. 41).

*undir* er haft um bæ, sem stendur undir einhverju sem gnæfir upp; því var sagt »undir ..felli«, »undir brekku«, »undir gnúpi« (sbr. og *at*), »undir þríhyrningi«. Svo er og einu sinni haft »fyrir neðan ..hamar«.

Það var nú auðvitað, að þegar tákna skyldi dvöl (»áveru«) á staðnum, var ekki hægt að hafa þetta öðruvisi, og mætti því segja að það sannaði litið. En svo var lika sagt, þar sem búast mátti við nafninu í nefnifalli e. þolfalli — og það er meira að marka —; ekki er sagt: »hann kallaði (bæinn) Borg«, heldur »hann kallaði (bæinn) **at** B.«, sbr. »búztað þar er kallat var [ekki »Hvanneyrr« heldur] **á** Hvanneyri«, sbr. »lét kalla at Ökrum« og ótal mart fleira. Þetta þykir mjer benda á að bæjarnafn sem t. d. »Akrar« i nefnifalli er yngra, en auðvitað hlaut sú breyting að koma.

---

7.

Í þessum flokki skulu talin þau nöfn, er dregin eru af hlutum mannlegs líkama eða dýrs; við þá er líkt einhverju, sem fyrir kemur í náttúrunni, og getur það verið nokkuð misjafnt.

**höfuð.**

Aðeins í: Strandarhöfuð IV; ekki veit jeg af hverju nafnið er dregið. Í Noregi er orðið haft um framstandandi fjallsenda.

**haus.**

Aðeins í: Harðhaus V (»alm. kallað Geirakot« AM). VI.

**enni**

er einkum haft um framhlið fjalls, sem gengur alveg út að sjó (eins og t. d. Enni á Snæfellsnesi). Nöfn eru:

Enni XV. XVI (2).
Skriðningsenni (svo AM, Skríðnes- J) XIV.
Bolaenni IV.

*Skriðnings-*: án efa rjetta myndin; »Skriðnis« finst í DI VII og er það latmæli, sem svo hefur verið afbakað í »skriðnes-«, af skriðníngur = skriða.

**kinn**

merkir líkt og síða hallanda frá fjalli niður að á (eða vatni). Nöfn:

Kinn X.
Kaldakinn IV. V. XI. XV (Köldu- AM).
Fagrakinn XVI (e. Guddukot). XX.
Kárakinn (e. Rjett) XVI.
Ljótunnarkinn XV.

AM hefur ætíð »Köldu-kinn«, og það var eflaust vana-

legast í hans tíð og í samræmi við mörg önnur þess kyns nöfn.

**háls**

merkir aflángt fjall og fremur lágt milli tveggja dala eða hjeraða, og kemur það nafn ekki allsjaldan fyrir. Nöfn:

*Eint.* Háls IV. V (litli—stóri). VI (fremri — neðri). X (2). XIII. XVI. XVII (4; [1]) Stóri H. nú Hálskot AM). XVIII (2). XXI.
*Flt.* Hálsar VII. XIII (L = Höfði).

Blönduháls V.
Dragháls VII.
Eintungnaháls II.
Hraunháls X.
Tunguháls XVI.
Rauðháls II.

*Drag-*: f. *Draga-* (af »Draganum«). — *Eintungna-*: svo er það nú fram borið (ekki »Eintúna-«, sem J hefur); *ein-* er hjer víst töluorðið.

**svíri**

merkir háls eða neðsta part hnakkans. Kemur aðeins sjálft fyrir:

Svíri I. VI. VII. XVII (2).

Ekki er mjer kunnugt, af hverju nafn þetta (svo víða) sje dregið.

**öxl**

merkir framstandandi (lægri) part af fjalli, er líkja má við öxl á manni. Nöfn eru:

Öxl X (og Forna Ö.). XV.
Fellsöxl (litla — stóra e. Kálfafellsöxl AM) VII.
Núpsöxl XV.

Eins og eðlilegt var, er forliðurinn fjallsnafn.

**hryggur**
merkir lágan háls. Nöfn:

*Eint.* Hryggr V. VI.
*Flt.* Hryggir II. XVI.
Galtarhryggr XIII.
Uxahryggr (Oxa- AM) IV.
Ölduhryggr XVI (öðru n. Öldusel AM). XVII.

Jórvíkrhryggir II (aðeins í 1861).

*Uxa-*: takandi er eftir því, hvað lengi hið gamla *o* hefur haldist í þessu nafni. — *Jórvíkur-*: eftir »Jórvík« í sömu sveit.

**bak, bakur**
þarf engrar sjerstakrar skýríngar. Nöfn eru fá:

Hólabak XV.
Hurðarbak V. VI. VII (2). XI (Bjhitdk.). XII. XV (2). XVI. XX (Olav.).
Harðbakr XIX.
Kaldbakr IV. V. XIV (-bak AM). XVIII (»-bak, sumir segja Kál-« AM).

Í 2 fyrstu nöfnunum merkir »bak«, að bærinn er »fyrir aftan« (hóla) og eins og »fyrir aftan hurð«; allmerkilegt er hvað hið síðara er títt. Í hinum 2 síðustu er nafnið dregið af »baki« (efsta fleti) fjalls. — *Kald-*: í DI II finst þágufall *baki* og *bak* (XIV); nefnifall *-bakur* finst (XIV) í DI IV. — *Kál-*: er auðvitað ekki annað en afbökun í framburði.

**fótur**
finst í nokkrum nöfnum og merkir víst ætíð ysta hlutann á einhverju, og svo er í 2 hinum síðustu nöfnum; öðruvísi er víst ástatt um 2 þau næstsíðustu:

Fótr XII (2). XIII (e. Fola-).
Bolafótr V. VI.
Folafótr sjá Fótr XIII.
Hlíðarfótr VII.
Túnfótr XVI.

**hæll.**

Finst aðeins sjálft sem bæjarnafn:

Hæll II. V. VII. XV.

**rófa**

merkir víst ysta (aftasta) hlutann á einhverju, eins og 4 næstu nöfnin: Nöfn eru:

Rófa VI. XV. XVI. XVII.
Beinróa VI.

**tagl**

er að eins haft um hest, í bæjanöfnum sömu merkíngar og »rófa«. Finst aðeins í:

Hellnatagl (»alm. kallað Hellnahjáleiga« AM) V.

**hali**

finst í nokkrum nöfnum:

Hali I. II. IV. V.
Fellshali V.
Skarðshali V.
Skotthali IX (DI VII).
Strandarhali IV.
Kothali XI.
Grafarhali V.
Refshali VI.

**sporður**

haft um fiska, dreka og bryggjur. Aðeins nafnið sjálft:

Sporðr XV.

**rass**

er sjálfsagt þar sem það kemur fyrir háðsnafn eða óvirðíngar:

Rass V (e. Sigurðarhús). XVI (e. Syðsta Mókot). XVIII (Olavius; hjáleiga frá Rauf).

**skinn**

finst aðeins einu sinni sjálft og svo í 2 nöfnum; merkir ef til vill að jörðin (túnið) líkist útþöndu skinni:

Skinnar IV.
Fótaskinn XVIII.
Kálfskinn XVII (syðra — ytra).
Sbr. Bláfeldr og Hjáleðr.

Við þenna flokk vil jeg bæta nokkrum nöfnum, sem reyndar eru lítt skyld þeim er nú voru talin eða ekki.

**endi**

skýrir sig sjálft. Nöfn eru:

Fellsendi V. XI.[1]
Hlíðarendi IV. V. IX (2; [1]) Hlíðarkot). XVIII. (»nú Syðra Eyjardalsársel« AM).
Hæðarendi V (»alm. Hægendi« AM).
Hamraendar IX (2). X. XI.
Landsendi XX.
Sævarendi XVIII. XIX.
Vatsendi II (Safn IV). V. VI. VII. IX. XV. XVI. XVII (3). XVIII. XIX.
Garðsendi X (innri).
Stjettarendi V (= Stjettar?).
Básendar VI.

Fyrri liðurinn merkir ætíð það sem »endinn« er endir á. — *Hæðar-*: hvort rjettara er, veit jeg ekki; í DI finst ekki nafnið. »Hægindi« kemur (og) fyrir í Reykholtsdal. — *Stjettar-*: er ef til vill s. s. »Stjettar« í J (nr. 147). — *Básendar*: svo AM; »Bátsendum« finst í DI VII, en »Bátzsöndum« í DI VI, eins og væri nafnið samsett af »bátur« og »sandar«, og má vel vera að það sje rjett.

**krókur**

orðið merkir víst ævinlega bugðu á eða í landslaginu, myndaða af hæðum eða fellum [eða ám og vatni?; líkt er og í Noregi].

*Eint.* Krókr IV. V (8; [1]) Stóri K., Litli K. AM). VI (4). VII (2; [1]) e. Hliðkrókr). IX. X (2). XII (3; [1]) Stóri K. [2]) Innri K.). XIII (e. Krókshús). XV (2; [1]) Litli K.). XVI (3; [1]) e. Frostastaðagerði).

*Flt.* Krókar XVIII (eystri e. [austari] e. stóru — vestari e. litlu).
Miðkrókar (nú Gerði) XVIII.
Bakkakrókr VI.
Hliðkrókr sjá Krókr VII.
Hraunkrókr V.
Sauðárkrókr XVI.
Selkrókr II (DI II).

*Hlið-*: e. *Hlíð-*?; finst ekki í DI.

**lykkja**

líkrar merkingar og »krókr«. Nafn:
Lykkja VI.

**viki**

hlýtur að vera myndað af »vik«, líkrar merkingar og »krókur«. Kemur aðeins fyrir í:

Garðsviki IV (eystri — vestri; »eystri — vestari Garðsviki« AM).

Þetta nafn er skrifað »Garðsauki« í J (og 1861), en það er gersamlega rángt. *-viki* finst og í DI IV (hjer »ysti« G.), IV. VI, (*-hviki* er og skrifað DI II; »vestasti G.«).

**horn**

getur haft margar þýðingar. Nöfn:

Horn I. IV. VII. X. XIII (2).
Byggðarhorn V.
Eyrarhorn II (DI I. III).
Teigarhorn XXI.
Fjarðarhorn X (e. Pétrshús AM). XII. XIV (2; [1]) litla — stóra).
Vatshorn VII. XI (litla — stóra). XIV. XV.
Garðshorn IV. X. XIII. XVI. XVII (4; [1]) syðra — ytra). XVIII (2; [1]) e. Gata).

Loks eru tvö orð, sem jeg set hjer og eins hefðu mátt vera í fyrra aðalflokki, heyrandi til byggðar:

**gata.**

Ekki svo fá nöfn og víðs vegar um land:

*Eint.* Gata IV (4). V (7). VI (3; [1]) »í G.«). X. XII (Efrig. — Neðrig.). XIII. XVII (2). XVIII (2; [1]) e. Garðshorn). XX.

*Flt.* Götur II. Aurgata IV. Hálsgata XIV.

**vegur**

aðeins í: Kjalvegur X.

VI.

Eins og áður var getið, eru ekki fá nöfn, tvíkvæð og einkvæð eða samsett og ósamsett, er mynda flokk sjer. Þau eru oft erfið að skýra, að minsta kosti fyrir þann, sem ekki þekkir sjálfur staðinn, því að stundum eiga þau vafalaust við og eru dregin af einhverju í náttúrunni (svo sem t. d. þau sem enda á *-spyrna*, *-andi* osfrv.). Hjer skulu þessi orð talin, fyrst hin samsettu, og nokkuð flokkuð og hjer með orð, er enda á *-ingr*:

Almenningr VII. XV. XVI.
Alviðra V. XIII.
Árkvörn IV.
Auðkúla XIII. XV.
Beigaldi IX.
Bláfeldr X.
Brenningr X (AM, L), sbr. Sviðningr.
Buðlunga (Bugd- AM) VI.
Butraldi VII.
Djáknadyngja (e. -dys) V, sbr. Trölladyngja.
Drepstokkr V (Bisk. I, Grænlþ.).
Dufþekja IV.
Efrihreppr VII.
Neðrihreppr VII.
Einbúi I. V. XVIII.
Einhyrningr IV.
Elliði X.
Ferstikla (Fet-) VII.

Forsjá V (DI II. IV).
Flatbjörn VI.
Forsæti IV. V.
Fótakefli V.
Fótaspyrna X.
Geldingr. XXI.
Garðhverf (»alment Garðar« AM) XVIII.
Girðingar XIX.
Rifgirðingar X.
Gishjallr VII.
Gemlufall XIII.
Hallsstrunta V.
Handprýði V.
Haugatúnsurðir XIII (J bls. 197).
Hjáleðr V.
Hornskarpr XVI.
Hraunsnef IX.
Hraunþúfuklaustr XVI.
Hreggnasi XIII.
Hringver XVI. XVII. XVIII.
Hægendi sjá Hæðarendi.
Hækingr XVIII.
Ingvarir XVII.
Kambakista V? (L).
Kaupangr (e. Kaupang AM). XVII.
Kleppstía (Klett- v.l. J) IX.
Klofningar XIII.
Kúskerpi XV. XVI.
Kvíabekkr XVII.
Landalifur XIII.
Landbrot IX.
Langabúr VI (austara — vestara).
Leyningr XVII (2).
Lokhillur (= Hrafnkelsstaðir) XXI (Aust.).
Lóþrælar V.
Mástaðabyrgi IX.
Melbreið (= Mjölbrigðastaðir J) XVI.
Miðkriki IV.
Miðseta XV.
Miðskytja (e. -sitja) XVI.
Naustáll X.
Núningr IV.
Núpskatla XIX (e. vestari Vellankatla AM). Vellankatla austari XIX.
Refstokkr sjá Drepstokkr.
Rembihnútr VI. VII.
Roðgúll (»eldra nafn á Vatsdal« AM) V.
Sandkirkja XVII.
Skinnbrók XVI (Olavius).
Skinnhúfa XVII.
Skinntík X.
Skjaldfönn XIII.
Skuggahverfi VIII sbr. Vatnahverfi.
Sleðbrjótr XX.
Smyrilshattr V.
Steinbogi XVIII.
Steinkirkja XVIII.
Sviðningr XV. XVI, sbr. Brenningr.
Titlingr XVII. XXI.
Tóttahringr IX.
Trölladyngja VII, sbr. Djáknadyngja.
Tunguflekkr (neðri — efri) XVIII.
Umsvalir sjá Uppsalir.
Útskot X.
Útverk V.
Vatnahverfi XV, sbr. Skuggahverfi.
Vellankatla sjá Núpskatla.

Vetrarveita IV.
Víði(r)ker XVIII (2).
Vindbelgr XVIII.
Vindborð I.
Vindhæli XV.
Þríhyrningr IV (L). XVII.
Þverspyrna V (2; [1]) e. Báru-kot).
Ölkofra V.

*Auðkúla*: í XV er nafnið stytt úr »Auðkúlustaðir« (sjá bls. 429), og var svo aftur stytt í »Kúla«. — *Beigaldi*: stytt úr »Beigaldastaðir« (v.l. í Egilss.). — *Bláfeldr*: sbr. *skinn*. — *Buðlunga*: hvor nafnmyndin er rjettari veit jeg ekki; finst ekki í DI. — *Butraldi*: lítur út fyrir að geta verið stytt nafn, t. d. úr »Butraldastaðir«. — *Drepstokkr*: svo heitir bærinn í Bisk. I; síðar afbakaðist nafnið í »Ref-, sumir kalla *Rek*-« (AM). — *Dufþekja*: stytt og ummyndað úr »Dufþaksholt«. — *Einhyrningr*: eftir felli, samnefníng. — *Elliði*: eftir einkennilega löguðu felli, sem menn hafa líkt við skipstegund (elliða). — *Ferstikla*: *Fer*- er vafalaust rjettara en *Fet*-; »Ferstikli« (hvorugkyns?, e. karlkyns »-stiklir«?) í DI III, en »Ferstikla« í DI IV. — *Geldingr*: dýrs-nafnið? — *Garðhverf*: »Garðahverfi« í J (bls. 317) er rángt. — *Gishjallr*: f. *Geirs*-? — *Hallsstrunta*: AM hefur þetta nafn á eftir Einkofa (nr. 138 í J). — *Hjáleðr*: sbr. skinn. — *Ingvarir*: stytt nafn úr »Ingvararstaðir« (Svarfd., v.l. »Yngvildar-«.) — *Kaupangr*: karlkyns, er hið upphaflega; *-angr* er f. *-vangr* í þessu orði. — *Kambakista*: nafn á felli? — *Klettstía*: *Klepp*- í AM er hin upphaflega mynd, sbr. DI III. IV. — *Kúskerpi*: hvað þetta nafn þýðir, er óvíst, = »skarpt (þ. e. ilt og graslítið) land fyrir kýr«?. — *Landalifur*: alveg óvíst hvernig skýra skal. — *Lokhillur*: merkir víst »hillur« þ. e. hjalla í fjalli við endann á því, og á nafnið vel við þar sem bærinn mun hafa verið. —*Melbreið*: stytt mynd úr »Mjölbrigðastaðir«, sjá þetta nafn og bls. 443. — *Miðskytja*: er hið rjetta, svo í DI III—V; af »skot«? — *Núpskatla*: Vellankötlu-nafnið finst í DI II. III. — *Víðirker*: af »ker«, dæld. — *Þríhyrningr*: eig. »undir Þríhyrningi«, sbr. Njálu. — *Ölkofra*: er víst stytt úr »Ölkofrastaðir« (sbr. Þórhallr ölkofri í Ölkofraþætti).

Nöfn er enda á **-andi.**

Þau eru öll hluttaksorð núlegs tíma og eru:

Brakandi XVII (= Brakaðargerði DI III).
Dynjandi XIII (2).
Gínandi IX.
Gónandi XVI.
Hallandi V.
Mígandi XVII.
Sitjandi IV.
Þjótandi V.

*Mígandi*: AM skrifar *Mýindi*, en þetta er ekki annað en framburðarmynd. — *Þjótandi*: er við Þjórsá.

Nöfn er enda á **-leysa.**

Þessi liður merkir skort á því, sem forliðurinn nefnir:

Draflaleysa IV.
Eldleysa XXI.
Kotleysa (»nokkrir kalla Kost-« AM) V.
Skyrleysa XII.
Vatsleysa V. VI (minni— stóra, stærri J). XVI. XVIII (Vatnlausa L).
Veiðileysa XIV.

*Kotleysa*: *Kost-* er eflaust hið rjetta nafn. Nafnið finst ekki í DI.

Nöfn, sem eru gamans- eða háðs-nöfn:

Bakrangr V. VI. VII.
Bindindi VI (J).
Bráðræði VII. VIII.
Horngrýti XV.
Látalæti IV.
Nauðverja (e. Sigvatstún) VI.
Vestannepja V.
Viðbjóðr V.
Vitleysa J I.

*Horngrýti*: merkir í nýjara máli s.s. »helvíti« (sbr. Víti).

Nöfn sem eru tekin eftir útlendum nöfnum, og öll allúng, og tvö bibliunöfn:

Amsterdam (Amstur- AM) VI.
Arabía X.
Danmörk XV.
Danzig XV.
Gottorp XV.
Paradís XVI.
Bethanía XIII.

Við þessi nöfn má bæta tveimur, sem ef til vill eru orðin til á sama hátt eða líkan:

Garðaríki XV. XVI.
Suðrríki IX.

Einkvæð eða (og) ósamsett nöfn.

Þau eru mörg og ósamstæð, þótt sum sjeu skyld. Er hagfeldast að telja þau í stafrofsröð.

Auðnar og Auðnir (v.l. -ur) II (2). IV (»at Auðnum« L). VI. XII. XIII. XVI. XVII (3). XVIII.
Ausa XII.
Bár V. X.
Norðrbár X.
Bitra V. VII. IX. X. XVII.
Bjalli IV (Bjalla, Bjallinn J).
Bjóla IV.
Blesa VII.
Bóla XVI.
Breið XVI.
Brenna IV. V (2). VII. IX. XVIII.
Brók IV.
Bryggja V.
Bryggjur IV.
Bryti XVII.
Butra II. IV (2).
Byrgi XIX.
Dálkr II (Safn IV).
Dallr X.
Dammr XXI.
Deild IV. VI.
Dúkr XVI.
Dunkr XI (Dunk AM).
Dyngja X.
Dysjar VI.
Dægra VII.
Eitra IV (J).
Erfið VI.
Erill IV.
Erta V.
Eyma V.
Feðgar II.
Flassi VI.
Fok V.
Gásar (»alment kallað Gæsir« AM) XVII.
Gaul X.
Gláma IV.
Gloppa XVII.
Glóra IV. V (2; [1]) »e. Rögnvaldskot« AM). VI (e. Urðarkot). XIII.
Glæsir VI.
Grenjar IX.

Grilla V (J).
Grillir XV.
Grindill (L, J; Grillir AM) XVI (stóri — minni).
Grænur X (efri — neðri).
Gyrða XIII.
Göltr V. XIII.
Háfr IV. VII (e. Háfslönd).
Hekla V.
Hemla IV.
Hestr V. VII. XIII.
Hafrshestr XIII.
Heygill V.
Hillur XVII, sbr. Lokhillur.
Hitta VI.
Hlein X (sjá J. 145).
Hlið VI.
Hnaukar XXI.
Hnjótr XII.
Örlygshnjótr XII (DI VII).
Hof I (+ H. litla). IV (minna — stóra). V (minna—stóra). VI (2). XIII. XV (2). XVI (3; [1]) Hofið, stekkr). XVII (2). XVIII. XX (2). XXI (3).
Hreiðr IV.
Hrifla (»eldra Hriflugerði« AM) XVIII.
Hringr XVI (2).
Hrip IX (L).
Hrjótr XX.
Hruni II. V.
Hrútr IV.
Húkr XV.
Hvappr XV.
Hvarf XV. XVII (syðra—ytra). XVIII. XXI (Aust.).
Hvesta (fremri—neðri e. efri) XII.
Hviða V.
Hvíld V.
Hæðir IX.
Irjar sjá Yrjar.
Jata V (Jeta AM).
Jökull XVII.
Keta XVI (2).
Kisa V.
Kista VII. XV.
Kjarni XVII (2; [1]) Litli — Stærri).
Klauf II. IV. XVII.
Kleppr VI.
Kleppar VII.
Kljá X.
Klofi IV (stóri — litli).
Kló (»nú alment kallað Klón« AM) XVI.
Klúka XII (2). XIII. XIV (2). XX (2).
Klúkur XVII (Klúka AM).
Klömbr IV (AM; J með v.l. Klambrar). IX. XV. XVIII.
Knörr X (Hnör AM).
Kollr (»eldra f. Tjörn« AM) XV.
Koltr (eldra: Orrastaðir) XIII.
Kragi IV.
Krákr (e. Hellukot e. Jónshjál.) V.
Kringla V. VII. XI. XV. XVII.
Kroppr VII (litli—stóri). XVII. (Litli K. e. Kroppshús).
Kross IV. V. VI. VII (2). IX (2). X (2). XI (2). XII. XVI. XVIII. XX. XXI.
Krossar X (ytri — syðri). XVII (e. Kross).
Steinkross IV.
Ölviskross (Ölvers- AM) IX.
Krubba VI.

Kryppa XII (J).
Kúla XIII.
Kumli II (DI II). IV.
Kurfr XV.
Kökkr V (syðsti, Mið-).
Látr XIII (2). XVIII (Hval-, Sel-, »alm. Látr« AM).
Hólmlátr X (Hólms- L; Holátr AM).
Hvallátr XII (2).
Saurlátr XII.
Sellátr XII.
Sellátrar XXI.
Leira XIII.
Leirur IV.
Kollaleira XXI.
Leppar V.
Lukka X.
Merki XX.
Nabbi V.
Nollr XVIII.
Nöf XVI. XVIII. Flt. Nafar(?) XX (Olav.).
Pjatla X.
Pottr IV.
Pula IV (stóra — litla).
Pumpa X.
Rauf V (e. Þorkelshús). XVIII.
Ríp XVI (2; Rípr AM, J).
Rofin II.
Rógr XVI.
Rómr (e. Haugabrekkukot) X.
Rot (Rotin) IV (efri — syðri).
Rönd XIX.
Sakka XVII.
Sarpr VII.
Seigla X.
Seyla XVI (stóra — litla).
Skans VI.
Skerpill XV (Olavius).
Skipar (svo AM, J) V.
Skjálg IX.
Skor XII.
Skrúði XII.
Skúfr XV (efri — neðri).
Skutta (e. Eyjarkot) V.
Slapp V.
Sleif IV.
Slýjar II.
Sneis XV.
Snoppa (og litla S.) X.
Snotra IV (2).
Snússa V. VI.
Snútr V (DI I).
Sogn V. VI (e. Sofn AM).
Speni XV (»fyrr eftir munnmælum Hvammr« AM).
Sperðill IV.
Spjör X.
Spækill IV.
Stakkar XII.
Stampr IV.
Steði VII. XVII.
Stéttar V.
Stífla IV.
Stikill V.
Strangla (e. Straglastaðir) VI.
Streiti XXI.
Strilla V (2).
Strjúgr (= Strúgsstaðir) XV.
Strútr V.
Strympa IV. V.
Stuðlar XXI (2).
Stöng XVIII.
Stöpull XVI.
Sudda VII (e. Hallvarðstaðir AM).
Sultir (Sultur J) XIX.
Staðarsult XIX.
Svangi VII (ytri — eystri).

Sviðnur XII.
Svæði XVIII (e. Særisvellir, Snærisvellir, alm. S. AM).
Sæla (»Svæla, kallast af sumum S.« AM) XVII.
Sæld IV.
Tumsa XVIII.
Töður XI (L).
Töpp V.
Urðir XII (Laxd.). XVII.
Vaglir XV (2). XVI (-ar) AM). XVII (2). XVIII.
Valva XVII (Olavius).
Varir VI.
Vigr XIII.
Villa V.
Virki X.
Víti VII (efra — neðra; 2 önnur n.). X. XV. XVI (2; [1]) = Jaðar).
Voli V (Vola AM).
Yrjar (-ur AM) IV.
Þrot XXI (Austf.).
Þyrill VII.

*Auðnar*: þetta er víst karlkyns-fleirtöluorð, en við hliðina á þessari mynd finnast bæði *Auðnir* og *Auðnur*; í DI finst nefnifall örsjaldan (DI IV og tvisvar í DI VI). — *Bár*: er það tekið eftir »Bár« (ɔ: Bari) á Ítalíu? — *Bjalli*: J hefur *Bjalla* og *Bjallinn* sem v.l.; vantar í AM. — *Bóla*: = Bólstaðagerði (sbr. Bólu-Hjálmar) og stytt úr því. — *Bryti*: stytt úr »Brytjastaðir«, sem finst í DI IV. — *Butra*: nafnið er á öðrum bænum í IV stytt úr »Butraldastaðir«, sem stendur í DI II. III. IV. — *Dálkr*: eftir DI IV s. 28 er þetta nafn rángt f. »Dalbær«. — *Dúnkur*: stytt úr Dungaðarstaðir; ef til vill er »Dúnk« kvennkynsorð (AM), þá skilst »Dúnkur« sem eignarfall. — *Erfið*: er lýsingaro. í kvennkyni (ɔ: jörð). — *Eyma*: af aumur? — *Flassi*: mjer er ekki ljóst hvað nafnið merkir [*Gambra* sem J hefur eftir AM, bls. 22 er rángt, því að AM hefur hjer nafnið *Gambranes*]. — *Gaul*: ár- eða lækjar-nafn? — *Glóra*: svo er nafnið rjett ritað (ekki með *o*); AM ritar »Glöra« (V), »Gloora« (IV), »Glöra«, (VI). — *Grilla*: nefnir J einn (bls. 57) eftir Jarðabók 1803; er það danska orðið »Grille«? — *Grindill*: svo heitir bærinn í Landn. og er það rjett; en það afbakaðist; oftast var sagt »á Grindli«, þetta varð að »Grilli« (eðlilega), og svo stendur í DI V; út úr þessu var svo aftur búið til í nefnifalli »Grillir« (AM) og þolfall »Grilli« (DI IV. V); ætli nafnið eigi ekki skylt við »Grendel« í fornenska kvæðinu Beówulf (Bjólfur)?. — *Grillir*: er víst eins tilkomið og rángt f. Grindill (aðeins í AM). — *Hestur*: eftir felli með hestsmynd. — *Hnaukar*: merkir »hóla«. — *Hnjótur*: eldri mynd *Knjótur* (DI V); orðið merkir »hól«

(Bj. Hald.: colliculus). — *Hof*: merkir alstaðar »bæ, þar sem hof var« í heiðni. — *Hrifla*: stytt nafn (»Hrifla« var mn.). —*Hvappur*: merkir lítinn dal eða dæld (hvamm?); Bj. Hald. hefur »hvapp« hvorugkyns: lacuna, vallicula. — *Hvarf*: merkir stað, sem er bakvið eitthvað gnæfandi eða framstandandi, sem hylur hann. — *Hvesta*: merking orðsins er óviss. — *Jata*: *Eta* í DI IV, en *Jeta* (= AM) í DI II, sem er blendingsmynd. — *Kleppur*: merkir hnúð, hnúðmyndaða hæð (klett?). — *Kljá*: þetta orð er svo ritað i jarðabókum (kvennkyns nú?), en er vafalaust ekki annað en þolfall flt. af »klé« = kljásteinn; það orð var í flt. *kléar* (sem varð *kljár*), og svo er nafnið ritað í DI III. — *Kló(n)*: er ekki annað en »kló« + in (greinirinn), »Klóin«. — *Klúka*: merkir hlaða eða stabba (cumulus minor, Bj. Hald.; »partur af einhverju stærra; (hey)kleggi«, Sighv. Grímsson i brjefi). — *Klömbr*: orðið er haft i eint. og flt. og beygðist *klömb(u)r*, *klambrar*; *Klambrir* (sem auðvitað gat orðið *klömbrur*); bærinn í XV hjet og heitir »Klömb(u)r« i eint. (sjá DI III. V. VII, hjer »hálf K.«); sá í XVIII líka, sbr. »Klambrar land« i DI III; um K. i IV er óvissara; DI II hefur »Klambrar land« = AM, en DI III »Klambra«-, líklega rangt. (*Klambra* stendur á nýjasta uppdrættinum). »Klömbr« merkir víst fleygmyndað vik inn í eitthvað, er endast á skörpu horni þar sem tvær hliðar mætast (eins og tveir armar þríhyrnings). Hvort landslagið, þar sem bæjirnir standa, hefur líkingu við klömbur og nafnið dregið þar af, veit jeg ekki. Eftir B. Hald. ætti orðið að þýða grýtt eða hamrafult land (»saxetum invium«). — *Koltur*: kúpt (klett)hæð? — *Kurfur*: merkir litið afskorið stykki. — *Látur*: merkir aðallega dvalarstað sela við strönd; orðið er samstofna við »að liggja« og merkir því »legu eða legustað«. — *Sellátrar*: sbr. »Selalátra land« í XX DI IV. V. — *Lukka*: ef nafnið er rjett, er það allúngt, þó er það i AM. — *Nabbi*: merkir víst litla hæð. — *Nollur*: eldra var *Gnollr*, i DI II, en N. í DI V. Orðið merkir líklega »litla hæð«. — *Pula*: merkir erfiði og mæðu. — *Ríp*: er rjetta nafnið (og ævinlega er sagt »Rípur-hreppur«), þó hefur AM og J »Rípur« sem karlkyns; i DI finst aðeins »Ríp«. — *Rógur*: i J stendur »Ró« (sem þolfall) f. »Róg«. — *Seyla*: merkir mýrlent land (likt og »Saurar«; (= norsk »söyla« = söle, dynd, mudder). — *Skans*: auðvitað danska orðið, = virki (úngt). — *Skjálg*: árheiti? —

*Slapp*: svo AM, »Slap (Slápur«) J, en valla rjett. — *Slýjar*: flt. af *slý* (eins og »Lyngar« og þess konar nöfn). — *Sneis*: merkir »trjepinna«. — *Snútur*: s. s. »snude« á dönsku? þekkist nú ekki, og er hvorki í AM nje J. — *Spækill*: trjepinni?, sbr. »spækja« í Bj. Hald. »ramentum ligni«. — *Strangla*: stytt úr nafninu (f. *Stragla*?). — *Streiti*: er rjetta myndin (ekki »Stræti«). — *Strjúgur*: stytt úr nafninu. — *Strilla*: rjettara *Strylla*, strýta eða kúptur bali? (sbr. norska orðið »strolle« í Ross?). — *Sultir*: ef til vill s. s. *sult* (»Sylte«) í Noregi (sjá Rygh), er merkir tjörn eða foræði. — *Tumsa*: dregið af mn. »Tumás (Tumi)«? — *Töpp*: eða »Topp«?, líklegast þó hið fyrra. — *Vaglir*, *Vaglar*: nefnifall kemur sjaldan fyrir; þolfall finst bæði »Vaglir« (DI V) og er þá kvennkyns, og »Vagli« og þá karlkyns DI V, sst. finst og »Vagla«; það er því blendíngur með tilliti til kyns og myndar; orðið merkir lítinn bjálka eða stoð ofan á bita í húsi. — *Varir*: af *Vör* = lendíng. — *Vigr*: eig. s. s. spjót, svo nefnist eyjin af löguninni. — *Víti*: háðsnafn. — *Voli*: *Vola* er líklegra til að vera rjett, og er þá rýrnunarnafn. — *Yrjar*: ef til vill heitið eftir »Yrjum« í Noregi, en þess þarf ekki með; orðið er náskylt »aur« og merkir sendið land.

## VII.

Í AM eru taldar verbúðir og fiskimannahús og tómthús í plássunum og smákaupstöðum. Jeg set hjer skrá yfir alt þetta, af því að það hefur ekki svo litla þýðíngu þótt ekki sje svo mjög beinlínis fyrir nafna-talið og nafnmyndan sem fyrir ýmislegt annað. Þessi nöfn skulu hjer talin eftir staðaskipun.

Í Vestmanneyjasýslu eru þessi:

Húsmannahús: Garðhús — Garðhúsahóll — Hólshús — Elínarhús — Rúnkahús — Kokkhús — Hóll — Fagrihóll — Sandhóll — Bylta (Pokra) — Þorgerðarhjallr — Brattahús (2) — Rass — Björnshús — Ljótunarhús (Magnúsarhús) — Pumfeiarhús (e. Bumbuhús e. Ása-) — Tumásarhús — Dularahús — Kelasonarhús — Finnshús — Langi (e. Hnakkr e. Bakrángr) — Birguhús — Erlendshús — Gróuhús — Gata — Torfahús —

Baggahús — Ingimundarhús — Cláusarhús — Símonarhús — Ormshús (bær) — Solveigarhús (bær; hin 4 síðustu í eyði) — Miðbær — Smalabær (í eyði) — Heiðarhús — Litlagerði.

Í Árnessýslu:

Á eftir 132: Garður (í Stokkseyrarhreppi): Gottskálkshús (Ormshús) — Vatakot — Skúmstaða heygarðr — Jónshús — Philippushús — Magnúsarhús — Friderikshús — Lauguhús — Höllskuhús — Ketilshús — Pálshús — Þorsteinshús.

Í Gullbringusýslu:

Á eftir 173, Setberg, í Álftaneshreppi: Digranessbúð — Hólmsbúð — Þingvallnabúð — Illugabúð (e. Langeyrarbúð) — Ofanmannabúð — Laugardælabúð — Óskarbúð. — Á eftir 186, Ráðagerði: Garðabúð. — Á eftir 193, Hlið: Egilsbúð — Bjarnabúð (e. Sand-). — Á eftir 224, Nes (við Seltjörn): (verbúðir): Stórabúð — Morastaðabúð — Hannesarbúð.

Í Borgarfjarðarsýslu:

Á eftir 37, Tángi: Hretbyggja sjóbúð. — Á eftir 64, Sýrupartr efri: Bræðrabúð — Brinkahús (-búð) — Kallakindarhús. — Á eftir 65, Sýrupartr neðri: Gunnarshús — Hannesarhús. — Á eftir 66, Bræðrapartr: Kappabúð — Sæmundarbúð — Bjarnabúð — Stórabúð — Guðmundarhús — Borgarbúð — Þórólfshús — Breiðarbúð. — Á eftir 67, Lambhús: Lambhúsabúð — Leirárbúð — Steinsbúð. — Á eftir 69, Miðteigur: Krosshús — Grímsbúð — Draghálsbúð — Eyjólfsbúð — Naustabúð.

Í Mýra- og Hnappadalssýslu:

Á eftir 184, Seljar: Fallandabúð. — Á eftir 183, Lambhústún: Mángabúð — Borgubúð (e. Naustabúð) — Víkurtúnsbúð. — Á eftir 190, Vogur: Vogsbúð. — Á eftir 192, Ísleifsstaðir: Fúsabúð — Tröppubúð.

Í Snæfellsnessýslu:

Á eftir 50, Búðir: Þórarinsbúð — Pjetrsbúð — Snæbjarnarbúð — Ögmundarbúð — Valdísarbúð (e. Pjetrs-) — Sverrirsbúð (e. Hrónýjar-) — Jörundarbúð (e. Bjarna-) — Oddshjallr. — Á eftir 63, Bentsbær: Fjósbúð — Ólufarkofi (e. Odds-) — Brandsbúð (e. Guðrúnar-) — Teitsbúð (e. Jóns-) — Börguhjallur — Fremribúðir — Hnararbúð — Vatsholtsbúð — Volkukofi (e. Helgu-). — Á eftir 7, Kirkjuhóll: Háabúð — Þórarinsbúð. — Á eftir 11—12, Syðri Tunga — Glaumbær: Tungubúð, Imbukofi. — Á eftir 81, Grímstaðir: Látra-

búð. — Á eftir 83, Arnarstapi: Andrjesarbúð — Bárðarbúð (= 85) — Jóns Bergþórssonar búð — Brynhildarbúð (e. Grímse. Olgeirs-) — Einarsbúð (e. Ingimundar-) — Jóns Narfasonarbúð (e. Ólafsbúð) — Tumásarbúð — Einarsbúð — Hólsbúð — Marteinsbúð — Gislabúð — Eyvindarhús (e. Helgabúð) — Pálshús — Þorsteinsbúð (e. Oddsbúð) — Narfahús — Varðahús (e. Kelahús) — Ormsbúð (e. Eyrarbúð) — Kambsbúð — Böðvarsbúð (e. Fjósbúð) — Tyrkjabúð — Bóndabúð — Lækjarbúð — Oddsbúð (e. Dustulsbúð) — Beggusonarbúð (e. Beggutótt) — Bjarnabúð (e. Magnúsar-). — Á eftir 106, Garðsbúð: Lækjarbúð — Bjargarbúð — Marteinsbúð (e. Ásmundar- e. Siggu-, Nýja Øxnakelda) — Bjarnabúð — Bingur (e. Þorsteinsbúð). — Á eftir 102, Arabúð: Haldórsbúð — Hellisbúð. — Á eftir 104, Þrengslabúð: Katrínarkofi. — Á eftir 98, Brekkubær: Bessabúð — Valdabúð (e. Nýjabúð) — Guðnýjarhús — Smiðja — Kóngsbúð — Gróubúð — Oddsbúð — Nikulásarhús — Guðrúnarhús — Þormóðsbúð — Jónshús — Oddsbúð — Moldarhola — Pjetrsbúð. — Á eftir 95, Gislabær: Ingileifarbúð. — Á eftir 94, Melabúð: Lágabúð — Háigarðr — Steinunnarhús — Lambhús. — Á eftir 108, Holt: Sæmundarbúð (e. Nikulásarhús) — Lögmannshús — Magnúsarbúð — Björnsbúð — Gróulág (2; [1]) e. Þórubúð) — Oddsbúð — Skaptahús — Snorra Hjálmssonar búð. — Á eftir 111, Malarrif: Tjarnarhús — Þórðarbúð — Ólafsbúð. — Á eftir 112, Einarslón: Tjarnarbúð — Dalbúð — Bakkabúð — Smiðja — Formannshús (e. Haldórshús) — Valdabúð — Ámundabúð — Hrómundarbúð — Egilsbúð — Ívarsbúð — Bjarnahús. — Á eftir 116, Hólahólar: Fríðubúð — Hólahús — Ákabúð — Jónshús — Sveinsbúð — Haugur (e. Pálsbúð) — Þorsteinsbúð — Snorrabúð (e. Siggubúð) — Tumásarhús. — Á eftir 122, Helludalur (»pláss inn í Bervík«): Arnbjarnarbúð — Helluhús — Haugbúð. — Á eftir 118, Garðar: Tjarnarbúð — Traðarbúð — Guðmundarbúð — Jörundarbúð — Hólmabúð — Hellubúð — Snorrabúð — Stórabúð — Stefánartótt — Jóns Narfasonar búð. — Á eftir 123, Öndverðarnes: Gvendarbúð — Hjallabúð — Henriksbúð — Jóns Finnbogasonar búð — Skógsbúð — Molla — Jóns Tumássonar búð. — Á eftir 125, Gufuskálir: Bakkabúð — Ólafsbúð — Illugahús (e. Þorleifsbúð) — Imbuhús — Skarðsbúð — Gunnarsbúð — Þorvaldsbúð — Steindórsbúð — Gvendarbúð — Bjarnabúð — Narfabúð —

Árnabúð — Helgabúð — Starrabúð (e. Pjetrsbúð) — Jóns Bjarnasonar búð — Mávahlíðarbúð — Sæmundarbúð — Rósubúð (e. Grímsbúð) — Jónsbúð — Snorrabúð — Ingimundarbúð — Haldórsbúð — Brandsbúð (e. Ólafsbúð) — Salamonsbúð (e. Gissursbúð) — Jóns Tómassonar búð — Gísla Jónssonar búð — Tumásarbúð — Þorbjarnarbúð — Kjalvegsbúð — Snæbjarnarhús — Ketilsbúð — Hróbjartsbúð (e. Jónsbúð) (»alt þetta [frá Bakkabúð] heitir Á brekkum«) — Ólafsbúð — Dumpubúð — Böðvarsbúð — Loptsbúð — Salabúð — Vermundarkofi — Hraunbúð — Gunnhildarkofi — Guðnýjarkofi — Litla Hraunbúð (e. Gramskofi e. Gramsbúð) — Jónsbúð — Steinólfsbúð — Kallabúð — Viggukofi — Lágubúðir tvær — Grímsbúð — Katrínarbúð — Fossbúð — Brandsbúð — Hólsbúðir fjórar — Bergþórsbúð — Eyvindarbúð — Helgukofi — Jasonarhús — Kreppur þrjár — Brandabúð — Jóns Arasonar búð — Oddsbúð — Einarsbúð — Teinæringsbúðir tvær — 133, Klettabúð í J = Klettsbúð AM. — Á eftir 135, Ásgrímsbúð: Haugbúð — Langhryggir — Brenna — Dyngjur tvær — Narfahús — Erlendshús. — Á eftir 130, Keflavík: Fýla — Kristjánsbúð — Eggertsbúð — Snorrabúð — Meinströng — Ólafsbúð — Brynjólfsbúð — Melabúð — Litla og Stóra Fjósbúð — Naustabúð — Sokkinpytta — Smalabúð — Jóns Steindórssonar búð — Norðrsetur þrjár — Auðunarhús. — Á eftir 137, Þrándarstaðir: Neðra Virki (sbr. 142) — Bakkabúð — Oddsbúð (e. Vigfúss-) — Ögmundarbúð (e. Gustsbúð — Pustsbúð — Jón tuttugu í hlut) — Auðunarbúð — Kráksbúð (e. Oddabúð) — Skræksbúð — Jóns Sigmundssonar búð (e. Magnúsarbúð) — Jóns Krákssonar búð — Sigurðar Rígarðssonar búð — Gominsbúð (e. Jóns galins búð) — Jóns Bjarnasonar búð — Jóns Jónssonar búð — Símonarbúð (e. Teitsbúð) — Jóns Jakobss. búð (e. Brandsbúð) — Jóns Þorvarðssonar búð — Hafliða Hannessonar búð — Jóns Auðunssonar búð — Jóns langs búð — Halta Tobba búð — Magnúsar postula búð — Þórðar bófa búð — Jóns beinróulangs búð — Þórarinsbúð — Þorsteins rorra búð (e. Þorsteinn huppur e. bási e. gryn — mörg viðurnefni!) — Strýtubúð — Ara Helgasonar búð — Jóns Dans búð — Frederich Frísbúð — Stefáns búð — Þorgeirsbúð (e. Kollugeirabúð) — Einars grauts búð — Jóns bróðers búð — Jóns Haldórssonar búð — Solveigarbúð — Einars Pjetrssonar búð — Fúsa Steingrímssonar búð — Ólafs

kvennskellers búð — Þórarinsbúð — Þorsteinsbúð — Atkabúð (ɔ: Athanasíus-) — Ólöfarbúð — Háldánarbúð — Haldórs Auðunarsonar búð — Gísla Guðmundssonar búð — Siggu Torfadóttur búð — Neðra Virki (sbr. 142) — Jóns Sigmundssonar búð — Sigurðarbúð — Gríms Arasonar búð — Sigurðarhús — Valgerðarbúð — Pálsbúð — Efra Virki — Ögmundarhús — Tröð. — Á eftir 149, Sveinstaðakot: Kampsbúð (á Kampi) — Oddabúð. — Á eftir 151, Ólafsvík: Þorkelsbúð — Styrsbúð — Laugabúð — Stefánarkot — Pálsbúð — Ásbjarnarhús — Þorláksbúð — Pálsbúð — Andrjesarbúð — Melabúð — Guttormsbúð — Ólafsbúð — Jóns Sturlusonar búð — Þórðarbúð — Kelabúð — Birgisbúð — Haldórssonarbúð — Bakkabúð — Geirabúð (e. Rögnvalds-). — Á eftir 167, Brimilsvellir: Sigurðar Ólafssonar búð — Árnabúð — Melabúð — Gvendarbúð. »Eyðibúðir«: Holtabúð — Niculásarbúð — Sigurðarbúð — Hallsbúð (e. Ingu-) — Hjallabúð — Gvendarbúð — Sigurðarhús — Þorgilsbúð — Sigurðarbúð — Bjarnabúð — Solveigarbúð — Bakkabúð — Kolbjarnarbúð — Tjarnarbúð — Barkabúð — Gvendarbúð — Melabúð — Þorbjarnartóttir — Gata — Mýrabúð — Bjarnabúð — Ólafsbúð — Bjarnabúð — Björnsbúð — Skemma. — Á eftir 181, Hrísakot: Klettr — Hólbúð — Klettsbúð. — Á eftir 227, Hallbjarnareyri: Eyraroddi. — Á eftir 228, Naust: Fornu Naust — Stóru Naust — Þórðarbúð — Lánlausutóttir — Skallabúðir — Bakkar — Sigurðarbúð — Gvöndarbúð — Jóns Pjetrssonar búð — Loftsbúð — Helgabúð. — Á eftir 225, Móabúð: Móabúð innri — Laugabúð — Flóabúð — Jónsbúð — Bakkabúð — Thómásarbúð. — Á eftir 220, Þórdísarstaðir: Katrínarbúð — Dimma — Gvöndarbæli — Jónsbúð. — Á eftir 217, Bár: Brekkubúð — Móabúð. — Á eftir 288, Höskuldsey: Skoreyjabúð — Nessbúð — Fjósabúð — Norðrseta — Skötubúð — Strönd — Litladæla — Stóradæla — Brunnbúð — Bjarnarhafnarbúð — Bakbúð — Steinhús — Skemma (e. Norðrseta) — Bárðarbúð.

Í Strandasýslu:

Á eftir 9, Gjögr: Þórðarbúð — Andrjesarbúð — búð síra Bjarna — búð Einars Magnússonar — búð Einars Pálssonar — Sigurðarbúð — Björnsbúð — Jónsbúð. — Á eftir 51, Kaldbak: (verstaða) Skreflur — Björnsbúð — Jónsbúð — Oddsbúð — Sauratún.

Í Ísafjarðarsýslu:

Á eftir 153, Arnardalur: (verstaða) Skatnanes — Arnarnes — Bjarnareyri — Hafnir.

Í Barðastrandarsýslu:

Á eftir 175, Sellátr: (verstaða) Traðarvík — Hvalvík — Arnarstapavík. — Á eftir 176, Arnarstapi: Á Klett. — Á eftir 178, Selárdalr: (verstöð) Yztidalr — Miðdalr — Sandvík.

Enn eru allar »hjáleigur«, sem ekkert sjerstakt nafn hafa en eru kendar við bæjina sjálfa (Sels hjáleiga t. d.) eða nefndar eftir legu (Vestrhjáleiga osfrv.) eða eftir hvorutveggju. Það er tilgángslaust að telja þær hjer.

Í ferðabók Ó. Ólafssonar (Olavius) eru nefndir allmargir óbyggðir bæjir eða eyðibæjir og kot í þeim sýslum, er hann lýsir. Flest af þessum nöfnum eru og í AM. Þau eru mörg afbökuð í útgáfunni og þar að auki dönskuð svo að ekki er ævinlega víst, hver íslenska myndin er. Hjer að framan eru nokkur sett inn. Merkust eru þessi bæjatöl fyrir Múlasýslurnar, þar sem hjer er skarð fyrir skildi í AM. Hjer skulu því talin þau nöfn, er ekki standa í J: Gerði (hjáleiga frá Djúpalæk, nr. 9), Móbel-staðir (ɔ: Mábil?; hjál. frá Höfn, nr. 18), Skálafjara, Grísarholt; — »Skör«, Kleif, Þuríðarstaðir, Nýjustaðir, Toppvellir, Valstaðir, Steinn, Línbær, Valdísarstaðir, Barkarstaðir, Hvammsgerði, Fossgerði, Svælegerði (ɔ: Svælu-), Refshólar (hjál. frá Refstöðum, nr. 64), Þýfi (hjál. frá Böðvarsdal, nr. 73), Gerðisholt (= Gerði í J við nr. 63), Krumsholt (hjál. frá Krossavík, nr. 69), Stebbagerði (hjál. frá Torfastöðum, nr. 103), Hliðarhús (hjál. frá Fögruhlið, nr. 104), Krakastaðir, Brennistaðir, Járngerðarstaðir (hjál. frá Hrafnabjörgum, nr. 112), Svarthamrasel, Melasel, Vífilstaðasel, Bótarsel, Galtastaðasel, Fagriflötur, Þorsteinsgerði (hjál. frá Kirkjubæ, nr. 95), Fornustaðir, Fossstekkur, Helgastaðir, Barmasel (í Húsey), Rimasel (sst.), Hrólfsstaðir, Undir fjalli (hjál. frá Hofteigi, nr. 116), Valdísarstaðir, Orastaðir e. Orrustustaðir (hjál. frá Eiríkstöðum, nr. 121), Garðar (»fyrir ofan Reyká«), Hólar (tvennir), Hringbotn, Blómsturvellir (hjál. frá Hnefilsdal, nr. 126), Hólgerði, Leikskálar (»í Hrafnkelsdal«, tvennir), Ásgerði, Hlíðarhús (s. s. Hliðarsel, víð 147), Miðhúsasel (við nr. 144), Valgerðarstaðir, Kálfskinnsgerði, Þorleifargerði, Svartranasel (hjál. frá Ormarstöðum, nr. 147), Geithús (s. s. Geitagerði?), Skógargerði, Miðbær (hjál. frá Valþjófsstöðum, nr. 167), Eyr-

arsel, Dvergabæli, Ófærusel, Hamarsel, Stöppusel, Fell, Urðarsel (hjál. frá nr. 155), Fornasel, Hátún (í Tunghagalandi), Ketilstaðagerði (hjál. frá Ketilstöðum, Suðr M. nr. 29), Oddagerði (sst.), Berg (hjál. frá Egilsstöðum, sst. nr. 24), Glúmstaðir (í Eiðahr.), Uxagerði, Núpsgerði, Flatagerði, Dalshús (alt í Eiða hr.), Hurðarbak (hjál. frá Hreimstöðum, nr. 180), Guðrúnarstaðir, Hrúgustaðir, Hrafnkelsstaðir, Arasel (hjál. frá »Gagnstöðum«, nr. 197), Grænmór (í Hóls landi, nr. 198), Skálanes, Kollugerði, Gunnhildarsel, Gerði, Sel í Norðurdal, Hólstaðir (= Kolstaðir við Selstaði, nr. 254), Grænutóttir, Garðar, Kothús (hjál. frá Firði, nr. 249), Borg (á Dalatánga), Nafar, — (Suðr Múlas.), Götutættur (hjál. frá Skorrastað, nr. 93), Efstagerði og Miðgerði (sömul.), Ásmundarstaðir (hjál. frá Hólum, nr. 100), Loptsgerði (hjál. frá Skálateig, nr. 97), Gjögur (í Neslandi), Márstaðir (í Viðfirði), Þorljótstaðir, Fífustaðir, Garðar (hjál. frá Stóru Breiðuvík, nr. 121), Bakki (hjál. frá Eskifirði), Refstaðir, Einarsgil, Grenjaðarstaðir, Þorkelssel, Pisjubakki (e. -ar; svo í J).

Á þessum nöfnum er ekki sjerlega mikið að græða í viðbót við það sem áður er skráð. Þó er sumt ekki ómarkvert. Stöku nöfnum hef jeg skipað á sinn stað. Mart af þeim »seljum«, sem Ólavíus telur, eru ef til vill alls ekki byggð ból.

---

Eins og af mörgum nöfnum má sjá hjer að framan hafa bæjir skifst (eða tveir bæjir frá öndverðu verið) og hafa báðir sama nafn; verður þá að greina þá hvorn frá öðrum með einhverju, og er það gert einkum með því að tiltaka afstöðu þeirra hvors við annan, með orðunum »efri — neðri«, »eystri (austari) — vestari«, »nyrðri — syðri«, eða »austur- — vestur«, »norður- — suður-«; en oft eru »mótsetningarnar« dálítið öðruvísi orðaðar, t. d. »eystri — ytri (= vestari)«, svo á suðurlandi, »syðri — ytri« (= nyrðri)« á norðurlandi, þar sem firðir liggja í suður og norður; þó er auðvitað mótsetníngin »ytri — innri« líka tið. — Alkunnur er munurinn á »fremri« á norðurlandi og annarstaðar; þar merkir »fremri« inn á við til fjalla (»framm til fjalla«), en annarstaðar út til sævar.

Afbakanir nafnanna gæti gefið tilefni til ýmsra áthugana, en þær eru þegar að mestu leyti skýrðar. Þær stafa frá styttíngum (sjá einkum síðasta flokkinn) eða frá »latmælum« (*r* í

eignarfalli slept, *s* stundum líka, sem þó er undarlegra, en það er vafalaust svo; svo er og *a* mjög oft slept, einkum á undan *h*). Það sjest og á sínum stöðum, hvernig fleirtölumyndir geta breyst (*-ir*, *-ur*) og hvernig kynið getur líka breyst (kvennkyn — karlkyn).

Þess skal að lyktum getið, að þar sem í þessari ritgjörð er »stór — litli« og því um líkt sett á eftir nafninu, er það í daglegu tali vanalegast haft á undan því.

---

## Leiðrjettíngar og viðaukar.

Við *heim*-nöfnin (á bls. 420) má bæta við *Uppheimar* í XVI (sem Olavius hefur).

Fyrir *Sútarabúðir* (á bls. 428) sýnist Olavius að hafa »Svartabúðir«, en nafnið er víst ekki fulláreiðanlegt.

Við *staðir*-nöfnin má bæta (frá Olavius) *Brúnklukkustaðir* í XVI, *Geirhildarstaðir* í XVII. — *Skröflustaði* (á bls. 434) kallar Olavíus *Skriflu*- og má vera það sje rjettara. — *Draflastaði* (bls. 430) nefnir Olavius og í XV. — *Brak*- (bls. 436) skrifar Ol. *Brack*-.

Við *gerði*-nöfnin má bæta (frá Olavius): *Kárагerði*, *Steinstaðag.*, *Skyrg.* — öll í XVII. Sömuleiðis *Lambhúsgerði* í VI.

Þar sem jeg á bls. 464 ber »hegurð« saman við »fegurð«, á það aðeins við hina ytri mynd nú.

Á bls. 468 les: *Patrons*- í 14. l. og eins neðar á síðunni, fyrir *Patrans*-.

*Ássel* (bls. 476) hefur Olavius og í XV.

*Jökulkelda* (bls. 509 l. 8 tvisvar) les: *Jökla*- (svo Fóstbr. og DI V; *Jökuls*- hefur Flateyjarb.; en »*Jökulkelduskógur*« finst í DI IV).

Það sem stendur á bls. 529 um merkíngu orðsins *bjalla* fellur niður. Próf. Þ. Thóroddsen hefur skýrt mjer frá, að orðið merki kúpta hæð (fell).

Bls. $522_9$ a. n. les Dæli. — Bls. 532 falli »Saurhóll XI« úr.

*Ostvaðs*- (bls. 552. 554), er það og afbakað úr *Odds*-, eins og *Osthvammr* úr *Odds*- (bls. 525)?

Skammstafanir: v.l. merkir »afbrigði« (afbrigðismynd), líka kallað »eða-mynd«; v. = vantar; e. = eða; L = Landnáma. Svigatölur, t. d. »V (2)«, merkja að bæjarnafnið, sem á undan stendur, komi svo og svo oft fyrir (í sömu sýslu); þegar svo þar á eftir stendur: »[1])« eða »[1]) . . . [2])«, merkir það, að »einn« af þeim sje nefndur það eða það, eða »annar«.

Að lyktum skal þess getið, að jeg hef af ásettu ráði haft fornlegri rithátt á sjálfum nöfnunum (í nafnatölunum) en í hinu.

---

Jeg þakka hjermeð öllum þeim, sem hafa látið mjer í tje ýmsar upplýsingar um nöfn og nútíðarframburð þeirra. Feginn vil jeg eiga menn að með skýrslur um framburð nafna ósvikinn, ófegraðan og ólagfærðan, eftirleiðis.

---

## Flokkatal.



---

# FERÐIR, SIGLINGAR OG SAMGÖNGUR

## milli Íslands og annara landa á dögum þjóðveldisins,

eptir Boga Th. Melsteð.

---

## Inngangur.

### I.

Víkingaöldin (um 800—1030 eða 1050) hafði samskonar þýðingu fyrir Norðurlönd sem þjóðflutningaöldin (um 400 og fram á 8. öld) hafði fyrir miðhluta og vesturhluta Evrópu. Nýjar þjóðir komu þá fram á leikvöll sögunnar. Hið forna vestlæga rómverska keisaraveldi leið undir lok og á rústum þess risu upp ný ríki; sum þeirra fengu hina mestu þýðingu á miðöldunum, því að þau hjeldu uppi kristninni og hinu merkilega mentalífi, sem var henni samfara. Í hinum vestlægu löndum var einnig lögð undirstaðan undir alla þjóðfjelagsskipun nýju aldarinnar og nútíðarinnar.

Hinar norrænu þjóðir, sem enn byggja Danmörku, Svíþjóð og Noreg, komu til sögunnar á víkingaöldinni. Í lok 8. aldar tóku Danir og Norðmenn að fara herferðir vestur um haf, en Svíar að sveima um Eystrasalt. Um það leyti sem Ísland var albygt höfðu Norðurlandabúar stofnað nýlendur og ríki bæði fyrir vestan haf og austan, á Skotlandi og í Skotlandseyjum, á Írlandi, Englandi og Frakklandi og austur á Rússlandi.

Norðmenn höfðu þá lagt Hjaltland og Orkneyjar undir sig, náð yfirráðum á Katanesi og víðar á Skotlandi norðanverðu. Sumir þeirra höfðu setst í Suðureyjar. Á Írlandi

áttu þeir riki bæði i Dyflinni og Veðrafirði (Waterford) og í Hlymreki (Limerick).

Í Mön, eyjunni i sundinu milli Írlands og Englands, höfðu Norðmenn einnig náð fótfestu og yfirráðum.

Á Englandi höfðu Danir sett allmikið riki á stofn. Þeir rjeðu þar yfir Norðymbralandi og Austurangel, eða því nær öllum austurhelming landsins norður frá Temsarósum og Vætlingastræti; það lá frá Lundúnum til Chester á vesturströnd Englands, rjett fyrir norðan Wales. Riki þetta var nefnt einu nafni Danalög og sóttu þangað einnig margir Norðmenn og Svíar. Eitt sinn átti Eiríkur blóðöx þar riki að ráða, en áður en hann kom til sögunnar, höfðu Danir orðið að viðurkenna yfirráð Englakonungs yfir Danalögum.

Á Frakklandi höfðu norrænir víkingar snemma setst að í eyju einni i Leiruósum *(Loire)*, er Noirmoutiers heitir, og rænt þar öllu og ruplað. Þeir fóru þaðan með ránum víða um kring. Flestir þessir víkingar voru norskir og höfðu þeir komið af Írlandi. Aptur á móti fóru danskir víkingar hvað eptir annað með miklu liði upp eptir Signu *(Seine)* og herjuðu þar landið. Að lokum unnu víkingarnir þar allmikið land i kring um Signu; var það eigi minna en fjórði hlutinn af öllu Íslandi, og varð Karl einfaldi Frakkakonungur að láta foringja þeirra, Rollo eða Hrólf, fá land þetta að ljeni (911). Það var siðan kent við víkingana og kallað Normandi, því að þeir voru á þeim tímum nefndir einu nafni »Normanni«, hvort sem þeir voru danskir, norskir eða sænskir. Rúðuborg *(Rouen)* var höfuðborg í Normandí og aðsetursstaður jarlanna eða hertoganna.

Við Rinárósa, þar sem Lek fellur úr Rín, var hinn auðugi verslunarbær Durstad eða Dorestad (nú Wijk bij Duurstede). Þangað komu kaupmenn úr öllum áttum og eigi síst af Norðurlöndum, enda voru viðskipti Dana og Frisa afargömul.

Í »austurveg« fór einnig fjöldi manna af Norðurlöndum, einkum Svíar, en svo var það nefnt i fornöld, er menn sigldu austur um Eystrasalt til Rússlands og annara landa við Eystrasalt. Svíar höfðu tekið sjer bólfestu á suður- og suðvesturströnd Finnlands löngu áður en sögur hefjast á Norðurlöndum. Þaðan fóru þeir til Rússlands. Undir forustu Ru-

riks (Hrærekr) og tveggja bræðra hans, sem nefndir eru Sineus (Signiútr) og Truvor (Þorvarðr), settu þeir þar Garðaríki á stofn um það leyti sem þeir Naddoður og Garðar fundu Ísland. Hólmgarður (Novgorod), við Volchov-fljót skamt fyrir norðan Ilmen-vatn, var þar höfuðborg.

Þótt Svíar færu mest í austurveg og Danir og Norðmenn einkum í vesturvíking, var hverri þjóð þó eigi markaður þar bás. Bæði Danir og Norðmenn fóru opt í austurveg og Svíar einnig vestur um haf; er opt alls eigi hægt at greina með vissu hvaðan víkingar þeir voru, sem getið er um í ýmsum erlendum kroníkum og annálum. Einstaka Svíar fóru þegar á landnámsöldinni alla leið til Íslands og settust þar að. Svíar hafa líka átt töluverð verslunarviðskipti við Engilsaxa; um það bera vitni engilsaxneskir peningar, sem fundist hafa svo þúsundum skiptir (um 20,000) í Svíþjóð, einkum í kringum Löginn (Mälaren) og við árósa, sem renna í Eystrasalt, og á eyjunum Eylandi og Gotlandi. Þeir eru frá 9., 10. og 11. öld, en þó einkum frá síðari hluta 10. og byrjun 11. aldar. Í Danmörku, Noregi og á vesturströnd Svíþjóðar, í átthögum flestra víkinganna, sem til Englands komu, hafa eigi fundist nærri eins miklir enskir peningar í jörðu.[1])

Á þessum tímum gekk ein tunga, — dönsk tunga er hún nefnd í Grágás — um öll Norðurlönd, alla leið norður að bygðum Finna og Lappa. »Dönsk tunga« eða »norrænt mál« var einnig talað á 10. öld, að minsta kosti meira eða minna í öllum nýlendum og bygðum norrænna þjóða bæði fyrir vestan haf og austan. Í Garðaríki hjelst þó tunga og þjóðerni Svía eigi lengi, því að frumbyggjar landsins, Slavar, voru margfalt fleiri en Svíar, og við nánari viðskipti og mök við þá blönduðust Svíar saman við þá. Þótt Svíar að ýmsu leyti hefðu töluverð áhrif á landsmenn, hvarf þó tunga þeirra þar austur frá heldur fljótt úr sögunni, nema einstaka orð, þrátt fyrir það þótt niðjar Rúriks ættu miklum löndum að ráða fyrir austan finska flóann og í kringum Ladoga lengi fram eptir öldum (til 1598).

Líkt fór um danska tungu í Normandíi og víðar fyrir vestan haf, er fram liðu stundir; einkum tóku »Normannar«

---

[1]) Sbr. O. Montelius, Sveriges historia (1903) I, 244—45.

í Normandíinu skjótt að tala frakknesku, og hefur »dönsk tunga« varla haldist þar miklu lengur en austur í Garðaríki. Landnám Dana eða Normanna á Frakklandi hafði þó mjög mikla þýðingu í sögu og menningu Evrópu á miðöldunum. Á 11. öld fóru ýmsir Normannar þaðan til Suður-Ítalíu og settu þar nýlendu á stofn í Aversa (1029). Síðan færðu þeir út kvíarnar og komu þar ríki á fót. Gerðist Robert Guiscard († 1085) fyrstur hertogi yfir því og var hann voldugur höfðingi. — Einnig vann Vilhjálmur bastarður Rúðujarl England (1066) og íbúar Normandísins tóku allmíkinn þátt í krossferðunum; hafði það hvorttveggja mikla þýðingu.

Íslendingar hafa eigi enn athugað það rækilega, hve þýðingarmikið það var í raun rjettri fyrir forfeður vora, að ein og hin sama tunga gekk um öll Norðurlönd og í öllum norrænum bygðum eða nýlendum, og að samgöngufæri manna í öðrum löndum voru þá eigi skjótari en á Íslandi. Þeir hafa eigi heldur athugað það sem skyldi, hve tímarnir hafa breytst síðan á söguöldinni, hagur manna og hugsunarháttur, rjettarskoðun og löggjöf og ríkjaskipun. Öll innbyrðis afstaða ríkja og þjóða hefur jafnframt breytst gjörsamlega. Fornar og frægar þjóðir á miðöldunum hafa liðið undir lok og af rústum smáríkjanna á miðöldunum hafa risið upp stórveldi.[1]) Samgöngufærin hafa breytst svo stórkostlega í öðrum löndum, að nú fara menn það á fáum klukkustundum, sem áður þurfti til vikur eða mánuði eða jafnvel ár. Nú geta menn daglega átt viðskipti saman í fjarlægum löndum, þar sem samskonar viðskipti tóku áður heil ár. Meira að segja, nú geta menn átt dagleg viðskipti við menn í öðrum heimsálfum, sem enginn vissi að væru til, þá er þjóðveldið leið undir lok á Íslandi.

Þá var mestur hluti jarðarinnar öllum ókunnur. Menn hjeldu eins og Snorri Sturluson segir, að jörðin væri kringla, »kringla heimsins«, og þessi kringla var eigi nema Evrópa, norðurhlutinn af Afríku og rúmur helmingurinn af Asíu. Utan um jarðarkringluna hugðu menn að úthafið lægi. Nú

---

[1]) Á Þýskalandi voru hjer um bil 400 ríki á miðöldunum og nú er það alt að heita má eitt stórveldi.

þekkja menn jörðina alla, og það mjög nákvæmlega í samanburði við það sem áður var.

Alt þetta er svo þýðingarmikið, að það hefur breytt nálega öllu í sambúð og viðskiptalífi ríkja og manna. Mannlífið í heild sinni hefur breytst. Hvert atriði, sem hjer er nefnt, væri þess vert að það væri íhugað og rannsakað og skýrt ítarlega fyrir landsmönnum; er hvert þeirra svo umfangsmikið og þýðingarmikið, að það er nóg efni í eina bók og hana mikla, ef ítarlega væri skýrt frá hinu helsta.

Hjer verður að eins tekið eitt atriði til íhugunar, siglingar og samgöngur milli Íslands og annara landa, en þó eigi um lengri tíma en á dögum þjóðveldisins; verður skýrt bæði frá ferðum Íslendinga til annara landa og útlendinga hingað til landsins. Margir menn verða nefndir og margar ferðir. Það verður því töluvert af upptalningum í ritgjörð þessari, eins og í sumum þeim ritgjörðum, sem prentaðar hafa verið áður í Safninu. Í »Safni til sögu Íslands« þykir það hæfa, að leiða ítarlega í ljós skýrteini og rök um einstök atriði í sögu landsins, til þess að skýra þau sem rækilegast, þótt ritgjörðirnar fyrir þá sök verði lengri en ella og eigi eins fljótlesnar, því að sú bók er s a f n en ekki s a g a.

Það er harðla fróðlegt að rekja utanferðir Íslendinga og Íslandsferðir útlendinga, þótt lítið hafi verið að því gert. Það má eigi að eins sjá, hverjir hafa rekið verslun milli Íslands og annara landa, heldur og hverjum breytingum kaupferðirnar hafa tekið og hvaða þýðingu utanferðirnar höfðu. Þær voru sem nokkurs konar m e n n i n g a r s k ó l i, sem margir hinir bestu og efnilegustu yngri menn þjóðarinnar gengu í. Í utanferðunum fengu skynsamir menn og íhugunarsamir töluverða þekkingu og lífsreynslu. Þeir sáu annara manna siði og störf til samanburðar við sitt eigið. Sumir þeirra lærðu margt í útlöndum. Nýjar hugsjónir kviknuðu hjá þeim og framtakssemi í sumum greinum. Utanferðirnar höfðu því vekjandi áhrif á landsmenn. Nýjar kenningar og siðir, áhöld og munir bárust með komumönnum til landsins; en að rekja alt slíkt, er eigi ætlun mín, enda er það afarmikið verk og óþarft að sumu leyti. Kristnin t. a. m. barst með farmönnum og aðkomandi kristniboðum til landsins; kristnitakan var því meðal annars afleiðing af utanferðum landsmanna og komu nokkurra kristni-

boða, en frá henni hefur verið skýrt ítarlega annars staðar. Áhrif utanferðanna og útlendrar menningar á bókmentir vorar er einn þáttur í bókmentasögunni og verður lítið á það drepið hjer; að rannsaka það, er nóg verkefni fyrir sig, og liggur fyrir utan þau takmörk, sem ritgjörð þessari eru sett, enda þarf til þess lærðari mann en mig.

Jón Eiríksson ritaði ritgjörð á latínu um utanferðir Norðurlandabúa, einkum Íslendinga, er út kom 1755.[1]) Það var merkileg ritgjörð á sínum tíma, en nú er hún algjörlega úrelt. Hann notaði líka, eins og þá var títt, ósannar sögur sem sannsögulegar fyrir heimildir. Konrad Maurer hefur einnig ritað góða en stutta tímaritsritgjörð um samgöngur Íslands og Noregs við Suðurlönd á 11. og fram á 13. öld,[2]), og jeg hef birt á prenti stutta ritgjörð um kaupferðirnar milli Íslands og annara landa á þjóðveldistímanum.[3])

## II.

Ísland var í fornöld eigi fjarlægar hinum suðrænu fornu mennningarlöndum en Noregur og Svíþjóð. Fornmenn töldu sjálfir sjö dægra sigling úr Noregi frá Staði vestur til Horns á Íslandi austanverðu, en fjögra dægra haf frá Snæfellsnesi i vestur til Grænlands, þar sem skemst er. Frá Reykjanesi á sunnanverðu Íslandi töldu þeir fimm dægra haf suður til Jölduhlaups nyrðst á Írlandi.[4]).

Dægur reiknuðu fornmenn eins og vjer hálfan sólarhring eða 12 stundir,[5]) og er hjer miðað við, þá er menn fengu

---

[1]) Johannes Erici, Disquisitio de veterum Septentrionalium inprimis Islandorum peregrinationibus. Havniæ 1755. [2]) Islands und Norwegens Verkehr mit dem Süden vom 11ten bis 13ten Jahrhundert, í Höpfner und Zachers Zeitschrift für deutsche Philologie II. B. 1870. [3]) Hverjir ráku verslun milli Íslands og annara landa á dögum hins íslenska þjóðveldis, í Búnaðarritinu. IX. ári. Hjer má einnig telja ritgjörð mína Utanstefnur og erindisrekar útlendra þjóðhöfðingja á Sturlungaöldinni. Tímarit Bókmfjel. XX. og XXI. ár. Í mörgum söguritum, t. a. m. SnE. III; F. Jónsson, Litt. hist.; Þ. Thoroddsen, Landfræðissaga I, 38—49, er líka getið um ýmsar utanferðir Íslendinga. [4]) Hksb. 2/4; Stb. 2/129. [5]) Rímb. bls. 6; Codex 1812 4to Gaml. kgl. Samling bls. 8; Kgsk. 14; SnE. I, 56.

blásandi byr alla leið eins og stundum kom fyrir. Snorri Sturluson skýrir t. a. m. frá því, að Þórarinn Nefjólfsson hafi fengið svo mikið hraðbyri, er hann fór til Íslands 1024, að hann hafi siglt á átta dægrum frá Mæri í Noregi til þess, er hann tók Eyrar á Íslandi.[1]) Sje þetta rjett, hefur Þórarinn siglt rúmar átta mílur í vökunni að jafnaði; hafa góð siglingaskip haft svo mikinn hraða, en venjulega hafa skipin farið helmingi hægar eða enn minna.

Til samanburðar við þetta má nefna það, sem Óttar Háleygingur segir um siglingar fram með ströndum Noregs. Hann átti heima nyrðst á Hálogalandi og kvað hann þaðan vera mánaðarsigling suður með landi til Skíringssals syðst á Vestfold, að vestanverðu við Víkina, ef haldið væri kyrru fyrir á nóttunni og góður byr væri á hverjum degi. Það er um 30 dægra sigling. Frá Skíringssal taldi hann fimm daga sigling til Heiðabæjar (nú Sljesvík) á Suður-Jótlandi.[2])

Áætlanir þessar eru eigi nákvæmar. Það er heldur lengri leið frá Reykjanesi til Írlands en frá Stað í Noregi til Horns, austast í Austur-Skaptafellssýslu, og þó er talin að eins fimm dægra sigling til Írlands, ef hjer er eigi ritvilla í handritunum.[4]) Nyrðst af Hálogalandi suður til Skíringssals er töluvert lengri leið en þetta, en þó eigi svo miklu, að vera ætti fjórum eða fimm sinnum lengur að sigla það. Óttar Háleygingur hefur miðað vegalengdina við eigin reynslu sína og lagt miklu minna í hverja dagleið, en í Landnámu er gert, því að þar er miðað við hröðustu siglingu. Minni þýðingu

---

[1]) Hkr. II, 273. [2]) Tímarit Bókmentafjelagsins, V, 158. Öll frásaga Óttars af ferðum hans er þar þýdd af Magnúsi Stephensen. Alfreð eða Elfráður Englands konungur hinn ríki ritaði hana eptir 880 eptir frásögn Óttars. Hún á við ástandið í Noregi um 870. Alfreð kallar Sciringesheal höfn og var hún við Víksfjörð, hjá gömlum bæ, er heitir Kaupangr. Hjeraðið þar í kring hjet Skíringssalur og ætla menn að það sje hin núverandi Tjöllingsókn sbr. Munch, Det norske Folks Hist. I, 380, 608 o. ef.; G. Storm, Norsk hist. Tidsskr. 4. R. I, 214—237; A. Kjær, sama rit 4. R. V, 266—283 og 425—430. Menn hafa deilt um, hvar höfn þessi hefur verið; hefur verið reynt að sýna að hún hafi verið í Sandafirði, þar skamt frá; en lítilvæg rök hafa verið færð fyrir því, sjá sama rit 4 R. V, 358—397 og 431—432, ritgjörðir eptir S. A. Sörensen. [4]) Í Hksb. stendur „iij dægra haf", en í Stb. „v dægra haf" og getur hvorttveggja verið rangt ritað.

hefur það, að dagatal Óttars er miklu eldra (um 870) en dægratal Landnámu, sem er talið eptir því sem reynslan sýndi á söguöldinni og næstu öldum á eptir, áður en Landnáma var rituð; siglingahraði skipa óx varla að verulegum mun á þeim tíma í Noregi.

En þrátt fyrir þetta sýna dæmi þessi að Norðmenn og Svíar voru eigi að neinum mun betur settir en Íslendingar að því er vegalengdina snerti, ef þeir vildu fara til suðlægari og auðugri landa. Svíar bygðu á þeim tímum miðhluta Svíaríkis eins og það er nú, eða fyrir norðan hina miklu skóga Tiumílnaskóg, Tivið og Kolmord, sem greindu Svíþjóð frá Gautlandi.[1]) Samgöngur á sjó voru þá greiðastar og skjótastar, ef menn fengu góðan byr og engin óhöpp vildu til. Af því að Ísland er eyland, voru Íslendingar að tiltölu eigi illa settir nje afskektir frá öðrum löndum, á meðan þeir áttu sjálfir nógan skipastól til þess að sækja til annara landa.

Adam frá Brimum skýrir frá, hve margra daga leið sje frá Skáni norður til Sigtúna, hins forna kauptúns fyrir norðan Löginn (Mälaren), hvort sem farið er sjóveg eða landveg. Að mílnatali hefur vegalengdin á sjó og landi verið lík, því að krókarnir landveg hafa vegið upp krókinn austur fyrir Svíþjóð og upp í Löginn, þó fer það töluvert eptir því, hvaðan farið er af Skáni. Adam nefnir eigi við hvaða stað hann miði, en líklegt er að hann, sem var kennimaður, hafi haft Lund (eða jafnvel Dalby) í huganum, ef hann hefur miðað við einhvern ákveðinn stað.

Adam segir að það sje fimm daga sigling frá Skáni í Danmörku til Sigtúna eða Birka (Bjarkey), sem er þar skamt frá; en ef farið er landveg norður um Gautland og um í bæjunum Skörum, Tälje og Birka (Bjarkey), þá sje full mánaðarferð til Sigtúna; en þaðan var talin dagleið til Uppsala.[2])

Þá er þeir Einar þambarskelfir og Kálfur Árnason sóttu Magnús Ólafsson austur í Garðaríki, segir sagan, að þeir

---

[1]) Landamærin milli Svíaveldis og Danmerkur voru þá einnig önnur en nú. Danmörk náði þá norður að Gautelfi. Halland, Skáni og Bleking og eyjarnar Gotland og Ösel lágu undir Danmörku fram að friðarsamningnum í Brömsebró og Hróarskeldu (1645 og 1658).

[2]) Adamus Bremensis, Gesta Hammaburgensis. Lib. IV, cap. 28.

færu snemma vors (1034) úr Þrándheimi austur um Kjöl til Jamtalands, þá til Helsingjalands og komu fram í Sviþjóð. Þar fengu þeir sjer skip og fóru um sumarið austur í Garðaríki og komu um haustið til Aldeigjuborgar,[1]) en svo nefndu Norðmenn bæinn Ladoga, sem var sunnan við Ladogavatn, austarlega. Frá Íslandi þurfti eigi lengri tíma til að fara þetta sjóveg, þótt þaðan væri hjer um bil helmingi lengri leið en úr Þrándheimi.

Allar ferðir á landi fóru menn þá ríðandi eða gangandi, ríðandi þeir sem hestaráð höfðu, eins og enn tíðkast á Íslandi, en fótgangandi þeir, sem eigi gátu veitt sjer hesta. Á vetrum óku menn stundum í sleðum, ef hjarn var. Vagnar voru að vísu kunnir á Norðurlöndum, en þeir voru lítið notaðir til ferðalags í Danmörku fyr en á 16. öld,[2]) hvað þá í Noregi og Sviþjóð, þar sem öll vegagjörð var miklu erfiðari. Sumstaðar á Þýskalandi tóku menn jafnvel síðar en í Danmörku að aka í vögnum, er þeir fóru eitthvað. Í hinum fornu menningarlöndum suður við Miðjarðarhafið voru vegir miklu betri en í Mið-Evrópu eða norðar, en þótt vagnar væru notaðir, var þó hvergi hægt að fara hraðar en hestarnir gátu farið. Hin hraðasta ferð á landi var bundin við skjótleika hestsins, þangað til járnbrautir og gufuvagnar voru fundnir upp.

Íslendingar, sem kváðu að eins fimm til átta dægra siglingu í besta byr til næstu landa, töldu 17 dagleiðir fyrir ríðandi menn úr Fljótsdal, sunnarlega í Norður-Múlasýslu, rjetta þingmannaleið suður um land á Þingvöll.[3]) Þetta mátti fara á skemri tíma með því að fara óbygðir suður um Sprengisand, eins og Sámur Bjarnason gerði. En ef eigi var mjög mikið í veði, fóru menn að jafnaði eigi lengra á dag en þingmannadagleið[4]) eða þingmannaleið, sem hún var síðar nefnd. Þingmannaleið er talin fimm mílur.

---

[1]) Hkr. II, 529. [2]) Troels Lund, Dagligt Liv i Norden, 3. Udg. I, 174 o. ef. [3]) Hrafnk. 107. [4]) Jb. 5.

## III.

Margir landnámsmenn voru skipseigendur og alvanir siglingum. Sumir þeirra höfðu verið í víking lengri eða skemri tíma, áður en þeir fóru til Íslands, svo sem þeir Ingólfur Arnarson og Hjörleifur Hróðmarsson, Geirmundur heljarskinn, Önundur trjefótur, Þrándur mjögsiglandi Bjarnarson, Ófeigur grettir, Þormóður skapti, Ingimundur Þorsteinsson, Ketill gufa Örlygsson og ýmsir fleiri. Sumir þeirra höfðu verið mörg ár í víking, eins og Geirmundur heljarskinn, sem var konungborinn og sækonungur eða herkonungur sjálfur. Flestir þeirra höfðu verið í vesturvíking, en sumir þeirra höfðu líka farið í austurveg.[1])

Nokkrir af landnámsmönnunum höfðu verið í kaupferðum, áður en þeir fóru til Íslands. Þó er eigi getið nærri svo margra kaupmanna á meðal þeirra sem víkinga. Einna nafnkendastur kaupmaður var Björn Skútaðar-Skeggjason, sem kallaður var Skinna-Björn, af því hann var Hólmgarðsfari og verslaði með skinnavöru, sem hann hefur keypt á Rússlandi og þótti betri en skinnavara hjá öðrum kaupmönnum. Þá er honum leiddust kaupferðir, fór hann til Íslands.[2]) Þorsteinn lunan, sem land nam í Rangárvallasýslu, var einnig farmaður mikill.[3])

Þá er þess einnig getið um suma landnámsmenn, að þeir hafi farið í kaupferðir eptir að þeir voru fluttir til Íslands. Ingólfur Arnarson fór til Noregs, er hann hafði tekið sjer bústað í Reykjavík,[4]) og mun hann þá hafa farið utan til þess að sækja húsavið og afla til heimilis síns. Um þá bræður Ketil þrym og Graut-Atla Þórissyni er sagt að þeir hafi farið jafnan til annara landa með kaupeyri og gerst stórríkir.[5]) Um Ingimund Þorsteinsson er þess getið, að hann færi utan að sækja húsavið, er hann hafði búið nokkra hríð að Hofi. Í þeirri ferð gaf Haraldur hárfagri honum skipið Stíganda, svo að hann gæti flutt svo mikinn við, að honum nægði, og kom hann báðum skipunum í Húna-

---

[1]) Um alla þessa menn, sjá Íslendinga sögu mína, I. b. [2]) Ldn. 169. [3]) Ldn. 297. [4]) Eg. 80. [5]) Dropl. 1/141; sbr. Ldn. 243.

vatnsós. Seinna ljeði Ingimundur Eyvindi sörkvi vin sínum og Þórormi í Þórormstungu Stíganda í kaupferð eina til annara landa.[1])

Á landnámsöldinni voru árlegar samgöngur milli Íslands annars vegar og Noregs[2]) og norrænna bygða vestan hafs hins vegar. Hjer um bil fimti eða sjötti hver landnámsmaður kom vestan um haf til Íslands. Auk þess að menn sigldu jafnaðarlega til Íslands til þess að nema þar land og setjast þar að,[3]) fóru landnámsmennirnir sjálfir eða synir þeirra utan til Noregs eða til Vesturhafslanda, þá er einhver nauðsyn krafði þess. Stundum fóru þeir í kaupferð eða til þess að sækja nauðsynjavörur; stundum vildu þeir vitja vina og frænda, eða jarðeigna sinna og fjár í átthögum sínum; stundum fóru þeir jafnvel til þess að blóta að hofi því, sem ættmenn þeirra höfðu átt og þeir höfðu að erfðum tekið, en orðið að yfirgefa; en stundum var hefnd eða málaferli eða jafnvel landstjórnar- og löggjafarmálefni orsökin til þess að þeir fóru utan; þá bar það og við að ungir menn, landnámsmannasynir, fengu svo mikla löngun til þess að sjá sig um á þeim stöðvum, þar sem feður þeirra höfðu verið, eða til þess að framast í öðrum löndum, sem þeir höfðu heyrt mikið af sagt, að engin bönd hjeldu þeim heima.[4])

Landnáma og sögurnar geta um nokkur dæmi upp á þetta. Miðfjarðar-Skeggi, sonur Skinna-Bjarnar, sem fyr er nefndur, hefur auðsjáanlega erft farmannshug föður síns. Hann var farmaður á yngri árum, og af því að hann var garpur mikill, herjaði hann í austurveg; »er hann fór austan« lá hann í Danmörku við Sjáland; sætti hann þá lagi að ganga á land og brjóta upp haug nokkurn; segir sagan að það hafi verið haugur Hrólfs konungs kraka, og Skeggi tæki þar úr Sköfnung, sverð konungs, og öxi Hjalta og mikið fje annað, en að hann næði eigi Laufa af Böðvari bjarka.[5])

Loptur Ormsson, landnámsmaður, sem kom af Gaulum ungur að aldri til Íslands, fór utan hið þriðja hvert sumar fyrir hönd Flosa Þorbjarnarsonar, móðurbróður síns, og

---

[1]) Ldn. 176—77; Vatn. 27—28, 30. [2]) Sbr. Eg. 34/108. [3]) Um þetta sjá Íslendinga sögu mína I. b., 224 o. ef. [4]) Eg. 126—127. [5]) Ldn. 169.

sín sjálfs, að blóta að hofi því, er Þorbjörn hinn gaulverski, móðurfaðir hans, hafði varðveitt.[1]

Skallagrímur Kveldúlfsson sendi menn til Noregs á fund Þóris Hróaldssonar að bjóða sættir fyrir Björn Brynjólfsson. Sendimenn Skallagríms voru um veturinn með Þóri og fóru til Íslands um sumarið eptir. Árið eptir fór Björn til Noregs og með honum Þórólfur Skallagrímsson. Hann var þá ungur að aldri og var mörg ár í Noregi; á sumrum fór hann í víking með Birni, í austurveg og víðar. Síðan bjóst hann til kaupferðar og fór til Íslands. Árið eptir fór hann aptur utan og Ásgerður Bjarnardóttir og Egill bróðir hans með honum. Þeir bræður fóru þá í víking, bæði í austurveg og í vesturvíking (til Fríslands og Englands). En úr þessari ferð kom Þórólfur eigi aptur, því að hann fjell á Englandi.[2]

Þá er Dala-Kollur landnámsmaður var andaður, nam Þorgerður Þorsteinsdóttir ekkja hans eigi yndi á Íslandi. Höskuldur sonur hennar keypti þá hálft skip til handa henni, og fór hún til Noregs. Þar giptist hún, en er hún varð ekkja í annað sinn, fór hún aptur til Íslands.[3]

Merkust utanferð á landnámsöldinni var þó ferð Úlfljóts landnámsmanns til Noregs (um 924—927), er hann fór þangað til þess að setja saman lög handa Íslendingum, svo að þeir ættu allir ein lög. Hann var þrjú ár í þeirri ferð.[4]

Dæmi þessi eru næg upp á utanferðir landnámsmanna á Íslandi. Þeir áttu nóg skip til að fara á utan, er þeir vildu; hafa landsmenn síðan aldrei verið jafnvel staddir með skipakost sem þeir.[5] En hve skipastóll þeirra allra var mikill, veit þó enginn með vissu, því að skip þeirra voru aldrei talin og engin áætlun frá fornöldinni er til um það. Hins vegar má áreiðanlega draga þá ályktun út af því, sem er kunnugt um byggingu landsins og um skipaeign einstakra manna, að

---

[1]) Ldn. 299, sbr. 295 og Fló. 124. [2]) Eg. 110—112, 116—120, 126—127, 139—40, 149, 153—56, 172, 179—80, 183. [3]) Lax. 16—19. [4]) Sbr. Ísl. sögu mína II, 8—60. [5]) Útaf því sem próf. Björn M. Ólsen segir í Safni IV, 359 vil jeg benda á að ætlun mín er, eins og sjá má af innganginum í II. b. að skýra síðar frá siglingum og verslun í Íslendinga sögu. Í I. b. bls. 239—244 átti það eigi við.

skipastóll landsmanna hafi þá verið að tiltölu mjög mikill, meiri en nokkru sinni síðar.

Norðurlandabúar voru á allri víkingaöldinni mjög auðugir að skipum. Víkingaferðirnar og skipaflotar víkinganna eru næg vitni um það. Þess er opt getið að víkingarnir væru með 60 til 200 skipa og stundum jafnvel 600 til 700 skipa. Hinir merkustu vísindamenn, sem rannsakað hafa sögu víkingaaldarinnar, eru sammála um þetta atriði.[1])

Mikill hluti landnámsmanna voru óðalsbændur eða höldar, og sumir af enn þá göfgari ættum. Þeir voru vel efnum búnir, áttu margir þeirra skip, áður en þeir fóru til Íslands. Margir þeirra höfðu farið í víking eða í kaupferðir til annara landa. Þeir voru vanir siglingum og manna óháðastir; ef einhver vildi þröngva kosti þeirra, áttu þeir hægt með að stíga á skip og forða sjer. Slíkir menn kunnu líka einna verst yfirgangi Haralds konungs hárfagra. Fjöldi þeirra fór því vestur um haf eða til Íslands.

Landnámsmennirnir komu til Íslands með fjölskyldu sína, vinnuhjú, búshluti og annað góss, enn fremur nokkuð af kvikfjenaði eptir því sem þeir máttu með komast. Þeir urðu að hafa nægar vistir handa sjer og sínum og fóður handa skepnum á leiðinni. Þeir þurftu því venjulega á heilu kaupskipi að halda. Það liggur einnig í hlutarins eðli að allir hinir fyrstu landnámsmenn hafa hlotið að hafa skip til umráða eða með öðrum orðum vera skipseigendur.

Í Landnámu eru taldir alls 417 landnámsmenn. Ef hinir minstu þeirra, þar á meðal allir leysingjar, eru frátaldir, verða þeir ekki yfir 380. Af þeim er kunnugt um 48, að þeir komu út með öðrum. Enn fremur er kunnugt um fáeina landnámsmenn að þeir fóru »samskipa« til Íslands; tveir voru þá saman um eitt skip og einstaka sinnum þrír.

Það er að tiltölu heldur sjaldan sagt í Landnámu með beinum orðum um landnámsmennina, að þeir hafi átt skip

---

[1]) Sbr. t. a. m. Johannes Steenstrup, Normannerne I, 214—217, II, 148. O. Montelius, Sveriges historia (1903) I, 238. Snorri Sturluson, Hkr. II, 391 segir, að Knútur konungur hinn ríki hefði eigi færra en tólf hundruð skipa, er hann fór herferð til Noregs 1028. Af því að hundruðin eru tólfræð, verða það 1440 skip.

eða farið á eigin skipi til Íslands. Það er auðsjáanlega opt gert ráð fyrir því sem sjálfsögðu. Þess vegna er þess að eins getið um hjer bil hálfan fjórða tug landnámsmanna (34); en þrátt fyrir það má ætla að eigi minna en tvö hundruð landnámsmanna hafi komið til Íslands á eigin skipum og verið skipseigendur.[1])

Í Íslendinga sögu hef jeg »leitt nokkrum getum« um mannfjölda þann, sem kom með þeim landnámsmönnum, sem Landnáma skýrir frá, og áætlað að hann muni hafa verið um 8000 til 9000 manna eða um 9000, og að það mundi samsvara fólki af hjer um bil 300 skipum, ef 30 manns hefði verið á hverju þeirra að meðaltali. Eptir þeim tölum, sem kunnar eru um mannfjölda á skipum landnámsmanna, virðist vera hæfilegt og þó heldur vel í lagt, að reikna 30 manns á hverju skipi að meðaltali.[2]) En þeir menn, sem fóru þá til Íslands að byggja það og eigi eru nefndir í neinum ritum, hef jeg þó ætlað að hafi verið fleiri, eigi færri en 11000 til 12000 manna. Þessir menn settust að í landnámum þeirra manna, sem taldir eru í Landnámu. Þá er hjer við er bætt viðkomu landsmanna á landnámsöldinni, sem mun að tiltölu hafa verið heldur mikil, þá má gera ráð fyrir að mannfjöldinn hafi í lok landnámsaldarinnar verið töluvert yfir 20000 manna eða um 22000.

Mjög margir af þeim innflytjendum, sem engar sögur fara af, munu eflaust hafa tekið sjer far eða ráðist í skip með öðrum mönnum, sem voru í siglingum á milli landa, bæði með mönnum frá Íslandi og frá Noregi, eða með mönnum, er ætluðu að flytja til Íslands, því að það getur varla verið neinum efa bundið, að ýmsir þeirra manna hafi verið skipseigendur og komið til Íslands á eigin skipi, þótt þeir sjeu eigi nafngreindir í sögunum. Það verður að gæta að því, hve miklir siglingamenn Norðmenn voru á þessum tímum. Þeir voru eigi að eins í víking, heldur var það siður ýmsra

---

[1]) Sbr. Ísl. sögu mína, I, 240. [2]) Aptur á móti voru stundum miklu fleiri menn á Íslandsförum á Sturlungaöldinni, þá er landsmenn áttu engan skipastól. Þeir tóku sjer þá stundum svo margir far á einu skipi sem framast mátti verða, af því að um fáar ferðir til útlanda var að velja.

stórbænda og margra hinna merkari manna að fara á yngri árum í kaupferð til annara landa. Það lítur út fyrir að það hafi verið fremur alment, að efnaðir menn, sem bjuggu nærri sjó, ættu haffært skip. Einkum hefur það verið alment á vesturströnd Noregs og í eyjum víða á Norðurlöndum og fyrir vestan haf, þar sem norrænir menn bjuggu. Sökum þess má líka geta nærri, að margir af þeim mönnum, sem fóru til Íslands og settust þar að í landnámum annara, hafi verið skipseigendur. Það eru því öll líkindi til að á meðal landnámsmanna og innflytjenda alls og alls hafi verið um 300 skipseigendur.

En allt þetta er eigi nema áætlun eða »geta« eins og jeg segi í Íslendinga sögu, en svo er um alt, sem sagt hefur verið um mannfjölda á Íslandi, áður en hið fyrsta manntal var þar tekið. Að eins eru allar áætlanirnar eigi jafnlíklegar.

Að áætlun þessari má ýmislegt finna. Það getur verið að hún sje heldur há, og svo ætla sumir. En það getur líka verið að hún sje of lág, eins og aðrir ætla. Jeg hygg að hún sje nærri sanni og hófleg mjög. Þó hygg jeg fremur að áætlunin um mannfjöldann sje heldur of lág en of há. Það má vel vera að fólksfjöldinn á Íslandi í lok landnámsaldarinnar hafi verið um eða yfir 30000 manna. En það er auðsætt, að þær áætlanir eru fjærst sanni, sem eigi gæta neins hófs nje heldur þess, hvernig ástatt var á Norðurlöndum, þá er Ísland bygðist, og setja því mannfjöldann jafnvel mestan á söguöldinni, og það enda rjett eptir landnám. Því hærri eða lægri sem áætlanir þessar verða hjá mönnum, því fjarstæðari og öfgameiri eru þær. Þá er menn leiða getum um mannfjöldann í lok landnámsaldarinnar (um 930) eða búa til um hann áætlanir, sem komast allmikið upp fyrir 40000 eða í annan stað langt niður fyrir 20000, þá fara öfgarnar að ráða.

Þeir, sem ætla að mannfjöldinn hafi verið fjarska mikill í lok landnámsaldarinnar eða snemma á söguöldinni, hyggja að fjöldamargir menn hafi verið fluttir til landsins og að skip landnámsmanna hafi staðið í mannflutningum til Íslands á sumrum. Á þann hátt hafi margfalt fleiri menn flutt til landsins, en þeir landnámsmenn voru ásamt mönnum sínum og fjölskyldu, sem nefndir eru í Landnámu. Sumir ætla jafn-

vel að flestir þeir menn, sem Landnáma getur um, hafi verið fluttir þangað.

En við þessa skoðun er margt að athuga. Fyrst og fremst verður að gæta að því, að hinn eini vegur, sem til var, eigi að eins fyrir fyrstu landnámsmennina, heldur og fyrir marga þeirra síðar, var sá, að þeir ættu skip sjálfir, sem þeir gætu farið á til Íslands. En er þangað var komið, urðu þeir að búa um sig, reisa sjer bæ, rækta upp tún og hirða skepnur sínar og bú, vinna fyrir sjer með landbúnaði eða fiskiveiðum. Þeir höfðu því venjulega eigi mannafla til þess að láta skip sín vera stöðugt í siglingum eða standa í fólksflutningum. Þeir settu þau upp á land og það var undir ástæðum og atvikum komið, hvort þeir gátu notað þau næsta sumar eða látið aðra fara með þau. Það er kunnugt að landnámsmennirnir fóru einstaka sinnum utan og að þeir ljeðu líka stöku sinnum nágrönnum sínum og vinum skip sín í kaupferðir, en slíkt gerðu þeir eigi árlega, heldur einu sinni eða tvisvar á æfinni, þá er sækja þurfti húsavið eða er einhver önnur nauðsyn krafði. Sumir landnámsmenn munu að líkindum hafa selt skip sín, en flestir munu þeir hafa átt þau, þótt þeir notuðu þau sjaldan, bæði af því að eigi var ávalt auðvelt að fá kaupanda að þeim og af því að ýmsir þeirra, einkum hinir stærri landnámsmenn, hafa eigi unað við annað, en að eiga skip sjálfir til þess að geta notað þau, ef þeir þyrftu á þeim að halda. Þeir voru því vanir og hafa eigi kunnað við annað, líkt og sumir Íslendingar nú á dögum kunna eigi við annað en að eiga reiðhest, þótt þeir hafi lítinn eða engan peningaarð af því, og nauðsynleg ferðalög krefjist þess eigi. Hins vegar hlaut að fara svo um mörg skip landnámsmanna, að þau gengju úr sjer, án þess að gefa mikið af sjer árlega. En svona fór það þá og síðar um ýmsa búshluti, sem eru lítið notaðir, en sem margir heldri menn eiga þó, af því að stundum þarf nauðsynlega á þeim að halda, og af því að slíkir menn kunna eigi við annað en að vera sjálfbjarga, að að svo miklu leyti sem hægt er. Annars litu menn alt öðru vísi á fje á þeim tímum en nú. Menn gátu þá eigi komið miklu af eignum sínum í peninga og fengið árlega leigu af þeim á auðveldan hátt, eins og nú á tímum. — Sparisjóðir og bankar voru eigi til. — Fyrir því hnitmiðuðu menn eigi

niður, hvort þeir fengju árlega vexti af skipum sínum eða öðrum þess konar búshlutum, eins og nú er títt.

Sumir hjuggu líka upp skip sín, er þeir sáu að þeir höfðu engin not af þeim og að þeir gátu eigi selt þau. Á þann hátt höfðu þeir einhver not af viðnum úr þeim.

Enn fremur verður að gæta að því að engir kaupstaðir voru í Noregi, þá er Ísland bygðist, nema einn lítill í Vík austur, ef kaupstað má kalla. Menn gátu því eigi safnast saman í kaupstöðum til þess að taka sjer far, og eigi var þá hægt að kalla menn saman með auglýsingum eins og nú á tímum. Farþegjaflutningur, eins og tíðkast nú á tímum, var eigi kominn á, þá er menn tóku að byggja Ísland. En menn »rjeðust í skip« eða »tóku sjer far« hjá einhverjum stýrimanni, en það var venjulega sem hásetar á skipi hans. Þeir, sem betur voru efnum búnir, keyptu hlut í skipinu handa sjer og sínum, og urðu þá með húskörlum sínum nokkur hluti af skipshöfninni. Á þennan hátt fóru margir til Islands, einkum á síðari hluta landnámsaldarinnar. Í Landnámu er getið um nokkra slíka menn, en flestir þeirra eru alls eigi nefndir. Mjer þykir líklegt að töluvert meira en helmingur innflytjenda hafi farið á þennan hátt til Íslands; en það getur líka vel verið, að þeir hafi verið fleiri, hjer um bil tveir þriðjungar innflytjenda; — um það er eigi hægt að segja með vissu — en þá hefur mannfjöldinn verið nokkru hærri en jeg hef áætlað í Íslendinga sögu eða um 30000 manna. Aptur á móti er það, þá er á alt er litið, mjög ólíklegt og ósennilegt, að allur fjöldi manna hafi fluttst til landsins á þennan hátt, og að fólksfjöldinn í lok landnámsaldarinnar hafi verið nærri því eins mikill og í lok 11. aldar. Ef svo hefði verið, hefðu sjö til tíu sinnum fleiri menn, en allir landnámsmennirnir með mönnum sínum og fjölskyldu, sem nefndir eru í Landnámu, orðið að taka sjer far eða ráðast í skip hjá öðrum til þess að komast til landsins. En slíkt mundi eflaust hafa komið í ljós í Landnámu og fornsögunum.[1])

---

[1]) I fornöld var ekkert manntal tekið, en bændur voru fyrst taldir, þá er tíundarlögin voru sett (um 1096). Orð Ara fróða í Íslb. 3/6: „Svá hafa ok spakir menn sagt, at á sex tigum vetra yrði Ísland albygt, svá at eigi væri meirr síðan“, eru því eigi annað en áætlun

Það hefur sjerstaka þýðingu að gera sjer grein fyrir þessu og ekki síst skipastól landsmanna í upphafi, þá er

eða getgáta. Það er rjett hjá prófessor B. M. Olsen hjer að framan, bls. 357 nm. að „bygt“ sje undirskilið í þessum orðum Ara á eptir orðinu meirr, og svo hef jeg skilið það í Íslendinga sögu minni I, 258, l. 7 að ofan, þótt hann hafi eigi tekið eptir því. Okkur greinir aptur á móti á um það, hvernig skilja eigi orðið albygt og bygt á þessum stað. B. M. Ólsen skilur þau um fjölbygð (mannfjölda), en jeg hef skilið þau um bygðir landsins (landnám). Það liggur ef til vill næst eptir nútíðartali að skilja „bygt“ eins og B. M. Ó. um bæi, að eigi væri meira reist eða bygt af þeim og þar af leiðandi um mannfjöldann, að hann hafi eigi vaxið að verulegum mun eptir 930 eins og B. M. Ólsen ætlar. En afleiðingin af þessum skilningi verður sú, að orð Ara verða fjarstæða, eins og jeg hef áður bent á í Íslendinga sögu, því að það er víst, að margir bæir voru „bygðir“ í bygðum landsins eptir 930, bæði af niðjum landnámsmanna og einnig af ýmsum innflytjendum. Þetta hygg jeg að Ari hinn fróði hafi vitað. Bygt þýðir líka numið, og „bygt“ land er andstætt „óbygt“, ónumið land, eins og mörg dæmi í fornritunum sanna. Á 60 árum var lokið að nema alt landið, en eigi að reisa alla bæi á því.

Annars eru þess engin dæmi svo jeg til viti, að mannfjöldinn í nokkru landi hafi á fyrstu 60 landnámsárum þess orðið þegar svo mikill, að hann hafi eigi aukist síðan að miklum mun. Þeir, sem halda slíku fram um Ísland, hafa alla reynslu á móti sjer, og jeg get eigi lagt trúnað á skoðun þeirra, nema þeir komi fram með góð og gild rök fyrir henni. Og um áætlun B. M. Ólsens um mannfjölda á Íslandi um 965 (hjer að framan bls. 357—384) er það að segja, að hún svífur alveg í lausu lopti, en enginn skilji þessi orð mín þó svo sem þessi kafli í ritgjörð hans sje lítils verður; þvert á móti, hann er bæði fróðlegur og mikilsverður sökum þess, er höfundurinn ritar þar um fornt silfur.

Ef menn vilja byggja svo mikið á gjöf Islendinga til Eyvindar skáldaspillis sem B. M. Ólsen gjörir, verður fyrst og fremst að athuga hvað sannast sje um þá gjöf og hvort frásögn Snorra sje rjett. Nú vill svo vel til, að til eru nokkur orð frá öðrum málsaðila um gjöfina, vísa ein eptir Eyvind sjálfan. Hann segir svo:

Fengum feldarstinga
fjörð ok galt við hjörðu,
þanns álhimins útan
oss lendingar sendu;
mest selda ek mínar
við mævörum sævar
(hallæri veldr hváru)
hlaupsildr Egils gaupna.

menn vilja fá glögga hugmynd um ferðir þeirra, siglingar og samgöngur milli Íslands og annara landa á þjóðveldistímanum.

---

Vísan er tekin þannig upp: Fengum feldarstinga ok galt við fjörðhjörðu (= síld), þanns álhimins (= himinn dýpisins = ís) lendingar sendu oss útan; ek selda mest mínar hlaupsildr Egils gaupna (= örvar, Egill var bogmaður mikill) við mævörum sævar (= síld); hallæri veldr hváru.

Í vísu þessari kallar Eyvindur gjöfina feldarstinga (af stingi), það þýðir feldarnál, feldardálk eða brjóstnál, eins og slík nál er venjulega nefnd á vorum dögum. Nál Eyvindar hefur eflaust verið stór, en að hún hafi verið svo stór, að hann hafi eigi getað notað hana, kemur hvergi í ljós; má nærri geta, að Eyvindur hefur eigi gengið með nál, sem hefur vegið hálfan þriðja fjórðung. Ef silfrið í henni hefur verið svo mikið sem Snorri segir, þá hefði honum einnig orðið svo mikið úr henni, að hann hefði eigi þurft að kaupa síld fyrir örvar sínar líka, heldur fengið næga síld fyrir nálina, þótt síldin hafi verið í háu verði. Um örvarnar hefði munað lítið í samanburði við 50 merkur silfurs; en Eyvindur getur þess að hann hafi keypt síld fyrir hvorttveggja. Frásaga Snorra um gjöfina kemur eigi heim við vísu Eyvindar; hún mun vera sögusögn, sem styðst við vísuna, en hefur aukist mjög í meðferðinni, eins og fleiri þess háttar sagnir. Það er næsta ótrúlegt, að hver bóndi hafi gefið „skattpenning", er stóð „þrjá penninga silfurs vegna". Þótt bændur kunni að hafa samþykt slíkt á alþingi, eru þó engin líkindi til að þeir hafi gefið allir og enginn skorist úr leik, eins og Björn M. Ólsen minnist á. Það er einnig ólíklegt að allir hafi gefið jafnt, en Snorra þykir gaman að því stundum, at láta einstaka atvik fara Íslendingum mannalega úr hendi. Bændum mun eflaust hafa þótt kvæðið launað, þótt minna væri en 50 merkur silfurs.

Gjöf Íslendinga sýnir að þeir kunnu á þeim tímum að launa, ef þeim var sómi sýndur, en að taka sögusögn Snorra um stærð gjafarinnar góða og gilda og byggja jafnmikið á henni sem B. M. Ó. hefur gert, er sem að reisa hús á sandi. Slíka áætlun má eigi skoða annað en það sem hún er, skarpleg tilraun til að leiða áætlun út af litlum rökum, sem eigi er byggjandi svo mikið á. Slík áætlun hlýtur því ávalt að svífa í lausu lopti, hve vel sem hún er gerð, af því að grundvöllurinn er svo veikur, margfalt veikari, en ef farið er eftir þeim upplýsingum, sem eru í Landnámu og sögunum, og eptir sennilegum hag manna og ástæðum. Björn M. Ólsen hefur líka sjálfur sjeð, að þessi áætlun hans stendur á völtum fótum, og er miklu óvissari en áætlanir hans um mannfjöldann í lok 11. aldar og 1311, sem eru bygðar á þingfararkaupsbændatalinu og skattbændatalinu frá þeim tímum. Það er hvorttveggja grundvöllur, sem byggja má á, enda hefur Björn M. Ólsen gert það vel; áætlun hans um mannfjöldann 1311 er einkum gerð með miklum skarpleik, og er fróðleg og ítarleg.

Til þess að fá glöggara yfirlit yfir ferðirnar og samgöngurnar er best að skipta þjóðveldistímanum í þrjú tímabil:
1. söguöldina (930—1030),
2. fríðar- og rit-öldina (1030—1200) og
3. Sturlungaöldina (1200—1264).

---

## Fyrsta tímabil, söguöldin
### 930—1030.

### Fyrsti þáttur. Ferðir Íslendinga til annara landa.

I.

Víkingaöldinni lauk á fyrri hluta 11. aldar um það leyti sem ný kynslóð var komin upp, eptir að kristnin hafði verið í lög tekin á Norðurlöndum. Hvergi eru umskiptin gleggri en á Íslandi, því að þar fellur saman endalok sögualdarinnar og víkingaldarinnar 1030. Þá er eins og skipti um á leiksviði. Sögurnar þagna. Sögumennirnir og sagnaritararnir hafa eigi skemt sjer við söguefni frá yngri tímum, sem stóðu þeim nær, eins og frá hinum fornu tímum fyrir 1030. Það var of ungt til þess að leika sjer með og hafði eigi gengið margra kynslóða í milli í arfsögnum og sögusögnum, eins og allar sögurnar af vígaferlunum og deilunum á söguöldinni. En vígaferlin hafa líka minkað að mun um þetta leyti. Margir hafa hugsað um það að koma upp kirkjum hjá sjer, og mikið verkefni, sem hafði eigi hátt, var þar fyrir höndum. Fyrir því er það eins og almenn kyrð og friður komist á í landinu eptir þetta ár.

Í fornsögunum er getið mjög opt um utanferðir Íslendinga, en venjulega er það mjög stutt. Þó er nokkrum sinnum sagt ítarlega frá ferðum þeirra, ef þeir fóru í víking eða lentu í bardaga, eða dvöldu hjá höfðingjum og merkilegt bar við. Sögurnar segja frá æfi einstakra manna, sjerstaklega hreystiverkum þeirra og afrekum, mannraunum og vígaferlum. En söguritararnir hafa eigi haft það fyrir markmið að lýsa utanferðum manna, þýðingu þeirra og áhrifum. Sögurnar eru áreiðanlegastar, þá er þær segja af mönnum á

Íslandi eða í Noregi, en þá er kemur til annara landa, voru Íslendingar þar öllu miklu ókunnari, en heima hjá sjer eða í Noregi, og sögur þeirra eru því ófullkomnari, minni og óáreiðanlegri af öllu því, sem gerðist í fjarlægari löndum en í Noregi. Sama er að segja af ferðum Íslendinga. Sumar sögur af víkingaferðum þeirra eru mjög óáreiðanlegar. Þannig má telja víst að frásaga Njálu um utanferð Gunnars á Hlíðarenda sje að miklu eða mestu leyti tilbúningur, rjett eins og vísurnar, sem sagan leggur honum í munn.[1]) Það mun aptur á móti að líkindum mega telja áreiðanlegt, að Gunnar hafi farið utan og í víking (í austurveg), og eignast góð vopn og framast í ferðinni. Sagan af víkingaferðum hans, bæði bardögunum og Tófa, minnir á samskonar sagnir í sumum riddarasögunum eða öðrum ósönnum fornum sögum. Sagan segir einnig að Gunnar hafi lagt hug á Bergljótu frændkonu Hákonar Hlaðajarls Sigurðssonar og að jarl hafi viljað gefa honum hana, og minnir það á svipaða sögu í Laxdælu um Kjartan og Ingibjörgu Tryggvadóttur. Er áreiðanlega enginn fótur fyrir þessu í Njálu. Bergljót frændkona jarls, sem væri gjafvaxta á þessum árum, er einnig alveg ókunn, en jarl átti dóttur, sem Bergljót hjet, mjög nafnkunna konu, er átti Einar þambaskelfir. Hún fæddist hjer um bil á þessum árum eða litlu síðar. Höfundur Njálu hefur vitað, að hún var til og nákomin Hákoni jarli, en honum hefur eigi verið nógu kunnugt um aldur hennar. Saga þessi hefur verið búin til og sögð, til þess að gera sæmd Gunnars sem mesta.

Sumt í sögu Eglu af hernaði Egils Skallagrímssonar á Kúrlandi er líka ótrúlegt og svipað ævintýri; og það má geta nærri að margt hefur eigi orðið með þeim atvikum eða alveg á þann hátt sem segir í sögunum, svo sem t. a. m. hólmganga Bjarnar Hítdælakappa austur í Garðaríki.[2]) Af vísu einni má sjá, ef hún er sönn og eptir Björn sjálfan, að hann hefur legið í tjaldi við fjórða mann og eitthvað unnið til frægðar.

En þó að margt sje skakt í sögunum og eigi síst af utanferðum manna, má þó fá af þeim glögga hugmynd um

---

[1]) Nj. kap. 28—32. [2]) Eg. 140—144; Bjarn. 9—11.

söguöldina, skapferli og æfi Íslendinga og um ferðir þeirra utanlands og innan. Af því að hinar fornu Íslendinga sögur eru venjulega frumheimildir, vantar optast nær hin nauðsynlegu tæki til þess að rannsaka þær og sjá fyllilega, hvað satt er í þeim, og til þess að geta leiðrjett einstök atriði í þeim. Þó má mjög opt bæði með innri rannsókn og með því að bera þær saman við útlend heimildarrit finna villur í þeim, þótt engin tök sjeu til þess að setja hið rjetta í staðinn. Stundum eru mótsagnir eða tvennar sagnir í sögunum, og stundum ber handritunum eigi saman; er þá auðsætt að annaðhvort hlýtur að vera rangt. Frumritin af sögunum eru týnd fyrir löngu og engin þeirra er til nema í afskriftum. Hinar elstu þeirra eru á skinni frá 13. og 14. öld, en sumar þeirra eru yngri og nokkrar að eins frá um 1700. Slíkar afskriftir eru þó venjulega ritnar eptir skinnhandritum, sem hafa verið miklu eldri. Ýmsar vitleysur hafa komist inn í sögurnar, þá er afskriftirnar af þeim hafa verið teknar, og eru slíkar villur eigi söguhöfundunum að kenna. Stundum juku líka afskrifararnir ýmsum köflum inn í sögurnar eða skutu inn setningum hjer og hvar, er þeir afrituðu þær; stundum skrifuðu þeir rangt, eins og eðlilega getur komið fyrir, eða þeir misskildu sumt og breyttu því hinu upphaflega til þess að reyna að leiðrjetta það.

En þó að ýms einstök atriði í sögunum sjeu skökk eða röng um ferðir Íslendinga víðsvegar um Evrópu, gefa þær þó glögga hugmynd um, hve víðförulir þeir voru og í hve fjörugu sambandi þeir stóðu við umheiminn. Meginþráðurinn, kjarninn eða aðalatriðið í munnmælum þeim og arfsögnum, sem geymst hafa, er venjulega rjett.

Á síðari hluta 13. aldar tók sagnaritun Íslendinga að hnigna, einkum eptir að Sturla Þórðarson hætti að rita sögur. Þá tóku menn að rita skröksögur eða skáldsögur af sumum Íslendingum, sem höfðu verið uppi í fornöld, og um þá atburði, sem á daga þeirra höfðu drifið. Ein hin merkasta af þess konar sögum er saga Finnboga hins ramma. Hún er samin seint á 13. öld og er til í skinnhandriti frá um 1330. Bæði aðalmaðurinn í sögu þessari og flestir aðrir þeir Íslendingar, sem nefndir eru í sögunni, hafa verið til. Þó saga þessi sje eigi að öllu ómerkileg í bókmentasögu vorri

eða menningarsögu, er þó eigi hægt að taka tillit til hennar um það efni, sem hjer ræðir um. Mjög lítið mark er að Svarfdæla sögu og jafnvel að Harðar sögu og Hólmverja í máli þessu, því að líkt er farið um þær sem Finnboga sögu, þótt þær kunni að vera litlu betri. Sama er að segja um Þorleifs þátt jarlsskálds, Brandkrossa þátt, Þorsteins þátt uxafóts o. fl. Þórðar sögu hreðu og Kjalnesinga sögu má sleppa alveg, því að þær eru eigi sannsögulegar, og jafnvel að öllu leyti skáldsögur. —

Hjer verður nú þeirri skipun haldið, að í hverjum kafla eða tímabili verður fyrst skýrt frá utanferðum Íslendinga og síðar frá siglingum útlendinga til Íslands. En til þess að fá glöggara yfirlit yfir ferðirnar, verða þær flokkaðar eptir tegund þeirra og tilgangi, að því leyti sem það er hægt. Opt er svo lítið af þeim sagt, að það er alveg ómögulegt. Stundum er það að eins eitt einasta atvik, ein setning eða eitt orð, sem sýnir að sá eða sá maður hefur farið utan eða komið til Íslands; er þá einfaldast að telja slíka menn fyrir sig. En stundum er það efasamt undir hvern flokk eigi að telja menn, af því að þeir fóru utan í ýmsum erindum.

Síðast í hverjum kafla verður getið um skip og farmenn eða ferðamenn, sem efasamt er um hverrar þjóðar voru. Þar verður og bent á ýmsar upplýsingar, sem bera vitni um siglingu til landsins.

## II.

## Íslenskir kaupmenn.

Í sögunum er opt getið um kaupmenn, en nálega ávalt í kaupferðum. Æfi og atvinna kaupmannanna var harðla ólík því, sem nú tíðkast. Þeir menn, sem á söguöldinni vildu gera kaupskap að atvinnu, urðu að ferðast sjálfir með vörur sínar og selja þær á kaupstefnum og kaupa aptur þær vörur í staðinn, er þeir girntust að fá. Kaupskapur var því bæði erfiður og hættulegur á víkingaöldinni, því að ávalt mátti búast við að mæta víkingum eða öðrum ránsmönnum, sem

lágu úti á vegum og stigum fyrir ferðamönnum;[1]) var þá venjulega eigi nema um tvent að velja, annaðhvort að láta alt fjemætt af hendi við slíka menn eða verja sig með vopnum sínum og reyna hvorir meira mættu. Það kom opt fyrir að kaupmenn unnu sigur, eins og sjá má af sögum vorum, ef þeir áttu eigi við ofurefli liðs, bæði af því að í kaupferðir völdust opt hraustir menn, og einnig stundum af því að hin mestu hreystimenni, sem vildu afla sjer fjár og frama í öðrum löndum, höfðu tekið sjer far með kaupmönnum. En með því að ástandið var þannig og friðhelgi var engin á faranda vegum, fóru menn venjulega eigi í kaupferðir nema á yngri árum. Þá er menn eltust, ljetu þeir af kaupferðum, reistu bú og settust um kyrt. Á þeim tímum, er menn áttu fje sitt og fjör undir hreysti sinni og vopnum, var það eigi fýsilegt fyrir aldraða menn að eiga í kaupferðum.

Eins og fyr er sagt fóru ýmsir landnámsmenn í kaupferðir til annarra landa og synir sumra þeirra hafa eflaust lagt kaupskap fyrir sig og verið í kaupferðum nokkur ár, þótt þess sje að eins getið um tvo eða þrjá. En eins og landsmenn byrjuðu á landnámsöldinni að sjá sjer sjálfir fyrir nauðsynjum sínum, eins hjeldu þeir áfram á söguöldinni. Landsmenn fóru þá sjálfir utan á kaupförum sínum, seldu vörur, sem þeir höfðu afgangs, og keyptu við, korn og aðrar nauðsynjar. Skipakost áttu landsmenn þá nógan, því að þeir höfðu tekið skip landnámsmannanna að erfðum, að því leyti sem þau höfðu eigi gengið úr sjer. Þannig hlaut Högni Ingimundarson skipið Stíganda úr skiptum eptir föður sinn. Hann var farmaður og var um hríð í förum með Stíganda, en hann varð eigi gamall, því að hann fjell í Kárnsnesi í Vatnsdal, er hann barðist þar með bræðrum sínum við þá Má Jörundarson og Þorgrím skinnhúfu.[2])

Höskuldur Kollsson, er síðar varð nafnkendur höfðingi, sonur Dala-Kolls landnámsmanns, var erlendis á yngri árum, og að sögn Laxdælu hirðmaður Hákonar konungs Aðalsteinsfóstra. Sagan segir, að hann væri jafnan sinn vetur

---

[1]) Hallfr. 7/100—101; Hkr. II, 141/333—335. [2]) Vatn. 43, 47—48; Ldn. 180.

hvort með Hákoni konungi eða að búi sínu; en setning þessi er auðsjáanlega eitt af þeim sögustílsorðtækjum, sem koma fyrir öðruhverju í sumum sögunum, einkum þeim, sem eigi eru til í hinni upphaflegu mynd sinni og hafa verið auknar og endursamdar á síðari hluta 13. aldar, eða færðar þá fyrst í letur. Handritin af Laxdælu[1]) benda líka á að setningu þessari hafi verið skotið inn í söguna. Höskuldur hafði eptir fráfall föður síns tekið við búi mjög ungur að aldri, og er skýrt nánar frá einni kaupferð, er hann fór, líklega um 937—940. Hann var þá kvongaður maður fyrir nokkru, og keypti hann skip af hjaltneskum manni, er uppi stóð í Blönduósi. Erindi hans var að sækja húsavið. Hann tók land á Hörðalandi, að sögn sögunnar þar sem kaupstaðurinn Björgyn var síðar reistur. Hann setti upp skip sitt og var með frændum sínum um veturinn. Sumarið eptir fór hann austur í Brenneyjar, sem eru í mynni Gautelfar. Sagan segir að Noregskonungur færi í stefnuleiðangur þangað þriðja hvert sumar, til þess að hitta þar höfðingja og dæma í þeim málum, er skotið var undir hann. Það þótti skemtiför að sækja fund þennan, og Brenneyjar voru rjett við landamæri Danmerkur og Svíþjóðar, eins og þau voru á þeim tímum, svo að menn komu þangað af öllum Norðurlöndum og víðar að, til þess að sækja þangað kaupstefnu. Sagan segir, að Höskuldur hitti þar marga frændur sína, þá sem voru í Danmörku, »Þar var skemtan mikil, drykkur og leikar og allskyns gleði,« Búðir og tjöld voru þar mörg. Eitt tjald skrautlegt var þar fjarri öðrum búðum. Það átti auðugasti kaupmaðurinn á kaupstefnunni, Gilli hinn gerðski. Nafnið Gilli er írskt eða keltneskt, en kenningarnafn hans bendir á, að hann hafi átt heima austur í Garðaríki eða verið þar lengi í kaupferðum. Höskuldur gekk í tjald hans og kvaðst vilja kaupa ambátt nokkura. Sagan segir að Gilli hafi þá svarað: »Þar þykkizk þér leita mér meinfanga um þetta, er þér falið þá hluti, er þér ætlið mik eigi til hafa; en þat er þó eigi ráðit, hvárt svá ber til.« Um þvera búðina var fortjald og lypti Gilli því, og sýndi Höskuldi tólf konur, er sátu þar fyrir innan. Höskuldur keypti þar ambátt

---

[1]) Útgáfa dr. Kålunds bls. 19, sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. II, 445.

eina, er honum leitst fríð sýnum, fyrir þrjár merkur silfurs. Reyndist svo síðar að þetta var írsk konungsdóttir, Melkorka dóttir Mýrkjartans (Muircertach) konungs, og hafði hún verið hertekin á Írlandi.

Höskuldur fann Hákon konung og fór með honum til Víkurinnar. Konungur fjekk honum húsavið og hjelt Höskuldur síðan til Íslands.[1])

Ölvir hinn mjófi Atlason, Hásteinssonar, rjeðst í kaupferðir þegar á unga aldri, segir Flóamanna saga; síðan rjeðst hann í hernað, en hann kom eigi aptur til Íslands, því að hann gerðist bóndi í Sogni. Þetta á að hafa verið á ríkisárum Eiríks konungs blóðaxar.[2]) Ölvir var bróðir Þórðar dofna Atlasonar; í Landnámu er hann eigi nefndur, og segir eigi af honum meir. Aptur á móti er ítarlega sagt af öðrum kaupmanni, Þorsteini fagra Þorfinnssyni, sem var uppi um sama leyti og mörg ár í förum milli Íslands og útlanda (um 935—950). Hann átti skip og græddi fje, en eitt sinn tók hann annan Íslending, að bæn hans, til fjelags við sig, og ljet hann fá hálft skip sitt. Maður þessi var Einar Þórisson frá Atlavík við Lagarfljót. Hann reyndist Þorsteini illa, enda varð hann að láta lífið fyrir svik sín og ódrengskap. Að lokum ljet Þorsteinn af kaupferðum, seldi skip sitt og kvongaðist. En er hann hafði búið í átta eða níu ár, varð hann að fara af landi brott með alla fjölskyldu sína til þess að forða sjer og sínum undan hefnd. Hann keypti þá tvö skip til fararinnar.[3])

Rjett fyrir miðja 10. öld er getið um tvo Íslendinga, sem voru í förum og fóru alla leið til Miklagarðs. Annar þeirra var Eyvindur Bjarnason frá Laugarhúsum í Hrafnkelsdal í Norður-Múlasýslu, en hinn Þorkell Þjóstarsson úr Vestfjörðum. Eyvindur er nefndur farmaður og hann flutti vörur á 16 hestum frá skipi, er hann kom út eptir sjö vetra brottveru (um 943—950). Hann var þá stýrimaður. Skósveinn hans var íslenskur, en hinir sem með honum voru, er hann fjell, virðast hafa verið útlendir menn.[4])

Um miðja öldina eru nefndir nokkrir Íslendingar, sem voru í förum eða höfðu verið í förum. Einn af þeim var

[1]) Laxd. 19, 25—33. [2]) Fló. 8/126 [3]) Þorst. hv. 6—11, 14—8. [4]) Hrafnk. 97, 127—132, 109—110, 136.

Þórarinn rammi Álfsson í Þambardal (í Strandasýslu). »Hann hafði lengi verit í förum«, segir sagan, »ok svá farsæll at hann kaus sér jafnan höfn þar, er hann vildi«.[1]) Þorsteinn bolstöng, systurson Áskels goða, hefur verið kaupmaður. Hann kom haust eitt út í Húsavík, átti í skipi og varning, bæði ljerept og klæði. Þá er hann hafði selt vörur sínar og keypt aðrar, fór hann utan sumarið eptir.[2])

Önundur sjóni Ánason frá Ánabrekku hafði opt verið í förum landa í milli, áður en hann fór utan með Agli Skallagrímssyni (um 950). Hann var nokkuð eldri en Egill; hann mun hafa verið farmaður á yngri árum.[3])

Eptir miðja 10. öld er getið ýmsra íslenskra kaupmanna eða farmanna. Glúmur Óleifsson frá Varmalæk í Borgarfirði hafði lengi verið í förum, áður en hann kvongaðist Hallgerði Höskuldsdóttur (um 960).[4]) Þorleikur Höskuldsson var að sögn Laxdælu farmaður mikill og með tignum mönnum, þá er hann var í kaupferðum, áður en hann settist í bú. Hann var einnig í víkingu. Bárður Höskuldsson bróðir hans var einnig farmaður.[5]) Samtíða þessum kaupmönnum af Vesturlandi er getið um Arnór rauðkinn Steinólfsson norður í Eyjafirði, er var lengi í förum.[6]) Vjesteinn Vjesteinsson, er síðast átti bú undir Hesti í Önundarfirði, var og í förum um þetta leyti. Hann er sagður góður fardrengur. 961 fór Gísli Súrsson, mágur hans, utan með honum. Þeir voru úti meir en hundrað dægra og brutu skip sitt um veturnáttaskeið við Hörðaland. Þeir fengu þá hálft skip hjá manni einum, er Skegg-Bjálfi hjet, og fóru með honum suður til Danmerkur. Þar voru þeir í Vjebjörgum (Viborg) um veturinn. Vjesteinn var í fjelagi við norrænan mann, er Sigurður hjet. Hann var þá vestur á Englandi og vildi slíta fjelag við Vjestein. Hann fór því þangað, en þeir Gísli og Bjálfi til Noregs og út til Íslands um sumarið. Settist Gísli í bú sitt en Bjálfi keypti hálft skipið af honum. Árið eptir kom Vjesteinn til Íslands með Norðmönnum nokkrum og var þá myrtur (963).[7])

---

[1]) Korm. 14/31 [2]) Reyk. 1/5—8 [3]) Eg. 67/ 246. [4]) Nj. 13/57. [5]) Lax. 25/87. [6]) Glúm. 11/32. [7]) Gísl. 4/10, 7/16—17, 8/17—18, 11—13/24—30.

Litlu seinna en þetta var er getið um Böðvar Þorsteinsson, bróður Halls af Síðu, í Noregi. Hann var þar á kaupskipi, sem hann átti, og flutti til Íslands Ólöfu Ásbjarnardóttur, ekkju Klypps hersis Þórðarsonar, og Guðrúnu Klyppsdóttur, dóttur hennar. Í biskupaættum segir að Guðrún giptist Einari Eyjólfssyni að Þverá. Ef marka má ættartölur þessar eins og líklegt er, bendir gipting þessi á að þetta sje satt, þótt sagt sje frá þessu í þætti, sem að miklu leyti er tilbúningur og ýkjur, og þótt Böðvar sje eigi nefndur í Landnámu.[1])

Kringum 975 er getið um tvo »fardrengi« fyrir norðan, Ólaf og Þorgaut. Þeir voru sekir. Það er ekkert sagt af kaupferðum þeirra. Útkoma þeirra virðist eigi heldur hafa vakið neina eptirtekt meðal manna, ef nokkuð má byggja á því, sem sagan segir, að þeir hafi getað sagt Víga-Skútu af ferðum sínum, það sem þeim sýndist, til þess að villa hann, er þeir komu til hans sem flugumenn. Ef það er líka satt, sem sagan segir, að þeir hafi getað sagt, að þeir væru frændur Skefils og bræðra hans, þá bendir það helst á að þeir hafi verið norskir.[2])

Á þessum árum var Þorleifur hinn kristni Ingileifarson í förum. Hann bjó í Krossavík í Reyðarfirði. Hann hefur tekið kristni erlendis á hinum fyrri siglingarárum sínum, en ekkert er kunnugt um ferðir hans fyr, en hann kom út í Vopnafirði. Hann átti þá skip með norrænum manni, er Hrafn hjet. Þá er hann var veginn, færði Þorleifur erfingjum hans fjárhlut hans[3]), og gáfu þeir honum sinn hlut í kaupskipinu. Sumarið eptir kom hann út í Reyðarfirði, og voru þá tveir menn suðureyskir með honum, og seldi hann þeim sinn hlut skips og settist síðan um kyrt í bú sitt.[4]) Eptir sögunni að dæma sýnist svo sem Þorleifur hafi eigi átt alt skipið, þá er hann kom út í Reyðarfirði,

---

[1]) Flat. I, 21, sbr. Hkr. I, 249—250, Fsk. 57. I Ísl.sögu minni II, 519, lín. 9, er y rangprentað í Klyppsdóttir. P. A. Munch, Hist. II, 32 nm. ætlar að ætt Klypps hersis sje tengd við íslenskar ættir til þess að gera þær dýrðlegri, en hann segir í ógáti að Ólöf, móðir Guðrúnar, hafi giptst Einari á Þverá og fyrir því verður tímatalið óeðlilegt; en hitt er eigi óeðlilegt að Einar hafi átt dóttur hennar, eins og segir í ættartölunum. [2]) Reyk. 22/109—111. [3]) Grg. Ia, 172—74, 229, Ib, 197—98, II, 73. [4]) Vápn. 4—5/29—34.

þótt svo virðist sem hann hafi eignast það alt, er hann fjekk hluta Hrafns í Noregi. Hann hefur þá aptur selt nokkurn hluta þess, er hann tók menn í fjelag við sig. En annars er þess eigi að vænta, að sögurnar geti skýrt nákvæmlega frá slíku. Stundum eru líka töluverðar mótsagnir í sögunum um þetta og sagt, að sá maður hafi átt hlut í skipi, sem hefur áður verið nefndur skipseigandi, eða þótt um hann hafi verið talað svo sem hann ætti einn skip.

Um 980 var Eldjárn hinn mildi Askelsson í förum og kom út á skipi sínu í Eyjafjörð. Hann var »farmaður mikill«. Víga-Glúmur gipti honum Þorlaugu dóttur sína, og fóru þau bæði þegar utan. Af útkomu þeirra segir eigi, en Þorlaug giptist þó aptur á Íslandi.[1])

Um þetta leyti var Ásmundur hærulangur Þorgrímsson lengi erlendis og í kaupferðum. Hann kvongaðist austur í Vík í Noregi, en er hann misti konu sína, rjeðst hann enn í kaupferðir og fór þá til Íslands (um 983). Hann hætti síðan siglingum og giptist að nýju; tók hann þá við bú föður síns að Bjargi í Miðfirði.[2])

Um sama leyti er getið um fleiri kaupmenn. Sigmundur Lambason var »farmaður mikill«. Hann kom út austur í Hornafirði og með honum sænskur maður, Skjöldur, er var fjelagi hans. Hann var með Gunnari Hámundarsyni, frænda sínum að Hlíðarenda um veturinn, en sumarið eptir var Sigmundur veginn og fjelagi hans fyrir illmæli um Njál og syni hans (um 979).[3])

Þóroddur nokkur af Meðalfellsströnd, nú Fellsströnd í Dalasýslu, var »farmaður mikill« og átti skip í ferðum. Hann sigldi kaupferð vestur til Írlands til Dyflinnar. Þá er hann sigldi úr Dyflinni til Íslands, hitti hann í óbygðri ey við norðurströnd Írlands menn Sigurðar jarls Hlöðvessonar í Orkneyjum. Voru þeir komnir af Mön og höfðu jarli mikið skattgjald að færa; þeir höfðu brotið skip sitt og báðu Þórodd flytja sig til Orkneyja, en hann þóttist eigi mega það, er hann var áður búinn til Íslandsferðar. Hann seldi þeim þá bátinn frá hafskipinu fyrir mikinn hlut af skattinum. Hjeldu þeir síðan bátnum til Orkneyja, en Þóroddur sigldi bátlaus

---

[1]) Reyk. 24/123, 25/126—27. [2]) Grett. 13/35—37. [3]) Nj. 41/169 o. ef.

til Íslands og tók land í Dögurðarnesi. Hann var síðan kallaður Þóroddur skattkaupandi. Þóroddur giptist um veturinn Þuríði hálfsystur Snorra goða, og tók við búi að Fróðá um vorið (um 981).[1])

Ari Másson á Reykhólum hefur átt kaupskip og líklega verið í förum. Hann fór utan (um 983) og varð »sæhafi til Hvítramannalands«. »Þaðan náði Ari eigi á brott að fara og var þar skírður.« Er þetta haft eptir Hrafni Hlymreksfara Oddssyni, sem lengi var í Hlymreki (Limerick) á Írlandi. Hrafn var fjórði maður í kvennlegg frá Steinólfi lága, og átti Vigdísi dóttur Þórarins fylsennis. Hann var einnig í frændsemi við Ara Másson, því að Þorbjörg systir Steinólfs lága var amma Ara. Voru þeir Hrafn þriðja og fimta[2]). Af þessu má ætla að Hrafn hafi verið í Hlymreki um aldamótin 1000. Þorkell Gellisson, föðurbróðir Ara hins fróða, hafði söguna eftir íslenskum mönnum, sem höfðu heyrt Þorfinn jarl († 1064) í Orkneyjum segja frá, að Ari hefði »kendur verið á Hvítramannalandi, og náði eigi brott að fara, en var þar vel virður«.[3])

Dr. *L. D. Scisco*, sagnfræðingur í Ameríku, hefur látið í ljós þá skoðun, að Ari Másson hafi komið einhvers staðar til vesturhluta Írlands og tekið þar kristni og verið þar hjá kristnum mönnum. Menn frá Hlymreki hafi sjeð hann, og sagan borist þaðan til Orkneyja. Hann ætlar að Hvítramannaland ef til vill þýði upphaflega Írland eða nokkurn hluta af því, og að það standi í sambandi við norska víkinga á Írlandi; Írar nefndu þá á 9. öld »finghoill«, er þýðir ljósir eða hvítir menn, en danska víkinga nefndu þeir »dubhghoill«, þ. e. myrkir eða svartir menn. Gæti því verið að Hvítramannaland væri þýðing á írsku nafni á norskum landshluta af Írlandi. Norðmenn áttu þar sumstaðar bygðir eða nýlendur. Þessi upphaflega merking var gleymd, þá er sögurnar voru ritaðar, segir dr. Scisco[4]), en það er óvíst hvort hún hefur nokkru sinni verið til.

---

[1]) Eyrb. 29/49—50. [2]) Ldn. 21/126, 22/129. [3]) Ldn. 22/129—130. [4]) Halvdan Koht, Norsk hist. Tidskrift 4. R. VI, 133—136. Ritgjörð dr. Sciscos, „The Tradition of Hvítramannaland" er prentuð í »American Historical Magazine« 1908, Vol. III, 379—388, 515—524. Það er eigi til á bókasöfnum hjer í Kaupmannahöfn.

Hins vegar er þessi skýring eigi mjög óeðlileg, þótt hún sje tæplega rjett. Aptur á móti er það rjett hjá dr. Scisco að gjöra greinarmun á því, sem íslenskir farmenn hafa sagt af ferðum sínum, og því, sem íslenskir sagnaritarar hafa bætt við sögur þeirra. Það er opt tilgátur að eins úr lausu lopti. Um Hvítramannaland hafa þeir bætt við í Landnámu, að sumir kalli það Írland hið mikla, og að það liggi vestur í hafi nærri Vínlandi hinu góða, en sex dægra sigling vestur frá Írlandi. *G. Storm* hefur skýrt þessar sagnir áður og er skýring hans betri.[1])

Siglingar og kaupferðir vestur um haf frá Íslandi voru eflaust meiri framan af öldum en sögurnar benda á. Nálega fimti hluti landnámsmanna hafði komið vestan um haf til Íslands, frá Írlandi, Skotlandi og Skotlandseyjum. Menn þessir fóru engu síður vestur um haf, er þeir þurftu að fara utan, en landnámsmenn þeir til Noregs, sem höfðu komið beint þaðan. En þá er sögurnar voru ritaðar, var mjög lítið orðið um skipseigendur á Íslandi. Flestir Íslendingar, sem fóru þá utan, tóku sjer far á norskum skipum. Þau gengu venjulega milli Noregs og Íslands. Önnur skip komu þá mjög sjaldan til Íslands; sigling var því mjög lítil þaðan til annara landa en Noregs. Leiðir nálega allra Íslendinga lágu þá til Noregs eða um Noreg, þótt ferðinni væri heitið til annara landa. Þetta hefur eflaust haft töluverð áhrif á sögusagnirnar og söguritarana sjálfa, og valdið því, að þeir hafa sagt Íslendinga fara optar utan þá leið, sem tíðkaðist á dögum þeirra, en hefur átt sjer stað í raun og veru. Þetta var því eðlilegra, þar sem langur tími var liðinn, og menn vissu opt eigi áreiðanlega hvaða leið ýmsir menn höfðu farið á söguöldinni. Þess vegna lá það svo beint fyrir söguriturunum að segja um ýmsa Íslendinga á þeim tímum, að þeir hefðu haldið fyrst til Noregs og þaðan vestur um haf (eða til annara landa, ef því var að skipta), og síðan sömu leið aptur, þótt þeir hefðu eigi gert það, heldur farið beina leið milli Íslands og Vesturhafslandanna, eins og Þóroddur skattkaupandi gerði og ýmsir fleiri, svo sem Hrafn Hlymreksfari og Þórir Englandsfari. Þór-

[1]) G. Storm, Aarb. f. n. Oldkh. 1887, bls. 355—362, sbr. Ísl. sögu mína, II, 285—286.

ir mun hafa fengið auknefni sitt af því að hann sigldi til Englands, á líkan hátt og Hrafn fjekk nafn sitt af Hlymreki. Þóris er getið í Austfjörðum í byrjun 11. aldar; hafði hann þá komið úr kaupferð, og verið á vist með Brodd-Helga segir sagan, en það er rangt, því að Brodd-Helgi var þá fallinn fyrir mörgum árum; en Bjarni sonur hans bjó þá að Hofi í Vopnafirði. Þórir seldi varning sinn þar í sveitum, og keypti nokkuð Ásbjörn vegghamar. Hann var óreiðumaður mikill og sveik Þóri um verðið. Þórir fór þá með Kórekssonum stefnuför í Njarðvík, þar sem Ásbjörn átti heima, en var veginn í þeirri ferð (um 1004).[1])

Sjaldan eða aldrei hafa siglingarnar milli Íslands og annara landa verið meiri en í lok 10. og byrjun 11. aldar. Margir kaupmenn eru þá nefndir, enda eru margar sögur til, sem gerast á þeim tímum.

Þórarinn Egilsson frá Egilsstöðum í Vopnafirði »var kallaður vænstur maður í förum og görvilegastur«. Hann kom út í Vopnafirði og var stýrimaður. Hann var um veturinn í Krossavík. Sumarið eptir fór hann utan og er hann kom út aptur, fór hann á Egilsstaði til vistar (um 983—985). Hann var síðar að vígi Brodd-Helga og barðist með Þorkeli Geitissyni í Böðvarsdal (989).[2])

Þorkell Geitisson fór utan og »var jafnan landa í millum, þegar er hann hafði aldur til þess«. Hann var eigi á Íslandi, er faðir hans var veginn (um 987), en hann kom út nokkru síðar og tók þá við búi föður síns; er svo að sjá sem Þorkell hafi verið í förum á árunum um 980 til 987.[3])

Litlu síðar var frændi Þorkels, Þiðrandi Hallsson, í förum; hann byrjaði »þegar hann hafði aldur til« (um 990) og kom hann út í Berufirði. Síðan var hann veginn um haustið, en hann var svo ungur að efasamt er, hvort megi telja hann með kaupmönnum.[4])

Af Suðurlandi er nefndur Þórólfur Loptsson, sonur Lopts hins gamla Ormssonar í Gaulverjabæ; hann er í Eyrbyggju kallaður Eyra-Loptur. Þórólfur átti skip (knörr) og

---

[1]) Gunn.s. 1—2/195—200. [2]) Vápns. 11/49—50. sbr. Ísl.sögu mína II, 224—226. [3]) Vápn.8/47, 13/57—58. [4]) Fms. II, 192—195; Flat. I, 419, sbr. Ísl. s. mína II, 335—337.

barðist ásamt Guðleifi Guðlaugssyni við Gyrð son Sigvalda jarls í Meðalfarssundi, milli Fjóns og Jótlands. Er svo að sjá sem Þórólfur hafi um hríð verið í förum og komið með vörur út á Eyrum.[1])

Bjarni Herjólfsson hjet annar farmaður af Suðurlandi, er var uppi um sama leyti sem Þórólfur. Herjólfur faðir hans bjó á Drepstokki á Eyrum, milli Einarshafnar og Óseyrarness.[2]) Bjarni fór utan ungur að aldri og varð gott til fjár; eignaðist hann skip og fór milli landa. Síðasta veturinn, sem hann var í Noregi, fór faðir hans til Grænlands með Eiríki rauða (um 986) og nam þar land á Herjólfsnesi. Þá er Bjarni kom út á Eyrum um sumarið og spurði að faðir hans hefði farið til Grænlands um vorið, hjelt hann þangað. Á leiðinni fengu þeir um hríð norrænur og þokur; og segir sagan, að þeir hafi sjeð ókunn lönd skógi vaxin. Að lokum fundu þeir Grænland og tóku land á Herjólfsnesi. Um árið 1000 fór Bjarni til Noregs; sagði hann þá frá löndum þeim, sem hann hafði sjeð, og segir ein sagan, að Leifur hafi þá farið að leita landa þessara. Hvað satt er í sögum þessum, er nú eigi hægt að segja með vissu, en eigi er það svo ólíklegt, að Bjarni hafi sjeð ókunn lönd á leið sinni til Grænlands, þótt margt sje eflaust óáreiðanlegt í Grænlendingaþætti um fund Norður-Ameríku.[3])

Á Norðurlandi er getið um nokkra farmenn á þessum árum. Má fyrstan þeirra nefna Steinólf Arnórsson. Hann var eyfirðskur, sonur Arnórs rauðkinns farmanns, sem fyr er nefndur, og hafði veturvist í Eyjafirðinum, er hann kom út til landsins. Hann var veginn í Möðrufelli af Arngrími Þorgrímssyni, frænda sínum (um 983).[4])

Vigfús Víga-Glúmsson var mikill farmaður. Hann var mörg ár í förum og ýmist í Noregi eða á Íslandi. Hann mun fyrst hafa farið utan um 980. Hann barðist með Hákoni jarli í Hjörungavogi (um 986), og nokkrum árum síðar getur hans aptur hjá Hákoni jarli (um 993—994). Hann barð-

---

[1]) Ldn. 80; Hksb. 24; Eyrb. 64/119; Nj. 119/609, 139/747. [2]) Kålund, Isl. I, 177—78. [3]) Grænl. þ. 52—56 (Flat. I, 430—432, 538—539). Gustav Storm ætlar að alt um ókunnu löndin sje markleysa, og hefur fært góð rök að því í »Studier over Vinlandsrejserne“, Aarböger f. n. Oldkh. 1887 bls. 308—313. [4]) Glúm. 20—21/57—59.

ist einnig í stafni á Járnbarðanum með Eiríki jarli við Ólaf Tryggvason í Svoldarbardaga, sem svo er nefndur (1000).[1])

Hallvarður Arnórsson úr Reykjahlíð átti skip með Norðmanni einum, er Sigurður hjet. Um 990 komu þeir út í Húsavík. Sigurður var svo óheppinn að selja ójafnaðarmanni einum Sölmundi Viðarssyni að Gnúpum nokkuð af varningi sínum. Hann sveik hann um verðið, og er Sigurður fór stefnuför til hans, vá Söxólfur Viðarsson hann.[2])

Af Vesturlandi var Einar Þorgeirsson frá Þorgeirsfelli í Staðarsveit. Hann var í siglingu landa í milli á þessum árum og segir sagan, að honum tækist það vel, og væri jafnan sinn vetur hvort á Íslandi eða í Noregi. Hann er kallaður »góður fardrengur og auðnumaður mikill«. Honum græddist fje, og fór hann með varning sinn út eptir Snæfellsnesi og seldi.[3])

Nú er komið fram á ríkisár Ólafs konungs Tryggvasonar (995-1000), og er þá getið margra íslenskra manna í Noregi með konungi og í sambandi við kristniboð hans. Ef farið er eptir tímatali, má nefna fyrst Þóri Skeggjason í Garði eða Miklagarði í Kelduhverfi, óvin Grettis Ásmundarsonar. Hann var farmaður og var í siglingum á yngri árum, en síðan settist hann um kyrt og gerðist höfðingi. Í Grettlu segir að Þórir væri í Noregi um sumarið, er Ólafur konungur kom vestan af Englandi; er þar átt við Ólaf

[1]) Glúm. 17/49, 18/51 sbr. 103; Fsk. 20/94—98; Hkr. I, 41/333; Frís 123; Fms. XI, 129, 133, 158; Fms. I, 177; Flat. I, 189, 190; Glúm 96; Fms. II, 65; Flat. I, 333; Oddr 356; Fms. II. 320; Flat. I, 482. Adam frá Brimum segir að bardagi þessi hafi staðið í Eyrarsundi nálægt Helsingjaborg, og eptir því hafa sumir sagnfræðingar farið. Nú hefur Lauritz Weibull ritað um Svoldarbardaga og ætlar hann að síðasta orusta Ólafs Tryggvasonar hafi staðið í Eyrarsundi sbr. Kritiska undersökningar i Nordens historia. Lund 1911. Finnur Jónsson hefur svarað því í „Historisk Tidsskrift", 8. Række[6], III, 184—194, og sýnt á hve veikum rökum það er bygt. Er hjer sem optar, að góðar heimildir vantar; en flestar þær, sem til eru, eru miklu yngri en viðburðirnir og yngstu heimildirnar segja mest af bardaganum, en þær eru eigi áreiðanlegar. Af samtíðarskáldum segir Halldór úkristni að Eiríkur jarl hafði farið úr Svíþjóð suður til bardaga, og hann hafi verið »at hólmi«. Skúli Þorsteinsson, sem var í bardaganum með Eiríki jarli, segir í kvæði, er hann orti á efri árum sínum, að hann hafi verið »fyr Svöldrar mynni« og »fyr Svöldr«; en hvað var »Svöldr« og hvar? [2]) Ljósv. 1/115 o. ef. [3]) Eir. r. 10—12.

Haraldsson, en það er rangt. Aptur á móti kemur það heim við Landnámu að hann hefi verið í Noregi, þá er Ólafur Tryggvason kom þangað (995), því að Sigurður biskup hinn ríki, hirðbiskup Ólafs konungs, vígði fyrir Þóri knör, sem hann hafði látið gjöra í Sogni, og skírði Þóri. Grettis saga segir, að Þórir kæmi sjer þá í kærleika við konung og biskup, og benda þessi atvik á að það geti rjett verið. Eptir þetta mun Þórir hafa farið til Íslands 996, en eigi er meira kunnugt um siglingar hans. Af knerri hans voru brandar fyrir dyrum síðar í Miklagarði fram um daga Brands biskups Sæmundssonar. Segir í Grettlu að Þórir ljeti höggva upp knörrinn, þá er honum leiddust siglingar, og má vera að það sje einungis ályktun, sem dregin hafi verið af því, að sagt var að dyrabrandarnir væri af knerrinum. Sagan segir að Þórir lifði fram yfir 1031.[1])

Hallfreður Óttarsson, vandræðaskáld, frá Grímstungum í Vatnsdal, komst einnig í kynni við Ólaf Tryggvason á fyrsta eða öðru ríkisári hans. Hann fór utan sökum óspekta um 988, og sótti þá á fund Hákonar jarls Sigurðssonar. Sumarið eptir fór hann til Íslands og var síðan í förum nokkur ár. Eitt sumar er hann kom af Íslandi, spurði hann við Agðanes, í Þrándheimsfjarðarmynni, að Hákon jarl væri drepinn og að Ólafur Tryggvason væri kominn til ríkis. Eptir Hallfreðar sögu að dæma á þetta að hafa verið um haustið 995; ef það hefur verið sumarið eptir, sem einnig má vera, hafa þeir Hallfreður farið frá Íslandi, áður en skip komu þangað af Noregi.[2]) Hallfreður tók skírn og var með Ólafi konungi um veturinn, en sumarið eptir fór hann kaupferð »austur« eða suður til Haleyrar, syðst á

---

[1]) Ldn. 230—231; Hksb. 214/83; Grett. 38/143—144, 82/287, 84/291. [2]) Tímatalið í sögu Ólafs Tryggvasonar er óvíst og greinir sögurnar mjög á um það. En líklega er tímatal Odds munks rjettara um ríkisár Ólafs en tímatal Snorra Sturlusonar. Eptir frásögn Odds hafði konungur höfuðstað sinn á Hlöðum tvo fyrstu veturna (995—996 og 996—997) og kemur það heim við Hallfreðar sögu, Oddr.[2] 24, 25, 28; Oddr., Fms. X, 279; Oddr.[3] (Christjania 1895) 47. Snorri segir að Ólafur konungur væri suður í landi, í Víkinni, á fyrstu ríkisárum sínum, Hkr. I, 51/357, 53/360—363, 59/369—370. Um tímatal þeirra sbr. G. Storm, Om Aarstallet for Trondhjems Grundlæggelse, Trondhjems Festskrift 1897, og A. Bugge í Aarb. f. n. Oldkh. 1910 bls. 19 o. ef.

Skáni (= Skáneyri).[1]) Þá fór hann norður aptur í Víkina og braut þar skip sitt. Þá fór hann til Konungahellu og var þar á kaupstefnu. Þar hitti hann bónda einn af Gautlandi, sem Auðgísl hjet og kominn var vestan af Englandi. Hallfreður gerðist fylgdarmaður hans austur á Gautland. Í þeirri ferð var Auðgísl drepinn af stigamanni einum, en Hallfreður komst í lífshættu mikla, en fjekk þó drepið stigamanninn. Á Gautlandi giptist hann ekkju Auðgísls. Eptir tveggja eða heldur þriggja ára veru fór hann þaðan til Noregs á fund Ólafs konungs Tryggvasonar og var með honum um veturinn 999—1000. Þá fór hann til Íslands, en næsta sumar sigldi hann aptur til Noregs (1001) og var með Þorleifi spaka um veturinn. Hann undi þá hvergi eftir fall Ólafs Tryggvasonar, og var jafnan í förum. 1002 eða 1003 er hans getið í Leiruvogi fyrir neðan heiði (í Kjósarsýslu) og um 1005 var hann í Noregi og flutti þá út Gunnlaug ormstungu. Sumarið eptir fór hann aptur til Noregs. Hann fór til Svíþjóðar að vitja Auðgísls sonar síns. Sagan segir, að hann hafi ætlað sjer að staðfestast þar, en áður vildi hann fara til Íslands, að sækja fje sitt Hann andaðist í hafi, og er dauðaár hans óvíst. Eptir sögu hans má ætla að það hafi verið annaðhvort um 1008 eða öllu heldur um 1014, því að Hallfreður sonur hans var þá orðinn töluvert þroskaður, en hann var fæddur 999.[2])

Kálfur Ásgeirsson, sonur Ásgeirs æðikolls Önundarsonar, var Húnvetningur eins og Hallfreður vandræðaskáld og í förum um sama leyti sem hann. Hann átti einnig kaupskip, sem hann stýrði. 997 eða 998 kom hann út í Borgarfirði og var um veturinn hjá Þorsteini Egilssyni. Um vorið kom þar Kjartan Ólafsson frá Hjarðarholti í Dölum og keypti af Kálfi hálft skipið og gerði helmingarfjelag við hann. Þeir fóru síðan til Noregs og tóku kristni. Á meðan Kjartani var haldið þar í gíslingu, fór Kálfur kaupferð til Englands, og mun hann líklega hafa komið úr þeirri ferð um haustið. Síðan fóru þeir Kjartan aptur til Íslands, líklega

[1]) Peter Lundbye, Halöre Marked í Hist. Tidsskrift 7. R. IV, 506 o. ef. [2]) Hallfr. 91, 99—104, 112—114; Krist., Bps. I, 18; Lax. 40/143; Vatn. 75; Gunnl. 10/242—246, 12/264; Oddr 294, 296; Hkr. I, 81—83/403—407; Frís. 148, 149—150; Fms. II. 220—221, III, 20; Flat. I, 340, 415; sbr. Safn I, 384.

vorið 1001. Laxdæla segir að níu Íslendingar færu utan með Kjartani og var Bolli Þorleiksson, frændi hans, einn þeirra. Hann kom út aptur ári fyr en Kjartan.[1])

Á meðan Kjartan var í Noregi og þá er Þangbrandur kom af Íslandi, eru nefndir ýmsir íslenskir kaupmenn og skipseigendur. Sögunum ber eigi að öllu leyti saman um, hverjir þeir hafi verið.[2]) Úr Austfirðingafjórðungi var Kolbeinn Þórðarson, sonur Þórðar Freysgoða og bróðir Flosa á einu skipi, og Bjarni og Þórhallur synir Breiðár-Skeggja í Fellshverfi á öðru. Af Suðurlandi var Svertingur Runólfsson goða fyrir einu skipi, en af Vesturlandi þeir Brandur hinn örvi Vermundarson og Þorleifur Brandsson. Þeir voru bræðrungar, sonarsynir Þorgríms goða Kjallakssonar frá Bjarnarhöfn, og áttu báðir skip saman.[3]) Af Norðurlandi var Halldór Guðmundarson hins ríka á Möðruvöllum, og Þórarinn Nefjólfsson, sem kemur við sögu Ólafs konungs Haraldssonar og síðar skal nánar getið. Oddur munkur segir að hann hafi átt skip með Kjartani Ólafssyni, en það er rangt. Kristni saga og Laxdæla munu vera sannar um það atriði. Enn fremur er Hallfreður vandræðaskáld þá talinn með íslenskum skipstjórum í Niðarósi. Hann var þá kominn af Gautlandi.

Allir þessir menn eru nefndir af því að Ólafur konungur Tryggvason boðaði þeim kristni og bannaði þeim að fara burtu. Að lokum tók hann fjóra þeirra hina helstu í gislingu fyrir því að Ísland yrði kristnað. Svona margir Íslendingar hafa eflaust verið við og við í Noregi á þessum tímum, þótt ekki segi af því í sögunum; en hjer var sjerstök ástæða til þess að geta þeirra. Sumir þessara manna hafa eflaust verið opt í siglingum. Brands hins örva getur í Noregi um 1027 hjá Ólafi Haraldssyni,[4]) og Halldór Guðmundarson fjell í Brjánsbardaga á Clontarfsvöllum 23. apríl 1014. Hann var í bardaganum á alþingi 1012, en eptir það hefur hann farið enn utan.[5])

---

[1]) Lax. 40/140—143, 41/152, 41—42/155—156, 43/160—162; Krist. 18; Hkr. I, 81—82/402—405, 84/407, 95/427; Frís. 148—149, 150, 157; Oddr 294—297, 298; Fms. II, 220; Flat I, 415. Um tímatalið og utanferð þessa sbr. Ísl. s. mína II, 480—485. [2]) Sbr. Ísl. s. mína II, 369—373. [3]) Ldn. 11/96; Hksb. 72/31; Stb. 84/152. [4]) Ísl. þ., Bps. I, 53—54, Flat. II, 140. [5]) Lax. 40/143, 41/154—155, 359

Þá má nefna Þorvald tasalda Steingrimsson, systurson Víga-Glúms, sem sagan segir að hafi komið til Niðaróss, og látið skírast ásamt skipverjum sínum og verið einn vetur með Ólafi Tryggvasyni og farið hættulega sendiferð fyrir hann (um 998). Af þessu segir einungis í hinni lengstu sögu af Ólafi Tryggvasyni, og er sá þáttur ósannsögulegur að mestu leyti.[1])

Enn eru nokkrir farmenn nefndir um aldamótin 1000, þótt eigi sjeu þeir riðnir við sögu Ólafs Tryggvasonar. Böðvar Sigmundarson, Eyfirðingur einn, rjeðst í kaupferðir og var utan tólf vetur segir sagan; hann er kallaður »hinn nýtasti fardrengur«. Síðasta sinn er hann kom til Íslands var Bessi Hallsson bróðurson hans með honum. Böðvar seldi þá vöru um haustið, en hann hefur eigi átt nema hlut í skipinu, því að nokkrir Norðmenn voru á því með honum og úr þeirra flokki virðist stýrimaðurinn hafa verið. Böðvar var veginn um veturinn (líklega 1010 snemma árs) til hefnda fyrir víg, sem Hrólfur bróðir hans hafði vegið; hann var þá að heimta inn vöru fyrir varning sinn.[2])

Hrafn Önundarson frá Mosfelli var í förum um og rjett eptir aldamótin 1000. Hann átti skip, segir sagan. Einn vetur var hann hjá Ólafi konungi sænska (um 1002—1003). Hann fjekk Helgu hinnar fögru frá Borg og fór utan með frændum sínum tveimur til þess að berjast við Gunnlaug ormstungu. Þeir fjellu í Noregi (um 1008).[3])

Þorfinnur karlsefni Þórðarson norðan úr Skagafirði var í kaupferðum og þótti góður fardrengur. Eitt sumar bjó hann skip sitt til Grænlands. Með honum voru 40 manna og segir í sögu Eiríks rauða, að Snorri Þorbrandsson, úr Álptafirði á Snæfellsnesi, væri einn af þeim, en eptir sögn Eyrbyggju á hann og Þorleifur kimbi bróðir hans

---

(Fellshverfi); Krist. 18; Nj. 145/810, 157/898; Ljósv. 22/199; Oddr 294, 298, 311—312; Hkr. I, 81/402—403; 95/427; Frís. 148, 157. Um Kjartan Ólafsson og ofangreinda Íslendinga hjá Ólafi Tryggvasyni sjá enn fremur Íslb. 10; Fms. II, 24—34, 36—39, 43, 78—79, 208—211, 220, 232—233, 253—255; Flat. I, 309—314, 315—316, 319, 339—340, 415, 426—429, 441, 453—454; um ýms einstök atriði í heimildunum sbr. O. Brenner, Über die Kristnisaga. München 1878 bls. 89 o. ef. [1]) Fms. II, 144—153; Flat. I, 379—383. [2]) V.-Ljót 1/155, 2/161, 5/176—183. [3]) Gunnl. 5/208, 9/235—238, 12/263—269.

að hafa farið saman til Grænlands eptir sætt Eyrbyggja og Álptfirðinga (998).[1]) Frá Grænlandi fór Þorfinnur að leita Vínlands og var þrjú ár í þeirri ferð (um 1003—1006). Síðan dvaldi hann einn vetur á Grænlandi, og hjelt þá til Íslands (um 1007) ásamt konu sinni, Guðríði Þorbjarnardóttur, og búsetti sig þar.[2])

Helgi Harðbeinsson var »farmaður mikill« og var nýkominn út, þá er hann tók þátt í vígi Bolla Þorleikssonar (um 1007).[3])

Um og rjett eptir 1010 eru nefndir ýmsir farmenn. Hrafn bróðurson Önundar að Mosfelli var »farmaður mikill« og átti skip, er uppi stóð í Hrútafirði. Hann var drepinn til hefnda fyrir Gunnlaug ormstungu (um 1010).[4]) Hallur Guðmundsson frá Ásbjarnarnesi var í kaupferðum jafnan, segir sagan, en hve lengi er ókunnugt. Af Laxdælu má sjá, að hann var ytra um 1007, og hann var í Noregi, búinn til Íslands, er hann var veginn um 1011. Hallur átti skip, og segir sagan, að hann gæfi það manni nokkrum, er Kolskeggur hjet og hafði verið að vígi Þorsteins Gíslasonar að Bæ í Borgarfirði. Hann komst því undan til Englands, en Hárekssynir, sem þá voru í siglingum og sátu um líf hans, sneru hefndinni að Halli og drápu hann með svikum. Hallur hafði þá keypt hálft skip af farmanni nokkrum, sem Þorgils hjet. Hann hjelt til Íslands með fjárhluta Halls og sagði frá láti hans á alþingi og skilaði fjenu. Síðan seldi hann skip sitt og gerðist bóndi í Borgarfirðinum. En Hárekssynir hjeldu suður með Noregi eptir víg Halls, og brutu skip sitt við Jótlandssíðu og týndust[5]).

Frá þessu segir í þeim hluta Heiðarvíga sögu, sem einungis er til eins og Jón Ólafsson hefur ritað hana upp eptir minni. Það verður því að nota hana með sjerstakri varúð, einkanlega þar sem aðrar heimildir eru eigi til samanburðar. Þó þarf varla að efast um að Hallur hafi verið veginn í kaupferðum. Aptur á móti er ekkert kunnugt um Hárekssyni og Þorgils, nema það sem segir í þessum hluta Heiðarvíga sögu. Jón Sigurðsson hefur því ætlað, að Hárekssynir

---

[1]) Um missagnirnar sjá Ísl. s. mína II, 267, 278. [2]) Eir. r. 27—28, 30—31, 47; Eyrb. 91—92; Grænl. þ. 66, 72—73. [3]) Lax. 54/204. [4]) Gunnl. 13/273. [5]) Lax. 53/202; Heið. 49—54.

hafi verið sonarsynir Arnar hins gamla landnámsmanns, sem nam Sanddal, Mjóvadal og nokkuð af Norðurárdal og bjó á Háreksstöðum,[1]) en það er rangt. Hárekur var bróðir Kleppjárns hins gamla Þórólfssonar, sem var einn af höfðingjum Borgfirðinga móti Snorra goða í vígsmálinu eptir Víga-Styr.[2]) Jón Sigurðsson hefur einnig ætlað að Þorgils hafi verið austmaður,[3]) en fyrir því eru engin rök. Hitt er líklegra að hann hafi verið Íslendingur, af því að hann gerðist bóndi á Íslandi, er hann ljet af siglingum.

Gísli Þorgautsson (í inntaki Jóns Ólafssonar af Heiðarvíga sögu er hann kallaður Þorsteinsson, en það er rangt) var í kaupferðum (um 1013). Sumarið áður en hann kom út, var hann um hríð á Englandi. Hann var veginn af Víga-Barða.[4]) Um sama leyti var Halldór fóstbróðir Barða í förum, og gaf hann Barða skip sitt með rá og reiða (um 1015).[5]).

Þorvaldur Óttarsson, bróðir Hallfreðar vandræðaskálds, var í förum. Hann var á skipi með bróður sínum, er hann andaðist. Þeir voru þá á leið til Íslands (líklega um 1014), og var Hallfreður Hallfreðarson, sonur vandræðaskáldsins, með í förinni. Þeir frændur hjeldu áfram ferðinni til Íslands, og voru um veturinn á Óttarsstöðum. Þorvaldur fór síðan utan um sumarið, en Hallfreður Hallfreðarson gerði bú á Óttarsstöðum.[6])

Hafliði bóndi á Reyðarfelli í Hvítársíðu[7]) var siglingamaður og átti, segir sagan, skip í förum. Með honum var á skipi maður, er Bárður hjet, og var hann stýrimaður, en hinir skipverjar eru nefndir kaupmenn. Með Bárði var kona hans (um 1011)[8]).

Þessir kaupmenn, sem síðast hafa verið taldir, eru flestir nefndir að eins einu sinni, svo að eigi er hægt að segja hve lengi þeir hafa verið í förum. Hins vegar eru aðrir, sem getur optar, svo að auðsætt er að þeir hafa verið mörg ár í förum. Margir Íslendingar dvöldu líka lengi erlendis og gerð-

---

[1]) Ísl. II, 311 nm. sbr. Ldn. 70. [2]) Heið 55; Ísl. s. mín II, 460 o. ef. I nafnaskránni við útgáfurnar af Ldn. er hvergi getið um föðurnafn Kleppjárns hins gamla, þótt það standi i Hksb. 16/12. [3]) Ísl. II, 502 (mannanöfnin). [4]) Heið. 56—58, 86. [5]) Heið. 67, 103. [6]) Hallfr. 11/113—115. [7]) Reyðarfell er í Húsafellslandi, en það var áður talið með Hvitársíðu, sbr. Kålund, Isl. I, 325. [8]) Grett. 17/53—62.

ust sumir þeirra kaupmenn, eins og Þórður Sigvaldaskáld. Þó er alveg óvíst að hann hafi farið kaupferðir til Íslands; að minsta kosti er þess eigi getið. Þórður var lengi með Sigvalda jarli og síðan með Þorkeli háva, bróður hans. Síðan gerðist hann kaupmaður og hitti þá Ólaf konung Haraldsson, er hann var í vesturvíking, og gerðist hans maður og fór með honum til Noregs (1015).[1])

Þórður Kolbeinsson á Hitárnesi var »jafnan utanlands«. Hann var hirðmaður Eiríks jarls Hákonarsonar. Um 1007 keypti hann part í skipi og fór til Noregs. Þar var hann með Eiríki jarli um veturinn og fór síðan til Íslands. Hann seldi kaupmönnum aptur part sinn í skipinu eða, eins og í sögunni segir, skip sitt.

Nokkrum árum síðar keypti Þórður skip og fór þá utan til að vitja arfs eptir móðurbróður sinn í Danmörk. Með honum fóru þá Þorvaldur og Þórður Eiðssynir og Kálfur illviti. Þórður fór fyrst til Noregs á fund Ólafs konungs Haraldssonar, og síðan til Danmerkur. Á heimleiðinni þaðan rændi Björn Hítdælakappi hann í Brenneyjum og gjörði Ólafur konungur á milli þeirra. Eptir tveggja vetra brottveru kom Þórður út aptur (um 1017).[2])

Þorkell Eyjólfsson var í förum snemma á 11. öld, og er gumað meira af honum í Laxdælu en öðrum íslenskum kaupmönnum á söguöldinni. Hann átti skip í Vaðli á Barðaströnd (um 1005), og er sagt síðar, er hann kom út í Bjarnarhöfn, að hann ætti tvo knörru í förum, og kæmi annar þeirra í Hrútafjörð á Borðeyri. Báðir voru þeir hlaðnir viði. Hann kvongaðist þá Guðrúnu Ósvífrsdóttur (um 1008), en hann hefir farið utan einhvern tíma eptir 1015, því að hann var einn af þeim Íslendingum, sem gerðist handgenginn Ólafi konungi Haraldssyni. Hans getur líka í Bjarnar sögu Hítdælakappa með Ólafi konungi á fyrstu ríkisárum hans. Aptur á móti er eigi rjett sagt í Laxdælu af síðustu utanferð hans; er það annaðhvort eintómur uppspuni, eða einhverjar frásögur af utanferð hans um 1016—1017 eru þar til grundvallar. Af Heimskringlu sjest að Þorkell hefur alls

---

[1]) Hkr. II, 43/61—62; Ól. s. s. 35; Fms. IV, 88—89; Flat. II, 39.
[2]) Bjarn. 3, 6, 9, 13, 14—21; Hkr. II, 124/272; Ól. s. s. 125; Fms. IV, 280; Flat. II, 239; Krýt, Fms. XI,195—196, 198—199.

eigi farið utan 1024—1025, eins og segir í Laxdælu. Við þann, sem Þorkell var að sækja, þá er hann druknaði (1026), mun hann líklega hafa keypt af einhverjum kaupmönnum, sem komið hafa á Borðeyri.[1])

Þórarinn Nefjólfsson, sem fyr er nefndur í Niðarósi (999), var mikill farmaður á ríkisárum Ólafs konungs Haraldssonar og löngum utanlands. Sögusögn ein segir að hann byggi norður á Tjörnesi (í Þingeyjarsýslu) og væri sjaldan árbýll. Hans getur í Túnsberg um páskaleytið 1019, og hefur hann því hlotið að koma til Noregs í síðasta lagi haustið áður (1018). Af honum segir ekkert undanfarandi ár, frá því að hann er nefndur um aldamótin; en eflaust hefur hann verið eitthvað í förum fyrir 1018, einkum ef það er rjett að hann hafi verið orðinn skipstjóri 999. Þórarinn var vitur maður og orðspakur, og náði því meiri hylli hjá konungi en vænta mátti um ættsmáan mann, er var líka »manna ljótastur«. Ólafur konungur fjekk hann til þess að flytja Hrærek konung til Grænlands eða Íslands um sumarið og gerði hann í staðinn að hirðmanni sínum. Þórarinn hafði eigi komið til Grænlands og náði eigi heldur þangað, en tók land í Breiðafirði. Nú getur Þórarins eigi fyr en á útmánuðum 1024 og var hann þá í hirð Ólafs konungs og frestaði með viturleik sínum drápi Ásbjarnar selsbana. Um sumarið sendi konungur hann til Íslands með erindi sín til höfðingja landsins. Þórarinn fjekk þá hraðbyri mikið og bar fram erindi konungs á alþingi.[2]) Hann fór aptur utan um sumarið á fund Ólafs konungs. Eptir þetta getur Þórarins eigi, en í æfintýri einu, sem er til af honum, segir að hann hafi fallið með Ólafi konungi, en það er óvíst.[3])

Þorgeir Hávarsson, annar þeirra fóstbræðra, sem Fóstbræðra saga er af, var í förum í nokkur ár, eptir að hann varð að fara af landi brott sökum víga (um 1014). Hann

[1]) Lax. 57/212—213, 58/217, 68/248—249, 74/271—276, 76/280—282, sbr. Grett. 62/228—229; Bjarn. 3, 14, 22; Hkr. II, 124/272; Ól. s. s. 125; Fms. IV, 280; 283—284; Flat. II, 239. [2]) Sjá Ísl. sögu mína II, 566 o. ef. [3]) Hkr. II, 85/156—160, 118—119/253—257, 125—126/273—277; Ól. s. s. 74—76, 125—127; Fms. IV, 174—178, 280—284; Flat II, 89—91, III, 244, II, 239—241; Fms. V, 314—320. Í Hemings þætti Áslákssonar er sagt að Þórarinn hafi verið í Noregi á ríkisárum Haralds harðráða, en þátturinn er eigi sannsögulegur.

fór utan með Austmönnum og þá hrakti til Írlands. Þaðan hjeldu þeir til Englands og Danmerkur og komu að lokum til Noregs. Þar gerðist Þorgeir hirðmaður Ólafs konungs Haraldssonar. Hann fór kaupferð suður til Vindlands, segir sagan. Síðan hafðist hann við í förum milli Íslands og Noregs og var á vetrum ýmist á Reykhólum eða með Ólafi konungi í Noregi. Sagan segir að hann kæmi venjulega skipi sínu í Borgarfjörð og hjeldi því upp í Norðurá. Segir Þormóður Bersason, fóstbróðir hans, í erfidrápu eptir hann, að hann hafi sex sinnum búið skip sitt af Íslandi; hefur hann talið þar með fyrstu utanferð hans, er hann fór utan með Austmönnum. Að lokum seldi hann skip sitt í Orkneyjum og fór í hernað með Rögnvaldi Brúsasyni, sem síðar varð jarl í Orkneyjum (1035—1045). Um haustið hjelt Þorgeir þó til Noregs. Sumarið eptir tók hann sjer far til Íslands með norrænum manni og var um veturinn á Reykhólum. Síðan ætlaði hann utan með Illuga Arasyni, en er hann var við skip, kom þar Þórarinn ofsi frá útlöndum og rjeðst á Þorgeir, at því að hann hafði drepið frænda hans; þar fjell Þorgeir eptir hrausta vörn (um 1024).[1])

Illugi Arason frá Reykhólum, bróðir Þorgils Arasonar á Reykhólum og frændi Þorgeirs Hávarssonar, var í förum um 1015—1025 og ef til vill lengur. Hann átti skip og er kallaður mikill farmaður. Það er einnig sagt í Fóstbræðra sögu að hann hafi verið hirðmaður Ólafs konungs Haraldssonar, og að hann hafi á þeim árum verið annan vetur með Ólafi konungi en hinn á Reykhólum, en eigi er hann talinn með hirðmönnum konungs í sögu hans.[2])

Þórarinn ofsi Þórðarson frá Stokkahlöðum í Eyjafirði var »farmaður mikill«. Um 1024 kom hann frá útlöndum og hafði þá sótt húsavið. Átti hann þá skip með grænlenskum manni, Þorgrími trölla Einarssyni. Þeir feldu þá Þorgeir Hávarsson og hjelt Þorgrímur til Grænlands, en Þórarinn til Eyjafjarðar, og var veginn fám árum síðar að tilhlutun Ólafs konungs Haraldssonar.[3])

[1]) Fóst. 25, 28—29, 40, 42, 43—44, 47—48, 50, 53—57; Ljós. 250—51; Skjaldedigtn. B, 257—258; Hkr. II, 124/272; Ól. s. s. 125; Fms. IV, 280; Flat II, 239, III. 244. [2]) Fóst. 5, 45, 47 o. ef., 58. [3]) Ljósv. 32/250—255; Fóst. 48, 52—57, 78. Um missagnirnar í sögum þessum sjá Ísl. sögu mína II, 499.

Í Grettis sögu er sagt frá manni, sem hjet Þorbjörn og kallaður var ferðalangur, af því að hann var siglingamaður. Hann hafði gert fjelag við Þorbjörn öxnamegin, bónda á Þóroddsstöðum í Hrútafirði. Þorbjörn ferðalangur var veginn norður í Eyjafirði af Gretti Ásmundarsyni. Þeir höfðu báðir tekið sjer far með sama skipinu, en Þorbjörn talaði óvirðulega um föður Grettis (um 1016).[1])

Nokkrum árum síðar, segir sagan, að Grettir ætti við annan íslenskan siglingamann, sem hjet Gísli Þorsteinsson, og var sonur Þorsteins Gíslasonar í Bæ í Borgarfirði. Gísli var sjálfhælinn og gerði Grettir honum áminningu og hýddi hann. Sagan segir að Gísli hafi verið í herförum með Knúti konungi hinum ríka og fyrir vestan haf. Hann seldi varning og söguritarinn lætur hann kalla sig kaupmann; svo er að sjá af sögunni sem hann hafi verið skipsráðandi eða átt í skipi því, sem hann var á. Hann var þá einn vetur á Íslandi og getur hans eigi eptir það (um 1023—1024).[2])

Jökull Bárðarson, móðurbróðir Grettis, var »siglingamaður«. Hann bjó í Tungu í Vatnsdal, þá er Grettir kom þar (um 1015). Löngu síðar hefur Jökull farið utan, því að hann var með Hákoni jarli Eiríkssyni haustið 1028 og hlaut að stýra fyrir hann Vísundinum, skipi Ólafs konungs Haraldssonar, sem jarl hafði tekið, þá er konungur flýði úr Noregi. Þá er Ólafur konungur kom austan úr Garðaríki, varð Jökull fyrir liði hans á Gotlandi og var handtekinn. Konungur ljet höggva hann (1030.)[3])

Þá má nefna enn tvo merka menn, Guðleif Guðlaugsson og Hall Þórarinsson, sem voru í förum seint á söguöldinni. Guðleifur var sonur Guðlaugs hins auðga í Borgarholti við Straumfjarðará, ættföður Straumfirðinga. Hann hefur verið áður nefndur (bls. 617), er hann barðist ásamt Þórólfi Loptssyni við Gyrð Sigvaldason. Guðleifur átti þá skip — knörr mikinn, segir í Eyrbyggju — og hefur verið ungur að aldri, því að þetta mun hafa verið á síðasta tug 10. aldar. Guðleifur var »farmaður mikill«. »Ofarlega á dögum Ólafs hins helga« (þ. e. um 1025), fór Guðleifur »kaupferð

---

[1]) Grett. 30/113, 37/140—143. [2]) Grett. 59/210—217. [3]) Grett. 34/130—131; Hkr. II, 182/423—424 sbr. 192/439; Ól. s. s. 190—191; Flat. II, 317.

vestur til Dyflinnar; en er hann sigldi vestan, ætlaði hann til Íslands; hann sigldi fyrir vestan Írland, og fjekk austanveður og landnyrðinga, og rak þá langt vestur í haf og í útsuður, svo að þeir vissu ekki til landa«. Útaf hrakning þeirra hefur myndast sögn ein um ókunnugt land vestur í hafi, sem þeir eiga að hafa komið til, er þeir höfðu gert heit, ef þá bæri úr hafi. Þeir vissu eigi hvaða land þetta var, en þeim þótti helst sem landsmenn mælti írsku, og má af því ráða, að menn hafi ætlað að land þetta hafi verið Írland hið mikla. Sagan segir, að þeim hafi viljað það til lífs, að gamall höfðingi, hvítur fyrir hærum, hafi hjálpað þeim. Hann hafi mælt til þeirra á norrænu, og leyft þeim að fara burtu, er landsmenn höfðu gefið mál þeirra á hans vald. Þessi aldraði maður á að hafa spurt mjög eptir hinum stærri mönnum í Borgarfirði og Breiðafirði, og þar á meðal Snorra goða og Þuríði systur hans að Fróðá og Kjartani syni hennar. Segir sagan að hann hafi sent Kjartani sverð, en Þuríði móður hans hring. Í sambandi við þetta segir sagan að allir hafi haft það fyrir satt, að maður þessi hafi verið Björn Breiðvíkingakappi.

Þeir Guðleifur komust til Írlands síðla um haustið og voru í Dyflinni um veturinn; en um sumarið sigldu þeir til Íslands.

Í Eyrbyggju segir að Guðleifur hafi farið kaupferð þessa ofarlega á dögum Ólafs hins helga, en eptir því að dæma, hve nær aðrir þeir viðburðir urðu, sem Eyrbyggja segir frá á undan þessu, mætti ætla að orðið öndverðlega hefði átt hjer betur við, og að þetta hafi verið á öndverðum ríkisárum Ólafs hins helga (um 1018).[1])

Hallur Þórarinsson (f. 995, d. 11. nóvbr. 1089), hinn nafnkunni höfðingi í Haukadal, fóstri Ara prests hins fróða, fór milli landa á yngri árum. Hann komst í kynni við Ólaf konung Haraldsson, og er auðsætt að konungi hefur líkað vel við hann og borið mikið traust til hans; hafði Hallur fjelag konungs og »fekk af því uppreist mikla; var honum því kunnugt um ríki hans«. Þetta hefur verið á ríkisárum Ólafs konungs eða um 1016—1025; er líklegt að Hallur hafi gerðst hirðmaður konungs, er hann náði svo miklu trausti

[1]) Eyrb. 64/119—122, sbr. þó Grönl. h. M. I, 790; Ldn: 80; Hksb. 59/24.

hans; þó er þess eigi getið í sögu konungs. Þá er Hallur var þritugur, gerði hann bú í Haukadal og bjó þar 64 vetur.[1])

Nú hafa hjer verið taldir rúmlega 70 Íslendingar, sem voru í förum landa í milli eða erlendis á söguöldinni. Margir af þeim eru í sögunum kallaðir farmenn og sumir fardrengir; sumir þeirra eru nefndir siglingamenn, sem þýðir sjóferðamaður, eða hið sama sem farmaður eða fardrengur. Í Snorra eddu (I, 530) er fardrengur skýrt á þennan hátt: »Þeir heita fardrengir, er milli landa fara.« Nokkrir af mönnum þessum eru og kallaðir kaupmenn. Opt kveða söguritararnir og öðru vísi að orði um menn þessa, og segja að sá eða sá maður, sem frá er greint, var í förum, eða var í kaupferðum (eða kaupförum), eða fór landa á milli, eða var í siglingum landa í milli, eða var jafnan sinn vetur hvárt á Islandi eða í Noregi. En öll þessi orðtæki þýða í raun rjettri hjer um bil hið sama, enda eru þau notuð jafnt og eins og af handahófi um þá, sem voru í förum og áttu kaupskap við menn. Má nefna hjer nokkur dæmi, sem sýna hvernig þau voru notuð: »Glúmr hafði verit lengi í förum ..... spurði Þórarinn Glúm, hvárt hann ætlaði utan, sem hann var vanr. Hann svaraði: Hitt hafða ek nú heldr ætlat at hætta kaupferðum«.[2]) Hjer er »í förum« notað í Njálu í sömu þýðingu sem »í kaupferðum«, og er slíkt vanalegt. Annað dæmi má nefna úr Laxdælu: »Þorleikr Höskuldsson hafði verit farmaðr mikill ok var með tignum mönnum, þá er hann var í kaupferðum, áðr hann settisk í bú.«[3]) Hjer er sá nefndur farmaður, sem hafði verið í kaupferðum; þessi orð eru notuð í sömu þýðingu. Í Valla-Ljóts sögu eru orðin »farmaður« og »fardrengur«, og »at ráðask í kaupferðir« notað um Böðvar Sigmundarson. Þórir Skeggjason er nefndur farmaður í einni sögu, en siglingamaður í annari.[4]) Um Hrafn, bróðurson Önundar að Mosfelli, er komist svo að orði: »Hann var farmaðr mikill ok átti skip, er uppi stóð í Hrútafirði. Ok um várit reið Hermundr Illugason heiman einn samt, ok norðr Holtavörðuheiði, ok svá til Hrútafjarðar, ok út á Borðeyri til skips kaupmannanna; kaupmenn voru þá búnir mjök. Hrafn stýrimaðr var á landi.«[5])

---

[1]) Íslb. 9/13—14; Hkr. I, 7—8; Ól. s. s. 1. [2]) Nj. 13/57. [3]) Lax. 25/87. [4]) Ldn. 230; Grett. 38/143. [5]) Gunnl. 13/273.

Hjer er »farmaðr« og »kaupmaðr« notað í sömu þýðingu um sama mann, og orðið »kaupmenn« er einnig haft um skipverja Hrafns. Þetta orð er líka opt notað alment um skipshöfn á kaupskipi.[1]) Gísli Þorsteinsson er af söguritaranum nefndur siglingamaður, þótt hann í sömu andránni segi að hann hefði varning á boðstólum, og söguritarinn láti hann sjálfan kalla sig kaupmann.[2]) Fleiri dæmi þessu lík mætti greina, en dæmi þessi nægja til að sýna, að orðin farmaður, fardrengur, siglingamaður og kaupmaður eru höfð í sömu þýðingu og að þau öll eru notuð jöfnum fetum um kaupmenn á þessum tímum. Stundum voru kaupmenn einnig nefndir kaupdrengir, líkt og farmenn fardrengir; var það einkum gert, þá er um góða kaupmenn eða vinsæla menn var að ræða.[3]) En orð þessi eru þó eigi ávalt notuð, þá er getið er um Íslendinga erlendis í kaupferðum og þótt þeir hafi ráðið fyrir skipum, enda nægði að segja það og að nafngreina mennina.

Þess er getið um hjer um bil helminginn (35) af kaupmönnum þessum eða farmönnum, að þeir ættu skip (eða í skipi) eða stýrðu sínu eigin skipi; en það má nærri geta að einhverjir fleiri hafi átt skip eða hlut í skipi, en þeir einir, sem það er greint um. Ýmsir af mönnum þessum eru líka að eins nefndir einu sinni, svo að lítið er um þá kunnugt. Aptur á móti er það auðsætt um suma þeirra, að þeir munu varla hafa verið skipseigendur, svo sem Önundur sjóni. Hann var háseti á skipi Egils Skallagrímssonar, þá er hann fór utan um 950. Önundur var nokkru eldri en Egill og hefur því verið eitthvað yfir fimtugt; hann hafði opt verið í förum áður, og er líklegt að hann hafi farið á skipum þeirra höfðingjanna þar í Borgarfirðinum t. a. m. Mýramanna (Borgarfeðganna), en eigi átt skip sjálfur. Af sögunni er eigi hægt að sjá neitt um það; um hann eru notuð hin algengu orð »vera í förum landa í milli.« En þó hann hafi að eins verið háseti, hefur hann samt getað átt kaup við menn og flutt vörur með sjer; fyrir því væri það eigi rjett með öllu, að telja hann hjer eigi með farmönnum eða kaupmönnum. Allir kaupmenn voru eigi heldur skipseigendur. Böðvar Sigmundarson

---

[1]) Grett. 17/57—61; Fms. II, 144; Nj. 83—84/392—395; Hæns. 2/126. [2]) Grett. 59/211—212. [3]) Hæns. 2/126; Fms. VI, 36.

t. a. m. var mörg ár farmaður og sagður hinn nýtasti fardrengur, en hann virðist eigi hafa verið stýrimaður nje skipseigandi, þá er hann kom til Íslands (um 1009) og seldi þar vörur, heldur Norðmaður nokkur, sem hjet Hávarður, og munu Norðmenn hafa átt skipið.[1])

Það getur einnig verið efamál um fleiri en Önund sjóna, hvort eigi að telja þá með kaupmönnum. Einkum er vert að geta þess, að ekkert er nú kunnugt um utanfarir Hrafns Oddssonar Hlymreksfara annað en það, að hann var lengi í Hlymreki (Limerich) á Írlandi. Það lægi því jafnvel næst að telja hann með þeim Íslendingum, sem getið er um erlendis, án þess að greint sje hvernig þeir fóru utan eða komu út. En auknefni hans bendir á að hann hafi verið kunnur farmaður og siglt milli Írlands og Íslands. Einnig var hann af höfðingjaættum og eignaðist konu af göfgum ættum, er hann settist um kyrt á Íslandi.

Af þessu er ljóst að það er opt erfitt, eins og áður hefur verið bent á, að draga nokkur ákveðin takmörk á milli kaupmanna á söguöldinni og annara manna, sem voru á ferðalagi eða fóru eina kaupferð, og eru ýmsar ástæður til þess. Það er eigi einungis það, að í heimildarritunum er opt sagt svo lítið og ógreinilega af ferðum manna, að eigi er hægt að fá neina nánari vitneskju um þær, heldur verður og að gæta að því, að ástæður manna voru á þessum tímum í mörgum greinum öðru vísi en nú. Þá var engin sjerstök kaupmannastjett til eða flokkur manna, sem gerði kaupskap að atvinnu sinni alla æfi, líkt og á vorum dögum. Sömu mennirnir gengu að þeim störfum, sem þeir þurftu á að halda, eins og tíðkast hefur á Íslandi fram á vora daga. Menn hlupu úr einu í annað eptir því sem þörfin bauð og löngunin hvatti menn til. Kaupmenn þeir og farmenn, sem hjer eru nefndir, voru flestir af góðum ættum; sumir þeirra voru höfðingjasynir og sumir synir góðra bænda. Þeir gerðu eigi kaupskap að æfistarfi sínu, heldur fóru þeir kaupferðir á meðan þeir voru ungir eða á miðjum aldri, til þess að afla sjer bæði fjár og frama og kynnast öðrum löndum. Eptir nokkur ár, fleiri eða færri eptir atvikum, settust þeir venjulega um kyrt, tóku við föðurleifð sinni, kvæntust og gerðust

[1]) V-Ljót 1/155, 2/161, 5/176—177, 5/182—183, 7/191.

vel metnir bændur eða jafnvel höfðingjar, enda var það það takmark, sem flestir settu sjer. Stundum bar þó svo við að sumir af mönnum þessum fóru eina kaupferð eptir að þeir höfðu gerst bændur, ef einhver nauðsyn krafði þess. En það er þó sjaldgæft að verða Íslendinga var í siglingum erlendis, þá er þeir eru komnir um sextugt svo sem Jökull Bárðarson virðist hafa verið, þá er hann var drepinn austur á Gotlandi. Jökull bjó í Tungu um 1014. Hann var bróðir Ásdísar móður Grettis, en hún giptist um 984. Hann hefur því líklega verið fæddur um 970, og verið mest í siglingum áður en hann tók við búi í Tungu. En hann hefur verið óeyrinn eins og sumir í ætt hans með því nafni, og leiðst kyrsetan til lengdar. Sagan segir líka að hann væri mikill maður og sterkur og hinn mesti ofsamaður. Að Hákon jarl Eiríksson gerði hann að skipstjóra á Vísund, skipi Ólafs konungs, bendir á að töluvert hafi að honum kveðið, enda þótt hlutað hafi verið um menn til skipstjórnar, því að það hefur að eins verið gert á meðal þeirra, er voru um fram almenna liðsmenn. Sagan segir og að hann hafi verið mikilhæfur maður.[1]) Það kom og einstaka sinnum fyrir, en mjög sjaldan þó, að bændur á háum aldri rjeðust utan í kaupferð til þess að sækja einhverjar nauðsynjar, eins og dæmi Flosa Þórðarsonar sýnir, og slíkt kom fyrir jafnt um þá, sem höfðu verið farmenn á yngri árum, sem um mikilsmegandi bændur, er gátu fengið sjer skip. En síðasta utanferð Jökuls var meiri en vanaleg kaupferð, því að hann fór alla leið austur á Gotland.

## III.

### Kaupferðir bænda og utanferðir á eigin skipum.

Þess er áður getið að sumir bændur á landnámsöldinni hafi stundum farið sjálfir kaupferðir til Noregs og annara landa, er þeir þurftu að sækja þangað við eða aðrar nauðsynjar. Eins gerðu þeir á söguöldinni og lengur fram eptir, en þegar á 11. öld tók þó slíkum ferðum að fækka að mun, uns þær hættu algjörlega, aðallega sökum þess að skipastóll

[1] Grett. 34/130—131; Hkr. I, 182/423.

landsmanna minkaði smátt og smátt, svo að nálega enginn bóndi á Íslandi átti kaupskip, þá er kom fram á 13. öld. Á meðan ekki var hörgull á haffærum skipum innanlands, og einstaka bændur annaðhvort áttu skip sjálfir eða gátu tekið skip á leigu eða keypt skip, er þeir vildu fara utan, þá tóku þeir töluverðan þátt í kaupskap við önnur lönd.

Egill Skallagrimsson er ágætt dæmi upp á slíka stórbændur og aldarháttinn á 10. öld. Hann hafði skip og gat farið utan, þá er hann þurfti eða fýsti þess. Hann fór með vörur og flutti líka heim til sín þær nauðsynjar, er hann þurfti.[1] Hann var einnig hinn mesti kappi og herskár. Hann brá sjer því í víking, er því var að skipta, til þess að afla sjer fjár. Hann var óvæginn og vildi eigi láta hlut sinn, þótt við Noregskonung væri um að eiga. Hann var allur stórgerðari en aðrir menn, og er skapi hans og öðrum eiginleikum lýst ágætlega í sögu hans.

Egill var í æsku mörg ár erlendis með Þórólfi bróður sínum. Eptir fall hans á Englandi fór Egill til Noregs og fjekk þar Ásgerðar Bjarnardóttur, ekkju hans. Síðan bjó hann kaupskip og fór til Íslands með konu sína (um 927). Sagan segir að hann flytti út silfur mikið, sem Aðalsteinn konungur hefði gefið föður hans eða þeim feðgum í skaðabætur fyrir Þórólf.

Egill hafði nú búsumsýslu að Borg með föður sínum i hjer um bil sex ár. Þá spurði hann úr Noregi andlát Bjarnar hölds, tengdaföður síns, og fór utan og kona hans til þess að heimta arf hennar. Útaf honum lenti hann i deilu við Bergönund mág sinn á Gulaþingi. Eirikur konungur blóðöx veitti honum og ætlaði að taka Egil af lífi, en hann komst undan. Konungur brendi þá skip hans og gerði hann útlægan um endilangan Noreg. Arinbjörn hersir Þórisson fjekk honum þá skip og ljet ferma viði. En Egill hefndi sín grimmlega áður en hann ljet í haf, og drap Bergönund, Hadd bróður hans og marga menn aðra, þar á meðal Rögnvald son Eiríks konungs; og konungi sjálfum og Gunnhildi drotningu reisti hann niðstöng (um 934).[2]

Egill tók við búi að Borg, er hann kom heim, og faðir

---

[1]) Eg. 197, 226, 228, 229, 245, 252, 255—256, 280. [2]) Eg. 185—197, 199—209.

hans andaðist um haustið. Tveim vetrum síðar segir sagan að hann hafi farið utan í þriðja sinn (um 936). Hvort það er rjett, er eigi hægt að segja með vissu, því tímatalið er óvíst á þessum tíma. Það er eigi ólíklegt að það hafi verið nokkru síðar,[1]) en mörgum árum munar það þó eigi. Sagan segir að seiður Gunnhildar drotningar hafi valdið þessari utanferð Egils, en það er auðvitað rangt; ferðin tókst slysalega fyrir Egli, því að hann komst á vald Eiríks konungs, og það hafa munnmælin skýrt með því, að galdur hafi verið með í leiknum. Ástæðurnar til utanferðar Egils hafa verið hagsýnilegar. Sagan segir og að hann hafi viljað vitja heita Aðalsteins konungs, og var það samkvæmt skapi Egils að nota sjer þá hagsmuni, sem honum buðust. Einnig vildi hann selja vörur og kaupa aðrar nauðsynjar. Þá var það eigi heldur ætlun Egils, að láta ræna sig arfi konu sinnar, og vildi hann ná honum, hve nær sem færi gæfist. Þetta voru aðalástæður Egils til utanfararinnar.

Egill hjelt snemma sumars í haf frá Íslandi.[2]) Hann fór rakleiðis til Englands, en hrepti storm mikinn í Norðursjónum og braut skip sitt í spón við Humrumynni, en menn allir hjeldust og mestur hluti fjár. Sagan segir nú að Egill spyrði þar þau tíðindi, að Eiríkur konungur blóðöx væri skamt þaðan í borginni Jórvík og að hann hefði flúið land í Noregi og fengið Norðimbraland til forráða, en með honum væri Arinbjörn hersir, vinur Egils. Egli þótti þessi tíðindi háskasamleg, en sá eigi annað vænna en að fara þegar á fund konungs og leggja líf sitt á hans vald. Fyrir fylgi Arinbjarnar og í laun fyrir lofkvæði, sem Egill orti um konung og Höfuðlausn heitir, fjekk hann að halda lífi og fara í friði.[3]) Fylgdi Arinbjörn honum á fund Aðalsteins konungs og var Egill hjá honum um veturinn.

---

[1]) Sbr. ritgjörð Jóns prófasts Jónssonar, um Eirík blóðöx, Tímarit Bókm.fjel. 1895. [2]) Sbr. Höfuðlausn, 1. vísu, og skýringar Finns Jónssonar, Eg. 406, og B. M. Ólsens, Tímarit Bókmentafjel. 1897. bls. 97. [3]) Egill Skallagrímsson hóf Höfuðlausn með þessum orðum:

»Vestr komk (eða »fórk«) of ver«

og í 18. vísu segir hann

»kunt 's (e. »frétt es«) austr of mar
Eiríks of far« (Skjaldedigtn. B, 33).

Af þessu hafa þeir Jón prófastur Jónsson, Tímarit Bókmfjel. 1895, bls.

Sumarið eptir fór Egill til Noregs og gaf Aðalsteinn konungur honum kaupskip, hveiti og hunang og ýmsan annan

181—186, og prófessor Björn M. Ólsen, sama rit 1897, bls. 88—98, ætlað, að Egill Skallagrímsson hafi eigi farið beint frá Íslandi til Englands, heldur fyrst til Noregs og þaðan til Englands. Þeir styðja skoðun sína líka með öðrum rökum, einkum Björn M. Ólsen, sem hefur ritað meira um þetta mál. En vísuorð þessi sanna alls eigi að Egill hafi komið frá Noregi til Englands, eins og jeg hef áður stuttlega drepið á í Íslendinga sögu minni II, 151, nm. Af því að höfundarnir halda því fram (sbr. Tímarit Bókm.fjel. 1895 bls. 184 og 1897 bls. 93), að Egill hefði eigi getað sagt annað eins og þetta, ef hann hefði komið beint frá Íslandi til Englands, af því að það sje suður af Íslandi, og að forfeður vorir hafi ekki verið svo áttaviltir, þá benti jeg á dæmi eitt úr vísu i Gunnlaugs sögu ormstungu, sem segir að Aðalráður konungur dvaldi ferð Gunnlaugs að »austan« þ. e. af Englandi til Íslands, Gunnl. 11/254. Vísa þessi er eignuð Gunnlaugi. Af því að enginn, sem hafði ritað um þetta mál, virtist hafa tekið eptir þessu dæmi, gat jeg um það, til þess að sýna hve undarlega Íslendingar í fornöld komust stundum að orði um áttirnar. Þótt England sje dálítið austar á jarðarhnettinum en Ísland, er það þó rangt að segja »austur« til Englands frá Íslandi eða »austan« um ferð þaðan til Íslands, því að aðaláttin af Íslandi til Englands er suður, og norður, ef farið er af Englandi til Íslands eins og kunnugt er. »Vestr of ver« og »austan« er því hvorugt rjett að því er áttirnar snertir. Mjer fanst þetta svo ljóst að jeg skýrði það eigi; — mjer datt það eigi einu sinni í hug fyr en jeg las próförk, en þá vildi jeg eigi gera breytingu til þess að baka eigi Bókmentafjelaginu aukakostnað; það hefði jeg þó eigi átt að horfa í, því að þá hefði prófessor Björn M. Ólsen eigi misskilið þetta í Skírni 1910, bls. 87. Eins og mörg önnur dæmi í sögum vorum sýnir visa þessi, að stundum töluðu forfeður vorir svo um áttirnar sem þeir væru áttaviltir, og slíkt gera reyndar Íslendingar enn þann dag í dag að því er sumar áttir snertir. Því veldur vaninn, málsvenjan.

Í Gunnl. 10/242 segir, að Gunnlaugur færi fyrst af Englandi »austur til Noregs«, til Þrándheims; þaðan tók hann sjer far (með Hallfreði vandræðaskáldi) til Íslands. Er því eigi ólíklegt að ferð hans »austan« frá Noregi hafi haft áhrif á hann, er hann setti vísuna saman, því að Íslendingar sögðu opt austan frá Noregi og að eins »austan« í sömu þýðingu sem frá eða úr Noregi. Íslb. 10; Eg. 38/119, 46/184, 78/289, og að hann hafi því eigi hugsað sjerstaklega um afstöðu Englands. Þetta mátti líka til sanns vegar færa. Með því að dvelja för Gunnlaugs af Englandi varð og konungur þess valdandi, að hann komst svo seint af stað austan frá Noregi. Ef Gunnlaugur eða vísuhöfundurinn hefur eigi haft þetta í huga, verða orð Gunnlaugs sögu 10/242 »austr til Noregs« í skarpari mótsögn við vísuna, en orð Egils í Höfuðlausn við orð sögu hans. Í henni segir að eins að Egill »sigldi

varning. Einnig fjekk Egill hjá konungi jarteiknir til Hákonar konungs um að hann næði arfi konu sinnar. Konungur leyfði

til Englands«, »fyrir norðan Orkneyjar« og »suðr fyrir Skotland« og svo »norðan fyrir England«, þ. e. suður með Skotlandi og Englandi að austanverðu.

B. M. Ólsen segir eins og rjett er, að »gagnstætt austan sje austr«. Gagnstætt austan er líka vestan, og gagnstætt austur er einnig vestur. Hið sama er að segja um suður og norður, og sunnan og norðan. Forfeðrum vorum var þetta ljóst, og mætti færa ýms dæmi upp á þetta úr sögunum. En stundum er einkennilega komist að orði í sögunum um gagnstæðar áttir. Þannig segir í Egils sögu og í Landnámu »fyrir sunnan Borgarfjörð« og »fyrir sunnan Hvítá«, Eg. 28/90, 28/91, 29/94–95, 83/309, 84/316; Ldn. 19/58, 1/65; Íslendinga saga mín II, 65 nm. Gagnstætt sunnan er norðan, en þó segir eigi svo í sögum þessum, heldur »fyrir vestan Hvítá« og »fyrir vestan Borgarfjörð«, Eg. 28/92; Ldn. 1/65. Sama er að segja um Breiðafjörð; þar er sagt »fyrir sunnan« og »fyrir vestan« Breiðafjörð, en eigi fyrir norðan hann, Ldn. 110, 122, 123, 133. Þetta er rjett eins og menn væru áttaviltir, en þeir voru það samt eigi, þá er sól sá.

Á Íslandi haldast þau einkennilegu orðtök í sumum greinum um áttirnar, að á Suðurlandi er austur og suður gagnstætt, á Vesturlandi suður og vestur og á Norðurlandi vestur og norður, og svona hefur það verið frá landnámstíð. Ari fróði segir í Íslb. 9 fyrir vestan Skagafjörð og fyrir norðan Eyjafjörð, en eigi fyrir austan hann, þótt það væri rjett. Svona ræður málsvenjan miklu.

Þá er Norðmenn höfðu setst að á Íslandi, sögðu þeir »út« til Íslands eins og siður var í Noregi, og »að fara utan« frá Íslandi til Noregs. Þeir miðuðu þar við Noreg en eigi við Ísland. Stundum notuðu þeir líka áttirnar og sögðu »austr« til Noregs og »vestr« til Íslands, er um ferðir var að ræða í milli þessara landa. Einnig sögðu þeir stundum »austr« í sömu merkingu sem í Noregi, Íslb. 9, 10. Þetta var rjett, því að þarna fjellu áttirnar saman við málsvenju í Noregi. Aptur á móti fjell málsvenjan í Noregi »vestr um haf« og »vestan um haf« eigi saman við áttirnar, þá er verið var að ræða um ferðir milli Íslands og Vesturhafslanda,[1]) en þó hjelst þessi málsvenja á Íslandi og landnámsmennirnir og afkomendur þeirra, að minsta kosti á söguöldinni, sögðu venjulega að fara »vestr um haf«, frá Íslandi til þessara landa, ef þeir sögðu eigi að eins að fara utan eða fara til þess lands fyrir vestan haf, sem ferðinni var heitið til. En sökum

[1]) Svo hef jeg nefnt einu nafni lönd og eyjar fyrir vestan haf: Hjaltland, Orkneyjar, Skotland, England, Mön, Írland og Suðureyjar. Í sögunum og í Grágás II, 388 eru lönd þessi nefnd einu nafni Vesturlönd. Það orð er fegurra, en með Vesturlöndum er stundum talið Normandí á Vallandi, Eg. 4/12, Fms. IV, 38/60, og jafnvel Valland sjálft. Fyrir því hef jeg eigi notað það nafn.

honum að ná lögum og landsrjetti. Vorið eptir feldi hann á Gulaþingi Atla hinn skamma, bróður Bergönundar, í hólm-

þessa sögðu Íslendingar einnig opt um þá menn, sem komu frá Írlandi eða öðrum Vesturhafslöndum til Íslands, að þeir hefðu komið »vestan um haf«, sjá Ldn. 24, 298, 321, 322; Lax. 10/23. Í sjálfri Egils sögu 77/230 segir um Ketil gufu, að hann »hafði komit vestan um haf af Írlandi« til Íslands. Enginn, sem játar að austan sje gagnstætt austur, mun neita því, að vestan sje gagnstætt vestur; en úr því að svo var sagt á Íslandi um þá menn, sem komu frá löndunum fyrir vestan haf, að þeir kæmu vestan um haf til Íslands, þá verður því eigi heldur neitað með rjettu að bæði Egill og aðrir Íslendingar á hans tímum hafi sagt, að þeir hafi komið eða farið »vestr um haf«, er þeir fóru frá Íslandi til Englands eða til annara landa fyrir vestan haf.

Ótvíræð dæmi má færa upp á þetta úr Eyrbyggja sögu, og hafa hinir góðu vísindamenn, sem hjer eiga hlut að máli, eigi munað eptir þeim. I Eyrb. 64/119 segir um Guðleif Guðlaugsson úr Straumfirði, sunnan á Snæfellsnesi, að hann »hafði kaupferð vestr til Dyflinnar, en er hann sigldi vestan (þ. e. frá Dyflinni), ætlaði hann til Íslands«. Þarna er alveg eins komist að orði um áttirnar eins og í upphafi Höfuðlausnar og í Eg. um Ketil gufu. Annað dæmi þessu líkt er um Þórodd skattkaupanda af Meðalfellsströndinni. Hann »hafði siglt kaupferð vestr til Írlands til Dyflinnar«, Eyrb. 29/49—50. Í einu handriti af Eyrbyggju, sem er í Wolfenbüttel og því kent við þann bæ (codex guelferbytanus), er sagt að Þóroddur hafi »farit af Noregi«, en það er breyting eða viðbót, sem gerð hefur verið af því að Íslendingar á síðari tímum, þá er handritið hefur verið ritað, fóru fyrst til Noregs, er þeir fóru utan, og þaðan til annara landa, — eins lögðu þeir heimleið sína um Noreg; — en breyting þessi er röng. Af sögunni sjest að Þóroddur hefur farið beint milli Íslands og Írlands. Þá er hann sigldi úr Dyflinni, hitti hann í ey einni norðan við Írland nokkra Orkneyinga, er höfðu brotið skip sitt. Hann vildi eigi flytja þá til Orkneyja, af því að hann ætlaði beint til Íslands og þóttist eigi mega seinka ferð sinni, líklega af því að liðið var á sumarið. Til þess þó að hjálpa þeim nokkuð, seldi hann þeim fyrir ærið fje bátinn frá skipi sínu og sigldi bátlaust til Íslands. Verið getur að hann hafi farið tvívegis milli landa það sumar og því lagt heldur seint í haf til Íslands og orðið að hafa hraðan á.

Orkneyingar þessir voru menn Sigurðar jarls Hlöðvissonar; frásögnin af herferð hans sýnir, hvernig »vestr« var notað um afstöðu eyjanna við Skotland og England. Sigurður jarl hafði um sumarið herjað til Suðureyja og alt »vestr« í Mön«. Hann lagði gjald á Manarbygðina. Og er sættir voru gerðar, sigldi hann »norðr til Orkneyja«. Þarna er vestur og norður gagnstætt. Snorri Sturluson kallar það einnig að sigla »vestr í Mön«, úr Suðureyjum og frá vesturströnd Skotlands, þótt það sje í suður og dálítið austur á við, Hkr. I, 22/128. En nærri skakkara um áttirnar er það þó, sem Snorri segir

göngu, og eignaðist þá jarðir þær, er kona hans átti að taka eptir föður sinn. Um sumarið fór hann síðan til Íslands (um 938).[1])

um Göngu-Hrólf, þá er hann var kominn vestur um haf, að hann færi úr Suðureyjum »vestr í Valland«, því að leið hans hefur legið fyrst í suður og síðan í austur, Hkr. I, 24/132.

Um Tosta jarl segir Snorri, er hann fór frá Noregi, að hann sigldi »vestr til Flæmingjalands«, þótt það væri í suður. En um för Tosta þaðan, segir Snorri, að hann »hafði komið vestan af Flæmingjalandi til Haralds konungs, þegar er hann kom til Englands«, Hkr. III, 79/192, 86/199. Flæmingjaland náði frá Scheldeósum suður með sjó um Belgíu að Sommefljóti á Frakklandi. Það er fyrir sunnan og austan sundið við Calais, andspænis Kent, suðaustasta hluta Englands. En Tosti mætti Haraldi norðarlega á austanverðu Englandi og hefur því orðið að sigla í norður og dálítið til vesturs. Stefnan þar í milli er lík stefnunni milli Englands og Íslands.

Snorri segir einnig um Harald Guðinason að hann ætti ferð til Bretlands (Wales) og færi sjóveg. Þeir fengu andviðri og tóku land »vestr í Norðmandí«, Hkr. III, 76/186. Þetta hefur gerst fyrir sunnan England og hefur þá Harald hrakið í austur og suður um Ermarsund. Eins og kunnugt er, er Normandí fyrir sunnan það, enda segir Snorri á öðrum stað, að Vilhjálmur bastarður fór »sunnan á England« og Þorkell Skallason segir um hann »hinn es haf skar sunnan«, er hann kom frá Normandí til Englands. Hkr. III, 96/214, 97/216.

Eptirtektavert er líka hve orðatiltækið »í Vík austr« eða »austr í Vík« er rótgróið hjá Íslendingum í fornöld; þar er austur notað eins mikið og vestur í sambandi við Vesturlönd. Hallfreður vandræðaskáld fór frá Noregi »austr« til Haleyrar syðst á Skáni. Í þeirri ferð kom hann á fund Sigvalda jarls og fór frá honum »í Vík austr«, segir sagan, þótt hann færi í norður, Hallfr. 99—100. Geir Grímsson fór af Gautlandi og kom »í Víkina austr«! Harð. 18/55.

Af því, sem hjer er sagt, má sjá hve málsvenjan mátti sín mikils, og þótt þetta sjeu eigi nema fá dæmi, nægja þau til þess að sýna, hvernig vestur og austur var stundum notað í fornsögum vorum. En hins vegar er það engin furða, þótt ýmislegt sje skakt í sögunum um áttirnar, þar sem menn höfðu engin landkort að átta sig á. En þó væri það eigi rjett að leiða út af því þá ályktun, að forfeður vorir hafi eigi þekt áttirnar eða verið áttaviltir á ferðum sínum. Það voru þeir venjulega eigi, allra síst í björtu veðri, þá er sá til sólar á daginn eða stjarnanna um nætur. En er þeir fengu þoku og dimmviðri, viltust þeir opt, enda er þess og stundum getið í sögunum, að þeir hafi lent í hafvillum. En þetta er eiginlega dálítið annað mál en það, sem hjer ræðir um, þótt jeg hafi bent á þetta sökum þess, er segir í Tímariti Bókmentafjel. 1897 bls. 93. Slíku má eigi blanda saman við orð Egils »Vestr komk of ver«. —

[1]) Eg. 214—226, 228—231, 240—245.

Nú var Egill heima að búi sínu eigi fá ár, en hann fór þó enn einu sinni utan. Sagan segir að það hafi verið eptir

---

En þá eru hin orð Egils »kunt 's austr of mar« í 18. vísu Höfuðlausnar. Þessi orð lýsa ekkert ferð Egils, og þau mátti hann sannarlega kveða á Englandi, hvort sem hann kom þaðan beint frá Íslandi eða frá Noregi. Þau lúta að því að herfrægð og hreysti Eiríks konungs og örlæti hans sje kunn austur um haf, í Noregi. Egill vissi það vel. Slíkt mátti hann kveða eins og

»Valköstum hlóðk vestan
vang fyr merkistangir.« Eg. 55/175,

eptir bardagann á Vínheiði á Englandi. Vestan í þessu sambandi þýðir á Englandi. En þetta orð má einnig bera saman við »vestr« í Höfuðlausn. Því skyldi Egill eigi hafa getað sagt »Vestr komk of ver« um komu sína frá Íslandi til Englands, er hann segir »vestan« um veru sína þar á staðnum, og í sömu þýðingu sem á Englandi?

Professor B. M. Ólsen leiðir út af »austan« í fyrnefndri vísu í Gunnlaugs sögu, að menn hafi hlotið að hafa sagt »austr um ferðina frá Íslandi til Englands«. Samkvæmt því ætti »austr« í kunt 's« austr of mar« að tákna England. Þótt herfrægð, hreysti og örlæti Eiríks konungs hafi verið eitthvað kunn á Englandi eða Norðimbralandi, svo að meiningarlaust er þetta eigi, mun þó þýðing þessi eigi vera rjett, og hún er gagnstæð því, sem B. M. Ó. segir í ritgjörð sinni í Tímariti Bókm.-fjel. 1897, bls. 95—96. Annars ætlar Ólsen að vísa þessi sje eigi eptir Gunnlaug, heldur miklu yngri (frá 13. öld?), sbr. Om Gunnlaugs saga ormstungu Kbh. 1911, bls. 48. Ef svo er, hefur hún minni þýðingu, og væri þá óvarlegt að byggja svo mikið á henni. Finnur Jónsson aptur á móti ætlar (í »Sagaernes lausavísur«), að hún sje eptir Gunnlaug, og sýnir að þau rök eru lítilsverð, sem færð hafa verið á móti því. En hins vegar bendir vísan á, að menn hafi einhvern tíma sagt »austr« til Englands frá Íslandi, ef höfundur hennar hefur eigi sagt svo, af því að hann hafði stefnuna frá Noregi í huga; má vel vera að svo hafi komið fyrir, því að menn komust stundum kynlega að orði um áttirnar, eins og hjer hefur verið sýnt.

Að því er snertir önnur rök B. M. Ólsens í þessu máli, skal vísað til ritgjörðar Finns Jónssonar, »Egill Skallagrímsson og Erik Blodöxe« í »Det kgl. danske Videnskabernes Selskabs Forhandlinger« 1903; þar eru einnig ýmsar góðar athugasemdir um þetta atriði. Jeg hef að eins viljað skýra hjer áttirnar »vestr« og »austr« í Höfuðlausn og gera mönnum ljóst með skýrum dæmum, sem eigi hafa verið nefnd áður, hvernig þau orð eigi að skilja, svo eigi verði leidd skökk ályktun út af þeim um ferð Egils. Hvort sum meginatriðin í frásögn Egils sögu af þessari ferð Egils eru sönn eða eigi, er eigi hægt að segja með áreiðanlegri vissu, því að ekkert er til frásagna um þetta nema Egils saga sjálf; en sönnun fyrir aðalatriðinu í frásögn hennar er þó til, þar sem Höfuðlausn er, og sýnir hún og vísur Egils, að hann hefur þegið líf af Eiríki konungi.

fall Eiríks blóðaxar (954). Egill spurði þá að Arinbjörn væri kominn til Noregs og hefði fengið veislur sínar og eignir; langaði hann þá til að finna hann. Einnig segir sagan að hann vildi ná fje því, er hann vann, þá er hann feldi Ljót hinn bleika, berserk einn og hólmgöngumann, í fyrri ferð sinni. Þá átti hann og fjár að gæta, þar sem voru jarðir hans í Sogni og á Hörðalandi. Með Egli fór nú Önundur sjóni Ánason, sem fyr er nefndur. Egill hafði látið gjöra langskipssegl mjög vandað, og gaf það Arinbirni og fleiri góðar gjafir. Egill náði eigi jörðum Ljóts hins bleika, því að þær höfðu fallið undir konung. En hann notaði tækifærið til þess að fara enn í víking með Arinbirni og afla sjer fjár á þann hátt. Kaupskip sitt og vörur ljet hann á meðan flytja austur í Vík og var hann þar hinn annan vetur hjá Þorsteini Þórusyni, systursyni Arinbjarnar. Í utanferð þassari fór Egill sendiferð austur á Vermaland. Það var hættuför mikil, sem hann fór fyrir Þorstein í erindum konungs, en Egill vann sigur á öllum fyrirsátum. Sumarið eptir fór Egill til Íslands með hlaðið skip sitt vörum.[1]) Þetta var fjórða og síðasta utanferð Egils, enda var hann nú töluvert yfir fimmtugt.

Af engum bónda, sem utan fór, er sagt svo sögulega og ítarlega sem af Egli Skallagrímssyni. Þar var mikið söguefni sem deilur hans voru og öll vígaferli og víking á utanferðum hans, enda hefur sá, sem sögu hans hefur ritað, kunnað að fara með það, og er mestur hluti sögu hans um það.

En nú skal nefna aðra bændur, sem fóru utan á eigin skipum.

Þórður dofni Atlason í Traðarholti í Flóa keypti skip í Knarrarsundi og vildi heimta arf sinn í Noregi. Hann var þá ungur að aldri, 22 ára, en hafði kvongast fyrir þremur árum. Hann ljet í haf og spurðist ekki til hans síðan (um 939).[2])

Um 961 bjuggu þeir mágar Þorgrímur Þorsteinsson á Sæbóli og Þorkell Súrsson að Hóli í Haukadal skip sitt, sem þeir höfðu kastað eign sinni á eptir fall eigendanna, Norðmanna tveggja, og fóru til Noregs. Það sama ár rjeðst Gísli Súrsson í kaupferð með Vjesteini mági sínum, sem fyr er sagt. Þeir Þorgrímur fóru á fund Haralds konungs grá-

[1]) Eg. 246—280. [2]) Ldn. 305—306; Fló. 127.

felds og segir sagan að þeir gerðust honum handgengnir; bendir það og á, að þeir hafi fengið vist með honum um veturinn. Sagan segir að þeim hafi orðið gott til fjár. Sumarið eptir sigldu þeir til Íslands og tóku land í Haukadalsárósi í Dýrafirði.[1]

Ólafur pái Höskuldsson keypti skip, er uppi stóð í Vaðli, og fór til Noregs að afla sjer húsaviðar. Hann var um veturinn á Hörðalandi, en um vorið fór hann á fund Hákonar jarls Sigurðarsonar og fjekk að höggva húsavið í mörk hans. Síðan hjelt hann til Íslands um sumarið (um 980).[2]

Vermundur hinn mjóvi Þorgrímsson í Bjarnarhöfn keypti ásamt Arnkatli goða skip, sem stóð uppi í Dögurðarnesi og Norðmenn áttu, líklega árið 981. Hann fór utan á því til Noregs og gerðist handgenginn Hákoni jarli Sigurðarsyni. Sumarið eptir fór hann aptur til Íslands og hafði út með sjer tvo berserki. Í Heiðarvíga sögu, inntaki Jóns Ólafssonar, segir að Vermundur hafi farið utan til þess að sækja sjer við til húsabótar, og má það rjett vera; hann hafði árið áður tekið við Bjarnarhöfn eptir föður sinn. Hann bjó því eigi á Laugabóli í Ísafirði, eins og segir í Heiðarvíga sögu; heldur flutti hann vestur eigi fyr en hjer um bil 20 árum síðar, og bjó þá í Vatnsfirði. Ein aðalástæðan til utanfarar Vermundar var sú, að hjálpa Þórarni svarta Þórólfssyni, mági sínum, er hafði felt Þorbjörn digra að Fróðá og var sekur orðinn. Arnkell goði, móðurbróðir Þórarins, gaf honum þann hluta skipsins, sem hann keypti, og í Eyrbyggju segir að Vermundur hafi gefið honum sinn hluta í Noregi og hann hafi farið vestur um haf. En hvernig Vermundur fór aptur til Íslands segir eigi í Eyrbyggju. Af inntaki Heiðarvíga sögu er svo að sjá sem hann hafi farið á eigin skipi, hvað sem satt er í því.[3]

Bárður Hallason, bóndi á Skáldstöðum í Eyjafirði, fór utan og sótti sjer húsavið. Hann kom út árið eptir og hafði út mikla viðu segir sagan. Ferð þessa fór Bárður einnig til þess að komast undan hefnd (um 980).[4]

[1]) Gísl. 7—8/16—18; Gísl. II, 95, 97. [2]) Lax. 29/96—98. [3]) Eyrb. 22/36, 25/38—40; Heið. 4—5; sbr. Safn I, 329, en Guðbr. Vigfússon segir þar í ógáti, að Vermundur hafi átt Guðný systur konu Þórarins. í stað þess að hún var systir Þórarins sjálfs, Eyrb. 9,18. [4]) Glúm. 18—19/52—53.

Hjeðinn hinn mildi Þorbjarnarson, frá Svalbarði í Eyjafirði, fór utan til Noregs að sækja húsavið; en á meðan hann var þar að skógarhöggi ljet Þorvaldur Koðránsson vega hann (986).[1])

Flosi Þórðarson fór einnig utan að sækja sjer húsavið eða skálavið. Hann var þá orðinn gamall. Hann var í Noregi um veturinn, en varð síðbúinn sumarið eptir og skip hans var ótraust. Það týndist á heimleiðinni (um eða eptir 1020).[2])

Hjalti Skeggjason og Gissur hinn hvíti Teitsson fóru 999 utan á skipi, er Hjalti hafði látið gera heima hjá sjer í Þjórsárdal. Skip þetta hefur eigi verið stórt hafskip og eigi heldur mjög þungt, því að Hjalti ljet draga það hjer um bil eina mílu vegar eða rúmlega það, yfir Landið og til Ytri Rangár; eptir henni færði hann það síðan til sjávar. Það hefur einnig verið smíðað úr útlendum viði, því að birkiskógarnir hjer á landi voru eigi svo stórir að hægt væri að smíða kaupskip úr þeim. Auk þess hefði þess eflaust verið getið, ef það hefði verið gert úr innlendum viði, því að það hefði þótt svo merkilegt. Að eins í einni áreiðanlegri sögu er þess getið, að gert hafi verið hafskip úr innlendum viði, og er það sagt um Ávang landnámsmann, sem bygði fyrst í Botni við Hvalfjörð. »Þar var þá svá stórr skógr, at hann gerði þar af hafskip, ok hlóð þar sem nú heitir Hlaðhamarr.«[3]) Í Botnsdal er skjólgott, og landslagið bendir á að þar geti orðið svo stór skógur sem framast má verða á Íslandi. En hins vegar ber að gæta þess, ef saga þessi er sönn, að Ávangur var írskur, og að Írar hættu sjer á smáum skinnbátum út á reginhaf, til Færeyja og alla leið til Íslands. Hafskip Ávangs hefur varla verið stórt, og ómögulegt er það eigi að hann hafi haft eitthvert rekatrje í það. Enn fremur verður að gæta að því, að inn í Landnámabók er skotið ýmsum sögnum og þjóðsögum, sem eru eigi allar jafnáreiðanlegar, þótt hún sje annars einhver hin áreiðanlegasta af öllum fornsögum vorum.

Þeir Gissur og Hjalti voru um veturinn með Ólafi konungi Tryggvasyni og komu út árið eptir á skipi Hjalta. Þeir

[1]) Krist., Bps. I, 8; Þorv., Bps. I, 47—48. [2]) Nj. 159/909—910.
[3]) Ldn. 14/47.

höfðu kirkjuvið með sjer, sem konungur hafði fengið þeim, og tóku þá land í Vestmannaeyjum.[1])

Hjer um bil átján árum síðar fór Hjalti Skeggjason utan að orðsendingu Ólafs konungs Haraldssonar, en hvort hann fór þá á sínu eigin skipi eða tók sjer far með öðrum, segir ekki. Hann fór þá sendiferð til Svíþjóðar á fund Ólafs konungs hins sænska Eiríkssonar, með Birni digra, stallara Ólafs Haraldssonar, til þess að leita um sættir við konung. Hann greiddi Svíakonungi landaura til þess að vinna góðvild hans, en að Hjalti skyldi inna af hendi greiðslu þeirra, bendir þó á að hann hafi átt að ráða yfir skipinu, sem hann fór með. Árið eptir fór Hjalti til Íslands (1018—1019).[2])

Gissur hvíti fór einnig utan einu sinni eptir þetta að því er Hungurvaka segir. Hann fór þá utan með Ísleif son sinn og hefur það eigi verið fyr en um 1020, ef það er rjett að hann hafi fylgt syni sínum utan. Gissur var þá sjötugur maður eða rúmlega það, en Ísleifur var fæddur 1006. Það má nærri geta að hann hefur eigi farið utan á eigin skipi í þessa ferð, heldur tekið sjer far og syni sínum, sem hann kom þá í skóla.[3])

Í sögu Hávarðar Ísfirðings, sem einnig er nefndur Hávarður hinn halti, segir, að hann hafi eptir fall Þorbjarnar Þjóðrekssonar farið utan til Noregs og með honum Bjargey Valbrandsdóttir, kona hans, og Þórhallur frændi hans; þau hafi þá verið skírð, og síðan hafi Hávarður haft út með sjer kirkjuvið mikinn. Þetta á að hafa verið á ríkisárum Ólafs Tryggvasonar, en það er eigi rjett. Hins vegar má það satt vera, að Hávarður hafi eptir deilur sínar rjett í byrjun 11. aldar farið utan og fengið sjer kirkjuvið, til þess að reisa af kirkju í þakklætisskyni fyrir það, að hann bar að lokum hærra hlut í viðskiftum sínum við Þorbjörn Þjóðreksson.[4])

---

[1]) Íslb. 10; Krist., Bps. I, 17—18, 20; Nj. 102/538, 104/546; Lax. 41—42/154—156; Oddr 37/297—298; Hkr. I, 81/403, 84/407, 95/427; Frís. 150, 157; Fms. II, 207—211, 232—233. Flat. I, 448; Sturl. I, 244; sbr. Íslendinga sögu mína II, 363—379; þar segir af ýmsum missögnum í heimildarritunum, sem hjer er því ekkert talað um. [2]) Hkr. II, 60/87, 68/103, 70/110—112, 72/115, 86/160; Ól. s. s. 51—52, 76. [3]) Hungr. 60—61. [4]) Háv. s. 53; sbr. Ísl. sögu mína II, 334. 496—498.

## IV.

### Enn ýmsir íslenskirskipseigendur og kaupskip.

Auk þeirra íslensku skipseigenda, kaupmanna og bænda, sem þegar eru nefnir, er getið um ýmsa Íslendinga á þessum tímum, sem áttu skip, og um kaupskip, sem voru í förum og íslenskir menn áttu. Kaupskip gengu þá kaupum og sölum og er þess opt getið í sögunum. Margir heldri menn kunnu eigi við annað, ef þeir fóru í siglingar, en að eignast skip eða hlut í skipi, og hjelst sá hugsunarháttur frá landnámsöldinni alla söguöldina, þótt hann færi að líkindum nokkuð minkandi, er á hana leið og innanlands ástæður tóku að hafa áhrif á menn. Við ýms tækifæri sjest það af sögunum, að margir hafa átt skip á þessu tímabili, og kemur það stundum í ljós, þá er minst varir. Þannig er þess getið um Hrút Herjólfsson, er hann bað sjer konu (um 963), að hann ætti kaupskip í siglingum.[1]) Hann mun þá fyrir nokkrum árum hafa verið kominn frá Noregi og setstur að á Íslandi. Í Njáls sögu er sagt allmikið af Ásgrími Elliðagrímssyni, sem bjó í Tungu (nú Bræðratungu) í Biskupstungum, en af henni sjest þó eigi, að hann hafi farið utan, eða að hann hafi átt skip í förum. Í Flóamanna sögu er getið um Ásgrím, af því að hann átti í deilu við Þorgils örrabeinsstjúp, og þar er sagt að hann hafi átt skip í förum, af því að hann vildi eigi gjalda Þorgilsi eða landseta hans hafnartoll, er skip hans lá á Eyrum (um 1000).[2]) Ef skírteini þessi eru rjett, eru þau merkileg, því að þess er svo sjaldan getið, að íslenskir höfðingjar hafi átt kaupskip í förum, án þess að sigla sjálfir með þau. En ef Ásgrímur hefur átt skip í förum, má nærri geta að hann hafi farið utan á yngri árum.

Til þess að halda við skipastól sínum, urðu Íslendingar optast nær að kaupa skip sín eða að afla sjer þeirra í útlöndum. Þeir smíðuðu mjög sjaldan sjálfir skip innanlands, af því að efnivið vantaði.[3]) En stundum keyptu þeir skip eða hlut

[1]) Nj. 2/5. [2]) Fló. 31/157. [3]) Frásaga Svarfd. 15/43—44, sbr. 19/54, um að skip hafi verið smíðað í Svarfaðardalnum og þar höggvinn viðurinn í það, er eigi annað en ósannsöguleg sögn, eða þjóðsaga, er myndast hefur til að skýra þar tvö örnefni, Eikibrekku og Eikisíki, sjá Ísl. sögu mína I, 268 og Þorv. Thoroddsen, Lýsing Íslands II, 439—440.

í skipi, sem uppi stóðu innanlands og einhverjir menn áttu, er höfðu verið í förum. Þannig keypti Höskuldur Dala-Kollsson hálft skip, er uppi stóð í Dögurðarnesi, handa Þorgerði Þorsteinsdóttur, móður sinni. Hún undi eigi á Íslandi eptir að hún var orðin ekkja, og fór þá til Noregs. Þar giptist hún Herjólfi, lendum manni, og eignaðist með honum Hrút son sinn. En er hún varð ekkja í annað sinn, fór hún aptur til Íslands með auð fjár og var með Höskuldi syni sínum til dauðadags.[1])

Þá er Óttar Þorvaldsson og Ávaldi Ingjaldsson höfðu hefnt feðra sinna, flýðu þeir til Íslands og komu út fyrir norðan land. Óttar keypti þá land í Grímstungum í Vatnsdal af manni, sem Einar hjet, og ljet hann fá kaupskipið fyrir (um 965).[2]) Með því að Einar kemur ekkert annað við söguna, er eigi sagt meira af honum, en þó verður að ætla, að hann hafi keypt skipið til þess að fara á því til annara landa.

Á þessum árum kom til Noregs hafskip af Íslandi, er áttu íslenskir menn. Það var hlaðið vararfeldum, sem þeir vildu selja. Þeir hjeldu skipinu til Harðangurs, því að þeir spurðu, að þar var fjölmenni mest fyrir, en enginn vildi kaupa vararfeldi af þeim. Haraldur konungur Eiríksson var þar fyrir og var stýrimaður málkunnugur honum. Hann fór því á hans fund og tjáði honum vandræði sín. Konungur kvaðst þá mundu koma til hans, og hann gerði svo og leit á varning þeirra. Konungur þá einn gráan feld af stýrimanni og gekk í honum ofan í skútu sína. En áður en hann ljet róa burtu, keypti hver hans manna feld, og seldust allir feldirnir þá á örstuttum tíma. Eptir þetta var Haraldur konungur kallaður gráfeldur. Saga þessi sýnir að stýrimaðurinn, sem enginn veit nú nein deili á, hefur verið áður í Noregi eða í útlöndum, þar sem hann var Haraldi konungi málkunnugur.[3])

Nokkru seinna (um 970) braut skip í Danmörku, er íslenskir menn áttu, en ókunnugt er hverjir voru. Danir tóku upp fje alt og kölluðu vogrek; rjeð fyrir því bryti konungs, er Birgir hjet. Íslendingar fengu enga leiðrjetting á

[1]) Lax. 7/17, 8/19. [2]) Hallfr. 2/85, sbr. Fms. II, 5—6; Flat. I, 301—302. [3]) Hkr. I, 7/239; Frís. 90—91.

þessu. Til þess að hefna sín lögtóku þeir að yrkja skyldi um Danakonung og Birgi níðvísu fyrir nef hvert, er á var landinu.[1])

Snæbjörn galti Hólmsteinsson, frá Þingnesi í Borgarfirði, átti skip í Grímsárósi. Hrólfur hinn rauðsenski keypti helminginn í því. Þeir ljetu í haf við tólfta mann hvor að leita Gunnbjarnarskerja og fundu land (um 978). Það var óbygt og mun það hafa verið einhver hluti af austurströnd Grænlands. Þeir gerðu sjer þar skála og voru þar um veturinn; en á milli þeirra komu upp deilur og vígaferli, og var þá öllum góðum árangri af ferð þeirra lokið. Sumarið eptir ætluðu þeir til Íslands, en hröktust til Hálogalands. Þaðan fóru þeir til Íslands og komu út í Vaðli.[2])

Frjettir af ferð þessari munu hafa borist út um sveitir, einkum í kring um Breiðafjörð, og er líklegt að þær hafi ýtt undir Eirík hinn rauða Þorvaldsson, þá er hann lagði af stað að leita Gunnbjarnarskerja og fann Grænland. Hann var skipseigandi og bjó skip sitt í Eiríksvogi í Öxney á Breiðafirði, er hann varð sekur sökum vígaferla. Þá er hann hafði kannað Grænland í þrjú sumur, fór hann aptur til Íslands og kom í Breiðafjörð. Fregnin um landafund hans flaug út um Vesturland, og hafði svo mikil áhrif á menn, að sagt er að 25 skip færu sumarið eptir úr Breiðafirði og Borgarfirði til Grænlands, er Eiríkur rauði hafði lagt af stað til þess að byggja það (líklega 986). Af þessum skipum komust 14 til Grænlands, en sum rak aptur, en sum týndust.[3]) Þessi atburður er eitt hið ljósasta skírteini um, að töluvert var til af haffærum skipum á Íslandi seint á 10 öld; en þó er það líklega eigi rjett í sögunum að öll þessi skip hafi farið af Íslandi á einu sumri, heldur munu sum þeirra hafa farið á næstu árum eptir 986.[4]) Skipshafnirnar á þessum 25 skipum má ætla að hafi verið um 500 manna eða jafnvel alt að 600.

Nokkrir af skipstjórunum eða hinum helstu mönnum á

---

[1]) Hkr. I, 33/316; Frís. 117; Fms. I, 153; Jómsv., Fms. XI, 13/42; Knytl., Fms. XI, 3/181; Flat. I. 121/152. [2]) Ldn. 30/153—154. [3]) Íslb. 9; Ldn. 14/103—107; Eir. r. 6–9. 50, 52; Eyrb. 24/37—38; Fms. II, 213–215; Flat. I, 430, þar segir að skipin hafi verið 35, en það mun vera ritvilla; Ann. I, II. 1V, V. [4]) Sbr. Ísl. sögu mína II, 265—269.

þeim 14 skipum, sem komust til Grænlands, eru nefndir í Landnámu, af því að þeir gerðust þar landnámsmenn. Einn þeirra var Herjólfur Bárðarson. Hann komst í hafgerðingar á leiðinni.[1]) Með honum var á skipi suðureyskur maður kristinn, sá er orti Hafgerðinga drápu. Stefið úr henni er enn til og biður hann drottinn að beina för sína og halda verndarhendi yfir sjer. Herjólfur komst heill til Grænlands og nam Herjólfsfjörð og bjó á Herjólfsnesi[2]). Sonur Herjólfs var Bjarni farmaður, sem fyr er nefndur.

En hjer má nefna fjóra menn aðra, sem fóru á eigin skipum nokkrum árum síðar til Grænlands. Fyrstan þeirra má telja Þorgils örrabeinsstjúp Þórðarson frá Traðarholti í Flóa. Hann hafði áður verið lengi erlendis. Sagan segir að hann færi fyrst utan til Noregs, er hann var frumvaxta, og væri þar um veturinn; sumarið eptir fór hann í kaupferð, og var enn lengi í Noregi. Hann fór til Suðureyja og Kataness, og var í hernaði. Til þess að fegra hann segir sagan, að þeir fjelagar hafi látið bændur og kaupmenn fara í friði, en eytt mjög illþýði og hernaðarmönnum. Þá fór Þorgils aptur til Noregs, og er sagt að hann færi kaupferð eina

---

[1]) Hafgerðingum er lýst í Konungs skuggsjá, 16/39 á þessa leið: »Nú er þat enn eitt undr í Grænlands hafi, er ek em eigi fróðastr um, með hverjum hætti er þat er, þat kalla menn hafgerðingar; en þat er því líkast sem allr hafstormr ok bárur allar, þær sem í því hafi eru, samnisk saman í þrjá staði, ok gerask af því þrjár bárur; þær þrjár gerða (girða) alt haf, svá at menn vitu hvergi hlið á vera, ok eru þær stórum fjöllum hærri, líkar bröttum gnípum, ok vitu menn fá dæmi til, at þeir menn hafi or höfum komizk, er þar hafa í verit staddir, þá er þessi atburðr hefir orðit. En því munu sögur vera af görvar, at guð mun æ nokkura þaðan hafa frjálsat, þá sem þar hafa verit staddir, ok mun þeirra ræða síðan dreifzk hafa ok fluzk manna í millum, hvárt sem nú er svá frá sagt sem þeir hafa helzt um rætt, eða er nokkut þeirra ræða aukin eða vönuð, ok munu vér fyrir því varliga um þá hluti ræða, at vér höfum fá þá hitta nýliga, er þaðan hafi komizk, ok oss kynni þessi tíðindi at segja.« Sbr. J. Japetus S. Steenstrup, Hvad er Kongespeilets »Havgjerdinger«? í Aarb. f. n. Oldkh. 1871, bls. 119—170. Hann ætlar þær hafa verið hafskjálfta, eða stórkostlegar öldur, sem hafi risið af miklum landskjálfta neðansjávar. En seinna var orðið notað um stórkostlegt hafrót, þótt það kæmi af öðrum ástæðum, svo sem í Guðmundar sögu Arasonar, Bps. I, 483.

[2]) Ldn. 14/106—107, 14/319—320; Hksb. 79/35, sbr. Grænl. þ. í Flat. I, 431 og í Eir. r. 53 o. ef.

á Upplönd og til Svíþjóðar og að hann færi sumarið eptir til Íslands, líklega á eigin skipi og með mikið fje. Hann hafði þá verið mörg ár erlendis á ríkisárum Haralds gráfelds og Hákonar jarls Sigurðarsonar (um 965—975), ef nokkuð má marka söguna.[1])

Þorgils gerðist síðan bóndi í Traðarholti og bjó þar lengi; en fyrir áeggjan Eiríks rauða segir sagan að hann færi til Grænlands. Hann keypti þá skip í Leiruvogi og fór með fjölskyldu sína og þræla og tólf menn aðra. Hann tók land í óbygðum á austurströnd Grænlands, og varð að vera þar tvo vetur sökum ísa; sótt kom í lið hans og dó hjer um bil helmingur þess; þrælarnir myrtu konu hans veika og hlupu brott. Eptir miklar þrautir náði Þorgils um siðir til bygða á Grænlandi. En hann var þar eigi lengi, því að þeim Eiríki rauða samdi eigi. Þorgils hjelt þá aptur til Íslands, og kom þangað eptir hjer um bil sex ára brottveru og mikla hrakninga á heimleiðinni, bæði til Írlands og Hálogalands (líklega um 990—996).[2])

Þorbjörn Vífilsson, á Laugarbrekku á Hellisvöllum (nú Hellnar) sunnan undir Snæfellsjökli, rjeðst á gamalsaldri til Grænlands með fjölskyldu sína (um 999). Hann keypti skip, er uppi stóð í Hraunhafnarósi, og þrír tigir manna rjeðust til ferðar með honum. Dóttir Þorbjarnar var Guðriður, er siðar giptist Þorfinni karlsefni og fór með honum frá Grænlandi til Vínlands og síðan aptur til Íslands[3]).

Bjarni Grimólfsson, breiðfirðskur maður, og Þórhallur Gamlason, austfirðskur maður, bjuggu skip sitt og fóru til Grænlands með 40 manna sama sumar sem Þorfinnur karlsefni (um 1002). Þeir fóru einnig til Vínlands. Í þeirri ferð týndist Bjarni, er Þórhallur kom aptur til Íslands og var síðan kallaður Vinlendingur. Hann keypti land á Melum í Hrútafirði og bjó þar.[4])

---

[1]) Fló. 12/130—17/137, 18/139. [2]) Fló. 20/141—29/154. [3]) Eir. r. 3/13, 4/18 sbr. Grænlþ. 60, 63. Vífill faðir Þorbjarnar kom út með Auði djúpúðgu og var leysingi hennar. Þorbjörn hefur því varla verið yngri en um sjötugt, er hann fór til Grænlands, enda andaðist hann litlu siðar. [4]) Eir. r. 7/27—28, 8/30, 13/45—46; Grett. 30/114. Í Grænlendinga þætti eru þeir Bjarni og Þórhallur Gamlason eigi nefndir, en þar er getið um bræður tvo úr Austfjörðum, Helga og Finnboga, sem komu af Noregi til Grænlands og fóru til Vínlands. Grænl. þ. 69—71. Um Vínlandsferðirnar sbr. Ísl. sögu mína II, 274 o. ef.

Ýmsir Íslendingar, sem fóru utan, keyptu skip til fararinnar, eða fengu það að gjöf hjá vandamönnum sínum og velgjörðamönnum. Nokkur dæmi uppá þetta hafa þegar verið tilgreind í sambandi við kaupmenn og kaupferðir bænda, en þess eru enn ýms dæmi.

Ólafur pái Höskuldsson gaf Geirmundi gný, norrænum manni, tengdasyni sínum, kaupskip með öllum reiða, er hann fór af Íslandi (um 985).[1])

Þá er Ögmundur Hrafnsson fór utan, keypti Víga-Glúmur frændi hans skip handa honum af norrænum mönnum, sem voru að Gásum. Ögmundur var fyrir skipinu en hásetar hans flestir voru ungir menn íslenskir, sem eigi höfðu verið fyr í förum. Þá er þeir komu til Noregs, fóru þeir óvarlega, og sigldu í einu eyjasundi á langskip í tengslum, svo eitt þeirra fór í kaf. Fyrir það laust Hallvarður, eigandi langskipsins, Ögmund í óvit, og hefndi hann þess ekki, áður en hann fór til Íslands sumarið eptir (um 993—994). Vigfús Víga-Glúmsson var þá hjá Hákoni jarli, og við því búið að hann mundi komast í hættu, ef Ögmundur hefði vegið Hallvarð. Vigfús kunni honum þó enga þökk fyrir þetta, og Víga-Glúmur tók Ögmundi svo illa, að hann fór frá honum. Þó hafði ferðin að öðru leyti gengið vel, og Ögmundi orðið vel til fjár. Tveim árum síðar bjó Ögmundur skip sitt og sigldi til Noregs. Hann drap þá Hallvarð og hjelt þegar aptur til Íslands (um 996).[2])

Þorleikur Höskuldsson, sem fyr er nefndur, seldi jarðir sínar og varði fjenu til utanfarar. Hann keypti skip, er uppi stóð í Dögurðarnesi, og fór utan alfarinn með konu sína og annað skuldalið. Hann fór frá Noregi til Danmerkur og síðan til Gautlands.[3])

Illugi hinn svarti Hallkelsson á Gilsbakka keypti hálft skip handa Gunnlaugi ormstungu syni sínum af Auðunni festargarm, er hann fór utan (um 1001). Þorkell svarti fór utan með honum. Í Noregi móðgaði Gunnlaugur Eirík jarl og varð því að fara þaðan. Hann fjekk þá Auðunni skip sitt til varðveislu, segir sagan, og fje það, er hann hafði eigi með sjer, en tók sjer far til Englands og gjörðist hirðmaður

---

[1]) Lax. 30/101. [2]) Glúm. 96—98; Fms. II, 63—72; Flat. I, 333—336. [3]) Lax. 38/137—138.

Aðalráðs (Athelreds) konungs. Þaðan sigldi hann með kaupmönnum til Dyflinnar og síðan til Orkneyja. Þá stje hann á skip með kaupmönnum til Noregs og kom um haustið til Konungahellu. Þaðan fór Gunnlaugur til Skara og Uppsala, á fund Ólafs konungs sænska, Eiríkssonar hins sigursæla. Þar hitti hann Hrafn Önundarson. Þorkell svarti var jafnan með Gunnlaugi. Frá Svíþjóð fór Gunnlaugur aptur til Englands og var þar tvo vetur hjá Aðalráði konungi. Því næst fór hann til Noregs og út til Íslands með Hallfreði vandræðaskáldi (um 1005); en sagan segir eigi hvað orðið hafi af skipseign Gunnlaugs.[1])

Barði Guðmundarson fjekk skip að gjöf hjá Halldóri fóstbróður sínum, er hann var gerður utan ásamt mönnum þeim, sem verið höfðu að Heiðarvígum. Þeir brutu skipið við Siglunes og voru um veturinn hjá Guðmundi ríka. Sumarið eptir keypti Barði skip, er stóð uppi í Húsavík, og fór utan til Noregs. Sagan segir að Ólafur konungur Haraldsson hafi eigi viljað taka við þeim í veturvist, en verið þeim þó vinveittur. Sumarið eptir fóru þeir til Danmerkur og voru þar annan vetur; síðan fóru þeir til Íslands (um 1016—1018). Fám árum síðar keypti Barði aptur skip og fór utan og Auður Snorradóttir kona hans með honum. Hann fór til Garðaríkis og gekk þar á mála með Væringjum.[2])

Enginn Íslendingur á söguöldinni átti eins mörg skip og Þorkell Eyjólfsson, ef það væri alt satt, sem Laxdæla segir af honum (sbr. að framan bls. 625—626). Sagan segir að hann gæfi Gunnari Þiðrandabana skip, sem hann fór á til Noregs, en það mun vera ósatt. Öll frásaga Laxdælu af liðveislu Guðrúnar Ósvífrsdóttur við Gunnar mun vera röng, og getur eigi samrýmst við tímatalið. Gunnar Þiðrandabani var kominn til Noregs, þá er Grímur Droplaugarson kom þangað um 1006, ef marka má Droplaugarsona sögu. Ef Þorkell Eyjólfsson hefur hjálpað Gunnari utan, þá hefur hann hlotið að gera það á meðan hann var í siglingum og áður en hann giptist Guðrúnu (líklega haustið 1008).[3]) Laxdæla segir, að Þorkell Eyjólfsson ætti tvo knörru í förum, áður en hann

---

[1]) Gunnl. 5/211—212, 5/217, 6—7/221—223, 8/228, 8—9/231—234, 10/241—243. [2]) Heið. 103—104, 105—106, 107. [3]) Lax. 69/254—255; Gunn. 6—7/210—211; Dropl. 14/173, sbr. Safn I, 409, Ísl. s. mína II, 490, 536.

giptist. Seinna keypti hann í skipi handa Þorleiki Bollasyni, er uppi stóð í Döguròarnesi; hefur það eigi verið fyr en um eða rjett eptir 1020. Þorleikur fór þá til Noregs og gerðist hirðmaður Ólafs konungs Haraldssonar. Fám vetrum síðar kom Þorleikur út aptur að líkindum á sama skipi; átti hann það hálft, en hálft norrænir menn. Árið eptir segir sagan að Bolli bróðir hans Bollason hafi keypt hálft skipið af Norðmönnum og fóru þeir bræður til Noregs. Þar voru þeir með Ólafi konungi um hríð; segir Laxdæla að Bolli færi þá til Danmerkur og út í Miklagarð og kæmi sjer þar í Væringjasetu; »höfum vér ekki heyrt frásagnir at neinn Norðmaðr hafi fyrr gengit á mála með Garðskonungi en Bolli Bollason«, en þetta er algjörlega rangt. Margir Norðmenn og Íslendingar höfðu fyrir þennan tíma farið til Miklagarðs, en það er efasamt hvort Bolli hefur nokkru sinni komið þangað. Þorleikur Bollason var eptir í Noregi með Ólafi konungi, og segir eigi af útför hans til Íslands. En fjórum árum eptir druknun Þorkels Eyjólfssonar er sagt að Bolli hafi komið út í Eyjafirði á skipi, sem hann átti, en á því hafi flestir hásetar verið norrænir (um 1030). Bendir það á að skipið hafi verið norrænt, því að allar sagnir af Bolla Bollasyni eru ýktar og skrýddar mjög.[1])

Árið 1025 fóru fjórir höfðingjasynir af Íslandi á fund Ólafs konungs Haraldssonar.[2]) Steinn Skaptason, lögsögumanns Þóroddssonar, var einn þeirra, og er beinlínis sagt um hann, að hann hafi átt sjálfur kaupskip það, er hann kom af hafi utan. Á skipi með honum var prestur einn, er Bárður hjet, vestfirðskur maður, ungur og lítt lærður. Steinn undi því illa að Ólafur konungur leyfði honum eigi að fara til Íslands sumarið eptir (1026) og ámælti konungi fyrir það bæði í »sundurlausum orðum og samföstum«. Konungur reiddist og lauk svo að Steinn hljóp frá honum og drap einn ármann hans. Hjelt hann þá til Giska til Þorbergs Árnasonar og fjekk liðveislu hjá konu hans, Ragnhildi Erlingsdóttur frá Sóla, því að þeir Bárður og Steinn höfðu skírt barn hennar, er hún ól, þá er þeir komu af Íslandi. Fyrir fylgi hennar og

---

[1]) Lax. 68/248, 70/256, 70/259, 71/261, 72—73/265—271, 77/284; Hkr. II, 124/272; Ól. s. s. 125; Fms. IV, 280; Flat. II, 239. [2]) Sjá Ísl. s. mína II, 566 o. ef.

Eysteins orra, sonar hennar, kom Þorbergur máli Steins svo áleiðis við konung, að hann fjekk að fara í friði fyrir honum, hvert er hann vildi. Fór Steinn þá suður á Jaðar með Sigurði og Þóri, sonum Erlings á Sóla, sem höfðu komið til liðs við Þorberg að bón systur þeira. Vorið eptir (1027) fór Steinn vestur til Englands og gekk síðan til handa Knúti hinum ríka, og »var með honum lengi í góðu yfirlæti«, segir Snorri. Steinn var skartsmaður mikill og metnaðarfullur; er sögn ein til um það, sem er auðvitað ósönn, að hann hafi viljað keppa við Knút konung í skarti, og að þeir hafi fyrir þá sök skilið. Mörg ár var Steinn eigi með Knúti konungi, og var hann síðan í förum. Þau urðu æfilok hans að hann braut skip sitt við Jótlands síðu; segir sagan að hann kæmist þar á land, máttfarinn og dasaður, og væri myrtur til fjár.[1]) Á honum að hafa hefnst svo fyrir ofmetnað sinn og óhlýðni við Ólaf konung, en líklegra er að hann hafi druknað eins og aðrir á skipinu og lík hans rekið í land og verið rænt.

Ýmsir Íslendingar fóru utan á þann hátt, að þeir tóku sjer far hjá öðrum, en eignuðust skip í ferðinni, svo að þeir komu út aptur á eigin skipi; fengu þeir þá stundum skip að gjöf hjá einhverjum stórhöfðingja eða ríkum frænda sínum í Noregi, eða þeir öfluðu sjer fjár og frama og urðu því skipseigendur. Einstöku sinnum er þess og getið um Íslendinga, sem eigi er neitt greint um hvernig farið hafi utan, að þeir hafi komið út á eigin skipi. Á landnámsöldinni er sagt um Þórólf Skallagrímsson að hann kæmi út á eigin skipi (um 914); en hann fór ungur utan með Birni Brynjólfssyni og var lengi erlendis.[2]) Líkt var þá um fleiri. Þórir, sonur Odds skrauta, sem nefndur var Gull-Þórir og Gull-Þóris saga er af, fór utan og átta aðrir Íslendingar með honum að sögn sögu hans. Þeir rjeðust í skip með norskum stýrimanni, Bárði, frænda Odds skrauta, sem bað sjer manna, af því að nokkrir af hásetum hans, sem voru íslenskir, rjeðust í brott og fóru heim til sín. Þeir Bárður fóru til Noregs um sumarið, og segir í Landnámu, að Þórir væri í hernaði og fengi gull mikið á Finnmörk. Saga Þóris segir að hann

[1]) Hkr. II, 129/281, 136/307—308, 138/311—320; Ól. s. s. 129, 141, 143—147; Ól. s. m. 43, 48; Fms. IV, 287, 313, 316—325, V, 180—181; Flat. II, 251, 260—261, 262—267. [2]) Eg. 111—112, 116—118

færi síðan með fjelögum sínum til Svíþjóðar og hann væri þrjá vetur á Gautlandi hjá Hlöðvi jarli, og að hann gæfi Þóri kaupskip, sem hann færi á með fjelögum sínum til Íslands. Þótt margt í sögunni sje æfintýri eða tilbúningur og þar á meðal sagan um Þóri og jarlinn, er það þó heldur líklegt að þeir Þórir hafi eignast skip í ferðinni og komið út á því (um 920).[1]

Glúmur Eyjólfsson, sem síðar var kallaður Víga-Glúmur, fór utan, og mun hann hafa tekið sjer far eða ráðist í skip hjá einhverjum stýrimanni, því að hann var þá ungur og umkomulítill. Hann vann frægðarverk hjá Vigfúsi hersi á Vors, afa sínum, og ljet hann því búa skip handa honum og gaf honum farminn á og mikið fje í gulli og silfri, segir sagan, og enn fremur þrjá góða gripi, feld, spjót og sverð, er hann fór aptur til Íslands (um 958).[2]

Hörður Grímkelsson fór ungur utan og með honum Geir Grímsson, fóstbróðir hans, og Helgi Sigmundarson. Þeir fóru með víkverskum manni, Brynjólfi Þorbjarnarsyni; sagan segir að hann gæfi Herði hálft skipið, af því að honum hafi fundist svo mikið til um vöxt Harðar og vænleik. Það er þó næsta ótrúlegt, enda er Harðar saga ýkt mjög og aukin í þeirri mynd, sem hún er til nú. Hitt er miklu líklegra að Hörður hafi tekið sjer far með Brynjólfi. Hörður var lengi utan, fimtán vetur að því er sagan segir (um 965—980). Hann var um hríð í hernaði. Honum varð gott til fjár og virðingar; hann kvongaðist erlendis konu, sem Helga hjet Haraldsdóttir, og segir sagan að hún hafi verið jarlsdóttir af Gautlandi, en allur sá kafli af Harðar sögu, sem gerðist á Gautlandi, má heita eintómt æfintýri. Hörður kom út á Eyrum með konu sinni, Sigurði Torfafóstra og Helga Sigmundarsyni og 30 manna. Geir fóstbróðir hans var farinn löngu áður til Íslands. Líklega hefur Hörður komið út á eigin skipi, ef nokkuð má marka sögu hans um velgengni hans erlendis.[3]

Þorvaldur hinn víðförli Koðránsson fór utan að ráði Þórdísar spákonu að Spákonufelli (um 975). Hann var fyrst í hernaði fyrir vestan haf með Sveini konungi tjúguskegg.

[1]) Ldn. 123—124; Gull.Þ. 2/8, 6/16—17. [2]) Glúm. 5/15, 6—7/19, 7/22. [3]) Harð. 12/36—38, 17/51, 18/56, 19/60.

Síðan fór hann víða um Suðurlönd (Þýskaland) og fann þar í Saxlandi Friðrik biskup; segir sagan að hann tæki af honum skírn og trú rjetta. 981 fór Þorvaldur til Íslands og með honum Friðrik biskup að bæn hans, til að skíra foreldra Þorvalds og aðra frændur hans. Þeir voru fimm ár á Íslandi að boða kristna trú. Síðan fóru þeir til Noregs og á meðan þeir lágu þar í höfn nokkurri, kom þangað af Íslandi Hjeðinn frá Svalbarði sem fyr er sagt. Fyrir víg hans skildi biskup við Þorvald og fór suður í Saxland, en Þorvaldur var þá um hríð í kaupferðum. Svo er að sjá sem Þorvaldur hafi átt skipi að ráða eða verið skipseigandi, þá er hann kom til Íslands og fór þaðan. Þá er Þorvaldur ljet af kaupferðum, rjeðst hann í pílagrímsferð til Jórsala, og fór þá víða um lönd og fjekk kenningarnafn sitt af þeim ferðum. Á heimleiðinni kom hann til Miklagarðs, og þaðan hjelt hann til Kænugarðs (Kijev) og til Garðaríkis. Um þetta leyti hófst frá Miklagarði kristniboð á Rússlandi og mun Þorvaldur hafa átt einhvern þátt í útbreiðslu kristninnar þar í landi. Það er sagt að hann hafi sett klaustur hjá höfuðkirkju einni, er helguð var Jóhannesi skírara, og verið í því til æfiloka. Kirkja þessi og klaustur á að hafa verið á Valdaihryggjum skamt frá Palteskju (Polozk).[1])

Sögusagnirnar hafa sett Stefni Þorgilsson, annan trúboða Íslendinga, í samband við Þorvald víðförla, og skal því geta um hann hjer, enda hafði hann skip til forráða, er hann kom til Íslands. Hann var af Kjalarnesi, en fór utan, er hann var á ungum aldri, og tók trú í Danmörku. Í sögu Ólafs Tryggvasonar segir að hann hafi farið með Þorvaldi víðförla víða um heim, að kanna helga staði og ríkra manna siðu, og á það að hafa verið eptir að Þorvaldur kom af Íslandi. Í Kristni sögu er aptur á móti sagt, að þeir Þorvaldur hafi fundist eptir hvarf Ólafs Tryggvasonar, og að þeir hafi þá farið víða um heiminn og alt út til Jórsala, og þaðan til Miklagarðs og til Kænugarðs hið eystra eptir Nepr; Þorvaldur hafi orðið eptir á Rússlandi og andast þar, en Stefnir hafi farið til Danmerkur.[2]) Saga þessi er enn ósennilegri en hin

---

[1]) Krist. 1/3, 4/8, 12/25; Þorv. þ. 36—38, 47—49; Flat. I, 269 o. ef.; Ldn. 183; Vatn. 46/76; Grett. 13/37; Ísl. saga mín, II, 317—331. [2]) Fms. I, 276; Krist. 12/25—26.

fyrri, því að Þorvaldur víðförli mun hafa byrjað Jórsalaferð sína fyrir árið 1000, en Stefnir var með Ólafi Tryggvasyni í síðustu herferð hans. Þetta er því að öllum líkindum sögusögn ein, sem hefur myndast af því að æfi þeirra Þorvalds og Stefnis var töluvert lík á að líta. Báðir höfðu þeir boðað kristni á Íslandi og hvorugur þeirra kom til landsins eptir það. Þá er fram liðu stundir settu menn því ferðir þeirra og þá sjálfa í samband hvorn við annan.

Stefnir fór frá Danmörku vestur um haf og hitti þar Ólaf Tryggvason og gerðist hans maður. Hann fór með honum til Noregs, og segir í Kristni sögu, að margir íslenskir menn hafi þá verið með konungi, en ekki munu aðrir nafngreindir, sem komu með honum frá Englandi, en Stefnir; má vera að hjer sje nokkuð blandað málum við það, sem síðar var í Noregi, því að þá voru margir Íslendingar með Ólafi Tryggvasyni, eins og nokkuð er að framan greint. Ólafur konungur sendi Stefni til Íslands að boða kristni, og fjekk honum skip, kennimenn og aðra förunauta (996). Honum varð heldur lítið ágengt og fór utan sumarið eptir (997). Hann var síðan með Ólafi Tryggvasyni á meðan hann lifði. Í síðustu herferð hans var Stefnir á einu af skipum þeim, sem sigldu frá konungi. Stefnir harmaði mjög fall hans og undi eigi í Noregi eptir það; gekk hann þá suður til Róms eptir því, sem segir í Ólafs sögu Tryggvasonar hinni löngu, og er þeirri ferð blandað saman við pílagrímsferð Þorvalds víðförla á öðrum stað í sömu sögu og einnig í Kristni sögu. Þá er Stefnir kom að sunnan, sá hann í Danmörku Sigvalda jarl; honum þótti hann valdur að dauða Ólafs konungs, og kvað vísu um það, að níðingur einn með niðurbjúgt nef hefði dregið Tryggvason á tálar. Fyrir það ljet Sigvaldi jarl drepa Stefni.[1])

Þráinn Sigfússon frá Grjótá í Fljótshlíð tók sjer far með Högna hinum hvíta til Noregs (um 989). Hann var um veturinn með Hákoni Hlaðajarli Sigurðarsyni. Hann drap fyrir jarl útlaga hans, Kol víking Ásmundarson. Fyrir það verk gaf jarl honum skip gott, er kallað var Gammur, og fór

---

[1]) Krist. 6/9—11, 12/26; Fms. I, 276, 283—286; II, 118, 119; III, 19—20; Flat. I, 285—287, 362, 363, 500; Fsk. 22/122; Oddr, Fms. X, 342. Sbr. Ísl. s. mína II, 346—350.

Þráinn á því til Íslands eptir tveggja vetra vist í Noregi (um 991). Hann fjekk síðan skipið Merði úrækju frænda sínum.[1])

Grímur og Helgi Njálssynir fóru utan sama sumar sem Þráinn Sigfússon, og rjeðu þeir sjer far með Bárði svarta og Ólafi syni Ketils úr Eldu. Á leiðinni rjeðust á þá víkingar með ofurefli liðs, og var fundur þeirra við Skotland; en Kári Sölmundarson kom þar að úr Suðureyjum og veitti þeim lið. Kári var þá hirðmaður Sigurðar jarls Hlöðvissonar í Orkneyjum; fóru Njálssynir með honum á fund jarls og voru með honum um veturinn. Þeir fóru þá herferð með jarli suður á Skotland, að verja ríki hans á Katanesi. Eptir það gerðust þeir hirðmenn Sigurðar jarls, og um sumarið segir sagan að þeir hafi farið í hernað með Kára Sölmundarsyni og fengið mikið fje. Veturinn eptir voru þeir með jarli, en um vorið beiddust þeir að fara til Noregs. Sigurður jarl fjekk þeim þá gott skip og röskva menn; sigldu þeir til Noregs og komu norður í Þrándheim. Þar voru þeir í kaupstefnu og biðu Kára Sölmundarsonar, því að hans var von þangað nokkru síðar. En á meðan urðu þeir fyrir hrakningum af hendi Hákonar jarls sökum Þráins Sigfússonar, er hafði leynt Víga-Hrappi, óbótamanni og útlaga jarls. Kári og Eiríkur jarl rjettu hlut þeirra, og síðan fóru þeir Kári og Njálssynir vestur um haf á fund Sigurðar jarls og voru með honum um veturinn. Vorið eptir fóru Njálssynir í hernað með Kára og hjet hann þeim þá að fara með þeim til Íslands. Þeir herjuðu víða um vesturströnd Englands og á Mön að því er sagan segir. Síðan fóru þeir aptur til Orkneyja. Ef treysta má frásögn Njálu um hernað þennan, er eigi líklegt að þeir hafi farið til Íslands þá um sumarið eða haustið, heldur að þeir hafi verið um veturinn í Orkneyjum og farið sumarið eptir til Íslands. Sagan segir að Sigurður jarl hafi gefið þeim góðar gjafir, og að þeir tækju land á Eyrum. Þeir fóru til Bergþórshvols, fluttu heim fje sitt og rjeðu skipi til hlunns, en hvað síðar var gert við það, segir eigi fremur venju (um 989—993).[2])

Þorkell krafla Þorgrímsson, Vatnsdælagoði, fór utan á yngri árum sínum með Austmanni einum, er Björn hjet, og

---

[1]) Nj. 75/346, 82/381—390, 88/425, 88/442—443. [2]) Nj. 75/347—48, 83—84/390—99, 85/400—408, 88/425, 89—90/444—456.

komu til Orkneyja. Þar var Þorkell tvo vetur, og segir Vatnsdæla að hann væri með Sigurði jarli Hlöðvissyni, en það er líklega rangt, að Sigurður digri hafi þá verið orðinn jarl; aptur á móti er líklegt að Þorkell hafi þá kynst honum í ferðinni, en hann hefur þá verið ungur að aldri, nokkru yngri en Þorkell sjálfur. Eptir Vatnsdælu að dæma hefur Þorkell farið utan, er hann var frumvaxta (um 975), en Sigurður hefur varla orðið jarl fyr en um 980. Þorkell hefur því verið við hirð föður hans, Hlöðvis jarls Þorfinnssonar, en vera má að Sigurður sonur hans hafi verið fyrir þeim hernaði, sem sagan segir að jarl færi í um sumarið. Þorkell var með í þeirri herferð, og gjörðu þeir upprás í Skotlandi. Eptir það gerðist Þorkell handgenginn jarli og segir sagan að móðir hans hafi verið í frændsemi við jarl. Þá er Þorkell fór til Íslands, gaf jarl honum kaupskip með farmi og sendi móður hans gjafir. Þorkell kom skipi sínu í Húnavatnsós. Þá er Þorvaldur víðförli kom út, var Þorkell krafla orðinn goði Vatnsdæla.[1])

Þá er Grímur Droplaugarson var fallinn frá í Noregi, keypti Finngeir Upplendingur skip til handa Helgu Ingjaldsdóttur, ekkju hans, og fór hún út til Íslands með allan fjárhlut sinn og Þorkell trani, fóstbróðir Gríms, með henni. Helga gaf síðan Þorkatli skipið hálft, en hálft seldi hún Austmönnum (um 1009). Vorið eptir fór Þorkell utan.[2])

Björn Arngeirsson, sem síðar var nefndur Hitdælakappi, rjeðst í skip með norrænum kaupmönnum og fór til Noregs (um 1007). Þorsteinn Egilsson[3]) og faðir hans fengu honum góðan farareyri. Björn var við hirð Eiríks jarls um veturinn. Sumarið eptir fór hann með kaupmönnum austur í Garðaríki á fund Valdimars konungs. Þar var hann tvo vetur eða helmingi lengur en hann ætlaði sjer, vegna þess að hann varð þar sár nær til ólífis í hólmgöngu einni. Þá er hann kom til Noregs (líkl. 1010) voru öll skip gengin til Íslands. Sumarið eptir er hann var búinn til Íslands frjetti hann gjaforð Oddnýjar festarkonu sinnar og settist kyr. Hið næsta sumar (líklega 1012) fór Björn til Englands, og segir sagan að hann væri þar tvo vetur með Knúti hinum

---

[1]) Vatn. 43/69—70, sbr. Ldn. 182; Ísl. s. mín, II, 194—195.
[2]) Dropl. 15/175 [3]) Í Bjarn. 2/5, sbr. 7/17. er sagt að það hafi gert Skúli Þorsteinsson og hann hafi verið fóstri Bjarnar að Borg, en það er rangt, sbr. Ísl. s. mína, II, 457.

ríka, en það getur varla verið rjett. Síðan á hann að hafa verið þrjú sumur í hernaði, í fjelagi með víkverskum manni. Þeir herjuðu í austurveg, en um veturna voru þeir í Danmörku. Þá fjekk Björn færi á að hefna sín á Þórði Kolbeinssyni. Eptir það fór hann til Noregs á fund Ólafs konungs Haraldssonar og gjörði hann um mál þeirra Þórðar. Næsta vetur var Björn í Víkinni, en tvo hina næstu með Ólafi konungi. Eptir það bjó hann skip sitt til Íslands. Hann hafði eignast það og mikið fje í hernaði, og kom hann út á því í Hrútafirði um 1019.[1])

Kári Sölmundarson tók sjer far á Eyrum með Kolbeini svarta 1013. Hann var þá að eltast við brennumenn. Er hann hafði drepið Gunnar Lambason í Orkneyjum og Kol Þorsteinsson á Bretlandi (Wales), gekk hann suður og þá lausn og fór hina vestri leið um Frakkland. Hann tók skip sitt á heimleiðinni í Normandí segir sagan, og sigldi norður um sjá til Dofra á Englandi. Þaðan sigldi hann vestur um Bretland, og svo norður með Bretlandi og norður um Skotlandsfjörðu, og ljetti eigi fyr en hann kom norður í Þrasvík á Katanesi til bónda, er Skeggi hjet. Þá skilaði hann þeim Kolbeini svarta og Dagviði bónda í Friðarey skipi því, sem hann hafði fengið hjá þeim, og var um veturinn á Katanesi. Sumarið eptir fjekk Skeggi Kára byrðing og hjelt hann til Íslands við 18. mann. Þeir urðu síðbúnir og höfðu langa útivist, og brutu skipið í spón við Ingólfshöfða, en menn komust af.[2])

Eyjólfur í Ólafsdal við Gilsfjörð og Þorgeir hófleysa, fóstbróðir hans og frændi, fóru utan í Grímsárósi og voru utan eitt ár. Þeir keyptu skip í Noregi og hjeldu því til Íslands (um 1024—1025).[3])

Af öllu því, sem hjer að framan hefur verið talið, er augljóst, að margir Íslendingar á söguöldinni hafa átt haffær skip, svo að enginn tilfinnanlegur skortur hefur þá verið á kaupskipum á Íslandi. Sumir fengu skip í arf eptir feður sína, en fleiri munu þó hafa keypt skip eða eignast þau á annan hátt, annaðhvort utanlands eða innan. Þá er íslenskir

[1]) Bjarn. 2/5—6, 4/9—11, 5/12—13, 8/20, 10/24; Flat. III, 244. [2]) Nj. 152/872, 154/876—877, 155/880—883, 158—159/904—909. [3]) Fóst. 58—60.

skipseigendur komu úr utanferðum, seldu þeir opt skip sín, ef þeir hugðu að þeir mundu eigi þurfa á þeim að halda, og ef þeim bauðst kaupandi að þeim, eða þeir gáfu þau frændum eða vinum og þágu laun fyrir. Stundum keyptu þau aðrir Íslendingar, sem ætluðu utan, en stundum Norðmenn, eða jafnvel aðrir útlendir menn, sem voru staddir á Íslandi. Þá er Íslendingar seldu útlendingum skip sín, minkaði skipaeign landsmanna við það, en þeir virðast eigi hafa hugsað mikið um það, og þeim hefur eigi heldur verið fyllilega ljóst hvaða þýðingu slikt hafði. Í annan stað seldu Austmenn, sem komu til Íslands, Íslendingum opt skip eða hlut í skipi. Erlendis eignuðust þó Íslendingar flest skip, bæði með því að kaupa þau og með því að fara í víking eða ganga í þjónustu hjá konungum, jörlum eða öðrum stórhöfðingjum, sem gáfu þeim skip að skilnaði, ef þeir höfðu reynst vel eða unnið eitthvert það verk, sem þeir vildu launa konunglega. Einstaka sinnum fengu Íslendingar líka skip að gjöf erlendis hjá frændum sínum eða vinum, og það kom fyrir að þeir ljetu gera skip handa sjer i Noregi.

Það er hins vegar eigi víst, að allir þeir Íslendingar, sem sagt er um i sögunum að komið hafi út á eigin skipi, hafi verið skipseigendur. Sögurnar má eigi ávalt skilja eptir bókstafnum, hvorki um þetta nje ýmislegt annað; allra síst má skilja svo þær sögur, sem guma mikið af sumum hetjum eða mönnum, sem þær segja frá, og eru meira eða minna ýktar. Þá er Íslendingar komu úr langferðum í fjarlægum löndum til Noregs eða annara nágranna landa Íslands, voru þeir opt slyppir að flestu og við litið föruneyti. Þeir gátu þá eigi keypt skip nje gert það út. Kári Sölmundarson varð t. a. m. að fá skip hjá Skeggja bónda i Þrasvík á Katanesi til þess að komast til Íslands; líklega hefur það eigi gengið greitt, því að þeir urðu síðbúnir. Skeggi hefur einnig orðið að fá Kára menn á skipið, eða gera það út eptir þörfum; er líklegt að skipverjar hafi ætlað að fara kaupferð til Íslands, þótt eigi sje neitt um það getið, en að Kári hafi orðið að greiða Skeggja bónda töluvert fje fyrir farið og útgerð hans. Ef þeir hefðu eigi brotið skip sitt við Ísland, er líklegt að skipverjar hefðu farið flestir hið næsta sumar aptur til Kataness eða Skotlands, en Kári einn og ef til vill örfáir menn með honum orðið eptir á Íslandi. Þetta hefði farið líkt eins

og þá er Finngeir Upplendingur hjálpaði Helgu Ingjaldsdóttur til Íslands. Þorkell trani fóstbróðir manns hennar og fylgdarmaður, og Austmenn þeir, sem höfðu flutt hana aptur til Íslands, fóru utan aptur vorið eptir.

Um útkomu Bolla Bollasonar er áður getið, og skal hjer því að eins bent á, að þótt sagt sje um hann, að hann hafi »átt« skip það, sem hann kom út á, þá þarf það eigi að lúta að öðru en því, að hann hafi átt fyrir því að ráða.

En þótt óvíst sje um suma þá menn, sem hjer hafa verið nefndir, hvort þeir í raun rjettri hafi átt skip, eins og segir í sögunum, eru samt svo margir menn eptir, sem eigi þarf að efast um að hafi verið skipseigendur. Ber bæði skipaeign landsmanna og mörg önnur skírteini áreiðanlegt vitni um það, að landsmenn hafi í upphafi tekið mikinn þátt í versluninni við önnur lönd.

## V.

### Íslendingar tóku sjer far milli landa.

Það sem enn hefur verið greint af utanferðum Íslendinga, hefur einkum verið nefnt til þess að sýna, hve mikinn þátt þeir tóku í verslun sinni við önnur lönd. Þessar ferðir lýsa því mest kaupskap Íslendinga og skipaeign, og bera áreiðanlegt vitni um, að þeir hafi sjálfir á söguöldinni rekið að tiltölu allmikla verslun við önnur lönd. En í því, sem hjer fer á eptir, mun verða skýrt frá ýmsum öðrum utanferðum Íslendinga, og skal byrjað með að telja nokkra menn, sem sögurnar segja að hafi tekið sjer far milli landa. Verður að vísu stundum erfitt að gera upp á milli þessara manna, og þeirra, sem hjer eru taldir næst á undan.

Eyjólfur Ingjaldsson, Helgasonar hins magra, frá Þverá í Eyjafirði, fór utan með Hreiðari stýrimanni af Vors í Noregi, og var með honum á vetrin, en fór í víking fjögur sumur, líklega með Ívari, bróður Hreiðars, og fjekk gott orð og mikið fje (um 935—939). Hann gekk á hólm við Ásgaut berserk, segir sagan, og vann sigur. Eyjólfur fjekk Ást-

riðar, dóttur Vigfúss hersis á Vors, og fór hún með honum til Íslands; segir eigi hvernig hann fór þangað.[1])

Ásgautur, þræll Þórðar godda, þá frelsi af Vigdísi Olafsdóttur feilans (eða Ingjaldsdóttur Ólafssonar), húsmóður sinni, og tók sjer far í Dögurðarnesi (um 940). Frá Noregi fór hann til Danmerkur og staðfestist þar.[2])

Ólafur pái Höskuldsson tók sjer far til Noregs hjá Erni stýrimanni. Sagan segir að Ólafur hafi verið um veturinn í hirð Haralds konungs gráfelds og Gunnhildar drotningar, og að þau hafi búið skip með 60 manna handa honum til Írlands. Þar hafi hann fundið Mýrkjartan konung móðurföður sinn; hafi hann kannast við frændsemi Ólafs, boðið honum til hirðar sinnar og gefið honum mikið fje að skilnaði. Síðan hafi Ólafur siglt til Noregs og verið þar hinn þriðja vetur með Haraldi konungi og Gunnhildi í miklu yfirlæti. Um sumarið, er Ólafur fór til Íslands, segir sagan að Haraldur konungur hafi gefið honum skip fermt viði. Utanferð þessa mun Ólafur líklega hafa farið um 955—958, en Haraldur gráfeldur kom til ríkis 961 eða um það leyti; mikið af frásögn Laxdælu af ferð Ólafs er tilbúningur og öll er hún svo óviss, að eigi er hægt úr að greiða hið sanna með vissu.[3])

Hrútur Herjólfsson, föðurbróðir Ólafs pá, fór utan með Össuri föðurbróður sínum, að heimta arf eptir bróður sinn. Hann gerðist hirðmaður Haralds konungs gráfelds. Sumarið eptir fór hann í víking fyrir tilstyrk konungs og Gunnhildar, sem var honum mjög vinveitt, segir sagan. Eptir tveggja vetra dvöl í Noregi fór hann aptur með Össuri til Íslands (um 963), og er sagt að konungur hafi fengið honum mjöl þótt illa væri ært.[4]) Í Laxdælu segir öðru vísi frá þessu. Þar er getið fyrstu útkomu Hrúts til Íslands, er hann fór þangað að vitja móðurarfs síns (um eða eptir 945). Hann á þá að hafa verið hirðmaður Haralds konungs, og Gunnhildur móðir hans á að hafa lagt miklar mætur á hann og gefið honum gullhring að skilnaði, en konungur skip[5]). Þetta getur eigi verið satt, því að Hrútur fór miklu fyr til Íslands, en

[1]) Glúm. 1—2/3—5, 4/10—13, sbr. Ldn. 171, 222, 325; Hksb. 184/73; Melab. 249; Ól. Trygg. 271 = Fms. I, 251, sbr. II, 62. [2]) Lax. 16/44. [3]) Lax. 20—22/60—76. [4]) Nj. 2—6/7—23. [5]) Lax. 19/53, sbr. Kr. Kålund, Indledning bls. LIII fyrir útg. hans af Lax.

Haraldur gráfeldur kom til ríkis í Noregi. Utanferð sú, sem segir af í Njálu, er líklega sönn, en í Laxdælu er blandað málum um þetta og það sagt um æskuár Hrúts í Noregi, sem gerðist fyrst mörgum árum síðar, ef það annars nokkurn tíma hefur átt sjer stað. Þó er þess líka getið í Njálu, að Gunnhildur gæfi Hrúti gullhring að skilnaði; hefur höfundum Njálu og Laxdælu verið kunn sama sögnin eða æfintýrið af Hrúti og Gunnhildi.

Gunnar Hámundarson á Hlíðarenda og Kolskeggur bróðir hans fóru utan með Hallvarði hvíta. Hann gerði út í Noregi tvö skip og fór með þá bræður í víking, í austurveg. Í orustu einni við Eysýslu (Ösel) er sagt að Gunnar hafi unnið atgeir þann, er hann bar síðan. Þá er Gunnar kom að austan, fór hann til Heiðabæjar í Danmörk; segir sagan, að Haraldur konungur Gormsson sýndi honum mikinn sóma og að þeir skiptust á gjöfum; á Gunnar að hafa gefið konungi langskip og marga dýrgripi, er hann hafði fengið í hernaði, en konungur Gunnari tignarklæði, glófa gullfjallaða, skarband með gullknútum á og hatt gerðskan. Um haustið fóru þeir Gunnar norður til Þrándheims á fund Hákonar jarls og voru með honum um veturinn. Að skilnaði gaf jarl honum mjöl og við; er þar kominn sennilegri blær á frásögn Njálu, enda taka þeir Gunnar þá að nálgast Ísland aptur. Þeir bræður komu báðir út með Hallvarði hvíta og tóku þeir land í Arnarbælisós, sem er líklega sami ósinn sem Holtsós undir Eyjafjöllum (um 972—974).

Eptir frásögn Njálu á Gunnar að hafa verið tvö sumur í víking, en það mun vera rangt.[1])

Hjer um bil 15 árum síðar tóku þeir bræður Gunnar og Kolskeggur sjer far með Arnfinni hinum víkverska, er þeir voru gerðir utan þrjá vetur (um 989). Gunnar sneri þá aptur, er hann reið til skips eins og kunnugt er, en Kolskeggur fór utan. Hann var í Noregi um veturinn, en síðan hjelt hann til Danmerkur; þaðan fór hann austur í Garðaríki og alla leið til Miklagarðs. Þar gekk hann á mála með Væringjum og var þar til dauðadags.[2])

Þá er Þráinn Sigfússon tók sjer far með Högna hinum

---

[1]) Nj. 28—32/105—122, sbr. Safn I, 416—417. [2]) Nj. 75/347—351, 81/379—381.

hvíta, eins og fyr er sagt, fóru þeir Gunnar Lambason og Lambi Sigurðarson utan ásamt honum, og hafa þeir einnig tekið sjer far (um 989). Þeir komu út með Þráni (um 992), og sömuleiðis Hrappur Örgumleiðason, er hann hafði fengið far frá Íslandi með Kolbeini Arnljótarsyni (um 990).[1])

Nokkrum vetrum eptir fall Harðar Grímkelssonar fór Helga jarlsdóttir, ekkja hans, og Björn sonur þeirra utan á Eyrum til Noregs (um 990). Þaðan fóru þau til Gautlands. Sagt er að Björn kæmi síðar til Íslands og hefndi föður síns.[2])

Um 994 tók Arnbjörn Ásbrandsson sjer far með kaupmönnum í Straumfirði, til þess að leita Bjarnar Breiðvíkingakappa bróður síns; hafði eigi til hans spurst síðan hann fór til Danmerkur. Tveimur vetrum síðar komu þeir bræður báðir út í Hraunhafnarósi. Arnbjörn hafði vaðmál og vararfeldi með sjer utan og græddi fje í ferðinni. Björn virðist í sögunni, þar sem segir frá mannamóti einu rjett eptir útkomu þeirra, vera talinn með kaupmönnum. Þó mun hann hafa tekið sjer far á skipinu alveg eins og Arnbjörn bróðir hans.[3])

Hjer um bil tveimur árum síðar, eða um 998, tók Björn sjer far með skipi einu, er var í Hraunhöfn, til þess að glepja eigi Þuríði Barkardóttur að Fróðá og skaprauna eigi Snorra goða og Þóroddi skattkaupanda, bónda hennar. Þeir urðu heldur síðbúnir og fengu landnyrðing, er þeir ljetu í haf. Komu þeir hvergi fram á Norðurlöndum og spurðist eigi heldur til þeirra. En löngu síðar myndaðist sögn um það, að þeir hefðu komist af vestur í hafi, á einhverju ókunnu landi, sem stundum var nefnt Írland hið mikla, og að Björn hefði orðið þar höfðingi og bjargað Guðleifi farmanni Guðlaugssyni, sem hafði átt að hrekjast þangað.[4])

Brandur Þorkelsson, sem kallaður var Vöðu-Brandur, tók sjer far með Þrændum og var um veturinn í Þrándheimi. Sumarið eptir fjekk hann far til Íslands með skipi, er út kom í Reyðarfirði (um 1003).[5])

Gunnlaugur ormstunga, sem fyr hafði farið utan

Nj. 82/384, 87/410—414, 88/431—443. [2]) Harð. 40/116—117. [3]) Eyrb. 39—40/69—71, 42/75—76; Ldn. 13/101. [4]) Eyrb. 47/91, 64/119—122. [5]) Ljós. 8/140—148.

sem eigandi í skipi að sögn sögu hans, og Þorkell svarti, frændi hans, rjeðust til skips með Hallfreði vandræðaskáldi, er þeir fóru utan í síðasta sinn (um 1006). Gunnlaugur hafði haustið áður tekið sjer far með honum til Íslands. Þeir urðu síðbúnir og komust til Orkneyja; segir sagan að þeir Gunnlaugur væri með Sigurði jarli Hlöðvissyni um veturinn og færi með honum í hernað um Suðureyjar og Skotlandsfjörðu sumarið eptir. Um eða eptir miðsumarskeið tók hann sjer far til Noregs, og gekk þar á hólm við Hrafn Önundarson (um 1008).[1])

Þorsteinn Síðu-Hallsson fór utan með manni nokkrum, er hjet Þorleifur, og tóku land í Orkneyjum (1012). Þar var Þorsteinn um veturinn með Sigurði jarli Hlöðvissyni. Þeir voru fjórða og fimta að frændsemi og gjörðist Þorsteinn hirðmaður jarls. Sumarið eptir fór Þorsteinn í hernað með Sigurði jarli; herjaði hann víða um Skotland og »drap margt óþjóðafólk«, segir sagan, »en sumt flýði undan á skóga, ok fór jarl víða um Vestrlönd, ok brendu«. Eptir herferð þessa gaf jarl Þorsteini öxi gullrekna. Um haustið kom Brennu-Flosi Þórðarson til Sigurðar jarls og hjálpaði Þorsteinn honum.

Vorið eptir fór Sigurður jarl til Írlands til liðs við Sigtrygg konung. Þorsteinn fór með jarli og barðist með honum í Brjánsbardaga 23. apríl 1014. Þar fjell Sigurður jarl, en Þorsteinn fjekk grið. Fór hann þá til Orkneyja og þaðan að líkindum til Noregs. Vetri síðar kom hann út til Íslands eptir þriggja ára brottveru. Saga Þorsteins Síðu-Hallssonar segir, að hann væri tvítugur, þá er hann var í Brjánsbardaga, og mun það láta nærri sanni. Í sögu Þorsteins er og utanferð þessari blandað saman við utanferð hans á dögum Magnúss konungs hins góða, sem síðar skal frá skýrt. Í inntaki Jóns Ólafssonar af Heiðarvíga sögu segir, að Þorsteinn Síðu-Hallsson hafi verið í hirð Eiríks jarls Hákonarsonar og verið mikilsmegandi, er Gestur Þórhallason kom til Noregs (um 1008), en það getur eigi verið rjett.[2])

Grettir Ásmundarson tók sjer far til Noregs með

[1]) Gunnl. 12/264—265, sbr. 10/242—43, 10/246. [2]) Þorst. Síð. 215—218; Nj. 153/875—876, 157/891, 157/895—896. 157/903; Heið. 36—37; sbr. Safn I, 490—491, og Ísl. sögu mína II, 557 um annað dæmi, þar sem Þorsteinn er látinn koma of snemma við sögur.

skipi, sem uppi stóð á Gásum (líklega 1016). Hann var svo slysinn, að hann fjekk eigi hirðvist hjá Ólafi konungi Haraldssyni. Árið eptir kom hann sjer í skip, sem fór til Íslands og kom út í Hvítá í Borgarfirði.[1])

Kálfur og Steinólfur, bræður tveir í Garpsdal vestra, tóku sjer far með Illuga Arasyni; sömuleiðis Þorgeir Hávarsson (um 1024). Þeir Kálfur og Steinólfur komu út sumarið eptir í Vaðil á Barðaströnd.[2])

Egill Síðu-Hallsson fór utan ásamt konu sinni, Þorlaugu Þorvaldsdóttur úr Ási, og Þorgerði dóttur þeirra; hún var þá átta vetra. Egill tók sjer far með Tófa Valgautssyni, kaupmanni af Gautlandi. Þetta mun hafa verið 1025, er Egill kom af Íslandi af hendi Þorsteins bróður síns að orðsendingu Ólafs konungs. Egill var við hirð konungs, og er sagt að hann færi með honum í leiðangur til Danmerkur. Egill kom aptur til Íslands með konu og dóttur eptir nokkurra ára brottveru. Útkomuár hans er óvíst. Í Flateyjarbók segir að hann færi með Ólafi konungi til Garðaríkis (1028) og berðist með honum á Stiklastöðum. Ef það er rjett, hefur hann varla komið til Íslands fyr en 1031.[3])

Sama ár sem Ólafur Haraldsson kom til Noregs fór Sighvatur Þórðarson frá Apavatni í Grímsnesi utan með kaupmönnum nokkrum (1015). Hann var þá ungur að aldri (»náliga vaxinn maðr«, Snorri), og var í Þrándheimi um veturinn. Þá er Ólafur konungur kom þangað um veturinn, spurði Sighvatur að Þórður faðir hans var með konungi; fór þá Sighvatur að hitta föður sinn. Hann færði þá konungi kvæði og gerðist hirðmaður hans. Hann var síðan í Noregi til dauðadags (um 1045), og gerðist ágætt skáld. Hann var mikils metinn af Ólafi konungi og notaður stundum í mikilvægar sendiferðir, enda gjörði konungur hann að stallara sínum. Eptir fall Ólafs konungs undi Sighvatur eigi að búi sínu í Þrándheimi, og fór austur í Svíþjóð til Ástríðar drotningar. Þá er Magnús Ólafsson kom til ríkis, gerðist Sighvatur hirðmaður hans, og hafði hin bestu áhrif á konung, því að Sighvatur var bæði vitur maður, vandaður og góðgjarn (sbr.

[1]) Grett. 37/140—143, 41/155, 47/165. [2]) Fóstbr. 50, 59. [3]) J. s. h., Bps. I, 152—153, 218; Hkr. II, 129/281, 136/307—309, 155/374—375; Ól. s. s. 129, 141, 168—69; Ól. s. m. 38—41; Fms. IV, 287, 313, 368—369; V, 321—324; Flat. II, 142—148, 251, 260—261, 315, 344.

Bersöglisvísur). Sighvatur fór kaupferð eina frá Noregi til Rúðuborgar í Normandí og þaðan til Englands (um 1026—1027). Hann virðist jafnvel eitt sinn hafa farið út til Íslands. 1029—1030 gekk hann suður til Róms og var því eigi í Stiklastaðaorustu; fjekk hann ámæli fyrir það af ýmsum.[1])

Sumir af mönnum þessum fóru með vörur með sjer og áttu meiri kaup við menn, en nauðsyn þeirra á ferðunum krafði, en á það skal drepið síðar, þá er skýrt verður frá fartekju manna og með hvaða kostum menn fóru venjulega landa í milli, atbúnaði yfirleitt og háttalagi á utanferðum þessum.

Ýmsir fleiri Íslendingar, sem tóku sjer far milli landa, eru taldir í sögunum, en af því að þeir fóru utan af sjerstökum ástæðum, til þess að forða sjer eða lífi sínu, skal þeirra getið með þeim mönnum, sem voru gerðir utan eða flýðu landið til þess að komast undan hefnd. Nokkrar þesskonar utanferðir hafa þegar verið nefndar, ef þeir menn, sem gerðir voru utan, voru skipseigendur, eða ef önnur ástæða hefur verið til að geta þeirra hjer að framan.

## VI.

## Íslendingar gerðir utan og forða sjer til annara landa.

Í byrjun 10. aldar, á miðri landnámsöldinni, var Þorbjörn jarlakappi, afi Kára Sölmundarsonar, gjörður sekur eptir víg Ófeigs grettis, og fór hann utan.[2]) Þetta var eldgamall siður með norrænum þjóðum að gjöra eða dæma menn seka, ef þeir höfðu vegið víg eða gjört annað illvirki. En þeir, sem sekir urðu, forðuðu sjer þá undan hefnd og fóru af landi burt, eða huldu höfði í önnur hjeruð, ef þeir máttu. Sektin var mismikil eptir atvikum.

---

[1]) Msk. 76; Fsk. 28/170, 40/198—201; Hkr. II, 43/62—63, 131/286, 146/350—352, 160/380—381, 206/459—460; III, 7—9/15—21, 15—16/30—33; Ól. s. s. 35, 131, 160, 171, 206, 236, 238—239; Fms. V, 232—233, IV, 89—90, 292, 352—353, 374—375, V, 57, 121—123, 128—131, 177—180, 208—211, VI, 38—44, 108, 113—119, 287—288; Flat. III, 243, II, 39, 253—254, 276—277, 287, 371—372, III, 241, II, 393—394, III, 267—269, 360; Ól. s. m. 65; Knytl., Fms. XI, 200, 202, 204. [2]) Ldn. 309—310 Grett. 10/24—25.

Eptir að alþingi var stofnað og þjóðfjelag á Íslandi, voru sett lög um þetta, og eru ýms ákvæði um það í fornlögum vorum, Grágás.

»Þær eru lögsektir þrjár á landi voru,« segir þar, »ef maður er görr skógarmaður óferjandi eða fjörbaugsmaður, en sú hin þriðja að auka svo fjörbaugs sekt, að hann skyli eigi eiga fært út hingað«.[1])

Ákvæðin um fjörbaugssektina snerta utanferðirnar sjerstaklega.

Fjörbaugssekt eða fjörbaugsgarður var sekt þessi kölluð af því að sá, sem varð sekur fjörbaugsmaður, átti að gjalda baug til fjörs sjer, og var sá baugur kallaður fjörbaugur. Það var upphaflega silfurbaugur, úr sakgiltu silfri, og mun hann hafa vegið eina mörk, því að hann mátti síðar gjalda með mörk lögaura.[2])

Sá maður, sem var dæmdur í fjörbaugsgarð eða gerður sekur fjörbaugsmaður, átti að fara utan eigi síðar en á þriðja sumri eptir dóminn, og dvelja erlendis í þrjú ár. Hvert þessara þriggja sumra átti hann að reyna að komast af landi burt. Sá maður, er fylgdi fjörbaugsmanni til skips, skyldi biðja honum fars í votta viðurvist. Ef stýrimaður synjaði honum þess, varðaði það hann og hásetana þriggja marka útlegð, nema þeir hefðu áður tekið við þremur fjörbaugsmönnum. Nú átti að beiða fjörbaugsmanni fars að öðru skipi og láta bera vætti um það sem áður; ef honum var synjað þar, þá skyldi biðja að sama hætti á hinu þriðja skipi, en þá var eigi skylt að beiða fars á fleiri skip á því sumri, þótt þeir synjuðu. Allir, sem synjuðu, urðu útlagir um þrjár merkur, nema þeir hefðu tekið við þremur sekum mönnum áður. Ef far fjekkst eigi hið fyrsta sumar, skyldi farið eins að annað og hið þriðja sumar, ef þess þyrfti við. Synjan varðaði annað sumarið hið sama sem hið fyrsta, en þriðja sumarið varðaði það fjörbaugsgarð öllum þeim, sem synjuðu án löglegrar ástæðu, en það hjálpaði þó eigi fjörbaugsmanninum, ef hann var kyr á Íslandi hinn næsta vetur. Þá varð hann skógarmaður. Ef hann aptur á móti komst utan, gat hann haldið heim aptur eptir þrjú ár, og þá var hann svo sýkn sem aldrei kæmi sú sekt á hendur honum. Ef fjörbaugssektin

---

[1]) Grág. Ia, 109. [2]) Grág. Ia, 88, 118.

var aukin, þá átti fjörbaugsmaðurinn eigi útkvæmt eða fært út hingað, og er þess stundum getið í sögunum.[1])

Skógarmenn aptur á móti, eða þeir menn, sem voru dæmdir í skóggang, hina þyngstu hegningu laganna, voru venjulega óælir og óferjandi, svo að eigi mátti flytja þá utan, en stundum mátti þó flytja þá af landi burt, ef »farning er mælt«, eða ef þeir voru ferjandi; lögrjetta gat leyft slíkt.[2]) Stundum er þess getið í sögunum, að fje var gefið til farningar þeim, sem sekir urðu. En af því að skóggangur var svo hættulegur og þungbær, flýðu ýmsir þeir menn til annara landa, sem unnið höfðu víg eða önnur illvirki, er vörðuðu skóggang, áður en hægt var að dæma þá seka skógarmenn. Skóggangur hófst eigi fyr en menn voru dæmdir í hann á þingi eða eptir þinglok, og var þá stundum langur tími til undanfæris, ef illvirkið var framið síðari hluta sumars eptir öll þinglok.

Um það leyti sem alþingi var sett eða fáum árum síðar, er sagt að þeir Guðmundur Þórisson, Vafspjarra-Grímur Eyjólfsson, Vöflu-Gunnar og Óttar Vaðason væru gerðir utan eptir bardagann í Grásteinsdæld hjá Bæ í Króksfirði og fráfall Steinólfs hins lága Hrólfssonar. Hann andaðist af sárum. Menn þessir áttu að vera lengi utan og hefur það eigi verið skemur en þrjú ár.[3])

Flosi Eiríksson í Árnesi varð sekur á alþingi eptir bardagann að Rifskerjum og margir þeir, er höfðu verið með honum. Flosi rjeðst til Noregsferðar með Steini stýrimanni á skipinu Trjekylli, en varð apturreka í Öxarfjörð (um 945).[4])

Sigurður Torfafóstri Gunnhildarson, á Breiðabólstað í Reykholtsdal, fór utan á Eyrum til þess að forða sjer undan reiði Torfa Valbrandssonar; hann vildi eigi tortíma barni, sem Torfi hafði boðið honum að bera út (um 950). Sigurður fór til Noregs og síðan til Danmerkur. Þar fór hann í víking, og kom að lokum út með Herði Grímkelssyni.[5])

Um 960 fór Björn, frændi Fjörleifarsona, utan austur í fjörðum með ráði Eysteins Mánasonar í Rauðaskriðu. Hann hafði fengið Björn til að reka um nótt fimtán geldinga til

---

[1]) Grág. Ia, 88—92, 119, 122, II, 282, III, 608—609. [2]) Grág. Ia, 89, 95; 122, 187, 188. [3]) Gull-Þ. 20/45. [4]) Grett. 12/33—34. [5]) Harð. 8/19—21, 17/51, 19/60.

Háls Fjörleifarsonar og byrgja þar inni í húsi. Fyrir það varð Háls sekur um sauðatöku, og fór hann utan og Vjemundur kögurr, bróðir hans. Þeir fundu Björn og fóru út með hann hið næsta sumar. Þeir »komu skipi sínu í Húsavík«; benda orð þessi á að þeir hafi utan farið eða öllu heldur komið út á eigin skipi, en ekkert er nánar um það kunnugt. Þeir fengu nú rjetting mála sinna.[1])

Ingólfur Þorvaldsson varð fyrir tilræði af Kálfi frá Stokkahlöðu í Eyjafirði. Víga-Glúmur vá hann, en grunurinn fjell á Ingólf og var honum komið utan. Árið eptir kom hann út, er vígsmálinu var lokið og uppi hið sanna um vegandann (um eða rjett eptir 960).[2])

Arngrímur goði Helgason í Norðtungu varð að lokum sekur eptir brennu Þorkels Blundketilssonar í Örnólfsdal og aðrir þeir, sem að brennunni voru, nema Þorvaldur Oddsson; hann skyldi vera utan þrjá vetur (fjörbaugsmaður). En fje var gefið til farningar Arngrími og brennumönnum. Hann fór því utan um sumarið og Þorvaldur einnig, en hann var hertekinn og þjáður á Skotlandi (um 962).[3])

Þorsteinn Þorkelsson, frá Annmarkastöðum í Haukadal við Dýrafjörð, fór suður í Borgarfjörð og þar utan, til þess að komast undan hefnd (964 eða 965).[4])

Gnúpur bóndi á Öxnhóli í Hörgárdal, Þorsteinn blindingur, heimamaður Steingríms Örnólfssonar að Kroppi í Eyjafirði, Steinn Þorbjarnarson úr Árskógi og Hrafn bóndi á Hóli voru gerðir utan eptir víg Herjólfs Fjörleifarsonar (um 965). Þeir Gnúpur og Þorsteinn áttu eigi útkvæmt, en hinir skyldu vera utan þrjá vetur. Að eins Þorsteinn fór utan.[5])

Þórir Ketilsson var gerður utan eptir víg Áskels goða, en eigi er þess getið að hann hafi farið utan (um 970).[6])

Eyjólfur Þormóðarson á Mánahjalla í Laxárdal átti eptir víg Bjarna Þorsteinssonar á Mýri að vera utan þrjá vetur; af utanferð hans greinir ekki (um 975).[7])

Þá er Bergur og Helgi Vjesteinssynir höfðu vegið Þorkel Súrsson, kom Gestur Oddleifsson þeim utan í Hvítá,

[1]) Reyk. 2—3/9—16. [2]) Glúm. 13—15/38—43. [3]) Hæns. 15/177—178. [4]) Gísl. 18—19/44—46. [5]) Reyk. 13/59—60. [6]) Reyk. 16/86 sbr. 20/103. [7]) Reyk. 24/122.

og Gunnhildi móður þeirra, Auði Vjesteinsdóttur, ekkju Gísla Súrssonar, Guðríði Ingjaldsdóttur og Geirmundi bróður hennar (um 979). Bergur var veginn í Noregi af Ara Súrssyni, en Helgi flýði þá til Grænlands. Þær Auður og Gunnhildur fóru til Danmerkur, tóku þar við trú og gengu suður.[1])

Þórarinn svarti Þórólfsson, Máhlíðingur, fór utan eins og fyr er sagt, er Snorri goði gerði hann sekan (líklega 981).[2])

Eiríkur hinn rauði Þorvaldsson varð sekur á Þórsnesþingi fyrir vígaferli; fyrir því fór hann af landi brott (líkl. 982), að leita Gunnbjarnarskerja eins og fyr er sagt

Þorvarður, smalamaður Þorsteins Egilssonar að Borg, fór utan norður í Steingrímsfirði til þess að forða sjer, og tók Þorgerður Egilsdóttir honum far. Hann færði henni »vestur« í Hjarðarholt nýfætt barn Jófríðar Gunnarsdóttur, mágkonu hennar að Borg, en Þorsteinn Egilsson hafði boðið að það skyldi út bera. Jófríður gaf Þorvarði þrjár merkur silfurs, en Þorgerður fjekk honum vistir um haf (um 983).[3])

Björn Breiðvíkingakappi Ásbrandsson, sem átti snemma vingott við Þuríði að Fróðá, varð sekur um víg Arnar og Vals Þórissona frá Arnarhvoli, og gerður utan um þrjá vetur. Hann fór utan samsumars. Þá er hann kom um haf, fór hann suður til Danmerkur, og þaðan til Jómsborgar og gekk í lög með Jómsvíkingum, segir sagan. Hann á að hafa farið með Jómsvíkingum til Svíþjóðar, og barist með þeim á Fýrisvöllum. Björn var ytra þangað til hann kom út með Arnbirni bróður sínum (um 996), en hvaða ár hann fór utan er óvíst; eptir frásögn Eyrbyggju af atvikum þeim, sem drógu til utanferðar hans, mætti ætla að hann hafi farið utan 982 eða 983, en eptir því sem síðar segir í Eyrbyggju um aldur Kjartans að Fróðá, hefur það verið 986, ef Björn hefur verið faðir hans, eins og sagan gefur í skyn.[4])

Guðbrandur Þorvarðarson, unglingur frá Kristnesi í Eyjafirði, varð sekur um víg Þorvalds króks, og kom Glúmur Eyjólfsson honum utan (um 984.)[5])

Söxólfur Víðarsson að Gnúpum í Aðalreykjadal var

---

[1]) Gísl. 37/99—100. [2]) Eyrb. 21—22/34—36; Ldn. 89—90. [3]) Gunnl. 3/199. [4]) Eyrb. 29/51—52, 50/94 [5]) Glúm. 23/71.

fyrir víg Sigurðar kaupmanns, norræns manns, gerður utan æfilangt, en Sölmundur, bróðir hans, þrjá vetur. Þeir fóru utan og lögðust í víking, segir sagan. Sölmundur kom út eptir tvö ár og var þá veginn (um 990).[1])

Þórður Illugi Þórisson varð sekur um víg Skútu Áskelssonar og gerður utan þrjá vetur (um 990), en eigi er sagt hvort hann færi utan.[2])

Þorleifur kimbi Þorbrandsson skyldi vera utan þrjá vetur, því að honum var kent banasár Arnkels goða. Hann tók sjer far með kaupmönnum í Straumfirði (um 994). Hann var að eins tvo vetur í Noregi, og fór síðan til Íslands með sömu kaupmönnum sem hann fór utan með (um 996).[3])

Sigurður nokkur varð sekur skógarmaður fyrir víg Gríms, hirðmanns Ólafs konungs Tryggvasonar, á alþingi, en Þorkell trefill í Svignaskarði kom honum utan um sumarið. Í Noregi ljet Ólafur konungur taka hann og drepa (um 998).[4])

Föstólfur og Þróttólfur, bræður í Engihlíð í Langadal, voru gerðir utan fyrir víg Úlfhjeðins Vjefröðarsonar, og fóru að lokum utan fyrir tilmæli Þorkels kröflu (um 1000). Þróttólfur kom brátt út aptur og sætti Þorkell krafla hann þá við Húnröð Vjefröðarson.[5])

Þorgrímur Digurketilsson, frændi Flosa Þórðarsonar, vá Hall hinn rauða, og kom Hallur af Síðu honum þá utan að bæn Flosa (um 1000).[6])

Ósvífrssynir urðu allir sekir eptir víg Kjartans Ólafssonar. Fje var gefið til, að þeir skyldu vera ferjandi, en þeir áttu eigi útkvæmt meðan nokkur Ólafssona væri á lífi eða Ásgeir Kjartansson. Ósvífrssynir fóru utan um sumarið og kom enginn þeirra út síðan (um 1003).[7])

Hallgrímur Ásbrandsson, Torfi og Eyjólfur Valbrandssynir, Þórir og Oddur Þorbrandssynir, Þorsteinn og Grímur Þorbjarnarsynir voru að sögn Hávarðar sögu gerðir utan (um 1003) eptir víg þeirra Þorbjarnar Þjóðrekssonar. Þeir fóru utan í Vaðli; segir sagan að þeir legðust í hernað árið eptir. Eptir nokkur misseri komu þeir

---

[1]) Ljós. 1—2/116—117, 2/120. [2]) Reyk. 30/146. [3]) Eyrb. 38—40/69—70; Ldn. 101. [4]) Oddr 53/325—327; Fms. II, 172—174; Flat. I, 386—387. [5]) Vatn. 47/79—80; Ldn. 187. [6]) Nj. 122/632. [7]) Lax. 50—51/196—197.

út aptur. Sagan segir að þetta hafi verið á ríkisárum Hákonar jarls Sigurðarsonar, en það er rangt.[1])

Grímur Droplaugarson varð sekur eptir víg Helga Ásbjarnarsonar, en Ingjaldur tengdafaðir hans hjálpaði honum og tók honum, Helgu konu hans og Þorkeli trana, fóstbróður hans, far á skipi einu, sem uppi stóð í Hornafirði; komst svo Grímur til Noregs (um 1005), en þar fjekk hann sár í hólmgöngu, er dró hann til dauða.[2])

Um 1006 eða 1007 flutti Þorkell Eyjólfsson Grím Helguson frá Kroppi í Borgarfirði utan að sögn Laxdælu. Hann hafði vegið Björn, einn af sonum Eiðs Skeggjasonar í Ási, og orðið sekur skógarmaður. Hann lá úti við Fiskivötn norður á Arnarvatnsheiði eða Tvídægru, og fór Þorkell þangað og ætlaði að vinna á honum og hefna frænda síns. Hróðný amma Þorkels var systir Eiðs í Ási. En svo fóru leikar, að Grímur átti vald á lífi Þorkels og gaf honum líf; launaði Þorkell honum þá svo lífgjöfina að hann flutti hann utan og gaf honum góðan kaupeyri. Grímur fór í Vík austur og staðfestist þar, segir sagan. Sögusögn Grettlu um að þetta hafi verið sá Grímur, er vann á Hallmundi undir Balljökli, er með öllu ósannsöguleg. Sagan um Hallmund og Grím banamann hans er fornaldaræventýri, en því hefur verið snúið upp á Grím Helguson, af því að hann í sekt sinni var við Fiskivötnin norður á heiðum.[3])

Gestur Þórhallason fjekk forðað sjer eptir dráp Víga-Styrs; sendi Kleppjárn hinn gamli Þórólfsson hann á laun austur í Reyðarfjörð og kom honum þar utan ásamt Fjalla-Teiti, fylgdarmanni hans (um 1008). Sagan segir, að Gestur færi frá Noregi alla leið út í Miklagarð, gengi þar á mála með Væringjum og kæmi eigi til Norðurlanda aptur.[4])

Eptir víg þeirra Þorsteins Gíslasonar í Bæ í Borgarfirði (líkl. 1008) voru fjórir menn af Snorra goða, sem verið höfðu að vígum með honum, gerðir af landi brott þrjá vetur (1009). Þeir rjeðust þá til utanferðar; er getið eins þeirra í Noregi, og minnir Jón Ólafsson að hann hafi heitið Kol-

---

[1]) Háv. s. 22/50, 23/53; Ísl. saga mín II, 497. [2]) Dropl. 14/173.
[3]) Lax. 57—58/213—218; Þórð. 62—64; Þórð. s. hr. 101—103; Grett. 62/224—229. [4]) Heið. 35—41; ísl. saga mín, II, 460—462.

skeggur. Hann varð að flýja undan Hárekssonum til Englands.[1])

Eptir fundinn á Hrísum og fall þeirra Böðvars Sigmundarsonar kom Valla-Ljótur Eyjólfi Þorsteinssyni utan og fimm mönnum öðrum (um 1010). Þá er gert var um málið á alþingi, var ákveðið að níu menn skyldu eigi eiga útkvæmt. Þeir munu hafa farið utan. Eyjólfur Þorsteinsson kvað hafa farið til Englands og verið þar í þingmannaliði.[2])

Grettir Ásmundarson varð sekur fjörbaugsmaður eptir víg Skeggja húskarls úr Ási, og skyldi vera utan þrjá vetur. Faðir hans tók honum far til Noregs með Hafliða á Reyðarfelli (um 1011). Þremur árum síðar kom hann með kaupmönnum út í Skagafirði.[3])

Akra-Þórir, eða Þorgils að Ökrum eins og hann er nefndur í öðru handriti sögunnar, varð sekur á Vöðlaþingi, en hann fór norður á Húsavík um þingið með lausafje sitt og fór utan (um 1012).[4])

Á alþingi 1012 var Flosi Þórðarson og allir brennumenn gerðir utan þrjá vetur, nema Gunnar Lambason, Grani Gunnarsson, Glúmur Hildisson og Kolur Þorsteinsson; þeir áttu aldrei útkvæmt. Brennumenn voru svo margir, að varla var hægt að fá far handa þeim á einu skipi. Flosi keypti því skip handa sjer og þeim öllum af Eyjólfi nef, þrænskum manni, og fóru þeir allir utan á því. Þeir fengu illa veðráttu og brutu skip sitt við Orkneyjar. Fyrir fulltingi Þorsteins Síðu-Hallssonar tók Sigurður jarl Hlöðvisson Flosa í sætt við sig fyrir víg Helga Njálssonar og gerði hann að hirðmanni sínum. Vorið eptir fóru 15 brennumenn með jarli til Írlands og fjellu þar með honum í Brjánsbardaga. Gilli jarl í Suðureyjum fjekk þá Flosa skip og sigldi hann til Bretlands (1014): gekk hann þá suður til Rómaborgar og tók þar lausn af páfanum. Hann fór aptur hina »eystri leið« um Þýskaland, kom til Noregs og var þar um veturinn; segir sagan, að hann þægi þar skip af Eiríki jarli til útferðar, og að hann kæmi út í Hornafjörð.[5])

Þórir Helgason, goðorðsmaður að Laugalandi í Hörg-

[1]) Eyrb. 56/105; Heið. 48—50, sbr. 42. [2]) V-Ljót. 5—6/185, 7/191.
[3]) Grett. 16—17/53—62, 24/98, 28/106. [4]) Ljós. 14/169, sbr. 258—259.
[5]) Nj. 145/822—823, 147/843, 149/848—850, 153/873—876, 157/891, 898, 903, 158/906—907; Þorst. Síð. 216.

árdal, varð sekur og átti að vera utan þrjá vetur svo sem fjörbaugsmaður (um 1014). Hann fór utan í Skagafirði, var um veturinn í Orkneyjum og kom út í Eyjafirði um vorið. Hann sótti þingin um sumarið, en var þó mest heima að búsýslu sinni Um haustið fór hann til Noregs, og þaðan til Orkneyja og var þar um veturinn. Vorið eptir fór hann til Íslands, og fór alt á sömu leið sem hið fyrra sumar. Um haustið fór Þórir enn utan; var hann þá í Noregi um veturinn, fjekk sjer húsavið og »stýrði skipi sínu aptur til Íslands« um sumarið og kom í Eyjafjörð. Hann hafði þá verið þrjá vetur utan, en gætt bús síns á sumrum. Eptir það bjó hann til elli að Laugalandi. Í öðru handriti af Ljósvetninga sögu (Á. M. 561, C. 4to) segir að Þórir hafi verið á Hjaltlandi hinn fyrsta vetur, og að hann hafi rekið kaupskap á ferðum þessum; enn fremur að hann hafi »átt mikið í skipi«, er hann kom út úr síðustu utanferðinni.[1])

Þá er Þorgeir Hávarsson hafði vegið Þorgils Máksson og auðsætt var, að hann mundi verða sekur, keypti Þorgils Arason á laun far handa honum í skipi, sem uppi stóð í Norðurá í Borgarfirði, og fór Þorgeir þá utan sem fyr er sagt (um 1014).[2])

Eptir Heiðarvíg 1014 voru 14 menn með Barða Guðmundarsyni gerðir utan þrjá vetur. Árið eptir lagði Barði af stað til útlanda með hálfan þriðja tug manna eins og áður er getið.

Kolbakur, þræll Grímu í Ögri, veitti Þormóði Bersasyni áverka og var auðsætt að hann mundi verða sekur skógarmaður á alþingi. Um þingtímann gaf Gríma honum frelsi og kom honum utan í Vaðli (um 1018). Erlendis rjeðst hann í lið með víkingum.[3])

Um 1025 voru tólf menn, sem höfðu verið að vígi Bjarnar Hitdælakappa, gerðir sekir; skyldu þeir fara utan hið sama sumar og var fje gefið til færingar þeim. Sagan segir að Þorkell Eyjólfsson kæmi þeim utan um sumarið.[4])

---

[1]) Ljós. 17—18/180, sbr. 267. [2]) Fóst. 8/25—28; Grett. 27/102—106. [3]) Fóst. 9—10/30—36; Flat. II, 149—152. [4]) Bjarn. 34/75.

## VII.

## Enn ýmsar utanferðir Íslendinga.

Þótt margar utanferðir Íslendinga á söguöldinni hafi þegar verið taldar, eru þær þó eigi fáar, sem enn eru eptir og hjer verða nefndar. Ýmsra Íslendinga er getið í útlöndum rjett eins og af tilviljun, eða útkoma þeirra eða utanferð er nefnd, án þess að nokkuð sje nánar af þeim greint. Af flestum þessum utanferðum segir mjög lítið; en þótt sagt sje töluvert af sumum þeim Íslendingum, sem hjer ræðir um, er þó helst skýrt frá afreksverkum þeirra og deilum og fleiru þess konar, án þess að greint sje, hvernig þeir fóru utan, eða hvort þeir hafi átt skip eða kaupskap við menn eða eigi o. s. frv. Svo stuttorð eru heimildarritin opt um þetta, að ekkert greinir t. a. m. af hvernig Úlfljótur fór utan, er hann lagði í hina frægu ferð sína til Noregs (um 924—927). Það segir sig að vísu sjálft, að þessir menn hafa farið utan á sama hátt sem þeir menn, er þegar eru nefndir, annaðhvort á eigin skipum eða tekið sjer far hjá öðrum, en frá þessu greinir eigi. Fyrir því er eigi hægt að skipa þeim í neinn þann flokk, sem að framan er talinn; þykir því rjettast að telja þá fyrir sig í tímaröð. Sumir þeirra munu að líkindum hafa verið farmenn og einhverjir þeirra líklega farið einstaka kaupferðir á eigin skipum; en flestir þeirra munu þó hafa tekið sjer far eða ráðist í skip hjá öðrum, en um þetta vantar skírteini.

Þorsteinn ógæfa Helgason, Hrólfssonar úr Gnúpufelli í Eyjafirði, fór utan og vá hirðmann Hákonar jarls Grjótgarðssonar. Eyvindur ráðgjafi jarlsins sendi Þorstein til handa Vjebirni Sygnatrausta eða Sygnakappa. Hann tók við honum, en fyrir það seldi Vjebjörn eignir sínar og fór til Íslands, er hann treystist eigi að halda Þorstein fyrir jarli.[1]) Þetta hefur verið í kring um 925, og getur varla verið miklum mun fyr eða síðar. En af því að Hákon jarl Grjótgarðsson fjell í Stafanesvogi og það var miklu fyr, hefur þetta verið talið fjarstæða ein.[2]) Það þarf því að skýra þetta nánar.

---

[1]) Ldn. 148, 149. [2]) Safn I, 258, 290.

Hákon jarl Grjótgarðsson, sem hjer er nefndur, hefur að öllum líkindum verið sonur Grjótgarðs Hákonarsonar, sem fjell í orustunni við Sólskel (um 869). Sá Grjótgarður var sonur Hákonar jarls Grjótgarðssonar, sem kom af Yrjum með mikið lið móts við Harald konung Hálfdanarson, er hann lagði undir sig Þrændalög.[1]) Fyrir það gaf hann jarli Strindafylki til yfirsóknar. Einu eða tveimur árum síðar setti Haraldur konungur hinn mesta höfuðbæ þar, er Hlaðir heita við Þrándheimsfjörðinn rjett fyrir innan Nið. Hann fjekk þá Ásu dóttur Hákonar jarls Grjótgarðssonar og hafði jarlinn mikinn metnað af konungi, en eigi er þess getið að hann fengi þá Hlaðir, heldur sat konungur þar hina næstu vetur,[2]) Þessi Hákon Grjótgarðsson, sem hefur verið nefndur Hlaðajarl, átti tvo sonu, Grjótgarð og Herlaug. Þeir voru uppkomnir menn eða frumvaxta um þetta leyti og börðust með Haraldi konungi mági sínum við þá Arnvið konung af Sunnmæri, Auðbjörn konung úr Firðafylki og Sölva Húnþjófsson fyrir innan Sólskel (um 869), og fjellu báðir.[3]) Faðir þeirra Hákon jarl Grjótgarðsson fjell mörgum árum síðar í orustu við Atla jarl hinn mjóva í Stafanesvogi á Fjölum (um 890—895); minnist Eyvindur skáldaspillir þess í tveimur vísum í Háleyjatali, svo að varla þarf að efa að það sje rjett, enda ber bæði Landnámu og Heimskringlu saman um það.[4])

Eptir fundinn í Stafanesvogi segir í Landnámu að Haraldur konungur hárfagri og Sigurður jarl Hákonarson hafi dregið saman her að Hásteini Atlasyni, og hann þá stokkið undan og brugðið til Íslandsferðar. En það getur eigi verið rjett að Sigurður jarl Hákonarson hafi gert þetta, því að hann var brendur inni hjer um bil 70 árum síðar (um 963); var hann þá enn ern og hraustur og að því er virðist eigi eldri en á milli sextugs og sjötugs.

Á þessum stað í Landnámu var eigi hægt að segja, að Hákon jarl Grjótgarðsson hefði dregið saman her á móti Hásteini, þar sem nýbúið var að skýra frá falli hans. En víða annars staðar í Landnámu er talað um Hákon jarl Grjótgarðsson síðar en orustan var í Stafanesvogi, því að höf-

---

[1]) Hkr. I, 7/105. [2]) Hkr. I, 9/107, 10/110, 12/113. [3]) Hkr. I. 11/110—113; Eg. 4/10. [4]) Skjaldedigtning, B, 61; Hkr. I, 12/114—115; Ldn. 300—301.

undar Landnámu hafa haft fyrir sjer arfsagnir um hann, en hins vegar var þeim eigi ljóst um tímatalið. Hvergi mun þó jarlsins eins seint getið í Landnámu eins og í sambandi við Þorstein ógæfu, sem hjer ræðir um, og við »útför« þeirra Vjebjarnar Sygnakappa til Íslands, því að það var hjer um bil mannsaldri (33 árum) eptir orustuna í Stafanesvogi. Þessi Hákon jarl Grjótgarðsson getur því eigi verið hinn sami maður sem jarl sá, er fjell mannsaldri fyr í Stafanesvogi. Það er því ekkert líklegra en að Grjótgarður Hákonarson, sem fjell við Sólskel (869), hafi átt son, sem heitið hefur Hákon eptir afa sínum, og að hann hafi alið sonarson sinn upp sjer í sonarstað, og að hann hafi tekið við jarldómi eptir afa sinn. En þeim er jafnan blandað saman í sögunum og einn maður gerður úr báðum. Hákon hinn yngri Grjótgarðsson hefur dáið á sóttarsæng, svo engin orusta hefur haldið uppi minningu hans eða dauða; fyrir því hefur hann enn auðveldlegar vaxið saman við afa sinn í arfsögninni, og má vera að það hafi verið áður en Eyvindur kvað Háleygjatal (um 985); þó er eigi hægt að segja um það með vissu, því að einungis nokkrar vísur eru nú til af Háleygjatali.

Þar sem í Landnámu er getið um Hákon jarl Grjótgarðsson, mun vera átt við Hákon jarl Grjótgarðsson hinn yngra á bls. 148—49, 155, 211, 225, 239, og 301, þar sem Sigurður Hlaðajarl er nefndur. Alt þetta gerist eptir orustuna í Stafanesvogi. Sama er að segja um Hkr. I, 37/154, 37/156, 6/175, 14/186. Eiginlega hefur það verið þessi Hákon jarl, sem með rjettu hefur fyrstur átt auknefnið Hlaðajarl, því að hann hafði öll Þrændalög af Haraldi hárfagra, en afi hans líklega eigi nema Strindafylki; aptur á móti fjekk hann Firðafylki og Sygnafylki. Haraldur hárfagri hefur tæplega gefið öðrum öll Þrændalög fyr en hann sjálfur tók að dvelja að staðaldri vestanfjalls. Auknefnið Hlaðajarl hefur því að líkindum færst frá Hákoni Grjótgarðssyni yngra á afa hans, er einn maður var gerður úr þeim báðum. Hákon jarl yngri mun hafa setið að völdum í kringum 30 ár eða rúmlega það, fram til loka landnámsaldarinnar, eða að minsta kosti fram til fæðingar Hákonar Aðalsteinsfóstra, ef marka má söguna um að Sigurður Hlaðajarl Hákonarson hafi ausið hann vatni.

En ef einungis einn Hákon jarl Grjótgarðsson hefði verið til, þá hefði hann annaðhvort orðið að ríkja í hjer um bil

60 ár eptir að hann átti uppkomin börn og komst í kynni við Harald hárfagra, og fall hans í Stafanesvogi hlyti þá einnig að falla úr sögunni, eða Sigurður Hlaðajarl hefur orðið að sitja í 70 ár í jarlstigninni og orðið nær 100 ára, og hann yrði þá að eiga ýmislegt af því, sem Hákoni jarli Grjótgarðssyni er eignað eptir orustuna í Stafanesvogi. Þetta hvorttveggja er svo ólíklegt, að telja má alveg víst, að tveir jarlar báðir með sama nafni, Hákon Grjótgarðsson, hafi verið til á tímabilinu 840—930, og er rjett að aðgreina þá með orðunum hinn eldri og hinn yngri. Ættartala þeirra yrði þá þannig:

Hákon jarl Grjótgarðsson af Yrjum,
tengdafaðir Haralds hárfagra, fjell í Stafanesvogi (um 890).

Ása, g. 868 Haraldi hárf.; Grjótgarður, fjell 869; Herlaugur, fj. 869.

Hákon jarl Grjótgarðsson, Hlaðajarl, † um 925—930.

Sigurður Hlaðajarl, † 963; Grjótgarður, † 969.

Hákon Hlaðajarl, † 995.

Þá er þetta er ljóst, er skiljanleg frásaga Landnámu af utanferð Þorsteins ógæfu Helgasonar.

Ásgeir nokkur var ræntur austur í Noregi, og sýnir það að hann hefur komið þangað. Fyrir það drap hann skipshöfn Austmanna í Grímsárósi í Borgarfirði, og var hann því kallaður Austmannaskelfir (einhvern tíma um 930).[1]

Helgi Óttarsson, Bjarnarsonar hins austræna í Bjarnarhöfn, herjaði á Skotland og tók þar að herfangi Niðbjörgu, dóttur Bjólans konungs og Kaðlínar, dóttur Göngu-Hrólfs (um 935). Hann fjekk hennar og var son þeirra Ósvífur hinn spaki og Einar skálaglamm, skáld.[2]

Þórólfur Bjarnarson, sem síðar var kallaður bægifótur, fór utan og lagðist í víking (um 935). Hann mun hafa verið lengi erlendis, en kom til Íslands eptir andlát móður sinnar, Geirríðar í Borgardal. Þó fer tvennum sögum af þessu.[3]

---

[1]) Ldn. 305; Fló. 9/127. [2]) Ldn. 95, sbr. Eyrb. 7/8. [3]) Ldn. 100; Eyrb. 8/9.

Þórður goddi, bóndi að Goddastöðum í Laxárdal, átti þræl, er út kom með honum og Ásgautur hjet (um 935). Þetta sýnir að Þórður hefur farið utan, en eigi er meira um það kunnugt.[1])

Um 940 kom út Þorgrímur örrabeinn Þormóðarson og rjeðst til Þórunnar Ásgeirsdóttur í Traðarholti. Hann hafði verið í víking og var víða óróttur síðan.[2])

Þá er Örn í Vælugerði, í Flóa, var veginn (um 940), var Þormóður Þjóstarsson keyptur til þess að helga hann örskotshelgi. Hann »var þá kominn út á Eyrum«. Meira er eigi um utanferð hans kunnugt. Af orðalaginu mætti jafnvel ráða að hann hafi verið í förum. Maður með þessu nafni er nefndur á Álptanesi og gæti það verið sami maðurinn.[3])

Þorkell Þjóstarsson er áður nefndur í sambandi við annan hinn fyrsta Miklagarðsfara frá Íslandi. Hrafnkels saga segir að hann væri vestfirðskur og ætti heima í Þorskafirði hjá Þorgeiri goða bróður sínum, en að annar bróðir hans væri Þormóður í Görðum á Álptanesi. Þorkell kom út um 943 og hafði þá verið sjö vetur utan og farið út í Miklagarð; segir sagan að hann hafi verið »handgenginn Garðskonunginum«, eins og margir Íslendingar voru Noregskonungi. Hjer um bil átta árum síðar (um 951) er þess getið, at Þorkell væri nýkominn út úr för, og að hann hafði verið fjóra vetur utan.[4]) Meira er ekki kunnugt um ferðir hans; hvort hann tók sjer far með öðrum eða hefur átt í skipi, greinir eigi; en hann hefur verið einn af þeim mönnum, sem vildi kanna ókunna stigu og sjá siði annara þjóða.

Um 950 kom út Bergur hinn rakki, systurson Finnboga hins ramma frá Borg. Með honum kom út kona, er Helga hjet.[5])

Um eða litlu eptir miðja 10. öld tók Þorsteinn Upplendíngur Þórunni brún Þorgilsdóttur frá Hróari Tungugoða Unasyni og flutti utan. Hróar fór þá utan á eptir þeim. Í þeirri ferð drap hann berserk einn og ójafnaðar-

---

[1]) Lax. 11/25. [2]) Ldn. 306; Fló. 10/127—128. [3]) Ldn. 288, sbr. 48, 64, 125, 135, 272 og Hrafnk. 4/110; Ísl. saga mín II, 237—238. [4]) Hrafnk. 4/110, 10/136, sbr. Ísl. sögu mína II, 228, 305—308. [5]) Vatn. 31/51, 33/54; Ldn. 181; sbr. Finnb. 33/61.

mann í hólmgöngu, en þeir Þorsteinn sættust. Segir eigi af því meira, en Hróar kom þó út aptur.[1])

Þorkell tanngnjóstur Þorkelsson, bróðir Steingerðar í Tungu í Miðfirði, hafði verið utan um stund og kom út (um 957 eða 958.[2])

Kormákur Ögmundarson og Þorgils bróðir hans fluttu varnað sinn til skips og fóru utan til Noregs (um 960). Þeir voru með Hákoni konungi Aðalsteinsfóstra um veturinn. Sumarið eptir lögðust þeir í hernað, en komu um haustið til Noregs. Þar var þá Haraldur gráfeldur kominn til ríkis; vinguðust þeir við hann og fóru með honum herferð til Írlands, segir sagan. Svo er að sjá af sögu Kormáks sem hann hafi verið hinn þriðja vetur í Noregi, áður en hann rjeðst til skips, sem hjelt til Íslands. Þeir komu um síðir út í Miðfirði. Kormákur var á Mel um veturinn og vistaði kaupmenn þar í sveitinni (um 963).[3]) Má af því ráða að þeir hafi verið norrænir, ef marka má orð sögunnar, en að þeir Kormákur hafi tekið sjer far með þeim.

Kormákur var nú að eins einn eða jafnvel tvo vetur á Íslandi. Segir síðar í sögu hans svo: »Skip þeirra bræðra stóð uppi í Hrútafirði um vetrinn. Um várit halda kaupmenn til skips, þeir bræðr ætla ok at fylgja skipi sínu.« Eptir þessum orðum að dæma, mætti ætla að þeir bræður hefðu átt skipið, en söguritarinn kallar það skip þeirra, af því að þeir komu út og fóru utan með því; kaupmennirnir voru skipshöfnin á því og eigendur þess eða forráðamenn. Þeir bræður fóru utan með þeim (líklega 964) og voru með Haraldi konungi gráfeld um veturinn. Sumarið eptir fóru þeir með honum til Bjarmalands, og segir sagan að Kormákur væri skipstjórnarmaður í þeirri ferð. Frá Noregi fóru þeir bræður til Brenneyja, en eigi sjest af sögunni hvort það hefur verið þá um sumarið eða hið næsta sumar (966); eigi heldur hve langt þeir hafi haldið. En úr þessari ferð hjeldu þeir þó aptur til Noregs og munu hafa verið þar um veturinn. Síðan fóru þeir vestur um haf, og segir sagan að þeir hafi herjað um Írland, Bretland, England og Skotland og þótt hinir ágætustu menn. Að lokum fjekk Kormákur á Skotlandi, í viður-,

[1]) Ldn. 268—269. [2]) Korm. 6/13. [3]) Korm. 18—19/36—40 19/42.

eign við »blótrisa Skota«, segir sagan, þau sár eða meiðsli, sem drógu hann til dauða (líkl. 967 eða 968). Þorgils bróðir hans tók við fje hans og liði og var lengi í víking, en eigi segir af honum meira.[1])

Þorkell Geirason frá Geirastöðum í Mývatnssveit var erlendis og kom út í Húsavík um 960.[2])

Þórólfur frá Æsustöðum í Eyjafirði kom út um 960.[3])

Þórólfur hinn sterki Skólmsson, er síðar bjó að Myrká í Hörgárdal, var í hirð Hákonar konungs Aðalsteinsfóstra. Hann var þá 19 vetra gamall, er hann kom til konungs, og voru þeir konungur kallaðir jafnsterkir. Hann barðist með konungi í orustunni á Fitjum, í eyjunni Storð, og drap margan mann með sverði sínu, er Fetbreiður hjet og konungur hafði gefið honum (961)[4]).

Tveir aðrir Íslendingar eru nefndir með Hákoni konungi í orustunni á Fitjum. Annar þeirra var Þorgeir höggvinkinni, sonur Hafnar-Orms landnámsmanns; hann var hirðmaður Hákonar konungs; hann fjekk kinnarsár á Fitjum og orð gott.[5]) Hinn var Þórir Þorsteinsson, sonar Bárðar landnámsmanns, er fyrst nam Bárðardalinn. Hann skar rauf á uxahúð, og hafði hana fyrir hlíf; því var hann kallaður leðurháls. Hann átti Fjörleifu Eyvindardóttur, og voru þeirra synir Vjemundur kögurr, Háls og bræður þeirra, er allir koma meira eða minna við Reykdæla sögu.[6])

Glúmur Geirason, bróðir Þorkels frá Geirastöðum, var hirðmaður og skáld Haralds konungs gráfelds. Hann mun hafa farið utan um 960, rjett eptir að þeir feðgar voru gjörðir brott úr Mývatnssveit, því að hann barðist með Haraldi gráfeld á Fitjum (961), eptir því sem Haukur Valdísarson segir í Íslendingadrápu og jafnvel ein vísa Glúms sjálfs bendir á. Glúmur mun hafa verið með Haraldi konungi nokkur ár, og farið með honum til Bjarmalands (um 965). Síðan hefur hann farið til Íslands, í Geiradal í Króksfirði, og þar kvongaðist hann Ingunni Þórólfsdóttur.[7])

---

[1]) Korm. 24/50—51, 25—26/51—53, 27/54—56. [2]) Reyk. 18/92, 19/98. [3]) Glúm. 14/42. [4]) Ágrip 6/383; Fsk. 5/24, 12/43—44; Hkr. I, 30—31/213—215; Frís. 81—82; Fms. I, 43—45; Flat. I, 60—61; Ldn. 211. [5]) Ldn. 54. [6]) Ldn. 226; Reyk. 1/3. [7]) Skjaldedigtning, B, 68, 541, Reyk. 17—18/88—98; Fsk. 7/30, 13/50, 13/52; Hkr. I, 1/224, 14/248; Fms. I. 48, 63, II, 21; Lax· 32/108, 34/117; Ldn. 197, 233—234.

Þorvaldur Tungu-Oddsson kom út fyrir norðan land síðla sumars, líklega 961.[1]) Hjer um bil einu eða tveimur árum síðar var hann gerður utan eins og fyr er sagt. Hann var þá hertekinn, leiddur upp á Skotlandi og þjáður þar. Þá er það spurðist til Íslands, fór utan Þóroddur Tungu-Oddsson, bróðir hans, til þess að leysa hann út með fje. Hann kom til Noregs, og kom eigi út síðan og hvorugur þeirra bræðra (um 965).[2])

Þorvaldur tinteinn Eysteinsson og Steingerður Þorkelsdóttir, kona hans, fóru utan (um 964) til Noregs og voru með Haraldi gráfeld; sagan segir að þau færu með konungi til Bjarmalands og Þorvaldur væri skipstjórnarmaður í þeirri ferð. Eptir það fóru þau frá Noregi til Danmerkur og segir sagan um það: »Þorvaldr tinteinn býr skip sitt til Danmerkr ok Steingerðr með honum«. Eptir þessum orðum að dæma hefur Þorvaldur átt skip um þetta leyti, og má vera að svo hafi verið, þótt það sje óvíst. Í þessari ferð var Þorvaldur ræntur fje öllu í Brenneyjum og Steingerður brott tekin af víkingum. Kormákur Ögmundarson hjálpaði honum þá og náði Steingerði aptur; hafði hann eitt sinn áður hjálpað þeim móti víkingum. Eptir það hjelt Þorvaldur tinteinn til Íslands eptir tveggja eða jafnvel þriggja vetra brottveru.[3])

Tindur Hallkelsson, bróðir Illuga hins svarta á Gilsbakka, var erlendis, en lítið er kunnugt með vissu um ferðir hans. Í Harðar sögu segir að hann hafi verið í Noregi á dögum Haralds gráfelds og margir aðrir Íslendingar, svo alls verða þeir 24.[4]) Þetta á að hafa verið í Björgyn (um 965),[5]) en þá var sá kaupstaður alls eigi til, heldur var hann settur af Ólafi konungi hinum kyrra rúmum 100 árum síðar (um 1075); er þetta því að minsta kosti mjög efasamt, ef nokkuð mark má á því taka. Aptur á móti var Tindur í orustunni í Hjörungavogi, í Jómsvíkinga orustu, sem svo er nefnd í sögunum. Hann barðist þar með Hákoni jarli Sigurðarsyni og orti drápu um hann og orustuna (um 986).[6]) Eptir þetta hefur Tindur farið til Íslands, og er sagt í Harðar sögu, að skip kæmi út í Breiðavík undir Snæfellsnesjökli og var þar

---

[1]) Hæns. 7/143; Íslb. 5/7. [2]) Hæns. 17/185. [3]) Korm. 24—27/51—54. [4]) Harð. 13/40. [5]) Harð. 12/38 [6]) Fsk. 20/95; Hkr. I, 40/331, 42/336.

á Tindur Hallkelsson og Þórður Kolgrímsson frá Ferstiklu (um 989). Tindur reið þá á Hallkelsstaði í Hvítársíðu, bæ föður síns, enda mun hann hafa búið þar.[1]) Má vera að þetta sje rjett, og að Tindur hafi þá fyrst komið til Íslands eptir orustuna í Hjörungavogi. Hans er síðast getið í Heiðarvígum 1014.

Víga-Skúta Áskelsson var erlendis, þá er faðir hans var veginn, og kom út til Íslands annað sumar eptir (um 970).[2])

Hávarður hinn halti, sem fyr er nefndur, var í víking hinn fyrra hlut æfi sinnar, segir saga hans; ef það er rjett, hefur það verið um þetta leyti (um 970—975.[3])

Helgi Ásbjarnarson, sonarsonur Hrafnkels Freysgoða, sem mest er kunnur af viðureign sinni við Droplaugarsyni, á að hafa farið utan á yngri árum sínum og verið »marga vetur í hernaði, bæði í Orkneyjum og Noregi með frændum sínum. Helgi var og nokkur sumur í víkingu«. Eptir það fór hann til Íslands. Þótt þetta segi í þætti einum, sem er ævintýri, getur þó sá sögulegi sannleiki falist í þessu, að Helgi Ásbjarnarson hafi í raun rjettri farið utan, áður en hann kvongaðist, en ekki er þess getið í sögunum.[4])

Einar Helgason skálaglamm, sem einnig var kallaður Skjaldmeyjar-Einar, sonur Helga Óttarssonar og Niðbjargar Bjólansdóttur, var löngum erlendis með tignum mönnum. Hann var námgjarn og tók að yrkja, er hann var ungur. Hann hefur og að líkindum farið ungur utan. Eitt sinn er hann kom út úr för, reið hann til alþingis og hitti þar Egil Skallagrímsson (um 965—970); hefur það verið eptir einhverja fyrstu utanför Einars. Hann mun opt hafa farið landa í milli, þótt lítið sje um það kunnugt. Hann var hirðmaður Hákonar jarls Sigurðarsonar, og orti um hann drápu, er Vellekla heitir. Eitt sinn er Einar kom út og var með Ósvífi bróður sínum, reið hann vestan til þess að heimsækja Egil Skallagrímsson; hann gaf Egli skjöld, sem Hákon jarl hafði gefið honum, og var hin mesta gersemi. Einar mun hafa farið til Danmerkur og orti þar kvæði um höfðingja einn, líklega Harald blátönn. Einar barðist með Hákoni jarli

[1]) Harð. 40/115—116; Heið. 88, sbr. Ldn. 66—67. [2]) Reyk. 16/84, 17/86. [3]) Háv. s. 1/1. [4]) Brandkr. 184.

í Hjörungavogi. Litlu eptir það mun hann hafa farið til Íslands (um 988), og þar druknaði hann nokkrum árum síðar.[1])

Hávarður, frændi Gests Oddleifssonar, kom út, líklega sumarið 977.[2])

Snorri Þorgrímsson, er síðar varð goði að Helgafelli, var að eins 14 vetra, er hann fór utan með fóstbræðrum sínum Þorleifi kimba og Þóroddi Þorbrandssonum úr Álptafirði. Þeir komu til Noregs um haustið og voru um veturinn á Rogalandi (líkl. 977). Snorri var með Erlingi Skjálgssyni á Sóla, og var Erlingur vel til hans; segir sagan að forn vinátta hafði verið með hinum fyrri frændum þeirra, Hörða-Kára og Þórólfi Mostrarskegg. Sumarið eptir fóru þeir til Íslands og komu út í Hafnarfirði litlu fyrir vetur (líkl. 978).[3])

Guðmundur hinn ríki Eyjólfsson var handgenginn Hákoni Hlaðajarli hinum ríka; ef það er rjett, sýnir það að Guðmundur hefur farið utan á yngri árum (um 980), þótt þess sje eigi getið.[4])

Gríss Sæmingsson að Geitaskarði í Langadal var erlendis og hafði »verið út allt í Miklagarði og fengið þar miklar sæmdir« (um 980).[5])

Ketill kappi Þorbjarnarson frá Fróðá var utanlands um 981.[6])

Hallbjörn hvíti, bróðir Otkels í Kirkjubæ á Rangárvöllum, flutti út írskan þræl, er Melkólfur hjet; hann hefur því verið erlendis (um 982 eða litlu fyr).[7])

Þorleifur skúma (eða Skúmur) og Þórður örvhönd, synir Þorkels auðga í Alviðru (af Mýrum segir í Fagurskinnu, en það mun eigi vera rjett) í Dýrafirði, voru báðir í orustunni í Hjörungavogi, og börðust þar með Hákoni jarli (um 986); alls eru taldir fimm Íslendingar í þeirri orustu og eru þrír áður nefndir. Þorleifur var særður til ólífis, en Þórður misti hægri hönd sína í bardaganum, og fjekk af því auknefni sitt. Þórður fór til Íslands og bjó í Alviðru eptir föður sinn.[8])

Skapti Þóroddsson, lögsögumaður, hefur á yngri ár-

[1]) Eg. 78/288—292; Fsk. 14/68—72, 15/79; Hkr. I, 6/236—237, 15/250, 16/280; Jómsv., Fms. XI. 127—130, 144, 158; Flat. I, 188—189, 195, 203, [2]) Gísl. 30/81. [3]) Eyrb. 13/14. [4]) Ljósv. 2/117. [5]) Hallfr. 3/88. [6]) Eyrb. 18/22. [7]) Nj. 47/204. [8]) Fsk. 20/94, 20/98,

um farið utan, ef marka má frásögn Njálu um það efni, og drepið í Noregi Ketil úr Eldu; hann mun hafa verið faðir Ólafs Ketilssonar úr Eldu, sem Njálssynir fóru utan með (um 989). Skarphjeðinn brá Skapta um að Þórólfur Loptsson af Eyrum hefði borið hann á skip út í mjölsekkjum sínum og flutt hann svo til Íslands. Þetta hefur verið seint á 10. öld, líklega heldur nokkru fyrir 990 en eptir það ár.[1])

Valgarður hinn grái Jörundarson að Hofi var utan og kom út um 986. Löngu síðar hefur hann farið utan aptur, því að um 1009 er getið útkomu hans. Andaðist hann þá litlu síðar. Að því er gætandi, að Njála, sem greinir frá þessu, segir ýmislegt skakt af þeim feðgum Valgarði og Merði og ruglar verkum þeirra saman.[2])

Skeifur, bóndi á Hvítárvöllum í Borgarfirði, fór utan og kom aldrei út síðan; hann var grunaður um að hafa drepið særða menn og tekið gripi þeirra (um 990).[3])

Þorfinnur Arnórsson úr Reykjahlíð var utan um 992.[4])

Eindriði Hallsteinsson, frá Víðivöllum hinum nyrðri, hafði farið utan og var leiddur upp á Írlandi og hafður þar í höptum. Þorkell og Þórður, bræður hans, spurðu það, fóru utan og vildu leysa hann út, en hann var andaður, er þeir komu til Írlands. Þeir hjeldu síðan aptur til Íslands og komu út í Reyðarfirði (um 997). Þeir höfðu út skálavið, sem þeir gáfu Helga Ásbjarnarsyni til launa fyrir eptirmál hans eptir föður þeirra.[5])

Droplaug Þorgrímsdóttir tók vöru þá, er þau Hallsteinn, maður hennar, höfðu átt, og fór til skips í Berufjörð með Herjólf son sinn þrevetran og fóru þar utan (líkl. 996 eða 997). Hún kom til Færeyja og keypti sjer þar jörð og bjó þar til elli.[6])

Þórarinn, íslenskur maður og skáld, var með Ólafi konungi Tryggvasyni (um 997).[7])

---

20/103; Fms. XI, 129—130, 133, 144—145, 158; I, 177; Flat. I, 189, 190, 195, 203; Gísl. 4/9; Ldn. 143. [1]) Nj. 119/609, 139/747. [2]) Nj. 46/203, 65/298, 107/555–559, sbr. Íslendinga sögu mína, II, 245 nm. [3]) Harð. 40/116. [4]) Ljós. 2/118. [5]) Dropl. 3/145, 4/149, 8/155—156. [6]) Dropl. 7/155. [7]) Flat. I, 405. Það er eigi ómögulegt að þetta hafi verið Þórarinn Máhlíðingur, en þó er engin sönnun fyrir því, sbr. Finnur Jónsson, Oldisl. Litteraturhistorie I, 531.

Grímur, íslenskur maður, hirðmaður Ólafs Tryggvasonar og stafnbúi, kom út (um 997). Hann hafði lengi verið utan. Hann reið til alþingis sumarið eptir og var þar veginn.[1])

Guðleifur Arason frá Reykhólum var erlendis með Ólafi Tryggvasyni. Hann kom út með Þangbrandi presti (997) og fór aptur utan með honum (999)[2]).

Í síðasta leiðangri Ólafs Tryggvasonar eru nefndir nokkrir Íslendingar. Einn þeirra var Ormur skógarnef Hámundarson, hálfbróðir Gunnars að Hlíðarenda. Hann var á Orminum langa og fjell þar með Ólafi konungi.[3]) Þorsteinn uxafótur var stafnbúi á Orminum langa, en sögunum ber eigi saman um hvort hann hafi fallið þar.[4]) Það er eigi heldur alveg víst að hann hafi verið Íslendingur, þótt svo sje sagt í þættinum af honum. Oddur munkur segir í Stokkhólmshandritinu af sögu Ólafs Tryggvasonar að hann hafi verið af Höfund, skamt frá Skíðu og Bratsbergi sunnarlega í Noregi. Hásteinn (eða Hallsteinn) Hrómundarson hins halta fór utan og fjell á Orminum langa, segir í Landnámu, sem er einhver hin áreiðanlegasta af fornsögum vorum. Hásteinn barðist við Sleitu-Helga um 955; bendir aldur hans á að hann hafi farið utan einhvern tíma á árunum 960—970, og að hann hafi verið hættur að fara í hernað árið 1000.[5]) Enn fremur er sagt að Þorsteinn Þorkelsson skelkur hafi fallið á Orminum langa, en þátturinn af honum er æfintýri, og eptir honum er farið í Flateyjarbók.[6])

Með Eiríki jarli Hákonarsyni börðust þrír Íslendingar í Svoldarbardaga. Þeir voru allir stafnbúar jarls á Járnbarðanum. Einn þeirra, Vigfús Víga-Glúmsson, er áður nefndur; annar var Torfi Valbrandsson[7]), og hinn þriðji Skúli Þorsteinsson frá Borg á Mýrum. Hann var lengi í víking

---

[1]) Oddr, Fms. X, 325—26; Fms. II, 172—174; Flat. I, 386. [2]) Nj. 100/528, 103/545; Ldn. 130, 283. [3]) Ldn. 286, 288, 344; Hkr. I, 94/426; Frís. 156; Oddr, Fms. X, 355; Oddr² 56; Fms. II, 252; Flat. I, 452, sbr. Ísl. sögu mína II, 241 nm. [4]) Hkr. I, 94/425; Frís. 156; Oddr, Fms. X, 354, 363; Oddr² 55, 60; Fms. II, 251, 329—330, III, 4; Flat. I, 452, 491, 494, sbr. 249—263, einkum bls. 256—57, í þætti Þorst. uxf. [5]) Ldn. 167; Flat. I, 414 (Þáttur Hrómundar halta), 452; sbr. Safn I, 369, 377—378. [6]) Flat. I, 416—418 (Þáttur Þorsteins skelks), 452, 492. [7]) Oddr, Fms. X, 356; Oddr² 56; Fms. II, 320; Flat. I, 482.

og átti þá sjö orustur. Hann var einnig hirðmaður Eiríks jarls og lagði Gunnlaugi ormstungu liðsyrði, er hann kom þangað. Nokkru síðar hefur Skúli farið til Íslands, og bjó hann að Borg eptir föður sinn.[1]

Þorkell hákur Þorgeirsson frá Ljósavatni »hafði verið utan og framið sig í öðrum löndum« (um 1000). Hann drap spellvirkja austur á Jamtaskógi, segir sagan; síðan fór hann austur í Svíþjóð og herjaði með Sörkvi karli í austurveg, bæði á suðurstrendur Finnlands og austur í Aðalsýslu (Estland). Þá fór hann aptur til Svíþjóðar og þaðan til Noregs og síðan út til Íslands. Segir sagan að hann hafi unnið nokkur þrekvirki og haldið þeim mjög á lopti.[2]

Skúmur, leysingi Húnröðar Vjefröðarsonar, fór til Noregs og var í Þrándheimi. Hann var fjesæll mjög; fyrir því vógu þeir Föstólfur og Þróttólfur hann og sendu Húnröði fje hans (um 1000).[3]

Sturla Þjóðreksson, frá Staðarhóli í Saurbæ, og Þjóðrekur sonur hans eiga að hafa komið út í Vaðil (um 1002) eptir því sem segir í Hávarðar sögu Ísfirðings, en það er rangt.[4]

Húnröður Vjefröðarson segir saga ein að hafi komið til Svíþjóðar á fund Sigurðar biskups, sem fyr var hirðbiskup Ólafs Tryggvasonar, og ætlað að sigla í austurveg (um 1003—1004.[5]

Bessi Hallason, sonur Hreðu-Halla, fór tvisvar utan, og var að minsta kosti í síðara sinnið með Böðvari Sigmundarsyni, föðurbróður sínum, er hann kom út (um 1006—1009).[6]

Þorsteinn, sonur Víga-Styrs, fór til Noregs til þess að ná í Gest Þórhallason og hefna föður sins. Hann elti Gest alla leið út í Miklagarð, segir sagan, en varð að þiggja grið af Gesti og hverfa aptur til Noregs. Sumarið eptir fór hann til Íslands (um 1009—1012).[7]

---

1) Eg. 87/322; Gunnl. 6/218—221; Hkr. I, 105/442; Frís. 162; Oddr, Fms. X, 351, 356, 365; Oddr² 49, 54, 56, 61, (65, 69); Fms, II, 310, 320, III, 6—7; Flat. I, 482, 495. 2) Nj. 119/ 617—618; um Þorkel hák sbr. Ljósvetninga sögu. 3) Vatn. 47/79—80; Ldn. 187. 4) Háv. s. 8/21, sbr. Eyrb. 57/106—107, 62/112—114; Safn I, 365; Ísl. sögu mína II, 446, 495 o. ef. 5) Fms. III, 169—170; Flat. I, 514. 6) V.-Ljót. 3/168, 3/173, 5/176. 7) Heið. 35—41.

Guðlaugur Snorrason, goða á Helgafelli, fór til Englands og gekk þar í munkaklaustur; er þess eigi getið að hann kæmi aptur til Íslands.[1])

Lambkárr og Húnn Guðbrandssynir, frá Guðbrandsstöðum í Víðidal, höfðu verið einn vetur utan (um 1013—1014) og komu þeir út í Víðidal og einn vatnsdælskur maður með þeim.[2])

Eyjólfur Þorgilsson á Höggvandastöðum í Hvítársíðu kom út sumarið 1014 og fjell í Heiðarvígum þá um haustið.[3])

Þorgeir og Skeggi Þórissynir, Skeggjasonar í Garði í Kelduhverfi, fóru til Noregs. Segir sagan, að þeir hafi brunnið þar inni í sæluhúsi nokkru fyrir sunnan Stað, og hafi Grettir Ásmundarson valdið því slysi óviljandi (um 1016).[4])

Þórður skotakollur, systursonur Sighvats skálds Þórðarsonar, var í Noregi nokkur ár, og er hans getið við hirð Ólafs konungs Haraldssonar 1019—1020, því að þá fór hann tvær ferðir austur á Gautland til Rögnvalds jarls Úlfssonar, fyrst með Sighvati sem fylgdarmaður hans, en síðan sjálfur með jarteiknir konungs og einkamál til jarlsins.[5])

Í Ljósvetninga sögu er sagt að Eyjólfur Guðmundarson á Möðruvöllum hafi verið hirðmaður Ólafs konungs Haraldssonar; bendir það á að hann hafi farið utan og verið með Ólafi konungi; hefur það varla verið síðar en um 1020. Konungur fekk hann til þess að hefna Þorgeirs Hávarssonar á Þórarni ofsa, og sýnir það að einhver kunningsskapur eða viðskipti hafi verið á milli þeirra; er því líklegt, að Eyjólfur hafi verið hirðmaður konungs eins og sagan segir. En hún segir og, að Guðmundur hinn ríki, faðir hans, hafi verið hirðmaður Ólafs konungs, en engin líkindi eru til þess að hann hafi farið utan eptir að Ólafur Haraldsson kom til ríkis. Þetta hlýtur því annaðhvort að vera rangt, eða að hjer sje blandað málum; Guðmundur Eyjólfsson mun hafa verið hirðmaður Hákonar Hlaðajarls Sigurðarsonar, því að hann var honum handgenginn eins og fyr er sagt. Hitt er ólíklegt að Guðmundur hafi fengið hirðmensku sem nafnbót af Ólafi konungi; slíkt tíðkaðist þá eigi um fjarverandi menn, en kon-

---

[1]) Heið. 43—44, sbr. Eyrb. 125. [2]) Heið. 72, 80, 93, sbr. Lax. 31/105. [3]) Heið. 88, 93. [4]) Grett. 38/143—147. [5]) Hkr. II, 91/178—179; Ól. s. s. 83; Flat, II, 116.

ungur sendi Guðmundi jarteiknir og orðsendingar um vináttu (1019 og optar).[1])

Bjarni Brodd-Helgason, frá Hofi í Vopnafirði, fór utan og gekk suður og andaðist í þeirri ferð. Hann hvílir í borg þeirri, er Valerí heitir, suður á Ítalíu. Hvaða ár hann hefur andast, er ókunnugt, en það mun hafa verið um 1020, eða litlu fyr. Hans getur annars síðast á alþingi 1012.[2])

Bjarni nokkur, systurson Þórarins Nefjólfssonar, kom af skipbroti norður við Hálogaland á fund Þórarins, er hann var með Ólafi konungi Haraldssyni.[3])

Hallvarður, íslenskur maður og austfirðskur, var í Orkneyjum með Þorkeli fóstra Ámundasyni, er hann vá Einar jarl Sigurðarson (um 1020).[4])

Þórður Barkarson fór af Íslandi og gerðist handgenginn Ólafi konungi Haraldssyni (um 1020 eða að minsta kosti fyrir 1024). Þórður er í Heimskringlu talinn með metorðamönnum, en annars er ekkert um hann kunnugt, nema ef hann hefur verið sá Þórður Barkarson, sem talinn er með niðjum Ávangs hins írska og var sonarsonur Þormóðs Þjóstarssonar.[5])

Bersi Skáldtorfuson var skáld Sveins jarls Hákonarsonar og var með honum í Nesjaorustu (25. mars 1016); hefur hann varla komið síðar til Noregs en 1013, ef það er satt sem sagan segir, að hann hafi hjálpað Gretti, áður en hann fór til Íslands (1014). Liklega hefur Bersi farið til Svíþjóðar með Sveini jarli, en jarlinn andaðist þá um haustið og getur Bersa eigi um nokkur ár, eigi fyr en hann kom til Noregs á vald Ólafs konungs. Hann ljet þá setja Bersa í fjötra, en hann orti flokk um konunginn. Við það mun konungi hafa runnið reiðin, þótt Bersi lýsti þar trygð sinni við Svein jarl. Þau skáldin, Bersi og Sighvatur, munu þá hafa gerst vinir; hefur Bersi líklega farið með Sighvati í kaupferð hans til Normandí og Englands, því að þeirra er beggja getið saman hjá Knúti hinum ríka (um 1026); gaf konungur honum tvo gullhringa og sverð. Bersi fór og með Sighvati suður til Róms (1029—1030). Þá er þeir fóru að sunnan,

[1]) Ljós. 117, 252-254; Hkr. II, 85/159—160. [2]) Þorst. st. 86. [3]) Fms. V, 315—320. [4]) Hkr. II, 99/205; Ól. s. s. 95; Icel. sag. I, 21; Flat. II, 177. [5]) Hkr. II, 124/272; Ól. s, s. 125; Fms. IV, 280; Flat. II, 239; Hksb. 20/13; Stb. 20/136; Ldn. 14/48.

mættu þeir Norðmönnum nokkrum, er sögðu fall Ólafs konungs. Við þau tíðindi urðu þeir mjög hryggir. Sagan segir að Bersi þrútnaði og gerði dreyrrauðan yfirlits, og að hann gengi þá aptur í borgina til Pjeturskirkju og spryngi þar af harmi. Hann var grafinn að Pjeturskirkju, segir sagan (1030).[1])

Þórður Sjáreksson, skáld, var mágur Hjalta Skeggjasonar, og rjeðst af landi burt á dögum Ólafs konungs Haraldssonar og ætlaði að fara pílagrímsferð til Jórsala. En er hann kom til Sýrlands, sneri hann þar aptur sökum ófriðar. Hann kom aptur til Íslands. Í skáldatali er hann talinn skáld Eiríks jarls og Ólafs konungs; mætti af því ætla að hann hafi verið hjá þeim báðum og farið fyrst utan um 1012, en síðast um 1030. Hann orti erfidrápu um Ólaf konung hinn helga og er hún kölluð Róðudrápa.[2])

Óttarr svarti, systurson Sighvats skálds, fór ungur utan. Hann var skáld og fór frá einum konungi til annars, orti um þá og fekk laun fyrir. Óttar var máldjarfur maður og höfðingjakær. Hann var hjá Ólafi konungi sænska nokkur ár (um 1017—1022). Eptir dauða konungs virðist hann fyrst hafa verið hjá syni hans, Önundi Jakob, því að hann er talinn skáld hans. Síðan hjelt hann til Noregs, og beiddist að ganga til handa Ólafi konungi Haraldssyni. Konungur ljet þá setja hann í myrkvastofu fyrir það, að hann hafði ort mansöngsdrápu um Ástríði drotningu Ólafsdóttur Svíakonungs, þá er hann var með föður hennar; hún hafði síðan giptst Ólafi konungi Haraldssyni (í febrúar 1020). Sighvatur fór þá um nótt til myrkvastofunnar og fekk systurson sinn til að snúa þeim vísum í kvæðinu um drotningu, er mest voru ákveðin orð í, og til að yrkja annað kvæði um konung. Óttar flutti síðan bæði kvæðin fyrir konungi og drotningu og varð það honum til lífs. Drápan um konung heitir Höfuðlausn og eru 20 vísur til af henni. Drotning launaði líka Óttari kvæði sitt og gaf honum fingurgull.

Frá Ólafi konungi fór Óttar til Knúts konungs hins ríka

---

[1]) Grett. 15/46—48, 23/92, 24/95—97; Hkr. II, 50/73—74, 131/286; Ól. s. s. 40—41, 131; Fms. IV, 101, 292; V, 233—234; Knytl., Fms. XI, 204; Flat. II, 45, 371; III, 243—244. [2]) Hkr. II, 150/366; Fms. III, 37—38, IV, 362—363; Flat. II, 281; um nokkrar missagnir í sögunum um Þórð Sjáreksson sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. I, 617—619.

og segir eigi af honum eptir það. Hann orti drápu um Knút konung (1026 eða 1027).[1])

Gissur svarti var með Ólafi konungi sænska samtíða Óttari svarta. Eptir fráfall konungs segir eigi af Gissuri fyr en 1028; var hann þá með Ólafi konungi Haraldssyni; fylgdi hann honum til Svíþjóðar og Garðaríkis og aptur til Noregs, og fjell með honum eptir hrausta framgöngu á Stiklastöðum (1030). Gissur svarti var einnig kallaður Gissur gullbrárskáld og er það auknefni rangt ritað í sumum sögunum, er hann er nefndur »gullbrá« og »gullbrárfóstri«. Gissur mun eflaust hafa fengið þetta auknefni sitt af því, að hann hefur ort um einhverja konu, sem kölluð hefur verið gullbrá.[2]) Gissur var fóstri Hofgarða-Refs Gestssonar; orti hann erfidrápu eptir fóstra sinn, sem enn er til brot af.[3])

Tvö önnur íslensk skáld fjellu með Ólafi konungi á Stiklastöðum. Annað þeirra var Þormóður kolbrúnarskáld Bersason, en hitt Þorfinnur munnur. Þormóður var upprunninn við Ísafjarðardjúp. Hann fór utan í Vaðli sama sumar sem Þorgeir Hávarsson fóstbróðir hans var veginn, því að hann undi illa eptir fall hans og hugði á hefndir (um 1024). Þormóður hefur eflaust tekið sjer far, þótt þess sje eigi getið. Hann gerðist hirðmaður Ólafs konungs Haraldssonar. Sumarið eptir tók hann sjer far til Grænlands og hefndi þar Þorgeirs fóstbróður síns. Sagan segir, að Þormóður væri þar þrjá vetur (um 1025—1028); þá fór hann aptur til Noregs, en á leiðinni kom skipið við í Danmörku að því er virðist. Saga ein segir, að Þormóður hitti þar Knút hinn ríka, en að hann kæmist frá honum á fund Ólafs konungs Haraldssonar; var hann síðan með honum til dauðadags.[4])

---

[1]) Ól. s. m. 45—47 (hjer segir að Óttar færi frá Ólafi konungi sænska til Knúts ríka, en það er rangt; einnig er hjer Óttari ranglega eignuð sverðavísa Bersa Skáldtorfusonar), 50; Hkr, II, 70/111—112, 72/115—122, 91/177, 114/237, 150/365; Ól. s. s. 54—56, 59, 61, 110, 165; Fms. IV, 134, 143—144, 192. 250; V, 173—176, 234; Flat. II, 60, 63, 115, 192, 226, 281; III, 241—244; Knytl., Fms. XI, 185, 186—189, 191, 194—196. Í Skáldatali, SnE., III, segir að Óttar hafi ort um Önund Jakob, Svein tjúguskegg og Guðbrand í Dölum. [2]) Sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. I. 581. [3]) Hkr. II, 70/111—112, 72/115—155; Ól. s. s. 54—56, 59; Fms. IV, 134, 137, 143, Flat. II, 60; Ól. s. m. 64, 67; Hkr. II, 206/459—460, 227/490; Ól. s. s. 206, 217; Fms. V, 56—57, 80, 203; Flat. II, 226, 315, 340, 344, 353, 355. [4]) Fóst., 58, 59, 77, 62,

Þorfinnur munnur, norðlenskur maður, var skáld og hirðmaður Ólafs konungs Haraldssonar (um 1028—1030). Hann barðist á Stiklastöðum ásamt Þórði bróður sínum og fjellu þar báðir.[1])

Tveir íslenskir menn, Einar og Þórður, eru nefndir meðal þeirra manna, sem fóru með Ólafi konungi Haraldssyni, þá er hann flýði land og fór austur í Svíþjóð og Garðaríki (1028). Þórður þessi hefur ef til vill verið sá sami maður, sem nefndur er hjer á undan með því nafni og fjell á Stiklastöðum.[2])

Steinar Þórarinsson, sem kallaður var Helgu-Steinar, fór til Noregs og þaðan til Grænlands (um 1025), til þess að hefna Þorgeirs Hávarssonar. Hann var þar nokkur ár. Steinar var ættaður úr Breiðafirði.[3])

Þóroddur Snorrason fór utan af hendi föður síns að orðsendingu Ólafs konungs (1025) og var með konungi um veturinn. Sumarið eptir synjaði konungur honum heimferðar. Veturinn eptir fór Þóroddur sendiferð fyrir konung austur á Jamtaland að heimta skatt. Það var hættuför mikil, en Þóroddur komst lífs af við annan mann úr ferðinni. Fyrir þessa ferð leyfði konungur honum að fara til Íslands sumarið eptir (1027).[4]

Gellir Þorkelsson fór einnig utan af hendi föður síns og að orðsendingu Ólafs konungs (1025). Sumarið eptir sendi konungur hann með orðsendingar sínar til Íslands, um að landsmenn tækju við þeim lögum, sem hann hafði sett í Noregi, og veittu honum af landinu þegngildi og nefgildi. Þessu neituðu landsmenn á alþingi 1027 og fór Gellir utan um sumarið með það svar til konungs. Hann var lengi með

80, 106—112; Ól. s. m. 43—45, 59, 63, 66—67, 71—73; Hkr. II, 124/272, 206/459—461, 208/462—464, 233—234/499—504; Ól. s. s. 125, 206—208, 221—223; Fms. IV. 280, V. 25, 56—61, 89—93, 234; Flat. II, 239, 199—205, 224—226, 315, 336—337, 340—341, 342—343, 358—360, 362—366, III, 244. [1]) Ól. s. m. 47; Hkr. II, 206/459, 227/490; Ól. s. s. 206, 217; Fms. V, 56—57, 80, 234; Flat. II, 226, 340, 355, 358—59, III, 244.
[2]) Ól. s. m. 58; Flat. II, 315. [3]) Fóst. 80—82, 105—106 = Hksb. 387—389, 408—409; Flat. II, 204—206, 223—225; Ldn. 19/123, 22/129, 20/234. [4]) Ól. s. m. 66; Hkr. II, 129/281, 136/307—308, 138/311, 141/328—337; Ól. s. s. 129, 141, 143, 150—154; Fms. IV, 287, 313, 316, 332—341; Flat. II, 251, 260—261, 262—263, 270—274.

konungi hinn næsta vetur, en hefur líklega farið til Íslands sumarið eptir (1028).[1]

Grímur, íslenskur maður, kom til Noregs og var um hríð með Ólafi konungi Haraldssyni (um 1027—1028).[2])

Björn nokkur, íslenskur maður, var með Eymundi konungi Dagssyni eða Hringssyni[3]) austur í Garðaríki, eptir því sem segir í Eymundar þætti, og barðist þar með honum. Eymundur var af Upplöndum, bróðir Hræreks konungs, sem fyr er nefndur og beinin bar að lokum á Íslandi. Hann var í víking, þá er Ólafur konungur Haraldsson rak frændur hans af ríkjum (1018). Hann staðnæmdist því ekki í Noregi, er hann kom heim þangað, heldur hjelt hann með liði sínu austur til Garðaríkis á fund Jarizleifs konungs í Hólmgarði, því að hann vissi að hann átti í ófriði og þurfti liðs við. Vladimir hinn mikli, faðir hans, var þá dáinn fyrir fáum árum (1015), og Svjatopolk sonur hans hafði látið drepa þrjá bræður þeirra; ætlaði hann þá einnig Jarizleifi bróður sínum dauða. En hann safnaði liði, fór á móti bróður sínum og vann sigur (1016). Áttu þeir bræður síðan í ófriði um nokkur ár og gekk þá Eymundur konungur á mála hjá Jarizleifi með liði sínu (720 manna, segir sagan). Unnu þeir sigur á Svjatopolk og ljet hann líf sitt í ófriði þessum árið eptir (1019).

Í Eymundar þætti er blandað málum um Svjatopolk og Boleslav Chrobry, Pólverjakonung og mág Sveins konungs tjúguskeggs, († 1025); er því Svjatopolk kallaður Búrizláfur í Eymundar þætti, eins og Boleslav er nefndur í sögunum. Boleslav veitti Svjatapolk lið 1018, rjett um það leyti sem þeir Eymundur börðust með Jarizleifi; hefur því nafn hans borist til Íslands ásamt frásögninni af Eymundi konungi og ófriði þessum; það hafa menn munað, er nafn Svjatopolks hefur gleymst, enda kemur hann eigi við íslenskar sögur.

Björn sá, sem hjer er nefndur, ætla sumir að sje sami maðurinn sem Björn Hítdælakappi, en eigi fellur það vel við tímatalið og enn verr við sögu hans, er segir að hann væri

---

[1]) Hkr. II, 129/281, 136/307—309, 141/328, 159/379; Ól. s. s. 129, 141, 171; Fms. IV. 287, 313, 314, 332, 374; Flat. II, 251, 260—261, 287.
[2]) Fóst. 106; Hksb. 409—410. [3]) Í Eymundarþ. í Flat. segir að Eymundur væri Hringsson, en af Hkr. II. 199/446, sbr. 35/50 og 75/130, má ráða, að Snorri hefur talið þá bræður vera Dagssyni, og er það líklega rjettara.

með Ólafi konungi Haraldssyni haustið og veturinn áður en hann fór til Íslands. Ef Björn Hitdælakappi hefur verið með Eymundi konungi, hefur hann orðið að fara úr Garðaríki snemma vorið 1019, því að það sumar kom hann út til Íslands; hefur hann þá verið hin síðustu ár sín erlendis í víking með honum, en eigi með Ólafi konungi; er eigi hægt að vita þetta með áreiðanlegri vissu.

En það voru fleiri Íslendingar með Eymundi konungi en Björn, og segir svo í þætti hans: »Björn hjet íslenskur maður, er fór með þeim (þ. e. Eymundi og Ragnari frænda hans) og Garðaketill og Ástkell hjet maður og Þórðar tveir.« Nokkru síðar segir: »Þá mælti Eymundur: Rögnvaldur (ritvilla f. Ragnar) og Björn og þeir hinir íslenzku menn skulu ganga til trjesins« o. s. frv. Hjer er svo að sjá sem þeir Garðaketill, Ástkell og Þórðarnir báðir hafi verið íslenskir menn. Einnig bendir sjálfur þátturinn á að íslenskir menn hafi verið í liði Eymundar konungs: þeir hafa upphaflega sagt tíðindi þau á Íslandi, sem þátturinn skýrir frá.[1])

Í lok söguldarinnar voru tveir Íslendingar, sem enn hafa eigi verið nefndir, hjá Knúti konungi hinum ríka. Annar þeirra var Hallvarður Háreksblesi (um 1030) og orti hann drápu um konung (Knútsdrápa)[2]). Hinn var Þórarinn loftunga, »skáld mikið og hafði verið mjög með konungum eða öðrum höfðingjum« (Snorri). Hann hefur líklega komið til Knúts ríka um 1026, og verið með honum nokkur ár, enda er sagt að konungur hafi launað konum ríkulega og gefið honum 50 merkur silfurs fyrir drápu þá, sem hann orti um hann. Hann fór með Knúti konungi til Noregs 1028 og orti Tögdrápu um þá herferð konungs; en síðast er hans getið 1031 eða 1032 og var hann þá með Sveini konungi Alfífusyni. Um hann orti Þórarinn Glælognskviðu. Í Knytlingu

---

[1]) Eym. þ., Flat. II, 127—129, = Fms. V, 285—288; Bjarn. 8/20, 9/22, sbr. hjer að framan bls. 659. Sbr. Nestors russiske Krønike, oversat af C. W. Smith. Kbh. 1869. bls. 101—110, 285—292. Rússneskur maður, O. I. Senkovski, hefur borið saman Eymundar þ. og rússneskar heimildir, Ann. f. nord. Oldkh. 1847, bls. 49—77; hann ætlar að vanti í Eymundar þ., en það er ástæðulaust; hins vegar byggir hann of mikið á þættinum; hann er ýktur Norðmönnum til lofs og höfundur hans hefur þekt lítið til Rússlands. [2]) Hkr, II, 173/400; Ól. s. s. 181; Fms. V, 8; Flat. II, 307; Knyt. Fms. XI, 187.

segir, að Þórarinn væri gamall, er hann kom til Knúts ríka.[1])

Seint á söguöldinni eða ef til vill einhvern tíma um 1030 sigldi Ari Högnason, Gunnarssonar frá Hlíðarenda, til Hjaltlands og kvongaðist þar. Af niðjum hans er Einar Hjaltlendingur nefndur.[2])

Hvernig menn þessir, sem nú eru taldir, hafa farið utan, er sem sagt eigi nefnt í heimildarritunum. Flestir þeirra munu hafa tekið sjer far eða ráðist í skip hjá öðrum, en sumir þeirra munu hafa átt skip eða hlut í því skipi, sem þeir sigldu með, einkum ýmsir af þeim mönnum, sem voru uppi á fyrsta þriðjungi sögualdarinnar, svo sem Ásgeir austmannaskelfir, Helgi Óttarsson, Þórólfur bægifótur og Þorgrímur örrabeinn. Þá var skipakostur nógur í landinu. Þrír þessara manna voru í víking og munu því hafa verið árum saman erlendis. Að vísu er það eigi sönnun fyrir því, að þeir hafi verið skipseigendur, en í víking eignuðust menn opt skip eða svo mikið fje, að þeir áttu hægt með að kaupa skip eða hlut í skipi. —

Þótt eigi sje sagt, hvernig víkingar þessir hafi farið utan, sýna þó mörg dæmi hvernig víkingaferðum Íslendinga var háttað. Þeir fóru aldrei í víking beint frá Íslandi. Þá vantaði langskip eða önnur skip, sem gerð voru til hernaðar. Auk þess var Ísland svo fjarri öðrum löndum, að eigi var haganlegt að fara þaðan í víking, nje hægðarleikur að sigla langskipum yfir svo mikið haf. Fyrir því fóru þeir Íslendingar, sem voru herskáir og hraustir og vildu reyna sig í hernaði, fyrst til Noregs eða annara nágrannalanda, og rjeðust þar í víking eða í leiðangur með einhverjum höfðingjum eða höfðingjasonum, eða þeir fengu sjer þar skip og menn og annað, er til hernaðar þurfti, hjá einhverjum mikilsmegandi manni, eða þeir fóru í víking í fjelagi með einhverjum útlendum manni, sem þeir höfðu ef til vill kynst áður á Íslandi. Þetta gerðu íslenskir skipseigendur jafnt sem farþegar eða aðrir, sem engin skip áttu. En hins vegar segja sögurnar heldur opt svo frá sem Íslendingar hafi verið foringjar eða helstu mennirnir í slíkum ferðum. Sögurnar af

[1]) Ól. s. m. 43, 59; Hkr. II, 172/396—398, 239/512, 245/519—522; Ól. s. s. 180, 226, 230; Fms. IV, 292; V, 5, 8; XI, 203—204; Flat. II, 306—307. [2]) Nj. 80/379.

hreystiverkum þeirra geymdust eðlilega á Íslandi, og fyrir því er þeim stundum eignað meira í sögunum, en þeir í raun rjettri áttu í samanburði við fjelaga þeirra. —

Enn fremur má benda hjer á Þormóð Þjóstarson. Hann virðist hafa verið farmaður og siglt á eigin skipi eptir þeim orðum að dæma, sem um hann eru höfð, en þó eru þau of óákveðin til þess að ráða af þeim um þetta með vissu. Gellir Þorkelsson, á síðasta tug söguaidarinnar, mun hafa farið landa í milli á skipi, sem hann átti eða átti fyrir að ráða, og svo mun hafa verið um fleiri af mönnum þessum.

Þótt hjer hafi nú verið nefndir margir Íslendingar, má þó enginn ætla, að nú sjeu taldir allir þeir Íslendingar, sem fóru utan og voru í förum á söguöldinni. Því fer fjarri. Margir fóru utan — og sumir þeirra voru í förum fleiri eða færri ár, — sem hvergi eru nafngreindir í neinum ritum og enginn veit því nein deili á. Stundum voru það menn af nafnkendum ættum, svo sem frændur Eiðs Skeggjasonar úr Ási;[1]) en optast voru það menn af hinum minni ættum, fylgdarmenn hinna heldri manna, eða hásetar og farmenn, sem hvergi komu við sögur. Stundum voru líka konur með mönnum sínum í siglingum, feðrum eða frændum eða velgjörðamönnum, og einstaka sinnum tóku þær, einkum ekkjur, sjer far sjálfar til annarra landa; stundum voru þær teknar með valdi og fluttar landa í milli. Uppá þetta hafa ýms dæmi verið nefnd, en það má nærri geta að þær konur hafa eigi verið færri, sem farið hafa utan og hvergi eru nefndar.

# Annar þáttur. Ferðir Norðmanna og annara útlendinga til Íslands.

## I. Nokkur orð um vist útlendinga á Íslandi.

Þá er Norðmenn eða aðrir útlendingar komu til Íslands, fóru þeir að líkt og Íslendingar, er þeir komu til Noregs.

---

[1]) Lax. 58/217: »Frændur Eiðs eru margir í kaupförum« (um 1007), en sagan nafngreinir þó engan.

Þeir dvöldu þar venjulega fram á sumar árið eptir og fengu sjer því veturvist hjá bændum, stýrimennirnir með vinum sínum hjá goðanum eða einhverjum helsta bóndanum í hjeraðinu við höfn þá, sem þeir höfðu tekið, en hásetarnir á víð og dreif á ýmsum bæjum. Sumarið eptir hjeldu þeir síðan heim, ef þeir ætluðu eigi að dvelja um kyrt lengur en eitt ár. Einstaka sinnum bar svo við að útlendingar settust að á Íslandi, en þeir voru þó fáir í samanburði við hina, sem fóru aptur.

Flestir útlendingar, sem sigldu til Íslands, komu þangað í kaupskaparerindum; en þótt sumir færu í öðrum erindum, t. a. m. til að boða kristni, eða til að gegna kennimannsembættum, urðu þeir samt að haga ferð sinni líkt og aðrir, og fá sjer vist á einhverjum bæ.

Yfir úthafið sigldu menn á þeim tímum að eins á sumrin. Menn lögðu venjulega af stað, »ljetu í haf«, á vorin eða fyrri hluta sumars; þótti það ilt að verða síðbúinn. Skip komu því sjaldan til Íslands fyr en í júní eða um miðsumarskeið og opt síðar. En er þangað var komið, þurfti fyrst að bera vörurnar af skipi. Þá var að selja þær og kaupa aðrar; áður en það var gert, var eigi hægt að hugsa til heimferðar. Þetta tók opt langan tíma. Að vísu gekk það opt greitt að selja vörurnar, því að margir landsmenn riðu til skips, er þeir spurðu skipakomu og keyptu, en það gekk alt ógreiðar að fá vörurnar borgaðar. Kaupmenn seldu því opt vörur sínar »á frest«, þ. e. kaupandinn fekk gjaldfrest, fekk vörurnar að láni. Veturinn eptir og um vorið var verð þeirra heimtað inn. Fyrir þær var látið vaðmál og aðrar íslenskar vörur. Vaðmálið var ofið á vetrum og var sumt af því ofið fyrst veturinn eptir það, að fyrir það hafði verið keypt. Kaupskapurinn var vöruskipti, eins og venjan hefur verið fram á vora daga.

Með þessu verslunarlagi og þar sem engar fastar sölubúðir voru til, gátu kaupmenn eigi hugsað til þess að sigla heim aptur hið sama sumar. Þeir urðu að fresta heimferðinni til næsta sumars, setja upp skip sín og búa um þau, áður en þeir fóru frá þeim í veturvist. Stundum kom það þó fyrir að menn fóru báðar leiðir sama sumarið, »sigldu« eða »fóru tvívegis«, eins og það var nefnt; en þeir menn, sem það

gerðu, fóru í öðrum erindum, eða ljetu að minsta kosti eigi kaupskap hepta för sina lengi.

Veturvist útlendinga og alt kaupskaparlagið hafði það í för með sjer, að þeir urðu mjög opt riðnir við ýms mál og atburði á Íslandi; einkanlega tóku þeir þátt í ýmsum verkum með húsbændum sínum. Þeir fóru t. a. m. með þeim á mannfundi og til vígaferla, eins og aðrir heimamenn þeirra. Þess vegna er útlendra manna svo opt getið á Íslandi í íslenskum sögum, og eru það langoptast Norðmenn. Það er því rjett að byrja á þeim.

## II. Norskir kaupmenn og kaupskip.

Norðmenn eru í íslenskum sögum mjög opt nefndir Austmenn, eins og síðar skal sýnt með dæmum. Þeir bjuggu í austurátt frá Íslandi, komu að austan og fóru aptur í austur; af því tóku þeir nafn þetta. En nafnið er þó miklu eldra en bygging Íslands og það kom með Norðmönnum til landsins. Um það leyti sem Ísland fanst virðist svo sem Norðmenn austanfjalls og sunnan í Noregi hafi stundum verið nefndir Austmenn í mótsetningu við þá landsmenn, sem bjuggu vestanfjalls. Austanfjalls í Noregi voru og Svíar stundum nefndir Austmenn, af því að þeir bjuggu í austurátt þaðan; er eigi ómögulegt að nafn þetta hafi einstaka sinnum verið notað líka á Íslandi um menn af Gautlandi eða úr öðrum bygðum austur af Noregi, en um það er lítið kunnugt. Þá er Norðmenn færðu út bygð sína vestur á bóginn, fluttist nafnið með þeim og festist sjerstaklega við Norðmenn þá, sem bjuggu kyrrir eptir í Noregi, þrátt fyrir það þótt afstöðunnar vegna hefði eins mátt nota það um Svía. Fyrir vestan haf, í Orkneyjum og á Írlandi, voru því Norðmenn nefndir Austmenn, að sínu leyti eins og Norðmenn á hinn bóginn kölluðu Íra og aðrar þjóðir fyrir vestan haf Vestmenn. Í Færeyjum og á Grænlandi voru Norðmenn einnig nefndir Austmenn.[1])

---

[1]) Skjaldedigtning I, A, 26, B, 23; Hkr. I, 18/124, II, 143/345; Flat. II, 476, 477; III 448, 453; Historic and municipal Documents of Ireland ed. by J. T. Gilbert (London 1870), bls. XXX, 149, 480, 40, 488; K. Maurer, Die Bekehrung I, 50; Joh. Steenstrup, Normannerne I, 51.

Þá er Ísland tók að byggjast, sáu norrænir siglingamenn að þar mundi verða nokkur markaður fyrir vörur þær, er þeir höfðu á boðstólum. Sumir þeirra höfðu spurnir af landinu og frjettu hvað landnámsmennina vanhagaði um. Þeir höfðu fáir getað flutt kvikfjenað með sjer eins og þeir þurftu, og munu því sumir ötulir kaupmenn úr Noregi hafa notað sjer það, til þess að selja þeim búpening. Á landnámsöldinni er getið um skip eitt, hlaðið kvikfje, sem kom út í Kolbeinsárósi. Það mun hafa komið með kvikfje til sölu, en eigi er nánara af því sagt og eigi heldur hverjir áttu skipið; en það munu þó hafa verið Norðmenn. Mönnum þessum hvarf í Brimnesskógum unghryssi eitt. Þeir seldu Þóri dúfunef landnámsmanni vonina í því, og bendir það á að þeir hafi farið utan aptur, en eigi tekið bólfestu á Íslandi. Þórir fann síðan hryssu þessa og var hún kölluð Fluga sökum þess hve skjót hún var. Þetta var heldur seint á landnámsöld.[1])

Töluvert fyr en þetta var, kom Björn höldur Brynjólfsson til Íslands (um 900). Hann var frá Aurlandi í Sogni, farmaður mikill, og stundum í víking en stundum í kaupferðum. Hann nam á braut Þóru hlaðhönd og sigldi til Hjaltlands. Fyrir það varð hann útlægur í Noregi og menn gerðir austur um haf til að drepa hann. Björn flýði þá til Íslands og kom á fund Skallagríms, sem fyr er sagt, og var með honum þrjá vetur. Þótt Björn væri kaupmaður á þessum árum æfi sinnar, kom hann þó eigi í kaupskaparerindum til Íslands, heldur landflótta; en hann var á sínu eigin skipi.[2])

Um 910—915 kom skip í Húnavatnsós, er norrænir menn áttu og munu þeir hafa verið kaupmenn. Stýrimaðurinn hjet Hrafn og fór hann í veturvist til Ingimundar Þorsteinssonar. Segir sagan að »fleiri höfðu þar verið með Ingimundi, að honum hefði betur við líkað«; orð þessi benda á, að optar hafi verið vetursetumenn hjá Ingimundi en í þetta sinn, ef þau má marka um nokkuð annað en það, að þeir Hrafn áttu eigi lund saman.[3])

Fám sumrum síðar kom út skip í Breiðafirði á Dögurðarnesi. Stýrimaðurinn hjet Bárður og var frændi Odds skrauta og fjelagi, segir sagan, þá er þeir höfðu verið í hernaði. Sagt er að fimm íslenskir menn væru með honum, og

[1]) Ldn. 194. [2]) Eg. 102—108, 111. [3]) Vatn. 17/29; Ldn. 177.

hafi ráðist brott til hjeraða sinna. Bárður vildi fara tvívegis, og rjeðst þá Þórir Oddsson og fóstbræður hans í skip með honum sem fyr er getið.[1])

Af þessu er ljóst að Norðmenn byrjuðu þegar á landnámsöld að fara kaupferðir til Íslands að sínu leyti eins og landnámsmennirnir sjálfir byrjuðu þá þegar siglingar til Noregs og annara landa. Norðmenn notuðu síðan markað þann, sem myndaðist á Íslandi, og áttu kaupskap við landsmenn, þangað til útlendir kaupmenn, hansakaupmennirnir, höfðu fengið algjörlega yfirráðin yfir versluninni i þeirra eigin landi; en það var löngu eptir að íslenska þjóðveldið hafði liðið undir lok.

Á fyrstu árum sögualdarinnar eru nefndir nokkrir norrænir kaupmenn. Í Grímsárósi í Borgarfirði var skipshöfn Austmanna, sem Ásgeir austmannaskelfir drap (um 930).[2])

Hreiðar stýrimaður, bóndi á Vors i Noregi, kom eitt sumar með skip sitt í Eyjafjörð (um 934) og var um veturinn hjá Ingjaldi Helgasyni að Þverá.[3])

Skip kom í Reyðarfjörð (um 943) og mun það hafa verið norskt, því getið er um »Austmann« á því og að aðrir skipverjar hafi gert eins og hann.[4]) Litlu síðar urðu kaupmenn nokkrir sæhafa á hafskipi og brutu skip sitt í Trjekyllisvík. Það voru Austmenn og hjet Steinn stýrimaður þeirra (um 945).[5])

Nokkru eptir miðja 10. öld er getið um tvö norsk skip á Borðeyri (um og rjett eptir 955). Á öðru var hirðmaður Haralds konungs gráfelds stýrimaður og hjet hann Örn; á hinu voru bræður tveir, Sleitu-Helgi og Jörundur, 12 víkingar frjálsir og sveinar umfram. Þeir Helgi kyntu sig illa og börðust við Hrómund halta og syni hans. Fjellu sjö þeirra, en Helgi ljet í haf með þeim sem undan komust og týndust.[6])

Þórir og Þórarinn, bræður tveir vikverskir, komu út á skipi sínu í Dýrafirði (um 960). Þeir seldu Þorgrími Þorsteinssyni við; segir sagan, að hann sendi Þórodd son sinn til þess að bera saman viðinn og telja. Honum þótti nokkuð á annan veg um kaup þeirra, en Þorgrímur hafði sagt, og

[1]) Gull-Þ. 2/7—8; Ldn. 123—124. [2]) Landn. 305; Fló. 9/127.
[3]) Glúm, 1/1—4. [4]) Þorst. hv. 8. [5]) Grett. 12/29—34; Ldn. 157.
[6]) Lax. 20/60—62; Ldn. 161—167; Hróm þ. Flat. I, 410, 412, 414. sbr. Safn I, 369, 377—78; Ísl. sögu mína II, 188.

ámælti Austmönnum. Þeir stóðust það eigi og vágu hann; en Þorgrímur hefndi hans og drap báða Austmennina.[1]) Þetta var hjer um bil ári eptir að Þorgrímur kvongaðist, og var hann þá tvítugur eða rúmlega það. Það getur því eigi verið rjett, að sonur hans hafi borið saman viðinn, hvað sem satt er í öðru.

Vagn, Nafar og Skefill, bræður þrír, komu út á skipi sínu í Húsavík (um 960). Þeir fóru til vistar með Þorbergi höggvinkinna að Arnarvatni, hinum versta manni. Hann bar þjófnað á Geira austmann[2]) á Geirastöðum og Glúm son hans, þótt hann vissi að þeir væru saklausir, og fekk þá bræður með sjer í stefnuför til hans. Í þeirri ferð fjellu »allir austmennirnir«.[3])

Um 961 kom skip í Borgarfjörð og voru á Austmenn. Örn hjet stýrimaður þeirra og er hann kallaður hinn besti kaupdrengur. Hann fór til vistar í Örnólfsdal og var brendur þar inni með Þorkeli Blundketilssyni (um 962).[4])

Um 960—962 átti norrænn maður, Sigurður að nafni, fjelag við Vjestein Vjesteinsson, en eigi er þess getið að hann kæmi til Íslands.[5])

Össur Eyvindarson, föðurbróðir Hrúts Herjólfssonar, kom út í Hvítá í Borgarfirði um 963 og fór utan samsumars, því að Hrútur þurfti sem fyrst að vitja arfs í Noregi eptir Eyvind bróður sinn.[6])

Um 965 kom skip í Eyjafjörð við Knarrareyri, hlaðið viði að miklum hluta og átti Austmaður. Annað skip kom þá um sama leyti að Gásum, og mun það einnig hafa verið norskt, þótt þess sje eigi getið, og flutt nokkurn við. Að minsta kosti segir sagan, að Vjemundur kögurr hafi þá keypt þræl einn til að segja »í hávaða« við skip á Knarrareyri að Steingrímur bóndi Örnólfsson hefði keypt þar við; gerði Vjemundur þetta til þess að geta fengið við þann keyptan á Knarrareyri, sem Steingrímur hafði fest kaup á.[7])

---

[1]) Gísl. 7/15—16, sbr. Safn I, 363; Isl. sögu mína II, 174 o. ef.
[2]) Geiri hefur verið nefndur austmaður, af því að hann kom út eptir landnámstíð og reisti bæ á Íslandi, þá er landið var bygt orðið.
[3]) Reyk. 18/88—98. [4]) Hæns. 2—3/126—131, 9/152, 13/171; Íslb. 8; sbr. Ísl. sögu mína II, 60, 156. [5]) Gísl. 8/17. [6]) Nj. 2/5—8.
[7]) Reyk, 9/37—40. Í Svarfdælu 25—26/85—90 er getið um skip, er kom í Svarfaðardalsárós og hjet stýrimaðurinn Gunnar, víkverskur maður;

Brynjólfur Þorbjarnarson, víkverskur maður, kom út á Eyrum. Segir sagan að 30 manna væru á skipinu. Með honum fór Hörður Grímkelsson utan (um 965).[1])

Hallvarður hinn hvíti, víkverskur maður, kom út á skipi sínu í Arnarbælisós (um 971) og var um veturinn á Hlíðarenda. Sumarið eptir fór hann utan og Gunnar og Kolskeggur bróðir hans með honum. Hallvarður er einnig nefndur Austmaður í Njálu og hann hafði, segir sagan, siglt til allra þeirra landa, er voru milli Noregs og Garðaríkis, og enn fremur til Bjarmalands. Tveimur eða þremur árum síðar fór hann aptur til Íslands með þá bræður. Reið hann þá á alþingi með þeim. Segir ekki af honum eptir það, en líklegt að hann hafi farið utan næsta sumar.[2])

Ormur, farmaður nokkur, kom út í Hvítá í Borgarfirði og var um veturinn með Indriða Þorvaldssyni á Indriðastöðum. Hann fór utan um sumarið, og kom út aptur einum eða tveimur vetrum síðar. Hann braut þá skipið á Vikarsskeiði við Þjórsá; voru á því 15 menn og komust af, en fengu engar vistir; tók þá Indriði Þorvaldsson hann heim til sín og skipverja hans. Þetta mun hafa verið eptir 970. Þá er Hólmverjar voru drepnir nokkrum árum síðar (um 985), er getið um Orm, Austmann nokkurn, með Indriða; er líklegt að það sje sami maðurinn.[3])

Um 975 kom skip út í Leiruvogi og stýrði sá maður, er Þormóður hjet. Hann var norrænn og húskarl Þorsteins Þórusonar, sem átti heima í Vík austur. Hann færði Egli Skallagrímssyni skjöld og mun hann hafa verið að Borg um veturinn.[4])

Um þetta leyti var norrænn maður, Hrafn, stýrimaður á skipi með Þorleifi hinum kristna, og komu þeir út í Vopnafirði. Hann var sagður auðugur. Fleiri Austmenn voru á skipinu. Hrafn fjekk veturvist hjá Geiti Lýtingssyni í Krossavík, en var veginn til fjár um veturinn.[5])

---

voru Austmenn á skipinu. Ef þetta er rjett, sem vel má vera, hefur það verið um þetta leyti eða á árunum um 965. [1]) Harð. 12/35—38. [2]) Nj. 28/105—106; 32/121—123. [3]) Harð. 19/57, 34/101. [4]) Eg. 79/294. [5]) Vápn. 4/29—32, sbr. að framan bls. 612. Í þætti Þorsteins uxafóts er sagt, að Ívar ljómi Erlingsson af Hörðalandi hafi verið löngum í kaupferðum bæði til Englands og Danmerkur, og eitt sumar hafi hann farið til Íslands og komið út í Gautavík. Um

Á Norðurlandi er getið um Björn, Austmann nokkurn, á þessum árum. Hann átti skip búið til hafs og fór Þorkell krafla utan með honum.[1])

Um 980—982 er getið um þrjú norræn skip á Vesturlandi. Tvö þeirra komu út (líkl. 980) í Breiðafjörð, annað í Salteyrarós en hitt í Dögurðarnes. Skipið í Salteyrarósi áttu hálft norrænir menn, en hálft suðureyskir. Björn hjet stýrimaður Norðmanna og fór hann til vistar á Eyri til Steinþórs Þorlákssonar. Stýrimaður Suðureyinga hjet Álfgeir og var hann með Þórarni svarta i Máfahlíð um veturinn. Þórarinn lenti litlu síðar í bardaga við Þorbjörn digra, mág Snorra goða, og feldi hann. Vorið eptir brendi Snorri goði skip þeirra Álfgeirs, af því að hann sá að Þórarinn mundi ætla utan með honum án þess að bjóða bætur, og Álfgeir hafði barist með honum. Þá keyptu þeir Vermundur og Arnkell goði af Austmönnum skip það, sem var í Dögurðarnesi, og fóru þeir Álfgeir, Vermundur og Þórarinn utan á því sem fyr er sagt.[2]) Þriðja skipið kom í Gufárós í Borgarfirði og hjet stýrimaður Bergfinnur. Hann var um veturinn hjá Þorsteini Egilssyni, en »Austmenn« vistuðust á öðrum bæjum. Bergfinnur er kunnur af því að hann rjeð draum Þorsteins um forlög Helgu dóttur hans. Sumarið eptir fór hann utan ásamt fjelögum sínum.[3])

Um 989 er getið um þrjú norræn skip, sem sigldu af Íslandi, suðurströnd landsins að því er virðist. Einu þeirra stýrði Högni hinn hvíti og er hann í nokkrum handritum sagður víkverskur maður eða færeyskur; með honum tók Þráinn Sigfússon sjer far. Fyrir öðru skipi rjeð Arnfinnur hinn víkverski og tóku þeir bræður frá Hlíðarenda sjer far með honum. Fyrir þriðja skipinu voru þeir Bárður svarti og Ólafur Ketilsson úr Eldu í Þrændalögum og fóru Njálssynir utan með þeim.[4]) Þetta sama sumar kom þrænsk-

---

veturinn á hann að hafa verið hjá Þorkeli Geitissyni i Krossavík og eignast þá son með systur hans. Sá sveinn, segir sagan, var Þorsteinn uxafótur; en þáttur hans er ósannsögulegur. Flat. I, 250—251 (= Fms. III, 108—111), sbr. að framan bls. 687. [1]) Vatn 43/69, sbr. að framan bls. 657—58. [2]) Eyrb. 18/21, 22/36; Ldn. 9/89—90; sbr. að framan bls. 642. [3]) Gunnl. 2/192—197. Í Gunnl. sögu er sagt að Bergfinnur væri norrænn (= norskur) að ætt; síðan er hann hvað eptir annað kallaður Austmaður. [4]) Nj, 75/346—348, 83—84/390—397.

ur maður, Kolbeinn Arnljótarson, út í Austfjörðum, í Gautavík. Þar bjó hann skip sitt sumarið eptir, þá er Hrappur bað hann flytja sig um haf.[1])

Sigurður, norrænn maður, átti skip með Hallvarði Arnórssyni og kom út í Húsavík (um 990) sem fyr segir. Fleiri Austmenn voru á skipinu. Sigurður seldi varning sinn um veturinn, en var drepinn um vorið, er hann heimti verðið.[2]) Banamenn hans voru gerðir utan og átti einn þeirra, Sölmundur Viðarsson, útkvæmt eptir þrjú ár. Eptir tvo vetur fýstist hann til Islands, og segir sagan að Hákon jarl Sigurðarson hafi sent út skip og gripi til að hlynna fyrir honum. Ef það er rjett, mun jarl hafa látið kaupskipið sigla til Íslands í kaupferð og hjálpað Sölmundi um leið (um 992).[3])

Um 992 kom Þorsteinn hinn hvíti norrænn maður, á kaupskipi sínu til Islands og var þar tvö ár. Flóamanna saga segir að hann væri lendur maður Hákonar jarls Sigurðarsonar. Hann fór síðan til Grænlands að leita Þorgils örrabeinsstjúps vinar síns; og flutti hann þaðan til Íslands; hröktust þeir á leiðinni bæði til Írlands og Hálogalands. Eptir skamma vist á Íslandi hjelt Þorsteinn þá til Noregs.[4])

Um 993 er getið Norðmanna á Gásum, er seldu Víga-Glúmi skip handa Ögmundi Hrafnssyni.[5])

Um 994 voru kaupmenn, Austmenn, í Straumfirði, er bjuggu þar skip sitt. Austmenn þessir komu út aptur tveimur árum síðar og tóku þá Dögurðarnes, og stóð skip þeirra þar uppi um veturinn (um 996—997).[6])

Árið 1000, eða um það leyti, var Auðun festargarmur með skip sitt í Gufárósi; segir sagan, að hann seldi helminginn í því Illuga hinum svarta handa Gunnlaugi syni hans, er fór utan með honum (líkl. 1001); en þó má vera að þetta sje sagt til þess að bæta á mikilmensku þeirra Gilsbakkafeðga eða Gunnlaugs, sem sagan er af. Auðun kom aptur til Íslands og tók þá land í Bjarnarhöfn. Hann var á Þórsnesþingi, þá er gert var um víg Kjartans Ólafssonar og Ósvífrssynir urðu sekir (um 1003). Sagan segir, að hann vildi eigi flytja þá utan og að Ósvífur Helgason hafi þá spáð hon-

———

[1]) Nj. 87/409—414. [2]) Ljósv. 1/115—116, sbr. að framan bls. 618. [3]) Ljósv. 2/117. [4]) Fló. 15/133, 24/148, 26—29/151—154. [5]) Fms. II, 63; Flat. I, 332. [6]) Eyrb. 39—40/69—70, 42/75, 45/84—85.

um ófarar. Hann fór utan um sumarið og týndist við Færeyjar.[1])

Um 1002 kom skip norður við Tjörnes. Það áttu þrænskir menn; hjet annar Þórður en hinn Sigurður. Þeir vistuðust á Mýri og fóru til Noregs sumarið eptir, er þeir höfðu selt varning sinn og fengið hann borgaðan. Menn þessir úr Þrándheimi eru tvisvar í sögunni nefndir Austmenn.[2])

Tveimur eða þremur árum síðar er getið þriggja skipa á Austurlandi. Eitt þeirra kom í Breiðavík og stýrðu því Austmenn tveir, Gunnar og Þormóður. Þeir vistuðust hjá Katli þrym í Njarðvík og þar vá Gunnar Þiðranda Geitisson. Það var óhappaverk mikið, og gerðist af því saga nokkur af Gunnari á Íslandi. Þormóður fjelagi hans var veginn, en sjálfur komst hann undan, enda var hann manna vaskastur. Að lokum segir sagan, að hann væri sendur til Guðrúnar Ósvífrsdóttur til halds og trausts, og kom hún eða Þorkell Eyjólfsson honum utan. Þetta hefur líklega gerst á árunum um 1004—1006.[3])

Annað skip kom í Krossavík, er áttu »norrænir menn«, »Austmenn« (um 1005), og vistaðist stýrimaður hjá Þorkeli Geitissyni og þrír menn með honum.[4]) Þriðja skipið stóð þá uppi í Hornafirði og er stýrimaður þess nefndur Þorkell. Hann flutti utan Grím Droplaugarson og komu þeir í Sogn; virðist hann hafa átt þar heima og Gunnar Þiðrandabani einnig eða þar í næstu sveitum; þó eru orð sögunnar mjög óákveðin um þetta.[5])

Um 1006 kom skip í Gufárós og áttu norrænir menn. Þrír þeirra fengu veturvist að Borg hjá Þorsteini Egilssyni, og fór Björn Arngeirsson utan með þeim sumarið eptir.[6]) Það sumar (líkl. 1007) kom skip af Noregi snemma sumars í Straumfjörð. Kaupmenn þessir ætluðu að fara tvívegis og tókst þeim það, en urðu síðbúnir; keypti Þórður Kolbeinsson hlut í skipi þeirra og fór með þeim. Arið eptir komu þeir út í Gufárós.[7])

Helgi, Austmaður nokkur, kom út í Einarshöfn (um 1007 eða litlu síðar) og fór upp í hjerað með varning sinn. Í

[1]) Gunnl, 5/212, 5—7/217—221; Lax. 51/197. [2]) Ljósv. 8/138—140. [3]) Gunnl. s. 2/198, 3/200—201 o. ef.; Lax. 69/252—255; Dropl. 14/173. [4]) Dropl. 14/172. [5]) Dropl. 14/173. [6]) Bjarn. 2/4—6. [7]) Bjarn. 3/6, 3/9.

þeirri ferð barðist hann við Þorgils örrabeinsstjúp og fjell. Tveimur árum síðar komu út tveir bræður Helga, Einar og Sigurður, og vildu hefna hans. En af því að þeir voru góðir drengir, sættust þeir við Þorgils og tóku bætur, og fóru síðan utan.[1])

Í Eyjafirði var kaupskip (um 1009 til 1010) og á því norrænir menn og íslenskir (Böðvar Sigmundarson og Bessi Hallason). Stýrimaðurinn hjet Hávarður og var hann Austmaður. Hann fjell um veturinn með þeim Böðvari.[2])

Eitthvað tveim vetrum síðar kom Helgi Arnsteinsson á skipi sínu út í Eyjafjörð (um 1012). Hann var farmaður mikill og var ávalt með Guðmundi hinum ríka, er hann var út hjer, segir sagan. Bendir það á, að hann hafi opt komið til landsins. Hann var með Guðmundi um veturinn og átti kaup við menn. Einn þeirra var Þórir Akrakarl, er ljet hann fá svikna vöru. Seldi hann mál það í hendur Guðmundi ríka og fór síðan utan. Í öðru handriti, broti af Ljósvetninga sögu, er formaður þessi nefndur Ingjaldur, en svikalómurinn Þorgils með auknefninu Akrakarl, af því að hann bjó að Ökrum í Hörgárdal; vörur hans voru eptir því, sem segir í sögubrotinu, ull og klyppingar og hvorttveggja fúið, en eigi feldur með raufum á, eins og segir í sjálfri sögunni. Annars segir líkt af svikum Akrakarlsins í báðum handritunum. Ingjaldur er nefndur Austmaður, en eigi er þess getið að hann hafi verið optar á ferðinni, en í þetta eina sinn.[3]) Eru þessar missagnir eptirtektaverðar og hætt við að svo sje um margt, sem engin gögn eru um til samanburðar.

Eyjólfur nef, þrænskur maður, mun hafa komið til Íslands 1012. Skip hans stóð uppi í Hornafirði vorið 1013, þá er Flosi skyldi fara utan og þeir brennumenn. Hann bað sjer konu í Bjarnanesi í Hornafirði, þar sem hann hafði vetursetu; seldi hann því Flosa skip sitt fyrir landið í Borgarhöfn, svo að hann gæti reist bú; fekk Flosi og af »Austmanninum« tuttugu hundruð vöru í kaupinu.[4])

Um 1014 stóð skip uppi í Norðurá í Borgarfirði og áttu Austmenn; þeir bjuggust þá utan um sumarið og fór Þorgeir Hávarsson með þeim.[5])

[1]) Fló. 34/159—160. [2]) V.-Ljót. 5/176—183. [3]) Ljósv. 13/161—162, sbr. 258. [4]) Nj. 149/848—850. [5]) Fóst. 8/25, 8/27—28; Grett. 27/103—106.

1014—1015 var Austmaður nokkur í veturvist að Apavatni í Grímsnesi, og var hann líklega einn af kaupmönnum þeim, sem Sighvatur Þórðarson fór með utan sumarið eptir. Austmaður þessi var sagður vitur maður og fróður; honum var vel til Sighvats.[1])

Um 1018 stóð skip uppi í Vaðli og stýrði því norrænn maður, er Ingólfur hjet. Hann fór utan um sumarið.[2]) Hjer um bil fimm árum síðar kom þar út norrænn maður, er Jökull hjet. Þorgeir Hávarsson kom þá út á skipi hans.[3])

Um 1020 kom um alþing skip á Eyrum og voru þar á tveir frændur Þórðar Kolbeinssonar, Óttar og Eyvindur, víkverskir menn og bræður. Þeir fóru til vistar með Þórði og sátu fyrir Birni Hitdælakappa um haustið. Það varð þeirra bani.[4])

Um 1024 kom skip í Hvítá í Borgarfirði. Það átti hálft Þorleikur Bollason, en hálft norrænir menn. Sagan segir að Bolli Bollason hafi keypt helming skipsins af Norðmönnum, hvað sem hæft er í því.[5])

Nú hafa verið nefndir margir Norðmenn, kaupmenn eða siglingamenn, af eigi færri en 46 skipum, og eru þeir Gunnar stýrimaður, sem nefndur er í Svarfdælu, og Ívar ljómi þó eigi taldir með. Um fjögur af skipum þessum er sagt, að Norðmenn og Íslendingar hafi átt þau í fjelagi, og um eitt að það ættu saman norrænir menn og suðureyskir. Annars er venjulega nefndur stýrimaðurinn á skipum þessum eða sagt að það áttu »norrænir menn« eða »Austmenn«. Er það orð í Íslendinga sögum notað jafnt um Norðmenn norðan úr Þrændalögum sem úr Víkinni eða öðrum hlutum Noregs. Eitthvað tvisvar sinnum er að eins sagt, að skip hafi komið út og »voru þar á tveir Norðmenn« (eða »norrænir menn«). Þeir tóku síðan þátt í þeim atburðum, sem sagan er af; en af skipunum segir ekki nánar. Þó svona sje að orði komist, verður helst að ætla að skip þessi hafi verið norræn, en eðlilega er það eigi víst.

Venjulega var einn stýrimaður á hverju hinna norsku skipa eins og á hinum íslensku; en opt var þó útaf því brugðið. Um átta af skipum þeim, sem hjer eru nefnd, er

[1]) Hkr. II, 43/62; Fms. IV, 89; Flat. III, 243. [2]) Fóst. 10/34—35. [3]) Fóst 14/84. [4]) Bjarn. 18/37—40. [5]) Lax. 70/259. 72/265.

þess getið, að tveir stýrimenn hafi verið á þeim og um eitt er sagt að áttu þrír bræður. Þá er tveir voru stýrimenn, voru það venjulega bræður eða sameigendur skipsins, menn, sem höfðu gert fjelag með sjer. Þá er þess er einungis getið, hver var stýrimaður á skipinu, má optast ætla að hann hafi einnig verið eigandi þess, nema hann hafi átt föður á lífi, sem átti það, eða hann hafi farið með skip konungs og erindi hans eða annara stórhöfðingja. Hið sama má og venjulega ætla um þau skip, sem að eins er sagt um að norrænir menn hafi átt.

Um fáeina af kaupmönnum þessum er þess getið að þeir hafi komið optar en einu sinni til Íslands; en það hafa eflaust fleiri gert en þeir einir, sem það er sagt um. Margir þeirra munu þó að eins hafa farið eina ferð til Íslands, en um þetta vantar öll nánari skýrteini.

Ef það er athugað hvaðan kaupmenn þessir voru úr Noregi, þá er það eptirtektavert að eigi færri en átta þeirra eru nefndir víkverskir (eða úr Víkinni), þótt Víkin lægi eigi sem best við siglingum til Íslands og þaðan væru heldur fáir landnámsmenn ættaðir. Kaupskapur og siglingar hafa eigi verið þar litlar á þessum tíma, og útflutningur manna hafði verið minni þaðan á dögum Haralds hárfagra en úr flestum öðrum hjeruðum í Noregi; Víkverjar hafa því getað haldið uppi siglingum með fullu fjöri á söguöldinni.

Annars er þess sjaldnast getið hvaðan úr Noregi kaupmennirnir voru. Fimm eru nefndir þrænskir (eða úr Þrændalögum) og af þeim voru tveir bræður; einn var af Voss, einn af Hörðalandi og einn úr Sogni eða jafnvel tveir. Eptir þessum tölum að dæma mætti jafnvel ætla að flestir þeirra hafi verið úr Víkinni og úr Þrándheimi, en það er þó tæplega rjett. Ýmsir siglingamenn norðan úr Þrændalögum og alla leið suður um Noreg og austur í Vík hafa við og við siglt til Íslands; þótt um fæsta þeirra sje tilgreint að þeir hafi verið úr vesturfylkjum Noregs, er þó alls eigi víst, að færri hafi komið þaðan til Íslands en úr Víkinni. Það er eigi ómögulegt að flestir þeirra hafi verið þaðan, og að þess sje eigi getið í sögunum vegna þess, að Íslendingar hafi verið því vanir, að flestir þeir Norðmenn, sem til landsins komu, væru úr Gulaþingslögum. Þaðan áttu Norðmenn einkum frændavon á Íslandi, og miklar tengdir voru þá milli Íslands

og Noregs vestanfjalls. Á 12. og 13. öld, þá er sögurnar voru ritaðar, var Björgyn orðin mestur kaupstaður í Noregi og siglingabær. Peningafundir í Noregi sýna það og, að samgöngur hafa verið mestar úr Noregi vestanfjalls og norðan vestur um haf á allri víkingaöldinni. Á Jaðri og Rogalandi hafa einkum fundist margir peningar, er bera vitni um þetta. Þó verður að gæta þess, að hvergi er ræktað og rutt eins mikið land í Noregi sem á Jaðrinum, og er það hið sama sem þar hafi verið leitað best.[1]) En með því að siglingar voru allan þennan tíma svo miklar af vesturströnd Noregs til Vesturhafslandanna, má einnig ætla að þær hafi verið eigi hvað minstar þaðan til Íslands.

## III. Enn um ferðir Norðmanna til Íslands.

Auk þeirra norrænu siglingamanna, sem nú eru nefndir, er við ýms tækifæri getið einstakra Norðmanna hjer og hvar á Íslandi. Stundum má þó sjá að þeir hafa siglt með öðrum mönnum til Íslands, en optast er ekkert skýrt frá því, hvernig eða með hverjum þeir komu út. Sumir þeirra hafa auðvitað getað siglt þangað á sínum eigin skipum og stundum benda jafnvel nokkrar líkur á það.

Einstaka Norðmenn yfirgáfu einnig Noreg til þess að setjast að á Íslandi, og má nefna dæmi upp á það frá allri söguöldinni, en þó einkum frá fyrsta þriðjungi hennar. Það tók eigi fyrir allan útflutning alt í einu árið 930, þótt lok landnámsaldarinnar sjeu talin það ár, heldur minkaði hann smátt og smátt á síðasta hluta landnámsaldarinnar og fyrstu árum sögualdarinnar, þangað til útflutningi manna var lokið. Fólkið, þjóðernið var framan af hið sama í báðum löndum, og það var því ofur eðlilegt að einstaka menn flyttu sig búferlum úr einu landi í annað. Staðhættir og náttúra landsins setti fyrst síðar, hægt og hægt á meðan tímar liðu fram, þjóðareinkenni á hinn unga landslýð á Íslandi; en jafnvel eptir það, að þjóðareinkenni fóru að koma í ljós, bar það við að einstaka Norðmenn settust að á Íslandi.

Geiri austmaður, sem þegar er nefndur, hefur komið

[1]) A. W. Brögger, í Aarbøger f. nord. Oldkh. 1910 bls. 241 o. ef.

til Íslands eptir landnámstíð og bygði hann fyrstur Geirastaði við Mývatn.[1]) Þorvaldur Ásvaldsson fór með son sinn ungan, Eirík hinn rauða, af Jaðri fyrir víga sakir til Íslands og bygði bæ að Dröngum í Strandasýslu (um 950).[2]) Þorbjörn súr fór einnig með fjölskyldu sína til Íslands og keypti land í Haukadal við Dýrafjörð og bygði Sæból (um 955).[3]) Hjer um bil 24 árum síðar kom út Ari Súrsson, sonur Þorbjarnar, í Hvítá í Borgarfirði. Hann seldi skipið, segir sagan, en keypti sjer land á Mýrunum og búsetti sig þar.[4])

Óttar Þorvaldsson og Ávaldi Ingjaldsson fluttu til Íslands eins og fyr er sagt (um 965)[5]).

Allir þessir menn, nema ef til vill Geiri austmaður, fóru til Íslands sökum vígaferla til þess að forða sjer. Það var sama ástæðan sem áður hafði knúið marga til þess að leita þar friðar handa sjer og sínum.

En nú skal nefna ýmsa Norðmenn, sem getið er á Íslandi á söguöldinni.

Um 944 voru Austmenn á skipi með Þorsteini fagra í Reyðarfirði, er hann kom út, og segir sagan að hann hafi selt þeim skipið. Eptir öllum ástæðum að dæma er líklegt að þeir hafi átt mestan hlut í því, af því að árið áður varð hann að láta Einar Þórisson fá skip sitt, en að hann hafi átt hlut í því með þeim. Um veturinn eptir keypti hann sjer skip, sem uppi stóð norður á Melrakkasljettu, líklega í Raufarhöfn.[6]) Svo virðist sem hann hafi keypt skip það af Austmönnum, því sagan segir að þeir »vesuðuz illa«, er þurfti að bíða bræðra Þorsteins, ef byr kæmi á.[7])

Þá er Eyvindur Bjarnason kom út (um 950) voru auðsjáanlega útlendir menn, líklega norrænir menn, með honum á skipi, því þess er getið að skósveinn hans hafi verið íslenskur.[8])

---

[1]) Ldn. 20/233; Reyk. 17/87. [2]) Ldn. 14/103, 31/156. [3]) Gísl. 3—4/7—9. [4]) Gísl. 37/100. [5]) Sbr. að framan bls. 646. Í Gull-Þóris sögu, útgáfu Þorleifs Jónssonar (Rvík 1878) bls. 39—41, er sagt að Þrándur nokkur Hallbjarnarson hafi fyrir vígasakir stokkið úr Noregi og komið út í Dýrafirði og setst að á Íslandi; en það er ósannsögulegt og sagan um það tilbúningur frá síðari tímum, sbr. útg. dr. Kålunds af Gull-Þóris sögu bls. 57. [6]) Í Þorsteins sögu hvíta stendur Bolungarhöfn, en það er líklega rangt, sbr. Kålund, Island II, 188—190. [7]) Þorst. hv. 10—11. [8]) Hrafnk. 8/127—128.

Vestur í Önundarfirði er getið um tvo Austmenn, sem riðu með Vjesteini Vjesteinssyni frá skipi, þá er hann kom út (963) og hurfu aptur til skips, þá er Vjesteinn fekk boð um að vera kyr heima. Hann hafði þá farið langa kaupferð og skilið við Gísla Súrsson í Danmörku árið áður, eins og fyr er sagt, og farið til Englands; mun hann þá hafa ráðist í skip þangað ef til vill einn Íslendinga. Þar gerði hann upp skipti sín við fjelaga sinn, norrænan mann; því næst hefur hann að líkindum ráðist i norskt skip til Íslands; munu Norðmenn hafa átt það alt eða meiri hluta þess, og varla selt honum meira en hlut í því, er þeir fóru með honum til Íslands, en af því segir eigi neitt nánar í sögunni.[1])

Þorsteinn Upplendingur, sem nefndur er i Skaptafellsþingi og tók Þórunni brún og flutti utan, mun að öllum líkindum hafa verið af Upplöndunum i Noregi. Á Íslandi hefur hann verið um miðja 10. öld.[2])

Austmanna er líka getið við og við i vist hjá íslenskum höfðingjum og bændum, eða á ferð með þeim við ýms tækifæri, er þeir þurftu manna við.

Hallvarður, Austmaður, var með Þorsteini Ingimundarsyni, er hann fór að Þórólfi sleggju; banaði hann bæði sjer og Austmanninum (um 940—950).[3])

Þorgrimur, Austmaður, var i stefnuför með Berki hinum digra, og skaut spjóti i Þórð hinn huglausa og í Gísla Súrsson, en Gisli sendi það aptur í gegnum Þorgrim (um 965).[4])

Með Þorsteini Egilssyni var Austmaður einn og barðist hann með honum (um 978).[5])

Tveir Austmenn voru á vist að Þverá i Eyjafirði og fekk Vigfús Víga-Glúmsson þá til að riða með sjer, er hann fór að Bárði hinum hvíta (um 981).[6])

Eyvindur austmaður var á vist með Þórði Hrafnssyni að Stokkahlöðum og fjell hann i bardaganum á Hrisateigi (983 eða litlu síðar).[7])

Auðólfur, Austmaður, var á vist með Otkatli Hallkelssyni, eða eins og segir i Njálu Otkatli Skarfssyni Hallkelssonar og fjell með honum við Rangá (um 985).[8])

---

[1]) Gisl. 11—12/25—26. [2]) Ldn. 11/269. [3]) Ldn. 4/181; Vatn. 28/44—45. [4]) Gísl. 19/49—52 [5]) Eg. 84/311. [6]) Glúm. 19/54—55. [7]) Glúm. 22/65, 23/69. [8]) Nj. 52/236, 54/247; Ldn. 12/315.

Kollur austmaður reið með Brodd-Helga Þorgilssyni til alþingis, er hann var veginn (um 986); mun hann hafa verið með honum undanfarandi vetur.[1])

Tveir Austmenn, Þórir og Þorgrímur, voru á vist með Agli Kolssyni í Sandgili, þá er hann sat fyrir Gunnari á Hlíðarenda hjá Knafahólum (um 986). Þar fjell Þórir og var hann þá í þingum við Guðrúnu náttsól Egilsdóttur. Hennar fekk síðan Þorgrímur fjelagi hans og fór hann þá eigi utan, en fjell að Hlíðarenda (um 990). Báðir þessir Austmenn voru sagðir frumferlar út hingað um 986.[2])

Tveir Austmenn voru á vist með Helga Ásbjarnarsyni; hjet annar Sigurður skarfur en hinn Önundur. Þeir fóru með Helga Ásbjarnarsyni, er hann sat fyrir Helga Droplaugarsyni í Eyvindardal (um 998). Þar fjell Önundur, en Sigurður varð sár.[3])

Annar Austmaður fjell í bardaga þessum og var hann í liði Helga Droplaugarsonar.[4])

Austmaður var hjá Ljóti hinum spaka á Ingjaldssandi, og kom hann út í Vaðli (um 1000).[5])

Austmaður var í Krossavík hjá Þorkeli Geitissyni (um 1005) og voru þá víðar Austmenn í Múlasýslum.[6])

Austmaður var með Þórði Kolbeinssyni og í fyrirsát fyrir Birni Hitdælakappa (um 1023).[7])

Hæringur, Austmaður, var á skipi, sem kom út í Göngu-skarðsósi. Hann fór til vistar með Þorbirni öngli og með honum út í Drangey, og ljet þar líf sitt (um 1030).[8])

Á alþingi 999 er einnig getið eins norræns manns;[9]) komu þeir eigi sjaldan til alþingis eins og ýms vitni eru um.

Líklega hafa sumir af Austmönnum þessum siglt á sínum eigin skipum til Íslands, og verið stýrimenn, þótt þess sje eigi getið; en flestir þeirra hafa þó eflaust verið hásetar á norrænum eða íslenskum skipum. Eins og Íslendingar tóku sjer far eða rjeðust í skip með norrænum mönnum, eins gerðu Norðmenn hjá Íslendingum. Eitt dæmi upp á það er Geirmundur gnýr, ríkur bóndi og víkingur á Hörðalandi. Hann fekk sjer far hjá Ólafi pá til Íslands, og var með hon-

[1]) Vápn. 13/53. [2]) Ldn. 5/290; Nj. 58/261, 61/281, 63/291—292, 77/359—360. [3]) Dropl. 9/159, 10/162, 11/164. [4]) Dropl. 10/163. [5]) Ldn. 28/145—146. [6]) Dropl. 13/169. [7]) Bjarn. 26/53. [8]) Grett. 76/266—268. [9]) Fms. II, 211.

um þrjá vetur í Hjarðarholti og giptist Þuríði dóttur hans. Síðan fýstist hann utan, og gaf Ólafur honum þá kaupskipið til fararinnar (um 980—985)[1]. En Norðmenn rjeðust eigi eins opt í skip hjá Íslendingum eins og Íslendingar hjá þeim, af því að þeir áttu miklu meiri skipakost og þurftu því sjaldnar á því að halda en Íslendingar. Norðmenn fóru eigi heldur svo opt til Íslands sem Íslendingar til Noregs; þeir fóru kaupferðir til ýmsra annara landa, bæði suður og austur á bóginn, en þó einkum vestur um haf til Englands, Skotlands og Írlands. Íslendingar hinsvegar leituðu mest til Noregs, og eptir því sem siglingar þeirra suður um haf, beina leið til Vesturhafslanda, minkuðu, því optar að tiltölu fóru þeir til Noregs. Norðmenn áttu á þessum öldum nógan skipastól, en ef norskur maður vildi fara í siglingar og hann átti eigi skip sjálfur, rjeðist hann, að því er virðist, í skip með Íslendingum, ef hann hitti þau fyrir, rjett eins og í skip með Norðmönnum. Fyrir því fóru Norðmenn bæði á íslenskum og norskum skipum til Íslands, rjett eptir því sem verkast vildi, og líkt var um ferðir þeirra til Grænlands. Þannig er getið tveggja Austmanna á skipi þeirra Þorgríms trölla og Þórarins ofsa. Hjet annar þeirra Már, og kom hann fyrst sári á Þorgeir Hávarsson, en hinn Þórir, og lagði hann spjóti í gegnum Þorgeir, en hann varð þó banamaður þeirra beggja.[2])

Íslendingar og Norðmenn gerðu einnig stundum fjelag með sjer á kaupferðum sínum, eins og fyr er sagt, og það virðist hafa verið eins algengt á milli þeirra, eins og innbyrðis á milli Norðmanna sjálfra, ef frá er talið fjelag milli bræðra eða nánustu frænda. En þó verður að gæta að því, að sögurnar eru tæplega eins fræðandi um þetta atriði að því er Norðmenn snertir eins og um Íslendinga.

Hjer að framan hafa verið nefnd ýms dæmi upp á fjelagsskap milli Norðmanna og Íslendinga, og enn má geta þess, að Ólafur konungur Haraldsson gerði fjelag bæði við norska kaupmenn og íslenska.[3]) Þá er hann vildi láta flytja Hrærek konung Dagsson (eða Hringsson) til Grænlands eða Íslands, fekk hann Þórarin Nefjólfsson til þess (1019).[4])

[1]) Lax. 29—30/98—101. [2]) Fóst. 17/56. [3]) Hkr. I, 7, II, 66/98; Ól. s. s. 50; Fms. IV, 124; Flat. II, 55. [4]) Ól. s. m. 18; Hkr. II, 85/158—160; Ól. s. s. 74—76; Fms. IV, 175—177; Flat. II, 90, 118; sbr. að framan bls. 626.

Eins af hirðmönnum Ólafs konungs er þó getið um þetta leyti eða ári síðar á kaupstefnu í Steingrímsfirði í Strandasýslu; mun hann eflaust hafa verið þar í kaupskaparerindum, en hvort hann var þar í erindum eingöngu fyrir sjálfan sig eða fyrir konung líka, er ókunnugt. Hirðmaður þessi hjet Oddur eptir því, sem segir í vísu einni eptir Þormóð kolbrúnarskáld, en í einu handritinu af Fóstbræðra sögu (Hauksbók) er hann nefndur fyrst Þorfinnur og síðan Bergfinnur, og getur það eigi verið rjett; í hinum handritunum (A. M. 132 fol. og Flateyjarbók) er hann eigi nafngreindur. Oddur varð missáttur við Þóri bónda á Hrófá, ódælan mann, og særði hann hirðmanninn miklu sári (um 1020). Konungur ljet hefna hans.[1])

Menn af göfgum ættum tóku þátt í kaupskap. Hver búandi maður varð auðvitað að sjá fyrir sjer og fjölskyldu sinni, en menn gátu þá eigi eins og nú á dögum fengið það auðveldlega keypt, sem þeir þurftu á að halda og máttu varla án vera. Menn urðu því annaðhvort að rækta og framleiða það, sem með þurfti, eða fara í langar kaupferðir til þess að kaupa nauðsynjar sínar. Því fleiri sem heimamenn voru, því stærra sem heimilið var, því meira þurfti að afla til þess. Engir þurftu meiri aðdrátta við en hinir stærstu höfðingjar, þar á meðal konungarnir. Fyrir því sendu þeir menn sína í kaupferðir og gerðu fjelag við ýmsa kaupmenn. Noregskonungar höfðu því opt allmikil áhrif á siglingar og samgöngur milli Íslands og Noregs og annara landa, eigi að eins hvað lagaboð og ýmsar fyrirskipanir snerti, heldur og beinlínis sem hluttakendur í kaupferðunum og á ýmsan annan hátt. Áhrif þeirra voru opt víðtækari en annara manna, eins og vald þeirra var meira. Ólafur Tryggvason gerði tvisvar sinnum út skip til þess að boða kristni á Íslandi, og sökum áhuga hans á því máli var Ísland kristnað. Eins og ein saga hans segir, vildi hann »leiða guði til handa þann lýð, er Ísland byggir eða önnur Norðurlönd, þau sem hingað liggja undir vort ríki til kaupferða og aðflutninga þeirra gæða, sem vjer megum eigi missa, en þau lönd megu hálfu síður þarfnast þeirra hluta sumra, er hjeðan flytjast«.[2]) Þá er

[1]) Fóst. 13/43—45, 3/67—68; Hksb. 374—375; Flat. II, 157—158.
[2]) Fms. I, 284.

Gissur hvíti og Hjalti Skeggjason fóru til að boða kristni á Íslandi, fekk Ólafur konungur þeim prestinn Þormóð og fleiri vígða kennimenn til aðstoðar við kristniboðið. Segir Kristni saga að þeir hafi verið sjö menn skrýddir.[1]) Ólafur Tryggvason var einnig svo glæsilegur maður, að hann laðaði Íslendinga að sjer sem marga aðra, er kyntust honum.

## IV. Útlendingar á Íslandi af öðrum löndum en Noregi.

Eins og Íslendingar fóru til ýmsra annara landa en Noregs, þannig komu og útlendir menn til Íslands frá fleiri löndum en Noregi; þó voru þeir eigi svo opt á ferðinni sem Íslendingar. Langflestir þeirra komu vestan um haf, úr hinum norrænu og hálfnorrænu bygðum og eyjum, hinum sömu stöðvum sem fjöldi landnámsmanna hafði komið frá. Sýnir það meðal annars að siglingar hafa haldist við eptir landnám beina leið milli Vesturhafslanda og Íslands.

Flestir komu frá Suðureyjum, enda virðist og útflutningur þaðan hafa verið mestur vestan um haf á landnámsöldinni. Þaðan er og sagt að Kotkell og Gríma væru, er komu út með tveimur sonum sínum, Hallbirni slikisteinsauga og Stíganda, einhvern tíma um eða rjett eptir 980, og settust að á Íslandi við Breiðafjörð;[2]) er nokkur saga af illverkum þeirra í Laxdælu.

Um sama leyti eða litlu fyr (um 978) kom maður einn, er Svartur hjet, skipi sinu á Minþakseyri og braut það. Hann var suðureyskur að ætterni, og er eigi ólíklegt að hann hafi komið úr Suðureyjum, eins og segir í sumum hinum yngri handritum af Landnámu. Hann gerðist flugumaður á Íslandi og ljet þar líf sitt. Af skipverjum hans segir ekkert.[3])

Suðureyingar voru stundum í fjelagi með Norðmönnum, og einnig er þeirra getið með Íslendingum. 980 kom út skip í Salteyrarós við Breiðafjörð og áttu suðureyskir menn það hálft, eins og fyr er sagt. Álfgeir stýrimaður þeirra fór til vistar í Máfahlið og með honum fjelagi hans, er Nagli hjet. Hann var skotskur að kyni.[4])

Á skipi Herjólfs Bárðarsonar var suðureyskur maður

---

[1]) Íslb. 10; Hkr. I, 95/427; Bps. I, 11/21. [2]) Lax. 35/117.
[3]) Vatn. 40/63—65; Ldn. 4/182. [4]) Eyrb. 18/21, 18/23—24; Ldn. 9/89.

kristinn, er hann fór til Grænlands (litlu eptir 986), og orti hann Hafgerðingadrápu.[1])

Sumarið 1000 kom skip af hafi út við Rif á Snæfellsnesi. Það var Dyflinnarfar, og voru á því írskir menn og Suðureyskir, en fáir norrænir menn. Þar var á ein kona suðureysk, er Þórgunna hjet. Hún hafði út fágæta gripi og góðan búning með sjer og fór hún til vistar með Þuríði að Fróðá. Hún gekk þar að vinnu, því hún vildi eigi gefa með sjer, og er svo að sjá sem hún hafi ætlað að vera á Íslandi; en hún andaðist nokkru síðar. Skip þetta lá lengi við Rif um sumarið og beið þar byrjar að sigla inn eptir firði til Dögurðarness; áttu margir menn af Snæfellsnesinu kaup við skipverja á meðan.[2])

Frá Írlandi er eigi getið um aðra kaupmenn á Íslandi á söguöldinni en þessa, en verslunarviðskipti voru þó nokkur á milli landanna, eins og fyr er sagt. Írskur þræll einn er nefndur á Íslandi og flutti Hallbjörn hinn hvíti, bróðir Otkels í Kirkjubæ, hann út með sjer (um 982);[3]) en óvíst er hvar hann hefur keypt hann, og er nærri ólíklegt að það hafi verið á Írlandi (sbr. kaup Melkorku). Þræll þessi var Melkólfur, sem kunnur er af Njálu.

Frá Orkneyjum og Hjaltlandi er eigi getið margra manna á Íslandi, en Íslendingar komu þangað opt á ferðum sínum; heimsóttu þeir einkum jarlana í Orkneyjum og gerðust hirðmenn þeirra, er þeir áttu þess kosti.

Um 937 var hjaltneskur maður með skip sitt á Íslandi. Hann hafði komið út norðanlands og stóð skipið uppi í Blönduósi; en af honum segir eigi meira, nema að hann seldi Höskuldi Dala-Kollssyni skipið.[4]) Frá Orkneyjum kom Kári Sölmundarson til Íslands, er hann búsetti sig þar (um 994). Þaðan var Kolbeinn svarti, »orkneyskur maður og aldavin Kára«. Mun hann hafa komið til Íslands 1012, og var hann á Eyrum með skip sitt árið eptir, þá er Kári tók sjer far með honum.[5]) Naut Kári hjálpar hans og fleiri Orkneyinga á utanferð sinni og einnig Skeggja bónda í Þrasvík á Katanesi. Hann fekk Kára skip og menn til Íslandsferðar (líkl. 1016) eins og fyr er sagt. En það segir sig sjálft að

[1]) Ldn. 14/106. [2]) Eyrb. 50/92—93. [3]) Nj. 47/204. [4]) Lax. 11/25. [5]) Nj. 152/872.

Orkneyingar og Hjaltlendingar hafa komið optar til Íslands, en frá finst sagt.

Líklega hafa einhverjir Færeyingar komið til Íslands á söguöldinni, en ekki hefur það verið opt, því að þess er aldrei getið, og þeir höfðu engar vörur á boðstólum, sem Ísland átti eigi sjálft. Þeir gátu eigi heldur sótt nauðsynjar sínar til Íslands, því að það vantaði hinar sömu vörutegundir sem Færeyjar vanhagaði um. Færeyingar urðu því að leita til Noregs eða hinna sömu landa sem Íslendingar með vörur sínar. En á landnámsöldinni munu einstaka menn hafa komið frá Færeyjum til Íslands, svo sem sumir af niðjum Gríms kambans. Og eitt sinn er nokkrir Færeyingar, Sigurður Þorláksson og fleiri frændur Þrándar í Götu, voru gerðir burt úr eyjunum, var sagt að þeir hefðu haldið til Íslands (1027 eða 1028). Þrándur hafði fengið þeim skip, og þeir látið í haf, en snúið aptur og leynst síðan i eyjunum um veturinn.[1]) Hefði þetta varla verið sagt, ef aldrei hefðu menn farið úr Færeyjum til Íslands. Að nokkrar siglingar hafa verið á milli Islands og Færeyja má sjá af því, að Íslendingum var kunnugt um þau tíðindi, sem gerðust þar, og að þeir rituðu sögu Færeyinga; en samgöngur þessar voru einkum fólgnar í því, að bæði Islendingar og Norðmenn komu stundum við í Færeyjum á leiðinni milli Íslands og Noregs; einstaka sinnum rákust þeir á Færeyjar þvert á móti vilja sínum, og fengu við ekkert ráðið, enda var það alt annað en gaman í illviðri og myrkri.[2]) Norðmenn fóru kaupferðir til Færeyja eins og til Íslands, og Færeyjar virðast hafa verið stundum sem áfangastaður á leið Íslendinga til útlanda; á það minna ef til vill nokkrar rústir, hinar svo nefndu Íslendingabúðir eða Íslendingatoftir, á nokkrum stöðum í Norðureyjunum í Færeyjum.[3]) Má vera að Íslendingar hafi bygt þær til þess að eiga þar hæli, eins og sáluhúsin innanlands; má vera að þær sjeu frá síðari tímum, en hjer ræðir um? Einstaka Íslendingar fluttu sig búferlum eða flýðu til Færeyja eins og Droplaug Þorgrímsdóttir.

Þeir menn, sem komu vestan um haf frá Skotlandi og Skotlandseyjum og Írlandi til Íslands, hafa að líkindum flestir verið norrænir að uppruna, niðjar þeirra Norðmanna,

[1]) Færeyinga s. 48/224; Flat. II, 249. [2]) Sbr. Lax. 51/197.
[3]) Sbr. V. U. Hammershaimb, Færøsk Anthologi, bls. XI; Ldn. 16/110; Lax. 4/8; Árna s., Bps. I, 708.

sem höfðu farið vestur um haf og sest þar að. Landslýður á Hjaltlandi og í Orkneyjum var mestmegnis ættaður frá Noregi og mátti því norrænn heita. Í Suðureyjum voru landsmenn sumir keltneskir að kyni en sumir norrænir, og sumir kynblendingar af þessum þjóðum. Á Írlandi voru norskar nýlendur og þar hafa einnig verið einstaka menn danskir eða sænskir að kyni; norrænir menn blönduðu þar og blóði við Íra. En þótt flestir þeirra manna, sem fóru kaupferðir vestan um haf til Íslands, væru norrænir, má þó telja víst, að sumir þeirra hafi verið keltneskir að kyni, einkum skotskir eða írskir, að minsta kosti í aðra ættina, enda er það sagt um suma þeirra. Það er þó mjög erfitt að segja um þetta með vissu, því að heimildirnar eru svo litlar og ófullkomnar. Það er sjaldan skýrt frá því hvað menn þessir hafi heitið, nema þeir menn, sem hjer hafa verið nafngreindir og eigi eru margir; en auk þess eru nöfnin í heimildarritum vorum svo breytt eða afbökuð, að þau gefa tæplega neina áreiðanlega upplýsingu um þjóðerni manna, þá er komið er langt fram um landnámsöld og nöfnin hafa gengið í nokkra ættliði meðal niðja þeirra, sem hafa blandað þjóðerni. Um Nagla er t. a. m. sagt, að hann hafi verið skotskur að kyni, en af nafninu er eigi hægt að fá áreiðanlega vissu um það. Það er norrænt, og það er einnig í öðrum skyldum málum.

Þeir kennimenn, prestar og biskupar, sem komu til Íslands á kristniboðsárunum og í fyrstu kristni, voru eigi norrænir, þótt flestir þeirra kæmu frá Noregi eða væru sendir þaðan. Noregur fekk mest kristni og kennimenn frá Englandi, og er því líklegt að Þormóður prestur og flestir þeir kennimenn, sem Olafur konungur Tryggvason sendi til Íslands með þeim Gissuri og Hjalta, hafi verið komnir af Englandi; þó er alllíklegt að danskt blóð eða norrænt hafi runnið í æðum þeirra, meira eða minna, því að mjög margir Danir og margir aðrir menn af Norðurlöndum höfðu sest þar að og blandað blóði við landsmenn. Af ætt og þjóðerni Þormóðs prests er þó ekkert sagt, og ekkert kunnugt með vissu.[1])

---

[1]) A. Taranger, Den angelsaksiske kirkes indflydelse paa den norske. Kristjania 1890, bls. 147, 160—161, 164, ætlar að Þormóður hafi verið enskur. Konrad Maurer mótmælir því í Norsk hist. Tidsskr. 3. R. III, 6.

Aptur á móti er í Hungurvöku sagt um Bjarnharð eða Bjarnvarð biskup hinn bókvísa að hann væri af Englandi að sumra sögn, og hefði fylgt Ólafi konungi Haraldssyni þaðan. Hann fór til Íslands að ráði konungs og var þar að sögn Ara fróða fimm ár, til þess að efla kristnina og gegna biskupsstörfum (um 1017—1022).[1])

Fáum árum síðar, líklega um 1026—1030, kom út Kolur biskup og var fá ár á Íslandi, áður en hann andaðist; sagt er að hann hafi verið í Haukadal með Halli, og er því líklegt að hann hafi farið til Íslands að undirlagi Ólafs konungs, vinar Halls Þórarinssonar. Í Hungurvöku segir að hann hafi komið út um daga Ísleifs biskups, og er þar átt við æfidaga Ísleifs en eigi biskupstíð hans, eins og sjá má af því, að síðar er sagt hið sama um alla útlendu biskupana, nema Friðrik biskup. Kolur biskup var grafinn í Skálholti, og bendir það á að hann hafi verið til heimilis í Haukadal eða eigi mjög langt burtu frá Skálholti.[2]) Af ætterni hans greinir ekkert.

Ísland var kristnað að tillhlutun þess manns, sem hafði látið skírast og numið kristin fræði á Englandi, og með aðstoð kennimanna, sem hann hafði fengið þaðan. Það er því ljóst, að engilsaxneska eða enska kirkjan hefur haft nokkur áhrif á kristindóminn og kirkjuna á Íslandi. En kristnin barst þó víðar að til Íslands en frá Noregi og Englandi. Friðrik biskup, sem kom út 981 og boðaði kristni með Þorvaldi víðförla í fimm ár, var af Saxlandi.[3]) Þangbrandur prestur var einnig þýskur að ætt og uppruna, sonur Vilbalds greifa af Brimum. Hann gerðist á Englandi maður Ólafs Tryggvasonar og hirðprestur hans; fjekk konungur honum síðar menn og skip, er Visundur hjet, og sendi hann til Íslands að boða þar kristni. Vann hann að því í tvö ár (997—999) og fór þá aptur til Noregs.[4])

---

[1]) Íslb. 8/12; Hungr., Bps. I, 64—65; Skarðsárbók, Ísl. I, 331—332; sbr. Munch, Hist. II, 695, III, 211; K. Maurer, Die Bekehrung I, 593—595, II, 581—582. [2]) Íslb. 8/12; Hungr., Bps. I, 63—64; Ísl. I, 331—332, sbr. Munch, Hist. III, 186, 211; Maurer, Die Bekehrung II, 582—583. Þar sem í Glúm. 28/87 er sagt, að Kolur biskup hafi biskupað Glúm Eyjólfsson í banasótt hans 1003, þá er það rangt. [3]) Krist., Bps. I, 3; Þorv. þ., Bps. I, 38; Vatns. 46/76; Ldn. 4/183; Ann. I, II, IV, V; sbr. Ísl. sögu mína II, 319—331. [4]) Íslb. 7/9, 9/14; Krist. Bps. I,

Suðurmaður einn, þ. e. Þjóðverji, er nefndur með Leifi hinum hepna í Vínlandsferð hans og sagt hann hjeti Tyrkir; sagan segir að hann hafi lengi verið með þeim feðgum Eiríki rauða og Leifi; mætti því ætla að hann hafi farið með þeim feðgum frá Íslandi. Hann á að hafa fundið fyrstur vínvið og vínber á Vínlandi. En frásaga sú er að ýmsu leyti áreiðanlega röng og öll heldur tortryggileg, enda má vera að hún sje uppspuni. Hún er í Grænlendinga þætti, sem er eigi eldri en frá aldamótunum 1300 eða byrjun 14. aldar.[1])

Frá Svíþjóð er eigi getið margra manna á Íslandi, en allmikil verslunarviðskipti voru milli Víkverja annars vegar og Gauta og Svía hins vegar, og tíðar ferðir þar á milli. Fyrir daga Ólafs konungs hins digra höfðu Víkverjar átt svo mikið saman við Dani og Svía að sælda, að þeir stóðu þeim eigi fjær en Norðmönnum vestanfjalls eða norðan. Norðmenn voru eigi runnir saman í eina þjóð eða heild, þá er Ólafur Haraldsson kom til ríkis. Víkverjar og Upplendingar voru heild fyrir sig, og munu enn hafa skoðað sig eins skylda Dönum eða Svíum sem Vestlendingum.[2]) En er sænskir kaupmenn komu til Víkurinnar eða fóru vestur um haf, lá eigi mjög fjarri fyrir þá að bregða sjer einnig til Íslands. Þar er líka getið um tvo sænska kaupmenn seint á söguöldinni. Annar þeirra var Þorsteinn Ragnhildarson eða Rígarðsson, en hinn Tófi Valgautsson. Þorsteinn var farmaður og fór víða, segir sagan; hann á að hafa kynst Þórarni Nefjólfssyni einn vetur með Knúti hinum ríka og mæltu þeir til vináttu með sjer. Nokkru síðar kom Þorsteinn skipi sínu í Eyjafjörð og var um veturinn hjá Þórarni. Fóru þeir síðan báðir utan á fund Ólafs Haraldssonar. Þáttur þessi er æfintýri, en Þorsteins Ragnhildarsonar er getið með Ólafi Haraldssyni 1028—1029, og má satt vera að hann hafi farið kaupferð til Íslands nokkru áður.[3])

Tófi Valgautsson kaupmaður var ættstór maður eða jarlsson af Gautlandi. Sagan segir að hann væri lengi í kaup-

11. 16; Ágr. 16/393; Hkr. I, 73/388—389, 84/407—408; Theodric 15, 19—21; Nj. 100—104/526—545; Lax. 41/153—154; sjá ennfr. Ísl. sögu mína II, 352—362. [1]) Grænl. þ. 56, 58—60, sbr G. Storm, Aarb. f. nord. Oldkh. 1887, bls. 312. [2]) Sbr. A. Bugge, Norges Historie, I, 2, 340. [3]) Fms. V, 314—320, 25; Flat. II, 315.

ferðum og kæmi skipi sínu eitt sumar í Hornafjörð og færi til vistar til Hofs, en þar bjó Egill Síðu-Hallsson (1024). Vorið eptir fór Tófi til Noregs og Egill með honum; fengu þeir hirðvist hjá Ólafi Haraldssyni. Árið eptir fóru þeir í leiðangur með konungi til Danmerkur. Þeir leystu þá eitt sinn hertekið fólk og urðu fyrir reiði konungs; kom Tófi sjer þá aptur í sætt við konung með því að koma föður sínum á fund hans. Var Valgautur þá skírður.[1])

Í Svíþjóð hjelst heiðni og forn átrúnaður töluvert lengur en í Danmörku eða Noregi, eða öðrum nágrannalöndum Íslands. Það er líka eins og forneskju andi þaðan í sögunum um það leyti sem kristniboðar og hinir fyrstu biskupar komu til landsins frá öðrum löndum. Skjöldur, hinn sænski maður, sem út kom með Sigmundi Lambasyni (um 978) var sagður illur viðureignar; ljet hann líf sitt árið eptir fyrir Njálssonum.[2]) En út yfir alt tekur þó Glámur, ef hjer má minnast á þá menn, sem getið er um í þjóðsögum þeim, sem fljettaðar eru inn í Íslendinga sögur. Hann var ættaður úr Svíþjóð, úr Sylgsdölum, segir sagan, og á að hafa komið út um 1012.[3]) Hann var bæði mikill og sterkur, skapstyggur og undarlegur í yfirbragði, dimmraddaður og hljóðmikill. Eptir dauðann, segir þjóðsagan, að hann gerðist hin versta apturganga, eins og kunnugt er af Grettlu. Bendir þetta og fleira í sögunum á, að Íslendingar á 13. og 14. öld hafa talið Svía fjölkunnuga í meira lagi, þótt Finnar þættu samt enn rammari.

Danskra kaupmanna er eigi getið á Íslandi á söguöldinni. Sjóleiðir Dana lágu sunnar en Ísland, en þó má vera að einhverjir þeirra hafi einhvern tíma komið til Íslands, þótt sögurnar greini eigi sjerstaklega frá því.

## V. Kaupskip, stýrimenn og útlendingar á Íslandi, sem eigi er sagt um hverrar þjóðar voru, og fleira, sem ber vitni um siglingu til Íslands.

Auk alls þess, sem þegar hefur verið sagt af utanferðum Íslendinga og af siglingum erlendra manna til Íslands, eru enn

---

[1]) Ól. s. m. 38—41; Ol. s. s. 168—169; Hkr. II, 155/374—375; Flat. II, 142—148, 315; Fms. V, 321—329. [2]) Nj. 41/169—170, 45/194—196, [3]) Grett. 32/122, sbr. Þorl. þ. 122, Svíþjóð hin kalda.

ýms skírteini í fornritunum, sem bera vitni um skipaferðir milli landa á söguöldinni. En skírteini þessi eru opt mjög lítil og stutt, svo að lítið verður af þeim ráðið annað en það, að skip hafi gengið milli Íslands og annara landa, einkum Noregs. Þessar upplýsingar eru að sínu leyti eins og þær, sem geta um Islendinga einhvers staðar erlendis eða að einhver Íslendingur hafi farið utan, án þess þó að sagt sje neitt meir af því. Stundum er þess getið í sambandi við ýmsa atburði, einungis af hreinni og beinni tilviljun, að skip hafi búist til Íslands, eða komið út, eða staðið uppi eða verið í höfn einhvers staðar á Íslandi, t. a. m. af því að Noregskonungur sendi orð til Íslendinga, eða af því að einhver merk tíðindi, mannalát eða eitthvað annað, sem kom við söguna, barst milli landa[1]). Opt er sagt frá þessu í almennum orðum, svo sem »skip komu af Noregi til Íslands« (um 932), eins og þá, er Egill spurði andlát Bjarnar hölds[2]). Hjer sjest eigi hvort skipin voru íslensk eða norsk; ekkert um það sagt og eigi heldur á það litið, því að það kom eigi sögunni við. Líkt er að orði komist í Glúmu, er andlát Vigfúss hersis spurðist til Íslands »um sumarið er skip komu út« (um 960)[3]); í Bjarnar sögu Hitdælakappa: »komu skip út og vissu þeir eigi til Bjarnar að segja«, og í Noregi »sigldi skip af hafi... þeir voru af Íslandi komnir...sögðu gjaforð Oddnýjar«[4]); í Ljósvetninga sögu um 1024, »en er skip gengu milli landa«, frjetti Ólafur konungur fall Þorgeirs Hávarssonar, og víðar[5]). Stundum er sagt í hvaða höfn skip eða kaupmenn hafi komið,[6]) þótt eigi sje sagt hverjir það hafi verið. Í sambandi við þessi óákveðnu skírteini má geta hjer um eina málsgrein í Hrafnkels sögu Freysgoða, þar sem segir: »Í þenna tíma komu sem mest skip af Noregi til Íslands; námu menn þá sem mest land í heraðinu um Hrafnkels daga«[7]). Þetta á að hafa verið um 945, en það er rangt. Þá var flutningi landnáms-

[1]) Hkr. II, 60/87; Ól. s. s. 46; Fms. IV, 115; Flat. II, 50; sbr. Ól. s. m. 29, er segir andstætt hinum sögunum að Ólafur konungur hafi þá sent skip til Íslands, en líklega hefur hann eigi þurft þess (1017); Bjarn. 10/24 (um 1019); Ljósv. 32/254 (um 1025); sbr, enn fremur tilvitnanirnar í fimm næstu athugasemdum. [2]) Eg. 56/184. [3]) Glúm. 9/27. [4]) Bjarn. 5/11, sbr. Grett. 37/140 »um vorið eptir kom skip út af Noregi« (um 1016). [5]) Ljós. 32/253. [6]) Bjarn. 5/11 (um 1009); Grett. 46/164 (um 1017). [7]) Hrafnk. 7/126.

manna frá Noregi til Íslands og landnámum lokið; og allra síst á þetta við á Austurlandi, eða á Fljótsdalshjeraði, sem hjer ræðir um, því að Austfirðinga fjórðungur varð fyrst albygður af öllum fjórðungum landsins eptir því, sem segir í Landnámu, og mun það vera rjett[1]. En eptir landnám og um þetta leyti fjölgaði fólkinu mikið á Íslandi og einstaka menn fluttu til landsins. Þá er börn landnámsmanna komust upp, voru reistir margir nýir bæir, og landnámin skiptust í sundur í margar jarðir; má vera að það sje ástæðan til þess, sem hjer er sagt í Hrafnkels sögu.

Kaupskip eru opt nefnd í sambandi við ýmsa viðburði og atvik, án þess að nokkuð sje greint af því, hver þau hafi átt. Í sögustöðum þeim, sem hjer hafa verið taldir í tilvitnunum, er getið um eigi minna en 30 skip á ýmsum höfnum, annaðhvort komandi eða farandi, eða á landi, þar sem þau stóðu uppi, en ekkert er sagt af þeim meira; þeirra er getið af því að einhver maður tók sjer far með þeim eða kom út á þeim. En auk þessara skipa eru enn nokkur, sem eigi hefur verið skýrt frá, af því að eigi þykir hlýða að telja þau undir neinn flokk hjer að framan. Nokkur þeirra eru nefnd sökum manna þeirra, sem komu út með þeim; en þjóðerni þeirra er svo óvíst og sagan af þeim svo óljós, tortryggileg eða ósannsöguleg, að eigi hefur verið hægt að skipa þeim meðal Norðmanna eða Íslendinga, þá er um þá eina er að ræða. Þessi skip skulu nú talin.

Eitt sumar kom skip í Hrútafjörðinn, segir Vatnsdæla; þar voru á systur tvær, Þórey og Gróa (um 950). Þær fóru til vistar til Hofs, en eitthvað var dularfult við þær: á Gróa að hafa verið fjölkunnug og heillað hug Þorsteins Ingimundarsonar. Þær settust þar að í dalnum; segir sagan, að Gróa hleypti skriðu á bæ sinn og fyrirfæri svo bæði sjer og öllum, er inni voru, en að Hofsbræður rækju þá Þóreyju systur hennar burt úr sveitinni[2]. Annað skip kom út um 982, nyrðra að því er virðist, og segir sagan, að þar væru á berserkir tveir og hjet Haukur hvortveggi[3]. »Skip kom af hafi« (einhvern tíma á árunum 986—990); var þar á Þorleifur son Þorgils örrabeinsstjúps og hafði góða gripi að

---

[1]) Ldn. 1/237, 1/276; Hksb. 86, 294/103. [2]) Vatn. 36/58—59; Ldn. 181. [3]) Vatn 46/76, sbr. Bps. I, 5—6 (Krist), 41 (Þorv. þ.).

færa föður sínum, segir sagan[1]). Um miðsumarskeið (1013 eða þar í kring) »kom út skip í Húnavatni; þar var á sá maður, er Þorgautur hjet. Hann var útlendur að kyni, mikill og sterkur«. Hann gerðist sauðamaður á Þórhallsstöðum í Forsæludal.[2])

Nokkur skip eru nefnd af því að kaup gerðust við þau, sem urðu söguleg, svo sem á Gásum í Eyjafirði (um 965)[3]), í Hvítá í Borgarfirði (um 980)[4]), á Eyrum (um 1008); þar er sagt að væru þrjú skip og eitt þeirra lekt og ófært á sjó. Það keypti Þorsteinn Gíslason til þess að höggva upp og vildi nota viðinn úr því í bú sitt; en á meðan menn hans og nágrannar voru að flytja hann heim, fór Snorri goði að honum og drap hann[5]).

Um 960 tók Helgi trausti Ólafsson sjer far í Einarshöfn, og hefur því skip verið þar þá, en hann var veginn áður en hann færi.[6])

Um 965 var skip í Raufarhöfn og átti að koma Hánef í Öþveginstungu þar utan[7]). Þá er og getið um skip og kaupmenn í Hvítá um 986, af því að sagt er, að Hólmverjar hafi ráðgert að fara á því utan,[8]) og annað á Vesturlandi um 1022, af því að tveir skógarmenn ætluðu með því.[9])

Skip í Einarshöfn (um 932) er nefnt af því að Hrafn Þorviðarson reið til þess, en var veginn á heimleiðinni;[10]) við Knarreyri (um 975), af því að Víga-Skúta vá þar mann í hefnd föður sins;[11]) í Hrútafirði (1006 eða 1007), af því að Bolli Þorleiksson hafði sent þangað nokkra heimamenn sina, þá er hann var veginn;[12]) í Blönduós (um 1014), af því að Einar stýrimaður misti þar hest og varð af mál.[13])

En hver átti öll þessi skip? Voru þau íslensk eða norsk eða eign manna frá öðrum löndum? Úr þessu er eigi hægt að leysa með nægilegri vissu; en allar ástæður benda þó á, að flest þeirra hafi verið annaðhvort norsk eða íslensk, og má telja víst að svo hafi verið, en einungis minni hluti þeirra — og hann fremur lítill — hafi verið frá öðrum löndum. Erfiðara er aptur á móti að gera hjer upp á milli Norðmanna

[1]) Fló. 20/141. [2]) Grett. 33/127. [3]) Reyk. 9/37—39. [4]) Vatn. 40,63. [5]) Heið., Inntak J. Ól, 42—46. [6]) Ldn. 10/307; Fló. 18/138—139. [7]) Reyk. 5/25 sbr. 27. [8]) Harð 29/89. [9]) Bjarn. 22/48. [10]) Ldn. 10/305; Hksb. 331/117; Stb. 376/225; Fló. 9/126. [11]) Reyk. 19/102. [12]) Lax. 54/203. [13]) Heið. Inntak J. Ól. 62—63.

og landsmanna sjálfra, en þó er mjög líklegt, einkum þá er leið fram á söguöldina, að Norðmenn hafi átt töluvert meira en Íslendingar af skipum þeim, sem ekki segir neitt nánar af.

Einstaka sinnum og örsjaldan þó koma og fyrir orð eða atvik, sem gefa nokkra bendingu um hver skipið hafi átt, svo sem um skip það, sem fór frá Noregi til Íslands 1025, og Sigurður nokkur var stýrimaður á. Hann fór með orðsendingu Ólafs konungs til Eyjólfs Guðmundssonar og »átta merkur vegnar«, segir sagan, til þess að hann hefndi Þorgeirs Hávarssonar. Sigurður vistaðist hjá Eyjólfi um veturinn, en hásetar um Eyjafjörð;[1]) bendir þetta fremur á að skipverjar hafi verið norskir en íslenskir, því að opt er kveðið eitthvað kunnuglegar að orði um vist íslenskra kaupmanna á Íslandi. Skipið hefur líklega verið eign stýrimanns og fjelaga hans. En annars er ekkert ákveðið um það sagt, og endirinn vantar af sögunni, um hefndina og ef til vill eitthvað meira um ferð Sigurðar stýrimanns.

Um Þorgaut, sem fyr er nefndur, er þess getið, að hann hafi verið útlendur að kyni; ef til vill gæti legið í því nokkur bending um að aðrir, sem á skipinu voru, hafi eigi verið það; en enga ályktun um þjóðerni þeirra má þó leiða af þessu. Auk þess er þetta í þeim hluta Grettis sögu, sem er eigi annað en gömul þjóðsaga.

Um sum af skipum þessum er líka mjög óvíst. Þótt sagt sje í inntaki Jóns Ólafssonar af Heiðarvíga sögu eða í sögum sem Grettlu eða Harðar sögu, að skip hafi verið í einhverjum árósi eða komið af hafi, má þó eigi skoða það sem áreiðanlegt og víst; auk þess geta sum af skipum þeim, sem ekkert er nánar af sagt, verið einhver af þeim skipum, sem nánar er getið í öðrum sögum og eru því áður talin; en úr slíku og fleiru þess háttar er ómögulegt að greiða með áreiðanlegri vissu. Til þess vantar góð heimildarrit.

Að lokum má geta hjer um skipafregn nokkra í Valla-Ljóts sögu eða skipskomu (líklega 1008), sem enn hefur eigi verið skýrt frá. Þar segir svo: »Skip kom út um sumarið í Eyjafirði.« Næsti kapítuli hefst og með skipafregn: »Skip kom út um sumarið; var þar á Böðvar Sigmundarson og Bessi Hallason.« Það er ljóst af sögunni að þeir Böðvar

[1]) Ljósv. 32/254.

komu og út í Eyjafirði, og Guðbrandur Vigfússon hefur ætlað, að það hafi verið hið sama ár sem sætst var á víg Halla Sigmundarsonar á alþingi (líkl. 1008), og eptir honum hafa aðrir farið.[1]) Í fljótu bragði virðist svo sem skip þessi hafi komið út sama sumarið, og sumir hafa ef til vill ætlað að hjer væri um sama skipið að ræða, en vígsmálin eptir Halla og Þorvarð Þorgrímsson sýna að hjer er um tvö skip að tefla, sem hafa komið út sitt hvort sumarið. Halli var veginn veturinn 1007—8, og á víg hans var sætst á alþingi 1008. Það sumar kom út eptir þing skip hið fyrnefnda í Eyjafirði. Í kaupferð til skips þessa síðari hluta sumars var Þorvarður veginn af Hrólfi gip, bróður Halla, og var sætst á vigið árið eptir (1009); fór sú sætt einnig fram á alþingi, eins og sjá má af því, að Skapti Þóroddsson var helstur af þeim, er leitaði um sættir. Þetta sumar eptir þing kom út skip það, sem Böðvar Sigmundarson var á.[2]) Ef treysta má sögunni, hefur þetta verið þannig, en það getur verið valt, og í raun rjettri er eigi óeðlilegt þótt sumt hafi rangfærst í arfsögninni eða munnmælunum um æfiskeið sex til átta kynslóða. Á vorum dögum má sjá að margt rangfærist á margfalt skemmri tíma.

Ef huganum er nú rent yfir það alt, sem hjer hefur verið sagt af ferðum og siglingum milli Íslands og annara landa á söguöldinni, og eigi síst yfir alt það, sem lýtur að kaupferðum, mun það vera orðið ljóst, að mest öll verslunin var í höndum Íslendinga sjálfra og Norðmanna. Af íslenskum kaupmönnum eru nú 70 kunnir og helmingur þeirra sigldi á eigin skipum sínum. Margir heldri bændur áttu sjálfir skip og fóru í viðlögum kaupferðir til annara landa. Alls er á söguöldinni getið um rúmlega 100 íslensk kaupskip eða haffær skip. Hins vegar er getið um norska kaupmenn af hjer um bil 46 skipum; að vísu áttu þeir nokkur þeirra í fjelagi með Íslendingum. Auk þess eru nefnd um 30 skip, sem eigi er getið um hverjir ættu, og hafa flest þeirra verið annaðhvort norsk eða íslensk, að líkindum þó flest norsk. Enn

[1]) Safn I, 485; sbr. útg. af Valla-Ljóts sögu 1881, ártölin bls. 173 og 176. Útgáfa Vald. Ásmundarsonar er að eins endurprentun eptir útg. Finns Jónssonar. [2]) V.-Ljót. 4—5/174—176.

fremur hefur verið skýrt frá utanferðum eitthvað 100 Íslendinga. Sumir þeirra hafa eflaust farið utan á eigin skipum, þótt heimildarritin skýri eigi frá því. En flestir þeirra munu hafa ráðist í skip eða tekið sjer far hjá öðrum, annaðhvort hjá Norðmönnum eða öðrum útlendingum eða hjá íslenskum skipseigendum.

Þótt skirteini þau og upplýsingar, sem hjer hafa verið tíndar saman úr heimildarritunum, sjeu margar, vantar þó mikið á að þær sjeu fullnægjandi; fyrir því má eigi byggja of mikið á þeim; en af þeim er þó ljóst, að Íslendingar á söguöldinni tóku sjálfir mikinn þátt í versluninni við önnur lönd og að eigi er hægt að færa nægilegar sannanir fyrir, að Norðmenn frá upphafi, eða að minsta kosti þá er Grænland fanst (981 eða 982), hafi rekið mestan hlutinn af hinni íslensku verslun, eins og Konrad Maurer hefur ætlað.[1]) Eðlilega segja sögurnar, heimildarritin, miklu meira af Íslendingum en Norðmönnum á Íslandi, en af því að markmið þeirra er eigi að lýsa verslun Íslendinga, hefur það eigi eins mikla þýðingu eins og í fyrstu mætti ætla. Í raun rjettri voru eigi margar nje miklar ástæður til þess að geta optar um íslensk skip og kaupmenn, en norsk skip og norræna kaupmenn, meðal annars sökum þess að Íslendingar voru ferðalangar miklir og fóru opt utan, og tóku sjer far alveg eins á norskum skipum eins og á íslenskum. Dæmi eitt úr sögunum má minna hjer á, af því að það sýnir glögt, hvernig þær eru að því er þetta snertir. Í Njáls sögu er, eins og allir muna, sagt mikið af Ásgrími Elliðagrímssyni; hann er einn af höfðingjum þeim, sem sagan segir mest af; en þess er þó hvergi getið í Njálu, að hann ætti kaupskip í förum. Aptur á móti skýrir Flóamanna saga frá þessu, þótt Ásgrímur komi lítið við hana, af því að aðalmaðurinn í henni, Þorgils örrabeinsstjúpur, átti að fá hafnartoll hjá honum og fekk hann eigi umtölulaust. Þannig má telja alveg víst, að sögurnar skýri opt eigi frá því, hvort Íslendingar hafi átt skip eða eigi, ef það kom eigi beinlínis efninu við. Og hvernig áttu söguritarar vorir á 13. öld að vita ávalt um slikt? Það hefur sannarlega eigi geymst á vörum þjóðarinnar, í arfsögn og í sögusögn, hverjir landsmenn áttu skip, fremur en um aðra gripaeign þeirra yfirleitt,

[1]) Maurer, Island 430.

þá er það kom eigi við söguna. Mörg skip, bæði íslensk og norsk og frá öðrum löndum, sem hvergi er getið og enginn veit nú neitt um, hafa siglt milli Íslands og annara landa.

Hins vegar má vefengja ýmsar skipafregnir í sögunum, og er sjerstaklega ástæða til þess að ætla, að sumar af þeim, einkum þær, sem eru í hinum yngri sögum, sjeu eigi áreiðanlegar, enda er hjer opt bent á slíkt, missagnir og ónákvæmni, eptir því sem rúmið leyfir. Það má líka færa ýms rök og efasemdir á móti því, að Íslendingar í upphafi hafi átt svo mikinn þátt í versluninni sem hjer er sagt; en eitt er víst og verður ekki hrakið; það er, að Íslendingar í upphafi, í lok landnámsaldarinnar og í byrjun sögualdarinnar, áttu svo mikinn kaupskipastól að hann var nógur til þess að reka með verslun þeirra við önnur lönd. Íslendinga vantaði þá eigi heldur framtakssemi nje þekkingu til þess að stýra skipum, eins og Konrad Maurer hefur getið um, og landafundir þeirra og siglingar sýna. Einnig hefur það verið sýnt hjer og sannað, að Íslendingar fram eptir allri söguöldinni áttu mörg kaupskip, og talandi vitni um skipaeign þeirra á miðri söguöldinni og litlu síðar er það, að 25 skip ljetu þá í haf til Grænlands að eins úr Borgarfirði og Breiðafirði.

Líklegast er að erlenda verslunin hafi í upphafi að mestu leyti skipst nokkurn veginn jafnt milli Íslendinga og Norðmanna. Í fyrstu má jafnvel ætla að Íslendingar hafi sótt það mest sjálfir, sem þá vanhagaði um frá öðrum löndum, en brátt sáu Norðmenn að töluverðan markað myndi mega fá á Íslandi, eptir því sem landið bygðist og fólkinu fjölgaði. Smátt og smátt breyttist líka rekstur verslunarinnar á söguöldinni til hagnaðar fyrir Norðmenn, því að þeir voru fleiri og ríkari en Íslendingar og stóðu því betur að vígi. Í lok sögualdarinnar virðist líka svo sem þeir hafi haft hinn mesta hluta verslunarinnar í sínum höndum. Það má vel vera, að þeir hafi fyr rekið nokkuð meira af versluninni en Íslendingar, en munurinn hefur eigi verið eins mikill og Maurer hefur ætlað.

---

## Annað tímabil, friðar- og rit-öldin
### 1030—1200.

## Þriðji þáttur. Ferðir Íslendinga til annara landa.

### I. Nokkur orð um tímabilið og heimildarritin.

Á meðan heiðin trú, hin svo nefnda Ásatrú, rjeð lögum og lofum yfir hugsunarhætti og athöfnum Íslendinga og annara Norðurlandaþjóða, þótti það alls engin óhæfa að drepa ókunna menn og útlenda, ræna og rupla eignum þeirra, hertaka konur þeirra og börn og hneppa þau í þrældóm, heldur þvert á móti. Slíkt var eigi að eins leyfilegt, heldur var það atvinnuvegur, og venjulega talið hreystiverk eða manndáð, ef eigi var að því unnið á mjög óþokkalegan eða níðingslegan hátt. Skáldin lofuðu það og vegsömuðu, og eptir dauðann áttu mestu manndráparararnir von á veglegu lífi og hinni mestu virðingu hjá Óðni.[1]) Þetta óhagsæla og óeðlilega vanþroskaástand breyttist töluvert, þá er kristnin festi rætur meðal manna og kærleiksboðskapur hennar tók að hafa áhrif á hugarfar manna og athafnir. Þá var því ástandi lokið, sem hafði verið einhver hin helsta ástæða til víkingaferðanna; þær hættu og hurfu að mestu leyti úr sögunni. Rán og víking var bannað; enginn mátti gera slíkt að atvinnu, þótt útaf því væri stundum brugðið. Kristnin fekk mönnum hins vegar mikið að starfa og um nýtt að hugsa. Hún lagði að sumu leyti annan og nýjan blæ á mannlífið. Bestu mennirnir tóku að hugsa um ástandið innanlands og það tók framkvæmdarafl landsmanna í þjónustu sína. Svona var þetta eigi að eins á Íslandi heldur

[1]) Sbr. Íslendinga sögu mína II, 125 o. ef. Það má nærri geta, að margur hefur átt um sárt að binda og ástandið að ýmsu leyti hefur eigi verið eins gott á söguöldinni, eins og opt hefur verið gumað af í hugsunarleysi og vanþekkingu, bæði fyr og síðar, en einkum þó síðan rómantiska stefnan hófst.

einnig á Norðurlöndum, þar sem kristnin festi rætur um sama leyti sem á Íslandi.

Þormóður prestur og kennimenn þeir, sem komu til Íslands með þeim Gissuri hvíta og Hjalta Skeggjasyni, hafa eflaust unnið í kyrþey að því að kenna landsmönnum kristni og efla hana á ýmsan hátt, þótt engar sögur fari af starfsemi þeirra eptir árið 1000. Þá er Ólafur Haraldsson var setstur að ríki i Noregi, fekk hann Íslendinga brátt til þess að nema úr lögum heiðnar venjur og ákvæði. Bjarnharður biskup Vilráðsson, sem á Íslandi var nefndur hinn bókvísi, fór þangað til þess að efla kristnina og líklega einnig til þess að leiðbeina landsmönnum við endurskoðun landslaganna í kristilega átt, og eptir hann komu ýmsir aðrir biskupar til landsins; hafa sumir þeirra verið atkvæðamenn með allmiklum áhuga á að eyða heiðnum venjum og hjátrú og efla kristna trú. Einn þeirra setti munkalífi í Bæ í Borgarfirði og annar þeirra »vígði kirkjur og klukkur, brýr og brunna, vöð og vötn, björg og björllur,« eins og sagan segir. Líklega hafa hljóðstafirnir haft nokkur áhrif á upptalning þennan, en Bjarnharður biskup hinn saxneski, sem þetta er sagt um, var orðlagður fyrir vígslur sínar. Með þeim vildi hann leggja helgi Krists á hin nýju guðsþjónustuhús og klukknahljóminn, tryggja brýr fyrir skaða af hendi illra vætta, og hreinsa óhreina staði og ramheiðna, hóla og björg, sem heiðin goð og vættir bjuggu í, staði, sem mönnum stóð geigur af sökum gamals átrúnaðar.

Eptir miðja 11. öld tók einn af höfðingjum landsins, sem fengið hafði prestsmentun, biskupsvígslu, og Ísland eignaðist innlendan biskup. Biskupstóll er settur í Skálholti og síðan annar á Hólum, tíund er lögleidd og kirkjan og landið eignast sjerstakan »kristinn rjett«. Á þessu tímabili kemst fast skipulag á kristnina í landinu og stofnanir komast á fót, sem hún þurfti á að halda og tíðkanlegar voru í kristnum löndum.

Höfðingjar landsins tóku kristnina að sjer og kirkjan á Íslandi varð því veraldlegri en í öðrum löndum. En í stað þess að þeir fengu mestu yfirráðin yfir kirkjunni, tók kirkjan þá jafnframt í þjónustu sína; þeir lærðu að lesa og skrifa, fóru að stunda bóknám, tóku prestvígslu, fóru að rita upp landslögin, bæði veraldleg og kirkjuleg, sögur og mannfræði.

Þannig tóku Íslendingar ritlistina í þjónustu sína og ritöldin hefst.

Það var unnið mikið á þessu tímabili til framfara fyrir þjóðfjelagið, til minningar um fortíð og þátíð, til frægðar og upplýsingar í nútíð og framtíð. Helsta ástæðan til þess voru trúar- eða siða-skiptin.

Heiðnin var að eins þjóðtrú. Hver heiðinn dýrkunarsöfnuður var sjerstakt ríki eða goðþjónustufjelag fyrir sig, og dýrkaði sína eigin guði. Það var t. a. m. annað goð æðst í hofinu að Þverá í Eyjafirði, en í hofinu á Ölfusvatni, og enn annað í hofinu að Hofstöðum á Þórsnesi. Kristnin hins vegar var heimstrú eða alheimstrúbrögð, eigi bundin við sjerstakt land eða hjerað. Eptir siðaskiptin urðu því Íslendingar heimsborgarar í andlegum eða trúarlegum málum. Þeim óx andlegur lífsþróttur og víðsýni eptir kristnitökuna. Hin nýja trú hafði í för með sjer nýja menningu, einkennilegri og þýðingarmeiri en nokkur önnur menning á miðöldunum. Siða- eða trúarskiptin höfðu því afarmikla þýðingu fyrir samband Íslands við önnur lönd og ferðir landsmanna á miðöldunum.

Það er eins og skipti um á leiksviði við lok söguldarinnar. Breytingin var stór, en þó eigi nema að sumu leyti. Vjer sjáum hana og finnum eptir níu aldir ef til vill glöggar og betur en menn fundu þá. Mörgum nú á tímum sýnist hún jafnvel meiri en hún var í raun og veru. Því valda heimildarritin. Í þeim stingur í stúf við það sem áður var. Flestum sögunum lýkur fyrir eða við 1030. Söguldarhöfðingjarnir, hetjurnar, vígamennirnir, sem höfðu alist upp í heiðni og miklar sögur eru af, falla frá, hver á fætur öðrum, nokkru fyrir og um 1030: Gissur hvíti, Guðmundur ríki, Einar á Þverá, Þorkell Eyjólfsson, Hjalti Skeggjason, Skapti lögsögumaður, Snorri goði, Flosi Þórðarson, Kári Sölmundarson, Björn Hitdælakappi, Þorgeir Hávarsson, Þormóður Kolbrúnarskáld, Grettir Ásmundarson. En í staðinn koma nú fram á leiksviðið Hallur í Haukadal, Ísleifur biskup og ýmsir aðrir þeir menn, sem höfðu alist upp í kristni eða fengið allan sinn þroska eptir að kristni var í lög tekin. Þeir höfðu sjeð höfðingja sem Snorra goða og ýmsa helstu bændur reisa kirkjur á bæjum sínum. Þeir höfðu heyrt kennimennina hvetja menn til kirkjugjörðar með því að gefa það fyrirheit, að maður skyldi jafnmörgum mönnum eiga heimilt

rúm í himnaríki, sem standa mætti í kirkju þeirri, er hann ljet gjöra. En er kirkjur voru gjörðar, vantaði presta til að veita tíðir við þær, því að þeir voru þá fáir,[1]) og var þá reynt að bæta úr því. Þannig var hvert verkið á fætur öðru unnið til þess að efla kristindóminn i landinu.

Fyrirheit kennimanna hafði mikil áhrif á menn. Þeir buðu betur en Ásatrúin. Höfðingjar landsins gátu nú farið til himnaríkis við stærra föruneyti en forfeður þeirra til Valhallar. Í kringum aldamótin 1200 ljet Páll Jónsson biskup telja kirkjurnar í Skálholtsbiskupsdæmi og voru þær 220. Eptir hans reikningi þurfti 290 presta til þess að syngja tíðir í þeim öllum og gegna öðrum prestverkum í Skálholtsbiskupsdæmi.[2]) Með því að Norðlendingafjórðungur var stærstur og fjölmennastur, má ætla að þar hafi eigi verið minna en 100 kirkjur og um 130 prestar, eða á öllu landinu eigi minna en um 320 kirkjur og um 420 prestar.[3]) Sýnir þetta, hve mikla stund menn höfðu lagt á að reisa kirkjur og að mikið hefur verið gert til að efla kristnina.

Margt stóð við hið sama og gekk líkt og áður, en þó var unnið svo mikið á þessu tímabili til þess að koma kristninni og kirkjunni á fót og í fast horf, að vel mætti kenna það við uppgang hennar og skipun; að jeg hef eigi gert það áður hefur meðfram komið af því, að ekkert stutt orð, eins og friðaröld og ritöld, er til um það.[4])

Það segir sig sjálft að hinir bestu kennimenn áttu opt við marga og mikla erfiðleika að stríða, er þeir voru að venja landsmenn við lög kirkjunnar, eigi síst í hjúskaparmálum. Er einkum getið um þá nauð, sem Ísleifur biskup átti í sökum óhlýðni manna, ósiðu og ofsa.[5]) Sumir menn lögðust þá út í víking og á herskip, þrátt fyrir alt bann. Það var líka erfitt að venja menn af vígaferlum, og átti rjettar-

[1]) Eyrb. 49/92. [2]) Páls s., Bps. I, 136. [3]) Jón Sigurðsson, Ný Félagsrit II, 87, hefur ætlað að 110 kirkjur og 140 prestar hafi þá verið í Norðlendingafjórðungi, en það er heldur mikið eptir þingbændatalinu að dæma. [4]) Orðið gullöld á hjer og eiginlega hvergi við í sögu Íslendinga. Það er annars komið upp á þeim tímum, er menn höfðu mjög einstrengingslega og heldur litla sögulega þekkingu og mjög skakkar skoðanir á sögu og æfi mannkynsins. Menn hugðu að alt hefði verið svo gott og ágætt á gömlum, fjarlægum tímum, einkum þeim tímum, sem einhver herfrægð fór af. [5]) Hungr., Bps. I, 62.

ástandið eigi lítinn þátt í því, á meðan ættin átti aðild í sakamálum og refsingar voru einkamál. En af öllu hinu mikla starfi, sem unnið var á þessu tímabili, fara heldur fáar sögur. Það var eigi þannig lagað að almenningi þætti gaman að heyra af því sagt; það þurfti þolinmæði til þess að hlýða á það, eins og að leysa slík verk af hendi. Arfsögn og sögusagnir gengu einkum af einstökum mönnum og hreystiverkum, af veraldlegum verkum, sem sjaldan áttu skylt við þetta.

Af Íslendinga sögum gerist að eins Bandamanna saga á þessu tímabili, og endirinn af Ljósvetninga sögu er um viðburði, sem urðu á miðri 11. öld. Af flestum biskupunum eru sögur, sem hefjast þá er Ísland eignaðist innlendan biskup; þær eru mjög merkileg heimildarrit. Einnig er upphafið af Sturlunga sögu um þennan tíma, ítarlegt um deilurnar milli Hafliða Mássonar og Þorgils Oddasonar (um 1120) og um marga atburði frá síðari hluta 12. aldar. Í Noregskonunga sögum er margt sagt af Íslendingum erlendis, einkum í Noregi, því að sagnaritarar vorir fljettuðu inn í þær þáttum og smásögum af löndum sínum. Í íslenskum annálum er opt getið um utanfarir merkra manna eða útkomu, skipstjón o. fl. atburði, sem snerta þetta málefni, og enn fremur eru einstaka upplýsingar í útlendum heimildarritum. Á þessu tímabili taka og fornbrjefin að verða að verulegu gagni sem heimildarrit.

Heimildarritin um þennan tíma eru margopt miklu stuttorðari en heimildarritin um söguöldina; en hins vegar eru þau áreiðanlegri. Eptir að Ísland hafði eignast innlenda dýrðlinga í lok 12. aldar og klerkavaldið óx, tóku og helgisögur að myndast. Þá fóru menn að ýkja og skreyta sumar biskupasögurnar með þeim og nokkrar aðrar sögur, sem snertu kristni og kennimenn. En nú er hægra að skilja hið sanna frá hinu ósannsögulega en áður, því að komið er fram á þann tíma, þá er elstu sagnaritararnir voru upp og nær vorum tíma.

## II. Íslenskir kaupmenn.

Ef utanferðum Íslendinga á þessu tímabili er skipt eins og á söguöldinni, verða sumir flokkarnir þunnskipaðir, og eigi verður það betra á Sturlungaöldinni. Samt er það glögg-

ast að halda sömu flokkaskipun að því leyti sem það er hægt, til þess að sýna breytingarnar, og þar á meðal hvernig skipastóll Íslendinga minkar smátt og smátt og hvernig verslunin við önnur lönd jafnframt gengur úr höndum landsmanna. Þó er eigi ástæða til þess að ætla að stórkostleg umskipti hafi orðið á versluninni við lok sögualdarinnar; — tímamót er sett þar af öðrum ástæðum. — Þótt sögurnar sjeu færri en áður, má samt sjá að Íslendingar ráku enn töluverða verslun sjálfir við önnur lönd, og fóru eigi sjaldan utan á eigin skipum í þeim erindum; eru allmörg dæmi upp á það um daga þeirra Magnúss konungs hins góða og Haralds konungs hins harðráða.

Brandur hinn örvi Vermundarson hefur áður verið nefndur með íslenskum farmönnum í Niðarósi 999 (sjá að framan bls. 621). Hann hefur þá verið ungur að aldri, líklega fyrir innan tvítugt. Hann hefur að líkindum optar verið í förum, þótt hans geti eigi fyr en 1027 eða 1028 í Noregi. Hann var þá með Ólafi konungi Haraldssyni, ef marka má þátt af Ísleifi biskupi um það atriði.[1]) Enn er Brands getið í Noregi á fyrstu ríkisárum Haralds harðráða (um 1047—1050). Hann lagði skipi sínu inn til Niðaróss. Þar var þá Haraldur konungur og með honum Þjóðólfur skáld Arnórsson, vinur Brands, og hafði sagt konungi margt af örleik hans. Sagan segir, að Brandur stikaði ljerept eitt sinn, er Þjóðólfur kom til hans, og bendir það á að hann hafi farið ferð þessa í kaupskaparerindum, ef sagan er sönn. Af örlæti Brands og stórmensku hafa gengið sögur, og eru nú tvær kunnar; er eigi hægt að vita hvað satt er í þeim; þótt þær sjeu eigi rjettar, geta þær átt uppruna sinn að telja til einhverra atburða. En nokkra grunsemd vekur það, að eigi minna en 48 ár eru á milli fyrstu ferðar hans og hinnar síðustu; er það óvenjulega langur tími; ekki meira en 40 ár milli fyrstu utanferðar Egils og síðustu útkomu hans. Brandur hefur á fyrstu ríkisárum Haralds harðráða verið kominn undir sjötugt, eða að minsta kosti 66 ára, ef hann hefur farið utan 999 eins og líklegt er. En vera má að eitthvað sje blandað málum um utanferðir hans, og að það hafi gerst fyr, sem sagt er að hafi orðið á dögum Haralds harðráða; en þó líkist

[1]) Flat. II, 140—141; Bps. I, 53—54.

það mest Haraldi harðráða, sem sagt er af þrautreynd konungs á örleika Brands.[1])

Þorsteinn Síðu-Hallsson var þrjá vetur (1012—1015) erlendis, þá er hann var um tvítugt (sjá að framan 665). Þá er faðir hans fjell frá, tók hann við goðorði hans og bjó að Hofi í Álptafirði. Hvort hann fór utan á næstu tuttugu árum, er eigi kunnugt, því að eigi segir neitt af utanferðum hans fyr en á ríkisárum Magnúss konungs hins góða. Þá fór Þorsteinn utan (um 1040) og gerðist hirðmaður Magnúss konungs og var konungur vel til hans. Þorsteinn fór þá kaupferð til Dyflinnar og hafði hann eigi leyfi konungs til; hann hafði eigi heldur goldið landaura, er gjaldkeri konungs hafði heimt þá; kvaðst Þorsteinn eigi skyldur að gjalda þá nje förunauta sína fimtán, er hann var hirðmaður konungs, og var þá eigi fast gengið eptir þeim. En úr Dyflinnarferðinni fór Þorsteinn til Íslands og fann eigi konung áður.

Magnús konungur spurði þetta, og kvaðst mundu hafa veitt Þorsteini sjálfum landaura, en eigi mönnum hans; en lakara þótti honum að Þorsteinn hafði farið kaupferð til Dyflinnar án leyfis, og fyrir það gerði hann Þorstein útlægan, til að leiða öðrum að brjóta lögin.

Af því að Þorsteinn var hirðmaður, var brot hans við konung verra en ella og verra en hann hugði. Hann mun eigi hafa vitað um sekt sína og fór því utan sumarið eptir, eins og lítið hefði í skorist, og hafði þá með sjer ágæt stóðhross. Hann tók Þrándheim, en landsmenn stygðust við hann sakir ummæla konungs, og vildu eigi við hann skipta nje menn hans. Stóðhrossin voru í haga fyrir utan bæinn á Íluvöllum, og sáu þau ýmsir menn og þóttu ágæt. Á meðal þeirra voru þeir feðgar, Einar þambarskelfir og Indriði, sem voru þá í bænum; tókst Þorsteini að fá Indriða til þess að þiggja hrossin að gjöf, og bauð hann þá Þorsteini heim til sín; var hann með honum veturinn, uns Einar kom honum í sætt við konung, til að firra vandræðum milli hans og sonar síns; ætlaði það eigi að ganga greitt, og er fögur saga af því sögð; lýsir hún vel skapferli og vináttu þeirra konungs og Einars.[2])

---

[1]) Msk. 69—70; Fms. VI, 348—350. [2]) Msk. 29—31; Fms. VI, 97—102; Flat. III, 318—321.

Þorsteinn Síðu-Hallsson hefur að líkindum farið til Íslands sumarið eptir (um 1042), en nokkrum árum síðar getur hans í Danmörku (1047). Hann var þá nýkominn sunnan frá Róm og kom á fund Magnúss konungs, er hann lá banaleguna; segir sagan, að konungur gæfi honum að bæn hans nafn sitt handa syni sínum. Hvað sem hæft er í þessu, er það þó víst að Þorsteinn átti son, sem Magnús hjet; var hann faðir Einars, föður Magnúss biskups, er var fæddur 1098. Hafa þeir ættliðir gengið fremur fljótt fram, því að Magnús Þorsteinsson getur eigi verið fæddur fyr en 1049, ef saga þessi er sönn. Magnús konungur andaðist 25. oktbr. 1047, og Þorsteinn Síðu-Hallsson hefur komið 1048 heim úr þessari ferð. Þá voru liðin 36 ár frá því, er hann lagði af stað í fyrstu utanferð sína.[1])

Í sögu Þorsteins Síðu-Hallssonar (bls. 217) segir, að hann færi frá Orkneyjum, þá er hann kom þangað úr Brjánsbardaga 1014, »til Noregs og kom til hirðar Magnúss konungs Ólafssonar og gerðist hans hirðmaður«. Að þetta er rangt, er svo augljóst að eigi þarf að rökstyðja það ítarlega. Þá er Þorsteinn fór fyrst utan var faðir hans á lífi, og hafði hann því eigi tekið við goðorði hans. Það er því einnig rangt í sögu Þorsteins, að Þórhaddur hafi tekið við goðorði, er hann fór utan á fund Sigurðar jarls Hlöðvissonar. Það hefur fyrst verið löngu síðar, þá er Þorsteinn fór í utanferðirnar um 1040—1043, nema ef um utanferð væri að ræða, sem engar sögur fara af. Líklegt er það þó eigi, því að útaf deilum þeim og fjandskap, sem hófst út af goðorðinu, drap Þorsteinn Þórhadd og syni hans. Fyrir þessi víg mun Þorsteinn hafa farið enn utan (1046) og gengið suður til þess að fá lausn. Það var síðasta utanferð hans; nokkrum árum síðar var hann myrtur.

Það er mjög líklegt að Þorsteinn hafi átt skip eða þeir bræður í sameiningu. Litlu eptir að Þorsteinn kom úr þriðju utanferð sinni, er þess getið að Kolur Síðu-Hallsson, bróðir hans, hafi verið á vist með honum, og hafði hann komið út um sumarið (um 1044). Hann eggjaði bróður sinn til hefnda, en af siglingum hans segir ekki meira; má vera að hann hafi farið á sama skipi sem Þorsteinn, en þó er

[1]) Fms. VI, 228—229; Flat. III, 330; Þ. Síðu-H. 217—219.

eigi hægt að vita neitt um það með vissu. Líka getur verið að Kolur hafi farið utan á norsku skipi eða verið í fjelagi með Norðmönnum; er getið um Austmann einn, sem var þá á vist með Þorsteini og má vera að hann hafi verið af sama skipi sem Kolur. Austmaður þessi hafði fyr verið með Þórhaddi, og bendir það á að hann hafi verið í siglingum milli Íslands og Noregs.[1])

Þorgrímur Hallason, bóndi á Brúnastöðum í Fljótum, hafði verið hirðmaður Ólafs konungs Haraldssonar, og hefur því farið utan á ríkisárum hans, þótt þess sje eigi getið; hefur það líklega verið áður en hann byrjaði búskap. Þorgrímur keypti eitt sumar hálft skip af norrænum mönnum, en hinn helminginn af því áttu íslenskir menn, bræður tveir, Bjarni og Þórður Hallbjarnarsynir skefils úr Laxárdal. Þeir fóru síðan allir utan, og fór Illugi son Þorgríms með honum og tveir fylgdarmenn, Galti og Kolgrímur. Um veturinn voru þeir í Þrándheimi með Kálfi Árnasyni. Þeir bræður flimtuðu Þorgrím þegar á leiðinni og lögðu ilt til hans, og ekki voru þeir betri við hann í Noregi. Bjarni orti um veturinn kvæði um Kálf og lofaði hann fyrir framgöngu hans á Stiklastöðum. Nú var Þorgrími nóg boðið og hjó hann Bjarna banahögg, en Kálfur ljet dæma Þorgrím útlægan og Þórður drap hann þegar. Kolgrímur hefndi hans þá og veitti Þórði banvænt sár.

Magnús konungur hafði verið suður í Danmörku, segir sagan, og kom nú til Þrándheims. Hann gaf Kolgrími líf og hálft skip þeirra fjelaga móts við Illuga Þorgrímsson. Kolgrímur hafði í vandræðum sínum heitið suðurgöngu, og gekk hann suður, en Illugi beið hans í Noregi á meðan. Síðan fóru þeir báðir til Íslands, og settist Illugi í bú á Brúnastöðum, en seldi Kolgrími sinn hlut í skipinu; fór hann þá milli landa og segir sagan, að hann þætti hinn besti kaupdrengur.[2])

Ef rjett er sagt af atburðum þessum, þá hafa þeir orðið um 1038, því að Kálfur Árnason var landflótta úr Noregi öll hin seinni ríkisár Magnúss konungs og fram til 1050. En vísindamenn hafa ætlað, að Bjarni Hallbjarnarson væri sami maðurinn sem Bjarni gullbrárskáld. Hann kvað flokk um Kálf Árnason og er nokkuð enn til af honum. Í

[1]) Þ. Síðu-H. 222, 227—228, 229—230. [2]) Fms. VI, 30—36.

einni vísunni er sagt frá því, er Kálfur varð fyrir reiði Magnúss konungs og flýði Noreg 1039, en í annari er sagt frá hluttöku Kálfs í bardaganum fyrir Rauðubjörgum á Petlandsfirði um 1045. Eptir því hefur þetta verið veturinn 1050—1051, og Haraldur konungur hinn harðráði hefur þá frelsað Kolgrím, en eigi Magnús hinn góði, eins og segir í sögu hans. Hins vegar benda vísuorð þau, sem til eru úr kvæði Kolgríms um Ólaf konung hinn helga:

»Herstillis þarf ek hylli
hálf eru völd und Kálfi«

miklu fremur á, að hann hafi kveðið þetta til Magnúss konungs hins góða, eins og segir í sögunni, en til Haralds harðráða.[1]) Kálfur hafði aldrei hálf eða mikil völd í Noregi undir Haraldi harðráða. Ef þetta er rjett, hefur Bjarni Hallbjarnarson verið annar maður en Bjarni gullbrárskáld. Er hjer sem optar, að eigi er hægt að greiða úr þessu með nægilegri vissu.

Arnór Þórðarson jarlaskáld, sonur Þórðar Kolbeinssonar og Oddnýjar eykyndils, fór utan eigi síðar en 1035, því að hans getur í Orkneyjum árið eptir með Orkneyjajörlum í bardaganum í Vatnsfirði, en hvernig hann fór utan segir ekki. Arnór var þá tæplega hálfþrítugur. Hann kvongaðist í Orkneyjum og komst þá í mægðir við jarlana Rögnvald Brúsason og Þorfinn Sigurðarson. Níu árum síðar barðist hann með Þorfinni jarli fyrir Rauðubjörgum (1045). Litlu síðar fór hann til Noregs. Hann hafði þá ort sitt kvæði um hvorn konunginn, Magnús hinn góða og Harald harðráða, og er dálítil saga af því, sem hjer verður að greina.

Einn dag, er Arnór bræddi skip sitt, komu menn frá konungunum og báðu hann færa kvæðin. Hann fór þegar og þó ekki af sjer tjöruna. Þá er hann kom að stofunni, mælti hann við dyravörðu: »Gefið rúm skáldi konunganna.« Hann gekk síðan inn fyrir konungana og mælti: »Heilir alvaldar báðir!« Haraldur konungur mælti: »Hvorum skal fyrr færa kvæðið?« Hann svarar: »Fyrr hinum yngra.« Konungur spurði: »Hví honum fyrr?« »Herra!« sagði hann, »þat er mælt

---

[1]) Hkr. II, 177/409, 183/426—427, 228/494. III, 5/13, 14/28; Fms. V, 17, 83, 123, 127, 141; Flat. II, 311, 357, 374; Icel. s. I, 48; Skjaldedigtn. A, 331, 393—396; sbr. Eddu Sn. S. III, 745—47, F. Jónsson, Litteraturhist. I, 619; G. Þorláksson, Norsk-islandske skjalde Kbh. 1882, bls. 95.

að bráðgeð verða ungmenni«. En það þótti báðum meiri virðing, er fyr var kvæðið fært.

Arnór flutti þá Magnúsi konungi ágætt hrynhent kvæði, sem enn er mikið til af, en Haraldi drápu, sem nefnd var Blágagladrápa. Hún er öll gleymd. Haraldur konungur gaf Arnóri gullrekið spjót, en Magnús fyrst gullhring og síðan knör með farmi; hefur þá Arnór átt tvö kaupskip, ef hann hefur átt það skip, sem hann kom á, en líklega hefur hann að eins átt hlut í því.

Í Magnúsdrápu hinni hrynhendu getur Arnór þess, að hann hafi látið knörr sinn kljúfa dúfu (= öldu) i kaupför, þ. e. verið i kaupferðum. Hann virðist hafa farið i kaupferðir bæði fyrir vestan haf og til Noregs. Líklega hefur hann dvalið nokkur ár i Orkneyjum eptir að hann kvongaðist, en um miðja 11. öld hefur hann setst að á Íslandi, ef til vill að föðurleifð sinni, og þar hefur hann dvalið síðasta hluta æfi sinnar; ef hann hefði búið í Orkneyjum, hefðu kvæði hans gleymst. Hann andaðist einhvern tíma eptir 1074.[1])

Þórður Þorgrímsson, norðlenskur maður, líklega úr Svarfaðardalnum, var i förum og var hirðmaður Magnúss konungs (um 1040—1047). Eitt sinn er hann bjó skip sitt í Eyjafirði, fór bróðir hans Hreiðar hinn heimski utan með honum; hefur það verið sumarið 1046 eptir því sem segir i þætti Hreiðars. Þeir bræður voru um vetur við hirð Magnúss konungs, og fóru til Íslands sumarið eptir. Þeir áttu alt fje saman og rjeð Þórður yfir því, af því að Hreiðar var eigi sjálfbjarga framan af sökum fíflskapar og kæruleysis, en úr honum rættist og varð hann góður bóndi í Svarfaðardalnum. Segir sagan að föðurarfur þeirra væri hálfu meiri en fje það, er Þórður hafði í förum. Af Hreiðari er dálítil saga á meðan hann var i Noregi.[2])

Eldjárn Arnórsson, sonur Arnórs kerlingarnefs og Þórlaugar Víga-Glúmsdóttur, átti kaupskip og var í förum. Hann kom út i Eyjafirði á skipi sinu sama sumarið sem þeir Þorvarður Höskuldsson fóru utan (um 1048).[3])

Um miðja 11. öld var Oddur Ófeigsson uppi, aðalmaðurinn í Bandamanna sögu, og var hann frægastur kaup-

---

[1]) Icel. s. I, 40, 47; Msk. 31—32; Fms. VI, 195—198; Knyt, Fms. XI, 209; Flat. II, 415, III, 321—323; Lax. 78/288; Skjaldedigtningen, A, 332—354. [2]) Msk. 35—44; Fms. VI, 200—218. [3]) Ljósv. 28/237.

maður á Íslandi á sinni tíð. Hann var tólf vetra, segir sagan, er hann rjeðst til sjóróðra út á Vatnsnes, og aflaði hann sjer kaupeyris þar í fiskveri á hinum næstu þremur árum. Síðan rjeðst hann í flutningar um Húnaflóa norður til Stranda með farma, og keypti sjer hlut í ferju; græddi hann brátt fje svo að hann eignaðist einn ferjuna; fór hann svo í milli Miðfjarðar og Stranda nokkur sumur og varð vel fjáður. Þá keypti hann hlut í kaupskipi og fór utan og var í kaupferðum um hríð. Honum varð gott til fjár og mannheilla, og eignaðist alt kaupskipið og »mestan hluta áhafnar«. Hann var opt með höfðingjum og tignum mönnum erlendis, þar á meðal Haraldi konungi harðráða. Hann var og farsælli en aðrir menn, segir sagan, og kom aldrei skipi sínu norðar en á Eyjafjörð og eigi vestar en í Hrútafjörð. Hann gerðist svo auðugur, að hann átti tvo knerri í kaupferðum, og var talinn auðugastur þeirra kaupmanna, sem komu til Íslands á þeim tíma.

Hann keypti land á Mel í Miðfirði og reisti þar rausnarbú, og var þá sagt að hann ætti eigi minna fje en þrír þeir menn, er þá voru auðugastir á Íslandi.[1]) Nokkuð af þessu er að eins gum, og enginn gat heldur vitað með vissu um þetta, því að eignir manna voru eigi virtar fyr en tíund var í lög leidd í lok 11. aldar. Þá er Oddur hafði búið nokkur ár, fór hann utan kaupferð með vörur sínar og kom út sumarið eptir. Váli frændi hans fór þá með honum og mun hann hafa verið fyr í förum með honum. Hann fór um sveitir og seldi varning þeirra. Enn fór Oddur kaupferð eitt sumar til Orkneyja, á meðan átta höfðingjar, hinir svo nefndu »bandamenn«, sóttu hann á alþingi fyrir litla sök í þeim tilgangi, að sölsa undir sig fje hans. Í Orkneyjum keypti hann malt og korn, og er hann hafði lokið erindum sínum, hjelt hann aptur til Íslands, kom í Miðfjörð og var einar sjö vikur í ferðinni. Hann kvongaðist þá Ragnheiði Gellisdóttur Þorkelssonar frá Helgafelli.

Af síðustu kaupferð Odds til Noregs er til dálítill þáttur. Hann tók þá land norður við Finnmörk og var þar um veturinn (um 1054—1055). Noregskonungur átti þá einn rjett til kaupskapar við Finna og mátti því enginn maður fara þang-

---

[1]) Band. 4—6.

að kaupferð, nema með hans leyfi eða sýslumanns hans; hafði slík einokunarverslun komist á þegar á dögum Haralds hárfagra. Sagan segir, að Oddur bæði skipverja sína um að eiga eigi kaup við Finna, en þeir gátu eigi staðist þá freistingu; duldu þeir hann þess í fyrstu, þangað til þeir sigldu að norðan og sáu sýslumann konungs, Einar flugu Háreksson, koma í veg fyrir þá á langskipi alskipuðu. Oddur fekk falið vörur þær, sem þeir höfðu keypt af Finnum, í húðfati einu, áður en Einar kom, svo að hann fann þær eigi, er hann rannsakaði skipið, enda varð hann að flýta rannsókninni, því að vindur stóð af landi og sjógangur tók að vaxa. Oddur hjelt síðan suður með landi, og kom við í Mjölu, eyju einni á Hálogalandi. Þá vildi svo óheppilega til fyrir hann, að Haraldur konungur hinn harðráði var þar fyrir, og hafði hann frjett af ferð Odds, því að Einar hafði þegar sent menn til hans, til þess að skýra honum frá rannsókn sinni og grun þeim, er hann hafði. Oddur hafði verið hjá konungi áður, og konungur gert vel til hans, en þó duldi nú Oddur alls og fekk hann með naumindum falið Finna vörurnar, er konungur rannsakaði skipið. Aðra nótt, sem hann var í Mjölu, ljet hann í haf til Íslands, til þess að forða sjer undan reiði konungs.[1]) Kaupferðir sínar hefur Oddur farið á árunum um 1040—1060.

Þorvarður krákunef, vestfirðskur maður, fór milli landa og átti kaupskip. Hann var auðugur maður og góður drengur, segir sagan. Hann kom eitt sumar skipi sínu í Niðarós og var Haraldur konungur harðráði þá í bænum og Eysteinn orri Þorbergsson, mágur hans. Hann leigði sjer þar skemmu og fór á fund konungs og vildi gefa honum segl. En konungur var eigi glaður í bragði og vildi eigi þiggja það nje líta á það, af því að eitt sinn hafði hann þegið segl af Íslendingum, sem gekk í sundur í siglingu og nær hafði orðið honum að skaða. Eysteinn orri bað þó konung líta á seglið, en hann vildi það eigi. Þorvarður gaf þá Eysteini seglið og var það hin mesta gersemi; bauð hann Þorvarði heim til sín á Giska (á Sunnmæri) og veitti honum vel; gaf hann honum að launum þrjá gripi, kyrtil hlöðum búinn og skor-

[1]) Band. 7—8, 10, 21—22, 29—31, 39—40; Msk. 105—109; Fms. VI, 377—384; Flat. III, 381—386. Í þjóðsögunni af Hemingi Áslákssyni kemur Oddur Ófeigsson einnig fyrir, sbr. Hemings þátt í Flat. III, 400—410, Sex. söguþ. 44—68, Icel. sag. I, 347, 359—361.

inn af skarlati, skikkju úr gráum skinnum með skarlatsmöttli yfir og gullhring. Þorvarður hjelt til Íslands sumarið eptir (um 1060), en konungur sá seinna seglið hjá Eysteini, þótti það gott og þá það af honum.[1]

Gissur Ísleifsson var »farmaður mikill hinn fyrra hlut æfi sinnar«,[2] og mætti því telja hann hjer; en af því að utanferðir hans eru kunnar af öðru en kaupskaparerindum, skal getið nánar um þær síðar.

Á ríkisárum Ólafs konungs hins kyrra (1067—1093) er annars eigi getið um neina íslenska kaupmenn, enda ríkti þá friður og litlar sögur eru frá þeim árum. Þá er sonur hans, Magnús berfætti, kom til ríkis, sótti í sama horfið sem áður, og gerðist þá ýmislegt sögulegt. Á ríkisárum hans er getið um Teit Gissurarson biskups í Niðarósi og þrjú Íslandsför; rjeð Teitur fyrir einu þeirra (um 1096). Frá þessu er sagt, af því að íslenskur maður af ætt Gilsbekkinga, Gísl Illugason, veitti þar Gjafvaldi, hirðmanni konungs, banasár og Íslendingar tóku sig saman til þess að hjálpa Gísl; er söguþáttur til af þessu.

Gjafvaldur hafði fyrir rúmum tug ára vegið Illuga Þorvaldsson, föður Gísls, á Íslandi. Gísl var þá barn að aldri, en nú hafði hann farið utan til föðurhefnda. Eptir tilræðið við Gjafvald reyndi hann að forða sjer, en var brátt tekinn og settur í jarðstofu eina. Vildi konungur láta drepa hann þegar, en sökum sunnudagshelginnar, sem þá fór í hönd, var aftöku hans frestað til mánudags.

Þá voru margir Íslendingar í Niðarósi og komu þeir sjer saman undir forustu Teits Gissurarsonar að hjálpa Gísl; vildu þeir leggja mál hans undir dóm konungs, ef Gísl fengi líf, en verja hann, ef þess var enginn kostur. Þeir brutu upp jarðhúsið og leystu Gísl úr fjötrunum, en þá er til bardaga horfði með konungsmönnum og Íslendingum, þakkaði Gísl Íslendingum fyrir góðvilja þeirra og gaf sig konungi á vald til þess að firra vandræðum. Konungur ljet þá sefast, enda hafði Gjafvaldur, áður en hann andaðist, beðið hann um að gefa Gísl grið, og átta Íslendingar gengu til festu fyrir hann og guldu miklar bætur, sem konungur gerði fyrir vígið.

---

[1]) Msk. 73—75; Fms. IV, 356—360; Flat. III, 357—358. [2]) Hungr., Bps. I, 66.

Í Magnúss sögu berfætts segir, að eigi hafi verið færra íslenskra manna í Niðarósi en þrjú hundruð, og í sögu Jóns biskups Ögmundarsonar eptir Gunnlaug munk segir, að »þrjú hundruð íslenskra manna« væri með Teiti biskupssyni. Hvort tala þessi er áreiðanleg, er eigi hægt að segja með vissu. Það er eigi ómöglegt að Teitur eða einhver annar hafi talið Íslendinga til þess að sjá, hve mikinn mannafla þeir höfðu. Sögusögn ein segir, að hann hafi látið þá sverja sjer eið að því að spara hvorki sjálfa sig nje fje sitt. Líklega er þó tala þessi að eins ágiskun eða þá aukin til þess að láta standa á rjettu hundraði. Hins vegar sýnir þetta, að stundum voru enn margir Íslendingar í Noregi og að sumir þeirra áttu fyrir skipi að ráða. 300 eða rjettara sagt 360 manna var meira en venjulegar skipshafnir af tíu skipum. Meiri hlutinn af þessum mönnum hefur því eigi verið af þeim Íslandsförum, sem hjer eru nefnd, heldur af ýmsum öðrum skipum, farþegjar af norskum skipum og Íslendingar, sem dvöldu í Noregi. Annars voru þau skip nefnd Íslandsför, sem sigldu til Íslands eða voru þaðan, og gátu þau eins vel verið norsk eins og íslensk. Þau þrjú Íslandsför, sem hjer ræðir um, virðast samt hafa verið íslensk, af því að þeirra er getið í sambandi við svo marga Íslendinga og fyrir einu þeirra rjeð Íslendingur, Teitur Gissurarson, hinn eini heldri maður, sem nefndur er af Íslendingum auk Jóns prests Ögmundarsonar. Er sagt að Jón prestur hafi talað þar á þingi langt erindi og snjalt, þá er dæma átti Gísl til dauða, og mýkt reiði konungsins. Sögur Jóns biskups segja að þetta hafi verið, þá er Jón prestur dvaldi í Noregi á heimleið sunnan af Frakklandi 1076, en það getur eigi verið rjett. Annaðhvort er það alt tilbúningur, helgisaga, sem segir af framkomu Jóns prests í Niðarósi við þetta tækifæri, eða hann hefur farið utan um 1096, en þess er hvergi getið og er þó töluvert sagt af æfi hans. Í Jóns sögu eptir Gunnlaug munk er hann einnig látinn gera hin mestu kraftaverk. Saga Jóns biskups er eigi rituð fyr en um það leyti sem hann var lýstur helgur maður á alþingi; þurfti þá margt af honum að segja, til þess að fá menn til að trúa á hann og heita á hann. Mönnum var kunnugt um lífgjöf Gísls Illugasonar og hina drengilegu hjálp Íslendinga, einnig að Jón biskup hafði um hríð verið í Noregi á heimleið frá Frakklandi; er því eigi ólíklegt að atburðum þessum hafi verið

blandað saman Jóni til vegsemdar, án þess að gætt væri að tímatalinu.

Teitur Gissurarson fór til Íslands eptir þetta, líklega hið næsta sumar. En Gísl Illugason var með Magnúsi konungi og fór með honum í leiðangur vestur um haf (1098—1099). Seinna fór hann til Íslands og staðfestist þar. Hann orti erfidrápu eptir Magnús konung († 1103).[1])

Þorsteinn, íslenskur maður, var í Niðarósi 1096—1097, auðsjáanlega í kaupskaparerindum, sjerstaklega til að afla húsaviðar. Um hann er það eitt kunnugt, að hann var í bát, sem hann átti, við bryggjurnar í Nið, þá er Gisl Illugason veitti Gjafvaldi banatilræðið. Báturinn var hlaðinn skíðum (þ. e. þunnum viði, borðviði). Gísl hljóp út á bátinn til Þorsteins og svörfuðust skíðin utanborðs, en Gísl reri þegar yfir ána á bátnum með Þorstein í, til þess að forða sjer. Fyrir það vildu konungsmenn gefa Þorsteini sök, en Gísl sannfærði þá um, að hann væri saklaus og hefði eigi getað varið sjer bátinn, svo lítill sem hann var.[2])

Á 12. öld eru fáir íslenskir kaupmenn nefndir. Elstur þeirra er Hermundur Þorvaldsson úr Vatnsfirði. Hann hafði verið í útförum með Sigurði konungi Jórsalafara (1107—1111). Í þeirri ferð kyntist hann norrænum manni, er Árni hjet og kallaður var fjöruskeifur, og voru þeir síðan fjelagar. Segir síðan eigi af þeim fyr en 1117 á Íslandi. Munu þeir hafa komið út þá um sumarið. Þeir tóku land á Eyrum og áttu þá skip saman. Árni var um veturinn heimamaður Þorgils Oddasonar á Staðarhóli. Fyrir því sendi Þorgils honum

---

[1]) Fms. VII, 29—40; Jóns. s., Bps. I, 156—157, 221—227, 229; Msk. 132—133, 136, 144—147, 150; Fms. VII, 6—9, 15, 16, 43—46, 49, 51, 53, 57—58. Nokkur ósamkvæmni er á milli sögu Magnús berfætts og sögu Jóns hins helga eptir Gunnlaug munk. Í Fms. VII, 35 er gestahöfðingi konungs nefndur Sóni, en Auðun í sögu Jóns, Bps. I, 222, 224, 225, 226. Í Jóns s., Bps. I, 221, er Teitur nefndur Ísleifsson biskups, eins og það hafi verið Teitur í Haukadal, hinn nafnkunni kennari Ara hins fróða, bróðir Gissurar biskups, en eigi Teitur sonur hans. Í Morkinskinnu eru tilfærðar vísur Gísls, en ekkert segir samt þar af vígi Gjafvalds nje atburðum þessum. Snorri Sturluson getur þeirra eigi heldur. Jón biskup er líka látinn segja í ræðu sinni, að Íslendingar sjeu þegnar konungs »sem þeir er hjer eru innanlands«; Fms. VII, 37; Bps. I, 223; bendir þetta líklega á, að ræða Jóns biskups sje samin eigi fyr en seint á 13. öld. [2]) Fms. VII, 31—32.

um sumarið 1118 Ólaf Hildisson suður á Eyrar og bað hann flytja hann utan, til þess að koma honum undan hefnd, en Hermundur hindraði það. Þeir fjelagar ljetu síðan í haf til Noregs, og segir ekki af Hermundi eptir þetta.[1])

Um þetta leyti var Ásu-Þórður erlendis og fekk mikinn frama í kaupferðum og græddi mikið fje; má nefna hann hjer, þótt hann í upphafi færi kaupferðir þessar fyrir norska konu og staðfestist að lokum í Noregi. Þórður var af Austfjörðum. Hann var fjelítill, en gervilegur maður, fróður og orti vel. Hann mun hafa ráðist í skip til Noregs og segir eigi af honum fyr, en hann kom til Niðaróss. Þar fekk hann vist hjá ekkju, er Ása hjet; hún var auðug kona og ættstór. Henni líkaði vel við Þórð og fekk honum fje um vorið til Englandsfarar; skyldi hann eiga nokkuð af því í kaup. Honum gekk vel kaupferðin og kom heim um haustið. Veturinn eptir var hann hjá Ásu og fór kaupferð sumarið eptir. Gekk svo um nokkur ár og græddi hann mikið fje. Var Þórður nú kallaður Ásu-Þórður, en frændur hennar lögðu óþokka á hann. Helstur þeirra var Víðkunnur Jónsson, lendur maður í Bjarkey. Hann kom eitt sinn að heimsækja Ásu og var mjög fár við Þórð, en hann flutti þá Víðkunni kvæði, sem var vel ort; og þá fyrir vináttu hans að launum. Nokkru síðar sýndi Þórður, er hann kom heim úr kaupferð af Englandi, að hann vildi eigi láta hlut sinn, og veik burtu skipi, er lá í lægi í ánni Nið fyrir garði Ásu. Skip þetta átti Ingimar af Aski, lendur maður og ofsamaður mikill. Einn af mönnum Ingimars stal þá líka stafntjaldi frá Þórði, og af þessu lenti hann í deilu við Ingimar. Hann fekk þá liðveislu Víðkunns og að lokum Eysteins konungs; hafði Þórður sóma af máli þessu, og gekk síðan að eiga Ásu. Var Þórður vinsæll og þótti mikilmenni í marga staði. Þetta var um 1110—1120, á ríkisárum Eysteins konungs Magnússonar.[2])

Þórhallur Þorláksson, faðir Þorláks biskups, var farmaður áður en hann byrjaði búskap, og hefur það verið um 1120—1130.[3]) Litlu síðar var Hermundur Koðránsson í förum og Þorgils bróðir hans. Þeirra er getið á Grænlandi veturinn 1132—1133 eða um það bil, og áttu þeir þar fyrir

[1]) Sturl. I, 15, 17. [2]) Msk. 170—174; Fms. VII, 111—118; Sex söguþ. 72—78. [3]) Þorl. s., Bps. I, 89, 264.

kaupskipi að ráða. Þar voru þá tvö norræn kaupskip, og hjet stýrimaðurinn á öðru þeirra Össur. Hann heimti arf eptir móðurbróður sinn, sem dáið hafði á Grænlandi; lenti hann af því í deilum við Arnald biskup á Grænlandi og var veginn. Útaf því urðu deilur miklar og veitti Hermundur Norðmönnum lið gegn Grænlendingum, en virðist þó hafa farið að hóflega. Sumarið eptir fór hann og fjelagar hans frá Grænlandi, og er einungis sagt, að þeir kæmu til ættjarða sinna á Íslandi; þó má vera að hann hafi fyrst siglt til Noregs frá Grænlandi eins og hin skipin, og þaðan síðan til Íslands. Þar gerði Hermundur bú og varð gamall maður († 1197). Hann bjó í Kalmannstungu og á Gilsbakka svo getið sje, en óvíst hve lengi á hvorum stað; hann var af ætt Gilsbekkinga.[1])

Rjett eptir miðja 12. öld er getið um einn íslenskan bónda í Noregi á kaupskipi, sem hann átti sjálfur. Hann hjet Þórhallur Ásgrímsson, og var kynstór maður. Hann »átti bú suður í Biskupstungum«. Eigi er kunnugt, hve lengi hann var í förum. Hann var í Noregi, þá er Rögnvaldur kali, Orkneyjajarl, kom úr Jórsalaferð sinni (líkl. 1153)[2]), og er hans að eins getið af því, að jarl fór með honum á kaupskipi hans frá Noregi. Jarlinn hafði komið landveg úr suðurferð sinni til Noregs og átti þar því engan skipakost, er hann vildi fara til Orkneyja heim í ríki sitt. Hann fekk sjer því far hjá Þórhalli og hafði sveit mikla á skipinu og göfugt föruneyti. Jarlinn varð mjög síðbúinn og tóku þeir Skotland, þá er mikið var af vetri, lágu þar lengi, og komu litlu fyrir jól í Orkneyjar.[3])

Þórhallur Ásgrímsson er nefndur í Konungs annál árið 1168 með þessum orðum: Tungubardagi með þeim frændum Höskuldi presti Þórðarsyni og Þórhalli Ásgrímssyni. Ekki er nánar af þessu sagt, en árið eptir er getið um fráfall Þórhalls Ásgrímssonar.[4]) Þetta mun eflaust vera hinn sami

---

[1]) Grænl. þ., Flat. III, 448, 451, 454; Grönl. hist. Mindesm. II, 692, 718, sbr. 674—75; Sturl. I, 67, 109, 111, 114; Bps. I, 284; Ann. IV, V, ár 1197. [2]) Í Konungs annál segir, að Rögnvaldur kali færi af Orkneyjum 1151 í Jórsalaferð, Ann. IV, sbr. Ann. VIII, IX, X. Rögnvaldur var tvö ár í ferðinni. Eptir þessu hefur Guðbr. Vigfússon farið, er hann ársetur Jórsalaferð Rögnvalds kala 1151—1153, í útg. af Orkneyinga sögu. P. A. Munch, Hist. III, 833, setur ferðina árin 1153—1155. [3]) Icel. s. I, 180—181; Flat. II, 489. [4]) Ann. IV, ár 1168 og 1169. Tungubardagi er einnig nefndur í Ann. I og III.

maður sem sá, er flutti Rögnvald jarl úr Noregi til Orkneyja. Hann mun hafa verið einn af niðjum Ásgríms Elliðagrímssonar og átt skip eins og hann, og ef til vill fleiri í ættinni. Ásgrímur átti þrjá syni, og hjetu tveir þeirra Þórhallur, en einn Grímur. Bjó annar þeirra nafna í Tungu eptir föður sinn[1], og hefur Þórhallsnafnið og Ásgrímsnafnið haldist lengi í ættinni. Líklega hefur Þórhallur Ásgrímsson búið í Tungu sem forfeður hans; á það bendir bardaginn og Orkneyinga saga. Tunga er nú nefnd Bræðratunga, eins og kunnugt er.

Össur Gilsson af Meðalfellsströnd í Dalasýslu var í förum og var fyrst lestreki Guðlaugs auðga, norræns manns (um 1160). Hann græddi þar af fje til þess er hann varð maður auðugur. Þá keypti hann land á nyrðri strönd í Búðardal og gerðist bóndi.[2])

Um kaupferðir og siglingar Íslendinga á síðasta fjórðung 12. aldar eru til fern mjög merk skýrteini, og skulu þrenn þeirra þegar nefnd, en hið fjórða í lok greinarinnar um íslenska skipseigendur og kaupskip. Í skýrteinum þessum eru að vísu engir einstakir kaupmenn nafngreindir; þess er eigi heldur að vænta, af því að þau eru í útlendum heimildarritum, nema ræða Sverris konungs, en engin ástæða var fyrir hann að nafngreina þar einstaka menn frá Íslandi.

Vorið 1186 fór Sverrir konungur norðan úr Þrándheimi til Björgynjar. Þar var þá kominn múgur skipa til bæjarins »nær af öllum löndum«. Sum þeirra voru þýsk og höfðu Þjóðverjar (Suðurmenn) flutt þangað vín svo mikið, að það var eigi dýrara þá en mungát. Menn drukku sig því fulla og vitlausa, og lentu í áflogum og deilum; urðu af því miklar óspektir, slys og bardagar, bæði milli Norðmanna innbyrðis og milli Þjóðverja og Norðmanna; ljetu þar margir menn líf sitt.

Konungur kom þá á griðum og sættum, en nokkru síð-

---

[1]) Grett. 53/195. [2]) Sturl. I, 77. Hjer þarf nú varla að vekja eptirtekt á því, að Þórhallur bóndi Svartsson eða Surtsson, var eigi farmaður, þótt hann í útgáfu Guðbr. Vigfússonar af Sturl., I, 69, sje nefndur svo, því að nú er komin út nákvæm útgáfa af Sturlungu, þar sem útgáfa dr. Kålunds er, og þar er þetta rjett, sbr. I. b. bls. 96. »ok farmaðr« stendur eigi í AM 122a fol., eina skinnhandritinu, sem til er af þessum stað, og á eigi heldur að standa í textanum. Það bendir eigi heldur neitt á, að Þórhallur hafi verið farmaður.

ar hafði hann þing í bænum, og mælti: »Vjer viljum þakka hingaðkvámu öllum enskum mönnum, þeim er hingað flytja hveiti og hunang, flúr eða klæði; svo viljum vjer og þakka þeim mönnum, er hingað hafa flutt ljerept eða lín, vax eða katla. Þá menn viljum vjer og til nefna, er komnir eru af Orkneyjum eða Hjaltlandi, Færeyjum eða Íslandi, og alla þá, er hingað hafa flutt í þetta land þá hluti, er eigi má missa, og land þetta bætist af.« Því næst veik konungur máli sínu til Þjóðverja og bað þá að vera í brautu sem skjótast.[1])

Hjer er það eigi beinlínis sagt, að það hafi verið Íslendingar, sem voru komnir af Íslandi; orð konungs geta bæði átt við þá og Norðmenn eða aðra, er fluttu þaðan vörur til Björgynjar; en að því verður að gæta, að konungur í þessum hluta ræðu sinnar talaði til þeirra útlendinga, sem þá voru samankomnir í Björgyn; aptur á móti snýr hann í síðari hluta ræðu sinnar máli sínu til þegna sinna og varar þá við ofdrykkju. Það verður því að skilja þetta svo sem einhverjir íslenskir kaupmenn hafi þá verið í Björgyn, og svo hefur Konrad Maurer skilið þetta.[2])

Þessa skoðun styður einnig ókunnur norskur rithöfundur,[3]) sem ritað hefur um ferð nokkurra danskra höfðingja til landsins helga. Þeir lögðu af stað 1191, og komu við í Konungahellu. Þar slóst í för með þeim norskur höfðingi, Úlfur af Laufnesi, sem kunnur er af Sverris sögu, og með honum 200 manna. Þeir komu við í Túnsbergi, í Seleyjum (skamt fyrir vestan Líðandisnes) og í Björgyn, sem þá var orðin mestur og auðugastur kaupstaður í Noregi. Björgyn er lýst og segir höfundurinn, að »þangað komi fjöldi skipa og þjóða hvaðanæfa; ef menn vilja leita fyrir sjer, megi hitta þar Íslendinga, Grænlendinga, Englendinga, Þjóðverja, Dani, Svía, Gotlendinga og margar aðrar þjóðir, sem of langt mundi upp að telja.[4])

[1]) Fms. VIII, 248—251; Eirsp. 107—109; AM 81a fol. (Skálholtsbók yngsta), Krist. 1910, bls. 135—137. [2]) Sbr. Ný Fjelagsrit XXII, 103; Höpfner und Zacher, Zeitschr. f. deutsche Philol. II, 456; Island 429. [3]) Dr. K. Kålund hefur í Aarb. f. nord. Oldkh. 1896, bls. 79—96, leitt gild rök að því, að höfundur Profectio Danorum in terram sanctam hafi verið norskur. [4]) Liber de profectione Danorum in terram sanctam. Scriptores R. D. V, 353. Rit þetta hefur Jörgen Olrik þýtt í Krøniker fra Valdemarstiden. Kbh. 1900—1901. Ferð þessari er lýst í P. Riant, Skandínavernes Korstog og

Íslenskir kaupmenn sóttu einnig nokkrar vörur til Danmerkur og mun það stundum hafa átt sjer stað fram til loka 12. aldar eða jafnvel lengur, þótt eigi sjeu nafngreindir neinir kaupmenn, sem leituðu þangað. Á þetta bendir hinn forni bæjarrjettur Sljesvíkur, sem er frá um 1201; í honum eru nefndir kaupmenn frá Íslandi.[1])

Grein þessa um kaupmennina má nú enda með því, að skýra frá utanferðum fjögra sona Þorgeirs Hallasonar að Hvassafelli í Eyjafirði, því að þær sýna hvernig ferðum flestra Íslendinga, sem komu til Björgynjar á síðari hluta 12. aldar, var háttað. Að vísu er eigi hægt að telja þá bræður alla með kaupmönnum; en einn þeirra týndist í förum, annar eignaðist kaupskip og hinn þriðji fór kaupferð til Englands, og það er greinilegra að geta þeirra allra á einum stað, en á þremur eða jafnvel fjórum stöðum í ritgjörð þessari.

Hvassafellsbræður voru stórættaðir. Þorgeir Hallason faðir þeirra var höfðingi, og móðir þeirra, Hallbera Einarsdóttir, var af hinni nafnkunnu Reyknesingaætt. Þau hjónin áttu fimm syni, sem komust upp, og fóru fjórir þeirra utan, en einn í klaustur. Einar hjet sá þeirra, sem mun hafa verið elstur. Hann var eitthvað í förum; hefur líklega farið til Noregs, eins og flestir farmenn gerðu; en ekkert er kunnugt um utanferðir hans annað en það, að hann ljet lífið í óbygðum á Grænlandi; mun hann hafa fengið ilt veður og hrakist þangað. Tvennar frásagnir voru til af æfilokum hans og er önnur þeirra enn til; er það sögn Styrkárs Sigmundarsonar af Grænlandi, er var sagnamaður og fróður; hefur hann líklega komið til Íslands. Frásögn hans mun vera bygð á því, sem menn hafa ályktað af líkum þeirra, skipi og öðrum menjum, sem fundust eptir þá. Enginn var þar til frásagna. Styrkár sagði, að skip þeirra hefði fundist í óbygðum, en lið þeirra hefði gengið í tvo staði og barist um vistir, er voru þrotnar hjá öðrum flokknum. Einar komst þá á brott við þriðja mann, gekk upp á jökla og vildi leita yfir suðurenda Grænlands til bygðar. Ljet hann þar lífið, er dagleið var til bygðar; mun hann hafa haft vistir litlar og þær þrotið skjótt. Hann fanst vetri síðar og var lík hans heilt og ósakað; var það flutt til

Andagtsrejser til Palæstina, 389—411. [1]) De med jydske Lov beslægtede Stadsretter udg. ved P. G. Thorsen, 10, § 29, sbr. § 37 i Das neuere Stadtrecht Schleswigs, s. bók, bls. 36.

bygða og greftrað á Herjólfsnesi. Hver skip það átti, sem Einar var á, er ókunnugt.[1]) Þetta mun hafa verið nokkru eftir miðja 12. öld eða um 1160.

Annar son Þorgeirs var Þorvarður og kemur hann töluvert við sögur. Hann tók sjer far í Eyjafirði, þá er hann var 18 vetra, og leyndist þá utan með honum Yngvildur Þorgilsdóttir, dóttir Þorgils Oddasonar á Staðarhóli, sem hann hafði átt barn með (um 1158). Þorvarður rjeð sig fyrst í skip eitt í Eyjafirði, er átti Jón hirðmaður Inga konungs, en hann sigldi frá honum. Þorvarður rjeðst þegar í annað skip, og kom það þrem nóttum síðar til Björgynjar en Jón. Þá er Þorvarður stje þar fótum á land, hitti hann Jón og laust hann öxi, svo að hann varð aldrei heill og dó um veturinn eptir, en öxarskaptið brotnaði. Þorvarður komst í sætt við Inga konung, og gerðist hirðmaður hans og varð honum kær; en Gregórius Dagsson tók við Yngvildi. Eptir fall Inga konungs (4. febr. 1161) kom Þorvarður út til Íslands. Hann lofaði mjög Inga konung og kvaðst eigi vilja þjóna neinum jarðlegum konungi eptir hann. Af útkomu Yngvildar segir eigi, en hennar er síðar getið á Íslandi, og mun hún hafa komið út með Þorvarði.[2])

Ari Þorgeirsson, bróðir Þorvarðar, bjóst þá utan um sumarið. Þorvarður bað hann að bindast eigi við þann flokk, er felt hafði Inga konung, heldur ráðast í þann flokk, sem mundi hefna hans og setjast í rúm sitt. Ari sótti því á fund Erlings jarls, er hann kom til Noregs, og hitti hann vorið eptir (1162) í Vík austur. Barðist hann með Erlingi jarli í eigi minna en fjórum orustum á þessum misserum og lagði jarl mikla virðingu á hann fyrir fylgd hans og hreysti. Vorið 1163 fýstist Ari til Íslands og gaf jarl honum þá knör með rá og reiða. Hann varð vel reiðfari og kom skipi sínu að Gásum í Eyjafjörð. Þótt sagt hafi verið að jarl gæfi honum skipið, er nú rjett á eptir, þá er Ari var kominn til Eyjafjarðar, kveðið svo að orði: »skipið átti hálft með honum Ámundi Konráðsson«. Ef það er alt rjett, sem hjer er sagt, hefur Ari selt Ámunda hálft skipið, til þess að fá fje til vörukaupa og til að eiga hægra með að gera það út. Ari fór um

---

[1]) Guðm. s., Bps. I, 408; Sturl. I, 121. [2]) Guðm. s., Bps. I, 408, 410; Sturl. I, 65—67, 121, 124, 233.

haustið að Hvassafelli til föður síns og var með honum tvo vetur. Sumarið eptir (1164) fjölmenti Ari með Þorvarði bróður sínum til alþingis, og hafði hann þá nærri 30 Austmenn í flokki með sjer; mun Ámundi Konráðsson hafa verið Austmaður og einn í þeim hóp. Þeir munu allir hafa verið vopnaðir vel og búnir skjöldum; var þetta sumar kallað Skjaldasumar, af því að óvenjulega margir skildir voru á alþingi. Hafði Þorvarður Þorgeirsson fram mál sitt á alþingi með styrk Ara og Austmannanna.

Sumarið 1165 fór Ari aptur utan, og með honum Ingimundur bróðir hans og margt annara manna, vina hans. Þá er Ari kom til Noregs, fór hann til hirðvistar með Erlingi jarli og var með honum um veturinn. Vorið eptir bjó hann skip sitt og ætlaði til Íslands, öfundarmenn hans í hirðinni ámæltu honum þá fyrir það, að hann skyldi fara frá jarli, þá er hann þyrfti manna við og ófriðar væri von. Þegar Ari varð var við þetta, ljet hann bera föng sín af skipi og rjeðst til hirðarinnar með jarli, en Ingimundur bróðir hans og aðrir vinir hans hjeldu til Íslands og urðu vel reiðfara. Um sumarið fór Ari með Erlingi jarli í Vik austur á móti Ólafi Guðbrandssyni, sem hafði hafið flokk á móti jarli. Á allraheilagramessu fór jarl með nokkurn hluta liðs síns á bæ einn í Raumaríki, sem Ryðjökull er nefndur, og var þar um nóttina. En þar kom þá Ólafur Guðbrandsson með lið sitt að jarli óvörum, á meðan hann var að óttusöng, og rjeðst þegar á hann. Erlingur jarl varð þá að forða sjer undan á flótta, en Ari snerist á móti óvinum hans, svo að hann kæmist undan, og ljet þar líf sitt. Þetta var nóttina til 2. nóvbr. 1166.[1])

Ingimundur Þorgeirsson var prestur og þótti göfugmenni. Æfisaga hans sýnir, hvernig menn viku úr einu í annað, og unnu það, sem þeir þurftu á að halda. Ingimundur prestur átti víða heima á Norðurlandi þangað til 1180, er hann ætlaði utan með Guðmund Arason, bróðurson sinn, sem hann hafði tekið að sjer eptir fall föður hans. Hann tók þeim þá báðum far að Gásum með Hallsteini kúlubak, en hann varð síðbúinn og ljet fyrst í haf 28. septbr. Þeir fengu ilt veður

[1]) Guðm. s., Bps. I, 410—414, 415—416; Sturl. I, 124—130; Hkr. III, 32—33/477—479; Fms. VII, 317. Í Hkr. segir, að þetta væri á kyndilmessu 2. febr. (1167), en það mun vera rangt.

og áföll stór, og fótbrotnaði Guðmundur þá; litlu síðar braut skipið á Hornströndum, en menn komust lífs af. Ingimundur hafði bókakistu með sjer og rak hana í land að Dröngum í Strandasýslu.[1])

Haustið 1182 fór Ingimundur prestur til skips í Hvítá að kaupa varning til sölu og ávaxtar, því að hann bjóst við að fara utan. Af því varð þó eigi fyr en þremur árum síðar. Hann tók sjer þá far með skipi einu norsku, er var í Eyjafirði, og margt annara íslenskra manna. Um veturinn var Ingimundur prestur í Niðarósi og »hafði bæjarsetu«, en um jól og páska var hann með Eysteini erkibiskupi. Gaf hann honum Jónstúku (St. Jóhannes kapellu) í Kristskirkju til söngs, og sumarið eptir Maríukirkju á Staði; er hjer líklega átt við Stað, bygðina á Norðmæri fyrir norðan mynni Þrándheimsfjarðar.[2]) Þar var Ingimundur tvo vetur prestur. Um þetta leyti andaðist Jón kútur eða knútur, biskup á Grænlandi († 1187), og vildi þá erkibiskup vígja Ingimund þangað, en það fekkst eigi af honum.

Í janúarmánuði 1188 andaðist Eysteinn erkibiskup, og fór Ingimundur prestur þá um vorið kaupferð vestur til Englands með Norðmönnum nokkrum og kom vestan um haustið til Björgynjar. Þeir komu með mikið af víni, hunangi, hveiti og klæði og öðrum vörum af Englandi. Jón kuflungur var þá fyrir í Björgyn og vildu menn hans taka upp vörur fyrir þeim Ingimundi og ræna þá. Ögmundur Þorvarðsson sneis bróðurson Ingimundar var þá hirðmaður Jóns kuflungs, og fekk hann Jón konung til þess að leyfa Ingimundi að halda öllum vörum sínum í friði og láta hann njóta svo dyggrar þjónustu bræðra hans við Inga konung og Magnús konung Erlingsson. Ingimundur reyndi þá að hjálpa kaupmönnum og kvaðst eiga fjórar eða fimm víntunnur og margt annað, er Kuflungar spurðu eptir. Sáu þeir þá að hann eignaði sjer meira en hann átti, og tóku því eina víntunnuna af þeim, er hann þóttist eiga; vildi þá svo til, að það var sú eina tunna, er hann átti. Einnig tóku þeir 16 álnir af klæði rauðbrúnu og

[1]) Guðm. s., Bps. I, 420—425; Sturl. I, 135—140. [2]) Í Guðm. s., Bps. I, 430 stendur »kirkju á Staði, Maríukirkju«; í Sturl. I, 147 »Maríukirkju á Staði«. Í Niðarósi var ein Maríukirkja, og telur Munch, Hist. IV, 206, eigi ómögulegt að átt sje við hana.

forkunnar góðu frá honum, en hann vildi eigi segja frá því, svo að þá skildi eigi á.

Um veturinn (1188—1189) var Ingimundur í Björgyn, en um vorið rjeðst hann til skips þess, er Stangarfoli hjet og bjóst til Íslands. Á því var margt íslenskra manna. En æfilok Ingimundar prests urðu lík æfilokum Einars bróður hans. Stangarfolinn kom hvergi fram og spurðist ekkert til hans í 14 ár. Þá fanst hann í óbygðum á Grænlandi. Sást þá að hann hafði komist þangað í hafvillum og að menn allir höfðu týnst. Þar fanst lík Ingimundar prests í hellisskúta einum og sex manna bein hjá honum. Sagan segir að hann væri heill og ófúinn og svo klæði hans. Hjá honum var vax og á rúnir, er hann hafði rist um líflát þeirra.[1])

Þótt Ingimundur væri prestur, brá hann sjer þó í kaupferð vestur til Englands. Á meðan hann var prestur í Staðarbygðinni hefur hann eignast kaupeyri. Þar mun honum hafa goldist og gefist töluvert meira af sumum vörum en hann þurfti á að halda; þeim hefur hann þurft að verja í annað, sem hann vanhagaði um; fyrir því hefur hann ráðist í kaupferð. Svo gerðu þá ýmsir Íslendingar, sem líkt stóð á fyrir. En þótt þeir færu í kaupferð til annara landa, sigldu þeir nú sjaldan á eigin skipum, heldur rjeðust þeir í skip hjá öðrum, venjulega hjá norrænum mönnum, því að skipastóll Íslendinga á síðari hluta 12. aldar var orðinn mjög lítill.

## III. Kaupferðir bænda og utanferðir á eigin skipum.

Á þessu tímabili er þess eigi opt getið, að íslenskir bændur færu utan kaupferðir á eigin skipum, en þó er eigi auðveldara að draga takmörkin á milli þeirra og kaupmannanna en á söguöldinni. Nokkra af þeim mönnum, sem þegar eru taldir meðal kaupmanna, mætti eptir því litla, sem af þeim segir í sögunum, eins vel setja hjer meðal þeirra bænda, sem fóru einstaka kaupferð til útlanda. Á Íslandi voru skóg-

[1]) Guðm. s., Bps. I, 429, 430, 433—435; Sturl. I, 142, 145—147, 150—153. Í Sturl. I, 152—53 er Stangarfolinn nefndur Stangarbolli í aðalhandritinu, en hitt nafnið er bæði í Bps., Fms. VIII, 263, Eirsp. 114, og Ann. I, IV, V o. fl.; mun það vera rjett.

ar litlir og smávaxnir, svo að landsmenn voru opt í vandræðum með við, er þeir vildu hýsa vel hjá sjer eða reisa kirkjur. Bændur fóru því stundum utan til þess að sækja húsavið, enda eru þær kaupferðir, sem getur um af þeirra hendi á þessum 170 árum, flestar gerðar í þeim erindum.

Hin fyrsta af ferðum þessum, sem um getur, var um miðja öldina. Halldór Illugason, bóndi að Hólmi á Akranesi, sendi þá Illuga son sinn utan eptir kirkjuvið (um 1049). Hann mun hafa ráðist í skip með Austmönnum, því að um útkomu hans er þess getið, að hann fekk eigi fyrir stýrimönnum, að taka þar land sem hann vildi, og að Austmenn voru á skipinu. Þeir lentu vestur í Vaðli. En fyrir því tók Illugi það ráð, að því er sagan segir, er þeir komu norður fyrir Reykjanes og sigldu fyrir Faxaflóa, að hann bar fyrir borð allan kirkjuviðinn, og bað hann þar koma sem Ásólfur alskik vildi. Hann var þá dáinn fyrir hundrað árum eða meira, en orðinn helgur maður í trú þeirra Hólmsfeðga. Þetta reyndist líka vel, segir sagan. Þremur nóttum síðar kom viðurinn á Kirkjusand að Hólmi, nema tvö trje, er rak upp á Mýrarnar. Halldór ljet síðan gera kirkju þrítuga (»xxx«), sem líklega þýðir að hún hafi verið 30 álna löng, viði þakta og helgaði hana hinum írska dýrðling Kolumkilla með guði.[1])

Einhvern tíma um 1070—1080 fór Bjarni Skeggbroddason til Noregs og sótti eldhúsvið þangað. Hann gjörði eldhús fádæma stórt í Krossavík. Segir sagan, að það væri 35 faðmar á lengd, 14 álna breitt og 14 álna hátt. Álnirnar voru þá miklu styttri en á vorum dögum[2]), en Bjarni hlaut kenningarnafn af húsi þessu, og var kallaður húslangur.[3])

Kring um 1180 (eða fyrir 1183) fór Högni hinn auðgi Þormóðarson, bóndi á Bæ í Borgarfirði og prestur að vígslu, til Noregs eptir viðarfarmi, og ljet gjöra kirkju í Bæ.[4])

Markús Gíslason, bóndi að Saurbæ á Rauðasandi, fór utan og ljet höggva í Noregi kirkjuvið góðan; síðan fór hann til Íslands og kom út í Gautavík á Austfjörðum. Hann gaf allan kirkjuviðinn Sigmundi Ormssyni, sem þá var mest-

[1]) Hksb. 21/14—15; Ldn. 51. [2]) Sbr. Björn M. Ólsen, Um hina fornu íslensku alin, í Árbók Fornleifafjelagsins 1910. [3]) Skarðsárbók, Ísl. s. I, 324. [4]) Þorl. s., Bps. I, 284—285, sbr. bls. 427 í Guðm. s. og Sturl. I, 143—144.

ur höfðingi á Austurlandi, og ljet hann gera af honum kirkju á Valþjófsstað. Markús fór síðan til bús í Saurbæ og »bjó þar lengi síðan«, segir sagan. Kona hans andaðist þá, og eptir það fór hann aptur til Noregs og ljet höggva þar kirkjuvið. Hann fór þá suður til Róms; á heimleiðinni þaðan keypti hann kirkjuklukkur á Englandi og hafði þær með sjer til Noregs. Síðan fór hann til Íslands með kirkjuviðinn og klukkurnar, og ljet gjöra veglega kirkju á Rauðasandi, og gaf til hennar klukkurnar og Ólafsskrín, er hann hafði haft út. Fyrri utanferð Markúss hefur verið um 1180, en hin síðari rjett eptir 1190. Litlu síðar lenti hann í deilu og var veginn 3. nóvbr. 1196.[1])

Líklega hafa bændur farið optar kaupferðir til annara landa, þótt eigi sje af því greint; einnig voru ýmsir þeir menn, sem hjer verða síðar nefndir, úr flokki bænda, og munu sumir þeirra hafa verið í kaupferðum, þótt þess sje eigi getið.

## IV. Enn nokkrir íslenskir skipseigendur og kaupskip.

Á þessu tímabili eru nefndir fáir íslenskir skipseigendur og fá íslensk kaupskip, og er auðsætt að þeim hefur fækkað mjög mikið.

Um 1117 stóð skip uppi í Dögurðarnesi, er átti Bergþór Másson.[2]) Hann var bróðir Hafliða Mássonar hins nafnkunna höfðingja að Breiðabólstað í Vesturhópi. Af þessu skipi segir eigi nánar, nje að Bergþór hafi farið utan, enda var hann þá orðinn gamall maður. Það segir sig þó sjálft, að skipið hefur verið notað til siglinga; hefur Bergþór leigt það öðrum, ef hann hefur eigi gert það út sjálfur.

Einstaka Íslendingar eignuðust enn skip í utanferðum sínum, Halldór Snorrason var einn þeirra, sonur Snorra goða og þriðju konu hans Hallfríðar Einarsdóttur frá Þverá. Halldór mun vera fæddur um 1015 eða 1016. Hann er talinn fimta barn móður sinnar, en fjögur börn eru talin milli hans og Þuríðar systur hans, en hún var fædd 1025. Hið yngsta alsystkini Halldórs fæddist 1031, en hann getur þó eigi verið fæddur miklu síðar en 1015, af því að um 1034 er hann

[1]) Hs., Sturl.[2] II, 5/280, Bps. I, 5/645. [2]) Sturl. I, 9.

kominn austur í Garðaríki, og þar gekk hann í lið með Haraldi harðráða, áður en hann rjeðst suður til Miklagarðs. Af utanferð Halldórs segir þó ekki, og hans getur eigi fyr en suður í löndum í orustum og mannraunum með Haraldi harðráða. Um Harald er það kunnugt, að hann fór með mikla sveit Norðmanna úr Garðariki (1034 eða árið eptir) og kom til Miklagarðs með 500 manna að því er segir í einu grísku riti.[1]) Hann gekk þar á mála hjá Miklagarðskeisara og var í hernaði fyrir hann á Sikiley (1038—1040), Suður-Ítalíu, Búlgaríu og víðar. Áður en þetta var, fór hann austur í Asíu og kom til Jórsala. 1042—1043 var Haraldur í Miklagarði, og þar mun hann hafa frjett að Magnús Ólafsson, bróðursonur hans, var orðinn konungur í Noregi og Danmörku (1042). Hann sagði þá upp þjónustu sinni við keisarann, en hann vildi eigi leyfa honum að fara. Flýði þá Haraldur á brott með mönnum sínum, og hefur þetta eigi verið fyr en 1043 og eigi heldur síðar en 1044.[2]) Hann hjelt þá til Garðaríkis, kvongaðist þar, og fór til Svíþjóðar 1045. Árið eptir varð hann konungur í Noregi ásamt Magnúsi góða og síðan einn eptir fráfall hans (25. oktbr. 1047).

Halldór Snorrason var jafnan með Haraldi harðráða þessi ár og honum kær sökum hreysti hans og öruggrar fylgdar; eru nokkrar sagnir af mannraunum þeirra og sumar ósannar. Vorið 1048, að því, sem næst verður komist, fýstist Halldór Snorrason að fara til Íslands og gaf Haraldur konungur honum þá knör til fararinnar. Segir sagan, að hann vildi sýna föður hans, að hann hefði eigi til einskis þjónað honum, og

---

[1]) Hist. Tidsskr. (norsk) 2. R. IV, 359. [2]) Sbr. G. Storm, Harald Haardraade og Væringerne i de græske Keiseres Tjeneste, í (Norsk) Hist. Tidsskr. 2. R. IV, 354—386. Í ritgjörð þessari er skýrt frá grísku riti, sem var kenslubók um hernaðarlistina og einnig inniheldur rit um ráð handa Grikkjakeisara. Prófessor Wassilievsky í Moskva hefur ritað um handrit þetta (1881) og gefið út langa kafla af því. Í því er sjerstök grein um Harald harðráða á meðan hann var í þjónustu keisarans. Má af henni sjá, að ýmislegt af því, sem segir af honum þar syðra í Noregs konunga sögum, Danasögu Saxa, og söguriti Vilhjálms af Malmesbury, er algjörlega rangt. Keisarinn og Grikkir vissu vel hver Haraldur var; það er því ósatt að hann hafi nefnst Norðbrikt. Hann er í riti þessu nefndur Araltes, sem er sama nafnið sem Haraldur. Vilhelm Thomsen benti fyrstur á Norðurlöndum á ritgjörð Wassilievskys.

einnig að Halldór hafi verið með föður sínum veturinn eptir á Íslandi, en þetta hvorttveggja er rangt. Snorri goði andaðist 1031.

Sagan segir, að Halldóri hafi í fyrstu gengið illa að fá menn á skip sitt, af því að allir höfðu áður »ráðið sjer skipan«. Konungur á þá að hafa hjálpað honum með brögðum; kvaðst hann hafa heyrt að Danaher væri kominn í landið austur í Vík, og bannaði öllum skipum að fara úr landi, nema knerri Halldórs Snorrasonar, áður en hann hefði slíkt sem hann vildi af liði og vistum af hverju skipi. Nú buðust Halldóri margfalt fleiri hásetar, en hann þurfti á að halda, og er hann hafði ráðið þá, sem hann vildi, kunngjörði konungur degi síðar að fregn sú, er heyrst hefði um ófriðinn, hafi reynst ósönn og gaf öllum fararleyfi.

Sumarið eptir (líkl. 1049) kom Halldór aptur frá Íslandi til hirðar Haralds konungs, en þá var hann eigi jafnfylginn konungi sem fyr; sat hann eptir á kveldum, þá er konungur gekk að sofa, og kom eigi heldur ávalt á rjettum tíma, þá er hann skyldi vera með konungi. Fyrir því urðu ýmsar greinir með þeim, og segir af þeim í hinni lengri sögu Haralds harðráða (í Fms. og Flat. og Morkinskinnu að nokkru). Skildu þeir að lokum ósáttir og fór Halldór til Íslands eptir tveggja vetra vist með konungi (líkl. 1051). Hann gerði þá bú í Hjarðarholti, bjó þar til elli og varð gamall maður.

Snorri Sturluson getur eigi um neinar sjerstakar skærur á milli þeirra, líklega af því að hann »vildi eigi setja á bækur vitnislausar sögur«, en honum var þó kunnugt um sundurlyndi þeirra. Hann lýsir Halldóri Snorrasyni og segir, að hann »var manna mestur og sterkastur og hinn fríðasti; það vitni bar Haraldur konungur honum, að hann hafi verið þeirra manna með honum, er síst brygði við váveiflega hluti, hvort er það var mannháski eða fagnaðartiðindi eða hvað sem að hendi kom í háska«. En »Halldór var maður fámæltur og stirðorður, bermæltur og stríðlundaður og ómjúkur, en það kom illa þá við konung, er hann hafði nóga aðra með sjer göfga menn og þjónustufulla«.[1])

[1]) Msk. 9—13, 46—51; Fsk. 226, 228; Hkr. III, 9—14/87—95, 36/129—130; Fms. VI, 135 158, 160, 164—167, 237—251; Flat. III, 291, 301—302, 304, 401, 407, 409, 428—431 sbr. I, 506—511 (= Fms. III, 152—163).

Auðun hinn vestfirðski eignaðist skip, því að Sveinn konungur Ástríðarson gaf honum það. Hann fór utan í fyrstu með norrænum manni, er Þórir hjet, og hafði haft veturvist hjá Þorsteini, bónda nokkrum á Vesturlandi, húsbónda Auðunar. Auðun kom sjer snemma vel og fekk hann utanferðina og umsjá Þóris fyrir þá hjálp, sem hann hafði veitt honum um veturinn. Mestan hluta fjár þess, sem Auðun átti, lagði hann með móður sinni áður en hann fór, og var það þriggja vetra björg. Þórir stýrimaður hjelt til Noregs og var Auðun með honum um veturinn. Sumarið eptir sigldi Þórir til Grænlands og voru þeir Auðun þar hinn næsta vetur. Þar keypti Auðun bjarndýr eitt, gersemi mikla, og gaf fyrir alla eigu sína. Sumarið eptir fóru þeir til Noregs, og þaðan hjelt Auðun til Danmerkur, til þess að gefa Sveini konungi Ástríðarsyni bjarndýrið. Komst hann þangað eptir mikla mæðu og færði konungi dýrið.

Konungur tók Auðuni vel og var hann með honum um hrið, en fór síðan pílagrímsför suður í Rómaborg. Á heimleiðinni varð hann veikur og gekk þá upp allur farareyrir hans, sem Sveinn konungur hafði gefið honum; þó hrestist hann og varð að biðja sjer matar; komst hann svo við mesta volæði aptur til Danmerkur. Hann kinokaði sjer þá við að láta konung og hirðina sjá sig tötrum búinn; en konungur varð hans var, tók honum vel, ljet búa honum bað og gaf honum klæði. Konungi fjell vel við Auðun, því að hann bauð honum að vera hjá sjer, og að gjöra hann skutulsvein sinn. Auðun þakkaði konungi það vel, en kvaðst vilja fara til Íslands, því að nú væri lokið björg þeirri, er hann lagði til móður sinnar áður en hann fór, og hann mætti eigi vita það, að hún træði stafkarlsstig á Íslandi en hann lifði við sæmd hjá konungi. Sveini konungi þótti þetta vel mælt og drengilega, og gaf Auðuni skip með farmi í laun fyrir bjarndýrið, en leðurhosu fulla af silfri til minja um það, að hann hafði gefið Sveini konungi gersemi. En ef hann kynni að brjóta skipið og týna silfrinu, þá gaf hann honum til vara gullhring til að hafa á sjer.

Á heimleiðinni kom Auðun við í Noregi og fann Harald konung harðráða, eins og hann hafði heitið honum. Hann gaf þá konungi gullhringinn í þakklæti fyrir það, að hann hefði látið hann á ófriðartíma fara í friði með dýrið til Dan-

merkur. Konungur gaf Auðuni í móti góðar gjafir; fór Auðun til Íslands um sumarið og þótti vera hinn mesti gæfumaður. Þetta hefur verið einhvern tíma um 1050—1060.[1])

Á ríkisárum Haralds harðráða, líklega um 1051, er getið um Íslandsfar eitt norður við Finnmörk. Sýslumaður konungs, Einar fluga Háreksson, hitti það, rjeðst á það og drap alla skipverja, af því að þeir vildu eigi láta rannsaka hjá sjer um kaup við Finna. Íslandsfar þetta mun hafa verið af Íslandi, ef það er hæft í því, sem sagan segir, að þar hafi fallið maður einn, sem Sneglu-Halli gat sannfært Einar um að verið hefði náfrændi sinn; hann hlýtur þá að hafa verið Íslendingur og Einar vitað að skipshöfnin var íslensk. Maður þessi varði sig svo vel, að Einari sýslumanni fanst mikið um það. Í sumum hinum yngri handritum af þætti Sneglu-Halla er sagt, að maður þessi hafi verið Íslendingur og að hann hafi heitið Einar.[2])

Annað Íslandsfar kom um 1140 til Orkneyja og er það í Flateyjarbók kallað »íslenskt far«. Skip þetta kom frá Íslandi, beina leið að því er virðist, og á því var einn maður, sem er nafngreindur (Hallur Þórarinsson). Hann var íslenskur; en annars er ekkert kunnugt um skip þetta nje um skipverja. Ef skipið hefur verið íslenskt, eins og segir í Flateyjarbók, þá á að telja það hjer; en hætt er við að »íslenskt far« sje ritað í staðinn fyrir »Íslandsfar«, og eigi að eins uppruna sinn að telja til afritarans. Ef svo er, getur Íslandsfar þetta eins verið orkneyskt eða norskt eins og íslenskt.[3])

Í lok 12. aldar er getið um eitt íslenskt kaupfar, sem kom til Normandí og var selt í Rúðuborg. Er það merkilegt dæmi upp á það, hve langt Íslendingar leituðu stundum suður á bóginn á þessum tímum, og eins upp á það, að enn áttu einstaka landsmenn kaupskip. Liggur næst að ætla, að það hafi siglt hina vestri leið frá Íslandi til Vesturhafs- eða Vestur-landa, en ekkert er þó um það kunnugt.

Reikningsbækur þær, sem haldnar voru í Rúðuborg yfir tekjur hertogans, eru enn til, og er þess getið í þeim, að árið 1198 hafi verið greitt í fjárhirðslu hertogans 213 pund

[1]) Msk. 61—65; Fms. VI, 297—307; Flat. III, 410—415. [2]) Msk. 98; Fms. VI, 370, sbr. Flat. III, 422—23; Sex söguþ. bls. 32—33.
[3]) Icel. s. I, 139; Flat. II, 468.

6 skildingar og 8 peningar í staðinn fyrir 80 merkur silfurs, fyrir sölu á 17 sekkjum ullar úr skipi frá Íslandi, sem kyrsett hafði verið *(remanente)*, og 56 pund í staðinn fyrir 21 mörk silfurs, sem var söluverð skipsins.[1]) Af þessu er ljóst að skip þetta hefur farið með ull til sölu, hvort sem það hefur verið hlaðið fleiri vörum eða eigi. Svo virðist sem það hafi verið gert upptækt. Ríkarður ljónshjarta Englandskonungur var um þessar mundir hertogi yfir Norðmandi; áttu Englandskonungar optast yfir því að ráða frá því að Vilhjálmur bastarður, hertogi í Norðmandi, braust til ríkis á Englandi (1066), og þangað til Filippus Ágústus Frakkakonungur lagði það undir sig á dögum Jóhanns landlausa 1204. Hinrik 3. afsalaði sjer síðan öllum rjetti til Norðmandísins við Lúðvík 9. Frakkakonung (1259).

## V. Íslendingar tóku sjer far milli landa.

Hjer verða eins og fyr taldir þeir menn, sem sagt er um í sögunum, að tækju sjer far eða færu utan á einhverju ákveðnu skipi, að því leyti sem þeir hafa eigi verið nefndir áður og heyra eigi undir næstu grein. Þeir eru að tiltölu fáir, einkum þá er þess er gætt, að flestir fóru utan á þann hátt að taka sjer far eða að ráðast í skip; en þess er sjaldan getið í sögunum.

Um 1044 kom skip til Niðaróss og var á því einn íslenskur maður fjelitill. Hann hjelt vörð um nótt á skipinu, og sá þá að tveir menn gengu leynilega upp í Gaularás með graftól. Hann veitti þeim eptirför og kom að þeim óvörum, er þeir höfðu tekið upp kistu eina fulla af fje. Þorfinnur hjet sá maður, er fyrir þeim var, og bað Íslendingurinn hann um þrjár merkur vegnar, og jafnmikið fje síðar, ef hann yrði fjeþurfi, til þess að hann leyndi með honum fundi fjárins. Þessu játaði Þorfinnur og vá honum þrjár merkur. Íslendingurinn sá rúnir á kistunni, og sögðu þær, að Hákon jarl hefði átt fje þetta. Hann fór síðan aptur til skips, en fór illa að og eyddi fjenu; kom hann nokkrum

[1]) Magni rotuli scaccarii Normanniæ, ed. Thomas Stapleton II, XXII, 306; Dipl. Isl. I, 718–719.

sumrum síðar á fund Þorfinns og bað hann fjár, en hann brást ókunnur við og ljet hann ekkert fá. Íslendingurinn fór þá til Einars þambarskelfis og bað hann ásjár; ætlaði hann að launa Einari svo ásjána, að segja honum frá fjárfundinum. En þótt Einar tæki honum vel og lofaði honum að vera hjá sjer um veturinn, fórst það þó fyrir, og leið úr hug hans. Um vorið gaf Einar honum vistir um haf til Íslands og kistu eina með varning í. Íslendingurinn þakkaði honum góðgerninga hans, en gat eigi um fjárfundinn; síðan fór hann til Niðaróss, og tók sjer far til Íslands.

Á meðan Íslendingurinn dvaldist í Niðarósi, tók Haraldur konungur harðráði fje alt af Þorfinni; honum hafði þótt grunsamt um auðæfi hans og neyddi hann til að segja hið sanna. Nú fór Íslendingur til Einars og sagði honum af fjárfundinum. Einari þótti ilt, hve lengi hann hafði þagað, en gaf honum þó silfur nokkuð í sögulaun, og rjeð honum að koma eigi til Noregs á meðan Haraldur harðráði væri konungur. Bergþóra Hákonardóttir, kona Einars, og Eindriði eða Indriði sonur þeirra voru erfingjar fjárins; heimti Einar það því af konungi og fekk það, en þetta varð þó með ýmsu öðru til þess að vekja hatur hjá konungi til Einars.[1])

Um 1046 tóku þeir fóstbræður Höskuldur Þorvarðsson og Brandur Gunnsteinsson sjer far norður í Þingeyjarþingi og fóru utan. Þeir komu út árið eptir á skipi, er kom út að Gásum. Ljósvetninga saga segir, að þetta hafi verið, þá er Ísleifur biskup var í Skálholti, en það getur tæplega verið rjett, ef átt er við biskupstíð hans eins og eflaust er gert. Þetta var áður en Koðrán Guðmundarson fjell, og utanferð þeirra mun því varla hafa verið seinna en 1046—1047.[2])

Maður nokkur, Már að nafni, tók sjer far með Kálfi hinum kristna um 1048, en svo er að sjá sem hann hafi jafnvel verið rekinn af skipinu, af því að hann myrti frænda sinn líkþráan til þess að losna við framfærslu hans; komst það upp sökum þess að þeim gaf eigi byr.[3])

Halli, sem kallaður var Sneglu-Halli, tók sjer far með norrænum stýrimanni til Noregs (um eða rjett eptir 1050).

[1]) Fms. VI, 271—274; Flat. III, 345—346. [2]) Ljósv. 22/202—203, 23/207—208, sbr. 29/238—41, 30/246—47; Hkr. III, 72/182. [3]) Ljósv. 28/236—237.

Halli var norðlenskur, ættaður úr Fljótum. Hann fór á fund Haralds harðráða og bað hann taka við sjer; konungur hjet að gefa honum mat, og fór hann þá til hans og var með hirðinni, líklega í tölu gesta. Halli var skáld, hnittinn og orðhákur mikill; hafði konungur stundum gaman af honum, eigi síst af orðahnippingum hans við Þjóðólf skáld Arnórsson. Halli orti drápu um Harald konung og fekk laun fyrir. Hann neyddi og Einar flugu að greiða sjer bætur eptir Íslending einn, sem hann hafði felt, og fyr er getið.

Halli var að eins einn vetur með Haraldi konungi í þetta sinn. Vorið eptir bað hann konung orlofs og fór til Danmerkur og þaðan til Englands. Í þætti Sneglu-Halla í Flateyjarbók og í Sex söguþáttum er ferð þessi kölluð kaupferð. En Halli var hrekkjóttur og brögðóttur, og sökum þess þótti honum ráðlegast að vera eigi lengi í Danmörku nje á Englandi. Á Englandi segir sagan, að hann flytti konungi kvæði, sem var einskisverð orðamælgi og enginn mátti því læra. Fyrir því fór hann skjótt þaðan og var það síðla um haustið. Öll skip þar í grend voru þá farin af Englandi til Noregs nema eitt, og í það höfðu margir Suðurmenn ráðist með þungan varnað, svo að Halli fekk eigi far. Sagan segir, að hann hafi þá fælt Suðurmennina burt úr skipinu með því að gera sjer upp draum um að skipið mundi farast. Svo fekk hann far og ferðin gekk vel. Fór Halli á fund Haralds konungs og var með honum um veturinn og líklega lengur. Sagan segir, að Halli hafi gerst hirðmaður konungs, en það hefur hann eigi verið lengi. Hann bað sjer orlofs til Íslands og fór þangað eptir tveggja eða öllu heldur þriggja ára brottveru (um 1051—1054).[1]

Um 1140 kom Íslandsfar (eða íslenskt far, Flat.) til Orkneyja, eins og fyr er sagt, og var þar á sá maður, er hjet Hallur, son Þórarins breiðmaga. Hann fór til vistar í Rínansey til húsfreyju nokkurrar, er Ragna hjet, og Þorsteins sonar hennar. Þar undi Hallur eigi, og fekk Ragna þá hirðvist handa honum hjá Rögnvaldi jarli kala Kolssyni. Var Hallur síðan lengi með honum. Þeir ortu báðir saman Háttalykil hinn forna, og ljetu vera fimm vísur með hverjum

[1]) Msk. 93—101; Fms. VI, 360—377; Flat. III, 415—428; Sex söguþ. 18—43. Um missagnir í þætti Sneglu-Halla sbr. Sex söguþ., Formála bls. VIII o. ef.

hætti. En það þótti of langt, og breyttu þeir því og ljetu þá vera tvær vísur með hverjum hætti. Mikið af kvæði þessu er enn til.[1])

Þórarinn rosti, íslenskur maður, var á skipi Hallsteins kúlubaks 1180 og hjálpaði Guðmundi Arasyni, en eigi segir nánar af ferðum hans.[2])

Árið 1185 fóru mjög margir Íslendingar utan, og er skýrt frá því að þeir hafi ráðist í þrjú skip í Eyjafirði, sem þar stóðu þá uppi. Eitt þeirra átti Ögmundur rafakollur; í það rjeðst Þorgeir Brandsson, biskups, Sæmundarsonar á Hólum. Hann bjó þá að Stað í Reyninesi og brá búi. Þar rjeðst til utanferðar með honum Þórólfur prestur Snorrason, Þorsteinn og Þorkell Eirikssynir og margt annað íslenskra manna; er nefndur einn þeirra, Gunnar (eða Guðmundur) frá Auðkúlu. Þeir komu í Þrándheim og var Þorgeir með Eysteini erkibiskupi um veturinn. Vorið eptir fór hann og fjelagar hans til Íslands, líklega á sama skipi, þótt eigi sje þess getið. Hann tók þá sótt í hafi og lá þar til þeir tóku land á Eyrum. En er hann kom í land, óx sóttin að nýju, og andaðist hann 13. eða 17. ágúst 1186. Lík hans var flutt til Hóla, og spurði faðir hans þá fyrst andlát hans.[3])

Á öðru skipi í Eyjafirði tóku sjer þá far Karl ábóti Jónsson, Ingimundur prestur Þorgeirsson, sem fyr er frá sagt, og Ögmundur Þorvarðsson sneis bróðursonur hans og margt annað íslenskra manna. Þeir tóku land í Niðarósi og komst Karl ábóti í kynni við Sverri konung; segir eigi annað af því, en að Sverrir ljet hann byrja á að rita sögu sína. Karl ritaði þá fyrri hlutann af henni, en yfir sat Sverrir konungur sjálfur, og rjeð fyrir hvað rita skyldi. Sýnir þetta að Sverri konungi hefur fundist til um greind hans og fróðleik. Af útkomu Karls ábóta segir ekki í fornritunum, en Finnur biskup Jónsson segir, að hann hafi tekið aptur við ábótaembættinu á Þingeyrum 1187.[4]) Hann ætlar því að hann hafi komið aptur til Íslands það ár. Því hefur Jón Sigurðsson fylgt og ýmsir fleiri fyr og síðar,[5]) en þetta er þó ekki rjett.

[1]) Icel. s. I, 139—140; Flat. II, 468. [2]) Guðm. s., Bps. I, 422—423; Sturl. I, 138—140. [3]) Guðm. s., Bps. I, 429—430; Sturl. I, 146—147, 156; Ann. IV, VIII, IX. [4]) Hist, eccl. Isl. IV, 31. [5]) Dipl. I, 305; P. E. Müller, Sagabibliotek III, 420; R. Keyser, Efterladte Skrifter I, 449: Guðbr. Vigfússon, Prolegomena, Sturl. 1, lxx,

Í Konungs annál segir, að árið 1187 hafi ekkert skip komið af Noregi til Íslands. Skálholts annáll segir hið sama; og það er eigi hægt að sanna að þetta sje rangt, því að hvergi sjer þess merki, að skip hafi komið til landsins þetta ár. Karls Jónssonar getur fyrst aptur á Íslandi í árslok 1193, og var hann þá ábóti á Þingeyrum. Kári ábóti Runólfsson andaðist 1187, líklega seint á ári; í Lögmanns annál og í Guðmundar sögu Arasonar er dauðaár hans talið 1188. Andlátsfregn hans hefur varla borist til Noregs fyr en 1188, og fyr hefur Karl ábóti eigi heldur farið út til Íslands; en líklegast er að hann hafi komið heim úr utanferðinni 1189.[1])

Ögmundur Þorvarðsson dvaldi lengi í Noregi. Hann hjelt sjer til þess flokks, sem stóð sama megin að málum sem Ingi konungur og Magnús konungur Erlingsson, því að þeim hafði faðir hans og föðurbróðir fylgt. Hann var því um hríð hirðmaður Jóns kuflungs, sem fjell í desember 1188, og vel metinn, segir sagan. Ögmundur var þó hinn mesti uppvöðslumaður. Hans getur nú eigi fyr en 1192 eða 1193; þá kom hann út í Austfjörðum, og er síðan sagt töluvert af honum, sumt æði misjafnt.[2])

Á hinu þriðja skipi, sem ljet í haf úr Eyjafirði 1185, tók sjer far Teitur Guðmundarson, bóndi á Helgastöðum í Reykjadal. Haustið áður hafði hann tekið við þremur Austmönnum af skipi þessu í veturvist og líkað vel við þá. Honum þótti því fýsilegt að fara utan með þeim, því að hann hafði ekki áður af landi farið. Einhverjir fleiri Íslendingar munu hafa farið með þeim. En af Teiti er það að segja, að hann andaðist vorið eptir í Noregi, og spurðist lát hans til Íslands um sumarið (1186).[3])

Ari hinn sterki Þorgilsson, sonarsonur Ara hins fróða, bóndi á Stað á Snæfellsnesi og goðorðsmaður, brá til utanferðar, en seldi Stað og bú í hendur Þórði Sturlusyni og gipti honum dóttur sína. Guðný Böðvarsdóttir, ekkja

---

sem segir í ógáti að hann færi utan 1184; Janus Jónsson, Tímarit Bókmentafjelagsins VIII, 184. [1]) Guðm. s., Bps, I, 429, 432; Þorl. s., Bps. I, 114, 300, 301; Sturl. I, 146, 150; Fms. VIII, 1, 5; Eirsp. 1; Flat. II, 533; Ann. IV, V, VII. Munch, Hist. IV, 395 segir, að ókunnugt sje, hve lengi Karl ábóti hafi verið í Noregi, og að hans sje fyrst getið á Íslandi árið 1200, en það er skakt. [2]) Guðm. s., Bps. I, 429, 433—435, 447; Sturl. I, 146, 150—152, 177. [3]) Sturl. I, 154—156.

í Hvammi, seldi einnig bú sitt af höndum, og rjeðust þau Ari bæði til skips vestur í Vaðil og fóru þar utan (1186). Voru kærleikar miklir með þeim. En Ari varð eigi gamall. Eitt sinn gekk hann til með mönnum að bera langskipsrá. Þeir vissu að hann var sterkari en aðrir menn og var forvitni á að reyna afl hans; þeir hlupu því undan ránni, en Ari ljet hana eigi falla niður að heldur. Eptir það tók hann sótt og andaðist 1188. Guðný fór þá aptur til Íslands og tók við búi sínu í Hvammi.[1])

Hafliði Snorrason í Vatnsfirði, vitur maður og vinsæll og hið besta höfðingjaefni, rjeðst 1190 til skips með Ásmundi kastanraza og ætlaði utan, eflaust til Noregs, en það skip týndist í hafi og öll skipshöfn, sú er þar var á. Fóru þar margir íslenskir menn, þeir er mikill skaði var að.[2])

## VI. Íslendingar gerðir utan og forða sjer til annara landa.

Eptir víg Grettis Ásmundarsonar og Illuga bróður hans var Þorbjörn öngull Þórðarson gerður sekur á alþingi 1032, og skyldi hann sigla samsumars og koma aldrei til Íslands meðan málsaðilar þeirra bræðra lifðu. Hann rjeðst þá í skip að Gásum og fór til Noregs, og var þar um veturinn. En er hann varð þess vís, að Grettir átti bróður í Noregi, þótti honum sjer þar eigi óhætt. Sumarið eptir (1033) fór hann því þaðan og ljetti eigi fyr ferðinni en hann kom út í Miklagarð. Þar gekk hann á mála með Væringjum.

Bróðir Grettis, sá er hjer ræðir um, hjet Þorsteinn drómundur. Þeir Grettir voru hálfbræður, samfeðra. Sagan segir, að Þorsteinn hafi eitt sinn sagt við Gretti, á meðan hann var í Noregi, að hann mundi hefna hans. Þorsteinn var þá um fimtugt, er Þorbjörn öngull kom til Noregs, en hann mintist ummæla sinna við bróður sinn, segir sagan; og er hann spurði, að Þorbjörn var farinn úr landi á leið til Miklagarðs, rjeðst hann til ferðar og veitti honum eptirför, og kom út í Miklagarð nokkru síðar en Þorbjörn. Þar kom hann sjer í sveit með Væringjum. Þá var Mikael katalak, segir Grettla, konungur yfir Miklagarði. Michael IV. sem kallaður var káta-

[1]) Sturl. I, 232—234; Ann. IV. [2]) Hs., Sturl.[2] II, 8/285, Bps. I, 651; Sturl. 51, 106, 154; Ann. I, III, IV, V.

laktús (af $\varkappa\alpha\tau\alpha\lambda\lambda\alpha\varkappa\tau\acute{\eta}\varsigma$, víxlari), varð keisari 1034, og munu þeir Þorsteinn eigi hafa komið til Miklagarðs fyr en um það leyti sem hann kom til ríkis. Þeir Þorbjörn höfðu aldrei sjest og þektust því ekki, en litlu síðar fekk Þorsteinn að vita hver hann var, og veitti honum þá banasár. Segir sagan, að Grettir Ásmundarson væri hinn eini Íslendingur, sem hefnt var út í Miklagarði.[1])

Hrafn Guðrúnarson að Melum í Hrútafirði hefndi föður síns og drap Kálf Þorgrímsson frá Stað í Hrútafirði, en Þorgrímur bóndi að Stað hafði vegið föður Hrafns fyrir 14 árum, þá er Hrafn var barn að aldri. Fyrir þetta gerði Þorgrímur Hrafn sekan skógarmann á alþingi, og kom Guðrún móðir hans honum þá í norrænt skip, sem var í Hrútafirði og búið til hafs. Guðrún var systir Sighvats skálds Þórðarsonar og nauť hún og sonur hennar hans hjá einum Norðmanni, sem tók hann á skipið (líkl. 1042). Af Hrafni er dálítill þáttur, og segir þar að húsbóndi hans í Þrándheimi, Ketill rípur, vildi selja hann í þrældóm, líklega sökum þess að hann talaði löngum við dóttur hans og þær mæðgur, en fyrir það drap Hrafn hann. Magnús konungur hinn góði gerði hann þá útlægan, en Hrafn barðist með honum á Hlýrskógsheiði (28. septbr. 1043) mjög fræknlega og tókst að vinna hylli hans. Gaf Magnús konungur honum þá upp sakir og gipti honum dóttur Ketils ríps. Áður fór þó Hrafn til Íslands og færði fram sýknu sína á alþingi. Síðan fór hann aptur til Noregs hið sama sumar, og móðir hans með honum, og staðfestist þar (líkl. 1044).[2])

Eptir bardagann við Kakalahól og víg Koðráns Guðmundarsonar (líkl. 1047) voru nokkrir Ljósvetningar gerðir utan þrjá vetur, Þorvarður Höskuldsson á Fornastöðum í Fnjóskadal, sonarsonur Þorgeirs Ljósvetningagoða, Höskuldur sonur hans, Brandur Gunnsteinsson og Þorkell Hallgilsson að Veisu. Enn fremur varð sekur Hallur Ótryggsson, sem nú var kallaður Koðránsbani, og skyldi fara utan og eiga aldrei útkvæmt. Þeir fóru þegar til skips (líkl. 1048) og fekk Þorvarður far handa þeim öllum hjá Austmanni einum, sem hjet Kálfur og kallaður var hinn kristni. Hann var þá með skip sitt í Svarfaðardalsárósi. Segir sagan,

---

[1]) Grett. 84/291, 41/155, 85—86/293—296, 93/315. [2]) Fms. VI, 102—119.

að Þorvarður hafi viljað kaupa af honum skipið, og hann hafi lofað honum að skipa það að helmingi. Hrafn Þorkelsson háks, bóndi að Lundarbrekku í Bárðardal, fór og utan með þeim, því að hann hugði að hefndum mundi snúið að sjer, er þeir væru farnir. Þeir komu til Noregs, en stóðu þar eigi lengi við, enda var þeim þar hætt við hefnd af hendi eins frænda Koðráns. Þeir hjeldu því til Danmerkur, en á leiðinni komu þeir við í Víkinni. Þar hitti Þorvarður mann einn, er Bárður hjet, og vingaðist við hann, og fekk honum í hendur Hall Ótryggsson. Fór Bárður kaupferð í Austurveg og Hallur með honum. En Þorvarður fór suður til Róms og með honum Höskuldur, Þorkell og Brandur. Á heimleiðinni þaðan andaðist Þorvarður á Saxlandi, en Brandur Gunnsteinsson fór til Haralds konungs harðráða og var með honum og fjell að lokum með honum á Englandi (1066).

Höskuldur Þorvarðsson og menn hans, þar á meðal líklega Þorkell þótt hann sje eigi nefndur, hjeldu áfram ferðinni til Íslands og komu út á Eyrum. Með Höskuldi er þá nefndur Hárekur að Ási í Kelduhverfi, tengdasonur Þorvarðs og mágur Höskulds; hefur hann líklega farið utan með þeim feðgum, þótt hann sje eigi nefndur fyr. Þeir fóru síðan norður Kjöl til átthaga sinna.

Af Halli Ótryggssyni er það að segja, að hann rjeðst til Haralds konungs harðráða og voru þeir Brandur báðir með honum. Sumarið 1064 var konungur í Vík austur og fór um haustið upp í vatnið Væni með skip og herlið á móti Hákoni jarli Ívarssyni. Hann hjelt austur yfir vatnið og barðist við jarl austur á Gautlandi og hafði sigur. Konungur fór þá aptur á skip sín, en um nóttina lagði svo þykkan ís um þau, að ganga mátti umhverfis þau. Konungur bauð þá að höggva ísinn frá skipunum. Þá er menn höfðu höggið ísinn út frá skipunum, hljóp maður út eptir ísnum, þar til er höggva skyldi, og hjó ísinn í mesta ákafa. Þá mælti maður, að enginn væri jafnliðgóður, hvar sem hann gengi til, sem hann Hallur Koðránsbani; »sje nú, hversu hann höggur ísinn«. Skip Magnúss sonar Haralds konungs lá þar næst vatninu og á því var Íslendingur einn, er hjet Þormóður Ásgeirsson (Ljósvetninga saga) eða Eindriðason (Noregskonunga sögur). Þá er hann heyrði Hall Koðránsbana nefndan, hljóp hann til hans og hjó hann banahögg. Jórunn móðir Þormóðar og

Koðrán voru systkinabörn, en Þormóður var veturgamall, segir Snorri, þá er Koðrán var veginn og hafði aldrei sjeð Hall Ótryggsson fyr en þá. Hann var þá kominn af Íslandi, líklega um sumarið (1064), og sat um hann, segir Ljósvetninga saga. Ef það er rjett, að Þormóður hafi að eins verið veturgamall er Koðrán var veginn, hefur víg hans eigi getað verið síðar en 1047, því að Þormóður hefur eigi verið yngri en 18 vetra, þá er þetta var. Hins vegar er svo að sjá af Ljósvetninga sögu sem Haraldur harðráði hafi verið orðinn einn konungur í Noregi, þá er Ljósvetningar komu þangað árið eptir vígið. Sagan segir, að þeir væru gerðir utan á Hegranesþingi og að þeir færu af þingi til skips í Eyjafirði. Þar urðu þeir lengi að bíða byrjar, svo að jafnvel tók að hausta áður en þeir ljetu í haf. En þeir hafa þó varla komið svo seint til Noregs, að Haraldur harðráði hafi þá verið vestan fjalls eða norðan í Noregi, ef um árið 1047 væri að ræða, því það ár kom konungur þangað eigi fyr en í miðjum nóvember. Þá er Magnús konungur hinn góði andaðist 25. október, voru þeir Haraldur með her suður í Danmörku, líklega við Suðurjótland. Eptir það fór Haraldur til Víkurinnar og hjelt þar þing og ljet hylla sig. Síðan fór hann vestur og norður með landi og ljet taka sig til konungs í hverju fylki. Að vísu fór hann næsta sumar herferð til Danmerkur, en þá var hann varla eins lengi fram á haustið. Hins vegar verður að gæta að því, að vorþingin á Íslandi voru haldin í maímánuði og orðið »að hausta« er heldur óákveðið tímatakmark; er það eins og »að vora« opt notað eptir því, hvernig veðráttan er. Leiðarþingin voru háð í júlí eða í ágúst og voru þó opt nefnd haustþing. Það má því vel vera að þeir Kálfur hinn kristni og Ljósvetningar hafi látið í haf í miðjum ágústmánuði, þótt sagt sje að þá væri tekið að hausta, enda segir sagan að veðráttan væri köld og útnyrðingar.

Eptir þessu að dæma er líklegast að Koðrán Guðmundarson hafi fallið 1047, en að Ljósvetningar hafi verið dæmdir af landi brott og farið utan 1048, ef marka má einstök atriði í Ljósvetninga sögu um þetta.[1])

---

[1]) Ljósv. 25/223, 27—29/234—242, 30—31/246—248, 273; Msk. 92; Hkr. III, 72/181—182; Fms. VI, 337; Flat. III, 376. Guðbr. Vigfússon,

Eptir þessar deilur er um alllangt skeið lítið getið um deilur og vígaferli, og eigi heldur um menn, sem urðu að flýja af landi brott, fyr en 1120. Það ár drap Grímur Snorrason frá Múla í Saurbæ Ólaf Hildisson að Staðarhóli. Síðan fór hann á fund Hafliða Mássonar og hann sendi hann austur í fjörðu til Finns Hallssonar, er síðar varð lögsögumaður (1139—1145), og kom hann Grími utan til þess að koma honum undan hefnd. Seinna kom Grímur út aptur og staðfestist þá í Austfjörðum.[1])

Aðalríkur (eða Óðalríkur) Gunnfarðsson vá Skeggja Gamlason, bónda á Skeggjastöðum í Dölum, og var skotið undan norður á land og þaðan til Austfjarða. Um sumarið varð hann sekur á alþingi, en honum var komið utan af Austfjörðum (um 1150).[2])

Þórir Þorgrímsfóstri, norðlenskur maður, var þjófur og útilegumaður vestur í Dölum; hann særði mann til ólífis, en Einar Þorgilsson á Staðarhóli hjálpaði honum og kom honum utan (um 1152).[3])

Kjartan Halldórsson, húskarl í Holti, særði mann til ólífis og flýði til Sturlu Þórðarsonar í Hvammi, og skaut hann skjóli yfir hann; en síðan tóku frændur hans við honum og komu honum utan og gáfu fje til farningar honum (eptir 1161).[4])

Þorgeir Böðvarsson, eða Arnóruson eins og hann var venjulega nefndur, vá Tanna bónda í Galtardalstungu og varð sekur skógarmaður, en Sturla Þórðarson í Hvammi kom honum utan um sumarið í Eyjafirði. Ófeigur Bergsson eða Salgerðarson, heimamaður Sturlu, fylgdi honum norður og fór utan með honum. Sumarið eptir kom Ófeigur út og fór þá til Sturlu; en Þorleifur beiskaldi, frændi Tanna og goði, stefndi þá Ófeigi fyrir það, að hann hefði verið í förum með Þorgeiri (um 1172—1173).[5])

Þorleikur Birningsson og Snorri, unglingsmaður nokkur, urðu sekir eptir banasár við Einar Þorgilsson að Staðarhóli, og var gefið fje til farningar þeim (1186). Þeir

Safn I, 489, ætlar að þessir atburðir hafi gerst 1050—1060, en það er rangt. Eptir honum hefur útgefandi Ljósvetninga sögu, Guðm. Þorláksson, farið, sbr. Ljósv. bls. 199. [1]) Sturl. I, 23—25. [2]) Sturl. I, 58—59. [3]) Sturl. I, 62—64. [4]) Sturl. I, 75—76. [5]) Sturl. I, 93—94.

fóru báðir utan vestur í Vaðli, með sama skipi sem Ari hinn sterki og Guðný Böðvarsdóttir.[1])

Brandur Örnólfsson særði mann til ólífis að Gásum, flýði síðan á Víðimýri til Kolbeins Tumasonar, og ljet hann fylgja Brandi austur til Svínafells á fund Sigurðar Ormssonar og kom hann honum utan (um 1191). Brandur varð síðan sekur fyrir vígið. Hann gekk suður, en andaðist á leiðinni.[2])

Á síðustu árum aldarinnar eru nefndir fimm Íslendingar, sem voru annaðhvort gerðir utan eða flýðu land sökum afbrota sinna. Hinn fyrsti þeirra var Ingi Magnússon, bóndi að Hvalskeri í Patreksfirði, grályndur maður. Hann drap Markús Gíslason, bónda að Saurbæ á Rauðasandi, sem fyr er nefndur; fyrir það var Ingi gerður af landi brott og skyldi hann aldrei koma aptur (um 1196—1197). Hann fór utan og kom eigi aptur.[3])

Markús Skeggjason, bóndi á Eyri í Kjós, drap sambýlismann sinn og særði son hans. Hann var gerður utan og skyldi aldrei koma út (um 1198).[4])

Magnús prestur Þórðarson á Mýrum í Dýrafirði sendi menn eptir Jórunni Snorradóttur höfðingjadóttur í Vatnsfirði, og hafði hana heim til sín á Mýrar. Það var leitað að henni, bæði af einum vin hennar og Þorvaldi bróður hennar; en sjera Magnús faldi hana, og leyndist síðan í helli einum með hana. Eptir það fór Jórunn í karlmannsföt og fór með Magnúsi suður á Eyrar á laun. Þaðan fóru þau af landi á braut, og komu til Noregs (um 1198—1199). Þar kvongaðist Magnús prestur Jórunni að ráði Erlends múgamanns, frænda hennar, er var hirðmaður Sverris konungs. Þau voru síðan lengi í Noregi og áttu margt barna.[5])

1199 fór Vigfús prestur Önundarson, Þorkelssonar á Laugalandi, og Sölvi Þóroddsson utan. Þeir höfðu verið að vígum Þorsteins og Snorra Arnþrúðarsona og Hákonar og Hildibrands Þórðarsona í Laufási árið áður, og mun það eflaust hafa verið ástæðan til utanferðar þeirra, þótt þess sje eigi beinlínis getið; þeir fóru utan áður en gert var um vígin og urðu þeir síðan ekkert við þau mál riðnir.[6])

Þess má einnig geta hjer að einstaka sinnum voru menn

[1]) Sturl. I, 233—234. [2]) Sturl. I, 172—173. [3]) Hs., Sturl.[2] II, 282, 284; Bps. I, 648, 650. [4]) Sturl. I, 239—240. [5]) Hs., Sturl.[2] II, 287; Bps. I, 653. [6]) Sturl. I, 211, sbr. 203—204.

gerðir utan, án þess að þeir færu. Á meðal slíkra manna voru bæði Arnþrúðarsynir og Þórðarsynir. Þeir voru að Lönguhlíðarbrennu vorið 1197 og voru gerðir utan á alþingi um sumarið; skyldi annar þeirra hvorratveggju bræðranna vera utan þrjá vetur, en annar koma eigi út aptur; skyldu þeir ráða, hvor þeirra kysi það. Þórður Laufæsingur var og einn brennumanna, og skyldi hann einnig fara utan og vera utan þrjá vetur eða gjalda fimtán hundruð, en hann kvaðst hvorugt gera mundu. Brennusumarið og sumarið eptir (1197 og 1198) komu engin skip í Norðlendingafjórðung; fyrir því dvöldust utanferðir þeirra Arnþrúðarsona og Þórðarsona, og voru þeir því drepnir eins og fyr er sagt. En Þórði varð það til lífs, að hann var eigi heima, þá er þeir Þorgrímur alikarl og mágar hans komu í Laufás.[1])

Eptir víg Þórhalls Svartssonar, bónda á Hólmlátri, varð Bergþór Snartarson sekur skógarmaður, og Tjörvi eða Torfi bróðir hans fjörbaugsmaður; skyldi hann vera utan þrjá vetur (um 1174). Bergþór var ferjandi, en eigi er neitt um það kunnugt, hvort þeir bræður hafi farið utan.[2])

## VII. Enn ýmsar utanferðir Íslendinga.

Þótt flestir þeir flokkar, sem nú eru taldir á tímabili þessu, sjeu fremur þunnskipaðir, eru þó til næg skírteini um það, að Íslendingar fóru opt utan á þessum tímum og að þeir stóðu í allmiklum og margvíslegum viðskiptum og sambandi við aðrar þjóðir, bæði andlega og veraldlega. Þótt heimildarritin sjeu bæði heldur fá og stuttorð um allmikinn hluta af tímabili þessu, er þó við ýms tækifæri getið margra Íslendinga erlendis, utanferða þeirra eða útkomu, án þess að nokkuð sje skýrt frá því, hvernig þeir fóru utan. Síðasti flokkurinn, þar sem þessum mönnum er skipað, verður því langfjölmennastur. Hann er fjölmennari en allir hinir flokkarnir til samans, og honum mætti skipta í ýmsa flokka. Í einum hópnum mætti telja hirðmenn og hirðskáld, í öðrum pílagríma og suðurgöngumenn, í þriðja námsmenn, í fjórða

[1]) Sturl. I, 197—198, 199, 201—204. [2]) Sturl. I, 100—102.

kennimenn, sem fóru utan að sækja biskupsvígslu o. s. frv.; en þetta skal þó eigi gert, heldur verður haldið sömu skipun sem áður og menn þessir taldir í rjettri tímaröð að því leyti sem það er hægt. Í síðasta þættinum mun svo verða vikið að þessu með nokkrum almennum athugasemdum til skýringar.

Úlfur Óskapsson, sonarson Ósvífrs Helgasonar og bróðurson Guðrúnar Ósvífrsdóttur, var með Haraldi harðráða út í Miklagarði og kom með honum þaðan til Noregs. Hve nær Úlfur fór fyrst utan er ókunnugt. Hann var fæddur um 1000, líklega það ár eða 1001. Af því að hann var óskilgetinn, tók Ljótur hinn spaki á Ingjaldssandi, móðurbróðir hans eða móðurfaðir,[1]) hann að sjer; en litlu síðar var hann veginn. Af Úlfi segir nú eigi fyr en hann var kominn til Haralds harðráða, en líklega hefur hann vaxið upp á Ingjaldssandi með móður sinni eða móðurfrændum, og farið utan, er hann var orðinn fulltíða maður, og gerst maður Haralds harðráða austur í Garðaríki. Úlfur var mjög hraustur maður og vopndjarfur eins og Halldór Snorrason, en þeim var ólíkt farið að mörgu. »Hann var hinn vitrasti maður, snjallur í máli, skörungur mikill, tryggur og einfaldur« (Snorri). Hann hjelt vináttu við Harald harðráða til dauðadags. Konungur gerði hann stallara sinn og gipti honum Jórunni Þorbergsdóttur, systur Þóru, er konungur átti; urðu niðjar þeirra, einkum Eysteinn Erlendsson erkibiskup, nafnkunnir menn í Noregi. Haraldur konungur gaf Úlfi lends manns rjett og 12 marka veislur og auk þess hálft fylki í Þrándheimi; komst Úlfur þannig til hinna mestu metorða í Noregi. Hann var með Haraldi konungi á herferðum hans til Danmerkur, og getur hans í Nizarorustu. Vorið (1066), áður en Haraldur fór vestur um haf til Englands, andaðist Úlfur stallari. Konungur stóð yfir grepti hans og mælti, er hann gekk frá: »Þar liggur sá nú, er dyggvastur var og drottinhollastur«.[2])

Már Húnröðarson, faðir Hafliða Mássonar, var sveitarhöfðingi í liði Væringja í Miklagarði, um það leyti sem Har-

[1]) Ldn. 27/144, 28/145 segir, að Ljótur væri bróðir Ásdísar móður Úlfs, en í Lax. 50/194 að hann væri faðir hennar. [2]) Msk. 9, 12—13, 77, 78, 111; Fsk. 228, 263—64, 267—68, 281, 391; Hkr. III, 9/87, 14/95, 36/129, 37/130, 61/160, 79/192; Fms. VI, 160, 164—165, 266, 311, 313—14, 401; Flat. III, 344, 388; Ljósv. 29/238—39.

aldur harðráði kom þangað, segir sagan. Sögusögn ein segir, að Haraldur nefndist eigi rjettu nafni, þá er hann kom til Miklagarðs, heldur Norðbrikt, og að hann vildi eigi láta vita, að hann væri konungborinn. Má Húnröðarson hafi þá grunað hver hann væri, og farið til fundar við Halldór Snorrason og reynt að fá að vita hið sanna af honum, en orðið einskis vísari. Már hafi þá ráðist í brott frá Væringjum og síðan úr Miklagarði. Öll sögusögn þessi er uppspuni.[1]) Hins vegar er það eigi ólíklegt, að Már hafi verið um hríð í Miklagarði á meðan Haraldur harðráði var þar, líklega helst á seinni árum hans þar syðra.

Af því að prófessor Gustav Storm ætlar að það sje mjög ólíklegt, að faðir Hafliða Mássonar hafi komið til Miklagarðs svo snemma á tímum sem um 1035, skal þetta skýrt nánar. Hafliði Másson andaðist 1130, og ætlar Storm, að hann hafi fæðst um 1070—1080.[2]) En Hafliði Másson var miklu eldri. Hans getur að vísu mest á árunum 1117—1121, en hann var þá á gamals aldri,[3]) tvígiptur, og Sigríður dóttir hans af öðru hjónabandi var þá fullorðin og gipt Þórði Þorvaldssyni í Vatnsfirði líklega fyrir nokkrum árum. Þórður veitti tengdaföður sínum í deilunum við Þorgils Oddason. Hann var í brúðkaupinu á Reykhólum 1119; hann var þá »á efra aldri«, segir sagan, en þó »enn hraustur«, þrátt fyrir það þótt hún segi, að hann »kendi vanheilsu«, »innanmeins«.[4]) »Á efra aldri« er nokkuð óákveðið, og mjög gamall hefur Þórður eigi verið af því að hann var fjórði maður frá Snorra goða, og það frá Halldóri syni hans, sem kvongaðist eigi fyr en um miðja 11. öld (Snorri goði — Halldór — Guðrún — Þorvaldur Kjartansson — Þórður).[5]) Þórðar er getið á lífi 1143 og bendir það á, eins og ættartala hans, að hann hafi verið um þrítugt, þá er hann var í Reykhólabrúðkaupinu. Mikið eldri hefur hann eigi getað verið, nema því að eins að Halldór Snorrason hafi kvongast töluvert fyr, en Noregs konunga sögur benda á. Mjög ungur hefur hann eigi heldur verið, því að hann er talinn með helstu höfðingjum landsins 1118, og sögn Sturlungu bendir einnig á

[1]) Fms. VI, 135; Flat. III, 290—291, sbr. Msk. 7—12. G. Storm, (Norsk) Hist. Tidsskr. 2. R. IV, 359, 364. [2]) Sama rít, bls. 364. [3]) Sturl. I, 45. [4]) Sturl. I, 19. [5]) Ldn. 5/186—187; Sturl. I, 51; Hs., Sturl.[2] II, 285.

að hann hafi verið sköllóttur 1119, þótt þar sje tekið of djúpt í árinni að telja hann á efra aldri; það væri að eins nærri sanni, ef þess væri gætt, að mannsæfin var þá venjulega töluvert styttri en nú á tímum.[1])

Fyrri kona Hafliða Mássonar var Þuríður Þórðardóttir, Sturlusonar (Víga-Sturlu), Þjóðrekssonar. Sturla var samtíða Snorra goða, en þó eitthvað eldri. Þórður sonur hans er varla fæddur síðar en snemma á 11. öld (um 1000—1015) og Þuríður dóttir hans einhvern tíma á miðri 11. öld. Hún hefur gipst Hafliða um 1075—1080. Síðar hefur það varla verið svo að neinum mun nemi, því að »þau áttu margt barna«, og hafa því verið gipt í mörg ár. Síðan átti Hafliði Rannveigu Teitsdóttur frá Haukadal. Þeirra dóttir var Sigríður, kona Þórðar í Vatnsfirði, og hafa þau því hlotið að giptast einhvern tíma kring um 1195. Rannveig var á alþingi 1120 með manni sínum, og hefur hitt þar frændfólk sitt, Haukdæli og Mosfellinga. Teitur faðir hennar var þá dáinn fyrir hjer um bil tíu árum (1110), en Gissur biskup fyrir tveimur árum (1118), og var hann fæddur 1042; er líklegt að Teitur hafi verið elstur þeirra bræðra og fæddur um 1040, en fæðingarár hans er eigi nefnt. Að vísu er Gissur venjulega talinn fyrstur þeirra bræðra í sögunum, en það mun vera af því að hann var þeirra göfgastur og frægastur, en eigi beinlínis sökum aldurs.[2]) Ef Teitur hefur verið yngri en Gissur, hefur hann þó eigi verið fæddur síðar en um 1044.

Þetta bendir því á að Hafliði hafi eigi verið fæddur síðar en um 1055, og því má vera að faðir hans hafi verið í förum um 1035. Á hið sama bendir aldur Bergþórs Mássonar, bróður Hafliða. Hann átti Kolþernu Eyjólfsdóttur halta á Möðruvöllum. Eyjólfur tók við ríki eptir Guðmund hinn ríka föður sinn, er hann andaðist veturinn 1024—1025. Hann var þá fullorðinn og hann lifði eitthvað fram yfir miðja 11. öld. Hvaða ár Kolþerna er fædd, er ókunnugt, en ólíklegt er að það hafi verið síðar en um 1040 til 1050. Tengdasonur Bergþórs var Finnur Hallsson lögsögumaður († 1145), og er svo að sjá sem hann hafi fengið Halldísar Bergþórsdóttur löngu

[1]) Krist., Bps. I, 31; Ísl. I, 329, 384; Dipl. Isl. I, 186, 190.
[2]) Sturl. I, 7—8, 28—29; Krist., Bps. I, 31—32; Krist., Ísl. þ. og Hungr. Bps. I, 27, 54, 61, sbr. Ldn. 95—96, þar sem synir Guðrúnar Ósvífrsdóttur eru taldir eptir metorðum og frægð, en eigi eptir aldri.

fyrir 1120.[1]) Alt þetta bendir á að Bergþór hafi verið fæddur einhvern tíma á miðri 11. öld, og verið heldur eldri en Hafliði bróðir hans. Þeir bræður munu hafa verið fæddir einhvern tíma á árunum 1045—1055.

Hafliði Másson var fjórði maður frá Ævari landnámsmanni Ketilssyni. Ævar er í Vatnsdæla sögu kallaður hinn gamli. Hann kom út seint á landnámsöld, og Vjefröður sonur hans um lok landnámsaldarinnar eða nokkru síðar. Hann kvongaðist Gunnhildi, dóttur Eiríks úr Goðdölum, systur Hólmgöngu-Starra og bræðra hans, sem taldir eru með mestu höfðingjum landsins um 981.[2]) Systir þeirra hefur verið samtíða þeim og synir hennar og Vjefröðar voru þeir Úlfhjeðinn, Skarphjeðinn og Húnröður, faðir Más; mun hann hafa verið yngstur þeirra bræðra. Hann kemur við sögur rjett í byrjun 11. aldar,[3]) og þá á hann að hafa farið utan eins og fyr er sagt. Ef hann hefur eignast Má son sinn nokkru eptir að hann kom úr þeirri ferð, eða um 1010, þá mátti hann vera í förum og kominn út í Miklagarð um 1035, en eignast þó Bergþór og Hafliða 10—20 árum síðar, er hann var setstur að á Íslandi. Ætt þessi gekk mjög seint fram, en þó eigi seinna en sumar ættir á vorum dögum.[4]) En ef einhvern lið kann að vanta í hana, þá er það eigi á milli Más og Hafliða, heldur fyr.

Þjóðólfur Arnórsson, skáld, var norðlenskur og óx upp í Svarfaðardalnum. Hann mun hafa farið utan einhvern tíma um 1033, því að hann orti um Harald jarl Þorkelsson, er var í Noregi með Sveini konungi Álfífusyni. Seinna fór Þjóðólfur aptur utan (um 1043) og var þá með Magnúsi konungi góða, og orti flokk um hann (um 1045). Eptir fráfall hans gerðist Þjóðólfur hirðskáld Haralds harðráða, og var lengstum með honum; er opt vitnað til kvæða hans í Noregs konunga sögum. Um 1053 fór hann til Íslands og hafði þá með hest þaðan til Noregs, segir sagan. Þjóðólfur var með Haraldi konungi til dauðadags hans og barðist með honum við Stanforðabryggju; hefur hann líklega fallið þar eða látist litlu síðar af sárum.[5])

[1]) Sturl. I, 8, 24—25. [2]) Krist. Bps. I, 4; Ldn. 5/185—186. [3]) Sbr. Ísl. sögu mína II, 503—504. [4]) Sbr. Magnús Stephensen, Tímarit Bókmentafjel. V, 173 o. ef. [5]) Msk. 69—70, 93—97, 102, 116, 119; Hkr. II, 239/512, III, 1/7, 5/12, 28/49, 30/53—58, o. fl.; 32/120,

Tveir Islendingar Þorkell Geirason af Lyngum og Atli Höskuldsson, faðir Bárðar svarta í Selárdal, voru með Magnúsi konungi góða í orustunni á Hlýrskógsheiði (28. septbr. 1043). Þeir eru nefndir af því, að þeir voru meðal þeirra tólf manna, sem Magnús konungur valdi eptir orustuna meðal hinna mjúkhendustu manna til þess að binda um sár manna.[1]) Annars er ekkert kunnugt um utanferð þeirra. Hið sama er að segja um utanferð Odds Gellissonar. Hann var einnig með Magnúsi konungi í orustunni á Hlýrskógsheiði, en er nefndur af því að hann sagði flest af því á Íslandi, sem segir í sögu Magnúss góða af orustunni.[2])

Oddur kíkinaskáld var í Noregi um 1047 og orti erfidrápu um Magnús konung góða, og harmaði hann sáran. Um hann er annars lítið sem ekkert kunnugt, en hann mun hafa verið Íslendingur, þótt þess sje eigi beinlínis getið.[3])

Járnskeggi, íslenskur maður, af ætt Möðruvellinga í Eyjafirði að því er virðist, var með Haraldi harðráða um 1048. Hann vildi, segir sagan, hefna Koðráns Guðmundarsonar. Líklega hefur þetta verið Járnskeggi Einarsson frá Þverá, en þó er það eigi víst eptir Ljósvetninga sögu að dæma; sonur hans Einar bjó þá að Þverá, en vera má að hann sje talinn þar fyrir á meðan faðir hans hafi verið ytra. Í Bandamanna sögu er Járnskeggi Einarsson talinn einn af bandamönnum og hefur hann þá verið kominn heim aptur, ef það er sami maðurinn eins og líklegt er.[4])

Bölverkur Arnórsson, bróðir Þjóðólfs, var skáld, og mun hafa verið hjá Haraldi harðráða um 1050. Hann orti um hann, en annars er ekkert um hann kunnugt.[5])

Valgarður af Velli, líklega af Velli á Rangárvöllum, í Hvolhreppnum, — Valgarðsnafnið bendir einnig í þá áttina, — var um hríð með Haraldi harðráða og orti um hann, en annars er ekkert um æfi hans kunnugt.[6])

---

60/156—158, 91/207, 92/210, 99/219—220; Fms. VI, 348—349, 361—369, 385—386, 417, 420, 429—430; Flat. III, 339, 377—378, 393, 396, 415—422, 427—428; Sex söguþ. 18, 22—31, 40, 42; Skjaldedigtningen, A, 361—383. [1]) Hkr. III, 28/50; Fms. VI, 74; Hs., Sturl.[2] II, 275—276; Bps. I, 639. [2]) Fms. VI, 62—63; Flat. III, 279. [3]) Fsk. 248; Hkr. III, 35/69, 28/116; Fms. VI, 90, 236—237; Flat. III, 334. [4]) Ljósv. 29/239—241; Band. 20, 22, 30, 34; sbr. Þórð. hr. 104. [5]) Msk. 21, 51; Fsk. 217, 243, 251; Hkr. III, 2/75—76, 24/111, 32/120; Fms. VI, 131, 135, 140—141, 185, 252; Flat. III, 289, 290, 292, 310—311, 335. [6]) Msk. 16, 17, 19; Fsk. 230, 233, 235, 237; Hkr. III, 17/99, 19/101; Fms. VI,

Nokkur skáld eru enn nefnd hjá Haraldi harðráða, sem ortu um hann, en eru ókunn að öðru leyti. Þau munu þó hafa verið íslensk, komið af Íslandi og líklega horfið heim aptur, að minsta kosti sum þeirra. Eitt þessara skálda var Illugi Bryndælaskáld,[1]) annað Grani skáld,[2]) þriðji Þórarinn Skeggjason, og ortu þau sína drápu hvert um konung.[3])

Skeggbroddi Bjarnason, Brodd-Helgasonar, á Hofi í Vopnafirði, hefur farið utan, því að sagan segir, að hann væri með Haraldi harðráða og þætti þar hinn tígulegasti maður. Utanferð Skeggbrodda mun hafa verið á hinum fyrstu einveldisárum Haralds konungs.[4])

Sagt er að íslenskur maður, er Eilífur hjet, hafi í Noregi orðið fyrir reiði Haralds harðráða, og sú sök hafi verið til þess, að hann dræpi hirðmann konungs. Eilífur á þá að hafa beðið Halldór Snorrason um að flytja mál sitt við konung, en þáttur sá af Halldóri Snorrasyni, sem segir af þessu, er eigi sannsögulegur.[5])

Þorleikur fagri kom utan af Íslandi um 1051, og orti flokk um Svein konung Úlfsson; eru margar vísur enn til af honum.[6])

Þorkell Gellisson, föðurbróðir Ara hins fróða, hefur einhvern tíma á miðri 11. öld eða litlu síðar komið til Grænlands, og hitt þar aldraðan mann, er sjálfur hafði fylgt Eiríki hinum rauða ut þangað. »Sá taldi fyrir Þorkeli Gellissyni á Grænlandi«, að Eiríkur hefði tekið að byggja landið »xiiii vetrum eða xv, fyrr en kristni kvæmi hjer á Íslandi«.[7])

Oddi Grímsson í Höfða í Höfðahverfi fór utan og gekk suður. Ljósvetninga saga segir svo frá utanferð hans sem hún hafi verið um miðja 11. öld, nokkru eptir bardagann við Kakalahól (um 1047) og eptir að þeim málum var lokið; en sagan segir einnig, að Oddi kæmi á heimleiðinni

172—176, 179—180; Flat. III, 308. [1]) Fsk. 222; Hkr. III. 6/82; Fms, VI, 133, 139; Flat. III, 290. [2]) Msk. 53; Fsk. 252; Hkr. III, 32/121; Fms. VI, 254; Flat. III, 336. [3]) Msk. 14; Fsk. 229; Hkr. III, 14/95; Fms. VI, 167; Flat. III, 299. [4]) Band. 34, sbr. Þorst. St. 86. [5]) Fms. III, 152, 162—163; Flat. I. 506, 511. [6]) Msk. 54, 56, 59: Fsk. 253, 257, 258, 261, 262; Hkr. III, 33/123, 34/125, 35/126—128; Fms. VI, 257, 259, 261, 264; Knytl., Fms. XI, 208, 211; Flat. III, 338, 340, 342—343. [7]) Íslb. 6/9.

fjelaus á fund Knúts konungs hins ríka († 12. nóvbr. 1035), og getur þetta hvorttveggja eigi rjett verið. Oddi Grímsson var í bardaganum við Kakalahól, og segir sagan, að hann væri þá sköllóttur og gamall. Ef hann hefur gengið suður eptir það til þess að taka skriftir og ráða bót syndum sínum, þá hefur hann eigi komið til Knúts ríka, heldur til systursonar hans Sveins konungs Ástriðarsonar eða Úlfssonar. Sagan segir, að Oddi gengi fyrir konung og bæði hann fjár, og konungur hafi þá látið gefa honum þrjár merkur silfurs, en Oddi hafi eigi viljað þiggja það. Kom þá upp að þeir Oddi voru tólf saman, og ljet konungur þá gefa hverjum þeirra þrjár merkur. Hvað satt kann að vera í sögusögn þessari er eigi hægt að segja, en hún bendir þó á, að Oddi hafi farið utan eptir bardagann við Kakalahól, því að hún segir, að konungur hafi spurt Odda, hvort hann hafi barist við frændur sína á Íslandi, og að hann hafi sagt, að hann hafi verið í móti mönnum, er sjer voru skyldir. Oddi hefur því líklega farið utan og gengið suður eptir bardagann við Kakalahól og nokkrir menn með honum, sem vildu bæta fyrir sálu sinni. Oddi hefur eigi verið svo gamall eins og sagan segir, þá er bardaginn stóð, ef það er rjett sem Ljósvetninga saga segir, að hann væri faðir Guðmundar, er augað stakk úr Katli presti Þorsteinssyni á Möðruvöllum einhverntíma í byrjun 12. aldar.[1]) Ketill varð síðar biskup og var rúmlega sjötugur, þá er hann andaðist 1145. Hann hefur því verið fæddur um 1074. Deilur hans við Guðmund Oddason komu af því, að logið var að Guðmundur ætti vingott við konu hans. Guðmundur hefur því verið á góðum aldri í byrjun 12. aldar og eigi fæddur fyr en töluvert eptir miðja 11. öld, eða eptir það að Oddi kom úr suðurgöngunni, ef hann hefur verið sonur hans. Oddi hefur því líklega eigi farið utan á dögum Knúts konungs ríka, en nafni Knúts konungs hefur verið bendlað við ferð hans, af því að hann var miklu frægari á Íslandi en Sveinn systurson hans, og ef til vill meðfram sökum þess að um mikla fjegjöf var að ræða.[2])

Um þetta leyti eða litlu síðar kusu landsmenn Isleif

[1]) Í Sturl. I, 42 er Guðmundur talinn Grímsson. Eggert Briem ætlar að það sje rangt, sbr. Safn III, 541, og Arkiv för nord, filologi VIII, 328, en vera má að einn ættliður hafi fallið úr Ljósv. [2]) Ljósv. 31/248—249, sbr. 24/213—214, 24/217, 27/234; Sturl. I, 42—44.

prest Gissurarson til biskups og báðu hann um, að fara utan og láta vígjast til biskups. Hann veitti þeim það og var það í fyrsta sinni að Íslendingur færi utan að sækja biskupsvígslu. Ísleifur hafði áður farið utan fyrir rúmum 30 árum, eins og fyr er getið, en hjer skal skýrt nánar frá þeirri ferð, af því að hún var hin fyrsta utanferð Íslendinga til þess að ganga í skóla og stunda bóknám erlendis, svo kunnugt sje. Hún heyrir því þessu tímabili til eptir takmarki eða erindi utanfara, þótt hún væri litlu fyr. Í Hungurvöku segir, að Gissur hvíti fylgdi syni sínum utan, en í Kristni sögu að hann sendi hann utan. Hvort sannara er, má eigi segja með vissu, enda skiptir það minstu. Það var verk Gissurar að sonur hans fór utan. Hann lagði allan hug á að styrkja kristnina og vildi að sonur sinn fengi þann lærdóm, sem hann sá að Þormóður prestur, Bjarnharður hinn bókvísi og aðrir kennimenn höfðu, og yrði kristninni til styrktar. Ísleifur gekk í skóla í borg þeirri á Saxlandi, er Herfurða heitir; það er nú Hervorden í Westphalen.[1]) Segir Hungurvaka, að Gissur hafi selt hann þar til læringar abbadísi einni, og bendir það á að Ísleifur hafi gengið þar í klausturskóla; kemur það og vel heim við það, sem kunnugt er um skóla í bæ þessum. Ísleifur var nokkur ár við nám. Þá er hann kom til Íslands, var hann prestur að vígslu og vel lærður. Í þætti Ísleifs (Flateyjarbók) segir, að hann hafi á heimleiðinni hitt í Noregi Ólaf konung Haraldsson. Ef það er rjett, hefur það eigi getað verið síðar en 1028, og mun hann þá hafa komið út það ár eða jafnvel sumarið eptir; hefur hann þá fengið prestvígslu er hann hafði einn um tvítugt. Hins vegar lá nærri bæði fyrir arfsögnina og íslenska kennimenn, að láta þá Ísleif biskup og Ólaf konung hinn helga hittast og mæla virðulega hvorn til annars. En ef það er rjett að Gissur hafi fylgt syni sínum utan, hefur það verið um 1020 eða rjett eptir það. Gissurar er eigi getið með höfðingjum landsins 1024 og hefur Guðbrandur Vigfússon því ætlað að hann muni hafa verið andaður.[2]) Ólíklegt er það eigi, þar

[1]) Sbr. N. M. Petersen, Nord. Tidsskr. f. Oldkyndighed I, 444—446; K. Maurer, Die Bekehrung II, 587—588. [2]) Safn I, 424; þar er annars sumt sagt skakt frá Gissuri og ætt hans, svo sem að Teitur Ketilbjarnarson sje kallaður Gissurarson í öllum handritum Landnámu, að Gissurar hvíta geti eigi eptir Njálsbrennu, og að Gissur jarl hafi verið 7., í staðinn fyrir 6., maður frá Gissuri hvíta.

sem hann var þá kominn yfir sjötugt, en næg sönnun um fráfall hans er það samt eigi. En samkvæmt þessu mun utanferð Ísleifs hafa verið um 1021—1028.

Ísleifur mun hafa lagt af stað í vígsluferð sína 1055. Segir ekki af ferð hans í fyrstu, nema að hann færi utan og suður til Saxlands. Þar sótti hann heim Hinrik III. keisara Konráðsson og gaf honum hvítabjörn, er kominn var af Grænlandi, »og var það dýr hin mesta gersemi«. Hinrik III. var trúmaður og reyndi að fylgja kenningum kristninnar og fá þegna sína til þess. Hann tók Ísleifi vel og fekk honum verndarbrjef um alt veldi sitt. Síðan fór hann til fundar við páfa, og var það Victor annar, sem varð páfi 1055, en eigi Leo níundi, eins og segir í sögunum, því að hann fjell frá 1054. Hjá páfa fekk Ísleifur brjef til Aðalberts erkibiskups í Brimum, um að hann skyldi vígja Ísleif til biskups á hvítasunnudag. Hjelt þá Ísleifur heim á leið og dvaldi um hríð hjá erkibiskupi, og var vígður 26. maí 1056. Erkibiskup bjó hann undir biskupsstarfið og fekk honum alla þá reiðu, er hann þurfti að hafa með biskupstigninni, eptir því sem páfinn sendi orð til og keisarinn. Þetta ár var hallæri mikið og fór Ísleifur um sumarið til Noregs. Þar var hann hinn næsta vetur að sögn Ara hins fróða og fór sumarið eptir (1057) út til Íslands. Hagur landsmanna var þá mjög bágborinn sökum hallæris þess, er hófst árið áður og enn stóð yfir; svarf þá mjög að mönnum og var manndauði mestur af sulti hinn fyrsta vetur, sem Ísleifur biskup var á Íslandi (1057—1058), er óáranið hafði staðið lengi; var þá etið alt það, er tönn festi á. Um sumarið ljet biskup heita því á alþingi, að menn skyldu fasta hinn 12. dag jóla um þrjú ár, því að svo var gert í Herfurðu, er biskup var þar í skóla. Svo var snæmikið í júní að flestir höfðu gengið til alþingis, segir sagan, en eptir heitið batnaði veðráttan.[1])

Ögmundur Þorkelsson á Breiðabólstað í Fljótshlíð og Þorgerður Egilsdóttir Hallssonar af Síðu, foreldrar Jóns biskups, breyttu ráði sínu og fóru utan, þá er hann var barn að aldri. Þau höfðu Jón son sinn með sjer og komu til

[1]) Adami Gesta Hammaburgensis. Hannoverae 1876. III, 151, IV, 35/185; Íslb. 9/13—14; Krist., Bps. I, 27; Ísl. þ., Bps. I, 53—55; Hungr., Bps. I, 60—62; Jóns s., Bps. I, 151—152; Sturl. I, 244; Ísl. s. I, 323—324 (Skarðsárbók); Ann. I, III. IV (1057).

Danmerkur og fóru til Sveins konungs; er sagt að Þorgerði væri skipað að sitja hjá sjálfri drotningunni, Ástríði móður konungs, og er af því dálítil þjóðsaga, sem skýra má frá. Þorgerður hafði Jón son sinn hjá sjer við borð konungs, og er margskonar krásir komu á það, varð sveininum það á, »sem jafnan er barnanna háttur«, að hann rjetti hendur til þeirra hluta, er hann langaði í. Móðir hans vildi þá banna honum það og drap dálítið á hendur hans. En er Ástríður drotning sá það, mælti hún við Þorgerði: »Eigi svá, eigi svá Þorgerður mín, ljóstu eigi á hendur þessar, því að þetta eru biskups hendur.«

Þau Ögmundur og Þorgerður voru að líkindum einn vetur í Danmörku, en annars segir ekki af ferð þeirra, nema þau fóru út aptur til Íslands með son sinn og settust í bú sitt á Breiðabólstað. Jón Ögmundsson var fæddur 1052 og munu foreldrar hans hafa farið utan einhvern tíma um 1060.[1])

Eitt sumar á árunum um 1060 kom einn íslenskur maður, ungur og frálegur, til Haralds konungs harðráða og bað hann ásjá. Hann var sögufróður, og tók konungur við honum móti því að hann segði sögur við hirðina. Hann gerði það lengi, fram undir jól, en þá voru sögur hans þrotnar, nema útfararsaga konungs, er hann hafði lært á alþingi af Halldóri Snorrasyni. Konungur ljet hann segja hana um jólin. Konungi líkaði sagan svo vel, að hann bauð Íslendingnum að vera með sjer um veturinn og gaf honum kaupeyri um vorið. Áður hafði hann gefið honum vopn og hirðmennirnir klæði fyrir sögur hans. Íslendingur þessi er eigi nafngreindur, en sagan segir, að hann yrði þroskamaður. Í Ólafs sögu hins helga vitnar Snorri til Þorsteins fróða og hafa því sumir ætlað, að það væri sami maðurinn, en það er óvíst.[2])

Um 1062 fór Stúfur hinn blindi Þórðarson, sonarson Guðrúnar Ósvífrsdóttur, utan til Noregs, að heimta þar dánarfje nokkuð í Vík austur. Hann tók sjer veturvist hjá góðum bónda á Upplöndum. Þangað kom eitt sinn Haraldur konungur harðráði, og komst þá Stúfur í kynni við hann. Stúfur var vitur maður og skáld, og kunni fjölda af kvæðum;

[1]) Jóns s., Bps. I, 152—153, 217—218. [2]) Msk. 72—73; Fms. VI, 354—356, sbr. Hkr. II 94/195; Ól. s. s. 90; Fms. IV, 210. Munch, Hist. III, 1038, segir að Íslendingur þessi sje nefndur Þorsteinn fróði í Msk., en það er rangt.

fór hann með mörg þeirra til að skemta konungi. Eptir bæn hans fekk konungur honum brjef til þess að hann næði arfinum. Þá er Stúfur hafði lokið erindi sinu austur í Vík, fór hann til Niðaróss á fund konungs og gerðist honum handgenginn og var með honum um hríð. En síðan mun hann hafa farið til Íslands. Hann orti erfidrápu um konunginn og er enn nokkuð til af henni.[1])

Þormóður Ásgeirsson eða Einriðason, sem fyr er nefndur, fór utan um 1064, á fund Haralds konungs harðráða, og var með honum í leiðangrinum haustið 1064, á skipi Magnúss konungssonar. Eptir víg Halls Koðránsbana hjálpaði konungsson honum og skaut honum undan á land, en föður sinum bauð hann bætur fyrir hann. Sagan segir, að konungur yrði þá svo reiður að við sjálft var, að hann myndi ganga að þeim Magnúsi, áður vinir þeirra komu til og sættu þá. En Þormóður fór suður til Danmerkur og þaðan til Miklagarðs og gekk þar á mála. Segir síðan ekki af ferðum hans.[2])

Steinn Herdisarson fór utan fám árum fyr en þetta var. Hann var frændi Úlfs stallara og var á skipi hans i Nizarorustu (9.—10. ágúst 1062). Steinn hefur annaðhvort verið lengi erlendis, eða farið utan optar en einu sinni, því að hann var einnig hjá Ólafi konungi hinum kyrra. Steinn var skáld, eins og margir i ætt hans (hann var dótturdótturson Einars skálaglams) og orti bæði um Nizarorustu og Ólaf kyrra. Einnig orti hann flokk eða erfikvæði um Úlf frænda sinn. Steinn hefur verið erlendis á árunum 1062—1070, eða jafnvel lengur.[3])

Þorkell Þórðarson skalla, eða Skallason, sem hann einnig var nefndur, fór utan og var með Valþjófi jarli Guðinasyni á Englandi, hirðmaður hans, að sögn Fagurskinnu. Hann orti kvæði um jarlinn eptir fall hans haustið 1066.[4])

---

[1]) Msk. 104—105, 118; Hkr. III, 12/93, 3/227—228; Fms. VI, 161, 389—393, 442; Flat. III, 379—381. [2]) Ljósv. 30/247, 273; Msk. 92—93; Hkr. III, 72/182; Fms. VI, 337—338; Flat. III, 376—377. [3]) Msk. 77, 113—114, 121, 124—125, 129—130; Fsk. 267—269, 284, 302—304; Hkr. III, 37/130, 61—63/159—162, 85/198—199, 101/223, 1/225; Fms. VI, 313—314, 317, 406—408, 427—428, 435—439, 441—442, 447—448; Knytl., Fms. XI, 215; Flat. III, 361—363, 390, 398. Ldn. 11/95. [4]) Fsk. 66/299; Hkr. III, 96—97/215—216; Fms. VI, 426.

Nokkrir af niðjum Halls af Síðu fóru til Orkneyja og ílendust þar á þessu tímabili, en hve nær það var, er ókunnugt. Þórdís Hallsdóttir átti Þórð Halldórsson úr Fossárskógum; sonur þeirra var Óspakur, faðir Sumarliða, föður Þóru, er átti Erlendur jarl Þorfinnsson í Orkneyjum. Hann var jarl 1064 til 1098 og eitt af börnum þeirra Þóru var Magnús jarl hinn helgi († 1115). Þóra mun hafa verið fædd og uppalin í Orkneyjum og Sumarliði faðir hennar verið búsettur þar; en hún hefur eigi fæðst fyr en eptir miðja 11. öld (um eða laust fyrir 1060), því að eptir andlát Erlends jarls í Noregi (haustið 1098 eða þá um veturinn), giptist hún aptur göfgum manni, Sigurði í Papuli, og var þeirra sonur Hákon karl. Þóra var á lífi þá er Magnús sonur hennar var veginn, og þá enn hin ernasta.[1])

Gellir Þorkelsson Eyjólfssonar frá Helgafelli, sem fyr er nefndur, fór utan og var með Magnúsi konungi góða um eða litlu eptir 1040, og þá af honum að sögn Laxdæla sögu tólf aura gulls og mikið fje annað. Löngu síðar, þá er Gellir var nokkuð hniginn á hinn efra aldur, bjó hann ferð sína af Íslandi og kom til Noregs (um 1070). Hann dvaldist þar eigi lengi, en hjelt áfram ferðinni og gekk suður til Róms, og »sótti heim hinn helga Pjetur postula«. Hann dvaldist mjög lengi í þeirri ferð, fór síðan sunnan og kom í Danmörk. Þá tók hann sótt og lá mjög lengi og fekk alla þjónustu. Síðan andaðist hann (1073) og hvílir í Hróarskeldu. Hann var þá á 65. árinu.[2])

Gissur Ísleifsson, sem fyr er nefndur, fór utan og lærði í Herfurðu á Saxlandi sem faðir hans og eflaust að ráðstöfun hans. Hann var vígður til prests þegar á unga aldri, líklega áður en hann fór af Saxlandi. Þá er hann kom til Íslands, kvongaðist hann Steinunni Þorgrímsdóttur, ekkju Þóris Broddasonar, og bjuggu þau fyrst að Hofi í Vopnafirði. Síðan fór hann aptur utan og »var farmaður mikill hinn fyrra hluta æfi sinnar, meðan Ísleifur lifði« (Hungrvaka). Annaðhvort fyrst á ferðum þessum eða öllu heldur er hann var á heimleið frá Saxlandi, kom hann á fund Haralds konungs harðráða, og segir sagan, að konungur hafi sagt um

[1]) Þ. Síðu-H. 232; Icel. sag. I, 60—61, 239, 281, 74, 80—81, 87; Flat. II, 422, 430, 435, 439. [2]) Lax. 78/287, 78/283—289; Ann. I, III, IV.

hann, að af honum mætti gera þrjá menn, víkingahöfðingja, konung eða biskup; væri hann vel til alls þessa fallinn, en þó best til að vera biskup. Eins og saga þessi bendir á, var Gissur langt umfram flesta aðra menn, »algjörr að sjer um alla hluti«. Hann var með tignum mönnum erlendis og jafnan mikils virður. Hve víða hann ferðaðist er eigi kunnugt; en Rómaferðir voru um þessar mundir mjög tíðkaðar, eins og Bræðralagsbókin í Reichenau, sem síðar mun getið, ber ljóst vitni um. Gissur fór líka til Róms og kona hans með honum, en eigi segir af því nánar. Þá er faðir hans andaðist (5. júlí 1080), var hann erlendis. Hann var á Gautlandi veturinn eptir (1080—1081), og þar mun hann hafa spurt andlát föður síns. Hann kom út í Rangárósi fyrir alþingi sumarið 1081, en reið eigi til þings, fyr en hann spurði, að Guttormur prestur Finnólfsson úr Laugardal var kosinn til biskups og ráðinn til utanferðar. En er Gissur kom á alþingi, lýsti sjera Guttormur því fyrir alþýðu manna, að hann tæki eigi biskupsstörfin að sjer, síðan Gissur var kominn. Ljet hann þá tilleiðast fyrir bænastað þingmanna að ganga undir þann vanda, þó að eins gegn því, að höfðingjarnir hjetu honum að hlýða öllum boðorðum hans, ef honum yrði biskupsvígslu auðið. Í Hungurvöku segir nú, að hann færi utan þá hið sama sumar, en það mun eigi rjett, heldur sögn Ara fróða, að hann hafi verið hjer á landi annan veturinn, sem var á milli andláts Ísleifs biskups og vígslu hans; er blandað málum um þetta á ýmsan hátt í heimildarritunum. En um vorið 1082 mun Gissur hafa verið snemma búinn og látið í haf; hefur hann þá líklega haldið til Danmerkur eða ef til vill skemstu leið til Saxlands, því að hann hefur auðsjáanlega hraðað ferð sinni. Þó er ekkert af honum sagt fyr en hann kom til Saxlands. Þá hafði páfinn vikið Liemar erkibiskupi frá embætti, því að hann átti í deilu mikilli við Hinrik fjórða keisara og erkibiskup fylgdi honum. Gissur gat því eigi fengið biskupsvígslu í Brimum og hjelt áfram ferðinni suður til Róms á fund Gregors páfa hins sjöunda, og sagði honum allan málavöxt sinnar ferðar. En páfinn sendi Gissur til Hartvígs erkibiskups í Magðeborg á Saxlandi og bauð að hann skyldi gefa honum biskupsvígslu. Erkibiskup tók við Gissuri með mikilli sæmd og vígði hann til biskups 4. september 1082, og fekk honum alt það, er hann þurfti bráðast til

nauðsynja. Síðan hjelt Gissur heim á leið og var í Danmörku um vetur; sumarið eptir fór hann til Íslands (1083) og tók-öll alþýða feginsamlega við honum. Eptir þetta fór Gissur eigi af landi brott.[1])

Sæmundur Sigfússon í Odda var samkvæmt Jóns sögu hins helga fæddur 1054. Hann hefur farið mjög ungur utan, því að hann var lengi erlendis, en kom þó heim aptur, er hann hafði tvo um tvítugt eða ef til vill rúmlega það. Hve nær hann fór utan segir ekki, og litið af utanferð hans annað en það, að hann var lengi að námi suður á Frakklandi og að hann kom út með nágranna sínum og frænda, Jóni Ögmundarsyni á Breiðabólsstað. Sagan segir, að hann hafi verið lengi utan, svo að ekkert spurðist til hans, en að Jón Ögmundarson fengi spurt hann uppi, þar sem »hann var með nokkurum ágætum meistara, nemandi þar ókunniga fræði, svo að hann týndi allri þeirri, er hann hafði á æsku aldri numið, og jafnvel skírnarnafni sínu«. Í Oddverja annál segir, að hann hafi verið í skóla í Paris, og er það líklega rjett. Hin ókunnugu fræði, sem hann nam, munu hafa verið hinn almenni skólalærdómur mentaðra manna suður í álfunni, *trivium*, sem svo var nefnt og þýðir eiginlega þrívegur, og var þrjár námsgreinar (grammatik, málfræði; rhetorik, stil-eða mælsku-fræði, og dialektik, rökfræði) og *quadrivium* (fjórvegur: arithmetik, talnafræði; geometria, rúmmálsfræði; astronomia, stjörnufræði, og músik, tónfræði). Þessi »fræði«, eða skólalærdómur var ókunnur á Íslandi fyrir daga Sæmundar, að minsta kosti að mestu leyti, og víst er um það, að margt mátti hann læra á Frakklandi, sem ókunnugt var á Íslandi. Andlegt líf og mentun var þar og víðar suður í löndum í allmiklum uppgangi á 10. og 11. öld, mest sökum endurbóta Clunymunkanna og starfsemi þeirra. Af fræðum þeim, sem Sæmundur nam, er »stjörnuíþrótt« eða »astronomia« nefnd í sögnum þeim, sem mynduðust um utanferð hans. Hún var ein af þeim fjórum fræðslugreinum, sem kendar voru í hinum æðri skólum; á Sæmundur að hafa verið svo vel að sjer í henni, að hann sigraði sjálfan meistara sinn í henni.[2])

[1]) Íslb. 10/14—15, 10/17; Krist. s., Bps. I, 27—28; Hungr., s. st. 66—67; Jóns s., s. st, 153, 219, 158, 230—231; Sturl. I, 244, 246; Msk. 103; Fms. VI, 389; Flat. III, 379; Ann. I, III, IV. [2]) Íslb. 9/14; Jóns. s., Bps., I, 156—157, 227—230; Ann. IV (1076), VII (1078), X (1077).

Sæmundur hefur eflaust verið bráðþroska og óvenjulega vel greindur maður. Fyrir því hefur hann getað farið svo ungur suður í lönd. Hann hefur á námsárum sínum fengið meiri þekkingu í lærdómslistum manna suður í Európu, en aðrir Islendingar höfðu á hans dögum og alllengi eptir hann látinn. Hann var því snemma nefndur hinn fróði og ýmsar sagnir mynduðust einnig um kunnáttu hans; eru fleiri þjóðsögur af honum en af nokkrum öðrum Íslendingi eptir lok sögualdarinnar og fram eptir öllum miðöldunum. En Sæmundur prestur var líka mikils metinn. Hann var bæði höfðingi og merkur kennimaður og einhver »mestur nytjamaður guðs kristni« á Íslandi. Um hann er einnig sagt, að hann hafi verið »forvitri« og »lærður allra manna best«.

Þá er Jón Ögmundarson hafði lokið námi hjá Ísleifi biskupi og var djákn að vígslu, fýstist hann að fara utan til þess að auka nám sitt. Hann mun þá hafa verið rúmlega tvítugur (f. 1052). Hann fór fyrst til Noregs, þaðan til Danmerkur og síðan gekk hann suður og ljetti eigi ferðinni fyr en í Róm, er hann hafði sótt heim hinn helga Pjetur postula. Á heimleiðinni hefur hann farið um Frakkland og þar mun hann hafa spurt uppi Sæmund Sigfússon, ef það er rjett, sem saga hans segir, að hann spandi hann út hingað með sjer. Saga Jóns biskups segir einnig að hann hafi fundið Svein konung Úlfsson (d. 28. april 1076) enn á lífi, er hann kom í Danmörk á heimleiðinni, og mun það vera rjett. Síðan hjelt hann og þeir Sæmundur báðir til Noregs. Þar var þá konungur Ólafur hinn kyrri Haraldsson, en eigi Magnús berfættur sonur hans, eins og segir í sögu Jóns biskups. Einnig er það rangt í sögunni, að Jón Ögmundarson hafi þá talað í máli Gisls Illugasonar; það vígsmál var hjer um bil 20 árum síðar; og hefur Jón hlotið að fara þá utan, ef það er rjett að hann hafi verið þar við staddur, en ekkert er kunnugt um neina utanferð hans á þeim árum (sbr. að framan bls. 744—745). Frá Noregi fóru þeir Jón og Sæmundur til Íslands, og settist hvor á sína föðurleifð, Jón á Breiðabólstað, en Sæmundur í Odda. Útkoma Sæmundar vakti töluverða eptirtekt, og má af því ráða, að eitthvað mjög nýstárlegt hefur þótt um ferð hans og heimkomu eða að menn alment hafa verið orðnir hræddir um hann. Ari fróði getur þess sem stórtíðinda á lögsöguárum Sighvats Surtssonar (1076—1083),

að »á þeim dögum kom Sæmundur Sigfússon sunnan af Frakklandi hingað til lands, og ljet síðan vigjast til prests«. Sighvatur tók lögsögu á alþingi (í júní) 1076, og segir Konungs annáll að Sæmundur hafi komið það ár úr skóla, en aðrir annálar, sem eru yngri og minna verðir um 11. öld, setja útkomu þeirra 1077 eða 1078.[1])

Árið 1105 fór Jón Ögmundarson enn utan, er hann var kosinn til biskups yfir Norðlendingafjórðung, til þess að taka biskupsvígslu. Þá var nýbúið að setja erkibiskupsstól i Danmörku yfir öll Norðurlönd, og segir eigi af ferð Jóns biskupsefnis fyr en hann kom þangað með föruneyti sinu á fund Össurar erkibiskups. Hann bar upp fyrir honum erindi sitt og sýndi honum brjef og innsigli Gissurar biskups. En þótt erkibiskupi litist Jón vel til biskups fallinn, þorði hann samt eigi að vigja hann án vitundar páfa og leyfis, sökum þess að Jón var tvígiptur. Hann rjeð honum því að fara sem skjótast á fund páfa, og ritaði páfa brjef með honum. Jón hjelt því til Rómaborgar og hitti þar Paskalis II. páfa. Hann tók Jóni vel og máli hans, og gaf Össuri erkibiskupi leyfi til að vigja hann til biskups. Litlu síðar sneri Jón heim á leið og vígði erkibiskup hann i Lundi 29. april 1106. Eptir það dvaldist Jón um hríð með erkibiskupi og þá af honum mörg ráð. En um sumarið fór hann til Íslands og varð vel reiðfara. Hann fór þá að Hólum i Hjaltadal, sem prestur einn hafði gefið til biskupssetursins.[2])

Kálfur Mánason orti kvæði um Knút hinn helga Danakonung (d. 1086) og mun því hafa dvalið um hríð i Danmörku á hans dögum eða um 1080—1086. Kálfur var kominn af Hólmgöngu-Mána, er nam Skagaströnd fyrir norðan Fossá.[3])

Þorkell hamarskáld virðist fyrst hafa farið til Noregs fyrir 1066 á meðan Eysteinn orri var á lífi, því að hann orti

---

[1]) Jóns. s., Bps. I, 154—157, 220—229; Ann. IV, VII, IX, X. Jón Þorkelsson, Om digtningen på Island, bls. 3, segir að Jón Ögmundarson hafi stundað nám við háskólann i Bologna, en það er eigi rjett. Háskóli sá var fyrst stofnaður nokkru síðar (1088). Jón Halldórsson Skálholtsbiskup (1322—1339) stundaði aptur á móti þar nám, Bps. II, 223, 224, og má vera að það hafi vakað fyrir höfundinum. [2]) Íslb. 10/17; Hungr., Bps. I, 68—69; Jóns s., Bps. I, 159—162, 231—234; Ann. I, III, IV. [3]) Knyt., Fms. XI, 214, 216; Skáldatal; Ldn. 5/187.

um hann. Einnig orti hann um Ólaf konung kyrra og Magnús konung son hans. Hann mun því hafa komið til Noregs á dögum þeirra eða dvalið þar og lifað fram yfir 1103; en æfi hans er ókunn.[1])

Markús Skeggjason, lögsögumaður (1084—1107), var skáld og er mjög líklegt að hann hafi farið utan, þótt þess sje eigi getið, því að hann orti um Inga Steinkelsson Svíakonung (um 1080—1111) og Knút hinn helga Danakonung (1080—1086). Eptir lát Eiríks góða Sveinssonar Danakonungs orti hann (líkl. 1104) erfidrápu um hann, Eiríksdrápu, og mun hafa sent hana Níels (Nikulási) bróður hans. Sú drápa er enn mestöll til.[2])

Kolur Þorkelsson, lærisveinn Ísleifs biskups og frændi, var biskup í Vík austur, í Ósló, í byrjun 12. aldar (um 1100—1120), og er því nefndur Víkverjabiskup í sumum sögunum. Hann var á líkum aldri sem Jón Ögmundarson, en hve nær hann fór utan er ókunnugt.[3])

Björn hinn krepphendi orti um Magnús konung berfætta um 1100 og mun hafa komið til Noregs um það leyti, en eigi er nánar um hann kunnugt.[4])

Eldjárn, íslenskur maður frá Húsavík, fór til Miklagarðs og kom til Gautlands; þaðan fór hann til Englands; er hans getið á leiðinni þangað og sagt af ferð hans, af því að hann kvað háðvísu um ofláta einn á skipinu.[5])

Guðrún Einarsdóttir, Arasonar af Reykhólum á Reykjanesi, var gipt Ögmundi bónda á Sandi á Hálogalandi. Hún mun hafa farið utan einhvern tíma um 1100 eða í byrjun 12. aldar til Noregs og búið þar síðan.[6])

Ingimundur prestur Einarsson á Reykhólum, bróðir Guðrúnar, orti kvæði og þá laun fyrir utanlands; bendir það á að hann muni hafa farið utan einhvern tíma á fyrsta fjórðungi 12. aldar. Ingimundur kemur við sögur 1119 og 1120;

---

[1]) Sktal; Msk. 131, 135, 143, 145, 149, 155; Fsk. 311, 318; Hkr. III, 4/238; Fms. VII, 5, 13, 40, 46, 53, 71. [2]) Sk.tal; Knyt., Fms. XI, 295—301, 303—307, 311—318. [3]) Íslb. 9/13; Krist., Bps. I, 27; Hungr., Bps. I, 63; Jóns s., Bps. I, 153, 219; Sturl. I, 244; Ldn. 12/313; Dipl. Ísl. III, 22, 26, 36, 41. [4]) Msk. 142—145; Hkr. III, 3/237, 6—10/242—247; Fms. VII, 4, 14, 41—43. 45. [5]) Msk. 148—149; Hkr. III, 497; Fms. VII, 59—61. [6]) Msk. 214; Hkr. III 6/358; Fms. VII, 215.

hann er talinn með prestvígðum virðingamönnum 1118, en andaðist þó eigi fyr en 1169 eða 1170.[1])

Þorfinnur Ingimundarson fór utan og á fund Eysteins konungs Magnússonar, þá er Ívar skáld bróðir hans var með honum. Hann naut mjög bróður síns, en hann undi af því eigi hjá konungi, að hann þótti eigi jafnmenni hans, og hjóst til Íslands. Áður en þeir bræður skildu, bað Ívar Þorfinn bera stúlku einni á Íslandi, er Oddný hjet Jónsdóttir, kveðju sína og þau orð, að hún biði hans og giptist eigi öðrum manni, því að hann unni henni mest allra kvenna. Þorfinnur fór síðan til Íslands og varð vel reiðfari; en hann rak ekki erindi bróður síns, heldur bað hann Oddnýjar og fekk hennar.[2])

Ívar Ingimundarson, bróðir Þorfinns, hafði farið utan fyr en hann, og var miklu lengur erlendis. Þá er hann kom til Noregs, var Eysteinn Magnússon þar konungur (1103—1122) og fór Ívar á fund hans og gerðist hans maður; líkaði konungi mjög vel við hann. Líklega ári eptir heimför Þorfinns frá Noregi fór Ívar til Íslands og ætlaði að fá Oddnýjar, en frjetti þá að hún var gipt bróður hans. Hann undi þá ekki á Íslandi og fór aptur til konungs; en nú tók hann ógleði mikla, og er konungur fann það, leitaði hann eptir við Ívar hvernig á því stæði. Er til fögur saga af því og hvernig konungur hughreysti hann, svo að Ívar gladdist aptur. Ívar mun hafa verið mjög lengi í Noregi. Hann var skáld og orti um Magnús herfætta, Eystein og Sigurð Jórsalafara og Sigurð slembidjákn eptir víg hans 1139. Það kvæði er mestalt enn til.[3])

Halldór skvaldri mun hafa farið ungur utan um aldamótin 1100 og alið mestan aldur sinn í útlöndum. Hann orti um marga konunga og höfðingja að því er segir í Skáldatali; sýnist því svo sem hann hafi farið frá einni hirðinni til annarar um öll Norðurlönd. Hann orti um Magnús herfætta, Sóna jarl Ívarsson á Gautlandi, Sigurð Jórsalafara, Harald gilla, Eirík konung eimuna, Inga konung Haraldsson, Karl

[1]) Sturl. I, 9, 18—22, 30, 36; Krist., Bps. I, 29; Guðm. s., Bps. I, 418. [2]) Msk. 167; Fms. VII, 103. [3]) Msk. 167—168; 201—204, 207, 210—215, 219—221; Fsk. 341, 346; Hkr. III, 500—501, 13/341, 16/347; Fms. VII, 103—106, 200, 205, 326—329, 334, 339—341, 343—345, 352—353.

jarl Sónason, Sörkvi konung Kolsson og Jón jarl son hans. Ef hann hefur kynst öllum höfðingjum þessum, hefur hann hlotið að vera erlendis um 1100—1114 og um 1134—1150. Ekkert af kvæðum hans er til, nema brot af kvæðum hans um Sigurð Jórsalafara og Harald gilla. Í kvæðinu um Sigurð, Útfarardrápu, lýsir hann ferð hans til Jórsala, og hafa því sumir ætlað, að hann hafi farið með Sigurði þangað, en það er óvíst. Af æfi Halldórs skvaldra og ferðum segir ekkert.[1])

Eiríkur upsi Gnúpsson var í kvennlegg kominn af Valþjófi Örlygssyni. Hann hefur farið utan, líklega víða og optar en einu sinni, þótt eigi sje um það kunnugt, fyr en hann var skipaður biskup á Grænlandi eða sendur þangað sem trúboðsbiskup. Hann fór þangað 1112 (eða 1113) eptir því sem ráða má af Lögmanns annál og Flateyjar annál, en áður mun hann hafa fengið biskupsvígslu í Lundi. Segir síðan ekki af honum fyr en 1121; þá fór hann að leita Vínlands og spurðist eigi til hans eptir það.[2])

Sigmundur Þorgilsson var snemma á 12. öld einn af hinum helstu höfðingjum á Austurlandi. Hann fór utan og til Róms, en andaðist í þeirri ferð 1118.[3])

Þorlákur Runólfsson, Þorleikssonar, bróður Halls í Haukadal, og Hallfríðar Snorradóttur Þorfinnssonar karlsefnis, var að tilmælum Gissurar biskups Ísleifssonar 1117 beðinn þess á alþingi, að hann færi utan og ljeti vígjast til biskups, því að Gissur biskup tók þá þyngd svo mikla, að hann rjetti eigi úr rekkju og var eigi þingfær. Þorlákur ljet tilleiðast, ef það væri biskups ráð. Gissur biskup ljet þá búa ferð hans og fekk honum brjef til Össurar erkibiskups í Lundi. Þorlákur var þá 32 ára og fór hann utan um sumarið á fund erkibiskups. Hann var í fyrstu tregur á að vígja Þorlák, af því að eigi mátti vígja tvo biskupa til eins biskupsstóls; en að orðsendingu Gissurar biskups vígði hann þó Þorlák til biskups, en eigi að Skálholti, heldur fyrir siðasakir að Reykholti í Borgarfirði. Hann leyfði Þorláki að vera í Skálholti, ef Gissur leyfði það, ef hann væri á lífi. Vígslan

---

[1]) Sk.tal; Msk. 158—163, 199—200; Fsk. 330, 332, 340; Hkr. III, 4—7/270—276, 11/280, 3/319, 4/322; Fms. VII, 79—85, 93, 178, 181.
[2]) Ldn. 13/46; Ann. 1121 I, III, IV, VII (1112), VIII, X, Flat. III, 511, 512; sbr. Ísl. sögu mína II, 287—288. [3]) Krist., Bps. I, 31; Skarðsárb. Ísl. I, 329.

fór fram 28. apríl 1118, en Gissur andaðist 28. maí þá um vorið í Skálholti, og Þorlákur biskup tók því þegar við biskupsembættti hans, þá er hann kom til Íslands um sumarið.[1])

Þorvaldur blönduskáld orti um Sigurð Jórsalafara og mun því hafa farið til Noregs á hans dögum; eru til tveir vísuhelmingar af því kvæði, en annars er ekkert um hann kunnugt.[2])

Þórarinn stuttfeldur kom til Noregs á fund Sigurðar Jórsalafara um 1120 eða rjett eptir það ár. Hann var í stuttum feldi, sem hann fekk auknefni af, og heldur fátæklega til fara, en skáldskapargáfa hans varð honum að gagni hjá konungi og tók hann við honum. Þórarinn færði honum drápu, sem Stuttfeldardrápa er kölluð og enn er nokkuð til af. Þórarinn sagði konungi að hann ætlaði suður til Róms og fekk konungur honum mikið fje til fararinnar, og kvaðst mundi gjöra honum sæmd, þá er hann kæmi aptur, en eigi greinir um það, hvort þeir fundust síðan.[3])

Einar Skúlason af ætt Mýramanna, niðja Skallagríms, prestur og eitthvert hið merkasta íslenskt skáld á 12. öldinni, fór ungur utan til Noregs, því að hans getur þar í Niðarósi hjá Sigurði Jórsalafara 1114 og er Einar þá orðinn einn af góðkunningjum konungs. Þeir konungur hafa verið á líkum aldri, en Einar þó nokkrum árum yngri (f. um 1094). Hjer um bil tíu árum síðar er Einars aptur getið hjá Sigurði Jórsalafara austur í Konungahellu, og átti hann þá þátt í að hjálpa manni einum undan konungi og firra konung sjálfan óhappi í einu vitleysiskasti, sem hann fekk. Hve lengi Einar var utan, er ókunnugt, en hann var um hríð með Haraldi gilla. Líklega hefur hann farið heldur opt milli landa, þó eigi sje þess getið. Í skrá Ara fróða yfir kynborna presta á Íslandi 1143 er Einar Skúlason talinn, og hefur hann þá verið prestur í Borgarfirðinum, líklega að Borg; hefur Jón Sigurðsson ætlað að hann hafi dvalið á Íslandi um það leyti í 10 ár (1135—1145). Síðan var Einar hjá Eysteini konungi Haraldssyni († 1157) og Sigurði konungi munn bróður hans († 1155). Eysteinn konungur var mikill vinur Einars og gerði hann að

[1]) Íslb. 10/17; Krist., Bps. I, 30; Hungr., Bps. I, 69, 72—73; Sturl. I, 245—246; Ann. IV. [2]) Sk.tal; sbr. Skjaldedigtningen A, 492. Í Msk. 157 eru honum eignaðar tvær vísur eptir Þórarin stuttfeld.
[3]) Msk. 188—189; Hkr. III, 507—509, 3/268, 6/275; Fms. VII, 152—155.

stallara sínum. Að tilmælum konungs orti hann Ólafs drápu »og færði norður í Þrándheimi í Kristkirkju sjálfri og varð það með miklum jartegnum, og kom dýrlegur ilmur í kirkjuna«. Þótti það teikn um það, að Ólafi konungi helga hafi hafi líkað vel kvæðið. Þetta var um 1153. Ólafs drápa þessi er nú venjulega nefnd Geisli og er eitt hið mesta kvæði í fornbókmentum vorum.

Um miðja 12. öld fór Einar Skúlason einnig til Svíþjóðar og Danmerkur, og orti um Sörkvi konung Kolsson og Jón jarl Sörkvisson í Svíþjóð, en Svein konung svíðanda i Danmörku og fekk engin laun fyrir af honum eins og þá var títt; mintist Einar þess í vísu og kendi það Rípa-Úlfi fjehirði konungs.

Einar hefur lengi verið búsettur í Noregi á efri hluta æfi sinnar, en eptir 1160 er ekkert kunnugt um hann. Hann orti erfidrápu um Eystein konung, og eptir það flokk um Gregorius Dagsson, sem heitir Elfarvísur, um orustu hans í Gautelfi (1159). Einnig orti hann um Eindriða unga, lendan mann (d. 1163). Alls orti Einar eptir því sem segir í Skáldatali kvæði um níu konunga og þrjá höfðingja; voru sjö þeirra konungar í Noregi.[1])

Ketill Þorsteinsson prestur, sonarsonur Eyjólfs Guðmundarsonar á Möðruvöllum, var eptir fráfall Jóns Ögmundarsonar kosinn til biskups á alþingi 1121, og fór hann utan um sumarið, til Danmerkur, og var þar vígður af Össuri erkibiskupi til biskups að Hólum 12. febrúar 1122. Sumarið eptir kom hann til Íslands.[2])

Loptur Sæmundarson hins fróða í Odda fór utan einhvern tíma um 1120 og fekk í Noregi stúlku, er Þóra hjet; en síðan reyndist að hún var dóttir Magnúss konungs berfætts.[3]) Hve lengi Loptur var þá utan er ókunnugt, en

[1]) Msk. 181, 191—192, 199—200, 226—228, 235; Fsk. 340, 345—346, 353—354, 357; Hkr. III, 3—4/269, 10/278, 11/280, 30/308, 7/326, 12/339, 14/369, 19—20/374—377, 21/379, 32/396,. 11/413—414, 21/429; Fms. VII, 137, 165, 167, 184, 196, 229, 234—238, 251, 266—267, 355—357; Knytl., Fms. XI, 353; Sk.tal; Prestanöfn, Ísl. I, 384; Dipl. Isl. I, 186, 189—190; Jón Sigurðsson, SnE. III, 353—366; Finnur Jónsson, Litteraturhist. II, 62—73. Skjaldedigtningen, A, 455—485. [2]) Krist. Bps. I, 31; Hungr., Bps. I, 73; Sturl. I, 42—44; Skarðsárb. Ísl. I, 330; Ann. III, IV. [3]) Sturl. I, 46—47.

hann mun tæplega hafa verið þar skemur en tvo vetur, því að Jón sonur hans virðist vera fæddur í Noregi (1124). Hans er fyrst getið 1135, er hann var 11 vetra, og var hann þá austur í Konungahellu »að fóstri og uppfæðslu« hjá Andreasi presti Brúnssyni og Solveigu konu hans, merkishjónum; hefði Loptur varla komið syni sínum til fósturs í Noregi, ef hann hefði eigi verið fæddur þar.

Nokkru eptir fæðingu Jóns mun Loptur hafa farið með konu sína til Íslands og tekið við búi hjá föður sínum. Þar bjuggu þau svo um hríð, en sumarið 1134 hefur Loptur líklega farið utan að vitja sonar síns, því að hans er þá getið um páskaleytið austur í Konungahellu vorið eptir. Þar var hann hjá Andreasi presti um vorið 1135 og fram í byrjun ágúst mánaðar. Þá fór hann með Jón son sinn og alt sitt frá Konungahellu og tólf önnur kaupskip (»byrðingar«) og ætluðu til Björgynjar, en 11 af þeim týndust með mönnum og fje og öllu því, er á var, en hið tólfta braut, og hjeldust mennirnir en fjeð týndist. Loptur einn var svo hamingjudrjúgur að komast til Björgynjar og halda öllu heilu. Þaðan hjelt hann síðan til Íslands. Það var á Lafransmessu, 10. ágúst 1135 að byrðingarnir týndust, en þann sama dag kom Vindakonungur með 300 skipa til Konungahellu, brendi bæinn og vann kastalann, en rændi og drap bæjarmenn eða hertók þá.[1])

Þorgils Snorrason fór til Noregs einhvern tíma um 1120—1130. Hann sá altarisklæði það, er skorið var úr mötli þeim eða skikkju, sem Haraldur harðráði gaf Steigar-Þóri, er hann gaf honum konungsnafn í Noregi (1045); en Guðríður Guttormsdóttir, Steigar-Þórissonar, sagði honum, að faðir sinn ætti mösurbollann, sem Haraldur gaf þá afa hennar; en annars eru nokkrar missagnir um þetta.[2])

Magnús Einarsson, sonarsonarsonur Þorsteins Síðu-Hallssonar, var kjörinn til biskups á alþingi 1133 og ætlaði utan þá um sumarið, en varð apturreka í Blönduós. Hann var því í Skálholti um veturinn. Sumarið eptir fór hann til Noregs (1134) og þaðan um haustið til Danmerkur. Þar var hann vígður til biskups af Össuri erkibiskupi 28. oktbr. 1134. Á meðan Magnús biskup var í Danmörku, komst hann í kynni

[1]) Hkr. III, 9—10/329—331; Fms. VII, 186—188. [2]) Msk. 21; Fsk. 243; Hkr. III, 24/111; Fms. VI, 185; Flat. III, 310.

og vinfengi við Harald konung gilla, er þar var þá landflótta, og gaf honum gjafir. Seint um haustið hjelt Magnús til Noregs og var i Sarpsborg um veturinn, þar til Haraldur konungur kom aptur til Noregs og hafði náð þar riki. Þá fór hann til hans og var með honum i miklu yfirlæti þangað til hann fór til Íslands um sumarið (1135); gaf konungur honum þá borðker, er vá átta merkur, og ýmsar aðrar gjafir. Magnús kom út i Eyjafirði um alþingi og reið þegar til þings. Áður en Magnús var kosinn biskup, hafði hann farið utan ef til vill optar en einu sinni, en ekkert er nánar um það kunnugt.[1])

Erlendur, Íslendingur einn, var með Sigurði slembidjákn að vigi Haralds konungs gilla 14. desember 1136; hefur hann eigi farið siðar frá Íslandi en þá um sumarið, en annars er ekkert um þennan mann kunnugt.[2])

Úlfhjeðinn Söxólfsson, norðlenskur maður, var stafnbúi Sigurðar slembidjákns, er hann kom vestan um haf til Noregs 1137 og fjell i Konungahellu þá um sumarið. Hve nær hann kom i lið Sigurðar er ókunnugt.[3])

Í orustunni við Hólm hinn gráa 12. nóvember 1139 voru nokkrir Íslendingar. Með Sigurði slembidjákn og Magnúsi blinda börðust þeir Sigurður prestur Bergþórsson, Mássonar, og Klemet Arason, Einarssonar, og fjellu báðir. Um þá er þess beinlínis getið, að þeir voru íslenskir. En þegar á eptir er getið um þrjá aðra menn, sem fjellu eigi, »en«...»komust á skip Jóns köðu« (Morkinskinna). Frásögn þessi bendir óbeinlínis á að menn þessir hafi og verið íslenskir, þó það sje eigi sagt berum orðum.[4]) Þessir þrír menn voru þeir Ívar skrauthanki eða skrauthanski, sonur Kálfs hins ranga, Arnbjörn ambi og Ívar dynta Starason, bróðir Helga Starasonar, sem hefur líklega verið kunnur maður á Íslandi, úr því að hann er nefndur svona. Ívar skrauthanki hafði ávalt fylgt Magnúsi konungi, en Jón kaða Kálfsson, bróðir hans, átti Ceciliu dóttur Gyrðar Bárðarsonar, lends manns og fósturföður Sigurðar konungs munns. Þeir voru því báðir i

---

[1]) Hungr., Bps. I, 76—77; Msk. 200—201; Hkr. III, 515—516; Fms. VII, 197—198; Ann. I. III, IV. [2]) Msk. 206 (= Fms. VII, 333). [3]) Msk. 212; Fsk. 349; Hkr. III, 5/356; Fms. VII, 213. [4]) Í einu handríti er líka sagt um þá »en þrír íslenskir menn lifðu eptir«, Heimskr. Havniæ 1783. III, 345, sbr. Fms. VII, 223 nm.

liði hans og þeirra Inga konungs, og var Gyrður einn af höfðingjunum í liðinu. Þá er Magnús konungur var fallinn og mikill hluti liðs hans, flýði Ívar skrauthanki á skip bróður síns og með honum Arnbjörn og Ívar dynta. En er liðsmenn urðu varir við að þeir voru þar, ætluðu þeir að ganga að þeim Jóni, en þeir bjuggust við, og lá við sjálft að þar myndi verða almennur bardagi. Þeir sættust þó á það, að Jón leysti undan Ívar bróður sinn og Arnbjörn og festi fje fyrir þá. Fyrir Ívar dyntu vildu liðsmennirnir eigi taka fje, af því að tveir þeirra þóttust eiga sökótt við hann; var hann leiddur á land upp og höggvinn. Ívar dynta, hinn fríðasti maður, var þrænskur að móðurkyni, og mun þess getið annaðhvort af því, að þeir bræður, Ívar dynta og Helgi, hafa eigi verið sammæðra, eða af því að þessir þrír menn, sem hjer ræðir um, hafa að öðru leyti verið íslenskir; vegna þess hafa þeir og haldið saman í orustunni og á flóttanum. Hins vegar má ráða af þessu, að Stari, faðir Ívars dyntu, hafi komið til Noregs einhvern tíma um aldamótin 1100 og kynst þá móður hans. Arnbjörn ambi átti síðar dóttur Þorsteins í Auðsholti, en svo heita bæir tveir í Árnessýslu, og er annar þeirra skamt frá Skálholti og nafnkunn jörð á Suðurlandi; er líklegt að Þorsteinn hafi búið þar. Af þessu er ljóst, að eigi færri en fimm Íslendingar hafa verið í liði Sigurðar slembidjákns og Magnúss blinda og að minsta kosti einn íslenskur skipstjóri í liði þeirra Inga og Sigurðar munns.[1]) Er eigi ólíklegt að einhverjir Íslendingar hafi verið á skipi hans, þótt þess sje eigi getið.

Þeir bræður Ívar skrauthanki og Jón kaða höfðu að líkindum dvalið mörg ár í Noregi, þá er þetta var, því að litlu síðar varð Ívar biskup í Niðarósi um nokkur ár (á milli 1140—1150), en slíkri tign hefði hann varla náð, ef hann hefði eigi verið búinn að dvelja þar nokkuð lengi. Ívar hefur þá verið kvongaður fyrir mörgum árum, því að sonur hans var Eiríkur erkibiskup í Niðarósi (1189—1206). Hans getur fyrst 1150, er hann gekk inn í St. Victors klaustrið í París og hefur hann þá verið nálægt tvítugu. Í Noregi var annar íslenskur biskup nokkru fyrir miðja 12. öld. Það var Óttar,

[1]) Msk. 219; Fsk. 351: Hkr. III, 10/363—64, sbr. 7/359; Fms. VII, 223—224, sbr. 217.

biskup í Selju um 1130—1138, eða nokkru fyr en Ívar í Niðarósi. Um æfi hans er ekkert kunnugt.[1])

Kolli hinn prúði, íslenskt skáld, var eitt sinn hjá Inga konungi og orti drápu um hann (um 1140), sem enn er nokkuð til af.[2])

Eiríkur, íslenskur maður, var í Orkneyjum með Sveini Ásleifssyni á herferð hans til Bretlands um 1143 og kvað þá vísu. Hve lengi Eiríkur var í Orkneyjum eða erlendis er ókunnugt.[3])

Nokkrum árum síðar er getið um tvo Íslendinga í Orkneyjum, sem báðir voru skáld. Það voru þeir Ármóður skáld og Oddi hinn litli Glúmsson, breiðfirðskur maður. Þeir komu haustið 1148 að því er virðist til Rögnvalds jarls kala Kolssonar og fengu hirðvist hjá honum. Þeir voru síðan með honum nokkur ár og fóru með honum til Jórsala og Miklagarðs (um 1151—1153). Sagan segir að Manúel fyrsti keisari byði jarli málagjöf, ef hann vildi dveljast þar, og ganga í herþjónustu hans með liði sínu, eins og títt var um norræna menn. En er jarl hafði dvalið þar um hríð, hjelt hann áfram heimferðinni. Þeir Ármóður og Oddi eru eigi nefndir eptir þetta, en líklega hafa þeir ásamt öðrum mönnum jarls haldið heim með honum.[4])

Það er svo að sjá sem íslensku skáldin hafi sótt til Orkneyja venju fremur á meðan Rögnvaldur jarl kali var uppi. Eitt þeirra fór þangað líklega einhvern tíma fyrir miðja 12. öld og búsetti sig þar. Það var Bótólfur begla. Hann bjó á Knarrarstöðum á Hrossey (Mainland), skamt frá Orfjöru, þar sem jarl átti bú. Hans getur þar 1154, er Rögnvaldur jarl kom til hans af hendingu og gisti hjá honum. Hann leyndi jarli fyrir óvinum hans og kvað þá eina vísu, sem enn er til. Annars er ekkert af honum sagt.[5])

Björn Gilsson var kjörinn til biskups að Hólum 1146

---

[1]) Dipl. Ísl. I, 205; III, 20—21, 26, 35, 37, 40, 42; R. Keyser, Den norske Kirkes Historie I, 169; L. Daae, En Krønike om Erkebiskopperne i Nidaros bls. 24 (i Trondhjems Festskrift 1897). [2]) Msk. 208—209; Hkr. III, 2/351—352; Fms. VIII, 208—210, 336—337. [3]) Icel. sag. I, 137; Flat. II, 466. [4]) Icel. sag. I, 153—54, 155, 159. 161, 168, 175, 178—79; Flat, II, 475 o. ef. Í Flat. stendur, að þeir Armóður hafi verið hjaltneskir, en það ritvilla í handritinu, sbr. Flat. III, formálann bls. XIX. [5]) Icel. sag. I, 196—97; Flat. II, 499.

og fór hann utan þá um sumarið með brjefum Magnús biskups til Áskels erkibiskups. Hann vígði Björn til biskups 4. maí 1147, og fór hann þá út til Íslands um sumarið.[1]

Hallur Teitsson, prestur í Haukadal, mágur Hafliða Mássonar var kosinn biskup 1149 og fór þá utan um sumarið. Hallur var þá á efra aldri, líklega yfir sextugt. Hann mun fyrst hafa farið suður til Róms, því að hann var á heimleið, segir sagan, er hann andaðist í Trekt (Utrecht) 1150 og var eigi komið svo langt, að búið væri að vígja hann. Um hann er sagt, að hann mælti alstaðar þeirra máli þar sem hann kom, sem hann væri þar barnfæddur.[2] Þetta er ýkjur, en sýnir þó, að hann hefur verið vel að sjer í útlendum tungumálum; bendir það ef til vill og á, að hann hafi farið fyr utan suður í lönd.

Klængur Þorsteinsson var þá kosinn biskup 1151 og fór hann utan um sumarið með brjefum Bjarnar biskups, á fund Áskels erkibiskups í Lundi, og vígði hann Klæng til biskups 6. apríl 1152; fór hann þá aptur til Íslands um sumarið. Á meðan Klængur var í Noregi, ljet hann höggva við mikinn til kirkju þeirrar, er hann ætlaði að láta gjöra í Skálholti, og var sá viður fluttur á tveimur skipum til Íslands, sama árið sem Klængur kom út að því er virðist.[3]

Gissur Hallsson kom sunnan af Ítalíu á meðan Klængur var í Danmörku eða í Noregi og fór út með honum. Gissur hafði farið suður til Róms og syðst suður á Ítalíu, til Bari (í Apulíu), og kom úr þeirri ferð. Í Sturlunga sögu segir, að Gissur hafi verið betur metinn í Róm en nokkur íslenskur maður af ment sinni og framkvæmd. Hve nær hann lagði af stað í þessa ferð, er ókunnugt, en eigi er ólíklegt að hann hafi farið frá Noregi með föður sínum þangað suður (1149). Gissur var fæddur einhvern tíma um 1125, því að Þorlákur biskup († 31. janúar eða 1. febr. 1133) bauð honum til sín til fósturs, og vitnisburður hans bendir á, að hann hafi verið orðinn töluvert stálpaður áður en biskup dó og byrjaður á námi. Gissur fór opt af landi brott, segir í Sturlungu; hefur hann byrjað ungur utanferðir sínar. Hann var bæði vitur og málsnjall, segir sagan, og stallari Sigurðar konungs munns;

[1]) Hungr., Bps. I, 78; Ann. I, III, IV. [2]) Hungr., Bps. I, 80; Sturl. I, 247; Ann. I, III, IV. [3]) Hungr., Bps. I, 80–81; Ann. I, III, IV.

hefur hann verið hjá konungi áður og um það leyti sem faðir hans var valinn til biskups, og áður en hann sjálfur fór suður, því að Sigurður fjell 1155 og Gissur kvongaðist á Íslandi, er hann kom heim úr Rómaferð sinni, og var siðan á Íslandi að minsta kosti á meðan Sigurður konungur lifði. Gissuri var víða kunnugt um Suðurlönd og bendir það á, að hann hafi verið töluvert lengur í suðurgöngu sinni, en alment var. Hann ritaði bók um ferð sína, sem hjet *Flos peregrinationis*, en nú er týnd. Hvort Gissur hefur farið utan eptir að hann kvongaðist, en einhvern tíma áður en hann varð lögsögumaður (1181), er hvergi getið, og kemur hann þó dálítið við ýmsar sögur. Jón Þorkelsson skólastjóri hefur ætlað að hann hafi eigi gert það, en það er þó eigi alveg víst. Þær utanferðir hans, sem eru kunnar, hefur hann farið um 1144—1152.[1])

Nikulás Bergsson, ábóti að Þverá í Eyjafirði, mun hafa verið einhver hinn víðförlasti maður á Íslandi á 12. öld. Af ferðum hans segir þó eigi annað en það, að hann kom út 1154; en að fyrirsögn hans var rituð dálítil landafræði, sem enn er til, og nefnd er »Leiðarvísir og borgaskipun«.[2]) Síðast í henni segir og, að Nikulás ábóti hafi verið bæði vitur og víðfrægur, minnugur og margfróður, ráðvís og rjettorður. Í Postula sögum segir að hann væri gæddur náttúrugjöfum og völdum mannkostum. Í afskrift einni af Guðmundar sögu Arasonar (AM. 395, 4to) er sagt að hann hafi verið »kostulegur höfðingi«, »er margar ástgjafir hafði þegið af guði«.[3]) Það er augljóst, að slíkur maður hefur hlotið að afla sjer töluverðrar þekkingar á utanferð sinni, eins og líka landafræði hans ber vitni um, hvort sem hann hefur farið suður í lönd pílagrímsferð eða beinlínis til þess að fræðast og sækja þar einhvern skóla. Líklega hefur það þó verið pílagrímsferð, er hann kom úr 1154; mun hann hafa farið víðar og verið lengur í ferðinni en venja var til um íslenska suðurgöngumenn; má ætla að hann hafi komist alla leið til Jórsala, þótt ekkert segi af því. Eigi heldur er það kunnugt, hvort hann hefur á yngri árum sínum farið utan til náms. Í Kon-

[1]) Hungr., Bps. I. 74. 81; Sturl. I, 247; sbr. Jón Þorkelsson, Æfisaga Gissurar Þorvaldssonar bls. 3—4. [2]) Útgefin af E. C. Werlauff í »Symbolæ ad geographiam medii ævi ex monumentis Islandicis, Havniæ 1821, og af Kr. Kålund, Alfræði íslenzk. Kbh. 1908. [3]) Alfræði bls. 23, Post. s. 509; Bps. I, 407.

ungs annál segir að eins við árið 1154 »útkváma Nicholás ábóta«, og eins segir í Flateyjar annál, sem um það skeið er lítið annað en afskrift af Konungs annál; í Gottskálks annál er þetta að því leyti ógreinilegra, að eigi er greint hver Nikulás var. En lítil ástæða er til þess að ætla, að Nikulás þessi hafi verið Sæmundarson, eins og E. C. Werlauff og fleiri hafa ætlað af því að svo stendur í einu ungu pappírshandriti af annálum[1]), því að það er ritvilla og föðurnafn Eyjólfs prests Sæmundarsonar í Odda, sem er í sumum annálahandritum nefndur rjett á eptir Nikulási ábóta. Einnig er útkoma Nikulás ábóta sett 1153 í handriti þessu, en það er skakt. Í hinum fornu ábótatölum, sem eru upphaflega sett saman í byrjun 14. aldar, er einungis nefndur Nikulás ábóti að Þverá, en enginn ábóti að Þingeyrum með því nafni. Í eldra handritinu (AM. 415, 4to, skrifað um 1312) er hann kallaður Hallbjarnarson, en Bergsson í hinu yngra (Stokkhólm. Nr. 5 fol., skrifað um 1360).[2]) Í afskrift þeirri af Guðmundar sögu Arasonar, sem áður var nefnd, er Nikulás nefndur Bergþórsson,[3]) en afskrift þessi er frá 17. öld og ekki nákvæm. Allar þessar missagnir um föðurnafn Nikulás ábóta hafa ásamt nokkrum missögnum um dauðaár hans valdið því, að Finnur biskup Jónsson hefur ætlað að tveir ábótar með þessu nafni hafi verið uppi samtíða, og hafi annar þeirra verið ábóti í Þingeyrarklaustri († 1158), en hinn í Þverárklaustri († 1160). Eptir Finni biskupi hafa síðan flestir farið.[4]) En eptir þeim heimildum, sem nú eru kunnar, er engin ástæða til að ætla að um tvo ábóta sje hjer að ræða. Árið eptir að Nikulás Bergsson kom úr útanför sinni, setti Björn biskup Gilsson klaustur að Þverá í Eyjafirði og skipaði hann Nikulás ábóta yfir það. Nokkru síðar var fullgjörð dómkirkja sú, sem Klængur biskup ljet gjöra í Skálholti og staðið hafði í smíðum síðan 1153. Hann bauð þá Birni Hóla-

[1]) AM. 421, 4to frá 17. öld; Ísl. ann. 1847, bls. 64, árið 1154; sbr. Ísl. Ann. udg. af G. Storm, bls. XXXII, LI—LVII; Kålund, Katalog over den Arnamagnæanske håndskriftssamling I, 627. [2]) Dipl. Isl. III, 28, 153. [3]) Bps. I, 407. [4]) Hist. eccl. Isl. IV, 30—31, 41; sbr. E. C. Werlauff, Symbolæ ad geographiam medii ævi, bls. 4; R. Keyser, Efterladte Skrifter I, 555; Sveinbjörn Egilsson, Ritgjörðir tilheyrandi Snorra-eddu. Rvík 1849, bls. 249; Janus Jónsson, Tímarit Bókmfjel. VIII, 183, 200.

biskupi þangað og Nikulási ábóta og mörgum höfðingjum; vígðu biskuparnir báðir kirkjuna með aðstoð Nikulás ábóta á Vítusmessu, 15. júní. Árið 1158 bar hana upp á sunnudag og var þá trínitatis; má vera að vígslan hafi farið fram það ár, en annars er vígsluárið óvíst, og getur leikið á árunum 1155—1158. Nikulás ábóti andaðist 1159. Hann var skáld og orti drápu um Jóhannes postula, og fleiri kvæði guðrækileg.[1])

Eiríkur Oddsson, sagnaritari, fór til Björgynjar og dvaldi löngum í Noregi. Hann átti þar tal við ýmsa merka menn (Hákon maga, Einar Pálsson, Hall Þorgeirsson, Guðríði Birgisdóttur, systur Jóns Erkibiskups, og Ketil prófast) um viðburði þá, sem urðu á dögum Haralds gilla og sona hans. Eiríkur ritaði sögu Haralds gilla og frá Magnúsi blinda og Sigurði slembi, og þeim bræðrum Sigurði munn og Inga; var bók hans kölluð Hryggjarstykki. Alllíklegt er að Eiríkur hafi farið optar en einu sinni til Noregs, bæði fyrir og eptir 1150.[2])

Böðvar balti orti um Sigurð konung munn (um 1150), en er ókunnur að öðru leyti.[3])

Snorri Bárðarson, föðurbróðir Hrafns Sveinbjarnarsonar, var hjá Sigurði konungi munn 1153 og er talinn með skáldum, en ekki var honum ljett um að yrkja.[4])

Halldór slakkafótur bóndi í Fagradal, tengdasonur Þorgils Oddasonar, og Þorbjörn Vermundarson hins auðga fóru utan litlu eptir 1151. Kona Halldórs unni honum ekki og Þorbjörn var ólánsræfill. Þá er þeir komu um haf, rjeðust þeir til suðurferðar, og önduðust báðir.[5])

Atli Sveinsson var í Danmörku 1157 og sá meiðingar Þjettleifs Eðlarsonar eptir orustuna á Graðarheiði (23. október 1157), og sagði frá því síðar á Íslandi.[6])

Hallur Auðunarson barðist með Gregóriusi Dagssyni í Konungahellu 1158 móti Hákoni herðibreið og bar merki

[1]) Hungr., Bps. I, 82; Post. 509—510; SnE. II, 186; Ann IV; F. Jónsson Litteraturhist. II, 116; Skjaldedigtn. I, A. 560. Nikulás er í flestum heimildarritum talinn fyrstur ábóti að Þverá, en í ábótatalinu í Stokkhólmsbók er Höskuldur talinn fyrstur; hann hefur einungis verið það mjög skamma hríð og farið frá eða fallið frá á fyrsta eða öðru ári. [2]) Msk. 210, sbr. 219 og 221; Hkr. III, 7/360, 10—11/364—366, 12/368; Fms. VII, 218, 224, 226, 228, 239; sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. II, 381 o. ef. [3]) Sk.tal; Msk. 222; (Fms. VII, 354). [4]) Msk, 227; Sturl. I, 50. [5]) Sturl. I, 60—61. [6]) Knytl, Fms. XI, 372.

hans. Hallur gekk djarflega fram og mælti Gregórius við hann eptir orustuna: »Margir menn þykir mjer mjúkari í sóknum en þjer Íslendingar, því að þjer eruð óvanari en vjer Noregsmenn, en engir þykja mjer vápndjarfari en þjer.«[1])

Brandur prestur Sæmundarson var kosinn til biskups að Hólum 1163, og fór utan um sumarið og hafði með sjer brjef Klængs biskups á fund Eysteins erkibiskups í Niðarósi; var hann vígður til biskups 8. september þá um sumarið. Brandur var hinn fyrsti íslenski biskup, sem vígður var í Niðarósi. Hann var síðan í Björgyn um veturinn og fór til Íslands sumarið eptir.[2])

Jón Loptsson, Sæmundarsonar í Odda, var í Björgyn veturinn 1163—1164. Magnús konungur Erlingsson og aðrir frændur Jóns höfðu þá tekið við frændsemi hans. Af ferð Jóns segir eigi annað, nema að hann kom út 1164, og mun hann hafa farið utan sumarið áður. Seinna fór Jón aptur til Noregs eða utan, því að um útkomu hans er getið 1171.[3])

Arnaldur eða Arnhallur Þorvaldsson orti um Valdimar konung Knútsson eptir því sem segir í Skáldatali, og mun það vera sami maðurinn sem Saxi getur um með Absalon biskupi 1167 og nefnir Arnoldus Thylensis. Hann var forspár um margt, fróður um forna viðburði og kunni mjög vel að segja sögur; fekk konungur hann til að skemta sjer með sögum, og má nærri geta að hann hefur opt sagt Absalon biskupi sögur og eigi sist Saxa sjálfum.[4])

Þorlákur Þórhallsson fekk prestsvígslu, er hann var 17 eða 18 ára, af því að hann var mjög kostgæfinn og fátt var um kennimenn. Þá er hann hafði sparað saman nægan farareyri, fýstist hann utan og fór af Íslandi; er ekki sagt af ferðum hans uns hann kom í Paris. Þar var hann í skóla »svo lengi sem hann þóttist þurfa til þess náms, sem hann vildi þar nema«. Þaðan fór hann til Englands og var í Lincoln lengi að námi. Eptir sex ára burtveru fór hann aptur

[1]) Hkr. III, 3/400—401; Fms. VII, 254. [2]) Hungr. Bps. I, 83; Hkr. III, 21/461; Fms. VII, 304; Guðm. s., Bps, I, 416; Sturl. I, 129—130. Í Guðm. s. er sagt að Brandur biskup kæmi út sama sumar sem Ari Þorgeirsson og Ingimundur bróðir hans fóru utan (1165), en það er rangt. Ann. I, III, IV. [3]) Hkr. III, 21/461; Fms. VII, 304; Hungr., Bps. I, 83. Ann. IV 1164 og 1171. [4]) Sk.tal; Saxo, Müllers útg. bls. 812—813, Holders útg. bls. 594—595.

til Íslands (um 1155—1161). Þá er Þykkvabæjarklaustur var sett 1168, gerðist Þorlákur forstöðumaður þess, en sex árum síðar var hann kjörinn biskup í staðinn fyrir Klæng biskup, er tók vanheilsu mikla. Árið eptir (1175) fór Þorlákur í Skálholt og tók við staðnum, en menn vildu eigi að hann færi utan sökum ófriðar þess, er þá var milli Noregs og Íslands; dróst því utanferð hans til 1177. En er hann kom til Noregs, vildi erkibiskup eigi vígja hann nema með samþykki konungs, og Erlingur jarl og Magnús konungur, sonur hans, tóku því þunglega. Fyrir milligöngu erkibiskups og annara manna samþyktu þeir þó um síðir, að Þorlákur tæki biskupsvígslu, og gerðist þá vingunarsvipur á milli þeirra og skiptust þeir á gjöfum. Eysteinn erkibiskup vígði síðan Þorlák biskup 2. júlí 1178, og rjeðst hann nokkru síðar í skip, og ljet í haf til Íslands. Heimferðin gekk svo greitt að biskup kom 9. ágúst í Skálholt. Á meðal gjafa þeirra, sem hann fekk af erkibiskupi, er nefndur glergluggi einn, sem þótti ágætur.[1])

Einar Helgason, stjúpsonur Sturlu í Hvammi og systursonur Þorvarðs Þorgeirssonar, fór utan litlu eptir 1171 og var með Magnúsi konungi Erlingssyni vel metinn. Hann fjell í orustunni á Íluvöllum (27. maí 1180).[2])

Þórir Þorsteinsson, prestur hinn auðgi í Deildartungu, og Þorlaug kona hans Pálsdóttir, Sölvasonar í Reykholti, gengu suður, af því að hún hafði í raunum sínum heitið Rómaferð. Þau fóru til Noregs 1174 og komu af hafi norður við Þrándheim og voru þar um veturinn. Annan vetur (1175—1176) voru þau í Björgyn og þar ól Þorlaug svein, er Björn hjet. Sumarið eptir bjuggust þau til suðurferðar og seldu sveininn til fósturs. Síðan fóru þau til Róms, og önduðust bæði í þeirri ferð, Þórir prestur í Lucca (í Toskana) 18. mars 1177 á suðurleiðinni, en Þorlaug líklega í Róm eigi fyr en um Maríumessu 15. ágúst þá um sumarið. Fregnin um andlát þeirra kom til Noregs árið eptir, áður en Þorlákur biskup fór til Íslands. Björn sonur þeirra hjóna hafði einnig andast hið sama sumar um 8. júlí (1177).[3])

Jón Þórhallsson prestur, breiðfirðskur að ætt, var í suðurgöngu, á Ítalíu veturinn 1176—1177. Eptir páska (24.

---

[1]) Þorl. s., Bps. I, 92, 100—101, 267, 273—276; Sturl. I, 108; Ann. I, III, IV. [2]) Sturl. I, 86. [3]) Sturl. I, 107—108; Ann. IV.

apríl) hitti hann Þórlaugu Pálsdóttur á veginum til Róms, er hann fór sunnan, og sagði hún honum andlát manns síns í Lucca.[1])

Þorbjörn skakkaskáld hefur verið í Noregi fyrir og eptir 1180, því að hann orti um Erling jarl, Magnús konung Erlingsson og Sverri konung Sigurðarson, en ekkert er annað um hann kunnugt.[2])

Hallur Snorrason skáld var með Magnúsi konungi Erlingssyni 1181 á ferðinni suður til Björgynjar, þá er hann hafði ráðist á Birkibeina í Niðarósi og rekið þá þaðan.[3])

Bjarni Kálfsson skáld var með Bárði Guttormssyni, er hann flýði fyrir Heklungum úr Niðarósi í febrúar 1182, og mætti Sverri konungi í Harðkinn, á leið sunnan úr Vík.[4])

Máni skáld eða Skáld-Máni fór af Íslandi suður til Róms og kom þaðan magur og nærri klæðlaus á fund Magnúss konungs Erlingssonar austur við landsenda, líklega í Konungahellu.[5]) Hann skemti konungi með kvæðum og kvað fyrir hann Útfarardrápu Halldórs skvaldra um Sigurð Jórsalafara. Hann orti þar einnig vísur um leikara tvo, svo að þeir urðu að athlægi. Konungur tók Mána til sín og var hann í föruneyti hans til Björgynjar. Magnús konungur fjell um sumarið (15. júní 1184), og er Máni talinn síðast af skáldum hans; hans er eigi getið með skáldum Sverris konungs og hefur hann líklega farið til Íslands litlu síðar. Tæpum þrjátíu árum síðar getur hans þar, og orti hann þá vísu um gjafir þær, sem Hákon jarl galinn sendi Snorra Sturlusyni (1213).[6])

Ásgrímur Ketilsson, skáld í Fljótum, mun hafa farið utan á fyrstu ríkisárum Sverris konungs og ort um hann; hann er í Skáldatali talinn fyrstur skálda Sverris konungs. Ásgríms getur norður í Fljótum um 1187—1189, og hefur hann þá verið kominn heim frá Noregi. Jón Ketilsson bróðir hans hafði þá mannaforráð í Fljótunum og gáfu þeir bræður Guðmundi dýra nokkru síðar goðorðið til liðveitslu. 1199 er

---

[1]) Sturl. I, 108. [2]) Sk.tal; Hkr, III, 17/372, 3/437, 20/460; Fms. VII, 232, 284, 303. [3]) Fms. VIII, 165—166; Flat. II, 593. [4]) Fms. VIII, 172; Flat. II, 595—596. [5]) Í Flat. II, 608 segir, að Magnús konungur hafði af Konungahellu tvö Íslandsför, hjet annað Keipan, en hitt Vallabussan. Skip þessi eru nefnd í Fms. VIII, 204, en eigi eru þau þar kölluð Íslandsför [6]) Fms. VIII, 206—208, sbr. 204 og Flat. II, 608; Sturl, I, 328.

getið um son einn, sem Ásgrímur átti og var þá bóndi í Haganesi í Fljótum.[1])

Hallbjörn hali fór utan eins og segir í þætti Þorleifs jarlsskálds og er það sami maðurinn sem sá, er nefndur er með því nafni í Skáldatali og orti um Sverri konung Sigurðarson og Knút konung Eiríksson (1167—1195) í Svíþjóð. Utanferð hans hefur verið einhvern tíma á árunum 1180—1195.[2])

Þorvarður Ásgrímsson hinn auðgi, bróðursonur Guðmundar hins dýra á Bakka í Öxnadal, fór utan 1184 og kom eigi aptur, því að hann andaðist í Noregi fyrri hluta ársins 1186.[3])

Erlendur Þorgeirsson fór utan með Þorvarði hinum auðga 1184; um útkomu hans er eigi getið, en 1197 kemur hann við sögu og bjó hann þá að Myrká í Hörgárdal.[4])

Þorvaldur Gissurarson, Hallssonar, í Hruna, fór utan á fund Eysteins erkibiskups. Hann hafði þá fyrir nokkru fengið Jóru Klængsdóttur biskups og Yngveldar Þorgilsdóttur, en kennimenn meinuðu þeim samvist, líklega sökum skyldleika. Erkibiskup leyfði þeim þá að vera saman tíu vetur þaðan frá. Hvaða ár Þorvaldur fór utan og hve lengi hann var í ferðinni, segir ekki. Jón rektor Þorkelsson hefur ætlað[5]) að hann hafi farið utan 1186 og komið út 1187, en það ár kom ekkert skip til Íslands, svo að hann hefur eigi getað komið út fyr en 1188, ef hann hefur farið utan 1186. Þorvaldur var á Íslandi veturinn 1185—1186, þá er Einar Þorgilsson fjell frá (15. desember 1185), og fram yfir alþingi 1186. Má hann þá vel hafa farið utan og komið út 1188; en hitt er þó líklegra, að hann hafi farið ferð þessa 1184—1185, og verið kominn heim er Einar Þorgilsson andaðist. Eptir tíu ár áttu þau Þorvaldur og Jóra að skilja, hvort sem þeim væri það þá blítt eða strítt, og þessu játaði hann. Þau unnust mjög mikið og aldrei meira en þá er þau áttu að skilja. Þó mun Þorvaldur hafa reynt að halda heit sitt við erkibiskup. En þessi sorg mun hafa dregið Jóru til dauða. Hún andaðist 1196.[6])

---

[1]) Sk.tal; Sturl. I, 163, 165, 210. [2]) Þorl. þ., Ísl. forns. III, 131, sbr. Jón Sigurðsson, SnE. III, 370—376; F. Jónsson, Litteraturhist. II, 76. [3]) Sturl. I. 156, 147; Bps. I, 430; Ann. I, III, IV, V. [4]) Sturl. I, 188. [5]) Æfisaga Gissurar Þorvaldssonar, bls. 8. [6]) Sturl. I, 233, 248—250; Ann. I, IV (1196).

»Kolbeinn Tumason var utan farinn« segir í Sturlungu. Það virðist vera árið 1187 og mun hann því hafa farið utan 1186 og komið út 1188.[1])

Magnús Gissurarson, Hallssonar, »fór tvívegis til Rípa af Íslandi« sumarið 1188. Hann hefur farið með skipi, sem lagt hefur í haf frá Íslandi um vorið, og líklega hefur farið beint til Danmerkur, til Rípa; að öðrum kosti hefði verið miklu örðugra fyrir hann að fara báðar leiðir sama sumarið; bendir það helst á að hann hafi farið með dönsku skipi, en ferðar þessarar er einungis getið með fyrgreindum orðum í annálum.[2])

Maður nokkur, sem nefndur var Sigurður brennir, reisti 1188 flokk á móti Sverri konungi austur í Vík og fór með ránum. Hann þóttist vera sonur Inga konungs Haraldssonar. Sumarið eptir fóru bændur og nokkrir liðsmenn konungs að honum. En þá er flestir menn hans voru fallnir, sagði hann þeim, að hann hjeti Hjeðinn Þorgrímsson og væri íslenskur að allri ætt. Síðan feldu þeir hann eptir hrausta vörn (1189).[3]) Um Hjeðinn er ekkert kunnugt nema uppreist hans, og Sverris saga er ein til frásagna um þetta.

Blakkur skáld var hjá Sverri konungi um 1187—1191. Eptir hann eru til nokkrar vísur, en annars er ókunnugt um hann.[4])

Páll Jónsson, Loptssonar í Odda, fór utan þá er hann var milli tvítugs og þrítugs og var fyrst með Haraldi jarli Maddaðarsyni í Orkneyjum. Síðan fór hann til Englands og var þar í skóla, og »nam þar svo mikið nám, að trautt voru dæmi til, að nokkur maður hefði jafnmikið nám numið nje þvílíkt á jafnlangri stund«. Þá er hann kom til Íslands, þótti hann bera af öðrum mönnum »að kurteisi lærdóms síns«, latneskri versagjörð og bóklegri kunnáttu, en einkum var hann frábær söngmaður. Hann hefur verið tvö ár eða lengur í ferð þessari (um 1180).[5])

Sumarið 1194 var Páll Jónsson kosinn til biskups, þótt hann væri þá að eins djákn að vígslu. Hann fór til Noregs og var í Niðarósi fram á vetur. Eiríkur erkibiskup var þá

---

[1]) Sturl. I, 160. [2]) Ann. IV, (IX). [3]) Fms. VIII, 266—267; Eirsp. 115—116; Flat. II, 631—632. [4]) Fms. VIII, 256, 257—258, 276—277; Eirsp. 111, 120, 121. [5]) Páls s., Bps. I, 127.

landflótta í Danmörku. Eptir jólin fór Páll suður yfir fjöllin til Upplanda á fund Sverris konungs, og tók hann honum forkunnar vel. Þórir biskup í Hamri vígði þá Pál til prests ([25. eða] 26. febr. 1195). Páll fór þá aptur til Sverris konungs og var með honum í Ósló, uns hann fór með brjefum hans til Danmerkur og kom 2. apríl, á sjálfan páskadaginn, á fund erkibiskups í Lundi. Absalon var þar þá erkibiskup, og bauð hann Páli að vera með sjer um páskavikuna og fagnaði honum mjög vel. Síðan var Páll um hríð í Hjeraðsvaðsklaustri (Herisvad, á Skáni) og beið þar vígslu sinnar. Knútur Danakonungur Valdimarsson lagði þátil að ferð hans skyldi flýta, eptir því sem honum gegndi best og þeim mönnum, er hann skyldi vera biskup yfir. Biðin varð því skemri en Páll bjóst við, og vígði Absalon erkibiskup hann 23. apríl 1195 að ráði Eiríks erkibiskups, sem eigi hafði þá sjálfur sýn til að vígja hann; en hann var við vígsluna og Pjetur biskup af Hróarskeldu. Páll biskup gaf Absaloni erkibiskupi gullhring og Eiríki erkibiskupi annan, og öllum öðrum nokkurar gersemar, þeim er studdu embætti hans, vígslu og tign, segir sagan.

Páll biskup var fertugur, er hann var vígður til biskups. Hann fór þá til Noregs og fann Sverri konung í Vík austur og fór með honum til Björgynjar, og var með honum uns hann fór til Íslands um sumarið. Á meðan Páll biskup var í Björgyn, var þar biskupafundur til umráða með konungi út af banni því, sem páfinn og Eiríkur erkibiskup hafði lýst yfir honum. Þangað komu því allir biskuparnir í Noregi og enn fremur Bjarni biskup Kolbeinsson af Orkneyjum. Var það ráð tekið, að senda Þóri biskup af Hamri með nokkrum mönnum á fund páfa og færa honum brjef með innsigli konungs og allra biskupa þeirra, sem voru á fundinum; var í því skýrt frá deilu þeirra konungs og erkibiskups. Páll biskup mun eigi hafa skoðað bannfæringuna yfir konungi löglega; að öðrum kosti hefði hann varla verið hjá honum. Um sumarið fór Páll biskup til Íslands og kom út í Eyjafirði; hafði hann með sjer út tvo glerglugga í dómkirkjuna í Skálholti. Slíkir gluggar voru þá fágætir og opt hin mestu gersemi, því að þeir voru málaðir, stundum af mikilli list. Engir slíkir gluggar munu nú vera til á Íslandi, en í gömlum steinkirkjum erlendis eru þeir altíðir, og þeir hafa verið

teknir þar upp víða í nýjar kirkjur, einkum þær, sem eru vandaðar og gerðar af mikilli list.[1])

Hrafn Sveinbjarnarson á Eyri (Hrafnseyri) við Arnarfjörð var snemma hinn mesti atgjörvismaður og næmur á margt. Hann fór ungur af landi brott, bæði til Orkneyja og til Noregs. Í Orkneyjum komst hann í kynni við Bjarna biskup Kolbeinsson, og sendi biskup honum síðar til Íslands fingurgull, er á var merktur hrafn og nafn hans, svo að innsigla mátti með því, einnig söðul og steinklæði. Hrafn var að eins eitt ár í þessari ferð (rjett fyrir eða um 1190). Fám árum síðar fór Hrafn aptur utan (um 1195). Hann var þá í Noregi hinn fyrsta vetur og fór vorið eptir til Englands og »sótti heim hinn helga Tómas erkibiskup« (gröf Thomas Beckets) í Kantaraborg og gaf hann dýrðlingnum rostungstönn, sem hann hafði fyr heitið, og fje til musteris hans. Þaðan fór hann suður um haf og um Frakkland til Bourg St. Gilles (hinn helgi Egidius í Ilansborg = Burgus Sancti Ægidii) við Rhoneósa. Þá fór Hrafn vestur til Spánar, til þess að heimsækja hinn helga Jacob postula í St. Jago di Compostella. Þaðan fór hann til Rómaborgar. Síðan hjelt Hrafn norður á leið og »varði fje sinu til helgra dóma, þar sem hann kom«. Hann kom í Noreg og fór þaðan til Íslands. Var hann þá um veturinn á Þingvelli með Brandi mági sínum. Vorið eptir kvongaðist hann og fór síðan vestur á Eyri og tók við föðurleifð sinni og goðorði föður`sins, og bjó þar síðan.[2])

Um 1193 komu út þrír Eyfirðingar á skipi, sem mun hafa komið í Eyjafjörðinn. Einn þeirra hjet Bergur Þorsteinsson, annar Illugi Jósepsson og var kallaður hallfrekur, en hinn þriðji Þormóður Einarsson. Þeir fóru í vist, en urðu missáttir áður, af því að Þormóður sagði sjer horfið ljerept og annan varning, og kendi það Illuga. Vorið eptir hefndi Illugi þess og veitti Þormóði mikinn áverka. Illugi bar síðan járn til sýknar sjer og varð mjög skír. Um sumarið fór hann utan og kom út þá um haustið (líkl. 1194).[3])

Sighvatur Bjarnarson hinn mikli, frá Brekku í Ó-

---

[1]) Páls s., Bps. I, 128—131; Fms. VIII, 297—298; Eirsp. 131; Flat. II, 644—645; Ann. I, III, IV, V. [2]) Hs. Sturl.[2] II, 276—278; Bps. I, 641—643. [3]) Sturl. I, 174—175.

lafsfirði, kom út um 1195; hann hafði verið utan nokkra vetur »og verið í víking«,[1]) mun orðið víking haft hjer í sömu merkingu sem hernaður.

Björn Hallsson, bóndi frá Fornastöðum í Suður-Þingeyjarsýslu, var erlendis veturinn 1194—1195, og kom út um sumarið (1195).[2])

Sigurður Oddsson, er kallaður var grikkur, kom út um 1196 eða litlu fyrir 1198. Hann hafði verið í Miklagarði og hafði þaðan sverð eitt ágætt, er Brynjubítur var kallað[3].) Hvorki hann nje Sighvatur mikli voru Væringjum eða víkingunum til sóma. Þeir voru báðir grimmir menn og harðúðgir, og er auðsætt að hernaðarstarfið hefur haft áhrif á þá. Einkum fórst þó Sigurði illa við Hákon Þórðarson í Laufási. Hann tók við Sigurði fjelausum á heimili sitt, er hann kom frá útlöndum, en Sigurður launaði það svo, að hann glapti konu hans; er svo að sjá sem Hákon hafi gefið honum upp þá sök. En þá er Þorgrímur alikarl ljet taka Hákon af lífi 1198, eptir það að hann hafði heitið honum griðum, vildi enginn af mönnum hans vega að honum, fyr en Sigurður grikkur bauðst til þess.

Kálfur Guttormsson, sem síðar varð nafnkunnur bóndi á Grund í Eyjafirði, fór utan og kom út sumarið 1197, að því er virðist; er getið um hann nokkru eptir þing þá um sumarið sem nýkominn út.[4])

Sveinn Þórólfsson fór af landi í brott, af því að Þórður Snorrason hafði fengið mann til að vinna á honum, sökum þess að hann lagði þokka á hálfsystur hans, en hún var sammæðra Þóru konu Sveins. Sveinn fekk áverka mikinn og græddi Hrafn Sveinbjarnarson hann; fór hann þá til Noregs (1197 eða 1198) og gerði bú á Hálogalandi og kom eigi síðan til Íslands.[5])

Í lok aldarinnar eða um 1200 var íslenskur maður, Þórður að nafni, á skipi með Austmönnum, er komu af Orkneyjum að því er sagan segir.[6])

Guðný Þorvarðsdóttir, Þorgeirssonar frá Hvassafelli, sem átti Þorgeir Brandsson biskups († 1186), giptist síðar

---

[1]) Sturl. I, 181. [2]) Sturl. I, 177—178. [3]) Sturl. I, 204, 318. [4]) Sturl. I, 198. [5]) Hs., Sturl.[2] II, 286; Bps. I. 652. [6]) Jóns s., Bps. I, 210—211.

(líklega um 1190) Eiríki Hákonarsyni úr Orkneyjum. Hann var dótturson Sigurðar slembidjákns. Hefur hann líklega komið til Íslands og kynst Guðrúnu og giptst henni þar, en hún síðan farið með honum til Orkneyja og sest þar að, en ekkert vist er um þetta kunnugt.[1])

Að lokum skal hjer nefndur Brandur hinn víðförli. Í vísu einni kveðst hann hafa komið að gröf Þorvalds hins víðförla á Rússlandi; bendir hún og auknefni hans á að hann hafi farið víða. Annars er ekkert um hann kunnugt. Eptir vísunni að dæma, hefur Guðbrandur Vigfússon ætlað að hann hafi eigi lifað fyr en á ofanverðri 12. öld.[2])

# Fjórði þáttur. Ferðir Norðmanna og annara útlendinga til Íslands.

## I. Norskir kaupmenn og kaupskip.

Á friðar- og rit-öldinni segir svo fátt af norrænum kaupmönnum á Íslandi, að í fyrstu kann svo að virðast sem Norðmenn hafi átt heldur lítinn þátt í utanlandsverslun Íslendinga, en þá er betur er að gáð, er augljóst að því var eigi svo farið. Þó er að eins getið um mjög fáa norska kaupmenn nema á miðri 11. öld og á tveimur síðustu tugum 12. aldar.

Um 1038 eða nokkrum árum síðar voru á Norðurlandi norrænir menn, sem áttu kaupskip í fjelagi við tvo Íslendinga, en þeir seldu sinn helming Þorgrími Hallasyni (sjá að framan bls. 738—739).[3])

Sumarið 1041 var kaupskip eitt í Hrútafirði, búið til hafs. Það áttu tveir norrænir menn, Einar og Bjarni. Einar var naumdælskur. Bróðir hans, er hjet Sigurður, var á skipinu með honum. Þeir fóru til Noregs um sumarið og

[1]) Guðm. s., Bps. I, 408; Sturl. I, 122. [2]) Krist., Bps. I, 25—26; Þorv. þ., Bps. I, 49. [3]) Fms. VI, 31.

fluttu utan Hrafn Guðrúnarson; gerðu þeir bræður vel til hans (sjá að framan bls. 767).[1])

Kálfur hinn kristni hefur líklega komið til Íslands 1047, því að árið eptir er hans getið í Svarfaðardalsárósi og fór hann þá utan um sumarið og með honum Ljósvetningar. Kálfur og skipverjar hans eru nefndir Austmenn (sjá að fr. bls. 767—769).[2])

Um eða rjett fyrir 1050 kom út skip vestur í Vaðli og voru Austmenn á því (sjá að fr. bls. 755).[3])

Sigurður stýrimaður átti skip, er hann fór á milli Íslands og Noregs (um 1050). Hann mun hafa verið norskur, þótt þess sje eigi beinlínis getið. Hann ljet í haf frá Gásum í Eyjafirði og fór Sneglu-Halli utan með honum. Í þætti hans í Flateyjarbók og í Sex sögu-þáttum er sagt, að stýrimaðurinn hafi verið hirðmaður Haralds harðráða og hjeti Bárður (sjá að fr. bls. 762—763).[4])

Þórir stýrimaður, norrænn kaupmaður, fór kaupferðir bæði til Íslands og Grænlands (um 1050—1060). Hann átti bú á Mæri. Með honum fór utan Auðun hinn vestfirðski (sbr. að fr. bls. 759).[5])

Um 1053 voru Austmenn á kaupskipi, sem þeir áttu, í Þorgeirsfirði í Suður-Þingeyjarsýslu og biðu þar byrjar.[6])

Hárekur, norrænn kaupmaður, var í förum um 1056. Hann var frændi Þorsteins, vinar Odds Ófeigssonar, þess er hjálpaði honum best að fela Finnavöruna fyrir Haraldi harðráða. Hárekur kom í Miðfjörð og þá veturvist hjá Oddi Ófeigssyni í hallærinu. Oddur sendi Þorsteini vini sínum stóðhross með honum.[7])

Í hallærinu mikla á Íslandi 1056—1058 »leyfði Haraldur konungur fjórum skipum mjölleyfi til Íslands og kvað á, að ekki skippund skyldi vera dýrra en fyrir hundrað vaðmála«. Af þessu má ráða að fjögur kaupskip hafi þá farið af Noregi með mjöl til Íslands (1057 eða 1058). Haraldur leyfði þá líka »utanferð öllum fátækum mönnum, þeim er sjer fengi vistir um haf, og þaðan af nærðist land þetta til ár-

[1]) Fms. VI, 107—109, sbr. 111, 117. [2]) Ljósv. 28/235—237, 29/238 og 240. [3]) Hkr. 21/15; Ldn. 51. [4]) Msk. 93; Fms. VI, 360; Flat. III, 415—416; Sex söguþ. 19—20. [5]) Msk. 61; Fms. VI, 297—298; Flat. III, 410—411. [6]) Band. 39—40. [7]) Msk. 109; Fms. VI, 383—384; Flat. III, 386.

ferðar og batnaðar« (Snorri). Þetta var eigi lítil ívilnun, því að nú máttu fátækir menn koma til Noregs, þótt þeir gætu eigi greitt konungi landaura, eins og allir frjálsir íslenskir karlmenn voru skyldir til. Segir í Flateyjarbók að fjöldi fátækra manna hafi þá farið utan, og er alllíklegt að margir hafi notað sjer þetta leyfi, þótt eigi sje þess getið í hinum eldri sögum eða handritum af sögu Haralds harðráða.[1])

Eptir þetta er um langt skeið eigi getið neinna norrænna eða útlendra kaupmanna á Íslandi, nema Gjafvalds, hirðmanns Magnúss berfætts, og Þormóðs Kollasonar tengdaföður hans (um 1084—1085), af því að þeir vágu Illuga Þorvaldsson og hefndin eptir hann varð söguleg. Þeir munu eflaust hafa verið í kaupskaparerindum, þótt þess sje eigi getið, og farið síðan til Noregs (sjá að fr. bls. 743)[2]). Á ríkisárum Ólafs kyrra var kaupskapur í miklum uppgangi í Noregi; segir það sig sjálft, að Norðmenn hafa á þeim árum siglt til Íslands eins og á miðri 11. öld eða síðast á 12. öld, þá er sögur eru af siglingum þeirra, þótt eigi sje þar getið norrænna kaupmanna fyr en 1117. Ólafur kyrri hafði sjálfur hálfu fleiri hirðmenn, gesti og húskarla, en venja hafði verið til um konunga fyrir hann. Hann mun hafa verið búhöldur góður, eins og auknefni hans bóndi bendir á. Húskarlar hans eða þeir heimamenn, sem eigi voru handgengnir og í minna yfirlæti, höfðu þann starfa á hendi að flytja það, er konungur þurfti eða ármenn hans, og fara kaupferðir. Þeir voru 60 að tölu og skyldir að starfa það, sem konungur vildi.[3])

Árni fjöruskeifur átti skip með Hermundi Þorvaldssyni úr Vatnsfirði og kom út til Íslands 1117, eins og fyr er sagt (sjá að fr. bls. 745). Þótt þeir fjelagar tækju land á Eyrum, var Árni samt í veturvist hjá Þorgilsi Oddasyni vestur í Saurbæ. Mun hann hafa riðið vestur með fjelaga sínum. Sumarið eptir fóru þeir utan. Árni var hirðmaður Sigurðar Jórsalafara og er hans getið fám árum síðar við hirð hans, þá er Þórarinn stuttfeldur kom þangað. Ljek Árni þá á hann og fekk hann til þess að yrkja vísu um hirðmann einn, sem hjet Hákon Serksson, og kalla hann

[1]) Hkr. III, 36/129; Fsk, 263; Fms. VI, 266; Flat. III, 343.
[2]) Fms. VII, 30—38; Jóns s., Bps. I, 156. 221. [3]) Msk. 126; Hkr. III, 4—5/228—229; Fsk. 307—308; Fms. VI, 443; Munch, Hist. III, 431 o. ef.

mörstrút í vísunni; kvað hann konung hafa boðið það, en það reyndist ósatt. Sökum þess kvað Þórarinn að tilmælum Hákonar háðvísu um Árna. Hún var bitur, því að hann kvað Árna varla hafa fengið kráku fæðu á Serklandi, er hann var þar með Sigurði konungi, og borið hjálminn hræddur. Árni brá þá sverði og vildi höggva til Þórarins, en var stöðvaður.[1])

Sigurður slembidjákn hafðist við í kaupferðum um hríð eptir það, að hann kom úr suðurgöngu sinni og Jórsalaferð. Hann kom þá eitt sumar til Íslands, liklega 1135, og var um veturinn með Þorgilsi Oddasyni á Staðarhóli í Saurbæ; segir sagan, að fáir menn vissu hver hann var. Nokkrar sagnir eru af honum þar um veturinn. Þótti hann því meira verður sem hann var lengur. Fleiri Austmenn eða útlendir menn voru þar um veturinn ásamt Sigurði; voru það eflaust nokkrir skipverjar hans. Sumarið eptir fóru þeir til Noregs; segir sagan að Sigurður segði áður Þorgilsi Oddasyni, að hann væri sonur Magnúss konungs berfætts. Hann sótti síðan á fund Haralds gilla og bað hann taka við frændsemi sinni. Vist Sigurðar á Íslandi hefur eflaust átt nokkurn þátt í því, að tiltölulega margir Íslendingar voru með honum í baráttu hans í Noregi.[2])

Þau tvö kaupskip, sem fluttu út kirkjuvið í Skálholtskirkju fyrir Klæng biskup 1152, munu hafa verið norsk, þótt þess sje ei getið. Annað þeirra hefur hann að líkindum fengið á meðan hann var í Noregi, en annað er líklegt að hafi verið skip það, sem hann tók sjer far á.[3])

Jón hirðmaður Inga konungs Haraldssonar kom á kaupskipi, er hann átti fyrir að ráða, til Íslands um 1157. Hann mun hafa tekið land í Eyjafirði, því að þar getur hans árið eptir; var hann þá í brottbúningi og sigldi til Björgynjar um sumarið (sbr. bls. 751).[4])

Ámundi Konráðsson kom út í Eyjafjörð með Ara Þorgeirssyni 1163 og átti með honum hálft skipið, sem þeir

---

[1]) Sturl. I, 15—17; Msk. 188—189; Hkr. III, 508—509; Fms. VII, 153—154. P. Riant, Skandinavernes Korstog, bls. 246, telur Árna fjöruskeif Íslending, en það er skakt, eins og aðferð hans við Þórarinn og frásaga þessi bendir á. [2]) Msk. 204—205; Hkr. III, 516—517; Fms. VII, 218—220, sbr. Munch, Hist III, 773 o. ef. [3]) Hungr., Bps. I, 81. [4]) Guðm. s., Bps. I, 408; Sturl. I, 121.

sigldu með. Ámundi hefur eflaust verið norskur, þótt eigi sje þess beinlínis getið, og mestöll skipshöfn þeirra norsk. Sumarið eptir reið Ari til alþingis og hafði nær 30 Austmanna í flokki sínum; hefur þar verið Ámundi stýrimaður og aðrir skipverjar þeirra. Líklega hefur Ámundi verið tvo vetur á Íslandi eins og Ari, og farið utan 1165 (sjá að fr. bls. 751—52).[1]

Um 1172—1176 var ófriður eða fjandskapur allmikill milli Íslendinga og Norðmanna; ófriður þessi er fyrir löngu að mestu leyti ókunnur, því að engin saga er af honum, og hafa menn því á vorum dögum eigi gefið honum þann gaum, sem vert er.

Tveir menn eru þó nefndir, sem áttu allmikinn þátt í fjandskap þessum. Annar þeirra var norrænn, Páll austmaður, en hinn íslenzkur, Helgi Skaptason, bóndi og prestur í Saurbæ á Kjalarnesi.

Upptökin að ófrið þessum eru ókunn, en að hann var byrjaður 1172, má sjá af brjefi Eysteins erkibiskups, er hann ritaði 1173 til biskupanna á Íslandi, höfðingjanna og allrar alþýðu. Þar minnist erkibiskup á ófrið þennan og býður Íslendingum að leiðrjetta það, sem þeir hafi afgjört við konunginn og landslýð hans, þótt margir verði að bæta það, sem fáir hafi misgjört. Af þessu má sjá, að skærur hafa verið með Norðmönnum og Íslendingum árið áður, því að annars hefði erkibiskup tæplega vitað um þær og ritað svo; það má vera að þær hafi byrjað fyr, því að líklega mun Páll austmaður hafa komið til Íslands 1171.

Í þessu sama brjefi ræður erkibiskup til þess að fresta eigi biskupskosningu í staðinn fyrir Klæng biskup, sem var þrotinn að móð og mátt, og láta biskupsefnið koma utan að sumri (1174). Þorlákur Þórhallsson var þá kosinn til biskups af Klængi biskupi á alþingi, sem fyr er sagt, en þótt erkibiskup hefði beðið um, að hann kæmi þá til Noregs, »vildu menn eigi að hann færi utan, fyrir sakir ófriðar þess, er þá var millum Noregs og Íslands, er málum var ósett þeim er gerðst höfðu landa millum af vígum og fjárupptektum«, og fór hann því eigi utan fyr en þremur árum síðar, og

[1]) Guðm. s., Bps. I, 411—412, 416; Sturl. I, 125.

fekk þá mjög daufar móttökur hjá Magnúsi konungi og Erlingi jarli föður hans.[1])

Líklega hafa einhverjir norskir kaupmenn og nokkrir Íslendingar orðið ósáttir og gripið til vopna. Þeir, sem haft hafa betur, munu þá hafa tekið upp fje fyrir hinum, og bendir Þorláks saga biskups á, að Íslendingar hafi tekið upp fje fyrir Norðmönnum á Íslandi, en ekkert nánar er af því sagt. Í mörgum annálum segir við árið 1172 »brenna í Saurbæ«. Í Guðmundar sögu Arasonar er þetta sagt nákvæmar, að þá hafi verið brendur bær Helga Skaptasonar í Saurbæ á Kjalarnesi; en hver hann hafi brent, getur ekki. Hjer um bil tveimur árum síðar brendi Helgi Skaptason skip fyrir Páli austmanni, er síðan var kallaður Brennu-Páll, og fyrir það var Helgi veginn á alþingi 1175 af Austmönnum. Flestir annálar geta um víg þetta, og Flateyjar annáll og Gottskálks annáll kalla Helga prest. En Guðmundar saga Arasonar segir fyrir hvað Helgi var veginn og hverjir vegendurnir voru. Hún segir einnig, að Þorvarður Þorgeirsson hafi mælt eptir vígið og fengið sjálfdæmi af Austmönnum, því að hann mundi ella hafa látið drepa þá, »og fekk hann af því virðing mikla«. Það má nærri geta að þeir hafa orðið að bæta Helga Skaptason fullum bótum og líklega orðið hart úti, þar sem þeir voru svo aflvana, að þeir sáu eigi annað fyrir en rauðan dauðann, ef þeir seldu eigi sjálfdæmi.

En því brennir Helgi Skaptason, sem var prestur og vel metinn maður, skip fyrir Páli og fjelögum hans, Austmönnum? Það er ólíklegt að hann hafi gert það að ósekju. Þessi atburður bendir beint á, að Páll hafi brent bæinn í Saurbæ fyrir Helga, og að hann hafi hefnt sín, er hann brendi skipið. En ekki er heldur líklegt að Helgi hafi verið saklaus við Pál, er hann brendi bæinn. Líklega hefur þeim áður lent saman (1171), Helga veitt betur og hann tekið upp vörur fyrir Páli, en Páll síðan brent bæinn til hefnda fyrir það, svo að Helgi nyti eigi fjár hans. Síðan mun Páll þegar hafa farið utan, er hann hafði brent bæinn (1172), en komið út tveimur árum síðar 1174, og Helgi sætt þá færi og hefnt sín og brent skipið fyrir Páli; var þá eigi undarlegt,

---

[1]) Dipl. Isl. I, 218, 223; Hungr., Bps. I, 84; Þorl. s., Bps. I, 98—101, 272—275, 398.

þótt hann væri kallaður Brennu-Páll.[1]) Ýmsir aðrir hafa lent í þessum málum, ekki síst Íslendingar, sem hafa borið hærra hlut á Íslandi. En frjettir þær, sem borist hafa til Noregs af vígum og fjártjóni Norðmanna á Íslandi, hafa vakið þar megna gremju, og Íslendingar hafa óttast hefndir og fjárupptekt, ef þeir kæmu þangað. Samgöngur milli Íslands og Noregs hafa þó eigi stöðvast alveg þessi ár, nema ef til vill árið 1176. Árið 1172 fór utan skip úr Eyjafirði[2]) og á næstu árum er getið manna, sem fóru á milli landa.[3]) Árið 1175 kom út Hreiðar sendimaður,[4]) en ekkert segir nánar af ferð hans. Eptir annálum að dæma er þetta sami maðurinn, sem kunnur er af Sverris sögu og kemur allmikið við Noregs sögu um 1195—1210, og ætlar Munch að svo geti verið.[5]) Hreiðar sendimaður andaðist 1214[6]) og hefur hann því verið ungur að aldri, er hann kom til Íslands 1175. Útkoma hans hefur vakið eptirtekt á Íslandi, þar sem hennar er getið í annálum; er því eigi ólíklegt að hann hafi verið sendur til landsins af Erlingi jarli og Magnúsi konungi til þess að semja um bætur fyrir fjárupptektir og víg þau, sem orðið höfðu á milli Norðmanna og Íslendinga. Í einu ungu annálahandriti er því bætt við um útkomu Hreiðars, að hann hafi verið sendur af Sverri konungi til að flytja, »hvort Íslendingar vildu til játast undir hann«,[7]) en þetta er auðsjáanlega tilgáta, sem ekki er á neinum rökum bygð. En einu eða tveimur árum eptir útkomu Hreiðars munu sættir hafa komist á milli Norðmanna og Íslendinga.

Hallsteinn kúlubakur og Hávarður voru stýrimenn á kaupskipi, sem var að Gásum 1180 og lagði af stað þá um haustið, 28. september. Þeir munu báðir hafa verið Norðmenn, eins og fyrirsögnin yfir 8. kapítula í Guðmundar sögu bendir á, og meginhluti skipshafnarinnar var norskur. Líklega hafa þeir komið út árið áður, en þó má vera að þeir hafi komið út snemma sumars 1180, og það hafi valdið því, hve seint þeir lögðu af stað; venjulega er þess þó getið, ef

[1]) Guðm. s., Bps. I, 418, 419; Sturl. I, 133, 134; Ann. I, III, IV, VII, VIII, árin 1172 og 1175; Flat. III, 517. [2]) Sturl. I, 94 [3]) Sturl. I, 94, 108, sbr. einnig brjefaviðskipti erkibiskups á þessum árum við Klæng biskup. [4]) Ann. I, III, IV, VII, IX. [5]) Munch, Hist. IV, 292. [6]) Ann. IV, V, IX. [7]) Isl. Annaler udg. ved G. Storm, formálinn bls. LIII.

menn fóru tvivegis, og margt gat viðborið, sem seinka mátti burtför þeirra. Þeir brutu skip sitt við Hornstrendur, en björguðust allir í land og segir ekki af þeim siðan.[1]) En eins og gefur að skilja, hafa þeir dvalið á Íslandi um veturinn og eigi komist þaðan fyr en sumarið eptir.

Veturinn 1184—1185 stóðu uppi þrjú skip í Eyjafirði og munu Austmenn hafa átt þau öll, svo framarlega sem Ögmundur rafakollur, er átti eitt þeirra, hefur verið norskur, en það er óvist. Stýrimenn á hinum skipunum tveimur eru eigi nafngreindir, en af öðru þeirra eru nefndir þrír Austmenn, Grimur rauður, Erlingur og Hrafn. Þeir voru allir i veturvist hjá Teiti Guðmundarsyni á Helgastöðum. Með þessum þremur skipum fóru utan margir Íslendingar.[2])

Árið 1188 ætlaði kaupskip eitt norskt, sem hjet Stangarfoli, til Íslands, en varð apturreka. Um haustið varð það á leið Kuflunga norðan úr Niðarósi og suður til Björgynjar. Þeir fóru óspaklega og ræntu byrðinga, hvar sem þeir fundu. Þeir tóku Stangarfolann og ræntu öllu því fje, er á var. Stangarfolinn var »Íslandsfar«, skip, sem sigldi til Íslands ár eptir ár. Sumarið eptir bjóst það í Björgyn til Íslands og tóku þá margir Íslendingar sjer far með því. Það ljet þá i haf, en týndist i óbygðum á Grænlandi sem fyr er sagt (1189).[3])

Sama árið sem Stangarfolinn fórst, kom Ásmundur kastanrazi af Grænlandi til Íslands og var þar um veturinn. Um vorið bjóst hann til Noregs og tók Hafliði Snorrason og margir aðrir Íslendingar sjer far með honum, en skipið týndist og allir er á voru (1190). Líklega hefur Ásmundur verið norskur, en Finnur Magnússon hefur ætlað að hann hafi verið Grænlendingur, líklega af því að hann kom af Grænlandi.[4])

Árið 1199 var að minsta kosti eitt kaupskip i Eyjafirði, sem Austmenn áttu; er getið um marga »Austmenn« við skip og eru þeir í sömu andránni nefndir kaupmenn. Þeir voru á Íslandi um veturinn. Guðmundur dýri tók einn þeirra

---

[1]) Guðm. s., Bps. I, 420—424; Sturl. I, 135—141, sbr. að framan bls. 752—53. [2]) Sturl. I, 146—147, 155—156; Guðm. s., Bps. I, 429—430, sbr. að framan bls. 764—765. [3]) Fms. VIII, 263; Eirsp. 114; Guðm. s., Bps. I, 435; Sturl. I, 152—153; Ann. I, IV, V, sbr. að fr. bls. 754. [4]) Guðm. s., Bps. I, 435, 436; Sturl. I, 51, 153, 154: Ann. I, III, IV, V; Grönl. hist. Mindesm. I, 137; sbr. að fr. bls. 766.

til vetursetu og hjet sá Ásbjörn og að auknefni lýri. Þorsteinn Jónsson frá Odda og Þorgrímur alikarl tóku og vetursetumann; hann hjet Þorbjörn og var kallaður Grænlendingur. Sumarið eptir að því er virðist handhjuggu Austmenn að Gásum Skæring djákna Hróaldsson, og hafa það að líkindum verið sömu mennirnir, sem eru nefndir þar sumarið áður. Skæringur var frændi Guðmundar dýra og urðu Austmenn að selja honum sjálfdæmi fyrir áverkann (líkl. 1200).[1])

Um 1200 fóru kaupmenn á tveimur skipum af Orkneyjum til Íslands; það voru Austmenn, en á öðru skipinu var einn íslenskur maður, sem Þórður hjet (sbr. bls. 809). Skip þessi fengu þokur miklar, og rjeð þá Þórður skipverjum sinum til að heita á Jón biskup hinn helga, og tóku þeir höfn í Döguröarnesi, en hitt skipið braut á Eyrum.[2])

Að lokum skal hjer getið, að í »Historia Norwegiæ« er skýrt frá siglingamönnum nokkrum, sem vildu fara aptur frá Íslandi til Noregs. Þeir hröktust af mótviðri norður á bóginn, og segir sagan, að þeir hafi loksins tekið land á milli Grænlands og Bjarmalands, en eptir mikla hrakninga hafa þeir þó komist til Noregs. Af ferð þeirra hafa gengið einhverjar sögusagnir, og eignar höfundurinn þeim nokkrar eldgamlar bábiljur um ókunn lönd; kveður hann þá hafa fullyrt, að þeir hafi fundið þar norður frá menn ótrúlega mikla vexti, og land jungfrúnna, sem sagt var um að yrðu þungaðar af að bragða vatn.[3]) Hvaða ár siglingamenn þessir hröktust norður í haf, er ókunnugt, en líklega hefur það verið á síðari hluta 12. aldar eða jafnvel um aldamótin 1200. Historia Norvegiæ mun vera rituð um 1220—1230[4]), og hefur höfundurinn gengið út frá því sem sjálfsögðu, að kaupmenn þeir, sem sigldu frá Íslandi, ættu heima í Noregi; bendir það á, að flestir þeirra hafi verið norskir á hans dögum.

---

[1]) Sturl. I, 212, 225, 279, sbr. Guðm. s., Bps. I, 492. [2]) Jóns s., Bps. I, 210—211. [3]) Monum. hist. Norv. ved. G. Storm, bls. 75. [4]) Sbr. Sophus Bugge, Aarb. f. nord. Oldkh. 1873, bls. 37 og Finnur Jónsson, Litteraturhist. II, 604. G. Storm ætlar að Hist. Norv. sje ritið um 1180—1190, sbr. formálann fyrir Monum. bls. XXIII. Hann ætlar og að höfundurinn hafi verið Norðmaður, en Finnur Jónsson útlendingur, líklega enskur kennimaður, sem lengi hafi verið búsettur í Noregi, og leiðir hann ýms góð rök að því.

## II. Enn um ferðir Norðmanna til Íslands.

Auk þeirra norrænu kaupmanna og stýrimanna, sem nú voru nefndir, er fárra Norðmanna getið á Íslandi á þessu tímabili. Samt væri eigi rjett að leiða þá ályktun af því, að þeir hafi sjaldan komið til landsins, heldur er þetta eðlileg afleiðing af því, að landið er þá sögusnautt um rúm hundrað ár. Í annan stað var sjaldan ástæða til þess að geta Norðmanna á Íslandi i Noregs konunga sögum, þótt inn i þær væri skotið ýmsum þáttum af Íslendingum í Noregi og því töluvert sagt af utanferðum þeirra.

Um 1044 (eða veturinn 1043—1044) var Austmaður einn á vist hjá Þorsteini Síðu-Hallssyni.[1] Hann hafði fyr verið með Þórhaddi bónda á Rannveigarstöðum, áður en hann deildi við Þorstein og varð að flytja úr Álptafirðinum að Streiti nyrðst á Berufjarðarströnd. Þetta bendir á, að Norðmaður þessi hafi farið optar en einu sinni til Íslands. Þá er Þorsteinn fór að Þórhaddi, vildi Austmaðurinn gera honum aðvart, en það tókst eigi.

Um 1177 hafði Austmaður einn, er Ólafur hjet, veturvist hjá Snorra bónda á Völlum i Svarfaðardal. Skeggi hjet húskarl hans og mun hann hafa keypt eitthvað af Ólafi, því um vorið átti hann fje hjá Skeggja, en hann átti ekkert til að gjalda fyrir sig og Snorri vildi eigi gjalda fyrir hann. Fyrir það vá Ólafur Snorra þann dag, sem hann fór brott úr vistinni, og fór síðan á fund Önundar Þorkelssonar á Laugalandi og bað hann ásjár. Önundur tók við honum og kom honum utan, en samdi svo um málið að Arnþrúður Fornadóttir, ekkja Snorra, og synir hennar fengu enga sæmd fyrir vigið. Segir i einu handriti af Guðmundar sögu Arasonar, að hann lemdi niður eptirmálið. Þetta voru upptökin til þess, að Arnþrúðarsynir voru að brennu Önundar í Lönguhlíð hjer um bil tuttugu árum síðar (1197).[2]

[1]) Þorst. Síðu-H. 229—230. [2]) Guðm. s., Bps. I, 437; Sturl. I, 219. Þá er Ólafur vá Snorra, var Arnþrúður óljett og fór þá með svein, sem hún ljet heita Snorra eptir föður sínum. Hann var við Lönguhlíðarbrennu 6. maí 1197 og var ætlaður til áverka við mann einn. Hann hefur því verið um tvítugt og víg föður hans um það leyti sem hjer er talið.

Um 1180 var Arnþór austmaður á Íslandi, en ókunnugt er, hve nær hann kom fyrst til landsins. Hann staðfestist á Íslandi, því að hann kvongaðist Ragneiði Þórhallsdóttur, systur Þorláks biskups (um 1180), nokkru eptir það að Jón Loptsson hafði látið hana frá sjer eptir tilmælum bróður hennar. Jón hafði snemma fengið ást á Ragneiði og hjelt hana opt heima hjá sjer í Odda, þótt hann væri kvongaður. Hann átti með henni tvo syni, Pál Jónsson biskup († 1211) og Orm Jónsson breiðbæling († 1218). Páll var fæddur 1155, en Ormur var nokkru yngri; hefur Ragneiður verið kornung, er hún átti Pál; en hún hefur þó varla verið fædd síðar en 1138 og eigi heldur fyr en 1135 eða 1136, því að hún eignaðist barn með manni sínum; hún hefur því verið yngri en bróðir hennar. Í Þorláks sögu biskups segir, að þau Jón og Ragneiður höfðu elskast frá barnæsku. Ef marka mætti þessi orð, hefði aldursmunur þeirra eigi átt að vera svo mikill. Sonur þeirra Arnþórs og Ragneiðar var Jón prestur Arnþórsson, sem nefndur er í Vopnfirðinga sögu og mun vera sami maður, sem nefndur er í Guðmundar sögu Arasonar og í annálum 1223 og 1224. Það er sagt að margt manna væri frá þeim komið, en sjálf hafa þau líklega eigi átt fleiri börn en Jón, af því að Ragneiður var orðin svo gömul.[1])

Einn vetur, líklega 1195—1196, voru tveir Austmenn á Grund í Svarfaðardal; hjet annar þeirra Guttormur, en hinn Hermundur. Sagan segir, að þeim þætti mjög vænt um Guðmund prest Arason og gengi til skriptar hjá honum, en annað segir eigi af þeim.[2])

Þá er Austmenn fengu því við komið sökum annara starfa, riðu þeir opt til alþingis, einkum ef þeir áttu þangað erindi eða voru hjá bændum eða höfðingjum, sem riðu þangað og gátu

[1]) Þorl. s., Bps. I, 282, 289—293; Vápn. 72 (endirinn), Sjera Eggert Briem ætlar, sjá Safn III, 547—548, að Þórir tottur Arnþórsson eða Arndórsson, sem síðar verður nefndur, hafi verið sonur Arnþórs og Ragneiðar og hálfbróðir Páls biskups Jónssonar sammæðra, en það er ómögulegt. Þórir hefur eigi getað verið sonur Ragneiðar, því að hún var fyrir löngu komin úr barneign og líklega fallin frá áður en hann fæddist. Aptur á móti er mögulegt, að Arnþór hafi verið faðir Þóris, en um það vita menn ekkert með vissu, að eins nafnið bendir á, að svo geti verið. En hann hefur þá átt Þóri með annari konu, líklega eptir andlát Ragneiðar. Fæðingarár og dauðaár Arnþórs austmanns og aldur er ókunnur. [2]) Guðm. s., Bps. I, 446.

ljeð þeim hesta til fararinnar eða þurftu á fylgi þeirra að halda. Hjer að framan hefur verið getið nokkurra Austmanna á alþingi (sbr. bls. 752, 815). Árið 1198 voru svo margir Austmenn á alþingi, að þeir tjölduðu þar búð Skarðverja handa sjer.[1])

## III. Útlendingar á Íslandi af öðrum löndum en Noregi.

Eins og nærri má geta er fárra útlendinga af öðrum löndum en Noregi getið á Íslandi á þessu tímabili, þar sem sögurnar segja svo lítið af ferðum Norðmanna, þótt þeir kæmu manna optast til landsins. Af öðrum löndum eru því nálega engir aðkomumenn nefndir í þeim, nema nokkrir kennimenn og Grænlendingar. En útlend heimildarrit bæta hjer dálítið úr skák. Adam frá Brimum segir frá því, að nokkrir aðalsmenn hafi farið af Féíslandi á dögum Bescelíns erkibiskups (1035—1043), sem kallaður var Alebrand, norður í höf, af því að þá langaði til að sigla og kanna ókunna stigu. Þeir sigldu norður um Norðursjóinn og komu til Orkneyja, en hjeldu fyrir austan þær norður í haf, þangað til þeir komu til Íslands eptir langa útivist. Þar höfðu þeir þó eigi langa dvöl að því er virðist, heldur hjeldu þeir áfram norður í Íshafið. Þar fengu þeir þoku og segir lítið af ferð þeirra, nema bábiljur um risa, gull o. fl. Þeim gekk þó ferðin vel að því leyti, að þeir komu til Brima aptur, og höfðu að eins mist einn af mönnum sínum. Sögðu þeir Alebrandi erkibiskupi alt af ferð sinni.[2])

Í fornu þýsku kvæði, *Merigarto*, er getið um prest einn í Útrekt, sem hafði komið til Íslands. Kvæði þetta er dálitil hafa lýsing og landa. Það er ort í lok 11. aldar af kennimanni nokkrum. Segist hann hafa beðið stórtjón og orðið landflótta í ófriði á milli tveggja biskupa; ætla menn líklegt að það hafi verið 1086, í baráttu þeirra Adalbero og Meinhards af Vürzborg.[3]) Þá er höfundurinn kom til Útrekt, hitti hann þar mjög góðan mann og vitran, er Reginpreht hjet. Hann var prestur. Hann skýrði höfundinum frá, að hann hefði einu sinni farið til Íslands. Þar væri mikil gnægð af mjeli

---

[1]) Sturl. I, 240. [2]) Adami Gesta Hammaburgensis, IV, 39—40/187—188. [3]) Sbr. Grundriss d. germ. Philologie. 2. útg. II, 171.

og vini, og elritrje, sem landsmenn keyptu til eldsneytis og væri mjög dýrt. Þar væri mikið af öllu, sem þyrfti til lífsnauðsynja og til leika. Þar vantaði ekkert nema sólskin og yrðu menn að vera þar án þeirra þæginda; sökum þess hefði ís legið þar lengi og væri svo harður sem kristall; á honum mætti gjöra eld svo að kristallinn verður glóandi; þar við elduðu þeir mat sinn og hituðu herbergi sín.[1])

Um ferð Reginprehts er ekkert meira kunnugt, og má vera að þetta sje skáldskapur; en líklega er það þó satt, að Reginpreht hafi komið til Íslands, og vísindamaður sem K. Maurer leggur trúnað á það.[2]) Alt það, sem höfundur kvæðisins segir um Ísland, hefur hann eptir Reginpreht. Í kvæðinu er Reginpreht nefndur prestur, en biskup í fyrirsögn þess kafla kvæðisins, sem er um hann og Ísland og hjer er skýrt frá. Hann hefur ef til vill endað æfi sína sem biskup, en til Íslands hafa líklega engir biskupar komið á 11. öld aðrir en þeir, sem taldir eru í íslenskum ritum. Aptur á móti komu nokkrir prestar þangað, sem hvergi eru nafngreindir.

Af því, sem fyr er sagt af siglingum einstakra manna og af vist Íslendinga í Orkneyjum og víðar fyrir vestan haf, má ráða, að einstaka sinnum hafi menn siglt beint milli Íslands og Vesturhafslanda, þótt eigi hafi það verið nærri eins opt og á söguöldinni; en þó er eigi getið neinna farmanna þaðan á Íslandi fyr en seint á 12. öld, og að eins af Hjaltlandi, því að Austmenn þá, sem fyr voru nefndir og fóru af Orkneyjum, má varla telja hjer. Hjaltur eða Hjaltlendingur nokkur, er Eiríkur hjet, var þá á Vesturlandi; virðist hann hafa dvalið þar lengi eða jafnvel setst þar að, því að hann »fylgdi að lagi« Sigríði Birningsdóttur frá Tjaldanesi í Saurbæ í Dalasýslu (um 1174)[3]). 1197 eða 1198 voru Hjaltar á Eyrum á kaupskipi, sem þeir áttu. Þeirra er getið af því að koma átti glæpamanni einum utan með þeim, en þeim gaf eigi byr brott um haustið.[4]) Hjaltlendingar voru um þessar mundir og miklu lengur fram eptir öldum algjörlega norsk-

---

[1]) Denkmäler deutscher Poesie und Prosa aus dem VIII—XII Jahrhundert herausgeg. v. Müllenhoff und Scherer. 3. Ausg. v. Steinmeyer. Berlin 1892, bls. 95—96. [2]) Deutsche Zeitschrift für Geschichtswissenschaft V, 1891, bls. 171—172. [3]) Sturl. I, 103 [4]) Sturl. I, 199.

ir[1]); þeir varðveittu tungu sina og þjóðerni eins vel og Norðmenn sjálfir. Norskir víkingar höfðu þegar á fyrri hluta víkingaaldarinnar flæmt í burtu eða drepið þá þjóð, sem bygði Hjaltland i upphafi, og bygðist þá landið að nýju frá Noregi.

Hinn fyrsti biskup, sem kom til Íslands á friðaröldinni, var Rúðólfur eða Hróþólfr biskup eins og Ari kallar hann. Hann var einn af þeim fjórum biskupum, sem sagt er að komið hafi af Englandi með Ólafi konungi Haraldssyni[2]), og vann hann að eflingu kristindómsins í Noregi, liklega einkum í Víkinni, á meðan Ólafur var konungur í Noregi. Rúðólfi biskupi hefur því hlotið að vera kunnugt um ferð þeirra biskupanna Bjarnharðs og Kols til Íslands. Sumarið 1029 eða um veturinn eptir fór hann á fund Libentius (eða Liavizo) annars, erkibiskups i Brimum (1029 eða 1030—1032): sagði hann erkibiskupi frá hvað drottinn hefði gert til þess að frelsa heiðingjana, sem hefðu daglega snúist til kristni. Erkibiskup tók honum með mestu sæmd og ljet hann siðan fara frá sjer til þess að halda áfram trúboði sínu[3]) og fór hann þá til Íslands um sumarið. Það er því mjög líklegt að Rúðólfur hafi farið þangað að samráði við erkibiskup, hvor þeirra sem hefur átt upptökin að því.

Íslenskar heimildir segja að Rúðólfur væri 19 ár á Íslandi (1030—1049) og byggi i Bæ i Borgarfirði.[4]) Hvar sem biskupsstólar voru settir á þeim tímum, leið sjaldan á löngu áður en skóli kæmist þar á fót, ef duglegur biskup átti hlut að máli. Þótt hjer væri um engan biskupsstól að ræða og Rúðólfur hefði eflaust litlar tekjur við að styðjast, mun hann

[1]) Hjaltland var algjörlega norskt 1470. þá er það var látið af hendi við Skotlands konung. Sbr. A. Bugge, (Norsk) hist. Tidsskr. 5 R. II, 313 og rit Jakobs Jakobsens um Norræna tungu á Hjaltlandi, einkum Det norrøne sprog på Shetland Kbh. 1897. Etymologisk ordbog over det norrøne sprog på Shetland Kbh. 1908 o. ef. Venjulega er talið að Kristján fyrsti hafi veðsett Skotakonungi Orkneyjar og Hjaltland 1468. En Jakob þriðji Skotakonungur giftist Margrjetu dóttur Kristjáns konungs 1469 og voru Orkneyjar þá veðsettar fyrir meiri hlutanum af heimanmundinum, en Hjaltland árið eptir fyrir hinu, sem eptir stóð, sbr. Kr. Erslev, Danmarks Riges Hist. II, 551. Aptur á móti gerðu Skotar út menn í bónorðsförina til Kristjáns konungs 1468. [2]) Adami Gesta Hammaburg. II 55/79; sbr. Historia Norvegiæ, í Monum. Hist. Norv. 124. Hinir þrír voru þeir Sigfreður, Grímkell og Bjarnharður bókvísi. [3]) Adami Gesta II, 62/83—84. [4]) Íslb. 12; Hungr., Bps, I, 65.

þó hafa reynt að búa menn undir kennimannsembætti og tekið menn til náms; er þess getið í Landnámu að þrír munkar hafi verið eptir í Bæ, er hann fór þaðan[1]); hafa það líklega verið lærisveinar hans, sem hann hefur kent munkareglur. Þótt líklegt sje að hann hafi haft eitthvert föruneyti, er hann kom til Íslands, má þó varla ætla að munkar þessir hafi komið með honum til landsins. Fylgdarmenn hans hafa líklega farið aptur með honum, ef þeir hafa eigi fallið frá á Íslandi, eða horfið fyr heim til átthaga sinna.

Í Hungurvöku segir, að Rúðólfur hjeti að sumra sögn Úlfur, »og væri kynjaður af Rúðu á Englandi« (svo!). Skýring þessi á nafni Rúðólfs er röng; hann er nefndur Roðulf, það er af eldri mynd Hróðulfr (yngra Hrólfr), í engilsaxnesku kroníkunni og einnig í enskum annálum, sem ritaðir eru á latínu. Hitt er aptur á móti líklega rjett, að hann hafi verið ættaður úr Rúðu í Norðmandi. Rúðólfur biskup var frændi Játvarðs konungs hins góða (Eadward the Confessor), og mun það hafa verið í móðurætt konungs, sem var hálf dönsk. Móðir konungs var Emma Englands drotning, systir Ríkarðs 2. Rúðujarls og Róberts erkibiskups í Rúðu; en móðir þeirra systkina og kona Ríkarðs 1. Rúðujarls var dönsk. Erkibiskup skírði Ólaf Haraldsson og menn hans, þá sem óskírðir voru, í Frúarkirkju í Rúðuborg. Má nærri geta að enhverjir frændur erkibiskups hafi haft embætti undir honum í Rúðu og mun Rúðólfur hafa verið einn þeirra. Mun erkibiskup hafa vígt hann til biskups, áður en hann fór með Ólafi konungi af landi brott. Fyrsta kirkjan, sem konungur ljet gera í Noregi, var kirkja sú í Sarpsborg, sem helguð var Maríu mey *(Maríukirkjan)*, eins og Frúarkirkjan í Rúðu, og mun Rúðólfur biskup hafa ráðið því. Hann hefur sennilega verið prestur við Maríukirkjuna í Rúðuborg, áður en hann rjeðst til Ólafs konungs,[2]) og hann mun nú hafa fengið María-

[1]) Hksb. 21/14; Ldn. 15/51. Af því að í Hauksbók segir, að þrír munkar voru eptir í Bæ, er Rúðólfur fór þaðan, hefur því verið breytt svo í Skarðsárbók, Ísl. I, 331—332, að Rúðólfur setti munklífi í Bæ, en það er eigi rjett; Rúðólfur komst eigi svo langt að setja klaustur, þótt Jón Sigurðsson Dipl. I, 481, 483 og fleiri hafi ætlað svo. Á bls. 731 hjer að framan, l. 16 á að standa »ljet eptir sig þrjá munka« í staðinn fyrir »setti munkalífi«. Í Skarðsárbók segir og að Rúðólfur hafi og búið á Lundi. [2]) A. D. Jörgensen, Den nord. kirkes grundlæggelse, bls. 463, 477—78.

kirkjuna í Sarpsborg til messugjörðar og forráða. Hann hefur því viljað leggja hina sömu helgi yfir hina nýju kirkju í Sarpsborg sem var yfir hinni gömlu, veglegu Frúarkirkju í Rúðu, svo að þar væri andlegt samband á milli.

Þá er Rúðólfur biskup fór frá Íslandi, hjelt hann til Englands á fund Játvarðs konungs og getur hans þar snemma á árinu 1050.[1]) Á miðföstu það ár hjelt konungur vitra manna eða ráðherra þing *(witenagemot)* í Lundúnum, og skipaði Róbert, biskup í Lundúnum, erkibiskup í Kantaraborg, en biskupsdæmið í Lundúnum veitti hann Sperhafoc ábóta í Abingdon, og »ábótaríkið« í Abingdon gaf hann Rúðólfi biskupi frænda sínum.[2]) Í öllum enskum annálum, þar sem Rúðólfur biskup er nefndur, er sagt að hann væri frændi konungs. Þar segir og að hann kæmi frá Noregi um það leyti sem ábótinn í Abingdon varð biskup í Lundúnum, og hefur hann þá komið þangað af Íslandi sumarið eða haustið áður. Í einni ábótasögu Abingdons klausturs segir, að hann hafi verið lengi biskup hjá þjóðinni í Noregi, en ensk rit greina ekki að hann hafi verið á Íslandi, þótt hann væri þar síðast og enn lengur en í Noregi. Rúðólfur biskup var aldraður maður, er hann kom frá Íslandi. Hann andaðist í Abingdon 1052.[3])

Jóan hinn írski biskup var fá ár á Íslandi,[4]) og hefur líklega komið þangað 1051. Adam frá Brimum kallar hann Johannes Scotus, þ. e. hinn írska[5]), og segir, að hann hafi

---

[1]) Í biskupa tali, Dipl. III, 20, 25 er Rúðólfur nokkur talinn fjórði biskup í Niðarósi, en það mun vera annar biskup en sá, er hjer ræðir um, ef það er rjett. Hitt er sennilegra að Rúðólfur hafi verið í Sarpsborg og sje því eigi getið í neinu biskupatali í Noregi, af því að þar var enginn biskupsstóll síðar. Ef hann hefði verið í Niðarósi, þá hefur hann hlotið að vera þar samtíða Grímkeli biskupi og áður en hann fór til Íslands, en ekki 1050—1052 eins og talið er í Dipl. Ísl. Þá var hann á Englandi. [2]) The Anglo-Saxon Chronicle, ed. by B. Thorpe. London 1861, I, 312—313. [3]) Anglia sacra sive collectio historiarum de archiepiscopis & episcopis Angliæ a prima fidei Christianæ susceptione ad annum MDXL. Ed. H. Wharton Londini 1691 I, bls. 167. Chronicon monasterii de Abingdon. Ed by J. Stevenson. London 1858. I, 463—64; II, 281. [4]) Íslb. 8/12; Hungr., Bps. I, 64; sbr. Skh., Ísl. I, 331—332. [5]) Skotar bjuggu í fyrndinni á Írlandi, en fóru margir þaðan til Skotlands seint á 6. öld; eru því Írar venjulega nefndir »Scoti« í latneskum ritum á miðöldunum og land þeirra Scotia, sbr. Ísl. sögu I, 7—8.

verið vígður á Skotlandi (þ. e. Írlandi). Í viðauka (scholium) 81 við sögu Adams segir, að hann hafi farið af Skotlandi af ferðalöngun. Hann kom til Aðalberts erkibiskups (1043—1072) í Brimum og mun hafa boðið honum þjónustu sína til þess að útbreiða kristni. Adam yfirkennari segir að erkibiskup hafi sent hann til Orkneyja[1]), en nefnir eigi ferð hans til Íslands, og hefur honum verið ókunnugt um hana. En vera má að Ísland hafi í Brimum fyrir tíð Adams verið talið til Orkneyja,[2]) eða ef svo hefur eigi verið, að Jón biskup hafi farið fyrst til Orkneyja og þaðan til Íslands eptir nokkra dvöl eða ferðum þessum blandað saman. Jóan biskup var látlaus maður og guðhræddur, en vera má að málið hafi valdið því, að hann var eigi lengi á Íslandi. Þá er hann fór þaðan, hjelt hann á fund Aðalberts erkibiskups og mun hafa dvalið lengi hjá honum, því að Adam telur hann einn af þeim biskupum, sem erkibiskup unni mikið og átti erfitt með að láta frá sjer fara. Að lokum skipaði erkibiskup hann biskup meðal Slovana (Slava) í Meklenborg og þar leið hann píslarvættisdauða 10. nóvbr. 1066.[3])

Litlu fyr en Jóan hinn írski kom Bjarnharður biskup hinn saxneski til Íslands. Hann var vígður af páfa, en fór síðan á fund Aðalberts erkibiskups og viðurkendi hann sem yfirmann sinn. Erkibiskup leysti hann þá út með gjöfum og sendi hann til Noregs (1047), og var hann með Magnúsi konungi góða um hríð, en litlu síðar andaðist konungur. Sökum óvináttu Haralds konungs og erkibiskups, samdi Bjarnharði nú eigi við Noregs konung, og fór hann þá til Íslands (1048) og var þar 19 ár (20 vetur, Hungurvaka). Hann bjó í Vatnsdalnum að Giljá og Steinsstöðum, segir í Hungurvöku, og mun þar vera átt við Sveinsstaði, en ekki Steinnes. Steinsstaðir eru ekki til í þeirri sveit.

Bjarnharður var hinn nýtasti maður, og reyndi með vígslum að útrýma átrúnaði landsmanna á vættir. Þá er hann spurði fall Haralds konungs harðráða, fór hann utan (1067) og gekk Ólafi konungi kyrra til handa. Hann fór sendiferð til Róms fyrir konung, og er hann kom aptur, skipaði konungur

[1]) Gesta Hammaburg. III, 70/151—152. [2]) Sbr. A. D. Jörgensen, Den nord. kirkes grundlægg. T. bls. 101. [3]) Adami Gesta III, 20/110, 50/130—131, 70/152; Hungr., Bps. I, 64; sbr. Maurer, Bekehrung II, 583—585.

hann biskup í Selju, og þaðan flutti hann til Björgynjar og andaðist þar.[1])

Á meðan Bjarnharður var á Íslandi, kom út Heinrekur biskup. Hann hafði verið kapellán hjá Knúti ríka og segir Adam um hann eins og Jóan biskup hinn írska, að hann hafi verið biskup í Orkneyjum, en líklega er það rangt; hvorugur þessara manna er talinn þar með biskupum. Heinrekur var að eins tvo vetur á Íslandi, enda mun hann eigi hafa kunnað við að lifa þar við harðæti og annan íslenskan kost, því að hann var bæði sælkeri og svallari. Þá er hann kom af Íslandi, fór hann á fund Sveins konungs Úlfssonar; skipaði hann Heinrek biskup í Lundi og þar dó hann af drykkjuskap rjett á eptir (21. ágúst 1060).[2])

»Enn kvámu hjer aðrir fimm, þeir er biskupar kváðusk vera«, segir Ari hinn fróði, Örnólfur og Goðiskálkur, og þrír ermskir, Petrus, Abraham og Stephanus. Um þessa menn er ekkert kunnugt. Líklega hafa tveir hinir fyrst nefndu verið þýskir, en um hina þrjá er sagt í biskupatalinu frá um 1360 og í Skarðsárbók, að þeir hafi verið frá Armeníu, og svo hefur »ermskur« optast verið skilið.

Armenía er svo fjarri Íslandi, að menn skyldu eigi hafa ætlað að kennimenn hefðu komið þaðan til Íslands, enda er þetta í hið eina sinni, sem þeirra er getið. Það má líka vera að rangt sje skýrt frá þjóðerni þeirra, enda hlaut það að vera erfitt að vita um það með vissu. A. D. Jörgensen hefur ætlað, að þetta hafi verið pálikanskir trúvillumenn, sem breiddust út frá Armeníu um Bolgaraland og víða um Evrópu.[3]) Gustav Storm ætlar, að kaþólskir kennimenn á Íslandi hafi með orðinu ermskur viljað tákna, að kennimenn þessir væru trúvillumenn. Hann styður þetta með því, að pólitisk viðskipti hafi verið milli Haralds konungs harðráða og hinna grísku keisara, og að hann muni hafa fengið nokkra gríska biskupa til Noregs, sökum þess að hann var ósáttur við Aðalbert erkibiskup í Brimum.[4]) Ef svo er, hafa biskupar þessir komið

---

[1]) Adami Gesta Hammaburg. III, 70/151, IV, 33/182; Íslb. 12; Hungr., Bps. I, 65; Skarðsárb. Ísl. I, 331, 333; sbr. Maurer, Bekehrung I, 593—96; II, 568—69; Kålund, Isl. Beskriv. II, 31—32. [2]) Adami Gesta IV, 8/159, 9/160, schol. 110 við IV 7/158; Íslb. 12; Hungr., Bps. I, 65; Dipl. III, 149; Skb., Ísl. I, 331, 333. [3]) Den nord. kirke, bls. 694; sbr. Munch, Hist. III, 216. [4]) Hist. Tidsskr. (norsk) II R. IV,

frá Noregi, og enda hvort sem er, mun leið þeirra að líkindum hafa legið um Noreg.

Í Hungurvöku segir, að biskupar af öðrum löndum kæmu út um daga Ísleifs biskups, og biðu margt linara en hann; »urðu þeir því vinsælir við vonda menn, þar til að Aðalbert erkibiskup sendi brjef til Íslands og bannaði mönnum alla þjónustu af þeim að þiggja, og kvað þá suma vera bannsetta, en alla í óleyfi sínu farið hafa«. Hjer mun eflaust átt við hina fyrnefndu útlendinga, sem kváðust vera biskupar.[1])

Þeir, og ef til vill einhverjir fleiri, hafa einnig gefið tilefni til þess, að sett voru ákvæði í Kristinn rjett um biskupa og presta, sem komu út »hingað til lands«, þá er eigi voru lærðir á latínu tungu, hvort þeir voru ermskir eða grískir, og var mönnum rjett að hlýða tíðum þeirra, ef menn vilja, en eigi skal kaupa tíðir að þeim, og enga þjónustu að þeim þiggja; var þriggja marka sekt viðlögð, ef út af var brugðið í biskupsstörfum.[2])

Adam af Brimum getur þess, að sendimenn hafi komið af Íslandi til Aðalberts erkibiskups og beðið hann að senda sjer kennimenn, og að hann hafi gjört það.[3]) Um þessa sendiferð er nú ekkert kunnugt, en það er mjög líklegt, að Ísleifur biskup hafi sent menn á fund erkibiskups og kært fyrir honum áðurnefnda útlendinga, sem kváðust vera biskupar og buðu margt linara en Ísleifur biskup. Á þetta bendir frásaga Hungurvöku. Aðalbert erkibiskup hefði eigi getað sent brjef um þá til Íslands, ef hann hefði eigi fengið vitneskju um kenningar þeirra og atferli.

Af því, sem hjer að framan er sagt, má sjá, að konungarnir Ólafur Tryggvason og Ólafur Haraldsson hafa í fyrstu sjeð mest um það, að kennimenn og biskupar kæmu til Íslands, en síðar hafa erkibiskuparnir í Brimum, einkum Aðalbert erkibiskup, verið helstu hvatamenn þess, einkum að því er biskupana snerti, þangað til Íslendingar tóku sig til um það, að sjá sjer sjálfir fyrir biskupi. En jafnframt því hafa einstaka biskupar komið út af sjálfsdáðum.

---

374—75. Alphons Bellesheim ætlar í sinni miklu Geschichte der katholischen Kirche in Irland, Mainz 1890, I, 124, að með ermskur sje átt við írska, en það er rangt. [1]) Íslb. 12; Skb. Ísl. I, 332; Bps. I, 62—63. [2]) Grág. Ia, 22. [3]) Adami Gesta III, 23/112, 70/149; sbr. Hungr., Bps. I, 62—63.

Þá er biskuparnir höfðu sett skóla á biskupsstólunum, fengu þeir einstaka sinnum kennara frá útlöndum; er þess getið um Jón biskup Ögmundarson, að hann fekk Gísla prest Finnason af Gautlandi og frakkneskan klerk Rikina. Á vígsluferð sinni kyntist Jón biskup Gísla presti og fann, að hann var hinn snjallasti klerkur, og fekk hann til þess að fara með sjer til Íslands (1106). Líklega hefur hann þá einnig kynst Rikina presti og haft hann út með sjer, þótt þess sje eigi getið. Rikini var kapellán biskups og sagður hinn mesti lærdómsmaður.[1]) Er auðsætt að biskup hefur þegar haft í huga að setja skóla á biskupssetri sínu. En alt þetta sýnir, að Ísland komst í allmikið andlegt samband við hin mentuðustu lönd í Evrópu eptir að kristnin var í lög tekin, og hafði það hina mestu þýðingu fyrir menningu þjóðarinnar og bókmentir.

Á 12. öldinni er getið um nokkur skip, sem komu af Grænlandi til Íslands, og einnig um tvo grænlenska biskupa. Leifur Eiríksson mun fyrstur manna hafa siglt milli Grænlands og Noregs, án þess að koma við á Íslandi (999—1000).[2]) Síðar varð það venja, að sigla skemstu leið í milli þessara landa langt fyrir sunnan Ísland. En eins og sjá má af því, sem þegar er sagt, hröktust stundum Íslandsför til Grænlands, og stundum komu Grænlandsför við á Íslandi; voru því við og við fram á 13. öld dálitlar samgöngur milli Íslands og Grænlands.

Hinn fyrsti biskup á Grænlandi var Eiríkur upsi Gnúpsson, íslenskur maður, sem fyr er nefndur (bls. 791). Hann kom eigi aptur úr Vínlandsferð sinni, og fór þá Einar Sokkason að ósk Sokka Þórissonar, föður síns, í Brattahlíð, og annara Grænlendinga til Noregs á fund Sigurðar konungs Jórsalafara, til þess að fá biskup í hans stað handa Grænlendingum. Konungur fekk þá til klerk einn, er Arnaldur hjet, og var hann vígður í Lundi af Össuri erkibiskupi 1124. Síðan fór hann með Einari Sokkasyni til Grænlands. Þeir fengu óhagstætt veður og tóku land í Holtavatnsósi undir Eyjafjöllum. Sæmundur fróði bjó þá í Odda. Hann fór á fund biskups og bauð honum til sín, og var biskup í Odda um veturinn, en Einar undir Eyjafjöllum. Sumarið eptir fóru þeir

[1]) Jóns s., Bps. I, 163, 168, 235, 239. [2]) Ísl. saga, II, 271 o. ef.

til Grænlands og tóku land i Eiriksfirði (1126). Það var sjaldgæft að útlendir biskupar hefðu vetursetu á Íslandi, og var þess því getið í annálum, að þá voru »þrír biskupar á Íslandi«. Einn annálaritari, Einar Hafliðason, segir þó, að þrír biskupar hafi verið á alþingi þetta ár, ef »á aldinghe« i annál hans er eigi ritvilla i staðinn fyrir á Íslandi.[1]) En vera má að Arnaldur biskup hafi riðið á alþingi 1126, áður en hann fór af Íslandi, þótt eigi sje neitt um það kunnugt.

Jón Sverrisfóstri kom til Íslands 1188 á leið til Grænlands. Hann var vigður til biskups veturinn áður af Eysteini erkibiskupi, er andaðist 26. janúar 1188. Næsta vetur var Jón biskup i Austfjörðum, og sumarið eptir fór hann til Grænlands. Árið 1202 kom Jón biskup aptur til Íslands, og var hann þá á ferð frá Grænlandi til Noregs. Hann var þá einnig i Austfjörðum um veturinn, en fór þaðan á fund Páls biskups í Skálholti og kom þangað á ofanverðri langaföstu. Var honum þar tekið með hinni mestu sæmd og leystur út með gjöfum. Jón biskup gaf mönnum ráð til, hvernig vín skyldi gjöra af krækiberjum, eptir því sem Sverrir konungur hafði sagt honum; var þá i fyrsta sinn búið til krækiberjavín á Íslandi (1203). Um sumarið fór Jón biskup til Noregs og þaðan til Róms.[2])

Styrkár Sigmundarson, sagnamaður af Grænlandi, sem fyr er nefndur, hefur að líkindum komið til Íslands einhvern tíma seint á 12. öld og sagt þar frá æfilokum Einars Þorgeirssonar og skipverja hans (sbr. að fr. bls. 750—51).

Árið 1192 kom skip í Breiðafjörð, seymt trjesaumi einum nær. Það var bundið seymi, og höfðu verið i Krossey og Finnsbúðum i 7 vetur og voru um veturinn með Gelli Þorsteinssyni ... önduðust þar og voru grafnir fyrir austan kirkju. Þá tóku þeir apturgöngur miklar. — Svona segir af þessu i Høyers annál (Ann. III).

Í Konungs annál (Ann. IV) segir 1189: Ásmundur kastanrazi kom af Grænlandi úr Krosseyjum og þeir 13 saman á því skipi, er seymt var trjesaumi einum nær það, og bundið sini. Hann kom i Breiðafjörð á Íslandi. Hann hafði og verið

[1]) Flat. III, 445—46; Grönl. hist. M. II, 684—86; Ann. I, III, IV. VII; Skb. Ísl. I, 331. [2]) Sturl. I, 149—150; Guðm. s. g., Bps. I, 432. Ann. I, III, IV, V; Skb., Ísl. I, 331—32; Páls s., Bps. I, 135; Guðm. s. g., Bps. I, 486; Ann. III, IV, V.

í Finnsbúðum. Árið eptir (1190) segir þar: Þá fór Ásmundur kastanrazi utan og hvarf skipið. Í annál þessum er blandað saman málum um tvö skip, hið trjeseymda skip, sem kom 1192, og skip Ásmundar kastanraza, sem kom af Grænlandi 1189; tók Hafliði Snorrason og fleiri Íslendingar sjer far með því árið eptir, er það fór af Íslandi, eins og fyr er sagt. Ef skip Ásmundar hefði verið svo litilfjörlegt eins og trjeseymda skipið, hefðu Íslendingar eigi tekið sjer far með því, en þess getur í góðum heimildum.[1] En bæði þessi skip komu af Grænlandi og skipshafnir þeirra beggja ljetu lífið; fyrir því hefur þeim verið blandað saman í Konungs annál.

Hið trjeseymda skip vakti athygli á Íslandi af því, að það var nýstárlegt að sjá skip seymt með trjenöglum og bundið saman með seymi eða sinum. Það hefur eflaust verið grænlenskt og skipverjar Grænlendingar. Af ferðum þeirra segir ekki nánar. En skip þeirra sýnir, hvar sem það hefur verið gert á Grænlandi, hvernig Grænlendingar urðu að bjarga sjer sem best þeir gátu við það, sem þeir máttu afla sjer heima fyrir. Loksins komust þeir svo 1192 til Íslands, eflaust mjög þrekaðir, og dóu um veturinn. Þann vetur gekk sótt víða á Íslandi og drap margt manna. Gellir Þorsteinsson, sem þeir voru hjá, bjó í Flatey á Breiðafirði og átti Vigdísi Sturludóttir úr Hvammi. Í Hrafns sögu Sveinbjarnarsonar er hans getið litlu fyrir 1200 og aptur 1211, og er þá svo að sjá sem hann hafi búið á Barðaströnd fyrir norðan Breiðafjörðinn.[2] Hvar Krossey og Finnsbúðir hafa verið, vita menn eigi með vissu, en þær munu hafa verið sunnarlega á austurströnd Grænlands, eins og sjá má af Grænlandslýsingu Ívars Bárðarsonar[3]); hafa hinir fornu Grænlendingar leitað þangað einstaka sinnum, því að þeir fóru í óbygðir langar leiðir, stundum til fangs og veiða, og könnuðu þannig landið víðar en margur hefur ætlað.

---

[1]) Hs., Sturl.[2] II, 8/285, Bps. I, 651; Sturl. I, 51, 153, 154; Ann. I, III. [2]) Ann. III, sbr. IV, V; Sturl. I, 48, 239, 308; Hs., Bps. I, 649, 667. Finnur Magnússon, Grönl. hist. Mindesm. I, 135, fylgir Konungs annál og telur skip þetta skip Ásmundar kastanraza, en það er rangt. [3]) Gefin út af Finni Jónssyni í ritgjörð um Grönlands gamle Topografi, Meddelelser om Grönland XX, bls. 324; einnig í Grönl. hist. Mindesm. III, 253, sbr. bls. 846—847.

## IV. Kaupskip, stýrimenn og útlendingar á Íslandi, sem eigi er sagt um hverrar þjóðar voru, og fleira, sem ber vitni um siglingu til Íslands.

Hjer skulu nú fyrst talin nokkur kaupskip, sem voru á Íslandi eða voru kend við það, og fáeinir farmenn.

Á föstudaginn langa, 12. apríl, 1118 hóf veður upp knörr einn, sem stóð uppi undir Eyjafjöllum, og sneri á lopti og kom hvolfandi niður og braut. Knörr þessi var 27 rúm,[1]) en eigi er kunnugt, hvort hann var íslenskur eða útlendur. Ef hann hefur verið í förum eins og líklegt er, hefur hann eigi komið síðar til Íslands en haustið áður.

Veturinn 1119—1120 stóð skip uppi í Hrútafirði.[2]) Þess er getið af því að Þorgils Oddason hafði keypt þar við til skálagerðar, og Hafliði Másson tók nokkuð af honum upp í sektarfje; en ekki segir hverjir skipið áttu.

Í Heimskringlu er getið um Íslandsfar í höfn einni í Noregi, þar sem Sigurður konungur Jórsalafari var staddur (um 1129). Einn maður íslenskur var þar og hendi hann gaman af því, að færa niður þá menn, er ver voru syndir, uns Sigurður konungur tók hann og færði í kaf; hefði konungur kæft hann, ef honum hefði eigi verið borgið. I Morkinskinnu og sögu Sigurðar Jórsalafara í Fms. segir öðru vísi af þessu. Þar er ekki getið um neitt Íslandsfar, en sundmaðurinn nafngreindur og nefndur Jón, af skipi konungs; eigi er þar getið að hann hafi verið íslenskur.[3])

Haustið 1182 var kaupskip í Hvítá í Borgarfirði, og er þess getið af því að Ingimundur prestur Þorgeirsson keypti þar varning.[4]) Líklega hefur skipið verið norskt.

Þá er Magnús konungur Erlingsson fór austan af Konungahellu 1184, er sagt að hann hefði þaðan með sjer tvö Íslandsför norður til Túnsbergs. Annað þeirra hjet Keipa, en hitt Vallabúza.[5]) Bæði þessi skip munu hafa verið norsk.

---

[1]) Krist., Bps. I, 30; Hungr., Bps. I, 71; Ann IV, I (1119: veður braut knörr undir Eyjafjöllum) og III (1120: þar stendur brann í staðinn fyrir braut). [2]) Sturl. I, 32. [3]) Hkr. III, 28/304—305; Msk. 191—192; Fms. VII, 165—167. [4]) Guðm. s., Bps. I, 426; Sturl. I, 142. [5]) Flat. II, 608, sbr. Fms. VIII, 204 og Eirsp. 73/87, er geta þess eigi að skip þessi hafi verið Íslandsför.

Sumarið 1185 er Ögmundur rafakollur nefndur með skip sitt í Eyjafirði eins og fyr er sagt (sbr. að fr. bls. 764). Hann var faðir Helga, er síðar varð biskup á Grænlandi († 1230), en ætt hans er ókunn. Finnur Magnússon hefur ætlað, að hann hafi verið búsettur á Grænlandi,[1]) en það er óvíst, og eins hvort hann var grænlenskur eða norskur, eða jafnvel íslenskur; þess vegna er hann talinn hjer. Þorgeir Brandsson fór til Noregs með honum, en eptir það segir ekki meira af siglingum hans; er því ekki hægt að vita með vissu, hvort hann fór til Íslands eða Grænlands árið eptir.

1186 er getið um skipakomu og mun þar vera átt við Norðurland.[2])

Um 1189 var kaupskip að Gásum í Eyjafirði.[3])

1191 var eitt eða öllu heldur tvö skip að Gásum, og fjölment við þau.[4])

Í september 1192 var skip í Eyjafirði, að Gásum segir AM. 657 c, 4to, og fór Guðmundur prestur Arason þangað að hitta vini sína, þá er þar voru út komnir;[5]) hafa þeir líklega verið íslenskir.

Veturinn 1194—1195 voru skip að Gásum, en eigi má sjá með vissu, hvort þau hafa verið fleiri en tvö.[6])

1197 (eða 1198) var skip á Eyrum, og var Erlendi rauða tekið far á því, en hann varð strandaglópur.[7])

Rjett fyrir eða um 1120 er í Jóns sögu biskups getið manna á Hólum í Hjaltadal, sem »nýkomnir voru af Noregi«. Ekki er sagt hvað þeir hjetu, en þeir færðu Jóni biskupi lítinn bækling um krossfestingu Krists.[8]) Líklega hafa þeir verið íslenskir.

Í jarteinum Þorláks biskups er getið nokkurra kaupmanna í Holtavatnsósi (um 1198), en eigi er sagt hvaðan þeir voru. Þeir fengu eigi byr nje akkeri sínu upp komið, fyr en þeir hjetu á Þorlák biskup hinn helga.[9])

Í jarteinum Jóns biskups er Bótólfur nokkur nefndur, sem bjó skip sitt til Íslands. Hvaðan hann var, segir ekki, en nafnið var fátítt á Íslandi, en algengt í Noregi, enda mun hann hafa verið norskur. Þeir fengu í hafi myrka þoku, og

[1]) Guðm. s., Bps. I, 429; Sturl. I, 146; Grönl. hist. Mindesm. II, 757—58. [2]) Sturl. I, 156. [3]) Sturl. I, 167. [4]) Sturl. I, 172. [5]) Guðm. s., Bps. I, 439. [6]) Sturl. I, 175. [7]) Sturl. I, 198. [8]) Jóns s., Bps. I, 246. [9]) Þorl. s., Bps. I, 119 og 308.

vissu eigi hvar þeir voru. Eptir tvær vikur hjetu þeir á Jón biskup; ljetti þá skjótt upp þokunni og tóku þeir land að Gásum.[1])

Þótt sagt sje af ferðum þessum í helgisögum, hafa þær þó átt sjer stað eins fyrir því.

Þá er og í annálunum getið um allmörg skiptjón eptir 1140, en venjulega er ekkert nánar af þeim sagt.

1141 fórst skip Hallsteins herkju.[2])

1142 hvarf skip Snæbjarnar.[3])

1145 hvarf skip Ljóts.[4])

Rjett eptir 1161 braut skip við Horn á Hornströndum, og komu skipbrotsmenn fjelausir í Hvamm í Dölum, til Sturlu Þórðarsonar, og báðu hann ásjá. Hann tók við þeim um veturinn. Einn þeirra hjet Gjafvaldur, og er hann nafngreindur, af því að Sturla notaði hann sem flugumann.[5])

Sumarið 1183 er kallað ófara sumar, því að þá týndist fjöldi manna og hafskipa, en heimildarritunum ber eigi saman um, hve margir hafi farist. Í Guðmundar sögu biskups er sagt, að þá »týndust V. C. manna af hafskipum«. Hið sama segir í Skálholtsannál (»d manna«), og mun hjer átt við tólfræð hundruð, eins og venjulegt var á þeim tíma, ef annars er eigi getið. Í Sturlunga sögu segir, að »þetta sumar týndust fimm hafskip og var kallað ófarasumar«. Hið sama segir í einu handriti af Guðmundar sögu Arasonar, AM. 657 c, 4 to, frá miðri 14. öld, og er það miklu minna en fimm eða sex hundruð manna. Í Konungs annál er að eins getið um eitt skiptjón þetta ár: »hvarf skip Eilífs úr Kúðafljóts ósi.«[6])

Á allra heilagra messu, 1. nóvbr. 1185 týndist skip Einars káta og »margt annað góðra manna með honum«. Hafa að líkindum einhverjir Íslendingar verið með Einari, en sjálfur mun hann hafa verið norskur; þó er ekkert um það sagt. Í Konungsannál segir »týndist skip Einars káta og 18 menn«; virðist svo sem annálsritarinn hafi ætlað, að 18 menn hafi farist á því. Í Guðmundar sögu biskups (og Sturlungu) segir og, að 18 menn hafi farist í skriðu (snæskriðu) austur í

[1]) Bps. I, 211. Um nafnið Bótólfur sbr. E. H. Lind, Norsk-isländska dopnamn. [2]) Ann. III, IV. [3]) Ann. IV. [4]) Ann. IV. [5]) Sturl. I, 73. [6]) Guðm. s., Bps. I, 427; Ann. V; Sturl. I, 144; Ann. IV.

Geitdal, og mun annálsritarinn hafa tekið þaðan töluna og blandað saman málum, enda getur hann líka um skriðuna í Geitdal.[1])

Þetta ár fórst einnig Grænlandsfar,[2]) og er líklegt að það hafi komið við á Íslandi eða einhverjir Íslendingar verið á því, úr því að þess er getið i íslenskum annálum.

1199 var »skiptjón Jóna tveggja«.[3]) Þetta er óákveðið, en getur þýtt að skip eitt, sem Jónar tveir áttu, hafi farist, eða að tveir menn, sem báðir hjetu Jón, hafi týnst með sitt skipið hvor, og er það líklegra.

Við næsta ár (1200) segir í Höyers annál »fórst skip Jóns Þorkels«. Hjer vantar líklega »sonar« aptanaf nafninu. Má vera að þessi Jón Þorkelsson sje annar þeirra Jóna, sem nefndir eru árið áður í Konungs annál.

Þessi skiptjón bera vitni um siglingar milli Íslands og annara landa, en frásagnirnar af þeim eru svo stuttorðar, að eigi er hægt að sjá, hvaðan skip þessi voru, hvort þau hafa verið norsk eða íslensk, eða frá Grænlandi, Hjaltlandi eða Orkneyjum eða jafnvel frá öðrum nágrannalöndum. Flest þeirra munu þó eflaust hafa verið norsk. Mannsnafnið Gjafvaldur kemur við og við fyrir í Noregi, en á Íslandi er þess eigi getið nema á skipbrotsmanni þessum og Norðmanni þeim, sem Gils Illugason vá.[4])

Það er augljóst, að í hvert sinn, sem þess er getið, að einhver Íslendingur eða maður færi utan, sigldi af Íslandi skip til annara landa, og að skip kom út, þá er einhver maður kom til landsins.

Hjer að framan hefur verið getið um 111 Íslendinga, sem fóru utan eða dvöldu í útlöndum á þessu tímabili og ókunnugt er um, á hvaða skipum þeir fóru. Einnig er ókunnugt um, með hvaða skipum margir þeirra manna fóru, sem voru gerðir utan eða flýðu landið. Jafnvel um sum af þeim skipum, sem Íslendingar fengu far á eða voru hásetar á (sbr. að fr. bls. 761 og 762), vita menn nú ekkert. En alt þetta sýnir að á þeim tíma, sem hjer ræðir um, hafa skipakomur

[1]) Guðm. s., Bps. I, 429; Sturl. I, 146; Ann. I, III, IV, V. [2]) Sömu tilvitnanir. [3]) Ann. IV. [4]) Sbr. E. H. Lind, Norsk-isländska dopnamn. Í ógáti telur Lind Gjafvald, sem Gisl vá, íslenskan, en hann var norskur.

til Íslands, sem engar sögur eru af, verið töluvert á annað hundrað, því að flestir þessir menn fóru utan sinn á hverju ári og af ýmsum höfnum, og fæstir þeirra voru eða gátu orðið samferða. En skip þessi hafa verið færri en skipakomurnar, því að sum skipin fóru optar en einu sinni á milli landa, svo sem skip það, er þeir fóstbræður Höskuldur Þorvarðsson og Brandur Gunnsteinsson tóku sjer far á (um 1046). Sagan segir, að þeir fóstbræður »könnuðust við kaupmenn«[1]; ef marka má orð þessi, hafa þeir því haft kynni af kaupmönnum þessum áður, en það hafa þeir tæplega haft, ef þeir hefðu eigi komið fyr til Íslands. Árið eptir komu þeir Höskuldur út á skipi, sem tók land að Gásum. Hvort það var sama skipið sem það, er þeir sigldu á utan, er eigi hægt að sjá. Líklega hefur skip það, sem þeir sigldu á, verið norskt; orðalagið bendir ofurlítið á það, en ekkert er beint sagt um það.

Þá er og getið hjer að framan nokkurra Norðmanna og ýmsra annara útlendinga, sem komu til landsins, en ókunnugt er um, með hvaða skipum þeir komu. Útkoma hvers þeirra ber þó einnig vitni um siglingu til Íslands.

Í sambandi við þetta skal hjer getið einhvers hins merkilegasta skírteinis, sem til er í fornritunum, um siglingar til Íslands. Í Kristni sögu, sem varla er eldri en frá um 1215 í þeirri mynd, sem hún er nú í, segir svo í 14. kapítula um árið 1118:

»Þat sumar fóru xxxv skipa út hingat, og braut mörg við land, en sum leysti í hafi undir mönnum, en átta ein komust brott, með þeim er áðr voru hér, ok komust þau engi fyrir Mikjálsmessu úr hafi. Af þeim mannfjölda varð hér hallæri mikit.«

Í Hungurvöku, sem rituð er í byrjun 13. aldar, á sama mannsaldri sem Kristni saga, er skýrt þannig frá þessu:

»Þat sumar kom til Íslands xxxv skipa, en VIII komu til Noregs um haustið eptir Michaelis messu. Við það óx svá mikill mannfjöldi á Íslandi, at þat var mikill óáransauki í mörgum heruðum.«[2])

Þetta er í eina skiptið, sem skýrt er frá, hve mörg skip

[1]) Ljósv. 22/202—203, sbr. 23/208. [2]) Bps. I, 30 og Hksb. 147; Bps. I, 71; Skb., Ísl. I, 329, fer eptir Kristni s. en hefur 40 skipa; það er líklega ritvilla og þýðingarlaust.

komu til landsins á einu ári, þá er um töluverða siglingu var að ræða. En heimildarritum þessum ber eigi saman að öllu leyti. Þótt skipatalan sje hin sama i þeim báðum, er þó sá munur á, að i Kristni sögu segir, að 35 skip færu út til Íslands og mörg brytu við land, en sum leyst i hafi, en í Hungurvöku, að 35 skip kæmu til Íslands. Eptir Kristni sögu getur þetta eigi verið rjett, jafnvel þótt þau skip væru talin með, sem braut við land, og mannbjörg hefði orðið af þeim. Í Hungurvöku er ekkert sagt af því, hvernig ferð þessara 35 skipa gekk til Íslands, en vera má að »komu« sje sagt þar i líkri merkingu sem »fóru« eða án nánari íhugunar. Eptir Kristni sögu hefur skipakoman annars verið töluvert minni en eptir Hungurvöku, líklega eitthvað um 20—25 skip.

Í Kristni sögu segir, að hallæri mikið hafi orðið á Íslandi af mannfjöldanum af skipunum, þótt hún segi, að sum þeirra hafi leyst i sundur i hafi og mörg brotið. Í Hungurvöku er þetta gætilegar orðað; mannfjöldinn óx svo mikið, að það var »mikill óáransauki i mörgum heruðum«. Það er eigi of sagt. Það veikir traust til þessarar tölu, að báðum sögunum ber eigi saman um hana, en þó má gera ráð fyrir að 20 til 30 skipshafnir hafi þá haft veturvist á Íslandi. Sumar þeirra hafa að líkindum verið frá fyrra ári. Í Kristni sögu segir, að »átta ein« skip »kæmust brott, með þeim er áður voru hjer«, þ. e. frá fyrra ári. Hvort öll skipin frá því ári hafi farið utan, segir ekki, en svo er að sjá af þessu sem nokkur skip, sem komu út 1118, hafi farið samsumars aptur, og þykir höfundi Kristni sögu það lítið, að ein átta skip komust brott. Í Hungurvöku er að eins sagt, að átta skip komu til Noregs um haustið, en enginn dómur á það lagður. Báðum ber sögunum saman um það, að ekkert þeirra hafi komist úr hafi til Noregs fyr en eptir Mikjálsmessu, 29. september.

Þetta ár var hallæri mikið á Íslandi, og hófst það með miklu illviðri á dymbildögum (7.—13. april). Á páskadaginn 14. april máttu menn eigi sækja tiðir og margir urðu úti. Annað illviðriskast kom i júní, þá er menn fóru til alþingis. Áraði illa um sumarið, og leiddi af þessu öllu hallæri og hungurdauða og sótt. Var það þá mikill óáransauki i mörgum hjeruðum, að svo margir farmenn höfðu hjer vetursetu um veturinn 1118—1119, eins og segir i Hungurvöku. Varð

manndauðinn þá svo mikill, að enginn hafði slíkur orðið áður á Íslandi.

Ef þess er gætt, hve margra skipa annars er getið í heimildarritunum þetta ár (1118), sjest eigi að fleiri hafi verið á ferðinni það ár en endrarnær. Þorlákur biskup Runólfsson kom þá heim úr vígsluferð sinni, og kom því út skip það, sem hann var með (sbr. bls. 791—92), en annars er eigi getið útkomu neinna manna. Þeir Hermundur Þorvaldsson og Árni fjöruskeifur voru það sumar með skip sitt á Eyrum og fóru utan, en út höfðu þeir komið árið áður (sbr. bls. 745—46). Sigmundur Þorgilsson andaðist þetta ár í Rómaferð, en hann mun hafa farið utan árið áður.

Af 35 skipum er því að eins getið um eitt; um hin 34 er ekkert kunnugt. Það má að vísu eigi byggja of mikið á þessu. Þetta ár munu óvenjulega mörg skip hafa komið til Íslands, en það bendir þó á, hve mörg skip eru gleymd og hve heimildarritin eru ófullkomin um þetta atriði.

Ef það alt er athugað í einni heild, sem hjer hefur verið sagt um ferðir og siglingar á milli landa, frá því að söguöldin leið og fram til aldamótanna 1200, er auðsætt, að í lok 12. aldar er orðin töluverð breyting á þeim. Í fyrstu kann svo að virðast sem þessi breyting eigi rót sína að rekja til þess, að heimildarritin eru fá og að miklu færri upplýsingar eru nú til um kaupmenn og skipseigendur en áður, en við nánari athugun sjest, að það er þó eigi aðalatriðið.

Margir Íslendingar fóru utan og voru víðförulir rjett eins og á söguöldinni, en nú er ekki getið margra íslenskra kaupmanna og skipseigenda, og bændur fóru nú sjaldan á eigin skipum í kaupferðir. Af rúmlega 190 (192) Íslendingum, sem kunnugt er um að fóru til annara landa, er þess getið um eina 19 að þeir áttu skip, og af þeim áttu að minsta kosti fjórir skip í fjelagi með öðrum; en um tvo er sagt, að þeir ættu tvö skip hvor. Alls er getið um hjer um bil 25 íslensk kaupskip.

Hjer eru taldir 25 menn, sem voru í förum, en eigi er nema helmingurinn af þeim kallaðir kaupmenn eða farmenn. Þá sjaldan sem þess er getið, að einhver íslenskur bóndi eða Íslendingur færi kaupferð til annara landa, þá var það venjulega til þess að sækja húsavið.

Um rúmlega 30 Íslendinga er þess getið, að þeir tóku sjer far í skipum annara manna, eða fóru með einhverju skipi frá nafngreindri höfn; eru þar með taldir nokkrir þeir menn, sem voru gerðir utan. Hinir, sem ekkert er sagt af hvernig komust utan, eru langflestir, og að tiltölu miklu fleiri en á söguöldinni. Á meðal þeirra eru um 20 kennimenn, sem fóru utan af ýmsum andlegum ástæðum, til að ganga í skóla erlendis, eða ganga suður, eða sækja biskupsvígslu.

Um hjer um bil 100 ára skeið (1050—1150) af tímabili þessu eru til bæði fá og lítil sögurit, og þau segja mest af innlendum viðburðum og mönnum. Fyrir því eru mjög fáir Norðmenn nefndir á Íslandi á þessum tíma. En síðar, einkum á síðustu 20 árum 12. aldar, þá er sögurnar eru fleiri og greinilegri, er getið allmargra kaupskipa á Íslandi eða í siglingum til landsins, en þó opt án þess að segja hver ætti þau eða hvaðan þau væru. Einnig er nú getið ýmsra Norðmanna á kaupskipum við Ísland, svo að alls er getið um hjer um bil 30 norska kaupmenn og kaupskip á tímabili þessu. Þá er það og eptirtektavert, hve margir Íslendingar tóku sjer far á norskum skipum og á skipum, sem ekkert er sagt af nánar. Tala þeirra, sem fóru utan án þess skýrt sje frá með hverjum þeir fóru, verður eigi heldur minni en á undanfarandi tíma, er heimildarritin eru fá. Og þessu er svo farið eigi að eins um þá menn, sem voru bjargálnamenn, heldur og um þá, sem voru vel efnum búnir og í höfðingjatölu, og höfðu góðan farareyri; sumir þeirra munu jafnvel hafa haft töluvert af vörum, og rekið kaupskaparerindi sín í ferðinni. Einstaka sinnum eru að vísu nefnd íslensk skip erlendis (1186, 1191 og 1198), og má telja víst, að enn hafi verið til einhverjir hafskipaeigendur og kaupmenn eða farmenn á Íslandi, en það var nú orðið lítið um þá, og verslunarástandið annað en á söguöldinni eða jafnvel í byrjun þessa tímabils, á dögum þeirra Magnúss góða og Haralds harðráða, því að þá voru enn ýmsir íslenskir kaupmenn í siglingum ár eptir ár, og seldu íslenskar vörur erlendis og keyptu aðrar, sem þeir fluttu til Íslands, og seldu þar eða hagnýttu sjálfir.

Að svo sjaldan er skýrt frá því, með hverjum Íslendingar fóru utan og hverjir skipstjórar þeir voru, sem komu til landsins, bendir á, að þeir hafi verið útlendingar, og hins veg-

ar, að Íslendingar áttu nú fæst af þeim skipum, sem voru í förum til landsins. Meginhluti verslunarinnar við önnur lönd hefur því verið genginn úr höndum landsmanna í greipar annara, aðallega Norðmanna. Þetta var sú aðalbreyting, sem varð á verslun Íslands á tímabili þessu. Hún varð smátt og smátt, en umskiptin eru auðsæ í lok 12. aldar. En af þessu er það líka ljóst, hvers vegna fárra íslenskra skipseigenda og kaupmanna er getið í lok 12. aldar, þótt heimildarritin sjeu þá eigi svo fá nje lítil, skýri frá mörgu og geti um allmargar skipakomur. Nöfn íslenskra skipstjóra og kaupmanna hefðu varla gleymst, ef þeir hefðu verið mjög margir.

En nú er eptir að athuga, hvað finst í heimildarritunum um þetta á hinni söguríku Sturlungaöld. Þá segir svo mikið af siglingum til landsins og utanferðum landsmanna, að af tekur allan efa um þetta atriði.

---

# Þriðja tímabil, Sturlungaöldin
## 1200—1264.

## Fimti þáttur. Ferðir Íslendinga til annara landa.

### I. Fáein orð um Sturlungaöldina og heimildarritin.

Goðorðin, mannaforráðin, ríkin, voru eign einstakra manna, goðanna, helstu höfðingjanna. Þau gengu að erfðum. Þau mátti gefa eða selja. Þau voru verslunarvara. Í heiðni á meðan hof voru til, var þetta eigi svo hættulegt, því að eitt höfuðhof var venjulega í hverju goðorði, og þau voru sem dálítlir höfuðstaðir í goðorðunum, eða sem nokkurs konar heimilisfesta, staðfesta hvert í sínu goðorði. En þá er hofin voru lögð niður, mistu goðorðin þessa heimilisfestu sína, og þau urðu eigi svo bundin við neinn stað sem áður; vald goðanna breyttist einnig og varð eingöngu veraldlegt.

Á síðari hluta 12. aldar fór að brydda töluvert á því, að einstaka höfðingjar, sem voru duglegir og metorðagjarnir, höfðu náð undir sig goðorðum annara manna, svo að þeir höfðu tvö eða þrjú eða jafnvel fjögur goðorð til forráða.

Þetta var alveg andstætt því, sem upphaflega var til ætlast, en þó varð eigi mjög mikið mein að þessu í fyrstu, því að sá maður, sem var helstur höfðingi á Íslandi á síðari hluta 12. aldar, Jón Loptsson í Odda, var vitsmunamaður, og fór venjulega vel með vald sitt og hjelt uppi friði í landinu. En á Sturlungaöld fór innanlandsófriður og deilur vaxandi, uns mestalt landið logaði í ófriði. Öll stjórnarskipunin fór úr lagi; landsmenn mistu sjálfsforræði sitt, og landið komst undir Noregs konung og varð skattland hans.[1])

Flestir höfðingjar landsins lágu þá í einlægum ófriði. Hugarfar þeirra og siðferði spiltist við það, gerðist hart og ágjarnt, óhreint og svikult. Hatur, eigingirni og valdafíkn var opt sterkasta hugsun þeirra og tilfinning, og þá var eigi við góðu að búast. Þeir veltu huganum löngum um það, hvað mótstöðumönnum þeirra kæmi illa. Þeir svikust að þeim og drápu þá eða kúguðu, og sölsuðu undir sig goðorð þeirra og aðrar eignir. Vjel kom fyrir vjel, eins og segir í vísu einni í Sturlunga sögu. Þúsundir dagsverka gengu nálega á hverju ári í herferðir og til rána, eins um bjargræðistímann sem um aðra tíma ársins. Landið flaut í blóði. Margir menn voru drepnir, handhöggnir, eða fóthöggnir, eða limlestir á annan hátt. Á þennan hátt biðu landsmenn af eigin völdum meira tjón, bæði andlega og efnalega, en þeir fengu undir risið. Atvinnuvegunum fór aptur, nauðsynjaverk lágu óunnin, og verslunin við önnur lönd, það sem eptir var af henni, komst þá að heita má algjörlega úr höndum landsmanna.

Þótt stundum kæmust á sættir, þá stóðu þær sjaldan lengi. Margir voru svo óvandaðir, æstir og heiptarfullir, að þeir gátu enga sætt haldið til lengdar. Eigingirndin, hatrið og metnaðargirndin rak þá af stað aptur. Ríkustu mennirnir vildu eigi heldur lúta neinum innlendum dómi, er þeir höfðu sölsað undir sig yfirráðin yfir mestöllu landinu, heldur skutu þeir málum sínum undir dóm Noregs konungs, meðfram af því að þeir voru flestir hirðmenn hans. Konungur notaði þá því, eins og eðlilegt var, til þess að koma landinu undir sig. Ekki átti hann að gæta sjálfstæðis Íslands, heldur ríkis síns og hags þess, og það gerði hann.

---

[1]) Um helstu viðburðina á allri Sturlungaöldinni sjá Þætti úr Íslendinga sögu. Kmhöfn 1901—9, bls. 184—279.

Aðalheimildarritið um Sturlungaöldina er hið mikla sögusafn Sturlunga saga ásamt Hrafns sögu Sveinbjarnarsonar og Arons sögu Hjörleifssonar. Auk þess eru til samskonar heimildarrit sem um 12. öldina, biskupa sögur, Noregs konunga sögur, annálar og brjef. Flest eru heimildarrit þessi áreiðanlegri en sögurnar um eldri tíma, því að þau eru rituð eigi mjög löngu síðar, en viðburðir þeir gerðust, sem þau segja af. Það má því fá bæði meiri og miklu áreiðanlegri þekkingu um Sturlungaöldina, en um undanfarandi aldir af sögu Íslendinga.

## II. Íslenskir kaupmenn.

Af því að rannsóknir þessar eru upphaflega gerðar til þess að fá vitneskju um, að hve miklu leyti Íslendingar sjálfir ráku verslun sína við önnur lönd, skal ferðum þeirra á Sturlungaöldinni skipt á líkan hátt sem áður, enda þótt eðlilegra væri að flokka þær öðruvísi. Það stingur nú í stúf við það, sem áður var, því að í öllum hinum miklu heimildarritum, sem eru til um Sturlungaöldina, er hvergi getið um neinn kaupmann eða farmann, sem sagt er um, eða sjá megi um með vissu, að hafi verið íslenskur; má af því ráða, að margir íslenskir kaupmenn hafi þá ekki verið til, og að Íslendingar sjálfir ráku nú mjög litla verslun við önnur lönd.

Árið 1246 er nefndur Þórir tottur Arnþórsson (eða Arndórsson) með Gissuri Þorvaldssyni; fór hann meðal annara manna á milli þeirra Gissurar og Þórðar kakala, til að koma á sættum. Þórir hafði þá skip á Eyrum. Gissur fór þá utan á Eyrum um sumarið, og er því líklegt að hann hafi siglt með Þóri, þótt þess sje eigi getið nje neitt meira sagt af Þóri í það sinn. Um ætt Þóris er ókunnugt. Nafnið Arnþór (eða Arndór), er mjög sjaldgæft á Íslandi; er eigi getið neins manns með því nafni nema Arnþórs austmanns, sem fyr er nefndur. Það er eigi ómögulegt hvað tímann snertir, ef Arnþór hefur orðið aldraður maður, að hann hafi verið faðir Þóris, eins og getið hefur verið upp á, en um það vita menn ekkert með vissu. Hins vegar getur sú tilgáta eigi verið rjett, að Ragneiður Þórhallsdóttir, kona Arnþórs, hafi verið móðir Þóris totts, því að Þórir mun eigi vera fæddur fyr en um eða eptir 1210, en þá var hún nálægt hálfáttræðu, ef hún hefur verið á lífi.

Það er líklegt að Þórir hafi verið eitthvað í förum þessi ár, þar sem hann átti skip, en hans getur ekki fyr en 1253. Þá var hann í brúðkaupinu á Flugumýri og sat þar meðal virðingamanna úr liði Gissurar. Sumarið eptir giptist hann Herdísi Einarsdóttur, bróðurdóttur Gissurar Þorvaldssonar; stóð brúðkaup þeirra í Haukadal (24. júní 1254), og voru í því margir göfugir menn, bæði norrænir og íslenskir; bendir það á, að Þórir hafi haft mikil kynni af norrænum mönnum, og ef til vill líka á það, að hann hafi verið norrænn að ætterni; þó er þetta alls ekki fullnægjandi sönnun fyrir því. Í förum hefur hann kynst mörgum Norðmönnum, og þeir kaupmenn, sem komu á Eyrar og mestir metorðamenn voru, hafa leitað kynnis við Gissur Þorvaldsson. Þetta sumar fór Gissur utan og skipaði hann þá Odd Þórarinsson fyrir sveitir sínar norðanlands, Skagafjörðinn, en Þóri tott fekk hann föðurleifð sína, og skyldi hann styrkja Odd móti brennumönnum. Þórir bjó nú í Haukadal, en 29. desember lagði hann af stað með Oddi norður Kjalveg til Skagafjarðar, og barðist með honum 14. janúar í Geldingaholti, en komst í kirkju. Þórir var í pansara öruggum og hafði stálhúfu norræna á höfði, og sýnir það, að hann hefur eins og vænta mátti verið betur búinn en alment tíðkaðist. Eptir fall Odds var flestum grið gefin, og Þórir mun hafa riðið suður í Haukadal eptir bardagann og líklega búið þar í friði, en enginn veit hve lengi, því eptir þetta kemur hann hvergi við sögur og er aldrei nefndur.[1])

Auk Þóris bar að eins einn Íslendingur auknefnið tottur, svo kunnugt sje. Það var Ólafur tottur, afi Hauks lögmanns Erlendssonar. Hann var í Örlygsstaðabardaga 1238 og í Skálholti 2. janúar 1242. Annars kemur auknefni þetta eigi fyrir í fornislenskum og fornnorskum ritum,[2]) og bendir það ef til vill á, að Þórir hafi verið íslenskur, þótt hann kunni að hafa verið norskur í aðra ættina; en úr þessu verður varla skorið með fullri vissu.

---

[1]) Sturl. II, 99, 190, 221, 230—31, 235—36; Eirsp. 429; Fms. X, 60; sbr. að framan bls. 820 nm. [2]) Sturl. I, 529, 561, 563; sbr. Jón Þorkelsson, Nokkur blöð úr Hauksbók, bls. IV—VI; F. Jónsson, Tilnavne (Aarb. f. Nord. Oldkh. 1907) bls. 356; K. Rygh, Norske og islandske tilnavne. Trondhjem 1870, bls. 68.

## III. Íslenskir skipseigendur og kaupskip.

Á Sturlungaöldinni er eigi getið um neina íslenska bændur, sem fóru kaupferðir til annara landa á sínum eigin skipum, og þess er varla getið um nokkurn annan Íslending en Snorra Sturluson, að þeir hafi eignast kaupskip erlendis, eins opt og þeir fóru þó utan. Snorri Sturluson fór utan í Hvítá 1218, og mun hann hafa tekið sjer þar far og þeir Ingimundur Jónsson og Árni Brandsson, er fóru utan með honum; segir ekkert af ferð hans fyr en hann kom til Noregs á fund Skúla jarls Bárðarsonar. Tók hann forkunnar vel við Snorra, og var hann með jarli um veturinn (1218—1219), en þeir Ingimundur og Árni rjeðust til suðurferðar. Sumarið eptir fór Snorri austur á Gautland, á fund Áskels lögmanns og frú Kristínar, ekkju Hákonar jarls galins. Snorri hafði að bæn jarlsins ort um hana kvæði, er Andvaka hjet, og tók hún vel við Snorra og veitti honum margar gjafir, þar á meðal merki, er átt hafði Eiríkur Knútsson Svíakonungur. Um haustið fór Snorri aptur til Skúla jarls, og var með honum hinn næsta vetur (1219—1220). Gerðu þeir Hákon konungur Hákonarson og Skúli hann skutilsvein sinn. Um vorið ætlaði Snorri til Íslands. Þá voru margir Norðmenn mjög reiðir Íslendingum, einkum Oddaverjum, af ránum þeim, er urðu á Eyrum; ætlaði þá Skúli jarl að senda her til Íslands um sumarið. Snorri latti mjög ferðarinnar, og rjeð heldur til að gera sjer að vinum hina bestu menn á Íslandi. Flestir voru ófúsir til ferðarinnar og var þá hætt við hana af ýmsum ástæðum, en þeir konungur og jarl gerðu Snorra lendan mann; talaði jarlinn þá í fyrsta sinni um, að hann skyldi koma landinu undir konung. Jarlinn »gaf« Snorra skip það, er hann fór á til Íslands, og 15 stórgjafir, svo að hann hefur bæði viljað leysa hann vel úr garði og gjöra hann sjer skuldbundinn.

Snorri var heldur síðbúinn og fekk harða útivist; ljet hann trje sitt fyrir Austfjörðum, en tók land í Vestmannaeyjum. Hann fór frá skipi við 12. mann og gisti í Skálholti á leiðinni.[1]) Líklega hafa einhverjir af förunautum hans ver-

[1]) Sturl. I, 331—32, 339—41, 360; Fms. IX, 292, 295; Guðm. s., Bps. I, 507; Ann. I, III, IV, V.

ið Norðmenn. Af skipshöfn hans segir ekkert, en það má nærri geta, að Skúli jarl hefur fengið honum stýrimann og hjálpað honum til þess að ráða menn í skipið, að því leyti sem hann þurfti þess með. Má vera að meiri hluti skipshafnarinnar hafi verið norskur. Það segir ekki hvað orðið hafi af skipinu á Íslandi, og er eigi ólíklegt, að stýrimaðurinn hafi siglt því aptur til Noregs, eða að Snorri hafi selt það. Þá er Snorri fór utan 17 árum síðar, kemur ekkert það í ljós um utanför hans, sem bendi á, að hann hafi þá verið skipseigandi.

Yfirgangur Sturlu Sighvatssonar olli utanför Snorra 1237, þótt það sje eigi sagt berum orðum. Hann »fór« þá »utan á Eyrum«, og mun hann hafa tekið sjer þar far. Á sama skipi fór þá utan Þorleifur Þórðarson og Ólafur hvitaskáld Þórðarson, báðir hraktir utan af Sturlu, og Þórður kakali, er mun hafa farið í erindum Sturlu bróður síns. Snorri var þá tvo vetur í Niðarósi, hinn fyrri með Pjetri Skúlasyni hertoga; en hinn síðari sat Skúli hertogi þar sjálfur, og var þá Snorri með honum, og einnig Órækja sonur hans og Þorleifur Þórðarson. Um vorið fengu þeir skip, er átti að sögn Sturlunga sögu Guðleikur á Skartastöðum, vinur Snorra, en að sögn Hákonar sögu Hákonarsonar fekk Skúli hertogi þeim skip, og segir í sumum handritum (Eirsp. og Flat.), að hann ætti það hálft, en Guðleikur hálft.[1]) Þeir Snorri bjuggu skipið með ráði hertogans, og ljetu í haf til Íslands með leyfi hans, en í banni konungs. Þeir tóku land í Vestmannaeyjum, og gekk Snorri þar af skipinu og tveir fylgdarmenn hans, Hrani Koðránsson og Ófeigur Bjarnarson, sem nafngreindir eru. Órækja gekk þar og í land og með honum Egill Sölmundarson og Hákon Bótólfsson galinn. Þorleifur »hafði hlut í skipinu«, og kom hann því á Eyrar. Var þaðan hægra að flytja farangur þeirra en úr Vestmannaeyjum.[2])

Líklega hafa þeir Snorri leigt skip þetta, eins og orð sögunnar benda á um Þorleif. Snorri hefur því að eins ver-

---

[1]) Að Guðleikur hafi farið til Íslands, eins og dr. A Bugge, (norsk) Hist. Tidsskr. 5. r. II, 429, leiðir út af þessu, er að eins getgáta. [2]) Sturl. I, 500, 540—41; Fms. IX, 455—56; Frís. 490—92; Eirsp. (Ungers útg.) 342, 352; Flat. III, 119—121; Ann. I, III, IV, V.

ið skipseigandi, er hann kom út 1220, ef marka má orð sögunnar, og hann er hinn eini af höfðingjum Sturlungaaldarinnar, er fekk kaupskip að gjöf. Annað segir ekki af kaupskipaeign þeirra; enginn þeirra keypti eða ljet gera kaupskip, svo getið sje. Þó er einstaka sinnum komist svo að orði, að jafnvel mætti ætla, að um skipseiganda væri að ræða. Um Lopt Pálsson er t. a. m. sagt, þá er hann fór utan 1221, að hann »færi með Arnóri Tumasyni«[1]), rjett eins og Arnór hefði átt skip það, sem hann fór á utan; en orð þessi eru tvíræð; fara með þýðir líka að fylgjast með, verða samferða. Arnór hafði við sættina rjett áður verið einna harðastur í tillögum við Lopt, og því mun það tekið fram, að Loptur fór með honum; mun Arnór hafa átt að gæta þess að hann færi utan. Hins vegar er það ekki líklegt, að Arnór hafi átt skip, því að tveimur árum áður hafði hann tekið sjer far með skipi í Hvítá. Um útkomu Kolbeins unga Arnórssonar á Eyrum 15. ágúst 1236 er og sagt, »sigldi þar af hafi knörr einn lítill, ok var þar á Kolbeinn ungi ok þeir félagar«, rjett eins og Kolbeinn hefði verið skipstjórinn á knerrinum; en það er eigi svo að skilja, heldur stendur þetta í sambandi við það, að Órækja mágur hans var fyrir á Eyrum og að fagnafundur varð þá með þeim mágum.[2])

Þótt ekkert víst segi af íslenskum kaupmönnum á Sturlungaöldinni og skipseigendum, sem fóru kaupferðir til útlanda, er þó eigi ómögulegt, að einhverjir Íslendingar hafi átt kaupskip eða hlut í kaupskipi á þessum tíma. Þá er það er athugað, hve mikinn skipastól Íslendingar áttu lengi framan af og hve miklir siglingamenn þeir voru, virðist það enda ólíklegt, að enginn þeirra hafi átt kaupskip á allri Sturlungaöldinni. Hins vegar má telja víst, að margir hafi þeir ekki verið. En til er brjef eitt frá Heinreki 3. Englakonungi, dagsett 23. ágúst 1224, sem nefnir kaupskip frá Íslandi. Í því skipar konungur valdsmanninum yfir höfninni í Yarmouth á Englandi, að láta laus kaupför frá Skotlandi, Noregi, Íslandi, Físlandi, Köln, Danmörku og Austursjávarlöndum, og sömuleiðis fiskiskip.[3]) Þetta sýnir annaðhvort að skip frá Íslandi hefur þá verið í Járnamóðu, eða að Íslandsför hafa komið þangað á undanfarandi árum, svo opt, að konungi hefur þótt ástæða til að taka Ísland undan. Að

[1]) Sturl. I, 350. [2]) Sturl. I, 486. [3]) Dipl. I, 481—82.

vísu er þetta eigi fullnægjandi sönnun fyrir því, að Íslendingar hafi átt skip þetta, eða skip þessi, ef um fleiri er að ræða, en það er líklegt, nema því að eins að norskir kaupmenn hafi siglt beint af Íslandi til Englands.

## IV. Íslendingar tóku sjer far milli landa.

Um margar hinar þýðingarmestu utanferðir Íslendinga á Sturlungaöldinni hefur verið ritað allrækilega áður, og má vísa til þess.[1]) Til þess að spara hjer rúm, skal því farið heldur fljótt yfir sögu, og flestar utanferðir Íslendinga taldar stuttlega.

Þorvaldur Snorrason í Vatnsfirði tók sjer far í skipi, er uppi stóð í Dögurðarnesi 1201, og var utan einn vetur.[2])

Guðmundur Arason biskupsefni fór utan í Eyjafirði með Bótólfi stýrimanni 1202, og með honum Hrafn Sveinbjarnarson frá Eyri, Tómas Þórarinsson, Þórður Vermundarson, Eyjólfur Snorrason, Ívar Jónsson, Grímur Hjaltason múnkur, Erlendur prestur, Bergur (prestur) Gunnsteinsson, Þorsteinn Kambason, Guðmundur prestur Þormóðarson, Brandur Dálksson, Pjetur Bárðarson og Snorri bróðir hans, Höskuldur Arason og Kollsveinn Bjarnarson, alls 15 fylgdarmenn og voru þrír þeirra með Hrafni. Í Hrafns sögu segir, að 20 íslenskir menn væru á skipinu, en þar eru eigi aðrir fylgdarmenn nafngreindir en menn Hrafns. Þeir ljetu út 14. júlí; hrakti þá suður undir Írland og Skotland, og komu þeir við í Suðureyjum, en til Noregs um haustið, og voru í Niðarósi um veturinn. Guðmundur Arason var vígður af Eiríki erkibiskupi 13. apríl 1203 og fóru þeir Hrafn til Íslands um sumarið.[3])

Jón murtur Snorrason tók sjer far í Hvítá með tveimur þjónustusveinum, Oddi og Valgarði Guðmundarsyni, og Markús Þórðarson úr Bæ 1229. Jón var hjá

---

[1]) Utanstefnur og erindisrekar útlendra þjóðhöfðingja á Sturlungaöldinni. Tímarit Bókmentafjelagsins 1899 og 1900. [2]) Hs. Sturl.[2] II, 288–89, Bps. I, 655, sbr. Ann. IV árið 1201. [3]) Hs. Sturl.[2] II, 290–92, Bps. I. 562–64; Páls s., Bps. I, 136; Guðm. s., Bps. I, 481–85, Sturl. I, 267–71, 297; Fms. IX, 3, 64; Eirsp. 204; Ann. I, III, IV, V.

Skúla jarli um veturinn og gerðist hirðmaður hans og skutilsveinn. Sumarið eptir neitaði konungur honum um orlof til Íslands. Jón var þá fjevani og sendi Odd svein sinn til Íslands eptir fje, en sjálfur varð hann að sitja kyr í Björgyn, og dó þar af sári 21. janúar 1231.[1])

Órækja Snorrason tók sjer far á Eyrum 1236 með Andreasi Hrafnssyni, sömuleiðis Magnús Guðmundarson gríss, biskupsefni í Skálholti, og Kygri-Björn[2]) Hjaltason, biskupsefni að Hólum. Órækja og Kygri-Björn rjeðust til suðurferðar um veturinn. Órækja fann í Danmörku Valdimar konung hinn gamla og orti vísu um hann. Konungur gaf honum hest og reið Órækja honum suður og sunnan. Kygri-Björn andaðist á heimleiðinni (1238), en Órækja kom út með föður sínum 1239. Magnús Guðmundarson kom einnig út það ár.[3])

Svarthöfði Dufgússon, Jón Árnason og Guðmundur Ólafsson, er verið hafði að brennu Þorvalds úr Vatnsfirði, ætluðu utan 1239 með Ólafi af Steini, en urðu apturreka í Hlöðuvík. Þá er Illugi Þorvaldsson frjetti það, fór hann norður í Hlöðuvík og drap þar Guðmund til föðurhefnda.[4])

Þórður kakali Sighvatsson, Solveig Sæmundardóttir, mágkona hans, Jón sonur hennar og dætur hennar báðar, komu út að Gásum, 6. septbr. 1242, á skipi Jóns lindiáss; enn fremur Snorri prestur Þórólfsson. Þórður kakali hafði verið í Noregi síðan 1237, og eigi fengið að fara fyr þaðan. Eptir fall föður síns átti hann þar við erfiðan kost að búa, því að hann var fjelaus. Þá hjálpaði Aron Hjörleifsson honum, og um veturinn (1238—1239) eptir jól gerði konungur hann hirðmann sinn. Þórður var ekki spakur við drykk, og konungur hafði því verið tregur til að taka hann í hirðina.[5])

Þetta sumar (1242) tók Hrafn Oddsson, Svarthöfði og Kolbeinn Dufgússynir, og margir aðrir íslenskir menn sjer far með Þorfinni og Arnbirni salteyðu, en þeir urðu apturreka í Hrútafjörð.[6])

---

[1]) Sturl. I, 412, 422—23, 426; Guðm. s., Bps. I, 548. Ann. I, III, IV, V. [2]) Svo er hann optast nefndur, en stundum Kyfru-Björn eða Kyfri-Björn. [3]) Sturl. I, 486—87; Fms. IX, 436, 448; Frís. 484. 488; Eirsp. 342, 348; Ann. IV. V. [4]) Sturl. I, 541—42. [5]) Sturl. I, 576, II, 1, 4, 5, 7, 36; As., Sturl.[2] II, 343—346; Fms. X, 5; Frís. 525; Eirsp. 399, Flat. III, 165; Ann. I, III, IV, V. [6]) Sturl. I, 575, II. 4.

Þorgils skarði Böðvarsson og Bergur Ámundason rjeðust til utanferðar með Eiríki skarða 1244. Árið eptir vildi Þorgils fara heim aptur, en fekk ekki útfararleyfi hjá konungi; gjörðust þeir Bergur þá hirðmenn hans. Þeir komu til Íslands 16. ágúst 1252 með Eysteini hvíta.[1])

Auk þeirra Þorgils og Bergs kom Gissur Þorvaldsson, Finnbjörn Helgason, Arnór Eiríksson, sem var systurson Brands Kolbeinssonar og hirðmaður Hákonar konungs, Aron Hjörleifsson, Erlingur snagi Sigmundarson og margir aðrir Íslendingar út með Eysteini hvíta (1252). Finnbjörn Helgason hefur eflaust verið handgenginn Hákoni konungi, þótt þess sje eigi beinlínis getið, því að konungur skipaði hann yfir ríki fyrir norðan Vaðlaheiði, Reykjadalinn og þaðan norður til Jökulsár.[2])

Sigurður seli og Kolfinna Þorvaldsdóttir úr Vatnsfirði fóru utan 1253 með skipi, er staðið hafði uppi í Dýrafirði um veturinn. Kolfinna var enn í Noregi 1256, og var hún hjá Þórði kakala, er hann dó.[3])

Sumarið 1258 fór Jörundur prestur Þorsteinsson utan á skipi, er var í Kolbeinsárósi og Bárður Hallröðarson rjeð fyrir. En Kolskeggur prestur tók sjer þá far í Eyjafirði með skipi, er Gróbússan hjet; það braut norður á Finnmörk eins og síðar mun sagt, og sjera Kolskeggur ljet þar lífið. Í annað skip, Hólmdæluna, sem þá var í Eyjafirði, rjeðust margir íslenskir menn, bæði »brennumenn« (þ. e. þeir sem höfðu tekið þátt í Flugumýrarbrennu) og »Fagranesmenn« (þeir, sem höfðu farið með Oddi Þórarinssyni í Fagranes, er hann handtók Heinrek biskup); voru óvenjulega margir menn á skipi þessu, alls um hundrað manna. Af Íslendingum eru þessir nafngreindir: Einar úr Gaddsvík og Þórður bróðir hans af Espihóli, Hámundur várbelgur, Þorgils úr Öxnafelli, Þorgeir káti, Ari Ingimundarson, Halla-Geir, Bangar-Oddur, Magnús og Einar Gíslasynir af Rauðasandi. En Hólmdælan týndist suður fyrir Mýrum, og um 50

---

[1]) Sturl. II, 138—50, 132—33; Fms. X, 42, 45, 51; Frís. 540, 541, 543; Eirsp. 419, 421, 424; Flat. III, 181, 182, 185. [2]) Sturl. II, 132—33, 149, 160—61, 185; Fms. X, 42, 45, 51, sbr. næstu aths. á undan. Ann. IV. [3]) Sturl. II, 185, 300.

manna, þar á meðal flestir eða allir Íslendingar, en um 50 manna komust af.[1])

Sighvatur Böðvarsson frá Stað og Sturla Hrafnsson fóru utan 1262 með Hallvarði gullskó. Sighvatur kom á fund Hákonar konungs og gerðist hans maður. Hann fór með konungi vestur til Skotlands árið eptir, en í þeirri herferð andaðist konungur 15. desbr. 1263. Sighvatur fór meðliki Hákonar konungs til Noregs, og á fund Magnúss konungs sonar hans; fekk hann af honum mikla virðing, en konungur vildi eigi lofa honum að fara til Íslands, er hann bað þess, og mun það hafa verið 1264. Sighvatur saknaði Hákonar konungs og undi nú eigi í Noregi; fór hann þá úr landi og ætlaði til Jórsala. En er hann kom í Rauðahafið, tók hann sótt, og andaðist 22. septbr. 1266.[2])

Hjer mætti nefna fleiri Íslendinga, sem hafa auðsjáanlega tekið sjer far, en þeir verða taldir í næstu grein.

## V. Íslendingar gerðir utan og forða sjer til annara landa; utanstefnur.

Á vígaöld og vargöld sem Sturlungaöldinni voru margir Íslendingar gerðir utan eða dæmdir. Sumir flýðu landið til þess að halda lífi og limum, og forða sjer undan hefnd. Ýmsir Íslendingar fóru og utan af því, að þeim var stefnt utan af erkibiskupi eða Noregs konungi. Það voru alt höfðingjar eða heldri menn. Stundum skutu þeir líka málum sínum undir dóm erkibiskups eða konungs.

Víga-Haukur og Hallbera kona hans fóru af landi brott um 1205, sökum banatilræðis við Þorvald Snorrason í Vatnsfirði og áverka við einn af förunautum hans. Haukur fór fyrst til Noregs og þaðan til Grænlands, og kom ekki aptur.[3])

Vorið 1211 bauð Þórir erkibiskup Guðmundi biskupi Arasyni og mótstöðumönnum hans, Arnóri Tumasyni, Sigurði Ormssyni, Þorvaldi Gissurarsyni, Jóni Sigmundarsyni, Halli Kleppjárnssyni og Snorra

---

[1]) Sturl. II, 299; Ann. I. III, IV, V. [2]) Sturl. II, 308, 320; Fms. X, 116; Frís. 569; Eirsp. 462; Flat. III, 216; Ann. I, III, IV.
[3]) Sturl. I, 301; Hs., Sturl.[2] II, 296.

Sturlusyni, sem var þó biskupi heldur vinveittur, að sækja á sinn fund að sumri. Jón Sigmundarson fór utan sama ár eptir því, sem annálar segja, og er eigi víst, hvort hann fór utan sökum utanstefnunnar, eða áður en hún kom. Hann andaðist í Noregi árið eptir.[1])

Arnór Tumason fór utan sökum utanstefnunnar 1213 að sögn Sturlungu (1212 að sögn annála mun eigi rjett). Þorvaldur Gissurarson fór þá einnig utan og Teitur Bessason, systurson hans, sem var kosinn til biskups í Skálholti eptir fráfall Páls biskups. Teitur andaðist í Noregi (1214), en þeir Arnór og Þorvaldur komu út aptur 1214. Gat erkibiskup eigi gjört um mál þeirra og Guðmundar biskups, því að biskup varð apturreka sumarið áður og komst eigi til Noregs fyr en 1214; mun hann þá eigi hafa fundið Þóri erkibiskup, því að hann andaðist 8. ágúst um sumarið. Var þá kosinn nýr erkibiskup og mun hann varla hafa komið fyr heim úr vígsluferð sinni en 1216. Guðmundur biskup sat fjögur ár í Noregi og kom út 1218.[2])

Fyrir víg Halls Kleppjárnssonar á jólaföstu 1212 var Kálfur Guttormsson á Grund í Eyjafirði gerður utan þrjá vetur og hjeraðssekur úr Eyjafirði. Hann fór utan 1213, gekk suður og tók lausn allra mála sinna, og hjelt alla sætt vel.[3])

Þorvaldur Snorrason í Vatnsfirði, sem fyr er nefndur, var eptir víg Hrafns Sveinbjarnarsonar (4. mars 1213) á alþingi 1214 gerður utan samsumars fimm vetur, nema hann færi á fund páfa og fengi af honum lausn; þá þyrfti hann eigi að vera í burtu nema þrjá vetur. Auk þess voru fjórir af þeim mönnum, sem höfðu farið með Þorvaldi að Hrafni, Þorgils austmaður, Steingrímur Ásgeirsson, Þórður Gunnarsson og Bárður Bárðarson, gerðir af landi brott, og skyldu koma aldrei aptur. Þorvaldur fór utan, gekk suður til Róms og var utan þrjá vetur.[4])

Þorbergur, fylgdarmaður Eyjólfs Kárssonar, varð sekur fyrir víg (um 1215), og kom Sighvatur Sturluson honum utan austur í fjörðum.[5])

---

[1]) Dipl. I, 362 o. cf.; Sturl. I, 291; Bps. I, 503, 571. Ann. I, III, IV, V, VIII. [2]) Sturl. I, 291—93, 297, 332; Guðm. s., Bps. I, 504, 506—507, 503, 573; Ann. I, III, IV, V, sbr. VIII. [3]) Sturl. I, 296—97; Bps. I, 506. [4]) Sturl. I, 316—17; Hs., Sturl.[2] II, 310—11; Bps. I, 675—76. [5]) Sturl. I, 323.

Eptir fall Bjarnar Þorvaldssonar (17. júní 1221) gerði Þorvaldur Gissurarson Lopt Pálsson, Harald Sæmundarson, Guðlaug Eyjólfsson af Þingvelli og Ingibjörn bróður hans utan. Þeir fóru til Noregs þá um sumarið (1221) og fór Loptur með Arnóri Tumasyni, er mun hafa átt að gæta þess að hann færi utan. Þeir Loptur og Haraldur fóru til Hákonar konungs, er sat þá í Björgyn. Guðlaugur fór úr Noregi og ætlaði til Róms, en andaðist á suðurvegum. Loptur Pálsson átti að vera þrjá vetur utan, en hann kom út á Eyrum 1223, vetri fyr en mælt var. Hann varð þá hjeraðssekur á Suðurlandi fyrir austan ár, og var því í Stafholti um veturinn á vegum Snorra Sturlusonar. Haraldur Sæmundarson kom einnig út þetta ár, líklega um leið og Loptur.[1])

Árið 1222 handtóku þeir Sighvatur Sturluson og Sturla son hans Guðmund biskup og ljetu hann fara utan. Sama árið stefndi Guttormur erkibiskup höfðingjum af Íslandi á sinn fund, og leiddi það af ófriðnum; en eigi er þess getið að neinn höfðingjanna færi utan í það sinn, og eigi heldur hverjir þeir voru, sem utan var stefnt, en eðlilega hafa þeir feðgar Sighvatur og Sturla verið þar efstir á blaði. Árið eptir sendi Magnús biskup Gissurarson presta tvo, Jón Arnþórsson og Arnór Bjarnarson, utan með brjef til erkibiskups. Af því að erkibiskup dó 6. febrúar 1224, svöruðu kórsbræður brjefi Magnúss biskups og kom Arnór prestur einn út með brjef þeirra 1224, en Jón prestur hafði andast í Noregi um veturinn.[2])

Á meðan Guðmundur biskup var í Noregi, sendi hann Ketil prest með brjef á fund páfa, og gekk hann á 33 dögum sunnan frá Róm norður til Rauðstokks nyrðst á Þýskalandi. Af páfa fekk Guðmundur biskup það svar, að hann mætti víkja úr biskupsembætti, ef hann vildi. Eptir fjögra vetra dvöl í Noregi hjelt Guðmundur biskup til Íslands og kom út 1226 á skipi, er tók land á Borðeyri. Á sama skipi kom til landsins Björn munkur, sem kallaður var Rita-

---

[1]) Sturl. I, 350—51, 371, sbr. 379; Guðm. s., Bps. I, 545; Ann. I, III, IV, V. [2]) Sturl. I, 359; Guðm. s., Bps. I, 534, 545; 630 (Arons s.=) Sturl.[2] II, 339; Fms. IX, 317, 342. Ann. IV, V, árin 1222–1224, sbr. III, árið 1225.

Björn,[1]) með brjef Pjeturs erkibiskups. Guðmundur biskup hafði borið sakir á Magnús biskup, og var embættið tekið af honum og honum stefnt utan. Einnig stefndi erkibiskup utan Þorvaldi Gissurarsyni, bróður biskups, Sighvati Sturlusyni og Sturlu Sighvatssyni.[2])

Eptir Grímseyjarför gerðu þeir feðgar Sighvatur og Sturla Aron Hjörleifsson sekan skógarmann (1222). Hann fór síðan huldu höfði. Vorið 1225 fór hann suður um land og sótti heim Harald Sæmundarson og bræður hans Vilhjálm og Philippus. Þeir komu Aroni í skip til Noregs. Þar hitti hann í Niðarósi Guðmund biskup og Hjörleif föður sinn, og fekk hirðvist hjá Skúla jarli. Aron hafði í nauðum sínum heitið Jórsalaferð, en er Skúli jarl vildi eigi gefa honum orlof frá sjer, fór hann í óleyfi (1227), og fekk hann sjer íslenskan fylgdarmann, er Eyjólfur hjet. Þeir komu til Jórsala og könnuðu þá staði, sem þeir vildu, og komu aptur til Noregs. Hittu þeir Hákon konung í Víkinni, og gjörði hann Aron nokkru siðar hirðmann sinn. Konungur fekk honum gott kvonfang og var hann síðan lengstum með konungi til dauðadags (líklega 1256)[3]).

Þórir hinn þrænski erkibiskup (1227—1230) stefndi 1228 utan Magnúsi biskupi, Sighvati Sturlusyni og Sturlu syni hans. Magnús biskup fór utan árið eptir og mun hafa verið í Björgyn um veturinn (1229—1230); þaðan fór hann sumarið eptir til Þrándheims. Af því að erkibiskup andaðist um það leyti, gerðu kórsbræður um mál Magnúss biskups. Þeir stefndu Guðmundi biskupi utan, og var hann þá um sjötugt; en er hann kom eigi til Noregs, tók hinn nýi erkibiskup Sigurður embætti af Guðmundi biskupi, og kom Magnús biskup með það brjef til Íslands 1232. Hann kom þá út á Gásum.[4])

Ari Oddvakursson, Sigurður Ólafsson og Guðmundur Árnason drápu Jón prest Þorleifsson krók (1229), og fóru þeir utan sumarið eptir (1230).[5])

---

[1]) Um hann, sjá Tímarit Bókmfjel. 1899, bls. 136—37. [2]) Guðm. s. Arngr., Bps. II, 121—27; Sturl. I, 382; Guðm. s., Bps. I, 546, 589, 590; II, 131; Ann. I, III, IV, V. Ketill prestur mun vera sami maður sem Ketill prestur Oddsson, er nefndur er með Guðmundi biskupi 1232, Bps. I, 550. [3]) Sturl. I, 379; Guðm. s., Bps. I, 540, 544; As., Sturl² II, 330, 339—41. [4]) Sturl. I, 412, 415, 460; Guðm. s., Bps. I, 548, 550—51; Ann. I, III, IV, V. [5]) Sturl. I, 417, 419.

Eptir brennu Þorvalds Snorrasonar 6. ágúst 1228 urðu Hrafnssynir sekir á alþingi 1229, og líklega þeir fimm menn, sem höfðu verið með þeim að brennunni.[1]) Sumarið 1231 tók Sighvatur Sturluson tveimur sonum Hrafns, Einari og Grími, far með skipi að Gásum, og voru þeir við skip uns það ljet út. En skip þetta varð apturreka undir Grímsey, og er þeir komu að eynni, skutu þeir út báti; hlupu þeir bræður og förunautar þeirra allir í hann, nema Guðmundur Ólafsson og nokkrir Austmenn; en báturinn týndist, en skipið hjelst.[2])

Sturla Sighvatsson fór utan 1233 af Gásum og nokkrir menn með honum; var Þórður Guðmundarson, fylgdarmaður Sturlu, einn þeirra. Þeim feðgum, Sighvati og Sturlu, hafði verið stefnt utan optar en einu sinni, síðast af Sigurði erkibiskupi haustið áður, út af málum þeirra Guðmundar biskups. Sturla fór því fyrir þá feðga báða, og skyldi leysa mál þeirra beggja. Þeir urðu síðbúnir, og tóku Noreg fyrir norðan Stað og hjeldu til Borgundar. Sturla fór suður til Björgynjar á fund Hákonar konungs og var þar um hríð. Einn maður íslenskur er þar nefndur á skipinu, Húnbogi, frændi Arons Hjörleifssonar. Skipið mun hafa verið norskt, og Sturla tekið far í því fyrir sig og sína menn. Um veturinn rjeðst Sturla til suðurferðar, fór til Danmerkur og fann Valdimar konung hinn gamla. Hann gaf Sturlu góðan hest og fleiri gjafir. Þá fór Sturla suður í Þýskaland og fann þar Pál biskup af Hamri; urðu þeir samferða suður í Róm, og flutti biskup mál hans, er þeir komu til páfafundar. Sturla fekk lausn allra sinna mála í Rómaborg og föður síns, og tók þar stórar skriptir. Hann var leiddur á milli allra kirkna í Rómaborg og ráðið fyrir flestum höfuðkirkjum, segir sagan. Þeir Páll biskup urðu samferða aptur til Noregs. Sturla fann þar Hákon konung í Túnsbergi, og tók hann mjög vel við honum. Var Sturla með honum um veturinn (1234—1235), og bað konungur hann þá vinna Ísland undir sig; tók Sturla því vel. Hann kom út að Gásum sumarið 1235.[3])

---

[1]) Sbr. Sturl. I, 395. Guðmundur Ólafsson, sem nefndur er á kaupskipinu við Grímsey, var með Hrafnssonum að brennunni, og síðar veginn fyrir það. [2]) Sturl. I, 423, 426; Guðm. s., Bps. I, 553, 551; Ann. I, III, IV, V. [3]) Sturl. I, 446, 448, 450—51, 478—79; Guðm. s., Bps. I. 550—51, 554—55; As., Sturl.[2] II, 341—42; Fms. IX, 435; Eirsp. 341—42; Frís. 483—84; Flat. III, 109—110; Ann. I, III, IV, V.

Jón Kráksson, bóndi á Egilsstöðum, vá Vigfús Kálfsson fyrir það, að hann hafði rænt hann mat (1233). Jón fór síðan norður um land, og kom Sighvatur Sturluson honum utan.[1])

Skálp-Bjarni og Böðvar, heimamenn á Flugumýri, unnu á Guðmundi Ásbjarnarsyni, fylgdarmanni Kolbeins unga, 1237, og flýðu austur í fjörðu. Þar kom Þórarinn Jónsson þeim utan.[2])

Eptir bardagann í Bæ 28. apríl 1237 neyddi Sturla Sighvatsson Þorleif Þórðarson í Görðum og Ólaf hvítaskáld Þórðarson og enn fleiri menn, er voru þar, til þess að fara til Noregs. Þeir fóru utan á Eyrum á sama skipi sem Snorri Sturluson, og varð Þorleifur honum samferða aptur til Íslands 1239, eins og fyr er sagt. Ólafur hvítaskáld varð þá eptir í Noregi og fór hann til Hákonar konungs nokkru síðar, en hve nær það var, er eigi kunnugt; hins vegar má sjá, að hann var hjá konungi í mars 1240, og var hann þá í Þrándheimi.[3]) Um sumarið mun Ólafur hafa farið til Danmerkur og þar var hann með Valdimar konungi öðrum, »gamla« eða »sigur«, sem hann var kallaður, og »nam at honum marga fræði, ok hafði hann margar ágætligar frásagnir frá honum«.[4]) Valdimar konungur andaðist 28. mars 1241. Eptir það hefur Ólafur dvalið skamman tíma í Danmörku, og mun hann þá að líkindum hafa farið til Svíþjóðar, því að þar heimsótti hann Eirík konung Eiríksson († 1250) og orti um hann. Þó er óvíst hve nær það var, en það hefur varla verið fyr en 1239, og líklega eigi fyr en 1241, er Ólafur hafði fengið enn meiri reynslu um það, hve gott var að heimsækja góða konunga. Ólafur orti á utanferð sinni um eigi færri höfðingja en sex (Hákon konung, Hákon unga son hans, Skúla hertoga og Knút jarl Hákonarson í Noregi, og svo Danakonung og Svíakonung). Af heimferð Ólafs segir ekki, en hann hefur líklega komið út 1242 eða 1243.[5])

Teitur Styrmisson, dótturson Sighvats Sturlusonar, komst burt úr Örlygsstaðabardaga og ljet móðir hans hann

---

[1]) Sturl. I, 449. [2]) Sturl. I, 488. [3]) Fms. IX, 494; Fris. 507. [4]) Knyt., Fms. XI, 396, sbr. Den 3. og 4. grammatiske afhandling i Snorra edda. Udg. af B. M. Ólsen Kbh. 1884. Bls. 6, 45. [5]) Sturl. I, 498, 500, 540—41, II, 143 sbr. 263; Fms. IX, 436, 453; Eirsp. 342, 352; Fris. 484, 490; Flat. III, 110, 119; Ann. I, III, IV, V; Skt.

fara utan um haustið í Eyjafirði; kom skipið við Orkneyjar, og var hann þar um veturinn og fór þaðan út aptur sumarið eptir.[1])

Eptir fundinn við Hvítárbrú gerði Kolbeinn Arnórsson utan Órækju Snorrason, Sturlu Þórðarson og Dufgússonu; skyldu þeir vera utan þrjá vetur. Kolbeinn tók Órækju og ljet hann fara utan í Eyjafirði þá um sumarið (1242). Svarthöfði og Kolbeinn Dufgússynir tóku sjer far með Þorfinni og Arnbirni salteyðu eins og fyr er sagt, en urðu apturreka. Sturlu Þórðarson leystu út frá utanferð vinir hans og vandamenn. Órækja kom eigi aptur til Íslands; hann andaðist í Noregi 24. júní 1245.[2])

Eptir bardagann í Haugsnesi (19. apríl 1246) var komið sættum á milli þeirra Þórðar kakala og Gissurar Þorvaldssonar með því, að Hákon konungur skyldi gera með þeim við þá menn, sem hann vildi við hafa. Skyldu þeir báðir fara utan um sumarið, Þórður og Gissur. Þórður kakali fór utan í Eyjafirði og með honum Nikulás Oddsson, Þorsteinn Gunnarsson og Ingjaldur Geirmundarson.

Gissur Þorvaldsson fór utan á Eyrum og með honum Önundur biskupsfrændi, Guðmundur Þórhildarson og Þorleifur hreimur Ketilsson.

Þeir komu hvorirtveggju til Noregs um haustið (1246) og fundu Hákon konung í Björgyn og fóru með honum norður til Þrándheims og voru þar um veturinn. Um vorið 1247 fór konungur suður til Björgynjar og þeir Gissur og Þórður með honum ásamt mönnum sínum. 29. júlí eða síðasta í júlí skipaði konungur Þórð yfir alt Ísland, og fór hann út um sumarið (1247); hann tók land í Vestmannaeyjum.[3]) Fylgdarmenn Þórðar munu eðlilega hafa komið út með honum, þótt þess sje eigi getið. Nikulás Oddsson er nefndur veturinn eptir og kvongaðist hann þá Gyðu Sölmundardóttur í Reykholti. Þá er Þórður fór utan 1250, er þess getið um Nikulás, að hann var hirðmaður Hákonar konungs og í góðri virðingu með honum. Hann hefur orðið hirðmaður í þessari

---

[1]) Sturl. I, 534. [2]) Sturl. I, 574—75, II, 1, 4; Fms. X, 3—4; Eirsp. 398; Frís. 525; Flat. III, 164; Ann. I, III, IV, V. [3]) Sturl. II, 99—103, sbr. 158; Fms. X, 8. 23—24; Eirsp. 400, 409; Frís. 526, 533; Flat. III, 165—66, 172; Ann. I, III, IV, V.

ferð, nema því að eins hann hafi farið utan áður en hann gerðist fylgdarmaður Hálfdanar Sæmundarsonar og Þórðar kakala.[1])

Konungur hjelt Gissuri eptir í Noregi og skipaði honum sýslu norður í Þrándheimi, en hann undi lítt hag sínum og hann skorti fje. Hann rjeð það þá af, að hann fór af landi brott og gekk suður til Róms og með honum Broddi Þorleifsson, bóndi að Hofi á Höfðaströnd, er þá var í Noregi, Önundur biskupsfrændi, Þorleifur hreimur, Auðun kollur og Árni beiskur. Þeir komu allir heilir aptur til Noregs líklega árið 1248.[2]) Gissur fekk af páfa lausn allra sinna mála. 1251 skipaði konungur Gissur yfir allan Norðlendingafjórðung fyrir vestan Vaðlaheiði, og ætlaði hann þá til Íslands ásamt Þorgilsi skarða og Heinreki biskupi, en skip það, sem þeir voru á, varð apturreka til Noregs og braut. Þeir voru í Þrándheimi um veturinn. Sumarið eptir (1252) fóru þeir Gissur til Íslands á skipi Eysteins hvíta og margt íslenskra manna.[3])

Árið 1249 fór Þórður kakali suður á Rangárvelli, og neyddi þá bræður Harald Sæmundarson í Odda og Philippus, bróður hans, að Hvoli til þess að fara utan um sumarið á fund Noregs konungs. Einnig rak hann þá Orm Bjarnarson á Breiðabólstað utan, og mun hann hafa gjört það í sömu ferðinni. Ormur andaðist árið eptir í Noregi, og segir ekki nánar af utanferð hans. Sæmundarsynir gáfu upp goðorð sín í vald Hákonar konungs, og voru með honum í tvo vetur. Konungur gaf þeim þá orlof til Íslands,

---

[1]) Sturl. II, 118, 160, 9. [2]) Í Konungsannál og Skálholtsannál segir, að Gissur Þorvaldsson færi 1247 til páfa; ef það er rjett, hefur hann lagt af stað þá um haustið, er Þórður var farinn til Íslands. Í Sturl. II, 132 segir, að Gissur fengi orlof af Hákoni konungi, að fara til Íslands, er hann hafði þrjá vetur verið í Noregi eptir það, er hann kom úr Rómaferð sinni. Eptir því hefði það átt að vera 1249, því að í Sturlungu er þess ekki getið, að Gissur fekk orlof 1251 og varð þá apturreka. En ef til vill hefur það geymst rjett í sögusögninni, að þrír vetur hafi liðið frá apturkomu Gissurar að sunnan í Noreg og til orlofs hans til Íslands, svo að telja eigi frá 1251, og setja eigi suðurgöngu hans 1247—1248 eða jafnvel 1248. Það fellur einnig vel við áratalið í æfi Gissurar síðar í Sturlungu, II, 302. [3]) Sturl. II, 132—133, 150, sbr. 302; Fms. X, 45, 51; Frís. 541, 543-44; Eirsp. 421, 424; Flat. III, 182, 185; Ann. I, III, IV, V.

og »fekk þeim aptur ríki sitt og kvaðst skyldu auka sæmd þeirra«. Þeir fóru í skip með Kolbeini svarta og Skeggja hvíta, en druknuðu fyrir Minnþakseyri 25. septbr. 1251.[1])

Þórður kakali Sighvatsson fekk utanstefnu frá Hákoni konungi 1249, og fór því utan sumarið eptir. Konungur hjelt honum hjá sjer, og leyfði honum eigi að fara til Íslands, en fekk honum sýslu í Gaulardal og síðar á Skíðu austur í Víkinni. Þá er Gissur fór til Íslands 1252, sendi Þórður þangað Kolbein grön Dufgússon með erindi sín til vina sinna, og Ara Ingimundarson að sögn Sturlungu. (sjá bls. 866). Þótti Kolbeinn ekki mikill mannasættir, er hann kom til Íslands, segir Sturla Þórðarson.

Haustið 1256 ljet konungur Þórð vita, að hann ætlaði að gefa honum orlof til Íslands og gera hann þar mestan mann, en litlu síðar andaðist Þórður, 11. oktbr. 1256.[2])

Jón karl Ögmundarson var eptir dráp Sæmundar og Guðmundar Ormssona gerður af landi brott, og skyldi vera utan þrjá vetur og ganga suður, en þeir Árni gullskeggur og Þorsteinn hrakauga skyldu fara utan og eigi eiga apturkvæmt. Jón og Þorsteinn fóru utan á sama skipi og ætluðu að ganga suður. Jón dó áður en hann fengi það framkvæmt, og Þorsteinn settist þá aptur. Árni fór utan á skipi Sindra og ljest þar.[3])

Benedikt Hesthöfðason vá Ásgrím prest Illugason 18. maí 1252. Sumarið eptir ætlaði hann utan til umbótar og suðurgöngu, en druknaði með Eysteini hvíta 20. septbr. 1253.[4])

Gissur Þorvaldsson fekk um alþingi eða fyrra hluta sumars 1254 utanstefnu frá Hákoni konungi; hertu þá báðir biskuparnir, sem voru norskir, að Gissuri, svo að hann rjeðst þegar utan á Eyrum og með honum Þorleifur hreimur og fleiri menn; voru margir íslenskir menn á skipinu. Þeir komu til Björgynjar, og var þar fyrir Þórður kakali. Hákon konungur var þá austur í Túnsbergi; stje þá Gissur í byrðing einn og fór austur til konungs. Nokkru síðar fór Þórður austur til Túnsbergs. Hann bað þá konung um að láta Giss-

---

[1]) Sturl. II, 117, 118. 131; Fms. X, 42, 45; Frís. 540, 541; Eirsp. 419, 421; Flat. III, 181, 182; Ann. I, III, IV, V. [2]) Sturl. II, 117—18, 120, 300—301; Fms. X, 42, 45, 51, 60, 65; Frís. 540, 541, 544, 547—48, 549; Eirsp. 419, 424, 429—30, 432; Flat. III, 180, 181, 182, 185, 189—90, 191; Ann. I, III, IV, V. [3]) Sturl. II, 130. [4]) Sturl. II, 188.

ur fara í burtu, og segir eigi örvænt, að vandræði aukist af, ef þeir væri í einum kaupstað báðir. Konungur kvað þess enga von, og spurði Þórð, hvort hann vildi eigi vera í himnaríki, ef Gissur væri þar. »Vera gjarna, herra«, sagði Þórður, »ok væri þó langt í milli okkar.«

Gissur sat nú í Noregi þangað til sumarið 1258. Konungur gaf honum þá jarlsnafn og skipaði honum allan Sunnlendingafjórðung, Norðlendingafjórðung og allan Borgarfjörð; einnig gaf hann honum stórgjafir, en Gissur hjet konungi að friða Ísland og láta alla bændur gjalda honum skatt. Gissur kom út á Eyrum, og segir ekki hver átti skip það, er hann fór á; er eigi ólíklegt að konungur hafi gert út kaupskip til Íslands og fengið honum þar far.[1])

Þá er sætst var á víg Þorgils skarða, voru allir þeir menn, sem sannir urðu að áverkum við hann eða viðgöngu, gerðir utan og skyldu vera utan þrjá vetur eða gjalda tíu hundruð fyrir hvern. Jón usti, sem þeir kendu vígið, skyldi aldrei koma út aptur. Þorvarður Þórarinsson, sem í raun rjettri var banamaður Þorgils, var eigi gerður af landi burt, af því að hann lýsti því yfir, að hann ætlaði utan, áður þrír vetur væri liðnir. Hann fór og utan tveim vetrum síðar með Hallvarði gullskó,[2]) en af utanferð hinna segir ekki.

Einar erkibiskup kallaði Brand Jónsson ábóta til sín, og fór hann utan 1262 og með honum Árni Þorláksson, sem síðar varð biskup, en þá var messudjákn. Erkibiskup kaus Brand til biskups með samþykki kórsbræðra og vígði hann til Hóla. Árið eptir komu þeir Brandur út.[3])

Sturla Þórðarson fór utan á Eyrum 1263, neyddur til þess af Hrafni Oddssyni. Konungur tók honum þunglega í fyrstu, en blíðkaðist þó bráðlega. Sturla mun hafa komið út aptur 1265.[4])

---

[1]) Sturl. II, 217, 222, 223, 300, 301–302, 303; Fms. X, 59–60, 93; Frís. 547–48, 559; Eirsp. 429, 447; Flat. III, 189, 205; Ann. I, III, IV, V. [2]) Sturl. II, 307, sbr. 297; Fms. X, 157; Ann. III, IV, V. [3]) Árna bps. s., Bps. I. 681; Fms. X, 116, 118; Frís. 569; Eirsp. 462–63; Flat. III, 216–217; Ann. III, IV, V. [4]) Sturl. II, 324–27; Ann. III, IV; sbr. Safn I, 582, og Munch, Hist. V, 620, sem þó segja þar rangt frá öðru um útkomu Sturlu en ártalinu.

## VI. Enn ýmsar utanferðir Íslendinga.

Hjer verða nú sem fyr taldar utanferðir þeirra Íslendinga, sem eigi er hægt að skipa með vissu undir neinn flokk hjer að framan. Að vísu mætti telja marga af þeim mönnum, sem hjer verða nefndir, í fjórðu greininni, því ef þess er gætt, í hvaða horf siglingarnar til landsins voru komnar í byrjun 13. aldar, segir það sig sjálft, að flestir þessara manna hafa tekið sjer far, þótt það sje hvergi sagt í heimildarritunum. Utanför sumra þeirra er að eins nefnd í annálum og með sem fæstum orðum.

Magnús Gissurarson fór utan 1202 og kom út aptur árið eptir. Hann fór til Róms í þeirri ferð.[1])

Kolskeggur, íslenskur maður, fjell aðfaranótt hins 23. apríl 1206 í Niðarósi fyrir Birkibeinum. Baglar höfðu ráðist á þá á næturþeli og var Kolskeggur með þeim.[2]) Hve nær hann fór af Íslandi, segir hvergi.

Magnús Markússon af Rauðasandi fór til Grænlands um 1206 og kom ekki til Íslands aptur.[3])

Klængur Þorvaldsson, Gissurarsonar, mun hafa farið utan 1209. Hann andaðist erlendis 1210. Klængur var messudjákn að vígslu. Hans getur í september 1208 í liði Þorvalds föður síns, er hann var á leið móts við Kolbein Tumason. Þorvaldur frjetti þá fall hans, og ljet til hefnda taka Snorra Grímsson frænda Guðmundar biskups. Klængur hjó hann banahögg. Er líklegt að hann hafi farið utan sökum þess, þótt eigi sje þess getið. Klængur þótti höfðingjaefni.[4])

Björn, norðlenskur prestur, fóstri Brands biskups, fór utan 1209 eða litlu síðar. Hann gekk í klaustur í Niðarhólmi. 1226 kom hann út með brjefum Pjeturs erkibiskups sem fyr er sagt, og var hann kallaður Rita-Björn. Þess er eigi getið, hve nær hann fór utan aptur, en líklega hefur það verið árið eptir. 1232 varð hann ábóti í Niðarhólmsklaustri. Hann andaðist 1244.[5])

---

[1]) Guðm. s., Bps. I, 481, 486; Ann. IV. [2]) Fms. IX, 26; Eirsp. 218. [3]) Sturl. I, 301; Hs., Sturl.[2] II, 296. [4]) Guðm. s., Bps. I, 495; Páls s., Bps. I, 144; Ann. IV, V. [5]) Páls s., Bps. I, 140, 142; Guðm. s., Bps. I, 546; Fms. X, 6; á ábótaárum sínum kemur Björn við sögu Noregs og er nefndur nokkrum sinnum í sögu Hákonar konungs Hákonarsonar. Ann. IV, V, sbr. Dipl. I, 524—30.

Um 1209 fór Loptur Pálsson biskups utan, og sótti heim tigna menn í öðrum löndum, Bjarna biskup í Orkneyjum, og síðan Inga konung í Noregi og Hákon jarl, bróður hans, og þá af þeim virðulegar gjafir. Loptur kom út eptir eitt ár eða jafnvel tvö.[1])

Sörli Teitsson fór utan 1211, og virðist hann hafa verið samferða Jóni Sigmundarsyni. Hann andaðist erlendis árið eptir eins og Jón.[2])

Bergur Gunnsteinsson, prestur, fór utan að sögn annála 1212, en svo er að sjá af þeim sem hann hafi orðið samferða Arnóri Tumasyni; ef það er rjett, hefur hann farið utan 1213.[3])

Magnús Gissurarson var kosinn biskup 1215 og fór utan. Hann var vígður í Noregi árið eptir og kom þá út um sumarið.[4])

Páll Sæmundarson í Odda fór utan, til Björgynjar. Þar gerðu bæjarmenn spott að honum til hefnda við föður hans, af því að hann hafði árið áður á Íslandi lagt verð á vörur nokkurra kaupmanna frá Björgyn. Páll rjeð sig því í byrðing, er ætlaði norður til Þrándheims á fund Inga konungs. En byrðingurinn týndist fyrir Stað og hvert mannsbarn, er á var. Þetta var 1216.[5])

Helgi Gilsson, föðurbróðir Arons Hjörleifssonar, fór utan 1219.[6])

Guðmundur Oddsson skáld var með Skúla jarli 1219—1220, þá er hann ráðgerði að herja skyldi til Íslands. Guðmundur kvað þá vísu, og segir þar »mér byrjar eigi at herja á órar ættleifðir«. Sýnir hún hugarfar hans til Íslands. Af útkomu Guðmundar segir ekki, en vorið 1222 er hans getið í för með Sturlu Sighvatssyni.[7])

Snorri Sturluson sendi utan Jón murt son sinn í gislingu með Skúla jarli (1221). Jón var þá 17 vetra og fór með honum Árni óreiða Magnússon, mágur hans. Árni fór frá Skúla til Hákonar konungs, því að hann var hirðmaður

[1]) Páls s., Bps. I, 143. [2]) Ann. IV, V, IX, sbr. VIII. [3]) Ann. IV, V, VIII. [4]) Guðm. s., Bps. I, 507; Ann. I, III, IV, V. [5]) Sturl. I, 328—29; Fms. IX, 276; Frís. 410; Eirsp. 265; Flat. III, 28. Ann. I, III, IV, V. [6]) As., Sturl.[2] II, 313; Bps. I, 620. [7]) Sturl. I, 339, 356; Guðm. s., Bps. I, 523; Fms. IX, 294; Frís. 419; Eirsp. 274; Flat. III, 37.

hans og konungur var honum mjög vinveittur. Jón murtur og Árni komu út í Hvítá 1224.[1])

Arnór Tumason fór utan 1221 eins og fyr er sagt, og með honum Ásdís Sigmundardóttir, kona hans, og börn hans tvö, Kolbeinn, er var 12 eða 13 vetra, og Arnbjörg, sex vetra. Arnór andaðist að jólum veturinn eptir, en ekkja hans og börn komu út í Hvítá þremur árum síðar (1224).[2])

Á þessu sama skipi kom út í Hvítá Játgeir skáld og Kygri-Björn, sem fyr er nefndur, og margir aðrir íslenskir menn. Játgeir skáld Torfason orti um Inga konung Bárðarson († 1217), og hefur því farið utan á meðan hann var konungur eða eigi síðar en sumarið 1216. Hans getur annars fyrst 1222 og var hann þá með Skúla jarli. Hve lengi Játgeir var eptir 1224 á Íslandi, segir ekki. Þá er hans getur aptur 1236, er hann í Noregi, gislaður Hákoni konungi af hendi Skúla jarls ásamt Ásólfi jarlsfrænda. Sýnir það, hve mikilsverður maður Játgeir hefur verið. Hann var trúnaðarmaður Skúla hertoga og sendi hann Játgeir til Svíþjóðar með brjef og gjafir til ýmsra manna. En Hákon konungur spurði það, og gerði menn á eptir honum. Komst Játgeir með naumindum undan, en ljet farangur sinn allan og flýði til Danmerkur. Þar var hann drepinn í Kaupmannahöfn af Bjarna Móísessyni, manni Hákonar konungs, 1240.[3])

Af þessari utanferð Kygri-Bjarnar segir ekki, en líklega hefur hún staðið í einhverju sambandi við kirkjuleg málefni, eða að hann hefur verið erlendis að leita sjer mentunar. Síðar var hann kosinn biskup, eins og þegar er getið.

Við máldagagerð um ostatoll til Viðeyjarklausturs um 1226 var einn vottur, sem hjet Jórsala-Björn. Bendir auknefni það á, að Björn sá hafi farið til Jórsala, og hefur það að líkindum verið einhvern tíma á fyrsta fjórðungi 13. aldar.[4])

Andreas Þorsteinsson, bróðurson Sæmundar í Odda, var í bardaganum á Breiðabólsstað 17. júní 1221, og mun

[1]) Sturl. I, 340, 350, 373; Fms. IX, 296; Fris 420; Eirsp. 275; Flat. III, 38. [2]) Sturl. I, 351, 373, 382; Guðm. s., Bps. I, 545; Ann. IV, V. [3]) Sturl. I, 373; Fms. IX, 321—22, 447, 473, 487—88, X, 2; Eirsp. 286, 347, 362, 369, 397; Frís. 432, 488, 505, 524; Flat. III, 51, 116, 122, 130, 137, 163; Skt. [4]) Dipl. I, 496.

hafa verið gerður utan eins og frændur hans, þótt þess sje eigi getið. Hans getur i Noregi 1224, og hafði hann verið með Guðmundi biskupi Arasyni. Skúli jarl ljet þá taka hann og hengja, af því að hann sagði eigi til Sigurðar ribbungs, en jarl hugði hann vita hvar hann leyndist.[1])

Hjörleifur Gilsson fór til Noregs líklega sumarið 1225, því að þar er hans getið haustið 1225 í Þrándheimi, en haustið 1224 og fram á vetur var hann á Íslandi, að því er virðist. Sumarið eptir fór hann til Íslands, »og var sú ferð með mörgum háska og fáheyrðum atburðum«. Skipið braut við Ísland og ljet hann þar líf sitt og margir aðrir vaskir menn.[2])

Eyjólfur nokkur, íslenskur maður, var i Noregi 1227. Hann fór með Aroni Hjörleifssyni til Jórsala sem fyr segir.[3])

Gissur Þorvaldsson fór utan á Eyrum 1229. Segir ekki af ferð hans fyr en veturinn 1230—1231. Þá var hann i Björgyn, og hafði herbergi i biskupsgarði með mági sínum Jóni Snorrasyni murt; sváfu i herbergi hjá þeim þjónustumenn þeirra, Símon knútur og Valgarður Guðmundarson. Gissur var þá orðinn skutilsveinn konungs og eflaust hirðmaður. Um 13. janúar 1231 vildi það til i ölæði, að Jón murtur fekk sár eigi mikið í höfuðið, og beið hann bana af því viku síðar, enda gætti hann sín ekki. Gissur fór til Íslands sumarið eptir og þjónustumenn þeirra Jóns. Þeir komu út á Eyrum (1231).[4])

Sá maður, sem særði Jón murt, var íslenskur, Ólafur svartaskáld, sonur Lepps prests. Hann var fjelaus og var kominn á kost Jóns, líklega snemma veturs 1230. Hve nær Ólafur kom til Noregs segir ekki, og eigi heldur hvað af honum varð eptir áverkann við Jón. Ólafur orti kvæði um Hákon konung.[5])

Hjalti Magnússon biskups fór utan, því að um útkomu hans er getið 1231; er líklegt að hann hafi farið með föður sínum 1229.[6])

Brandur Jónsson, síðar ábóti og biskup, hefur einn-

---

[1]) Fms. IX, 342; Eirsp. 297; Frís. 441—42; Flat. III, 62; sbr. Sturl. I, 343, 346, 349. [2]) As., Sturl.² II, 339—40, Bps. I, 630—31; Sturl. I, 378; Ann. I (1227). [3]) As., Sturl.² II, 340. [4]) Sturl. I, 412, 422—23, 426; Guðm. s., Bps. I, 548, 551, 553; Ann. III, IV, V. [5]) Sturl. I, 422—23; Skt. [6]) Guðm. s., Bps. I, 551.

ig farið utan um það leyti, því um útkomu hans er getið 1231.[1])

Guðmundur hvíti Árnason mun hafa komið út sumarið 1234. Hann var það haust flettur klæðum í Haukadal af Maga-Birni »og öllu öðru því, er hann hafði út haft«.[2])

Þórarinn, íslenskur maður og frændi Arons Hjörleifssonar, var í Noregi 1234 og tók þátt í hestaati í Björgyn.[3])

Kolbeinn ungi Arnórsson fór utan 1235 og með honum Þórólfur Bjarnason, Þórður þumli og Sigurður Eldjárnsson. Allir þessir menn höfðu verið með Kolbeini að vígi Kálfs Guttormssonar og Guttorms sonar hans í Miklabæ 21. febr. 1234, og er líklegt að þeir hafi farið utan til þess að fá lausn fyrir það, því að þeir rjeðu allir til Rómaferðar um veturinn, og riðu suður og sunnan. Kolbeinn fann Hákon konung í Björgyn, og tók hann Kolbeini vel, en ekki gerðist hann handgenginn, enda var hann skamma hríð í Noregi og kom út árið eptir (1236) á Eyrum, og fjelagar hans.[4])

Þórarinn Jónsson, höfðingi á Austurlandi, hálfbróðir Orms Svínfellings og Brands biskups, fór utan 1237. Hann andaðist 1239, líklega í Noregi.[5])

Bárður Hjörleifsson, bróðir Arons, var í Noregi 1238 og 1239, og ef til vill lengur.[6])

Jón Sturluson, Sighvatssonar, fór utan 1239, árið eptir fall föður síns, og með honum Þórarinn Sveinsson. Sumarið eptir fór móðir hans Solveig Sæmundardóttir og dætur hennar báðar til Noregs. Af ferð hennar segir ekkert nje sonar hennar, nema að þau komu út 1242, eins og fyr er sagt; en það má nærri geta að fall manns hennar hefur valdið utanferð hennar, og að líklegt er, að hún hafi ætlað að leita liðs hjá konungi eða einhverrar uppreistar.[7])

Snemma á árinu 1240 er nefndur íslenskur prestur með mönnum Skúla hertoga.[8])

Jórsala-Bjarni, mágur Skeggja úr Alviðru, var einn af þeim mönnum, sem komu af Vestfjörðum 1242, til að leita vináttu við Kolbein Arnórsson. Auknefni hans bendir á, að

---

[1]) S. st.; Ann. IV (rangt talin 1232). [2]) Sturl I, 472. [3]) As., Sturl.[2] II, 342—43. [4]) Sturl. I, 476, 486, 538; Ann. I, III, IV, V. [5]) Ann. IV, V. [6]) As., Sturl.[2] II, 343—44. [7]) Sturl. I, 543. [8]) Eirsp. 361; í Flat. III, 129 er sagt »íslenskur maður«, en ekki prestur.

hann hafi verið einn af þeim mönnum, sem fóru til Jórsala, en annars er ekkert um hann kunnugt.[1])

Hjer má og nefna tvo Íslendinga, sem að líkindum hafa farið utan um 1240 og komið út 1242 með Jóni lindiás. Þeir hjetu Styrkár Einarsson og Þorbjörn skakkur. Þá er menn Kolbeins unga, sem sendir voru Þórði kakala til höfuðs, komu til Gása, voru þeir við skip. Þá er þeir fundu eigi Þórð, ætluðu þeir til hefnda að fóthöggva einn Austmann af skipinu, sem var vinur Þórðar; en er þeir sannfærðust um að hann var saklaus, tóku þeir öll vopn, er kaupmenn áttu, og rænlu þessa tvo íslensku menn til 30 hundraða.[2])

Gissur Þorvaldsson rjeðst til utanferðar sunnanlands 1242 útaf vígi Snorra Sturlusonar. Hann kom út í júní mánuði 1244 suður á Eyrum.[3])

Gunnar, íslenskur maður, skáldmæltur, var með Brynjólfi Jónssyni, bónda að Hváli í Sogni, veturinn 1244—1245.[4])

Svarthöfði Dufgússon fór utan 1245 í Hvítá með vöru þá, er Kolbeinn ungi hafði fengið Þórði kakala til fararefna. Svarthöfði var um veturinn í Noregi, en fór til Íslands sumarið eptir, og flutti þá út með sjer mikið vín, er hann keypti fyrir vöru Þórðar. Svarthöfði kom þá út í Vestmannaeyjum.[5])

Jörundur gestur er nefndur í liði Þorvarðs Þórarinssonar 1255—1258 og barðist með honum á Þveráreyrum, en vildi eigi vinna níðingsverk á Þorgilsi skarða. Jörundur hafði verið í Noregi og gerst maður Hákonar konungs Hákonarsonar, ef til vill gestur hans, og haft löguneyti við Þorgils skarða. Það hefur því verið um 1250 eða litlu fyr.[6])

Aron Hjörleifsson fór til Íslands, líklega 1247 með Þórði kakala. Hans er getið í Noregi 1245, en á Íslandi 1249 og var þann þá í ferð með Þórði. Hann var þá búsettur í Noregi, og fór heim til sín annaðhvort síðla sumars 1249 eða líklega árið eptir með Þórði kakala.[7])

Aron fór aptur til Íslands 1252 og kom þá út á skipi Eysteins hvíta, með Heinreki biskupi og var með honum vet-

---

[1]) Sturl. I, 575. [2]) Sturl. II, 7. [3]) Sturl. I, 575, II, 1, 65; Fms. X, 5; Eírsp. 399; Frís. 525; Flat. III, 164—65; Ann. III, IV, V. [4]) Sturl. II, 141. [5]) Sturl. II, 83, 85, 103. [6]) Sturl. II, 296, sbr. 252, 269. [7]) Sturl. II, 117, 141—143; As., Sturl.[2] II, 346.

urinn 1252—1253. Um sumarið ætlaði hann utan með Eysteini, en lenti í skipbroti. Aron var þá annan vetur með Heinreki biskupi; síðan sættist hann við óvini sína og fór til Noregs sumarið 1255. Þar andaðist hann nokkru síðar, líklega 1256.[1])

Jón Sturluson fór utan 1249. Sumarið 1244 hafði hann sætst við Gissur Þorvaldsson; lögðu þeir öll mál í konungs dóm; er líklegt að það hafi valdið utanferð hans. Jóns getur í Noregi 1250 og 1251; var hann þá einn af þeim Íslendingum, sem voru eptir í Noregi. Af útkomu hans segir ekki, og hefur hann eigi komið fyr heim en 1252, ef hann hefur fengið að fara til Íslands. Hann andaðist 8. apríl 1254.[2])

Ari Ingimundarson var á skipi því, sem leysti sundur fyrir Minnþakseyri 25. septbr. 1251. Hann komst á skipsflak og þrír menn aðrir, og var þeim bjargað eptir 13 dægur af fiskimönnum úr Vestmannaeyjum. Ari var á heimleið úr Noregi, þá er þetta var, og hefur hann líklega farið utan með Þórði kakala 1250, þótt þess sje eigi getið. Hann gekk í lið með Þórði 18 vetra gamall og barðist með honum fáum dögum síðar á Húnaflóa (25. júní 1244). Vorið 1252 mun Ari hafa farið utan aptur, ef það er rjett, sem í Sturlungu segir, að Þórður kakali hafi sent hann 1252 út til Íslands með Kolbeini grön til vina sinna. Í sögu Hákonar konungs er getið um sendiferð Kolbeins, en Ari er þar eigi nefndur. 1251 sendi konungur út Gissur Þorvaldsson, Þorgils skarða og Heinrek biskup, en þeir urðu apturreka til Noregs. Mun þá Þórður hafa sent út Ara á skipi Kolbeins svarta, og má því vera að sendiferðum þessum sje blandað saman í Sturlungu, en um það verður ekki sagt með vissu. 1252 kom Kolbeinn grön út eins og fyr er sagt, og Ari einnig að sögn Sturlungu. Þeir komu út á Eyrum, og ráku erindi Þórðar af miklu kappi. Sumarið eptir (1253) ætlaði Ari til Noregs með Eysteini hvíta, en hann braut skip sitt fyrir Flateyjardal. Ari komst af; er svo að sjá af Arons sögu sem Aron hafi bjargað honum og Þorgeiri káta. Loks tók Ari sjer far á Hólm-

---

[1]) Sturl. II, 167, 169—70, 185, 188; As., Sturl.[2] II, 346—47. [2]) Sturl. II, 105, 221, sbr. 81; Fms. X, 42, 45; Fris. 540, 541; Eirsp. 419; Flat. III, 181, 182; Ann. V (1249), I (1254) III, IV.

dælunni með Sindra og týndist með henni suður fyrir Mýrum 1258.[1])

Þorleifur Guðmundarson fagurdæll kom út 1253.[2])

Ásgrímur Þorsteinsson, bróðir Eyjólfs ofsa, úr Hvammi, fór utan 1259 og gekk suður á fund páfa. Síðan hjelt hann heim aptur, og fór frá Noregi með Hallvarði gullskó. Þeir komu út í Hvítá 1261. Ásgrímur fekk Einar erkibiskup í Niðarósi til þess að skipa sjer Grenjaðarstað og hafði brjef frá erkibiskupi um það.[3])

Auk allra þeirra manna, sem nú eru taldir, fóru margir Íslendingar utan, sem hvergi eru nafngreindir. Þess er nokkrum sinnum getið, þá er nafnkendir menn fóru utan, og einnig stundum er skiptjón urðu, að margt íslenskra manna hafi verið þar á skipi.[4]) Seint á 12. öld og á Sturlungaöldinni voru á sumum Íslandsförum farþegar svo tugum skipti, og flestir þeirra voru Íslendingar.

## Sjötti þáttur. Ferðir Norðmanna og annara útlendinga til Íslands.

### I. Norskir kaupmenn og kaupskip.

Ef margir íslenskir kaupmenn hefðu verið uppi á Sturlungaöldinni, hefðu einhverjir þeirra, og ekki mjög fáir, eflaust verið nefndir. Það vantar ekki að í heimildarritunum, einkum í Sturlunga sögu, sjeu nefndir kaupmenn, skipseigendur eða skipstjórar, en þeir eru útlendir, allflestir norskir. Á Sturlungaöldinni er getið um tiltölulega fleiri norska kaupmenn á Íslandi, en nokkru sinni áður.

Sumarið 1202 voru Austmenn í Eyjafirði og hjet stýrimaðurinn Bótólfur. Þeir voru þá í brautbúningi og ljetu í haf 14. júlí. Þeir hafa því komið sumarið áður til Íslands.

---

[1]) Sturl. II, 118 sbr. 62, 134 sbr. 161, 188, 299; As., Sturl.[2] II, 347; Fms. X, 51. [2]) Sturl. II, 185. [3]) Sturl. II, 312. [4]) Sturl. I, 146, 154, 373, II, 4, 132, 299.

Með þeim tók sjer far Guðmundur biskupsefni Arason. Á skipinu var ein kona, svo getið sje.[1])

Sumarið 1215 voru Austmenn á kaupskipi sunnanlands, líklega á Eyrum, því að þá lögðu þeir Sæmundur Jónsson í Odda og Þorvaldur Gissurarson lag (verð) á varning þeirra.[2]) Austmenn þessir hafa eflaust verið frá Björgyn.

Sumarið 1217 er Austmanna getið á Eyrum. Þeir voru einnig frá Björgyn, að minsta kosti sumir þeirra. Til hefnda fyrir Pál son sinn tók Sæmundur Jónsson upp »ccc hundraða« fyrir kaupmönnum þessum, því að hann kendi Björgynjarmönnum um druknun hans. Í öllum handritum af Hákonar sögu Hákonarsonar segir, að fjárupphæð þessi hafi verið »þrjú hundruð hundraða vaðmála«,[3]) og er ekki heldur efi á því, að hjer er átt við álnir vaðmála. Fje þetta hefur því verið 43200 álna virði. Alin var styttri í fornöld, og mun hjer átt við hina fornu lögalin, sem var nálega $18^4/_5$ þuml., eða nákvæmlega 18,79 þuml. = 49,143 sentmtr.[4]) Ef forn alin vaðmáls er metin á eina krónu eða 1 kr. 25 a. í vorum peningum, þá verður fjárnám þetta eptir núgildandi peningaverði um 43200 kr. eða um 54000 kr., og mun það eigi mjög fjarri sanni.[5]) Sýnir þetta að kaupmenn þessir hafa haft allmikið af vörum með sjer, ef þeir hafa goldið þetta einir, og ef eigi er átt við alt það fje, sem Sæmundur tók upp fyrir Austmönnum.

Þetta sumar (1217) kom knörr mikill í Vestmannaeyjar og hafði verið Grænlandsfar. Á honum voru tveir stýrimenn, Grímar og Sörli; hann var úr Harðangri. Sæmundur lagði gjöld á þá sem á aðra Austmenn. Sörli var um veturinn á Breiðabólstað með Ormi Jónssyni, bróður Sæmundar. Þeim Grímari þótti mjög ilt fjelátið og fór hann með marga Austmenn í Odda um vorið, en þar var margt manna fyrir, og

[1]) Hs., Sturl.² II, 290—92; Guðm. s., Bps. I, 481—85, 562—64; Sturl. I, 267—70. [2]) Ann. IV, V. [3]) Sturl. I, 329. sbr. 351; Fms. IX, 276; Eirsp. 265; Frís. 410; Flat. III, 28; Guðm. s., Bps. I, 507; Ann. I, III, IV. V. [4]) Björn M. Ólsen, Árbók fornleifafjel. 1910, bls. 27. [5]) Hve mikið fjárnám þetta var, hefur verið reiknað út á ýmsan hátt. Einna öfgamestur er reikningur hins norska sagnaritara O. A. Øverlands. Hann segir í Norges Historie, III. b., bls. 373 (Kristjania 1888), að Sæmundur Jónsson hafi neytt kaupmenn til að greiða sjer 900 merkur silfurs eða um 300000 kr. í skaðabætur. Það er hjer um bil sex sinnum meira en það var í raun rjettri.

gerðist því ekkert sögulegt. Um sumarið (1218) drap Grímar Orm Jónsson, sem einskis átti sjer ills von, úti í Vestmannaeyjum, og alls drápu Austmenn þá fjóra Íslendinga. Hefnd þessi kom illa niður, því að Ormur hafði reynt að sefa ofsa bróður síns, og jafnan bætt um með honum og kaupmönnum. Eptir þetta ljetu þeir Grímar í haf og komu til Noregs um haustið.[1]

Útaf öllu þessu reis upp mikil óvinátta milli norrænna kaupmanna og Oddaverja, en af herferð til Íslands varð þó ekki, eins og fyr er sagt, enda fengu þeir Skúli jarl og Hákon konungur þá annað að gjöra, því að Ribbungar hófu uppreist um þetta leyti.

Sumarið 1224 kom út skip í Hvítá og á því Kolbeinn ungi og margir aðrir Íslendingar. Þeir höfðu dvalið í Noregi. Skip þetta mun hafa verið norskt, þótt það sje eigi sagt (sjá að fr. bls. 862).

Sumarið 1226 kom kaupskip í Hrútafjörð frá Noregi, því að Guðmundur biskup og Rita-Björn komu út á því. Af skipshöfninni eru nefndir tveir Austmenn, Bárður garðabrjótur Þorsteinsson og Bárður trjebót, sem þeir Þórður Sturluson og Sturla Sighvatsson tóku til vetursetu.[2]

Um 25. júlí 1227 sigldu þrænskir menn úr Þrándheimi og ljetu í haf. Það segir ekki hvert þeir vildu halda, líklegt er að þeir hafi ætlað til Íslands. Þeir fengu langa útivist og önduðust 6 menn í hafi. Að lokum urðu þeir að yfirgefa skip sitt og komust þeir 18 að tölu af í skipsbátnum til Vestmannaeyja 22. nóvbr.[3]

Sumarið 1231 voru Austmenn að Gásum og bjuggust til brottferðar. Þeir hafa komið út árið áður. Með þeim tók Sighvatur Sturluson tveimur sonum Hrafns Sveinbjarnarsonar far. Austmenn þessir urðu apturreka um haustið, og ljetu bátinn og marga menn.[4]

Ólafur af Steini, norrænn maður hefur komið til Íslands 1233. Hann var á fundinum í Flatatungu vorið 1234, og var heimamaður að Keldum á Rangárvöllum með Hálfdani Sæmundarsyni. Þetta var fyrsta ferð Ólafs til Íslands, og var hann þá 18 vetra. Ólafur var manna vasklegastur og

[1]) Sturl. I, 329—30; Fms. IX, 292; Eirsp. 273; Frís. 418; Flat. III, 36; Ann. IV, V. [2]) Sturl. I, 382; Guðm. s., Bps. I, 546. [3]) Guðm. s., Bps. I, 548; Ann. IV, V. [4]) Sturl. I, 423, 426; Guðm. s., Bps. I, 553.

hefur verið atkvæðamaður, þar sem hans er getið á þessum fundi, svo ungur sem hann var, sem eins af þeim, er leituðu um sættir. Ólafs getur eigi eptir þetta fyr en sumarið 1239. Hann hafði þá skip fyrir norðan land og bjó til hafs. Á því voru Austmenn, en þrír Íslendingar tóku sjer far með honum. Þeir ljetu út, urðu apturreka í Hlöðuvík við Horn og brutu þar skipið. Menn komust af og vörum varð bjargað. Með Ólafi var þá Guðrún kona hans, og voru þau þá gipt fyrir skömmu. Þau fóru á fund Órækju, er hann kom í Ísafjörð þá um haustið, og hafa ef til vill verið hjá honum í Stafholti um veturinn.[1]) Eptir þetta kemur Ólafur eigi við sögur.

Þorfinnur fipur eða fingur og Arnbjörn salteyða komu á skipi sínu í Hrútafjörð nær Ólafsmessu (29. júlí) 1241. Þeir höfðu »gæsku« mikla á skipi. Sumarið eptir, er þeir ljetu í haf með marga íslenska farþega, urðu þeir snemma í september (1242) apturreka í Hrútafjörð og tóku land á Borðeyri. Þeir hafa að líkindum farið utan árið eptir (1243).[2])

Sumarið 1242 bjó Roðgeir Aflason eða Álfsson á Melrakkasljettu utan skip það, er Raptabússa hjet. Kolbeinn ungi ætlaði þá að senda Órækju Snorrason utan og Sturlu Þórðarson, og fór með þá norður að Skinnastöðum í Axarfirði. Þaðan sendi hann mann til þess að taka þeim far, en Roðgeir hafði siglt af stað sex stundum áður en sendimaður Kolbeins kom.[3]) Sumir hafa ætlað að Roðgeir þessi sje sami maðurinn sem Roðgeir Aflason, sem nefndur er í Skáldatali og orti um Skúla hertoga.[4]) Það er eigi ólíklegt, en um það er eigi hægt að segja með vissu.

Þá er Kolbeinn ungi kom að norðan frá Skinnastöðum, reið hann til Gása. Þar voru þá tvö skip, og tók hann Órækju far á öðru þeirra til Noregs.[5]) Af skipum þessum segir eigi nánar, en þau munu bæði hafa verið norsk.

Jón lindiás stýrimaður kom út í Eyjafjörð með skip sitt, og tók land að Gásum 6. septbr. 1242. Þar varð þá kaupstefna mikil við skipið. Af skipverjum er einn nefndur, sem hjet Leifur og síðan var kallaður Knarrar-Leifur.

[1]) Sturl. I, 459, 541, 543; Guðm. s., Bps. I, 558. [2]) Sturl. I, 550, 575; II, 4. [3]) Sturl. I, 573. [4]) Sn. E. III, 282, 726. [5]) Sturl. I, 573.

Skipverjar voru Austmenn, og ef til vill tveir íslenskir menn, Styrkár Einarsson og Þorbjörn skakkur; sex íslenskir farþegar voru með Jóni svo kunnugt sje.[1])

Eyvindur brattur Eyvindarson skalla fór kaupferðir til Íslands í fullan fjórðung aldar. Hans getur fyrst veturinn 1228—1229, og var hann þá á Sauðafelli (13. janúar 1229). Aptur getur hans vorið 1236 og var hann þá með Sturlu Sighvatssyni; hefur hann að líkindum komið út sumarið áður og Sturla tekið sjer far með honum til Íslands. Af utanferð Eyvindar segir ekki. 1240 kom Eyvindur út og Árni óreiða með brjefum Hákonar konungs til Gissurar Þorvaldssonar. Eigi segir heldur nú af utanferð Eyvindar, en síðast í júlí 1243 kom skip í Dögurðarnes og stýrði því Eyvindur brattur. Mun hann hafa verið með Kolbeini unga um veturinn, því hans getur í liði hans snemma um vorið 1244. Um sumarið ljet hann út úr Dögurðarnesi, en varð apturreka í Hvítá. Næst getur Eyvindar haustið 1252 og rjeðst hann þá til vistar í Reykholt til Þorgils skarða og Sunnifa kona hans. Um Eyvind er þá sagt, að hann væri hirðmaður Hákonar konungs, og að hann væri þá gamall maður og óskygn, og vinur Sturlunga en óvinur Gissurar. Hans getur þar eitt sinn um veturinn, en eptir það er hann að eins nefndur í einni gjörð (1254).[2])

Kaupskip eitt, sem hjet Höfðabússan, er nefnt á Íslandi 1244 um leið og skip Eyvindar bratts, því að það ljet þá út og varð apturreka í Hvítá eins og skip hans. En handritum af Sturlungu ber eigi saman um það, hvort Höfðabússan hafði staðið uppi í Döguðarnesi og látið þaðan út, eða í Hvítá.[3])

Eiríkur skarði, norrænn maður, er átti heima í Sogni, fór kaupferðir. 1244 sigldi hann af Íslandi og tók land við Björgyn; þaðan fór hann inn í Sogn, heim til sín.[4])

Á Lafransmessu, 10. ágúst, 1245 sigldi skip af hafi í Eyjafjörð; þar var á Gunnar brattur og kom frá Noregi; hefur hann eflaust verið norskur, þótt þess sje eigi getið.[5])

Sumarið 1249 kom út brjef frá Hákoni konungi til Þórðar kakala og var honum stefnt utan. Það má nærri geta að

[1]) Sturl. I, 576; II, 1,.5, 7, 36. [2]) Sturl. I, 402, 404, 483, 544, 552; II, 36, 47, 48, 83, 153, 164, 223. [3]) Sturl. II, 83. [4]) Sturl. II, 138—140. [5]) Sturl. II, 86.

brjef þetta hefur komið út á einhverju norsku skipi, er þá fór til Íslands.[1])

Eysteinn hviti var góður bóndi og vinsæll í Þrándheimi. Hann fór kaupferðir til Íslands og getur hans þar fyrst 19. apríl 1246 í Haugsnesbardaga. Hann var í liði Brands Kolbeinssonar og fylkti því. Veturinn 1251—1252 sat hann heima í Þrándheimi og var margt manna hjá honum, bæði norrænir og íslenskir. Um sumarið fór hann til Íslands, og var þá Jórunn kona hans með honum. Á skipi hans tók sjer far Heinrekur biskup og margt íslenskra manna. Um veturinn hafði Eysteinn vist á Hólum hjá Heinreki biskupi. Sumarið eptir ætlaði hann utan, en varð síðbúinn. Hann hrepti þá mótviðri og storm, og braut skipið við Flateyjardal 20. septbr. 1253. Týndist þar Eysteinn hvíti, kona hans og fjelagar, á sjötta tigi manna, en af komust 8 eða 9 menn.[2])

Kolbeinn svarti og Skeggi hvíti sigldu af Noregi til Íslands 1251. Þeir höfðu langa útivist. Fyrir sunnan Ísland fengu þeir storm svo mikinn að skipið leysti undir þeim, og týndust þeir þar 25. septbr. og flestir menn þeirra.[3])

Haustið 1252 kom skip út í Dýrafirði. Annar stýrimaðurinn hjet Klemez (eða Klemet eða Klement), en hinn Öndóttur. Hann var Hjaltur, hirðmaður Hákonar konungs og kunningi Þorgils skarða. Svo virðist sem hann hafi áður komið út til Íslands, eða haft erlendis viðskipti við Íslendinga, því um veturinn fór Öndóttur suður um heiðar að heimta skuld, er hann átti hjá Katli Ketilssyni. Hann fann Ketil í Kallaðarnesi, en fekk eigi skuldina, og kendi það nokkuð Gissuri. Þá er hann fór vestur aptur, bar hann brjef í Reykholt frá Önundi biskupsfrænda til Þorgils skarða, legunautar hans, um hugarfar Gissurar Þorvaldssonar til hans, og er nokkuð enn til af því í Sturlungu. Skip þeirra Öndótts stóð uppi í Dýrafirði um veturinn, og munu þau Sigurður seli og Kolfinna Þorvaldsdóttir hafa farið utan með þeim árið eptir.[4])

Sumir af kaupmönnum þessum voru hirðmenn Hákonar konungs, og hefur hann að líkindum haft viðskipti við þá eða notað suma þeirra til þess að afla sjer þeirra hluta af

[1]) Sturl. II, 105—106. [2]) Sturl. II; 92, 146, 147—49, 133, 134, 167, 171, 172, 188; Ann. I, III, IV, V. [3]) Sturl. II, 118. [4]) Sturl. II, 157—58, 185.

Íslandi, sem hann vildi fá. Konungur átti kaupför og gerði þau út í kaupferðir bæði til Englands og annara landa; hann var hinn mesti skipaútgerðarmaður í Noregi á sínum tíma.[1]) Hann tók einnig snemma á ríkisárum sínum að senda menn til Íslands á fálkaveiðar. Getur hann þess í brjefi 1223 til Heinreks 3. Englands konungs, að hann hefði það ár menn á Íslandi til fálkaveiða.[2]) Þeir veiddu stundum vel. Fám árum síðar sendi Hákon konungur Heinreki konungi 13 fálka, af því að menn hans voru þá nýkomnir heim af fálkaveiðum á Íslandi.[3]) Af þessu segir ekkert í íslenskum ritum, og það er því erfitt að vita hvar skipa á hjer sumum mönnum Hákonar konungs, sem komu til Íslands. Vjer vitum eigi í hvaða erindum sumir þeirra komu, eða hvort þeir áttu fyrir skipi að ráða, sem konungur hafði fengið þeim. Í jólaveislu þeirri, sem Snorri Sturluson hjelt veturinn 1226—1227, er meðal helstu gestanna talinn Bárður ungi hirðmaður, bróðir Dags, er átti dóttur Dagfinns lögmanns, ráðgjafa Hákonar konungs.[4]) Af ferð hans segir ekki meira, en erindi hefur hann átt til Íslands, ef til vill af konungs hendi til fálkaveiða, eða til að líta eptir þeim. Í september 1228 sendi Hákon konungur Heinreki 3. Englands konungi 6 geirfálka og 4 fálka.[5]) Mun þá einhver af veiðimönnum Hákonar konungs hafa verið kominn af Íslandi. Á árunum 1230—1248 er sjö sinnum getið um, að Hákon konungur hafi sent Heinreki 3. fálka.[6]) Hákon konungur lagði alla æfi hug á fálkaveiðar, og mun löngum hafa haft menn til fálkaveiða á Íslandi. Hann gaf öðrum konungum enda í fjarlægum löndum fálka til vinfengis. 1262 sendi hann Loðin lepp og Hákon eysil til Túnis, til þess að færa soldáni fálka og aðrar fágætar gjafir. Sonur Hákonar, Hákon konungur ungi († 1257), skemti sjer opt á veiðum með haukum og hundum. 1255 sendi hann og menn til Spánar með fálka, til að færa þá að gjöf Alfons vitra

[1]) Kgsk. 61; Fms. X, 8; Frís 527; Eirsp. 401; Flat. III, 166; sbr. Dipl. I, 632 og Al. Bugge, Hist. Tidsskr. (norsk) 3. R., IV, 38. [2]) Royal letters of Henry III, I, 216—17. [3]) Sama rit I, 486. Brjef þessi eru nú einnig prentuð í Dipl. Norv. XIX, bls. 117—118, 125. Þetta bindi er safn af brjefum um viðskipti Norðmanna við menn á Bretlandseyjum. Sjá einnig Hist. Tidsskr. (norsk), 3. R. IV, 28—32. [4]) Sturl. I, 387. [5]) Sbr. brjef Heinreks konungs 18. sept. 1228, Dipl. Norv. XIX, 137. [6]) Sbr. brjef 17. mai 1230, 17. júní og 5. júlí 1231, 24. oktbr. 1232, 1. júlí 1234, 20. ág. 1245 og 10. sept. 1248 í Dipl. Norv. XIX.

konungi í Kastilíu.[1]) Þannig hafa viðskipti Hákonar konungs Hákonarsonar við Ísland verið víðtækari en sögurnar segja.

Árið 1254 sendi konungur Sigurð silkiauga með Sigvarði Skálholtsbiskupi til Íslands, og höfðu þeir mörg brjef meðferðis. Sigurður átti að skynja, hversu einarðlega biskup færi í konungs málum, en hvaða erindi hann hafði önnur fyrir konung, eða hvort hann hafði kaupskip til forráða, er nú ókunnugt.[2]) En það er líklegt að konungur hafi sjeð honum fyrir fari, því að Sigurður hefur sem erindisreki hans eigi mátt vera öðrum háður en mönnum konungs, sem gerðu hans vilja. Sigurður fór líka brátt utan aptur, líklega þá um sumarið.

Árið eptir (1255) kom út Ívar Englason, sendur af Hákoni konungi frá Björgyn, að flytja erindi hans. Ívar var fjehirðir konungs og nafnkunnur í Noregi; notaði konungur hann í mikilvægar sendiferðir. Ívar hefur eflaust haft skip til forráða, þótt þess sje eigi getið. Hann var um veturinn í Skálholti hjá Sigvarði biskupi. Um vorið fór hann norður til Skagafjarðar og fann þar Heinrek biskup og Þorgils skarða, er þá var yfir Skagafirði, og flutti konungs mál fyrir þeim. Þeir stefndu þá saman bændum í Skagafirði, og fluttu mál konungs með Ívari. Kom þá svo að allir Skagfirðingar og Eyfirðingar játuðu að gjalda skatt, og mestur þorri bænda í Norðlendinga fjórðungi, þvílíkan, sem þeim semdi um við Ívar, en ekki er þess getið að neitt hafi orðið úr skattgreiðslunni í það sinn. Ívar fór þá utan um sumarið, og þótti erindi sitt hafa orðið minna en hann ætlaði.[3])

Bárður Hallröðarson rjeð fyrir skipi, er var í Kolbeinsárósi í Skagafirði 1258, og fór til Noregs um sumarið. Hann hefur að líkindum komið til Íslands sumarið áður (1257).[4])

Þennan vetur (1257—1258) stóðu uppi tvö skip að Gásum, Hólmdælan, er Sindri stýrði, og Gróbússan, er Eyjólfur auðgi stýrði. Margir íslenskir menn rjeðust til skips

---

[1]) Fms. X, 116, 62, 72; Frís. 568, 548, 552; Eirsp. 461, 431, 436; Flat. III, 216, 190, 195. Um fálkaveiðar sbr. P. V. Jakobsen, Hist. Tidsskr. II. R., II, 355 o. ef. [2]) Fms. X, 59; Frís. 547; Eirsp. 429; Flat. III, 189; Sturl. II, 222. [3]) Sturl. II, 286; þar stendur Ívar Arnljótarson en er rangt sbr. Tímarit Bókmfjel. 1900 bls. 57 o. ef. Fms. X, 60—61; Frís. 547—48; Eirsp. 430; Flat. III, 189—90; Ann. I, III, V. [4]) Sturl. II, 299.

með Sindra, en einn prestur með Eyjólfi, svo getið sje. Bæði þessi skip ljetu út á sama tíma frá Gásum. Hólmdælan týndist suður fyrir Mýrum og um 50 manna, eins og fyr er sagt. Gróbússan týndist einnig, »og hvert mannsbarn, er á var« segir í Sturlungu. Þar segir og að flestir segðu, að »þeir hafi komið við Skotland, og þar verið leiddir upp allir og drepnir hver á fætur öðrum«. Menn vissu lengi ekkert um afdrif Gróbússunnar. En 16 vetrum síðar komu, eptir því sem segir í Konungs annál, tvær konur af Finnmörku til Noregs, og sögðu, að skipshöfn Eyjólfs auðga hefði verið drepin þar. Ef það er rjett, eins og líklegt virðist, hefur hann hrakið þangað, og munu konur þessar hafa verið á skipi hans, en eigi fengið að fara fyr til Noregs.[1]) Þessi tíðindi hafa borist til Íslands, en eigi farið rjett með þau; hefur af því myndast sögnin um dráp þeirra á Skotlandi.

Árið 1258 sendi Hákon konungur Þóralda hvíta hirðmann sinn út með Gissuri Þorvaldssyni, að skynja hversu hann færi með erindi konungs. Svo virðist sem hann hafi farið á sama skipi til Íslands sem Gissur og mun það hafa verið norskt, en af því segir ekki nánar. Í Flateyjarbók segir, að konungur hafi þá sent marga aðra af trúnaðarmönnum sínum til Íslands;[2]) er líklegt að einhverjir þeirra hafi haft kaupskip frá konungi og verið í verslunarerindum líka, þótt þess sje eigi getið.

Snemma sumars 1260 sendi Hákon konungur Ívar Arnljótarson og Pál línseymu hirðmenn sína, með brjef til Íslands um hve mikinn skatt hann vildi hafa. Þeir komu út fyrir alþingi, og fóru til þings, en fengu ekki erindi sínu framgengt. Þeir fóru þegar um sumarið á fund konungs, og er auðsætt að þeir hafa haft skip fyrir að ráða.[3])

Hallvarður gullskór, hirðmaður, kom út í Hvítá 1261 með brjef Hákonar konungs og sendur af honum. Hann var í Reykholti um veturinn og flutti erindi konungs með svo miklum dug, að meiri hluti Íslendinga gekk undir konung og sór honum land. þegna og æfinlegan skatt sumarið eptir. Þá fór hann til Noregs og fengu tveir íslenskir höfðingjasynir

---

[1]) Sturl. II, 299; Ann. IV, V. [2]) Fms. X, 93; Fris. 559; Eirsp. 447; Flat. III, 205. [3]) Fms. X, 96—7, 100; Frís. 561, 562; Eirsp. 449, 451; Flat. III, 206—7, 208; Ann. IX.

far með honum. Sumarið eptir (1263) kom Hallvarður aptur til Íslands, og gengu þá Oddaverjar, Austfirðingar og Síðumenn einnig undir konung. Að því búnu fór hann utan 1264, og með honum Þorvarður Þórarinsson.[1])

Að endingu skal þess hjer getið, að erkibiskupinn í Niðarósi átti kaupskip í förum, og mun hann opt hafa gert út skip til Íslands. Þá er Magnús Erlingsson var krýndur vorið 1164, varð hann að taka Noreg sem ljen af Ólafi helga svo sem hinum »eilífa Noregs konungi«, og láta erkistólinn í Niðarósi fá ýms einkarjettindi. Á meðal þeirra var rjettur til þess að senda 30 lestir mjöls til Íslands. Brjef það, sem um þetta var gert og Eysteinn erkibiskup mun hafa ritað, er fyrir löngu týnt; en til er annað brjef, dagsett 23. mars 1276, um rjettindi erkistólsins í Niðarósi,[2]) og eru þar talin þessi rjettindi, en sumt í brjefi þessu er falsað; hafa því sumir ætlað að það væri falsbrjef að öllu leyti. Celestinus páfi hinn þriðji staðfesti í brjefi 15. júní 1194 rjettindi erkistólsins í Niðarósi, og þar er nefndur rjettur erkibiskups til að senda 30 lestir mjöls til Íslands, til þess að kaupa fyrir það klæðaefni (= vaðmál) handa klerkum erkistólsins; einnig að hann skuli hafa toll af einu Íslandsfari árlega, en í hinu brjefinu er nefndur tollur af einu skipi, en eigi að það sje Íslandsfar. Í páfabrjefinu er einnig staðfestur rjettur erkibiskups til að kaupa fálka, hauka og smirla, og mun hann hafa keypt eitthvað af þeim fálkum, sem komu af Íslandi.[3]) Sem yfirmaður biskupanna á Íslandi sendi erkibiskup opt brjef

[1]) Sturl. II, 306, 307, 308, 311, 312, 317—20, 320; Fms. X, 112—14, 116, 156—57; Fris. 567—68, 569; Eirsp. 459—60, 461—62; Flat. III, 214—15, 216; Ann. III, IV, IX. [2]) Dipl. I, 223—230. Árni Magnússon ætlaði að brjef þetta ætti að dagsetja 24. mars 1174, og því hefur Jón Sigurðsson fylgt í Dipl. Fr. Brandt, Retshistorie I, 17, ætlar brjefið falsað, sbr. Munch, Hist. III, 936, IV, 186—87, V, 530. Af því, sem ritað hefur verið um brjef þetta og einkarjettindi erkistólsins, skal einkum vísað til K. Maurer, Norwegens Schenkung an den heiligen Olaf, München 1877; G. Storm, Magnus Erlingssons Lov om Kongevalg og Löfte om Kronens Ofring, í Forhl. i Vidensk. Selskab (Christjania) 1880 Nr. 14, og Magnus Erlingssons Privilegium til Nidaros Kirke 1164 i Vidensk. Selsk. Skr. II. Hist. philos. Klasse 1895 Nr. 2. Um kaupskap erkibiskups sbr. Al. Bugge, Studier over de norske byers selvstyre og handel, bls. 131—32, og Hist. Tidsskr. (norsk) 3. R., IV, 38; 5. R., II, 327—28, 342. [3]) Dipl. I, 293, 294.

þangað, og stundum gerði hann út einhvern sinna manna með þau.

Hjer hafa nú verið taldir um 30 norrænir kaupmenn, stýrimenn og heldri menn, sem rjeðu fyrir kaupskipum. Nokkrir þeirra voru í kaupferðum til Íslands ár eptir ár; er þetta eigi lítið á þeim tíma, er varla er getið um einn íslenskan kaupmann eða stýrimann með áreiðanlegri vissu.

## II. Enn um ferðir Norðmanna til Íslands.

Auk allra þeirra norrænu kaupmanna og erindisreka, sem nú voru nefndir, er við ýms tækifæri getið um Norðmenn á Íslandi. Sumir þeirra voru þar árum saman, og nokkrir þeirra staðfestust þar. Eptir miðja Sturlungaöldina var tekið að skipa biskupsstólana Norðmönnum.

Sölmundur austmaður staðfestist á Íslandi snemma á 13. öld og fekk Helgu Sturludóttur, alsystur Snorra Sturlusonar. Hve nær hann kom fyrst til landsins, er ókunnugt, en þá er Snorri var drepinn, voru þau hjónin bæði á lífi og áttu upp komin börn, Egil og Gyðu.[1])

Á jólaföstu 1212 var Austmaður einn að Munka-Þverá í Eyjafirði.[2])

Á alþingi 1214 var Þorgils (eða Þorgisl) austmaður gerður utan og átti eigi útkvæmt. Hann hafði komið til Íslands eigi síðar en 1212.[3])

Tveir Austmenn voru vegnir á Íslandi 1218, eflaust til hefnda fyrir víg Orms Jónssonar. Það ár er og getið um vopnaupptektir á Eyrum, og mun það hafa verið fyrir Norðmönnum.[4])

Björn Þorvaldsson ljet 1219 draga einn Austmann úr kirkju að Bjargi í Miðfirði og drepa hann til hefnda fyrir Orm Jónsson; hann var sagður frændi Sörla stýrimanns.[5])

Austmaður einn, sem hjet Þorkell fanakeli, var viðstaddur málaferli í Skorravík á Fellsströnd (um 1225).[6])

Þjóstar austmaður settist að á Íslandi og bjó í Ás-

---

[1]) Sturl. I, 48, 553, 566. [2]) Sturl. I, 295; Guðm. s., Bps. I, 505. [3]) Sturl. I, 316; Rs., Sturl.² II, 306, 310. [4]) Ann. IV, V. [5]) Sturl. I, 330; Fms. IX, 294; Eirsp. 274; Frís. 419; Flat. III, 37. [6]) Sturl. I, 383.

garði í Dalasýslu um 1226. Hann seldi Bjarna Árnasyni, fylgdarmanni Dufgúss Þorleifssonar í Hjarðarholti, varning til tveggja hundraða, og sveikst hann um að greiða andvirðið. Ormur Svínfellingur er þá talinn vinur Þjóstars, og hefur hann því haft færi á að kynnast honum fyrir þann tíma, þótt hann væri í öðrum landsfjórðungi. 1232 getur Þjóstars aptur og var hann þá staddur á Sauðafelli.[1])

Þorsteinn þykkur kom út með brjef Þóris erkibiskups til margra höfðingja; var þá stefnt utan Magnúsi biskupi, Sighvati Sturlusyni og Sturlu syni hans.[2]) Annað segir ekki af ferð Þorsteins, og má því ekki sjá, hvort hann hefur verið á skipi frá erkibiskupi.

Skagi hinn hvíti, Austmaður einn, var með Sturlu Sighvatssyni að vígi Þórðar og Snorra Þorvaldssonar úr Vatnsfirði 1232.[3])

Árni brattur, Austmaður, var einn af mönnum Órækju á Vestfjörðum 1236.[4])

Jósteinn glenna, Austmaður, var í bardaganum að Bæ í Borgarfirði með Þorleifi Þórðarsyni 28. apríl 1237.[5])

Hildibjörn munkur kom út 1238 með brjef frá erkibiskupnum í Niðarósi.[6])

Austmaður einn er nefndur í Vestmannaeyjum 1239, þá er Snorri Sturluson kom þar út.[7])

Hákon Bótólfsson galinn var norrænn maður að föðurætt og kertissveinn Skúla hertoga. Hann kom út með Órækju Snorrasyni 1239. Skömmu eptir að Þórður kakali kom út 1242, gerðist Hákon heimamaður hans, og barðist með honum á Húnaflóa og í Haugsnesi. Þar fjell Hákon 19. apríl 1246. Hann var þá kvongaður fyrir hálfu öðru ári.[8])

Sigurður vegglágur, Norðmaður, kertissveinn Skúla hertoga, fór til Íslands með Snorra Sturlusyni 1239 og var í Reykholti, er hann var drepinn. Hann hefndi hans. Hann stýrði teinæringi í bardaganum á Húnaflóa í liði Þórðar kakala, og komst úr bardaganum, en hans getur eigi síðar.[9])

Árið 1239 komu og út tveir norskir biskupar, Sigvarður ábóti í Selju, sem erkibiskup hafði vígt til Skálholts, og Bótólfur, bróðir í Elgisetri, vígður til Hóla. Bótólfur fór

[1]) Sturl. I, 383—86, 431. [2]) Ann. IV. [3]) Sturl. I, 436. [4]) Sturl. I, 483. [5]) Sturl. I, 496. [6]) Ann. IV, V. [7]) Sturl. I, 540. [8]) Sturl. I, 540; II, 28, 62, 83, 94. [9]) Sturl. II, 35, 62, 71.

utan 1243, og dó 1246. Sigvarður biskup (d. 1268) fór utan 1250 og kom út á Eyrum 1254; hafði þá Hákon konungur fengið hann til þess að flytja á alþingi að Íslendingar gyldu honum skatt.[1])

Austmaður einn, Fjargarður að nafni, var í atför með Sæmundi Ormssyni í Kirkjubæ 26. janúar 1250,[2]) og hefur hann komið út sumarið áður eða fyr.

Árið 1254 er getið um marga Norðmenn á Íslandi, bæði sunnanlands, 24. júní í brúðkaupinu í Haukadal, og norðanlands í september mánuði á Flugumýri í Skagafirði.[3]) Það voru heilar skipshafnir.

Heinrekur Kársson var vígður til biskups að Hólum 1247 og kom út um sumarið. Hann var mjög ákafur fylgismaður Hákonar konungs að því, að Íslendingar gengu undir hann og gyldu honum skatt. Hann fór utan á fund konungs 1249 og kom út á skipi Eysteins hvíta 1252. Enn fór biskup utan 1256 og dó í Noregi 1260.[4])

Af öllu því, sem hjer er talið, er augljóst, að mjög margir Norðmenn sigldu til Íslands á Sturlungaöldinni. Þeir höfðu náð versluninni í sínar hendur og höfðu mikil áhrif á hag Íslendinga. Þeir óðu þar einnig uppi við ýms tækifæri, einkum eptir 1239, og konungi þeirra tókst að ná landinu undir sig, eins og kunnugt er.

## III. Útlendingar á Íslandi af öðrum löndum en Noregi.

Um aðra útlendinga en Norðmenn er sjaldan getið á Sturlungaöldinni. Þá er »suðurmaður« einn er frá talinn, er varla nefndur nokkur útlendur maður á Íslandi á þessu tímabili, nema úr norrænum bygðum vestan hafs og af Grænlandi. Jón Sverrisfóstri Grænlendinga biskup kom til Íslands 1202.[5]) Tíu árum síðar (1212) kom Helgi Ögmundar-

[1]) Sturl. I, 541; II, 222—23; Fms. X, 59; Frís. 547; Eirsp. 429; Flat. III, 189. [2]) Sturl. II, 114. [3]) Sturl. II, 221, 225. [4]) Sturl. II, 102, 103, 106, 132, 149; As., Sturl.² II, 346; Fms. X, 14, 24, 41, 42, 45, 51, 98; Frís. 529, 533, 539—41, 543, 561; Eirsp. 404, 409, 418, 419, 421, 424, 450; Flat. III, 168, 172—73, 180—82, 185, 207; Ann. I, III, IV, V. [5]) Sjá að fr. bls. 830. Í Konungs annál 1203 segir: »Þá fundust III biskupar í Austfjörðum, Páll biskup, Guðmundur biskup og Jón Grænlendinga biskup.« Guðmundur biskup kom út um sum-

son Grænlendinga biskup við í Flatey á leið til Grænlands;[1]) hann mun þá hafa komið frá biskupsvígslu í Noregi, en eigi segir nánar af ferð hans.

Ólafur Grænlendinga biskup braut skip sitt í Herdísarvík sunnan á Reykjanesskaga rjett við Selvog. Hann var tvo vetur á Íslandi, og hefur ef til vill orðið Þorvarði Þórarinssyni samferða til Noregs á skipi Hallvarðs gullskós.[2])

Frá Orkneyjum kom kaupskip í Hvítá 1202. Það var Orkneyjafar, og var stýrimaður Þorkell rostungur Kolbeinsson, bróðurson Bjarna biskups. Þorkell fór til Borgar um veturinn, og lagðist lítt á með þeim Snorra. Ljet Snorri taka mjöl fyrir honum, og deildu þeir Þorkell um verð á því. Um sumarið þá er Orkneyingar voru búnir til hafs, særði Þorkell þann mann til ólífis, er mest hafði gengið að því að taka mjölið, og fekk Snorri ekki hefnt hans á kaupmönnum, áður en þeir ljetu í haf frá Seleyri í Borgarfirði. En þeir Þorkell fengu mótviðri og urðu apturreka um haustið á Eyrar. Hann reið þá austur í Odda, og fyrir vináttu sakir við Bjarna biskup tók Sæmundur Jónsson við honum. Snorri sendi saman þrjá flugumenn Þorkeli til höfuðs, en þeir komu engu fram. Þorkell fór utan um sumarið eptir (1204).[3])

Árið 1235 er getið um annað kaupfar vestan um haf á Seleyri. Fyrir því rjeðu Andreas Hrafnsson, lögmanns af Katanesi, og Andreas Gunnason, sonarsonarsonur hins nafnkunna víkings og höfðingja Sveins Ásleifarsonar. Þeir voru þá í brottbúningi, en skip þeirra hafði staðið uppi á Seleyri um veturinn. Þeir nafnar ljetu í haf, en urðu apturreka á Eyrar um haustið; reið þá Andreas Hrafnsson vestur, og mun hann hafa verið með Órækju Snorrasyni um veturinn. Sumarið eptir ljet hann í haf af Eyrum (1236), og má vera að hann hafi þá siglt til Noregs, því að Órækja og fleiri Íslendingar tóku sjer þá far með honum.[4])

arið úr vígsluferð sinni í Mjóafjörð, í Austfjörðum, og segir í sögu Páls biskups, Bps. I, 136, að þeir hafi fundist þar. Er líklegt að Páll hafi ráðgert ferð þessa, á meðan Jón biskup var hjá honum, og að hann hafi ekki verið farinn, þá er Páll biskup kom austur og Guðmundur biskup kom út. [1]) Ann. I, III, IV, V; Sksb., Ísl. I, 332. [2]) Ann. I, III, IV, V; Sksb., Ísl. I, 331; sbr. K. Maurer, Die Bekehrung II, 581. [3]) Sturl. I. 271—72. [4]) Sturl. I, 477, 479, 486, sbr. að framan bls. 848.

Af Hjaltlandi var Erlendur bakrauf, heitumaður hjá Magnúsi Guðmundarsyni allsherjargoða á Þingvöllum. Hans getur á alþingi 1215, og átti þar að heita öl og hafði viðarköst yfir að ráða.[1])

Öndóttur stýrimaður, sem kom út í Dýrafjörð 1252, var einnig af Hjaltlandi. Hann hefur verið nefndur áður, af því að hann var í fjelagi með norrænum manni (sjá að fr. bls. 872).

Þá er og nefndur Suðurmaður einn, Herburt að nafni. Frá útkomu hans segir ekki, en hann mun hafa komið af Noregi til Íslands, því að um það land lágu þá leiðir flestra til Íslands. Margir Þjóðverjar komu einnig til Noregs á þessum tímum. Í annan stað fóru Íslendingar venjulega suður um Þýskaland, er þeir gengu suður til Róms; komust þeir þá í nokkur kynni við Þjóðverja, og má vera, að Herburt hafi slegist í för með einhverjum Íslending og farið með honum alla leið til Íslands. Herburt var fylgdarmaður Snorra Sturlusonar á alþingi 1215. Hann »kunni allra manna best við buklara«; hafði hann nálega komið miklum bardaga af stað á alþingi, af því að hann hjó kylfur úr viðarkesti Magnúss goða og dró viðinn úr kestinum.[2])

Þótt þetta sjeu eigi mjög margir menn, er það þó nóg til þess að sýna, að menn af öðrum löndum en Noregi komu til Íslands við og við á Sturlungaöldinni eins og á undanfarandi öldum. Þeir voru flestir frá nágrannalöndum vorum, sjerstaklega þeim, sem stóðu í nánu sambandi við Noreg og við Ísland sjálft, úr norrænum bygðum fyrir vestan haf og úr íslenskum bygðum á Grænlandi.

Í lok 12. aldarinnar kom upp helgi Þorláks biskups Þórhallssonar, og var messudagur hans og helgi leidd í lög á alþingi 1199. Dýrkun hans breiddist skjótt út og ber nokkuð vitni um samgöngur og viðskipti Íslands við önnur lönd. Menn, er voru í förum, bæði útlendir menn og íslenzkir, sóttu í Skálholt að dýrka hann og færðu þangað áheit sín. Var þá brátt tekið að heita á Þorlák biskup í öðrum löndum, og gafst af öllum Norðurlöndum mikið fje til staðarins í Skálholti, »mest úr Noregi«, og einnig vestan um haf, af Skotlandi og Skotlandseyjum, og »mikið af Eng-

[1]) Sturl. I, 326. [2]) Sturl. I, 325—326.

landi«; bendir það á einhver viðskipti eða andlega viðkynningu á milli Englendinga og Íslendinga á 13. öld; hefur það sumt verið um Noreg, því að mikil verslunarviðskipti voru þá milli Englands og Noregs, en sumt beina leið milli Íslands og Englands (»vestan um haf«). Maður nokkur í Lynn (Kings Lynn),[1]) á Englandi, Auðunn að nafni, ljet gjöra líkneskju til dýrðar Þorláki helga og setja þar í kirkju.[2]) Maður þessi hefur að líkindum verið búsettur í Lynn eða að minsta kosti dvalið þar lengi; er líklegt, að hann hafi annaðhvort verið íslenskur eða ættaður af Íslandi, eða jafnvel norskur farmaður, því að í Lynn voru opt margir Norðmenn á þessum tímum, og hafi hann þá einhvern tíma komið til Íslands. Þótt verslunarviðskiptin milli Íslands og Englands eða Vesturhafslandanna yfirleitt væru hvergi nærri eins mikil og milli Íslands og Noregs, voru þau þó eflaust töluvert meiri á meðan þjóðveldið stóð, en sögur fara af.

Í Grágás eru nokkur ákvæði um útlendinga, sem komu til Íslands, og má af þeim sjá, af hvaða löndum þeir voru. Í ómagabálki er getið um norræna menn, hjaltlenska, orkneyska, færeyska, katneska eða úr Noregs konungs veldi.[3]) Um víg útlendra manna á Íslandi voru þau ákvæði, að frændur hins vegna, »ef þeir eru hjer á landi«, áttu sök, ef »danskir eða sænskir eða norrænir« menn, »úr þeirra konunga veldi þriggja, er vár tunga er«, væru vegnir. En af öllum tungum öðrum en af danskri tungu, átti enginn maður vígsök að sækja á Íslandi af frændsemis sökum, nema faðir eða sonur eða bróðir, »og því að einu þeir, ef þeir höfðu hjer áður við kennst«.[4]) Með arf eptir útlendinga, sem önduðust á Íslandi, var farið líkt að sem í vígsökum. Takmörkin voru sett eptir tungu þeirra. Ef norrænir menn, danskir og sænskir dóu á Íslandi, áttu frændur þeirra í fimta lið og nánari rjett til arfs. En ef menn »af öllum öðrum tungum en danskri tungu« önduðust á Íslandi, »enskir menn eða þeir er hingað eru enn ókunnari«,

---

[1]) Í Þorl. s., Bps. I, 357 stendur Kynn, en það er ritvilla fyrir Lynn, eða Kings Lynn. [2]) Páls s., Bps. I, 134; Þorl. s., Bps. I, 124, 357, sbr. Laur. s., s. st., 810—811. [3]) Grágás Ib, 25, II, 149. [4]) Grágás Ia, 172, II, 338.

þá átti enginn rjett »að frændsemi« til að taka arf eptir þá, nema faðir eða sonur eða bróðir, og þeir því að eins, ef þeir höfðu kannast við þá áður á Íslandi, svo að menn vissu deili á því.[1]) Af þeim þjóðum, »er menn kunnu eigi hjer máli eða tungur við«, þ. e. töluðu eigi danska tungu, munu Englendingar hafa verið kunnastir á Íslandi, eins og lagaákvæði þessi benda á.

## IV. Kaupskip, stýrimenn og útlendingar á Íslandi, sem eigi er sagt um, hverrar þjóðar voru, og fleira, er ber vitni um siglingu til Íslands.

Á Sturlungaöldinni er og getið um nokkur skip og útlendinga á Íslandi og mörg skiptjón, sem ekkert er sagt nánar af, og því verður að telja fyrir sig.

Sumarið 1208 voru »útlendir menn« að Gásum, sem nokkrir óspektarmenn úr liði Guðmundar biskups rændu.[2])

1219 hefur skip verið í Hvítá, því að Arnór Tumason tók sjer þar far og ætlaði utan með Guðmund biskup; en er það tókst eigi, brá hann utanferð sinni.[3])

Sumarið 1236 virðist skip hafa verið í Skagafirði, ef marka má orð Sturlu Sighvatssonar um að láta Órækju fara þar utan.[4])

Í ágústmánuði 1238 voru tvö skip í Kolbeinsárósi í burtbúnaði.[5])

Flest af skipum þessum hafa eflaust verið norsk, sjerstaklega er það auðsætt um þau, sem menn ætluðu með til Noregs.

Á fyrsta ári 13. aldar (1201) er þegar getið um skiptjón. Þá »hvarf skip Hallvarðar, og voru á 30 manna«.[6])

1209 var »farsumar hið illa«. Þá týndust tvö nafngreind skip, Hörvargarpurinn og Þjóttarkepturinn, en tvö önnur rak til Grænlands, skip Jóns ríka og Ketils stama. Þremur árum síðar (1212) kom Ketill stami af Grænlandi.[7])

---

[1]) Grág. Ia, 229, II, 74—75, 98. [2]) Sturl. I, 280; Guðm. s., Bps. I, 493. [3]) Sturl. I, 332, 334; Guðm. s., Bps. I, 508, 510; Ann. III. [4]) Sturl. I, 485. [5]) Sturl. I, 514. [6]) Ann. IV, V. [7]) Ann. IV, V. Að sögn Ann. X týndust 5 skip 1209.

1210 skiptjón Sveinbjarnar.[1])

1213 týndist skip Ólafs skirfils.[2])

1223 týndist skip Auðbjarnar og voru á 63 menn; eigi var hann á.[3])

1227 skiptjón Jóns fagra, segir í Resensannáll og Skálholtsannál, en í Konungsannál og hinum yngri annálum segir, að þá væri skiptjón Jóns Pjeturssonar. Hann fór af Eyrum.[4]) Jón Pjetursson hefur líklega verið kallaður hinn fagri, og mun þetta því vera einn maður.

1232 braut fjögur skip og ljetust 53 menn. Skiptjón þessi urðu fyrir sunnan land.[5])

1234 skipabrot.[6])

1248 skipbrot fyrir Krisuvík; ljetust 8 menn.[7])

1252 skipbrot fyrir Eyrum; ljetust 6 menn.[8])

1256 braut þrjú skip á Eyrum.[9])

Alls verða þetta um 20 skipbrot, og er það eigi lítið á eigi lengri tíma, auk þeirra skipbrota, sem áður eru talin og nánar er kunnugt um. Að vísu er það alls eigi víst, að öll þessi skip hafi verið kaupskip. Skipbrotunum 1234 mun flóð hafa valdið, því um það er sagt: »Flóð hið mikla og skipabrot.« Þá hafa farist mörg skip, og má vera að það hafi verið fiskiskip (sexæringar, áttæringar og teinæringar), en ekki kaupskip, eða nokkur skip af hvorutveggju. Flóð þetta mun hafa verið stormflóð, eins og venjulegt er, og er þá hætt bæði skipum, sem standa á landi, í eða nærri flæðarmáli, og þeim, sem liggja fyrir akkerum eða eru strengd við land; en þetta alt átti sjer stað um kaupskip í fornöld.

Skipbrot þessi bera vitni um tvent, bæði töluverðar siglingar til landsins og hve hættulegur atvinnuvegur siglingarnar voru. Mestar líkur eru til, að kaupskip þessi hafi flest verið norsk, en þó er eigi loku skotið fyrir það, að einhver þeirra kunni að hafa verið íslensk. Í þessu sambandi má minna á það, að Ketill stami kom aptur til Íslands af Grænlandi, og að Íslendingar höfðu kenningarnafnið hinn

---

[1]) Ann. IV, V. [2]) Ann. IV, V; Guðm. s., Bps. I, 506. [3]) Guðm. s., Bps. I, 545; Ann. I, III, IV, V. [4]) Guðm. s.. Bps. I, 548; Ann. I, V, IV, VIII, IX, X. [5]) Guðm. s., Bps. I, 551, Ann. I, III, IV, V. [6]) Ann. IV. [7]) Ann. IV, V. [8]) Ann; III. [9]) Ann. III.

ríki venjulega um »tigna menn« eða »tignar konur«, er um útlendinga var að ræða; á Íslandi voru engir tignir menn, og þar var mikilsmegandi mönnum einstaka sinnum gefið þetta nafn (Guðmundur ríki, frú Ingigerður ríka). Um Jon ríka er annars ekkert kunnugt, og það er eigi hægt að segja með vissu hvaðan hann var.

## Sjöundi þáttur. Um ferðirnar yfirleitt.[1]

### I. Yfirlit yfir ferðirnar og þýðing þeirra.

Nú hefur verið skýrt frá ferðum og siglingum Íslendinga til annara landa og útlendinga til Íslands frá því að landnámum lauk og til endaloka þjóðveldisins, að því leyti sem þeirra er getið í heimildarritunum, innlendum og útlendum.

Íslendingar fóru utan í margs konar erindum og áttu opt mörg erindi í sömu ferðinni. Frá upphafi urðu þeir sem nýbyggjendur fyrst og fremst að hugsa um að bjarga sjálfum sjer og afla sjer lífsnauðsynja, enda var það aðalerindi þeirra flestra í fyrstu. Í Íslendinga sögum segir um ýmsa, sem fóru utan á söguöldinni, að þeir færu til að afla sjer fjár og frama; en að afla fjár lýtur að þessu. Hins vegar leið eigi á löngu áður en það þótti frami að fara til annara landa, og margir ungir menn tóku því að fara utan til þess að framast jafnframt og þeir öfluðu sjer fjár eða leituðu sjer atvinnu erlendis.

Margir reyndu að afla sjer lífsnauðsynja og fjár í kaupferðum, en aðrir í víking og hernaði. Sumir vildu einnig vinna sjer eitthvað til frægðar, »verða að nokkru reyndur« eins og segir í sögunum, eða sjá fornar ættstöðvar, kanna ókunna stigu og kynnast siðum annara þjóða. En eptir því

[1]) Af því að bindi þetta af »Safni« er orðið svo þykt, töluvert þykkara en hin bindin, hef jeg slept allmiklu úr þessum þætti, og að eins tekið nokkuð hið helsta. Ef jeg fæ færi á því síðar, getur verið að jeg víki aptur að þessu efni.

sem tímarnir breyttust, breyttust og erindi landsmanna til annara landa. Með nýrri menningu komu ný erindi. Þá er Íslendingar kyntust kristninni og Ísland var kristnað, byrjuðu pílagrímsferðir landsmanna eða suðurgöngur, og námsferðir nokkru síðar. Sumt breyttist aftur á móti eigi; allan þjóðveldistímann voru afbrotamenn dæmdir af landi burtu, og sumir flýðu landið til þess að komast undan hefnd o. s. frv.

Utanferðum Íslendinga mætti eptir erindi manna skipa í þrjá flokka:

1. Ferðir til aðdrátta og til að leita atvinnu.
2. Ferðir til að forðast hefnd og til að fá lausn.
3. Námsferðir og vígsluferðir.

Kaupferðirnar voru til aðdrátta, og í fyrsta flokki verður líka að telja skáldin, sem fóru utan til þess að heimsækja konunga og aðra stórhöfðingja og flytja þeim kvæði. Það var atvinna þeirra, þótt þau hefðu mörg önnur störf sjer til lífsuppeldis. Mörg þeirra fóru í kaupferðir og hernað rjett eins og aðrir, en það voru þeim hin mestu vonbrigði, ef þau fengu engin laun fyrir kvæði sín, eins og vísa Einars Skúlasonar sýnir, sem hann orti þá er hann fekk engin laun fyrir kvæði um Svein konung svíðanda:

Ekki hlaut af ítrum
Einarr gjafa Sveini (Knytl. saga).

Þá er Einar orti hið mikla kvæði Geisla, Ólafi konungi helga til dýrðar, mæltist hann í 70. vísunni til dýrlegra launa (sjá að fr. bls. 792—93). Skáldin gleymdu hins vegar sjaldan að geta þess, ef þau fengu kvæði sín vel launuð, bæði sjálfum sjer og konungi til sæmdar, og öðrum konungum til fyrirmyndar.

Í fyrsta flokki ber einnig að telja þá Íslendinga, sem gerðust hirðmenn, og þeir voru mjög margir. Íslendingar, að minsta kosti þeir, sem voru af góðum ættum og metnaðarfullir, sóttust eptir engu meira í Noregi en veturvist og hirðmensku hjá konungi. Það var eigi eingöngu af því, að það þótti meiri sæmd að vera með konungi en öðrum mönnum, eða af því, að þeir kyntust þar best siðum heldri manna, hirðsiðum, heldur og meðfram eða einkum af því, að þar fengu þeir ókeypis vist, og mála að auki, ef þeir

urðu borðfastir hirðmenn konungs.[1]) Þá voru þeir höfuðverðir konungs og fylgd. Þetta var því hin glæsilegasta atvinna, sem Íslendingar gátu fengið, enda gerðu þeir venjulega alt, sem þeir gátu, til þess að ná í hana, svo sem Þórarinn Nefjólfsson, þá er Ólafur konungur bað hann um að flytja Hrærek konung til Grænlands eða Íslands. Hann var tregur til þess, en notaði þó brátt þetta tækifæri til þess að geta orðið hirðmaður (sbr. að fr. bls. 714, 4. aths.). Fyrir því þótti það frásagnarvert, að Kolbeinn ungi gerðist ekki handgenginn Hákoni konungi, þá er hann fann konung í utanferð sinni (1235—1236), er hann kom sunnan frá Róm.[2]) En bæði var ástæðum Kolbeins svo farið, að hann hefur eigi viljað vera lengur en nauðsyn krafði í utanferð þessari, og svo hafði Hákon konungur þá fyrir skömmu fengið Sturlu Sighvatsson til þess að reyna að vinna Ísland undir sig, og hann hlaut fyrst að sjá hvernig það gengi, áður en hann tæki að leggja farartálma fyrir unga íslenska höfðingja; einnig var konungur suðurgöngum hliðhollur. En þótt Kolbeinn gerðist konungi eigi handgenginn, hindraði það hann eigi frá að gjöra þá sætt, að fara utan og láta Hákon konung gera um öll mál þeirra Þórðar kakala.[3]) Alt þetta sýnir, að Íslendingar á dögum þjóðveldisins litu öðru vísi á þetta en á vorum dögum.

Suðurgöngur af Íslandi voru tíðar í hlutfalli við mannfjölda, eins og úr flestum hinum norðlægu löndum.[4]) Kristnin var þar ung, og menn trúðu á syndafyrirgefningu, »lausn allra sinna mála«, ef þeir færu suður. Einnig þótti mönnum fýsilegt að sjá hina fornhelgu og frægu staði, suðræna fegurð, stórhýsi og skraut. Það laðaði menn að sjer.

Flestir íslenskir suðurgöngumenn fóru fyrst til Noregs og þaðan til Danmerkur. Er leiðin suður frá Álaborg rakin í Leiðarvísi Nikulás ábóta, um Jótland, Þýskaland, Sviss og Ítalíu, og hefur dr. Kr. Kålund nýlega skýrt alt, sem þar segir, svo vel og rækilega sem unt er.[5]) Þessi leið var

---

[1]) Hkr. II, 57/81; A. Taranger, Retshistorie II, 209 o. ef. [2]) Sturl. I, 476. [3]) Sturl. II, 83. [4]) Á 8. og 9. öld er sagt, að fleiri pílagrímar hafi komið af Bretlandseyjum til Landsins helga, en af nokkru öðru landi. P. Riant, Expéditions et pèlerinages des Scandinaves en Terre Sainte, Paris 1865. Bls. 93. [5]) En islandsk vejviser for pilgrimme, í Aarböger f. nord. Oldkh. 1913.

stundum nefnd hin eystri leið til aðgreiningar frá þeirri leið, er lá úr Normandii suður Frakkland, og var þá nefnd hin vestri leið.[1]) Stundum fóru menn og sjóveg frá Noregi til Frislands (Hollands), og tóku staf og skreppu og vígslu til Rómaferðar í Útrekt eða Deventer. Fyrir norðan Alpafjöllin mættust vegir og menn úr ýmsum áttum, og fóru Stóra sankti Bernhard yfir fjöllin. Frá Róm rekur Nikulás leiðina suður Ítalíu til Jerúsalem og nefnir helstu bæi á Gyðingalandi.[2]) Sænskir pílagrímar fóru framan af um Rússland og Grikkland (austrómverska keisaradæmið) til Jórsala,[3]) og Þorvaldur víðförli lagði heimleið sína frá Jórsölum um Miklagarð og Kænugarð til Garðaríkis, en leið þessi varð snemma of hættuleg fyrir friðsama pílagríma. Hún var gamall verslunarvegur fyrir þá menn, sem búnir voru til bardaga, er á þurfti að halda, og víkingavegur. Íslenskir pílagrímar fóru því ekki þessa leið, enda lá hún eigi vel við fyrir þá, og eigi heldur vestustu leiðina, sjóleiðina suður um Spán, nema fáeinir menn, sem slógust í för með norrænum höfðingjum, svo sem Rögnvaldi kala Orkneyjajarli.

Margir urðu til þess að greiða för pílagrímanna. Í klaustrunum fengu þeir ókeypis greiða. Í Benedikts-klaustri nokkru í ey einni í Rín, þar nálægt sem hún fellur úr Bodenvatni, var bók ein, sem kölluð er Bræðralagsbók *(Libellus societatum Augiensium)*, og í voru rituð nöfn þeirra manna, sem komu þangað (»lifandi vina«, »amici viventes«) á tímabilinu um 850—1250.[4]) Klaustur þetta og eyja var auðug og því nefnd Eyjan auðga, »Augia dives« á latínu, Reichenau á þýsku. Í Bræðralagsbókina voru rituð nöfn 39 manna frá Íslandi (Hislant terra). Það hafa verið suðurgöngumenn, Rómferlar. Nú er eigi hægt að segja hverjir þeir hafa verið,

---

[1]) Nj. 158—59,906—907. [2]) Alfræði, bls. 13—23. [3]) Guta saga utg. af Hugo Pipping. Kbh. 1905—07, bls. 66. [4]) Antiquarisk Tidsskr. 1843—45, bls. 67—75; Dipl. I, 170—72; F. Dyrlund í Aarb. f. nord. Oldkh. 1885, bls. 321—322. — Frumritið af Bræðralagsbókinni týndist um aldamótin 1800, en ein afskrift er til af henni, tæplega áreiðanleg. Lengi hjeldu menn að bók þessi væri hin sama sem Ártíðaskráin úr Eynni auðgu, »Necrologium Augiae divitis«, og eptir því fór Jón Sigurðsson í Dipl. Ártíðaskráin er gefin út af F. L. Baumann í Monumenta Germaniae historica. Necrologia Germaniae I, 1888, bls. 271—282.

þvi að þótt á meðal þeirra sjeu nokkur hin sömu nöfn sem á sumum þeim suðurgöngumönnum, sem kunnir eru af sögunum, er þó alveg óvíst hvort það eru sömu mennirnir, sökum þess að ekki er greint hvenær menn þessir komu til Reichenau. Flest eru nöfnin i Bræðralagsbókinni önnur en þau, sem kunn eru af íslenskum heimildarritum, og sýnir hún þvi, að margir Íslendingar hafa gengið suður, sem engar sögur fara af.

Auður Vjesteinsdóttir, ekkja Gisla Súrssonar, og Gunnhildur mágkona hennar gengu fyrstar suður af Íslendingum, svo kunnugt sje, en Ísleifur Gissurarson fór fyrstur af Íslandi til þess að ganga i skóla erlendis. Síðan fóru ýmsir merkir menn utan til náms á yngri árum, og hafði það hina mestu þýðingu fyrir Ísland og bókmentir þess. Menn leituðu langt suður á bóginn, til Frakklands og annara landa í Mið-Evrópu, þar sem skólar voru góðir, eptir þvi sem um var að gera á þeim timum. Á Norðurlöndum voru þá engir frægir skólar komnir á fót, og mentalíf var þar viða minna en á Íslandi. Til samanburðar má geta þess, að Sæmundur Sigfússon frá Odda stundaði nám i París um 1072—1076; en það er eigi kunnugt að neinn Norðmaður hafi verið þar að námi fyr en Eirikur Ívarsson, sem síðar varð erkibiskup i Niðarósi, kom þangað 1150.[1]) Hann var sonur Ívars skrauthanka, sem fyr er nefndur.

Á meðan þjóðveldið stóð, voru Íslendingar mjög víðförulir, og utanferðir þeirra höfðu að öllu samtöldu ómetanlega þýðingu fyrir land og lýð. Þeir Íslendingar, sem manntak var í, og voru greindir, athugulir og áhugasamir, lærðu mikið á utanferðum sinum. Dvöl þeirra i hinum mentuðustu löndum álfunnar hafði eðlilega mikil áhrif á þá á ýmsan hátt. Sjóndeildarhringur þeirra stækkaði, menning þeirra varð meiri, dómgreind þroskaðri og hleypidómaminni. Með því að ferðast i löndum sem Englandi, Frakklandi, Ítaliu og Þýskalandi og stunda þar nám, að minsta kosti í þremur af þessum löndum, urðu þeir færari en ella til þess að efla hið andlega líf á Íslandi. Sumir þeirra kyntust og nokkuð bókmentum þessara þjóða, fengu vitneskju um að þar voru rit-

[1]) Ludvig Daae, En Krønike om Erkebiskopperne i Nidaros, bls. 24 (í Trondhjems 900 Aars Jubilæums Festskrift 1897).

aðar árbækur og ýmsar aðrar sögubækur, að landslögin voru skrásett og hin fornu kvæði rituð á bækur, að margt var ritað annað en messubækur kennimannanna. Þetta hafði vekjandi og frjóvgandi áhrif á Íslendinga. Fornbókmentir þeirra hefðu aldrei orðið slíkar sem þær eru, ef þeir hefðu eigi farið til annara landa og aflað sjer þar mentunar, því að fornbókmentir vorar eru eigi annað en grein af hinum evrópeisku bókmentum, en fögur grein, græn og blómleg, þjóðleg og sjerkennileg, rjett eins og landið, sem var hæfilega langt í burtu frá öðrum löndum, til þess að latínan fengi þar eigi föst tök á bókmentunum sem í öðrum löndum. Það var langt frá því að utanferðirnar spiltu tungu eða þjóðerni Íslendinga; þvert á móti, þær hafa eflaust kent Íslendingum betur en flest annað að nota sína eigin tungu og gæta hennar.

Að sjá annað til samanburðar er öllum nauðsynlegt. Það vekur dómgreind og framtakssemi. Gáfur Íslendinga fengu betur notið sín af því að þeir fóru opt erlendis og dvöldu þar árum saman. Skáldin fengu þar yrkisefni, að kveða um Noregs konunga og aðra stórhöfðingja, og halda svo uppi merkum atburðum. Margir Íslendingar tóku þátt í orustum og voru við mörg stórtíðindi. Þeir sögðu og sögur og tíðindi, er þeir komu heim aptur til Íslands, og höfðu sagnaritararnir þaðan í raun rjettri margt af því, sem þeir rituðu síðar, því þessi tíðindi geymdust opt vel, af því að maður sagði manni. Af Hungurvöku má sjá, hve feginsamlega menn tóku slíkum tíðindum og frásögn, þá er Magnús biskup Einarsson kom heim úr vígsluferð sinni (1135), og svo mun hafa verið optar. Biskup kom út í Eyjafirði og reið til alþingis, og kom þar, þá er menn voru að dómum og urðu eigi ásáttir um eitthvert mál. Maður einn kom þá að dóminum, og sagði, að nú riði Magnús biskup á þingið. En menn urðu svo fegnir þeirri sögu, að allir menn gengu þegar heim á bæinn. Biskup mun fyrst hafa gengið í kirkju, er hann steig af baki, og síðan gekk hann út á hlaðið fyrir kirkju, og sagði þá öllum mönnum þau tíðindi, er gjörst höfðu í Noregi, meðan hann var utan, og þótti öllum mikils um vert málsnilli hans og skörungsskap.[1])

---

[1]) Bps. I, 77.

Sumir Íslendingar voru svo fróðleiksfúsir, að þeir notuðu hvert tækifæri til þess að spyrja fróða menn, gamla og reynda, um merka menn og atburði. Einn af þess konar mönnum hefur Oddur Kolsson verið, sonarsonur Halls af Síðu. Ari fróði »ritaði, sem hann sjálfur segir, æfi Noregs konunga eptir sögu Odds«, en hann »nam af Þorgeiri afráðskoll, þeim manni, er vitr var ok svá gamall, at hann bjó þá í Niðarnesi, er Hákon jarl inn ríki var drepinn« (995)[1]). Af þessu má sjá, að Oddur hefur hlotið að fara til Noregs og hefur þess eigi verið getið hjer fyr. Hann hefur haft þar vist sem Þorgeir afráðskollur átti heima, líklega í Niðarósi, og heyrt hann segja af æfi Noregs konunga, spurt hann og fræðst af honum, og það varð Ara fróða að notum. Utanferð Odds hefur varla verið síðar en um 1065, og hefur Þorgeir þá verið kominn á níræðisaldur. Hann þarf eigi að hafa verið sjálfstæður bóndi í Niðarnesi 995, þótt sagt sje, að hann hafi búið þar. Svo mátti að orði kveða, ef hann hefur verið þar hjá foreldrum sínum eða móður sinni, fyrir búi hennar, og búið þar síðan. Kolur Hallsson, faðir Odds, var í förum um 1043—1044 og hefur Oddur verið fæddur um það leyti. Miklu fyr getur hann ekki verið fæddur, því að hann hefur verið á lífi og andlega ern um 1120, þá er Ari fróði tók að rita Íslendingabók hina fyrri, en þaðan hefur Snorri þetta. Oddur hefur því verið um tvítugt, er hann var erlendis um 1060—1065.

Ferðir útlendinga til Íslands voru venjulega kaupferðir, en þangað komu líka ýmsir aðrir en kaupmenn. Ferðir kristniboðanna og biskupanna voru hinar þýðingarmestu. Sumir þeirra voru ágætismenn og unnu landsmönnum mikið gagn.

## II. Fáein orð um fartekju.

Siglingar milli Íslands og annara landa áttu sjer einungis stað á sumrum. Ef menn voru í hafi fram á vetur, var það eigi af fúsum vilja, heldur sökum þess að menn fengu ekki byr eða af annari óhepni.

Menn sigldu venjulega að eins einu sinni yfir hafið á

[1]) Hkr., formálinn; Ól. s. s., formálinn.

hinu sama sumri, og voru því á Íslandi eða í útlöndum hinn næsta vetur, rjett eptir því sem á stóð. Síðan siglu þeir heim sumarið eptir. Stundum bar það þó við, að menn færu báðar leiðir sama sumarið, og var það kallað að sigla eða fara tvívegis. Það vakti eptirtekt, og er þess því venjulega getið í sögunum, ef þeir menn, sem sögur eru af, gerðu það.[1])

Þá er menn vildu fara utan, urðu þeir að biðja stýrimann fars á því skipi, sem þeir ætluðu með. Hann veitti far og tók við mönnum í skip, ef rúm leyfði, og ef engar sjerstakar ástæður voru til að synja þess. Ef fjörbaugsmanni var beiðst fars, varð þó stýrimaður að ráðfæra sig við skipverja, og eins, ef skipið var hlaðið[2].) Eigi mátti taka fleiri menn til skips, en það bæri vöru þeirra. Ef út af því var brugðið, áttu þeir að ganga af skipi, er síðast komu til skips með föt sín og minst höfðu unnið að því að búa skipið; skyldu þá svo margir ráðast úr skipinu sem þurfti til þess að það yrði fært. Þá var skip hlaðið, er þrír fimtu hlutar þess voru í kafi, en tveir fyrir ofan vatn, mælt á miðju skipi.

Stýrimenn áttu að búa svo skip sitt að öllu, að vel væri fært. Af vatni mátti eigi vera minna en sáld handa hverjum sex mönnum. Stýrimenn fengu leigu fyrir hvern mann, er fór á skipinu, og einnig fyrir búðargögn. Skipsleigu hálfa, eða fargjald hálft, átti að greiða þegar neytt var segls, en alla þegar komið var til annars lands, svo nes ganga af meginlandi út um skutstafn þeim eða í akkerissát.[3])

Hásetar áttu að greiða stýrimönnum skipsleigu, en þeir fengu allir jafnmikið rúm í skipinu fyrir vörur, sem þeir áttu eða gátu flutt í skipinu. Vörunum var hlaðið í búlka og hann bundinn[4]), og átti hver maður að leggja til húðir um vöru sína, »svá at jafnmargir sekkir sé undir jafnmikilli húð«.[5])

Ef menn voru svo staddir í hafi, að meira hlut manna þykir ráð að kasta nokkru af farminum fyrir borð, þá átti að kasta því fyrst, sem efst var af þunga vöru; »en jafnt

---

[1]) Gull-Þ. 8; Bj. Hít. 3/6; Hkr. II, 125/273, 126/277; Nj. 2/5—8; Ljós. 180, 202; Heið. 67; Fms. II, 69—72; VI, 119; Ann. IV, 1188, sbr. Grág. Ia, 241, II, 91. [2]) Fóst. 62, 80; Hksb. 387—88; Flat. II, 204; Grág. Ia, 89, II, 282. [3]) Grág. I b, 69, 71. [4]) Eyrb. 39/69 sbr. Msk. 106, 107; Fms. VI, 378. [5]) Grág. I b, 71—72.

skal allra skaði verða, þat er kastat er, þótt fáir hafi átt. Alla aura skal jafnt skerða«.[1])

Þá er svona var ástatt um skipverja, eins og í fornlögum vorum er gert ráð fyrir, er harðla eðlilegt, að þeir sjeu allir nefndir kaupmenn.

Einnig er það líka eðlilegt eins og stundum er getið um í fornsögunum, að stýrimenn spyrji þá, sem báðu fars, um fararefni þeirra og farareyri.[2]) Hásetar og farþegar áttu eigi að eins að greiða sýrimanni skipsleigu, heldur áttu þeir einnig að fæða sig sjálfir á leiðinni. Voru því venjulega nokkrir, tveir eða fleiri, skipverjar saman í mötuneyti, og voru þeir nefndir mötunautar.[3]) Kaupmenn höfðu lengi framan af enga matsveina, en mötunautar hlutuðu með sjer, hverjir skyldu halda búðarvörð dag frá degi, er þeir voru á landi, og matreiða. Á meðan þeir voru í hafi, bjuggu þeir við þurran mat. Varð því hver skipverja að hafa vistir, farnesti, um haf.[4])

Farþegar áttu að vinna þau verk, sem þurfti á leiðinni, ausa skip, vinna að seglum o. fl., til jafnaðar við háseta, nema þeir keyptu af sjer hlutverk sitt[5]). Á þeim var enginn verulegur munur í upphafi, en með tímanum breyttist það. Það segir sig líka sjálft, að höfðingjar á Sturlungaöldinni, sem fóru með föruneyti á milli landa, unnu eigi sem hásetar. Og þess þarf varla að geta, að aldraðir menn og örvasa og konur hafa eigi heldur gert það.

Stundum er þess getið, að farþegar höfðu mikla vöru með sjer til skips[6]), en stundum höfðu þeir lítil fararefni og þraut vist þeirra í hafi. Arnbjörn Ásbrandsson kvaðst eigi hafa meiri fararefni, en liggja mætti á búlka. Í bagga hans voru 360 álnir vaðmála og 12 vararfeldir og farnesti hans.[7])

Höfðingjar sumir á Sturlungaöldinni fóru utan með allmikið af vörum. Ferðir þeirra kostuðu mikið, er þeir höfðu fylgdarmenn og skósveina, og þá þurftu þeir mikinn farareyri. Stundum fóru þeir líka með vörur til þess að selja þær og kaupa aðrar. Þá er Guðmundur Arason fór utan

[1]) Grág. I b, 71. [2]) Ljós. 8/140; Nj. 87/412—413; Grett. 17/54; Eyrb. 39/69. [3]) Grág. Ia, 172—173, 228; II, 73, 338. [4]) Eyrb. 39/69—70; Nj 87/410—13; Gunnl. 3/199; Fóst. 72. [5]) Fóst. 81—82; Grett. 17/56 17/61. [6]) Lax. 20/60—61; Fóst. 81. [7]) Eyrb. 39/70.

til biskupsvígslu, fór hann með tíundavöru sína. Sturla Sighvatsson dró vöru að sjer, er hann bjóst utan 1233. Þórður kakali bróðir hans fekk sextíu hundraða vaðmála til fararefna hjá Kolbeini unga 1245, og var sú vara færð til Hvítár og fór Svarthöfði Dufgússon utan með hana. Útanferð Þórðar fórst fyrir það sumar, en Svarthöfði keypti vín mikið fyrir vöruna og kom út með það í Vestmannaeyjum sumarið eptir.[1])

Svo mikla þýðingu lögðu Íslendingar í fornöld í utanfarir ungra manna, að það er gert ráð fyrir því í lögum þeirra, að feður eða foreldrar gefi sonum sínum fje »til farar«, utanferðar, líkt og til »kvánarmundar«.[2])

Skip þau, sem komu til Íslands, voru flest knerrir, almennustu kaupskipin á söguöldinni og lengra fram eptir öldum. Byrðingar komu einstaka sinnum til Íslands, en voru mest notaðir til vöruflutninga með ströndum fram. Um 1240 eru bussur fyrst nefndar á Íslandi. Þær voru breiðar og miklar, töluvert stærri kaupskip en knerrirnir, enda var stundum margt manna á þeim. Þær áttu og að vera rammgervar.

## III. Farbann og rjettur.

Á hverju ári komu venjulega einhver skip til Íslands og sigldu þaðan. Hve mörg þau voru er nú ókunnugt, en þau voru mismörg. Það þótti auðsjáanlega óvenjulega mörg skip, er komu til landsins 1118, og hafa þau því venjulega verið töluvert færri. Stöðugar samgöngur allan þjóðveldistímann voru að eins milli Íslands og Noregs, en einstaka sinnum slitnuðu þær þó, ár og ár í senn; en það hefur varla komið opt fyrir, ekki miklu optar en getið er í heimildarritunum, því að slíkt vakti alment athygli og gleymdist ekki fljótt. Þá er skip komu engin eða sigling var mjög lítil, var það venjulega annaðhvort sökum óárans eða ófriðar. Tvisvar, 1187 og 1219, er þess getið í annálum, að ekki hafi komið skip af Noregi til Íslands. 1187 var grasleysa mikil og óáran um

[1]) Guðm. s., Bps, I, 481; Sturl. I, 267, 448. II, 83, 85, 103.
[2]) Grág. Ia, 221, 228; II, 64–66, 73.

sumarið og nautadauði um veturinn. Þá var mikill innanlandsófriður í Noregi, og mun hann og hallærið hafa valdið því, að sigling var engin.[1]) 1219 var ófriðurinn milli norrænna kaupmanna og Oddaverja orsök til þess að ekki kom skip af Noregi; er sagt í sögu Guðmundar biskups, að þá væri farbann,[2]) og mun eiga að skilja það svo, að Skúli jarl, sem þá rjeð mestu í Noregi, hafi bannað norrænum kaupmönnum að sigla til Íslands. Þetta ár hefur þó skip farið af Íslandi til Noregs, því þá fór Helgi Gilsson utan, hvort sem hann hefur farið með skipi, sem þá var í Hvítá eða á öðru skipi. Árið 1176 hefur lítil eða engin sigling verið af Noregi til Íslands sökum ófriðar (sbr. bls. 816). Stundum hindraði hafís og harðindi siglingar til norðurhluta landsins, líkt og kunnugt er frá vorum tímum. Brennusumarið 1197 og sumarið eptir komu engin skip fyrir norðan land; voru þá íslög og óöld mikil, og fellivetur 1197—1198.[3])

Þá er þeir Eiríkur konungur blóðöx og Hákon konungur Aðalsteinsfóstri deildu um Noreg (um 935), var að sögn Egils sögu »farbann til allra landa úr Noregi, og komu það sumar engi skip til Íslands og engi tíðindi úr Noregi«.[4]) Um þetta er ekkert nánara kunnugt, en nokkur vafi leikur á þeim atburðum, sem settir eru í samband við þetta, sjerstaklega tímatalinu (sbr. að fr. bls. 635). Að fornu fari átti Noregs konungur sem æðsti herforingi að ráða boði og banni, og því rjett til að banna mönnum að fara af landi burt; urðu menn sekir við konung, ef í óleyfi hans var farið.[5]) Bannrjettur þessi er svo gamall, að farbann hefur vel getað verið úr Noregi, eins og segir í Egils sögu. Þá er ófriður var, voru allir vopnfærir þegnar konungs skyldir að verja landið með honum, og máttu eigi fara burtu nema þeir fengju orlof.[6]) En sjerstaklega gilti þetta þó um alla hirðmenn konungs. Þeir unnu honum trúnaðareiða og voru skyldir að vera ávalt hjá konungi, og máttu ekkert fara burtu nema í orlofi hans. Þegar á dögum Haralds hárfagra

[1]) Ann. IV, V, VIII; Guðm. s., Bps. I, 432; Sturl. I, 149. [2]) Bps. I, 510. [3]) Sturl. I, 199; Ann. IV; Guðms. s., Bps. I, 455. [4]) Eg. 59/214. [5]) Frostaþingslög hin eldri, N. g. L. I, 27/204; Gulaþingslög, s. st. I, 295/96, 313/103. [6]) Sbr. T. H. Aschehoug, Statsforfatningerne i Norge og Danmark indtil 1814, bls. 38; A. Taranger, Retshistorie II, 190 o. ef., 304—5.

urðu þeir að biðja orlofs, ef þeir fóru burt frá hirðinni.[1]) Hið sama heimtar Magnús lagabætir í hirðskrá sinni fjórum öldum síðar.[2]) En sumir Noregs konungar vildu ráða boði og banni um sem flest, og þeir reyndu að auka vald sitt með því að neyta bannrjettar síns við ýms tækifæri. Sjerstaklega gerði Haraldur hárfagri það. Hann reyndi að stöðva för manna úr Noregi til Íslands, er það var óðum að byggjast, með því að banna mönnum að fara. Honum tókst það ekki. Aptur á móti fekk hann því komið á, að hver maður, sem eigi væri frá því skilinn, skyldi gjalda konungi fimm aura, ef hann færi úr Noregi til Íslands, og var það upphafið að landaurunum.[3]) Aðkomumönnum hjeldu konungarnir kyrrum í Noregi með því að banna þeim að fara burtu, og venjulega fengu þeir vilja sínum framgengt, því að þeir voru meiri máttar. Er nóg að minna hjer á, að Ólafur Tryggvason bannaði Íslendingum 999 að fara burtu úr Niðarósi, er hann ætlaði að kristna Ísland, og hjelt fjórum hinum helstu þeirra í gíslingu hjá sjer árið eptir (sbr. bls. 621); einnig að Ólafur Haraldsson hjelt íslenskum höfðingjasonum kyrrum í Noregi 1226, er hann var að reyna að ná Íslandi undir sig (sbr. bls. 652, 666, 693).

Enginn konungur beitti þó farbanni svo opt gegn Íslendingum sem Hákon konungur Hákonarson. Hann neitaði mörgum Íslendingum um heimfararleyfi og hjelt þeim árum saman í Noregi, eins og fyr er getið um marga, ef hann sá að hann gat haft hag af því. Hann gerði þetta eigi að eins við þá, sem voru honum handgengnir, heldur og við aðra, sem eigi höfðu gerst hirðmenn nje gengið í þjónustu hans á annan hátt, og voru honum því óháðir, að öðru en því, að þeir voru komnir í ríki hans. Árið 1243 stendur í Skálholtsannál »farbann úr Noregi«.[4]) Þetta mundi annálaritari eigi hafa ritað, ef þetta hefði eigi átt við Íslendinga, sem voru þá í Noregi, líklega Órækju Snorrason, Gissur Þorvaldsson og fleiri, sem vildu fara heim til sín. Að þá hefur eigi verið neitt alment farbann úr Noregi, sjest af því, að skip sigldu það ár eins og undanfarandi og eptirfarandi ár milli

[1]) Eg. 8/23, 22/67–68. [2]) N. g. L. II, 425; sbr. Aschehoug, Statsforfatningerne bls. 33 o. ef.; Taranger, Retshistorie II, 209 o. ef. [3]) Íslb. 1/4. [4]) Ann. V.

Noregs og Íslands. Farbann þetta hefur verið eitt af hinum mörgu farbönnum, sem Hákon konungur setti gegn heldri mönnum af Íslandi. Ef til vill hefur annálaritarinn[1]) árfært það skakt, því þetta ár er eigi getið sjerstaklega um neitt farbann, og að það ætti að vera árið 1245, þá er konungur bannaði Þorgilsi skarða að fara burtu, þótt hann hefði að eins verið i Noregi um veturinn og hefði þá eigi gengið í þjónustu konungs. Þó þarf það eigi að vera svo, því að eins og segir i Sturlungu, hjelt Hákon konungur i þann tíma margra ríkra manna sonum i Noregi, því að hann hafði mjög i huga að fá skatt af Íslandi.[2]) Þessi orð eiga eigi að eins við árið 1245, heldur og um langt skeið af ríkisárum hans.

Hákon konungur beitti þó banni gegn fleirum en Íslendingum. Árið 1261 komu sendimenn Alexanders Skotakonungs til Noregs. Þeir fóru meir með faguryrðum en trúnaði, og fóru svo i brott, að enginn maður vissi af. Hákon konungur sendi þá menn eptir þeim, og höfðu þeir þá aptur með sjer. Sagði konungur, að þeir skyldu vera i Noregi um veturinn fyrir það, að þeir vildu fara orlofslaust framar en aðrir sendimenn.[3])

Þá er þeim einum var bannað að fara, sem voru farþegar og ráku engan kaupskap, höfðu bönn þessi engin áhrif á verslunina, nema því að eins að svo mörgum væri bannað að fara, að eigi væri hægt að fá næga háseta á kaupskipin, eins og stundum bar víð, þá er ófriður var og allur almenningur var kvaddur til vopna. Ef aptur á móti íslenskum kaupmönnum og skipseigendum var bannað að fara, eins og Ólafur Tryggvason gerði, var það bæði skaði fyrir þá, sem hlut áttu að máli, og kaupskap Íslendinga. Ef slíkt kom fyrir þá er hart var í ári, gat það haft mjög skaðlegar afleiðingar fyrir Íslendinga yfirleitt.

En Noregs konungar tóku einnig snemma að leggja stundum bann fyrir það, að fluttar væru af landi burt nauðsynjavörur, svo sem korn og skreið, ef þeim þótti svo ráð við horfa. Noregur er eins og Ísland að því leyti, að landsmenn gátu eigi fengið viðurværi sitt af þeim afurðum einum,

---

[1]) Ann. V. [2]) Sturl. II, 142. [3]) Fms. X, 104—105; Eirsp 454; Frís. 564; Flat. III, 210.

er landið gefur af sjer. Af sumu fæst þar miklu meira en landsmenn geta neytt sjálfir. Þess, sem þá vanhagar um til lífsuppeldis, verða þeir að afla sjer með vöruskiptum. Þar sem hagur landsins er slíkur, koma þar stundum hallæri og hungur. Bændur gáfu konungunum það opt að sök,[1] og þeir reyndu því eðlilega að koma í veg fyrir sult og seyru með því að banna að flytja korn og annan mat af landi burt. Á þann hátt fengu konungarnir snemma rjett til að ráða, hvaða vörur væru fluttar af landi burtu. Þeir gátu því tekið fyrir allan vöruútflutning. Jafnvel sýslumenn eða embættismenn konungs gátu fyrir hans hönd lagt bann á vöruflutning úr landi. Aptur á móti mátti ekki leggja bann fylkna á millum af korni nje af mat, nema með ráði konungs.[3]) Árið 1023 bannaði Ólafur konungur Haraldsson að selja korn, malt og mjöl í brott af Ögðum, Rogalandi og Hörðalandi; ljet hann það fylgja boði sínu, að hann mundi koma þangað með liði sínu og fara að veislum. Bann þetta var á móti Hálogalandi, nokkrum hluta ríkis hans, þar sem árferði var þá ilt og sæði brugðust, en konungur vildi fyrst og fremst sjá fyrir því, að nóg kornföng væru suður í landi, þar sem hann ætlaði sjálfur að vera.[4])

Haraldur harðráði leyfði 1057 að flytja mjöl á fjórum skipum til Íslands og bannaði að selja það mjög dýrt, eins og fyr er sagt. Af ræðu Sverris konungs í Björgyn 1186 má sjá, hvernig hann leit á aðflutning og útflutning á vörum. Hann þakkaði öllum þeim mönnum, sem fluttu þá hluti til Noregs, »er eigi má missa og land þetta bætist við«. En hann ávitti »þýðverska menn« harðlega fyrir það, að þeir flyttu af Noregi smjör og skreið, er mikil landseyra er að, en hefðu flutt til bæjarins vín, er margt ilt hefur af staðið, en ekki gott. Hann kvað erindi þeirra hafa orðið »oss óþarft og ríki voru«, og rak þá í braut (tilvitnanir að fr. bls. 749).

Þá er alt gekk vel, var venjulega eigi erfitt fyrir Íslend-

---

[1]) Shr. t. d. Hkr. I, 16/252. [2]) Frostaþl. VII, 27, N. g. L. I, 204; Landsl. VIII, 25, N. g. L. II, 164. [3]) Frostaþl. V, 43, N. g. L. I, 182; Gulaþl. 313, N. g. L. I, 103; Landsl. VIII. 25. [4]) Ól. s. m. 35; Hkr. II, 115/238, 117/243—249; Ól. s. s. 111. 113—115; Fms. IV 251, 255—259; Flat. II, 193, 228.

inga að fá orlof hjá Noregs konungi, en Íslendingar fundu þó snemma, hve ástand þetta gat verið hættulegt fyrir þá, er þeir voru í Noregi, og Ísland í heild sinni, er harðæri kom. Þeir höfðu eigi búið lengi á Íslandi, áður en þeir fengu að reyna, hvernig veðráttan gat verið þar með köflum, og hvílík hætta gat stafað af því, ef engin kaupskip komu til landsins. 975 kom og hið mesta hallæri og margir dóu af hungri. Um landaurana urðu stundum deilur, og þeir guldust misjafnlega. Það voru því ýmsar ástæður til þess, að Noregs konungur og Íslendingar gerðu samning sín á milli um rjett Íslendinga í Noregi og Noregs konungs á Íslandi. Þá er samningur þessi var gjörður, hefur verið farið eptir þeim venjum, sem komnar voru á um sumt, en að öðru leyti eptir því, sem best þótti við eiga og konungi og Íslendingum kom saman um.

Samningur þessi er nú til í því formi, sem Gissur biskup Ísleifsson gaf hann út í, og átta aðrir nafngreindir menn með honum, rjett í lok 11. aldar. Þeir staðfestu með eiði, að Ísleifur biskup og menn með honum hefðu svarið, að þennan rjett gaf Ólafur hinn helgi Íslendingum eða betri.[1])

---

[1]) Grág. Ib, 195—97; III, 463—66; Dipl. I, 54, 64—70; sbr. Björn M. Ólsen, Runerne i den oldislandske litteratur, 129—40, og Íslensk smárit II, Rjettur Íslendinga í Noregi og Norðmanna á Íslandi, Kmhöfn 1913. Eins og prófessor Ólsen hefur leitt rök að, mun Gissur biskup og átta Íslendingar með honum hafa borið vitni um rjett Íslendinga á Íslandi, og það á alþingi, á ríkisárum Magnúss berfætts, um 1100; en jeg get eigi verið honum samþykkur um, að Teitur, sem nefndur er næst á eptir Gissuri biskupi, sje Teitur Ísleifsson bróðir biskups. Í Konungsbók af Grágás stendur »Teitr f. ei.« og sama skammstöfunarmerki bæði á eptir f og ei ofarlega í línu. Það er einnig á eptir »Marc.« (= Markus). Þetta merki er hið vanalega skammstöfunarmerki í latneskum handritum fyrir »us«. Þetta er því rjett lesið »filius ejus« af Vilhjálmi Finsen og Jóni Sigurðssyni. Auk þess er »frater« venjulega skammstafað með fr. eða öðru vísi en »filius«. Þótt Teitur Ísleifsson eptir aldrinum að dæma hefði betur mátt bera vitni um þetta en Teitur Gissurarson, er þó mjög líklegt, að Teitur yngri hafi getað borið vitni um þetta að sögn afa sins.

Eptir liðveislu Íslendinga við Gisl Illugason mun Magnús konungur hafa borið þykkju til þeirra. Hann mun hafa þröngvað einhverjum þeirra til þess að fara í leiðangur með sjer vestur um haf 1098, eins og B. M. Ólsen bendir á. Það hefur þeim þótt rangindi

Samningur þessi veitti Íslendingum mikil rjettindi í Noregi, en að eins gegn miklum skyldum við konung. Um efni hans má vísa til Íslenskra smárita, nr. II. Hjer skal að eins getið þess, sem snertir málefni þetta sjerstaklega.

Íslendingar skyldu hafa höldsrjett í Noregi á meðan þeir voru í kaupferðum. Ef þeir staðfestust þar, höfðu þeir höldsrjett þrjá vetur, en síðan slíkan rjett, sem menn báru þeim vitni til.

Íslendingar máttu höggva við þann allan í mörk konungs, er þeir vildu; var það eigi lítils virði fyrir þá á meðan þeir áttu kaupskip. Er eigi undarlegt, að þeir fóru opt utan að sækja húsavið, er þeir höfðu þennan rjett.

Íslendingar áttu útför til Íslands, nema vís væri her í Noregi. Með þessu vildu þeir tryggja sjer það, að Noregskonungur bannaði þeim ekki að fara heim til sín. En þetta gat eigi náð til þeirra Íslendinga, sem gerðust konungi handgengnir, því að þeir máttu ekkert fara frá hirðinni nema með leyfi konungs.

---

og háskasamlegt. Teiti Gissurarsyni hefur verið kunnugt um rjett Íslendinga í Noregi og samning þennan. Hann hefur þá gerst aptur foringi landa sinna, og fengið föður sinn, lögsögumanninn og fleiri merka menn, sem mundu vitnisburð afa hans, til þess að vitna um rjett konungs á Íslandi og Íslendinga í Noregi og staðfesta það með eiði. Af því að Teitur Gissurarson var foringi þessa máls, hefur hann einnig staðfest vitnisburðinn, og hann hefur að öllum líkindum getað borið um það með rjettu, þótt hann hafi eigi getað sökum æsku verið við, er afi hans bar vitni um þetta með öðrum mönnum á alþingi, því að afi hans mun hafa sagt honum það síðar og kent honum rjett þennan. Ísleifur biskup kendi mörgum ungum mönnum, eins og kunnugt er, og ekkert er líklegra en að hann hafi kent líka Teiti sonarsyni sínum, þá er hann var drengur, og faðir hans var í förum. Hann mun hafa sagt honum margt úr lögum landsins og af ýmsum viðburðum. Eigi er þá annað eðlilegra, en að biskup hafi ímyndað sjer, að Teitur mundi einhvern tíma fara utan, eins og hann sjálfur og margir ættmenn hans, og jafnvel vera í förum nokkur ár; fátt þurfti drengurinn þá fremur að þekkja en rjett Íslendinga í Noregi. Ísleifur biskup hefur því kent hann sonarsyni sínum og sagt honum af vitnisburði sínum, enda hefur biskup síst viljað láta hann gleymast; reynslan hafði kent honum annað.

Skyldur Íslendinga í Noregi við konung, að gjalda landaura og að verja Noreg, voru þungar, en þeim þótti þó tilvinnandi að gangast undir þær, til þess að fá það, sem þeir fengu í staðinn, því að þeir gátu eigi án þess verið.

Landaura átti hver frjáls karlmaður að gjalda, sem höldsrjett vildi hafa. Landaurarnir voru í samningnum ákveðnir sex feldir og sex álnir vaðmáls (= 78 álnir vaðmáls) eða hálf mörk silfurs. Það verður kringum eitt til tvö hundrnð krónur eptir núverandi verðlagi og verðgildi silfurs nú á dögum, og fer það eptir því, í hverju þeir voru greiddir. Landaurar fjellu í gjalddaga, er menn komu í akkerissát eða í landfestar. Norðmenn þurftu eigi að greiða neitt gjald á Íslandi, sem svaraði til landauranna, til þess að hafa þar sama rjett sem landsmenn.

Ef her rjeðst inn í Noregi og menn voru kvaddir af konungi til vopna og landvarnar, áttu tveir Íslendingar af hverjum þremur, sem voru staddir í Noregi, að fara með konungi, en hinn þriðji var laus við herþjónustu, líklega svo að hann gæti varðveitt skip þeirra og vörur eða farið með það.

Þessi skylda skýrir það, hvernig á því stóð, að Íslendingar voru svo opt í orustum með Noregs konungum. Varnarskylda fjell Íslendingum á þeim tímum, en þó sjerstaklega á söguöldinni, ljettar en slík skylda mundi falla þeim á vorum dögum; þeir voru þá vanir vopnaviðskiptum, og sumir þeirra leituðu sjer atvinnu við það, að fara í hernað og víking. En stundum hefur það þó eflaust komið sjer illa að vera kallaður til landvarnar, er menn höfðu búið skip sitt til Íslands. Eptir því sem á stóð, mun það þó fremur hafa reynst Íslendingum hagur en óhagur, að landvarnarskylda þeirra var ákveðin, því að samningur þessi varð þeim til hlífðar gegn því, að fara í herferðir til annara landa, ef þeim var það nauðugt. Landvarnarskylda þeirra var einnig ákveðin minni en Norðmanna, því að þá er her rjeðst inn í landið, átti hver vopnfær Norðmaður að fara, »bæði þegn og þræll«, að

minsta kosti úr þeim landshluta, sem á var ráðist.[1]) —

## IV. Kaupstaðir í Noregi; ólík verslunarskilyrði.

Rekstur verslunarinnar milli Íslands og annara landa breyttist mjög mikið á þjóðveldistímanum, því að verzlunin gekk úr höndum Íslendinga í hendur Norðmanna, eins og sjá má af því sem hjer er talið. Þótt ekkert sje nú kunnugt um hinn mesta hluta af þeim skipum sem sigldu á milli Íslands og annara landa, segir þó svo mikið af siglingum milli landa, að um þetta má fá glögga og alláreiðanlega hugmynd eins og það var í raun og veru. Það er augljóst að Íslendingar áttu lítið eða því nær sem ekkert af kaupskipum á Sturlungaöldinni, og að útlendingar ráku þá verslunina, aðallega Norðmenn.

Ef athugað er hvernig ástæður manna voru í Noregi og á Íslandi og verslunarskilyrði þau er þar voru, verður það í raun rjettri eðlilegt að svona skyldi fara um verslun Íslands við önnur lönd. Íslendingar gættu þess ekki, að halda við kaupskipastól sínum.

Þá er Ísland bygðist var engin kaupmannastjett í Noregi, og eigi heldur neinir kaupstaðir nema Túnsberg. Verslunin var bændaverslun; bændurnir fóru sjálfir í kaupferðir og seldu afurðina af búum sínum og keyptu þær vörur, sem þeir þurftu á að halda og þeir gátu eigi aflað sjer heima. Þær voru eigi margar, því að lífshættir manna og viðurværi var einfalt og óbrotið. Bændur, hinir helstu eða auðugustu, áttu sjálfir kaupskip; þeir sigldu því til annara landa, er þeir þörfnuðust þess, og hinir minni bændur í nágrenninu rjeðust í skip með þeim með vörur sínar og voru hásetar. Landnámsmennirnir á Íslandi áttu einnig nóg af kaupskipum og fóru kaupferðir til annara landa. Svo gerðu og niðjar þeirra á söguöldinni. Á meðan Íslendingar stóðu líkt að vígi sem frændur þeirra í Noregi, gátu þeir rekið sjálfir verslun eins og þeir. En þetta breyttist algjörlega. Í Noregi uxu upp kaupstaðir og ný lífsskilyrði handa versluninni.

---

[1]) Gulaþl. 312, N. g. L. I, 102.

Breytingin byrjar með Ólafi Tryggvasyni. Hann ljet í lok 10. aldar reisa hús á Niðarbakka og efla til kaupstaðar, er nefndur var Niðarós (997)[1]. Eiríkur jarl var Niðarósi mótsnúinn, en ljet hefja kaupstað í Steinkerum og studdi hann.[2]) Þó fjekk kaupstaður þessi litla þýðingu, því að hvorki lá hann eins vel við verslun sem Niðarós, og varð ekki aðsetursstaður konungs nje efldur af þeim. Ólafur konungur Haraldsson ljet reisa konungsgarð í Niðarósi og kirkju (Clemenskirkju), og marka tóptir til garða og gaf bændum og kaupmönnum og öðrum, er húsa vildu. Ólafur konungur ljet víggirða nesið við Sarpinn í Raumelfi og efna þar til kaupstaðar. Hann ljet og húsa þar konungsgarð og gera Maríukirkju[3]). Haraldur harðráði ljet reisa kaupstað austur í Osló, og efldi mjög Niðarós.[4]) Í Víkinni voru margir kaupmenn, sem sigldu til Svíþjóðar, Danmerkur og í Austurveg, en líka stundum vestur á bóginn, og komu sumir þeirra til Íslands. Vestanverðu við Víkina var Túnsberg, og þaðan var vegurinn skammur austur til Konungahellu (Kongelf) við nyrðstu kvísl Gautelfar, syðst á landamærum Noregs.

Uppi í landi var Hamarkaupangur og voru þar slegnir peningar á 11. öld; hafa nokkrir þeirra fundist og vitna um það;[5]) en kaupangur þessi hefur ekki haft neina sjerstaka þýðingu fyrir verslun Norðmanna við önnur lönd.

Allir þeir Noregs konungar, sem hjer ræðir um, áttu meira eða minna í ófriði, og gátu því eigi gefið sig alla við friðsamlegum störfum. Það gat hinn friðsami konungur Ólafur kyrri (1067—1093). Hann setti kaupstað í Björgyn; gerðist þar brátt mikið setur auðugra manna og siglingar kaupmanna af öðrum löndum. Um hans daga hófust mjög kaupstaðir í Noregi, og fólkið gerðist auðugt og ríkt.

Við fráfall Ólafs kyrra voru sex merkir kaupstaðir í Noregi, Konungahella, Sarpsborg, Osló, Túnsberg, Björgyn og Niðarós.[6]) Konungahella stóð í mestum blóma á dögum Sig-

---

[1]) Fsk. 113; Oddr, Fms. X, 294; Hkr. I, 7, 70/386; Frís. 142; Ól. s. s. 1; Fms. II, 27. [2]) Fsk. 138; Hkr. II, 41/59; Ól. s. s. 36; Fms. IV, 91; Flat. II, 39. [3]) Fsk. 149, 158; Hkr. II, 42/61, 53/78, 57/81; Ól. s. s. 1, 37, 42, 43, Ól s. m. 35, 45; Fms. IV, 93, 105; 107—8; Flat. II, 40, 47, 48; Fsk. 154; Hkr. II, 61/94; Ól. s. s. 49; Fms. IV, 121. [4]) Hkr. III, 58/153; Fms. VI, 296; Fsk. 264; Flat. III, 344. [5]) Yngvar Nielsen Af Noregs Historie. Stockholm 1904, bls. 71 sbr. bls. 96. [6]) Msk.

urðar Jórsalafara og var þá einhver hinn ríkasti kaupstaður í Noregi; sat konungur þar löngum til landsgæslu og efldi hann á margan hátt. En vorið 1135 rændu og eyðilögðu Vindur Konungahellu og náði hún sjer aldrei eptir það.[1])

Eptir fráfall Sigurðar Jórsalafara hófst langvinnur innanlands ófriður í Noregi; tóku þá kaupstaðir og verslun litlum framförum. Þó var þar efnt til nýrra smákaupstaða, sem Stafangurs og Lúsakaupangurs (inn í Sogni,[2]) en þeir fengu enga verulega þýðingu fyrir verslun Íslands. Aftur á móti var Björgyn jafnan mikill verslunarbær og rak mikla verslun við England.[3]) Þá er friður komst á 1240, á ríkisárum Hákonar konungs Hákonarsonar, blómgaðist verslun Norðmanna aptur um hríð, kaupstaðirnir stækkuðu og mannfjöldinn óx. Björgynjarkaupmenn ráku nú mesta verslun á Íslandi og drógu hana mikið úr höndum Niðaróskaupmanna.

Eptir það að kaupstaðirnir komu upp og efldust, minkuðu kaupferðir bænda. Í kaupstaðina fluttu ríkir menn, sjerstaklega til Björgynjar, og þar kom upp sjerstök verslunarstjett, einkum á 13. öld. Völdust opt hinir bestu menn til kaupmensku, eins og segir í Konungs skuggsjá.[4])

Í Konungs skuggsjá er lýst ástandinu í Noregi á miðri 13. öld. Kaupskapur þótti þá veruleg atvinna, ef menn báru kaupmannsnafnið með sóma, en þar voru líka mangarar og falsarar, sem gáfu sjer kaupmannsnafn og seldu og keyptu ranglega. Þess var krafist, að sá, sem vildi verða kaupmaður, aflaði sjer sjerstakrar þekkingar. Hann þurfti að hafa vit á vörum, því að hann átti að rannsaka varning sinn, meta hann í gott verð, en þó hæfilegt. Hann átti að afla sjer mikillar mentunar, ekki að eins andlega, heldur og í umgengni. Hann átti að kynna sjer löggjöf landsins, sjerstaklega um verslun. Hann átti að læra útlend tungumál og tölvísi

122, Fsk. 302, Hkr. III. 98/218; Frís. 252; Fms. VI, 432; Flat, III; Ordericus Vitalis, útg. af Duchesne i Scriptores Normannici, 767; þýðing P. Kierkegaards (Historiske Beretninger om Normanner og Angelsaxere fra Orderik Vitals Kirkehistorie. Kbh. 1893.) II, 376—77.

[1]) Msk. 191, Hkr. III. 19/289, 32/312—13; Fms. VII. 110, 159; Hkr. III, 9—12/329—39; Fms. VII, 186—96. [2]) Fms. VIII, 57, 310, 437; 194, 200, 439. [3]) Sbr. Al. Bugge í Hist. Tidsskr. (norsk), 3 R. IV, 9 o. ef. [4]) Kgsk. (Christjania 1848) 5. Um Kgsk. sjá Ludvig Daae, Studier angående Kongespejlet, í Aarb. f. nord. Oldkh. 1896.

og þekkja gang himintunglanna og fleira, er laut að siglingum.

Kaupmenn urðu opt að leggja sig í lífsháska. Fyrir því þótti rjettast að hætta sjálfur sjóferðum, er efni leyfðu og menn höfðu kannað siðu annara þjóða. Kaupskapur var einnig hættulegur atvinnuvegur, og þótti því ráðlegast að leggja tvo þriðju hluta fjár síns í góðar jarðir, er menn urðu auðugir, en hafa að eins þriðjunginn í kaupförum.[1])

Auðugustu kaupmennirnir í Noregi hafa eflaust lagt mest fje sitt í jarðir, en það varð til þess, að Noregur eignaðist eigi svo duglega og öfluga kaupmannastjett, að hún gæti kept við Hansakaupmennina, þá er þeir tóku að reka verslun í Noregi. Þess vegna náðu þeir norsku versluninni undir sig.

Á Íslandi voru ekki öll hin sömu lífsskilyrði sem í Noregi. Sumt þróaðist þar því á annan hátt, en sumt náði þar engum þroska.

Á Íslandi risu engir kaupstaðir upp, og engin verslunarstjett. Fjárafl og auður var þar miklu minni. Alt það, sem kaupskap snerti, sat við hið sama eða hnignaði. Kaupskipaeign landsmanna minkaði, eptir því sem þau gengu úr sjer. Framan af eignuðust menn þó eigi svo sjaldan skip, en það varð sjaldnar, er fram liðu stundir, og hvergi nærri nóg til að fylla í skarðið fyrir þau, sem ónýttust. Kaupskip landsmanna týndu því tölunni smátt og smátt, en jafnt og þjett, þangað til nær ekkert kaupskip var orðið eptir í lok Sturlungaaldarinnar.

Íslendingar stóðu miklu ver að vígi við kaupskap en Norðmenn. Á Íslandi var skógur svo smávaxinn, að landsmenn fengu eigi innanlands húsavið eða við í hafskip. Hann urðu þeir að sækja til Noregs, og þótt þeir á söguöldinni fengju rjett til þess að höggva við í mörk konungs, var það samt svo erfitt að sækja við til Noregs, að fæstir fengu dregið að sjer þann við, sem þeir þurftu í raun rjettri til húsagjörðar, hvað þá meira. Þessi viðarskortur var Íslendingum tilfinnanlegur. Ef skógar hefðu verið eins stórvaxnir á Íslandi og í Noregi, hefði kaupskipum þeirra eigi fækkað svo skjótt.

Kaupskapur Íslendinga var aldrei annað en bænda-

[1]) Kgsk. 5—9.

verslun, rjett eins og á 9. og 10. öld í Noregi. Íslenskir kaupmenn voru aldrei annað en tækifæriskaupmenn, bændur, sem voru í förum nokkur ár, en höfðu annað takmark fyrir augum. Þá er þeir höfðu aflað nokkurs »fjár og frama« og kynt sjer siðu annara manna, ljetu þeir af kaupferðum og kaupskap, og gerðust bændur. Búskapur, landbúnaður, var aðalatvinna landsmanna, og takmark flestra manna var þá að verða gildur og góður bóndi. Ofan á þetta bættist fátækt landsins og landsmanna, og hafði hún mikil áhrif á verslun Íslendinga. Þeim bændum fækkaði óðum, sem höfðu efni á að eiga skip og reka kaupskap til annara landa. Landsmönnum varð það að lokum erfitt og ofvaxið. Þeim varð því það fyrir mestu, að nauðsynjavörur væru fluttar til landsins, svo að menn dæju eigi úr hungri, þá er harðnaði í ári. Hungurdauða þurfti að afstýra, og þar sem menn litu alt öðru vísi á verslun á 13. öld en á vorum dögum, og hún var þá talin bæði hættuleg og óviss atvinna, þóttust landsmenn gera vel að koma svo ár sinni fyrir borð, er þeir gengu undir Noregs konung, að hann skyldi eiga að sjá um, að sex kaupskip hlaðin vörum gengju ár hvert af Noregi til Íslands.

En það er nú orðið augljóst, að það er eigi rjett, sem Íslendingar hafa ætlað, að landsmenn hafi mestmegis rekið sjálfir verslun sína við aðrar þjóðir á dögum þjóðveldisins, og að hún hafi horfið úr höndum þeirra er landið gekk undir Noregs konung.[1] Hún hafði öll að heita má gengið smátt og smátt úr höndum þeirra áður. En hins vegar er það eigi heldur rjett, sem Konráð Maurer segir, að Íslendingar hafi þegar um það leyti sem Grænland fanst, rekið lítið af verslun sinni sjálfir við önnur lönd.[2])

Á meðan verslunin var bændaverslun bæði í Noregi og á Íslandi, ráku Íslendingar mikið af henni sjálfir, en er það breyttist og kaupstaðir komu upp í Noregi, og ýmsir bæjarmenn tóku að gera þar kaupskap að æfistarfi sínu, hlaut bændaverslunin við önnur lönd að minka smátt og smátt bæði í Noregi og á Íslandi, uns hún hvarf úr sögunni alveg. Á dögum Ólafs kyrra óx verslun Norðmanna svo mikið, að Íslendingar gátu eigi kept við þá eptir það. Og hundrað árum

[1]) Búnaðarritið, IX. ár, bls. 52–54. [2]) Island, bls. 430.

síðar kom Sturlungaöldin með hinn langvinna ófrið, sem eyðilagði svo mikið.

Það þarf fjármagn til þess að reka verslun við önnur lönd. Norðmenn voru miklu auðugri en Íslendingar; þeir áttu kaupskip og gátu varið miklu meira fje til verslunar en Íslendingar. Siglingarnar í fornöld sýna það, hve nauðsynlegt það er fyrir landsmenn að eiga kaupför, og hve skaðlegt það er fyrir landið að láta útlendan auð, ekki síst frá stórþjóðunum, sem alt ætla undir sig að bæla, fá ofmikið vald í landinu. Það eru eptirtektarverð orð, sem hinn norski sagnaritari, prófessor Alexandir Bugge, hefur nýlega ritað[1]: »Með útlendu fjármagni eyðilögðum vjer Norðmenn Ísland, og Hansastaðirnir, Englendingar og Hollendingar stöðvuðu með því allar framfarir í voru eigin landi.« Þótt hjer sje djúpt tekið í árinni að því, er Ísland snertir, er þó mikill sannleikur fólginn í orðum þessum.

[1]) Hist. Tidsskr. 5 R. II, 377.

# Efnisyfirlit.

---

## Leiðrjettingar og viðaukar.

[Forseta hafa ekki borist neinar leiðrjettingar nje viðaukar frá öðrum höfundum enn þeim þremur, sem nefndir eru hjer á eftir, og þótti rjett að prenta það, sem frá hverjum kom, orðrjett eftir handriti hvers um sig með tilvitnun til ritgjörðanna.]

### I. Við ritgjörð Björns M. Ólsens: Um skattbændatal 1311 og manntal á Íslandi fram að þeim tíma.

Bls. 323 neðstu línu: Í stað: S 1 (Rangárvs., *les* S 2 (Árness.,
— 361, neðanmálsgrein 2, 5. línu: Í stað: 1/8 *les* 1/3
— 361, neðanmálsgrein 2, 7. línu: Í stað: 1/2 *les* 1/2 mörk
— 361, neðanmálsgrein 2: Aftan við neðanmálsgreinina bætist: Til samanburðar má geta þess, að í máldaga Laufásskirkju í Pjetursmáldögum (um 1394) játar sira Jón »at láta gjöra kirkju propitiatorium með silfr, þat er stæði 6 aura«, enn ef ekki irði neitt úr þessu, skildi kirkjan eiga hjá honum þrjú hundruð (Ísl. Fornbrs. III. 567.—568. bls.). Hjer er vafalaust átt við grip úr skíru silfri með gröfnu smíði og upphleiptu, sem á að vega 6 aura smíðaður, og jafngildir þá 3 hundruðum (eða 60 aurum) vaðmála. Ef þessir 60 aurar vaðmála eru metnir til silfurverðs eftir dírleikshlutfalli Jónsbókar (1 : 6), kostar eftir þessu gripurinn smíðaður 10 aura brends silfurs, og verður þá ágjöfin 4 aurar móti 6 aura þunga efnisins, eða 2/3 af verðmæti efnisins.

*B. M. Ó.*

### II. Við ritgjörð Finns Jónssonar: Bæjanöfn á Íslandi.

Bls. 422: Rofabær I *les* R. II
— 430: Draflastaðir hefur Ólavíus og í XV
— 430: Geirastaðir: I falli úr.
— 431: Hárlaugs-: í Alþ.bók. I 375 er nafnið ritað Harðlaugs-
— 435: Stólpa- *les* Stálpa-
— 439: DI. V hefur Bjarna-staði í XV (sjá Bjarnar-).
— $445_{17}$ n.: *les* XII.
— 453: Bjarghús, nú -húsar (sjera Jón Jónsson).
— 460: Eftir DI. X (s. 104) er Rúnuskáli og Tófuskáli hið sama: »Tófa- er sumir kalla Rúnu-«.

Bls. 468: Patrans- *les* Patrons-
— 469 12 n.: Hátún DI. II falli úr
— 471: Kleifárvellir, rjettara Klofár- sbr. DI. IV.
— 473: Andrésfjós er flt.
— 474: Fornistekkr I, Fornustekkar, sjera Jón Jónsson
— 476: Ássel, og í XV Ólavíus.
— 484: Vífilsmýrar, svo og í DI. IV.
— 487: Finnstúnga e. Sölva-, sbr. Safn II 650.
— 492: Arnanes: I falli úr
— 492: Dilknes, nú Dilksnes (sjera Jón).
— 492: Hvalsnes, nú Hvalnes (sami).
— 492: Eftir Álfsnes bætist við: Árnanes I (sami).
— 495: Skíðbakki: Skyr- DI. X (337).
— 509: Jökulkelda *les* Jökla-
— 511: Naustvíkr: DI. II—IV hefur bæði Naustvíkr og Naustvík.
— 511: Garðsvík: afbakað úr Gadds-, sbr. Sturl. og DI. V. VII.
— 514: höfn: ævinlega *les* oftast; höfn getur og þýtt s. s. hagi, og það mun nafnið Höfn í Fljótum þýða (Pjetur Zófóníasson).
— 516: brok merkir líka blöðin á fífu, sbr. Flóra Ísl. 28—29.
— 517: Húshólmi VI bætist við.
— 517: Tvísker, »sumir Kví-« (sjera Jón).
— 519: Valadalr XVI *les* XVIII.
— 520: Þórisdalr: Þórólfs- DI.
— 520: Goðdalir XIV, -dalur DI. IV, en -dalir DI. VI.
— 522 9 n.: Dælir *les* Dæli.
— 526: Giljar II, líka Giljur (1697).
— 529: Bjalla-: *les* orðið merkir hól eða hamar (»hár hamarveggr er nefndr Bjallinn«, Bj. Sæm. í Lögrj.)
— 534: Hörghóll: sbr. DI. IV. V.
— 539: Rauðafell er s. s. Raufar-; sbr. DI. V, IV og VII (hjer Raufa-).
— 540: Skálafell V(L) *les* VI(L).
— 546: Emmuberg: Í Árb. Esp. II, 43 er ritað Ymja-.
— 546: Hamrar I (e. Hamar): e. Hamar falli úr
— 554: Sviðholt er víst f. Sviða- (sbr. Þjóðsögur II 76); Sviði mannsn.
— 554: Stúfholt: Stúfa- DI. II
— 566: Hraunkrókr *les* Hrunakrókr
— 568: Útverk er flt.
— 571: Ausa, XII *les* Ausa VII.
— 573: Snússa, Snútr, líklega sama (Magnús Helgason)

Frá hr. Birni Bjarnarsyni í Grafarholti hef jeg fengið ýmsar athugasemdir, sem jeg hjermeð þakka. Eftir tilvísun hans er Flóðatángi (s. 488) rjettara en Flóa- (»af Norðurár-flóðum«),

Oddageirsnes (s. 493) heiti nú Oddagerðis-, og er það fult eins líklegt nafn; Súlu- (s. 494[3]) af fuglsnafninu (þar »er enn bústaður hennar«, súlunnar); Veðrará (s. 497) er ef til vill ekki samsett með á (heldur Veðra-rá, rá = horn, krókur; »í fjallshorni«); Borgarey (s. 515) »af klettaborg á eynni«; Selskarð (549) »Selsgarður óefað; ekkert skarð«. *F. J.*

### III. Við ritgjörð Boga Th. Melsteðs: Ferðir, siglingar og samgöngur.

Bls. 598, lína 3 a. o. hjer bil, *les* hjer um bil.
— 605, l. 10 a. n. sögu Eglu, *les* sögn Eglu.
— 633, l. 11 a. o. óeyrinn, *les* óeirinn.
— 664, l. 4 a. o. er, *les* en.
— 731, l. 16 a. o. Einn þeirra setti munkalífi í Bæ o. s. frv., *les* Einn þeirra kendi í Bæ í Borgarfirði og ljet þar eptir sig þrjá munka; annar o. s. frv.
— 734, l. 6 a. n. upp, *les* uppi.
— 745, l. 4 a. n. í aths. *bætist við* á eptir »heldur«: en í Ldn. $^{8}/_{87}$, Stb. $^{76}/_{149}$, er víg Gjafvalds nefnt.
— 793, l. 4 og 5 a. o. er hafi tvíprentað.
— 799, l. 21 a. o. margfrður, *les* margfróður.
— 811, l. 4 a. n. í 3. aths. Hkr., *les* Hksb.
— 905, l. 6 a. o. aivinnuvegur, *les* atvinnuvegur.
— 907, l. 11 a. o. Alexandir, *les* Alexander.

Á bls. 888, 4. aths., hefur mjer gleymst að geta þess að frumritið af Bræðralagsbókinni í Eynni auðgu (Reichenau) hefur fundist, og hafði jeg þó lesið grein dr. Augusts Gebhardts um það, er hún kom út í »Aarb. f. nord. Oldkh.« 1909, bls. 332—35. Jeg varð að fara til Íslands í sumar áður en lokið var við prentunina á ritgjörð minni; en dr. Kr. Kålund minti mig á grein dr. Gebhardts, er hann hafði lesið ritgjörð mína, og þakka jeg honum fyrir það.

Frumritið af Bræðralagsbókinni er nú geymt í Kantonbókasafninu í Zürich, merkt Hist. 27. Það hefur einhvern tíma verið flutt frá Reichenau til Rheinau-klausturs, skamt fyrir neðan Schaffhausen, en eigi er kunnugt hve nær það var eða hvernig það hefur atvikast. Rheinau- eða Ríneyjarklaustur var afnumið 1862, og þá var handritið látið í bókasafnið í Zürich.

Frumritið af Bræðralagsbókinni, »Confraternitates Augienses«, gaf síðan *Paul Piper* út ásamt öðrum samskonar handritum í sjerstöku bindi af hinu mikla ritsafni frá miðöldunum »Monumenta Germaniae historica«, og heitir það bindi »Libri confraternitatum Sancti Galli Augiensis Fabariensis«, Berlin 1884. Bræðralagsbókin úr Eynni auðgu er þar prentuð á bls. 145—352. Frumritið er 163 bls. Mannanöfnin eru rituð í dálka, svo að

venjulega eru 4 til 6 dálkar á hverri bls., og alls eru 677 dálkar í bókinni. Útgáfan er nákvæm, og hver blaðsíða í frumritinu er prentuð fyrir sig með sömu dálkaskipun sem í því. En við að nota útgáfu þessa, verð jeg að líta öðru vísi á íslensku nöfnin, en gert verður eftir útgáfu þeirra í »Antiquarisk Tidsskrift« 1843—1845 bls. 74 og í Íslensku fornbrjefasafni, I, 170—172.

Á bls. CLIX í frumritinu, bls. 348 í útgáfunni, er Ísland nefnt. Á þeirri bls. eru þrír dálkar, og stendur efst á bls. í fyrsta dálki:

»Hislant trad.
Keiloc
Curmaker
Arnur
Wigedies
Mar Williburg
Wimunder
Zurarin
Gulzenna
Gudemunder
Zurrider
Zurder Stenruder«

Svo byrjar ný hönd og útlend nöfn í 13. línu þar á eptir í dálkinum. Þetta eru að eins 13 manna nöfn, og um þá er sagt, að þeir hafi sagst vera frá Íslandi. Útgefandinn segir að nöfn þessi sjeu rituð með hendi frá 12. öld. Það er því líklegt, að þetta hafi verið að eins einn pílagrímahópur af Íslandi, menn, sem hafa orðið samferða suður og gist í klaustrinu í Eynni auðgu.

Hin 26 nöfnin, sem hafa verið talin íslensk (í Fornbrjefasafninu eru þau 25, af því að 35. nafnið, Zure, hefur fallið burtu), standa efst í 3. dálki og eru þau rituð með nýrri hendi. Nafn Íslands er eigi við þau, enda eru sum þeirra ekki íslensk. Aptur á móti eru þau af Norðurlöndum. Alls munu vera taldir um 600 manna af Norðurlöndum í Bræðralagsbókinni, en engin nákvæm rannsókn hefur enn verið gerð um þetta; má vel vera að nöfn einhverra Íslendinga sjeu á meðal þeirra, en um það vita menn ekki enn með vissu, og efasamt hvort nokkurn tíma fæst áreiðanleg vissa um það. *B. Th. M.*

# Skrá

yfir fyrri liði í samsettum íslenzkum bæjanöfnum í ritgerð Finns Jónssonar: Bæjanöfn á Íslandi.[1])



1) Síðari liði og ósamsett nöfn má finna í »Flokkatalinu« á bls. 584 og á 571.—576. bls. Fyrri liðir í sambandi við *-staðir* eru greindir á bls. 429—450 og eru ekki teknir með. Ekki þótti heldr ástæða til að taka i þessa skrá þau samsett nöfn, er finnast hin merkustu i stafrófsröð í VI. og VII. kafla ritgerðarinnar (bls. 577—583). — Þeim fyrri liðum, sem hafðir eru til að greina tvo eða fleiri bæi hvern frá öðrum, t. d. austr, vestr, efri, neðri, mið, litli, stóri, minni, stærri o. s. frv., er sleppt.

# Registr

yfir mannanöfn o. fl.[1])



1) Registr þetta nær ekki yfir ritgerð Finns Jónssonar: Bæjanöfn á Íslandi (bls. 412—584).

1) Jónsd., rangt.

1) Á bls. 762 er kona Einars þambarskelfis nefnd Berg*þóra* Hákonardóttir, en hún hét Berg*ljót* (sbr. bls. 605).

1) Það getr eigi hafa verið hann, er andaðist 1672, því að hann lifði lengi síðar, heldr mun lát síra Bjarna Jónssonar á Þönglabakka vera hér endrtekið.

1) Á bls. 144 stendr svo: »Brynjólfr Steingrímsson sonur síra Bjarns á Staðarstað«, sem mun vera eitthvað málum blandað.

1) Hann var Ólafsson (sbr. Prestatal Sv. N.), en ekki Sigmundarson, eins og stendr á bls. 118.

1) Narfason, Esp. Árb. VI, 135.

[1]) Hún hét Elín, sbr. m. a. Bisk. II, 368, 391, Smæf. I, 521.

1) Sbr. Esp. Árb. VII, 60.

1) Ekki Leppr, sbr. Sturl.[3] I, 107, 422.

1) Sbr. Sturl.[3] I, 422, en ekki Leppsson.

1) Getr verið sami maðr.

1) Sbr. Sturl.[3] I, 55, en ekki á Skeggjastöðum.

1) Þar er prentvilla, »Óskapsson« f. Óspaksson.

1) Í Snæf. I, 58, III, 441, er hún nefnd Guðlaug.

1) Í Sturl. er hann nefndr Þórálfr.
2) Er prentvilla í stað Þjóðólfr, sbr. Glúm. ¹⁴/₃₂.
3) Þorláksson (á bls. 124), sem er rangt.

# Registr

yfir staðanöfn.[1])



1) Í þetta registr eru ekki tekin nöfn úr ritgerð Finns Jónssonar: Bæjanöfn á Íslandi (bls. 412—584).

[1] Á að vera Hraun á Eyrarbakka.

1) Þar er Klifa- prentvilla í stað Kleifa-.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

## AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

## HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

**IV. 1.**

**KAUPMANNAHÖFN.**

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

## AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

IV. 2.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

## AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.**

**IV. 3.**

**KAUPMANNAHÖFN.**

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

## AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

IV. 4.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

## AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.**

**IV. 5.**

**KAUPMANNAHÖFN.**

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLEŇZKRA BÓKMENTA

## AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.**

IV. 6.

KAUPMANNAHÖFN.
PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

## AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

IV. 7.

KAUPMANNAHÖFN.
PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NÝJU,

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI

IV. 8.

KAUPMANNAHÖFN
PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NYJU

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI

IV. 9.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

